# Huſs-Poſtilla,

EDUR

EINFALLDAR

# Predikaner

Yfer øll Hatijda og Suñudaga Gudſpiøll
Ared um̃ Kriing.

Giørdar Af

Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Saal. Biſkupenum
Yfer Skaalhollts Stifte,

Mag. Jone Thorkelsſyne
VIDALIN.

## Fyrre Parturen.

Fraa Fyrſta Suñudege i Adventu, Til Trinitatis
Suñudags.

EDITIO VII.

Prentud aa Hoolum i Hialltadal,
Af Halldore Erikſſyne, Anno 1750.

HINNE

Dijrkeyptu JEsu Christi Brwde

# Christelegre Kyrkiu

GUDS

I ISLANDE,

Miñe Hiatkiærre Modur / Oska eg Fridar og Heilla

Af sijnum Uñusta.

## Elskulega Mooder

ÞAD er bæde Guds Bod og vidteked hiaa ollum Þioodum, ad Børn ern skylldug ad ala Forelldra sijna, ef þau gieta. Eñ Faatækur er eg og Vanburda til þess Mooder ad ala þig, jafnvel þoott ad aungvum af Sonum þijnum sie þad skylldara eñ mier, Þu ert og ecke i þvi mijns Lids Þurfe, þvi Fader þijns Elskuga eg allra hñs Brædra, hefur Enda bunded aa sijn Heit, er ritud standa hia Esajam i Fertugasta og Nijunda Capitula. Konungarner skulu vera þijner Fooster Fedur, Og þeirra Hofdings Kviñur þijnar Fooster-Mædur. Hvørs Naaduga Fyrerheitis ad þu ert orden Hluttakande, Eins vel og hvør Þiood i CHRISTeñdoomenum, Og i Krapte þessa Fyrerheites hefur hañ giefed þier, epter Raadstøfun Konunga vorra, marga Gudhrædda og Vijsa Kieñendur og Forstioora, sem vaka yfer Saalum Barna þiña. Eñ þoott eg sie þeirra Veikastur, og kuñe ecke miklu vid þeirra Verk ad bæta, Samt veit eg Skylldu mijna ad þocknast þier i þvi eg kañ og maa, epter þeirre Naad sem Gud hefur giefed mier. Eg les i Exodi Bookar Þritugasta og Fimta Capitula, Ad þegar Gud baud Moysi ad laata giera Vitnisburdar Tialldbwdena, þa hafe hañ skipad, ad til heñar skylldu leggia hvør eirn epter þvi sem þeir siaalfkrafa villdu, Sumer Gull, sumer Sylfur, sumer Kopar og dijrmæt Klæde og Steina, eñ adrer Geitar-Haar og Hrwta-Skiñ, med ødru fleira sem þar uñ gietur og var i miña

Bylldi

Gyllde. Medal þeirra Stijdurstu reikna eg mig, og maa vel reikna, Sokum Faafrædis mijns og Overdugleika, Eñ fyrer þvi ad eg veit, ad þiñ HErra aaliitur meir Viliañ eñ Maatteñ, þa voga eg ad biooda þier epterfylgiande Predikaner i Þacklætis Myñing, ad eg hafe leiged, og ligge eñ nu aa Briooftum þier. Þigg þvi Mooder þeñañ lijteñ Skeink af hinum Aumasta Þienara þijns Brwdguma, og þijnum Miñsta Syne, Sem vill aastunda ad fiñast.

Skaalhollte,
Þañ 7. Augusti,
Año 1717.

Honum Trwr, Og þig
Af Hiarta elskande allt
til Daudans.

Jon Thorkelsson
Vidalin.

## Til Lesarans.

Epter þvi ad Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Herra Biskupenum, Hr. Steine Jonssyne, hefur Naudsynlegrar Ordsakar vegna þocknast, ad laata setia þær Citatiur sem aa Spatiuñe stoodu i þeirre skrifudu Book, sem þesse er preutud epter, iñ i Predikanernar, Þa vil eg hafa Lesarañ hier med advaradañ, ad nær þessar Predikaner Openberlega Lesnar eru, þa skule hlaupa yfer Citatiurnar, so þær ecke lesnar sieu. Citatiur eru ei giørdar til þess, ad þær skule Lesast i einnre Predikun, Þvi þær uppehallda Lesarannm, og giøra Lestureñ Laangsamañ, helldur til þess, ad hvør sem vill, kuñe ad siaa epter þvi sem Citerad er af Ritninguñe, og bera þad samañ, þegar hañ Les wt af fyrer sialfañ sig. Þetta synest mier Naudsynlegt ad gieta uñ vid þaa sem Lesa þessa Book. Befalande alla Lesendur og Heirendur hier med, Guds Heilags Anda Adstod og Upplijsingu.

Og vil alltijd fiñast epter Skylldu miñe,

Skaalhollte,
Dag 9. Martij,
Añø 1718.

Þeirra Viliugur Þienare
J øllu þvi sem mier er af
Guds Alsu tiltrwad.

Jon Vidalin.

## Añar Formaale til Lesarans.

HVert þad Lands-Platz, Sem noog Vatn og Vøkva hefur, er hid feitasta og hid Rijkasta af Avøxtunum. Fyrer þeirre þurru Jørd hefur Akurmadureñ hid stærsta Ervide og margfallda Mædu, eñ lijteñ Aviñing af heñe. Þar sem Guds Audleger Bruñar framfliioota, verda Saalernar Avaxtarsamar og Gude þægelegar: Bruñur Vitskuñar er Ord hins Hæsta Guds, og þad eilijfa Bodord er heñar Uppspretta, Syrach. 1. Cap. Allt þad Vatn, sem framreñur af þessum Bruñe, Er lifande Vatn, þviad Guds Ord er Ande og Lijf, Jaa, Ord þess eilijfa Lijfsens, Joh. 6. Af þessum Hiaalpræsesens Bruñe uppausa Naudþyrstar Saaler Vatned med Fagnade, Esa. 12. Þetta Huggunareñar Vatn framflijtur af þeirre Andlegu Jerusalem, i allar Atter moot Austre og Vestre, Sumar og Vetur, Zach. 14. Vatned Bethesda var upphrært af Einglenum, sem i þad nidur stie, og hvør sem þar fyrstur stie nidur i þad, epter þess Hræring, vard heill af hvøriuin hellst Siwkdoome, sem hañ var halldeñ, Joh 5. Heilagur Ande hrærer Bruñ Gudlegra Orda, fyrer Eingla Fridarens, sem ad eru Utvallder Ordsens Þienarar aa Jørduñe, og langar i hønum siwk og saurug Mañaña Hiortu, af

[illegible]orium þeir Truwudu hafa alla Avaxtarseme til þeirra goodu Verkana, skiptande serhvørium [illegible] [illegible]vi sem han vill, 1. Cor. 12. Af hvørium þeir einnen ødlast Heilbrygde Saalarennar og allra [illegible] [illegible]uwkdooma, þviad hvørke Jurter nie Plaastur lækna þaa, helldur þitt Ord DRottenn, Seim [illegible] [illegible]lla Hlute, Sap. 16. Pier kiemur nu fyrer Siooner, þu Christelege Lesare, Ein Ny Hwss [illegible] [illegible]la, Giørd og samanskrifud af Vel-Edla, Vel-Eruverdugum og Hæ-lærdum Biskupenum yfer S[illegible] [illegible]olts Stipte, Mag. Jone Thorkelssyne Vidalin, og af hønum tilskrifud og dedicerud Guds Ch[illegible] [illegible]e i þessu Lande, aa hvørrar Brioostum han siaalfur i sijnu merkelegu Skrife til hennar jaatar sig l[illegible] [illegible]afa, og enn nu liggia, Og so ad hun, er han hefur aled, skule ecke siaalf Purrbriooshad vera, [illegible] [illegible]kort lijda, forsorgar han hana nu aptur med þeirre hreinn og Oforsilldu Mioolk Guds Orda af [illegible]orre hun skule eflast og Upphellde hafa, epter þad hun hefur smackad hvad DRottenn er sætur [illegible] [illegible]el 2. Eige þarf þesse Book med minnar Hroosunar, þvi hun ber siaalf med sier, nær hun er Athuga[illegible] [illegible]mlega lesenn, sinn Lofstijr. I henne er veitt inn til þijns Hiarta hreinum Vatns-Rennum Gudlegra [illegible]enninga, hvøriar sa Helvijtiske Holofernes kann ecke ad upphøggva, so sem sa Jardnese giørde hia [illegible]orgenne Bethulia, Fordum Daga, Judith. 7. I henne sier þu, Christenn Lesare, wtflioota af þeir[illegible] Himnesku Hiaalpræðesins Hellu, Guddoomlegar Hugganer, til ad svala hier i Angist þijns Hiar[illegible] [illegible]a, Psalm. 119. I þessare Book virdest mier, þeir sem fallner eru, Sien med Guds Ordi aa Fæt[illegible] [illegible]e reiser: Peir Vanmaattugu styrkter: Peir Pverbrotnu Syndarar Gudlega aaminter og til Chri[illegible] [illegible]gra Dygda aaeggier og uppvakter: Peim sem fyrer Daudanum liggia, vijsadar Vegurenn til Lijf[illegible] [illegible] Og i einu Orde ad seigia, Er hier, þu goode Lesare, kient allt þad sem þig Naudsyniar umm, til þinnar eilijfrar Saaluhiaalpar. Laat þar fyrer, Vinsamlege Lesare, þessa Book, vera þitt Lioos og Leidar[illegible]ijter, epter hvørium þu gaanger wr Egypta-Lande þessarar Veralldar, inn i þad Himneska Can[illegible] [illegible]aan. Eg vil med Audmiwkre Bæn, epter minne Skylldu, styrkia þig aa þessare þinne Vegferd aa Rei[illegible] [illegible]u, og Daglega bidia, ad Gud Myskunsemdanna hiaalpe þier og mier, so i vorum Christenndoome ad framhallda, ad vier aller verdum samansafnader til Guds Songar Hægre Handar aa Efsta Deige, Og vil alltijd finnast, minn Christenn Brooder, þinn Einlægur Fyrerbidiare til Guds, og Pienare. Skrif[illegible] ad aa Hoolum i Hialltadal, þann 18. Aprilis, Anno 1718.

Stein Jonsson.
Sup. Hol. St.

# Bæn fyrer Predikun.

Pu Stoore Konungur allrar Veralldarennar, sem byr i þvi Lioose er einginn fær tilkomest: Vier synduger Ormar skrijdum aa þessare Blessadre Stundu upp wr voru Dupte framm aa Skor þinna Foota, til ad Fridmælast vid þijna Guddoomlega Hatign, er vier med saurugum Verkum og Illgiordum vorum so þraalega moodgad hofum allt i fraa Barnæsku vorre. Enn æ oss DRottenn, vier erum so vanmegna under Byrde Syndanna, ad þegar vier gyrnunst ad [illegible]pta oss uppi Hæderna til þijn, þa draga vor eigenn Saurende oss nid[illegible] [illegible] aptur. Pu hefur ad sonnu fyrergiefed oss margar Synder, og sparad [illegible] midt i þeim allt aa þennan Dag, Enn vort Hiarta skielfur i oss og kvijder [illegible] þijnu straanga Riettlæte, nær vier til þess hugsum, ad vier þverbrot[illegible] [illegible]ar Mannesklur hofum so laangsamlega forsmaad þijna Myskunseme og siaalf-

sialfer Oniitt so marga Kvittun vorra Synda, er vier þeiged hofum, med þverwdarsamlegre Idkun sömu Glæpa og Illgiorda. Hvørt skulum vier þa flya undañ þiñe Hende? Þu uppfyller bæde Himen og Jørd, Eñ þijn Myskunseme er eins stoor og þu sialfur, Hun hefur øllum þeim vel giefest sem heñar med bliwgu Hiarta og sundurknosudum Anda leitad hafa, Og ef vier sem erum Hey-Stræ, meigum ecke snerta þig, sem ert eirn fortærande Elldur, þa leif oß ad skrijda ad Sonarens Footum, sem er Holld af voru Hollde, og þvo þær i Taarum vorrar Ydranar. Eñ æ vor Gud, Vier vitum ad hañ er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem kramed er: Hvad kañ þad oß ad gagna ef vort Hiarta er heillt? Ef þad er hardara eñ nockur Steirn? Þvi Grætbænum vier þig, fyrer hañs dijru Kvøl og Bloedugar Under: Slæ þu O HErra æ þeñañ harda Klett med Moyses Sprota, so ad Vatns-Straumarner, Jaa, eitt breñande Vatns-Flood meige spretta þar wt af, til ad þvo vorar Obreinar Samvitskur: Lææt eirn glooande Anda breña upp allt Sorp añarlegra Paanka wr voru Hiarta, sem er þitt Mustere, so þijn Ord fære Rwm þar iñe. Lææt oß ecke heyra þad so i Dag, ad þad fordæme oß æ sijdarsta Dege, heilldur gief ad þad verde Epterlæte Saalna vorra: Lææt þeß Sætleika burtdrijfa allt Toomlæte og Gæleyse fra oß, so vier vardveitum þad i goodu og Sidsömu Hiarta. Þeß bidium vier þig fyrer JEsum Christum þiñ Son med hañs eigeñ Bæn, Seigiande, Fader vor, etc.

## Bæn epter Predikun

Þu Hæleita Guddoomsens Preñing, Eirn Gud og sañur fra Eilijfd til Ellijfdar: Vier aumer Syndarar liggium hier flater fyrer Auglite þiñar Hætignar, til ad offra þier Packlæte vors Muñs fyrer þijnar Owtseigiañlegar Velgiørder, er þijn millda Orlætes Hond oß Opacklætum og Yverbrotnum Mañeskium audsynt hefur, bæde i Andlegañ og Lijkamlegañ Mæta; Eñ æ oß DRotteñ, vier erum so kallder i Bæneñe, ad vier Ottast meigum, ad þu villter sirpa oß wt af þijnum Muñe, nema þu vermer vor Hiortu. O Vor Gud, Lææt þiñ gooda Anda, bidia æsamt vorum Anda, med Ouumræde-legum Andvorpunum, So ad þier lijka mætte Foorn Vara vorra fyrer JEsum Christum. Vier þøckum þiñe Guddoomlegre Elsku fyrer þitt H. Ord, og þau Hæleitu Sacramenta, æ hvørium þu foostrad hefur og

nært vorar Saaler, ad ei skylldum vier wt af sofna i Daudanum. O vor Gud! laat vorar illar Athafner, Vort Gaaleyse og Opacklæte, alldrei þvi vallda, ad þu svipter oss þessare Himneskn Gaafu.

Gief ad þitt Ord, sem vier i Dag høfum heyrt og numed, meige bloomgast i Hiortum vorum, so ad þad fære þañ Avoxt er syne sig, bæde i Ordum og Verkum, so þitt Haaleita Nafn vegsamest i oss, hvoria þu virdest ad nefna þitt Foolk og Eigeñdoom. O DRotteñ, vort Hiarta er þitt epter Riette Skøpunareñar, Endurlausnareñar og Helgunareñar, þad er þijn Kyrkia, Eñ Heimureñ, vort Holld, og Diøfulleñ, gyrnast ad festa siñ Foot þar iñe, og æ þvi verr, ad þad tekst þeim framar, eñ vier glarnañ villdum: O vor Gud, yferfall þau med þiñe Magt, og tak þijna Eign af þeirra Hende, so ad þijner Oviner brixle ecke þijnum Her-Flockum. Þu Vollduge Kønungur, sem ert Sterkur og Maattugur i Strijde, laat þiñ Guddoomlega Krapt þiña Heiløgu Orda verda so rijkañ i Hiortum vorum, ad oss velge vid Syndeñe, so sem añare Opeckt. Gief þu ad Myñing þiña fornu Glæpaña verde oss so skielfeleg, ad oss hrylle vid þeim, so sem añare Ofreskiu. Gief oss ad temia vor Hiortu, vora Tungu og Eyru æ þad sem æ ad vera sijdañ vor ædsta Glede og Epterlæte i Dijrd Himnaña, sem er þijn Elska, þijn Jhugan, þijn Lofgiørd og Þacklæte fyrer þijnar Guddoomlegar Daasemder æ medal vor, og veit ad vier legglum hid mesta Kapp æ, ad frañkvæma þad i Verkunum, sem vier þeinklum i Hiartanu, tølum med Muñenum og heyrum med Eyrunum, ad ei gaungum vier i þeirre Blindne, ad hafa Skyn Gudhrædsluñar, eñ afneita heñar Krapte.

O þu Stoore Konungur Himens og Jardar, vardveittu þiñ Smurda, vorn Allra-Naadugasta Arfa Herra og Konung, Hañs Haabornu Drottningu, og vorn Naaduga Arfa-Printz, og allt þad Konunglega Hws. Vertu Konungsens Skiølldur og Sool, og eitt orugt Vijge æ moote øllum hañs Ovinum. Laat Hañs Rijkes-stioorn farsæla verda, og gief hønum laanga Lijfdaga: Umgyrd Hañs Tignar Stool med Hersveitum þiña Vollduga Eingla: Gief Konungenum Hlijdna, Trwa, Drugga og Naudholla Undersaata: Laat Hañ so stioorna i þijnu Umbode, hier æ Jørduñe, ad hañ meige Eilijflega med þier rijkia i Himneaum. O Herra Jesu Christe, þu sem ert hiñ mikle Hyrder Saud

aña,

aña, fyrer Blood þeſs Eilijfa Teſtamentes, Vardveittu Kieñendur Ordſens þijna Pienara, Laat þa alldrei gleyma þvi, ad þeir eiga þier Reikning ad ſtanda, fyrer þitt Dijra Blood, med hvoriu ad Endurkeyptar eru þær Hiarder, Er þu hefur ſett þa yfer, Eñ vert þeirra Vernd og Forſvar, a moote Ogudlegum og Ohlutvøndum Møñum, nær þeir giora Verk ſiñar Kallanar trwlega: Og trod Andſkotañ under þeirra Fætur. Vor Gud, ſtioorna þu Valldſtietteñe, og þeim er i Doomunum ſitia, Upplijs Hiørtu þeirra, ad þeir ſkilie Rietteñ, og gief þeim Vitſku til ad Dæma þitt Foolk, med Vilia og Aſtundan ad giora þar epter. Tak ad þier O Gud Hwsſtioornar Stiettena, Laat øll Egta-Hioon Elſkaſt Iñbyrdes i Falslauſum Kiærleika, og uppala ſijn Børn og Hiw i Aga og Umwondun til DRotteñs, Eñ Børnum og Hiwum hlijdeñ og audſveip Hiørtu, ad þau ſieu Forelldrum og Hwsbændum undergiefeñ i øllu þvi er þeim epter Guds Orde og Lagaña Skylldu tilſagt verdur.

O DRotteñ, aňaſt þu alla þa ſem Naudſtadder eru, og bera þijns Son ar Kroſs a Herdum ſier, Væg þeim vor Gud fyrer hañs Skulld ſem lided hefur, uppa þad, hañ kyñe ad hiaalpa þeim ſem freiſtadur er. Um alla Hlute fram Grææthbænum vier þig Himneſke Fader, Forlaat oſs vorar Bloodugar Illgiørder og Synder, Fyrer IEſu Chriſti ſaaru Kvøl og Pijnu. Miñſt þeſs, ad hañ fyrer oſs i Daudañ er wtgiefeñ af þiñe Guddoomlegre Elſku, þegar vier eñ þa vorum þijner Ovlner. Virdſtu þar fyrer ad gleyma vorum Yfertrodſlum, Fyrer hvøriar hañ Fullnægiu giørt hefur, Par vier fyrer hañ og i honum erum Børn ordner, Og nær vor Æfe er ad Protum komeñ vor Gud, og vier liggium fyrer Daudans Porte, horfande fram a Veg allrar Veralldar, Rietk oſs þa þijna Milldu Hend vor Gud, Og laat oſs deya med vorn Endurlauſnara i Fadmenum, So vier meigum Eilijflega med þier og honum lifa. Bæn. heyr þetta Naaduge Gud og Fader fyrer IEſum Chriſtum, I hverium allar vorar Bæner eru Iaa og A M E N.

* * * * * *
* * *

Fyrſta

# Fyrsta Suñudag i Adventu, Gudspialled skrifar Matthæus i 21. Capitula.

Y Þañ Tijma. Og þa er þeir tooku ad nælgast Jerusalem, og komu til Betphage vid Fialled Oliveti, Utsende JESUS Tvo sijna Læresveina, Og sagde til þeirra: Fared þid i þad Kauptun sem gagnvart ydur er, Og strax munud þid fiña Ösnu bundna og Folañ hiæ heñe, Leysed hana og leided til mijn. Og ef einhvør seiger nockud til yckar, Pa seiged, þad HErrañ hafe þeirra Þorf, Og jafnsnart mun hañ læta þaug laus: Eñ þad skiede so, ad uppfylltest hvad sagt er fyrer Spæmañeñ, Er so seiger: Seiged Doottureñe Zion, Siæ, Þiñ Kongur kiemur til þijn hoogvær, sitiande æ Ösnu, og æ Fola Klifbærrar Ösnu. Eñ Læresveinarner geingu i burtu, og giørdu so sem JEsus baud þeim, og leiddu med sier Ösnuna og Folañ, og løgdu sijn Klæde yfer þaug, og settu hañ þar uppæ. Eñ margt Foolk breidde sijn Klæde æ Veigeñ. Og adrer hiuggu Kvistu af Triæñum og dreifdu þeim æ Veigeñ. Eñ þad Foolked sem fyrer þeim gieck, og Epterfylgde, Kallade og sagde: Hosiaña Syne Davids, Blessadur sie sæ sem kiemur i Nafne DRotteñs, Hosiaña i hædstum Hædum.

## Exordium.

I Pistlenum til Phil. 2. Kiemst Heilagur Paulus hañeñ ad Orde: Vered eins Lynder og JEsus Christus, hvør þoott hañ være Guds Mynd, hiellt hañ þad ecke fyrer Herfang ad hañ Gude jafn var, helldur lijtelæckade hañ sialfañ sig, takande æ sig Præls Mynd, og ordeñ Moñum lijkur. Postuleñ seiger, hañ hafe þad ecke fyrer Herfæng reiknad, þoott hañ Gude jafn være. Peir ed Herfæng teked hafa; stæra sig þar af, brwka þad til Yferlætis, giora þar af forkostuleg Sigurmerke, breita vid þæ Herleiddu sem þeim lijkar: So þad var Mæls-hattur hiæ Grickium, ad hallda þañ Hlut fyrer Herfæng, er einhvør brwkade Rijkmañlega. JEsus brwkade ecke þañveg Guds Mynd þoott hañ være alls rædande, bæde æ Himne og Jordu, Matth. 28. Samt hafde hañ ecke Valld sitt vid yfer aumum Mañeskium, hvoriar hañ var komeñ ad Endurleysa af Myrkraña Vallde, helldur giordest þeim lijkur, Jæ, þeim Undergiefeñ, þolde Mootlæte og alls-

konar

konar Hardungar af Syndurnum, er hañ med Andvirdingu þessare Endurkeypte vor Syndareñar Prældoome, og hiellt ecke Guds Mynd Herfang ad vera, so hañ med siñe Pioons Mynd, fienge Herleidinguna ad Herfange teked, Ps. 68. Eñ afklædt hiñ sterka Hervopnada Diöful siñe Harneskiu, Luc. 11. Og med Hleckium Myrkraña fiotrad, 2. Pet. 2. Þegar Satan took vora Fyrstu Forelldra til Fanga i Paradijs, og i þeim alla þeirra Epterkomendur, þa talde hañ þeim Trw um þad, ad ef þau æte af Eplenu, mundu þau Gude lijk verda, Gen. 3. Eñ þau hlyddust a hañs Slægdarfullar Fortolur, topudu þvi Guds Mynd, eñ giordust Fiandanum lijk hvorium þau framar hlijddu eñ Gude, og fyrer þetta Ran Guds Myndar, took JEsus uppa sig Pioons Mynd, og hiellt þad ecke so sem Ran edur Herfang þott hañ Gude ja'n være. Eñ þott ad vor Frelsare ecke brwkade sijna Almættis Tign i Mañdoomenum, medañ hañs Lægingar Tijme yferstood hier a Jordune, þa hefur hañ samt eitt añad Rijke af Gude og Fodur, sem er hañs volldug Stioornan i Christelegre Kyrkiu med Ordenu og Sacramentunum: Þar um talar so David ũnder Guds Persoonu. Eg hefe smurt miñ Konung og sett hañ yfer mitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Eñ þoott ad Guds Rijke kome ecke þañveg, ad þad adgiætt verde, so sem HErrañ segier, Luc. 17. Þa siaum vier þo nockra Lijking þess edur Skugga i þessa H. Dags Evangelio, þar ed JEsus rijdur iñ til Jerusalem so sem eirn Konungur, ecke einasta til ad uppfylla Spadoom Zachariæ, hvørs hier giæted verdur i Gudspiallenu, og þañeñ hlioodar, Zach. 9. Seiged Doottureñe Zion: Sia Piñ Kongur Kiemur Til Pijn Hoogvær, Sitiande a Ösnu Og a Fola Klifbærrar Ösnu. Helldur til þess ad afreka og wtvega sijna Christelega Kyrkiu, sem er eirn Konungle zur Kieñeimañskapur, og þad med sijnu eigeñ Bloode, hvar um Esajas spaer, Cap. 62. A þeñan Hatt; Siaed DRottiñ hroopar allt til Enda Jardareñar, Seiged Doottureñe Zion, sia þitt Hialpræde kiemur. Og sokum þess, Born mijn, ad þetta Hroop hefur og heyrst til vor, sem ad bwum a Enda Veralldareñar, og oss verdur asamt odrum þetta Hialpræde bodad, Þa latum oss af þessu heilaga Evangelio yfervega i þetta Siñ, hvilijkum ad þessa Konungs Undersatum byrie ad vera. Gud Fader Myskunsemdaña giefe oss Nad sijna þar til fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Eir munu ecke aller sem til mijn segia, HErra, HErra, Jñganga i Guds Rijke, segier JEsus, Matth. 7. helldur þeir sem giora Vilia mijns Fodurs sem a Himnum er. Marger munu þeir vera i Safnade Christs hier a Jordune, sem eins eru lynder og Judar fordum Daga, er sogdu: Vier vilium ecke lata þeñañ Drottna yfer oss, Luc. 19. Þo er Christur allra þessara Konungur, þvi aller vill hañ ad hoolpner verde, og kemist til Sañleiksins Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Eñ so sem þad, ad eirn Konungur, hañ er Konungur bade þess er hañ lætur under Sig draga veg-

ra Glæpa sïña, so sem hiñs er hañ setur sier a Hægra Veg; So eru og bæde Vonder og Gooder i Christi Rijke, og hañ drottnar eins velyfer þeim, til hvørra hañ vill segia a Efsta Deige, Fared fra mier aller Illgiorda Meñ, Matth. 7. So vel sem hinum, er hañ kvedur þessum Ordum: Komed blessader mijns Fødurs, og eigneft þad Rijke sem ydur er fyrerbwed i fra Upphafe Veralldar, Matth. 25. Jafnvel þoott ecke lœte þesser hverutveggiu sier eins stioorna af Anda DRottens. Hvad byriar ofs þa hier uñ ad þeinkia Guds Born? Eg meina ad lata ofs umhugad vera, ad lwka þessum Konunge Skylldur þær sem hañ af ofs heimtar, Og er sw hellsta, ein audmiwk Hlydne. JEsus baud siinum Lærefveinum, ad fara i þad Kauptwn sem gagnvart þeim var, þar mundu þeir fiña Ósnu bundna og Fola hia heñe, þau skipade hañ ad leisa og leida til siin. Þeim hefde matt til Hugar koma, ad ei være Skipun þesse svarleg, þeir mundu Arasum mæta, ef þeir tæke svo añara Maña eigur O-adspurt, eñ þeir fast ecke uñ þad, helldur giora sem þeim boded var. Giør slijkt hid sama Christeñ Madur, lat einskis Bod edur Bañ vera þier jafntskyldt sem þijns Guds, Hlijdne er betre eñ Offur seiger Ande DRottens, 1. Sam. 15. Heyr hvad hiñ Eingietne Sonur Guds seiger, þegar hañ iñkiemur i Heimeñ, Psalm. 40. Offur og Foornfæringar þocknast þier ecke, Eñ mijn Eyru hefur þu igiegnum stwnged, Breñefoorner og Synda-Offur villtu ecke, þa sagde eg: Sia eg kiem, i Bookeñe er skrifad af mier, þiñ Vilia miñ Gud giore eg giarna. Hver Davids Ord, St. Paall til Hebr. 10. heimfærer uppa vorn Endurlausnara. Hafe nu hiñ Eingietne Sonur Fodursins, vered hønum so hlijdeñ, hvor þo med siñe Forþienustu hefur sialfum sier eckert forþienad, hvad miklu framar ætter þu Gude ad hlijdnast, sem hønum ecke einasta Saal og Lijf skylldugur ert, helldur og þar ad auke Otal Tiju Þusund Punda, Matth. 18. og þau so mørg, ad þu alldrei fær hønum loked þañ Sijdasta Pening, ef hiñ Stoore Konungur Himens og Jardar vill Reikning hallda? Hvad þa Christeñ Madur? Muntu ecke uñ alla Hlute fram skylldur hønum ad hlijdnast, sem fyrer þig hefur allt þetta gollded, so Gud hefur uppgiefed alla Skulldena, ad ecke yrde þier kastad i hin Ytstu Myrkur, eñ straffad hañ sem var hreirn og heilagur, og fraskileñ Syndurunum? Hebr. 7. Ja, hañ hefur hañs Eyru i giegnum grafed, eins og Præls þess er ecke villde laus verda a Fagnadar Arenu, Exod. 21. hvørn hañs Hwsboonde matte festa a Eyranu vid siñ Dyrastaf, ad hañ være hañs Præll upp þadañ Æfeñlega. Muntu neita hønum þiñar Þienustu, er þvilijka Smaan hefur lided þier til Frelsis, þar þo Christi Præll ad vera, er einteomis Frelse, og hañs Þienusta, er ollu Herradæme ædre. So þad er sañkveded, er sa Guds Madur orte Fordum: Kong miñ JEsu eg kalla þig, kalla þu Præl þiñ aptur mig, Herra-Tign aungva ad Heimsins Sid, helld eg þar meige jafnast vid. Þvi seiger og Paulus: Þier hafed og ecke medteked Prælkunar Anda aptur til Hrædslu, helldur hafed þier medteked Arfleidsluñar Anda, fyrer hvørn vier kollum Abba Fader, Rom. 8. Eñ ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, Ja Erfing-

ingiar Guds og Samarfar Christi, Rom. 8. Eñ seiged mier: Hvad munu öll Rijke Veralldareñar vera ad reikna vid þad, ad eiga Arfskipte vid hañ, sem Gud ecke alleina hefur giefed Endemork Veralldareñar til Arfleifdar, Psalm. 2. helldur og sett hañ sier til Hægre Handar, Psalm. 110. og mun leggia alla Ovine hañs til Footskarar hönum, 1. Cor. 15. O hvörsu blind er þa Mañeskiañ? Meñ leggia allt Kapp a, ad komast i Tigeña Maña Þienustu, hvar þo Tiju þioona fyrer eins Luckuna Stundum, so margur maa þioona leinge adur eñ hañ kiemst til þess sem þo er i sialfu sier ecke añad eñ Prældoomur, og i giegnum mikeñ Prældoom þrijst Faavitska Mañsins til añars meira, hvar þad geingur optlega miög Andhælis til, so ad þeir sem dyggvaster verdi hafa og Drotteñ hollaster, þeir faa hina verstu Urreid a Stundum, eñ þeir eru i Hæfegum er a Svikraadum sitia, Eñ ad gioerast Hyrdmadur Christi, skeyta faaer um, jafnvel þoott hañs Þioonusta stande öllum til Boda, Þar er ei Gydingur nie Grickur, ecke Præll nie Frelsinge, ei Rykur nie Faatækur, ei Vijs nie Vankuñande fræskileñ, helldur eru þar aller Eitt i Christo JEsu, Gal. 3. Eñ þess er ad giæta, Börn mijn, ad sa sem vill gaanga Christo til Handa, hañ skal ecke Tvijskipta Hiarta sijnu, helldur giefa hönum þad allt. Ecke seige eg þad, ad hvör eirn skule ei þioona i þeirre Kallan, hvar til hañ er kalladur, eda Undergiefeñ skule ei Undergiefeñ vera, Þvi sa sem gioerer Verk siñar Kallanar, hañ þioonar Christo sem þad hefur boded, hañ sem Yfervalldenu hlijdnast; hañ gioerer og Christi Skipan, er sagt hefur: Giefed Keysaranum hvad Keysarans er, Matth. 22. Og hañ sem leitar Næringar siñar med ærlegu Erfvide, hañ hlijder hönum er þad Bodord gaf, J Sveita þijns Andlitis skalltu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Hitt segie eg, ad sa sem vill þessa Konungs Þegn vera, hañ leite fyrst Guds Rijkis, og hañs Riettlætis, Matth. 6. og mete eckert af þessu jafnframt hönum, miklu sijdur hlijde añara Bode edur Fortölum meir eñ hañs. Seiged mier, hefur ei Gud boded ad Forelldrana skyllde heidra hvad mest af Moñum, og lagt Bölvan vid, ef nockur þa vanheidrar? Devt. 27. Eñ þo seiger JEsus, Sa sem elskar Fodur edur Moodur, framar mier, Hañ er mijn ecke verdugur, Matth. 10. Gud hefur skipad, ad Madureñ skyllde yfergiefa Fodur og Moodur, og samteingiast siñe Ekta-Kvinu, Gen. 2. Eñ hvad seiger Moyses hier um? Devt. 13. Ef þiñ Brooder, Sonur Moodur þiñar, edur Sonur þiñ, edur Doottur þijn, edur þijn Eigeñ Kona, sem hvijler i þijnu Skaute, edur Vinur þiñ, sa sem er eins og þu, vilia locka þig, segiande: Laatum oss fara og dijrka añarlega Gude, þa skalltu drepa hañ, Þijn Hond skal vera fyrst a moote hönum, til ad deyda hañ, og sijdañ allis Jsraels. Nu kyñe Einhverium i Hug ad spyria, hvilijker skulu þa Christs Þegnar vera? Meiga hönum ecke þioona nema Syndlauser og Heilager Meñ? Þad eru eg ecke, og giet ecke vered, a medañ eg life i Holldenu, þvi eg eru Daudlegur Madur, under Syndena selldur, Rom. 7. Og þegar eg vil giora hid Gooda þa loder þat Vonda vid mig: Hvad skal eg hier til segia? Þo eg sie skylldur Christo ad þioona af öllu Hiarta, þa giet eg þad ecke, þvi þad

Gooda sem eg vil giora, þad giore eg ecke, Eñ þad Vonda sem eg vil ecke giora þad giore eg. Heyr Christeñ Madur, Guds Sonur er i Heimeñ komeñ til þess, ad kalla Syndugа, eñ ecke Riettlæta til Yðranar, Matth. 9. Være Von a þvi, ad vier giætum fullnægt Guds Logmaale, þa være Christs Forþienusta oss Onaudsynleg. Eñ ecke hefur Gud sendt hañ i Heimeñ til þess, ad vier mættum þess Ohultar syndga, ecke yfergnæfer hañs Naad i Christo þar til, ad vier skulum i Syndunum lifa, Rom. 6. helldur hefur hañ þar fyrer lided Kvol og Dauda, ad hañ visse, ad vier mundum med Synd-eñe Guds Naad og Vingan optlega af oss briota. Þar fyrer seiger Johañes, 1 Pistl. 2. Born mijn, Þetta skrifa eg ydur til, ad þier syndgest ecke, eñ ef nockur syndgar, þa hofum vier Tals-Mañeñ hia Fodurnum JEsum Christum hiñ Riettlæta. Eñ giæted þess Christner Meñ, ad Syndeñ er marghættud: Þar eru Synder sem verda ad Ovilia, og af Fævitsku, um hvoriar Guds Logmaal so talar, Num. 15. Ef nockur Saala syndgast Ovitande, Þa skal hun Foornfæra. Ars gamalle Geit fyrer Syndena, Þvillijk var Synd Paals, er hañ Offookte Guds Sofnud, Fyrer þvi seiger hañ, Eg hefe Myskun hloted, af þvi eg giorde þad Ovitande i Vantru, 1. Tim. 1. Item Abimelechs, er hugde ad taka Saram Abrahams Hustru Frillu-Take, og visse ecke ad hun var hañs Eigeñ-Kona, Gen. 26. Adrar skie af Brædræde einu, þa Mañeskiañ sem er hneigd til hins Vonda, giefur sier ecke Stunder til ad læta Guds Anda edur Skynsemena vid sig raada, So sem þegar Moyses sloo Helluna Tvisvar, Num. 20. Þegar David hiet ad farga Nabal, og ollu Kallkyns i hañs Hwse, 1. Sam. 25. Þeg ar hañ Foolked talde, 2. Sam 24. Og þad er þad sem Paulus kallar, Gal. 6. ad verda yfersttijgeñ af einhvorre Hrosun. Nockrar verda og af Mañlegum Breiskleika, hvor ad jafnvel Guds Bornum filger, æ so leinge þau bera epter sier þeñañ daudlega Lijkama, og þad eru þeir Giorningar syndugs Mañs, sem Hollded og Andeñ eru ad glijma um, og gieta alldrei sættst þar uppa, þviad hvort strijder a moote odru, Gal. 5 Og þær fædast þegar Andeñ lætur sigrast af Holldenu, og verda hier Imser under, þvi verr, ad su Synd sem i oss bijr, hvoria Postuleñ holld nefner, Gal. 5. Hun verdur optlega sterkare. Þetta verda a Stundum þwngar Synder, og sietdeilis Guds Bornum nærre Obærelegar, Eñ þo reiknar Gud þær ecke Endurfæddum Mañe til Dauda, þegar þær med hreinne og alvarlegre Yðran fyrer Lausnarans Forþienustu bættar verda. Hvar fyrer? Þvi þar er eingeñ Fordæming hia þeim, sem eru i Christo JEsu, Þeim sem ecke epter Holldenu gaanga, helldur epter Andanum, Rom. 8. Eñ þeir kallast ecke ad gaanga epter Holldenu, sem med Andanum leitast vid ad deyda Holldsins Gyrnder, Jafnvel þoott tilbere ad þad fære Yfer-Hond, allt so leinge Meñ giefa þvi ecke Taumu, Þad Meñ þioone þvi i þess Gyrndum. Og þvi seiger David, Psalm. 19. Hvor skilur hvad opt hañ villest, Afleys mig af mijnum heimuglegum Syndum, og hallt Þræle þijnum aptur fra Þvermoodskuñe, ad þær drottne ecke yfer mier, Þa mun eg heill verda.

Nu

Nu eru þar adrar Synder, sem Mädureñ, ecke einasta giorer med fullum Asetninge, um hvoriar DRotteñ talar, Num. 15. Su Saal er driiger Syndena med uppriettre Hende, (þad er med asettu Rääde) hun vanvirder DRotteñ, þvi hun forsacktade hañs Ord, og Onijtte hañs Bod, helldur og lata þeir Syndena drottna i siinum daudlegum Lijkama, Fyrer utañ alla Baraattu a moote heñe, og liar Limu siina heñe til Vopna, hvoria hun brwkar med Siaalfskylldu Andskotanum til Pioonustu, eñ DRottne til Stigdar, so sem eirn Handverks-Madur sitt Verkfære. Þesser eru þeir, er JEsus kallar Præla Syndareñar, Joh. 8. Og hañveg eiga ad skiliast Ord Joh. 1. Ep. 3. Er hañ seiger, ad sa sem driiger Syndena, hañ sie af Diosflenum. Hiñ Agiarne þeinker ecke um añad, Eñ hvörnig hañ meige fylla sitt Hws af añars Sveita med Riettu og Raungu. Pioofureñ, Sem er hañs Stall-Brooder, hyggur ad, Vakeñ og Sofeñ, hvernig hañ Stela meige. Hiñ Dramblaate þenur sig wt sem añad Laarberia Trie, Psalm. 37. Hañ nijtur ei Svefns nie Matar, ef einhvor hañ virder miña, Eñ hañs Pootte bijdur. Hiñ Metorda giarne sparar aungva Illmeñsku til þess ad tilla sier upp i Virdingarnar. Joab svijfst ecke ad taka Lijfed af Abner og Amasa, Og þo med Flærd og Svikum, til þess ad hañ sie Ohultur um Nafnbætur siinar. Hiñ Ofundsiwke etur sitt eiged Hiarta, Hañs Ormur sofnar ecke ef hañ sier ad nockrum geingur vel, hañ eyrer aungu nema einhvor steite sig, og hefur aungva Skiemtan nema af añara Olucku. Hiñ Bakmaaluge fiskar i añara Avirdingum, Hañ leitar smaasmuglega epter þvi sem ödrum yfersiest, Hañ þeinker sig um, Hvorneñ hañ faae einhvoriu þar lijklega vid auked, og giorer Tiju Pund af Einu, þvi sem Andskoteñ hefur hönum i Heudur feinged. Ligareñ spiñur sitt Verk af siinum eigeñ Ydrum eins og Konguloveñ, og briitur Heilañ til ad lioosta þvi upp, sem alldrei er Tilhafed. Hiñ Flaraade grefur Eina Gröf Bake brotnu til ad steipa hinum Einfallda þar i: Allt þetta viña þeir ed so eru lynder med Astundan, fyrer utañ allañ Guds Otta, Edur nockra Mootstödu i gie n Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum. Þesser lata Syndena drottna i siinum Daudlegum Lijkama. Og þetta er su Pvermoodskañ er David bidur Gud ad hallda sier aptur fraa, Ps. 19. Ad söñu er þad satt, ad Guds Sonur er fyrer þessar Synder dæeñ, Pvi hañ er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2 Hvad og audsied er af Dæme Manassis Konungs, 2. Par. 33. Hiñar Bersyndugu, Luc. 7. Ræningians, Luc. 23. Og añara laangtum fleire: Po er næsta hætt vid þvi, Brædur mijner, ad slijk Ydne Syndaña sem Madureñ temur sier aan allrar Ydranar, aan alls Otta fyrer Guds straungu Hootunum, aan alls Asetnings til Apturhvarfs, edur og med Hiegoomlegre Raadagiord, ad ætla sier þa ad ydrast, þegar oss gott þyker, sem kañskie seint þyke, edur þegar oss Syndeñ leid verdur, Er maaskie alldrei verde, ad þesse Ydia og iñdruckeñ Vane til Syndsamlegs Athæfis, meige snwast upp i fraaleitt Sine, Rom. 1. Upp i forbrenda Samvitsku, 1. Tim. 4. Um hvoria Paulus talar, Eph. 4. Ad þeir

gaunge i Hiegooma sins Hugskots formyrkvader i Huxunum, fraskillder Lijfe Guds; fyrer þad Peckingarleyse sem i þeim er, Sokum Hardwdar þeirra Hiarta, hvorier þa þeir hofdu mist alla Tilfiñing, gaafu þeir sig til Lausungar, ad fremia allañ Ohreinleik med Agyrne, So sem voru Pharao, Judas, Achitophel, og þeir adrer sem Postuleñ kallar sialfdæmda, Tit. 3. Eñ þad seige eg i Guds Stad, og i Umbode hañs Eingietens Sonar JEsu Christi mijns HErra, hvert eg a Hende hefe, ad jafnvel þoott ad Naadeñ yfergnæfe Syndena, þa er sa aungvañveigeñ Konungsins Christi riettur Þegn, nie sañur Limur hañs Kyrkiu, er vijsvitande og Ydrunarlaust framfer i Syndum og Glæpum, med þvi Moote sem adur hefe eg sagt: Þvi Guds Sonur er til þess i Heimeñ komeñ, ad kalla Synduga til Ydranar, Matth. 9 Eñ ecke til þess ad þeir skule syndga uppa Naadena, Til þess ad Meñ skijrest i hañs Nafne til Ydranar, Act. 2. eñ ecke til Athugaleysis nie Undañdrattar, til þess ad þioena honum i Endurnijungu Lijfdagaña, eñ ecke til þess ad giefa Dioflenum hiñ mesta Hluta þeirra, eñ ætla Gude hiñ sijdarsta Part Æfeñar, sem eingeñ veit nær þrijtur. Eg veit ad þeir sem komu um Elleftu Stund i Vijngardeñ, feingu jafnt vid hina, sem bored hofdu Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. eñ þu hefur kalladur vered um Siottu og Nijundu Stund, hvad veitstu af þvi ad þu muner na hiñe Elleftu, Muntu kuña Gud fyrer þad, þoott hañ lata þig hafa jafnañ Hlut med þeim til hverra sagt var: Eingeñ þeirra Maña sem bodner voru munu smacka mijna Kvolldmaaltijd, Luc. 14. Villtu heimta þad af Konunge Himens og Jardar, Þu sem ecke ert einasta Molld og Aska, helldur Landrad um sekur vid hiñ Lifanda Gud, ad hañ liete kvelia siñ Eingieteñ Son til þess, ad þu þess Tryggvar mætter i allre Ohæfu þioona Fiandanum, Hvor ad er Guds svareñ Ovinur. Er þad ecke noog, ad hañ hefur laated greptra þig fyrer Skijrnena med Christo til Daudans (þad er til ad deya Syndeñe) So ad lijka sem Christur er uppvakeñ fra Daudum fyrer Dijrd Fodursins, so kuñer þu ad gaanga i Endurnijungu Lijfdagaña. Reined þar fyrer Christner Meñ, hvort þier erud i Trwñe, 2. Cor. 13. Hvada Lyst þier hafed til goodra Verka, Hvorn Leida a Syndeñe, Og ef þier fiñed Brest a slijku, þa giæted ad ydur i JEsu Nafne, Forsmaaed ecke Rijkdoom hañs Poleñmædis og Langlundargieds, helldur giæted þar ad, ad hañs Giæska leider til Ydranar, So ad þier ecke safned ydur Reide a Dag Reideñar, og Guds Riettlætes Dooms, Rom. 2. Hvor Eyru hefur ad heyra hañ heyre þad, og bidie Fodur Ljoosaña, fra hverium ad kiemur oll good Giof, og oll Fullkomeñ Giof, Jac. 1. ad giefa sier Ydran til Sañleiksins Peckingar. JEsu Læresveinar logdu Klæde sijn yfer Osnuna, og settu hañ þar uppa, Þeirra Dæme fylgde Foolked, er breidde sijn Klæde a Veigeñ. An alls Efa hefur þessum til Hugar komed, ad JEsus munde i þad Siñ ætla ad upprietta hid Jardneska Israels Rijke, þvi þad var Hattur Gydinga ad breita hañeñ vid þa sem nijlega hofdu Stioorn teked, Hvad-sia ma af 2. Reg. 9. Þaar Spaamañsins Þienare hafde smurt Jehu til Konungs, þa breidde hvor af hañs Herra Þienurum sitt Klæde under hañ a þad hædsta af Troppunum,

unum, og søgdu: Jehu rijker. Og þo nu ad bæde Læresveinarner og Foolked, villt-ust i þessu, þa er þad samt skied af DRottne, til ad teikna þar med hañs Konungs Tign, hvorn Gud Fader hefur smurt yfer sitt heilaga Fiall, Psalm. 2. Eñ giœt ad þvi Christ-eñ Madur, ad þesse Konungur Dijrdareñar rijdur hvorn Dag iñ til siñar Borgar, sem er Christeleg Kyrkia, Og so sem hañ er eirn Andlegur Konungur, so og er hañs Rij-ke Andlegt, Þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke Lijkamleg seiger Paulus, 2. Cor. 10. helldur Kraptur Guds til ad nidurbriota Gyrdingarnar. Hañ kiemur til vor i Ordenu og Sacramentunum, J Krapte sijns Heilaga Anda, sem straffar i Mañenum Syndena, Uppvekur Ydranena, Efler Trwna, Kveiker Elskuna til Guds, Jñræter Kiærleikañ til Naunugans, verkar Þoleñmædena. Þegar þu Christeñ Madur fiñur i Hiarta þijnu nockrar þesshattar Hræringar, Þa vit þad, ad sa DRottnareñ er þar komeñ til sijns Musteris, sem Malachias um̃ spaer, Cap 3. Þegar Pharisæi spurdu DRotteñ ad Fordum Daga, hvenær Guds Rijke kiæme, Svarade hañ þeim: Guds Rijke kiemur ecke so þess giætt verde, þeir skulu ecke seigia: Sia þad er þar, edur sia þad er hier, þvi siaed, Guds Rijke er iñe hia ydur, Luc. 17. Gud kiemur ecke i Hior-tu Mañaña, eins og Herodes og Bernice Fordum, med stooru Yferlæte, Act. 25. Sia Þiñ Konungur Kiemur Til Þijn Hoogvær, seiger Gudspialled. Þoott Christ-ur bwe i Himnenum, þa bijr hañ under eins i sundurkromdum Hiortum, Esa. 57. JEsus sagde Fordum vid Nicodemum: Vindureñ blæs, og þu heyrer þañs Þit, eñ þu veitst ecke hvadañ hañ kiemur, edur hvort hañ fer, so eru og aller þeir sem af Andanum fædder eru, Joh. 3.

Nu er Endurnyungeñ Dootter Endurfædingareñar, badar koma af Anda Guds sem verkar i Mañenum fyrer Orded: Eñ ecke veit hañ edur skilur med hvoriu moote hiñ Alvitre Gud þad verkar, Verkanena fiñur hañ, eñ Verkunareñar Maata skilur hañ ecke. JEsus reid einum Asna iñ til Jerusalem, og so þocknast Gude a stundum marg-añ fyrer faafrooda Predikun hoolpeñ ad giora, 1. Cor. 1. Eñ þegar hañ so vitiar þijn, syndugur Madur, þa breit epter þessu Foolke: Þeir breiddu sijn Klæde a Veig-eñ. Eñ hvorneñ fær þu þad epter þeim giort? Þad kieñer St. Paall, Eph. 4. Af-legged þañ gamla Mañeñ, epter hiñe fyrre Umgeingne, sem fordiarfast i Gyrndum Villudoomsins, eñ Endurnijest i Anda ydar Hugskots. Afklædunst þessum Illkuñ-ar Ham, og kostum honum fram̃ fyrer Fætur JEsu: Honum byriar þo med ollum odrum hañs Ovinum ad leggiast til Footskarar honum, þvi ecke er þvilijkur Ovinur Christs næst Fiandanum, so sem Holdded, hvørs Þankar ad eru Nelde og Fiandskap-ur i giegn Gude. Eñ Jklædunst einum nijum Mañe, sem epter Gude er skapadur, i Riettlæte og Heilagleika Sañleikans, Eph. 4. Miñunst Elskañleger a þad, ad JE-sus Christur Konungur Dijrdareñar, hañ var flettur sijnum Klædum, og hañs bless-adur Lijkame var Allsnakeñ reyrdur vid Stoolpañ i Þijng-Hwse Pilati, hvar hañ var Hwdstryktur, til þess ad vier yrdum frelsader fra eilijfum Hudstrokum! Y stu

Myrk-

Myrkrum, eñ Jklædder nijum hvijtum Skrwda med Paalmavidum i vorum Hondum, Apoc. 7. Jaa, þetta allt hefur hañ þolad til þess, ad vier mættum honum Jklæðast, so sem Paulus seiger, Gal. 3. Skylldum vier þa ecke leitast vid ad deyda vora Jardneska Limu, sem er, Saurlifnadur, Ohreinleike, Gyrnd, Jllfyse og Agyrne, hvert ad er Afguda-Dijrkan, Col. 3. Sierdeilis þar Gud hefur oss sialfur Vopneñ i Hendur feinged, hvor Paulus kallar Liosssens Vopn, Rom. 13. og Guds Alvepne, Eph. 6. Pad ætlar Heimur þesse, ad hañ hafe eingeñ Not Lijfsins, nema hañ life ad Munudum sijnum, svo sem væru Meñ alleina þar til i Heimeñ borner, eins og Petur seiger, 2. Pistl. 2. Ad þeir sieu eins og Skynlaus Dijr, sem ana fram epter þvi sem Natturañ bijdur, alleina til þess skopud, ad þau slatrud verde, nær þau faungud eru, og er Lijking þesse ægiæt, þvi so sem Villudijreñ ecke um añad hyrda, eñ ad fylla Magañ, og verda þar fyrer æ stundum tæld og lockud, med ad Filiañlegum Veidebrellum, þar til þau eckert af vita, fyrr eñ þau hafa Foot siñ i Snoruñe. So eru og þeir ed um eckert skeita, nema um Lijkamans Epterlæte, Fijsn Augnaña, og Drambsamlegt Lijferne, 1 Joh. 2. Peir giæta ecke ad fyrr eñ Saaleñ uppvaknar i Helvijte og Kvolunum. Hvad Postuleñ greinelega um þaa seiger, er rijker vilia verda, ad þeir falle i ad Filiañlegar Freistingar og Snorur og Gyrnder, heimskulegar og skadlegar, er steypa Mañenum i Topun og Olucku, 1. Tim. 6. Eñ þeir sem Christo tilheyra, þad eru þeir sem eru hañs Trwfaster Hyrd-Meñ og Læresveinar, þeir Krossfesta sitt Hold med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. og hroosa sier ecke nema ai Christi Krosse, fyrer hvorn þeim er Heimureñ Krossfestur, og þeir Heimenum, Gal. 6. Pegar Meñ raada eirn Pienara til Vistar, þa giora Meñ Skilmaala vid hañ, hvad hañ viña eige, og hvad hañ faa skule i sijn Verka-Laun. So hefur JEsus giort, Luc. 9. Hañ sagde fyrer ollum Moñum, seiger Gudspiallamadureñ: Hvor sem mier vill epterfylgia, hañ afneyte sialfum sier, og take Daglega siñ Kross uppaa sig og fylge mier epter. Hañ sagde þad ollum, so aller vita meige, hvors þeir vænta eige i hañs Pienustu. Hañ seiger Daglega, so ad þeir sem Gud hefur ongvañ wtvortis Kross aa Herdar lagt, skule þo vera vidbwner ad Krossfesta sitt eiged Hold, og deyda sijna Jardneska Limu, Gal. 5. so ad hañ vante ongvañ Christi Kross, sem vill under Christs Merke strijda, edur gaunga aa Maala med þessum Konunge, þvi þad stendur þo O-rafkañlegt um Alldur og Æfe, ad i giegnum margar Hormungar byriar oss iñ ad gaunga i Guds Rijke, Act. 14. og er hañs Pienusta þo þvi betre, eñ allra añara, ad þoott hun þyke hord Adgaungu, þa er hañs Ok sætt og hañs Byrde liett, Matth. 11. þvi hañ hiaalpar sialfur til ad bera, hañ er Trwr og freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Sætleike Guds Naadar, og Smeckur Epterkomande Farsælldar, deifer so Remu Krossens fyrer Guds Bornum, ad heñar giæter ecke. Eg heyre ad Paulus og Sylas eru glader i Fann gelsenu, Act 16. Postularner gieingu fagnande wt fraa Raadenu i Jerusalem, þaar þeir Hwdstrykter voru, Act. 5. Jeg heyre ad Paulus Oskar, ad Festus Lands-

Doom-

Doomare og Agrippa Konungur væru eins Meñ og hañ, ad þeim Hleckiuñum undañteknum er hañ var bundeñ med, Act. 26. hvoria hañ hefde þo ecke lated fyrer alla Dijrd Veralldareñar, hefde hañ att añars hvors ad mis ad fara. Þess Siñis var Pijslarvottureñ Babylas, er beidde ad grafa sig med þeim Hleckium er hañ var leiddur til Aftokustadarens med, so ad ecke vantade hañ sitt Brwdar-Skart i Uppriſuñe, Evſ.h. Lib. 6. Cap. 36. et 40. So lijted ackta þeir sem vel hafa smackad hvad sætur ad DRotteñ er, Pſ. 34. So lijted ackta þeir hvorsu med þeñañ forgeingelega Lijkama er hondlad. Eñ vilie Meñ epter spyria, hvor ad Launeñ sieu i Christi Dijrdar Rijke, þa seiger hañ sialfur, Matth. 5. Sæler eru þier nær Meñerner hallmæla ydur og Offsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo ljwgande, Fagned þier og vered glader, þvi ydar Verdkaup er nooglegt a Himnum. Eñ hvada Verdkaup Brædur mijner? Hvilijkt ecke hefur Auga sied, og ecke hefur Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. Þad er þad Verdkaup er DRotteñ hefur tilbwed þeim er hañ elska. Hvor sem nu samañber þa litlu Hormung, er vier þola meigum i Christi Naadar-Rijke, og þa Ouñrædelegu Sælu, er hañ mun launa oss med i siinu Dijrdar-Rijke; Hañ mun jaata med Postulanum, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ei verdar þeirrar Dijrdar, sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfe, Rom. 8. O JEſu! Uñ oss þessarar farsælu Vistar med þier Eilijflega. O JEſu! Laat oss vera þar sem þu ert, Joh. 17. O JEſu! Virdstu ad þurka öll Taar af þiña Barna Augum, Apoc. 7. O JEſu! Laat vora Hrygd snwast i Glede, Joh. 16. O JEſu! Gief ad hvorke Lijf nie Daude, hvorke Einglar nie Hofdingia Dæme, hvorke Hæd nie Dypt, nie nockur Skiepna, kuñe ad skilia oss vid þañ Kiærleika, sem er i þier, Rom. 8. Og laat oss þier alldrei sleppa, þar til þu blessar oss med eilijfre Blessan, og vier þig aptur med eilijfu Hosiaña i hædstum Hædum. Bænheyr þad

O HErra JEſu! Þier med Fodur og Heilogum Anda, sie Lof, Prijs, Magt og Vellde, um Allder Allda, AMEN.

## Añañ Suñudag i Adventu.

Gudspialled, Luc. 21. Cap.

I Þañ Tijma. JEſus sagde til siña Lærisveina: Þar munu skie Teikn a Soolu, Tungle og Stiornum, og a Jordu Kvaluing Plooda og Orvinglan; Sioor og Bylgiur munu hlioda, og Meñ munu fyrer Hrædslu uppþorna, og af Eptverbijdingu þeirra Hluta, sem ad koma skulu yfer allañ Heimeñ. Þviad Kraptar Himnañna munu hræraſt: Og þa munu þeir siaa Mañsins Son komanda i Skijum med Magt og miklu Vellde; Eñ nær þetta tekur ad skie þa lijted upp og upphefied ydar Hofud, af

þvi ad ydar Endurlausn tekur ad naalægiast. Og hañ sagde þeim þessa Epterlijking: Skoded þier Fijkiu-Tried, og øll oñur Trie, nær þeirra Alldin tekur wt ad sprijnga, þa vited þier ad Sumared er naalægt. So lijka nær þier siaaed þetta ske, þa vited ad Guds Rijke er naalægt. Sañlega seige eg ydur: Pad þesse Kynslood mun ei forgaanga, þaangad til ad allt þetta skier. Himen og Jord munu forgaanga, Eñ mijn Ord forgaanga eige.

## Exordium.

EG Dæme aungvañ seiger JEsus, Joh. 8. Hvad er þa þad hañ seiger, Joh. 5. Fadereñ dæmer aungvañ, helldur hefur hañ Synenum allañ Doom i Hendur feinged. Tvent bar til þess Brædur mijner, ad DRotteñ talade þesse Ord fyrer Gydingum, þad eina ad þeir dæmdu uñ hañ epter Ytre Asynd, þar þeir sogdu skoñu aadur: Pu ber sialfur Vitne uñ þig, þiñ Vitnisburdur er ecke gylldur, Eñ hañ svarade þessu medal añara: Pier dæmed epter Holldenu, eg dæme aungvañ, hañ meinte epter Holldenu. Sw var og oñur, ad hañ i þad Siñ ecke var komeñ til ad laata Doom gaanga yfer Illar Athafner Mañaña, þvi Illgresenu bytiade ad vaxa allt til Kornskieru Tijmans, Matth. 13. Eñ ei ad sijdur var þo DRotteñ komeñ til Dooms aa Jordu, so sem hañ sialfur vottar, Joh. 9. til þess ad þeir Siaaande yrdu, er ecke saau, og þeir ed saau, skylldu Blinder verda, og er þad audvitad hver ad sie þesse Doomur, og yfer hverium hañ gieck, sem voru þverbrotner Gydingar, hverier ei villdu JEsum þeckia fyrer Guds Son, af þvi Krapaverkenu, er hañ giorde aa honum, sem Blindur var boreñ, Joh. 9. Eñ Doomureñ var þesse; Ef þier værud blinder, þa hefdud þier ecke Synd, eñ nu seiged þier: Vier siaaum, þar fyrer blijfur ydar Synd; Og þoott Doomureñ sie so Riettvijs, ad eckert sie Riettvijsara, þa er hañ þo nærsta þwngur og hrædelegur, þvi hañ er Undañfare hiñs Ognarlega Dooms, er aa hinum mikla Dege alls Holldz mun aan Myskunar gaanga yfer alla þaa, sem ecke hafa trwad aa DRotteñ JEsum. Pvi so seiger Guds Sonur, Joh. 3. Hvor sem ecke trwer, hañ er þegar dæmdur, af þvi hañ trwde ecke aa Nafn Eingietens Sonar Guds. Pesse hiñ straange, eñ þo Riettferduge Guds Doomur, gieck yfer hiñ vesæla Gydinga Lijd ad miklu Leite, þegar þeir hofdu uppfyllt Mæling Syndareñar: Pess gietur Paulus, Act. 28. Er hañ straffar Pvermoodsku þeirra, Seigiande: Par fyrer sie ydur Vitañlegt, ad Hiälpræde þetta er Heidingium giefed, og þeir munu þad heyra. Pessarar miklu Guds Naadar erum vier og Hluttakande ordner, er bwum under hinu Ytsta Heims-Skaute; Peñañ skielfelega Doom yfer Guds eigeñ Foolke, hosum vier og heyrt: Eñ giætum ad þvi er Paall segier til Heidingiaña, þeirra er vid Christne teked hofdu: Vel, þeir eru fyrer Vantrwna afbrotner, segier hañ, eñ þu stendur fyrer Trwna.

Stær

Stær þig ecke, helldur vert Ottasleigeñ, Rom. 11. Satt er þad sem DRotteñ seg-
ier, ad hañ sem ecke trwer, sie þegar dæmdur, Joh. 3. Eñ þvi trwa Meñ ecke? Þvi
Meñ koma ecke til Liooßens. Þvi koma Meñ ecke til Liooßens? Þvi Meñ elska meir
Myrkred eñ Liooſed, af þvi ad þeirra Verk eru Vond, Joh. 3. Þad þyker Jñdælt
ad sofa a Kodda Athugaleyseſins, sem Andskoteñ dillar sijnum Bornum a, med
hañs gamla Voggu-Kvæde, er þañeñ lætur: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu, 2.
Pet. 3. So hefur þad geinged i fraa Upphafe Veralldar, og þar fyrer eru Meñ so
treger ad vakna vid Guds Orda Baasunu, þar til Daudans edur Doomsins Baa-
sunu Hliood tekur yfer, og ecke er vært ad sofa leingur. Eñ Gud vekur sijdañ med
Eilijfu Ope og Taña Gnijstran i Helvijte. Hvor þad heyrer, hañ hygge þar ad, og
giæte þeß er Paall sagde til þeirra i Athenu Borg, Act. 17. Gud hefur tilsett eirn
Dag, a hverium hañ dæma mun alla Jardarkrijngluna med Riettlæte fyrer þañ
Mañ er hañ hefur fyrerhugad. Þar fyrer vil eg laata mitt Tal vera i þetta Siñ, hv-
ad oß eige ad leida til þeß ad bwa oß under hiñ Sijdarsta Dag, sem vær ecke vitum,
nema ad Morgne uppreñe. Hiaalpa hier til, O þu Allsheriar Doomare fyrer JE-
sum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAr Munu Skie Teikn a Soolu Og Tungle Og a Stiornum. Þad sijnest
audraaded vera, Brædur mijner, ad ecke mune Endurlausnareñ hafa talad þetta
so, vegna Læresveinañа edur Foolksins, er honum i þad Siñ nalægt var, þvi
jafnvel þoott ad þeir til samans hafe i þeirre Meiningu vered, ad hiñ Sijdarste Dagur
munde vera skamt i burtu, so sem siaa maa af sumu þvi, er þeir hafa skrifad epter sig laat-
ed, Þa hafa sijdañ morg Hundrud Ar lided allt til þeßa Dags, helldur er þad sagt veg-
na vor, yfer hvoria lijklegt er, ad Heims Endereñ sie komeñ; Fyrer þvi ættum vier,
ecke sijdst med Ugg og Andvara ad vænta Tilkomu DRotteñs, þvi ef HErrañs Postul-
ar ætludu a þeim Dogum, ad hun munde so nalæg vera, hversu miklu nær mun hun
þa vera oß, er so miklu sijdar lifum? Eg hygg ad Teikn þeße flest, er Lucas gietur uñ i
Evangelio, mune ecke fiarlæg Doomenum verda, helldur nærre i sama Vetfaange, þvi
HErrañ segier hier, ad vier munum Þa Siaa Mañsins Son Komanda J Skijum
Himens, og er audsært, ad þeß mune ecke laangt ad bijda wr þvi ad allt þetta skiedur,
sem maa skie ei añad verde eñ Fiorbrot Veralldareñar, þegar Himnarner munu med
Stoor-Brestum forgaanga, og Hofud-Skiepnurnar af Hita braadna, 2. Pet. 3.
Hvad medal añara maa þar af raada, ad JEsus segier, Marc. 13. Ad uñ þañ Dag
vite eingeñ Madur, og ei jafnvel Einglar a Himnum. Eñ ef Teikn þeße skiedu rwm-
um Tijma fyrr eñ Himen og Jord forgaanga, þa kyñu þeir ed a Jordu bwa, ad vita
nockud hier uñ, hvad St. Petur fortekur, 2. Ep. 3. er hañ segier: Ad Dagur DRott-
eñs mune koma sem Þioofur a Noottu: Eñ Þioofureñ giorer aungva Vitneskiu und-
añ sier, añars være hañ ecke Þioofur, So er og Dagur DRotteñs, þvi eins og Taal-

Snara mun hañ koma yfer alla þaa sem aa Jordu bwa, Luc. 21. Drage þvi eingeñ siaalfañ sig aa Taalar, edur meine, ad af þvi ad þesse Teikn sem Lucas skrifar um i Guds-spiallenu, eru eñ nu ecke øll framkomeñ, og vier merkium aungva Umbreiting aa Soolu, Tungle og Stiørnum, adra eñ hun vered hefur i fraa Upphafe Verralldar, epter Ven-iulegu Naatturuñar Hlaupe, ad DRotteñ mune þar fyrer seinka, so sem nockrer kalla þad Seinlæte seiger Petur, 2. Pet. 3. Helldur er hañ þoleñmoodur vid oss, viliande ei ad nockur fyrerfarest, helldur ad aller snwest til Ydrunar.

Laatum oss ei þvilijkt i Hug koma, Brædur mijner, þvi þad eru Spottaraña Paank-ar, Er hañ seiger ad upp mune rijsa aa Sijdurstu Døgum, þeir ed gaanga i sijnum eigeñ Gyrndum, seigiande: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu, 2. Pet. 3. Pvi sijdañ Fedur-ner sofnudu, þa er allt hid sama so sem fraa Upphafe Skøpunareñar. Og hañ dylur ecke hvar fyrer ad syndugum Moñum, sem alla Hlute mæla epter Faafræde Spilling-areñar og Smaamunum vorum, sem þiootum upp eins og Gufa, eñ lijdum i burt aptur aa Augnabragde, Hvar fyrer, seige eg, ad oss þyke so laangt wr verda er hañ talar um þetta sama Efne, seigiande: Eñ eitt sie ydur vitañlegt Elskañleger, ad Eirn Dagur er fyrer DRottne so sem Pusund Ar, og Pusund Ar so sem Eirn Dagur. Eñ þeir ed þetta ecke samañbera vid Guds Fyrerheit, Peim þyker so sem ad hañ tefie og sie brygd-maall ordeñ; So er þad og vijst, ad jafnvel þott ad bæde St. Paall og adrer lijke þvi, ad Heims Endereñ være yfer þa komeñ, 1. Cor. 10. Pa hefur ecke Postuleñ vænt hañs so braadlega, þar hañ seiger, 2. Tess. 2. Pier skulud ecke skielfast fliootlega i Hugskotum ydar, nie trublast, hvørke af Anda nie Orde, nie af Sendebrefe, sem vier hefdum skrif-ad, Eins og Dagur DRotteñs være nær þvi komeñ: Kañ skie þess vegna, ad einhvør hafe teked sier Ordsøk af hañs Fyrra Pistle til þeirra, ad skielfa veikar og Istødulitlar Samvitskur, þar ed hañ skrifar: Eg hef ei Porf ad skrifa ydur um Tijma og Hentug-leika, þvi þier giørla vited, ad saa Dagur DRotteñs mun koma, sem Pioofur a Nottu, Pegar þeir seigia: Par er Fridur og Tryggleike, þa er þeim skyndeleg Foreydsla nærre, So sem Jood-Soott Pwngadre Konu, 1. Tess. 5.

Laatum oss þvi ecke Andvaralaust lifa, Brædur mijner, þoott DRotteñ dvelie, Pvi Komande mun hañ koma og ecke seinka, Heb. 10. Eñ vier vitum ecke, aa hvørium Tij-ma ad hañ kiemur, ad Kvøllde Dags edur um Midnætte, edur þa Haneñ galar, ed-ur sneña Morguns, so ad þegar hañ kiemur hastarlega, ad hañ fiñe ydur ecke sofande. Pad eg seige ydur, Pad seige eg øllum, Seiger DRotteñ, Vake þier, Marc. 13. Laat-um ecke vora Ydran bijda epter Soolareñar Formyrkvan, þvi þegar hun allra sijdarst tekur ad sortna, mun Ydranar Tijmeñ wte vera, hun hefur so leinge þioonad oss i Heime þessum, So leinge afmarkad tilsetta Tijma af Gude, og bored Vitnisburd um hañs Virsku, hañs Dijrd, hañs Giædsku og hañs Almætte, So leinge hefur hun skyned yfer Ordidlegañ Heim þeña, So leinge uppruñed yfer Raanglaata og Riettlaata, ad aller hafa haft noogañ Tijma til ad ydrast, og leita Guds aadur eñ þad Sijdarsta Myrkur

byrg-

byrger heñar fagra Lioos, So hun mun upp þadañ alldrei ad Eilijfu skijna. Hun hefur alldrei fraa Veralldareñar Upphafe formyrkvast aa moote Naatturuñar Edle, nema ollu Einu Siñe, Þegar Himen og Jord byrgdu fyrer Augu sier, og so sem skielfdust vid ad horfa þar aa, ad þeirra Skapare var eins og ein Bolvan aa Krossen uppheingdur, Matth. 27. Eñ ef hin Naatturlega Sooleñ miste sijna Byrtu af þvi, ad Sool Riettlætesins formyrkvadest um Stundarsaker, Hvad er þa ad undra þoott hun alldeilis blind verde, Þegar hañ kiemur i Skyum Himens med hañs Heilogu Þusundum, Judæ Pist. v. 14 Jaa, þegar þeir munu fyrer hiñ Hærsta og Sijdasta Riett kallader verda, sem Konung Dijrdareñar hafa ad niju Krossfestañ, og Saattmaalans-Blood Almeñelegt hallded, med hvoriu þeir helgader eru, Heb. 10. Laat þier þetta jafnañ fyrer Augum vera, Syndugur Madur, þegar þu sier hid Blessada Heimsins Lioos, sem alla Verolldena upplijser, Þu sier hana i Dag uppreña, Þacka Gude þar fyrer, eñ þu veitst ei hvort hun naa mune sijnu veniulega Takmarke ad Kvollde Dags, Þu sier hana i Ægeñ gaanga, og ad Tungled og Stiornurnar taka aptur ad lijsa, Eñ þu veitst ecke nema aa þeirre somu Noottu reñe upp Jacobs Stiarna Christur, Num. 24. Añad Siñ, sem bæde Sool og Tungl mun formyrkva og ad aungvu giora, og Stiornunum af Himne ofañ steipa, so sem þa eitt Fijkiu-Trie kastar sijnum Avoxtum fra sier, nær þad hristest af Stormenum. Laat þar fyrer Soolena ecke undergaanga þijna Vondsku: Trw ecke so Nætur-Myrkrunum fyrer þier, ad þu miñest ei vid Soneñ, aa medañ þu ert eñ aa Veige med honum, So ad hañ verde þier ecke reidur, Psalm. 2. Ef kañ skie hañ byrtest i Skijum Himens aa þeirre somu Noottu. Haf þiñ Lampa tendradañ, sem er Lioos Trwar þiñar, ad ei verder þu wtelokadur, þegar Brwdgumeñ kiemur um Midnætte, Matth. 25. Hlijd Bode Peturs er hañ seiger, 2. Pet. 3. Þar fyrer Elskañleiger, þar þier bijded epter ollu þessu, þa kostgiæfed ad þier hreiner og Ostraffañleger af honum fundner verded med Fride, og hallded Seinlæte DRottens til Reideñar, ad vera Hiaalpræde. Eñ hyggium ad þvi, hvorsu ad hañ mun Obærelega Straangur og Hardraadur verda ollum Gudlausum og Þverbrotnum, er sier hafa aa Naadar-Tijmanum Reide safnad. Hañ mun ei koma so sem fordum Daga, liggiande i einum Stalle, Ecke so sem þier heyrdud Fyrra Suñudag, Sitiande a Osnu, og a Fola klifbærrar Osnu, Matth. 21. Ecke so sem hañ var wtleiddur af Þijng Hwse Pilati, berande eina Purpura-Kaapu og Þyrne-Koronu, Joh. 19. Eñ þeir ed allt þetta hafa ad aungvu haft, þeir munu siaa hañ so sem eirn straangañ Doomara. Eldureñ breñur fyrer hañs Auglite allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. J honum munu Himnarner sunduralidna, og Hofud-Skiepnurnar smelltast, 2. Pet. 3. Krijngum hañ mun geysa Eitt hrædelegt Stormvidre, Aller hañs Megtuger Einglar munu honum fylgia, og hañs Heilogu Þusunder umhverfis hañ skijna, med skielfelegre Hofud Einglsins Baasunu mun hañ kalla Lifendur og Dauda i Lopted upp til moots vid sig, 1. Tess 4. Og eingeñ Skiepna mun standast hañs Tilkomu, Mal. 3. Þa mun Sooleñ formyrkvast,

vast, af þvi ad Guds Forsmaanarar geingu formyrkvader i Huxunum Sokum þeirra Pickingarleysis, vegna Hardwdar þeirra Hiarta, 2. Tim. 3. Þa munu Kraptar Himnana hrærast, af þvi þeir hafa so tijtt Syndgad i Himeneñ, og forsmaad hañ sem i Himnenum bijr, Þa mun verda a Jordu Angist og Raadleysa Þioodaña, so sem þa Sioor og Bylgiur hliooda, sem vite þær ecke hvar þær eige ad falla edur hvad af sier ad giora, Þañeñ mun allt Holld verda i Tilkomu DRottens. Þegar Jeremias spaaer uñ Babylons Eydeleggingu, þa dunar hañ so sem eitt Reidar-Slag a þeñañ Haatt: Þeirra Bylgiur munu dynia, þeirra Raddar Hliood mun verda so sem mikilla Vatna, Jer. 51. Eñ hvad miklu meira mun verda Ofkur hiñar stooru Babylon Veralldareñar, þegar hun hrapar i Dijked þad, sem vellur af Ellde og Breñesteine, Apoc. 21. Med øllum þeim sem druckner eru af Vijne heñar Hoorunar, Apoc. 17. O! hversu fegner munu þa þeir, ed smaad hafa hiñ Faatæka JEsum og hañs Limu i Velmagt siñe hier a Jorduñe, hvorsu giarna munu þeir þa vilia hafa sadt hañ, þegar hañ hwngradur var, svalad honum, er hañ þyrstur var, hijst hañ, þegar hañ Giestur var, klædt hañ, þegar hañ Nakeñ var, Vitiad hañs, þegar hañ var Siwkur og i Myrkva-Stofu, Matth. 25. Hvorsu lijted munu þeim gagna Metord þau, er þeir keypptu fyrer Guds Vinaattu? Epterlæte Heims þessa, er þeir mottu framar eñ DRottens Kross? Eignez og Bwgardar, fyrer hvoria þeir selldu Saaler sijnar, Sveite Daglaunarans, er þeir hafa iñehallded, Hws Eckiuñar og hins Fodurlausa, er þeir hafa wtsoged? Braud hins Einfallda og Naudstadda, er þeir hafa sviked under sig med Okreog Raangsleitne? Hvad lijted mun allt þetta duga þeim, nær Verolldeñ og øll heñar Dijrd og Hofsrakt stendur i biortu Baale, Eñ hiñ Riettlaate Himens og Jardar Konungur vill segia upp Doomeñ med þessu skielfelega Atkvæde: Fared fraa mier bølvader i eylijfañ Elld, sem fyrerbweñ er Dioflenum og øllum hañs Arum, Matth. 25. O DRotteñ vor Gud! hvorsu mun hañ þa Ognarlegur verda i Augum fordæmdra Maña, er ecke eiga framar neinrar Naadar Von? Manoha og hañs Kviña saau Guds Son, er hañ stie upp i Foornar-Elldenum, og hañ meinte þau mundu þar fyrer deya, Jud. 13. Esajas saa Gud sitiande a haaum Stoole, og honum fiellst Hugur, so hañ sagde: Vei mier, eg mun upprættur verda, þvi eg hefe saurugar Varer, og bij a medal þess Folks, er saurugar Varer hefur, Þar eg hefe sied DRotteñ Allsheriar Konung, Esa. 6. Israels Syner beiddu Moysen ad gaanga uppaa Fialled og tala siña vegna vid DRotteñ, Exod. 20. þegar Guds Reider sloou i Horeb, og søgdust eige framar gieta heyrt Raustena DRottens Guds sijns. Daniel saa Christum vid Fliooted Chid-Dekel, og þar var ecke Mattur i honum, Oll hañs Fegurd umbreittest, so hañ hafde aungva Krapta, Dan. 10. Lærefveinarner urdu Ottasleguer, er hañ kom til þeirra ad luktum Dyrum, Luc. 24 Þesser voru þo aller Guds Viner, þeim byrte hañ sig i Naadiñe og Giædsku, Þo kuñe ecke Breiskleike Holldsins ad standast Naalægd Guddoomsins, Hvad mun þa vid Ovine DRottens ske i Doomenum? Þegar hañ wthellet

þeirre

þeirre Reideñe i einu Augnablike, sem þeir hafa safnad sier aa Reideñar Dag, Mañ epter Mañ um̃ alla Æfe. Þegar Josua hiñ Ypparste Kieñemadur stood fyrer Eingle þess mikla Raads, og Andskoteñ honum til hægre Handar, til ad mootstanda honum i Jerusalems Byggingu, þa stood hañ i saurugum Klædum, þar til DRotteñ took hañs Raanglæte fraa honum, Zach. 3. Og var þa Guds Sonur hañs Tals-Madur. Eñ hvorneñ munu aller Gudlauser verda, þegar þeir standa fyrer Doomara alls Hollds, Þegar Gud sialfur aaklagar, eñ eingeñ afsakar, Þegar Raanglæted ei framar verdur burt teked, helldur tilreiknad? Þeir munu standa Skom̃eñe J-klædder, Psalm. 109. Og um̃ Allder Allda wtrekner fraa hiñe Himnesku Jerusalem, Apoc. 3. Johañes seiger, Þeir drecka af Vijne Guds breñande Reide, og kveliast med Ellde og Breñesteine i Auglite heilagra Eingla og Lambsins, Apoc. 14. og þeir munu aungva Roo hafa Nott nie Dag, Þeir munu eta Tungur sijnar wt af Ofraun, og lasta Gud Himensins wt af Kvøl og Saarendum sijnum, og þeir munu Daudans Oska, og hañ mun fra þeim flya, Apoc. 9. J ollu þessu faa þeir ecke eirn Dropa Vatns til ad kiæla med Tungu sijna, Luc. 16. Þetta er ad soñu Ognarlegt ad heyra, Brædur mijner, Eñ þad er þo Guds Ord sem ecke kañ ad liuga, Eñ ef þad kañ ad ofbiooda nockrum ad heyra alleina, Hvad mun þad þa vera ad siaa og reina, Ecke hefur Guds Ande forgiefens talad þetta, og fraskijrlega uppteikna latted, Eckert af Guds Ordum mun aa Jordu falla, Himen og Jord for gaanga, eñ hañs Ord forgaanga alldrei, Luc. 21. Laat þau þvi duga þier til þess, ad þu verker þijna Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Phil. 2. ad ei komer þu i þeñañ Kvala-Stad, edur siert varbweñ vid hinum sijdarsta Deige, sem þu ecke veitst nær ad þier uppreñur. Hugleid Christeñ Madur, hvad JEsus seiger, Joh. 12. Hvør sem forsmaaer mig, og medtekur ecke mijn Ord, hañ hefur þañ sem hañ dæmer, Þad Orded, sem eg talade, Þad mun dæma hañ aa Sijdarsta Deige. Vert þvi ecke Ugglaus edur Ohræddur, Barn Guds, þegar þu situr under Heyrn hañs Orda, þvi þar er þiñ Doomare, Þad mun aa hinum Efsta Deige uppskaatt verda, Hvorneñ þu hafer epter þvi teked, hvorneñ þu hafer epter þvi lifad, hvorsu fws þu hafer vered aa ad heyra þad, hvad vandlega þu hafer med þad høndlad, J hvad goodu og sidsomu Hiarta þu hafer geimt þad, hvort þu hafer fært þar Avoxt af i Poleñmæde, Luc. 8. Allt þvilijkt verdur bert þegar Bækurnar verda upplaatnar i Doomenum, Apoc. 20. Og epter þvi muntu dæmdur verda. Þvi so seiger Paulus, Ad DRotteñ mune dæma leynda Hlute epter sijnu Evangelio aa Sijdarsta Deige fyrer Christum JEsum, Rom. 2. Seig mier, Barn Drotteñs: Munder þu þora ad forsmaa þañ, er ætte ad dæma um̃ Lijf þitt edur Æru, edur svara honum fullum Haalse, sierdeilis ef þu þig sekañ visser, og þier uggvænt þætte, ad þu munder falla aa Maalenu? Þad þorer eingeñ ad giora. Ecke eru Dæme til þess, ad nockur hafe so bited Høfuded af Skom̃eñe. Eñ þad þora Meñ ad seiaia, ad Prestar seige so margt, þad sie ecke allt satt, Jafnvel þoott þeirra Embætte sie DRotteñs, og þeirra Verk, þeirra Guds, Esa. 49. Þetta voga Meñ ad segia og hyxa under

er Heyrn Guds Orda, sem eiga ad dæma þa aa Sijdarsta Deige. Veitstu ecke sagde Pilatus, Ad eg hefe Valld til ad Krossfesta þig, og Valld til ad laata þig lausan, Enn hann laug, Þvi hann hafde eckert Valld yfer hinum Alvallda Konunge, nema honum hefde vered giefed þad af Himnum ofan. Enn Christur hefur til þess Valld i hans Heilaga Orde, syndugur Madur, ad fordæma þig, ef þu kastar þvi aa Bak þier aptur, og so til ad laata þig lausan, ef þu hlijder þvi. Hvar fyrer laata Menn þa hid Gooda Ord Guds, so sem Vind umm Eyrunn þioota? Menn hrædast allann Voda, enn Guds Ord ecke, þier þyker þeim Tijma vel vared, er þu gietur skoted þier undan þess Heyrn, og munder þar kannskie alldrei koma, nema þu meir Ottadest Mennena enn Gud, Enn muntu og gieta skoted þier undann hinum Sijdarsta Doome; hvar þu skallt þo af þessu sama Guds Orde dæmdur verda? Og fyrst þu villt ecke heyra Christ; þar ed hann seiger: Komed til mijn aller þier sem erfided og Þvnga erud þiaader, eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11 Þa skalltu þo heyra hann aa sijdarsta Dege, hvort þu villt edur ecke, er hann seiger: Fared fraa mier aller Illgiörda-Menn. Ieinu Orde ad seigia; Þar er eingenn Hlutur sem meir ætte ad hvetia upp syndugann Mann til ad bwast vid Daudanum, enn sialfst Guds Ord, hvort hann mun dæma, epter hvoriu hann mun dæmast, og fyrer hvors Forocktun hann mun dæmdur verda. Sie þad þier kient og predikad af hinum Aumasta og Vesælasta, af einum Faatækum og lijttkunnande, hvor hallden er fyrer Afrak og Hreinsun Verralldar, forsmaa þad eige ad helldur, ef þad eru Guds Ord hann hefur i Munne, og hans Evangelium, er sagde til sinna Postula og allra þeirra er leitast vid ad feta i þeirra Footspor, og hans Umbod aa Hende hafa: Hvor sem forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig, enn hvor hann mig forsmaaer, hann forsmaaer þann er mig sende, Luc. 10. Jaa, þoott þad sie frambored af einhvorium, sem eckert giorer af þvi hann kienner, þa kannast þo þar vid, ad JEsus sagde til sinna Læresveina: A Moysis Stoole sitia Skriftlærder og Pharisæi, allt hvad þeir seigia ydur ad vardveita, þad vardveited og giored, enn epter þeirra Verkum skulud þier ecke giora, þvi þeir tala og giora ecke, Matth. 23. Hvor sem nu umm þetta vandlega hugsar, hann mun þess betur læra ad bwast vid þessum hrædelega Deige, med Daglegre Ydran og Apturhvarfe fraa Syndum og Glæpum, og þad þess helldur, sem lijklegra er ad DRottens Tilkomu sie ei all-laangt ad bijda, þvi þoott þau Teiknenn er Lucas i þessu Gudspialle umtalar, sieu enn þa ecke öll frakomenn, og lijkast sie, ad ei frammkoma mune fyrr enn under sialfann Doomenn, þa geingur þad eins til hier, so sem fyrer Daudlegum Manne, ad Hel-Sootten er leinge ad bwa umm sig i hans Lijkama, aadur enn hun slijtur Lijfed af honum. So hefur og Gud opennberad oss i sijnu H. Orde nockur Teikn, þau er aa sijdustu Dogum skie munu, og eru Vite hinns Efsta Dooms, er vier vel meigum beckia og vidkannast aa vorum Dogum. Christur seiger, Matth 24. Ad Evangelium Rijkesins skule predikast umm allann Heim, til Vitnisburdar öllum Pioodum, og þa mune Enderenn koma. Siaaed hvörsu Guds Orda Doomur skal yfer alla Menn ganga, þar eru og miög faaar Piooder nu i Heimenum, aa

medal

medal hvorra ei hefur ſkined Lioos Evangelii, þoott aller hafe ecke vid þvi teked: Hañ gietur uñ þar mune verda Hungur, Drepſoott og Jardſkiaalſtar i ollum Stodum, Matth. 24. og kallar þad Upphaf Hormunganna: Þetta hofum vier ſiaalfer reynt, Brædur miiner, og er ecke laangt aa ad miñaſt, Gud giæfe vier værum þeſs ſo Miñuger ſem vera byriade; Ef Meñ vilia ecke oñur Teikn beckia, þa mættu Meñ þau vidkañaſt er Almeñuſt eru, og JEſus uñgietur, Luc. 18. Þegar Mañſins Sonur kiemur, meinar þu hañ fiñe Trw aa Jordu? Noog er af Guds Orde, noog af Evangelii Lærdoome, til Vitnisburdar yfer ollum Moñum, Matth. 24. Eñ hvert hiñ ſaña Guds Otta er ſo vijda ad fiña, maa ſtoorlega efaſt uñ; edur ſeiged mier: Hvada Hyrtne er þad, ad Almeñingur hefur aa ad læra Chriſtelega Trw, edur kieña hana þeim er vid þurfa? Eñ þo allra ſijdſt epter heñe ad lifa. Eg hygg þad gaange til eins og aa Noe Dogum, hvad og er Teikn Mañſins Sonar Tilkomu, Matth. 24. Þeir aatu og drucku, þeir giptuſt og ſig gipta lietu, allt til þeſs Dags, ad Noe gieck iñ i Orkena og þecktu ecke Flooded, fyrreñ þad kom og took þaa alla i burtu. Jaa, nu aa þeſſum Dogum aadur eñ þeir vita hvad Hioonaband er, edur kuña meir eñ eirn Aſne ad uppfræda Born ſijn i Chriſtelegre Trw og ærlegum Lifnade. Þeir gieta þau epter ſiñe Mynd, og ala þau upp epter ſiñe Mynd, Andſkotanum til Þioonuſtu aa ſtundum, eñ ecke Gude. Eñ fyrſt Trweñ er þañen, þa er ei Von ad Kiærleikureñ ſie betre, ſo ad rætteſt eirneñ þad er Frelſareñ ſeiger ad fram mune koma fyrer hiñ ſijdarſta Dag, ad af þvi Raanglæted vex, mune margra Kiærleike koolna, Matth. 24.

Þetta er ſo vijſt framkomed, ad mig undrar þad Meñ ecke hafa gleymt Nafnenu, þar Hluteñ ſiaalfañ er valla hiaa nockrum ad fiña. Jeinu Orde ad ſegia: Meñ þreiſa aa þvi ſem Paulus ſkrifar, 2. Tim. 3. Seigiande: Vited ad aa ſijdurſtu Tijmum munu verda faarlegar Tijder, þar munu verda Meñ ſiergooder, Agiarner, Hoolſamer, Drambiaater, Gudlaſtarar, Forelldrunum Ohlijduger, Oþacklaater, Glæpafuller, Hardbriooſtader, Heiptrækner, Lausſiñader, Oþijder, Gott hatande, Svikarar, Þverbrotner, uppblaaſner, elſkande meir Sælgiæte eñ Gud, hafande Skyn Gudhræðſluñar, eñ afneita heñar Krapte. Allt þetta hygg eg ad Nooe þeckia munde, Ef hañ nu mætte lijta upp af Grof ſiñe, og þad þecker hvor og eirn, Saa ed giorer nockurn Greinar-Mun aa millum Dygda og Odygda. A Dogum Noa ſlockte hiñ Riettlaate Gud Baal Oleyfelegrar Elſku og Loſta-Gyrndar med Vatns-Floodenu, fyrr eñ þeir nockud af viſſu, Eñ nu tekur Kiærleikureñ ſo ad koolna, ad Hiortu ſumra Maña maa ſtockfredeñ kalla, Jaa hardare eñ Kopar og Staal. Hvad er lijklegra eñ ad hiñ Alvitre Heimſins Smidur mune bræda þau og ſmellta med hinu ſijdarſta Baale, fyrr eñ nockurn varer? Þetta vil eg nu hafa ſagt, Brædur miiner, Ydrunar og Athugalauſum til Vidvorunar, eñ ecke Sturludum edur Angrædum Samvitſkum til Skielfingar, ollum til Sid-Boota og Leidriettingar Lifnadarens, eñ aunavum til Orvæntingar, þvi ſo ſem Tilkoma hins mikla Guds og DRottens vors JEſu Chriſti mun hrædeleg

verda ollum Ogudleguni Moñum, so mun hun gledeleg verda ollum þeim er aa hañ vona, og heñar med Poleñmæde bijda. Pad kieñer oss St. Paall, 2. Tess 1. seigiande: Pad er Riettvijst fyrer Gude, ad endurgiallda þeim Piaaninguna er ydur þiaa, Eñ ydur sem þiaaest Endurnæringu medur oss, þegar DRotteñ JEsus opeñberast af Himne med sijnum mektugum Einglum. Ad soñu byriar oss ollum ad mæta fyrer Doom-Stoole DRotteñs, 2. Cor 5. og þar Reikning ad standa, jafnvel af hvoriu Onytiu Orde, i Doomenum, Matth. 12. Eñ þad er Ohult ad mæta fyrer hañs Doome, sem sialfur er Tals-Madur siña Barna. Sa fer ecke sekur af Pijngenu, sem sialfur aa ad dæma: Eñ nu eru aller Trwader eitt med honum, so sem hañ og Fadereñ eru eitt, Joh. 17. Og hañ er Hofud Lijkamans, sem er Christeleg Kyrkia, Eph. 1. Pad er og iñdællt ad standa honum Reikning, sem sialfur hefur betalad fyrer alla Skullдena; Par fyrer seiger JEsus, Joh. 3. Sa sem trwer aa Soneñ, sa dæmest ecke. (hvar Doomsins Ord merker Fordæming) Og aptur seiger hañ: Sa sem heyrer mijn Ord, og trwer honum er mig sende, hañ hefur eilijft Lijf, og hañ kiemur ecke i Doom (þad er i Fyrerdæming) helldur fer hañ fraa Daudanum til Lijfsens, Joh 5. Pvi skylldu þa Guds Born fælast hiñ sijdarsta Dag? Mun ein Brwdur ottast sijns Brwdgumа Tilkomu, og ecke helldur aa allar Lunder bwa sig til ad fagna honum? Mun eitt Barn fela sig fyrer sijnum Fodur: Eñ so sem Fadereñ er Bornunum Lijknsamur, Ps. 103. so vill hiñ eilijfe Fader og Fridar-Hofdinge, Es 9. vera oss naadugur aa þeim Deige. Par fyrer seiger hañ og i þessa Heilaga Dags Evangelio: Eñ Nær Petta Tekur Ad Skie, Pa Lijted Upp, Og Upphefied Ydar Hofud, Af Pvi Ad Ydar Endurlausn Er Nalæg. Pad er sem hañ segde: Pier skulud ecke leingur nidurlwter gaanga, af þeirre Sorg er þier hafed i Heimenum, þvi þa skulud þier i mier Glede hafa, Joh. 16. Pier skulud ecke leingur stynia med sialfum ydur, bijdande epter Arfleidsluñe sem er Endurlausn ydar Lijkama, Rom. 8. þvi hun er þa nalæg. Pier skulud ei leingur kveliast i Faangelse þessa daudlega Lijkama, þvi þetta er Dagur Endurnæringareñar, Act. 3. Dagur Endurfædingareñar, Matth. 19. Dagur Endurlausnareñar, Eph. 4. Dagur Endurnijungar allra Hluta, þa munud þier ecke framar syrgia þa Guds Mynd er þier i Adam topudud, þvi þier munud siaa i Skijum Himens hiñ añañ Adam sem er DRotteñ af Himne, 1. Cor. 15. Og þo Holld af ydar Hollde, hvor ad er ydar Brooder, og þo ydar Doomare, ydur ad ollu samlijkur, Ebr. 2. ad Syndeñe fraa tekeñe, Eñ þo Imynd sijns Fodurs Dijrdarfullrar Persoonu, Ebr. 1. Hvor ydar forgeingelega Lijkame mun forklaara og samlijka giora sijnum Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Lijted upp þier sem leinge hafed leitad ad þvi sem þar uppe er, Col. 3. þa skulud þier þad sia. Upphefied ydar Hofud sem aasamt allre Skiepnuñe hafed med wtriettu Hofde beded epter ydar Endurlausn, Rom. 8. og siaed ydar Hofud komanda i Skijum Himens. Lijted upp þier sem med Ahyggiu hafed leinge þraad epter hiñe Himnesku Jerusalem, Gal. 4. sem þar uppe er, og gaanged nu iñ i hana; Pa mun DRotteñ segia: Kom-

ed þier sem nakter erud, eg mun giefa ydur hvijtañ Skrwda og faa Paalmavid i Hendur ydar. Komed þier sem þyrster erud, eg mun dryckia ydur af Straumum lifanda Vatns, Joh. 4. Komed þier sem Hwnarader erud, eg mun metta ydur af Nægdar Giædum Guds Hwss, Ps. 36. Komed þier sem Erfided og Pwnga erud þiaader, eg mun endurnæra ydur, Matth. 11. Komed þier sem syted og graated, eg mun þerra øll Taar af ydar Augum, Apoc. 7. Komed þier sem bored hafed mitt sæta Ok, og mijna lietta Byrde, eg vil ydur endurgialda med eilijfre Pijngd Dijrdareñar, 2. Cor. 4. Komed þier sem reiknader erud fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar, eg vil setia ydur til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Jaa, Komed blessud Børn mijns Fødurs, og eignest þad Rijked, sem ydur er fyrerbwed fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. Kom O HErra JEsu! Kom og iñleid oss i þetta Fagnadarsæla Lambsens Brwdkaup og þijna Dijrd, þu sem lifer og rijker ad Eilijfu, AMEN.

# Pridia Suñudag i Adventu.

Gudspialled, Matth. 11.

Å Þañ Tijma. Eñ þa ed Johañes heyrde i Bøndunum Verkeñ Christi, sende hañ wt Tvo af sijnum Læresveinum, og liet segia hønum: Ertu sa sem koma skal, eda eigum vier ad vænta eins añars? JEsus svarade og sagde til þeirra: Fared aptur og kuñgiøred Johañi hvad þier siaaed og heyred. Blinder faa Syn, Hallter gaanga, Lijkþraaer hreinsast, Dauffer heyra, Dauder upprijsa, og Faatækum verda Gudspiølleñ bodud, og sæll er sa sem ecke hneixlar sig aa mier. Eñ ad þeim i burtu geingnum, hoof JEsus ad segia til Foolksins af Johañe: Hvad foorud þier wt aa Eydemørku ad siaa? Reyr þañ sem af Vinde er skiekeñ, Eda hvad foorud þier ad siaa? Mañ Miwk-klæddañ, Siaaed, ad þeir sem miwkañ Klædnad bera, eru i Konganña Hwsum: Eda hvad foorud þier ad siaa? Eirn Spaamañ? Eg segie ydur fyrer Sañ, þañ meire er eñ nockur Spaamañ, þviad þesse er sa, af hvørium skrifad er: Siaa þu ad eg sende miñ Eingel fyrer þiñe Augsijn, sa er þiñ Veg skal tilreida fyrer þier.

## Exordium.

Hversu stoor ad sie Myndugleike Heilagrar Ritningar, Þad kieñer oss best allra DRottenñ JEsus, er hañ sagde vid Gydinga, sem ecke villdu trwa hønum fyrer Kraptaverkeñ, er hañ giørde: Rañsaked Ritningarnar, þvi þier meined ydur i þeim ad hafa Eilijft Lijf, og þær eru þad, sem bera Vitne af mier, Joh. 5. Vel hefur JEsus þetta þverutveggia samañteked, ad høndla um Eilijft

Lijf, og ad bera Vitne af sier, þvi þad er Eilijft Lijf, ad þeir þecke þig sannan Gud ad vera, og þann þu sender JEsum Christum, sagde hann, Joh. 17. An JEsu Vitnisburdar, verdur eingenn hoolpenn, og hvor sem hann hefur og medtekur, hann hefur Lijfed i sier blijfanda, og kann ecke ad fara a Mis vid Saaluhiaalpena, Par umm vitnar St. Petur, Act. 4. Ad ei sie i odrum Hiaalpræded, og ad þar sie eckert annad Nafn Monnunum giefed under Himnenum, i hvoriu oss byrie Saaluhoolpnum ad verda, enn Nafned JEsu Christi. Nu, þar ed heilog Ritning hondlar umm so mikla og veglega Hlute, hvad kann henne þa jafnt edur samlijkiande ad kallast, af ollu þvi, er Synduger Menn hafa Mætur a. JEsus sagde vid Kvinnuna i Samaria: Ef þu visser Guds Giof, og hvor sa være, er vid þig segier: Gief mier ad drecka, þa munder þu bidia hann ad giefa þier Lifande Vatn, Joh. 4. Enn eg vil segia: Gud giæfe, Menn þecktu Gud vid sig talande i heilagre Ritningu, þa mundum vier fwsare vera ad drecka af hanns Naadar Straumum, er þar wt af fliota. Hvor hefur kient oss ad þeckia Gud vorn Skapara? Hvor hefur Opennberad oss hanns Vilia? Hvor hefur vijsad oss Veigenn honum epter ad fylgia? Hvor hefur upploked vorum Augum ad vier þeckium Syndena? Hvor hefur synt oss hvornenn vier ættum ad blijdka Gud nær hann Reidur er og faa hennar Kvittan? Hvor hefur Opennberad oss Leyndardoom Heilagrar Guddoomsins Þrenningar, Dijrd Fodursins, Elsku Sonarens, Astgiafer Heilags Anda? Hvor hefur synt oss þad sem marger Konungar og Spaamenn gyrnтust ad sia, og sau þad ecke? Luc. 10. Þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum, enn nu er Opennberad Smælingium? Matth. 11. Hefur ecke hinn Naaduge Gud oss allt þetta auglyst og fyrer eckert giefed i heilagre Ritningu? Fyrer sinn Eingietenn Son sem er i hanns Skaute, Joh. 1. Af þessare Andlegu Fie-Hyrdslu audgade JEsus Læresveina Johannis, þegar þeirra Meistare sende þaa til hanns, ad frietta hann ad, Hvort Hann Være Sa Sem Koma Skyllde, Edur Ettu Peir Eins Annars Ad Vænta; Ecke i þeirre Meiningu, ad Johannes visse þad ecke sialfur, þvi hann hafde adur vid hann talad, Matth. 3. Helldur til þess, ad þeim hiaalpad yrde i þeirra Andlegu Faafræde, Hvad hinn goode Meistare JESUS giorde med þvi Moote, ad hann vijsar þeim til Verkanna sem af honum giordust, og under eins til Ritninganna sem umm Messiam spaadu: Og þo ad hvort eitt af þeim Kraptaverkum sem hier standa i Gudspiallenu, sie noog til ad vitna þar umm, ad hann Guds Sonur være, þar Gud er alleina sa sem Daasemdar Verkenn giorer, Ps. 72. Pa er þo eckert þeirra sem so berlega vitne umm Embætte Messiæ, so sem þad Sijdarsta er hier stendur: Faatækum Verda GUdspiollenn Bodud. Hvor Blessud Ord vier vilium i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka, og af þeim sierdeilis Tvent Hugleida. Sem er. 1. Umm þaa Faatæku er hier nefnast. 2. Umm þad Evangelium er þeim bodad verdur, Med þeim Lærdoomum er þar af leida.

Pu Myskunsame goode Gud, sem oss hefur med Lioose þijns Sonar Evangelij', vijsad

vijsad hiñ rietta Veg Saaluhiaalpareñar, Vertu i Verke med oss, ad vier þetta framkvæmt gietum, þijnu Nafne til Dijrdar, eñ oss til Eilijfrar Velferdar, Amen.

## Utleggingeñ.

Fatæker, sem hier nefnast, eru ecke alleinasta þeir, sem vantar Audlegd Heims þessa, helldur og aller þeir, sem aa einhvorn Hatt eiga vid bæagañ Kost ad bwa. David var rijkur Konungur, og hafde Aura Nægter, Po seiger hañ, Ps. 9. Myskuna mier, og lijt a Fatækt mijna. Nu kuña Meñ þo ecke ad motseigia þvi, ad vor Frelsare, aa medañ hañ umgieckst hier aa Jorduñe, hefur sier i Lage wtvaled hina Fatæku og Audvyrdelegu fyrer Heimenum. Siaalfur var hañ i Fatækt aleñ, hañs blessud Mooder fieck eckert añad Rwm i Giesta-Herbergenu, eñ eirn Stall til ad fæda hañ i Heimeñ, Luc. 2. sem aa allra Hluta Valld, bæde a Himne og Jordu. Hañs Fooster Fader var eirn Trie-Smidur, Matth. 13. sem nærde sig af Hand-Biørg siñe. Hañs Lærесveinar voru fatæker Fiske Meñ. Flestaller þeir ed hañ umgieckst med hier a Jorduñe, voru fatæker og umkomulitler. Skamast þijn ecke þess vegna Fatæktareñar Christeñ Madur, fyrst hañ hefur hana wtvaled, sem aa þo allt Sylfur og Gull, og oll Dijreñ i Skooginum, Ps. 50. Ærleg Fatækt, Er heilagur Hlutur, þar hañ hefur vijgt hana, sem eirn er Heilagur, og þo alleina Rijkur. Fyrerlijt og ecke Fatækañ, þu sem Audugur ert, þvi þad er ad forsmaa hañs Skapara, sem giordest Oreige þiña vegna. Edur þu skylldu Meñ þañ Ovirda, er Gud hefur so mikels virdt, ad hañ hefur fyrer hañ pijnst, og laated honum sitt Evangelium opeñbera? Eñ hvar fyrer mun vor Frelsare segia hier, Ad Evangelium Sie Fatækum Bodad? Sañlega, Fyrst þess vegna, ad Johañis Lærесveinar þeckia mættu, ad Spaadoomur Esajæ 61. uppfylldur være. Eñ Guds Ande, sem fyrer Esajam talade, hefur giorla fyrer sied, ad ei munde þeir marger verda, er Christum medtæke, sem lifdu i Velgeingne Heims þessa, So sem Raun gaf Vitne. Skule Meñ og Sañleikañ segia, þa kiemur Fatækteñ betur samañ vid Christs Evangelium, eñ Rijkdomureñ. Hañs Rijke var ecke af þessum Heime, Joh. 18. Og þvi er ecke Von til, ad þeir mune vel skipast under hañs Stioornan, sem hafa Gull-Hnotteñ fyrer sitt Athvarf, og ei vita af añare Sælu ad segia, eñ Audæfum Heims þessa. Par fyrer sagde JEsus fordum Daga um hiñ Rijka Ynges Mañ, ad hægra være Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, eñ Rijkum Mañe iñ i Himnarijke, Matth. 19. Ecke þess vegna, ad hañ rijkur var, helldur af þvi hañ aangradest þegar DRotteñ sagde, ad hañ skyllde giefa Eigur sijnar Fatækum og fylgia sier epter. Jaa, Sañlega aa Fatækt og Armoodur betur vid Guds Evangelium, eñ Rijkdoomur mikell. Pvi seger og Jacob Postule, Cap. 2. Heyred, Brædur mijner Elskuleger, Hefur ei Gud wtvaled Fatæka Heims þessa, ad þeir verde Auduger i Trwñe og Erfingiar þess Rijkis, er hañ heited hefur þeim, Er hañ elska. Eñ þar er næsta hætt vid, ad þeir mune ecke hafa mikla Ast aa Gude, Sem aastunda miked Aura Safn. Hvar fyrer Paulus seger, Ad þeir sem Rijker vilie verda, Peir falle i Freistingar og



Snor.

Snorur, og margar Gyrnder ſkadlegar og Heimſkulegar, ſem ſteipa Mañenum i Fordiorfun og Olucku, 1. Tim. 6. Og hier kvedur ſo ramt ad, ad Endurlauſnareñ ſeger: Pier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mam̃ona, Matth. 6. Og þvi verr, hvad morg eru þau Dæmeñ, ad Meñ elſka meir Akneyte ſijn og Bwgarda, eñ DRotteñs Kvolldmaaltijd, Sem þo er ollum tilboded, þar fyrer lætur hañ Blindum, Holltum og Vonudum ſamañſafna, Luc. 14. Vier erum Ahyggiuſamer eins og Martha, og mædunſt i morgu, eñ faaer hyggia ad þvi, ad Eitt er Naudſynlegt, edur ad wtvelia þad Gooda Hlutſkipted, eins og Maria, Luc. 10. edur ad hafa Piaaning med Guds Foolke, helldur eñ Egyptalands Audæfe, eins og Moyſes, Hebr. 11. Eñ þoott ad þeſſu ſie nu ſo vared, munu þa aller wtelokader fraa Evangelio, þeir ed Rijker eru, eñ hiner aller iñtekner? Fiærre fer þvi. Abraham hafde Gud giefed Gull og Sylfur, Præla og Ambaatter, Ulfallda og Aſna, Naut og Saude, Gen. 24. Og þo kallaſt hañ Fader Trwadra, Rom. 4. Og þad var honum til Riettlætis reiknad, ad hañ Gude trwde, Rom. 4. Og þvi Evangelio er Gud honum ſiaalfur bodade, Ad i hañs Sæde ſkylldu bleſſaſt allar Piooder, Gen. 22. Job var Rijkis-Madur, og var hañ þo Guds Vinur, Job. 1. og 42. David, Joſaphat, Ezechias og Otal fleire, i Gamla Teſtamentenu voru Maktar-Meñ, Og þo eru aller þeir fyrer Evangelium Trwareñar hoolpner ordner. Og ad Meñ vite, ad þad ecke odruviis er i Nija Teſtamentenu, þa er þad alkuñugt, ad Nicodemus var eirn Hofdinge Gydinga, þo kom hañ til JEſum aa Naattarþele, og þaade Underviiſun af honum, Joh. 3. Jairus var Samkundu Hofdinge, Po leitade hañ Chriſti Hiaalpar, Marc. 5. Um̃ Hundrads-Hofdingiañ ſagde JEſus ſiaalfur, ad hañ hefde ecke funded þvilijka Trw i Jſrael, Matth. 8. Og hefur hañ aan Efa eingeñ Smælinge vered, þar hañ uppbyggde Gydingaña Samkundu, Luc. 7. Johaña Huſtru Chuſæ, er var Raads-Madur Herodis, Luc. 8. hefur vered rijk Kona, Po trwde hun aa DRotteñ. Joſeph af Arimathia var eirn Raad-Herra og Audugur, Po var hañ Læreſveirn Chriſti, Matth. 27. Cornelius var rijkur, Po vottar Eingelleñ um̃ hañ, ad hañs Bæner og Olmuſugiorder ſieu uppſtignar fyrer Gud, Act. 10. Dionyſius Areopagita, var Raads-Herra i Athenu Borg, Act. 17. Paulus Sergius var Hyrdſtioore, og þo lietu baader þeſſer ſkijraſt, og tooku Chriſtne af Paulo, Act. 13. Og hvor kañ oll þvilijk Dæme upp ad telia? Og ſo ſem ad ecke eru aller Rijker þeſſare Guds Naad fraaſkilder, So verda og ecke helldur aller Faatæker heñar Hluttakande. JEſus læknade ecke alla Hallta edur Blinda, So hefur hañ ecke helldur giort alla Faatæka Saaluhoolpna, Jafnvel þoott hañ fyrer alla lided hafe. Fiærre ſie þvi, ad Faatækteñ kuñe nockrum ad afreka Himnariike, fyrer ſiaalfa ſig. So ſem Gud hefur boþad þeim er Riettlæter þañ Faatæka fyrer hañs Faatæktar Saker, og aafeller hiñ Rijka fyrer hañs Rijkdooms Skulld, So gierer hañ og ſiaalfur hvorugt i ſijnum Rettlaata Doome, Pvi hiaa honum er eckert Mañgreinar Alit, helldur aa ollu Foolke ſem gierer hañs Vilia hefur hañ Pocknan, Act. 10. Ad ſɥñu er Rijkdoomenum hætt-

ara

ara eñ Fatækteñe, Eñ so sem margur, þvi verr, brwkar Audæfeñ til Ohoofs og Drambseme, til ad underþryckia hiñ Volada og Litelmagnañ, So er og Fatækteñe ei helldur alltijd Ohætt, og þvi afbad Agur hana, ad ei neyddest hañ til ad stela, Prov. 30. Hvorttveggia þetta er epter þvi sem med þad er hondlad. Olmusugiorder Cornelij voru Gude eins þeckar, Act. 10. Og Smaa-Peningar Eckiuñar, sem lagde meira i Guds Kistuna af sijnum Fatækdoom, eñ aller hiner Rijku, Luc. 21. Par eru Fatæker sem ecke vilia Erfida med Hondunum, og læra þvi ad stela. Par eru Fatæker sem øfunda hina Rijku, Formæla þeim fyrer aungva adra Sok eñ þa, ad Gud hefur þeim meira lanad, Hvor þo giorer bæde Fatækañ og Rijkañ epter Velþocknan siñe, Prov. 22. Svijkia þa i allre Hondlañ, Nema ad þeir so giora meige ad Saklausu, Hælast þar uñ i siñ Hoop, Hiaalpa ødrum til ad breita þañeñ, Kalla þvilijkt ad giora Kiærleikans Verk, so sem hiñ Rijke eige aungvañ Riett a sier, Nema þañ er hañ nær med Ofbellde. Peir una Fatækteñe illa, Og stunda med øllum Hætte, med Riettu og Ranngu ad drijfa hana fra sier. Munu þetta vera þeir Fatæker er JEsus hier uñ talar i Gudspiallenu, Brædur mijner? Langt er fra þvi, helldur þeir ed Fatæktena og allañ añañ Guds Kross med Poleñmæde lijda, Sa ed lætur sier nægia med siñ deildañ Verd. Gud telur ecke Peninga þijna, Christeñ Madur, helldur mæler hañ þitt Hugarfar, Hañ er aungvañveigeñ riettelega Fatækur, sem giarnañ villde taka allt fra øllum ef hañ mætte, Jafnvel þott eckert hafe hañ, Eins og sa er ecke rijkur, sem vill meira hafa, þott hañ hafe alls Nægter; So er og hiñ ecke fatækur fyrer Gude, Er med Hiartanu gaper yfer øllu þvi hiñ Rijke a, hiñ Rijka kañ og ecke ad skada hañs Rijkdoomur, Ef hañ brwkar hañ Gude til Dijrdar, og Naunganum til Gagnsmuna, Sa ed ecke treyster uppa Oriettindeñ edur Ranglæted, edur helldur sig til þess sem ad aungvu er neytt, Vilie honum Rijkdoomur til, þa fester hañ ecke Hiarta sitt vid hañ, Ps. 62. Hañ reiser hiñ Fallna, styrker Maal Eckiuñar og hiñs Fodurlausa, upphefur sig ecke i Hiarta sijnu, helldur fellst a Jacobs Raad, er hañ segier, Cap. 1. Sa sem rijkur er, hroose sier i Læging siñe. Og fyrer þvi ad Gude hefur þocknast margañ audugañ ad giora, til ad audsijna i þvi so sem øllu odru sijna Giædsku vid Mañaña Sonu, eñ añars Vegar er nærsta hætt vid, ad Audureñ, sem er fagur meige blinda Mañsins Hiarta, Pa giorer St. Paull Raad fyrer þeim sem Rijker eru i Christelegre Kyrkiu, 1. Tim. 6. (So langt er fra þvi, ad þeir sieu fra Evangelio wtelokader) segiande: Peim sem rijker eru i Olld þessare, Predika þu ad þeir ecke metnest i Hiortum, og treyste ecke a Audæfeñ, helldur a hiñ lifanda Gud, sem oss alla Hlute anægianlega giefur til Notkunar, ad þeir sieu Goodgiarner, ad þeir sieu rijker i goodum Verkum, sieu giafmillder og fwser a ad medbijta, Safnande sialfum sier goodum Grundvelle til hiñs Epterkomanda, So ad þeir hreppe eilijft Lijf. Fare nu nockur þessum Postulans Raadum frañ, þa er so langt fra þvi, ad hañ fare Hlutlaus af Guds Velgiorningum i Evangelio, ad hañ hefur meire Ordsok og Efne til ad giora þad Gud hefur i Evangelio boded, helldur eñ hiñ sem snaudur

er,

er; Eda hvad er þad ad Christur segier, ad ei skule Vatns-Dryckur Olaunadur vera i Læresveins Nafne giefen? Matth. 10. Hvad er hitt er hañ bijdur? Ad Meñ skule giora sier Vine af hinum Rangläta Mañona, so ad þeir medtake oss i eilijfar Tialld-bwder, Luc. 16. Allt er þetta til þess sagt, ad Madureñ lockest med Guds Nädar Fyrerheitum, til ad dijrka hañ med hañs Gaafum, og Naunganum ad gagna, Eñ ef odruvijse er, Þa klijnger þar og oñur Bialla, Hun lætur aa þeñañ Hätt, hiaa Luc. 6. Vei ydur sem rijker erud, Þier hafed ydar Huggun wttekeð. Og Jacob talar nockud skoreñordt þar uñ, Cap. 5. segiande: Nu vel þier Auduger, Grated og Veined yfer Hörmungum ydar, sem yfer ydur koma munu, ydar Audæfe eru fwieñ, ydar Klæde eru uppeteñ af Mol, ydar Gull og Sylfur er ridgad, og þeirra Rid vitnar aa moote ydur, og mun uppeta ydar Holld so sem Elldur, Þier hafed geimt Fiesiooden til hiña sijdurstu Dagaña, Siaed Laun Verka-Mañaña, sem hafa sleiged ydar Lond, er þier hafed iñe-hallded, þau hroopa, Hroop þeirra er yrkt hafa, er iñgeinged i Eyru DRotteñs Alls-heriar. Þañ Veg hefe eg nu sijnt, Brædur mijner, ad Rijkdoomur og Fatæk eru Gude jafnkiær, þegar med hvorttveggia er Riettelega fared. Þvi vil eg þess ei dylia, ad eg hygg ad Frelsareñ i þessa Dags Evangelio iñebinde þa i þessu Orde, sem hañ talar uñ, Matth. 5. segiande: Sæler eru Andlega Volader, Þviad þeirra er Guds Rijke. Þetta sijnest raada meiga af siaalfum Spaadoome Esajæ 61. Til hvors ad Frelsareñ vijsar Johañi i Andsvare sijnu. Hvor Spaadomur so hlioodar: Ande DRotteñs er yfer mier, af þvi hañ hefur smurt mig, Hañ hefur sendt mig ad boda Evangelium þeim Hoogværu, og ad binda vid þa sem i Hiortum eru sundurknosader. Þetta skilst mier ad vera sama og Andlega Volader, Matth. 5. Þad eru þeir sem ad til þess fiña, ad i þeim, þad er i þeirra Hollde bijr eckert Gott, Rom. 7. Þeir ed beckia ad þeir hafa Skort aa þeirre Hroosuneñe, sem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Þeir ed med hinum Fortapada Syne audmijkia sig fyrer sijnum Fodur, Luc. 15. Þeir ed med Tollheimtu-Mañenum voga ecke ad upplypta sijnum Augum til Himens, helldur beria sier aa Briooft og segia: Gud Vertu Mier Syndugum Lijknsamur, Luc. 18. Þeim er so eru Andlega Volader, og reikna sig so Or-fatæka, af ollu þvi sem fyrer Gude gyllda kañ, ad þeim mislijkar allt aa sialfum sier, þeim hygg eg ad bæde fyrst og sijdarst tilheyre Evangelium, hvort helldur þeir Rijker eru edur Fatæker, Þvi so segier DRotteñ, Esa. 66. A þañ lijt eg sem Fatækur er, og sundurkrameñ i Anda, og skielfest fyrer Ordum mijnum. Þegar Guds Sonur kom i Heimeñ, þa villdu Meñ af Verkunum Riettlaater verda, Eñ hvad segier JEsus þar uñ? Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir eñ hiña Skriftlærdu og Phariseaña, Þa kuñed þier ecke iñ ad gaanga i Guds Rijke, Matth. 5. Þa Tiunndudu þeir Mintu Anis og Cumen, Þad var þeirra Guds Þjoonusta, eñ gleymdu þvi sem mest var i Lo maalenu, Doomnum, Myskunsemeñe og Trwñe, Matth. 23. Þa færdu þeir stoorar Foorner Marc. 7. a HErrañs Altare, og ætludu þar fyrer hoolpner ad verda. Eñ DRotteñ segier þar uñ, Esa. 66. Hvor ed

slaat-

slatrar Naute, þad er, sem hañ slæe Mañ i Hel, hvør sem Offrar nockrum Smaa-Fie-
nade, þad er, sem hñ Haalsbrite Hund, So miked gylldte fu wtvortis Guds Pionustañ
i hañs Augum. Þar funduſt ecke marger, sem giørdu ſoddañ Jaatning fyrer Gude,
sem David, helldur hiet þad so: Eg þacka þier Gud, þad eg em ecke eins og adrer Meñ,
Luc. 18. Þesser þoottuſt rijker vera af goodum Verkum, og jafnvel odrum laana kuña,
eñ hvad segier JEſus vid Biſkupeñ i Laodicea, þu segier: Eg em full-rijkur og hefe einſ-
kis Þorf, eñ þu veitſt ecke, ad þu ert aumur og vesæll, blindur og nakeñ, Apoc. 3. Og
þad hygg eg segia mætte um̃ Mwga Mañs aa þeim Døgum: Þar fyrer var Evan-
gelium Faatækum bodad: Þar fyrer flycktuſt Tollheimtumeñ og Bersynduger til JE-
ſum, Luc. 15. Þar fyrer komu jafnvel heidner Meñ aa hañs Fund. Þar fyrer sag-
de hañ til þessa Foolks, Matth. 21. Sañlega segie eg ydur: Ad Tollheimtumeñ og
Pwtur munu gaanga framar ydur iñ i Guds Rijke; Þvi Johañes kom til ydar med
Riettlæteſins Veg, og þier trwdud honum ecke, eñ Tollheimtumeñ og Pwtur trwdu
honum, eñ þier, sem ad saaud þetta, ydrudust ecke epter aa, so ad þier trydud honum.
Og høfum vier nu so nockud heyrt þar um̃, hvilijker ad þesser Faatæker-sieu, sem vor
Frelsare talar um̃ i Andsvare sijnu til Johañem.

Nu vilium vier hier epter nockud um̃ siaalft Evangelium tala, sem þeim bodad verd-
ur. Meñ kyñu ad efaſt um̃ hvorneñ þad Fulia eige, ad JEſus segier hier alleina: Ad
Faatækum Sieu Gudspiølleñ Bodud, þar þo St. Paall vottar, Tit. 2. Ad Heilſuſam-
leg Guds Naad sie opeñber ordeñ øllum Møñum. Hier byriar oſs þad ad athuga, ad
jafnvel þoott Chriſti Evangelium sie ecke nema eitt, þa verdur þo eitt og hid sama Evan-
gelium med Tvofolldum Hætte predikad, sa eine hefur nockud af Løgmaalenu alltijd med
sier, og frambijdur Guds Naad giefens veitta med Fororde, ef Meñ ydraſt Syndaña
og af þeim laata. Hvilijk var ſw Predikun Chriſti, er Marcus um̃gietur, Cap. 1.
JEſus kom i Galileam, predikande Evangelium Guds Rijkis, Segiande: Tijmeñ er
uppfylldur, Guds Rijke er komed, giøred Ydran, og trwed Evangelio. Þeſs haattar
var Predikun Johañis Baptiſtæ, er hañ sagde: Giøred Ydran, þvi Guds Rijke er
naalægt. Oxeñ er sett til Rootar Triaaña, hvørt þad Trie sem ecke ber goodañ Aa-
vøxt, skal upphøggvaſt og i Elld kaſtaſt, Matth. 3. Hier er Oleum Evangelij bland-
ad med sterku Løgmaalſins Vijne, til Lækningar þeim sem medal Ræningia hrasader
voru, Luc. 10. Med þessum Hætte aa Evangelium eñ nu ad kieñaſt i Guds Søfnud-
um, hvar iñe ad bæde eru Vonder og Gooder, Matth. 13. Og þañ Veg byriar Guds
Fiaarsioodum wt ad ſkipta i hentugañ Tijma, so hvør eirn faae þad honum ber, þvi ei
kom JEſus til ad uppleyſa edur afmaa, helldur til ad uppfylla Løgmaaled, Matth. 5.
Guds Naad i Evangelio hrijn ecke aa Mañenum fyrer utañ eina lifande Trw: Undañ
eirne lifande Trw verdur ad gaanga soñ Ydran: Soñ Ydran er alldrei nema med soñu
Angre og Hiartans Trega; Trege Hiartans kañ ecke i Mañenum ad uppvekiaſt fyrer
utañ Þeckingu Syndareñar; Þecking Syndareñar framkiemur af Løgmaalenu,

                                                    Rom.

Rom. 7. hvar fyrer þoott ad Logmaaled giore ongvañ hoolpeñ af siaalfu sier, samt þioo-
nar þad under Evangelium, trwudum Mañe til Saaluhiaalpar, so þegar Bookstaf-
ureñ hefur deydt, þa lijfgar Andeñ, 2. Cor. 3. Þegar Logmaaled hefur sundur mared,
þa læknar Evangelium, þegar Mañeskiañ af Logmaalenu þecker ad hun hefur eckert añ-
ad forþienad eñ Helvijte, Guds Reide og eilijfañ Dauda, þa tekur Trweñ vid honum,
og giorer hañ lifande aptur fyrer JEsu Dauda, og Endurnijar hañ til ad giora fram-
veigis Guds Vilia: Þessa Atferd brwkade hiñ Ædste Biskup og mikle Hyrder Saud
aña optast til ad leida Synduga Meñ til Guds Rijkis, þa somu brwkudu og aller hañs
Þienarar um alla Æfe. Noe var Riettlætis Predikare, 2. Pet. 2. Nathan straff-
ade David, aadur eñ hañ huggade hañ, 2. Sam. 12. Atferd Johañis Baptistæ, er
ollum kuñug, Matth. 3. So er nu þesse hiñ Almeñelege Haattur og Maate til ad predi-
ka Evangelium, sem aller Guds Ords Þienarar eiga ad vita og brwka. Añar er sar,
sem tilhlijder Angraadum og Sturludum Mañeskium, Þeim sem allareidu hafa þeckt
Syndena, og so eru af heñar Umþeinkingu Sundurmarder, ad þeir reikna sig Overd-
uga Guds Naadar, og so Faaraader, ad þeir vita ecke hvad þeir eiga af sier ad giora:
Þeckia ad soñu Guds Naad, eñ ofbiidur þo Stærd Syndaña: Þeir vita ad Sool
Riettlætesins JEsus Christur er þeim uppruñeñ, Mal. 4. Eñ fyrer þvi ad þeir treyst-
ast ecke til ad lypta sijnum Augum til Himens upp, Luc. 18. og ad Þoka Syndaña skil-
ur aa millum Guds og þeirra, Esa. 59. Þa saa þeir ecke i giegnum hana sied (fyrr
eñ Heilagur Ande ridur Trwareñar Smyrslum aa þeirra Hiartans Augu) hvad fagurt
hun skijn, þeir þeinkia helldur aa Stærd Syndaña, eñ til Fiollda Guds Myskunsemda,
Og i einu Orde ad segia, þad eru þeir Faatæker, er sier i Lage um talad er hier i Gudspiall-
enu, þeim tilheyrer Evangelium Eintoomis aan Logmaalsins straungu Hootana. Hvar
fyrer? Þviad Guds Ande hefur alla Reidu verkad allt þad sem Logmaaled aatte ad
verka, Sem er Þeckingu Syndaña og saña Ydran, Er af heñe kiemur. Þeim verdur
bodad, Ad hvar sem Syndeñ yfergnæfe, þar yfergnæfe Naadeñ miklu framar, Rom
5. Þeim verdur sagt ad Mañsins Sonur kom til ad kalla Synduga, eñ ecke Riett-
laata til Ydrunar, Matth. 9. Þeim aa ad Predika, ad Blooded JESU hreinse þa af
ollum Syndum, 1. Joh. 1. Og þo ad þeirra Synder sieu raudar sem Blood, skule
þær eins hvijtar og Snioor verda, Esa. 1. Þeim segier David, Ps. 34. Naalægur
er DRotteñ þeim sem sundurkramder eru i Hiortum og Harmþrwngner i Anda. Til
þeirra segier Esajas Cap. 55. Heyred þier sem þyrster erud, Komed til þessara Vat-
na, og saaed aungvañ Pening hefur, Komed, Medtaked og snæded. Komed segie eg og
saaed Okeypis og fyrer eckert, bæde Vijn og Mioolk. Til þeirra hroopar siaalfur JE-
sus, Sem bored hefur Synder Veralldareñar, Matth. 11. Komed til mijn aller þier
sem erfiided og Þwnga þiaader erud, Eg vil ydur Endurnæra; Til alls þessa segier oll hei-
log Guddoomsins Preñing, Amen. Ezech. 33. Þier segied, af þvi ad vorar Yfertrod-
slur og Synder liggia aa oss, Þar fyrer visnum vier upp i þeim, Hvorneñ skyldum vier

meiga

meiga lifa? Pa seig þeim: So Sañarlega sem eg life segier DRottenn, Pa vil eg ecke Dauda hiñs Ogudlega, helldur ad hañ snwe sier og life. Ecke eru þess Dæme, ad Fader Myskunsemdaña hafe nockurn þañ fraa sier reked, sem til hañs komed hefur, Joh. 6. Þetta er Evangelium Fridarens, sem hier bodad verdur, Esa. 52. Laat þvi ei syndugur Madur þijna Saalu vera Oroolega i þier, Þvi þu hefur Frid vid hañ feinged, hvors Ovinur þu varst, þegar hañ gaf siñ Son i Daudañ fyrer þig, Rom. 5. Pad skiedur hiaa goodum Konungum, nær þeim fædest eirn Sonur, ad þeir giefa Einhvorn Bandingia lausañ, Eñ Gud Fader liet hroopa til allrar Veralldar i siins Sonar Fædingu, Fridur aa Jordu og Moñum goodur Vilie, Luc. 2. Þetta er Evangelium Fagnadarens, Luc 2 Þvi Einglarner sungu: Eg boda ydur mikeñ Fognud, þañ er skier ollu Foolke. Laat þier þvi ecke so Ogna Synder þijnar, þott þær ysrid margar sieu og stoorar, ad þu ecke under eins glediest i Gude Heilsugiafara þijnum, Luc. 1. Meire Glede er i Himnenum, segier JEsus, yfer einum Syndara, sem Ydran gioerer, helldur eñ yfer Niju og Nijutiju Riettlaatum, Luc. 15. Nu fyrst ad siaalfur Gud og hañs Heilager fagna so miøg þijnu Apturhvarfe, Þvi skyllder þu þa hryggur vera? Þetta er Evangelium Guds Naadar, Act. 20. og Embætte Forlijkunareñar, 2. Cor. 5. Eñ þu hrædest oll þijn Verk eins og Job, og veitst ad jafnvel þitt Riettlæte, er so sem Nidlags Fat, Esa. 64. Nu er þetta Naadareñar Evangelium, J hvoriu Syndaranum verdur framboden Naad wt af Naad, Eñ ef þad er af Naad, þa er þad ecke af Verkunum, segier Postuleñ, Rom. 11. Þijn Verk eru vond, eñ þetta er þo Evangelium good ra Hluta, Rom. 10. Þitt Hiarta fordæmer þig, Eñ Johañes segier þo, ad Gud sie meire þijnu Hiarta, og vite alla Hlute, 1. Joh. 3. Veit hañ alla Hlute, Pa veit hañ og þad, ad þu ert Andlega Voladur, Þvi vill hañ þier Himnarijked giefa, Matth. 5. Eingeñ er saa snaudur, er hañ aa heillt Kongs Rijke, Þo er Syndareñ rijkare, þegar hañ aa Guds Rijke, og verdur þa rijkastur, þegar hañ er sem fatækastur, og mattugur, þegar hañ veikur er eins og St. Paall, 2. Cor. 12. Veit Gud alla Hlute, þa veit hañ og þad, ad þig hungrar og þyrster epter Riettlætenu, Matth. 5. Eñ ef þu sem Vondur ert, kañt ad giefa Bornum þijnum goodar Gaafur, ef þu sem ert aleñ i Synd, mundir ei neita daud þyrstum Mañe Vatns-Dryckiar, mun þa Gud sem er alleina goodur, tesia leinge ad svala þier med Heilogum Anda, þa þig laangar epter honum, so sem Hiorteñ epter ferskum Vatne, Ps. 42. Þu fellur i þær Synder er Gud hefur þier aadur fyrergiefed, og þad optar eñ Einusiñe, Pad er illa giort, Laat þig þad af Hiarta angra, og syndga ei hañeñ framar, ad þu ecke uppauser Bruñ Myskunareñar, Eñ giæt þo þess, ad þetta er Evangelium Forlijkunareñar, 2. Cor. 5. Christur er Kieñemadur ad Eilijfu, Heb. 7. Og situr til Fodursins hægre Handar, til ad bidia fyrer oss O aflaataña leaa. JEsus skipade Petre ad fyrergiefa sijnum Broodur Siotijusiñum Sio siñum, Matth. 18. Hygg ecke ad Fader Myskunsemdaña mune vera sijdur nadugur, eñ hañ ætlar til ad þu skuler vera, Sierdeilis þar hañ segier: Vered Myskunsamer, so sem ydar

Fader er Myskunsamur, Luc. 6. eñ brwka samt ecke þessa Guds Naad til Hyrduleysis edur til ad giefa Holldenu Taum. Hæd ecke ad honum sem Augad hefur skapad, og Eyrad hefur plantad, Ps. 94. Og er Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare, Apoc. 2. Þvi hañ lætur ecke ad sier hæda, Gal. 6. Hafe Gud fyrergiefed þier margar Synder, þa vit ad þier er þess vandara. Þeink aa þañ Tijma, hvørsu ad Synden var þier Obæreleg, aadur eñ Gud huggade þig med Evangelio, hun mun þo betur bijta, ef þar kyñe ad koma, ad hañ yrde fyrer Alvoru reidur. Slockved ecke Heilagañ Anda seger Paall Postule, 1. Tess. 5. Giæt ad þvi syndugur Madur, þvi kañ skie, hañ verde ecke so hægt aptur ad kveikia. Siaa nu ertu heilbrygdur sagde JEsus vid hañ, sem hañ læknade vid Dijked Bethesda, Syndga nu ei framar, ad ei hende þig añad verra, Joh. 5. Þu hefur eitt Siñ leiged vid Dijke Guds Naadar, og Eingell hiñs mikla Raads hefur so hrært þad, ad þier vard til Andlegrar Heilsu-Bootar: Siaa til ad þu ei aptur misser Heilsuna og verder so ad kvarta um med þessum Mañe, þad þu aungvañ hafer sem ad kaste þier i Dijked, þegar JEsus er fraa geingeñ. Hafe hañ eitt Siñ wtreked Diofuleñ fraa þier, þa giallt Varhuga vid, ad ei hverfe Satan aptur, og take Sio Anda sier verre, og verde so þitt hid Sijdara, argara hinn Fyrra, Luc. 11. Nu hef eg so med faam Ordum sagt, Brædur mijner, hvilijkt ad sie þad Evangelium, sem Faatækum bodad verdur. Þeñañ Veg gieck JEsus til ad leita ad þeim sem añadhvort Harmþrwngner voru, og syndurkramder i Mootlætenu, edur særder og lemstrader af Tilfiñingu Syndaña. Hañ hafde ecke morg Ord vid hina Bersyndugu i Simons Hwse, hañ took Ordalaust heñar Forsvar aa Hendur, og sagde: Ad heñe fyrergiæfust heñar morgu Synder, af þvi hun elskade mikid, Luc. 7. Hañ skipte ecke morgum Ordum vid hina Bloodfallssiwku, er gieck Bak til vid hañ, og snerte Falld hañs Klæda, hañ sagde alleina: Vertu Hughraust mijn Dootter, þijn Trwa giorde þig heilbrygda, Matth. 9. Hañ hafde og ecke laangordt vid hiñ Limafallssiwka, er þeir lietu sijga ofañ af Þakenu nidur fyrer hañs Blessadar Fætur, hañ reiste hañ strax upp med þessu Huggunar Orde: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Hañ aataldе ei stoorum Hoor-Konuña, til hvørrar hañ sagde: Kona, Hefur nockur fordæmt þig? Eñ hun kvad Nei vid; Þa sagde hiñ eilijfa Giæska: So fordæme eg þig ecke helldur, far burt og syndga nu ej framar, Joh. 8. Eingeñ er þvilijkur Guds Velgiorningur, af ollum þeim Fiolda sem hañs Fodurleg Naad hefur tiaad syndugum Moñum, sem þesse: Eingeñ Hwngradur verdur so feigeñ ad eta, eingeñ Þyrstur ad drecka, eingeñ Nakeñ ad klædast, eingeñ Þreyttur ad hvijlast, eingeñ Utlægur ad naa Lands Vist aptur, eingeñ Sioobrakeñ Landenu, eingeñ Siwkur Batanum, eingeñ Þræll Frelseñu, eingeñ Fiotradur Lausneñe, so sem Faatækur verdur Evangelio, og eirn Syndare sem einskis Von aa nema eilijfra Helvijtis Pijsla, so sem hañ verdur þvi feigeñ seg eg, ad Guds Naadar Lioos skijn i hañs Hiarta, so ad hañ sier med Trwareñar Augum, ad hañs Synder kvittar eru. O HErra JEsu Christe! Þu saklausa

Lamb

Lamb Guds, sem burtu ber allar Veralldareñar Synder; Kieñ þu oss ad þeckia vorn Overdugleik; Drag þu Skijluna fraa vorum dopru Augum, so ad vier mættum siaa vora Blygdan; Straffa þu Syndena i oss, med saňre Ydran og Angre Hiartans fyrer allt þad Illa, sem vier fraa Barnæsku vorre hofum drygt aa moote þier, og þa vier erum so niðurslegner i Hiortum vorum, og þijn vollduga Hond er oss so sterk ordeñ, þa riett oss aptur þijna Naadar Hond, ad vier ei sockvum i Diwp Orvæntingareñar, helldur forlaatum oss þar uppaa, ad þu siert oss af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Bænheyr þad HErra fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Suñudag i Adventu.

Gudspialled, Joh. 1. Cap.

A Þeim Tijma. Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita, ad þeir skylldu spyria hañ ad, hvor ert þu? Og hañ medkieñdest og neitade þvi ecke. Og hañ medkieñdest, segiande: Eige em eg Christur. Og þeir spurdu hañ eñ þa ad, Hvad þa? Ert þu Elias? Hañ sagde: Ei em eg. Ert þu þa Spaamadur? Og hañ svarade Nei, ecke. Þa sogdu þeir vid hañ: Hvor ert þu þa? So ad vier meigum Andsvar giefa þeim er oss wtsendu. Hvad segier þu af sialfum þier? Hañ sagde: Eg em hroopanda Rodd i Eydemorku, greide þier Gotu DRotteñs, so sem sagde Esajas Spaamadur. Og þeir sem wt voru sender, voru af Phariseis. Og þeir spurdu hañ ad, og sogdu til hañs: Þvi skijrer þu þa, fyrst þu ert ecke Christur, eige Elias, og eige Spaamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg skijre i Vatne, eñ sa stood i Mided hiaa ydur, hvorn þier þecktud eige. Hañ er sa sem epter mig muni koma, hvor ed var fyrer mig, hvors Skoo-Þveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara, hinumeigeñ Jordanar, þar sem Johañes skijrde.

## Exordium.

I Þessu Heilaga Evangelio er Tvent sem þarf ad athuga. Þad eina ad Johañes segiest ecke Elias vera, eñ JEsus segier þo um hañ, Matth. 11. Ef þier vilied þad medtaka þa er hañ Elias sa ed koma skal; Og hiaa Matthæum segier hañ, ad Elias komeñ sie, Matth. 17. Þad er añad, ad hañ neitar þvi, ad hañ sie Spaamadur, eñ hañs Fader Sacharjas segier þo um hañ, Luc. 1. Og þu Svéirn munt kallast Spaamadur hiñs Hæsta. Þetta syñest hvort odru gagnstæde

vera; Eñ þess byriar ad giæta, sem St. Petur segier: Ad Spaadoomarner eiga ecke wt ad leggiast epter eigeñ Pootta, þvi þeir eru ecke ad Mañlegum Vilia til vor komner, helldur hafa Guds Heilager Meñ tilkwoder af Heilogum Anda talad, 2. Pet. 1. Og þvi er eingeñ Vegur betre edur beirne til ad leggia þaa wt, helldur eñ sialf Ritningeñ. Hiaa Malach: am Cap. 4. segier Ande Guds: Siaa eg mun senda Eliam Spaamañ til ydar, aadur eñ kiemur sa mikle og hrædelege Dagur DRottens. Sa Elias er nu Johañes i Raun og Sañleika, hañ gieck undañ Guds Foolke i Anda og Krapte Eliæ, so sem Eingelleñ spaade, Luc. 1. Elias var eirn straangur Vandlætare i Guds Stad. Johañes var og Ydranar Predikare. Elias sagde hinum Ogudlega Achab Konunge til Synda siña, 1. Reg. 21. Johañes aatalde Herodem Konung, Matth. 14 Elias upprætte ad miklu Leite Afgudadyrkanena wr Israel, 1. Reg. 18. Uñ Johañem segier Frelsareñ, Matth. 17. Ad hañ mune vidrietta alla Hlute. Elias bodade hiñ saña Guds Veg, 1. Reg. 19. Johañes kom med Veg Riettlætesins, Matth. 21. Uñ Eliam er spaad, Malach. 4. ad hañ mune snwa Hiortum Fedraña til Barnaña, og Barnaña til Fedraña: Og hañ sama Spaadoom þijder Eingell DRottens uppaa Johañem, Luc. 1. Og ad Meñ ecke efest uñ þad, ad Johañes sie Elias sa ed koma aatte, Pa skrifar Matth. 17. Ad þegar Læresveinarner saau aa Fallenu Eliam og Moysen tala vid JEsum, er hañ Forklaarad-est, þa hafe hañ bañad þeim ad segia þa Syn nockrum, fyrr eñ hañ være uppriseñ, Eñ þeir svorudu: Pharisæi segia ad Elias eige aadur ad koma; Eñ hañ sagde: Elias aa ad soñu aadur ad koma og Lagfæra alla Hlute. Eñ eg segie ydur: Ad Elias er allareidu komeñ, eñ þeir þecktu hañ ecke, helldur giordu vid hañ, hvad þeim lijkade. So mun og Mañsins Sonur verda pijndur af þeim, þa skildu Læresveinarner ad hañ talade vid þaa uñ Johañem, segier Matthæus. So er nu Johañes sa riette Elias sem koma aatte; Eñ þo ecke eirn og hiñ same Elias Thesbiter; Og so sem Guds Ande segier, Hos. 3. Ad þeir mune leita sijns Konungs Davids, sem þo er ei añad eñ Christur. So heiter Johañes hier Elias, jafnvel þoott hañ ecke Elias være. Jodru Lage neitar Johañes þvi, ad hañ Spaamadur sie. Hier byriar ad athuga, ad Gydingar hafa aan Efa vered i þeirre Villu, ad Gud munde ecke einasta senda Eliam Thesbiter i eigeñ Persoonu til þeirra, helldur og eirn añañ Spaamañ, lijkañ Moysi, hvad þeir dreiged hafa af sialfs Moysis Ordum, Devt. 18. Er hañ sagde: Spaamañ mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lijkañ mier, honum skulud þier heyra. Hvor Ord alleina eiga uñ DRotteñ JEsum ad skiliast; So sem St. Petur þad wtleggur, Act. 3. Pad maa og raada af Ordum Foolksins, er sagde uñ JEsum, Joh. 6. Pesse er sañarlega sa Spaamadur, sem i Heimeñ koma skal; Edur hvader þad añad, sem stendur, 1. Maccab. 14. Ad Gydingum og Kieñemoñum fyndest ad Simon skillde vera þeirra Hertog: Æveñlega, þar til sa visse Spaamadur kiæme. Vilie Meñ og Grandvarlega athuga Spurn Gydinga, þa er hun

þañ

þañ Veg: Ertu Sa Spaamadureñ? Hvad talad synest uñ einhvorn vissañ Spaamañ, sem þeir væntu epter; Eñ so sem Johañes þvi Riettelega Neitade, ad hañ være Elias epter þeirra Meiningu; So kvad hañ og Nei vid hinu med ollum Riette, ad hañ sa Spaamadur være, sem þeir epter væntu, jafnvel þoott hañ være Spaamadur hiñs Hæsta, so sem hañs Fader Zacharias aadur sagt hafde, og meire eñ nockur Spaamañ ad Christi Vitne, Matth. 11. Og er þetta ad segia uñ Persoonu Johañis. Eñ af hañs Andsvorum, eigum vier Christelega Hoogværd ad læra. Hvar uñ eg framveiges tala vil. Þar til styrke Guds Goodur Ande fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

HJd Fyrsta Andsvar Johañis, er hañ gaf Sendemoñum Gydinga, Er þetta: Eige Em Eg CHristur. Spurn þeirra var þañ Veg. Hvor Ert Þu? Og synest so sem hañ hafe ei viliad bijda epter þvi, ad þeir spyrde hañ ad, HVort Hañ CHRJstur være, þvi hañ hefur aan Efa vitad, ad þess Haattar munde Eyrended vera, Þar fyrer fortekur hañ þad strax, og segier: EJge Em Eg CHRJSTur, og maa þar af siaa, hvorsu añt honum hefur þar uñ vered, ad eingeñ skylde so mikla Hlute uñ sig þeynkia, Hvar fyrer hañ gietur og ecke bundest sijdar i Gudspiallenu, ad tala so Skoreñordt hier uñ, ad aller skilia mættu, Er hañ segier: SA STood i Mided Hiar Ydur, Hvorn þier þecktud Eige, Hañ er sa sem epter mig mun koma, Hvor og fyrer mig var, Hvors Skoo-Pveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspiallamadureñ sem þetta ritar, Hañ hefur so morg Ord hier uñ, seglande: HAñ MEDkiendist Og NEitade Þvi Ecke, Og Hañ Medkiendist, og sagde: EJ EM EG CHRJSTur. Og er þad audsært þar af, ad hañ hefur aa allar Lunder viliad gyrda fyrer þad, ad eingeñ skylde þvilijkar Ofgar i Hug sier leida. Þañ Veg hafa aller Guds Elskendur Lynder vered, ad þeir hafa fyrerorded sig, þa þeir aa einhvorn Haatt hafa orded añadhvort ad nalægiast Gud, Edur og ad þeirra hefur under eins gieted vered og hiñs Stoora Konungs, sem ollu rædur bæde a Himne og Jordu. Heilogum Johañi var þetta nærsta Ettgeingt ad blygdast fyrer sijnum Gude og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimsokte Moodur hañs Elisabeth Frænd-Konu sijna, er hun var Oliett ad honum, þa fagnade hun heñe aa þeñañ Haatt: Hvadañ kiemur mier þad, ad Mooder DRotteñs mijns kiemur til mijn? Luc. 1. Eins var sialf Maria Skape fareñ, er hun sagde til Eingelsins: Eg em Ambaatt DRotteñs, Verde mier epter Orde þijnu. Abraham visse ei hvad hañ aatte af sier ad giora, þegar DRotteñ vyrdte hañ Vidtals, þvi sagde hañ: Eg villde nu giarnañ tala vid DRotteñ Gud, þoott eg sie Dupt og Aska, Gen. 18. Eg vil ei þar uñ tala, hvorsu Postular DRotteñs vordust allre þeirre Lotningu, er adrer synduger Meñ villdu veita þeim, þa þeir kiendu JEsum, edur giordu Kraptaverk i hañs Nafne. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs, þa reiste Postuleñ hañ jafnskioott aa Fætur, og sagde: Statt upp, eg er eirneñ Madur, Act. 10. Þegar Foolked i Lystris sagde ad Guderner væru Moñum lijker ordner, og til þeirra

ofañ-

ofañkomner, Act. 14. af þvi ad Paull reiste hañ a Fætur med einu Orde, er Foothrum- nt var fra Moodur-Lisse, og villdu hafa fært honum og Barnabæ Foorner, þa sunt- ur rifu þeir sijn Klæde, stucku iñ i Mañ-Praungena, hroopudu og sogdu: Pier Meñ, hvar fyrer giore þier þetta, vid erum Meñ, sama Breiskleika og þier undérorpner. Ja, ecke einasta Guds Heilager Meñ og Astviner, hafa hañ veg blygdast fyrer Gude, sem meir eñ skylldugter, helldur og hafa hans volldugu Einglar hid sama giort. Pad ma medal añara lesa, Apoc. 19. Pegar Eingelleñ talade vid Johañem, þa skrifar hañ a þeñañ Hatt: Og eg fiell fram fyrer hans Fætur ad tilbidia hañ, og hañ sagde vid mig: Sia ad þu giorer ei þetta, eg em þiñ Med-Pienare og Brædra þiña, þeirra er hafa Vitnisburd añ JEsu, tilbid þu Gud. Hafe nu Guds heilager Meñ og Post- ular, hafe Johañes Baptista, um hvorn Sañleiks Muñureñ vitnar, ad eingeñ sie mei- re af Kviñuñe fæddur, Matth. 11. Hafe hañs blessud Mooder, sem hina mestu Tign hefur af Gude þeiged allra syndugra Maña, sem borner eru i þeñañ Heim: Hafe Guds heilager Einglar, sem eru alldeilis an Syndar: Hafe þesser, segie eg, so audmykt sig fyrer hañs Hatign og Vellde, hvad miklu framar byriar þier þa syndugur Orm- ur, ad audmykia þig under volldug Guds Hond, sem allur ert i Synd, og ecke eitt Augnablik lifer an Syndar i hañs Auglite. Hafe Sonureñ giorst Fodurnum hlijd- eñ allt til Daudaña, ja, allt til Krosseñs Dauda, Phil. 2. Ef St. Paull, 1. Cor. 15. segier: Ad a sijdarsta Deige, þegar hañ afhender Rijked Gude og Fodur, þa mune hañ (þo epter Mañdoomenum) Undergiefeñ verda honum, sem alla Hlute giorde honum undergiefna, ætter þu þa ecke ad skamast þijn ad standa upprietur i hañs Auglite, þu sem optsiñis ert Ohlijdugur, Yverbroteñ, Toomlatur, og forsmaaer hañs myklu Myskunseme, sem Daglega er nij og ferst yfer þier a hvorium Morgne, Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmijkt sig fyrer Gude? Þvi þeir elskudu hañ. Þvi hafa þeir hañ elskad? Þvi þeir þecktu hañ. Þvi þecktu þeir hañ? Þvi þeir lærdu fyrst ad þeckia sialfa sig. Hvad þecktu þeir hia sialfum sier? Eckert nema Eymd og Volæde. Hvad hia Gude? Eckert nema Dijrd og Vegsemd. Gior slijkt hid sama og muntu fiña, Hvorsu ad þu ert miña eñ eckert i Guds Auglite. Ber þig samañ vid hañ, Þott nockud Olijkt sie samañ ad bera, og næsta sundurleitt, Gior þad þo, þvi slijkur Samburdur mislijkar honum ecke, Ef hañ mætte duga þier til ad kañast vid Eymd þijna og hañs Dijrdarfulla Hatign, Hvoria þo Daudlegur Madur alldrei kañ ad þeckia so sem hun er. Judar spurdu Johañem ad, HVOR ERT ÞU? Ef þu spyr ad hvor Gud sie, Þa verdur ei svarad, nema med hañs eigeñ Ordum: Gud er eirn Ande, Joh. 4. þo ecke so sem adrer Andar, helldur Fader Andaña, Hebr. 12. Og svo Dijrdlegur, ad honum ma vid aungvañ Hlut samlijkia, Esa. 40. Um hañ verdur ei nær komest ad tala, eñ med þeim Ordum, er under eins medkieña Fafrræde vora til ad utmaala hañs Dijrd, sem er, ad hun sie Omælañleg, Oendañleg, Oransakañleg og Oútsegjañleg. Eñ spyr sialfañ þig ad, Hvad ert þu? J Fyrstuñe eckert, og sijdañ Leyr

Jard-

Jardar, sem Gud skoop hiñ Fyrsta Mañ af, Gen. 2. Gud er Eilijfur, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, Apoc. 1. Eñ hvor ert þu? Nockurskonar Gufa, er siest um Hrijd, eñ hverfur sijdañ, Jac. 4. Gud er Omælañlegur, Hañ uppfyller bæde Himen og Jord. Þad vottar Zophar af Naema, segiande: Job. 11. Muntu med Huganum gieta komest ad Stærd hiñs Almaattugg, Hañ er hærre eñ Himeneñ, og diwpare eñ Helvijte. Eñ hvor ert þu? Mæl sialfañ þig, sem ert faarra Foota Leingd, Og megnar ecke med allre þiñe Ahyggiu ad auka eirnre Aleñ þar vid, Matth. 6. Gud er Alvitur, Aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum, Hebr. 4. Eñ hvor ertu? Þu veitst ecke hvad a Morgun mune skie, Jac. 4. Gud er Almaattugur, hia honum er eingeñ Hlutur Omaattugur, Luc 1. Eñ hvor ert þu? Þu formaatt ecke ad giora eitt Hviitt Haar Svart a þijnu Hofde, Matth. 5. DRotteñ er Riettlaatur og goodur, segier David, Psalm. 25. Og so sem hañ er i sialfum sier, so er hañ i sijnum Verkum. Eñ hvor ert þu? Þiner Þankar eru vonder i fraa Upphafe, Gen. 8. og so eru þijn Verk, Þvi þar er eingeñ sa ed gott giere, og ecke eirn, Psalm. 14. Gud er Sañordur, oll hans Bodord eru Sañleike, segier David, Ps. 119. Ef vier Otrwer erum, þa er hañ trwr, Sialfum sier kañ hañ ecke ad neita, segier Paall, 2. Tim. 2. Eñ hvor ertu? Spyr St. Paal ad, hañ mun svara þier, Rom. 3. Verde Gud Sañordur, eñ aller Meñ Lygarar. Hvad virdest þier nu syndugur Madur? Muntu ecke, þegar þu so helldur Reikning mille Guds og þijn, munt þu ecke (segie eg) fulla Orsok hafa til ad skamast þijn fyrer hañs Auglite, sem þier so miklu Maattkare, miklu Ædre, miklu Betre, miklu Riettlaatare er, og i einu Orde ad segia, hia hvorium þu ert miña eñ ecke neitt ad reikna; Og fyrer utañ allt þetta, Þa hefur hañ þig so Aumañ, so Faraadañ, so Vondañ og Onoogañ sialfum þier um alla Hlute, upp ur Þrecknum hafed, og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Eñ lijtelæckad hañ, og giort þier ad ollu Samlijkañ, Hebr. 2. Ad þvi einu undañteknu er hañ var straffadur fyrer, eñ þu ert frelsadur fra, sem er Syndeñ, Hebr. 5. Fyrer hvoria hañ er deyddur, Eñ þu fieckst Lijfgiof fyrer hañs Dauda. Þvi skyllder þu þa Aumastur allra skapadra Hluta Guds a Jorduñe, Skyllder þu (segie eg) stæra þig edur metnast i Hiarta þijnu, so sem værer þu nockud, fyrer utañ Gud, Og ei miklu helldur med Audmykt þijns Hiarta, Þacka honum þess iñelegar, sem hañ hefur giefed þier meira Vit a ad þeckia þad, og meira til þijn laat eñ allra añara. Eirn Guds Eingell hefur honum meira ad þacka fyrer hiñ miñsta Dropa hañs Giæsku, er hañ hefur til hañs lagt, helldur eñ allar skynlausar Skiepnur, fyrer oll Naatturuñar Giæde og Skepun allra Hluta. Eñ þu syndug Mañeskia hefur meira af honum þeiged i hinum minsta Naadar-Mola Andlegra Giæda, helldur eñ allar Einglaña Hersveiter i ollu þvi sem ollum þeim er tillagt, Hvar fyrer? Þvi ad til þess, ad þu lifa skyllder Fyrer Naad Guds, hefur hañ laated Son siñ ecke Einglaña, helldur Abrahams Sæde uppa sig taka, Hebr. 2. Og giort þitt Holld sem hañ uppa sig took Einglum m so miklu ædra, sem hañ hefur framar þeim ædra Nafn odlast, Hebr. 1. og laated hiñ lifs

anda Gud i Mañlegu Hollde deya Mañlegum Dauda, so þu mætter Gudlegu Lijfe lifa, þvi hefur hañ so miklu meira til þiñar Upphefdar uñed eñ til Einglaña, sem JEsum hañs Son hefur meira kostad ad Endurskapa þig, helldur eñ alla Einglana ad skapa, fyrer þvi ættu honum so miklu meira ad þacka eñ þeir, sem hañ hefur meira uppæ þig kostad, Eñ hvar med villtu honum þacka? Ecke etur hañ Kiøt Hafraña, Edur dreckur Blood hiña feitu Uxaña, Psalm. 50. Offra honum Lofgiørdeñe, og giallt honum þijn Heit, þad er audmiwkur Ande og sundurkramed Hiarta, hvort hañ mun ecke fyrerlijta, Psalm. 51. Þu kant ad segia, Eg jafna mier ei samañ vid Gud, Ei hef eg mig upp æ moote honum, Eg veit, Eg æ honum allt gott ad þacka, og ef hañ vill Doom hallda vid mig, þa hefur hañ Vallo til ad kasta Lijfe og Sæalu i eilijfañ Elld, Matth. 10. Þu segier vel, þvi allt þetta er meir eñ satt, Eñ rañsaka Hiarta þitt vel, hvort Hugur hefur alltijd fylgt Mæale; Hefur þu audmykt þig so fyrer þijnum Gude sem byriad hefur, bæde med Orde og Verke? Ef hañ er þiñ Fader, Hvar er þa hañs Heidur? Giæt ad þvi JEsus segier, Matth. 21. uñ þañ Son, er Fadereñ skipade ad erfida i Vijngardenum, Og hañ kvad jæ vid, Eñ foor þo hvorge, Þad er ecke nooa ad nælægiast hañ med Vorunum, Ef Hiartad er læangt þar fræ. Vier segiunst aller eiga ad elska Gud fram yfer alla Hlute, Og þad er þad saña Audmyktar Merke ad elska hañ, Eñ Gud næde hvorneñ þad efnt er, þar vier læatum oss æ Stundum alla Hlute skylldara vera eñ hañs Dijrd. Þegar Hollded og Andskoteñ freista þijn til Syndareñar, eñ þier kiemur þa i Hug, ad Gud hafe þad bañad, Samt hlijder þu Holldenu i þess Gyrndum, og lætur Syndena i þvi drottna, Rom. 6. Er þad ecke ad upphefia sig æ moote Gude, og meta framar þess Munad eñ hañs Bodord? Hvorier erum vier þa æ medañ? Ecke Guds Þioonar, helldur Prælar Syndareñar, Þvi hvor hañ Syndena æfer, hañ er Præll Syndareñar, segier JEsus, Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skielfast hañs Ogurlega Nafn, Eñ Meñ vanbrwka þad æ Stundum, til ad Linga, Stela og Svijkia. Hvorier erum vier þa? Þeir ad vijsu, fyrer hvorra Skulld Guds Nafn lastad verdur medal Heidingiaña, Rom. 2. Vier segiunst vera skyllduger ad hlijda hañs Orde, og giora þar epter, eñ Meñ daufheyrast þar vid, sitia under eirne Predikun Hyrdulauser, og gæanga þadañ Avaxtarlauser, og sumum mæa valla þæangad koma, sem þad er uñ Hond hast. Hvad erum vier þa? Forgleimañleger Tilheyrendur, eñ ei Giørendur Ordsins, Jac. 1. J Krosse og Mootgæange siest allra best Audmykteñ fyrer Gude. Sæa audmyker sig riettelega under hañs Vollduga Hond, er kysser æ Vond DRottens med Packlæte. Þvi hañ er hañs sañur Læresveirn: Eñ þar vill a Stundum nærsta miøg afbera, þar Meñ eru Oþoleñmooder under DRottens Krosse. Sumer skioota sier undañ hañs sæta Oke æ allar Lunder med Oleyfelegu Moote, og leita þerra Bra. da er Gud bañad hefur. Er slijkt ad audmykia sig fyrer Gude? Fiærre fer þvi. Hvorier erum vier þa? Lijker þeim er lijda, so sem Þioofar og Mordingiar, edur þeir sem falla iñ i añars Embætte, 1. Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmykt fyrer Gude,

Ef

Ef vier vilium eckert þola hañs vegna? Og so sem vier erum nu skylduger að allar Lundꝛ er ad audmykia oss fyrer Gude vorum Skapara, So vill hañ og ei helldur ad vier skulum forsmaa vora Brædur i Heimenum, Þvi hvor hañ seigest elska Gud, eñ hatar siñ Broodur, Hañ er Liwgare segier Johañes, Þvi ef hañ ecke elskar siñ Broodur, hvorn hañ sier, Hvorneñ maa hañ Gud elska, þañ hañ sier ecke, 1. Joh. 4. Nu er eckert Verkfære Kiærleikans handhægra eñ Lijtelæted, Þvi þad verdur af ollum elskad: Og med þvi dregur Kiærleikureñ alla til sijn, þa sem ecke Kiærleikañ hata, Þess vegna segier Paulus uñ Dygd þessa, Kiærleikureñ er ecke mikelaatur. Hañ þijtur ei upp, hañ leitar ecke epter þvi sem hañs er, 1. Cor. 13. Og Sokum þess ad hañ visse, ad Lijtelæted var Band Kiærleikans, Þa bijdur hañ Christnum Moñum, ad þeir hafe hvor añañ sier i Virdingum ædra, Phil. 2. So hefur og JEsus laated ollum sijnum Læresveinum þad Bodord epter, Hvor sem vill stoor vera ydar a mille, Hañ sie hiña Þienare, Matth. 20. Hefde Johañes vered ægiarn Hiegooma Dijrdar, þa hefde hañ ecke neitad þvi, ad hañ Elias edur Spaamadur være, þar hañ maatte þo hvorutveggia uñ sig jaata, Þviad þad Eina vitnar Christur, Matth. 11. uñ hañ, Eñ Añad hañs Fader Zacharias, Luc. 1. sem aadur er sagt, Og allt Foolked hiellt hañ fyrer Spaamañ, Matth. 21. Eñ hañ villde a moote hvorugu taka, So hñ giæfe Gude einum Dijrdena. Ecke Olijkur i þessu sijnum HErra, hvors Eingell hañ var, Mal. 3. Hvor þa hañ var af hinum Skriftlærda kalladur goode Meistare, Svarade hañ: Hvad kallar þu mig Goodañ? Eingeñ er Goodur nema Gud eirn, Marc. 10. Ecke neitade HErrañ þvi ad hañ Goodur være, Villde þo ecke þiggia þañ Titel af hañs Muñe, er hañ so kallade epter sijnum Þanka, þad er eins Goodañ og Pharisæi voru, hvoria Foolked kallade Gooda, af þvi þeir gaafu so miklar Olmusur, Eñ Saduceos Riettlaata, af þvi þeir gaafu eckert epter, tooku ei helldur neitt Rangleglega fraa neinum. Hvar til St. Paall sijnest lijta, Rom. 5. Er hañ segier, ad valla mune fiñast nockur saa ed fyrer Riettlaatañ deyr, Þvi kañ skie einhvor findest saa ed dæe fyrer hiñ Gooda. Þañ Veg forsmaade Christus og hañs Eingell Johañes faanijta Virdingu Heims þessa, Og ei var St. Paall odruvijs Lyndur er hañ segier, 2. Cor. 12. Ef eg hroosade mier, Þa være eg þo eingeñ Daare, Þvi eg skal satt segia, Eñ eg hlijfest vid þad, So ad eingeñ þeinke uñ mig fram yfer þad sem hañ sier mig vera, edur heyrer af mier.

Johañes segier hier i Gudspiallenu: GReide ÞJer GÖtu DROTTeñs. Ord þau eru tekeñ af Esajæ Spaadooms Bookar 40. Cap. þar ed so stendur: Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemorku, Greide þier Gotu DRottens, Og giored slietta Vegu Gude vorum i Obygdeñe. Þegar Meñ ridia eirn Veg og giora hañ færañ, taka Meñ i burtu Stoor-Grijte og allar Ojofnur, so greidt verde uñ ad fara. Þsse og Hroke Veralldar þessarar eru Torfærur þær sem Guds Veg hindra i Mañsins Hiarta. Hvadañ kiemur Strijd og Baraatta Maña a medal? Hvadañ kiemur Ofund og Ulfbwd, Hvadañ vex Ayg, Reide og Præta, Hvadañ uppstijgur Agyrne og Fiedraattur, hvad-

Hvadañ framkiemur Mord og Mañslag, Hvadañ er þad ad Meñ Toñlast og Tiggiast Iñbyrdis, þar til þeir um̃ siider mættu verda uppetner? Zach. 11. Kiemur ecke allt þvilijkt af hiñe bolvudu Drambseme, er Satan iñræter i Mañaña Hiortu? Hvorneñ æ Zions Konungur ad rijda um̃ slijkañ Veg, Pegar sæ DRottnareñ kiemur til sijns Musteris? Mal. 3. Sem er Mañsins Hiarta. Peir breiddu sijn Klæde æ Veigeñ fyrer hañ, þegar hañ siidarst iñreid til Jerusalem, og dreifdu Kvistum Triaña æ hañs Gotu, þad var Audmijktar og Fridar-Merke, Pvi æ og i burtu ad ridia Stoor-Grijte Drambsemeñar og Offstopans af hañs Leid, ecke med Lijkamlegum Verkfærum, helldur med Guds Orde, um̃ hvort Pall skrifar, 2. Cor. 10. Ad Vopn Herfarar vorrar sieu ei Lijkamleg, helldur kroptug fyrer Gude, nidurbriootande Hugreñingarnar, og allar Hæder sem ad upphefiast æ moote Guds Peckingu: Eñ hvoriar munu þær Hæd er vera? Pad eru medal añara Fioll Drambsemeñar, Pvi eckert mootstrijder sañre Guds Peckingu meir eñ Peckingarleyse sijns eigeñ Overdugleika, sem er Mooder Drambsemeñar. Pvi segier Rodd Hroopandans, ad aller Daler skule upphefiast, og oll Fioll og Hæalsar nidurþryckiast. Hvad er þad añad eñ þad sem Guds Mooder siingur i Lof-Kvædenu, Luc. 1. Dramblaatum hrinder hañ af Stoole, eñ upphoof Lijtelaata. Og þott ad þesse Hroopandans Rodd, Spaæe sier i Lage um̃ Guds Raad i Evangelio, og Lagfæring allra Hluta fyrer Christum, Hvorrar Frumkvodull Johañes var, Pa mæa eg þad vel heimfæra uppæ þetta Efne, Pvi Fætækum, þad er Andlega Voludum, og Audmiwkum i Hiarta verda Gudspiolleñ bodud, og þad ecke siidst vegna þeirra Orda er hier standa skom̃u siidar i þessum 40. Cap. Esajæ, æ þeñañ Hætt: Par er Ein Rodd sem segier: Predika þu, og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey og allt þess Agiæte so sem Bloom Akursins: Grased uppþornar og Bloomstred fellur af, þa Ande DRotteñs blæs æ þad, jæ, Foolked er Hey. Hvar er þa segied mier, hvar er þa allt vort Atgiorfe? og allt þad Meñ dramba af i Heimenum? Er þad Audur og Rijkdoomur? Fallvallt er þad, og giorer margañ vondañ, þad aflast med Ahyggiu, eñ tapast med Sorg. Og nema Meñ giore so sem Jacob bijdur þeim Rijku, Cap. 1. Ad hroosa sier i siñe Lægingu, þa er þad Volædenu verra. Er þad Metord og Virding ar? Eñ David segier Madureñ blijfe þo ecke leinge i Heidrenum, Ps. 49. og Prældoom ur eru þau Reyndar. Er þad gofugt Forelldre og Affspreinge? Eñ vier erum þo aller af Adam kom̃ner: Hañ var Utlage Guds wr Paradys: Fyrer hvoria Sok, er oss alkuñugt, Gen. 3. Fegurd og Prijde Lijkamans? Pad er fallvallt, þvi Bloomstrid fellur af segier Esaias i 40. Cap. Eitn Siwkdoomur fær þvi ollu um̃breitt: Pvi þegar þu rymar DRotteñ, þa folnar oll þeirra Fegurd Ps. 39. Fagur Bwnadur og skrautlegt Klæde? Pad sagde eitn af þeim Gomlu, ad være eins og ef Pioofureñ stærde sig af Snorañe. Proottur og Styrkleike Lijkamans? Eñ Hestureñ er eñ þa sterkare, þvi skylldu Meñ þa ecke hañ virda. Eñ hiñ Almaattuge hefur ei Lyst æ Styrkleika Hestsiñs, edur æ Footleggium Mañsins. Hiæ DRottne eru þeir aller vel þockader, sem

hañ

hañ Ottast og til hañs Myskunar vona, Ps. 147. Hvad er þa framar, sem Madur, eñ kuñe so ad metnast af? Kuñatta og Vijsdoomur er mest tignad i Heimenum, og er hin œgiætasta Guds Giof, eñ so er hañ bestur, ad hañ sie med Guds Otta kriddadur, þad vottar St. Jacob, Segiande: Ef nockur er vijs, edur med Skynseme gæfadur medal ydar, þa auglyse hañ Verk sijn i goodre Umgeingne med skynsamlegu Hooglæte, Cap. 3. Og hvad eru aller vorer Vitsmuner fyrer utan þetta? Paall segier, ad þeir sieu Haalfverk, 1. Cor. 13. Og hvad meira er, ad þeir eru einskis verder, og jafnvel skadleger, nema þeim Guds Otte og Kiærleikureñ fylge. Þvi segier Postuleñ eñ aptur, 1. Cor. 8. Ef einhvor þykest nockud vita, þa veit hañ þo eñ nu eckert, so sem vita byriar, Eñ ef nockur Gud elskar, hañ er fæddur af honum. Og þoott ad Skynsemeñ og Vitsmunerner sieu ein sw hin besta Guds Gaafa, er hañs Giædska hefur sæmt oss med, þa verdur heñe med Drambsemeñe so spillt, ad huñ verdur Ovite argare, þvi segier Paulus, 1. Cor. 3. Eingeñ ville siaalfañ sig; Ef nockur þykest vitur vera medal ydar i Olld þessare, hañ verde heimskur so hañ vitur verde. Þar skilst mier Postuleñ meine, ad hañ skule giæta ad hvad lijted hañ veit, so hañ stære sig ecke, þvi Skynseme Veralldar þessarar segier hañ, er Heimska hiaa Gude, 1. Cor. 3. Nu þo ad allar þessar Guds Gaafur sieu harla goodar, ef þær eru riett brwkadar, þa er samt þess ad giæta, ad þad er ecke vort eiged, og hañ aa frialst, sem þad allt liente, ad taka þad fraa oss aa hvorium Tijma, sem vier þad vanbrwkum. Af ollu þessu siaaum vier, hvad lijted ad þad sie, er daudleger Meñ brwka til Stærelætis, giætande ecke þess, ad Virdingeñ elltꝛ er þañ, sem hana flijr, eñ flijr fyrer þeim hana ellter, ef ei añarstadar, þa hiaa Gude. Postuleñ segier til Gal. 6. Ef nockur þykest vera nockud, þar hañ er þo eckert, hañ viller sitt Hiarta; Eñ ef vier eckert erum, þvi vilia Meñ þa krefia þess, so sem añarar Vitaskulldar, ad vier sieum virdter af Moñum. Eige segie eg þad, ad þeim skule ei Heidur veita, er Heidur heyrer, Rom. 13. þvi þad er Guds Bod. Hitt segie eg, ad þeir sem vid eiga ad taka, skule ecke una þvi Illa, þoott af slijku meige bera aa stundum, þvi sa sem jaatar fyrer Gude, þad hañ eckert sie i hañs Auglite, og þad af Alvoru og Hræsnislaust þa sie eg ecke ad hañ þurfe meir ad syrgia fyrer Virdingu siñe, helldur eñ hiñ, sem ecke er eñ nu fæddur. Hiaa oss er eckert gott, þvi skylldum vier stæra oss? Hiaa oss er margt Illt, þvi skylloum vier ei Skamast vor? Oss kañ margt illt til ad falla, þvi skylldum vier ecke jafnañ hrædder vera? Oss kañ siaalfa margt illt ad henda, þvi skilldum vier ecke jafnvel hrædast oss siaalfa og leggia af ad forlaata oss uppaa þad sem eckert er? Ef vier jaatum þad fyrer odrum ad vier eckert sieum, og meinum þad ecke, þa svijkium vier adra. Eñ ef vier meinum þad og þeckium þad sem vier vel meigum meina og þeckia, eñ hegdum oss ecke þar epter, þa svijkium vier siaalfa oss. Gud sa sem er allt i ollu, 1. Cor. 15. Hañ lijtelæckade sig þiña vegna, Syndugur Madur, og þu sem ecke ert neitt i neinu, villt ecke brioota Odd af Oflæte þijnu hañs vegna, Gud, segie eg eñ nu, lijtelæckade sig til ad verda Madur, eñ Madureñ vill þo ecke lijtelæcka sig til þess, ad verda eirn Ande

med Gude. Þess meir sem þu audvirder þig fyrer Gude, þess meire verdur han̄ i þier, og þess stærre sem han̄ i þier verdur, þess verdur þu stærre i honum, þvi Gud mootstend-ur Dramblaatum, en̄ Lijtelaatum giefur han̄ Naad, segier Jacob, Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur ægiætt kallast, þad er alleina stoort og ægiætt i Gude, og fyrer utan̄ han̄, alldeilis eckert. Hvar fyrer Paall segier: Hvør han̄ hroosar sier, han̄ hroose sier i DRottne, 2. Cor. 11. Þar fyrer, nær sa Guds Madur hefur upp taled allt þad er adrer reiknudu sier til Gylldis, sem er, ad han̄ være Hebreskur eins og þeir, Israels Madur eins og þeir, Abrahams Sæde eins og þeir, Christs Þienare en̄ framar en̄ þeir, Han̄ hafe erviðad meir en̄ þeir, optar i Hæska vered en̄ þeir, þa endar han̄ med þessu Atkvæde: Ef hroosa skal, þa vil eg hroosa af þeim Hlutum er Veikleika mijnum viðkoma, 2. Cor. 11. Og en̄ framar segier han̄, Cap. 12. Eg mun miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanum, so ad Mættur DRottens bwe i mier, þar fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanum, J Forsmææneñe, J Naudunum, J Offsooknunum, J Angistenē fyrer Christum, þvi þa eg er veikur, þa er eg Mættugur. So er þar nu eingen̄ Rijkdoomur, eingen̄ Styrkleike, eingen̄ Heidur, eingen̄ Fegurd, eingen̄ Skynseme, eingen̄ Mættur, eingen̄ Dijrd, eingen̄ Prijde nema i Gude alleina, og eckert þad Men̄ kun̄e ad vegsamast fyrer, nema einsomul og hræsnislaus Audmykt fyrer honum. Þvi vil eg enda þetta mitt Tal til ydar Guds Børn med Paals Ordum, af Pistlenum til Gal. 6. Þad verde mier ecke, ad eg hroose mier nema af Krosse DRottens vors JEsu Christi, fyrer hvørn mier er Heimuren̄ Krossfestur, og eg Heimenum. Honum DRottne JEsu med Fødur og Heiløgum Anda, Einum og Þren̄um Odauðlegum Konunge, og alleina Rijkum, sie Lof og Heidur, Kraptur og Styrkleike, Æra og Vegsemd, søgd og sungen̄ af øllum Tungum Eingla og Man̄a, nu hiedan̄ i fraa og ad Eilijfu, A M E N.

# A Joola-Dagen̄,

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

J Þan̄ Tijma. Og þad bar til aa þeim Døgum, ad þad Bod gieck wt fraa Keysaranum Augusto, þad Heimuren̄ allur skyllde Skattskrifast. (Þesse Skattskrift hoofst fyrst upp þa Cyrenius var Landstioornare i Syria.) Og þeir fooru aller ad laata Skattskrifa sig, hvør til sin̄ar Borgar. Þa foor og Joseph af Galilæa wr Borgen̄e Nazareth, upp i Judeam, til Davids Borgar Bethlehem, af þvi ad han̄ var af Hwse og Kyne Davids, so ad han̄ liete Skattskrifa sig þar med Mariu sin̄e Festar-Konu Oliettre. En̄ þad skiede so, þa er þau voru þar, ad þeir Dagar fullnuðust, ad hun skyllde fæda, og hun fæddé sin̄ Frumgieten̄ Son, og vafde han̄ i

Reifum, og lagde hañ nidur i Jotuna, þviad hun fieck eckert añad Rwm i Giesta-Herbergenu. Og Fiaar-Hyrdarar voru þar i sama Bygdarlage um Grandana vid Fiaar-Hwseñ, sem geymdu og voktu yfer Hiord siñe um Nootténa. Og sia þu; Pad Eingell DRottenꝰ stood hia þeim, og Guds Byrte lioomade i krijngum þa, og þeir urdu miøg Ottaslegner. Og Eingelleñ sagde til þeirra: Hyrded þier ecke ad hrædast. Siaied, Eg boda ydur mikeñ Fognud, hañ er skier ollu Foolke, þviad i Dag er ydur Lausnareñ fæddur, Sa ad er Christur DRotteñ i Borgeñe Davids. Og hafed þad til Merkis, ad þier munud fiña Barned i Reifum vafed, og lagt vera i Jotuna. Og jafnsnart þa var þar hia Einglenum mikell Fiolde Himneskra Hersveita, sem lofudu Gud og sogdu: Dijrd sie Gude i Upphædum, og Fridur a Jordu, og Moñum goodur Villie.

## Exordium.

SKiesfeleg Ognan munde Vesolu Mañkyne hafa staded af þvi hrædelega Straffe med hvoriu hiñ Riettlaate Gud fargade hiñe Vantrwudu Verolld a Dogum Noa, nema hañs Giædska hefde giort Saattmaala vid Mañkyned, ad hañ framar ecke villde Eydeleggia Jordena med Vatns-Floodenu, og þessu til Merkis sett Bogañ i Skijeñ, Segiande: Pegar þesse Boge verdur i Skijenu, þa vil eg miñast a Saattmaalañ a mille Guds og allra lifande Skiepna, af ollu Hollde a Jorduñe, Gen. 9. Med þessum Hætte lijste hiñ Naaduge Gud Fride yfer Jorduñe og þeim þar iñe bwa. Og er þad vijst, ad hañ hefur lited under eins til þeirra, sem a hañs Eingietens Sonar Nafn trwa mundu. Fiærre sie þvi, ad Regn-Bogeñ kyñe þvi ad vallda, ad Gud yrde Mañenum Naadugur, ei helldur þurfte hañ ad lata miña sig a þad hañ giora villde, jafnvel þoott Ritningeñ so tale ad Maña Plagsid; Aller Hluter eru opner og nakter fyrer honum, Hebr. 4. Eñ þar JEsus situr til hañs Hægre Handar, og hañ sier þar Lioomã siñar Dijrdar og Imynd siñar Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Voru Hollde Iklædda, og bidiande fyrer oss, þa maa hañ ei añars eñ myñast siña miklu Miskunsemda, sem vered hafa i fra Upphafe, sijdañ hañ lofade ad Kviñuñar Sæde skyllde sundur mola Hogaormsins Hofud, Gen. 3. Bid þier eins Teikns af DRottne þijnum Gude, sagde DRotteñ til Achas, hvort helldur þad er nidre i Under-Dimpunum edur a Hædum uppe: Eñ hañ sagde: Ei vil eg þess bidia, so eg freyste ecke DRottens; Pa saade Spaamadureñ: So heyred þier þa af Hwse Davids, Hvort er þad Oflijted, ad þier þiaed Meñena, þad þier eirneñ vilied æingra miñ Gud? Fyrer þvi mun DRotteñ sialfur giefa ydur eitt Teikn; Sia þu Ein Jomfrw mun Barn Gieta, og eirn Son Fæda, og hañ mun

hun

hun kalla Jmmanuel, Esa. 7. Þetta er Teikn hinns mikla Guds og DRottenns vors JEsu Christi, hvør ad er Eingell Saattmaalans a milliu Guds og Manna, Mal. 3. Hann er øllum til Merkis settur, ecke i Skijum Himens, helldur fæddur af eirnre Jomfrw, a medal vor hier a Jordunne, til Stadfestu þar um, ad þeir fære aller Kvittun Syndanna sem a hanns Nafn trwa, Act. 10. Sæl eru þau Augu, er siaa hvad þier siaaed, sagde Endurlausnarenn vid sijna Læresveina, Luc. 10. Enn ecke talade hann alleina umm þad, ad lijta sig og heyra med wtvortis Skilningarvitum; Marger saau hann og hneixluduzt a hønum, þeir saau hann, og þar var eckert gyrnelegt a hønum, Esa. 53. Þeir saau hann og byrgdu fyrer Siooner hønum, Luc. 22. Þeir saau hann og hræktu i hanns Andlit, Matth. 26. Þeir saau hann, og saau under eins sijna Villo a hønum. Enn so sem Gud sette sinn Boga i Skijenn til þess, ad hann være Naadar-Teikn øllum Mønnum; Og hefur hann þo sialfum sier geimt ad straffa þeirra Oguðlegt Framferde, sem hanns Naad forsmaadu, so hafa þeir marger sied Christi Piioons Mynd hier i Naadenne, er siaa munu hann Reidann og Ognarlegann, þegar hann kiemur i Skijum Himens med Makt og miklu Vellde, Luc. 21. Enn ef vier vilium vita umm hvoria Sioon hann talar, þa heyrum hvad hann sagde vid Thomas Postula, Joh. 20. Af þvi þu saast mig Thoma, þa trwder þu; Enn Sæler eru þeir sem ecke siaa, og trwa þo. Þad er ad siaa JEsum Christum Guds og Mariu Son, voru Hollde klæddann, med Augum hinns Jnra Manns, oss til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar giefenn, 1. Cor. 1. Oss segi eg, sem ad i Syndenne erum gietner, og i Syndenne fædder, Ps. 51. Reidennar Børn, Eph. 2. Og Guds Oviner af Naatturunne, Rom. 5. Þesse Dijrdarfulla Sioon verdur ydur og øllu Mannkyne frambodenn i Lof-Saung Heilagra Guds Eingla þar þeir sijngia: FRidur A Jerdu, Og Mønnum Goodur Vilie.

Og vilium vier a þessum Haatijdes Deige, þesse H. Ord nockud giør yfervega, og af þeim Hugleida, hvorsu Gledelegur ad þesse Fridur sie, og hvornenn vier eigum hønum ad taka.

Til þessa Eyrindis Framkvæmdar virdest ad hiaalpa oss vor Nijfædde Jmmanuel, Fyrer Krapt sinnar Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

Hvad mun þvi vallda Brædur mijner, ad hiner Himnesku Andar eru so glader a Fædingar-Noottu Mannkynsins Endurlausnara? Ecke þurftu þeir Frelsis vid, þvi þeir høfdu ecke syndgad. JEsus hafde Abrahams og ecke Einglanna Sæde yppa sig teked, Hebr. 2. Hvad mun þa vallda Gladværd þessare? Guds Sonur er ad sønnu þeirra HErra, Eirnenn epter Manndoomenum, Hefde hann beded sinn Fødur, þegar hann var i sinne mestu Angist staddur vor vegna, þa munde hann hafa giefed hønum meir enn Toolf Legion Eingla, Matth. 26. Einglar komu og þioonudu hønum, þa hann var hart nær yfer kiefenn, Og so ad segia Andskotanum Ofursellður, Þad hann freistadur yrde, Matth. 4. Fyrer þvi var þad ecke ad undra, þoott þeir gladst hefdu, ef hinum Nijfædda

Syne

Syne Guds hefde nockur Heidur edur Upphefd hlotnast, Eñ þad mætte ecke so kalla, þvi Paulus talar so hier um̃, Phil. 2. Ad hañ hafe lijtelæckad sialfañ sig, takande a sig Þioons Mynd, og ordeñ Moñum lijkur. Þad Fyrsta hañ sa þessa vesæla Heims-Lioos, var hañ lagdur i Eirn Stall, Luc. 2. Og skomu þar epter vard hañ Landflootta, Matth. 2. Oa um̃ allar sijnar Æfe-Stunder hafde hañ ecke þar hañ kyñe Høfde sijnu ad halla ad, Matth. 8. Þvi sijnest so sem ad hañs Kiorum være ecke so miøg ad fagna i þetta Siñ. Hvad þa, Brædur mijner? Vier vitum epter St. Pauls Muñe, ad Einglarner eru þioonustusamer Andar, utsender þeim til Þioonkunar, er Saaluhiaalpena erfa skulu, Hebr. 1. Og þott ad vier sieum Vesæler og synduger, þa er þo meire Glede hiaa þeim i Himnenum, yfer Einum Syndugum, sem Ydran giorer, helldur eñ yfer Nfiju og Nijutiju Riettlaatum, Luc. 15. Þar af er audsært, ad þessar Guds Hersveiter hafa so teked Astfoostre vid oss auma Meñ, þott vier sieum þeim ad øllum Edlishaattum Olijker, ad þeir glediast yfer sierhvoriu þvi Happe, er nockur af oss hlijtur; Eñ ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre, Þvi mundu þeir þa ecke Veniu framar lijsa þessum Fegnude, þegar oss a Nætur-Tijma uppruñ su Sool, Er alldrei hefur nockur fegre yfer Heimeñ skined, Og þegar oss su Heill ad Høndum kom, Af hvorre allra Guds Barna, Rijkra og Fatækra, Hærre og Lægre Stiettar, Naalægra og Fiarlægra, Fæddra og Ofæddra, Tijmanleg og eilijf Heill og Hamingia uppsprettur og framflijtur. Þess gietur Johañes, Cap. 1. Er hañ segier: Ad af hañs Fyllingu høfum vier aller medteked Naad fyrer Naad. Þar fyrer Lioomar hin Guddoomlega Byrte i kringum Hyrdarana, So sem Vitnande þar um̃, Ad hañ være i Heimeñ boreñ, Sem ad er Lioome Fodursins Dijrdar, Og Jmind hañs Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Fra hvorium Liooſañs Fodur, Ad øll Good Giøf, Og øll Fullkomeñ Giøf kiemur. Jacob 1. Hvoriu og þocknast hefur, Ad i sijnum Syne skule øll Fylling bwa, Col. 1. Ja sialf Guddomsins Fylling, hvør ed bygger i hønum Lijkamlega, Col 2. Þad er i hañs Blessudum Mañdoome, Er hañ af voru Hollde og Bloode hefur uppa sig teked, Og giort H.uttakande Guddoomlegrar Natturu. Æ! oss auma og synduga Meñ, Vier siaaum ecke fyrer Blindu Holldsins, hvad miked oss veitt er i JEsu Holldtekiu, Myrkur vors Skilnings far þad ecke høndlad, So sem þad er. Eñ Guds H. Einglum er jafnañ standa frame fyrer hønum, Matth. 18. Þeim er alkuñug Sæla su er øllum Guds Børnum er tilbweñ, hvørre vier tapad høfdum i Adams Falle, Þeim eru og ecke Okuñugar Pijsler Fordæmdra, er kveliast munu i Augsyn Heilagra Eingla, segier Johañes i hañs Opeñberingum, Apoc. 14. Þvi er ecke ad undra, þo Einglarner sagne, þar hiñ Añar Adam, Sem er DRotteñ af Himnum, 1. Cor. 15. var i Heimeñ boreñ. Til ad frelsa oss fra øllum þeim Oskøpum. Þvi þeir elska Mañkyned, Eñ vissu ad i JEsu Fædingu var Moñunum giefeñ sa Kostur, ad forlijkast vid Gud, og sietter verda i hañs Sonar Rijke, Col. 1. Nu er þad vust ad señu, ad vier ecke ad fullu þeckium hvad vier miſt høfum, edur hvør Ouck a oss bweñ være, Nema Guds

Sonur være i Heimeñ komeñ ſynduga Meñ Saaluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Eñ þo mættum vier ad ſo miklu Leyte þeckia vort Andlegt Volæde, Og ſo miked hefur oſs ſagt vered af hiñe Eilijfu Dijrdar-Viſt i Himnarijke, ad ef vier legdum nockurn Hug a vort Maal, Pa mundum vier Allshugar fegner verda, ad vier hofum hana aptur feinged, Og rooa ollum Arum ad þvi, ad vier ſleptum heñe ecke aptur ad niju. Eg hefe noog ſagt hier um. Pegar eg ſegie þad med Ordum Eſajæ, hvoriu Synder vorar til Leidar koma: Ydar Synder ſegier hañ: ſkilia a mille Guds og ydar, Og ydar Rangslætingar valda þvi, ad hañ byrger ſitt Andlit fyrer ydur, Og vill ydur ecke Bænheyra, Eſa. 59. Nu vitum vier þad, ad vier lifum ecke Eina Stund an Syndar. Heyred hvad David Konungur talar um allt Hollð, Pſ. 14. Pſ. 5. og 10. og 36. Salomon, Prov. 1. Eſajas, 59. Par er eingeñ Riettlaatur, og ecke Eirn, þar er eingeñ Skyniande, Og eingeñ ſa ad Gude leite: Aller hafa þeir afviked, Aller til ſamans eru þeir Onijter ordner, Par er eingeñ ſa ed Gott giore, Og ecke Eirn.

Nu ſegier Paall, er hañ færer þeſſe Ord til ſijns Maals, Rom. 3. Nu vitum vier ad hvad ſem Logmaaled ſegier, Pad ſegier þad þeim ſem under Logmaalenu eru, So ad aller Muñar verde tilbyrgder, og allur Heimureñ Sakfalleñ vid Gud. Eñ ef Guds Sonur være ecke i Heimeñ komeñ til ad frida fyrer oſs, Pa værum vier aller under Logmaalenu, og eñ þa i vorum Syndum, Pviad Logmaaled er fyrer Moyſen wtgiefed, eñ Naad og Sañleike er ſkien fyrer JEſum Chriſtum, Sagde Baptiſta, þegar hañ hoof Chriſtne-Boded, Joh. 1. So adſkilia nu Synder vorar a mille Guds og vor. Segied mier þa, Er þad ecke mikellrar Glede og Fagnadar vert, ad hañ er oſs i Heimeñ boreñ, Sem heiter Jmanuel, Eſa. 7. Pad er Gud med oſs? J hvors Nafne hiñ Naaduge Gud hefur til ſiñar Chriſtne talad, Pad er til allra þeirra ſem a hañs Nafñ trwa, Eſa. 54. Pott ad Fioll þeſſe hverfe a Bak aptur, og þeſſer Haalſar ur Stad hræreſt, þa ſkal mijn Giæſka ecke fraa þier vijkia, og Sattmaale mijns Fridar ecke vid þig ſkilia, ſegier DRotteñ þiñ Myſkunare. O hvorſu Gledelegt er þetta, þegar eirn ſaarmædur Syndare hvors Samvitſka vitnar a moote honum, ad hañ hafe eckert añad eñ Daudañ forþienad, Pegar hañ, ſegie eg, hugar til þeirrar Ognarlegu Tijdar, Nær Konungar Jardareñar og Hofdingiarner, og hiner Rijku og hiner Volldugu, ſegia til Fiallaña og til Biargaña, Falled yfer oſs, og hylied oſs fyrer Auglite hañs ſem i Haaſætenu ſitur, og fyrer Reide Lambſins, Apoc. 6 Peſs er og ad giæta, Brædur mijner, hvor hañ er, ſem ad vier vorum misſaatter vid, Ofridureñ er ad þvi Leite hrædelegur, ſem hañ er Volldugur til, ſem heriar a Landed. Hvor er ſa Konungur, er þañ færer Hernad a mote odrum Konunge, ad hañ eige ſetie ſig nidur og Raadſlage, Hvort hañ giete med Tiju Puſundum mætt honum, ſem med Tuttugu Puſund kiemur a moote honum? ſagde DRotteñ vid Læreſveinana, Luc. 14. til ad ſyna þeim hvor ad være Munur Guds og Maña. Mun- um vier gieta ſvarad hinum Riettlaata Gude Einu a moote Puſund, ef hañ vill i Doom vid oſs ganga, Job. 9. Hañ er HErrañ, vier erum Prælarner, hañ hefur ſkapad oſs, vier

vier vanskopum oss Daglega, hañ hefur oss allt gott giort, vier giorum allt Illt æ moo-
te honum. Hañ vegur Fiölleñ æ Vigt, og Halsana med sijnum miñsta Fijngre, Esa.
40. Vier megnum ecke ad giora eitt svart Haar hvijtt æ voru Hofde, Matth. 5. Hiaa
honum er engeñ Umbreiting edur Mind til Umbreitingar, Jac. 1. Vier erum Ein
Vatns Boola, vier megnum ecke hinum miñsta Vesælinge hid miñsta Mein ad viña
æn hañs Vilia; Hañ hefur Valld til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld, Matth. 10.
Hvor vill faa stadest nær slijkur HErra er reidur? Hvorsu Fagnadarsæll er þa Bod-
skapur þesse ad vier Fridkeypter erum, og i Saatt komner vid hañ sem allt Valld hefur
bæde æ Himne og Jordu? Matth. 28. Og ef vier vilium gaanga nær og skoda, hvor
ad sie Mismunur Logmaalsins, sem fyrer Moysen er giefed, Joh. 1. og Evangelii, sem
Christur hefur fært oss wr Skaute Fodursins, þa er þad i morgum Hlutum audsied:
Logmaaled var med stoorre Ognan og Reidarþrumum wtgiefed, ef ad jafnvel eitt Kvik-
inde snerter Fialls-Næturnar sagde Gud, Exod. 19. þa skal þad Dauda deya. Hid
fyrsta Nija Testamentesins Evangelium, er med Lof-Saung Heilagra Eingla bodad,
og almeñelegu Fridar-Bode yferlijst. Allt Fialled Sinai skalf og titrade af Guds Ogn
an, Þar saust Leiptraner og Elldingar; so ad Moyses, sem var hiñ meste Fullhuge, og
so var kuñugur Gude, ad hañ talade vid hañ eins og Madur vid Mañ talar, Exod. 33.
Hañ sagde: Eg em hræddur og skialfande, hvad Paulus tilltekur til Dæmis uñ þesse
stooru Undur, Ebr. 12. Eñ hier lioomar Guds Byrte i kringum Hyrdarana. Og
Eingelleñ segier vid þessa Vesælings Skala-Meñ: Ottest Ecke, Þviad I Dag Er
Ydur Lausnareñ Fæddur, Sæ Ad Er Christur DRotteñ I Borgeñe Davids.
Meñ hallda ad Einglarner hafe geinged æ mille Guds og Moysen, til ad af-henda hon-
um Logmaaled, eda ad vijsu æ einhvorn Haatt þioonad ad þessu, þad segier Stephanus
hiñ Fyrste Pijslarvottur Guds, nærre med berum Ordum Tvisvar siñum, Act. 7.
Þad stadfester St. Paall; Gal. 3. og Hebr. 2. Eñ ei heyrest ad þeir hafe þa blijdlega
til hañs talad, sem ei var Von, þvi Logmaaled verkar Reide, Rom. 4. Og er vegna
Yfertrodsluñar wtgiefed, Gal. 3. Eg vil ecke faa mier til Orda þær grimu Hootaner,
er Logmaalenu fylgia. Ef þu hlijder ecke Raustene DRotteñs Guds þijns segier Moy-
ses, Deut. 28. Þa skulu allar þessar Bolvaner koma yfer þig og hondla þig: Bolvad-
ur skalltu i Borgeñe vera, bolvadur æ Akrenum, bolvud skal þijn Hyrdsla vera, hvar
þijnar Afgaangs Leifar eru, og bolvadur skal þiñ Lijfsens Avoxtur vera, þiñ Jardar A-
voxtur og þiña Sauda, bolvadur skalltu vera nær þu geingur iñ, bolvadur nær þu wt-
geingur, med odru fleira, og allre þeirre Olucku er Logmaalsins Yfertrodsla steyper yf-
er syndugañ Mañeskiur og hrædelegt er upp ad telia. O! hvorsu er þad Olijkt honum,
er sagde: Komed til mijn aller þier sem Erfide drijged og Þwnga erud hlader, Eg vil
Endurnæra ydur, Matth. 11. Hañ medtook Tollheimtu-Meñ og Bersyndiga, aat
og drack med þeim, Luc. 15. Til ad auvijsa þæ til Guds Rijkis, þolde Brixle og A-
tiæle vondra Maña, þeirra vegna. Hañ ed sagde vid hina Bersyndugu Hoor-Konu:

Hafe eingeñ fordæmt þig, so fordæme eg þig ecke helldur, gack burt og syndga ecke framar, Joh. 8. So ad þad maa satt jaata, ad hiñ Naaduge Gud hefur ecke uñ Skor fram spaad uñ siñ Eingieteñ Son, Esa. 42. Siaa miñ Pioon þañ er eg añast, og miñ hiñ Utvalde, aa hvörium eg hefe Velþoocknan, eg hefe honum miñ Anda giefed, hañ mun Doomeñ wtflytia medal heideña Piooda, hañ mun hvorke kalla nie hroopa, og hañs Naust mun ecke heyrast aa Strætunum, þañ brækada Reyr-Legg mun hañ ecke i sundur brioota, og þañ Lijtt logande Hor-Kveik mun hañ ecke wtslockva, hañ mun kieña ad hallda Doomeñ med Sañleikanum, hañ mun ecke Moglunarsamur nie hrædelegur verda, so ad hañ aa Jordu Doomeñ uppbyrie, og Eyarnar munu epter hañs Logmaale vænta. Þegar þier nu þetta hvörttveggia samañ bered, Brædur mijner, og ef þier þyk-est nockru vid Gud seker vera, þa er lijklegt ad þier munud fiña til i Hiarta ydar, hvörsu giedeleg ad sie JEsu Fæding. Gydingum var Fögnudur þesse allra fyrst bodadur, so sem Von var til, so ad Spaadoomarner yrdu uppfyllder, þess gieta þeir St. Paall og Barnabas, Act. 13. er þeir sögdu vid þaa: Til ydar byriade fyrst ad tala Guds Ord, eñ vær adrer hofum þess sijdañ noted, þar fyrer spaaer Esajas so uñ Jerusalem: Myrk-ved mun hylia Jordena, og Dimañ Piooderna, Esa. 60. Eñ DRotteñ mun upp-reña yfer þier, og hañs Dijrd mun siaast yfer þier, og Heidingiarner munu gaanga i þij-nu Lioose. Þvi lijser Eingelleñ i Samtalenu vid Hyrdarana, þar hañ segier: Eg Boda Ydur Mikeñ Fognud, Þañ Er Skier Ollu Foolke. Hier er ecke Gydingur nie Grifkur edur Schyta, ecke Þræll edur Frelsinge, Gal. 3. Helldur aller eitt i Christo JEsu, Col. 3. Epter hañs Logmaale munu Eyarnar vona, segier Esajas 42. Þad eru heidnar Piooder, So plagar Ritningeñ þær optlega ad kalla. Þetta meigum vier bæde ad Rann og Nafne tileinka oss, sem byggium Hoolma þeñañ: Ad soñu hefur Guds eilijf Fyrerhyggia skoted oss wt under hid ysta Heimsins Skaut, kañ skie og ad mörgum þykia meiae, ad vier hofum Var-Hluta fared af margre Fullsælu Heimsins, eñ þar aa moote hofum vier ecke ad segia af margre þeirre Olucku og Andstreyme, sem añ-arstadar i Heimenum plaagar synduga Meñ, svo vier erum skylldnger ad vidurkieña, ad Gud hefur vel til vor giort, ef vier kyñum med ad fara. Eñ hvorneñ sem þessu er var-ed, þa hefur hañ ecke giort oss Afskipta af Andlegum Hlutum, sem mest aa rijdur.

Stutt Stund er þad, ad vier eigum vid þetta Tijmañlega ad bwa, hvört helldur oss geingur med edur moot, Eñ eins vel er oss JEsu Blessud Tilkoma i Holldeđ bod-ud og ödrum, eins vel hañs Pijna og Daude, eins vel hañs Upprisa, eins vel hañs Uppstigning, eins vel Utsending hiñs Hellaga Anda, af eingu af þessu hofum vier nockurn Skert, helldur eñ hvor oñur Piood i Heimenum, og ef eg maa segia, þa er-um vier betur hier med forsorgader, eñ marger, þvi hofum vier aungvu sijdur Ordsok til ad fagna og Lof syngia hinum gooda Gude i Hiortum vorum, Col. 3. helldur eñ allur Heimureñ, Jaa oll Guds Christne, hvar hellst sem hun er i Heimenum, hun maa jaata þad satt ad vera, er Paulus segier, Eph. 2. uñ Heidingiana: Nu eru þier i

JEsu

JEsu Christo, sem ædur fiærre vorud, nalæger ordner fyrer Blood Christi, þvi han̄ er vor Fridur, han̄ sem giorer eitt af bædum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur nidurbroted. J kríngum Jerusalems Mustere var eirn Stein-Veggur, þangad leyfdest Heidingium ad koma, en̄ ecke leingra, so ad Pioonnstugiorden̄ ecke saurgud yrde af Oumskornum Mon̄um, og til þessa lijtur Postulen̄ i þessum Ordum. En̄ sijdan̄ Guds Sonur er i Heimen̄ boren̄, þa er i Christo hvorke Umskurn nie Yferhwd, Gal. 5. Pvi segier og Paulus aptur: Ad han̄ afmæd hafe Lögmaal Bodordan̄a, sem var in̄efaled i Setningunum fyrer sitt Hölld, so han̄ giorde i siælfum sier Tvo ad Einum nijum Man̄e, og giorde Frid, Eph. 2. Petta er medal an̄ars sa Fridur er Einglarner boda, Fridur millum Guds og Man̄a, þvi Gud er Madur orden̄, Fridur millum Himens og Jardar, þvi Gud hefur i Christo alla Hlute forlijkad vid sig, (semjande Frid fyrer Blooded hans Kross) hvort helldur þeir eru a Jordu edur a Himne, Col. 1. Fridur vid Heilaga Guds Eingla, hvorra Samneyte vier höfdum af oss broted, þvi segier Paulus, ad vier sieum komner til Fiallsins Zion, og til Borgar Guds lifanda, Jerusalem hin̄ar Himnesku, og til margra Pusunda Einglan̄a, Hebr. 12. Fridur a millum Gydinga og Heidingia, þvi þad er i JEsu blessadre Hijngadkomu framkomed sem DRotten̄ spaer, Zach. 8. Segiande: A Peim Dogum skulu Tiju Men̄ (þad eru marger) af öllum Piodum og Tungumaalum, þrijfa i Klædafalld Gydingsins, Segiande: Vier vilium med ydur fara, þvi vier heyrum Gud er med ydur. Pesse er Jmmanuel, hver ed fyrst var sendur til Fortapadra Sauda af Hwse Jsraels, Matth. 15. en̄ hafde þo adra Saude er ecke voru af þvi Sauda-Hwse, er honum byriade og þangad ad leida, Joh. 10. so þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder. O hvilijk Dypt Audæfan̄a og Guds Speke; Hier maa þad satt jaata er Petur med stoorre Undran sagde Fordum, Act. 10. er Gud sende han̄ til ad skijra Cornelium og hans Heima-Foolk: Nu reyne eg i San̄leika sagde han̄, ad þar er eckert Man̄greinar Alit hiaa Gude, helldur ad sierhvor eirn, af hvorre Piood sem han̄ er sem han̄ Ottast, og fremur Riettvijsena, han̄ er honum þocknanlegur, Act. 10. Par fyrer syngia Guds Einglar hier i Lofkvædenu: Og MONNum GOODur VJLie; Pad kallar Texten̄ Velþoocknan. Hvar munde þessa Velþoocknan vera ad fin̄a, Brædur mijner? Ecke hiaa vesölu Man̄kyne, allra sijdst a þeim Dogum, þegar DRotten̄ kom til sin̄ar Eygnar og hun þeckie han̄ ecke, og kiemur þad hier fram sem Johan̄es segier, 1. Pist. 4 Cap. J þvi er Kiærleikuren̄ foolgen̄, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad han̄ elskade oss, og sende sin̄ Son, ad han̄ yrda Forlijkun fyrer vorar Synder. Petta er ecke af Man̄legum Tilverknade skied, þvi aan Christs er Maduren̄ Andstygd fyrer Gude, helldur fyrer hans Skulld sem er hans elskulegur Sonur, i hvorium honum alleina velþocknast, Matth. 3. Pess hafa hiner ad noted, hvorra Holld og Blood han̄ hefur uppa sig teked, þvi eingen̄ hefur um̄ Alldur sitt eiged Holld hatad, Eph. 5. Par fyrer er ecke ad undra, þoott Gud hafe Velþocknan a þeim, hvoria hans

Sonur skamast sijn ecke Brædur ad kalla, Hebr. 2. Og þar ad Auke fyrer Trwna ä hañ, eru ordner eirn Ande med Gude, 1. Cor. 6. Fyrer þvi samfagna nu Guds heilager Einglar syndugu Mañkyne, er so braadlega hofdu þesse gledelegu Umskipte feinged, ad verda Guds Born af Satans Bornum, Leysingiar Christi af Syndareñar Prælum, Guds Rijkis Erfingiar af Orfum Fordæmingareñar, Einglunum samlijker og þeirra Samlags Meñ, af Lags-Moñum Diofslaña: Eñ so sem ad þeir Himnesku Andar, fagna þessu so miog sem ædur er sagt, ad þeir boda Frid og Velþocknan Guds yfer Jorduñe, So fagna og Christi Læresveinar, og þad Foolked er honum fylgde iñ til Jerusalem, Þar af, ad Fridur er i Himnenum ordeñ, Þar um skrifar so Lucas 19. Og allur Fiollde Læresveinaña tooku til ad lofa Gud med Fognude og hærre Rodðu, fyrer allar þær Jardteikner er þeir sied hofdu, segiande: Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DRottens, Fridur ä Himne og Dijrd i Upphædum. Merk þetta vel Christeñ Madur. Hiñ naaduge Gud hefur lated Fridar-Bod gaanga um alla Verolldena og lagt sijnum Postulum uppä ad auglijsa Forlijkun þessa, 1. Cor. 15. Hvar fyrer þeirra Hlioomur er utgeingeñ um alla Heims-Bygdena, Rom. 10. Eñ Gud naade hvad fæer þeir eru sem vilia fallast ä þau Raad, ad miñast vid Soneñ so hañ verde oss ecke reidur, Ps. 2. Gud hefur læted boda Frid ä Jordu; Laat þier vera ant um Christeñ Madur, ad verda þess fullvruggur, ad þar sie og Fridur fyrer þig i Himnenum. Aller JEsu Christi Velgiorningar eru i hañs Fædingu ollum bodner, Eirneñ þeim sem Foot-troda Guds Son, og Sattmaalans Blood Almeñelegt hallda, med hvoriu Syndareñ er þo helgadur, Hebr. 10. Gud er ad soñu Frelsare allra Maña, þvi hañs Sonur hefur fyrer alla lided, þo eirna mest Trwadra, 1. Tim. 4. Þvi þeir einer meiga Frelsesins niota, sem trwa ä Nafn Eingietens Sonar Guds. Gief þvi ecke uppä Veige þiñar Saaluhiaalpar fyrr eñ ad Heilagur Ande ber Vitne þijnum Anda þar um, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Eñ hvorneñ mættu þad odlast? Þad skiedur, ef þu giorer aungva Saatt vid hañs Ovine. Ecke vid Diofuleñ, þvi hañ er Guds svareñ Ovinur, Vier hofum afneitad ollu hañs Athæfe i Skijrneñe, hvoria Petur kallar Saattmaala goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Ecke Einungis þess vegna, ad vier i þeñe Endurfædder erum, og hofum Styrk Samvitskuñar þar af, ad vier erum saatter vid Gud, og kvitter um Sekt Uppruna Syndareñar, helldur og hiñs añars, ad hun miñer oss ä um alla vora Æfe, ad hallda vort Loford af fremsta Megne, og ad flecka ei Samvitskuna med þeim Verkum, sem Andskotanum eru til Þioonustu, eñ Gude til Styggdar; Ecke vid Hollded, Þvi ad þess Þankar eru Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom 8 Eingeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona, Matth. 6. Eñ Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2 Cor. 6. Nu eru Hollþsins Verk augliios, þad eru Hoordoomur Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwraoda Dijrkun, Fiolkinge, Fiandskapur, Prætur, Kappgyrne, Reide, Praattaner, Sundurþyckia, Flockadrætte, Ofund, Mañdraap, Ofdryckia, Ofneytsla og þessum lijkt, Gal. 5. Ef vier

þessar

þessar Synder æfum, og laatum þær drottna i voru Hollde, Þa erum vier ecke Guds Viner, og ecke er hañs Fridur i oss, Ecke kuñum vier helldur vid Samvitskuna Frid ad hafa nema hun sofe, Og mun hun þo sijdar af illum Draum vakna þegar vest giegner, þegar Andskoteñ kipper Svæflenum undañ Hofdenu, og vier erum sijdst buner til Mootgaungu honum i Daudans harda Strijd, og er þa hætt vid, ad heñar Ormur verde ad þeim Orme sem alldre deyr, Esa. 66. Ja, nema vier Daglega tokum uppaa oss Guds Herskruda, og leggium allt Kapp aa ad stockva þessum Halldar-Flocke, epter þvi sem hvor Eirn verdur aasooktur. Þa kuñum vier ecke Frid vid Gud ad hafa, ecke Guds Born ad heita, og i aungre Vissu um Guds Rijke edur Arf Himnaña ad vera, þvi þeir er Christo tilheyra, Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Giored ei helldur Samdraatt vid Heim þeñañ, ef þier vilied Guds Viner heita, Þvi Johañes segier, 1. Pist. 1. Elsked ecke Heimeñ nie þad sem i honum er, Ef nockur elskar Heimeñ, Þa er ecke Guds Elska i honum. Ecke segie eg ad Meñ skule ei hafa Umgeingne vid Heimsins Born, Añars mættu þeir fara wt wr Heimenum, 1. Cor. 5. Segier Paall: Hitt er og Riettvijst ad umgaangast Fridsamlega vid þaa sem eru af Heimenum, verde þvi aakomed, Þvi Paall segier eñ aptur, Rom. 12. Ef þad skie kañ, ad svo miklu Leite sem i ydar Vallde er, þa hafed Frid vid alla Meñ. Og David hæler þvi, ad hañ hafe Fridsamur vered, Ps. 120. Jafnvel vid þaa sem Frideñ hotudu, Ps. 119. Hitt segie eg, ad Meñ skule eckert Samblende edur Samtek hafa vid þaa i Illskuñe og Prettvijsseñe, þvi þad er ad færa Hernad aa moote Gude, Og verde einhvor af oss til þess kvaddur, Þa eiga Meñ ad briota þeñañ Frid og Ottast eige Meñena, so vier kuñum ad hafa Frid vid hañ er Saal og Lijf gietur dreped eilijfum Dauda, Matth. 10. Riettvijseñ og Fridureñ kysse hvort añad, segier David, Ps. 84. Þar segiest vel eingeñ vera, sem ecke Frideñ kioose, Eñ aller vilia þo ecke Riettlæted æfa, Eins og hvort kuñe añars aan ad vera. Þar sem ecke er Riettvijse, þar er alldrei Fridur, þar sem ecke er hiñ sañe Fridur, þar er alldrei Riettvijse. Þad er hiñ sañe Fridur, ad hallda Eindrægne med Gudrækne og goodre Skickun, Eñ hata Skañer og Klæke. Þegar Veralldareñar Syner eru mektuger ordner, og hafa broted under sig adra, so ad eingeñ vogar ad stijga aa þad Straa er þeim mislijkar, þa hyggia Meñ ad þeir sieu i Fride, Eñ þad er vijst, ad þeir ed odrum hafa Raanglega tilgiort, hafa þa hvad miñstañ Frid, er þeim sijnest einskis Ofridar Von vera, Þvi Fridur þesse helldur jafnañ Strijd vid Samvitskuna. Og nær þeir hafa aungvañ ad beriast vid, Þa beriast þeir vid sialfa sig, Soddañ Fride eiga oll Guds Born ad hafna, jafnvel þoott þad sie nu um Stunder Fridseme kollud, ad lijda og samþyckia, Edur ad miñsta Koste laatast ecke siaa hinar verstu Skañer og Odygder: Og Hlutseme kollud, ef nockur vandlæter þar um, Eñ þad mætte hañ einu gillda, sem hefur Frid vid Gud og Samvitsku sijna, Þvi þoott hañ jafnvel Fridlaus yrde og rækur fraa Moñum, Þa hefur hañ alltijd Frid-Land i Guds Rijke. Og þoott Gud take hañ ei so skioott i burt wr Heimenum, þa vardveiter hañ þañ hiñ sama fyrer Heimenum, Joh. 17.

Þad

Pad er gott ad vera Hlutsamur med sama Hætte og Noe, Loth, Moyses, Samuel, David, Elias, Esajas, Micheas, Jeremias, Johañes Baptista, St. Paall og adrer Guds Meñ, Er hielldu Brixle Christi stærre Virdingu ad vera, eñ Heidur Veralldar þessarar, Hebr. 11. Esajas Cap. 9. nefner vorn Jmmanuel Fridar-Hofdingia, Eñ þo segier þesse Fridar-Hofdinge, Matth. 10. Meined ecke þad eg sie komeñ til ad senda Frid a Jordu, Eg er ei komeñ til ad senda Frid, helldur Sverd, Pvi eg er komeñ til ad setia Mañeñ upp i moote Fodurnum, og Moodurena upp i moote Doottureñe, og Sonar-Konuna a moote Moodur Bonda siins, og Mañsins Heima Meñ verda hañs Oviner. Hvar er þa Fridur sa er DRotteñ hefur fært oss af Himnum? Pad er Fridur millum Guds og Maña, Eñ ecke Fridur millum Guds Barna og hañs Ovina, Fridur vid Samvitskuna, Eñ ecke vid Syndena, Fridur vid Guds Logmaal, Eñ ecke vid Hollded, Eñ ef nockur af þeim er hañ talar um̃, Matth. 10. Samþycker ecke þessa Fridar Koste, Pa er sa hañs Ovinur, og a aungvañ Frid vid þañ sama ad giora, Pvi sa sem ecke hatar Fodur og Moodur, Brædur og Systur, fyrer hañs Skulld, hañ er hañs ecke verdugur, Matth. 10. Ad Siidurstu er þetta sa Fridur Guds, sem ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Miñ Frid gief eg ydur, Miñ Frid læt eg hiaa ydur, Ecke so sem Heimureñ giefur þa gief eg ydur, segier JEsus vid Læresveinana, Joh. 14. Pad er soddañ Fridur sem giorer oss riika i Faatækteñe, Friaalsa i Prældoomenum, Glada i Sorgeñe, Metta i Hungrenu, Jñlenda i Utlegdeñe, Og um̃ alla Hlute oss siaalfum fullnooga, þa vier eckert hofum. Pesse Fridur giorde Job Heilbrigdañ i Kronkeñe, David Riettlaatañ midt i Syndeñe, Hañ diktade Lofsaungeñ fyrer Paal og Sylas i Myrkvastofuñe, Act. 16. Hañ gladde Christi Postula þa þeir geingu Fagnande, og þo Hudstrykter wt fraa Raadenu, Act. 5. Hañ huggade Mariu under siins Sonar Krosse, Og eñ nu i Dag alla þaa, er hañ bera med heñe. Og fyrer þvi, Brædur miiner, ad þesse Fridur er so mikell og so diir, ad aan hañs er eingeñ Fridur, Og þeir ed þeinkia a Himnesska Hlute, kuña aungvañ Frid ad hafa, Pegar þeir hañs sakna, Poott oll Veroldeñ hlæe a mote þeim. Pa Graatbæne eg ydur fyrer ydar Velferdar Saker, ad End ingu med Ordum Paals, Par hañ segier: Vier erum Sendebodar vegna Christi, 2. Cor. 5. Og so sem Gud beidde fyrer oss, Pa bidium vier i Christi Nafne, Sætteft vid Gud. Eñ þu Naadarfulle Himneske Fader, sem med diirmætu Bloode þiins Eingetens Sonar, hefur Endurkeypt Velferd Saalna vorra, Gief þu þiinum Bornum ad Elska þig, Elskast Jñbyrdis, og hallda Eindrægne i Andanum, so aller þeckia meige, ad þeir sieu þiins Sonar Læresveinar, Joh. 13. Gief þeim ad hlaupa so Skeid Liifdaga þessara, ad þeir faae yferuñed fyrer hañ, Sem Heimeñ hefur sigrad, so ad þiiner Pioon ar mættu med Simeone i Fride fara epter Orde þiinu, Luc. 2. Nær þier þocknast ad þeir gaanga skule Veg allrar Veralldar, Bænheyr þad HErra Himneske Fader, Fyrer JEsum Christum, Amen.

Aukiir

# Aunur Predikun a Joola Dageñ.

. Gudspialled, Joh. 1. Cap.

I Upphafe var Ord. Og þad Ord var hiaa Gude, og Gud var þad Ord, þad sama var i Upphafe hiaa Gude. Aller Hluter eru fyrer þad giørder, og aan þess er eckert giørt, hvad giørt er. J þvi var Lijfed, og Lijfed var Lioos Mañaña. Og Lioosed lijser i Myrkrunum, og Myrkreñ hafa þad ecke høndlad. Þar var eirn Madur af Gude sendur, sa hiet Johañes. Hañ kom til Vitnisburdar, ad hañ bære Vitnisburd af Lioosenu, so ad aller skilldu fyrer hañ trwa. Eige var hañ þad Lioos, helldur ad hañ bære Vitnisburd af Lioosenu. Þad var satt Lioos, hvørt ed upplijser alla Meñ komande i þeñañ Heim. Þad var i Heimenum, og Heimureñ var fyrer þad giørdur, og Heimureñ þeckte þad eige. Hañ kom til siñar Eignar, og hañs sialfer medtooku hañ eige. Eñ so marger sem hañ medtooku, þa gaf hañ þeim Makt Guds Børnum ad verda, þeim sem aa hañs Nafn trwa. Eige þeim sem af Bloodenu, eda þeim sem af Holldsins Villd, edur af Mañsins Vilia, helldur þeim sem af Gude eru fædder. Og Orded vard Holld, og bygde med oss; Og vier saaum þess Dijrd, Dijrd so sem Eingietens Sonar af Fodurnum, fullañ Naadar og Sañleika.

## Exordium.

Daniel Spaamadur i siñar Bookar Ødrum Capitula, segier fraa þvi, ad Nebucadnezar Konunge hafe giefest Syn nockur i Draume, er hañ kvad sijdañ ad være horfeñ wr Miñe sier, og beidde Fiolkijngis-Meñ sina og Spaasagnara, ad þeir segdu honum Draumeñ, eñ þeir tolduſt undañ Bode Konungs, og svörudu þañ Veg: Þar er eingeñ Madur aa Jorduñe, er meige giora þessa Konungsens Skipan, hvar fyrer eingeñ Høfdinge edur DRotteñ hefur nockru Siñe þvilijks krafest af nockrum Spaamañe edur Caldæo, þvi sa Hlutur er Konungureñ æsker epter, er so Dijrmætur, ad eingeñ maa hñ segia Konungenum nema Godeñ, hvør ed ecke byggia med Hollden. Nu jafnvel þoott ad Spaameñ þesser være Satans Pioonar, þa maa þo ecke þvi aa moote segia, ad þesse þeirra Afsokun var gylld aa alla Vegu. Eñ þess meira sem Heidingiar þesser høfdu til Maals sijns, þess meira hofum vier Christner Meñ Gude ad þacka, ad hañ hefur oss þañ i Heimeñ sendt, er þad hefur giørt, er eingeñ Maña giora kuñe. Caldæa Lands Vitringum þootte þad Nijungar, ad Konungureñ skyllde leggia þeim uppaa þeñañ Hlut; Eñ hiñ Alvitre Gud hefur giert

 eirn

eirn nijañ Hlut a Jordu, ad Konañ hefur umkrijngt Mañeñ, Jer. 31. Hvort Spaadoomur þesse eige ad skiliast uñ Holldtekiu DRotteñs edur ei, er eg ecke alld=eilis viss uñ, samt flijgur mier i Hug af þessu, ad þad hefur alldrei uñ Æfe heyrst, ad nockur hafe under eins Mey og Mooder vered, ad hañ sem uppfyller Himen og Jord krepptest i einum Stalle, ad Gud er Madur ordeñ. Margvijslega og a mar=ga Vegu hefur Gud talad vid Fedurna i Fyrndeñe; Eñ þad er nijr Hlutur, ad hañ talar vid þa fyrer Soneñ, Hebr. 1. Og ad Gud Jklæddur Mañlegu Hollde, sa Eingietne Sonur Fodursins, sem er i hañs Skaute, hañ i eigeñ Persoonu opeñ=berar syndugum Moñum allañ hañs Vilia og Veg Saaluhiaalpareñar. Spaa=sagnararner fortooku þad, ad Gud munde byggia med Holldenu; Eñ hvad vilium vier þar uñ tala, Ad ORDED Er Holld Orded, Og Bygde Med Oss? Vier heyrdum þad, saaum med Augum vorum og skodudum, og Hendur vorar þreifudu a þvi, segier Johañes, 1. Pist. Cap. 1. Godeñ eru Moñunum lijk ordeñ, og ofañ komeñ til vor, sogdu Fordum þeir Meñ i Lystris, er Paulus læknade þañ er Halltur var bor=eñ, og villdu hafa veitt þeim Barnabæ Gudlega Lotning, Act. 14. Eñ þeir voru þo ecke nema Meñ, og hvad hellst þeir giordu Undrunarlegt, þad giordu þeir i Nafne JEsu Christi. Eñ i Mañdoom DRotteñs er hiñ lifande Gud ofañ stijgeñ, og hefur Bygd fest a medal Mañaña, Ja, þvilijkur Gud, af hvors Krapte og fyrer hvors Almætte ad oll Furdu-Verk a Himne og Jordu giord eru. Uñ þetta Allra Helgasta og Dasamlegasta Efne giefur oss Ordsok ad tala vor uppleseñ Texte, hvorium vier vil=ium gaanga nockud nær, og þoott ad ei meige hinum gooda Gude fullþacka þar fyrer, ad eingeñ er sa medal vor, sem Efe uñ Guddoomeñ Christi nie hañs Holldtekiu; Þa samt af þvi ad þetta Heilaga Evangelium færer oss a þa Leid, sem liggur til ad tala hier uñ, Þa vilium vier af þvi alleina hugleida þad, ad Gud sie Madur ordeñ.

Hier til styrke oss goodur Gud med Krapte sijns Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

I Upphafe VAR ORD, segier Gudspiallamadureñ. Eg vil ecke i þetta Siñ fa mier til Orda, edur upptelia Meiningar Maña, hvar fyrer hin Oñur Guddoom=sins Persona verdur ORD kollud, þo er þad vijst, ad Gydingar nefndu so Mes=siam a þeim Dogum, og hefur þad ollum kuñugt vered, Maa skie, þess vegna, ad Ord Fyrerheitesins uppa hañ hlijdde. Ad eg ei tale þar uñ, ad hiñ Maattuge Gud skapade fyrer hañ alla Hlute, Þegar hañ baud þeim ad verda med Einu Orde, Gen. 1. edur og hitt, Ad hañ Holldenu J=klæddur, hefur med Sañle kfins Orde Opeñberad oss Fod=ursins Vilia, Joh. 1. Eñ hvorneñ sem þessu vared er, Þa segier Johañes, ad þetta ORD edur Guds Sonur, hafe vered i Upphafe hia Gude, Hvort sem vier nu tok=um þetta Ord, UPPhaf, fyrer Upphaf Eilijfdareñar, Sem Raunar er eckert añad eñ siaalf Eilijfdeñ, J hvorre ad ei er Fyrr edur Sijdar, helldur eru Þusund Ar hia Gu=de, So sem Eirn Dagur, Og Eirn Dagur so sem Þusund Ar, segier Petur, 2. Pet. 3.

Edur

Edur vier tökum þad fyrer Upphaf Sköpunar allra Hluta, Gen. 1. Pa er þad auðsært, ad Sonur Guds er honum Sameilijfur, Paulus segier, 1. Cor. 15. Ad þegar sagt verdur, Ad Aller Hluter sieu Christo underlagder, Pa er þad bert, Ad sa er undannteken, Er honum hefur alla Hlute underlagt. Alijka vil eg hier um segia, nær sagt verdur, ad Guds Sonur hafe vered i Upphafe Sköpunar allra Hluta, Pa er audvitad, ad hann sialfur hefur alldrei skapadur vered, Og er þess vegna, og hefur vered fyrer alla Eilijfd. Paulus tekur af Tvijmælenn hier um, Er hann segier: Ad hann hafe vered ædur enn ad aller Hluter voru, Col. 1. Og uppa þad, ad einginn leide sier þad i Hug, ad hann ecke sie Gude Fodur Sameilijfur, Pa segier David Konungur, Ps. 45. Pinn Velldis-Stoll O! Gud, er um Alldur og ad Eilijfu. Einginn Efe er a þvi, ad þetta er um JEsum Guds Son talad, Pvi strax epter segier David, Pu hefur Riettlæted elskad, enn hatad Ranglæted, Par fyrer hefur O! Gud þinn Gud smurt þig med Oleo Fagnadarens framm yfer þijna Hluttakendur, Ps. 45. Og þesse hin somu Ord þijder Paulus til Hebreos, 1. Uppa JEsum, Hvor ed epter Manndoomenum smurdur er med H. Anda, Og hvad meira er, ad DRottenn sialfur er þvi samhliooda, Er hann heimfærer uppa sig þau Ord er standa, Esa. 61. Ande DRottens er yfer mier, Af þvi hann hefur smurt mig, segiande: Pesse Ritning er i Dag uppfylld, ad ydur aaheyrendum, Luc. 4. Og so einginn meine, ad þetta sie talad alleina um hina Epterkomande Eilijfd, Pa segier Micheas, Cap. 5. Pu Bethlehem Ephrata, Ert aungvannveigenn hin minnsta aa medal Hertoga Juda, þvi af þier mun frammkoma sa DRottnarenn i Jsrael, Hvors Utgaangur er i fraa Upphafe, og fyrer allar Allder. Pegar David bidur Guds Son ad spara sijn faau Ar, Pa finnur hann eckert dijrmætara til ad hræra hanns blessudu Myskunar-Ydur sier til Medaumkunar, helldur enn hanns eilijfa Gietnad, þar hann segier, Ps. 102. Minn Sterke Gud, Svipt mier ei burtu mitt aa mijnum Dogum, af Eilijfum Gietnade eru Ar þijn, aadur enn þu Jordena Grundvallader, og Himnarner eru þijn Handaverk, þau munu forgaanga, enn þu blijfur, Allt mun þad so sem Fat fyrnast, Og so sem odru Klæde muntu ummbreita þeim, enn þu blijfur hinn same, og þijn Ar þrot na ecke. Hvör Davids Ord Paulus til Hebreos, Cap. 1. enn aptur þijder uppa Drottenn JEsum og hanns Guddoomlega Natturu, edur þvi munde Esajas Cap. 9. kalla hann Fodur Eilijfdarennar edur eilijfann Fodur, Nema Guds Ande hefde skoted honum þvi i Brioost, ad hann hefde aasamt Gude Fodur vered fraa Eilijfu? Ecke hefur Esajas talad þetta af sialfum sier, Pvi hann spaaer so Greinelega, ad aa maa þreifa, um þa Hlute er einginn Madur vita kunne, Nema Gud være med honum. Enn eg em viss um, ad ef hann er Fader Eilijfdarennar, Pa er hann ecke yngre enn Eilijfdenn, Enn fyrst hann Eilijfur er, Pa er liooft þar af, Ad hann er Sannur Gud, Pess gietur og Johannes hier i Gudspiallenu, er hann segier: OG GUD VAR PAD ORD. Hvor Grein ad epter Ordshætte Ritningarennar merker sama og hann sagt hefde, Pad ORD var Gud, so sem þegar hann segier i odrum Stad, Andenn er Gud, Pad merker, Gud er Eirn Ande, Joh. 4. Pet-

ta vottar Gudspiallamadureñ med þeim Verkum er eingeñ kuñe ad giora nema Gud eirn, Er hañ segier: Aller Hluter Eru Fyrer Pad GJorder. Hvor vill þa þeinkia uñ Christ añad, eñ hañ Sañur Gud sie? Mier koma i Hug þau Ord er sagde Heideñ Madur Pytagoras, aað Efa til þess ad hæda ad Metnade og Ærugyrnd daudlegra Maña, Sem þo ecke kuña ad skapa Eina Mijflugu, og vilia þo so sem Guder Tignader vera: Ef nockur þeinker sagde hañ, þad hañ mune Gud vera, Pa skape hañ Eina Verolld lijka þessare, og mun eg hañ strax tilbidia. Johañes Itrekar þetta aptur, So ad aller meige wr Skugga gaanga hier uñ, Segiande: An Hañs Er Eckert Giort Hvad Giort Er. Sie nu eingeñ Hlutur aan hañs giordur, Pa er þad audsært, ad hañ siaalfur Ogiordur er og Oskapadur, Pvi aamillum Skaparans og allrar Skiepnu kañ eingeñ Madur ad hyxa edur Jminda sier nockurn Hlut, Par eingeñ hefur sig siaalfañ skapad, Og Skiepna eingeñ hefur giort siñ Skapara, Og so ad vier ei meinum, ad Guds Sonur hafe vered alleina nockurskonar Verkfære i Skopunar-Verkeñu, Pa segier David med lioosum Ordum i þeirre Grein, er eg strax las, af Psalm. 102. ad hañ hafe Verolldena Grundvallad, og ad Himnarner sieu hañs Handa-Verk, Og ecke einasta hefur hañ þessa sijnelegu Verolld skapad, Helldur segier og Paulus, Col. 1. Fortakslaust, ad fyrer hañ, Pad er, Af honum sieu aller Hluter skapader, Sem eru aa Himne og Jordu, hvad Sijnelegt og hvad Osijnelegt er, Hvort helldur þad eru Tronarner edur Herradæmeñ, edur Yfervolldeñ, edur Valldstioornernar, Allt er þad fyrer hañ, og hañs vegna skapad. Med þessum hlnum Sijdurstu Ordum vill Paulus merkiast laata Engla Guds og hinar Andlegu Verur, fyrer utañ Gud eirn, allra Hluta Skapara, sem Eirn af ollu Oskaptur er. Nu være þad ad soñu noog til ad vitna uñ Gudsdoom Frelsarans, ad hañ er Eilijfur og allra Hluta Skapare, Eñ Johañes lætur ecke kyrt þar med, Helldur segier hañ: J PVJ VAR LJJFed, Og LJJFed Var LJoos Mañaña. Med hvoriu hañ teikna vill, ad allt hvad Lijfs-Anda hefur, Andlegañ edur Lijkamlegañ, Pad life af þvi sama Lijfe, Og af hañs Fyllingu hofum vier aller medteked. Hvorneñ wtmaalar Paulus hiñ saña Gud fyrer Athenu Borgar-Moñum, Er hañ foor til þeirra med Christne-Boded? J honum lifum vier, erum vier og hrærunst vier, Act. 17. Eñ hvad er þad añad eñ þad, sem hiñ same Postule vitnar uñ Christ? Col. 1. Ad i honum stande til samans edur standest aller Hluter. Pad er vardveitest og stioornest af honum. Pvi segier og Postuleñ, Heb. 1. Ad hañ bere alla Hlute med Orde sijns Kraptar. Eg giet ecke bored allt þetta Foolk sagde Moyses vid Gud, Num. 11. Pegar hañ villde hafa sig undañ þeigeñ ad stijra Einsamall Jsraels Foolke, Af hvoriu Ordtæke Ritningareñar eg þad fyllelega aalykta, ad saa sem ber alla Hlute med sijnu kroptuga Orde, Hañ stioornar ollum Hlutum med Gude Fodur og Heilogum Anda bæde aa Himne og Jordu, Hvad siaalfur DRotteñ sambycker, er hañ segier: Pad sem Fadereñ giorer, þad giorer Sonureñ eirneñ med, Joh. 5. sem Von er til, Pvi hañ segier berlega, Ad Fadereñ sie i sier og hañ i Fodurnum, Joh. 14. Johañes

hañes segier, ad LIIFed hafe vered i ORDenu, Eñ hvilijkt þad LIIF sie, greiner hañ sialfur, Joh. 5. So sem Fadereñ uppvekur og Lijfgar þa Daudu, so Lijfgar og Sonureñ þa hañ vill. Og þott hañ hafe þad med morgum Dæmum sañad, þa er þad samt af hañs sialfs Uppriſu allra kuñugaſt orded. Adrer Guds Meñ hafa fyrer hañs Krapt uppvaked hina Daudu, eñ eingeñ hefur sialfañ sig af Daudum vaked, nema hañ eirn. Þetta vottar hañ sialfur. Þvi sagde hañ vid Gydinga. Briooted þier þetta Muſtere, eñ eg skal þad a þrem Dogum upp aptur byggia, Eñ hañ talade uñ Muſtere siins Lijkama, seaier Joh. 2. Og uñ Saalena segier hañ, Þar fyrer elskar Fadereñ mig, ad eg læt miina Saal fra mier, So eg hana aptur take, Eingeñ tekur hana fra mier, Eñ eg legg hana fra mier sialfur. Eg hefe Valld til ad leggia hana fra mier, Og Valld til hana aptur ad taka Og þessara Ordſaka vegna hafa heilager Guds Meñ i Ritninguñe ydu.leaa kallad hñ GUD, þvi Gud er alleina sa ed Daasemdarverkeñ giorer, Pſ. 72. Eg hefe allareidu nockur Vitne þar til leidt af hinu Gamla Teſtamentenu, og mætte þo eñ fle're telia. Eñ Læreſveinar hañs og Poſtular, sem voru uppfrædder af hoñum, Saau hañ og skodudu, 1. Joh. 1. Atu og Drucku med honum, uppa hverra Lærdoom hañs Kyrkia byggd er, Þeir ed hañs Vitnisburd hafa med sijnu eigeñ Bloode underskrifad, og laated Lijfed fyrer þeñañ Sañleika, Þeir lyka aller Einum Muñe upp uñ þetta. Hañs Vitne hafe þier heyrt, Er JEſus elskade, sem var Johañes, Er Gudſpialled ritad hefur. Eñ hañ talar eñ þa framar, 1. Joh. 5. segiande: Vier vitum ad Guds Sonur er komeñ, Og ad hañ hefur giefed oſs Hiarta til ad þeckia hiñ Sañarlega, Og ad vier sieum i hinum Sañarlega, Þad er i Guds Syne, Hañ er Sañur Gud og þad eilijfa Lijf. Rom. 1. giefur St. Paall Gude allra Hluta Skapara þañ Titel, Ad hañ sie Bleſſadur uñ allar Allder: Eñ i sama Piſtle Cap. 9. segier hañ uñ JEſum Chriſt, af hvorium (Hañ meinar Fedrunum) ad Chriſtur er epter Holldenu, Hvor ad er Gud yfer ollum Hlutum, Bleſſadur ad eilijfu.

Judas Poſtule DRotteñs, Hañ endar siñ Piſtel med þeſſum Ordum: Gude alleina viiſum Frelſara vorum, Sie Dijrd og Makt, Kraptur og Vellde, bæde nu og uñ allar Allder. Þeim somu Ordum sem Guds Eingieteñ Sonur hefur skipad oſs syndugum Moñum ad kvedia Gud vorn Fodur i Drotteñlegre Bæn, Matth. 6. Med þeim somu avarpar hañ hier vorn Frelſara, Hvad hañ munde ecke giort hafa, nema hañ villde hafa honum Gudlegañ Heidur veittañ. DRotteñ Gud þiñ skalltu tilbidia og honum Einum þioona, segier Moyſes, Devt. 6. og 10. Og med þeſſum somu Ordum rak JEſus Diofuleñ burt fra sier, er hañ freiſtade hañs, og sagdeſt munde giefa honum oll Rijke Veralldar, Ef hañ fielle fram og tilbæde sig, Matth. 4. Hvar af audſært er, ad Einſomlum Gude, eñ aungvum odrum tilheyrer soddañ Lotning. Eñ hvad seger St. Paall uñ JEſum, Hañ segier ad i hañs Nafne skule oll Knie sig beigia, bæde a Himnum og Jorduñe, og under Jorduñe, Phil. 2. Og so Meñ vite ad hier er eingeñ undañtekeñ, Þa segier Poſtuleñ Hebr. 1. J Davids Orda Stad, ad aller Einglar Guds

ſkale hañ tilbidia. Eñ ef þad ſkulu Einglarner giora, Hvorier ed ſiaa ydugleqa Guds Fodurs Auglit aa Himnum, Matth. 18. Þvi munu þa ecke ſkylldar til þeſs hinar Oæd-re Skiepnur? Þegar Johañes villde hafa tilbeded Eingeleñ, Þañ er talade vid hañ, Apoc. 19. Þa varnade hañ honum þeſs, og ſagde: Siaa til, ad ei giører þu þetta, Tilbid þu Gud. Eñ er hañ fiell til Foota Guds Syne, Þa aptrade hañ honum ecke, helldur lagde ſijna Hægre Hond yfer hañ, ſegiande: Ottaſt ecke, Eg em hiñ Fyrſte og Siijdar-ſte, Apc. 1. Og hvad opt var DRotteñ vor tilbedeñ, jafnvel i ſiñe Anaud hier aa Jord uñe. Hin Canaaniſka, Matth. 15. Maria Syſter Lazari, Joh. 11. Hundrads Hofdingeñ, Matth. 8. Og adrer miklu fleire tilbaadu hañ, og hañ audſiinde þar med, ad honum Guddoomlegur Heidur tilheyrde, ad hañ vard vid ollum þeſſum jafnſkiott og þeir beiddu. Ræningeñ ſem med honum Kroſsfeſtur var, tilbad hañ Daudvona, ſiaalfañ komeñ ad Dauda, Luc. 23. þa ſynde JEſus fyrer Alvoru ad hañ Gud var, Þvi hverſu maatte hañ einum Stoorbrota Mañe Himnarijked giefa, nema hañ ſiaalfur ætte þeſs Valld aa Himnum. St. Stephanus Frumburdur hañs Piiſlarvotta, hañ tilbad hañ midt i Andarſlitrunum, og var hañ þa fullur af H. Anda, ſem Lucas vottar, Act. 7. Heyrt hafde hañ med hvilijku Kalle ad JEſus lietſt aa Kroſſenum, er hañ ſag-de: Fader i þijnar Hendur fel eg miñ Anda, Luc. 23. Eñ hañ giorde þeſs eingañ Mun og hiñs er hañ ſagde: HErra JEſu medtaktu miñ Anda. Hvar fyrer? Þvi hañ viſſe ad Fader og Sonur voru eitt, og Sonureñ Fodurnum ad allre Tign, Dijrd og Mætte ſamjafn epter Guddoomenum. Heidingiar þeir ed af Gude eckert viſſu, og voru aan hañs i Heimenum, Eph. 2. þeir ſkopudu ſier adſkiliañlegar Meiningar uñ God ſijn, er þaa hofdu þo ecke ſkapad, og meintu ad eirn være odrum undergiefeñ, eñ þvilijkt er eckert uñ JEſum ad þeinkia. So Eilijfur, ſo Almaattugur, ſo Alvitur ſem Fadereñ er, ſo er og Sonureñ, ſo ſem hiñ heilage Athanaſius Lærefader hefur oſs þad kiendt i ſiñe Trw-arjaatningu. Jehova vor Gud, Jehova hañ er eirn ſegier Moyſes, Devt. 4. Eñ ef ecke er nema eirn Gud i Veruñe, og þad er aadur vottad ad JEſus ſie Gud, hvernig maa hañ þa honum miñe vera? Og þvi ſegier Poſtuleñ til Hebr. 1. Ad hañ ſie wtþrycke-leg Mynd hañs Perſoonu. Eg er Jehova, þad er mitt Nafn, og mijna Dijrd vil eg eingum giefa ſegier DRotteñ, Eſa. 42. Være nu ecke Guds Sonur Fodurnum ad ollu jafn, og være þetta Nafn ecke Guddoomlegrar Veru, i hvoriu ad eru Þriaar ad greindar Perſoonur, þvi munde Gud þa ſiaalfur Glædſkuñar Bruñur, hafa opeñberad ſijna Dijrd med þeſſu Nafne, þeim ſem oll Saalareñar Velferd aa þvi rijdur ad vita aa hvorn þeir eiga ad trwa, og hallda eingañ honum jafnañ? Eñ hañ hefur ſkipad oſs ad trwa aa Soneñ. Hvi munde hañ ſegia vid Moyſen? Exod. 3. Eg mun vera ſa eg vera mun, og þad ſkalltu ſegia Sonum Iſraelis: Sa ed vera mun, ſende mig til ydar: Þvi munde hañ ſegia fyrer Muñ Eſajæ? Eg er Jehova, og fyrer utañ mig, er eingeñ Gud, Cap. 45. Munde nockud Guds Einvieteñ Sonur, ſa ed er i Fodurſins Skaute vanheidra ſiñ Fodur þar med, ad giora ſiaalfañ ſig honum jafnañ, nema hañ viſſe þad

være so? Þvi segier hañ þa, Apoc. 1. Eg em Alpha og Omega, Upphaf og Ender, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, hiñ Allmaattuge; Þvi munde hañ segia vid Philippum, er hañ beiddest epter ad meiga siaa Fodureñ? Philippe, sa sem sier mig, hañ sier Fodureñ, trwer þu ecke ad eg em i Fodurnum, og Fadereñ i mier? Joh. 14. Þvi munde sialfur Fadereñ kalla hañ siinu Nafne? Edur mun hañ siina Dÿrd odrum giesa? Þvi segier hañ þa Jer. 23. Eg vil uppvekia David eitt Riettlaatt Sæde, sa ed mun Riikia sem Konungur, og þad skal honum vel-luckast, og hañ skal fremia Log og Riettinde aa Jordu, aa hañs Dogum mun Juda hoolpeñ verda, og Jsrael Ugglaus bwa: Þad mun vera Nafn hañs, er hañ mun nefna hañ med, Jehova vort Riettlæte: Þvi mun hañ aptur itreka þetta i 33. Cap. segiande: A þeim Dogum mun Juda hoolpeñ verda og Jsrael tryggelega bwa, og sa ed kallar, hañ mun vera Jehova vort Riettlæte? Mun ei þetta vera hañ, sem oss er af Gude giordur til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar? 1. Cor. 1. Hvar fyrer mun Gud Allsheriar eñ framar segia um siñ Son, Hos. 1. Eñ eg skal Myskuna Hwsenu Juda, og frelsa þaa fyrer Jehova þeirra Gud, og ei vil eg frelsa þaa med Boga edur Sverde edur Striide, Hestum edur Riddara Lide. Meñ þreifa aa þvi, ad þetta er i JEsu af Nazareth fullkomnad og framkomed. Hañ var aleñ i Faatækt, Luc. 2. Hañ uppoolst i Armood, hañ hafde ei þar hañ mætte Hofde siinu adhalla, Matth. 8. Hañs Riike var ecke af þessum Heime. Ecke striiddu hañs Pienarar fyrer hañ, Joh. 18. Hañ skipade Petre ad slidra Sverded, Matth. 26. J siinu mesta Yferlæte reid hañ eirnre Osnu iñ til Jerusalem, Matth. 21. hvadañ hañ var eins og Oboota-Madur til Gaalgans wtleiddur, og hañs bestu Viner og Villdar-Meñ eru deydder hañs vegna allañ Dageñ. Eñ þo er i ollu þessu Volæde Riike Guds Sonar i hañs Barna Hiortum stærra orded eñ nockurt Konungs Riike hefur um Æfe vered. So eg maa þad satt jaata, er Serverus Sulpitius segier, Lib. 2. Histor. Sacræ, um Draap Guds Barna under Diocletiano Keysara: Vier hofum alldrei frægare Sigur uñed, eñ þa vier ecke urdum med Tiju Ara Offsooknum sigrader. Munde nu ollu þessu vera spaad um JEsum, edur hañ nefndur þvi Nafne, sem Gude einum er eigeñlegt, og eingum odrum maa aan Syndar til-leggiast, nema hañ være eirnrar Veru med Gude Fodur, og honum samjafn ad ollu? Zacharias ecke af sialfum sier, ecke af eigeñ Hugbode siinu, helldur fullur af Heilogum Anda segier um Johañem, Luc 1. Og þu Sveirn munt nefnast Spaamadur hiñs Hærsta, eñ þad er kuñugt ad Johañes var Fyrerreñare JEsu, og Eingill undañ hañs Augliteisendur, Mal. 3. Eñ ef hañ er hiñ allra Hærste, hvorneñ maa þa nockur honum hærre vera? Ef hañ segier sialfur: Eg em hiñ Fyrste og Siidarste, Apoc. 1. Hvor kañ honum þa fyrre ad vera? Og hvad halldeđ hefur vered um Messiam aa Hiervistar Dogum DRotteñs, þad kieñer Johañes Cap. 5. Segiande: Þess meir sooktu þeir epter ad deyda hñ, ad hñ ecke einasta braut Hviildar-Dageñ, helldur sagde Gud ad vera siñ eigeñ Fodur, giorandi sig jafnañ Gude, hvad hañ med þessum Ordum giorde: Miñ

Fader

Fader erfidar allt hijngad til, og eg erfida, Sem villde hañ sagt hafa: Miñ Fader er ei bundeñ vid Sabbatz-Dageñ, ad hañ ei stioorne ollum Hlutum bæde a Himne og Jordu, epter Villd siñe, so lækna eg og þa Siwku, epter þvi Vallde sem eg hefe: Og ma þvi ecke a moote segia, ad þesser Rangláatu Meñ toludu riett i þessu. Paulus er skoreñordur um þetta Efne, þegar hañ eggiar Christna Meñ a Hoogværd og Lijtelæte, segiande: Vered eins lynder og JEsus Christus var, hvor þoott hañ Guds Mind være, hiellt hañ þad ecke fyrer Herfang Gude jafn ad vera. Og hefe eg so med nockrum Rokum vitnad fyrer ydur, ad JEsus er Gud eillifur, Almattugur, alls Heidurs verdugur, og Fodurnum ad ollu jafn epter Guddoomenum, ecke þess vegna, Brædur mijner, ad eg þurfe nockrum i þessum Safnade ad telia Trw hier um, þvi þad jata aller med Hiarta og Muñe, helldur ad eg i stuttu Maale audsyne wt af þessu H. Evangelio, hvilijkur hañ sie, er vort auma Holld og Blood hefur uppa sig teked, hvar um Johañes framar talar med þessum Ordum: Og ORDED Vard HOlld Og Bygde Med Oss. Hvor Ord ecke eiga þañ Veg ad skiliast, so sem ad Guddoomureñ sie i Mañdoom umbreittur, hia Fodur Liossaña er eingeñ Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar, segier Jacob Postule Cap. 1. Eñ þar hañ nefner Fodur Liossaña, þa meinar hañ Gud: Eñ þad er adur vottad, ad JEsus Christus sie sañur Gud, þar fyrer er þvi laangt fiærre, ad hañ kuñe hiñe miñstu Umbreitingu underorpeñ ad vera, og þoott ei være añad til Vitnis hier um, þa eru Johañis eigeñ Ord er hier standa skomu sijdar i Evangelio: Vier Saaum Hañs Dijrd, Dijrd So Sem Eingietens Sonar Af Fódurnum. Eñ nær saau þeir hana? Ad soñu i Kieñinguñe, J Kraptaverkunum, J Skijrneñe, eñ ecke sijdst þa hañ forklaradest a Fiallenu, Matth. 17. og var þad hiñ same er þeir hofdu eted og druckid med, 1. Joh. 1. So er þa ecke Guddoomureñ umbreittur i Mañdoom, helldur hefur Guds Sonur Mañdoomlega Natturu uppa sig teked, so sem Paulus til Hebreos Cap. 2. ad Orde kiemst: Ad hañ hafe ecke Einglana, helldur Abrahams Sæde a sig teked, teiknande þar med, ad hañ hafe Mañdoomeñ teked i Samfielag og Einingu siñar Guddoomlegu Persoonu, og i þessum Ordum: ORDED Vard HOlld, er venjulegur Ords-Hattur Ritningareñar: So segier Gen. 2. Adam vard ad lifande Saalu, þegar Gud blies lifande Anda i Mañsins Naser, ecke þad ad Lijkameñ umbreittest i Saal, helldur teiknast med þessu Orda Tiltæke, hin allra nakvæmasta Eining a millum Saalar og Lijkama, hvor mioog so er þessare lijk, þvi so sem Saal og Lijkame verda ad eirnre Persoonu, so urdu og Tvær Nattururnar i Christo, eirn Gud og Madur, þegar hañ Holld og Blood uppa sig took, þetta vitnar allvijda H. Ritning, bæde i Spaadoomunum i gamla Testamentenu, sem og i Medkieñingu þeirra er saau og skodudu hañ, og hvorra Hendur a honum þreifudu, 1. Joh. 1, og saau þo hañs Dijrd, so sem Eingietens Sonar af Fódurnum. Hiñ fyrste Vottur i gamla Testamentenu er sialfur Gud, er hañ sagde ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hvilijkt ad sie þetta Kviñuñar Sæde, þad vitnar Esajas Cap. 9. med þessum

Ordum:

Ordum: Eitt Barn er oss fædt, og eirn Sonur er oss giefen̄, hvors Hofdingia Doomur er a haus Herdum, og haus Nafn er Undrunarlegur, Raad, Hetia, Kraptur, eilijfur Fader og Fridar Hofdinge. Siaaed hier, Bræbur mijner: Han̄ sem fæddur er, han̄ sem Spaamaduren̄ Barn kallar, han̄ nefner han̄ under eins Fodur Eilijfdaren̄ar, af hvoriu liooster, ad han̄ er bæde Gud og Madur. Og ad þetta sie meint um̄ JEsum af Nazareth og ecke an̄ad Barn, vottar Esajas Cap. 7. Siaa þu ad ein Jomfrw mun Oliett verda, og mun Son fæda, og han̄ mun hun kalla Jmmanuel, þad er Gud med oss. Þetta segier Lucas Cap. 1. framkomed ad vera. Morg on̄ur Vitne mætte hier til leida ef þad Tijmen̄ leisde, en̄ i hinu Nija Testamentenu eru ecke færre. Hin̄ sterkaste Vottur er Thomas Postule, Hvor ed ecke villde trwa fyrr en̄ han̄ took a, en̄ þegar han̄ liet sijna Fijngur i Naglaforen̄, og sijna Hond i hans Sijdu, þa æpte han̄ upp af Fagnade, og sagde: O Drotten̄ Min̄ og Gud Min̄, Joh. 20. St. Paall sem var i Pridia Himen uppnumen̄, og heyrde þar Oumrædeleg Ord, 2. Cor. 12. Han̄ kallar han̄ hin̄ mikla Gud, og Freisara JEsum Christum, Tit. 2. og hin̄ same segier: Ad han̄ sie giord ur af Sæde Davids epter Holldenu, Rom. 1. Man̄sins Sonur sem talade vid Nicodemum, segiest vera a Himne, Joh. 3. Og aptur segier han̄ vid Gydinga, Joh. 8. Pier leitest vid ad deyda mig, Eirn Man̄ sem segie ydur San̄leikan̄, og siaalfur segier han̄, Þegar han̄ hafde siaalfur aptur teked Saalu sijna, Ande hefur ei Holld nie Bein, so sem þier siaaed mig hafa, Luc. 24. Vier vitum ad ecke fædest af Man̄e nema Madur, En̄ Lucas segier, ad Maria hafe fædt sin̄ Eingieten̄ Son, Hvar fyrer ad Postulen̄ til Hebræos skrifar, ad han̄ sie Hluttakande Hollds og Bloods eins og Smaa-Bornen̄, Heb. 2. Paall segier en̄ aptur, Col. 2. Ad i honum bwe oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Þad er Reyndar fullkomlega og san̄arlega.

J Foornum Gamla Testamentesins bioo Gud so sem i Skugga Epterkomande Giæda, Hebr. 10. J Christo hosum vier siaalfan̄ Lijkaman̄, Col. 2. Og han̄ bijr i honum eins og Saal Man̄sins bijr i hans Lijkama. Kraptur Guds bioo i hans Spaamon̄um og odrum Heilogum, En̄ ecke vard han̄ ein Persoona med þeim, hvad liooft er þar af, ad Guds Ande veik fraa þeim a Stundum, En̄ Guddomuren̄ Christi hefur alldrei Man̄doomen̄ vidskila orded, fraa þvi fyrsta Augnabliке Gietnadarens, og mun helld ur alldrei verda um̄ alla Eilijfd. Pvi Eingellen̄ er han̄ bodade Moodur hans Gietnaden̄, Luc. 1. Segier ad han̄ mune Drottna yfer Hwse Jacobs ad Eilijfu, Pad er ad han̄ skule alldrei hans Konungs Tign afleggia, Hvor honum þo ecke er odruvijse meddeilld, En̄ fyrer Jbwd Guddoomsins. Jaa þott hin̄ grime Daude sundursl ite Saal og Lijkama i Pijnun̄e, Pa maatte han̄ þo ecke leysa þad Band Eiuingaren̄ar, Sem var mille Guddooms og Man̄dooms, Pvi hvorsu maatte han̄ af siaalfum sier, og af eigin̄ Kroptum upprijsa ella? Eige veit eg hvort nockurt Vitne er sterkara edur lloosara um̄ Guddoom og Man̄doom Christi i eirure Persoonu, Helldur en̄ St. Paals, 1. Tim 3. Er han̄ segier: Pad er mikell Leyndardoomur Gudhrædslun̄ar (þad er Christen̄doomsins,

sins) ad Gud er Openberadur i Holldenu, Riettlættur i Andanum, Er siedur af Einglunum, Er Predikadur Heidingiunum, Er trwad i Heimenum, Er uppnumeñ i Dijrdeñe. Hvad er þetta Br. M. ad Gud sie Riettlættur i Andanum? Kañ nockur ad Riettlæta hañ Riettlæta i Jsrael? Eñ þeß er ad giæta, Ad þetta Ord, Pad er ad vidurkieña Sañañ og Riettlætañ ad vera. So skrifar Luc. Cap. 7. Ad allt Foolked og Tollheimtumeñerner hafe Riettlætt Gud, Pad er prijsad hañ og medkient Sañañ Gud ad vera, J Andanum, segier Postuleñ, Pad er epter Guddomenum, So segier Petur, 1. Pist. Cap. 3. um Christ, Ad hañ sie Deyddur epter Holldenu, Eñ Lijfgadur, Pad er, Lifande epter Andanum Pad er Guddoomenum, Og med sama Hætte segier Paulus, Rom. 1. ad hañ sie Auglijstur Guds Sonur i Mætte epter Anda Heilagleikans, So er þa Meiningeñ, ad i Christi Hollde hafe Guddoomureñ so auglijst sig, ad Meñ hafe jatad og þeckt, ad Gud hafe i honum bwed. Er siedur af Einglunum, hvort helldur þad eru Postular DRotteñs, sem opt verda Einglar kallader, Mal. 2. Apoc. 1. edur og Guds Einglar, sem gyrnast ad skignast iñ i þeñañ Leyndardoom, 1. Pet. 1. Pa eru hvorutveggiu þesser fullnooger til Sañinda. Er Predikadur Heidingium, Er trwad i Heimenum; Pesse Ord sijna oß, Hvad hiner Fyrstu Christner Meñ hafe hier um hallded, Og hvorneñ DRotteñs eigeñ Postular hafa Christum Predikad. Uppnumeñ i Dyrdeñe; Hañ sem þeir vissu doo aa Kroßenum, Af Daudum uppriseñ, Hañ sem aat og drack med þeim, aa hvorium þeirra Hendur þreifudu, 1 Joh. 1. Hañ sau þeir til Himens faranda, med Guddoomlegre Dyrd. Og Skyed took hañ i burtu fraa þeirra Augum, Act. 1. O! hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Vitsku. Hier maa allur Eingla og Maña Skilningur i hina mestu Undran falla. Petta er saa Leindardoomureñ, sem huleñ er fyrer Vitringum, Eñ nu er Openberadur Smælingium, Matth. 11. Hvor vill wtsegia hañs Gietnad? Esa. 53. Hañ er fæddur af Fodurnum fyrer allar Allder, Hvor vill þad wtsegia? Hañ er Gieteñ af Heilogum Anda i Tijmanum. Hvor vill þad wtsegia? Hañ er fæddur af Meyu eirnre, Hvor vill þad wtsegia? Oß fallast Hendur af Forundran, Pegar vier heyrum ad Moysis Stafur verdur ad Hoggorme, Exod. 7. Pegar Aarons Vondur bloomgast, Num. 17. Pegar Sooleñ stendur kyrr, Jos. 10. Pegar hun geingur um nockur Strik til Baka aptur, 2. Reg. 20. Pa Biorgeñ klofna i sundur, Matth. 27. Pa Vatned skipteſt i Tvo Hlute, og stendur eins og Mwr-Veggur, Jos 3. Pegar Elldureñ breñer ecke og giorer engvañ Skada þvi sem i hañ er kastad, Dan. 3. Og er þad þo Ender allrar vorrar Undrunar, ad vier segium þad sie ecke undarlegt, Pott hañ sem Naatturuna skapad hefur, Giete umbreitt Naatturuñar Haattum. Eñ hvad skulum vier um þad segia, ad Gud Naatturuñar Madur verdur? Og hañ sem var fyrer allar Allder, Hlijder Tijmans Logmaale? Ad Skapareñ fædest af Skiepnuñe? Og hañ sem Himen og Jord taka ecke, verdur i Moodur Lijfe iñelucktur? Pesse Gietnadur, Pesse Fæding eru so Furdanleg, ad þegar Kraptur hins Hæsta yfirskygger Riett-trwada Saalu, Pa gietur hañ slijka Hlute vid

heñe,

heñe, ad Muñureñ fær þeim ecke wtklaked, og lætur sier nægia þar med, ad allt Tilefne þessa Stoorundrunarlega Furdu-Verks, er iñefaled i hañs Almætte, Hañs Giædsku, Hañs Vitsku og Omælañlegre Myskunseme, Er þad giort hefur. Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, um Allder Allda, A M E N.

# Añan Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 23. Cap.

A Þañ Tijma sagde JEsus til Gydinga Foolksins og Hofdingia Kieñemañaña: Siaaed, Eg sende til ydar Spaameñ, Spekinga og Skriftlærda, og nockra af þeim munud þier Aflijfa og Krossfesta, og suma munud þier Hwdstrijkia i Samkundu Hwsum ydar, og af añare Borg i adra munud þier þaa ofsækia, so ad yfer ydur kome allt Riettlaatt Blood sem aa Jordena wthellt er, i fraa Bloode Abels Riettlaata, allt til Bloods Sachariæ Sonar Barachiæ, hvorn þier draapud aa millum Musterīs og Altarīs. Sañlega segie eg ydur: Ad allt þetta mun koma yfer þessa Kynslood. Jerusalem, Jerusalem, þu sem aflijfar Spaameñena, og grijter þaa er til þijn eru sender, hvorsu opt hefe eg viliad samañsafna Sonum þijnum, lijka sem Hænañ samañsafnar Ungum sijnum under Vænge sier, og þier hafed ecke viliad? Siaaed, Ydar Hws skal ydur i Eyde laated verda. Þviad eg segie ydur: Ad þier munud eige siaa mig upp fraa þessu, þangad til þier segied: Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DROTTEñs.

## Exordium.

Hvegar Meñ athuga aa eina Sijdu Guds Owtsegiañlegañ Heilagleik, hañs Riett æte og hañs Almætte: Og so añars Vegar, ad Heimureñ er nidursocktur i hid Vonda, 1. Joh. 5. hvar ed sialf Giædskañ lijted añad sier, helldur eñ þad sem heñe er Gagnstædelegast, sem er Illskañ og Ogudlegar Athafner syndugra Mañna, þa meigum vier med Blygdun vors Andlitis medkieña þad satt ad vera, sem Moyses segier, Num. 14. DRotteñ er Þoleñmoodur og miog Myskunsamur, fyrergiefande Synder og Misgierder. Nu þoott ad oll Verollðeñ ætte i einu Hlioode ad prijsa þessa Guds Giædsku, þa mætte þo synast, ad hañ hefde hvad mest auglyst hana sijnu Foolke aa Gamla Testamentesins Dogum, þvi um þaa maa jaata þad satt ad vera, sem David segier: Ad Gud hafe ecke so giort ollu Foolke, Ps. 147. Eñ hvoriu launade sw þverbrotna Kynslood sijnum Gude? Hañ klagar sialfur yfer þeim fyrer Moyse,

 Num.

Num. 14. Ad þeir hafe Tiju-siñum moglad a mote sier i Eydemorkuñe. Hañ sette Myñing siins Nafns a medal þeirra, Exod. 20. Par var hañs Elld-Stoo og hañs Bwstadur, Esa. 31. Eñ þeir tooku vid Tialldbwd Molochs, og vid Stiornu Guds þeirra Remphan, Act. 7. Þeir uñvelltu hañs Skickan, og yfergafu Guds Bodord fyrer Mañа Setninga, Matth. 15. Eñ aflijfudu hañs Spaameñ, sem til þeirra voru sender. Allra sijdarst sende hañ þeim Soneñ, og sagde, so sem JEsus kieñer i Epter-lijkinguñe, Matth. 21. Þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum, eñ þad villde ecke so til ganga; Þeir sogdu: Þesse er Erfingeñ, latum oss rada hañ af Dogum: Ja, vier vilium ecke lata þeñañ drottna yfer oss. So hafa þeir og sialfañ Guds Eingiet-eñ Son a Krosseñ uppheingt, Hañs Þienara og Postula af Lijfe teked; Forsmad þeirra Kieñingar, og eckert Ogiort lated þad Gude kuñe til Stygdar ad verda; Hvar uñ JEsus þeim brixlar hier i Evangelio, og ynder eins fyrersegier, hvad stoorkostleg Hefnd ad fylgia mune a epter so langvaranlega Forsman Guds og hañs Heilogu Orda, þegar þeir hofdu uppaused Bruñ Myskunareñar og uppfyllt Mælingu Synd-aña: Þvi DRotteñ er eirn Hegnare, eirn vandlætande Gud, Ja, eirn Hegnare er DRotteñ a sijnum Mootstodu Moñum, og sa ed ei mun gleyma þvi a sijnum Ovin-um, segier Nahum Spamadur. So er nu oll sw Olucka komeñ yfer þessa vesolu Þiood, sem Gud og hañs Spameñ hafa fyrer sagt, af þvi ad þeir ecke þecktu siñ Vit-iunar Tijma, Luc. 19. Og þeirra Hws er þeim i Eyde lated; So sem DRotteñ spaer hier i Gudspiallenu; Eñ þeir wtrekner uñ alla Verolld, hafa hvorge blijfañ-legañ Samastad, nema þad er þeir þiggia verda af þeim er þeir sijst villdu. Nu hof-um vier sied þeirra Ofarer, Brædur mijner: Eñ giætum ad þvi, ad hvad sem skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Ei sijdur þetta Heilaga Gudspiall; eñ hvort añad; So ad vier wt af Gydingaña hrædelegu Dæme latum oss uñhugad vera ad leita DRotteñs medañ hañ er Nalægur, Esa. 55. ad ei follum vier i nockurt syndsamlegt Andvaraleyse, þvi ef Gud þyrmde ecke hinum Natturlegu Kristnum, þa er Uggvænt ad hañ oss ei þyrme, Rom. 11. Eg hefe i Guds Nafne asett i þetta Siñ, ad tala uñ þa Hlute wt af Gudspiallenu, sem oss kuña ad hvetia til ad rækia Guds Heilaga Ord, og laga vorn Lifnad þar epter, so ad ei kome yfer oss þær straungu Hootaner, sem rætst hafa allt of-miog a hañs Foolke Gydingum.

O DRotteñ hialpa hier til i Nafne JEsu Christi þijns Eingietens Sonar, og gief þijnum Bornum Naad Heilags Anda þar til, Amen, J JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAd er vidteked hia ollum Gudhræddum Moñum, ad Meñ hallda þad fyrer stoo-ra Synd ad fara illa med Guds Gafur, sem hañ hefur giefed oss til Notkunar og Lijfs Uppbelldis, og sa er ei þeirra verdugur, sem ecke hyrder þær og medtekur med stærsta Packlæte og Lofgiord vid Skaparañ; Eñ Ord DRotteñs, er eingeñ Almeñeleg Guds Giof: Pad kostade hiñ eilijfa Vijsdoom ecke nema sa Ord ad skapa Himen og

Jord

Jord af eingu Efne, Gen. 1. Af hvorium hañ allt til þessarar nalægrar Stundar giefur allre Skiepnu sitt Foodur. Eñ i Synda-Fallenu giordest Vannmatturen so matt-ugur, ad hiñ Goode Gud vard ad taka til Almættes siins, so þad Endurskapad yrde sem Synden og Dioefullen hofdu vanskapad, og þad kostade hañ so miked, ad opeñbera oss siñ Vilia og Veg Saluhialpareñar, ad þad eilijfa ORD Fodursins, Joh. 1. Hiñ Eingietne Sonur Guds, sem er i hañs Skaute, hlaut Pioons Mind a sig ad taka og girast oss ad ollu lijkur, Phil. 2. ad Syndeñe fratekeñe, ja, ad þola hier i Eymdum vors Hollds allskonar Volæde og Vesolld. Hvad virdest ydur þa Born DRottens? Hvilijk Skom er þad einum Synda Præl, ad troda under Fætur sier hina dijrmætu Perlu, Matth. 13. sem DRotteñ Dijrdareñar hefur kostad so miked uppa, ecke sialfsum sier til nockurra Nota, helldur honum til Lækningar, til Myskunar og Syndalausnar, sem var hañs Ovinur og Barn Reideñar? Rom. 5. Eg vil ecke fa mier til Orda, uñ Postula DRottens JEsu, hvorier ed uppfyllt hafa Leifar Christi Harmkvæla a siinu Hollde fyrer hañs Lijkama, sem er Sofnudureñ, so sem Paall uñ sig ritar, Col. 1. Ecke i þeirre Meiningu, ad hid allra miñsta vante a Christi Pijsler til ad frida fyrer syndugt Mañkyn hia Gude, so ad þeir edur nockur añar þyrfte ad bæta hañs Forþienustu upp, helldur hiñs vegna, ad Guds Sonur hefur ecke einasta lided oss til Forlijkunar, helldur og til Epterdæmis, so sem Postuleñ til Hebreos 12. vottar. Pa hafa þesser Guds Meñ ad Dæme siins HErra lided allskonar Hormungar, og ad Sijdurstu Daudañ, til ad byrta Guds Sofnude (hvorn Paulus hier nefner Christi Lijkama) hañs Evangelium, og ad syna þeim bæde med Orde og Epterdæme hina riettu Leid til Himnarijkis. Nu fyrst hin eilijfa Myskunseme hefur audsynt oss so stoora Giædsku, oss sem bwum a Torfu þessare, so ad segia wtlæger fra allre Verolldu, ad vier og meigum reiknast a medal hañs Safnada, þa verum ecke so Oþacklater edur Rænulauser, ad vier forsmaum þeñañ dijra Doom sem Guds Astviner hafa vared bæde Fie og Fiorve til ad wtbreida uñ Verolldena, so ad þesse JEsu Christi Sendefor hefur og nad til vor; hvoria þeir ecke þecktu, edur vissu, hvort vier mundum nockurn Tijma Mañeskiur verda, edur ei, helldur giordu þeir þad alleina wt af Hlijdne og Elsku vid siñ HErra, og heitum Kiærleika vid alla þa sem a hañs Nafn trwa mundu, þvi sokum þess, ad þeir hofdu Vitnisburd H. Anda i Hiarta siinu uñ þad ad þeir væru Guds Born og elskudu hañ, og þecktu ad Mootlæte þessara Tijma var ei verdt þeirrar Dijrdar, sem Gud hefur siinum tilbwed i eilijfu Lijfe, Rom. 8. þa villdu þeir kosta Lijfe og Velferd til þess, ad sem flester kyñu heñar niootande ad verda. Epterdæme hiñs H. Stephani, hvors signadre Myñing ad þesse blessade Dagur helgadur er, þad heyrdum vier af Pistlenum sem nijlega var sungeñ fyrer Altarenu. O HErra Gud! hvilijk var hañs Rokseme, hañs Vandlæte, hañs Poleñmæde, þar ed hañ ad Dæme siins Frelsara, beidde fyrer þeim sem hañ villde hafa a Guds Veg snwed; þegar hañ stood fyrer Daudans Dyrum, vard honum þad fyrst ad Veige, ad bidia Ovinum siinum Myskunar, Luc. 23. og sijdañ ad fela

siñ Anda siinum Frelsara i Hendur: So kiæra hafde þesse Guds Astvinur, bæde siina og þeirra Velferd. Pad er og kuñugt af St. Pals Pistle til Romveria Cap. 9. ad hañ segier: Eg æſkte sialfur ad vera wtrekeñ fra JEsu Christo fyrer Brædur miina epter Holldenu, og ad Postuleñ hafe ecke talad þetta fyrer Sidasaker, helldur af fullre Alvoru, og ef eg ma segia af nockurskonar Elſkuñar Of-bode, liiku þvi sem Christo þriiste til þess ad lata heingia sig fyrer Syndarañ, þad votta þau Ord er hañ ſkrifar strax ædur a þeñañ Hatt: Eg segie Sañleika i Christo, og liig ecke, ad samvitande mier Samvitſku miñe fyrer H. Anda; Af hvoriu audsært er, hvad liitels hañ meted hefur siina Velferd hia añarra, uppa þad hañ feinge Vitnisburdeñ JEsu Christi wtbreidt, þeim til Syndalausnar og Saaluhialpar er hañ bundu, offsooktu og hroktu fra eirnre Borg i adra, fra einum Ranglatum Doomara til añars, og mætte hier uppa morg oñur Dæme fiña, ef þad Tijdeñ leifda. Eñ þu sem ætlar þier med þessum Guds Englum somu Vist ad hafa i eiliifre Himnariikis Diird; Giæt ad sialfum þier, ad þu ecke ad litlu hafer þañ Diirmæta Hlut, er þeir hafa so mikels meted, og þegar þu heyrer Johañem Halshoggveñ, Matth. 14. Jacob med sama Hætte Liiflateñ, Act. 12. Petur Krossfestañ, og allar Guds Hetiur med smanarlegum Dauda af Dogum teknar, fyrer þetta Sañleiksins Ord, og hina mestu Goodgiord, sem aungvañ Maka hefur, þa ber samañ hvad fraleitt ad sie þessu, Toomlæte og Hiarcena sumra Maña; þeir ed lifa a vorum Dogum, og allar Stunder þykia iñdælle eñ þær, er þeir eiga Guds Eyrende og Verk siñar Saaluhialpar ad giora. So langt er fra þvi ad þeir hafe sig epter nockud Gott ad nema, af þeim sem til þess eru setter, edur late sier umhugad vera, ad Born þeirra edur Hiw lære þad er þeim kañ til Sid-Boota og Saalar-Nota ad gagna, Jafnvel þoott þvi sie nærre a hvorium Helgum Deige yferliist, ad an Guds Heilogu Orda Predikingar, kañ Madureñ siidur ad lifa Andlegu Liife; helldur eñ Liikamlegu, fyrer utañ Fædsluna. Pad vottar JEsus er hañ sañfærde Andſkotañ Fordum Daga med Moyſis Ordum, Segiande: Madureñ lifer ecke af Einusamañ Braude, Devt. 8. helldur af sierhvoriu Orde þvi er framgeingur af Gud Muñe, Matth. 4. Hvad vill hier af verda, Born miin? Nema ad sa er andlega daudur, sem ecke hefur Foostur Saalu siñe i Guds Orde, jafnvel þoott hañ life fullur og feitur i Liikamanum. O Jerusalem! Jerusalem. Pu Sem Afliifar Spameñena Og Griiter Pa Sem til Piin Eru Sender, Segier JEsus. Ad soñu giorer þad eingeñ medal vor; Eñ hvad giora þeir ed forakta Spadoomana og þær Kieñingar sem þar wt af eru? Pa vantar ekkert nema Tækefæred til ad giora hid sama. JEsus griet yfer Borgeñe er hañ sa hana og sagde: Ef þu visser hvad til þiins Fridar heyrde, þa munder þu a þessum þiinum Tiima þar Vaktan a hafa, eñ nu er þad huled fyrer þiinum Augum, Luc. 19. Mun hañ eñ nu ecke i Dag segia hid sama i siinu Heilaga Orde, vid alla Hyrdulausa, sem ecke vita ad giora Grein a Trw siñe, edur ſkynia meir hvad Christeñdoomur er, eñ blindur Madur kañ um Lite ad dæma? Petta muñu Ofgar þykia: Eñ eg ma spyria, ef Meñ vita þad Almeñelega, Pvi

Þvi haga þeir sier ecke þar epter? og ef Meñ þad ecke vita, þvi leggia þeir ecke allañ Hug á ad naa þvi, aan hvors þeir kuña ecke Guds Børn ad heita, ecke Himnarijke ad erfa, og ecke eilijfar Helvijtis Pijsler ad umflya? Eg vil ei tala um̃ þad, hvørsu hyrdulauser ad marger eru i þvi, ad laata Børn og Ungdoom læra ad lesa Guds Ord, sem þo er eitt aagiætt Medal til ad naa Grundvellenum i hinum saña Christeñdoome, og so miklum Froodleik i Guds Orde, sem næger til Saaluhiaalpar: Ecke er ad dyliast vid þad, ad marger Ungling ar eru so Tornæmer, ad þeir faa ecke teked allt þad af einum Predikunar-Stool, sem þeir þurfa til Andlegs Uppheldis. Sæded ber ecke Avøxt þoott þvi sie kastad i Jordena, nema þad rotne, 1. Cor. 15. ei helldur Guds Ord i Mañsins Hiarta, nema Meñ smellte þad med ydugleare Um̃þeinkingu: Ad þessu giæta Meñ ecke, og ætla þad sie noog, ef Guds Ord þijtur um̃ Eyruñ i Kyrkiuñe, og jafnvel þoott sumer medtake þad med Fagnade, um̃ Stundarsaker, Luc. 8. þa hefur þad ecke alltijd so mikla Root, ad þad bære Avøxt, nema þad sie nært og vøkvad med sijfelldre Astundan.

Gud skipade Jsrael, ad þeir skylldu brijna sitt H. Logmaal fyrer Børnum sijnum, þa þeir sætu i sijnu Hwse, Devt. 6. Eñ ef so þootte miked varda um̃ Logmaaled, sem er nockurskonar deydande Bookstafur, 2. Cor. 3. Og øngvañ kañ af sialfu sier hoolpeñ ad giøra. Hvad skal eg þa segia um̃ Ord Evangelij, Sem er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar øllum þeim sem trwa, Rom. 1. Skyllde þad ecke med allre Astundan Kostgiæfa? Edur segied mier, Brædur mijner, Er þad so lijted, ad vier meigum þessarar Guds Gaafu med Fride og Frelse niota, Fyrer hvøria Guds Eingieteñ Sonur hefur Lijf sitt laated, og hañs Heilager Pijslarvottar epter hañ, til ad stadfesta hañs Witnisburd hiaa Mañaña Sonum Æfeñlega, Jñ til þess hañ kiemur? So er nu Guds Heilagt Ord dijrmætt, So er þad til Saaluhiaalpar Naudsynlegt, Edur riettara ad segia Omissande. Nu vil eg þess hier gieta, ad þetta Tijmanlega Lijf, Þad er Eymdum og Andstreyme vafed. Madureñ af Kviñuñe fæddur, Er fullur Eymda og faarra Lijfdaga, Seger H Job. 14. Og jafnvel þeir sem Heimureñ lætur vel, ad þeir una þo ecke aa allañ Haatt vel vid Hag siñ, Hvar skulum vier faa añad betra Raad vid slijku, Eñ i Guds Heilaga Orde? Morg eru Maña Mein. Eirn hefur Fullsælu Fiaar, eñ er þo Oheill ad Lijkamans Burdum: Ecke gietur Gots edur Gardar bætt honum þad, Guds Ord verdur ad hugga hañ i hañs Veikleika, So ad þott Saal og Lijf vanmegnest, Þa lære hañ samt af þvi ad vona aa DRotteñ, Ps. 73. Maaskie hañ sie og heilbrigdur, eñ aa Ofundar-Meñ, þa epter honum sitia, og laata hañ ecke i Fride, hvørke Noott nie Dag, Eckert stødugt Raad fiñur hañ vid þvi i Veralldlegum Munum, edur hiaa siñe Skynseme, Þoott hañ sie Allvitur, Þvi vorer Vitsmuner eru Haalfverk, 1. Cor. 13. Guds Ord skal kieña honum ad varpa allre siñe Ahyggiu uppaa Gud, Hañ mun þvi vel til Vegar koma. Kañskie hañ vante og hvørke Heilsu, Metord nie Vinsællder, Eñ þa er honum nærsta hætt ad ecke falle hañ i Andvaraleise, Nema hañ lære ad þeckia sig af Guds Orde. Verda maa hañ gyrnest meira eñ hañ aa, So sem þad giarn-

añ

añ fylger Audlegdeñe, Pad er verra eñ Vanheilsa Lijkamans; Pvi þad er nockurs-konar Siñisveikia, vid þvi giefur Guds Ord honum Raad, ad eckert hafe hañ iñ i Heimeñ bored, Mune þvi eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Lære þvi ad vera rijkur af goodum Verkum, Og medbijta hinum Naudþurftuga, ef hañ vill Riettelega Aud siñ brwka. Kañskie og hañ sæke Tijmañlegañ Munad i Audlegd siñe, og segie med hinum Rijka: Et og dreck Saala mijn, Pu hefur til margra Ara samañsafnad, Luc. 12. Eñ Guds Ord miñer hañ a, ad hafa sijna Unadsemd i DRottne, Hañ mune giefa honum þad hañs Hiarta gyrnest, Ps. 37. Añar er heill Heilsu siñar, Eñ hefur Skort a Lijkamlegre Atviñu eg Veralldar Munum, Honum segier Guds Ord, ad þegar hañ hafe þad hañ kuñe ad eta og drecka og klædast med, skule hañ ecke framar Umsorgadur fyrer Morgundeigenum Umhyggiu bera, Matth. 6. So ad hvorn Kost Mañlegs Lifnadar sem vier tokum, þa er Guds Heilagt Ord Bovt vid ollum Meinum, so sem Paulus vottar, Ad Gudhrædslañ sie til allra Hluta Nytsamleg, 1. Tim. 4. Þetta vil eg nu ecke sagt hafa i þeirre Meiningu, ad þad sie noog ad heyra Guds Ord og læra þad, So ad Meñ kuñe Greiner Ritningareñar, og adra Fræde utañad, Pvi Guds Rijke er ecke foolged i Ordum, helldur i Krapte, 1. Cor. 4. Pad er ecke noog ad hroosa Guds Heilogum Pijslarvottum, Eñ lifa þo ecke epter þeirra Dæme edur Keñingu, Pad geingur nærst þvi ad uppbyggia Leide Spaamañaña og prijda Grafer Riettlaatra, og segia: Hefdum vier vered a Dogum Fedra vorra, villdum vier ecke hafa vered þeirra Stallbrædur i Lijflaate Spaamañaña, Matth. 23. Pvi so sem ad Paall segier, Rom. 2. Ad ecke Heyrendur Logmaalsins sieu Riettlaater, helldur þess Giorendur mune Riettlaater verda; So kallar og Christur þa Sæla, sem ecke alleina heyra Orded, helldur þa sem vardveita þad, Luc. 11. Eñ ad vardveita Orded, Pad er ad lifa þar epter. Forgiefens vardveita Meñ Orded i Hiartanu, Nema þeir laate þad siaa i Lijfernenu, Pvi af þeirra Avoxtum skulu þeir þeckia þa, segier HErrañ, Matth. 7. Gud lætur rigna hid sama Regn yfer Korn-Akureñ og Þyrnebuskeñ, Eñ yfer Korned til þess ad þvi verde samañsafnad i Hloduna, Eñ Þyrnereñ verdur uppbrendur, Matth. 13. Og þo er Doggeñ hin sama; Siaae hvor eirn til hvoria Root hañ hefur i Hiarta sijnu, til ad taka a moote hiñe Himnesku Dogg, sem ad er Guds Ord, Giæte sier hvor ad, hvad laangt ad þesse Vokve sijgur, Og i hvada Jord hañ fellur. Doggeñ er good, Orded er gott, allt þaangad til þad kiemur i vondt Hiarta, Og verdur þar Ilmur Daudans til Daudans, 2. Cor. 2. Og þeim til Fordæmingar sem ongvañ Avoxt færa, nema Þyrna og Þystla, Sem til einskis añars duga, eñ ad wtkastast og i Ellde breñast, Heb. 6. Eñ eg veit ecke hvort hun hefur i gooda Jord falled, Nema Avexterner þad auglijse, Matth. 5. So lijse ydar Loos fyrer Moñum, ad þeir siaae ydar Goodverk, og dyrke ydvarn Fodur sem a Himnum er. Ecke var ad aalasa Gydingum fyrer þad, ad þeir ecke kyñu Ritningarnar. Paulus segier um þa, ad þeir hafe haft ad soñu Vandlætingu Guds, eñ ecke epter Skynseme, Rom. 10. Þeir voru bæde Skriptlærder og Log-

Logvitringar, Eñ þo kallar JEsus Pháriſæos Blinda, Blindra Leidtogara, Og ad þeir gleyme þvi ſem meſt er i Logmaalenu, Doomenum, Trwñe og Myſkunſemeñe, Matth. 23. Saducæi þoottuſt og Spekingar vera, og villdu þreyta Spurningar vid Chriſt, eñ DRotteñ ſagde vid þa, Þier villeſt og vited ecke Ritningarnar, Matth. 22. Spekingar Gydinga ſem lifdu aa Chriſti Dogum, voru i þeirre Meiningu, ad þeir alldrei kyñu ad forgaanga edur illa fara, Þvi þeir væru Abrahams Syner, Joh. 8. Eñ Johañes kiende þeim þad laangtum odruvijs, Þegar þeſſer Hvorutveggiu komu til hañs Skijrnar, Þa ſagde hañ, Matth. 3. Þier Nodru-Kyn, Hver hefur kient ydur ad uñfl ya tilkomande Reide? Þar fyrer giored verduga Avoxtu Ydraneñe, Og ſegied ecke med ſiaalfum ydur, Vier hofum Abraham fyrer Fodur, Þvi maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinum þeſſum. Forfedur þeſſa Lijds hielldu miked uppaa hid Fyrra Muſtered, er Salomon Konungur liet byggia, og meintu ad þad alldrei ſkyllde falla, Af þvi ad þeir ecke riett ſkilldu Guds Fyrerheit, Þvi ſegier DRotteñ Gud fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 7. Setied ecke Trauſt ydar aa falſka Hlute, Segiande: Muſtere DRotteñs, Muſtere DRotteñs, Helldur vanded Vegu ydar og Giorder ydar, og giored riett aa mille eins Mañs og añars, þegar þier Steled, Myrded, drijged Hoor, Sveried falſklega og Dijrked Baal, ſkylldu þier þa koma og ſtanda fyrer mier i þeſſu Hwſe, Sem kallad er epter mijnu Nafne, Og ſegied: Vier erum Ohulter, So ad þier giored allrahanda Svijvirdingar? Þeſſa Mæling ſiña Fedra uppfylltu Iſraels Syner aa Chriſti Dogum: Þad er alkuñugt af Joſepho, þeirra eigeñ Sagna Meiſtara, hvorſu Kappſamlega þeir hielldu uppa Muſtered, og ſo leinge þad ſtood, villdu þeir ecke þijdaſt under hid Romverſka Valld. Þar fyrer var þad ein Hofud-Sok hiaa þeim, ad tala hid miñſta i giegn þeſſu Guds Hwſe, Þad ſijner oſs Dæme Chriſti, Matth. 26. Dæme Stephani, Act. 6. Dæme Pauli, Act. 21. Hvorier aller voru fyrer þetta hardlega aaklagader; Eñ ecke ad ſijdur ſegier JEſus hier i Gudſpiallenu: Ydar Hws Skal Ydur i Eyde Laated Verda. Þad er, ad hiñ vollduge Gud villde þar ecke leinge iñe bwa: Þad took til ſneñia ad rætaſt, Þegar Fortiallded mille Muſtereſins og hins Allra Helgaſta rifnade i ſundur i Þijnuñe Chriſti, Luc. 23. Voru og ecke miog morg Ar til þeſs, ad Joſephus ſkrifar, Ad nockru fyrer Eydelegginguna hafe Rodd heyrſt i Muſterenu, ſegiande: Forum burt hiedañ. Nu vil eg miñaſt aa þad DRotteñ ſeger vid Juda, Jer. 7. Fared þier til mijns Stadar, ſem var i Silo, hvar eg liet mitt Nafn fyrſt bwa, Og ſiaaed hvad eg hefe giort vid hañ fyrer Illſku mijns Foolks Iſrael. Þar fyrer, af þvi ad þier giored nu oll þeſſe Verk, ſegier DRotteñ, og ad þier heyred ecke þa eg tala til ydar fraa Morgne til Kvollds, Þier gieñed mier ecke þegar eg kalla, þa vil eg giora vid þetta Hws, ſem kallad er epter mijnu Nafne, uppaa hvort þier treyſted, og þeñañ Stad, Hvorn eg hefe giefed ydur og ydar Forfedrum, So ſem eg hefe giort Silo.

Nu vil eg ſegia i Guds Stad, Brædur mijner, Gaanged þier til hiñar ſijdare Jeruſalem, og ſkoded alla þa Olucku ſem yfer hana er komeñ, og hvorſu Straudoomur HErr

 aañs

añs Christi er rættur æ heñe, ad ei munde þar Steirn yfer Steine vera, Luc. 19. Christur segier: Ydar Hws Mun Ydur i Eyde Laated Verda. Hvar fyrer? Þvi þad ecke var framar Guds Hws, þad vottar hañ sialfur skomu siidar er hañ sagde: Skrifad er, Mitt Hws er Bæna-Hws, eñ þier hafed giort þad ad Ræningia Bæle. Christeñs Mañs Hiarta er i Endurfæding uñe uppbygt til þess ad vera Guds Mustere, vited þier ecke segier Paall, 1.Cor.3. ad þier erud Mustere Guds? Og eñ aptur segier hañ, ydar Lijkamer eru Mustere H. Anda, Cap. 6. Hvad verdur þa, Br. M. Þegar Guds Mustere verdur saurgad? Þad verdur Ræningia-Bæle, Þegar þad med illum Hugreñingum Ordum og Giordum, sem af Hiartanu frañkoma, verdur giort ad Satans Herberge, Mun þad þa framar vera Guds Kyrkia? Þess være Oskande, ad ecke hendte Christna Meñ þad sama og Gydinga, ad þeir reiddu sig ofmiog uppa þad, ad þeir væru skijrder, geinge til Altares, heyrdu Guds Ord i Kyrkiuñe: Allt þetta giordu Gydingar epter þeirre Pioonustu, Sem æ Gamla Testamentesins Dogum tijdkud var. Þad er ad soñu Gude ad þacka, ad færster æ medal vor adhafast þær Skamer, sem þeim er brixlad uñ: Faaer slaa Meñ i Hel, Færster leggiast med Kvinu sijns Naunga, Þeir eru nu ecke helldur so marger miøg, Sem fundner verda i Opeñberum Piofnade, Eñ verda maa ad margur laate sierhvad af þessu Ogiort, añadhvort af þvi ad hañ er ecke so Skape fareñ, meir helldur eñ af Trwñe og Elskuñe til Guds, og Kiærleikanum til Naungans, edur og ad vær Ottunst Meñena, og añadhvort Straff edur Amæle af þeim, og er slijkt einzeñ Dygd fyrer Gude. Iseñ breñer ecke, af þvi hañ er kalldur, og Vatned reñur ei æfram þa þad er stiblad upp, So og hefur sa eckert Hroos fyrer Gude, sem af Natturuñe er sidsamur, og ecke hneigdur til Stoor-Glæpa, og hefur þo sierhvor eirn so miked Illt i sier, ad hañ gietur med þess Aflaate Gud dijrdkad, Þad munde sierhvor eirn fiña, Ef hañ geinge nockud skarplega i Riett vid sialfañ sig, Og liete sier ecke nægia Skriftargang Pharisearans, Eg þacka þier Gud, Þad eg em ecke so sem adrer Meñ, Luc. 18. Þeir voru Sidprwder Meñ i wtvortis Hattseme, og lifdu Hardlijfe, eñ þo heyrum vier þeirra Vitnesburd, Matth. 23. Af honum sem visse hvad med Mañenum bioo, Joh. 2. Og so sem þeir þoottust ecke þurfa Christs Forþienustu vid, So Ottast eg ad Meñ ydrest nu ecke nema stoorra Klækia, Eñ giore sinaa Synderna ad hinum stærstu Syndum, og kaste þeim Ydrunarlaust uppa Guds Sonar Hrygg, Þvi hañ hafe noogu breidt Baked ad bera þær. Þad hafde sa goode HErra, er hañ var Hwdstrijkt ur fyrer mijna Skulld, sem veit mijns HErra Vilia, eñ giore hañ ecke, og hefe þvi mørg Sløg forskulldad, Luc. 12. Þad hafde hañ þegar hañ bar siñ Kross ut af Jerusalem miña vegna, sem læt so illa vid, ad taka hañs Kross uppa mig og fylgia honum epter, er hañs þvi ecke verdugur, Matth. 10. Þad hafde hañ þegar hañ bar mijnar Synder uppa Tried, og liet sitt Lijf fyrer þær æ hinum smaanarlega Krossens Gaalga fyrer mig, sem ad so tregt veiter ad Krossfesta mitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Eñ ad hañ villie taka i moote þeim Syndunum og kasta þeim i Hafsins Diwp, sem

sem eirn helldur ecke fyrer Synd, og ecke þecker hañ þad fyrer Synd, jafnvel þoott hañ meige þad vel þeckia af Guds Heilögu Orde, Ef hañ giæfe sier Stunder til ad Rañsaka Guds Villa og sitt Framferde, Þvi hefur hañ ecke lofad og aungvu um̃heited, ad þær kvittast skule fyrer hañs Dauda, Nema Meñ þeirra af Hiarta ydrest. Eg tala i um̃ þær, sem Eirn veit og man, Þvi um̃ hinar Ovitañlegu, hvorra Fiollda eingeñ veit, Ps. 19. vil eg ei ødruvijse tala eñ ad Eirn Syndare læte sig af Hiarta angra þad, ad hañ gietur ecke i þessu Hollde Eitt Augnablik Syndlaust lifad. O HErra Gud, Þu hiñ Heilage og Riettlaate, Hvør kañ ad vita, hvad opt hañ syndgar? Aller Heilager hlioota þig Fyrergiefningar ad bidia, Ps. 32. A þ im Deige, nær Reikningsskapureñ skal hallda ast, Hvad munum vier þa ecke Ohreiner Ormar? Gud vertu oss Syndugum Lijknsamur, og hialpa oss O HErra fyrer þijna Gæsku, sem ecke villt Syndarans Dauda, ad vier lærum ad þeckia vorn Saurugleik, og sporna vid Syndunum, so vier mættum med alvarlegre Ydran og þijns Sonar Bloode afþvegner, vera vißer um̃ Fyrergiefning vorra Afbrota, ædur eñ vier førum burt hiedañ. Þad veite goodur Gud fyrer JEsu Blessadar Under og Forþienustu, Amen.

# Pridia Dag Jóola.

Gudspialled, St. Joh. 21. Cap.

Y Þañ Tijma, Sagde JEsus til Peturs: Fylg þu mier epter. Petur snere sier vid, og leit þañ Lærisvein epterfylgianda, sem ad JEsus elskade; Sa er og um̃ Kvølldmaaltijdena hafde aa hañs Briooste leiged, og sagt: HErra, Hvør er sa er þig Forrædur? Þa ed Petur leit nu þeñañ, segier hañ til JEsu: HErra, Hvad skal þesse? JEsus segier til hañs: Ef eg vil hañ blijfe til þess eg kiem; Hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter. Þa gieck sw Ordræda aa medal Brædrañu; Þesse Lærisveirn deyr ecke. Og JEsus sagde eige til hañs, hañ deyr eige, helldur ef eg vil hañ blijfe til þess eg kiem, Hvad kiemur þad vid þig? Þesse er sa Lærisveirn, er um̃ þetta ber Vitne, og þetta skrifade, og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.

## Exordium.

Nærst sialfum DRottne JEsu Christo, og þeim Astgiøfum sem hiñ Goode Gud hefur i honum giefed vondre Mañeskiu, þa er eingeñ þvilijk, so sem Raad og Skilningur, er hañ hefur Sæler vorar prijddar med, þau adgreina oss fraa Villu-Dijrunum, Grøsunum, Eykunum og ødrum Skiepnum aa Jørduñe. Ea veit ecke hvoriu Madureñ være betre eñ Hesturiñ, nema ad hañ stioornadest af Skynsemeñe, og hvad meira er, ad ein Vitstola Mañeskia, hvoria Gud hefur med

Faasiñu straffad, hun er ollum odrum Skiepnum midur aa sig komeñ, hvad oss sem Heilvita erum fyrer Guds Poleñmæde, ætte ad þriista til þess ad brwka Diirgrip þeñañ til Lofs og Diirdar honum, er hañ oss giefed hefur. Eñ Gud naade, ad þar vill vera stoor Brestur aa hiaa all-morgum og hiaa flestum, og eg maa segia hiaa ollum nockud; So ad David hefur nooga Ordsok til ad taka Syndugum Moñum Vara fyrer, ad ecke lijkest þeir Hestum og Mwlum, hvorium Meñ verda Beitsle og Bitel i Muñ ad leggia, Psalm. 32. Og samt þykiunst vier aller noogu Vitrer, og erum noogu framvijgder i þvi Skada ad giora, i þvi ad dæma um̃ adra eñ ecke um̃ siaalfa oss, i þvi ad leita epter þvi sem vort er, eñ ecke añars, þvert aa moote Postulans Bode, 1 Cor. 10. So bad geingur Olijkt þvi er hañ i odrum Stad segier, ad Meñ eru Bern i Skynsemeñe, eñ ecke i Hreckvijseñe, 1. Cor. 14. Eg meina i hiñe riettu Vitsku, sem Ritningeñ so kallar, og þar i er foolgeñ, ad þeckia Gud og siaalfañ sig, og velldur þad þvi, ad Meñ laata sier vera so añt um̃ þad, ad hnijsa um̃ añara Maña Haattu, ad Meñ giefa sier ecke Stunder til ad rañsaka sijna eigeñ, hvoriu þo eckert er þarfara i voru Saaluhiaalpar Verke, og er þesse Spilling Naatturuñar so rijk i Mañlegu Hollde, ad Grein af heñe hefur strwnged sier wt, jafnvel hiaa Guds Astvinum. Dæme hofum vier aa hinum Heilaga Petre i uppleſnu Gudspialle; Eñ uppaa þad ad Meñ vita skyllde ad þvilijkt er Synd, jaa, ein Synd sem margt Illt af sier leider, sem sijdar mun sagt verda; Pa aatalde DRotteñ þeñañ siñ Læresvein nærsta hardlega og roksamlega fyrer þetta. Nu þoott ad Skap-Lostur þesse sie ecke hiñ miñste Avoxtur Spillingareñar, þa vite Meñ þo, ad Gud er so Vijs, og so Maattugur i Breiskleikanum, ad þar er eckert i Naatturu Mañsins so Illt, ad hañ kuñe ecke Gott af ad giora, þvi ad Tilhneigingarnar voru i Ondverdu goodar og af Gude skapadar, Vanbrwkuneñ giorer þær Skadlegar; Eñ þegar þær verda hreinsadar fyrer Endurnijungu H. Anda, þa kuña þær eñ nu allar Gude ad þioona til Vegsemdar, og Endurgietnum Mañe til Saaluhiaalpar. Par fyrer, ad so sem Forvitneñ er Skadleg og Haaskasamleg, ef heñe er beitt i þeim Hlutum sem Gud hefur bañad, so er hun þorf og Gagnleg, sie hun brwkud til þeirra er hañ boded hefur. Eg vil um̃ hvortveggia tala med faaum Ordum, epter þvi sem Gud giefur Naad til.

Hvar til hañ styrkia virdest med Krapte sijns Anda i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

Naa leider gott af Forvitneñe segier Ords-Haattur gamall: Vier hofum̃ nockrum Siñum heyrt, ad þær Syndernar er vier miñstar holldum, þær kuña ad verda ad þeim stærstu, velldur þad þvi, ad Meñ bidia Gud ecke miog rækelega Fyrergiefningar aa þeim, eins og ad hañ sie skylldugur til ad hallda oss þad til Gooda, sem vier ecke mis-virdum aa siaalfum oss, og geingur þad eins til um̃ þetta, og um̃ litla Skeinu aa Lijkamanum, þa er vier forsmaaum, ad hun verdur optlega ad Lijfs og Lima Tioone, sie ecke

vid

vid giort; Eñ þad ma kuñugt vera, ad þesse Okostur er ecke halldeñ fyrer neina Synd af morgum, og þo kañ skie fyrer Dygd, fyrer Adgiætne, fyrer Kostgiæfne, fyrer Framsyne, og hiner sem hana ecke æfa, fyrer Oþocka og Raadleysingia. Være nu þetta eingeñ Stoor Synd i odru, þa er hun þo i þvi, ad hun ecke er halldeñ fyrer Synd, þvi eins kañ ein lijtel Synd ad fordæma Mañeñ fyrer Guds straanga Doome, so sem ein stoor, og verda þær þo þijngstar sem alldrei verda þecktar nie med alvarlegre Ydran afþvegnar: Pad syner oss Dæme Phariseans og Tollheimtumañsins, hvor ed foor Riettlaatare hinum aptur i sitt Hws, Luc. 18. Nu er þessu þo ecke so vared um Forvitnena, ad hun sie lijtel Synd, og hafe Meñ ecke añad til Dæmis, þa skignunst epter þvi, hvorneñ Syndeñ fyrst iñ kom i Heimeñ. Paall segier oss þad hafe skied fyrer eirn Mañ, i hvorium aller syndgudu, Rom. 5. Med hvoriu Moote var þad? Ritningeñ greiner um þad noogu skijrlega hvorneñ Diofulleñ sveik vora Fyrstu Forelldra, sem er, ad þau skylldu faa Gyrnd til ad þeckia hid Illa, og forsmaa Guds Bodord i þvi ad vita hvorneñ Epled smackade, og ad verda Gude lijk, Gen. 3. Segied mier Br. M. er ecke af þessare Forvitne komeñ oll Synd, og Daudeñ sem er heñar Verdlaun, iñruñeñ til allra Maña? Rom. 5. Bid eg ydur þvi ad athuga, sem Christner heita vilied, ad ef Agg, Reide, Præta, Ofund, Agyrne, Drambseme, Mañdraap, Hoordoomur, Frillulifnadur, Afgudadyrkan, Gudlastan, Gal. 5. og adrar Skamer sem steipa Syndarnum i eilijfa Glotun, ef þetta segie eg eru Okoster halldner ydar aa medal, hvort ad Forvitneñ sem eg hefe synt, og eñ þa framar skal syna, ad sie Mooder alls þessa, sie goodur Kostur, edur so lijtel Synd sem hun af Almeñinge halldeñ er. Ad soñu er þad satt, ad vier i aungvañ Maata eigum vorum Fyrstu Forelldrum ad aalasa, þvi þau brwkade Gud til þess Medals, ad vier sem nu lifum, kyñum ad verda hluttakande hañs Giædsku. Þo verdur þvi ecke mootsagt, ad þesse þeirra Forvitnis Synd, hun var hin stærsta Synd, sem af Mañkynenu hefur frameñ vered, allar Synder sem sijdañ giorst hafa, þær eru ad soñu aa moote Gude giordar, þo Meñ fremie þær vid Naungañ, eñ þesse stefnde Riettlijnis aa Guds Dijrdarfullu Haatign; Allt hvad Meñ nu syndga, þad syndga Meñ af Breiskleika edur Illsku Natturuñar, hvorrar Pæukar eru vonder i fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ þau voru Heilog skopud, og þar þau voru so Dijrdleg skopud, þa gaatu þau audvelldlega hallded Guds Bodord. Eg maa ei faa mier þad til Orda, ad þau steiptu ollum sijnum Epterkomendum i Tijmañlega og eilijfa Ogiæfu hier med, þvi Guds Oumræðeleg Giædska sem hefur fyrergiefed þeim, hefur giefed mier og ollum odrum Stoor-Syndurum noog Medal i sijns Eingieteñs Sonar dijrmætum og saklausum Dauda, til ad faa þetta endurbætt oss til Saaluhiaalpar og Mykunar. Eñ hitt vil eg bidia ydur ad hugleida, hvort ad Gud, sem vegna sijns Riettlætis straffade so hardlega þessa Synd Forvitnena, aa vorum Fyrstu Forelldrum, hvort hañ segie eg, mune kalla hana gooda aa oss, sem valla kollum hana Synd ad vera. Nu so sem ad þesse Synd var i Upphafe Ordsok til allrar Mañsins Olucku, so er hun eñ nu til hvorrar

Syndar, ef Meñ riett ad gaa; Af heñe sprettur allt Raanglæte moote Gude, moote siaalfum ofs og moote Naunganum. Andskoteñ sagde i Fyrstu vid Konuna: Gud veit ad nær sem þid eted af Eplenu, þa munu upplwkast Augu yckar, ad þid verded so sem Guder, skynjande Gott og Illt, Gen. 3. Hier af kiemur Forvitnesw, ad Meñ vilia ecke laata sier nægiast med þad sem Gud hefur opeñberad ofs i siinu H. Orde til Saaluhiaalpar, hvorneñ vier eigum ad trwa, hvorneñ vier eigum Christelega ad lifa, helldur giora sier adskiliañlegar Grillur um Guds Fyrerhygiu, um hañs Veru, um þær Priaar Persoonur, um þau Heilogu Sacramenta og margt añad, sem Guds Speke hefur ei unt syndugum Moñum grant ad þeckia, og hefur þo allt þetta so berlega auglyst hvorium Heilvita Mañe sem ecke forsmaaer Uppfrædinguna, ad hañ maa þar vel vid una og hoolpeñ verda, eñ þeir sem þa vilia Forvitrer vera, þeir hafa lært þad af Fiandanum, ad laata sier ecke nægiast med Guds Giof, helldur eyda goodum Gaafum og Tijmanum, sem Gud hefur giefed til ad rækia siina Saaluhiaalp, og ad kieña odrum; til þess ad skignast iñ i Guds Leyndardooma, og hid Orañsakañlega Djwp hañs Guddoomlegrar Speke, lijker Bethsemitum, hvorier af Forvitne skignduft iñ i Orkena, og urdu þar fyrer af Gude slegner morg Þusund Maña, 1. Sam. 6. So eru og marger af hinum med Blindne slegner, þvi Drotteñ hefur hondlad þaa i þeirra Slægvitsku, og hañ veit ad Prætur Vitringaña eru Hiegoome, 1. Cor. 3. Eins og Gud, sa sem vill ad aller Meñ verde Saaluhoolpner, 1. Tim. 2. hefde ecke giort þetta lioosara, hefde hañ vitad þad munde Mañeskiuñe vera hagañlegra til Saalar-Nota: Og þañeñ er nu Forvitneñ þeim skadleg, er sig hyggna og lærdasta kalla, hvar af oll Vantrw, oll Hiaatrw, Afgudadyrdkun, Mañasetningar, Jaa allar Trwar-Villur og Andskotans Evangelium er iñkomed i Heimeñ, og hvor vill þa segia ad Forvitneñ sie ein lijtel Synd? Og þañeñ vanvirda Meñ nu Gud med þessu er vier Speke kollum, og syndgar so Forvitneñ ein midt aa moote honum, eñ ei giorer hun þad miña aa moote siaalfum ofs og Naunganum, þoott ecke eigum vier so Sok þar aa, þar vier erum ecke vorer eigeñ Herrar, Gud aa alla Sokena, samt lender Skadeñ hiaa ofs, honum kuñum vier eckert Illt ad giora med Forvitneñe. Vær komustum ei leingra þar med, eñ hiner er ætludu ad byggia sier Turn upp under Himeneñ, Gen. 11. Siaalfum ofs er hun vest, og so Naunganum.

Þegar Diofulleñ hafde smeigt þvi iñ hiaa Konuñe, ad Ovirda Gud, Þa flaug heñe þad strax i Hug ad vita hvorneñ Epled smackade, og ad locka Mañeñ til Syndareñar, Gen. 3. So giorer hañ eñ i Dag, Þegar hañ fær þvi skoted i Hug Mañsins, ad akta Gud lijtels, Af þvi hañ skilur ecke allt hañs Raad, og þar kiemur ei strax Hefnd yfer vondar Athafner, þa hefur hañ bwed sier Rwm i hañs Hiarta, til ad forvitnast um þad, er hañ skilia kañ, Sem er um Hage Naungans. Eingeñ aa meire Plaagu eñ sa, er þess um Siwkdome er underorpeñ. Hvor er vesælle eñ saa, hvors Hiarta ad Diofulleñ hef ur med Agyrne iñteked? Eñ mun nockud hiñ Atiarne gieta vered aan Forvitne? Hañ spyr alla Vegana epter þvi, Hvorneñ odrum gaange, Hvad um þeirra Eigur lijde, Hver

iar Utriettingar þeir hafe, ecke til þess ad samfagna þeim, Ef þad er vel, edur ad sampijnast, Ef þad er illa, helldur ad hañ meige svæla under sig a einhvorn Hatt Eignr þeirra, edur hindra þeirra Utvegu sier til Abata, Takest honum þad ecke, Pa leggst hañ uppa Sængena eins og Achab, 1. Reg. 21. Og uner ecke vid nema hañ fare Naboth i Hel komed. Ofundena gietur Forvitneñ af sier, og hun fooſtrar hana. Eingeñ ofundar añañ fyrer þa Hlute sem hañ ecke af veit, Eñ þad er Plaaga hins Ofundsiwka, ad hañ gietur ei lifad aan þess ad forvitnast uñ Hage sins Naaunga, Jafnvel þott eingeñ Otep sootr sie honum þvilijk, So sem ef honum lijdur vel, Og lijde honum illa, Pa er honum þad ad soñu ein Stundar Glede, Eñ helldur þo jafnañ Spurnum fyrer, hvort þad mune ecke midur vera, Og sie þad ei, Lijkar honum illa. Eins er hañ og Andskoteñ, Honum þyker vænt uñ Mootgaang Mañesskiuñar, Eñ samt er hañ þo eins Vesæll. Hiñ Dramblaate er Forviteñ, Pvi hañ er Ærugiyrugur, Hañ spyrst fyrer, hvort nockrum sie meire Lotning veitt eñ sier? Og fiñe hañ Brest þar a, Pa eyrer hañ þvi ecke betur, eñ Haman, Pa Mardocheus ei villde heidra hañ eins og adrer, Esth. 5. Og er þetta Ein stoor Olucka, Ecke einasta þeim sem verda fyrer Skadanum og Ofbelldenu, helldur og hinum, Er ala þessa Ovætte i Hiarta sijnu, Og maa hañ med riettu Diofuls Oodañ kalla, Sem af þessum Premur Andskorans Englum er plaagadur, Pvi hvor þeirra hefur heila Sveit Diofla, Pad er Skamma og Lasta, Og er Forvitneñ þeim so Handgeingeñ, ad þeir verda ad brwka hana til allra siña Utriettinga i Satans Eyrendum. Hvor er su Olucka Maña a medal, Sem Reideñ og Heiptrækneñ ecke af Stad kome? Sundurþyckia, Tvijdrægne, Mord, Mañslag, Strijd og Bloods Uthellingar, Mun þad ecke allt af beñe koma? Eñ hvad segier hiñ Vijse Seneca hier uñ? Vilier þu ecke Heiptrækur vera, Pa vert ei Hnijseñ. Pad er margra Maña Hattur, ad þeim er mikel Forvitne a ad vita, Hvad uñ þa er talad og Raadslagad, Eñ slijkt er stoor Prældoomur og faavijsleg Ordsijke, Pviad soddañ Meñ skal alldrei vanta eirn Hræsnara, Eirn Ligara, Sa ed bere i Eyrn þeirra falskar Søgur Roog og Bakmælge, hvort ad aflar stoors Orooa i Hiartanu, eñ hiaulpar eckert til Eyrindaña Framkvæmdar, og lætur optlega hañ, er giefeñ er fyrer slijku, Taka uppa sig Oþarfa Mædu og Umhyggiu, Og þott Meñ forsvare slijkt med þvi, ad Meñ hliote ad forvitnast uñ Raadagiorder Ovina siña, þa er þad einkis vert, Pvi Forvitneñ, hvorsu forviteñ sem hun er, skal alldrei faa ad vita Helmingeñ af þvi sem satt er, og þott hun feinge, þa vill þad afla Mañenum laanatum meire Okyrrleika i Hiartanu, helldur eñ Vareygdar edur Framsyne, Og er Pusundsiñum betra, ad kosta þeim Tijma, er Meñ brwka til Hiegoomlegrar Forvitne, og til ad vita hvad hvor Her-Kiellingeñ uñ hañ talar, Ad brwka hañ, Segie eg, Til Kostgiæfne og Astundunar i sijnu Kalle og Embætte, og ad varpa siñe Ahyggiu uppa DRotteñ, Ps. 55. Pvi hitt mætte æra, ecke einungis Ostoduga ñ, Helldur og þañ sem añars være noogu Raadsettur, Par Verollden er full af Hreckvijse, Otrw og Oþackláte, Og er eingeñ Vijsdoomur lakare, Ja, eingeñ Heimska heimskare eñ su, ad villa

allt

allt þetta vita: Pad er eins og ef nockur hefde Ynde af þvi, ad hafa Mok vid Ofreskiur og ecke Mañeskiur. Hvad giorum vier oss i Lund? Munum vier ætla þad, vier niunum med Einglunum bwa, edur Heilogum Moñum, og vitum vier ecke ad þeir eru flester sem uña sialfum sier best? Torsokt mun þad, ad venia Illskuna og Varmenskuna af þvi alldeilis. Par fyrer, þott ad nockur være so Fiolkuñugur, so sem i Skrok Sognm segier, ad hañ kyñe ad giora sier eirn Speigel, J hvorium hañ sæe alla Bakmælge, Rög, Lijge, Aaustur, Raadagiorder, Vondar Osker, Vanþacker, Imislega Dooma uñ vorar Athafner og Lijfernishaattu, suma Saña suma Logna af þeim, sem þo eru jafnvel miklu verre eñ vier villdum vera. Ef einhvor, segie eg, Sæe þetta i einum Speigle, og horfde þar i litla Stund, þa munde honum ofbiooda, sierdeilis þeim, er miklu ætti vid adra ad skipta, og kasta Speiglenum i burt, Ef hañ heilvita være, og yrde þvi hvad fegnastur ad hañ alldrei optar i hañ lite, nema hañ villde verda eins og Ismael, ad hañs Hond være a mote hvorium Mañe, og hvors Mañs Hond a mote honum, Gen. 16. Ulfur af Mañe, og eins og Nebuchadnezar, Stallbrooder Vargaña, Dan. 4. Og þesser Hluter er Meñ leitast so miog epter ad vita, eru þo optast eins og Pytur i Skooge, hañ varer ei leinge, Eins reñur Lijgeñ aptur þegar soñu mæter, og være þa betur heima seted, Eñ fared, til ad Mañspilla sier og hefna a odrum þeirra Hluta sem dodna af sialfum sier, Eins og Sveppureñ þegar hañ er fullvaxeñ, Og breite Meñ odruvijs, þa ala Meñ Illgyrne añarra med Forvitneñe, og Grunsemeñe er heñe fylger avallt so sem Skuggeñ Lijkamanum, Pvi þad er Hæiske ad erta Illt Skap og Samvitskur vondra Maña, hvorier ed laata opt af, ef þeir meina ad Straakskapureñ sie duleñ, Eñ ætle þeir ad hañ uppvijs sie, Pa drijfa þeir Illt ut med Illu, So framt þeir megna, þar þeir vita ad þeir ecke eiga til Goods ad giora. O! hvad miklu betra er Raad Salomonis i þvi, ad laata sem Meñ siae ecke Oriettteñ, og safna so Gloodum Ellds yfer Hofud Ovin sijnum, til ad fæara hañ a rietta Leid. Tvær Dætur hefur Forvitneñ, sem Meñ leika vid eins og Smaa-Born edur Hvelpa medañ þær ungar eru, Eñ þegar þær vaxa upp i Mañsins Hiarta, og hafa leinge soged Mooðurena, Pa verda þær skiæder Griper, Pad er Grunsemeñ og Trwgyrneñ, so lijkar Systur, sem þær eru skilldar til. Sa ed misgrunar hvorn Mañ, Gietur alldrei nockurn Trwañ ætt, Pviad þess trwrre og dyggvare ad eirn er, Pess helldur gremst honum þad, ad honum sie illa trwad, Par ed hañ ecke til þess viñur. Medal añara sijner oss þad Dæme Isbozeths Israels Konungs, 2. Sam. 4. Hvor ed miste bæde Rijked og Lijfed fyrer þad, ad hañ misgrunade Abner uñ Legord med Rispa, Frillu Sauls Konungs Fodur sijns, 2. Sam. 3. Pegar Mægur Samsons Tortrygde hañ uñ, ad hañ munde ætla Dottur siñe Einlæte, Pa olle hañ þvi, ad Samson uppbrende Philisteaña Akur-Lond, med Refunum, Jud. 15. Og so skiedur þad tijdt, Ad nær eirn Ærlegur Madur er misgrunader, tekur hañ sier uppa Ress-Ham, Og gioreft ad þeim sem hañ er ætladur ad vera. Pusund maa fiña Dæme til þess, bæde i Ritninguñe og añarstadar, Og þar ad auke, Er

hun

hun Ills Hugar Vite, Þvi segier Plautus Skalld um̃ Moodurena, ad þar sie eingeñ Forviteñ, nema ad hañ sie under eins Illgiarn: Eñ Chrysostomus, ad Eirn goodur Madur ætle skialldañ ødrum Illt, Og skialldañ ætle sia Goods af ødrum sem er Vondur sialfur, Þetta er hvoriu Orde sañara, Og sañast hier hid Fornkvedna, Ad margur ætlar mig sig, og matulega dyggvañ. Og so sem ad hañ, ed hefur Saar eda Orkumsl a Lijkamanum, hañ hryller vid ef nockur kiemur þar nærre, þoott alldrei snette hañ þad, So ætlar hiñ Grunsame alls Ills til allra, Jafnvel þeirra sem honum eckert Illt giora vilia, Edur giora kuña, Af þvi hañ er sialfur sier Ills medvitande. J Einu Orde ad segia: Hun giører Eirn Konung ad Tyrañа, Eirn Hwsboonda ad Bødle, Eirn Þienara ad DRotteñs Svikara. Hun er Saattarspiller millum Hioona, millum Fedgina, millum Brædra, millum goodra Vina, Og eru til þess Obrioot ande Dæme, og Dagleg Reynsla kieñer þad, Og er þo Trwgyrneñ halfu verre. So þad er sem i Forn-Vijsuñe stendur: Aungvum ad trwa ecke er gott, Ollum halfu verra. Eg veit ecke hvort ad Andskoteñ a nockurt sarbeittara Vijs. vrfære, Eñ Trwgyrnena, Hun er Tvijeggiad Sverd, Og skadar beggia vegna, Bæde þañ sem trwer øllu, Og hiñ sem loged er a. Naanka ma vid þvi, ad Eva trwde Hoggormenum, og Adam heñe. Fyrer Talhlijdne Potiphars matte hiñ saklause Joseph i Vardhallde gista i mørg Ar, Gen. 39. Fyrer Talhlijdne Davids tapade Mephiboset halfum Akrenum, 2. Sam. 19. Og var hañ þo Sonur hañs besta Vinar. Fyrer Trwgyrne Assveri Konungs hafde allur Jsrael nærre þvi Lijfed mist, Est. 3. Og auk þessa, Þa gietur ecke hiñ Talhlijdne hia þvi sneidt, Ad vera allra þeirra Narre sem ad honum liwga, Hvorsu vitur sem hañ añars er, Þvi eingeñ er Trwgiarn nema hañ sie og Malugur, Eñ Mælgeñ er Teikn Heimskuñar, Þess gietur Salomon, Prov 29. segiande: Saastu malugañ Mañ, Betre Von er a Einum Vitfyrring eñ a honum. Og aptur Cap. 17. ad jafnvel eirn Heimskinge Ef hañ þeiger, sie viiur halldeñ, Allt þetta kiemur nu af Forvitneñe sem adur er sagt, Og hefe eg nu so wtmalad þetta Skrijmsle ad nockru Leite; Eñ þo hvorge nærre so sem hun Reindar er.

Eñ nu vilium vier i hiñe sijdare Greineñe skoda, Hvorneñ vier kuñum ad giora þeñañ Okost ad hinum besta Mañkoste fyrer Naad Guds og Adstod H. Anda. Þad er vitañlegt Brædur mijner, ad hiñ fyrste og beinaste Vegur til allra Dygda og Mañkosta er sa, ad þeckia sialfañ sig. Eñ sa sem Forvitnena brwkar til þess ad rañsaka sitt eiged Hiarta, sijn Ord og Athafner, hañ mun sijdur skignast um̃ añara Efne, og er þa lijkast ad hañ kvittur verde vid alla þa Okoste og Orooa, Er eg upptalde i hinum Fyrra Partenum, so sem Madur ecke fær siedañ siñ Yferlit i þvi Vatne, sem er af Vindenum vrpblased, helldur nær þad lygnt er, So er og Omøgulegt, ad sa kuñe sialfur sig ad þeckia edur rañsaka, sem eckert añad gierer, eñ ad forvitnast um̃ añara Hage. Þad eru dijrmæt Ord, sem Frelsareñ talade Fordum, Matth. 7. Þu Hræsnare, Drag fyrst wt Bialkañ wr þijnu Auga, og sia til sijdañ, ad þu faaer wtdreiged Flijsena ur þijns Brodurs

 Auga.

Auga. Þar er i Mañlegre Naatturu nockurskonar Þootte, ad vier metum siaalfa oss meir eñ adra, hañ kiemur af øngvu meir eñ þvi, ad vier ransøkum añara Haattalag meir eñ vort eiged, Maa þad þo vita sierhvør eirn, ad hvørsu sem hañ vera þyckest Kostum bweñ, Þa er hañ þo ecke øllum betre, og hender oss i þessu þad sama og Stiornumeistarañ fordum, ad aa medañ hañ var ad siaa epter Himen Tunglunum og goonde upp i Lopted, fiell hañ i Grisiu Eina sem vard fyrer Footum hañs. Eñ vited þad Br. M. ad allur Vijsdoomur, so sem ad þeckia Stiarnaña Gaang, Naatturu Grasaña, Steinaña, Fuglaña, Fiskaña, Þad er Faavitska hiaa þvi ad þeckia siaalfañ sig, og þess er ollum þeim unt sem Gud hefur giefed heila Nænu; Þad er ecke i odru foolged, eñ ad bera siñ Lifnad saman vid Guds Vilia, sem bæde er iñskrifadur i vor Hiortu, Rom. 1. Og oss Christnum Møñum þraalega Openberadur i hañs Heilaga Orde, eñ þvi gleymum vier, og telium oss þad til Agiætis sem lijtels edur einskis er vert, Edur vanbrwkum þad sem mikels er vert. Eñ hvad er þad þo er vier kuñum ad virda so mikels aa oss, ad vier forsmaaum adra? Þad eru añadhvørt Luckuñar Giæde edur Naatturuñar edur Naadareñar. Eg vil Eirn Formaala hafa fyrer øllu þessu, Og þañ sem Paall 1. Cor. 4. hefur fyrer þeim, er stærdu sig af Andans Gaafum. Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer, Og fyrst þu hefur þad þeiged, þvi stærer þu þig þa, so sem þu hefder þad ecke þeiged? Um Luckuñar Giæde, Aud og Metord vil eg faatt tala, Þad er Almeñinge kuñugt, ad eingeñ verdur af þeim aagiætare, Marger verre, Og er daarlegt ad hrokast upp af þvi sem hlotnast kañ hinum versta Mañe, og hid sama maa segia um Naatturuñar Gaafur, þott þær sieu goodar; Þær eru wtvortis eda Iñvortis. Utvortis er Afl og Frijdleike, eñ um Hreistena er þad ad segia, ad Asneñ og Uxeñ eru eñ þa sterkare, og sieu þeir betre fyrer þad, þa mætte saa ofunda þa, Sem ødrum fremur þyckest, fyrer Aflsmuña Saker. Eñ hvad Frijdleikanum vidvijkur, þa eru Rooseñ og Liliañ miklu fegre, eñ hin vænsta Jomfrw, þvi Lausnareñ segier, Matth. 6. Ad Salomon i allre siñe Dijrd hafe ecke so skrijddur vered sem þær, og er þo vitañlegt, ad Gud hefur meira lagt til hiñs liootasta Mañs, og hvørneñ sem þvi er vared, Þa er þad Oviturlegt, ad þeckia ecke siaalfañ sig af Metnade þess Hlutar, sem eirn Kville gietur i burt fraa oss teked, og Elleñ ad vijsu ræner alla þa er heñar bijda, Eñ Daudeñ añars. Iñvortis Giædeñ er Gud hefur prijdt oss med, Eru Vitsmunerner, Þeir eru hiñ aagiætaste Hlutur, Ef þeir eru til Goods brwkader, og þo allra helst til ad þeckia Gud og siaalfañ sig, Eñ saa er þad giører, hønum er ecke hætt vid ad forvitnast um añara Maña Raadslag edur Haattseme, Hañ hefur noog ad giora, ad rañsaka hvad hañ hafe hvørn Dag Gude aa moote broted, og þeinkia sig um, Hvørneñ hañ meige faa þad kvitt hiaa hønum, og Leidriett framveigis. J þessu og ødru þvilijku skyllðu Meñ æfa Forvitnena, Br. M. i Stadeñ þess ad hnijsa epter Naungans Haattum, hønum til Meins, eñ siaalfum oss til einskis Frama, Og verdur hun þa ad hiñe bestu Mañprijde og Vegur til allra goodra Dygda. Naadareñar Giæde eru hinar Andlegu Dygder, Trweñ, Voneñ, Poleñmædeñ og Kiærleikureñ, sem er mestur af þessum,

segier

segier Paall, 1. Cor. 13. Og so þeir Avexter sem hier af spretta. Meñ vilia vel segia, ad slijkt giete Meñ ecke vanbrwkad, Þvi þad sie Guds Anda Verkan i oss, Eñ giætum þess, ad so sem Gud kañ ad giora gott af Illu, So kañ Andskoteñ ad giora Illt af Goodu. Eg heyre ad Paulus i hinum Fyrra Pistle til Corinthios og hinum Premur Fyrstu Capitulum, deiler aa þa Christnu i Corintho, Vegna þess, ad þeir stærdu sig af Andlegum Giædum, Eg heyre ad Phariseanum var þad til Raanglætis reiknad, ad hañ sagdest ei vera so sem adrer Meñ, Luc. 18. Hvad olle þvi, Br. M? Vanþecking aa sialfsum sier, Eñ Forvitneñ um Tollheimtumañeñ, Er hañ þoktest vita syndugre sier ad vera, Sem þo foor Riettlaatur framar honum i sitt Hws. Pad er ad soñu meste Daarastapur, ad vilia stæra sig af Luckuñar og Naatturuñar Giædum, so sem aadur er sagt, eñ þo er saa eñ meire, ad hroka sier upp af þvi sem Naatturleger Kraptar ecke i oss verka, helldur kiemur aan þeirra Riettlijnis fraa Gude, og er su vijsust Von, ad hañ svipte hañ sijnum Gaafum, Er so illa med þad hondlar. Pu segier: Hañ tekur ecke þad Gooda fraa Mañenum, þvi þad er honum þocknanlegt: Eg jaata þad satt ad vera, eñ þad sem Guds Naad hefur verkad gott med oss, Pad er ecke leingur gott, Pegar Madureñ tilreiknar sier Guds Giorning, Eñ þad giora aller þeir, ed odrum betre þykiast, og ecke forvitnast um sialfa sig, Hvad miked þa vante aa þa Skylldu er þeir eiga honum ad giallda, og kalla sig gooda af þvi, ad adrer verre eru, ad þeirra Hyggiu. Mun nu ecke Gud reidast slijku, Pegar hañs Gaafur eru þañveg til Metnadar brwkadar: Jw, meir eñ hinum er vier kollum Stoor-Syndara. Vier siaaum i Epterlijkinguñe, Matth. 25. Ad Punded var teked fraa honum sem ecke villde leggia þad aa Mangarans Bord, hvad eigum vier þa ad ætla um hañ sem fer so illa þar med, ad i Stadeñ þess, ad hañ ætte ad þioona Gude med þvi i Audmiukt sijns Hiarta, þa slæst hañ i Lid med Fiandanum, er var i Ondverdu hinum bestu Gaafum prijddur, Eñ þess gielldur hañ eñ i Dag, Og mun ad eilijfu giallda, ad hañ upphoof sig aa moote honum er hañ hafde so Dijrdlegañ skapad, so mu nu og aller þeir ed honum i þessu epterfylgia. Hvor hefur meire Guds Dijrkare vered eñ Salomon? 1. Reg. 11. Og þo vard hañ straffadur med Faasiñu. Var ecke Jehu hiñ meste Vandlætare vegna Guds yfer Achabs Hwse? 2. Reg. 9. Po vard hañ ofurselldur i fraaleitt Siñe, 2. Reg. 10. Giorde ecke Judas Kraptaverk med hinum Læresveinunum? Matth. 10. Og þo eru hañs Afdrif Moñum kuñug. Og kañ þad eckert þvilijkum Moñum ad gagna, hvad leinge og hvorsu vel sem þeir hafa Gude þienad, þvi nær þeir hvad bester vera þykiast, og ætla sier einskis Aboota vant, þa verda þeir eins og Smaa-Born, Pau er rijsa þad sialf i sundur er þeim vænst um þyker, So verdur fyrer hinum, ad þeir hafa þess eingeñ Not, er þeir hafa þo maa skie kostad miklu Erfide til, þegar þad skijn of-fagurt i þeirra Augum, af þvi þeir ecke forvitnast um sialfa sig, edur hugleida, Ad þoott þeir giordu allt þad þeir ættu ad giora, Pa ættu þeir samt ad kalla sig Onijta Pioona, Luc. 17. Og ecke einasta missa Meñ Louneñ hier fyrer, So sem Endurlausnareñ segier um þa ed giora Goodverkeñ sier til Hroosunar, ad þeir hafe sijn Laun

utteked, Matth. 6. Helldur verda Meñ og þar fyrer eilijflega straffader, þvi eingeñ mun þvilijkur Reikningskapur mæta oss i Doomenum, So sem Misbrwkun Guds Naadar. Eñ i Sañleika þa er eingeñ heñar Misbrwkun stærre eñ su, ad brwka hana þvert a mote þvi, sem hun er oss giefeñ til, þad er til ad audmijkja oss og lijtelæcka, eñ ad prijsa Fodur Lioosaña, fraa hvorium ad oll good Giøf og oll fullkomeñ Giøf kiemur, Jac. 1. Um̃ allt þetta talar DRotteñ Gud med skielfelegum Ordum, Ezech. 18. segiande: Ef hiñ Riettlaate i burtu snijr sier fraa sijnu Riettlæte og breiter vondslegana, og lifer epter ollum þeim Svijvirdingum, Sem hiñ Ogudlege giorer, skyllde hañ lifa? Jaa, allt hañs Riettlæte sem hañ giort hefur, Skal ecke i Miñe leggiast, helldur skal hañ deya i ollum hañs Misgiordum og Syndum, sem hañ giort hefur. Eñ eingeñ er meire Synd, eckert Raanglæte meira, Eñ ad Ræna Gud þvi sem er alleina hañs, Pad er hid gooda sem hañ hefur verkad med oss, eñ brwka þad til ad forsmaa adra. Siaaum þvi til, ad Andskotteñ ræne oss ecke, 2. Cor. 2. Og forvitnunst um̃ Hage vora, hvort ad vier fiñum i Hiarta voru Potta nockurn, Pad vier sieum betre i vorum Augum, eñ adrer þeir ed vier kollum verre, Pvi þoott þad vera kuñe, Pa er þad ecke oss ad þacka, Helldur þeirre Guds Naad, sem med oss er, 1. Cor. 15. Og ef vier fiñum soddañ Hugreñing, Pa drepum hana strax med Jhugan vors eigeñ Overdugleika, og laatum so beñañ Veikleika Naatturuñar verda Ordsok til ad blygdast fyrer Gude, Af hvors Naad vier erum þad vier erum, 1. Cor. 15. Og þad er ecke oss ad þacka, Pott ei sie hun ydiulaus i oss. Og þegar vier nu holldum Reikning vid sialfa oss, Pa berum oss ei samañ vid hina, sem vonder eru. Mun þad nockud Boot fyrer þig, Pott añar sie verre? Pad heiter so sem hiñ Latinske Ordshattur segier; Ad hiñ Glaamskigne drottne aa medal hiña Blindu: Helldur, vilier þu i Mañ-Jofnud fara, Pa ber þig samañ vid Enoch, Sem var uppnumeñ, Gen. 5. Vid Noa Riettlætesins Predikara, 2. Pet. 2. Vid Abraham Fodur Trwadra, Rom. 4. Vid Moysen, er var hiñ þoleñmoodaste Madur aa Jordūñe, Num. 12. Vid Eliam, 2. Reg. 2. Vid Johañem Baptistam, Matth. 11. Vid St. Paul, hver þo er so miog Ahyggiusamur um̃ Velferd sijna, Og eckert treyster sijnu Riettlæte, Phil. 3. O HErra Gud! Hier kiemur mier i Hug þad, er Petur segier, 1. Pet. 4. Ef hiñ Riettlaate verdur naumlega hoolpeñ, Hvar mun þa byrtast hiñ Ogudlege og Syndareñ? Ef St. Paall þootteft vid þurfa, ad verka sijna Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Phil. 3. O hvad hrædder og skiaalfande mættum vier þa vera, sem Daglega iñdreckum Raanglæted, so sem Jordeñ Vatned, Job. 15. Og þvi kalla eg þad Ofka-Raad ad vera, sem þa i giefur Corinthu Borgaar-Moñum, 2 Cor. 13. Ranñsaked sialfa ydur, segier hañ, Hvort þier erud i Trwñe, Prooféd sialfa ydur, Pecked þier ydur ecke, ad JEsus Christus bijr i ydur, nema þier sieud ræker ordner. O hvad stoor Porf er syndugre Mañeskiu aa slijku i Utlegd þessare, Vited þier ecke, Brædur mijner, ad Daudeñ stendur jafnañ fyrer Dyrunum, og ad hvors eins Dauda-Dagur, er hañs Dooms-Dagur? Jaa, Pad vite þier, Pvi eru Meñ þa so Oforvitner um̃ sitt Haattalag i Andlegum Efnum?

Margur

Margur ætlar þad, Kañ ſkie, Ad ef Samvitſkañ ecke nagar hañ eda klagar um̃ neina Stoor-Glæpe, Ad hañ hafe Vitnisburd Andans um̃ þad, Ad hañ ſie Guds Barn, Rom. 8. Eñ þvi er ecke ſo vared alltijd, þvi eingeñ er ſo heilagur, ad hañ ecke hafe nooga Orſøk til ad afbidia Synder ſijnar og Grꝍta þær fyrer Gude. Peckingarleyſed ꝍ Syndunum og Toomlæted i þvi ad ranſaka ſitt Hiarta, Pad velldur þvi, ad Samvitſkañ fiñur ſo lijtt til þeirra, og ſefur hun þa, Og mꝍ þad aungvañveigeñ gooda Samvitſku kalla. Eirn Stoorbrota-Madur, ſem af Hiarta ꝍngrar ſijnar Jllgiørder, er mikłu betur ꝍ ſig komeñ eñ hiñ, ſem hvorke er Heitur nie Kalldur, þvi Gud vill ſkirpa honum wt af ſijnum Muñe, Apoc. 3. Og hvad miklu betur var fared hiñe Berſyndugu, ſem ad laut Bak til ad Footum JEſu, og þvode þær i ſijnum Tꝍrum, og þerrade med Hꝍr Lockum ſijnum, Kyſte þær og ſmurde med dijrmætu Salve, Helldur eñ Hræſnaranum, Er ſagde i Hiarta ſijnu: Ef þeſſe være Spꝍmadur, Pa munde hañ vita hvor ſu Kona være, Er ſnerter hañ, ad hun Berſyndug er? Mun ecke þeſſe Siꝍlfbyrgingur hafa ſkamaſt ſijn, þegar DRotteñ ſagde? Heñe fyrergiefſt miked, af þvi hun elſkade miked, Og hañ ſagde til heñar: Pier eru þijnar Synder Fyrergiefnar, Pijn Trw giørde þig hoolpna, Far i Fride. Eg kañ ecke añad ad ſegia, Eñ ad þetta var ſtoor Skeinkur, og þeſſe Smyrſleñ voru betur launud, helldur eñ þoott hañ hefde giefed heñe øll Rijke Veralldareñar. Eñ eg vil hier um̃ ſegiã, So ſem Pꝍll um̃ ſig talar, Peſs vegna hefur hañ mier myſkunad, Segier hañ, ad hañ ſijnde ꝍ mier alla Stærd Myſkunar ſiñar, þeim til Dꝍmis, Er ꝍ hañ trwa mundu, 1. Tim. 1. Aller eigum vier hins ſama Von og Kviña þeſſe, Ef vier lꝍtum oſs af Hiarta ꝍngra Syndernar, Eñ þad kañ ecke ad ſkie, nema vier ſmꝍſmuglega ranſokum hin iñſtu Fylſne vors Hiarta, og er þeſſe Forvitñe, ſem eg ꝍdur ſagt hefe. Hin Fyrſta Trappa til Himnarijkis, Pvi af Ranſookneñe kiemur Peckingeñ, af Peckinguñe Ydraneñ, af Ydraneñe Fyrergiefningeñ, af Fyrergiefninguñe Elſkañ, Sem er hin Einaſta Root allra Dygda og Mañkoſta, Er i Guds Augum kuña ad ſkarta. Hriſted wt, Hriſted wt ydar Hiørtu, O þier hin Aſtlauſa Piood! ſegier DRotteñ Gud hiꝍ Zophoniam.

Pad er ecke noog ad Meñ jꝍte almeñelega Synder ſijnar fyrer Gude med Muñenum, ſegiande: Eg hefe allſkins Synder giørt, til Orda og Verka og vondra Hugreñinga, og ka. ſkie ad Hugur fylge þo lijtt Mꝍle ꝍ ſtundum, eñ vier eigum ad leita grandgiæfelega epter þeim, og rekia upp allañ vorn Alldur, þad frekaſt vier til munum, allt i frꝍ Ungmeñis Arum, allra hellſt, nær vier gaungum til Alltaris, hvar vier eigum ad fridmælaſt vid Gud, i hañs Sonar Kvølldmꝍltijd. Ecke er þad helldur noog ad vier hofum Einuſiñe ydraſt Syndaña, og ſierdeilis þeirra er oſs mætte hellſt Miñe til reka, helldur eigum vier ad lꝍta oſs þær ꝍngra, ſo opt ſem þær oſs i Hug koma, ſo opt ſem vier heyrum þær i Guds Orde ſtraffadar, ſo opt ſem vier heyrum þær af ødrum drygdar; Og þa munum vier ſijdur þykiaſt upp yfer þeim i Hiarta voru. Vier eigum ecke ad gleyma þvi ſo fliootl, ad Gud hefur teked oſs i Sꝍtt aptur, þvi þad heiter ad

 villa

vilia ecke aptur snwa med Utlendingenum og giefa Gude Dijrdena, Luc. 17. Ef vier gleymum ecke drygdum Syndum, þa vill Gud þeim gleyma, eñ gleymum vier þeim, þa er hætt vid ad hañ myñest þeirra, Sierdeilis þar ecke er trwtt uñ ad oss kuñe optar ad verda hiner somu Glæper, edur ad miñsta Koste, ad oss lange aptur til Katlaña i Egypta-Lande, Num. 11. Og þoott alldrei være, þa vitum vier þad, ad Petur afneitade Christo Einusiñe, eñ alldrei optar; Po segia Christeñdooms Sogurnar, ad so opt sem hañ epter þad heyrde Hanañ gala, hafe hañ beisklega Grated. Eñ Gud naade oss auma Meñ: Hvad opt hofum vier nu afneitad vorum Skapara med Petre? Er þad ecke ad afneita Gude, ad elska Skiepnurnar? Ja, Syndena framar eñ hañ, ad vilia eckert lijda hañs vegna, ad vilia ecke laata a moote sier hina minstu Hollds Lyst hañs vegna, ad leggia ecke ad eins hañs Ogurlega og Dijrdarfulla Nafn vid Hiegooma, helldur hafa þad ad Haade, ef eg mætte so segia, ad vanbrwka ecke einasta Hvijldar Dagana til adskiliañlegra Synda og Lasta, helldur hafa Leida a Guds Orde, hafa þad i Fijblskapar-Maalum, huxa allt añad nær þad er kient og predikad, og fylla Hiartad, sem er Guds Mustere, 1. Cor. 3. med sauruga Panka, þa sem þad er vant til, so Guds Ord hefur ecke Rwm þar iñe? Er ecke þetta ad afneita Christo miklu verr eñ St. Petur? Pvi hañ giorde þad af Otta, eñ vær giorum þad ad Raunarlausu, eñ faa heyre eg gaanga wt og graata med honum, faa taarast þegar Haneñ galar i Guds H. Orde, so vier melgum jaata, ad jafnvel vor Ydran hefur stoor Synd vered, þvi hun hefur eñ nu ecke þraungad oss til ad Krossfesta Hollded edur laata af Syndunum. O vei! O vei! Hvorsu laangt erum vier þa fra Guds Veige, eñ vitum þo ecke nær sagt verdur, Gior Reikningskap þiñar Raadsmensku, Luc. 16. Og kiemur allt þetta af Forvitnisleisenu uñ vora eigeñ Hage. Pu segier vel, ef eingeñ yrde Saaluhoolpeñ nema sa sem være eins og Petur og Paall, þa yrdu faaer hoolpner; Pu segier satt, þvi Endurlausnareñ svarade þeim er spurde hañ ad, hvort þeir mundu ei faaer verda, sem hoolpner yrdu a þeñañ Haatt? Kieppest vid ad gaanga iñ uñ hid þraungva Hlided, þvi þeir eru marger sem þar vilia iñ gaanga og komast þad ecke, Luc. 13. Eñ hvad uñ þad? Sieu þeir nu faaer, sem satt mun vera, ad reikna hiaa hinum sem tapast, er þad Gagn fyrer þig, muntu hafa nockra Skiemtan af þeirra Selskap i Helvijte? Jeg jaata jþad, ad þeir munu og marger Saaluhoolpner verda, sem ecke eru Peturs edur Pauls Lijkar. Pad syner oss Epterlijkingeñ uñ Penings Giallded, Matth. 20. Eñ trw mier til, ad eins miked heimtar Gud af þier, erter þeirre Naad sem þier er giefeñ, so sem af Petre edur Paale. DRotteñ er goodur Reiknings-Madur, hañ heimtar eins miked af þeim sem hañ hefur Eitt Pund i Hendur feinged, so sem Tiju, epter þvi sem Tala reñur til, Matth. 25. Pad kieñer oss Epterlijkingeñ uñ Sæded er fiell i gooda Jord, ad sumt færde Hundradfalldañ, sumt Sextugfalldañ og sumt Prijtugfalldañ Avoxt, Matth. 13. Par fyrer maattu Ohætt hallda þad fyrer vijst, ad þoott ecke siertu so heilagur sem Enoch, Gen. 5. so Fulltrwa sem Abraham, Gen. 15. so þoleñmoodur sem Job, Job. 2.

so

so heitur i Bænene sem Elias, Jac. 5. so hreirn i Lijfernenu sem Baptista, Matth. 11. so brennande i Elskune sem Petur, Joh. 21. so alvarlegur og strokfamur i Gudrækneñe sem Paal, þa samt ef þu leggur alla Astundan a, ad þioona Gude (epter þeirre Naad sem þier er giefen) J Heilagleikanum, J Trwne, J Poleñmædene, J Bænene, J Elskune, J Alvorugiefneñe, J Kiærleikanum, þa ertu Guds Barn: En hier um byriar þier yduglega ad forvitnast Kvolld og Morgna, og ad mæla þijnar Athafner med þeirre Naad, sem Gud hefur þier lient, hvort ecke gietur þu meiru afkastad, og þar sem þu brest finnur, ad ydrast þess af Hiarta, og bidia Gud ad fylla þad abrestur, giorer þu so, þa muntu fiña Vitnisburd Andans sum þad, þu siert Guds Barn, Rom. 8. þa ertu innsigladur med Anda Fyrerheitesins, Eph. 1. til Dags Endurlausnarenar, Eph. 4. og hvort helldur þu lifer eda deyr, og med hvoriu Moote hinum Naaduga Gude þocknast ad laata þig giallda hina sijdurstu Skulld, a Sioo edur Lande, i Ellde edur Vatne, i Svefne edur Voku, þa ertu DRottens, Rom. 14. og eingen fær þig teked af hans Hende, Joh. 10. helldur þo þu deyer, muntu samt lifa og med honum eilijflega rijkia, þar sem ad er Gnoat Fagnadarens og Gledelegt Lijferne til Fodursins Hægre Handar, Ps. 16. Pad veite oss Goodur Gud i Nafne sijns Eingietens Sonar JEsu Christi, og giefe oss þar til Styrk Heilags Anda, AMEN.

# Sunnudagen mille Joola og Attadags.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

OG hans Fader og Mooder undrudust þad, hvad af honum sagdest: Og Simeon blessade þau, og sagde til Mariu Moodur hans: Sia þu, Þesse er settur til Falls og Uppriisu margra i Israel: Og til Merkis, hvoriu i moote munn mælast. Og sialfrar þinar Ønd mun Sverd i giegnum sniiwga, so ad augliios verde Hugskots Hiortu margra. Og þar var þa Anna Spaa-Kona, Dootter Phanuels af Kyne Aser, hun var og komen til sinna Ara, og hafde lifad i Sio Ar med sijnum Eignar Mañe fra Meydoome sijnum. Og þesse Eckia hafde nær Fioora Vetur um Attrædt, hvør ed eige gieck wr Musterenu, þioonande Gude Noott og Dag, med Føstum og Bæna-Hallde. Þesse gieck Samstundis þarngad ad, og prijsade DRottenn, og sagde af honum til allra þeirra sem Endurlausnarenar bidu til Jerusalem. Og er þau høfdu allt fullgiort epter Løgmaale DRottens, snueru þau aptur i Galilæam til Borgar sinnar Nazareth. En Sveirnen vox upp og styrktest i Anda, fullur Vijsdooms, og Guds Naad var med honum.

Exor-

## Exordium.

ALLD leit allt þad er hañ hafde skapad, segier Ritningeñ, og siaa, þad var allt harla gott, Gen. 1. Stoort er þa Volæde Mañeskiuñar er Andskoteñ hefur fært yfer hana med Syndeñe, ad hinar bestu Guds Skiepnur snwast heñe til hiñs mesta Mootgaangs opt og tijdum. Eldureñ er hiñ þarfaste Hlutur, Eñ hvorsu opt verdur hañ oss ad Skada? Vatned i sama Maata, og þo hliootum vier optlega Tioon af þvi: Jafnvel þær Guds Gaafur sem i siaalfum sier ecke eru Skadvænar, þær snwast oss til hiñs mesta Ohagnadar fyrer Misbrwkun vora. Jll Medferd aa Gotze og Peningum hefur steipt morgum Maara i Olucku, Metordeñ hafa margañ blindad, og siaalfa Skynsemena hefur margur Veralldar Sonur so Vanbrwkad, ad honum hefde þarfara vered, ad hafa Siñings Boonda Vit, eñ ad falla so Hraparlega aa siinu eigeñ Bragde, so sem þeir giora er Paulus segier, 1. Cor. 3. ad Gud hondle i þeirra Slægvitsku: Um̃ allt þetta kieñum vier Fiandanum og Uppruna Syndeñe, ad vijsu ecke um̃ Skor fram̃, af þeirre Root er oll sw Olucka sprotteñ er synduga Meñ Daglega plaagar, bæde i Andlegañ og Lijkamlegañ Maata. Eñ samt er oss þad Vitañlegt, ad hiñ Myskunsame Gud hefur so bætt Raad vort i Sendingu siins Eingietens Sonar, ad oss maa Jafngooda kalla, nema vier spillum þvi aptur ad niju; Þvi Guds Sonur er i Heimeñ komeñ til ad nidurbriioota Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. Eñ hier er Graatlegt til ad vita, ad þad Hiaalprædeꝺ sem hiñ gamle Simeon so miog fagnade, og sagde: Ad Gud hefde tilreidt Fyrer Auglite Allra Piooda, Luc. 2. Þad vill so faaum gagna, og so faaer af hvorre Piood hafa þess Not, og sw Frelsan er Gud giorde siinu Foolke, Luc. 1. verdur morgum ad eñ stærra Prældoome, Lækningeñ ad Eytre, og siaalf Heilsu-Gioseñ ad Vanheilsu, fyrer Vanræktar og Þvermoodsku þeirra Saker, er ecke þeckia siñ Vitiunar Tijma. Þess gietur St. Paall er hañ segier um̃ sig, 2. Cor. 2. Vier erum Christi sætur Jlmur i Gude, bæde i þeim sem hoolpner verda, og hinum sem tapast, þessum ad soñu Jlmur Daudans til Daudans, eñ hinum Jlmur Lijfsins til Lijfsins. Og hvad er þad añad er Simeon hier talar i Gudspiallenu: Ad Christur Sie Settur Til Falls Og Upprisu Margra J Jsrael? Eg vill þesse Heilogu Ord nockud gior Hugleida, og af þeim yfervega. 1. Hvorium DRotteñ sie settur til Falls. 2. Hvorium hañ sie settur til Upprisu.

Hier til styrke hiñ Naaduge Gud med Naad siins Anda i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞEsse Er Settur Til Falls segier Texteñ. Hvor er þesse? Þad er hañ sem Esajas um̃spaaer Cap. 28. med þessum Ordum: Siaa eg set Grundvoll i Zion, eirn Stein, eirn wtvaleñ Stein, (so sem Petur þad wtleggur, 1. Pet. 2.) Eirn dijrmætañ Hyrningar-Stein, eirn fastañ Grundvoll, sa sem trwer hañ muñ ecke flijta sier; Þad er eirn og hiñ same sem David kvedur um̃ Ps. 118. Segiande: Sa Steirneñ sem

Uppbyggendur hafa forsmaad, hann er orden ad Hofde Hyrningar, af DRottne er þad, og er undarlegt fyrer vorum Augum. Ad þessu sie so hattad, vottar sialfur DRottenn, Matth. 21. Er hann heimfærer þennan Davids Spaadoom, uppa sialfann sig, og þa sem ad Lijflietu Sonenn, er Faderenn sende, þegar þeir hofdu aadur Lijflated hanns Piona, þvi hann segier strax epter i sama Capitula vid Gydinga: Þar fyrer mun Guds Rijke fraa ydur teked verda, og giefed Piood þeirre er færer Avoxt þar af; Er þvi audraaded hvorier þeir sieu, sem ad Guds Sonur er til Falls settur, sem eru fyrst Gydingar, þeir Mordingiar er Konung Dijrdarennar af Dogum riedu, 1. Cor. 2. og ei skipudust vid Kienningar hus heilagra Manna og Pijslarvotta epter hanns Himnafør, jafnvel þott þeir sæu Teikn og Stoormerke, med hvorium DRottenn styrkte Christne Boded, so og eru þad aller þeir sem enn nu i Dag gaunga i þeirra Footspor, og Krossfesta Guds Son ad niju, Hebr. 6. med Vantru og Gudlausu Framferde: Þessum er Zions Hyrningar Steirn til Falls settur; Enn med hvoriu Moote er hann þa settur? Villde Gud nockud ad þeir skylldu detta um hann sem falla? Laungt er fraa þvi, hann vill ad aller Menn hoolpner verde og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Kom nockud Sonurenn i Heimenn til ad fordæma Heimenn? Aungvanveigenn, Helldur til þess, ad Heimurenn hefde Lijfed fyrer hann, Joh. 3. Var ecke Steirn þesse so audsær, ad nockur þyrfte ad detta um hann? Ad sonnu var hann so audsien, ad eingenn þurfte um hann ad rasa. Borg sw er aa Fialle stendur, Gietur ecke dulest, Matth. 5. Villdu þeir ei trwa sialfum honum, þa mattu þeir samt Verkunum trwa er hann giorde, Joh. 10. Hvernenn er hann þa til Falls settur? Þar til svara eg: Ecke til þess, ad neirn skyllde falla, Helldur aller uppriisa, David kienner oss þad i þeim Ordum er eg strax umgat, Þar hann segier, Ps. 118. Ad Uppbyggendur hafe forsmaad þennan Stein, Og þesse somu Ord Davids brwkade St. Petur til ad sannfæra med hinn Gudlausa Hofudprestanna Flock er fordæmde JEsum, Act 4. Segiande: Þesse er sa Steirn, er þier Uppbyggendur hafed ad ongvu haft, Hvor orden er ad Hofde Hyrningar, og ecke er i neinum odrum Hiaalpræded. Og þeir skipudust þo ecke meir vid þesse Sannyrde, enn so, ad þeir hootudu þeim, ad ei skylldu þeir kienna edur tala i þessu Nafne framar, Jafnvel þott þeim alkunnugt være, ad þeir Petur og Johannes hefdu skomu aadur i JEsu Nafne giort þann Heilbrigdann sem halltur var borenn, Act. 3. Og er ecke ad undra, Þott Guds Sonur være þess Haattar Monnum til Falls settur, Fyrer þeirra Hardwdar og Þvermoodsku Saker.

Laatum nu Juda fara, Brædur mijner, Þeir hafa sinn Doom med sier, Og sijn Laun wteked, Enn giætum ad sialfum oss, Ad ei verde JEsus oss til Falls edur til Asteitingar. Vier vitum hvoriu Christur svarade Johannis Læresveinum, Er hann giorde þa fra sier til ad spyria Drottenn ad, hvor hann være? Fared og segied Johanni (sagde hann) Hvad þier heyred og siaed: Blinder sia Syn, Haltter gaunga, Lijkþraaer hreinsast, Dauser heyra, Dauder uppriisa, og Faatækum verd a Gud spiellenn bodud, og Sæll er sa sem ecke hneixlar sig aa mier, Matth. 11. Þetta hofum vier alltsamann heyrt, og eing

eñ efar um̃ DRottens Kraptaverk, med hvorium hañ auglijste þad hañ sañur Gud være. Eñ hvort ad vier samt og ædur ecke hneixlunst æ honum sumer hvorier, þad þyrfte nockud framar ad ransaka. Einhvor mun spyria, J hvoriu hneixlunst vier æ honum? So spurdu og Judar fordum Daga, Mal. 1. J hvoriu forsmæaum vier þitt Nafn? DRotteñ svarade: Pier Offred Ohreinum Mat æ mijnu Altare, þo spyried þier, hvar med saurgum vier þig? Hañ svarar: J þvi ad þier segied, DRottens Bord er foraktañlegt, Þvi nær þier Offred hinu Blinda, er þad ecke Jllt, og nær þier komed fram med þad Hallta og Siwka, er þad ecke Jllt: Ber þetta Hertoga þijnum, muntu hiæ honum vel þockadur verda? Segier DRotteñ Zebaoth. Sama er a Brefenu geoder Viner; Foorner Gamla Testamentesins eru asmædar med þeirre einu Foorn er hiñ Ædste Prestur hefur Einusiñe iñbored i þad Allra Helgasta, Heb. 9. Samt eigum vier Gude lifanda Foorner ad færa, þad er siælfa oss og vora skynsamlega Pioonustu, Rom. 12. Eñ þegar vier iñgongum i Mustere Guds, dauder i hinum vestu Syndum og Glæpum Ydrunarlaust, Forsmæaum vier þa ecke Guds hæleita Nafn? Hneixlunst vier þa ecke æ Christo? Pegar Meñ gæanga Oforhuxader til Guds Bords, ecke Reina og Proofa siælfa sig, Ecke giora Greinarmun æ millum Lijkama DRottens og añarar Fædu, 1. Cor. 11. Ecke ransaka siñ Lifnad so þeir meige ydrast, Ecke reina hvort þeir eru i Trwñe, 2. Cor. 13. Ecke hafa fullañ Asetning til ad betra siñ Lifnad, Hallda Meñ þa ecke Bord DRottens foraktanlegt. Saurga Meñ þad þa ecke? Segied mier i DRottens Nafne, Segied mier, Er ecke þvilijkt ad hneixlast æ Christo, Edur segier ecke Paulus, ad sæ ed þvilijkt giorer, Hañ sie sekur vid Holld og Blood hans, 1. Cor. 11. Hvad er ad hneixlast æ Christo, Ef ei er þetta? Pegar Meñ ecke hyrda um̃ ad læra hiñ saña Christeñdoom, so þeir fære kient hañ Bornum sijnum og Hiwum, og eru so blinder, blindra Leidtogarar, Matth. 15. Og þo reka Meñ þetta blinda Fie iñ fyrer DRottens Altare, til ad Eta og Drecka siælfum sier Doom, miklu lijklegra til ad verda þar Satans Foorner eñ Guds Offur, Nema hañ vilie meire Myskun æ giora: Segied mier, Offra Meñ þa ecke hinu blinda? Er ecke þad ad hneixlast æ Christo? Pegar Meñ vilia under eins þioona Gude og Mamona, Matth. 6. Sitia i Kyrkiuñe, Eñ Hiartad er wt æ Bwgardenum edur hiæ Akneytunum, Luc. 14. Halltra Meñ þa ecke æ bædar Sijdur med Prestum Baals? 1. Reg. 18. Er þad ecke ad Offra þvi Hallta og Veika? Er þad ecke ad hneixlast æ Christo, Er segier: Eingeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona, Matth. 6. Bioodum þetta einhvorium Veralldar Hofdingia, Komum med Opvegnum Hondum fyrer hans Bord, giolldum honum einhvorn Vanmeta Grip i Skylldur sijnar, Svorum honum wtaf, Nær vier eigum Tal vid hañ, Reinum til hvort hañ þyggur þad vel af oss, Og þo vilium vier heimta slijkt af hinum stoora Konunge Himens og Jardar. Petta er ad vijsu ad hneixlast æ Christo, ad Ottast hañ, sem ecke kañ nema Lijkamanum ad granda, Eñ hyrda ei hvad vier giorum vid Gud, Sem Lijfe og Sælu gietur kastad i Eilijfañ Elld, Matth. 10. Eg spyr, Hvar fyrer hneixludust Judar æ Christo? Þvi

hañ

han̄ var Fatækur. Guds Fatæker eru eñ nu hia oss: Þeir eru JEsu Limer, Ef þeir under eins eru Andlega Volader. Eñ hvad er tijdara i Heimenum, eñ ad Ovirda Fatækan̄, og ecke einasta Ovirda han̄, helldur og ad taka fra honum þad lijted sem han̄ a, og ad brwka hans Sveita til Ohoofs og Metnadar? J Losum Klæda þiña er Blod hiña þurfande Saalna, Segier DRotten̄, Jer. 2. vid Juda. Þad maa eg helmfæra til þeirra, er selia hiñ Volada fyrer eitt Skoo, Amos. 2. so ad þeir sialfer, þeirra Syner og Dætur, gaanga so sem velbwnar Haller og utskorner Pijlarar, Ps. 144. Er ecke slijkt ad hneixlast a JEsu? Hver ed kallar hina Fatæku sijna miñstu Brædur, Matth. 25. Og vill reikna þad vid sig giort ad vera, sem þeim er giort. Hvad var fleira til þess ad Gydingar hneixluðust a DRottne? Þad, ad han̄ ecke hroopade nie hafde miked um̄ sig, Og eingen̄ heyrde Rodd hans a Strætunum, Es. 42. So asækest og Heimuren̄ hina spöku og kyrrlaatu og forsmaaer þa, Hæder ad þeim, Kallar þa Ohocka og Heimota, Þeir ed ecke bere Mañskap edur Vitsmune til ad hallda Virdingu siñe, og briota Ok hins Dramblaata af Haalse sier; Er ecke þetta ad hneixlast a Christo? Hver ed ecke kom i Heimeñ til ad laata sier þioona, helldur til ad þioona ödrum, Matth. 20. Hvad er þad eñ þa framar sem kom Gydingum til ad hneixlast a Guds Syne? Þad, ad han̄ rak Eyrende sijns Fødurs so skoruglega, Og vandlætte um̄ Glæpe og Vantrw Ogudlegra Maña. Ecke mun Diofulen̄ vanta þa eñ i Dag, Sem ad fyl. e þeirra Foot-Sporum i þessu. Hver vandar so um̄ illar Athafner Mañaña, ad ei sie honum a Haalse leiged? Hver er sa, er han̄ þycker vegna Guds og hans Dijrdar, ad ei sie han̄ Olutsamur kalladur og sturle Jsrael? 1. Reg. 18. Ef nockur vill styrkia Maalefne Ecktuñar og hins Foduclausa, Þa giora þeir Samdraatt a moote honum, sem eingen̄ Fæda þyker Lostæt, utan̄ hun sie teken̄ fra Muñe hins Volada og Underþryckta.

Hver er sa, Ef han̄ vill hallda gooda Skickun i Hwse sijnu, ad ecke laste han̄ Jllkvittner Men̄ og hate? Og jafnvel þoott ad þeir sem vilia hlijda Gude i þessu og vardveita Samvitsku sijna Ofleckada, þott þeir, segie eg, giore allt þetta epter Skylldu sijns Embættis, Þa uppvekur þo Diofullen̄ þeim Andskota epter sijnu eigen̄ Nafne, so þeim tekst ecke Guds Verk ad giora. Simeon spaaer um̄ Christ, ad han̄ mune settur verda so sem Teikn, Þad er moote mælest; Þad er epter mijnum Skilninge so sem Eitt uppsett Teikn, Er Men̄ plaga ad skioota a. So var og DRotten̄, wr þvi han̄ iñgieck þad Kieñemañlega Embætte. Oll Satans Born giordu sier ad Skylldu, ad vega ad honum, Hvar sem þeir kuñu med Ordum og Verkum, So sem lioost er af Æfe-Sogu hans, Er Gudspiallameñerner hafa oss ritada epterlaated. Soddan̄ Eitt Teikn eru aller hans Læresveinar, aller hans Epterfylgiendur i Lærdoomenum og Vandlætenu: Þess gietur sialfur Christur, Esa. 8. Þegar Spaamaduren̄ beid epter hvad Gud villde segia, Er han̄ hafde byrgt sitt Andlit fyrer Hwse Jacobs: Sia, hier er eg og þau Born, er DRotten̄ hefur giefed mier. Vier erum so sem nockurskonar Teikn og Merke hia Jsraels Foolke, Hvorn Spaadoom ad S. Paall til Hebræos Cap. 2. Heimfærer til

M 2 Christ-

Christum og hañs Barna, og er þad vijst, ad ecke er Læresveineñ framar eñ Meistareñ, Hafe þeir Hwsboondañ kallad Beelzebub, Hvad munu þeir ei giora vid hañs Heimameñ? Matth. 10. Nu er þad ad soñu Gledelegt ad þola fyrer hañs Saker, Er lofad hefur noogum Launum aa Himnum, Matth. 5. Eñ hitt er þeim Bøl sem Christi eru, ad þeir Erfida til Onijtis, Jafnvel þott ad þeirra Embætte sie DRotteñs, og þeirra Maalefne þeirra Guds, Esa. 49. Fyrer hiña Priootsku Saker, er hneixlast aa Christo, og lijkast er ad hañ mune til Falls verda. Sialfrar Piñar Ønd Mun Eitt Sverd i Giegnum Gaanga, Sagde Simeon vid Guds Moodur, Teiknande aan Esa þar med, Harma þa er heñe mundu til Handa bera wt af Mootmælum þeim, Offooknum og Pijslum er hañ i Anda saa, ad DRotteñ munde þola verda, aadur eñ hañ feinge oss Synduga leyst fraa eilijfum Pijslum. Ein Riett-trwud Saal, er Christi Andleg Mooder, þad vottar St. Paall til Gal. 4. Sona forn mijn, Med hvoria eg þwngbweñ er, þar til Christur myndast i ydur aptur ad niju. Mun ecke þesse JEsu Mooder kieña i Briooste, Nær hun sier DRotteñ aptur ad Niju Krossfestañ, Ebr. 6. Fyrer Augum sier, af Børnum Vantrwareñar, Med hinum verstu Syndum og Glæpum, Peim til Olucku, sem eins vel og hun eru med Guds Bloode Endurkeypter, Og sær þo ecke vid þvi giort, helldur eñ Maria vid Pijslum Sonar sijns, Illsku þeirra vegna, Sem ad hneixlast aa þeim: Eñ þeir hlæia þar ad, Og þad Angur, Sem Guds Børn kvelur fyrer þeirra Oglæfu Saker, Hafa þeir ad Skimpe og Athlaatre, Pad liggur þeim liett i Skape, Poott ad Meñ fæest um̃ þetta, Og segia: Ad þar siaae ecke meira Bañ aa sier eñ þeim er laata sier þeirra Olucku til Hiarta gaanga. Segied mier i Guds Nafne, Segied mier: Er ecke þvilijkt ad Hneixlast aa Christo? Og er nu so nockud hier um̃ talad.

Nu vilium vier i Siidare Partenum læra, Hvorneñ hañ sie til UPPrisu settur. Til UPPrisu Margra segier Texteñ. Oss er kuñugt med hvoriu Moote ad Johañes Skijrare hoof siñ Lærdoom: Giored Ydran sagde hañ, Pviad Guds Rijke er nalægt, Matth. 3. Vidlijkañ Formaala hafde St. Petur fyrer Judum, Er hañ i fyrstu bodade þeim Heilsugiof þessa, Pa þeir spurdu ad, hvad þeir giora skylldu: Svarade hañ þeim: Giored Ydran, og sierhvor ydar laate skijrast i Nafne DRotteñs JEsu Christi til Fyrergiefningar Syndaña, Act. 2. So er þa Christur þeim til UPPrisu settur, Sem ydrast Syndaña, Og trwa ad þær verde sier i hañs Nafne tilgiefnar. Ein alvarleg Ydran er hin Fyrsta Trappa til þessarar Upprisu, Epter þad ad Meñ hafa þeckt Veg Sañleikañs, Eñ fyrer þvi ad Ydraneñ verkar ecke i Mañsins Hiarta, Nema vier þeckium Syndena, Pa er einsætt ad læra Guds Vilia af hañs Løgmaale og Orde, Ecke alleina til ad laga siñ Lifnad þar epter, helldur og til ad þeckia hvad oss er Aboota vant, sem vier fyrer vijst vita meigum ad all-miked er, Og fleira eñ vier þeckia kuñum edur upp ad reikna. Eñ þoott ad eingeñ vita kuñe hvad opt hañ fellur, Ps. 19. Samt eigum vier med hinu mesta Athygle ad hallda Daglegt Rañsak um̃ sialfa oss og vora Lijfernis Hattu

till

til þess, ad vier þeckium Syndena og heñar Liootleik, So þar af vaxe Angur og Trege i Hiarta voru, Eñ fyrer þvi ad þetta Hiartalag tekur eingeñ af siaalfum sier, Pa vill þar til ydugleg og alvarleg Bæn, Ef Ydraneñ aa so heit ad vera, ad hun Gude liike, Pvi hañ nægiest ecke med Hiegooma nockurn, Hiartad aa ad braadna og klockna fyrer Gude, Ef hañ aa Syndena burt ad taka, ecke duger soddañ Ydran miked sem hañ um̃ talar hiaa Jeremiam, Cap. 3. Segiande: J ollu þessu snerest ecke til miin hin fraafallna Syster Juda af ollu Hiarta, helldur voru þad ei nema Læte heñar, segier DRotteñ. Eckert kañ þad ad duga hiaa Gude, sem hañ ecke siaalfur med oss verkar, þvi af siaalfum oss til megnum vier eckert Gott ad fram̃kvæma, nema vor Hrygd sie epter Gude, so sem Paall ad Orde kiemst, 2. Cor. 3. þa er hun Oniit, soddañ Ydran vill hañ skirpa wt af siinum Muñe, þvi hun er volg, Apoc. 3. Pad er aagiætt sem Nicephorus Calistus skrifar epter hinum gooda Keysara Theodosio, er hañ sagde, ad þad være eingeñ Undur, þoott nockur dæe, þar hañ være Madur, eñ þad være eins Guds ad kalla þañ aptur til Liifsins med Ydraneñe sem eitt Siñ daudur være; Pvi er hier af audsied, ad Meñ skulu byggia Ydranena med Bæn af Gude, so vel sem allt añad, ef hun aa honum ad þocknast, og maa þad ecke hindra nockurs Mañs Alvorugiefne i Ydraneñe, þoott ei sie hañ sier hiña verstu Klækia og Bodorda Brota medvitande. Noog er þad til ad koma wt Taarunum aa einu Guds Barne, ad þad gietur ecke eitt Augnablik Syndlaust lifad, ef Giorder vorar ættu ad stickast aa Guds Riettlætis Mæle-Snwru. Eitt Hiarta sem elskar siñ Gud er hægt ad bleita, þad aangrast meir af siinum Ofullkomlegleika, helldur eñ hiñ Gudlause af Myñingu allra siña Skam̃a og Odaada. So ad David i ollum siinum Heilagleika hañ væter siina Sæng i Taarum alla Noottena, Ps. 6. vegna siña Avirdinga, þar hiñ Ogudlege Manasses fiñur eckert til siña Stoor-Glæpa, fyrr eñ hañ er beygdur i þwngum Jaarn-Vidium, 2. Par. 33. Nu þoott ad sa hafe miklu afloked, sem hefur straffad siaalfañ sig, med alvarlegum Trega fyrer Syndena, þvi þad aa heima hiaa þeim er Postuleñ segier: Ef vier dæmum siaalfa oss, þa verdum vier ecke dæmder, 1. Cor. 11. Samt er þad ecke noog ad laata sig ydra Syndaña, nema Meñ treyste þvi fullkomlega, ad hiñ Naaduge Gud mune sier uppgiefa alla Skulldena, fyrer JEsu blessada Forþienustu: Ydraneñ kastar Syndaranum nidur fyrer Guds Fætur, til ad audmykia sig under hañs Vollduga Hond, eñ Trweñ reyser hañ upp aptur, og giorer hañ þess full oruggañ, ad hañ hafe friiañ Tilgaang til Naadar-Stoolsins, Hebr. 5. hvorsu sem hañ sie hinum verstu Syndum hladeñ, og þad ecke fyrer nockurs Mañs eigeñ Verdugleik, Ætt edur Atgiorfe, Pvi Gud er Heilagre, Volldugre og Riettlaatare eñ so, ad nockurt af þessu edur einhvor añar Veralldlegur Hlutur meige faa hañ kreinkt edur yfertalad, helldur skiedur þad alleina af hañs skiærre og einsamalle Goodgyrne og Myskun, fyrer þad Lausnar-Gialld er hañs Eingieteñ Sonur hefur ad soñu wtlagt fyrer alla Verolldena, Eñ þeir einer muni Not af hafa sem aa hañs Nafn trwa, Act. 10. Af Ydraneñe og Trwñe fram̃kiemur Elskañ til Guds, ef þær eru añars so sem þeim vera

byriar. Ydraneñ syner oss vorn Overdugleik, og hvorneñ vier hofum med Glæpuñ-um uñed til hiña bitru Helviitis Piisla: Eñ Trweñ Guds Giædsku og Oraññsakañleg Myskunar Ydur, i þvi ad uppgiefa þau morgu Tiju Pusund Punda, sem vier ecke ein-asta Einusiñe, helldur Ar epter Ar, verdum hinum Gooda Gude skylldugir uñ, hvad ef vier vduglega Hugleidum og samañberum i Hiarta voru, þa kuñum vier ei ad fara a Mis vid þad, ad þar af kvikne ein breñande Elska til hañs, er so vel giorer til vor Overd-ugra, og fyrergiefur oss margar Synder, og hun er hin einasta Root allra Dygda og Mañkosta, og jafnvel Logmaalsins Uppfylling, so sem Paulus uñ Kiærleikañ vottar, Rom. 13. Pvi þad er viist, ad sa sem elskar nockurn, hañ skirrest vid ad stiggia hañ, og verde honum þad Ovart, þa angrar hañ þad af Hiarta, og uner illa Hag siinum, ne-ma hañ faae komed sier aptur i samt Lag og naad hañs Vinaattu er honum þyker iñdælt ad elska. So eru og Guds Born lynd, verde þau yferstiigeñ af nockurre Hrosun, þa standa þau braatt upp aptur til ad Fridmælast vid Gud: Pad sie eg a David, Ps. 38. Pad sie eg a Petre, Matth. 26. og odrum fleirum, hvorier, er þeir hafa ratad i nockurn Glæp, hafa þeir ecke Frid edur Roo haft, fyrr eñ þeir hafa sættst vid Gud, hv-orn þeir af Hiarta elskudu. Eñ ecke er þess ad dylia, Born miin good, ad þeir sem eru i miklum Kiærleika vid Gud, og ordner eru eirn Ande med honum, 1. Cor. 6. Peim er miklu vandara eñ odrum i sliiku.

Fadereñ heimtar meire Elsku af Synenum eñ af Prælnum, jafnvel þoott siidur gio-re hañ Barned Arflaust, helldur eñ Prælen wtlægañ wr Hwsenu: Pad mætte ætla ad margur hefde meira til uñed vid Gud eñ Moyses, þegar hañ sloo Tvisvar a Kletteñ, Num. 20. Eñ fyrer þvi ad hañ var Gude so Handgeingeñ framar odrum, þa vard hañ straffadur. Margur Konungur hefur laated telia Lands Foolked, til ad vita hvor hañs Makt være, og hvad hañ mætte reida sig uppa. Po vard þad David til Synd-ar reiknad, 2. Sam. 24. Jaa stoorrar Syndar, af þvi hañ i þad Siñ hafde meira Traust a Mañ-Aflanum eñ a Gude, er þo so optlega hafde barest fyrer hañ, og lagt hañs Fiand-Meñ ad Velle. So skulum vier og meina uñ þañ sem Gud hefur Eitt Siñ ad sier tek-ed, honum veiter hægra ad bera Avoxt eñ hinum, sem eñ þa hefur ecke noted þeirrar Nadar, og viñur hañ þvi til meire Hegningar, Luc. 12. ef hañ af-bregdur. So er þesse Elskañ til Guds, sem af Ydraneñe og Trwñe framkiemur, nockurskonar Sæde, hvar af allar goodar Dygder spretta, sem adur er sagt: Og af heñe kiemur hin nyja Hlydne og Uñboot Liifsdagaña, an hvorrar bæde Ydraneñ og Trweñ daudar eru og Maktarlausar, Pvi þad er eingeñ Ydran sem lofar Mañenum aptur ad gaanga til somu Synda, og þad er ecke hin Saña Trw sem ei verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Hvar uñ St. Jacob noogu skoreñordt talar i siins Pistels 2. Cap. Og þesse er hin Andlega Upp-risa, hin Fyrre Upprisa. Sæll er sa sem hefur Hlutdeild i heñe, segier Guds Ande i Opeñberingar Bookeñe 20. Cap. Og hefe eg nu so med nockrum Rokum sagt, hvor-ium Christur sie til Falls settur, og hvorium til Upprisu. Gud giefe ad þins siidara

meige

melge sem flester niootande verda. Gioreſt þvi eige Stall-Brædur Gydinga, er þeñañ Hyrningar Stein forsmaadu, hvor sem yfer hañ fellur, þañ mun hañ sundurbrioota, og yfer hvorn sem hañ fellur, þañ mun hañ sundurmola, Matth. 21. O þier fa vitu Born Veralldareñar! O þier Paafuglar þessa vonda Heims! Torvelldara mun ydur verda ad beria Hofdenu vid þeñañ Stein, eñ St. Paale ad spyrna aa moote Brodd unum, Act. 9. Hañ hefur fyrer ydur og allra Maña Skulld, Hoggormsins, þad er Diofulsins Haus i sundur molad, Gen. 3. Munud þier vera sterkare eñ ydar Hofdinge sem er Gud Veralldar þessarar, og drottnar i ydur Bornum Vantrwareñar? Eph. 2. Ef ad jafnvel eitt Kvikende snerter Fialls-Ræturnar, þa skal þad Dauda deya, sagde Gud vid Moysen, Exod. 19. under þad hañ wtgaf sitt Heilaga Logmaal; Eñ þegar sa Steirneñ sem Einusiñe er af Fiallenu wtskoreñ og sundurbraut Jaarned og Leyreñ, Gulled og Silfred, Dan. 2. Þegar hañ, segie eg, i Aññad Siñ dettur yfer Gudlausañ Heim þeñañ i hañs siidare Tilkomu, Munu þa Fiolleñ hylia ydur fyrer hañs Reide? Apoc. 6. Munud þier saa stadeſt i hañs Auglite, sem jafnvel hin mektugu Konga Rijke hefur i sundurbroted; Edur vited þier ecke, ad þier Leyr og Aska erud? Jaa, breisk Leyr-Kier, sem optlega detta sundur af sialfsum sier, auk helldur ad þier kuñed ad bwa vid þeññañ foriærande Elld. Gud er eirn mektugur Konungur, Himeneñ er hañs Haasæte, Jordeñ er Skor hañs Foota, Act. 7. Og nær hañ drepur Fætenum vid Þwfu þessare, vid þessare Madkaveitu, hvar iñe vier synduger Ormar skrijdum hvor um añañ þverañ, þa titrar hun og skielfur, eins og Lauf-Blad fyrer Vinde: Munud þier þa stadeſt gieta hañs Tilkomu Dag? Mal. 3. nær hañs Reide tekur til ad breña allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Þvi forsmaaed þier þa hañs Riettinde, Þvi hallde þier hañs Sendeboda fyrer eina Skoo-Þurku, Og þvi hafa hañs Ord ecke Rwm i ydur? Þvi jafnvel þoott ydur meige hitna i Brioosteum Stundarsaker, þegar Guds Reidarþruma slær um Eyru ydar af einum Predikunar-Stool, þa er þo Snioored leingur aa Steinunum þegar Regned ofañ kiemur, Jer. 18. helldur eñ Myñing hañs Ognarlega Nafns hiaa ydur. Þvi vanvirded þier hañs Sacramenta, Þvi hneixled þier hañs Vesælinga, Þvi forsmaaed þier hañs Volada, Þvi ræned þier hiñ Faatæka, Þvi hamled þier Riettenum ad hafa siñ Framgaang, Þvi hefied þier hiñ Raanglaata, og nidurdreped hinum Saklausa, Þvi hallded þier iñe Sveita Daglaunarans, Þvi giored þier allt þetta, og ætled Gud mune ecke færa ydur under siñ Doom fyrer þessar bloodugu Skamer og Illgiorder, ef þier segieſt ecke hneixlaſt aa JEsu? O þier Eitur Ormar og Nodru-Kyn! Vered þo ecke argare eñ Phariſæi og Skriftlærder sem komu til Johañis Skijrnar, Matth. 3. og siaaed til ad þier faaed umflwed tilkomande Reide. Giored Ydran, medañ Guds Rijke er nalægt. Leited DRottens medañ hañ er ad fiña, Esa. 55. og myñeſt vid Soneñ, ad þier eige fyrerfareſt aa Veigenum, þegar hañs Reide tekur til ad breña. Sæler eru aller þeir ed leita Athvarfs hiaa honum segier David: Jaa, Sæler erud þier sem eckert Athvarf hafed i Heime þessum, þvi DRotteñ er ydar Hlutskipte. Sæler

erud

erud þier sem alla Hlute hafed yfergiefed, og jafnvel sialfa ydur, þvi þier skulud faa Hundradfallt aptur og erfa eilijft Lijf, Matth. 19. Sæler erud þier sem forsmaaed allt Yferlæte og Skarkala Veralldareñar, þvi þier leited ad þvi sem þar uppe er, Col. 3. Sæler erud þier, nær þier alla Hlute þola vilied fyrer Guds Saker, þvi ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum, Matth. 5. Sæler erud þier midt i Hormungunum, midt i Ardasunum, midt i øllum þeim Raunum sem ydur til Handa bera, þvi Guds Kraptur fullkomnast i ydar Breiskleika, og þa þier veiker erud, þa erud þier Mattuger, 2. Cor. 12. Sæler erud þier nær Heimureñ kallar ydur Afrak og Hreinsun Veralldar, þvi þa erud þier Dijrmæter i DRottens Augum, þier skulud siaa ydar Glede nær þeir munu til Skamar verda segier DRotteñ, Esa. 66. Þad sem Heimsins Born troda under Footunum, þad er Guds Haasæte aa medal vor. Eins Ydrande Syndara Hiarta, Esa. 57. Eins Guds Vesalings Saala, er hañs Himen aa Jordune. Mørg Skwr rigner þadañ ad søñu yfer þeñañ Taarañа Dal, Eñ aller þeir Dropar falla i Guds Siood, Ps. 56. Hañ telur þaa og geimer so sem añad Fwlgu-Fie, Hañ grefur ecke þetta Pund i Jordu, helldur skilar þvi aptur med Yfermaata miklum Avexte, þegar þad verdur uppskored med Glede, sem hier var i Taarunum nidursaad, Ps. 126. Hid Naatturlega Regned kiemur fraa Himnum ofañ, og frioofgar Jordena, so hun ber Avoxt. Taar hiña Andlega Voludu i Heime þessum koma fraa Gude, þau færa hañ Avoxt er safnadur verdur i Bindine Guds Barna, i hiñe stooru Endursædingu sem Lausnareñ uñgietur, Matth. 19. Ef eg leige nockurs Mañs Jord under Bw mitt, þa krefur hañ mig Landskulldar hvort Ar, og þad þess vegna, ad hañ ætlar mig ecke fullvedia, edur maa ecke sialfur missa. Eñ þvi er ecke so vared fyrer hinum stoora Akur-Mañe, Gude Allsheriar, Joh. 15. Eg vil allshugar feigeñ byggia honum Hiarta mitt, laate hañ Ploog Logmaalsins, Ploog Ydranareñar, Ploog Hormungaña gaanga uñ þeñañ Stoorgrytis Akur so sem hañ vill, laate hañ Gudlaus Villu-Dijr Heims þessa spora hañ i sundur og Footum troda, so sem honum Blessudum lijkar, þad er mier fyrer miñstu, þegar eg veit hañ er mier Naadugur, og eg maa alltijd missa so miked sem hañ vill laata mig missa, þvi einkis freistar hañ yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Og þoott mier þykia meige, so sem hañ svare mier ecke hvors Ars Rentu, sem þo ecke er, þa maa eg þo vita, ad hañ er bæde trwr og Fullvedia, og er eg þess fulloruggur ad hañ mune uñ sijder Endurgiallda mier hina liettu Byrde Hormungareñar, sem varer uñ Augnablik, med yfergnæfañlegrar Dijrdar Eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4. Hvorrar niootande ad verda, uñe og veite øllum Guds Børnum hin Haakita Guddoomsins Preñing, Hvorre ad sie Lof og Dijrd, Vellde og Kraptur uñ Allder Allda, A M E N.

## A Nijaars Dag.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

J Þañ

N Þañ Tijma. Epter þad ad Atta Dagar voru lidner, og þad Barned skyllde umskierast, Var hañs Nafn kallad JESUS. Hvad er kallad var af Einglenum, ædur eñ þad hañ var Gieteñ i Moodur Kvide.

## Exordium.

Komed og skoded Verkeñ DRottens segier Skallded, Ps. 66. Hvad Vyrduglegur hañ er i Verkum sijnum vid Mañaña Sonu. Til þessa vil eg eirneñ hafa kvadt ydur, Brædur mijner, a þessum Hætijdes Deige. Hvörneñ Guds Dijrdarfulla Almætte Daasamlega stioornar Arenu oss til Nota; Þad heyrum vier i hinum 74. Psalme, þar David segier: Þiñ er Dagureñ, Þijn er eirneñ Nootteñ, Liooseð og Soolena hefur þu tilbwed, Jardareñar Enda hefur þu afmarkad, Sumar og Vetur hefur þu skapad; Hier yfer lætum vier nærsta lijted, Born mijn. Gud giæfe ei finnduſt þeir ed megla þegar þesse hañs Rædstofun er ecke epter vorum syndugum Vilia. Hvar fyrer? Þvi þad skiedur Daglega, og vier hofum þess Not a hvorre Stundu, og þyker þad Skyllda Guds ad svipta oss ecke þvi hañ Eitt Siñ gaf. Jeg heyre ecke ad Jonas hafe þackad Gude fyrer Lundeñ a medañ hañ stood, Eñ reidur vard hañ þa hañ visnade, Jon. 4. Munde ecke hiñ Blinde verda Allshugar feigeñ, mætte hañ hid Blessada Lioos Soolareñar Augum lijta? Eñ hinum Heilskigna þyker þad lijtels verdt. Hvorsu laangar hañ er Omæder, epter Vatnenu? Þad sie eg a Konungenum Dario, er hañ drack hiñ sætasta Dryck Æfe siñar wr Hest Farenu; Eñ þo ecke sijdur af Epterlijkinguñe, um hiñ Rijka Mañ, er hañ æskte eins Vatns Dropa af Fijngre Lazari, þa hañ vaknade upp i Helvijte og Kvolunum, Luc. 16. Hvorn hañ mun þo lijtels meted hafa, þegar hañ liek sier ad allre Fullsælu Veralldar. Jeg tek hina Almeñeleguſtu Hlute, sem miñst eru af Moñum virdter, til ad syna vort Oþacklæte vid Gud i stadeñ þeirra Hluta, er hañs Millde ollum jafnt veiter; Vondum og Goodum, Rijkum og Fatækum, Stund epter Stund, Dag epter Dag, Ar epter Ar. O miñ Gud! Hvoriu skulum vier þier giallda? Eckert hefur Snaudur fyrer ad giefa. Hvpriu skulum vier svara? Ecke Einu a moote Þusund, Job. 9. Hvad skulum vier af oss giora? Bægt er þangad ad flya, sem Hond þijn næe oss ecke, Ps. 139. Vier villdum ad soñu giefa þier alla oss med Salu og Lijkama, eñ þad er allt þitt, Þu hefur oss þad ædur giefed. Gud næde þad vier hofum teked þijna Limu, og giort þa ad Satans Limum: Lied þa til Verkfæra Ranglætenu, og Syndeñe til Jbwdar, Rom. 6. So vier mættum kvijda þvi, ad hiñ Heilage i Israel munde læta þvilijkum Saurendum wtkasta edur þau i Ellde breña. Eitt hofum vier til Rads epter, sem er Forþienusta þijns Eingietens Sonar, Vier hofum Ohlijduger veret, Dan. 9. Hañ var hlijdugur allt til Daudans, Phil. 2.

Vier høfum Løgmaaled broted, Hañ er komeñ til ad uppfylla Løgmaaled, Matth. 5. Vier erum Oumskorner i Hiortum og Eyrum, Act. 7. Hañ hefur umskieraſt laated, ſo hañ umskiere Iſraels Hiarta og hañs Sæds Hiarta, Devt. 30. Løgmaaled lijſer Bølvan yfer þeim ſem ecke helldur allt þad ſem ſkrifad ſtendur i Løgmaalenu, Devt. 27. Eñ Guds Eingieteñ Sonur hefur Bølvan Løgmaalſins uppaa ſig teked i ſiñe Umskurn, Þvi Paulus ſegier: Ad ſa ſem umskieraſt lætur, hañ ſie Skullduuautur alls Løgmaalſins, Gal. 5. Eñ þo hañ Løgmaaled uppfyllte, þa hefur hañ ſamt Løgmaalſins Bølvan þolad, hañ eirn ſem giørde allt þad i Løgmaalenu ſkrifad er, Hañ einſamall er aa moote Løgmaalenu ad ſiaalfs ſijns Vilia dæeñ. Hañ eirn ſem aatte alla Hlute: Hañ betalade þad hañ rænte ecke, Pſ. 69. Og hañ ſem er Gud Bleſſadur um Allder, Rom. 9. Hañ er ſo ſem oñur Bølvan uppheingdur. Laated þvilijkañ Guddoomſins Kiærleika upprycka ydar Hiortum i Himeneñ um Stundarſaker fraa Jardneſkum Hiegooma, til ad umskieraſt med Chriſto, af hvørs Allra Helguſtu Umskurn, er oſs bodud verdur i þeſſu Evangelio: Vier vilium læra ad umskieraſt i Andlegañ Maata, Eph. 4. Vil eg þvi laata Tal mitt vera þar um i þetta Siñ; Hvørneñ hiñe Andlegu Umskurn haattad ſie. DRotteñ umskier þu Hiortu vor med Sverde Andans; So þetta vel luckeſt, fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

EF þu vardveiter ecke Løgmaaled, þa er þijn Umskurn ordeñ ad Yferhwd, ſegier Paull, Rom. 2. Ad ſoñu talade hañ þad Gydingum til Blygdunar: Eñ þo maa hier af ſiaa, ad hin Ytre Umskurn mune ecke hafa einhlijt vered til Saaluhiaalpar. So ſem þad var nu fyrer Gydingum, ſo er þad og fyrer oſs, Brædur mijner, þvi ecke meigum vier vænta oſs betre Koſta eñ hiner Naatturlegu Kviſterner, Rom. 11. Ecke eru aller þeir full-Chriſtner, ſem opeñberlega eru ſkijrder, helldur þeir ſem fyrer Skijrnena eru med Chriſto greptrader til Daudañs, og lifa i Endurnijungu Lijfſ agaña, Rom. 6. Packer og Lof ſieu eilijfum Gude, ſem fyrer Vatns-Saaeñ i Ordenu hefur Endurgieted oſs i Chriſto til lifande Vonar, 1. Pet. 1. Eñ þar fyrer hefur hañ Endurgieted oſs, ad vier ſkylldum Gude lifa eñ Syndeñe deya. Þar ſkal koma eirn Dagur ſegier DRotteñ fyrer Muñ Jeremiæ Cap. 9. ad eg ſkal heimſækia alla Oumskorna, ſem eru i Umskurneñe. Þar af ræd eg, ad margur mune hafa bored þetta Teikn aa ſijnum Lijkama, ſem ecke hefur haft þeſs mikel Not i ſijnu Hiarta, ecke ſijdur eñ nu. Munu ecke all marger giefaſt þeir, ed hrooſa ſier af Gudhrædſluñe, eñ afneita þo heñar Krapte, 1. Tim. 3. Margur mun ſkijrdur med Vatne og Anda i fyrſtu, ſem illa lijdur ad laata ſig med Chriſto fyrer Holldſins Deydingu umskiera. Aller Heidingiar eru Oumskorner ſegier DRotteñ, Jer. 9. Eñ Iſraels Hws er Oumskored i Hiarta. Þar er ad Ottaſt fyrer, ad Gud hafe eñ nu i Dag Ordſok til ad ſegia: Ad Tyrkiar og Tartarar ſieu Oſkijrder, Eñ marger þeir ed ſig Chriſtna nefna, ſieu Oſkijrder i Anda, edur ecke umskorner þeirre Umskurn, er Paulus um talar, er hañ ſegier: Þier erud umskorner þeirre

Um-

Umſkurn, ſem ecke er med Hondum gior, hvor ad er Umſkurn Chriſti, Col. 2. Pad er Deyding Holldlegra Gyrnda, fyrer Chriſti Dauda, Chriſti Uppriſu og Chriſti Anda. Nu verdur i Skrifteñe ſierdeilis gieted um Andlega Umſkurn a Tveimur Lijkamans Portum. Bæda nefner Stephanus Pijſlar-Vottur Otteñs, Segiande: Pier Hardſvijrader og Oumſkorner i Hiortum og Eyrum, þier mootſtanded jafnañ Heilogum Anda, Act. 7. Hiartad kallar Ritningeñ Mañſins Hugſkot og Krapta Sarlareñar, er þvi fylgia, þad vill Gud lata umſkiera ſier til Ibudar. Af Hiartanu wtgaanga vondar Huxaner, Mañdrap, Hoordoomur, Frillulijfe, Pioofnadur, Lingvitne Laſt-Mælge, Matth. 15. Petta Illyrme ber ad wthreinſa wr Hiartanu, ef Gud ſkal þar iñe bwa ſyrer H. Anda. Synder og Glæper eru Dioſulſins Fooſtur, hvor hañ gieted hefur vid ſpilltre Mañſins Natturu, fyrer Samþycke Vilians, Eñ hvorſu ma Guds Eingieteñ Sonur, ſem er Lioome hañs Dijrdar og Jmynd hañs Guddoomlegrar Perſoonu, Ebr. 1. eiga Sess vid Dioſulſins Dætur? Hañ hefur Trwloſad ſier hreina Brwde, þa ed hvorke Fleck nie Hruckn hefde, Eph. 5. Pvi er ei Von ad hañ vilie i ſama Herberge lijda þeſſar Helvijtis Ambatter. Rek wt Ambattena med heñar Syne, þvi Sonur Ambattareñar ſkal ecke erſa med Syne hiñar Friaalſu ſegier Ritningeñ, Gal. 4. Syner Ambattareñar eru Holldſins Verk, þau byriar wt ad reka i Eydemorku, aſamt Moodureñe, eda ad miñſta Koſte, ad temia hana, ſo ad Agar drottne ecke yfer Sara, nie Iſmael offæke Iſaac, Gen. 21. Ef þijn Hond eda þiñ Footur hneixlar þig ſegier JEſus, Matth. 18. þa ſnijd hañ burt og ſnara honum fra þier, Pad heiter ad umſkieraſt i Andlegañ Mata. Ecke hefur Gud Pocknan a þvi ad nockur meide edur hamle Lijkama ſiñ, eins og Baals Preſtar, 1 Reg. 18. Og þoott hañ hefde, þa være ſa Footur edur Hond betur af-hoggveñ, ſem ætlar ad draga Mañeñ til Helvijtis, betra er þau rotne hier a Jordunñe, eñ ſvijde eilijflega i Helvijte. Eñ þeß þarf ei vid þar er Sverd Andans, Hebr. 4. ſem af ſnijdur ſo ecke a ſier, Pad giorer Svida um Hrijd, eñ þad bæter eilijflega, Pad verkar Hrygd um Stundarſaker, eñ epterá gieſur þad Fridſamlegañ Avoxt Riettlæteſins, Hebr. 12. Pier gieted ecke under eins drucked Chriſti Kaleik og Dioſulſins, ſegier Paall, 1. Cor. 10. Heſde Guds Heilagleike gietad lided Andſkotans Saurende, munde hañ ecke hafa vered wtſnaradur af Himne; Gud villde ecke lijda Satans Nalægd i Himnarijke, eige helldur i ſijnu Rijke hier a Jordunñe, ſem er i Guds Barna Hiortum. Guds Rijke er iñe hia ydur, ſegier Frelſareñ, Luc. 17. Eñ hvor hañ Syndeñe þioonar, þad er, hvor hana lætur drottna i ſijnum Lijkama, hañ hefur giorſt Andſkotans Madur, eñ rænded Þegn undañ Gude. Pvi ſegier Paulus, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hvorium þier liaaeſt i Prældoom til Hlijdnis, Peſs Prælar erud þier er þier hlijded, hvort helldur Syndeñe til Dauda, edur Hlijdneñe til Riettlætis? Laated ei villa ydur; Eg vil þioona Gude i Verkunum, eñ hvad mier flijgur i Skap, ſæ eg ei vidgiort. Pad er ad vijſu ſatt, Fuglarner verda ad ſoñu ad fliwga yfer Hoſuded, þad er lægt ad baña,

eñ ecke þurfa þeir sad hreidra sig i Haarenu. Eg vil þioona Gude i Verkunum segier þu: Hvad þa? Ætlar þu ad þioona Syndeñe i Hiartanu? Siaa þa til ad þu faaer ei sama Vitnisburd og Phariſæi, ad hid Ytra siertu fagur, eins og Daudra Maña Grafer, eñ Jñvortis fullur med allskonar Oþeckt, Matth. 23. Þegar Hiartad er gott, þa er meire Von aa ad allt sie gott, þvi Gud aalijtur Hiartad, 1. Sam. 16. Goodur Madur af goodum Fiesiood sijns Hiarta, fram ber Gott, segier Hiartnaña Rañsakare, Matth. 12. Eingeñ kañ ad segia: Mitt Hiarta er hreint, Eg em klaar af Syndeñe, Prov. 20. Hitt kañ eg af Alvoru ad giora, ad bidia Gud ad skapa i mier hreint Hiarta, Ps. 51. Hvad ef ecke tekst ad ollu Leite vegna þeirrar Syndar sem i mier bijr, Rom. 7 þa tekst þad fyrer JEsu Blood, sem hreinsar mig af ollum Syndum, 1. Joh. 1. Þvi hañ er komeñ til ad kalla Synduga eñ ecke Riettlaata til Yranar, Matth. 9.

Eg hafde nærre þvi sagt, Ad Davids Synder hefde betre vered eñ Pariſæaña Riettlæte. David drijgde ecke Syndena med þvi Hiartalage, ad hun skyllde Velgiord heita, helldur af Mañlegum Veikleika; Eñ allt Phariſæaña Riettlæte, var ecke nema Synd, Þvi Goodverk þeirra framkomu ecke af Hiarta, helldur til þess ad byrtast fyrer Moñum, Matth. 6. Og þo villdu þeir þad skyllde fyrer Gude Gillda. Sa Gud sem lætur þeim alla Hlute þiena til Gooda, er hañ elska, Rom. 8. Hañ liet Davids Synd honum fyrer Bestu verda, 2. Sam. 12. Eñ Pharſæaña Riettlæte snerest þeim jafnañ i Synd, so sem allt þad, er ecke framkiemur af Trwñe, Rom. 14. aan hvorrar Omoguleg er Gude ad þocknast, Hebr. 11. Eingeñ segier oss beur eñ Moyses hvorneñ Mañsins Hiarta umskored verdur, Devt. 30. DRotteñ muñ umskiera þitt Hiarta, so ad þu elsker DRotteñ Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe, ad þu lifer. Elskañ til Guds, er þad Verkfære, sem best afsnijdur Synder og Leste. Hiñ Agiarne vikur alla Hlute fyrer Rijkdoom. Hvad sparar sa Heiptræke til þess, ad hañ faae sijnum Ovin fyrerkomed? Lijtels hefur margur Daudañ aktad fyrer Metorda Saker, og þvi skyllde þa ecke Gud vera so sterkur i þeim er hañ elska, so sem Andskoteñ i Bornum Vantrwareñar, Eph. 2. Sa sem elskar Vin siñ, hañ kostar Kapps um, ad giora sem mest epter Giede hañs. Aller Hluter eru samelgeñleger Vina aa millum, ef þad er Falslaus Elska. Elskañ samteinger alla Hlute, so ad Skynlauser og jafnvel dauder Hluter teingiast sijn aa mille, þess vegna, ad hvors Naattura aa vid añañ. Ef þetta Elskuñar Logmaal, er nu so rijkt i Naatturu Hlutaña, þvi skyllde þad ecke hvorium Mun framar aa millum Guds og Mañsins, sem epter hañs Mynd er skapadur? Eingeñ Efe er aa þvi, ad sa sem fyrst være komeñ i fullkomeñ Kiærleika vid Gud, hañ telde ongvañ Hlut epter sier ad giora hañs vegna, hañ giafe sig og allt sitt alleina Gude, so hañ mætte hañ eirn aaviña, og hañ yrde eitt med honum, og allt hvad Gud bijdur, og odrum virdest þwngt ad vera, þad yrde honum sæt Byrde, og þvi segier Pall, Rom. 13. Ad sa sem elskar, hafe Logmaaled uppfyllt. Gud er Kiærleikureñ segier Johañes, 1. Pist. 4. Cap. Og sa sem er i Kiærleikanum, hañ er

er i Gude og Gud i honum. O HErra Gud! Hvilijkt er þetta? Hvornen̄ maa sa skora sig undan̄ nockrum Hlut, ad þola Guds vegna, i hvorium Gud bijr? Kan̄ sa um̄ Æfe illa ad fara sem er i Gude? Fellur han̄ i Synd nockra, þa er Guds styrkve Armleggur nalægur ad reisa han̄, Ps. 145. Ef han̄s Hiarta fordæmer han̄, þa er Gud Mattugre han̄s Hiarta, 1. Joh. 3. Ef Vondskufull Heimsins Epterdæme ætla ad villa han̄, þa er ei Guds Fijngur honum fiarlægur til ad benda honum aa hin̄ riettta Veg: Og ef Satan fer aa Hendur einum med Her Freistingan̄a, Þa hefur han̄ þan̄ ad Vistum med sier, Sem ad er Trwr, og aungvan̄ lætur freistast yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Þvi aulikta eg so, Ad eckert sie kroptugra, Eckert augiætara og eckert heilnæmara Medal til ad um̄skiera Man̄sins Hiarta, En̄ Elskan̄ til þess eilijfa Gooda, Sem er hin̄ Lifande Gud. Eg gat og þess fyrer skomu, Brædur mijner, ad Men̄ ættu sijn Eyru i Andlegan̄ Maata ad um̄skiera. Eyrun eru Dyr Hiartans, J giegnum hvor margt geingur, Bæde Jllt og Gott, Sæll er saa sem þessu fast helldur, En̄ wtskwfar hinu. Paulus varar oss vid, Ad eingen̄ fwl Ræda wtgaange af Mun̄e vorum, Eph. 4. Hun aa ecke helldur ad gaunga in̄ um̄ Eyrun̄. Þad er Gomul Assokun þeirra sem tamt er ad heyra Lijte og Skam̄er um̄ sin̄ Naunga: Eg giet ei bygt fyrer Eyru mier, En̄ kan̄skie færre mundu illa tala, Nema þig fijste ad heyra. Eg vil vera fautaladur hier um̄, þvi baugt mun vera ad temia Mun̄ hin̄ar prettvijsu Kynsloodar, er Hoggorma Eitur fool ged hefur under Tungurootum sier, Hvar hin̄ gamle Dreke, Er kallast Diofull og Andskote, Apoc. 12. Hefur sier Hreidur bwed, Og lagt þar Eggium þeim, wr hvorium um̄ sijder mun kvikna saa Ormur er alldrei deyr, Esa. 66. Nema Tungan̄ audur um̄skoren̄ verde. Alleina vil eg tala um̄ þad fyrer Guds Bornum, Hvort ad sie hid hellsta Medal til ad um̄skiera Eyrun i Andlegan̄ Maata, Þad er Guds lifanda Ord, Sem er haarhvast Sverd, wtgaangande af han̄s Mun̄e, sem ad skrijddur er Bloodlitudu Klæde, Konungur Konungan̄a og DRotten̄ Drottnan̄a, Apoc. 19. David kallar þad Lysteligan̄ Gras-Haga, Ps. 23. En̄ Gud naade, Hvad tregt er Mon̄um þo þaungad komed? Paulus nefner þad Krapt Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. En̄ þar er ad Ottast fyrer, ad þad verde hinum Vantrwudu, Guds Kraptur til Fordæmingar, Þvi Enduurlausnaren̄ segier, Joh. 12. Þad Orded sem eg tala, mun fordæma þaa, Og san̄ast hier ecke sijdst, ad þad er eins og Tvijeggiad Sverd, er skier aa baadar Sijdur, Þa ed hiaalpast til Ydrunar, Hina til eilijfrar Refsingar. Matur er Man̄sins Meigen̄, Segium vier, En̄ hvad er Saalen̄ ef hun misser Guds Ord? Eins og St. Paull talar um̄ Eckiuna þa ed i Gyrndum lifer, Hun er lifande daud, 1. Tim. 5. Frilla Diofulsins er hun og Helvijtes Elldsneyte. Hvad velldur nu þessum Leida, Born mijn? Þad sama er eg talade i Ondverdu um̄ hinar Almen̄elegu Guds Stra̋ffur, Af þvi Guds Ord er so nægt i Heimenum nu orded, Þa vegnar þvi eins og Elementunum, Ad þad er foraktad. Eg sie, A medan̄ Men̄erner urdu ad fara med Christne Boded i giegnum Hwdstrokur og Krossfestingar, Þegar Paulus var

Haalshoggveñ, Petur Krossfestur, Jacobus med Bein Brote Lijflaateñ, Laurentius steiktur aa Rist, þa urdu þeir glader ad þeir maattu lijda nockud fyrer JEsu Nafns Skulld, Þa vard Guds Ord Moñum sætara eñ Hunaang og Hunaangs Seimur, Ps. 119. Þa fanst margur saa er keypte þa dijrmætu Perluna, Sem Endurlausnareñ talar um̄, Matth. 13. Fyrer alla Aleigu sijna. Eñ nu þyker þvi ollu illa vared sem Gude er giefed. Þu villt kañskie segia, Þa være Raad ad giefa upp ad Predika Christum um̄ Hrijd, Og munde Meñ þa epter honum laanga eins og aa Fyrre Dogunum; Eg villde ad eg giæte Oriett til sumra Maña Þaanka, Eñ þvi er verr, ad eg hygg ad nockrer muñe fiñast þeir ed giarna mundu hafa Um̄skipte aa Svijnunum og Christo, med Gergesenis, Matth. 8. Þvi heyrt hafa Meñ Skrijtne þeirra er laata sier um̄ Muñ fara, ad eige sie þeim Matur i Messuñe. Þu talar vel, Være Guds Ord i burtu teked, þa mundu Meñ leita þess med Angist: Munde þad og ecke gott Raad, ad Gud tæke Soolena af Himnenum um̄ nockra Daga, So feinge Meñ Vit aa, ad þacka Gude fyrer heñar Gagnseme? Þad maa eige segier þu, Þvi þa mundu aller Meñ utaf deyia, og eingeñ lifde til ad giora Gude Þacker, Þar David segier, Ps. 6. Þeir þacka ecke Gude, sem i Grofena eru ofañfarner. Jeg jaata þad satt ad vera; Eñ munder þu leinge lifa i Gude, Ef hañs Ord væru i burt tekeñ? Eige hygg eg þad, Þvi Frelsareñ segier, þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Hvar fyrer? Af þvi ad Saaleñ hefur eckert Lijf fyrer utañ þau. Eñ truu mier til, ad þu sem snerer Bakenu vid Guds Myskunar Fadme aa medañ þu maatter nioota hañs Orda, Þu munder verda illur Apturhvarfs til ad leita hañs, Þa hañ er ecke leingur ad fiña. Þu segier: Sooleñ maa eige burtu hverfa, So Meñerner mættu lifa; Eñ ef þu mætter sofa aa medañ, Þa hygg eg þad litlu skipta. So þyke þier og nu sem i Syndunum sefur aa ongu rijda, Þott Sool Riettlætesins burtu lijde og ætte alldrei apturkvæmt, Eñ þad munde añad heita, Þa þu uppvaknar i Sal Myrkraña, Hvar þeir ellda Saalum Ogudlegra Maña. Þeck þvi Giæsku Guds, Aumur Madur, Og kañast þar vid, Ad eins og hañ lætur hid fagra Lioos Heimsins reña upp yfer Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Til þess ad Mañkyned meige lifa, Jafnvel þoott sumer þar eckert i þyggia vilie, So vill hañ eirneñ ad hin fagra Byrte Evangelii, sem er Lioos aa Vegum vorum, Ps. 119. Skijne i Christelegre Kyrkiu, þott þad verde af morgum forsmaad, uppaa þad ad ongvum tape hañ af þeim hañ aadur þeckte. Og þesse er Orsokeñ, Hvar fyrer hañ ecke sender Hungur siña Orda i Landed, Amos. 8. Ord Christi buue rijkuglega aa medal ydar, ad þier kieñed med allre Vitsku, og aamiñed sialfa ydur med Andlegum Dicktum, Psalmum og Kvædum, Sijngiande DRottne i ydar Hiortum, segier Paall, Col. 3. Þesse var Iþrott hiña Fyrstu Christeña Maña, i Stad eñ hvors ad Diofulleñ hefur iñfært i Heimeñ, Brixle, Haad, Kieskne, Skamarleg Ord og fiblslegt Hial, Sem Christnum soomer ecke, Eph. 5.

So er eg hræddur um̄, Brædur mijner, Ad ef St. Paall mætte lijta upp af Grof siñe, og siaa sig um̄ i heñe, sem nu Christne nefnest, Þa munde hañ ecke vijda fiña JEsu

Christi

Christi Trygda-Pant, Eph. 1. Sem hañ hefur heñe epterlaated, og kallast H. Ande, og hañ munde snarara heckia hana fyrer Andskotans Frillu, Helldur eñ Brwde hiñs Krossfesta. Edur hvar fiña Meñ nu þad, sem hañ vottar um sig og sijna Samchristna? 1. Cor. 4. Pegar oss er formællt, Pa blessum vier, Pegar vier Offsookter erum, lijdum vier þad. Laangt mun vera ad leita epter Dæmie Stephani, Act. 7. Og Jacobs Postula, Hvorier ed belddu fyrer þeim, er þa Afstooku. Mig ugger og, ef Jacob mætte hverfa aptur i Heimeñ, Pa munde hañ kalla sumra Christeñdoom Diofla Trw, Pvi so segier hañ i sijns Pistils Cap. 2. Pu trwer ad Gud sie Eirn, þvi trwa og Dioflarner og skielfast þar af. Og Gud giæfe þar finndust ei þeir, Sem ad nockru Leite eru verre eñ Dioflarner, Peir giora ecke epter þeirra Trw, Pvi þeir hafa ecke Von Fyrergiefningareñar, Par þeir eru wtrekner fraa Asioonu Guds eilijflega, og med Myrkraña Hleckium fiotrader, 2. Pet. 2. Eñ þoott Gud wtbreide baadar Hendur, Esa. 65. Poott hañ hroope, Pu hefur drygt Hooraner med morgum Eiskuga, Kom samt aptur til mijn segier DRotteñ Gud, Jer. 3. Poott hañ laate Dogum optar heyra: Eg vil ecke Syndugs Mañs Dauda, Helldur ad hañ snwe sier og life, Ezech. 33. Pott hañ laate Almeñelega wtberast: Pvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar Illsku-Breitne fraa Auglite mijnu, Komed sijdañ og eigunst Log vid. Poott ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær Sniooþvijtar verda, Og þo þær sieu eins og Purpureraudar, skulu þær verda hvijtar sem Ull, Esa. 1. Poott vier meigum so tijtt heyra, ad þegar hiñ Ogudlege snijr sier fraa ollum sijnum Syndum, Er hañ giort hefur, og vardveiter Guds Bodord, og giorer Doomeñ og Riettvijsena, Pa skule hañ lifa og ecke deyia, Ezech. 18. Allra hañs Misgiorda skule ecke miñst verda, Samt lætur ecke Illvirkeñ af, og Foolked snijr sier ecke til hañs, er þad typtar, Jer. 8. So þad maa satt jaata, Er David talar um hiñ Ogudlega, Ps. 14. Ad hañ segie i Hiarta sijnu Par er eingeñ Gud. Pvi hræddust Meñ, ad Gude mislijkade Ogudlegt Athæfe, Pa munde ecke so mikill Offe, Raanglæte, Hardydge, Lygar, Bakmælge, Roogur, Agg, Reide, Prætu, Agyrne, Pioofnadur, Og allra handa Andskotans Pioonusta drottna so freklega i Heimenum, ad jafnvel sumt af þessu være fyrer Dygder halldeð. Hvad mun nu þessu vallda, Born mijn? Añad eñ þad, Ad Meñ tilbyrgia Eyruñ fyrer H. Guds Orde. Paulus kallar Ord Guds Sverd Andans, Eph. 6. Pad er saa beitte Knijfur, med hvorium vor Eyru eiga ad umskierast, Eñ þesse Beneñ svijda miog so hinum gamla Adam, og þoott hañ meige þau aa Stundum þola, Pa hafast þau so illa, ad þar svellur um til eilijfs Dauda. Hañ hallar sier aptur aa Kodda Syndaña, Til ad samañhrwga sier Lærendum, epter þvi sem Eyrun klæia, 2. Tim. 4. Hañ er eins og Zippora var fordum, Er hun maatte Naudug umskiera siñ Son, Exod. 4. Pegar Moyses kiemur med Knijfeñ, Pa kalla Meñ hañ Blood-Brwdguma, edur Bloodgijrugañ Mañ, giætande ecke ad þvi, ad Gud er wtfareñ i Bræde siñe til ad deyda, Ef ecke er vid giort. Gud baud sijnu Foolke, Exod. 21. Ad aa Siøunda hvoriu Are, skylldu þeir hallda eitt Hvijldar.

dar-Ar, Og a medal añara Bodorda sette hañ, ad a þvi Are skyllde Anaudugu Foolke Lausn giefast, Eñ sa er ei villde Frelse þyggia, Hañ matte hañs Herra taka, og setia Al i giegnum Eyru honum, og festa vid Dyr edur Dyrustaf, og skyllde hañ vera hañs Præll upp þadañ Æfeñlega. Exod. 21. Ecke einasta a hvoriu Siounda Are, helldur a hvoriumi Siounda Dege eigum vier þañ Kost, ad leysast af Andskotans og Syndareñar Prældoome, Þvi þad er Meining alls Evangelii, sem oss predikad er, ad vier sieum frialser vid Syndena, Ecke til þess ad lifa i heñe, helldur ordner Gude Handgeingner, Til þess ad deya fra Syndunum, So sem Paall segier, Rom. 6. Þier erud frelster af Syndeñe, Ordner Þioonar Riettlætesins. Eñ ef nockur vill ei Lausn þyggia og lætur sig festa a Eyrunum vid Port Helviitaña, Andskotanum til eilijfs Prældooms, Þa er audsiert, ad hañs Siidara verdur argara hinu Fyrra, 2. Pet. 2. O HErra Gud, mier kiemur i Hug, hvorneñ Guds Eingieteñ Sonur vijkur þessare Logmaals-Grein til sijn, Ps. 40. Er hañ segier til sijns Himneska Fodurs. Offur og Foornfæringar villder þu ecke, Eñ Eyru mijn hefur þu i giegnum stwnged, Teiknande med þessare Prældooms Mynd hina allra herfeleguſtu Anaud, er hañ þolde fyrer Præl Syndareñar, Þar hañ, sem allt Valld er giefed, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Kom i Heimeñ, ecke til ad laata sier þioona, Helldur ad hañ odrum þioonade, Matth. 20. Þar hañ hafde verre Kior eñ Hræ-Kvikinde Jardareñar, og Fuglarner under Himnenum, Matth. 8. Hvor þo ecke lætur eiñ Titling a Jordu detta añ sijns Vilia, Matth. 10. Þar hañ fieck eckert Rwm i Giesta-Herbergenu, Luc. 2. sem uppfyller bæde Himen og Jord, þar hañ vard Maña-Þurfe, Sem uppfyller alla vora Naudþurft epter Rijkdoome siñar Dijrdar, Phil. 4. Og hañ bar siñ Kross, sem ad ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Þetta giorde hañ segier Paall, Þegar hañ matte vel Sælu hafa: Og þo vill Syndareñ ecke lia honum Eyru sijn til þess, ad hañ meige eilijflega med honum rijkia, Eñ a þo añars Vegar ongvañ añañ Kost, nema pijnast eilijflega. Gud nade þad, ad vier erum ecke Olijkt a oss komner, og Cicero skrifar um Catadupos, Hvorier ad bwa vid Fossana i Añe Nilo, Þad þeir heyre verr eñ adrer Meñ. So giorer Nidur Verslldar þessarar oss dausa, So vier gietum ecke giætt ad DRotteñs Raustu. Johañes segier i hañs Openberan Cap. 1. Ad Rodd Mañsins Sonar er til hañs talade, hafe vered so sem Lwdurs-Hlioomur. Næsta fagurt ma Gledskapur Veralldareñar laata i Eyrum syndugra Maña, ad vier faaum ecke fyrer honum adgiætt Raustu Brwdgumans er hañ so hatt kallar: Hvad svelldur þessu? Þvi Eyrun eru so tom a hitt, ad Meñ heckia ecke hvort fra odru. Mijner Sauder þeckia mijna Raust, segier hiñ goode Hyrder, Joh. 10. Hvad vill hier a epterfylgia, Born mijn? Þeir sem ecke þeckia hañs Roddu, Þeir eru ecke hañs Sauder. Hvad mun fyrer þeim liggia? Hvad vill Doomareñ segia a hinum mikla og stranga Deige? Ecke þecke eg ydur, Fared fra mier aller Illgiorda-Meñ, Matth. 7. Þa mun Saudunum skipad verda a Hægre Hlid, Eñ Hofrunum a hina Vinstre, Matth. 25. Aller vilia ad soñu i Sauda-Flocknum

num vera, Eñ þeir sem ecke villdu þeckia Hyrdersins Raust i Nꜳdeñe, Þeir munu verda med Hofrunum Ark ad taka i Kvoleñe. Hvor sem elskar mig og vardvelter mijn Ord, Til hañs mun eg koma og miñ Fader, og Vistar-Veru hiꜳ honum giora, segier Endur lausnareñ, Joh. 14. Hvad ꜳgiæt ad sie þesse Sambwd, veit eingeñ neina sꜳ ed smackad hefur, hvad sætur ad Gud er. Eñ hvar eiga Meñ ad fꜳ þeñañ Smeck nema i hañs Orde? Þar verdur JEsus Christus framreiddur til Andlegrar Nautnar, um hvoria hañ siꜳlfur þañ Veg talar, Joh. 6. Hver sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, Hañ skal ecke Daudañ smacka ad eilijfu. Lwked þvi upp Dyrum ydar Eyrna Guds Elskuleg Born, So Konungur Dijdareñar meige iñgꜳnga i ydar Hiarta, Ps. 24. Lated þær ecke læstar honum, So hañ læse ecke aptur fyrer ydur Himnenum, Dreped ei Hende ꜳ moote frambodeñe Nꜳd, og bægest ecke til Vandræda vid hañ, sem ydur elskade ad fyrra Bragde. Hañ hefur sitt Lijf i Daudañ giefed til þess, ad þier fꜳ kyñud hañs Gledelega Raust ad heyra, þvi eingeñ hefur um Alldur Gud sienañ, Sa Eingietne Sonur Fodursins hefur oss þad Opeñberad, Joh. 1. O hvad Vitstola er þa Mañeskiañ, Sem tredur þañ Dijrgrip under Footum, Er wtvegadur er med Guds eigeñ Bloode. Þeinked til þess, ad hañ lꜳngade epter ad liida Helvijtis Pijsler ydar vegna, Lated ydur eirneñ lꜳnga epter honum, so þier kuñed þær somu ad umflija, Eñ eilijflega med honum lifa. O þu eilijfa Ord Fodursins HErra JEsu Christe, Þu sem ert Sætare eñ Hunꜳng, Frijdare eñ Sooleñ, Gledelegre eñ Einglaña Sꜳungur, ahrær þu vor doseñ Eyru, Upplwk voru Hiarta, Endùrnija vorn Anda, So oss leidest um sijder Endeme þessa vonda Heims, Eñ giore swsa ad reña epter þier; Þu eilijfa Glede, Lꜳt þijn Fagnadarrijku Ord vera Epterlæte Sꜳlna vorra, so ad vier hofum vora Lysting i Logmꜳle þijnu Dag og Noott, Ps. 1. Og þegar vor Augu siꜳ ecke leingur, Vor Eyru heyra ecke leingur, Og vor Tunga gietur ecke talad leingur, ad vier þa verduger ꜳ lyckast mættum hiñ fagra Sꜳung, Heilagur, Heilagur, Heilagur Ertu DRotteñ Gud Zebaoth, Esa. 6. Eilijflega ad heyra i þijnu Rijke, Hvar eingeñ Noott er, Apoc. 22. Og eingeñ Umskipte Lioossens og Myrkursins; Þad Bænheyre Gud Fader Myskunsemdaña, fyrer hid Dijrmæta Blood sijns Eingietens Sonar, og sende oss þar til Nꜳd sijns Anda, AMEN.

## Suñudageñ mille Attadags og Prettanda.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

DOG er Herodes sꜳ þad, ad hañ var gabbadur af Vitringunum, vard hañ reidur, og sende wt, og liet drepa oll Sveinborn til Bethlehem, og ollum heñar Endemorkum, Tvævetur og þadañ af Yngre, epter þeim Tijma, sem hañ hafde wtspurt af Vitringunum. Þa uppfylltest hvad sagt er fy-

er Jeremiam Spamann, sem segier: A Hædum hefur heyrst Kall, mikillrar Kveinunar, Ops og Ylbrunar, Rachel æpte Sonu sijna, og villde ecke huggast læta; Pviad pad var med þeim wte.

## Exordium.

Neidest enn Syndged ecke segier Paulus, Eph. 4. Læted eige Soolena undergaanga ydar Reide. Mun nockud Postulenn giefa Mønnum Leife til ad reidast med þessum Ordum? Edur er þar nockur Riettferdug Reide til? Pvi mæ ei neita ad þad sie riett, ad hata þaa sem Gud hata og hanns Riettinde; So segiest David hata Samkundu hinna Illgiørnu, Ps. 26. Og Ps. 139. Segier hann enn aptur: Mun eg ei hata þaa DRotten, er þig hata, og hafa Leida a þeim er reisa sig upp a moote þier? Med fullu Hatre hata eg þaa, og þeir eru ordner mier ad Ovinum. Pa syner Madurenn ad hann elske Gud af Alvoru, ef hann giarnann stendur af sijnum Riette, enn þycker Guds vegna; Og þad er ad vijsu sw Reide er fylgia a hvorium Christnum Manne, Enn þo eirna mest þeim sem yfer adra eru i Guds Stad setter. Ritningenn giefur Moysi þann Vitnisburd, ad hann hafe vered hinn Polennmoodaste Madur a Jordunne, Num. 12. Og eige sinnst þad ad honum hafe runned i Skap, þoott Israels Born so optlega settu sig upp i moote honum. Miklu helldur beidde hann Gud fyrer þeim nær þeir hofdu syndgast, Jaa, hann villde hafa misst sijna Velferd fyrer þeirra, Er hann sagde vid Gud, Exod. 32. Munt þu fyrergiefa þeim sijna Synd? Annars drag mitt Nafn wt wr þeirre Book er þu skrifad hefur; Og er þad þo alkunnugt, hvorsu ækaflega hann reiddest, er hann kom ofann af Fiallenu, og sæ Afgudadijrkun Foolksins. Vidlijkt er Dæme St. Paals, Er hann æskte sier ad vera wtrekenn fraa Christo fyrer Brædur sijna epter Holldenu, Rom. 9. Og er þo kunnugt af Giørninga Book Postulanna, hvorsu hann vandlætte vegna Guds umm þaa somu. So og eru kunnug Dæme Phineæ, Num. 25. Samuels, 1. Sam. 15. Jonathans, 1. Sam. 14. Davids, 1. Sam. 17. Ezechiæ Konungs, 2. Reg. 18. Nehemiæ, Nehem. 13. Og annara Guds Manna, sem hafa teked sier þad nærre, er þeir hafa heyrt edur sied Gud Dijrdarennar Vanvirdtann af nockrum, Hanns Heilaga Nafn lastad, edur hanns Bodord under Footum trodenn; Og er Gude valla nockur Hlutur þægare, sem audrauded er af þeirra Straffe, sem i þvilijku hafa Toomlæter vered, ad þeir hafa mætt bera þeirra Synder, er þeir hafa sied i gegnum Fijngur vid, so sem lioost er af Dæme Eli Kiennemanns, er hann stie framm yfer Glæpe Sona sinna, 1. Sam. 3. Sauls Konungs, er hann þyrmde Amalechita Konunge, 1. Sam. 15. Og Achabs, þa hann vægde Koningenum af Syria, 1. Reg. 20. Nu þoott ad þessu sie so vared, þa hygg eg ad eige sie Postulans Meining i þessu, ad hann epterlæte Mannenum ad reidast, edur tale umm þess hattar Reide er eg Samstundis umgat, Pvi hann bijdur i þessum Ordum: Ad Soolenn eige skule undergaanga Mannsins Reide, Hvad so er ad skilia, ad Madur ei skule erfa lengur enn til Kvølds

ollds þad honum er æ moote giort. En Gudlegt Vandlæte og Hatur æ Lostum og Oddygdum æ alldrei vid ofs ad skilia; Þvi meinar Postulen hier, ad Men skule temia Reidena, þoott hun kune ad fliwga i Mansins Hiarta, og hvorke lata hana næ so mikelle Yfer-Hond, ad hun framkome i Orde nie Verke, og en þa sijdur ale Foolskuna i Hiartanu, so hun verde ad Hatre; Hvad þvi velldur ad Maneskian verdur Ulfur af Mane, Þræll Syndarenar af Christi Læresveine, og Diofulsens Barn af Guds Barne. Dæme uppæ þess hættar Reide hofum vier æ hinum grima Herode i upplesnu Evangelio, wt af hvoriu vier Hugleida viliumi þetta Sin. 1. Hvad Skadlegur og Dærlegur Lostur ad Reiden sie. 2. Hvornen vier eigum ad stilla hana.

Hin Goode Gud virdest Naadarsamlega ad framkvæma þetta Eyrende hiæ ofs, med Adstod sijns H. Anda i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingen.

EG Er Herodes Sæ Ad Han Var Gabbadur Af Vitringunum, Vard Han Reidur, Segier Texten. Hvor var hin fyrsta Ordsok til hans Reide? Pad var Metorda Gyrnden. Strax sem han fieck ad heyra af Kienemana Hofdingiunum og Skr.fftlærdum Lijdsins, hvar Christur munde fædast, skaut Diofullen honum i Briost ad Lijflaata þad Nijfædda Konungs Efne JEsum, Pad syner ofs Samtal hans vid Vitringana, og so Avijsan sw, er þeir feingu af Guds Alfu i Svefne, ad hverfa aptur til Baka i sitt Fodur-Land um anan Veg. Meiningen var sw, ad han kyne ad stadfesta sin Tignar-Stool og sina Nidia epter sig. Hvornen Metorda Gyrnden sie i Fyrstu til komen, er audsært af Falle Satans, og Falle vorra Fyrstu Forelldra, af hvorium oll Olucka er inruned til allra Mana, og æ medal anara Reiden. Og fyrst Moodur en hefur giort ofs Adams Nidium so stoorast Skada, þa er audvitad, ad Doottureni er hene lijk, nema verre sie. Hvor er sw Olucka i Heimenum, er Reiden ecke af Stad kome? Hun er Verkfære allra Lasta og Odygda. Hun er eins og ein Prota, sem lifer epter hvors Mans Villd, So þioonar Reiden ollum Skomum, þegar æ þarf ad hallda. Hvor drap Abel, þegar Cain ofundade han? Gen. 4. Hvor kveikte Ellden i Balachs Nosum, er han villde mootstanda Guds Foolke? Num. 24. Hvor kom Eliab til ad atyrda sin Broodur David, er han forsmaade han? 1. Sam. 17. Hvor rak Saul til ad offækia sin Doottur-Maag, 1. Sam. 19. og ad drepa Kienemenena i Nobe? 1. Sam. 22. Hvor framkvæmde Achabs vondan Asetning? 1. Reg. 21. Hvad brwkade Haman til ad svala Drambsemene med? Est. 3. Hvornen fieck Joab Metordum sijnum halldcd? 2. Sam. 3. og 10. Nema med Reidene? Og var þad honum þo ecke nema Stundar-Fridur: Ollu þessu kom Reiden af Stad, og er hun so eirn almenelegur Bodull allra Skama og Odygda. Eg veit ad bæde Aristoteles og Cicero skrifa, ad hun sie Brijne Hugprijdenar, og ad eingen vine nockurt Stoorvirke, nema reidur sie: Pad gietur vall'a satt vered, og eige kiemur þad saman vid sialfa þa, er þeir segia ad Hugprijden skule vera æ Skrusemene grundvollud. En sa sem reidur er,

 han

hañ er Vitlaus, og þvi segier Horatius, ad hun sie nockurskonar stutt Æde, Teiknande þar med, ad eingeñ sie Munur þess, sem reidur og hiñs sem Vitstola er, nema ad Reideñ varer skiemur, Æded leingur: Og eru þo Dæme til þess, ad sumer hafa bwed so leinge ad Heipteñe, ad þeir alldrei hafa orded Heilvita aptur. Heipteñ er eitt Andskotans Reidar-Slag, Gen. 4. Hun afmyndar alla Mañsins Lime og Lide, hun kveiker Baal i Augunum, hun hleiper Bloode i Nasernar, Boolgu i Kiñarnar, Æde og Stioornleyse i Tunguna, Deyfu fyrer Eyrun, hun lætur Mañeñ gnijsta med Toñunum, sliwga med Houdunum, æda med Footunum, hun skiekur og hrister allañ Lijkamañ, og aflagar, so sem þegar Hafid er uppblaased af Stoorvidre. Og i einu Orde ad segia: Hun giorer Mañeñ ad Ofreskiu og ad Holldgietnum Diofle i Augum þeirra sem Heilvita eru, og ef hun so af skræmer Asynd Mañsins fyrer odrum Moñum; hvorneñ mun hun þa ecke afmynda Saalena i Guds Auglite? Segied mier, Hvilijkur Diofull mun þar iñe bwa, sem Alit Mañsins verdur hid Ytra so afskræmt? Hvilijkur Elldur mun vera i þvi Hiarta, er hañ lyster sig hañeñ wt i hvorn eirn Lid og Lim? Pad er ollum liooft, ad eckert styrker og efler Sambwd Mañaña i Heimenum, meir eñ Kiærleikureñ, þvi hañ er Band Fridarens, Eph. 4. Hañ bindur samañ Hiortu Mañaña, og hañ samteinger og vidhelldur Christi Lijkama, sem er hañs Kyrkia hier a Jorduñe. Eñ hvad segier Salomon, Prov. 18. Hvor gietur þolad eirn reidañ Mañ? Hvar af audsied er, ad hañ, sem Reidegiarn er, hañ er Ohæfur til Samneytis añara Maña, og Ohæfur til ad vera Christi Limur og hañs Kyrkiu. Hvad er hañ þa? Andskotans Limur og þeirra Stall-Brooder, sem Tolnast og Tygglast Iñbyrdis, þar til þeir uñ sijder verda uppetner, Gal. 5.

Eg hefe nockrum Siñum heyrt a Tal þeirra, er segia: Meñ verda ad reidast, og laata til sijn taka, añars verda Meñ forsmaader, og ad hvor Madur giore sier dællt vid þañ sem eckert Siñe hefur, þvi sie þad Hofdingsskapur og Stoormenska ad reidast akaflega, so ad þeir hrockve undañ er einum mootþægia. Ecke ræteft þetta avallt, so vel fare, þvi añadhvort reidest eg vid Of-Meñe mitt, edur vid miñ Jafningia, edur vid mier miñe Mañ. Reidest eg vid þañ sem er meire Maattar eñ eg, þa er eg diarflegur, og reise mier Hurdar-As uñ Oxl, þvi so segier Syrach: Praatta ei vid þañ, sem er rijkare þier. Sie hañ miñ Jafninge, þa vite Meñ, ad eckert er þvilijkt Fool, ad ecke eige sier Jafningia. Og þegar Meñ beria Tveim Steinum samañ, þa er vansied hvor þeirra fyrre brotnar. Sie hañ Miñemaattar, þa giore eg siaalfuñ mier Oriett, ad eg spille mier a honum, sem eg giet alltijd naad Jofnude a Reide laust, Og ef mig kostar þad Omak nockurt, þa vil eg þo huxa, ef eg være Hugprwdur, ad þad sieu Smaamuner ad wthella Reide siñe yfer þañ, sem ongva Mootstodu gietur veitt, og þvi kalla eg sælla og Samvitskubetra ad fylgia Raadum þeirra Salomons, Prov. 25. og Pals Postula, Rom. 12. Ad safna Gloodum Ellds yfer Hofud Ovinar sijns med Goodgiordum, so hañ skameft sijn og rodne af Blygdan, ad hañ hafe mier illa tilgiort, er ecke meir ræke hañs Moot-

giorder

giorder enn so, ad eg giefe honum ad eta, nær hann er Hwngradur, og ad drecka nær hann er Þyrstur, Og hvor sem odruvijs kienner, hann frammfylger so Kappsamlega Satans Evangelio medal Mannanna, so sem Guds Pijslar-Vottar Christi Lærdoome, þeir ed blessudu nær þeir lastader voru, og þolldu þad ad þeir voru offookter, 1. Cor. 4. Eg vil eige sa mier þad til Orda, hvorn Skada Menn giora sialfum sier med Reidenne. Sa sem giarn er til Reide, hann er jafnann Sinnisveikur. Eingenn er so var i Umgeingne sinne, ad hann giete giort honum til Maata, og eru þeir þo færster af oss, er so regle nidur Athafner sijnar, Ad ecke verde adfunded, Enn hann sem Reidur er, Hann er eins og Elldur i Sinu. Hvad sem ecke er epter hanns Skape, Pad grijpur hann eins og Elldurenn Tundred, Og þar fyrer utann spiller Reidenn Heilsu Lijkamans, ecke all-lijted, Því segier hinn Vijse: Vandfijsnenn og Reidenn stitta Dagana, og flijta Ellenne, Syr. 30. Eg vil ei tala umm, Hvorsu opt ad hun spiller Gotse og Formegun Manna. Hinn Reidegiarne er eins og sa er bijr i Straa-Hwse, Hann kann ad vera fullrijkur ad Morgne; Enn ef Ellldurenn grijpur þad, verdur hann Hwsgangs-Madur ad Kvollde. Samma Stund verdur Hond Hogge fe geinn, segium vier. Hvad margur hefur giort þad i Bræde sinne, a Einu Augnablike, Sem hann hefur ydrast epter alla sijna Æfe? Pad er valla Manns Kestur þvilijkur sem ad hafa Valld a Tungu sinne, og þad er so Naudsynlegt, ad St. Petur segier, 1. Pist. 3. Hvor sem vill elska Lijfed, og sia gooda Daga, Hann hallde Tungu sinne fra Illu. Enn þad er honum Omogulegt sem Reidenn er, Þvi hann hefur eckert Valld a neinum sijnum Lim, auk helldur Tungunne, Er Jacob segier baagara sie ad temia, Enn alla Nattturu Dijranna, Fuglanna og Fiskanna, Jacob. 3. Nu þoott ad þad sie noogu stoor Olucka, Sem allareidu er upptaled, Pa er þo ecke bwed þar med: Reidenn er ad sonnu kolludstutt Æde, Enn ecke er þad hia ollum. Hia allmorgum snijst hun upp i Hatur, Og eingenn hatar sa annann, ad hann hafe honum ecke fyrst reidur orded. Faaum þeim sem re:dast, þyker Reide sijn Naunglaat vera, og med soddann Moote verdur hun ad Hatre i Mannsins Hiarta, Og sornar þar inne til þess hun skiemmer Kiered, Og er þa illa fared med Guds Mustere, 2. Cor. 6. Þegar þad er giort ad soddann Diofla-Bæle, Hvar Andskotenn inne rijker med Sio Ondum sier verre, Luc. 11. Þvi Heiptenn er alldrei Einsomul, Osund, Drambseme, Roogur, Lijge, Bakmælge, Agg, Præta, Tvijdrægne, og margt annad Illþijde fylger henne giarna. Paull segier i þeim Ordum er eg i Ondverdu las fyrer ydur: Lated ecke Soolena undergaanga ydar Reide, med hvoriu hann tekur oss Vara fyrer, ad þoott oss henda kynne ad reidast, þa skulum vier þo ecke laata Reidena ad Hatre verda. Enn strax þar epter segier hann: Giefed ei Dioflenum Rwm, Eph. 4. Og bender oss til med þeim Ordum: Ad þar sem Andskotenn er Hwsboonde, þar mune þetta hanns Hyske med honum Samsæte eiga, og er þeim Manne vijst Helvijte, so fliott sem Aundenn skreppur wt af Kroppnum, sem af þessum Lwkum er kvalenn, nema hann hreinse aadur Saalu sijna med heitre Ydran, og er raadlegt ad ætla ecke til, ad Daudanns Beiskia skule þad giora, þvi vandhitt er a hvort þar

verdur Doom til þeß, ef so kañ til ad bera ad hañ kome ad Skyndingu. Eñ stoor Saar þurfa mikla Grædslu. Petta Groom er ecke so fliootl wtþveiged, er so leinge hefur bwed um̃ sig i Mañsins Hiarta. Eñ hitt er vijst, ad so sem þeir aller faa Kvittun Synda siña, er fyrergiefa wt af Hiarta sijnum Broodur hañs Misgiorder, nær þeir heñar leita af Alvoru i Nafne JEsu Christi; So verda og hinum sijnar Synder aptur halldnar, er ala Hatur til Naungans, og Gud vill þa ecke heyra, þoott þeir wtbreide sijnar Hendur, Es. 1. og bidie morgum Ordum: Hvar fyrer? Pvi þoott ad ei sieu Hendur þeirra fullar af Bloode fyrer Otta Saker, þa er þo Hiarta þeirra. Og hygg eg sa here ecke langt af Mordingianum, Sem Hrædslañ fyrer Straffenu alleina hamlar ad slaa siñ Broodur i Hel. Verda maa ad Cain hefde lated Abel lifa, Gen. 4. Og Joab, Ashael, og Abner, 2. Sam. 2. og 20. Hefdu þeir Ottast Boduls-Oxena. Og hefe eg nu ad nockru Leite sagt hvorsu skadleg ad sie Reideñ og Heiptrækneñ, Eñ ecke er hun sijdur Daarleg og Heimskuleg. Hvorier eru giarnaster aa Reide? Pad eru Born, Pad eru vesæler Meñ og heimsker; Par um̃ talar Salomon, Prov. 12. Hiñ Faavijse hleiper fram̃ Reide siñe, Eñ saa er vitur, er hañ læst ecke siaa Orietteñ. Segied mier þier Babilons Giædingar, Pier Veralldareñar Phaetontes, † Sem vilied dansa aa allra Maña Hofdum, Og soopa allt þad er ydur mislijkar i burtu med hinum snarpa Reideñar-Vende. Vilied þier laata hallda ydur lijka þessum? Pier segied: Margur stoor og vitur Hofdinge, hefur vered hneigdur til Reide, Pad er þeß verr, Pa hafa þeir miog so nidurdreped Tign siñe. Homerus skrifar um̃ Agamemnon, er Gricker nefndu Konung Konungaña, Af þvi hañ var fyrer Lide þeirra i Trojumaña Bardogum, ad þa hañ hafe vered i goodu Skape, hafe hañ vered Godunum lijkur ad Millde og Vijsdoome: Eñ þegar Reideñ took hañ, Grim̃are eñ hin verstu Varga Dijr. Siaaed þo hvad hid Heidna Skaalld dæmer hier um̃: Godunum eignar hañ Vitskuna og Milldena, eñ Reidena Vorgunum. Pad er og riett dæmt, Pvi eingeñ kañ meir Gude ad lijkiast, eñ med Giæskuñe. Par fyrer sagde DRotteñ: Vered Myskunsamer, Lijka sem ydar Fader er Myskunsamur, Luc. 6. Og eckert lætur verr aa einum Konunge, Sem er nærstur Gude, Eñ Reideñ, Peim er ollum framar hroosad, Sem stioornad hafa med Riette og Myskunseme, eñ hinum, er rijkt hafa med Hardydge og Ofbellde, Jafnvel þo þeir hafe aatt Rijke meira eñ hiner. Alexander hiñ Stoore, hefde eñ þa stærre vered, hefde hañ Clitum Parmenionem og Calistenem Odrepna lated, Helldur eñ þoott hañ hefde broted under sig allañ Heimeñ, Pvi var þad aagiætt er hañs Skolameistare Aristoteles skrifade honum til (er hañ heyrde ad Reideñ og Ofseñ tooku til ad afflaga Giedsmune hañs) aa þeñañ Haatt: Peir sem reidast, Peir reidast sier meire Moñum. Eñ þar er eingeñ stærre eñ þu, Pvi byriar þier ecke ad reidast. Siaaed hier hvort Reideñ og

† Skaallden dikta um̃ Phaetontem, ad hañ hafe vered Soolareñar Sonur, og feingvd af Fodur sijnum med Bæn, ad hañ mætte stijra Soolar Vagnenum eiñ Dag. Pad tookst honum so illa, ad hañ datt af Himnenum, þegar hañ var komeñ sem hæst i Lopted. Pvi kallast aller Ofsa-Meñ, sem hvorke þeckia Gud nie siaalfa sig, Veralldareñar Phaetontes.

og Foolkann giorer nockurn meire Mann, Ef riett er aalited? Alldeilis ecke, Þvi hün gior-er hann sem annars være mikell Madur, ad Kvikende Veralldar og Athlæ styrsamra Manna. Þvi var þad Viturlega talad af Cicerone fyrer Julio Keysara: Ad saa eine Dagur, er hann gaf Marcello Lands-Vist, hann giorde hann frægare enn allar hanns Sigur vinningar. Kalla Menn þad ecke hinn mesta Daaruskap ad farga siaalfum sier, Enn hinn Reide er Bijfluguñe lijkur, Þegar hun stijngur, Þa stijngur hun siaalfa sig i Hel, og skilur Lijfed epter i Saarenu. So giorer og optlega, Saa ed lætur Reidena fyrer sig raþa, Drepe hann ecke sinn Ovin, So hann verde aptur drepenn, Þa drepur hann þo gott Mannord sitt, Hann drepur gooda Samvitsku, Jaa, Saalena ef til vill, Ef hann mellter Reidena med sier þar til hun woldnar i Hiartanu. Saa sem dreckur Oforvarandis nock ud Banvænt, hann maa siaa til hvornenn hann fare þvi ælt upp aptur, þad fyrsta hann verd-ur þess var, Annars er Daudenn vijs; So er og i þessu, hende nockurn þa Avirding, ad hann reidest Broodur sijnum, þa siaae hann til ad hann fare Heiptena aa Braut reked, þad fyrsta hann verdur Helvita aptur, og kiemur til siaalfs sijns, Annars myrder hann Saalu sijna, Hann myrder eirn Mann i Hiarta sijnu, so opt sem hann minnest med Heiptrækne a þad sem vid hann var Afgiort: So opt sem hann æsker Hefndar yfer sijnum Ovin; So opt sem hann fagnar yfer þeirre Hefnd, Er hann alla reidu feinged hefur yfer sijnum Naaunga. Þvi ef Christur segier: Ad saa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, Hann hafe alla-reidu drijgt Hoor med henne i sijnu Hiarta, Matth. 5. Þa er lijklegt, ad Heiptenn mune ecke hafa meira Frelse i Himnenum, helldur enn Oleifeleg Elska, Þoott hvorutveggia sie Andstygd fyrer Gude. Segied mier, Hvada Daaraskapur er þa þad, Ad spilla so Vinaattu hanns med Foolskuñe, sem sagt hefur: Nema þier fyrergiefed Monnunum þeir-ra Misgiorder, Þa vill minn Himneskur Fader ecke tilgiefa ydur ydar Synder, Matth. 6. Ad Mennaa henne ecke aptur, Fyrr enn Menn hafa sættst vid Broodur sinn, Og være þa betur heima seted enn fared. Ollum þyker miked fyrer ad bidia Forlaats aa Avirding-um sijnum, Og enn þa meira, ad laata undann honum sem oss hefur tilgiort. Þetta verd-ur þo ad vera, Ef Menn skulu hallda Guds Vinaattu. Christur bidur ecke fyrer þær Syndernar, sem hann veit ad hanns Fader ecke tilgiefur. O! Gud naade oss, hvorsu illa er honum þa fared, Sem Guds Sonur vill ecke bidia fyrer, Þvi kalla eg þad hinn mesta Daaruskap, Ad fremia þad i Braadræde, Fyrer hvort Menn annadhvort skulu missa Guds Ast i Himnenum, Edur og Virdingu sijna hiaa Monnunum. Enn eg hefe allareidu sijnt, Ad saa verdur annadhvort ad giora sem Heiptrækur er, Og være þa bet-ra alldrei ad reidast, Edur ad minnsta Koste laata Reidena ecke faa so miked Vald yfer sier, ad hun briootest wt umm Munnenn edur Hendurnar. Og hefe eg so nockud tal-ad umm þad, hvad Skadleg og Daarleg ad Reidenn sie. Nu vilium vier sijdann heyra med hvoriu Moote Menn faae henne best i Taume hallded.

Þad er ad tala yfer sig, ad sealast vilia edur kunna Reidenne aldeills fraa sier ad hrinda. Fordilld Heidenna Spekinga er þad, Enn ecke Þecking Christenna Manna aa siaalfum sier.

sier. Pad er eins Ohægt, og einhvor segia villde, Pad hañ kyñe olldungis ad deyda Spilling Nartturuñar so hun hreifde sier alldrei, og er þad alldeilis Omögulegt, so leinge vier herum epter oss þeñañ Daudlega Lijkama. Pad er og ecke Riettvijst, alldrei ad reidast: Reidast eigum vier Syndum og Glæpum, reidast eigum vier sialfum oss, nær vier fremium eitthvad af slijku. Reidast eigum vier og vandlæta fyrer Guds Saker, Pvi er þad hvorke Mögulegt nie Gagnlegt Reidena alldeilis burt ad taka, Eñ ad setia Skordur vid heñe, ad sem miñst gange hun yfer Maal Hooglætesins edur Kreistelegs Samvitskuna, Par um a Christeñ Madur ad laata sier hugad vera, Og er þad hid Fyrsta, ad vier yduglega hugleidum hvad skadlegur og daarlegur Lostur ad Reideñ sie, hvar um eg nockud talad hefe i hinum Fyrra Partenum. Par næst er þad, ad Meñ varest þeirra Selskap er oss mest kuña ad egna til Reide, edur sialfer eru med þessum Skap-Lost plagader, Par um talar Salomon, Prov. 22. Vert ecke Vinur Reidens Mañs, og gack ecke med hinum Galda, ad þu lærer ecke hañs Vegu, og hneixler Saalu þijna. Par ad auke ad Meñ varest þær Orsaker, Hvar af Reideñ plagar giarnañ ad kvikna i Mañsins Briooste. Og er þad hid Fyrsta, ad vier ecke bræum yfer neinum illum Asetninge. Hvad þesse Blood-Hundur Herodes hafe i Siñe haft, Er af Gudspialls-Historiuñe auglioost, sem var ad Lijflaata þad saklausa, nijfædda Konungs-Efne JEsum, Ecke so af Reide edur illu Skape i Fyrstuñe, So sem af Metorda-Gyrnd, sem adur er sagt: Eñ er hañ saa ad þesse hañs illur Asetningur hafde ei Framgaang, Pa kveikte Diofulleñ Foolskuna i hañs Hiarta, So hañ liet myrda þesse Saklausu Born: Ecke var þetta hid Fyrsta Bragd Satans vid hañ, adur hafde hañ laated af Dogum raada sijna eigeñ Sonu, Alexandrum og Aristobulum, er þeir voru rægder vid hañ, So sem ad setu þeir honum epter Rijkenu, Og þo an Orsaka, So sem af Sogunum raada maa. Petta er alltijtt i Heimenum, Sa sem ecke kiemur fram siñe illre Fyrerætlan, hañ reidest aungvum Hlut so miog, Sem þvi, so hañ gietur ecke aflaated: Pad siaa Meñ at Pharaone, Er hañ fieck ecke hallded Israel a moote Guds Vilia, Exod. 14. Pad sijn er oss Dæme Sauls Konungs, er hañ gat ecke David fyrerkomed, 1. Sam. 22. Achabs Dæme, Er hañ ecke fieck svælt under sig Nabots Vijngard, 1. Reg. 21. Gydinga, Er þeir feingu þvi ecke raaded vid Postulana, ad laata af ad predika wt af JEsu Nafne, Act. 5. Daarlegt er þañeñ ad vilia strijda vid hiñ Almaattuga. So blindar nu Reideñ hañ, sem illt hefur i Siñe. Añad hvort trwde Herodes Spaadoomunum, edur hañ trwde þeim ecke. Ef hañ þeim ecke trwde, hvad dreo hañ þa til þess, ad fremia þetta Gudlausa Mord? Og ef hañ þeim trwde, þa var þad Gloopska ad vilia beriast vid Gud, Eñ þad saa hañ ecke, Fyrer Heipteñe, og þessare Foolsku velldur nu illur Asetningur. Vondskañ er Frilla Diofulsins, Og eitt Frioossamt Kvikende: Ein Illska gietur Pusund adrar af sier, og er Reideñ og Heiptrækneñ Foostur-Mooder allra þeirra. Vakte þvi hvor Christeñ Madur Hiarta sitt, og laate þar aungva Syndsamlega Gyrnd iñe drottna, Helldur bidie Gud ad skapa hreint Hiarta i sier, Ps. 51. Pa mun

honum

honum sijdur verda hætt vid Reideñe. Ad soñu er þad Mañlegt ad reidast, þegar eirn hefur gott i Siñe og fær þvi ecke framkomed fyrer añara Illsku Saker, (Sem optlega skiedur) og er þad skilldt Gudlegre Vandlætingu, Eñ þo skulu Meñ ecke giefa þañ Taumi Reideñe, ad Meñ trode Guds Bodord under Footunum, Þvi ei maa Illt giora, so ad Gott framkome, Rom. 3. Giorum helldur Skylldu vors Embættis med Þoleñmæde, Eñ felum Gude Avoxteñ aa Hendur. Eñ hitt er vijst, ad þess verre sem Asetningureñ [...] þess stærre verdur Reideñ og Oriettvijsare, Ef Asetningureñ ødlast ecke siñ Framgang: Pad velldur þvi, ad ef Eirn hreckvijs Madur gietur framkvæmt Grynd sijna, þa fagnar hañ i Hiarta sijnu, aa medañ honum þyker vænt um̃ Skomena, hefur og marga, Sem eins eru Skape farner og hañ, Hroosande þvilijku, og kalla þad vel giort, Og þoott ecke sieu þeir, þa vantar eirn Maktar-Mañ alldrei eirn Hræsnara, Sem gyller þad fyrer hañs Augum, sem honum Reyndar þykia þo Klæker ad vera. Eñ bere af þvi, ad hañ naae Fyrerætlan siñe, þad gremst honum, Þvi hañ veit ecke einasta ad Illmeñska sijn er i Lioos komeñ, helldur þar aa ofañ verdur hañ spiadur og lijttur af hvorium Mañe, So sem saa ed toock til ad byggia og gat þad ecke fullendad. Pad sijner oss Dæme Mordingians Herodis, er hañ saa ad hañ var gabbadur af Vitringunum, Pa vard hañ Æfareidur. Eingeñ Hlutur er saa, er so miøg upperte illt Skap, so sem Forsmaaneñ, og ecke einasta þa sem vonder eru, helldur og gooda Meñ, Ef þeir eru añars nockud Stor-Hiartader, og þess vegna, Er þad hid añad Raad aa moote Reideñe, ad lijta ecke stoort aa sig, helldur ad eignast Saal sijna i Þoleñmæde epter Bode Lausnarans, Luc. 21. Þvi fyrer utañ þad, ad Drambsemeñ spiller Mañkostunum vor Maata, Hvorsu vel sem eirn er ad sier um̃ marga Hlute, þa giora aller Meñ sier ad Skylldu ad kiefia þañ sem mikellaatur er, Og þykest ødrum betre, og gietur hañ so ecke aa Mis vid þad fared, ad eige bere honum margt Reide Efne til Handa, Og þvi er gott ad temia sier nockurskonar Mañvdleika, Og um̃ alla Hlute fram̃ Kiærleikañ, um̃ hvorn Paulus skrifar, 1. Cor. 13. Kiærleikureñ er Þoleñmoodur og Goodgiarn, Kiærleikureñ øfundar ecke, Kiærleikureñ giører eige Illmañlega, Eige þijtur hañ upp, Hañ er eige Osidsamur, Hañ leitar ecke epter þvi sem hañs er, hañ er eige Þrønglyndur, hañ þeinker ecke Illt, Og er i þessare Gullvægu Maals-Grein allt þad iñebunded, sem afstijra maa Reide og Fiandskap, Eñ efla Frid og Eindrægne Maña aa medal. Verølldeñ kieppest nu um̃ Stunder vid, ad tilla sier sem hærst, Og saa er lijttur af mørgum er þad giører ecke, So sem hafe hañ eige Vit aa, ad hallda Virdingu siñe, Nema hañ trode sier fram̃. O hvad betra er og Ohultara, ad setia sig i hiñ ytsta Sess, epter Lausnarans Raade, Luc. 14. Pa mun Virdingeñ sialfkrafa epterfylgia þeim er so giora. Eñ hañ sem tiller sier aa þa Troppu sem hañ er eige vaxeñ til ad stijga uppaa, Hañ maa vel taka sier Vara, ad ei þurfe hañ ad brioota Odd af Oflæte sijnu, Og ef so kañ til ad bera, Pa er eingeñ oñur Von aa honum sem hefur giort miked af sialfum sier, eñ ad honum gremiest þad, Og hañ kieppest vid aa allar Lunder ad faa Hefnd þar yfer, Er honum þvi illa fared hvorn Veg sem þad tekst.

Nære hañ Hefndeñe, Þa stelur hañ heñe fra Gude, Er segier: Mijn er Hefndeñ, eg vil Endurgiallda, Rom. 12. Eñ bere af þvi, verdur hañ lijttur af sijnum Lijkum, Veralldareñar Bornum, Hvor ed forsmaaer þa er Guds Syne fylgia i þvi ad forsmaa Oriettheñ. Hvorsu miklu betra er þa ad hafa i Fyrstuñe snided sier Stack epter Vexte, so ecke þurfe þeir ad snijda hañ upp aptur er þu sijdst villder, Þar til hañ verdur maatulegur, eda kañ skie oslijtell, Og sagt verde til þijn: Gief þessum Rwm, Luc. 14. Þoott eige sie hañ Heidarlegre eñ þu, sem þu maatt vijkia fyrer, Þvi er Naudsygt ad hafa sig i Hoofe. Ef Meñ vilia ei giefa sialfum sier nie ødrum Orsøk til Neide og Fiandskapar. Meñ skulu ei helldur vera allt of grañskygner epter Oriettenum, edur gløggver i þvi ad leggia þad wt aa vondañ Veg sem oss er tilgiort, Þad kañ margt ad vera giort af Faavijse, af Braadræde, af Trauste til Vinaattu vorrar, af Otta, af Añarra Fortølun, er saa reiknar sier ad vera til Smaanar giort, sem er allt of vidkvæmur, hvorium sijn Virding er kærare, eñ þoott hañ være Skoreñ eda Brendur, og reidest þar fyrer optlega Ofyrersynju, Eñ vijlldе kañ skie alldrei reidst hafa, Þegar hañ fiñur Sañleikañ, og hefur i Bræde siñe añadhvort giort stærre Oriett edur þolad, helldur eñ Tilgiørdeñ var i Fyrstuñe, eñ skamast sijn ad jaata sijdañ ad hañ hafe fared villt, Þoott hañ þecke þad nær honum er Neideñ ruñeñ. Og þoott einhvør Ovirde nockurn af aasettu Raade, Þa er þad vijslega sagt, Er Salomon skrifar, Prov. 12. Ad hañ sie Vitur sem lætur sem hañ eige siaae Oriettheñ, Þvi Oriettureñ er eins stoor, so sem hañ er af honum meteñ, er hañ lijdur. Eingeñ reidest, nema hañ ætle sig Vanvirdtañ aa einhvørn Haatt. J øllu þessu er eckert betra Raad, eñ ad giefa Neideñe Stunder, og wthella heñe ecke strax sem hun tekur eirn, þvi Bideñ kañ margt ad auglijsa, og Þroteñ i Hiartanu kañ ad siatna aa medañ, og sa sem vijs er, hañ giorer so, þad er heilnæmt ad pretta sialfañ sig i slijku, og þegar Meñ reider eru, ad ætla sier ad bijda betre Tijma til ad hefna sijns Vansa, eñ aa medañ kañ eitthvad ad skie, eg kañ ad deya, og skal mig þa alldrei ydra þess ad eg hafe slept Hefndeñe. Hañ kañ ad deya sem mier tilgiørde, og giet eg þa eige helldur ydrast þess, ad eg tilgaf honum, hvørium eg þo giarnañ vil samfagna i Himnarijke; Og verde hvorugt af þessu, Þa kañ skie hañ ydrest, og fære mier aptur Virdingu mijna med Avexte, þa hefe eg vel beded og teked Hlut aa þurru Lande. Verde eige helldur þad, þa hefe eg Toom til ad huxa mig um̃, hvorneñ eg faae þad bætt, er eg lided hefe, med sem miñstum Skada beggia ockar: Alleina er ad vakta sig fyrer þvi, ad Heipteñ snwest ecke upp i Hatur, ef Meñ geima Neidena, sem þeim er hætt vid, er ecke Ottast Gud, og hvorium ad føl er sijn eilijf Velferd fyrer Virdingu Heims þessa. Guds Børn giora þad ecke, sem Himnarijked erfa vilia, þau laata Soolena ecke undergaanga sijna Neide, nie giefa Dioflenum Rwm, Eph. 4. Eñ hvorneñ sem øllu þessu er vared, þa fæ eg alltijd Toom til þess, ef eg hepte Neidena, medañ hun er sem braadust, ad huxa um̃ hvad betra sie ad lijkiast mijnum Frelsara, sem Mootmæleñ þolde, Ebr. 12. Og drottna so med honum eilijflega, helldur eñ ad vada uppe med Heimenum, og fyrerfarast so med honum og øllu þvi sem i honum er, 1. Joh. 2.

Þvi

Þvi vil eg brwka Raad hins gamla Platonis, Er haň baud þeim sem reidur være ad skoda sig i Speigle, æ medaň haň være hvad grimastur og munde haň hrædast sialfsaň sig; Eň eg villde skoda mig i miňe Molld og Osku, þegar nockud fræ lide, ef eg giæte stillt Brædena, medaň hun er sem mest, og skoda þar hvad lijted eg æ unter sialfum mier, eg sem er eitt Bloomstur, er føluar strax sem Ande DRotteňs blæs a þad, Es. 40. Ein Vatns-Boola, sem þijtur upp af Vindenum, ein Gufa, er siest um Stundarsaker, og hverfur sijdaň, Jac. 4. og mun eg þa brædlega skamast mijn, og þeinkia helldur æ Vesolld mijna, eň Hefndena yfer honum, sem ecke hefur kaňske meira syndgad eň eg æ moote Gude, sem bæda ockur skapad hefur, og i hvørs Hende ad stendur beggia ockar Giæfa og Ogiæfa. Eg vil alleina gledia mig af þvi, ef honum þocknast ad læta mig þola Oriett siňa vegna, Matth. 5. Eň eg aumka miň Ovin, ad haň ecke þeinker hid sama og eg vil þeinkia. So hugleided nu þetta, DRotteňs Born: Aller þier sem elsked ydar Tijmaňlega Velferd, þier sem elsked ydar Sæluhialp, og aller þier sem Gud elsked, giefed ydur Sunder til ad þeinkia um hvad skædlegur Hlutur ad Reideň sie, hvorsu skamwiň ad sie sw Glede, er sa hefur af Hefndeňe, er hana tekur fræ Gude. Læted ydur i Hug koma, ad Sæler ydar bwa i Hey-Hwse, þvi allt Holld er Hey segier Raust Predikarans, sem hroopar i Eydemorku, Es. 40. Hvorsu fliott kaň þad ad verda til Osku brendt, þegar i þvi kviknar af Heipteňe, og hvar erum vier þa? Hvad verdur af þeim, er sialfur hefur Eydelagt þad Herberge, er Gud fieck Sælu haňs til ad bwa i? Nema ad Guds Reide Elldur tekur vid Oskuňe og breňur i heňe allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. fræ eirnre Eilijfd til aňarar. Vert þvi snarlega samþyckur þijnum Mootstødu Maňe, æ medaň þu ert eň þa æ Veige med honum, ad ecke ofurselie haň þig Doomaranum, eň Doomareň Kvalaranum, og verder þu so i Dijblijssu kastadur. Saňlega segie eg þier, Þu munt þadaň ecke wtfara, fyrr eň þu hefur gollded hiň sijdarsta Pening, Matth. 5. Sem alldrei verda mun um alla Eilijfd. Þar fræ vardveite hiň Myskunsame Goode Gud, alla þæ sem æ haňs Myskun og Giædsku treysta, fyrer JEsu Christi Forþienustu, AMEN.

# A Prettanda Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

NÆR ed JEsus var fæddur i Bethlehem æ Gydinga Lande æ Dogum Herodis Konungs. Siæ þu, Þa komu Vitringar af Austurælfu til Jerusalem, Og segdu: Hvar er sa Nijfædde Konungur Gydinga? Þviad vier høfum sied haňs Stiørnu i Austur-Veige, og erum komner ad tilbidia haň. Eň er Herodes Konungur heyrde þad, Skielfdist haň og øll

Jerusalem med hønum. Og hañ liet samansafna øllum Kieñemaña Høfdinglum og Skriftlærdum Lijdsins, og forheyrde af þeim, hvar Christur skyllde fædast. Eñ þeir sogdu hønum: J Bethlehem a Gydinga Lande. Þviad so er skrifad fyrer Spaamañeñ: Og þu Bethlehem a Gydinga Lande, ert aungvaañveigeñ hin minsta a medal Høfdingia Juda; Þviad af þier mun koma Hertoge sa ed stioorna skal yfer mitt Foolk Jsrael. Þa kallade Herodes Vitringana Heimuglega til sijn, og spurde þaa Jñelega ad, a hvorium Tijma þad Stiarnañ hefde byrtst þeim, Og vijsade þeim til Bethlehem, Og sagde: Fared þier, og spyried Vandlega ad Sveinenum, Og nær þier fiñed hañ, þa kuñgiored mier þad aptur, so ad eg kome eirneñ ad tilbidia hañ. Sem þeir høfdu nu hlijdt Konungenum, fooru þeir af Stad. Og siaa þu, Ad Stiarnañ sem þeir høfdu sied i Austuraalfu, gieck frãmne fyrer þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppe yfer, hvar ed Barned var. Eñ er þeir saau Stiornuna, Glødduft þeir af miklum Fognude, og geingu i Hwsed iñ, og fundu þar Barned, med Mariu Moodur þess, fiellu frañ og tilbaadu þad. Og ad upploknum sijnum Fiaarsioodum, Offrudu þeir þvi Glafer, Gull, Reikelse og Myrru. Og feingu Avijsan i Svefne, Ad þeir kiæme ecke aptur til Herodem; Og fooru so añañ Veg aptur i sitt Land.

## Exordium.

Sneiña taka Børn til Meina, segier Ords-Hattur vor Gamall, Og er hañ sañur. Madureñ fædest til Eymdaña, eins og Neistarner upp i Lopted fliwga, Job. 5. Fullur Hormunga og faarra Lijf-Daga, Cap. 14. Allar Skiepnur Guds er hañ giort hefur oss til þarfinda, þær eru ad nockru Leite siaalf-færar, skoñu epter þad þær wtkoma af Moodur-Lijfe, þeim hefur Gud og Natturañ til lagt af siaalfum sier, hvad þau skulu hylia sig med og vardveita fyrer Kullda og Jll-Vidrum: Madureñ fædest Nakeñ i Heim þeñañ. Þau fædast þeigiande af Moodur-Lijfe: Mañeskiañ med Ope og Taarum, so sem kvijde hun vid þvi, ad heñe byriar ad gaunga i giegnum Taaraña Dal, a medañ hun naaer Lijfe ad hallda. Jordeñ er Vijraña Sæng edur Siooreñ Fiskaña, nær þau wtklakeñ eru. Mañeskiañ maa ecke Lijfe hallda, nema hun a alla Vegu sie nærd og fooftrud. Þesse er Upprune vor, hvorium þo a stundum eckert þyker sier Omaattugt, nær vier drøgunst a Legg, er þetta þo hiñ mijñste Hlute Mañlegra Eymda er vier þolum a Omaalga Alldre vorum. Og er þad ecke ad undra a oss, Hvorra Fodur sagt var i Ondverdu, Ad i Sveita sijns And-

Andlitis skyllde hañ sijns Brauds neyta, og væra sig af Jorduñe med Erfvide alla sijna Daga, Gen. 3. Hañ hafde til þess uñed, og vier sijdañ sem af honum komner erum. Eñ þad eru Undur ad hiñ Añar Adam, sem er DRotteñ af Himne, 1. Cor. 15. Hañ skule vid sama, og eñ þa miklu lakare Koste bwa, jafnvel þoott hañ sie epter Holldenu af Adam komeñ; Pad heyrum vier þo i þessa Dags Evangelio, þar Konungur Himens og Jardar, maa Svikum og Ofsooknum hiñs Grima Herodis mæta. Valla var hañ fyrr i Heimeñ boreñ, Eñ ad Andskoteñ uppfyllte Hiarta þess Gudlausa Konungs til ad wtslockva Lioos Heimsins, og aflijfa hañ sem ollum giefur Lijf og Anda. Og fyrer þvi ad þesse Umsaatur Herodis voru Upphaf DRotteñs Hormunga, er hañ þola mætte strax i Iñgaungu þessa Naatturlega Lijfs, þar sa Refur med Slægdarfullre Underhyggiu, leitade so freklega epter ad vita hvar DRotteñ være fæddur, alleina til ad raada hañ af Dogum, sem Raun gaf sijdañ Vitne uñ; Pa vil eg tala framveigis uñ þeirra Kior i Heimenum, sem honum vilia epterfylgia i þessum Taaraña Dal iñ i hañs Dijrd, og þad i Tveñu Lage. 1. Vil eg ræda uñ Guds Barna Mootlæte, hvad Parflegt þad sie. 2. Uñ Guds Adstod i Mootlætenu.

Hiñ Goode Gud stioorne Tungu miñe og Hiortum ydar med Naad sijns Anda, sier til Lofs og Dijrdar, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

DRotteñ JEsus sagde vid Læresveina sijna, Luc. 18. Hvor sem ecke medtekur Himnarijke so sem Ung-Barn, hañ kañ ecke ad iñgaunga i þad. Eñ eg vil segia, Brædur mijner: Nema þier giorest eins og Ung-Barn, Pad er Maria lagde i Jotuna, þa faaed þier ecke iñgeinged i Guds Rijke. Hier med vil eg ecke þad meim hafa, ad nockur af oss Adams Bornum, kuñe so fullkomeñ, so Heilagur, so Riettlaatur ad vera, sem hañ er ecke visse af Synd, 2. Cor. 5. Helldur so sem DRotteñ segier, Luc. 6. Verid Myskunsamer, lijka sem ydar Fader er Myskunsamur, og er þo syndug Mañeskia laangt fraa þvi, ad jafnast vid Gud i Myskunsemeñe, so vel sem ollu odru, helldur bijdur Frelsareñ oss, ad breita epter honum sem mest verdur. So eigum vier DRottne JEsu ad lijkiast i ollum vorum Lijfernis Haattum, ad so miklu Leite sem oss et mogulegt i þessum Daudlega Lijkama, og þad ecke sijdst i Krossburdenum. Hvorneñ hañs Fæding, Hañs Uppfoostur og allur hañs Alldur, var Faatækt og Eymdum hladeñ, er oss alkuñugt af Gudspiallamaña Bookum. Meinum þvi ecke, Brædur mijner, ad vier muñum sleppa hiaa ad drecka af Læknum med Christo, Ps. 110. hier i Utlegdeñe, ef vier viliuni nijtt Gledeñar Vijn med honum drecka i Guds Rijke, Matth. 26. Miñest þess Ords er eg sagda ydur, segier JEsus vid Læresveinana, Joh. 15. Ecke er Prælleñ fyrer Herra sijnum. Hafe þeir mig offookt, þa munu þeir ydur eirneñ offækia, hañ hlaut þañ Kaleik af ad drecka, er hañs Fader hafde honum aaskeinktañ, so ad Ritningeñ uppfylltest, Joh. 18. Vier skulum og Ritninguna uppfylla, Matth. 26. med þvi ad drecka hañs Kaleik, hvor ed segier: Ad i giegnum margar Hormungar byrie oss iñ ad gaunga

ga i Guds Rijke. St. Petur bijdur oss, Act. 14. ad vier skulum hugga oss þar vid i Mootgangenum, Ad vorer Brædur i Heimenum hafa þvilijkt ad lijda. Eñ hvad miklu helldur ættum vier ad hressa Gied vort þar vid, ad þetta er oss med sialfum Guds Syne sameigeñlegt, Hvor ad er Hofundur og Fullkomnare Trwareñar, Heb. 12. Þvi segier Paall. 2. Cor. 1. Ad so sem ad Christi Pijsler yfergnæfe til sijn, So yfergnæfe og sijn Huggun fyrer Christum. Vitringar þesser, Er Gudspialled umgietur, Þeir Offrudu hinum nijfædda JEsu, Gull, Reykelse og Myrru. Allt voru þetta Konunglegar Gaafur. So var hañ Fatækur sem allt Sylfur og Gull a, Jordena og allt hvad i Jorduñe er, Ps. 50. Ad hañ maatte þetta þyggia af framande Moñum, Eñ þvi lijks einkis krefur hañ nu af oss, Þar hañ er ingeingeñ i sijna Dijrd, utañ hvad vier skyllduger erum ad hiaalpa hañs Naudstoddum Limum, med þvi sem Gud oss laanad hefur, um hvoria hañ segier, Matth. 25. Hvad þier giordud Einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, Þad giordud þier mier. Hvors krefur hañ þa af oss? Eirnrar sañrar og lifande Trwar, Þad er þad Gull, sem vier eigum Gude Himnaña Konunge ad bioda, Eñ hun reynest hvad mest i Hormunguñe. Þad er hægt ad trwa Gude nær allt ad Oskum geingur. Valla vitum vier hvort vier Riett-Trwader erum, Fyrr eñ i Mañ-Raununum. Þad orkar ecke a Hreyste Kappañs fyrr eñ a Hoolmenum. Eige vita Meñ hvorsu ad Stijremadureñ er forsiaall nema i Olgu-Sioonum og Andvidrenu: Og eige hvorsu dyggur ad Hyrdereñ er, Fyrr eñ hañ sier Ulfeñ koma. So reyneft og Trweñ vor i Mootlætenu. Þad er sa Elldur, Er Gull þetta skal reynast i, Og so sem Gulled smellteſt i Elldenum, eñ tapar ecke Þijngd siñe ef þad gott er, eñ Heyed og Haalmeñ breñer hañ upp: So reynast Guds Born i Mootgangenum, Styrkiast, eflast, vidurkveikiast og Leidriettast; Eñ i sama Mootgange kollsteipast Veralldareñar Born, Tortijnast, eydeleggiast, orvænta og falla i Vijl og Efaseme, hiner þacka Gude, lofa hañ og prijsa, kyssande a hañs Fodurlegañ Hyrtingar-Vond, med allre Audmykt og Trwfastre Von, Hvor ed alldrei lætur til Skamar verda, Rom. 5. Þesser lasta Guds H. Nafn, mogla, leita allra añara Medala eñ ad snwa sier til hañs sem þa typtar. Hier um talar St. Petur agiætis vel, 1. Pet. 1. segiande: Þier erud glader, Jafnvel þott þier um litla Stund ef vid þarf, hrygder verded med adskiliañlegum Freistingum, so ad Reynsla ydvarrar Trwar verde Gullsins Reynslu dijrmætare, hvort ed forgeingur, og verdur þo i Ellde reynt, Til Lofs og Heidurs og Dijrdar i Opeñberan JEsu Christi. Med Reykelsenu verda teiknadadar Bæner Heilagra i Opeñberununum hiñs heilaga Johañis, Cap. 5. og 8. Eñ Gud naade oss, hvorsu ad vier kallder erum i Bæneñe. I Medlætenu giorer Madureñ Gud af sialfum sier, Þegar allt ad Oskum geingur, og þykest Einkis Þurfe vera, eñ veit ecke þad hañ er Fatækur og Voladur, Ber og Nakeñ, Apoc. 3. Meñ segia, Þar er Fridur og Tryggleike, Eñ vita ei nær eñ Ogiæfañ braadlega yfer þa kiemur, So sem Joodsoott Olietta Konu, 1. Tess. 5. Gud naade þañ sem Bænarlaus er i vondre Verolldu þessare, Betra er nakeñ ad ganga i Orustu, og Maallaus

laus fram̃ fyrer Doomaran̄, Helldur eñ Bænarlaus fram̃ ad gaanga i Heimenum. Eñ þetta Reykelſe tendraſt ecke betur af neinum Hlut, Eñ af Ellde Mootlætingaña. Þvi ſegier David, Pſ. 34. Hiner Riettlaatu kølludu til DRottens, Og hañ Bænheyrde þa, Og frelſade þa af øllum Hørmungum þeirra. Meñ faa ecke Elld af Staalenu, Nema Meñ ſlaae þvi vid Tiñuna, Og ſo læra Meñ ad þreyta vid Gud med heitre Bæn i Mootgaangenum, So ſem Von er til, Þvi hañ ſem heitt ſkal bidia, honum ſkal miked aa þvi liggia, Er hañ bidur um̃. Vier erum ſoddañ Siaalfbyrgingar, þegar Verolldeñ lætur epter oſs, Ad vier þykiunſt oſs um̃ alla Hlute full-nooger vera, So ſem eckert hefdum vier ad þiggia af Fødur Lioosaña, fraa hvorium þo kiemur øll good Giøf, og øll fullkomeñ Giøf, Jac. 1. Mootlætid hlijtur ad verka i oſs Hitañ og Alvørugiefnena i Bæneñe, Þvi añars erum vier kallder og dofner i þvi ad bidia Gud. Ecke hefde hin Canaaniſka þreytt ſo vid DRotteñ med Bæneñe, Nema heñar Dootter hefde vered ſo þwnglega plaagud, Matth. 15. Ecke hefde Samkundu Høfdingeñ leitad Chriſts, Nema Dootter hañs hefde andaſt, Matth. 9. Og Konungsmadureñ hefde vel heima ſeted, Hefde eige Vanheilinde hañs Sonar reked hañ af Stad, Joh. 4. Og þoott ad oſs Daglega ligge ſo miked aa Guds Adſtod, ad vier erum aller uppaa hana komner, þa ſiaa Meñ þad ſamt ecke fyrr eñ i Mootgaangenum. So kveiker nu Gud þetta ſitt Upplyptingar-Offur med Ellde Mootlætingaña hier aa Jorduñe, So þad verde eirn Sætleiks Ilmur fyrer honum i Himnenum. Fyrer Myrruna hafa Lærefedur Chriſtelegrar Kyrkiu, og medal añara Gregorius hiñ mikle viliad ſkiliaſt laata Deydingu Holldſins, af þvi ad hun beiſk er, Eñ giefur þo af ſier Ilm miøg ſætañ. Eingeñ Foorn er Gude þeckare eñ þeſſe, næſt Trwñe aa Chriſtum, og hun verkar ecke i Mañenum, nema fyrer Trwna. Eñ þo allra hellſt i Mootlætenu. Þegar hiñ gamle Adam tekur til ad verda Fullur og Feitur, og gioraſt Lauslaatur, ſo ſem Moiſes ſagde um̃ Iſrael, Devt. 32. Þa leggur hiñ Alvijſe Gud vid hañ Kroſſens Beitſle, So hañ tameñ verde og Kroſsfeſtur med Chriſto. Þad er, ad hin illa Gyrnd ſem i oſs bijr, verde afmaad med Kroſsgaungunne epter vorum Frelſara. Hañs bleſſada Holld vard ſo Vanburda aa Kroſſenum, ad hañ gat daaed og laated ſijna Saalu fraa ſier. Eñ hañ vard Lijfgadur aptur epter Andanum, ſo ſem Petur ſeger, 1. Pet. 3. Þad er epter Guddoomenum: Þad ſkiede til þeſs, ad hañ til-legde vorum Anda hañ Styrk, ad hid Syndumſpillta Holld, giæte daaed i oſs, Eñ vier epter Andanum lifad, vard ſo hiñ ſame Hlutur, ſem aflade honum Mañlegs Veikleika, Orſok til Gudlegs Kraptar i oſs, Og hefur JEſus alldrei meira Almættis-Verk framed, Eñ þegar hañ ſem veikaſtur var. So verda og þeir ſem af Andanum fædder eru ſtyrkvaſter i Gude, þegar Hollded deydeſt og hiñ gamle Madur er ſem veikaſtur. Þetta vottar St. Paall er hañ ſegier, 2. Cor. 4. Alla Tijma berum vier um̃ krijng Deydingu DRotteñs JEſu i Lijkamanum, So ad Lijf JEſu verde og augliooſt i vorum Lijkama. Segied mier, Br. M. Kañ nockurt Hlutſkipte, nockur Heidur, nockurt Rijke þvilijkt ad vera, So ſem ad kallaſt, og ad vera Guds Barn?

Oll Veralldareñar Metord eru Prældoomur hiaa þvi Nafne. Madureñ bliifur ecke leinge i Heidrenum segier David, Ps. 49. Hvorsu haa Volld edur Virdingar sem einhvor hefur, Eñ þetta Hluiskipte maa eingeñ af oss taka. Vier erum teiknader i hañs Hondum, Es. 49. Af hvors Hende eingeñ fær oss slited, Joh. 10. Eñ hvad segier Postuleñ til Hebræos, Cap. 12. Hvorn DRotteñ elskar, þañ agar hañ, og hañ typt- ar þañ Son, Er hañ ad sier tekur. Ef þier Ogunena þoled, þa mun Gud tiaa sig ydur eins og Bornum. Þvi hvor er saa Sonur, Er Fadereñ ecke vandlæte uñ, Eñ ef þier erud fyrer utañ Aga, Hvors aller Hluttakendur eru, Þa erud þier Hiaa-Born og ecke Syner. Hier af ræd eg þad, ad Krosseñ Christi maa reiknast Pantur Arfleifdar vorr- ar, og eitt Trygda-Merke, Sem Guds Sonur hefur sett uppaa siina Elskulega Brwde, Og so sem Feste-Peningur þess Bwstadar, sem Guds Born hafa i hañs Riike heima teked, Þvi hier hofum vier ecke stadfastañ Samastad, helldur væntum eins añars, þar sem vor Borgar-Riettur er, sem er aa Himnum, Phil. 3. Þad er þad Merke, er St. Paall uñ talar, Gal. 6. Er hañ segier: Ad Heimureñ sie sier Krossfestur, og hañ Hei- menum. Hiedañ af (segier hañ) giore mier eingeñ Onaad, Þvi eg ber Teikn JEsu Christi aa miinum Liikama, Þar fyrer er Mootlæted alldrei so þrongt, og eingeñ Horm- ung so mikel, Ad sw Huggun ecke yfergnæfe, ad vier eigum vissa Arf-Von i Guds Rii- ke, medañ vier berum Christi Kross med Poleñmæde. Þar uñ talar St. Paall, Rom. 8. Siaalfur Andeñ ber Vitne vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Eñ ef vier Born erum, Þa erum vier og Erfingiar, Jaa, Erfingiar Guds, eñ Samarfar Christi: Ef vier liidum med honum, ad vier eirneñ med honum Diirdleger verdum. Hañ seg- ier eñ aptur, ad ef vier vonudum aa Christ alleina i þessu Liife, þa værum vier Vesælaster allra Mañа, 1. Cor. 15. Eg vil og þad segia, ad vier værum allra Maña faavissast- er, ef vier diirkudum Gud fyrer Epterlæte þessa Heims alleina, Eins og hañ hafe ecke añ- ad Þusundsiñum meira og betra fyrerbwed þeim, er hañ elska. Reidunst þvi ecke, Br. M. Þoott vier siaaum hinum Ogudlega vel gaanga, Ps. 73. Eñ Guds Born Horm- ungar liida. Þott Gud hafe aa Stundum margt laated epter Elskendum siinum, þa er þad Reyndar ecke so eigeñlegt Christeñdoomenum, ad þeim liide jafnañ vel, sem eru Chri- sti Þegnar. Ogudleger hafa eckert aa Himnum, So hafa og Guds Born eckert i Hei- menum, og þoott þeim falle Riikdoomur til, Þa festa þau ecke Hiartad vid hañ, Ps. 62. Hier uñ aaminñer St. Petur næsta heilnæmlega, 1. Pet. 4. Med þessum Ordum. Elsk- añleger (segier hañ) Skielfest ecke so sem Okuñuger af Reynslu þeirre er fram vid ydur kiemur af Elldenum, Til ad freista ydar, so sem hefde ydur nockud Ovenjulegt tilfalled, helldur gladiest af þvi, ad þier erud Hluttakendur Hormunga Christi, so ad þegar hañs Diird Opeñberast, ad þier gladiest þa fagnande. Þegar Skyeñ hafa nockra Stund þyrgt fyrer Soolena, Þa skiin hun hvad fegurst. Þess meira sem vier lidum hier fyrer Christs Saker, þess helldur munum vier fagna, nær vier skulum med honum Diirdleg- er verda, Rom. 8. Saa kañ alldrei huggadur ad verda, Sem eige harmade. Maa

saa

sem nockud Sigrenum hroosa, sem eige bardest? Gud kañ ecke ad afþerra þau Tárenn i eilijfu Lijfe, Er alldrei voru wthellt i þessu. Lijtum þvi ecke til nærverande Hrellingar, Hvor ad er skamvinn, Helldur til epterkomande Farsælldar, sem er eilijf, vitande þad, ad Mootlætingar þessara Tijma, eru eige verdar þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun openber verda i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Og hin lietta Hormung, Er vær hier lijdum, aflar oss Ovmrædelegs Þwnga eilijfrar Dijrdar, 2. Cor. 4. Hvoria Gud oss giefe fyrer Forþienustu Sonarens, Amen.

Hvad þvi Sijdara vidvijkur, Er eg hiet um ad tala, Pa stendur hier i Gudspiallenu, Ad Vitringar hafe komed wr Austurveige, og fært Barne þessu Gasfur. Þetta sijner oss Guds Almattugs Fodurlega Umhyggiu og Forsioon fyrer sijnum Bornum, midt i Mootgangenum, midt i Orbyrgdeñe, Og sañast a þessu medal añars, ad JEsus hefur oss til Epterdæmes lided, 1. Pet. 2. Hinn alskygne Gud, Fyrer hvors Augum ad aller Hluter opner og nakter eru, Hebr. 4. Hañ visse vel hvad la fyrer sijnum Eingietna Syne, Og hvorsu hañs Hond hafde asett ad plaga hañ vorra Synda vegna, Es. 53. med Langre og Mædusamre Reisu, og langre Utlegd i Egyptalande, Og þad strax sem hañ i þeñañ Eymda Dal boreñ var, samt liet Gud hañ ecke alldeilis Hialparlausañ, helldur sende þessa Okiendu Meñ af fiarlægu Lande, til ad bæta hañs Naudþurft, og hañs Fatækrar Moodur Tvent hefur hinn Goode Gud med þessu Almættis og Myskunar Verke wtriett. Hid fyrra, ad hañ synde ad þetta Hialpræde tilheyrde Heidnum Pioodum, Esa. 49. Hvorier ad voru an Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Riette, Eph. 2. Pad Foolk er sat i Myrkrunum sa Lioos miked, Esa. 9. Þvi eige er lijklegt ad þesser vijsu Meñ hafe duled þad fyrer Londum sijnum er þeir sau og heyrdu, hvar epter sijdañ fylgde Christne-Bodid medal añara Piooda. Hañ sende þessa Framande Meñ so sem i Umbode Heidingiaña, til ad hylla þeñañ Nijfædda Kong yfer sig, til þess ad hañ Drottna skyllde til Ytstu Veralldareñar Endemarka, Ps. 2. O hvorsu ættum vier þessu ad fagna! hvorier eige vorum Guds Foolk, 1. Pet. 2. eñ hañ hefur þo kallad sitt Foolk. Hvorsu ættum vier ad Prijsa hañs Riettlæte yfer hañs eigeñ, og hañs Myskunseme yfer oss, sem vorum añarleger, ad hiner Natturlegu Kvisterner eru af-brotner, eñ vier iñplantader, sem vorum ville-Vijnvidur, Rom. 11. Hañ rak siñ Eingieteñ Son i Utlegd a Egypta-Land, strax a Omalga Alldre, Eñ hañ hefur flutt Vijn-Vid af Egypta-Lande aptur, af þvi Prældooms Hwsenu, og Grooðursett hañ i þvi Landenu er hañ villde giefa þeim, Ps. 80. Pad ma eg heimfæra uppa oss, hvorra Fedur ad voru Syndareñar og Diofulsins Anaud underokader, er þeir geingu til Maal-lausra Skwrgoda, 1. Cor. 12. Alldrei kuñum vier nooglega ad mikla og upphefia hañs Guddoomlega Speke og Fodurlega Forsioon, ad hañ med þessu Vitringaña Dæme synt hefur, ad sa være i Heimeñ boreñ, sem er vor Fridur og gierer eitt af badum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur afbroted, Eph. 2. þar hañ afmad hefur Ovinskapeñ, hvort ad var Logmal Bodordaña,

 sem

sem var iñefaled i Setningunum fyrer sitt Hollđ, so hañ giørde Tvo ad Einum nijum Mañe og semde Frid, so þar er nu af Gydingum þeim ed trwdu, og Heidingium, er ꜳdur ecke trwdu, orded eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Þetta var þid allra mesta Myskunar Verk, vid þꜳ er voru hinum sꜳrustu Eymdum vafder og mesta Sꜳlar Voda; Eñ so ad Guds Fodurleg Giædska liete oss vita, ad honum og umhugad være um Lijkame vora, þa sier hañ sijnum Elskulega Syne, Hver ad i Volæde aleñ var, Hañ sier honum Farborda med þessu moote sem ꜳdur er sagt. HErra Gud, Hañ kom til siña eigeñ, og hañs eigeñ medtooku hañ ecke, segler Johañes, Cap. 1. Arla syndu þad Gydingar; Hañs Mooder fieck eckert Rwm i Giesta Herbergenu, til ad fæda i Heimeñ Himens og Jardar Skapara, nema eirn Stall, Luc. 2. Eñ Framande Meñ þeir ed eckert af Gude vissu, Þeir koma uñ Lꜳnga Vegu til ad færa honum Giafer. An Efa hefur hiñ Goode Gud þetta giørt medal añars til þess, ad þau eig= skylldu Naud lijda ꜳ Floottanum i Ægypta-Land. Mꜳttugur var hañ ad sïꜳ þeim borged med odru Moote. Hañ gat lꜳted hvort Hey-Strꜳ ꜳ Jorduñe ad Gulle verda. Þad var ecke meira Krapta-Verk, ad leida þeñañ Litla Hoop i giegnum Eydemorkena, ꜳn allra Medala til Ægypta-Lands frꜳ Canaan, helldur eñ morg Þusund Israels Sona wr Ægypto iñ i Canaans Land, og forsorga þꜳ uñ heil Fiorutijger Ar i Eydemorkuñe. Eñ Gud villde hier med sijna bæde Moodur hañs og Foostur-Fodur, sem og ollum þeim, er þetta Evangelium sijdañ heyrt hafa og ꜳ hañs Nafn trwa, ad jafnvel þoott hañ Konungur være, þa være hañs Rijke ecke af þessum Heime, Joh. 18. Og so ættu aller þeir Lynder ad vera, sem honum villdu til Handa gꜳnga, ad lꜳta sier nægiá, 1. Tim. 6. siñ deilldañ Verd, bæde i Medlæte og Mootlæte. Og þegar vier hofum þad vier skulum Fædast og Klædast med, ad vier lꜳtum oss þa nægia ef Gud vill so vera lꜳta: Uppꜳ siñ Eingieteñ Son hafde Gud lagt alla Byrde Syndavorra, Esa. 53. Sw Anaud took til strax i Voggu, añars hefde hañ ecke i Armood fæddur vered, og Landflootta orded, Eñ ef honum var so umhugad uñ hañ, þa er hañ reidur var Syndareñar vegna, ad hañ þetta giørde, ad hañ sende honum Eingla til Þioonustu, þa hañ freistadur var, Matth. 4. Ad hañ sende honum Eingil af Himne i hañs bitra Dauda-Strijde, Luc. 22. Þvi villtu þa orvænta uñ Guds Adstod i Mootgꜳngenum, sem i honum og fyrer hañ ert sættur vid Gud, Col. 2. Og JEsu Christi Samarfe ordeñ. Eru ecke oll vor Hofud-Hꜳar taleñ? Mun þa eitt af þeim falla ꜳ Jordu ꜳn vors Fodurs Vilia, þar slijkt mꜳ ecke eirn Titling henda? Matth. 10. Og hversu dijrmætare erum vier þo Titlingunum, sem med Guds Bloode erum Endurkeypter, Act. 20. Eñ ef Guds Vilie verdur ꜳ oss, hvoriu hofum vier þa ad kvijda? Er hañ Fꜳtækur ad hañ giete ecke hiꜳlpad? Edur Hardsvijradur ad hañ vilie ecke? Þvi moglum vier þa strax sem ecke er fyrer Augunum þad sem eta skal? Hvar fyrer þijngia Meñ Hiortu sijn med Sorgum þessarar Næringar? Luc. 21. Þvi hrippsa þeir Nꜳungans Braud wt af hañs Muñe, sem Vallded hafa, strax sem þꜳ vantar?

Þiv

Þvi svijkia hiner med adskiliañlegum Undañskotum og Rangsleitne er Yfervalldenu eiga Tolla og Tijunder ad gialda? Þvi hallda Meñ Daglaunarans Sveita iñe? Þvi þrettast Meñ a Jñbyrdis i Kaupum og Solum? Allt þetta er af hinum Vonda, og giora þad nockrer af þvi, ad þeir eru so Lynder: Adrer þess vegna, ad þeir hyrda ecke um þott ad þeir brwke Leifar Eckiuñar, og Arf hins Fodurlausa til Ohoofs og Ofmetnadar, Eñ flester þess vegna, ad þeir vantreysta Gude, Eñ hvad miklu betra er ad brwka Davids Raad, Ps. 55. og varpa siñe Ahyggiu uppa DRotteñ, þvi hañ mun þvi vel til Vegar koma. Hañ kañ ad giefa Vatn af Helluñe þegar hañ vill, Exod. 17. Hañ gietur sadt sitt Foolk med Maña, Exod. 16. nær honum þocknast. Hañ gietur synt Agar Bruñeñ a Purlendenu, nær hun til hañs kallar, Gen. 21. Hañ gietur forsorgad Jonas i Hvalfiskfins Kvide, Jon. 2. og jafnvel læted Hrafneñ þañ graadugasta Hræfugl, færa Eliæ Fædslu, 1. Reg. 17. Eñ Vantrweñ segier ad Gud giore ecke Jardteikner eins og a Eliæ Dogum. Eg jaata þad, Þess þarf og ecke vid; Gud hefur so leinge synt oss Giædsku sijna og Almætte, ad vier mættum vel trwa, þott ecke siaaum vier Teikn og Stoormerke; Eñ þo vil eg þad segia: Ad være þar til Eliæ Trw, Eliæ Bæn, og Eliæ Kiærleike, þa er Eliæ Gud eirn og hiñ same, ef honum þætte Krapta-Verkaña vid þurfa. Eñ mier syñest eige þurfa Jard-Teikner til þess, edur ad umbreita Naatturuñar Hattum, ad Gud vardveite þaa sem honum treista, og hañ i Anda og Sañleika akalla, og siae þeim Farborda, bæde þa illa og vel geingur, þvi þess hefur alldrei Mis-Brestur orded fra fyrstu Heims Skopun, allt til þessa Dags. Þad Ord stendur stodugt segier Postuleñ, 2. Tim. 2. ad þecker Gud sijna. Eda vill nockur skrifa honum fyrer, med hvoriu Moote hañ hiaalpa skal? Seig mier, Hvor mindade þig nær þu eingeñ varst? Ps. 139. Hvor forsorgade þig i Moodur-Lijfe? Hvor leidde þig wt þadañ? Hvor gaf þier Alldur og Voxt, Maal og Vit? Giorder þu þetta sialfur? Eda hiaalpader þu nockud þar til med þiñe Ahyggiu? Seig mier: Er þa ecke Lijfed meir eñ Fædslañ? Og Lijkameñ meira eñ Klædnadureñ? Matth. 6. Hvor lætur Grased a Jorduñe vaxa? Segier ecke JEsus ad þad verde ad Akur-Kallenum sofanda, Marc. 4. Hvor plantar Trien i Skoogenum? Hvor lætur Saudena fiolga a Jorduñe? Hvor framleider Fiskana af Sioonum? Hvor giefur Regned a Jordena i Hagstædañ Tijma, Paall sagde Gud giorde þad til Vitnisburdar um sialfañ sig, Act. 14. Være þier eirneñ rignt i Verolldena i Dag, og þu sæer ad allt þetta skiede, munder þu ecke kalla þad Kraptaverk. So verda Guds Almættis Verk, eirn almeñur Hlutur hia oss, i hvorium vier þo ecke hid miñsta skilia kuñum. Hañ lætur mig þo margt Mootlæte þola, segier þu: Þvi maa eg hwngra og þyrsta? Þvi hañ vill kieña þier, ad Madureñ life ecke af einusamañ Braude, helldur sierhvoriu Orde sem framgeingur af Guds Muñe, Matth. 4. Þvi em eg Siwkur og Saar? Til þess, ad Lijkamans Vanheilsa verde ad Andans Heilbrygde. Þvi misse eg þad Gud mier adurlaunad hefur? So þu ecke fester Hiartad þar vid, Ps. 62. Þvi verdur mijnum

kiærustu Vinum og Adstodar Moñum i burtu svipt? Só ad Gud sie hiñ beste Vinur, og þu lærer ad þeckia, ad hiaa honum einum er Hialpeñ, Es. 43. þa oll Mañleg Hialp er ute. Hlusta þvi til þess er Eliphas Temanites sagde vid Job, af hañs Bookar Cap.5. Sañlega er sa Madur sæll er Gud typtar, fyrerlijt þu ecke Straffan hiñs Almættuga; Hañ hreller sialfur og læknar. Hañ slær, eñ hañs Hendur græda. Af Sex Hormungum mun hañ utryckia þier, og i hiñe Siöundu skal eige snerta þig hid Vonda. J Hungrenu mun hañ frelsa þig fraa Daudanum, og i Strijdenu af Sverd sins Hende. Vel er þad satt sem Postuleñ segier, Hebr. 12. Ad oll Typtan medañ hun aaliggur, þyker hun Sorg og eingeñ Glede vera, eñ hun giefur þo epter aa fridsamlegañ Avoxt Riettlætesins. Þar fyrer geingur þad Guds Bornum, so sem hañ um sig jaatar, 2. Cor. 4. Vier hofum þeñañ Fiesiood i Leyr-Kierum, So ad Yferburder Kraptarens sieu af Gude og ecke af oss. J ollu þiaaunst v'er, Eñ verdum þo eige adþreyngder, Vier Efunst, eñ Orvæntum eige, Vier Lijdum Offookn, Eñ verdum eige Yfergiefner, Oss verdur Nidurvarpad, Eñ vier Fyrerforunst þo ecke, Hvar fyrer, Brædur mijner? Þvi ad oss hender eige nema Mañleg Freistne, 1. Cor. 10. Þad er soddañ Mootlæte sem Moñum er bærelegt, Eñ hañ er Trwr, og freistar einkis yfer Megn fram, So ad margur Lazarus, saa ed liggur fyrer Dyrum hiñs Rijka, fullur Kauna, Luc. 16. Hañ er betur til Frids, eñ Eirn Veralldar-Sonur, Hvorn Agyrndeñ Daglega plagar, Hvorium Ofundeñ slijtur, Hvorn Reideñ breñer, Hvorn Hofmoodureñ uppblæs, so hñ hefur eige Frid nema einhvor steite, hvar a moot Guds Vinur hroosar sier af Hormungunum, Vitande ad Hormungeñ verkar Poleñmæde, eñ Poleñmædeñ Reynsluna, eñ Reynslañ Vonena, Eñ Voneñ lætur eige til Skamar verda, Rom 5. Þvi ad Elska Guds er uthellt i Hiortum vorum fyrer Heilagañ Anda sem oss giefeñ er, Rom. 5. Jaatum þad þvi satt ad vera er Jacob segier, Cap. 5. Sæll er sa Madur er Freistinguna þoler, þvi nær hañ reyndur verdur, mun hañ odlast Coronu Lijffsins, Hvorre DRotteñ hefur heited þeim er hañ elska. Heñar niootande ad verda, uñe oss Myskunsamur Gud, Konungur Eilijfrar Dijrdar, Fyrer Son siñ JESUM, AMEN.

# Fyrsta Suñudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

J Þañ Tijma. Og þa ed hañ var Toolf Ara gamall, fooru þaug upp til Jerusalem, epter Sidveniu Haatijdar-Dagsins. Og er þeir Dagar voru lidner, og þau fooru Heimleidis, vard Barned JEsus epter i Jerusalem, Og hañs Forelldrar vissu þad ecke. Eñ þau meintu þad, ad hañ være hiaa Selskapnum Og voru so komeñ Eina Dag-Ferd, og leitudu hañs medal Frænda og

Kuñ-

Kuñingia. Og þa ed þau fundu hañ ecke, Geingu þau aptur til Jerusalem, og leitudu ad hönum. Eñ þad skiede so epter Þria Daga, ad þau fundu hañ i Mustereinu, sitiande midt a mille Lærefedraña, heyrande þeim og adspyriande þa. Eñ aller þeir er hañ heyrdu, undrnduist yfer hañs Skilninge og Andsvorum. Og er þau sau hañ, hnickte þeim vid. Eñ hañs Mooder sagde til hañs: Son miñ, Þvi breitter þu so vid Ockur? Sia þu, Fader þiñ og eg leitudum Harmþrwngeñ ad þier. Og hañ sagde til þeirra: Hvad er þad þid leited ad mier? Vissud þid ecke, ad mier byriade ad vera i þeim Hlutum sem mijns Fodurs eru? Eñ þau underſtoodu ecke þetta Ord, sem hañ mælte til þeirra. Og hañ foor med þeim ofañ, og kom til Nazareth, var þeim og hlijdeñ. Eñ hañs Mooder geimde öll þesse Ord i sijnu Hiarta. Og JEsu jookst Alldur og Vitska, og Naad hia Gude og Möñum.

## Exordium.

Hvor sem ecke medtekur Himnarijke sem añad Ung-Barn, hañ mun ecke iññgaanga i þad, segier Endurlausnareñ, Marc. 10. Hvad skulum vier hier til seaia, Br. M.? Jeg ætla ad Hollde og Bloode mune þetta Ofgar þykia, og er þess öll Von, þvi þau erfa sialf ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Er þar fyrer Lijklegt, ad þau mune ecke kuñá mikla Grein a þeim Hlutum, er til Guds Rijkis heyra. Hverneñ kañ Madureñ ad Endurfædast þa hañ er gamall? Hvort gietur hañ horfed aptur i siñar Moodur Kvid, og fædst so ad nyju? Sagde Nicodemus: Joh. 3. Og slijkar Tölur mun Holld og Blood telia sier: Skal eg æpa aptur eins og Ung-Barn, og verda Vitsyrringur eins og Ung Barn, og laata öllum Laatum eins og Ung-Barn? Eda eru Himnaña Dyr so þraungvar, ad eg verd ad skrijda a Fioorum Footum iñ i Guds Rijke eins og Ung-Barn? Þraungvar eru þær ad soñu, Christeñ Madur, og þad so miög, ad hægra er Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur eñ Rijkum Mañe iñ i Himna-Rijke, Matth. 19. Og Leideñ er þaangad so þraung, ad marger vilia hana gaanga og gieta þad ecke, Ad Vitne Christi, Luc. 13. Eñ ecke er þad Meining vors Frelsara, ad þad sie Vegur til Himna-Rijkis ad gaanga i Bernsku edur i Ungiæde, helldur eñ hitt ad Mañenum byriade aptur ad hverfa i Kvid siñar Moodur. Paulus segier oss best hverneñ þvi hagar, med þessum Ordum: Vered ecke Börn i Skilningenum, helldur i Hreckvijseñe, 1. Cor. 14. Sa er alltijd noogu Vitur, er sier lætur stioorna af Anda DRottens; Hiñ er Faavijsare eñ Nauted og Asneñ, Esa. 1. sem mootstendur Heilögum Anda. Þier þyker þad Vesalmañlegt ad æpa eins og Barn, Eñ ecke þoockte þad David, sem ad Taaradest fyrer Gude um allar Nætur, Ps. 6. Ecke Ezechiæ Konunge, sem tijste eins og Tranañ, og kurrade eins

og Dwfañ, Esa. 38. Ecke Manasse, sem giorde heita Ydran fyrer siinar Synder, 2. Par. 33. Og voru þesser eingeñ Liitel-Meñe. Ecke Petre, sem gieck wt og griet Beisklega, Matth. 26. Og ecke hiñe Bersyndugu, er þvode JEsu Fætur i Tarum sijnum, og þerrade med Haar-Lockunum, Luc. 7. Þesser breittu epter Smaa-Bornunum, og þañeñ ætla eg ad flester hafe geinged iñ i Himna-Rijke. Gud naade vort Eymdar-Stand, hier i Heimenum; Þegar vier vorum Omaalga Born, og vissum eingeñ Deile Goods edur Ills, þa var Himna-Rijke vort: Eñ nær vier drogunst a Legg, gioraſt sumer Helvijtis Ellde-Brandar. Gott er ad soñu ad vaxa ad Alldre, og under eins ad Vitsku og Naad hiaa Gude og Moñum, eins og Barned JESUS. Eñ hvad Illskuñe vidvijkur, Þa ætla eg gott sie ad fara alldrei af Barns Alldre; Þvi kalla eg þañ heppeñ, sem ecke veit af fleire Odygdum ad segia, eñ hañ er fæddur med, jafnvel þo allt sie Holldlegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Eñ þad maa þo ad miklu Leite bæta med Christelegum Aga og Uppfrædingu, aan hvorrar Syndumspillt Naattura, er eins næm a þad Illa, so sem Tundred tekur a moote Elldenum. Uñ þetta vil eg nockud framar tala wt af þessu H. Evangelio, er vier viliũ i Tvo Hlute deila. 1. Uñ Skylldu Forelldraña vid Borneñ. 2. Uñ Barnaña Skylldu vid Forelldrana. Eñ þu sem ordeñ ert Hluttakande Holldẽ og Bloods, eins og Smaa-Borneñ, HErra JEsu Christe; Stioorna þu Hiortum vorum, so oss fwsa giore ad fylgia þijnu Blessudu Dygda Dæme, og send oss þar til Naad þijns H. Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hid Fyrsta sem Forelldrarner eru Bornunum skylldugerr uñ, Þad er Lijkamleg Forsorgun, Fot og Fæde, Þad kieñer sialf Naatturañ; Himen og Jord hreopa þad Daglega. Aller Hluter hafa Forsorgun af þvi sem þeir eru fædder af; Villu-Dijreñ a Morkeñe, Þau grimu Leoneñ, og hinar Olmu Byrnur afrækia ecke sitt Foostur. Tried hefur siñ Vokva af Rooteñe, og Ormum Jardareñar giefur hün sijna Fædu, Og vier erum sialfer komner af heñe i Ondverdu, og oll sijn Born hefur hun fyrer Almættis Krapt DRottens foostrad, allt til þessa Dags; Packer sieu honum ad eilijfu, sem hana daasamlega frioofgar, med Feite Vagnleidar siñar, Ps. 65. Þetta er ad soñu skylldugt og naudsynlegt, Eñ þo er þad hiñ miñste Partur, jafnvel þoott sumer þykest ollu hafa aflokid, þegar so er giort. Þad er þo Haalfverk, Nema miña sie, Þvi betra er ad kasta Afkvæme sijnu wt a Morkena, eñ ad laata þad uppalast i ollum Odygdum, D'oflenum til Þioonustu. Hvad er þa framar? Hvad heyrum vier af Forelldrum JEsu? Þegar Hañ Var Toolf Ara Gamall, Hofdu Þau Hañ Upp Til Jerusalem. J Exod. 34. stendur, ad DRotteñ hafe giefed þetta Bodord: Þrisvar a Are hvoriu skulu aller þijner Karlmeñ mæta fyrer Auglite DRottens Guds þijns: Þessu Bode voru þau Joseph og Maria hlijdug, Og toldu ecke epter sier ad reisa uñ laangañ Veg, allt fraa Nazareth i Galilæa upp til Jerusalem. Merk hier hvad fyrst

maad

æ ad vera i Christelegu Uppelde, sem er Otte Drottens. Pad sem fyrst kiemur i Kierad, pad lyktar pad leingst af, segier hiñ Romverske Ordshættur. So eru og Borneñ, Pad fyrst er hiæ þeim iñplantad, Pvi hallda þau leingst, Eñ eckert er þvilijkt, sem Otte Drottens. Hañ er eins og Sæded pad Meñ i Jordena leggia, Pad kañ eige añad, eñ ad bera sier lijkañ Avoxt: Par fyrer æ pad ad vera þitt Fyrsta Verk, Christeñ Madur, ad iñræta hiæ Barnenu Elskuna til Guds, Og mun allt añad gott med miña Erside æ epter fylgia Læknisdooma giefa Meñ iñ æ toomañ Maga, Og hallda pad gott til Heilsubootar. Vær fædunst i þeñañ Heim siwker af Syndeñe, Pvi i Syndeñe em eg aleñ segier David, Og i Syndeñe hitnade miñe Moodur med mier, Ps. 51. Eñ hvor mun þvilijk Lækning þar vid, sem Elskañ til Guds? Laat þiñ Son drecka hana iñ med Moodur-Miookeñe, Og muntu afla honum Andlegrar Heilbrygde, Og pad ædur eñ allt añad iñkiemur, ædur eñ hid unga Hiarta saurgast af Heimsins Obreinendum, af vondre Umgeingne og illum Dæmum, ad pad sie þa fullt af Elskuñe til Guds og Dygdaña, So þa Satan kiemur og ber ad Dyrum med Hamre Lastaña, Pa verde hañ snarlega broteñ æ Bak aptur, af þeim sem honum er yfersterkare, Luc. 11. Lastadu Blygdunarlaust, Par mun alltijd eitthvad vid loda, Segia hin hreckvijsu Diofulsins Born, sem tamt er ad bera illt i Hofdingiaña Eyru, Til ad afla Fiandmoñnm sijnum Ofocka. Brwka hid sama vid Barn þitt med odrum Hætte. Tala jafuañ um Gud, Hvad goodur hañ sie, og hvorsu Vollduqur, ad hañ hafe Himen og Jord skapad, Hvad miked gott hañ Moñunum veite, Hvorneñ hañ þa daasamlega forsorge, Hvorsu goodur hañ sie þeim, Sem hañ Ottast, Hvad Dijrdlega Vist hañ hafe tilbwed þeim med sialfum sier, Er hañ elska og nockud lijda i Heime þessum hañs vegna, Hvorsu ægiæt Giof ad sie JEsus Christus, Og hvorneñ hañ hafe eirneñ Ungbarn giorst fyrer Mañaña Hiælpræđis Saker. Tala þetta fyrer Barnenu Christeñ Madur, Pad er sw hreina og skynsamlega Mioolk, Sem ad Petur um talar, 1. Pet. 2. Ad vier skulum gyrnast, so ad vier vöxum til Sæluhiaalpar, Og trw mier til, Pad mun eige Avaxtarlaust verda, Jafnvel þoott Bernskañ sie rijk i Ungdoomsins Hiarta, Prov. 22. Pvi af Muñe Smæ-Barnaña og Briooѕtmylkingaña hefur hañ sier Lofed tilreidt, Ps. 8. Petta mææinfalldlegt þykia, Pad er þo pad æn hvors eingeñ hefur vitur orded. Jeg skamast mijn ecke ad tala pad til Guds Barna, sem Moysi þootte eingeñ Mijnkun ad tala til Israels Sona, Edur hvad segier hañ? Devt. 6. Pesse Ord sem eg bijd þier i Dag, Skalltu leggia uppæ Hiarta þitt, Og brijna þau allt jafnt fyrer þijnum Bornum, Og ræda um þau nær þu situr i þijnu Hwse, og binda þau til Merkis æ hijna Hond, og skrifa þau æ þijna Dyrustafe, og þau skulu vera þier Miñingar-Teikn fyrer þijnum Augum: Hvar um talade Moyses þetta? Um Guds Logmaal sem þo deyder, 2. Cor. 3. Hvad mikłu framar mææ eg pad segia um Ord Evangelii, sem er Lijf og Ande, Joh. 6. Og fyrer þvi, ad allt Logmaaled er i Tveimur Bodordum iñefaled, Sem er ad elska Gud af ollu Hiarta, og Naungañ sem sialfañ sig, Matth. 22. Pa undervijsa Barnenu strax æ

unga

unga Alldre, hvorneñ aller sieu ordner eirn Madur i Christo, Gal. 3. Eñ hañ sie Hösuded, Eph. 1. Hvad skamarlegt þad sie, Ad eirn Limureñ forsmaaer añañ, Edur ad þeir toñlest og tyggest iñbyrdis, Par til þeir mættu um̃ siider verda uppetner: Jaa, hvada Merke hiñ goode JEsus hefur sett uppaa sijna Læresveina, ad aller skule þeckia þar þar af, Ad þeir elske hvor añañ, Joh. 13. Brijn fyrer Syne þijnum Christelegar Dygder og Gudrækelegt Athæfe, Hoogværdena, Kiærleikañ, Myskunsemena, Poleñmædena, Riettvijsena, Goodfiisena, Sparsemena, Hugprijdena. Afmaala þær so sem DRotteñs Eingla i hañs Augum, so ad hañ faae Elsku til slijkra Hluta, og hafe þa kiærare eñ allt añad, og þecke hvorsu Gud hafe þa kiæra er slijkt ydka, Og hvorneñ ad aller aagiæter Hluter, Sem Meñ hafa mestar Mætur aa i Heimenum, plage slijkre Atferd epter ad fylgia, So sem er Heidur, Metord, Aststæla, og añad Stundlegt Epterlæte er Gud veiter morgum af sijnum Vinum: Eñ kuñe odruvijse ad falla, Pa sie Dygdeñ sijñ eigeñ Verdlaun i þessu Lijfe, Og hafe Fyrerheit Eilijfrar Sælu i Himnarijke. Laat hañ sem allra seinast naa Odygdernar ad þeckia, Eñ elska alldrei. Drep þeirra Nafn wt i hañs Eyrum, og gior Lestena ad Skrijmslum og Ofreskium, Leid honum fyrer Siooner þeirra Straff og illar Utfarer, Er þvilijkt adhafast, Og ad hañ mune slijkañ Kost eiga, Nema hañ giallde Varhuga vid: Med soddañ Fortolum er Christelegt og Skynsamlegt ad hræda ungar Mañeskiur, Eñ eige med Grijlum, Draugum og Forinium. Upphaf Vitskuñar er Otte DRotteñs, Ps. 111. Eñ ecke ad hrædast Fiendur og Pwka, Hvoria þeir alldrei sied hafa er hvad mest þar um̃ rausa. Umfrom̃ alla Hlute vert sialfur hiñ skiærraste Dygda-Speigell fyrer þijnu Afkvæme. Laat eckert lioott siaast i Fare þijnu, Hvad hiñ Unge kuñe epter ad henda. Borneñ trwa Forelldrunum eins og Gude, Og meina þad sie allt Gott sem þau giora. Laat ecke Hlijdne Undergiefneñar glæpast aa Agne Illskuñar. Fyrer aungvum aa meire Vligdun ad bera, eñ fyrer Einum Ingling. Pad er betra ad giora Lioott eitthvad i Hofdingians Auglite eñ Barnsins. Hvar aa þiñ Sonur Gott ad læra, Ef hañ sier eige til Fodursins añad eñ þad Illt er? Munt þu, sem Lijtum ert hladeñ, hafa gieted hañ so næmañ aa Dygdernar, Ad hañ lære þær sialfkrafa, Er hañ sier alldrei fyrer sier nema Odygder? Kuñe þig þvi Mañlegt ad henda, So sem opt skiedur, Pa tak þier Vara fyrer, ad hiñ Unge Madur vite sem minst þar af, Pvi eg vil helldur ad Ovinur miñ siaae Illt til mijn, helldur eñ Sonur miñ; Pegar eg giæte ad hvorsu þrwng ad Guds Hond vard yfer Jeroboam Syne Nebat, Sem ad kom Israel til ad Syndga, 1. Reg. 14. Pad er og ecke noog ad þu vardveiter sialfañ þig, Vakta og Barn þitt fyrer vondum Selskap, Pvi illt Samtal spiller goodum Sidum, Segier Postuleñ, 1. Cor. 15. Og lijted Swrdeig sijrer allt Deiged, 1. Cor. 5. Jeg sie hier i Gudspiallenu, Ad Joseph og Maria leitudu ad JEsu aa medal Frænda og Kuñingia, Sem voru Gudhrædder Meñ, Eñ ecke medal Illþijdis, Hvar fyrer? Pvi hañ var ecke heshaattar Selskap vanur. Pau fundu hañ og i Musterenu, Sitiande midt aa mille Lærefedraña, Eñ ecke wt aa Strætum

medal

medal Gærunga. Eingeñ kañ um̃ þad Hogum ad hyggia, Hvad vondur Selskapur giører, Pad geingur tregt ad venia vonda Nætturu aa hid Gooda, Hitt er liett ad temia gooda aa hid Vonda. Juda hefde kañskie ecke vered Hluttakare i Mansale † Josephs, hefde ecke spillt honum Selskapur Brædra siña, Gen. 37. Dina hefde hallded Æru siñe, hefde hun ecke komed i Lauslætar Hendur, Gen. 34. Paulus hefde ei offookt Guds Christne, Nema hañ hefde ædur vered druckeñ af Swrdeige Phariſæaña, Matth. 16. Poott ad vier sieum gietner og fædder i Syndeñe, þa er þo Barnaña Hiarta lijkt hreinum Pappir, Par ed aller Hluter verda ritader aa. Ef þad er Gott, Pad blijfur, Er þad Jllt, þad er ecke helldur so liett wt ad skafa, so ecke aa siaae. Um̃geingne Hreckvijsra Maña er heimuglegt Eitur, Eirn Nætur-Pioofur, Ein Mord Pijla, Ein Drepsoott sem i Myrkrunum lædest, Ps. 91. Eirn Hoggormur i Barmе, og Rotnan i Beinunum, Prov. 12. Hallt þvi hinum ungu Arum fraa slijkre Olifian. Barned samþycker þad kañskie ecke strax sem þad heyrer, Eñ trw mier til, ad eitt vondt Ord grefur meir um̃ sig i Hiartanu eñ Flijseñ i Holldenu; Ef nockur stiſngur Fijngrenum aa Vaxed medañ þad er blautt, Pa verdur þar Hola epter, og hun varer þegar þad hardnar, Tekst og ecke helldur i burt nema þad sie brædt aptur. So er og Barned. Pad Eirn Ungur numde, Pad kañ hñ Gamall. Gietur og kañskie ecke gleimt þo hañ villde; og þo hañ kyñe, Pa er betra Heillt eñ Bætt. Laat þvi sem miñst verda Spiolleñ, So eige þurfe ad Endurbæta. Par er Stoorlæte nockurt i flestra Maña Hiortum, Jer. 17. Pvi Madureñ er drambsamt Dijr. Pad er ad söñu skadleg Tilhneiging, Kañ þo til Gagns ad koma, sie heñe vel stioornad, Laat þiñ unga Son læra ad forsmaa þad sem Jllt er, og virda þa ad aungvu sem ecke vanda sialfa sig, Pad Stoorlæte er skadlaust, Pvi Postuleñ segier um̃ þa sem laatast Brædur (þad er Christner) vera, Eñ eru þo Heidinglar i Hiartanu, ad med þvilijkum skulu Meñ ecke Matar-Nautn hafa, 1. Cor. 5. Ad þessu undañgeingnu, Pa venied og Born ydar til Ydne og Astundunar. So sem Lete og Omeñska hefur aflad morgum mikellra Lasta, So hefur Ydne og Eljun margañ Osooma i burtu teked. Hofdinge þeirra Athenuborgar-Maña Solon, Hañ sette Fordum Daga, ad saa sem ecke hefde kient Syne sijnum neitt Handverk, Hañ skyllde ecke eiga skiled af honum Foostur i siñe Elle. Eg kañ ecke ad segia, Ad þad være Christelegt, Hitt segie eg, ad þad var gagnsamt, Po eg valla vite hvad saa er Forelldrunum skyldugur um̃, Sem er uppaleñ i Lete og Omensku, So hañ gjetur ecke feinged sier Atviñu, þa hañ er full þroska. Og þoott aller faae ei til þess komest, ad setia Born sijn til Menta, Pa vited, ad Ærlegt Erfide er Gude eins þægt, Pvi hiaa honum er hvorke Præll nie Frelsinge, Helldur aller Eitt i JEsu Christo segier Postuleñ, Gal. 3. Pad være eige gott ad aller væru Herrameñ, Eg ætla þa yrdu aller Bændur, hvad Verolldeñ eige þoler fyrer Mañaña Jllsku Saker: Bondeñ vid Orfed er eins þægur Gude þegar hañ giører Verk siñar Kallanar, So sem Doomareñ i sijnu Sæte, edur Prestureñ fyrer Altarenu. JEsus var ecke til Boo-



† Man er Præll, Ad selia Mansale, Er ad selja i Prældoom.

ka settur, Pvi sogdu hañs Ovíner, Hvadañ kiemur honum Fræde þesse, Matth. 13. Er hañ hefur þo ecke a Bækur lært? Þad skiede af Guds asettu Raade, so eingeñ kyñe ad segia, þad hañ hefde sijna Speke af Moñum. Eñ Timburmañsins Son, Marc. 6. var hañ kalladur, Og sialfur Smidur nefndur. Pvi er Audvitad, ad hañ mune ecke Ydiulaus vered hafa i Ungdoome sijnum, helldur numed þad sama Handverk, Þo mæla sumer epter Bornum sijnum, ad læra ad leita sijns Brauds i Sveita sijns Andlitis, vitande ecke þad ad saa sem uppelst Ydiulaus, hañ er næst þvi ad deyia Ærulaus; Þvi þegar hañ kañ eckert ad viña, Hvad gietur hañ añad giort eñ ad hlaupa med Þiofnum til ad stela, og verda sijdañ dreigeñ i Gaalgañ til ad haanga? Mar.. t mætte hier um̃ framar tala, Eñ eg læt hier vid bijda i þetta Siñ, Og vil Jhuga fram̃veigis, hvad Borneñ eru aptur a moot Foreldrunum skylldug. Og Hañ Foor Ofañ Med Þeim, Og Kom Til Nazareth, Var Þeim Og Hlijdeñ segier Texteñ. Hvilijkt er þetta Br. M. Skapareñ hlijdnast Skiepnuñe, Gud Mañenum, HErrañ Ambaatteñe. O! miñ HErra JEsu, Hvilijk er Þioo..s Mind þesse? Þad er ecke um̃ Skor fram̃ talad, ad þu lided hefur oss til Epterdæmis, 1. Pet. 2. Merke þad aller þeir ed under Forelldra Vallde eru, og añara sem i Forelldra Stad setter eru, Hvorsu Ovidurkvæmelegt þad er, ad briootast a mooẓe þeim sem v.. ..e einasta eigum sialft Lijfed, helldur og Fooſtur og Upphellde ad þacka. Þier Born, vered hlijdug Fedrum ydar i DRottne segier Paall, Eph. 6. Þvi þad er Riettvijst; Heidra Fodur þiñ og Moodur, Þad er hid fyrsta Bodord med Fyrerheite, ad þier vel vegne, Og þu siert Laanglijfur a Jorduñe. Hvar fyrer segier hañ i DRottne? Þvi ecke einasta vegna Forelldraña, helldur og Guds vegna a þeim ad hlijda. Gud er allra vor Fader, Eph. 4. Og med þvi allra fegursta Nafne hefur hañ auglijst sijna Elsku til vor Mañaña. Hañ kuñum vier ecke ad siaa og lifa, Exod, 33. Þvi hefur hañ sett Forelldrana i siñ Stad, ad vier skulum dijrdka sig med Hlijdneñe vid þaa.

Hiñ Fyrsta Heidur og Lotningu, hefur Gud sialfum sier skiled af Mañenum, Þaug eru iñebundeñ i hiñe Fyrre Bodorda Tobluñe. Þad allra Fyrsta i þeirre Sijdare, hefur hañ laated vera þad Fioorda Bodorded, So sem Hlijdneñ vid Forelldrana være saa Hlutur er um̃fram̃ adra være mest verdur, Þetta er hid Einasta Bodord med Fyrerheite, Og er ecke Olijkende, ad hin Almaattuga Speke sem leikur vid Mañaña Born, Prov, 8. Hafe þad giort i þeirre Meiningu, Ad Ungdoomureñ sem alla Hlute viñur fyrer fogur Loford, Eñ ecke hefur Vit a odrum Dygdum eñ Hlijdneñe, Sem er Root hiña, skyllde hafa eitthvad þad ad gaangast fyrer, sem iñ i Auguñ geinge, Eñ þoott ad Gud hafe hier Tijmañlegre Blessan heited, Þa vite Meñ, ad hitt er eige fraaskiled, helldur þar sem þetta Stundlega endar, Þar tekur hid Eilijfa vid. Sæll er saa sem misser nockud af Leingd Lijfdagaña, Til ad naa sem fyrst iñ i Rijke Himnaña, Þ.. leinge ad lifa er leinge ad syndga, Þad maa og ecke leinge kallast sem einhvorn Tijma sk.. Enda taka, Bregdest þvi Leingd Lijfdagaña hier a Jorduñe, Þa bregdst hun ecke a Lande Lifande Maña. Ohlijdne er Galldra-Glæpur segier Skrifteñ, 1. Sam. 15.

Hvar

Hvar fyrer? Eda hvad er Galldur? Pad er Afguda-Dyrkan, eñ sa hiñ Ohlijdne giörer sialfañ sig ad Gude: Pvi segier Paulus, Rom. 13. Ad sa sem mootstande Valldstioorneñe, hañ mootstande Gude, Eñ hañ ed Forelldrunum mootstendur, hañ giörer hid sama. Pad er nærsta merkelegt sem ad sagde Jeremias Spamadur, vid Sonu Jonadabs Sonar Rechab, Jer. 35. Pegar Jsrael ætte ad utleidast i Herleidinguna med Kviñum og Börnum; Pa sagde Spamadureñ i Guds Stad, til Rechabs Sona; Af þvi þier hlijddud Bodorde Jonadabs Fodur ydar, Og þier giöred sem hañ baud ydur, Vardveitande öll hañs Bodord, Par fyrer segier DRotteñ Allsheriar: Par skal ecke uppræbast Eirn Madur fyrer Jonadab Syne Rechabs, ad eigestande hañ frame fyrer mier alla Tijma. Og ad Meñ vite, Ad Hlijdneñar Fyrerheit nær leingra eñ til Jsraels Sona, Pa voru Rechabitar Framande Meñ, og ecke af Jsraels Sonum, Og var þañeñ Fyrerheited teked fra Börnum Fyrerheitesins, eñ giefed þeim er eige höfdu Fyrerheit. So sia Meñ nu, ad þar er eckert Mañgreinar-Alit hia Gude, helldur a öllu Foolke og Tungumaalum, sem giörer hañs Vilia, hefur hañ Pocknan, Act. 10. Og so sem Gud hefur i Naad siñe blessad Hlijdnena vid Forelldrana, So hefur hañ og i siñe Grimdar-Reide Ohlijdnena straffad. Hrædeleg eru þau Ord er DRotteñ talade vid Samuel, 1 Sam. 3. Um Sonu Eli, Pa þeir trassuduft a moote sijnum Fodur: Jeg skal giöra Eirn Hlut i Jsrael, ad hver þad heyrer, hañs Eyru skulu klijngia þar vid. Jeg hefe svared Eli Hwse: So sañarlega sem eg life, Ad Eli Hwss Misgiörd skal ecke forlijkud verda med Gafum edur Foornfæringum ad eilijfu. Og hvörsu margur hafe hier fyrer straffadur vered, er oflangt upp ad reikna. Fyrer þetta miste Ruben sijna Frumgietningu, Gen. 45. Fyrer þad hieck Absalon i Eikeñe, 2. Sam. 18. Fyrer þad vard Canaan, Sonur Cams bölvadur, Gen. 9. Pad sama utrietté Neronis Hond til ad myrda sialfañ sig, Og adrer hafa med ödru Moote hegnder vered. Og hvad viljum vier langt leita? Giætum ad Oskopum þessa auma Lands: Par Sonureñ skipar Fodurnum. Fadereñ þorer ecke ad tala i midt Hoof vid Soneñ. Fadereñ viñur Bakebrotnu, Sonureñ sefur a bæde sijn Eyru. Fodureñ hwngrar og þyrster; Sonureñ er Fullur og Feitur. Fadereñ hefur aungva Roo fyrr eñ hañ hefur klaked þvi upp, sem hañ gieted hefur, Eñ Sonureñ vill laata Fodurnum vera veitt i öllu þvi hañ lætst giöra, Hvad þo aungvañveigeñ er, Pvi Fadereñ þiggur eckert af Synenum, Pott hañ ale hañ. Hiñ giörer eige meira eñ gialllda aptur þad honum launad var. Ecke þarf eg ad segia, ad fyrer þetta kome Hefnd DRotteñs og Reide yfer Land vort, Pvi þetta er noog Hefnd i sialfu sier, þar þesser, sem so eru uppalder, ganga heilbrigder Bæa a mille, Pad eru vorer Ölmusu Meñ, Og vier fædum þa i Guds Nafne: Pad eru þeir ed utsiwga Hws Eckna og Fodurlausra, og þeir ed drecka añara Guds Barna Sveita, Jafnvel þoott þeir eige i sijnum kigeñ ad næra sig af Jorduñe, Gen. 3. Solon var eitt Siñ adspurdur, Hvar fyrer hañ hefde aungvar Vidlögur haft vid Fodur-Draped? Eñ hañ svarade: Ad

hañ hefde alldrei þeinkt til þess, ad þad munde nockrum i Hug koma. Eg medkieñe og þad, og þacka Gude fyrer, ad hañ hefur vardveitt Land vort fraa so skielfelegre Olucku i laanga Tijma, Jafnvel þott þess Dæme sieu Añarstadar. Eñ saa ed formæler Fodur og Moodur, Prov. 20. Saa ed hæder Fodureñ eñ foraktar Moodurena, Prov. 30. Hañ sem med Illu einu launar alla þa Mædu og Piaaningu, sem hañs Forelldrar hafa uppaa hañ kostad; Hañ sem med Ogudlegu Athæfe, Skoñum og Lostum kvelur þad Briost, fyrer hvoriu hañ boreñ var, So þetta hefur marga Gudhrædda Forelldra til Dauda dreiged: Mun hañ vera laangt fraa Fodur-Morde? Og so sem þad maa hin stærsta Glede vera ad siaa sitt Afkvæme framgaanga i Guds Otta, So hlijtur þad ad vera hin mesta Hiarta-Sorg og Hugar Angist ad siaa sijna eigeñ Saalu illa fara. Borneñ eru kveikt af Forelldraña Veru; Eñ eingeñ hefur um̃ Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur foostrar hañ þad og nærer, Eph. 5. Zelevchus Hofdinge þeirra i Locris, er hañ hafde þad i Log leidt, ad sa sem tæke med añars Mañs Ekta-Konu, skyllde Augunmissa, Þa hente þad hañs eigeñ Son, hvar fyrer hañ liet stijnga wt hañs þad eina Auga, eñ sitt Añad, til ad fullnægia Logmaalenu. Pad auglijste og Psamenites Egyptalands Konungur, þegar Born hañs voru svyvirdt og illa wtleikeñ, þa griet hañ ecke helldur eñ Steirn, Eñ þegar hañ saa Vine sijna til Lijflaats leidda, þa Taaradest hañ miog so, og er hañ var ad Ordsokeñe spurdur, svarade hañ þvi: Ad i Mootgaange Vina siña skylldu Meñ graata, Eñ Barnaña Olucka være stærre og saarare eñ so, ad hun tæke nockrum Taarum: Og allt mun helldur skorta, eñ ad þvilijkt fiñest eñ nu i Dag, jafnvel aa medal vor. Hvad syñest þier þa Christeñ Madur? Hvilijkur Ogiorningur er þad, ad saalga þeirra Hiarta, med Ohlijdne og illu Athæfe, er so heitt elska, af hvorra Saalu, þijn Saala so fast haanger, so sem Jacobs af Benjamins? Gen. 44. Pad var i Logum haft hiaa Athenu Moñum, ad sa sem ecke villde Forelldrana forsorga, hañ skyllde Erulaus vera. Eg kañ ecke ad segia þad Oriettvijst, þvi þar er eingrar Eru Von hiaa honum, sem ecke vill uña þeim Lijfs Uppelldis, sem honum hefur til Lijfsins hiaalpad. Þar fyrer, Born mijn, Giæted ad ydur fyrer Guds Saker, og leided ecke yfer ydur Tijmañlega og eilijfa Olucku, med Ohlijdne og Forsmaan Forelldraña. Pier kalled aller Gud ydar Fodur, sem aa Himnum er, Eñ hañ vill ecke þess Fader heita, sem foragtar sijna Forelldra, Þvi elske hañ ecke siñ Fodur, hvorn hañ sier, Hvorsu maa hañ Gud elska, hañ er hañ sier ecke? 1. Joh. 4. O HErra JEsu Christe! Pu sem Fodurnum hlijdeñ giordest allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Gief þu ad vier fyrer þijnar, og þijns og vors Himneska Fodurs Saker, verdum so allre Mañlegre Skickan undergiefner, 1. Pet. 2. Ad þu vilier oss þeckia fyrer þijn Born aa hinum Efsta Deige, nær þu kiemur ad Endurgiallda sierhvorium einum epter sijnum Verkum, 2. Cor. 5. Sier i Lage bidium vier Goode Gud, Gief Bornunum hlijded Hiarta, og vernda þau fraa vondre Verolld þessare, so þau elske þig, Elske Forelldrana, Elske Yferbodarana, Elske Dygder og Mañkoste, Og i Einu Orde ad segia;

Ad

Ad þau vaxe og þrooest ad Alldre, Vitsku og Naad hiaa Gude og Mønum. Bæn-heyr þad fyrer JEsu Forþienustu, AMEN.

# Añañ Suñudag epter Prettanda.

Gudspialled, Joh. 2. Cap.

Á Þañ Tijma. Þar giordest Brwdkaup i Cana Galileæ, og Mooder JEsu var þar. Eñ JEsus og hañs Læresveinar voru og bodner til Brwdkaupsins. Og er þaa þraut Vijn, sagde Mooder JEsu til hañs: Þeir hafa ecke Vijn; JEsus sagde til heñar: Þu Kviña, Hvad hefe eg med þig? Mijn Stund er eñ ecke komeñ. Mooder hañs sagde til Þioonustu-Mañaña: Hvad hellst hañ segier ydur, þad giøred. Eñ þar voru Sex Stein-Kiер (Kier) sett epter Veniu Ebreskra Maña Hreinsunar, og hvørt eitt took Tvo edur Þriaa Mæler. JEsus sagde til þeirra: Fylled upp Kiereñ af Vatne, Og þeir fylltu þaug allt aa Barma. Og JEsus sagde til þeirra: Helled nu aa, og færed Kiæmeistaranum, Og þeir færdu hønum. Eñ þa Kiæmeistareñ smackade Vatned, þad ad Vijne var orded, Og hañ visse ecke hvadañ þad kom; Eñ Þioonustu-Meñerner sem Vatned sooktu, vissu þad: Þa kallade hañ aa Brwdgumañ, og segier hønum: Aller Meñ giefa i Fyrstu hid gooda Vijned, Og nær þeir taka Ølvader ad gioraft, þa þad hid liettara; Eñ þu hefur geimt hid Gooda allt til þessa. Þetta er hid Fyrsta Jard-Teikn sem JEsus giørde til Cana i Galilæa; Og hañ opeñberade sijna Dijrd. Og hañs Læresveinar trwdu aa hañ.

## Exordium.

Eg hefe Trwlofad ydur einum Mañe Christo, ad eg fære ydur hønum hreina Meyu, segier St. Paull, 2. Cor. 11. Hvør skyllde hafa vogad ad koma so Ordum ad þeirre Einingu sem er aa mille Guds og Maña, hefde ecke Guds Ande fyrstur lagt þad i Muñ siña Heilagra Maña? Og er þad þo ecke ad undra, þvi Ordeñ eiga epter Hlutunum ad lijkia. J Leindardoom Holldtekiuñar vors Frelsara, er Gud samteingdur Mañlegre Natturu, Þad Himneska vid hid Jardneska, Þad Eilijfa vid hid Daudlega, Þad Synelega vid hid Osynelega, Hid Skapada vid þad Oskapta, Og þad med so sterku Bande, ad ecke maa adskilia, Og þar ad auke eru þeir sem Gud elska, eirn Ande med Christo. Þeñañ Orañsakañlega Leindardoom hefur hiñe Eilijfu Speke þocknast ad Jardteikna med Sambwd Daudlegra Maña, Þar



Madur

Madur og Kona samankoma i Ærlegum og Heiløgum Ektaskap. Nu þoott ad Himneskra og Jardneskra Hluta kune valla nockur Jøfnudur ad huxast, auk helldur talast edur gioraſt, þa er þo Einingen aa mille Guds og Mana, miøg so lijk einum Christelegum Ektaskap: Beggia Høfundur er hin Almaattke Gud; Hvørttveggia hefur Kiærleikuren samteingt, so sem hrein Elska fester Gudhræddra Hioona Saaler eina vid adra, So hefur JEsus af Eintoomre Elsku og Kiærleika ofanstijged i vort auma Holld, og giørst Safnadarens Høfud, eins og Maduren Kvinunar, Eph. 5. Og Paulus talar en þa nær þessu i sama Capitula, Segiande: Vier erum Limer hins sama Lijkama, Holld af hans Hollde og Bein af hans Beinum, og med somu Ordum wtskijrde vor Fader Adam þær Teingder, sem Naatturan baud hønum ad være aa mille hans og vorrar Fyrstu Moodur, er han sagde: Þesse er Holld af mijnu Hollde, og Bein af mijnum Beinum, Gen. 2. Þar fyrer Itrekar Paulus eirnig, hina Fyrstu Hioona-Vijgslu, Eph. 5. med þessum Ordum: Af þeim Tveimur skal eitt Holld verda. Vor HErra telur alleinasta Eina Ordsøk til þess, ad Egta-Foolk skilska meige, Matth. 5. Sem er Hoordoomuren. So skilst eige Christur vid nockra syndugs Mans Saalu, þa er han hefur sier eitt Sin festa, nema hun take fram hiaa hønum, Heimen, Hollded og Dioffulen; Og þo segier hin Eilijfa Myskunsemen, Jer. 3. Siaa þeir plaga ad segia: Ef Madur lætur Konu sijna eina, og hun geingur ad eiga annan Man, Mun han hverfa ad henne aptur? Mun ecke þad Land magnlega saurgast? En þu hefur Hooraner drygt med morgum Elskuga. Snw þo aptur til mijn segier DRotten Gud. Egtaskapuren er af Gude Innstiptadur, til ad fiolga Mankynenu i Heimenum, Þad baud Gud i Ondverdu, Er han sagde: Vaxed og margfalldest, og uppfylled Jordena, Gen. 1. Þad Itrekade han epter Flooded vid Noa, Gen. 9. Og þess sama Ords Almættis Kraptur er en nu nijr og ferskur, og mun verda allt til Enda Veralldar. JEsu Brwdur er eirnen nærsta Friooffsom, margra Barna Mooder, hennar Unnusta Spaa, er aa henne farsællega rætt, ad hin Einsamla hefur fleire Børn en hun sem Mannen hefur, Esa. 54. Han hefur med H. Guds Orde Otal Barna vid henne gieted, 1. Pet. 1. Hvør nu standa Umhverfis hans Bord aa Himnum, Ps. 128. So sem Paalma-Vidar Kvister aa Vatns Bockum plantader, Ps. 1. Þess gietur Jacob Postule, Cap 1. Han hefur Sialfkrafa gieted oss med Orde sijns Kraptar, ad vier sieum nockurskonar Frumburder hans Skiepnu. Þessu hrosar Brwdgumen, Esa. 8. Segiande: Siaaed mijn Børn sem DRotten hefur giefed mier. Þar yfer fagnar Brwduren, Esa. 49. Med þessum Ordum: Hvør hefur gieted þessa? Jeg var Obyria, burtflutt og ad Herfaunge teken; Hvør hefur uppaled þessa? Jeg var Yfergiefen og Einsømul. Hvar voru þesser? Christeleg Kyrkia elur Fiolda Barna, þvi hennar Unnuste er alltijd hin same, og hans Ar taka aungvan Enda, Ps. 102. Han er sa Madur Zemach under hvørium Eilijflega grær, Zach. 6. Hvørs Ande ad lijfgar. Gydinganna Samkunda er ein Obyria, þvi hun hefur sleiged sin

Mann

Mañ i Hel, eñ fadmar hiñ af-gamla og wtdauda Moysen, Hvors Bookstafur ad deyder, 2. Cor. 3: Nu fyrst þinum eilijfa Gude hefur þocknast ad teikna so haaleita Hlute med Hioonabands Sam-Vistene, þa giætum þess, Brædur mijner, med hvad mikelle Æru og Virdingu, ad oss byriar ad vanda þa Heilogu Stiett. Þar um vil eg nockud framveiges tala wt af þessu Heilogu Evangelio.

Eñ þu sem oss hefur Trwlofad þier i Naad og Myskunseme, Eilijfe Sonur lifanda Guds: Upplijs þu Hiortu vor, so ad þetta vort Aform farsællega luckest, og gief þar til Naad þijns Heilaga Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞAR Giordest BRwdkaup J CAna GAlileæ, segier Texteñ: OG JESU MOOder Var Þar. Sumer hafa tilgietid ad þesse Brwd-Hioon hafe vered Ætt-Meñ Guds Moodur, Og nockrer hallda ad Brwdgumeñ vered hafe Johañes Postule, þvi hañ eirn skrifar þetta, og þeiger þo um Nofneñ, so sem Plagsidur hañs er, nær hañ um sialfañ sig eitthvad merkelegt skrifar. Um þetta er eckert vijst, rijd ur og ai ongvu. Hitt er audraaded, ad hier hafa Gudhrædddar Persoonur bwed Naaðahag siñ, þvi ecke hefde JEsu Mooder aatt Sess vid þau ella, og er þad af þessu ad læra, ad Meñ take Gudhrædda Meñ til Raadaneitis med sier, þegar slijkt a ad byria, eñ ecke hlaupe til slijkra Efna fyrer Naad fram, ecke helldur hlijdest a Fortolur þeirra, er añad hvort sialfer ecke vita Footum sijnum Forraad, edur fyrer eigeñ Gagnsmuna Saker steypa einum Oreyndum og Faakiænum i þa Grisiu sem hañ maa Æfeñlega gista og alldrei blijdañ Dag siaa. J Ektaskapar Maalum er þad eins og i Strijdenu, þar maa eige villast Tvisvar. Sa sem eitt Siñ fiell i Valeñ, hañ reis alldrei upp sijdañ, og hañ sem byriar siñ Raada-Hag, maa bwast vid ad tebla vid slijkañ Kost allañ siñ Alldur, er hañ teked hefur. Jeg heyre ad JEsu Mooder var hier ad Heimbode, og hañs Læresveinar. Eñ hvad segier hañ sialfur? Matth. 12. Sa sem giorer Vilia mijns Foðurs sem a Himnum er, hañ er miñ Brooder, Syster og Mooder, Þad eru þeir ed Ottast Gud og elska. Slijkum eiga Guds Born epter ad leita. Eingeñ er þvilijk Heimañ-Fylgia sem Otte Guds og ærlegt Upphellde. Abraham liet Eleazar siñ Þienara sveria sier vid Gud, ad hañ skyllde aungva taka Syne sijnum til Ekta af Canaans Dætrum, Gen. 24. So miked þootte honum a þvi rijda, ad Born sijn ecke skylldu draga Ok med Ogudlegum, 2. Cor. 6. DRotteñ Allsheriar lagde rijkt a vid sitt Foolk, ad eige skylldu þeir teingiast þeim Gudlausu Pioodum, er hañ rak wt wr Canaans Lande, Deut. 7. Þad bar til þess, ad eige skylldu þeir villa Hiarta þeirra fraa Gude, og temiast a alla þa Ohæsu, fyrer hvorla hiner voru wt drifner, eda a samt þeim verda fyrer Guds straungu Hefndar Hende, er alla Reidu var wtriett til ad hvolfa hinum fulla Mæler Syndañna yfer þeirra eigeñ Hofud. Syner Veralldar þessarar spyria fyrst allra epter Audæfum og Rijkdoome, so sem oll er Von til, Þvi hvar þeirra Fiesioodur er, þar er Hiarta þeirra, Matth. 6. Nu, maa þo ecke slijkar Guds Saakur lasta, þegar

þad

þad eru hañs Gaafur, og ecke Braud hiñs Volada, Sveite Daglaunarans, edur Hws Eckiuñar, eñ eg sie þo aptur aa moot, ad Heimureñ mun fyrerfarast med ollu þvi sem i honum er, 1. Joh. 2. Og hvor eru þa þess Not sem eirn hefur sett fyrer siñ Gud og ædsta Hiartans Traust? Þar er fliott til ad svara: Hañ er Gudlaus og Huggunarlaus, og auk þessa, þoott vier skylldum epter Mañlegum Plagsid tala, þa jaata eg þad satt ad vera, sem hañ sagde Fordum: Eg vil helldur Mañeñ sem Peningeñ brestur, helldur eñ Peningeñ þañ er Mañeñ vantar, þvi hvad skal Audureñ hinum Arga, edur Bögeñ þeim er eige kañ ad nijta hañ? Þad være eins og ad kaupa margar Horpur handa þeim sem ecke kañ aa Horpu, eda Bækur fyrer þañ sem ecke hefur lært aa Book. Audur er goodur þeim er kañ ad brwka hañ, hinum er hañ eins og rogum Mañe laangt Vopn, eñ eingeñ veit þa Kunst, nema sa sem Gudhræddur er, og giorer sier Vine af hinum gamla Raanglætis Mamona, þa er medtaka hañ i Eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. Og i stuttu Maale ad segia, Saa er einasta Auds verdur sem Audeñ forsmaaer, Ecke þad hañ fyrerlijte Guds Gaafur edur kaste þeim aa Glædur, Helldur fester ecke Hiarta sitt þar vid; Og lætur ecke Mamon drottna yfer sier, Helldur drottnar yfer honum. Og fyrst þessu er so vared, Þa er ecke ad slægiast til Audsins sem aa ad vera Prælleñ, Helldur til Guds Otta sem aa ad vera HErrañ. Adrer eru giefner fyrer Ættum og gofugu Forelldre, Þad er ad soñu aagiætt, Þvi tijdar ber þad vid, ad gooder koma af goodum, og Stoormeñe hafa betre Raad til ad ala upp Born sijn ef þeir vilia vel, helldur eñ Smælingiar. Þo er allt Holldlegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Og aller eigum vier til Adams ad telia, Og ecke taka Meñ alltijd Dygdernar i Arf. Jeg vil helldur ad Eirn giore Abrahams Verk, eñ ad hañ sie Abrahams Sonur, Þvi lijtt gagnar þeim gofugt Affspreinge, sem meir er til Mijnkunar Ætt siñe, Eñ hun kyñe ad vera honum til Sooma, Og nærst er þad hvorium sem sialfur er hañ. Þeir sem þa hafa eñ miña Vit, þeir gaangast fyrer Lit, Og so ætla eg allmarger binde þad Sattmaal, sem eingeñ maa riwfa so ad Skopum fare, nema Daudeñ. Fagurt Gots er þad ad soñu eñ nærsta fallvallt, Þvi allt Holld er Hey, Og allur þess Bloome so sem Gras Akursins. Þegar Guds Ande blæs þar aa, þa visnar þad, Segier Rodd Hroopandans i Eydemorku, Esa. 40. Lijtell Kville, Eitt Oforvarandes Tilfelle, Ein Mij-Fluga, sem er hid miñsta Kvikende, kañ ad eyda Mañsins Frijdleik og hañs Styrk, So þar er ecke epter af. Dygdeñ er Ein, so sem hiñ gamle Cicero sagde, sem er med diwpum Rootum nidur fest, hvor alldrei veikiast kañ, og alldrei wr Stad ad hræraſt, Og ef hañ hafde so miked Traust aa Dygdeñe, Sem þo kuñe ecke ad meta hana odruvijse, helldur eñ añar Heydinge: Hvad dijrt ætter þu þa Christeñ Madur Gudhrædsluna ad kaupa, sem er til allra Hluta Nytsamleg? 1. Tim. 4. Giefed mier þessa sagde Samson hiñ sterke, þvi hun þocknast mijnum Augum, Jud. 14. Þad var diwpvitur Roksemd fyrer Doomarañ i Israel. Dalila þocknadest og so hañs Augum, Eñ hañ vard añars var, Þegar hun olle þvi, ad hañ blindadur var aa þeim somu Augum, Er komu honum til ad gyrnast hana, Jud. 16.

Og

Og maa af hañs Dæme læra þad, ad so verde a Sviñum sem Osviñum, Eñ hvorneñ sem honum er fared, Þa ætla eg ad margur eñ nu i Dag gyrneſt þad er hañ glæpeſt a, og ſañe ſo ſijdañ Ordskvid Salomonis Konungs, Er beſt viſſe af ſlijku ad ſegia, ad vond Kona ſie eins og Reykur i Augunum. Epter ollu þeſſu ſpyria nu heidnar Pioode, Matth. 6. Og þeir ſem eins eru Lynder; Eñ hvort nockur elſkar Gud, edur ræker ſiñ Chriſteñdoom, Edur hefur JEſum ad Heimbode, Þar ſpyria faaer epter af oſs, ſem þo laatunſt Chriſtner vera, Og eg hefe Ovijda heyrt adſpurt i Lande voru, hvort Eirn ſem leitar Konfaangs, Ottaſt Gud, Hvort hañ ræke hañs Bodord, Hvort hañ giefe Olmuſu nema fyrer Fordilldar Skulld, Hvort hañ være Riettſiin, Aſtundunarſamur i ſiñe Kallan edur eige, Hvort hañ hefde Siñe edur Hiarta til ad voga nockru Omake edur odrum Munum uppa ſijna og añara Velferd, Eda hefde adrar Chriſtelegar Dygder til ad bera. Eñ hvort hañ Rijkur være, Kyñe vel ad hræſna fyrer Moñum, kyñe ad koma ſo Aru ſiñe fyrer Bord, ad hañ giæte a einhvorn Haatt ſlopped Mijnkunarlauſt fyrer Almuga, Kyñe vel ad hylia Ulfeñ under Saudar-Giæruñe, Og i Einu Orde ad ſegia, Stela, Svijkia, Liuga og Ræna, under Hylmingu Gudræknenar og Hooglæteſins, Þar hefe eg heyrt nærre þvi med berum Ordum uñtalad, Og ſo er fared Chriſteñdoomenum hia allmorgum. Være þa eige betra ad taka JEſum til Raads og Heimbods med ſier, Sem allt Valld er giefed, Bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Hvor ed allt Stundlegt Epterlæte kañ yfergnæfañlega ad veita Aſtvinum ſijnum, epter þvi ſem hañs Alvitra Raad ſier þeim beſt haga, Og ef hañ þad ecke veiter, Þa veiter hañ þad ſem er ollu ædra, ollum þeim ſem hañ Ottaſt, Sem er ſiaalfur hañ og hañs Vinatta, Sem alldrei bregdſt, Þoott Himen og Jord forgaange. Þad var ſtoor Virding ad JEſu Mooder og hañs Læreſveinar voru ad Veitſlu þeſſare, Eñ þad tekur yfer, ad Meñ heyra i Evangelio, ad JEſus hafe hier ſiaalfur vered. Abraham vard gladur vid ad hañ ſa Dag Mañſins Sonar, Joh. 8. Og þeckte hañ þo valla. Eñ hvilijkt er þetta? Ad JEſus Chriſtus Sonur Guds lifanda, Matth. 16. Voru Hollde Jklæddur, ſañur Gud og ſañur Madur, hañ virdeſt ad prijda Samkomu þeſſa med ſiñe Naalægd.

O! miñ HErra JEſu! Hvad er þo Madureñ þeſs, ad þu miñeſt hañs? Eda Mañſins Sonur ad þu vitier hañs? Hiñ Riettlaate þeſs Ranglaata; Hiñ Odaudlege þeſs Daudlega, Og Konungur Dijrdareñar Pioons Syndareñar? Eñ allt hefur þu þetta giort miñ HErra, til þeſs ad kieña Bornum þijnum, Hvorneñ þau eige ad byria þad Saattmaal, Sem þu hefur viliad laata vera Lijking þiñar Guddoomlegrar Elſku, til vor aumra Maña. Ecke er JEſus einaſta naalægur þeſſum Brwdhioonum, helldur eiga allar Chriſtnar Mañeſkiur þañ ſama Koſt ſem honum vilia til ſijn biooda: Þott JEſus ſie oſs ecke naalægur ſijnelega, So ſem hañ var a Dogum ſiñar Holldsviſtar, þa eiga þo oll Gudhrædd Hiortu Koſt a hañs Naalægd, Þvi hañ hefur ſiaalfur lofad, Matth. 28. Ad hañ villie vera hia oſs allt til Veralldareñar Enda. Ecke hefur hañ þad einaſta ſagt til Læreſveinaña, helldur til allra þeirra ſem a hañ trwa mundu, Þvi Poſt-

ulaña Dagar þrutu laungu fyrer Veralldareñar Enda, Helldur mꜳ hier um ætla þad sama sem DRotteñ sagde Fordum til þeirra: Pad eg segie ydur, Pad segie eg ollum, Marc. 13. Biood JEsu med heitre Bæn til þijns Brwdkaups, Christeñ Madur, og mun hañ ad vijsu verda þiñ Giestur. Riett-trwad Hiarta þarf eige leinge ad leita ad JEsu, Pad er hañs Kyrkia, 1. Cor. 6. Og mun Drottnareñ ecke tefia ad koma til sijns Musteris, þegar hañ til þess kvaddur er, Mal. 3. Eitt Harmþrwnged og sundurknosad Hiarta fyrerlijtur hañ alldrei, Pvi þad er su Foorneñ sem honum lijkar, Ps. 51. Pad eru þær Vister, er honum skal fagna med, og hañs Pegnskyllda hiꜳ Mañaña Bornum. Sie þvi JEsus hiñ fyrste og sijdarste Giestur til allra vorra Brwdkaupa: Par sem hañ er, þangad vill Fadereñ og H. Ande koma, og Vistarveru hiꜳ þeim giora, Joh. 14. sem Guds Syne hafa til sijns Brwdkaups boded. Adrer Viner og Giester yfergiefa oss og kañast valla vid oss epter ꜳ, Sierdeilis ef nockud skyllde ꜳ þeim liggia, so ad Vinskapureñ er wte, Pegar af er Koñuñe. Peir hafa Matar-Ast ꜳ oss, Eñ ongva adra Flest aller. Eñ JEsus yfergiefur alldrei þa, Er honum treysta. Snarara kañ Fadereñ ad giefa Synenum Hoggorm fyrer Fisk, og Stein fyrer Braud, Luc. 11. helldur eñ Gud kuñe ad neita þeim um goodar Gꜳfur, Er hañ med Riett-trwudu Hiarta þar um bidia. Helldur kañ Moodureñ ad gleyma sijnu Barne, Avexte sijns Kvidar, Es. 49. Helldur eñ JEsus kuñe þeim ad gleyma, Sem hañ elska. Og fyrst þesse Giestur er so ꜳgiætur, sem nu er sagt, Pa sieu oll Christeñ Ekta-Hioon alvarlega ꜳmiñt um, ad skicka sier so i sijnum Ektaskap, Ad þau fæle ecke i burtu frꜳ sier, so milldañ, so Giæskurlijkañ og so Vollduguñ HErra. Paulus leggur Heilræde hier til, Eph. 5. Segiande: Pier Meñ, elsked Egta-Konur ydar, so sem Christur Sofnudeñ, og gaf sig sialfañ wt fyrer hañ. Omogulegt er ad soñu Daudlegum Moñum, ad vera so fullkomnum i Elskuñe hvor vid añañ, so sem Christur hefur vid oss vered, þo kuña Meñ ad breita epter hañs Elsku, So miked sem mogulegt er. Mier þyker Lijklegt, ad sꜳ sem tijdt hugsar til þess, Hvorsu kiæra ad JEsus hafde hañs Sꜳlu, Pegar hañs Sꜳla vard hrygg allt i Daudañ, Matth. 26. til ad wtvega syndugum Sꜳlum eillijfa Glede, hañ mune skyrrast vid ad hata sitt eiged Holld, Eph. 5. Og afrækia þad sem ꜳ ad vera Ein Sꜳla med honum. Eñ Gud nꜳde, Hvad fꜳer hugsa hier til? Og hvad Olijkur er sumra Maña Egtaskapar Underbwningur og Sambwd, Christi Elsku til siñar Brwdar. Losta og Lꜳtgiæde raka marger til Rꜳds med sier, Pegar so Vegsamlegañ Rꜳdahag skal byria, Peinkiande lijted um þad, hvort þeir giete veitt sier og sijnum ærlega Forsorgun, Eda hvort þeir bere Vit og Meñingu til ad ala Born sijn upp i Guds Otta og goodum Sidum. Allt Of-marger hlaupa samañ med litlu meire Ahyggiu, Eñ Hestar og Mwlar, Og þegar Gyrndeñ er slockt um Stundarsaker, Pa yfergiefur hvort añad, edur lifa i Hioonabandenu eins og Vargar: Frillulifnadur er slijkt, og ecke ærlegur Ektaskapur, Og þoott þad kallest so fyrer Moñum, Pa er Guds Doomur odruvijse eñ Mañaña Doomar, Sꜳ sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, Hañ hefur

allareidu drygt Hoor med henne i sijnu Hiarta segier Lausnarenn, Matth. 5. Par af rædꝛ eg, ad sa sem ætlar Konu sinne Einlæte (Edur Kona sem feigenn villde vera vid Mannenn skilenn) Þau hafa allareidu yfergiefed hvort annad. Sa sem illa med henne lifer, hann hefur tapad hinum betra Hluta Egtaskaparens sem er Eining Hiartnanna, og i sundur slited þad sem Gud hefur skipad ad eitt skyllde vera, Gen. 2. Christur gaf sitt Lijf i Daudann fyrer sijna Brwde, Eph. 5. Ad sønnu er þad valla heimtande af syndugre Nattturu, ad hun so heitt elske, Þo eru þess morg Dæme Annarstadar i Heimenum, ad margur vogar Lijfenu fyrer Kvinnu og Born. Enn hvad giora Menn i þessu Idiulausa Lande? Þad sama sem Salomon segier umm Letingiann: Eg vil enn þa sofa lijted, Og enn nu dotta nockud, Og enn þa leggia mijnar Hendur samann litla Stund, Þanngad til Orbyrgdenn kiemur, So sem eirn Ferda-Madur, Og Skorturenn eins og ein Hetia, Prov 6. Konurnar hafa og Bodord af St. Paale i þessum sama Capitula, Sem eg adur umgat. Hann segier: Konurnar vere sijnum Monnum undergiefnar so sem DRottne, Þvi ad Madurenn er Konunnar Hofud, So sem Christur Safnadarens. Par fyrer so sem Sofnudurenn er undergiefenn Christo. So eiga og Konurnar ad vera sijnum Monnum undergiefnar i ollu. Med Elsku a slijkt ad vera, Br. M. Enn eige med Ofbellde. Madurenn er ad sønnu Konunnar Hofud og Herra, Gen. 3. Enn hans Herradæme a ad vera innefaled i Elsku og ecke Ofrijke. Hofuded sier fyrer Lijkamanum til þess ad honum vel vegne, enn ecke meide sig edur steite. Hiner adrer Limerner wtrietta þad sem Hofuded alyktar, Enn þad a so fyrer ad siaa, ad eige sie til Skada nie Hindrunar. Stioorne Menn Konum eins og Christur Sofnudenum, Hann rædur alldrei nema til Farsælldar, Þeim sem vilia laata sier af hans Anda stioorna. Enn su Manneskia, sem ecke vill hans Raadum hlyda, Hun kann ecke ad heita hans Brwdur. So giet eg eige helldur kallad þa Egta-Konu, sem ecke vill fara ad goods Manns Raadum. Ecke helldur þann Egta-Mann, sem illa rædur, Ef hann hefur betur Vit a. J Moysis Logum bannade Gud ad nockur Kallmadur skyllde fæÿra sig i Kvenna Bwning, Og ad ein Kona skyllde bwa sig eins og Kallmadur: Þetta er Lijklegast, ad hinn Alvitre Konungur hafe sett til ad balldagooda Skickun medal sijns Foolks, og til ad afstijra Lauslæte og Hneixlis samre Umgeingne millum Karla og Kvenna. Enn þo kynnu Menn þess til ad gieta, ad a medal annara være hier med teiknad, ad eirn Kallmadur skyllde ecke laata þad Valld, er hann epter Guds Bode hefur yfer Konunne, Og Konann eckert Valld taka sier til, yfer Mannenum, Þvi ein Kona sem vill raada fyrer Boonda sijnum, Hun tekur uppa sig Kallmans Bwning, Og eirn Egta-Madur er so miog vellteft wr sijnu Boonda-Sæte, ad hann lætur Konuna fyrer sig raada, hann bijr sig Kvenna Bwninge, Og maa ei framar Hwsbonde kallast, og er hvortveggia þetta ad umhversa Guds Skickun, Þvi hvortveggia hefur hann bannad, Er þad þvi ein Andstygd fyrer honum. Þetta segie eg ecke þess vegna, ad eige sie þad Soomasamleat hverium Manne, Ad þeckiast holl Raad goodrar Konu. Hefde Pilatus hlijdt Konu sinne, Þa hefde hann ecke giorst sekur i Bloode hins Riettlaa-

ta, Matth. 27. Aurelianus Keysare gaf þañ Vitnisburd Zenobiæ Drottningu, ad med heñar Rædum og Fylge, Hefde Odenatus heñar Hwsboonde Persana sigrad. Munde þad skada David ad hañ hlijdde Abigael? 1. Sam. 25. Edur Joab Ræde Kviñuñar i Abel-Beth-Maacha? 2. Sam. 20. Þvi segier og Salomon, Prov. 14. Ad ein skynsøm Kona bygge Hwsed: So kañ og opt til ad bera, ad Kviñañ sie framar Vite boreñ eñ Madureñ, og er þa eingeñ Mijnkun ad fallast aa Ræd heñar, Eñ þar fyrer aa hun ecke ad hefia sig upp yfer Mañeñ. Eirn Þienare kañ ad skynia margt framar eñ hañs Herra, Samt er hañ þo ecke Herra.

Þad kañ og opt ad henda sig, Ad Eirn Rædgiafe sie vijsare eñ hañs Konungur, Samt er hañ þo ecke nema Rædgiafe; So er og ein Kona alldrei nema Kona, Hvørsu sem hun er vel ad sier um̃ alla Hlute, Hun kiemst alldrei hærra eñ ad vera Høfud-Prijde Boonda sijns, Eins og Salomon talar um̃ goodar Konur; Vilie hun meira vera, þa smæænar hun bæde sig og hañ, Og heiter hun þa Rotnan i hañs Beinum, Prov. 12. Sem er eingeñ Æru-Titill. Gud hefur Hlutunum nærsta vijslega hagad; Mañenum hefur hañ giefed Afl og Vitsmune, Konuñe Fegurd og Blijdlæte, Hvørutveggе eiga so sijnar Gæfur ad brwka ad Gude þockneft. Kallmadureñ aa ad brwka Styrkleika siñ til Erfides, Eñ ecke til Offtopa, Vitsmynena til Forsioonar, Og ecke Hreckvijse: Konañ Fegurd sijna til ad þocknast Mañenum, Þvi þad hefur Gud skapad i Nattuñe, Eñ eige til Lauslætis, Þvi þad hefur Diøfulleñ iñfært i Heimeñ. Blijdleika siñ til ad æviña Mañsins Giedsmune, Eñ ecke til ad svijkia hañ til vondra Verka, Eins og Jessabel, 1. Reg. 21. Jeg Jtreka eñ þa aptur hina fogru Pæls Samlijking um̃ Christum og Søfnudeñ, Þvi hvørge er Christelegum Egtaskap meire Virding giør, Eñ i heñe; Þoott Sonur Guds lifanda hafe virdt oss þess, Ad kalla oss sijna Brwde, Þa er hañs Dijrd øngvu ad miñe, Helldur øllu meire i allra þeirra Hiarta sem hañ elska; Hañs Brwdur hefur og alla sijna Æru og Virdingu þar af, ad hun er hañs Brwdur, og elske hañ eirn og virde, Og þar fyrer utañ hefur hun øngva. Konañ hefur og øngva Æru þegar hun Ovirder Mañeñ. Pæll segier, Eph. 5. Ad sa sem elske sijna Egta Konu, Hañ elske sialfañ sig, Og sama er um̃ Konuna ad segia, Þegar hun Mañeñ virder, Giører hun sialfre sier Virdingu, Og su þad ecke giører, Hun riifur Guds Skipan, og setur Skørena upp i Beckeñ: Þvilijkt Hioonaband er ecke øllu Skickanlegra, helldur eñ ef einhvør geinge aa Høfdenu. Salomon segier, ad ein þægeleg Kona, sie Corona Mañsins, Prov. 12. Og er þad i þvi mest iñefaled, ad hun hlijdeñ sie, Og giøre hønum allt til Sooma. Þeir sem nu JEsum vilia hafa med sier ad Heimbode, Þeir skulu med slijku Skape gaanga ad eigast, Þa mun alltijd velfarnast og alldrei illa, Þa mun Christi Ok sætt siñast og hañs Byrde liett, Matth. 11. Ef hønum þocknast ad speña sijn Børn fyrer siñ Ploog. Romveriar sem og Grícker hafa nefnt Hiooneñ med sama Nafne sem Aknepte þau er draga eitt Ok. Nauteñ verda þvi so von þegar þau samsveitast, ad eitt hiælpar ødru til, og eitt hegdar sier so i sijnu

Erfide

Erfide vid añad, ad Ploogüreñ kuñe sem liettast aafram ad gaanga. Siaaum til Christ-ner Meñ, ad eige sieum vier lakare eñ þau Viñu-Dijreñ er Gud hefur sett oss yfer, og giefed oss til ad lietta under vort Erfide, med hvoriu vier eigum ad næra oss af Jord-uñe, þar hañ hefur so miklu meira til vor lagt eñ þeirra, ad fyrer utañ hiñ fagra Lij-kama er hañ hefur oss giefed, og hina Skynsemdarfullu Saal er hønum stioornar, þa hefur hañ Endurkeypt oss med sijnu eigeñ Bloode, Act. 20. Hosum Raad JEsu Moodur, Er hun sagde til Pienarañа: Hvad Hellst Hañ Skipar Ydur Pad Giored. Eñ hvor eru þa hañs Raad? Paall segier oss þad, Gal. 6. Eitt bere añars Byrde, og þa munud þier uppfylla Christi Logmaal: Pad hefur ad soñu Postuleñ ollum sagt, eñ ecke sijdst Hioonunum. Pa mun hin Almaattuga Orlætis Hond er sedur allar lifande Skiepnur, bæta allañ vorn Brest, og snwa ollu Vatne Mootlætingañа i sætt Vijn Gledeñar. Og þegar Verolld þesse hætter ad dryckia oss med Vijne sijns Munadar, og þad tekur til fyrer Yferburde Peckingareñar DRotteñs vors JEsu Christi ad sma-cka oss illa, þa vier fiñum aungva Huggun i Heimenum, og hañ dryckiar oss med Galle og Edike eins og vorn Brwdguma, Matth 27. Pa mun JEsus giefa hid gooda Vijned, Pa mun hañ drecka oss til af Nægdargiædum sijns Hwss, Ps. 36. Pa mun hañ laata oss smacka Sætleik Epterkomands Alldar, Hvor ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Hvors niootande ad verda hi-er i Naadeñe, og sijdañ eilijflega i Dijrdeñe, oss uñe og veite Gud Himneskur Fad-er, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar JEsu Christi, AMEN.

## Pridia Suñudag epter Prettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

Y Pañ Tijma. Og þa ed JEsus gieck ofañ af Fiallenu, fylg-de hønum margt Foolk epter. Og siaa þu, Ad Lijkpraar Madur kom, tilbad hañ og sagde: HErra, Ef þu villt, þa gietur þu mig hreinsad; Og JEsus riette wt Hondena, aa-hrærde hañ og sagde: Eg vil, vertu hreinn; Og jafnsnart vard hañs Lijkpraa hrein. Og JEsus sagde til hañs: Siaa þu til, ad þu segier þad eige neinum, helldur far þu og synt þig Kieñemoñnun-um, og offra þeirre Gaafu, er Moyses baud til Vitnisburdar yfer þe-im. Eñ þa ed JEsus gieck iñ i Capernaum, kom til hañs Hundrads Hofdinge nockur, bidiande hañ og sagde: HErra; Pioon miñ liggur Limafalls siwkur heima, og kvelst þwnglega. JEsus sagde til hañs: Eg vil koma og lækna hañ. Og Hundrads Hofdingeñ svarade og sagde: HErra; Eg em þess ei Verdugur, ad þu gaanger iñ under

mitt Þak, Helldur seig þu eitt Ord, og mun miñ Pioon Heilbrygdur verda. Þviad eg em Madur Yfervalldenu undergiefeñ, hafande und er mier Strijds-Foolk, Og nær eg segie þessum; Far, þa fer hañ, Og ødrum; Kom þu, og hañ kiemur, Og Þræle mijnum; Gior þetta, og hañ giører þad. Eñ þa JEsus heyrde þetta, undradest hañ, og sagde til þeirra er hønum epter fylgdu. Sañlega segie eg ydur: Ad þvilijka Trw hefe eg ecke funded i Israel. Eñ eg segie ydur: Þad marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnaña, Eñ Rijkesins Syner munu verda wtrekner i hin Ytstu Myrkur, þar sem vera mun Oop og Gnijstran Tañaña. Og JEsus sagde til Hundrads-Høfdingians: Gack þu hiedañ, verde þier epter þvi sem þu trwder. Og hañs Pioon vard Heill a þeirre sømu Stundu.

## Exordium.

Alla er nockur sa Vitnisburdur i Heilagre Ritningu, er so Kroptuglega votte, ad Gud og Madur eru Samteingder i eirnre Persoonu DRottens vors JEsu Christi, sem þau Ord er skrifud standa i Pistlenum til Col. 2. Cap. Þar Postuleñ segier: Ad i Christo bwe øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega. Nærsta Bermælltur hefur Paulus vered um Leindardoom Holldtekiuñar vors Frelsara i þessare Maals-Grein, þvi hvar Guddoomsins Fylling bijr, Þar bijr Gud allur, og allur hañs Kraptur, Hañs Almætte, Hañs Guddoomlega Speke, Hañs Riettlæte, og hañs mikla Myskunseme, og allt añad sem Mañleg Hyggia kañ ad giora sier i Lund um Guds Orañsakañlega Veru, Og þar Gud bijr Lijkamlega, Þar bijr hañ so sem Saaleñ i Lijkamanum, Og so sem Saaler vorar eru samteingdar Lijkamanum; So ræd eg af þessum Postulans Ordum, ad Gud hafe Samteingdur vered Christi Mañdoomlegre Natturu, Og þvilijka Ordshattu ma fleire lesa i Sende-Brefum hiñs Heilaga Pauls og añara Guds Maña. Nu þo ad vor Frelsare hafe allmarga Vôtta siñar Guddoomlegu Hatignar, og heñar Ibwdar i voru Hollde, Þa hefur hañ samt eñ þa framar viliad styrkia þesse Sañinde um siñ Guddoomlega Krapt, med Taaknum og Stoormerkium, Hvor eingeñ kuñe ad giora nema Gud, Sem alleina Dasemdar Verkeñ giører, Ps. 136. Þetta ætte ecke ad miñstu Leite ad styrkia Trw vora, Brædur mijner, i Eymda-Dal þessum, Þvi hañ er Gud sem vort Holld og Blood hefur uppa sig teked. Gud er i Hollde voru freistadur a allañ Hatt lijka so sem vier, þo an Syndar, Hebr. 5. Gud kañ ad sampijnast vorum Eymdum. Gud hefur vora Siwkdooma bored, og votum Ørkumslum a sig hladed, Esa. 53. Gud er pijndur i voru, og þo i sijnu Hollde, Fyrer vorar, Eñ ecke sijnar Synder. Gud hefur med sijnu

nu eigeñ Bloode Christnena Endurleyst, Act. 20. Gud hefur giefed oss siñ Lijkama til Nautnar, Og med Bloode sijnu hefur hañ dryckiad oss, Joh. 6. Gud hefur i voru Hollde lided, Og i þvi sama er hañ iñgeingeñ i sijna Dijrd, Luc. 24. Og hefur sett sig til Kraptarens Hægre Handar, Hebr. 1. J þessare Trw ætte oss ad styrkia medal añara, Þad Heilaga Evangelium er vier strax heyrdum lesed; J hvoriu vor Blessade Endurlausnare med Tvosolldu Kraptaverke auglyste siñ Guddoomlegañ Maatt og Vellde; Eñ sokum þess, Ad eg fyrer vijst veit ad þar er eingeñ af ydur, Sem efar hier uñ, Og eg hefe þeñañ Formaala talad, laangtum helldur til Uppvakningar i Packlætenu vid Guds Sonar Oumrædelega Giædsku, helldur eñ til ad telia nockrum Trw uñ þad Hlute sem aller jaata saña ad vera, og eingeñ Tvijmæle leika aa i nockurs Mañs Hiarta, Þa vilium vier helldur, aa þessare haalfre Stundu Jhuga, hvorneñ vier eigum þessar Guds Daasemder og Velgiorninga oss i Nyt ad færa. Og skulum vier þvi alleinasta i þetta Siñ oss fyrer Hendur taka hid Fyrra Kraptaverked, Uñ Lækning hiñs Lijkþraa, og þar af yfervega. 1. Hvad Skadsamlegur og Vidurstyggelegur Siwkdoomur ad sie hin Andlega Lijk-Þraa, SYNDEñ. 2. Hvorneñ vier eigum af heñe heiler ad verda. Eñ þu goode Meistare JEsu, Sem vor Kraankdæme hefur bored; Tala þu Eitt Ord oss til Lijknar hiaa þijnum Himneska Fodur, ad hañ sende oss siñ Anda til þessa Verks, og munum vier Heilbrygder verda; Bænheyr þad O HErra! fyrer þitt Dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hier stendur i Upphafe Gudspiallsens, Þegar JEsus var komeñ af Fiallenu, hafe honum mætt Lijkþraar Madur. Ollum er oss kuñugt, hvorsu skiædur ad er þesse Siwkdoomur, Þar hañ smijgur i giegnum Ædar og Synar, Holld og Bein, eins og nockurskonar Eitur, og er so ad segia almeñeleg Rotnan Lijkamans. Hvar fyrer Aaron sagde Fordum Daga, Num. 12. Er hañ bad fyrer Systur þeirra Moyses og sijna, Mariam, þa hun hafde moglad siaalf og giñt hañ til ad mogla aa moote Gude og Moyse, og vard þar fyrer med Lijkþraa sleigeñ. Allijt mig miñ HErra sagde hañ: Eg bid, Legg ecke aa ockur Giolld Syndareñar, med hvorre vid hofum Daarlega breitt og syndgad. Jeg bid, Ad eige verde þesse lijk Hræe þvi, Hvors haalfur Lijkame er uppeteñ þa þad wtgeingur af Lijfe siñar Moodur. So bañvæn sem nu Lijkþraaeñ er, Þa er þo Syndeñ haalfu verre, bæde Saalu og Lijkama hefur heñar Spilling iñteked, Eingeñ Limur Lijkamans, Eingeñ Tilhneiging Saalareñar er sw, ad eige striide i giegn Gude. Augun hlaupa epter siñe Fysn og Drambsomu Lijserne, 1. Joh. 2. Muñureñ bijr yfer Hoggorma Eitre, Rom. 3. Hendurnar wtrietta Meñ til ad ræna og stela, Til ad slaa og deyda. Fæturner eru skiooter til ad hlaupa hiñ breida Veg, Sem til Glotunareñar liggur, Matth. 7. Eyrun daufheyrast vid DRottens Orde, Ps. 58. Eñ klæia epter nijum Lærdoomum, 2. Tim. 4. Epter Roog og Bakmælge, Epter Naungans Ohroodre, og naalega ollu þvi, Er Meñ vilia þar Illt i heyra. Nasernar hitna af Foolsku, þegar

ar vier siaum þañ, er vier þykiunst eiga nockrar Heipter ad giallda, Edur ef einhvør vird er þetta faanijta Rlk og Oskunockru miña, helldur eñ heñar Mikelæte hlijda þyker, Þeg ar Luckuñar Svipvinde hefur hvirflad heñe uñ Stundarsaker i Lopted upp til ad blinda þeirra Augu, er oss samfara verda uñ Eymda Dal þeñañ, Edur mæta oss i honum, Veit þo ei nær eñ þad fellur aptur aa Jordena, hvadañ þad kom, og verdur Footum troded, þegar Vedrenu slotar, Sem þo litlu aadur numde vid Skyeñ, Og faavijsum Moñum þootte, sem ad fære aa Vængium Vindaña, Ps. 104. Næst Gude yfer Himen og Haudur. Skynsemeñ er aflogud, So þegar Holided rædur fyrer hana, þa er hun Ovinaatta i giegn Gude, Rom. 8. Vilieñ er haalfu verre, Þvi hañ kiepper i moote Andanum, Gal. 5. Og af Hiartanu frañkoma illar Huganer, Agg, Reide, Præta, Mord, Mañdraap, Hooraner, Matth. 15. og añad þvi uñ lijkt. So er þesse vesæla Tiallt bwd ecke añad eñ eitt Hospital daudsiwkra Lima, sem af Andskotanum og Syndeñe eitrader eru. Þad jaatar Esajas Cap. 1. Þar hañ segier: Ad allt Hofuded sie siwkt, Allt Hiartad sie veikt, Fraa Hvirfle og allt til Ilia, sieu ecke nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote. Adrar Sootter verda flestar med einhvoriu moote læknadar, Eñ Lijkþraaeñ ecke, Hun skilur eige vid Lijkamañ fyrr eñ Lijkameñ skilar Saaleñe. Fweñ i Grofeñe, er Eydelegging heilbrygdra Lijkama: Hañ maa kallast Uppbygging þeirra, sem rotna lifande, Þvi sielegre er ein Molldar-Hrwga, Eñ Lijkþraa Mañeskia. Syndeñ er i ongvu betre, Nema midur sie; Hun skilur eige vid oss, Æ so leinge vier berum epter oss þeñañ daudlega Lijkama, Þvi þoott vier sieum fyrer Guds Almættis Krapt i Heilagre Vatns-Laug Endurfædder, Samt grær þo alldrei ad heilu, uñ hid gamla Mein Adams Spillingar, og hid eitrada Hoggorms Bit. Andeñ er ad sonu Reidubweñ, eñ Holldeð er veikt, Matth. 26. Og þau Tvo berast Bana-Spioot epter, So eins Lijf eñ añars Daude; Þoott vier sieum greptrader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, Rom. 6. þa lifer þo Neiste Syndareñar i Molldeñe, Sem optlega vekur hiñ gamla Adam aa Fætur aptur. Þad geingur eins uñ vorn Eymdar Hag i þessu Lijfe, eins og Josua skrifar uñ Israels Sonu, Jos. 23. Þa þeir forsoomudu ad wtreka hina Canaanisku epter Guds Bode, Ad Gud hafe laated þeim epter nockra af þeim Þioodum, er hañ formællte, þeim til Asteitingar, Þad er þeim til Mootlætis: So er þad og fyrer oss, sem geinguer erum yfer uñ Jordan epter JEsu, Þad er i giegnum Heilaga Vatns-Laug, til ad byggia i þvi fyrerheitna Landenu, Sem er Rijke Guds Sonar. Þar verdur þo alltijd nockud epter oss til Asteitingar, Hellst af þvi vier erum Toomlaater ad stockva þeim O-Alldar Flocke, sem Gud hatar, Eins og Israel i Canaan, So ad hier uñ hafa eirneñ Heilager kvartad, Og medal añara St. Paull, Rom. 7. Þar hañ segier: Ad hid Vonda lode vid sig, þa hañ vilie giera hid Gooda. Nu er þañ Veg Syndeñe vared; Br. M. Og þad maa uñ hana segia, Sem Hañibal saade Fordum uñ Romveria og þeirra Borg: Ad baagt munde Ulfum þeim fyrer ad koma, Nema Skooguren hoggveñ være, er þeir plogudu ad flija i; So verdur og eige helldur Syndeñ afmaad,

Fyrr

Fyrr eñ þetta heñar Hreise er nidurbroted, Og er med soddañ Moote þess Kostur betre sem daudur er, helldur eñ hiñs er sig kallar ad lifa, Allt eins og hiñs Lijkþraa. Þad syneßt mier St. Paall samþycke, þegar hañ segier: Ad Daudeñ sie siñ Abate, og ad hañ gyrneßt ad leysast hiedañ og vera med Christo, Hvad hañ kallar miklu betra, Phil. 1. Eñ i þvi maa Lijkþraaeñ kallast Heilbrygde hiaa Syndeñe, Ad hun skilur vid Mañeñ i Daudanum, Eñ Syndeñ fylger øllum þeim epter Daudañ, Sem ecke verda med JEsu Bloode afþvegner i þessu Lijfe, So þeirra Reikur mun uppstijga um̃ alla Eilijfd, Apoc. 14. Þeirra Elldur ecke slockna, og þeirra Ormur ecke wt af deya, Es. 66. Lijkþraaeñ er afskræmelegur Siwkleike, Hun eyder Mañsins Fegurd, So adra heilbrygda Meñ stuggar þar vid, og þeir fordast þeirra Naalægd, Jafnvel þeir sem af Christelegre Medaumkan hræraſt Myskunar yfer Eymdum þeirra. Þar fyrer baud Gud, Levit. 13. Ad soddañ Mañeskiur skylldu hylia Asioonur sijnar. Ecke er Syndeñ betre, Ef vor Augu væru so skign, Ad vier siaa mættum heñar O-mynd. Vier høfum Vidbiood aa þeim Lijkþraau, af þvi vier erum ecke aller eins af Gude plaagader, Eñ vor Andleg Illsku-Kijle og Graptrar-Mein kyssum vier Iñbyrdis, og laatum vel yfer þeim, nema þau hafest so illa, ad Faadæme sieu slijkra Vanheilenda, Og ber þad til þess, ad aller vier erum med slijku Marke brender, sumer meira, sumer miña, Þvi eingeñ er saa ed gott giøre, og ecke eirn, Ps. 14. Gud giæfe vier mættum skynia, Hvad illa ad vorar Skañer lijta wt i hañs Auglite, Þar hañ fyrer þeirra Skulld vill snwa vid oss Bakenu, og ecke Andlitenu: Hvad segier Gud hiaa Esajam, Cap. 1. um̃ Mañaña Guds Þioonustu? Laated af ad Offra Hiegoomlegum Gaafum, Reykelseñ eru Andstygd fyrer mier. Og Komu sijdar, Ydar Tunglkomu Haatijder og hin vissu Helgehølldeñ hatar mijn Saala, Þær eru mier Mædusamar, Og eg em þreyttur ad bera. Sie nu þañeñ vort Gudræknis Verk i hañs Augum sumrahvorra, Hvilijkar munu þa vera hinar verstu Synder og Glæper, Sem ad hroopa i Himeneñ? Vier vorum ad soñu skapter epter Dijrdlegre Guds Mynd, Eñ Illyrme Klækia og Lasta hefur upp eted vorn Andlegañ Frijdleik, og Holldsfwe Syndareñar hefur spillt voru Atgiørse. Mætte oss þvi til Hugar koma, ad skijla Lijkþraa Asioonu vorrar, sem i Guds Auglite er Osijn ordeñ, þar Asiaana hiñs fegursta aa medal Mañaña Sona, Ps. 45. JEsu Christi, sem er Jmynd Guds Dijrdarfullrar Persoonu, Heb. 1. Hun var byrgd medañ hañ var sleigeñ fyrer vora Skulld, Marc. 14. Hvoria Andskoteñ sleiged hefur med Andlegum Kaunum. O! Hvad Naadugur ertu Lijknsame Gud, ad þu so vægder syndugum Moñum, ad þeir sem þiñ Kross aa Herdum bera, voru adgreinder fraa þeim, sem hid sama høfdu forþienad, Eñ þijna Heilogu Eingla lætur þu ecke vijkia fraa oss, helldur þioona oss og aa Høndum bera, Jafnvel þegar vier sem verst wt lijtum i þijnu Dijrdarfulla Auglite. Þiñ Eingieteñ Son hefur þu wtreked fraa Auglite þijnu vor vegna, hañ er Madkur og ecke Madur ordeñ, Ps. 22. Hañs Alit var andstyggelegra eñ añara Maña, Esa. 53. Þetta var þiñ trwe Þioon, sem var hlijdugur allt til Daudañs, Jaa, allt til Krossens Dauda,

Phil. 2. Eñ til vor wtbreider þu bædar Hendur allañ Dageñ, Esa. 65. Sem Ohlijduger erum og giorer oss i honum þijn wtvaleñ Born, Einglunum samlijk, Matth. 22. Jaa, Samlijka hañs Dijrdarlegum Lijkama, Phil. 3. Lijkþraaer Meñ hafa illa lyktande Anda, Er og þess oll Von, Hviad allur Natturlegur Vesse Lijkamans er spilltur. Hvilijk er Synden, Og þo ollu verre, Jafnvel þoott ad vier siñum þar ecke til, Hvoriet Samdauna erum ordner heñar Ylldu. Paulus talar so um hana i Davids Orda Stad, Rom. 3. Ad þeirra Barke sie ein vijd-opeñ Grof. Eñ um Grafer framlideña talar so HErrañ, Matth. 23. Ad þær sieu hid iñra fullar med daudra Mañna Bein og allskins Oþeckt. So er og þeim Mañe haattad, Er grafed hefur Saalu sijna i syndugum Kroppe, siaalfa dauda i Syndunum, Og varpad ofañ a hana swlum Leyr Gyrnda og Lasta, hun aflar vidurstyggelegrar And-Fijlu i Guds Auglite, þeim er laata hana drottna i sijnum daudlegum Lijkama, Rom. 6. Og leisa heñe ad elldast þar iñe. Heñar Straff breñur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Eñ heñar Reña uppstijgur fyrer Guds Hasæte. Er þetta sa Fadmur, sem vier eigum Brwdgumanum ad bioda, Pa hañ frambrunar af Fijlabeins Holleñe? Ps. 19. Er þad sa Koss, sem vier eigum ad fagna med, Peim Vorunum a hvoriar Naadeñ er wthellt? Ps. 45. Er þetta su Fegurd, sem hañ a ad gaangast fyrer, J hvors Auglite, ad ecke Himnaña Himnar eru hreiner, Job. 15. Og hvad a þesse Andardraattur skylldt vid Harmþrwngeñ og Sundurknosadañ Anda, er Konungur Dijrdareñar vill ecke fyrerlijta? Ps. 51. Vier bwum oss i Skart, Hvor fyrer odrum, og leggium Kapp a þad, sumer fyrer Hæversku Skulld, eñ sumer til Lauslætis: Eñ faaer hyrda um þad, hvort þeir hreiner sieu i Guds Augum. Vei, vei ydur Skriftlærdum og Phariseis segier Lausnareñ, Matth. 23. Pier ed hreinsed þad ytra af Kierunum, Eñ hid iñra er fullt af Raane og Ohæfu. Pu blindur Phariseus, Hreinsa fyrst hid iñra af Bikarnum og Diskenum, so þeirra ytre Partar hreiner verde. Pessa ættu Guds Born ad giæta, og þvo Daglega Kaam Syndaña af Hiarta sijnu med heitre Ydran og JEsu Bloode, Pa være þess meire Von, ad vier yrdum ecke so Andramer fyrer Gude. Og þo margt meige nu fleira hier um tala, Pa vilium vier laata þetta so sagt vera um Skadseme Syndareñar, Eñ Hugleida framveigis, Hvorneñ vier eigum oss Raada ad leita, so hun ecke kvelie oss j eilijfre Hel-Soott: Hvar fraa Gud vardveite oll sijn Born i JEsu Nafne, Amen.

Nu fyrst ad þesse Andlega Lijkþraa Syndeñ, er so skadlegur, So hrædelegur, So vidurstiggelegur, Og so bañværn Siwkdoomur, Sem nu hefe eg sagt, Og þier munud aller med mier saña, Og þad sem yfertekur, ad hun er so laangviñ, ad hun mun alldreige ysergiefa oss, Fyrr eñ vier hana yfergiefum, Pa er einsætt ad leita þess Medals sem alleina vid heñe a, Adur eñ vier erum so yferkomner, Ad ecke er Von til Apturbata. Hvad vilium vier þa hier til giora? Hvad giorde þesse Lijkþraae Madur? Þegar vor Blessade Endurlausnare, kom ofañ af Fiallenu, mætte hañ honum og bad: HErra, Ef Pu Villt, Pa Gietur Pu Mig Hreinsad. Hañs Bæn var Riettskickud, Af þvi

hañ bad um̃ Lijkamans Heilbrygde, Þa beidde hañ med Fororde. Vier þurfum ecke þañeñ ad bidia moote Syndeñe, Þvi vier eigum fyrer Sælum ad sia, Hvoriar hañ hefur med sijnu dijrmæta Blóode Endurleyst, Act. 20. Hvar fyrer skylldum vier med Fororde bidia, Þar vier vitum hañ vill vier hreiner verdum; Og hañ hefur svared vid sitt Lijf, Ad hañ ecke vilie syndugs Mañs Dauda, Helldur ad hañ snwe sier og life? Ezech. 33. Og þar fyrer er hañ i þeñañ Heim komeñ, Ad aller þeir sem a hañ trwa, fyrerfarest ecke, Helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Þesse aume Madur jaatade siñ Veikleika fyrer DRottne. Gior slijkt hid sama, Barn Guds, Drag ecke Dulur a þijn Afbrot fyrer Gude, Og fegra ecke þijna Illsku i hañs Auglite. Þeynk helldur þad sama sem David, Þegar hañ sagde, Ps. 32. Eg jaatade DRottne mijna Misgiord, og þa fyrergáfstu mier þad. Christur hefur algiorla vitad, ad þesse Madur var Lijkþraar, adur eñ hañ kallade til hañs; Þoott hañ ecke hefde vered audkiendur af sijnum Bwninge, Þa mun hañs Guddooms Speke ecke sijdur hafa þeckt hañs Meinlæte, helldur eñ heñar, sem gieck Bak til vid hañ, Luc 8. Og valla þorde ad snerta Falld hañs Klæda. Laat þier af þessu til Hugar koma, ad honum mune ecke Okuñug þijn Andleg Lijkþraa, Eñ a medañ þu þeiger, Þa er eingeñ Von ad hañ wtriette Hondena. Holld-Fweñ og Daudeñ i Saarunum, er ad soñu lióotur Asyndum, Eñ ecke mun þad lijta betur wt i Læknarans Augum, Þoott hañ sie strokeñ yfer med Purpura-Farfanum. Hugsa til þess, hvad lijted þad gagnade vorum Fyrstu Forelldrum ad skijla sier med Fijkiu-Blodunum, Gen. 3. Þa Natturañ band þeim, ad þau nakeñ være, Miña mun þier þad gagna, ad draga Sky Hyrduleysesins fyrer Skom̃ þijna, Þvi þoott ad bæde Diosulleñ og þitt eiged Holld giete svæft þig um̃ Stund. Þa munu þid ecke stijnga Israelis Vaktara Svefn Þorn, Þviad ecke syfiar hañ, Ps. 121. Og hañs Auga sier hvad i Myrkrunum er huled, Syr. 23. Adam vard feigeñ ad þiggia Skiñ-Kyrtileñ af Gude, Gen. 3. Til ad hylia sijna Blygdun med, Og ad veria syndugañ Lijkama siñ fyrer Kullda og Tijmañlegu Froste. Þu munt og verda ad kaupa eirn nijañ Klædnad, af hinum odrum Adam, 1. Cor. 15. So ad Blygdan þijns Klædleysis ecke opiñberest, Apoc. 3. Og ad þu ecke breñer i eilijfum Eilde. Dyl þvi ecke þijn Afbrot fyrer Gude Christeñ Madur, Þa mun hañ þau hylia, Og lypt Skyluñe af þijnum Syndum, so mun hañ draga hana fraa sijnu Auglite, þvi auñgvañ þañ sem til hañs kiemur, vill hañ fraa sier reka, Joh. 6. Þegar vier vilium ecke sia edur þeckia vor Lijte, Þa sier Gud þau hvad best, Þvi vorar heimuglegar Synder setur hañ fyrer sijnu Auglite, Ps. 90. Eñ þegar vier siaum, Þa sier hañ þær ecke, þvi hañ hefur heited, ad kasta þeim i Hafsins Diwp, Mich. 7. Og miñast þeirra ecke ad eilijfu. Verum þvi ecke so einfallder sem Fiskureñ, Hvør ad vænter sier einskis Voda, þegar hañ hefur Hofuded faled, Þvi þoott vier stijngum vor Augu wt, Nær oss ofbiooda vorer Klæker, Þott vier villdum segia Fiollunum hylied oss, og Haalsunum hrinied yfer oss, Apoc. 6. Þa skerter Gud ecke Beinskeyte til ad rañsaka vorn Syndugañ Kropp, Þegar hañ hefur spañad siñ Boga,

Ps. 7. Þvi aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum, Heb. 4. Þegar hiñ Lijkþraae beidde, Þa dvaldest þad eige leinge fyrer, ad JEsus Bænheyrde hañ, Riette wt Hendena og sagde: Eg Vil Vertu Hreirn. Þad var goods Þocka Merke hiaa Persa Konunge, ad rietta ad einhvorium siñ Velldes Sprota, Hvad lesa maa um Ester Drottningu, Þegar hun gieck fyrer Konungeñ Assverum, Esth. 5. Hvør er þijn Velldis-Spijra, Þu Konungur Dijrdareñar? Þad er þijn Almættis Hønd, sem allt verkar, J hvøria Fadereñ hefur allt Vald giefed, Bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Af hvørre eingeñ kañ ad griipa Saude þijna, Joh. 10. Hun er eige stutt ordeñ, ad hun kuñe ecke ad hiaalpa, Es. 59. Hun er eige apturlokud, Þad hun vilie eige Myskuna, Hun er eige Aflvana, So hun megne eige ad frelsa: Þad er Guds sterka Hønd, og wtriettur Armleggur, Devt. 4. Þad er Hønd Guds, J hvørre ad eru Fiilsne Jardar, Og Styrkleike Fiallaña, Ps. 95. J hvørre aller Heilager eru, Devt. 33. Jaa, J hvørre ad er øll Lifande Saal, Og allra Maña Ande, Job. 12. Þegar Syndareñ stijngur Hendeñe i siñ eigeñ Barm, Og dregur hana wt aptur hvijta af Lijkþraa, Eins og Moyses, Exod. 4. Mun hañ þa þora ad drepa Hende siñe aa Odd hiñs Almaattuga Velldis-Sprota, Eins og Esther? Fiærre sie þvi, ad nockur bere miña Traust til ad mæla vid Fodur Myskunsemdaña, Eñ hun hafde aa Konunge hinum mikelaata. Hañ hafde hana ad Herfaange teked, Esth. 2. Eñ JEsus hefur oss af Herleidinguñe wt þrifed. Hañ kvadst fws ad skipta med heñe Konungs-Rijkenu, Esth. 5. Þad kuñe hañ ecke morgum ad biooda, Nema hañ giæfe upp siaalfur Tignar-Nafned. Eñ JEsus hefur øllum segia laated, sem hañ elska: Komed Blessader Born mijns Fodurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrerbwed fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. Og er þo siaalfur Konungur ad Eilljfu, Og hañs Rijkis-Stooll varer um Alldur og Æfe. Ps. 2. Hañ hefur ad fyrra Bragde riett oss sijna Hønd, Þa hañ Trwlofade oss sier i Raad og Myskunseme, Os. 2. Riettum hønum aptur vorar Trwar-Hendur, Og Trwlofunst hønum i Eisku og Undergiefne. Hañ rietter ad oss siñ og vorn Trygda-Þant, Sem er Heilagur Ande, Þantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Hvørn hañ hefur sendt oss af sijnum Fodur. Drepum ecke Hendeñe vid þvilijkre Sæmd, Og mootstøndum ecke Heilogum Anda, So eige verde Guds Rijke fraa oss teked, Og ødrum giefed, Matth. 21. Eg Vil Vertu Hreirn, sagde JEsus, Eñ hvad segier Gud vid oss? Es. 1. Þvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar illa Breitne fraa Auglite mijnu, Komum sijdañ og eigunst Løg vid, Þott ydar Synder sieu raudar sem Blood, skulu þær verda hvijtar sem Snioor, Og þoott þær sieu raudar sem Purpure, skulu þær Ullhvijtar verda. Hvør sem siaalfur vel vill, Hañ þarf ecke ad efast um Guds Vilia. Gud gaf siñ Son i Daudañ til þess vier kyñum ad hreinsast, Þvi skyllde hañ þa ecke vilia oss hreina? Þar hañ er allareidu wtgiefeñ. Þad velldur einasta vorum Saurendum, ad vier viliuñ ecke hreiner vera, Þyker helldur vænt um, ad vellta oss i Endeme Syndaña, og gleymum þvi aa medañ, ad i hina Himnesku Jerusalem maa eckert Saurugt iñ koma, Apoc. 21.

Hier

Hier stendur i Evangelio; Ad JEsus Gieck Ofañ Af Fiallenu. Hvad munde vor HErra þar ad hafast? Hañ talade fyrer Foolkenu, þa ægiætu Predikun sem skrifud er hiaa Matth. Cap. 5.6.7. J hvorre medal añara ad standa þesse blessudu og Huggunarfullu Ord: Bidied, og mun ydur giefast, Leited, og munud þier fiña, Knijed aa, og mun fyrer ydur upploked verda. Þvi hvor sem ad bidur, Hañ mun medtaka, Og hvor sem leitar mun fiña: Er þar nockur Madur af ydur, Ef Sonureñ bidur hañ um Braud, Ad hañ giefe honum Stein? Ellegar ef hañ bidur um Fisk, Ad hañ riette ad honum Hoggorm? Þar fyrer, Ef þier sem vonder erud, kuñed ad giefa goodar Gaafur Bornum ydar; Hvar fyrer mun ecke miñ Himneske Fader giefa þeim Gott, sem hañ þar um bidia? Nu fyrst ad Sañleiksins Muñur hefur þañeñ talad, Þvi skyllde eg efast um, ad hañ vilie mig Lijkþraañ hreinsa, Falleñ reisa, Villtañ Leidrietta, Og Harmþrwngeñ og Sundurknosadañ Endurnæra? Eñ epter þvi eg sie ad JEsus, Þegar hañ gieck ofañ af Fiallenu, Þa Stadfeste hañ allt þad hañ sagt hafde, Med þessum Tveimur Dijrmætu Krapta-Verkum: So veit eg ad Skylldañ bijdur mier, Sem er hiñ vesælaste Ormur, Er skrijdur aa hañs Foot-Skor, ad saña mijna Vidurkieñingu, med alvarlegre Vidleitne þeirra Verka og Athafna, Er hañ hefur skipad ad dijrka sig med; Sierdeilis þar eg heyre hañ segier i þessare somu Predikun: Ad þeir mune ecke aller sem til sijn segie: Herra, Herra, Jñgaanga i Guds Rijke, Matth. 7. Helldur þeir sem giore Vilia sijns Fødurs, þess sem aa Himnum er. Þvi so sem eirn goodur Læknar nægiest ecke þar med, ad giora hiñ Siwka heilbrygdañ, Helldur tekur honum Vara fyrer þeim Hlutum sem hañs Heilsu kuña framveigis ad skada, Sierdeilis þeim, af hvorium hañ veit, ad hañ hefur haft sijn Vanheilinde, So ad ecke falle hañ aptur i somu Soott.

So Giæskurijkur þykest eg vita ad miñ Heilsugiafare er, ad hañ alvarlega vill, Ad eg fordest alla þa Olifian, sem hañ veit ad mijna Saalu kreinkt hefur, So ad ecke verde mitt hid Sijdara argara hinu Fyrra, 2. Pet. 2. Þad kieñer mier hañs Lijknarfulla Tilhlutan, þa hañ frelsade Hoor-Konuna fraa Afellis Doomenum, Og sagde: Kona, Hefur nockur fordæmt þig? Eñ hun kvad Ney vid; Og hñ ælyktade med þessum Ordum: So fordæme eg þig eige helldur, gack hiedañ og syndga ecke framar, Joh. 8. DRotteñ segier til þessa Lijkþraa Mañs: Far Og Syn Þig Kieñemoñunum, Offra Þijna Gaafu Þa Er Moyses Hefur Boded Til Vitnisburdar Yfer Þeim. J Levit. Bookar 14. Cap. stendur, Ad þeir sem hreinsader voru af Lijkþraa, skylldu offra Tveimur Fuglum, Hvorra añar ætte ad slaatrast, Eñ hiñ dijfast i Blood þess slaatrada, Og sijdañ laus giefast og burtu fliwga. Þetta miñer mig aa ad þeinkia þar um, Ad Guds Eingieteñ Sonur er miña vegna fyrer utañ alla Verdskulldan slaatradur, og aa Krossens Altare foornfærdur, Gude til eins Sætleiks Jlms, Eph. 5. Eñ mier er dijft i hañs Blood, Og þar fyrer em eg laus giefeñ, sem hañ Lifslaated hefe, og i burtu flogeñ; Samt veit eg þo mijna Skylldu, Ad eg ad nockru Leite skal skijrast þeirre Skijrn, Sem hañ skijrst hefur, Matth. 20. Þad er, Ad miñ gamle Madur aa med honum ad Krossfestast,

Rom. 6. adur eñ Saala mijn fær uppfloged til Himna, og iñgeinged i hañs Dijrd, at Land Lifande Maña, Þs. 116. Hvort ad koma, og þar eilijflega med honum ad fagna, bæde mier og ollum Guds Bornum, Veite og giefe Myskunsamur og goodur Gud, Fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar, Og Naad Heilags Anda, AMEN.

# Fioorda Suñudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

Og er JEsus stie a Skip, Fylgdu hañs Læresveinar honum epter. Og siaa þu, Ad mikell Okyrleike giordest i Sioonum, So ad Skiped laa under Afollum: Eñ hañ svaf. Og hañs Læresveinar geingu til hañs, voktu hañ upp, Og sogdu: HErra, Hiaalpa þu oss, Vier Forgaungum. Eñ JEsus sagde til þeirra: Hvad hrædest þier Lijtel-Trwader? Þa reys hañ upp, hastade a Vindeñ og Siooeñ, Og þar vard Logn miked. Eñ Meñerner undrudust, Og sogdu: Hvilijkur er þesse? Þviad Vindur og Sioor hlijda honum.

## Exordium.

Hiñ Ogudlege Heimur þesse, Hvors Hofdinge ad Satan nefnest, Joh. 14. Hañ synest miog so vel kuña ad samlijkiast vid Hafed. Siooreñ er ein Ostodug Hofud-Skiepna; Þegar hañ er sem Blijdastur, Veit ecke fyrre til a Stundum, eñ hañ umhverfest nærri i Augnablike og rijs Fiollunum hærra. So er og eckert i Heimenum stadfast, þegar hañ fladrar uppa nockurn, Eins og Þioofgiefeñ Hundur, Þa er Guds Bornum af honum Skadeñ vijs, Og jafnvel hañs eigeñ Bornum optlega. Þoott ad Satan og hañs Viner hate Gud mest, og þa, Sem Eitt eru med honum, Þa er hañ þo i sialfum sier sundurþyckur. Ecke Elskast hañs Þioonustu Meñ leinge Iñbyrdis, þegar þar er ad kieppa uñ þad, Sem þeir hafa giort sier ad Gudum. So sem Christi Þienarar eru vidkvæmer nær þeirra Hofud er meidt, So er og Diofulleñ i siñe Kynslood. Þegar Laban vantade sijn Skwrgod, Þa rañ hañ jafnskioott epter Jacob, Gen. 31. Þoott hañ være hañs Magur, Og so er Heimur þesse Iñbyrdis, þegar hañ maa siaa a Bak einhvors þess, Sem Drambsemeñ og Fijsn Augnaña hafa fest siñ Trwnad a, Þa rijfur hañ Vinskapeñ, Jafnvel vid þa sem hañ liest hafa hvad kiærasta. Joab er ecke leinge Vinur Amasæ, 2. Sam. 20. þegar hañ Ottast hañ mune tapa nockru af Virdingu siñe, Eige helldur ræker Absalon Broodernid vid Amon, 2. Sam. 23. Þegar Heiptrækneñ blæs hañ upp. Midt a medal þessarar hreckvijsu Kynsloodar, verdur hiñ litle Hoopur Christi ad bwa, og mæta adskiliañlegum Araasum og Hneixlunum: So ad i Villu mætte leidast, Ef skie kyñe,

ñe, jafnvel Utvallder, Matth. 24. So sem Noe og hañs Hyske var i hiñe Vantrw-udu Verolld, Gen. 6. So sem Loth var i Sodoma, Gen. 19. Abraham i Gerar, Gen. 20. Jsrael i Egypta-Lande og Chaldæa, Exod 1. So eru Guds Viner i Ollu þessare. Hvad er hier til Raads, Brædur mijner, so vel fare? Og Meñ sieu visser um, Ad þeir eige lijde Skipbrot a Saalu siñe? Eitt veit eg sem alldrei skal bregdast, Pad kieñer DRotteñ oss hiaa Matth. 7. Pegar hañ aadur hafde teked sijnum Lærefveinum Vara fyrer Fals Spaamoñum, Segiande: Hvor sem heyrer þesse mijn Ord, og giorer epter þeim, Honum vil eg lijkia vid eirn Forsiaalañ Mañ, Pañ er bygde Hws sitt a Biarge, Eñ þar giordest Regn og Vatns-Flooden komu, og Vindarner bliesu og fiellu yfer þad Hws; Eñ þad datt ecke, Pvi þad var a Biarge byggt. Petta Biarg er DRotteñ JEsus; Pad er sa Hyrningar-Steirneñ i Zion, Esa. 28. Sem Gud hefur bygt sijna Christne a; Hvor sem yfer hañ bygdur er, Hañ mun alldrei Kollsteipast, helldur stodugur blijfa. Lærefveinar DRotteñs tooku til ad veikiast i Trwñe þegar hañ svaf, Eñ Vedred took ad hefia Siooeñ, So þeim laa vid ad Forgaanga: Pa tooku þeir þad til Raads, ad þeir voktu hañ, og gaafu honum til Vitundar Neyd sijna. Christne Guds er lijk einu Skipe, sem vellteft i Olgu Sioo Verralldar þessarar, Hun hefur Christum jafnañ iñañ Bords. Tokum þvi sama Raad og Lærefveinarner hier tooku, þegar Sioozeñ, Pad eru Araaser, Fiandskapur, Jllkvittne, Hneixlaner, Lastmæle og allskonar Ohlutvendne þessarar vondu Veralldar tekur til ad gaanga a þetta DRotteñs Skip; Hvors aller þeir hafa sier ad vænta, Sem hiaa honum hafa Far teked, So þeir meiga fiña til þess er Paulus um sig talar; Ad þar sie Baraatta hid Ytra, eñ Strijd hid Jñra, 2. Cor. 7. Vil eg þvi af þessu H. Evangelio og Dæme Lærefveinaña tala alleina um þaa Hlute, Sem eiga ad giora oss Fulltrwa um hañs Adstod i ollum vorum Naudsynium.

Hiaalpa oss hier til Naaduge Gud og Fader med Krapte þijns Anda, Fyrer Sonarens Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Ess maa allvijda giæta i Æfe Sogu DRotteñs vors, Ad þegar hañ hafde einhvoria merkelega Predikun flutt, þa stadfeste hañ Kieñinguna med einhvoriu Krapta-Verke. So giorde hañ þegar hañ gieck ofañ af Fiallenu, Hvar hañ hafde talad Eyrende Rijkesins fyrer Foolkenu, Matth. 5. og hañ læknade hiñ Lijkþraa. So giorde hañ og hier, Par hañ allañ Dageñ hafde kient Foolkenu med þeim fogru Epterlijkingum, er skrifadar stande, Matth. 13. Um Jllgresed, Um Mustards-Korned, Um Swrdeiged, Um Perluna og um Fiesioodeñ, og adrar fleire. Eñ strax a epter fylgde þetta Dijrdlega Kraptaverk, Er Gudspialled umgietur, Marc. 4. Nu var þad ecke alleina giort fyrer Lærefveinana, Br. M. helldur hefur og Guds Ande þvilijkt Stoormerke uppteiknad laated oss til Lærdooms, Ad vier sem hofum teked vid Trwñe a DRotteñ JEsum, og erum i hañs Nafne skijrder, Vier skulum læra ad treysta honum

i ollum

i ollum vorum Naudsynium. Þesse var nu Adferd DRottens, Bæde a hans Hier-vistar Dogum, So og strax epter hans Himnafor, leinge fram epter Æfe Christnenar. Þvi skrifar Marcus, Cap. 16. um Postulana, Ad þeir hafe geinged wt, predikande all-stadar, Ad DRottne Samverkanda og Orded styrkianda, Med epterfylgiande Teikn-um. En þvi var misjafnt teked af Heimenum, So sem augliooſt er af Giorninga Bo-ok Postulana. Þetta Dijrdlega Krapta-Verk skiede i Nærvist hans Elskulegra Lære-sveina. Matthæus skrifar, Cap. 13. Ad margt Foolk hafe safnast ad honum, So han Blessadur vard ad stijga a Skip fyrer Mann-Þraungenne, En Foolked sat i Fiorunne og heyrde a. Flester munu þeir hafa vered i þessum mikla Hoop, Sem meir hefur fijst ad heyra Maal-Snylle hans helldur en ad skilia edur geyma Krapt Ordana; Pad ræd eg af þvi, ad eingen spurde han epter Meiningu Epterlijkingana, Nema hans Læresveinar, Hv-ad honum aan Efa mislijkad hefur, Sem Von var, Þvi sagde han vid þa: Ydur er unt ad vita Leyndardoom Himnarijkis, En þeim er þad ecke giefed, Matth. 13. So er og Kyrkiu-Gaanga vor a Stundum. Aller flyckiast til ad heyra eins Mans Predik-un, sem talar sniallt, En Rootfesta þo ecke meir i Hiartanu han Heimuglega Krapt, sem bijr i Ordenu, helldur en þoott eirn Ovite talade, So þeir fære Avoxt þar af, og giorest saner Christi Læresveinar. DRotten giorde þetta mikla Krapta-Verk fyrer so faum, Af þvi þar voru so faer sem gaufu miken Gaum ad Predikunene; Han talade fyrer Mvga Mans af Skipenu, so aller heyra mættu og skilia Guds Veg, Hefde þeim vered um þad hugad, Og þad skiede nærre Lande; En Kraptaverked giorde han og i Skipenu, midt a Sioonum, þar faer voru hia honum Innanbords, og eige nema þeir sem logdu uppa Hiartad, Þad han talad hafde. Þar fyrer, Barn Guds, Vilier þu vera fullviss um Adstod Guds i Sioo-Roote Veralldar þessarar, Þa sia til fyrst, ad þu siert Christi sannur Læresveirn. Heyr hans Ord, og laat þier vænt um þad þykia, Ecke einasta um Stundarsaker, Helldur geym þad i Hiartanu: Stunda epter ad fa þess riettan Skiln-ing, Laga þinn Lifnad þar epter, Fær þar af Avoxt i Polenmæde, Luc. 8. So þegar And-Vidre Hormunganna mæter þier, ad þu siert þa viss um, Ad þu hafer Guds Son Innan Skipsborda, Þa mattu vera þess fulloruggur, ad DRotten er ollum þeim naalægur, Sem han akalla, Ps. 145. Þad er hid hellsta a einu Skipe, Ad þvi sie vel stijrt, Sier-deilis i Olgu-Sioonum. Lijkamer vorer eru Skip Saalarennar, Hvoriu hun stioorna a, So hun nae Hofnene um sijder a Lande Lifande Manna, Ps. 116. A hinu fyrerheit-na Landenu. Gief honum ecke ofmiken Taum, Þrælka han eins og St. Paall, Ræk Hollded ad sonnu, En þo ecke so ad þu leyser þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Laat ecke Saalu þinne verda þad sem Palinuro vard, Þegar han sofnade vid Stijred, þa datt han wtbyrdis. Eins kan Saalu þinne ad verda, Utan þu vaker og bidier, so þu faller ecke i Freistne, Matth. 26. Og ef hun kan ad sofna, Sem optlega skiedur, Þa sia til ad þu hafer JEsum i Skutnum, ad han vekie þig, Nær han sier þu ætlar ad forganga. Saala þijn sefur opt þo Lijkamans Augu vake. DRotten sofnade epter Nattur-

legunt

legum Hætte, Þvi hañ var ad allre Hegdan fundeñ so sem Madur, Phil. 2. So hañ kyñe ad sampijnast þijnum Eymdum, Hebr. 5. Samt vakte hañs Guddoomur, Þvi hañ er Israels Vaktare, Hvor ed ecke sefur og ecke sifiar hañ, Ps. 121. Og þar hañ nu i voru Hollde situr til Kraptarens hægre Handar, Marc. 16. Þa hefur hañ vakande Auga yfer siñe Christne, Hvoria hañ Endurkeypt hefur med sijnu eigeñ Bloode, Act. 20. Jaa, aa ollum heñar Limum, sem hañ þecker fyrer sijna Læresveina; Bid þvi med Skaalldenu: Vak þu miñ JEsu, vak i mier, Vaka laat þu mig eins i þier, Saaleñ vake þa sofnar Lijf, Sie hun ætijd i þiñe Hlijf. Þegar þu so giorer, og þad af Hiarta, og stundar epter ad hallda þier vakande i hañs Þioonustu, og lætur ecke Satan dilla þier aa Kodda Syndaña, Þa maattu vera fulltrwa þar uñ, ad Svefn-Læte Veralldareñar skulu alldrei æra þig, Þoott hun vellteft uñ, og berie Hæl og Hnacka. Diofulleñ, Sem er heñar Hofdinge, skal alldrei reisa so mikla Olgu i heñe, ad þier sie hætt vid ad forgaanga; Þad kieña mier hañs Fyrerheit, Er sagt hefur: Otteft ecke, Eg hefe Heimeñ sigrad, Joh. 16. Þad segia mier hañs Ord, Er sagde: Hofdinge þessa Heims er dæmdur, og med mig hefur hañ eckert, Joh. 14. Hafe hañ eckert med hañ, So hefur hañ ecke helldur med þa sem i honum eru, og hañ i þeim, Þeir sem eru Limer hañs Lijkama, Og hvad meira er, Ad þeir eru ordner eirn Ande med honum. Þvi segier Johañes, 1. Joh. 5. Hvad sem af Gude er fædt, Þad yfervinñur Heimeñ. Hvad vill sa Ottast sem hefur soddañ eirn Fodur? Unglingum setia Meñ Fiaarhallds-Meñ, Og þyfeft sa goodu bætitur sem odlast þañ einhvorn sem er Fullvedia, og lijklegur til ad giora honum Riett, og forsvara hañ fyrer Raangsleitne Oraadvandra Maña, Jafnvel þo þad gaange missjafnt til medal vor Mañaña, Samt laata aller Ærleger Meñ sier vera uñ þad hugad: Eñ hvorneñ sem þvi er vared, Þa eru aller þeir ed Gud Ottast hañs Omagar, Og er þeim miklu betur Raadstafad, helldur eñ hinum Vollduguftu Heimsins Giædingum og Villdar-Moñum. Segied mier: Hvad skal eins Mañs Fulltrwe hafa til ad bera, Nema Maatteñ og Viliañ? Uñ hvorugt kuñum vier ad efast hiaa Gude. Maatteñ siaaum vier i þessa Dags Evangelio, Þoott ecke være añad til, Sem þo fleira og stærra er, eñ ad allar Eingla og Maña Tungur fære þad uñ allar Allder upptaled. Hañ Hastade A Vindeñ Og Sioeñ, Og Þa Vard Strax Logn Miked, so þeir sogdu: Hvilijkur Er Þesse Ad Vindur Og Sioor Hlijda Honum? Eingeñ Hlutur er Gude Omogulegre eñ añar, Luc. 1. Þad kostar hañ ecke meira, ad steypa allre Verolldeñe uñ Koll, eñ ad drepa eirn Titling, Hañ hefur alldrei haft miked fyrer neinu i allre siñe Rijkis-Stioornan, Nema þvi, ad leysa Syndarañ wr Helvijte, Og þo giorde vorum Frelsara Elskañ til sijns Ovinar þetta Ok so sætt, Ad hañ laangade til ad drecka þañ Kaleik er hañs Fader skeinkte honum, Luc. 22. og acktade ecke Forsmaanena, segier Postuleñ. Gud giæfe ad Elskañ til hañs kyñe ad giora oss hañs Byrde so lietta. Og þar ed oll Guds Skiepna, er so eckert i hñs Hende, þa maa eg fulltreysta, ad hñ sem eige þurfte ad tala nema eitt Ord til hiñs brwsanda Hafs, Honum mune eige vera uñ Megn, ad vardveita mig hiñ Vesæl

asta Orm sem liggur a hañs Footskor, J Olgu Heims þessa. Hañ talar til Siaf-ar-Hafsins: Hijngad skalltu komast og ecke leingra, Hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Þvi mun honum veita hægt ad drepa Offañ i hinum Dramblaata, so þar verde Logn miked, edur og ad sla honum Högg vid Eyra, Ps. 3. so hañs Stad ur fiñest ecke meir, Ef honum so lijkar. So mikels Mattar er nu þesse stoore Konungur Himens og Jardar, Hvor vill þrijsa mig af hañs Hende, Joh. 10. Kañ nockud Oxeñ ad giora, Nema heñe sie beitt, Eda Sögeñ ad wtrietta, Nema heñe sie stijrt, Eins miked kuña Meñerner mier ad giora, Nema Gud leife þeim, Þvi vil eg segia med David nær Heimureñ hatar mig: DRotteñ er mitt Lioos og mijn Heill, fyrer hvorium skal eg Ottast? DRotteñ er Verndare mijns Lijfs, Hvorn skal eg hrædast? Ps. 27. Eñ þad hañ leifer, skal mier kiærkomed vera, Hañ agar mig þvi hañ elskar mig, Heb. 12. Hañ typtar mig þvi hañ vill leidrietta mig, Hañ særer mig þvi hañ vill græda mig, Os. 6. Og er þad Daraskapur fyrer mig, sem læst avijta Vin miñ, ef honum ysersiest, sem strijke Barn mitt, Nær þad giorer þad sem eige byriar, sem læt skiera og breña eitt fwed Saar a mijnum Astmañe, so hañ heill verde, ad eg skule ecke taka hinu sama af Hende DRotteñs. Þar fyrer skal eg eige helldur efast um Viliañ, Þad lære eg og af þessu Gudspialle. Læresveinarner voktu DRotteñ, og þad med Umkvortun nockurre, og Mistraustе a hañs Almætte. Þvi Marcus skrifar Cap. 4. Er hañ segier fraa þessu mikla Kraptaverke, ad þeir hafe sagt: Meistare, Þu hyrder ecke um þad, ad vier forgaungum. Hvad var þetta ad segia vid hañ, Hvors Almætte þeir vel mattu þeckia? Hvored so morg Kraptaverk hafde giort þeim asiaande. Samt vard hañ fliootare til ad hiaalpa þeim, Og ad hasta a Vindeñ og Siooeñ, Helldur eñ til ad atelia þa fyrer þessa Efasemе og Trwarleysi. Þetta hender oss optlega nær vier bijdum epter DRottne a Þurrlendenu segier David, Ps. 63. Vier meinum hañ sofe þoott vier vitum ad hañ sofie ecke, Vier kollum ad hañs Hond sie stutt ordeñ, Þo oss sie alkuñugt af Guds Orde, Ad hun ecke einasta kallast hin sterka Hond DRotteñs, og wtriettur Armleggur med miklum Undrum, Devt. 4. Helldur og hin millda Hond DRotteñs sem giefur ad vier samañsofnum, og þa hañ upplijkur heñe, Sediumst vier af Giædum, Ps. 145. Og þoott vier sieum nu so Tvijlraader og Efasamer, Eige ad sijdur er hañ oss hvad nærstur, þegar vier ætlum hañ fiarlægañ vera. Þegar Joseph liet sem hañ ætlade ad taka Benjamin i Vardhalld, Þa gat hañ valla Taarum hallded, þegar hañ Ottade Brædrum sijn um med siñe Reide, Þa fieck hañ þo ecke leynt sier fyrer þeim, Gen. 45. Ætlum ecke ad Fader Myskunsemdaña mune sijdur Nadugur vera, edur kieña i Briooste um sijn Born, Þoott hañ typte þau þeim til Gooda, Þvi hañ straffar, Eñ ecke af Hiarta, Thren. 3. Hañ burtrekur, Eñ ecke eilijflega. Ohætt er þvi, alldrei steiper DRotteñ nockrum þeim sem hiñ allra miñsta Trwar-Neista geimer i Hiarta sijnu so diwpt nidur i Afgruñ Hormungaña, ad þeir aldeilis orvænte sier Nadar hañs, Jafnvel þoott þeir sieu a Stundum laangt leidder, Þvi Lijttlogande Hor-Kveik mun hañ ecke wtslockva, Es. 42. Gud

straffade

straffade Synder vorar um̃ skamt med Oaaran nockurre, Par epter vitiade hañ vor med Lands-Plaagu, Hvor ed took fraa oss vora kiærustu Astvine, og hid besta Foolk, Munde oss þa ecke þykia horfa til Vandræda? Hvilijk Audn var þa i Laudenu, So ad þeir sem Hólldlega voru Siñader, Tooku til ad efast um̃, ad vier mundum hier leinge Byggdum hallda. Eñ hvorsu hefur hin millda Hónd DRotteñs sijdañ Coronad Ared? Hvorsu hafa hañs Footspor af Feite droped? Ps. 65. Med hvilijkre Argiæsku hefur hañ blessad oss, So ad vier ecke einasta hofum ongvañ Skort lided, helldur flester hwed vid betre Kost eñ nockurn Tijma aadur? Er ecke þetta sijnelegt Almættis og Giæsku-Merke DRotteñs? Hvort skylldum vier leita i Hormungeñe, nema til hañs, Sem so Vijs, so Maattugur og Giæskurijkur er? Eg vil taka mier Orsok af þessu Dijrdlega Kraptaverke, til ad tala nockud vid ydur, sem um̃ Siooeñ fared, og leited Næringar ydar i Hafsins Diwpe. Hvorsu opt hefur hiñ goode Gud vardveitt ydur i Lijfs-Haaskanum? Hvad tijtt hafed þier maatt segia med David, Ps. 18. Hañ sende wt af Hædeñe og sookte mig og droo mig upp wr miklum Votnum. DRotteñ hefur optlega giort Fürduverk aa ydur, Þegar Daudans-Bond hafa um̃kriijngt ydur, Ps. 18 Og þier meintud þier ætludud ad forgaanga, Pa hefur hañ þo rickt ydur upp wr Daudans-Porte, Ps. 9. og frelsad ydar Saaler wr Helin. Par er eige laangt aa ad miñast, Vier lifum eñ nu sem eige erum miog til Ara komner, og munum þad, ad DRotteñ hefur aa sama Deige kollvarpad sumum, Eñ suma hefur hañ vardveitt Undrunarlega og Olijklega fyrer Maña Sioonum, Og þetta optar eñ Einusiñe, Ecke þar fyrer ad þeir sem tiindust, hafe syndugre vered, eñ hiner sem affomust, meir eñ þeir sem Turneñ fiell yfer i Siloa, Edur þeir ed Pilatus slaatrade i Galilæa voru sekare eñ adrer, Luc. 13. Helldur til ad sijna Riettlæte sitt aa þeim sem hañ burt took, Oss sem lifum til Epterdæmis og vorum Epterkomendum, eñ Naad sijna aa hinum, er hañ sparade, so hañ med baadum Hondum leidde oss þverbrotnar Mañeskiur til Ydranar, ad eige sofnum vier oss Relde aa Dag Reidiñar, og Guds Riettlætes Dooms, Rom. 2. Eñ Gud naade hvorn Avext þad færer.

Eg giet ecke þvi hroosad, Ad aller þeir ed voga Lijfe sijnu wt aa Siooeñ, Take JEsum i Baat med sier; Og eg þore ad segia, Ad valla drijgia sumer Meñ fleire edur meire Synder, Gude til Stygdar, Eñ nær Meñ þiggia hina mestu Blessan af hañs Orlætis-Hende, So ecke er ad undra þott hañ meige lykia heñe aptur aa Stundum fyrer oss, Og skamta oss wr Hnefa, Sem Meñ plaga ad segia, Jaa, þott hañ straffe oss med Skipreikum og Mañ-Tioone, Til ad typta oss lijfada Kaalfa. Alkuñugt er þad ollum Moñum, Hvilijkt Framferde, Hvada Muñ-Sofnudur, Giaalijfe, Straakskapur, Lijge, Raan og Ploosnadur, ad æfdur er i hvilijkum Selskopum, med laangtum meire Frekiu og Oskamfeilne eñ Añarstadar, So hañ þykest goodu bættur, Sem verst gietur laated, og þad þyker Kallmeñska og Snille, ad vera fremstur i Flocke nær Meñ slijkt adhafast. Þegar þier Rooed til Fiskiar, Laatest þier bidia Gud fyrer ydur, Eñ hvad mikell þar filge Hugur Maale, Er af þvi audsært, er þier taled og giored, Sumer hvorier, nær þier erud under

Vad fester, þa formæled þier Ydar Veidarfærum, Ydar Verkfærum, Ydar Lagsmoñ-
um, Pegar ecke er allt epter Villd ydar. Og þar þier ættud ad bidia Gud ad blessa,
segie þier ad Andskoteñ skule taka. So fær nu Fiandmadureñ Illgresenu, Matth.
13. Bæde a Sioo og Lande. Pegar Gud sender ydur þad a Aunguleñ, er ydur ecke
lijkar, Forsmaaed þier þad, Blooted þvi, og kasted þvi aptur i hañs Naadar-Fadm, sem
hañ er þa hvad mest ad wtbreida til ydar. O! þier Raangsnwner og Peckingarlauser
Syndarar. Laate DRotteñ siñ Vind blaasa a Siooeñ, so ydur þyker hætt vid Lijf-
Tioone, Pa kalled þier ad søñu til DRotteñs, sem og vera a. Eñ giæted ad, hvort þad
mune eige kuña ad eiga heima hiaa ydur, Allmørgum, sem DRotteñ sagde vid Juda,
Jer. Cap. 2. Pegar Neydeñ yfergeingur, Pa segia þeir: Upp þu og hiaalpa oß;
Eñ hvar eru þa Guder þijner, Sem þu hefur giort þier? Biood þeim upp ad standa,
Laat sia hvort þeir kuña ad hiaalpa þier i Neydeñe, Pegar so til ber fyrer ydur O!
þier Gudlauser Meñ. Hvar er þa Audskoteñ, Er þier so tijdt aakalled, og bidied ad
taka bæde ydur og ydar Stallbrædur? Hvar er hañ þa? Mun hañ nockud hiaalpa
ydur wr Neydeñe, Pegar þier ligged under Afollum? Mier mun Saklaust vera ad aa-
varpa hañ med somu Ordum og Elias talade um Jessabels Baal fordum Daga:
Kalled hatt, Pvi hañ er eirn Gud og hefur miked ad giora, 1. Reg. 18. Veit eg ad
hañ hefur Rijke so miked i Heimenum, sem Gud liær honum til ad straffa med Synd-
er Mañaña, Eñ helldur mun hañ uppæsa Siaafar-Hafed heim til Skada, Ef hañ þo
hefur þad Valld, Eñ eige mun hañ hasta a Siooeñ nie Vindeñ; Pa Makt gaf hiñ
Almaattke Konungur Syne sijnum, Og ecke Fiandanum, Sem er Faange og Utlage
Guds. Einskis er af honum nema Ills Von, Pvi hañ rædur ecke fyrer ødru. Eñ þeg-
ar þier so kalled til Guds i Neydeñe, Munud þier geta haft fullt Traust a honum, ad
hañ wtrycke ydur þadañ, Ps. 91. Nær þier þañeñ leited Atviñu ydar: Eckert Fyr-
arheit hafed þier þar um, Nema þad, Ad a hvorium Tijma, sem hiñ Ogudlege snijr
sier fraa sijnu Ogudlegu Athæfe, þa skule hañs Synda ecke ad eilijfu minst verda, Ezech.
18. Og stendur þad ad søñu Orasfad um alla Æfe. Eñ giæted ad, Pier sem so Ogud-
lega lifad hafed, Hvort ydur mune ecke fyrr koma til Hugar, Pegar þier rated i Lijfs-
Haaska nockurn, Ad sorga fyrer þessu auma Lijfe, Hvort þier þo skulud einhvorn Tijma
missa, Helldur eñ ad befala ydar Saaler Skaparanum af Alvoru: Orsøk þa hefe eg
til ad efast hier um, Ad þar eru so fær, Sem Gud hefur sijndt Dandañ, ad þeir life
betur epter eñ adur. Eñ hvad er soddañ? Gud er nalægur ollum þeim sem hañ Ott-
ast. Eñ eg kañ ecke ad segia, ad þeir ottest hañ, sem hañ eitt Siñ hefur leyst ur Heliu, og eru
þo aungvu betre sijdañ. Pegar Gud giefur ødrum meira eñ ydur, Pa øfunded þier
þa. Pier erud Raangeygder, Af þvi hañ er Goodgiarn, Matth. 20. Pier spilled
Veidum þeirra, Ef þier gieted, Og i þvi reke þier Satans Eyrende, Pvi hañ leitast vid
ad koma þvi til Vegar, ad Mañeskiañ hafe sem miñst Gagn af Orlæte DRotteñs.
Ecke giorde so Petur og Fielagar hañs, Er DRotteñ gaf þeim hiña miklu Blessan, Er
Lucas

Lucas skrifar um̃, Cap. 5. Peir bentu sijnum Fielogum, Ad þeir kiæmu og hiaalpudu þeim, og meddeilldu þeim af þeirre Guds Bleſſan, Er þeir feinged hoͤfdu: Eñ eg pore ad ſegia, ad nockrer af ydur eru ſo Lynder, ad þeir nærre þvi helldur ſockva vilia eñ uña ſijnum Naabwa nockurs af þvi þeir hafa Of-miked. So og forſmaaed þier hina adra, ſem miña er veitt, ſo ſem være þad ydar Atburdum ad þacka, og þier mættud ſkamta ydur wr Guds Hende þad þier vilied, og giæted lijted ad þvi, ſem Paall ſegier: Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer, 1. Cor. 4. Sumer af ydur trwa aa ſiñ Fiſke-Galldur, Og hefur þa Andſkoteñ ſijndt Kunſt ſijna i Hiarta ydar, Pegar hañ kiemur ydur til ad dijrka ſig og þacka ſier fyrer Guds Gaafur. Ecke giorde þad Petur. J Pijnu NAFNE Vil Eg Netenu Utvarpa ſagde hañ til JEſum, Luc 5. Eñ þegar þ er brwkued Runer og Riſtingar, Med hvorium þier þo miña eñ eckert faaed wtriett: Kaſted þier þa ecke Netenu wt i Fiandans Nafne? O! Miñ HErra og Gud, Eg giet ecke noogleg a daadſt ad þiñe Poleñmæde, ad þu ſetur ecke Krook i Naſer Andſkotans, Ezech. 29. eins og Hvalſins i Egyptalande fordum, og lætur þa draga Dioͤfuleñ upp aa Aunglenum, Er ſo hæda hitt Nafn, ad hañ gleipe þa lifande, Eins og Jordeñ Core, Datan og Abiram, Num. 16. Læred af Petre ad Fiſka. gooder Meñ, Hañ er hiñ beſte Formadur, Pott hañ ſæte wte alla Noottena og feinge eckert, þa moglade hañ ecke, helldur ſagde: Epter Pijnu ORDE Vil Eg Netenu Utkaſta. Ecke orvænte hañ, þott DRotteñ liete hañ bijda epter ſier, Eñ þegar hañ Bleſſade hañ, Pa fyrervard hañ ſig og gaf Gude Dijrdena. Ecke giora þeir ſo, Er hroka ſier upp af Guds Laane, ſo ſem væru þeir þeſs verdugare eñ adrer. Fordeſt ſlijkañ Daaraſkap, ef þier vilied vera viſſer um̃ Guds Adſtod i Haaſkanum: Taked med allre Hiartans Audmykt aa moote hañs Bleſſan, hvort helldur hun er mikel edur lijtel, Og ſiaaed ecke Offioonum yfer þeim, ſem hañ hefur meira giefed. Forſmaaed og ecke hina, Er hañ miña laanar, helldur ſie hvor aanægdur med ſiñ deilldañ Verd, Og giallde Gude ſkylldugar Packer þar fyrer; Hyrded og Faung ydar Skynſamlega, og Onijted ecke Guds Gaafur. Ef þier Ovirded þær og legged ad litlu, Nær þier Nægter hafed, Pa Ovirded þier Skaparañ, ſem þær giefed hefur. Vered og miñuger Kiærleikans, ad þier gleimed ecke hinum Volada og Purfa Mañenum, Og ſijned Packlæte ydar vid Gud, Ecke einaſta med Orde, helldur og Verke, 1. Joh. 3. Vid hañs Faatæka Naudſtadda Limu. Ecke faae þier honum betur launad, eñ med ſoddañ Moote, Pvi jafnvel þott ad Madureñ ſie Veſæll til þeſs, ad hañ kuñe Gude nockud aptur ad giallda, þa vill þo Mañſins Sonur aa hinum Efſta Deige ſegia: Hvad þier giordud einum af þeſſum hinum miñſtu, Pad giordud þier mier, Matth. 25. Eñ um̃ alla Hlute fram̃, Pa feled Gude aa Hendur Saal og Lijkama, nær þier draged wt aa Diwped til ad leita ydar Næringar: Hugleided, ad þar eru valla Tveir Pumlungar aa mille Lijfs og Dauda, Hvilijkur Vode er þad þa og Saalar-Haaſke, ad trwa ſo Oſkodugum Hlut fyrer Saalu ſiñe ſem Haſed er, nema Meñ ſieu þar um̃ aadur fullviſſer, ad hvort þeir Lifa eda Deyia, þa ſieu þeir DRotteñs, Rom. 14. Saa ſem wt aa

Siooeñ fer, þad er eins og gaange hañ i Orustu, Hañ er ecke viss um̃ ad naa Landenu aptur; Eñ þoott ad hinum Almaattuga Gude sie ecke um̃ Megn ad vardveita sijna, eins vel aa Sioo og Lande, þa mætte mier þo til Hugar koma, ad vanda mig hvad mest, og leita DRottens Hiaalpar þegar eg sie Haaskañ fyrer Augunum. Eg hefe um̃ þetta Efne nockud laangtala vered og þad fyrer þvi, ad eg hygg þess vel við þurfe, þvi margur er Odæll, Hyrdulaus og Ohlutvandur, skeitande ecke um̃, Neina ad fylla Kroppeñ, og gillder einu þoott Saaleñ svellte, Og vona eg ad Guds Børnum mune þad ecke Ohægt vera, Er eg hier um̃ sagt hefe: Hiner verda sijnu fram̃ ad fara, Er heilsusamlegar Aminingar ad aungvu hafa, Og velldur þo ecke sa ed varer, þoott ad verr fare, Þeir munu ad komast Rauneñe, er þad forsmaa, Nær Uppskieru Tijmeñ kiemur. Og vil eg so apturhverfa til hiñs, er eg i Ondverdu hoof um̃ ad tala, Sem var, ad Meñ skylldu varpa allre siñe Ahyggiu uppaa Gud, Ps. 55. Og honum alleina treysta, Þa vier rotum i Neyd einhvoria edur Mootlæte. Ad soñu er oss ecke bañad, Miklu helldur leift ad leita Maññaña Hiaalpar nær oss aaliggur, Þvi Meñerner eru skapader hvor odrum til adstodar, og hafa Guds Bod um̃ þad ad styrkia hvor añañ Iñbyrdes, Gal. 6. Gud naade, ad þvi er aa ougvañ Veg so epterfylgt sem byriade; Eñ ef vier þetta riett athugum, þa dregur Mañleg Hiaalp oss so skamt aa Vegaa Stundum, Suma vantar Efneñ, Adra Viliañ, Nockrer eru laangt fraa oss, og naa eige til vor þoott villdu, Nær i Raunernar rekur, Eñ Gud brestur alldrei Maatteñ, alldrei Villañ so sem aadur er sagt, Og Meñ skulu eige þurfa ad senda laangt epter honum, Þvi hañ er naalægur øllum þeim sem hañ aakalla, Ps. 145. Hier ad auke er sumum vorum Meinum so haattad, ad eingeñ Mañlegur Kraptur gietur raaded Boot aa þeim, Eñ þar er eckert þad Bol, Sem allra Meina Grædare kuñe eige ad lækna. Vel kuña Meñerner ad hiaalpa Lijfe voru optlega, Eñ þo so ad hañ vilie hafa oss hoolped i þad Siñ, añars ecke, Þvi øll lifande Saal er i hañs Hende, Job. 12. Eñ þad skilur Guds og Maña Adstod, ad þoott hañ deyde, þa Lijfgar hañ eilijflega. Þvi þad skal skie, Sagde Lausnareñ, Joh. 11. Ad hvor sem trwer aa mig, þoott hañ deye, þa skal hañ samt lifa. Giætum og þess, Brædur mijner, Ad þoott vier af Moñum Lidveitslu þiggium, þa kiemur hun samt fraa Gude. Edur hvadañ er þad ad oss kiemur Hiaalp aa Stundum, þadañ sem Olijklegast er, og vier væntum heñar sijdst fraa? Ecke var Moyses, þa hañ var Landflootta, Exod. 2. til þess lijklegur, ad leida Israel wt af Egypta Lande. Gedeons Ætt var hin miñsta aa medal Manasse, Og hañ miñstur medal siña Brædra, Jud. 6 Þo sende Gud hañ til ad frelsa Israel af Hende Madianitaña. Hañ sende Okienda Meñ af fiarlægu Lande, til ad færa Syne sijnum Vegga Neste, Er hañ var eñ þa i Reifum, Matth 2. Hañ sende honum eirn Framande Mañ Simon af Cyrenia, til ad bera Krosseñ med honum, Matth. 27. Hañ sende Nicodemum og Joseph af Arimathia, til ad giora hañs Utfor heidarlega, Joh. 19. Eingeñ Madur kañ um̃ þad Hoaum ad hygaia, Hvorneñ Gud fer ad hiaalpa, Þegar hañ er naudugur; Hañ kañ ad giefa Israel Vatn af Helluñe, Num. 20. Hañ

gietur

gietur sendt Eliæ Fædslu med Hrosnunum, 1. Reg. 17. og mettad margar Pusunder Mañа med fаum Braudum og Fiskum, Joh. 6. Og eg veit ad þar er nærre eingeñ af oss, Sem til Ara erum komner, Ad eige hafe hañ einhvorn Tijma reint soddañ undsunarlega Guds Adstod, Ef vier hefdum Vit æ epter ad taka, og tilreikna þad Gude sem hañs er; Eñ sumer trwa æ Mætt siñ og Meigeñ, og þykiast siælfer afreka alla Hlute, Jafnvel þott eg ætle ad hinum Mektuga Himnaña Konunge verde lijted fyrer þvi ad giora oss Prauternar so þwngar, ad Mañlegur Kraptur næe skamt til ad kasta þeim af sier, Pad hefur hañ optlega synt.

Hvad vard wr þeim Fim̃ Konungum sem Abraham hrakte med nockrum Hwskollum sijnum, Gen. 14. Hvad vard af ollum Risunum i Canaans Lande, Sem hrucku undañ Josua? Jos. 12. Hvad vard wr Pharao er hañ treyste æ sijna miklu Makt og sagde: Hvor er Jehova, ad eg skyllde hlijda honum? Exod. 5. Hvad vard wr hinum sterka Goliath, Er David rotade hañ med Steins Hoggenu, 1. Sam. 17. Nockrer treysta æ Vijsdoom og Framsyne, Eñ þad er og Hiegoome. Hvad stodudu Absalon Achitophels Klookende? 2. Sam. 16. Edur Adonia Joabs Slægvitska? 1. Reg. 1. Bæda þæ sloou þeirra eigeñ Pretter um̃ Hælseñ. Hvar fyrer? Pviad Gud var ecke til Rædaneytis tekeñ. Sumer giora þeñañ fallvallta Mañon ad sijnu Athvarfe, 1. Tim. 6. og vilia alla Hlute med honum wtrietta, Eñ þad er eitt vesællt Traust: Guds Gæfa er hañ ad soñu, ef hañ er riett feingeñ, Añars ecke. Eñ ongvum mæ hañ duga nema DRotteñ hiælpe, Og allra sijdst mæ hañ Sæluñe gagna, Nema þeirra sem giora sier Vine af honum, Er medtaka þæ i eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. og eru þar fyrer rijker i goodum Verkum, 1. Tim. 6. Eñ hvorneñ sem ollum þessum er hættad, Pa er hinum þo verst fared, er so lijtt treysta Gude sijnum, Ad þeir meina ad Hofdingia og Veralldar Maña Gunst mune duga þeim framar eñ Ast hiñs mikla Allsheriar DRotteñs, er ollu rædur bæde æ Himne og Jordu, og giora þvi margа Oleifelega Hlute þeim i Vil, eñ moote honum, Og ætla ad þeir mune kuña ad bera Skiolld fyrer sig, Er þo eckert eiga under siælfum sier, Pegar DRotteñ er reidur. Ofarer þeirra er so hafa breitt, mæ allvijda lesa i Ritninguñe; So sem þegar DRotteñ reiddest Juda Konungum, Er þeir leitudu Hiælpar til Syrlands og Egyptalands Konunga, Og kioru helldur ad vera þeirra Naudungar-Meñ, eñ ad lata DRotteñ rijkia yfer sier, og heita hañs Frelsingiar. Pvilijkt skylldu oll Guds Born varast, Helldur leita hañs i allre Neyd, Til hvors þeim er varpad i fræ Moodur-Lijfe, Ps. 22. Og haga so Lijferne sijnu, ad hañ þecke þæ fyrer sijn Born, Sijna Ast-Meñ og Brædur sijns Eingietens Sonar JEsu Christi. Heyred þar fyrer Ord DRotteñs, af Esajæ Spædooms Bookar, 33. Cap. Hvor hañ geingur i Riettvijseñe og talar hvad Riett er; Hvor hañ hatar Ræinginden og Agyrndena, og helldur sijnum Hondum fræ þvi ad þyggia Skeinkingar, Hvor hañ tilbyrger sijn Eyru, ad ecke heyre hañ Mañdræp, Og lykur Augu sijn til, ad eige siæe hañ þau Illsku Poreñ; Sa mun i Hædunum bwa, og

Biorg-

Biorgeñ munu hañs Byrke og Berndar Hlijf vera; Hañs Brand mun honum giefast, Sitt Vatn mun hañ vijst hafa. Eñ þu Doomare allrar Veralldareñar, Sem i Himnenum bijr, Vertu Sool og Skiolldur þiña Barna sem a þig vona, og laat þau alldrei verda hinum skiæda Mordingia Dioflenum ƿur hañs Limum ad Herfange; Laat þau bijda epter hier med Poleñmæde, og sleppa þier ecke þar til þu blessar þau og iñleider i þijns Sonar Dijrd. Bænheyr þad naaduge Fader fyrer hañs Forþienustu, Amen, J JEsu Nafne, AMEN.

# Fimta Suñudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 13. Cap.

Á Þañ Tijma. Adra Epterlijking lagde JEsus fram̃ fyrer þaa, Og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Mañe, Hvor ed saade goodu Sæde i Akur siñ; Eñ þa Meñ svaafu, Kom Ovinur hañs og saade Illgrese med i bland Hveitenu, og gieck i burt. Eñ er Grased spratt upp og bar Avoxt, þa auglysteſt og Illgresed. Eñ Þioonustu-Meñerner geingu til Hws-Fodursins og sogdu honum: Herra, Saader þu ecke goodu Sæde i Akur þiñ, Hvadañ kiemur honum þa Illgresed? Og hañ sagde til þeirra: Fiand-Madureñ hefur þad giort. Þioonustu-Meñerner sogdu þa: Villtu ad vier forum og wtlesum þad? Og hañ sagde Nei, So ad þier uppræted eige Hveited under eins, nær þier wtlesed Illgresed. Laated hvortveggia vaxa allt til Kornskurdarens; Og a Kornskieru-Tijmanum skal eg segia til Kornskurdar-Mañaña: Lesed fyrst samañ Illgresed, og bindeð þad samañ i Bindene til ad breña þvi. Eñ Hveitenu samañsafned i mijna Korn-Hlodu.

Exordium.

Þad eru hrædeleg Ord sem Esajas Spaamadur talar til Gydinga, Cap. 6. Er hañ segier: Heyred avallt, Siaaed avallt, og þecked þo ecke. Gud vere oss Lijknsamur. Hvilijkt er þetta skielselega Straff? Hvad er Vesælla eñ ad hafa Skilningar Viteñ af Gude þeiged, og hafa þo ecke Not af þeim til þeirra Hluta sem þau eru til giord? Þad er ad vera lijkur þeim Skwrgodunum er David umtalar; Ad þau hafe Muñ og mæle ecke, Naser og lyckte ecke, Hendur og þreife ecke, Fætur og gange ecke, Ps. 115 Og er þo ecke ad undra þoott soddañ Straff kiæme yfer þaa sem þessa Maalleisinga, Þessa dauda Hlute, Stocka og Steina giordu sier ad Gudum, og dyrdkudu þaa i Stadeñ hiñs Lifanda Guds, Sem bæde þaa og alla Hlute skapad hefur: Þvi David segier hier strax epter: Ad þeir ed giora þau, sieu lijker þeim. Eñ

þess

þess er ad giæta, Born mijn, Ad Spaadoomur þesse Esajæ, hefur ætt sier leingre Alldur, eñ um̃ hañs Daga, Pvi þegar DRotteñ JEsus fram̃sette fyrer Foolked Epterlijkinguna um̃ Sæded er fiell i Fernslags Jord, Matth. 13. Og Læresveinarner spurdu hañ ad, hvar fyrer hañ talade i Epterlykingum til þeirra: Pa vijkur hañ þessum Spaadoome Esajæ til Gydinga er lifdu a hañs Dogum og forsmaadu Evangelium Rijkesins, Er hañ bodade þeim, Segiande: Par fyrer uppfyllltest a þeim Spaadoomur Esajæ, Er segier: Ad Heyrande mune þeir heyra og ecke skilia, og Siaande mune þeir siaa og ei þeckia. Ecke er sw Meining Frelsarans, Ad Gud vilie ecke uña þeim Skilnings siña Heilogu Orda og Riettinda, Pvi hañ vill ad aller Meñ Hoolpner verde, og komest til Sañleiksins Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Helldur segier Esajas, og DRotteñ epter honum Orsokena til þessarar Andlegu Deifu og Blindne i sama Stad med þessum Ordum: Hiarta þessa Foolks er hart orded, og þeir heyra Pwnglega med Eyrunum, og lykia Augunum aptur, So þeir siaae ecke med Augunum, og heyre ecke med Eyrunum, og skilie med Hiartanu, Ad þeir snwe sier og eg lækne þaa, Es. 6. Hvar af audsært er, Ad Sokeñ er hiaa Moñunum, og ecke hiaa Gude. DRotteñ sette fram̃ margar Epterlijkingar i þessum sama Capitula, og medal añara þa ed Samstuudis var uppleseñ, Eñ eingeñ var sa ed spurde hañ epter hañar Pijding, Nema alleina hañs Læresveinar. So lijted ocktudu þeir þessa Guds Giof, Par fyrer var þeim ecke uñt ad vita Leyndardoom Himnarijkis. Ecke þarf eg þessa fogru Epterlijking fyrer ydur wt ad skijra; Hiñ stoore Biskup, 1. Pet. 2. med þa vel-lærdu Tunguna, Esa. 50. hefur þad so vel giort med saaum Ordum, ad ecke er Aboota vant, Par hañ svarade Læresveinunum þañeñ, Matth. 13. Sa er saade hinu gooda Sæde, Er Mañsins Sonur, Eñ Akureñ er Heimureñ, Eñ hid gooda Sæded eru Rijkesins Syner, Eñ Illgresed eru Syner hiñs Vonda, Eñ Ovinureñ er saade þvi, er Diofulleñ, Eñ Kornskurdar Tijmeñ er Ender Heimsins, Eñ Slaattu-Meñerner eru Einglarner: Par fyrer so sem Illgresenu verdur samañsafnad og i Ellde uppbrendt, So mun og verda a Heims Endernum. Mañsins Sonur mun senda Eingla sijna, Peir ed munu samañsafna wr hañs Rijke ollum Hneixlunum, og þeim ed yfertrodu Logmaaled, kastande þeim i Ellds Ofneñ, Par mun verda Oop og Tañagnijstran; Pa munu Riettlaater skijna eins og Sool i Rijke sijns Fodurs. Hvor Eyru hefur ad heyra, Hañ heyre. Pesse er Utskijringeñ, Brædur mijner; Og er þad Maala sañast, Ad hun er so algiæt, ad Gydingar hefdu vel maatt forvitnast nockud framar um̃ Skilning Epterlijkingareñar, so sem Læresveinarner giordu, Hefdu þeir lagt nockurn Hug a sitt Maal. Eñ þess er ad giæta, Born Guds, Ad fyrst ad Spaadoomur Esajæ naade til Gydinga sem lifdu a Christi Dogum, meir eñ 700. Arum sijdar, og var þa af honum stadfestur; Pa er Audvitad, ad hañ eirneñ nær til vorra Daga sem nu lifum; Pvi so sem þad ad Guds Rijke er til vor komed fraa Gydingum, sokum þess Peckingarleysis sem i þeim var, Eph. 4. So eru og til vor komnar allar þær Vidlogur og Hootaner,

er, Sem a þeim munu ad fullu hrijna, Er giora sig þess eñ nu i Dag Overduga, og forsmaa Guds Son og under Footum troda, Hebr. 10. Nu fyrer þvi ad eingeñ Þorf er ad wtskijra þessa Predikun HErrans, framar eñ giort er, So sem aadur er sagt: Þa vil eg kvedia ydur þeim Dijrmætu Ordum er hañ Endar þessa sijna Utleggingu med: Hvor Eyru Hefur Ad Heyra, Hañ Heyre, Og alleina tala um þaa Hlute af Gudspiallenu, Er oss vekia meige til ad þeckia vorn Vitiunar Tijma.

Hiaalpa oss þar til O þu goode Gud med Naad þijns Anda, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HErlsareñ segier i ondverdu Gudspiallenu: Ad Himnarijke Sie Lijkt Mañe nockrum Er Saade Goodu Sæde J Akur Siñ. Af hañs eigeñ Utleggingu er audsied, Ad Sæded merker hier añad eñ i næst fyrerfarande Epterlijkingu, Þar merker þad Guds Ord, Eñ hier Meñena, Sem Guds Ord eiga ad heyra. Þessu goods Sæde, saade DRotteñ strax i Upphafe Skopunar. Gott Sæde voru þau Adam og Eva, Þegar Gud saade þeim nidur i Alldengardeñ. Margt hefur þar Gras fagurt vered, morg fogur Eik, og margur bloomlegur Avoxtur, Þo eingeñ nærre til Lijka vid þau, Þvi Madureñ var epter Guds Mynd skapadur, segier Ritningeñ, Gen. 1. Baaru þau þess vegna laangt af ollum skopudum Skiepnum a Jorduñe: Eñ jafnskioott kom þar Fiandmadureñ, Gen. 3. og stack þeim Andlegañ Svefn-Þorn, So þau tooku nidur fyrer sig, og virdtu meir þa Skiepnu Guds, sem þeim var miklu Oædre, helldur eñ siaalfa sig, epter Slægdarfullre Diofulsins Aeggian. Sijdañ hefur hañ alldrei vantad Sæde til ad spilla Guds Akre med. Strax var þar eirn Mordinge i Adams Hwse, Gen. 4. Og þoott ad Gud sette hañ wt fraa þeim litla Safnade siña Barna, sem þa var a Jorduñe, þa varde þad ecke leinge, þar til Ovinureñ saade aptur Illgresenu a medal Hveitesins, og kom Guds Sonum, sem voru þeir af Nidium Adams, er Guds Otta giættu til ad elska Mañaña Dætur, sem voru Cains Affspreinge, Hvar af vox þad Illgrese, Fyrer hvort ad Gud upprætte hina Vantrwudu Verolld, Gen. 6. Þegar honum i þad Siñ virdtest Kornskieru-Tijmeñ komeñ vera, Og ecke var epter nema Illgrese eitt a Jorduñe, Ad fraateknum Noa og hañs Hyske, Og þo var þar Eirn Spottare, Eirn Ohlijdeñ Sonur hñs Hwse, Gen. 9. So ad epter Flooded, Þegar þar voru ecke nema Atta Kornstaungur i Guds Akre, þa var þo eitt Illgrese a medal þeirra; Og er framlidu Stunder, kiæste þetta Andskotans Saad-Verk so Hveited, ad þess giætte valla, Og þad so miog, ad þad ætlade ad vaxa upp i Himeneñ, þegar þeir bygdu Turneñ Babel, Gen 11. Og ætludu sier ad taka Raadeñ af hinum Almaattuga, So ad eige skylldu þeir adskiliast, Og so hefur þad jafnañ geinged fram epter Olldunum. Þegar Gud kallade Abraham af Ur i Chaldea Lande, Gen. 12. Og uppfrædde hañ siaalfur i þeirre Himnesku Speke, þa saade hiñ Alvitre Hws-Fader goodu Sæde i Canaans Lande, Þo spratt þar upp strax Eitt Illgrese, Eirn Haad-Fugl Ismael, Gen. 21. Eirn Ossooknare, Ein Ambaatt, sem

ad

ad vanvirdte Hws-Moodur sijna, Gen. 16. J Kvide Rebecku voru Tvær Plooder,
og saa Meire offsookte þañ Miña, Gen. 25. Esau Gudlaus Madur hiñ frooma Jacob;
Gen. 27. Og þo var ecke Jacobs Hws fyrer utañ Jllgrese; Þar var Ein Lauslæt
Dootter, Gen. 34. Þar voru Tveir Mordingiar; Gen. 34. Þar var Eirn Son-
ur, er fleckade sijns Fodurs Sæng, Gen. 35. Þar voru Niju Brædur, Er selldu sin
eigeñ Broodur Mansale, Gen. 37. Laungt er soddañ allt upp ad telia. A medal
Christi Toolf Læresveina var þar Eirn DRotteñs Svikare, Joh. 6. Þegar Akur
hñs Christne var sem bloomlegastur, So ad aller Hluter voru Sameigeñleger med þeim
Trwudu, Og þeir selldu Eigner sijnar, og baru fram fyrer Fætur Postulaña, Act. 4.
Þa skaut Diofulleñ þar strax Jllgresenu iñ, þegar Ananias og Saphira leindu af Jard-
ar-Verdenu, Act. 5. Hvorneñ Simon hiñ Fiolkuñuge, Act. 8. Spillte Guds Christ-
ne, Er liooft bæde af Postulaña Giorningum og odrum Christeñdooms Sogum. Og
hvorsu miog Paulus kvartar um Vanskickunena i DRotteñs Kvolldmaaltijd, 1.
Cor. 11. So og skamarlegt Samræde med nærkomnum sier, Er hañ segier, ad ecke heyr-
est jafnvel medal Heidingiaña, 1. Cor. 5. Þad maa alkuñngt vera af hañs Briefum
til Safnadarens i Corintho. Fyrst nu ad Diofulleñ fieck slijku til Vegar komed aa
medañ Gud talade sialfur vid Meñena, Eins og Madur vid Mañ talar, aa medañ ha-
ñs Eingieteñ Sonur, voru Hollde Jklæddur, flutte Eyrende sijns Himneska Fodur hi-
er aa Jorduñe, Medañ Heilagur Ande med sijnelegum Krapte og Jardteiknum aug-
lijste sitt Guddooms Almætte i Moñunum og aa medal Mañaña, Þa ætlunst ecke til ad
hañ mune nu sijdur verka i Bornum Vantrwareñar, Eph. 2. Þar vier meigum glogg-
lega vid þad kañast, af þeim Lostum og Skomum, Er Daglega i Voxt fara aa medal
vor, Ad Satan er ofañ komeñ, hafande Bræde mikla, Apoc. 12. Þvi mætte oss ve-
ra umhugad, ad þeckia vorn Vitiunar-Tijma, er oss so optlega bodadur verdur i Guds
H. Orde, Og vilie Meñ ecke Guds Vitiunar-Tijma þeckia, Þa þeckie Meñ þo Andskot-
añs, Þvi sijdañ Christne hoofst i Lande þessu, Hygg eg hañ alldrei hafe meira Rijke haft
vor aa medal i sumum Hlutum, eñ nu um Stunder. A ollum Olldum hefur hañ saad
Jllgresenu aa medal Hveitesins, Eñ þo hefur þad optast vered og vijdast, ad Skomeñ
hefur Skom heited, og Dygdeñ Dygd, Jafnvel hiaa þeim, sem ecke hafa Dygdena elsk-
ad nie hatad Skomena: Eñ nu heyrest mier, ad Meñ hroose sier af Lostunum, og setie
Dygdaña Nafn uppaa þa. Jsmael er tekeñ til ad offækia Jsaac, og Agar ætlar ad
reka Sara wt wr Hwsenu. Abimelech er fareñ ad drepa hina skilgietnu Brædur-
nar, Jud. 9. So hañ Frillu-Sonureñ meige einsamall rijkia. Agyrndeñ er Framsijne
kollud, Drambsemeñ Hofdingsskapur, Hræsneñ Vitska, Þegar Meñ briioota Riett-
eñ, Kalla Meñ þad ad byggia hañ, Þegar Meñ sleppa Skaalkum og Jllrædis-Moñum
Ohegndum, Þa nefna Meñ þad Kiærleika og Myskunseme. Hyrduleyse og Tomlæ-
te i sijnu Kalle og Embætte, Heiter Spekt og Fridseme. A Dogum Christi Onijttu
þeir Guds Logmaal med sijnum Setningum, Matth. 15. Þa hofdu þeir ecke Log-Book

nema Moysis Logmaal. Eñ þess være Oſkande, Ad ecke Onijttu Meñ nu Konungs-
ſens Log med ſijnum eigeñ Pootta, Nær þeim rædur ſo vid ad horfa. So falſar nu
Andſkoteñ Guds Stedia a medal vor, Og ſetur hañs Mynd og Yferſkrift a ſvikeñ
Maalm, Og þetta verkar hañ med Slægd og Kuñaattu ſo mikelle, ad ſo ſem ad Illgreſed
er vandþeckt fraa Hveitenu, aadur eñ þad er fullvaxed, Matth. 7. So þeckia Meñ ecke
þeſſa Ulfa, fyrr eñ Saudar-Giæran er af þeim dreigeñ, Og þeir bijta Hofuded af Skom-
eñe, So hun fær ecke leingur duleſt. Veit eg ad Fiandmadureñ brwkar Einfelldne og
Hugleyſe margra til ſlijkra Hluta, og er þad noogu Illt, Þvi graatlegt er til þeſs ad vi-
ta, ad Farkiænſkañ og Otteñ fyrer þvi ſem eckert er, ſkule ſo Drottna i Verollldeñe, ad
faaer añadhvort vite hvad þeir eiga ad giora, edur þore, þoott vita meige, Eñ hvorneñ
ſem þvi er vared, Þa villda eg þeſs Oſka, ad þegar DRotteñ lijtur af Hiìnne ofañ yfer
Mañaña Sonu, Pſ. 14. Ad hañ hefde þa ecke Orſok til ad klaga eins og Jeremias
Cap. 5. Er hañ ſegier: Nu vel, Saa aume Flockureñ er ſkynlaus, vitande ecke neitt af
DRotteñs Veige, og af ſijns Guds Riettindum. Eg vil gaanga til hiña Volldugu
Og tala vid þa, Þeir munu vita af DRotteñs Veige, og ſijns Guds Riettindum; Eñ
aller ſamañ hofdu þeir Oked broted og Togeñ i ſundur ſlited. Hvar fyrer kiemur nu
oll þeſſe Olucka? Þvi hefur Fiandmadureñ ſo mikeñ Framgaang? Er hañ ſterkare
eñ Gud? Fiærre ſie þvi, Hañs Sonur hefur Einuſiñe ræent hañ ſiñe Harneſkiu og ſijn-
um Vopnum, aa hvor hañ treyſte, Luc. 11. Hvad þa? Hvor er Orſokeñ? Þviad
Meñ vilia helldur liaa Limu ſijna til Ibwdar Syndeñe, Helldur eñ Riettlætenu til
Verkfæra, Rom. 6. Gud vill laata erfida i ſijnum Vijngarde, Matth. 20. Þar
fyrer vill margur hafa ſig undañ þeigeñ ad liaaſt honum til Þioonuſtu, Jafnvel þoott ad
þeim ſieu Launeñ vijs aa Himnum, Er honum til Handa gaanga, Eñ þad er Iñdællt ad
gioraſt Verk-Þræll Andſkotans, Þvi hañ leggur Kodda under Hofud Syndarans,
Ezech. 13. Þoott Meñ fyrer vijſt vite, ad hañ laune med Ellde og Breñeſteine, Apoc.
14. Med Oope og Tañagnijſtran, Matth. 13. So ſem DRotteñ adkvedur ſijdarſt i
Utſkijringu þeſſarar Eptterlijkingar. Þegar Meñ Svaafu, Kom Fiandmadureñ Og
Saade Illgreſenu Medal Hveiteſins, Segier i Textanum. Ecke er med þeſſu meint
Ein Stiett helldur eñ oñur, Eñ alleina Tækefære þad ſem Ovinureñ brwkade til ad faa
Illgreſenu nidurſaad i Akureñ, Þad var Svefn-Tijmeñ. Samt maa eg taka mier
Orſok hier af til ad tala þar um, Ad eg hygg oſs verde nockud Svefnſamt allmorgum i
baadum þeim Stiettum, ſem Yfer Raadeñ hafa, ſo ad Fiandmañenum þar fyrer optlega
giefeſt Tækefære til ad ſpilla Guds Akre med Illgreſenu. Taked fyrſt til aa mijnum
Heilgedoom ſagde DRotteñ vid Jeruſalems Eingla, Er hañ baud þeim ad ſlaa þa alla
ſem ecke Teiknader voru, Ezech. 9. Eg vil Fyrſt taka aa oſs ſem berum Aarons Skrw-
da, Hvorneñ mun lijda um hinar ſmaau Kornſteingurnar i Guds Akre? Mun þær
ecke vanta aa Stundum hañ heilnæma Vokva, er þær eiga ad ſpretta af, ſo ad þeim kyñe
ſafnad ad verda i Bindene Guds Barna, Þegar Uppſkieru Tijmeñ kiemur? Eg hygg
ad

ad i þessu sie mikell Brestur hiaa allmoraum, Hvad Gud Naadarsamlega Lagfære, Og giefe þeim ad ydrast er i þessu er so miøg Aboota vant. Eñ segied mier, Hvad giora þeir ed þañeñ breita? Sofa þeir ecke? Mun ecke Fiandmadureñ hafa nooga Orsøk til ad saa Illgresenu þegar so til geingur? Pad er hægt ad giora Hveited ad Illgrese, Eñ ad laata Hveited aptur hverfa til siñar fyrre Naatturu, Þegar þad er Einusiñe orded ad Illgrese, Pad heyre eg sagt ad sie Omøgulegt, So er þvi og vared i Guds Akre, margs Ungmeñis Naattura kañ ad vera good, Eñ þvi velldur Fiandmadureñ, og þeir sem eiga hier-uñ ad hyrda, nær þeir forsooma sitt Verk, og giefa honum Rwm, ad hun venst aa þad Illa sem er audnæmt, Þvi hun heyrde lijted af þvi Gooda, Og dregst so Unglingur-eñ aa Legg, ad baagt kañ vera vid ad giora, Venur so adra epter sier, Nær hañ er gamall ordeñ, So ad þesse Drepsoott smijgur so Mañ af Mañe, Þar til hun spiller heilum Akre. Þeir sem eta þetta Illgrese, sem hier gietur uñ i Evangelio, Verda blinder edur Glaamskiøner; Hvad munu þeir verda sem uppalast med þeim er so eru uppalder? Blinder af Blindum Leidtogarum.. Og þetta siaa nockrer af vorum Kieñemøñum og leggia þar ecke til. Sofa Meñ þa ecke? Mun Satan forsooma þetta Tækefære? Eg vil ei tala uñ þad, Hvorsu lijted ad sumer af oss vanda Kieñinguna af Predikunar-Stoolnum; Fiñast munu þeir, Ed ætla sig vel hafa reked Guds Eyrende, Ef þeir fylla upp Eyru Tilheyrendaña med Haareiste nockru og Mælge þeirre er hvorge aa heima, Eñ giæta ecke ad þvi, hvort hiñ Sturlade fiñur Huggun þar i, Hiñ Faavijse Leidrietting, Hiñ Sofne og Hardulause Uppvakning, Hiñ Ogudlege og saa ed forsmaaer Gud og hañs Rietinde, Pad sem honum tilheyrer, Sem er Hootun Guds Reide, Og eilijfrar Fyrerdæmingar.

Hvort aller þesser fiña þad i eirnre Predikun, Pad athuga sumer ecke so gaumgiæfelega aa Stundum; Pegar Meñ hripsa eitthvad wt wr eirne Book til ad giora Afsøkun sijna, Giætande ecke miøg smaasmuglega ad, hvort þad gagnade ad tala aa þeirre Tijd, Edur i þeim Søfnude, sem honum er aa-Hendur faleñ til Umsøñunar, Samt þvo Meñ Hendur sijnar fyrer Foolkenu, Og kalla sig Saklausa af Bloode hiñs Rietlaata, Matth. 27. Sem þo ecke hrijn aa þeim er tapast, Sokum Faafrædis þessara Vesælinga. Eñ hañ sem i Guds Stad er settur, Forsoomade ad giefa hañs Hiwum i riettañ Tijma þad sem byriar, Luc. 12. Og ætlar ad Gud mune ecke krefia þess af siñe Hende sijdañ, Ezech. 33. Jafnvel þott hiñ Faafroode mege deya i sijnum Syndum, Nema Gud vilie meire Myskun aa giora, vegna hañs Toomlætis er honum aa ad undervijsa, og aamiña Foreldra og Hwsbændur ad giora Skylldu sijna, Þar sem hañ fær ei siaalfur tilkomest. Segied mier, Er ecke þvilijkt ad sofa? Mun Ovinureñ ecke færa wt siñ Reit i Guds Akre vid allt þetta? Eg vil ei faa mier til Orda, Hvorsu ad margur Leigulide er ragur i þvi ad straffa Odygder og Glæpe hiaa þeim sem eru nockurs Maals metande, Ein Maaltijd Matar, Eirn Bikar aafeings Dryckiar, Eitt Hundrads Virde edur miña aa Stundum, Þvær af allar Synder hiñs Gudlausa, hiaa þeim er so eru lynder, Laun-

ande so Skamarlega sijnum Velgørda Moñum, Ad þeir pretta þa um Gagn Saalar siñar, Og þañ mesta Velgiørning er þeir kyñu þeim aptur ad sijna, Sem er ad segia þeim til Synda siña, So vanhelga þeir Gud fyrer eirn Miølhnefa, so sem DRottеñ ad Orde kiemst, Ezech. 13. Og þott eckert af þessu i mille kome, Pa helldur Otteñ fyrer Ofrijke þess Vollduga, mørgum af þeim er sig kalla Umbodsmeñ Christi, so i Taume, ad þeir ecke þora Muñenum upp ad liuka, hvoriar hellst Skamer og Klæke sem þeir horfa aa. O! vei, O! vei, Segied mier i Guds Nafne, Segied mier, Er ecke þvilijkt ad sofa? Mun ecke Fiandmadureñ hlæa ad þessu, Nær Guds Pienarar draga hañs Ploog so Kappsamlega, og fiña ad þad meige um vorar Tijder segia, Er DRotteñ sagde fordum um Hyrdarana i Juda: Aller þeirra Vøkumeñ eru blinder og vita alls eckert, Maallauser Hundar eru þeir, Og kuña ecke ad giellta; Peir eru later, Liggia og sofa giarna, Es. 56. Og þesser hiner grædugu Hundar, kuña þo alldrei sadder ad verda; Og þetta hid Sildarsta velldur, ad Meñ eru so spaker i þvi ad umvanda vid adra i Guds Stad. Balaks Fiemuner orka þess, ad Asnañ verdur fliootare til ad segia satt, Helldur eñ Spaamadureñ sem aa heñe situr, Num. 22. So þegar eirn Hofdinge fær ecke ad heyra Sañleikañ af Preste sijnum, Sem ær og maa segia honum til Syndaña, aan allrar Misvirdingar, Pa verdur hañ aa Stundum ad heyra þad af Fiandmañe sijnum, af hinum miñsta Pienara, af einum Boonda, sem ad giorer Skoñ til Kieñemañsins, er þetta ætte ad giora sier til Forsvars hiaa Gude, Eñ hinum til Saalar-Bata og øngrar Mijnkunar, Nema hañ þykest meire Madur eñ David, Er þolde Nathan Spaamañe Sañyrdeñ Reidelaust, 2. Sam. 12. Og ef hañ heyrer þad af øngvum af þessum, þa mun hañ þad heyra af Doomara alls Hollds aa sijdarsta Deige. Og þoott Meñ sieu nu so spaker vid Høfdingiana, og þa hvørra Valld Meñ ottast, þa vantar Meñ ecke sumahvoria aa stundum, ad bruka sijns Embættis Myndugleika vid Lijtelmagnañ, ecke til ad Leidrietta hañ, edur til ad vandlæta i Guds Stad, helldur til ad otta Moñum med þvi Vallde er vier hofum til ad leysa og binda Syndena a Jordu, Matth. 16. Og til ad hefna sijn a þeim er Meñ þykiast varhendt eiga, Gud veit ad eg lijg ecke, ad þesse munu Dæmeñ giefast, Og þo fleire eñ Eitt. Eñ eg bid ydur, Ad þier athuged, Pier sem þetta adhafest; Eg bid segie eg i Guds Nafne, ad þier athuged, Hvad skielfeleg Haadung ad þetta sie, Og hvørsu ad Blood DRotteñs JEsu; Pad dijra Saattmaalans Blood mune hroopa i Himneñ, Pegar þad er so Almeñelegt hallded af einum Synda Præl, Er væneft ad þessu Guds Umbode, Sem fyrer þeirra og allra Maña Synder er Krossfestur; Segied mier þier Daarar: Mun Gud hafa nockrum umboded ad Foottroda þañeñ sitt eiged Blood? Hvørs miñste Drope ad er Dijrmætare, eñ ad Himen og Jord meige i nockurn Samjøfnud koma. Pessu vil eg hafa viked til þeirra er setia eirn Vesæling ut fraa Heilogu Altaresins Sacramento fyrer litlar edur aungvar Saker, Og optlega þær er þeir siaalfer þykiast vid hañ eiga. Vited þier ecke, Pier Hræsnarar, Ad þvilijk Utsetning er eitt DRotteñs Reidar-Slag til þess ad straffa med Gudlausa Meñ,

Og

Og hañs Nafns Forsmaanara. Po skañest þier ydar ecke ad taka ydur þad i Hond til ad slaa þaa med, Er ydur er illt i Skape vid. Hvorsu vel hafe þier geimt ydar HErra Bodords? Er hañ segier: Blessed þaa er ydur bolva, Giored þeim Gott er ydur ofsœkia, Matth. 5. Ad þier sieud Born mijns Fodurs sem aa Himnum er. Eñ þegar þier brwked hañs Dijrdarfullu Stoormerke til ad refsa þeim er þier þykest eiga Hefnder ad giallda, Hvors Syner erud þier þa? Ecke hañs er skipade ad lijda Illgresed til Kornskieru Tijmans, Helldur hiñs sem er Mordinge Saalnaña, Joh. 8. Ecke hañs sem gieck i krijng, giorde Gott og grœdde alla, Act. 10. Helldur hañs er geingur um̃ krijng sem greniande Leon, Leitande ad þeim, er hañ faae uppsvelgda, 1. Pet. 5. Pegar DRotteñ JEsus gieck um̃ Samariam Fordum Daga, Pa sende hañ undañ sier Lœresveinana, ad tilreida sier Herberge i Borgeñe, Eñ Bœjar-Meñ villdu ecke taka vid honum, Pvi hañ hafde þañ Snid aa sier, sem villde hañ reisa til Jerusalem; Eñ Samaritani hotudu alla þaa, er sooktu helgar Tijder þaangad, Pa reiddust þeir Jacobus og Johañes, Og sogdu: Meistare, Villtu ecke ad vier segium ad Elldur kome af Himne og fortœre þeim, Eins og Elias giorde; Eñ hañ Blessadur snerest vid, straffade þaa og sagde: Pier vited ecke hvors Anda þier erud, Pvi Mañsins Sonur kom ecke ad hañ Tortijnde Saalum Mañaña, Helldur ad hañ þœr hoolpnar giorde, Matth. 9. Petta giordu þeir Johañes og Jacobus af Einfelldne og Oþorfu Vandlœte vegna DRotteñs, Og þo aataldde hañ þaa so hardlega; Eñ af hvorium Anda giored þier þetta? Ecke Guds, Helldur Andskotans. Segied mier: Er ecke þad ad kalla Elld af Himne, ad baña Moñunum hina kroptugustu Lœkning Saalar siñar, og steipa þeim so til Helvijtis, Ad so miklu Leite, Sem i ydar Vallde stendur? O! þier Skynlauser Vargar; Laated af soddañ Œde, Nema þier siaalfer vilied þola Brœde DRotteñs um̃ alla Eilijfd, J þvi Dijke sem rijkur af Ellde og Breñesteine, Apoc. 21. Vakned upp og sofed eige leingur; Giored Ydran, Pviad ydar Hiarta er ecke riett fyrer Gude, Act. 8. Hvor Eyru hefur ad heyra hañ heyre. Eg villde og faatt eitt vid ydur talad hafa, Pier Verålldar Hofdingiar, Med ydar goodu Leife: Munu þeir ecke fiñast ydar aa medal, er Svefn-Hoggve reñe aa i Doomara Sœte, Edur nœr Meñ eiga ad giora Verk siñar Kallanar, Sem Gud og Kouungureñ hafa þeim aa Hendur faled: Eg vil eige tala um̃ þad, Hvorsu Meñ leita sier Fordilldar i ad spilla Stefnum og Vitnum, þvert aa moote Logmaalenu, Nœr Moñum rœdur so vid ad horfa, Ad wtleggia Logeñ epter þvi sem Meñ þykiast vid þurfa i þad Siñ, Og aka þeim eins og Seglum epter Vedrenu. Pau munu Dœme giefast, Ad eitn og hiñ same Doomare hefur i eirnre Sok dœmt epter einu Logmaale, og þvert aa moote hinu sama i odru eins Maale, Ecke fyrer nockur Olijk Atvik edur Haattalag Sakaña, Helldur alleina epter þvi, sem hañ hefur uñad þeim til. Sem hafa vered fyrer Doome hañs. Segied mier: Er ecke þetta ad sofa? Pyker ydur ecke Von aa ad Akur Fiandmañsins groe vid þetta. Hvorsu Ohlijfsner eru Meñ i þvi ad tradka Maalunum, Og þoott eg segde Blygdunarlauser, þa segda eg ecke ofmiked, Pvi Meñ giora þad so berlega

lega a Stundum, Ad þad er ollum heilvita Moñum augliooſt, ad Meñ ſetia þær Flækiur i Dooma ſijna, Sem eirn Tals-Madur, Edur ſa ſem ætte ad veria Hofud ſitt, ſkyllde ecke añarſtadar þora ad brwka ſier til Forſvars: Eg vil eige faa mier til Orda um opeñ bera Riettar-Neitun, Hvorſu Slægvitrer Meñ eru i þvi ad ſkioota Maalum a Freſt, aan aſtra Orſaka, ſo ad hiñ Faatæke og Einſtædingureñ, Og jafnvel a Stundum þoott hañ ſie Maals metande, Ef Doomareñ er honum mootfalleñ, Þeir neydaſt til ad ſtanda af Riette ſijnum, og þeim leideſt edur hafa ecke Efne a, ad ſækia hañ framar, og villia helldur giefa epter Sok ſijna, eñ ſpilla Tijdeñe, Og voga Gotze og Omake uppa hañ Riett, Sem Meñ eiga ad ſækia i hvilijkar Hendur. Hvad ſyniſt ydur nu gooder Meñ? Mun ecke Skaalkureñ og hiñ Ogudlege vaxa vid allt þetta, og æſa ſonu Skamer Ottauſt: Og þegar honum ſo hrockur yfer, Sokum Raangſleitnis þeirra, Er Riettenum eiga ad ſtijra, Þa kallar hiñ Ohlutvande, ad Gud hafe Pocknan a ſier, Af þvi hañ lætur hañ vaxa til Kornſkieru Tijmans; Eñ þeir ſem Gud heſur um̃ boded, Forſooma ad taka Hneixled og hid Vonda i burt wr Iſrael, Devt. 17. Þegar nu ſo ber vid, Þa kalla eg ad Rietturen̄ ſofe, Af þvi eingen̄ er til ad vekia hañ: Er ecke ſlijkt ad raada Dioflenum Verk-Præla til Handa i ſiñ Akur? Sem ad miklu ſijdur forſooma hañs Verk, Eñ hiner er Guds Ploog eiga ad draga, Og være gott ef hier med være kyrt lated. Eñ þeſs være Oſkande, Ad ecke lidu Meñ alleina hinar verſtu Skamer og Ohæfu, Helldur og tæke þær ecke i Forſvar: So ſem er Vanſkickun og Ol Ede under Guds Orda Heyrn, Gudlaſtaner, Vanbrwkun hañs Dijrdarfulla Nafns, til ad ſkiema ſiñ Naunga med, og margt hvilijkt fleira, Sem heidvirdur Madur mætte ſkamaſt ſijn ad nefna, Eñ ſumer ecke bligdaſt vid ad forſvara, Edur ad miñſta Koſte nærre Oſtraffad laata, So þad ſem añarſtadar i Chriſtnum Londum, er med Utlegd, Edur og odrum þwngum Alogum ſtraffad, Þvi ſleppa Meñ hier alldeilis, Edur og laataſt ſtraffa þad ſo ſem litla Yferſioon eñ ongvañ Stoor-Glæp. Eg hefe leſed i Guds Mañs Rite, Er liſde fyrer Hundrad Arum hier i Lande, Hvors Saal nu lifer i Himnenum, Eñ Miñingeñ er ægiæt a Jordune: Hañ ſegieſt hafa talad vid eirn Mañ, Er ſagt hafe: Ad hañ ecke villde ſveria raangañ Eid, Þoott honum Sex Hundrud giefeñ være, Eñ hefde hid Siounda vered i Bode, Þa munde kañſkie hafa ruñed a hañ Tvær Grijmur, ſkrifar þeſſe Guds Madur. Þetta var ad ſoñu ein Hofud Skom̃, Er hañ talar um̃; Eñ ecke hygg eg Meñ þurfe ad kaupa ſoddañ nu um̃ Stunder Sumſtadar, Þad mun ſaaſt Okeypis, Ef Doomareñ er velvilliadur, þeim er aaliggur, Sierdeilis ef ecke liggur vid nema Guds og Konungſins Riettur. Segied mier: Mun þad ecke eiga hiaa þeim heima, er ſo breita, Sem DRotteñ ſeger vid Juda, Ezech. 16. Ollum Skiækium verdur Fie giefed til, Eñ þu hefur giefed þinum Fylgiu-Moñum Peninga. Er ecke þetta ad ſofa? Er þad ad undra, ad þuñ ſkipad er i Guds Akre af Hveite-Staungeñe, Nær ſo til geingur, Og þott Guds Þienarar kvarte hier um̃, Og fære jafnvel ſlijkt under Log a Stundum, epter Skylldu ſijns Embættis, Þa faa þeir ongvu a-orkad, mæta helldur Araaſum þar fyrer, og ei blygdaſt

hiner

hiner þar vid, Þoott þeim sie hier um brixlad, Helldur slaa vid því Hnackanum, so sem Meñ vlaga ad segia, Og giøra eins og Salomon segier um Skiækiuna, ad hun striwke sier um Andlited og segie; Eg hefe eckert illa giørt, Prov. 30. Þeir blygdast þar vid ad soñu um Stundar Saker, Eñ reka ei ad sijdur Fiandans Eyrende, so sem hefdu þeir Valld sitt og Veitslur af honum þeiged, Eñ ecke af Gude nie Konungenum. Þyke nu nockrum so sem ad þetta hitte aa sig, þa mun saa giefa Hliood af sier sem aakiemur, eñ mart er af þessu er Almeñara og kuñugra, eñ ad hier þurfe mørg Vitne ad leida. Eg fiñ þad ecke med því ad grafast þar epter, Þetta er yfer allt segier DRotteñ um Klæke Gydinga, Jer. 2. Bref og Doomar Maña skulu þad satt giøra, Er eg ritad hefe, og siaalfer þeir edæsa þvilijkt, munu þad þeckia, þoott eige ville þeir ad giøra, Nema þeir sieu forbrender i Samvitskum, og hafe mist alla Tilfiñingu: Nema hiñ graaduge Hræ-Fugl Diofullen hafe rigna laated i Augu þeim heitum Saur, Eins og Titlingarner i Augu hiñs gamla Tobiæ Fordum Daga, Tob. 2. Sagañ segier, Ad hañ hafe læknadur orded med Galle Fiskiarens, Þegar því var ryded aa hañs Augu, Þa datt Hreystred af þeim, Tob. 11. Eñ eg veit ecke hvad þessum mune til Lækningar verda, Fyrst Guds Blood fær þess ei orkad, og ecke þad þeiska Gall og Edik, er honum var bored, Matth. 27. Þegar hañ kvaldest fyrer þessar þeirra og allrar Veralldareñar Synder. Eg veit ecke hvad þeirra Augum mune uppliwka, Nema hin stæka Svæla Helvijtis Ellds, Hun mun liwka þeim upp ad vijsu. Aññara Maña Augu skiemer Reikureñ og sliosfgar þaug, Eñ þessa mun hin eilijfa Svæla heilskigna giøra, ad þeir so Lokfins siaae hvor añars Skom, sem hafa giørt Samband aa moote Gude og hañs Christe, og ecke villdu upplaata sijn Augu aa moote hañs Riettlætis og Naadar-Geislum, medañ þeir plaagudu hañs Utvalda i Rijke sijns Fodur, Sem er Hofdinge þessa Heims: Og þad er um þa riett sagt er Seneca skrifar um Claudium, ad hañ ecke þeckt hafe ad hañ daudur var, fyrr eñ hañ saa Lijkfor sijna. Segied mier nu i DRotteñs Nafne, segied mier, Er ecke þvilijkt ad sofa? Er ecke þad ad vera Saadmadur Fiandmañsins, og spilla Guds Kornekru af øllum Kroptum? Hvor Eyru hefur ad heyra, Hañ heyre. So heyre þier nu Ord DRotteñs sem i Landenu bwed, Þier sem hañs Umbod er aa Hendur faled. Heyred þier sem standed fyrer Altare hiñs Allra Hæsta, Hvad hañ bijdur ydur, af Ezechielis Spaadooms Bookar 33. Cap. Eg hefe sett þig fyrer Vørd yfer Israels Hws, Nær eg segie til hiñs Ogudlega, Þu skallt Dauda deyia, Og þu varar hañ ecke vid, Og segier honum þad ecke, so ad hiñ Ogudlege kuñe ad vakta sig vid sijnu Ogudlegu Athæfe, so ad hañ meige lifa, Þa skal hiñ Ogudlege deyia fyrer siña Synda Saker, Eñ hañs Bloods vil eg krefia af þiñe Hende. Og so ad þier kuñed med þess meira Frelse og Myndugleika, og betre Samvitsku ad Straffa, Ogna og Amiña i Guds Stad, Þa haged Lijferne ydar so sem Christi Þienarar og Raadsmeñ hñs Leyndardooma, 1. Cor. 4. Giefande øngvum nockra Hneixlan, So ad vor Þioonusta verde ecke lostud, helldur i øllum Hlutum hegdum oss, So sem Guds Þioonustu-Meñ, Epter Bode St. Pauls, 2. Cor. 6.

Heyred þier hiner Volldugu i Landenu, óg þier ſem Gud hefur Sverded i Hendur fein-
ged, Heyred þier Ord DRottens, Læred Gott ad giora, Leited epter Riettenum, Gior-
ed Riett hinum Underþryckta, Laated hiñ Munadarlauſa Logum naa, Og taked ad ydur
Maalefne Eckiuñar, Eſ. 1. Hallded Doomeñ og Riettvijſena, Frelſed hiñ Under-
þryckta af Hende Offooknarans, Og ſturled ecke hiñ Framanda, Foburleyſingiañ og
Eckiuna, Og giored ongvum Ofrijke, ſegier DRotteñ Zebaoth, Jer. 22. Hyxed ecke
med ydur, Ad nær þier þeſſar Guds Amiñingar ad ongvu hafed, Ad hañ mune þa vera
lijkur ydur, Þoott hañ þeige, Pſ. 50. Og laate ydur vaxa til Kornſkieru Tijmans, þvi
hañ mun ſtraffa ydur og tala vid ydur under Augun, nema þier ydreſt af Hiarta. Laat-
ed af Jllu og læred Gott ad giora. Vandlæted i Guds Stad, og uppræted Hneixled
og hid Vonda wr Jſrael. Devt. 22. Aññars mun þad heita fyrer ydur: O þier af
Moyſis og Aarons Hwſe, Hvor ſem mig forſmaaer, Þañ vil eg forſmaa, 1. Sam. 2.
Þijn Saala ſkal vera fyrer hañs Saalu, 1. Reg. 20. Þier erud Guder kallader, og
aller erud þier Syner hiñs Hærſta, gooder Meñ, Eñ þo munud þier deyia ſo ſem Mañ-
eſkiur, Pſ. 82. Heyred þetta til ſamans Andleger og Veralldleger, Heyred hvad
DRotteñ ſegier ad Alycktun i Utleggingunñe, Ad Jllgreſenu mune verda kaſtad i Ellds-
Ofneñ, Þar mune verda Oop og Tañagniſtran. Ef þeirra Doomur verdur ſo ſtraan-
gur, ſem fyrer ydar Vanræktar Saker tapaſt, Hvilijkur mun þa ydar Doomur ver-
da, nema þier gialldeð Varhuga vid. O! þier Chriſtner Meñ, O! þier ſem med Guds
Sonar Bloode erud Endurkeypter og i hañs Dauda ſkijrder, Act. 20. Giefed Giæ-
tur ad ſiaalfum ydur og allre Hiordeñe, ſem Gud hefur afrekad med ſijnu eigeñ Bloode,
Hvor i ſiñ Stad, Punded er ſtoort, Reikningſkapureñ er mikell, Guds Blood er dijrt,
Hañs Reide er þwng, Doomareñ er ſtraangur, Lijfed er ſtutt, Daudeñ er vijs, Helvij-
te er heitt, Eilijfdeñ er laung, Og þier vited ecke nær ed Hwsboondeñ kiemur; Eñ i
hvoria þa Att ſem Eikeñ fellur, Þar liggur hun, Eccles. 11. Laated ydur þvi ecke villa
med Ogudlegum Heimſins Dæmum, Bered ydur eige ſamañ vid þa ſem þier kalled yd-
ur verre, Þeirra Fordæming verdur ecke ydar Afbotun, Þvi hvor eirn mun ſijna Byrde
bera, Gal. 6. Nema þier ætled ad ydur mune þar fyrer verda roorra i Helvijte og
Kvolunum, ad adrer ſæta þijngre Hefndum eñ þier þykeſt hafa tiluñed. Satt er þad
ad ſoñu, ad Guds Riettlæte mun ſkamta Hegninguna epter Tilverknadenum, og vega
Straffed wt epter Þijngd Syndaña, Eñ giæt þeſs, ad ollum mun verda þar Obærelegt,
Og ſo ſem ad Utvallder i Dijrd Himnaña munu ei ofunda hvor aññ, Þoott eirn ſkijne
fegra eñ aññar, So munu eige helldur Fordæmder hafa neina Roo af þvi, þoott eirn kvel-
ieſt meir eñ aññar: Mæl þvi ecke Vondſku þijna ſamañ vid hañs, ſem forþienad hefur hei-
tara Helvijte, helldur gior Ydran a medañ þar ſegieſt eñ þa i Dag, Heb. 3. So ei kom-
er þu i þañ Kvala Stad, Luc. 16. Helldur ſkijna meiger eins og Sool i Rijke þijns
Fodurs. Þad veite hiñ goode Gud, ollum þeim ſem under hañs Merke ſtrij-
da, i Utlegd þeſſare, Fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

A Hreſn:

# A Hreinſunar Hœtijd Mariu.

Gudſpiallid, Luc. 2. Cap.

A Þeim Tijma. Þa Dagar heñar Hreinſunar fullnuduſt epter Moyſis Løgum, Hofdu þau hañ til Jeruſalem, uppær ſo þad þau æ Hendur fœle hañ DRottne, ſo ſem ſkrifad er, i Løgmœale DRotteñs, Ad allt hvad Kallkyns var, Pad er fyrſt opnade ſiñar Moodur-Kvid, þa ſkyllde kallaſt DRottne helgad. Og ad þau giœfe Offred epter þvi ſem ſegieſt i Løgmœale DRotteñs, Tvær Turtil-Dwfur, Eda Tvo Dwfu-Unga. Og ſiæ, Ad Madur var þar i Jeruſalem, ſa ed Simeon hiet, Og þeſſe Mañ var Riettlœtur og Gudhrœddur, bijdande epter Huggun Iſraels, og Heilagur Ande var med honum. Simeon hafde og Andſvar feinged af Heilogum Anda, ad hañ ſkyllde ecke Daudañ ſiæ, Nema hañ ſœe ædur fyrre Chriſt DRotteñs. Og hañ kom af Andans Tilladan i Muſtered, Og þa Forelldrarner hofdu Barned JEſum i Muſtered, og giørdu fyrer honum epter Sidvenju Lagaña, Og hañ took hañ þa upp æ ſijna Armlegge, Lofade Gud og ſagde: DRotteñ, Lœt nu þiñ Þioon i Fride fara, epter þvi ſem þu hefur ſagt, Þviad mijn Augu hafa ſied þitt Hiœlprœd, Pad þu tilreidder fyrer Auglite allra Þiooda. Eitt Lioos til Uppbyrtingar Heidnum Þioodum, og til Dijrdar þijns Foolks Iſrael.

## Exordium.

MArger Veralldar Hofdingiar, Sem og adrer Vijſer og Gooder Meñ hafa ſier Oſkad, Ad þeir mœttu lifa ſo leinge i Heime þeſſum, ad þeir feinge bunded Enda æ Fyrerœtlan ſijna, Eñ þad hefur þeim Misjafnt tekeſt. Auguſtus Keyſare er ſagt ad optlega hafe talad þad vid Vine ſijna, Ad hañ villde lifa meiga, þar til hañ hefde ad fullu ſkipad Rijkis-Stioorneñe i þvi Romverſka Vellde; Og verdur ecke æ moote þvi ſagt, ad honum tookſt þad ad miklu Leite. Eige verdur þvi helldur Neitad, Ad i þeſſum Aſetninge var mikel Hugprijde. Hiñ ſtoore Solimañus Tyrkiaña Hofdinge, œſkte ſier ad deya ecke fyrr, Eñ hañ hefde uñed Hofud-Stadeñ i Keyſarans Rijke, Eñ Gud liet þad ecke epter honum, Daudeñ vañ æ honum ædur eñ hañ fieck Borgena uñed; Og hender þetta marga þær ſem alleina vilia lifa til þeſs ad ſeilaſt æ adra, og wtrietta gijrugar Hendur til þeirra Hluta ſem eige eru þeirra. Vijſenda Mañaña Oſk er ſw giarnañ, Ad þeir mœttu lifa ſo leinge, þar til þeir hefdu aflokid Erfide ſijnu, Skriſtum og Bookum, og odru þvi er þeir ſyrer Stafne hafa;

Og er i sliiku Tvent ad skoda: Eitt er nockurskonar Ærlegur Metnadur, og Elska goods Nafns og Riktis epter sig Daudan, Hvad ecke er Lasts vert, Pvi hun hefur morgum komed til Ydne og Astundunar. Anad er Vilie og Asetningur til ad kiena odrum, Og sierdeilis Epterkomendunum, Sem Loflegt er og mikellrar Hroosunar verdt, Pvi þad ber epter sier Elsku og Hugþocka miken til Mankynsins, Hvoriu eckert er ægiætara, Eckert Gude þeckara, Og ef eg mæ so ad Orde komast, eckert Gude liikara, Pvi han elskar oll siin Handaverk. En hvornen sem ollu þessu er vared, Pa er eitt Naudsynlegt, og eitt er þad gooda Hlutskipted, Sem eingen mæ af þeim taka, Luc. 10. Er þad hafa wtvaled, Sem er ad hafa so lifad, Svo trwad og svo tilreidt sig, ad ur en Madur geingur Veg allrar Veralldar, Jos. 23. Ad han sie Fullviss þar um, ad han i Fride fare af þessum Heime. Pvi priisa eg Hlutskipte hins gooda og gamla Simeonis; Ecke svo miog i þvi, Ad honum hlotnadest ad siæ Heimsins Skapara og Endurlausnara med siinum Augum, So sem han hier segier i Lof-Saungnum, Og ad taka han uppæ Armlegge siina, So sem hitt, Ad han wt af fullu Trauste um Guds Nad og eiliifa Vist med honum, saung so ad segia þena Gledelega Lof-Saung yfer sialfum sier: Nu Læt Pu DROtten PJOON PJNN J FRJDE FARA Epter ORde Piinu, Pviad Miin Augu Hafa Sied Pitt Hialpræde. So þad mæ kalla, ad hans Liik-Psalmur, Og Fædingar og Fagnadar Diktur Endurlausnarans um tilkveden, Være eirn og hin same. Sæll er sa Kvidur er þig bar, Og þaug Brioost er þu mylkter, sagde Kvinan Fordum vid vorn HErra; En han svarade hene: Hvad um þad; Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau, Luc. 11. Þetta kiemur mier til þess, Ad mier þyker meir koma til þess, ad Simeon beid med Polenmæde epter Huggun Jsraels, Og ad Heilagur Ande var med honum, Helldur en hins, ad han sæ JEsum, og took han i Fæng sier, ædur en han skyldest vid þetta Liif; Pvi eingen er þvilijk Sæla og eingen Styrkur i Daudanum so mikell, So sem ad hafa sied JEsum med Trwarenar Augum, Og fadmad han med henar Ormum; Pad kiener han sialfur er han sagde vid Thomam: Af þvi þu sæst mig Thoma trwder þu; En sæler eru þeir sem ecke siæ og trwa þo, Joh. 20. Pena Kost eiga aller þeir ed Ord Guds heyra, J hvoriu JEsus Christus hin Krossfeste er oss fyrer Augum afmæladur, Gal. 3. Sa sem epter þvi geingur, Han mun med Simeone allshugar feigen og gladur skiliast vid Hreckviisa Verolld þessa, og kalla Daudan sin Abata. Og fyrer þvi ad þessa gooda Mans er minst i Gudspiallenu, Er strax var uppleſed; Pa vilium vier af honum læra, Hvornen vier eigum Fridsamlega ad lifa, so vier kunum i Fride hiedan ad fara. Par til hiælpe hin Nædarfulle Gud, Fyrer Forþienustu siins Eingietens Sonar JEsu Christi, AMEN.

## Utleggingen.

HVad Mana ad Simeon þesse vered hafe greiner ecke Ritningen um; Peir ed skrifa ad han hafe Kienemadur vered, færa eckert til siins Mæls, Pad er eige

helldur

helldur Lijklegt, Aňars munde Gudspialla-Madureñ ecke hafa þagad um̃ þad helldur eñ um̃ Zachariam Fodur Johaňis Skijrara, Luc. 1. Lijklegre er þeirra Meining er ætla ad hñ vered hafe Sonur Hillelis er Gydingaña Meistarar segia ad vered hafe Læresader Gamalielis, Hvor ed sagdehina Roksamlegu Meining sijna um̃ Christne Boded, Er Olldungarner hielldu Raadstefnu um̃ Postulana og þeirra Lærdoom, Act. 5. Þetta er ad soñu ecke vijst, Eñ ef so er, þa var þad ecke ad undra þoott Gamaliel framar ødrum stigndest i þeña Lærdoom, Þar hañ hefur aan Efa heyrt af sijnum Meistara, ad Huggun Israelis, Epter hvørre hañ beid, munde ecke fiarlæg vera, Hvad hañ ræded hefur af Spaadoomum þeim er voru af Messia, er þa tooku marger fram̃ ad koma. Meistarar Gydinga høfdu marga Læresveina, Joh. 4. Sem siaa maa af Christo og Johaňe, Luc. 10. So hefur og aan Efa Simeon haft fleire eñ færre, Og er þad vijst, ad hañ hefur ecke sijdst talad fyrer þeim um̃ þessa Hofud-Grein Trwareñar, Er hlioodade um̃ Messiam og hñs Tilkomu, Þvi ecke hefur hañ vered sa Einaste er vænte epter hinum Saña Messia med Ahyggiu so mikelle; Þad segier oss Lucas i þessum sama Capitula, Af hvorium Gudspialled er teked, Þar hañ skrifar ad Anna Dootter Phanuelis af Kyne Aser, hafe talad af honum til allra þeirra er Endurlausnareñar bidu til Jerusalem, Hvørier aan Efa vered hafa af Skoola Simeonis edur hañs Lijka. Hvar af oss sie þad kieñt, Ad Meñ velie til ad uppfræda Born sijn, Ecke einasta Vijsa Meñ og Lærda, Helldur Sidsama og Gudhrædda, Þaa ed underviijse þeim i Otta DRottens, og temie þeirra ungu Ar aa Riettvijse og Gudrækne, Ef þeir vilia ad þau life so i Heime þessum, Ad þau sieu viss um̃ ad deya Riettlaatra Maña Dauda, Num. 23. Nær þau leysast hiedañ. Þad stendur hier i Gudspiallenu um̃ Simeon, Ad hñ hafe Riettlaatur Madur vered. Ecke meinar Ritningeñ hier, ad hañ hafe af siaalfum sier vered fullkomlega Riettlaatur, Þad er ecke hiaa Mañlegum Kroptum ad fiña. Aller vier meigum segia med Job, Cap. 9. Vilie eg Riettlæta mig, þa Fordæmer miñ Muñur mig. Ef eg segie mig Saklausañ, þa syner hañ ad eg er Rangslaatur. Vilium vier fyrer Gude Riettlaater vera, Þa meigum vier kasta fraa oss, Bæde voru Riettlæte og voru Ranglæte. Riettlætenu i þañ Maata, Ad Madur treyste ecke aa þad, Helldur reikne þad Preck ad vera, So hañ aavinẽ Christum, og fiñest i honum, hafande ecke sitt Riettlæte, Sem er af Løgmaalenu, Helldur þad sem er af Trwñe aa JEsum Christum eins og Paulus, Phil. 3. Eñ Ranglætenu þess vegna, Ad Trweñ er daud aan Verkaña, segier Jacob, Cap. 2. Og Gud er Heilagur, Honum lijkar ecke Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Hvad ecke er i þeirre Veru-sagt, ad Madureñ giete alldeilis afklædst þessum vonda Syndareñar Ham, aa medañ hañ lifer i Holldenu, Helldur aa hañ af fremsta Megne ad leitast vid ad Krossfesta hiñ gamla Mañeñ, Rom. 6. Judar segia i Skrok-Sogu siñe eirnre, Ad þegar Noe giorde Sonu sijna fraa sier til ad byggia Verolldena, Þa hafe hañ feinged þeim i Hendur nockrar Reliqvias edur Meniar hiñs gamla Adams, Fodur vor allra, Kañ skie Lijkar þeim ed Papistar hafa dyrkiast epter sijna helga Meñ, og eru i miklu Gillde hiaa þeim. Faavijsleg er Saga þesse

ad ſoñu, Eñ þo miñer hun mig at ad hugleida med Trega nockrum, Ad Forfadereñ Noe, Sem var Riettlaatur Madur, Gen. 6. Og Riettlæteſins Predikare, 2. Pet 2. Til hvors ad aller Meñ i hiñe ſeirne Verolldu eiga Kyn ſitt ad rekia, Hañ hefur oſs epterlated nockrar Leifar hlñs gamla Adams, Er vier Daglega fiñum i vorum Limum, So ad Paulus ſegier: Hollded gyrneſt i moote Andanum, og Andeñ i moote Holldenu, Og þetta er hvort at moote odru, So ad þad þier vilied jafnvel ecke giora, þad giore þier, Eñ ef þier leideſt af Andanum, Pa erud þier ecke under Logmaalenu, Gal. 5. Eñ ef vier ecke erum under Logmaalenu, Pa erum þvier Riettlaater, Og þañeñ var ad ſoñu hiñ gamle Simeon Riettlaatur. Eñ ecke meinar þo Gudſpiallamadureñ hier þetta Riettlæte, Edur þad oſs verdur fyrer Lauſnarans Forþienuſtu til reiknad, Helldur merker þetta Ord Riettlaatur i þeſſum Stodum, Pad ſama og vier kollum goodañ Mañ og Raadſviñañ, Pañ er vandar Ord ſijn og Gierder, Bæde ſyrer Gude og Moñum, Og ſo merker þad vijda i Ritninguñe. Vertu Froomur og Riettvijs ſegier David, Pſ. 37. Pvi ſlijkum mun ad Sijdurſtu vel gaanga. Hiñ Riettlaate ſa ed fram̃geingur i Einfelldne ſijns Hiarta, mun laata farſæl Born epter ſig ſegier Salomon, Prov. 28. Peſſa Riettvijſe at hvor Chriſteñ Madur ad temia ſier, Añars er hañ ecke Chriſteñ, Um̃ hana hefur margur Heidinge vel talad, og hana ſo tamed ſier, Ad lijted hefur ſijnſt Aboota vant fyrer Mañа Auglite, Hvar med þeir hafa giort Skom̃ til Chriſteña margra hvorra, Peir ed ongvañ elſka nema ſialfa ſig, og hyrda eckert um̃ hvorneñ þeir ætſælaſt Lijtelmagnañ. Ariſtoteles ſegier: Ad hun ſie hin koſtulegaſta Dygd, og allar Dygder ſieu i heñe foolgnar, Pad er og ſatt, Pvi aan heñar meiga þær ecke Dygdaña Nafn bera. Vitſkañ og Frañſijneñ er Hreckvijſe, Ef ecke fylger heñe Riettvijſeñ. Hugprijdeñ er eitt Boduls Sverd, Nema hun ſtioorneſt af Riettvijſeñe. Orlæted hvort aller Meñ elſka, Pad er þo Gloopſka og Athlæe Maña, Ef þad vantar Riettvijſena. Sa ſem eys wt Fiemunum ſijnum til Onijtis, Edur giefur þeim er ſijſt ſkyllde, Eñ lætur Purfamañeñ og Daglaunarañ miſſa, Mun hañ ecke Oſviñur og Daare kalladur? Sparſemeñ er ein agiæt Dygd, Eñ þo er hun beſt med Riettſijne. Sa ſem ſparar odrum þad þeim byriar ad giefa, Hañ er kargur og ecke ſparſamur, Og ef hañ ſparar ſialfum ſier þad ſem Lijkameñ vid þarf, þa er hañ ſialfs ſijns Opocke, Ef hañ giorer þad af Kiergiu eirnre, og ecke til ad temia ſitt Holld, Ad hañ þeſs betur faae Gude þioonad, Eins og Paulus ſegieſt þrælka ſiñ eigeñ Lijkama; Eñ hitt er Loflegt og Gude þægt, Ef nockur ſparar Lijkama ſijnum, Jafnvel Leifelegt Epterlæte fyrer hañs Saker. Eingeñ Dygd er agiætare eñ Mykunſemeñ, Med heñe kuña ſynduger Meñ allra meſt ad lijkiaſt Gude Skapara ſijnum, Luc. 6. Eñ ef hun er aan Riettlætis, ſo Meñ vægia þeim ſem Gud bijdur ad ſtraffa, Pa er hun ein Svijvirding og meſte Glæpur i Auglite hjñs Hærſta Doomara. Og i einu Orde ad ſegia; Riettvijſeñ er ſu Mæleſnura, at hvoria ad ſtikaſt eiga Ord vor og Gierder. Veit eg ad einhvor kañ ad ſegia: Eg ber ecke Vitsmune til þeſs, ad ſiaa og þeckia hvad riett er, Hvorneñ maa eg þa giora þad? Mier kañ optlega ad ſkiotaſt i ſlijku. Par til ſvara

svara eg: Ad hellst er þad i Doomum og ødrum Vandrædum, ad Meñ þurfa so mikillrar Skynseme med, Og er þeim Raadlegt, Sem eru sier Faavitsku siñar Medvitande, Ad þeir sieu þar fraa, og ecke trode sier iñ i Doomara Sæte, Edur hlaupe til þess mikla Vanda, Eins og lijfadur Hestur til Bardaga, Sem þo margur Daare giører, Eñ hvør neñ sem þvi er vared, Þa er þad almeñelegt, Ad margur giører verr eñ hañ veit, Eñ øllum kañ yfer ad siaast, Þad er Mañlegt, og maa þad hvør Madur ødrum jaata; Eñ i Daglegre Umgeingne, J Kaupum og Sølum, J Umtale um Naaungañ, J Spekt og Kyrlæte vid hañ, J þeirre Virdingu, sem Meñ eiga ad sijna Forelldrum og Yferbodurum, Þa er eingeñ Heilvita Madur so faavijs, ad hañ ecke nockurn Veigeñ vite hvad hañ aa ad giøra, Ef hañ giefur sier Stunder til ad athuga þad. Og hvad um gillder, erum vier ecke aller noogu Vidkvæmer og Grañskigner, til ad þeckia þad, Sem oss sialfum er aa moote broted? Eñ þessa Hugreñingu skylldum vier bwka, Nær vier eigum nockru vid adra ad skipta, Þvi hier ætla eg duge sw aagiæta Regla, Sem Frelsareñ hefur oss epterlaated. Hvad þier vilied ad Meñerner giøre ydur, Þad giøred þeim eirneñ, Matth. 7. Og sa sem hana hefur jafnañ fyrer Augum sier, Hañ mun sijdur syndga. Eñ þetta forsmaaer nu Heimur þesse og þyker i þvi lijtell Vijsdoomur vera, Samt ætlar hañ sier ad deyia Simeonis Dauda, Jafnvel þoott þeim verde ad Skyndingu i burtu svipt, aa medañ þeir hvad mest eru ad æfa Svik, Prette, Fiedraatt, Underferle, Fiandskap, Og allra handa Naungsleitne, Eins og ad þvilijkra sie Himnarijke. Eñ eg segie ydur i Umbode Guds, Fyrer hvørium eg stend, Ad nema þier giøred Ydran, Legged af Ligar og Prette, Agyrnd og Underhyggiu, og adra þvilijka Løstu, Sem mootstrijda Riettvijseñe, Þa munud þier ecke iñgaanga i Guds Rijke. Þetta kieñer mier JEsus Christus, hvør sialfur er alls Hollds Doomare, Og rædur fyrer Himnenum, Er hañ sagde, Luc. 18. Hvør hañ ecke medtekur Guds Rijke so sem Ungbarn, Hañ mun ecke iñgaanga i þad. Vered ydur nu samañ vid soddañ Eitt Barn, Og Rañsaked hvort þier erud þvilijker i Goodlyndenu og Einfalldleikanum, Og ef þier kuñed ad fiña þess nockurn Mun, þa vited, ad þier erud eins laangt fraa Himnarijke, Þar er ei vid ad dyliast, nema þier vilied reingia Ord DRotteñs. Segied mier, Hvørier munu sitia til Bords med Simeone, Med Abraham, Jsaac og Jacob i Rijke Himnaña, Matth. 8. Þad segier David oss i Psalmenum 15. Med þessum Ordum: DRotteñ, Hvør mun bwa i þiñe Tialldbwd? Hvør mun stadnæmast aa þijnu Heilaga Fialle? Hañ sa ed framgeingur Flecklaus, og giører Riettvijsena, Og talar Sañleikañ wt af Hiarta, Hvør ed ecke Bakmæler med siñe Tungu, Og Naaunga sijnum eckert Jllt giører, Og leggur ecke sijnum Naaunga neitt Lastlegt til, Hvør ed einkis aktar hiñ Ogudlega, Eñ i Heidre hefur hiñ Gudhrædda, Hvør ed helldur þad er hañ sver sijnum Naaunga, Hvør hañ giefur ecke Fie sitt wt uppaa Okur, og tekur ecke Mwtur yfer þañ Saklausa, Hvør ed þetta giører, Honum mun vel vegna Æfeñlega. Hier siaaed þier, hvørier ad verda mune Bord-Giester i Lambsins Brwdkaupe. Ydur hefur fyrer laungu boded vered, Laangt er sijdañ Hwsboondeñ

liet

liet segia: Mijner Uxar og aled Fie er slaatrad, Allt er til Reidu, Komed til Brwdkaups, siñs, Matth. 22. Rañsaked nu sialfa ydur, hvort ad þier erud skrijdder Brwdkaups Klæde, Ef hañ kañ ad koma uñ Midnætte, Pad er, nær ydur miñst varer. Eg veit þier segied, Ad Gud hafe morgum Syndernar fyrergiefed, O Jaa, Pad er satt, Eñ þo þeim einum, sem þeirra hafa ydrast wt af Hiarta, Laated af Illu, og lært Gott ad giora, Es. 1. Petta vited þier hin Raangsnwna Kynslood, eñ merked þad þo ecke, Samt uppeted þier þo Guds Foolk, og aled sialfa ydur, Eñ DRotteñ aakalled þier ecke, Ps. 14. So snwed aptur i Guds Nafne, Snwed aptur, Eg grætbæne ydur fyrer hid dijra Blod JEsu Christi og ydar Velferdar Saker, Leited Fridareñs, Og fylged honum epter, Ps. 34. Otteſt DRotteñ og giored Riettvijsena, Act. 10. So Gud fare Velþocknañ aa ydur, Og burtkaste ecke eilijflega. Og er þad so sagt uñ Riettlæte Simeonis.

I Añañ Maata stendur hier uñ Simeonem, Ad hañ hafe Gudrækeñ vered. So sem ad øll su Skyllda, Er vier eigum Naunganum ad sijna, og oss er fyrerskrifud i hiñe Sijdare Bodorda Tobluñe, Hun er i Riettvijseñe iñefaleñ. So er og hin er vier eigum Gude ad gialda, og oss bodeñ er i hiñe Fyrre, I Gudrækneñe foolgeñ. Hañ var Gud hræddur Madur segier Lucas, Hañ brwkar þad Ord er merker Guds Dyrkara, þañ ed ræker hañs Bodord, Ecke so af Otta, so sem af Elsku og Virdingu. Pañeñ aa og Christeñ Madur Lyndur ad vera, þott þad sie ecke Onijtt ad hrædast Gud, af þvi hañ er Riettlætur, og strangur Vandlætare, Exod. 20. Pa er þad eige fullkomeñ Guds Dyrkun. Otteñ duger til þess ad reka Syndarañ til Guds, Þegar hañ hugleider þad, ad hañ hafe hañs Reide forþienad. Eñ Ihugan Guds Fodurlegrar Giæsku, Hañs Speke, Hñs Poleñmæde, uppvekur Elskuna i Mañsins Hiarta, Sem lætur oss verda eitt med Gude, Og kveiker soddañ Unadsemd i vorre Saal, Ad Meñ forsmaa alla Hlute Jafnvel hiaa Krosse DRotteñs, Eins og St. Paall, Phil. 3. So eg maa segia; Ad Otteñ er Fader Gudhrædsluñar, Eñ Elskañ til hañs er Mooder ad heñe. Otteñ gietur hana i Fyrstuñe (Pvi segia Gudlauser Meñ, Ad Otteñ hafe Gudena giort) Eñ Elskañ tekur vid heñe, Elur hana og nærer i Hiarta Mañsins, aa medañ hun er ecke Fullburda, Eins og ein Mooder sitt Fooſtur, Par til hun kiemur i Lioos, Og auglijser sig i goodum Verkum, Og smaamsamañ vex hun eins og añad Ungmeñe, Epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, Segier Paulus, Eph. 4. So ad þvilijk Daasamleg Skiepna Heilags Anda, skijn so sem eitt Lioos aa medal hiñar hreckvijsu Kynsloodar, So sem ein Sool aa Himnenum, Ecke eins og Sool Ezechiæ Konungs, Hvor ed gieck til Baka, 2. Reg. 20. Ecke eins og Sool Josuæ, Hvor ed stood kyrr, Jos. 10. Helldur eins og Sool Davids, Hvor ed gledur sig af ad hlaupa siñ Veg, Ps. 19. Pvi saa ed Gud elskar, Honum þyker iñdællt ad giora þad honum lijkar, Og lætur sier jafnañ i þvi framsara. Cicero wtmaalar Gudrækneña þañeñ, ad hun sie Riettvijse aa moote Gude, Hañ sagde vel, Pvi hañ sagde allt þad hañ visse edur vita kuñe, Og var ecke meire Von aa heidnum Mañe, Og hefur hañ þo eñ þa talad Christelegar (Ef eg maa so segia uñ eirn Heidingia) i ødrum

i odrum Stad hier um̃, Par han̄ segier: Ef Gudhrædslan̄ er i burtu teken̄, Pa gietur
pad eige odruvijs orded, En̄ ad allur Trwskapur og allt Samneyte Man̄a a medal, og
hin kostulegasta Dygd Riettvijsen̄ fare og i burt; Petta er vijs!ega talad, Pvi saa sem
ecke Gud Ottast, sem ad i Augnablike gietur kastad honum i Afgrun̄ Helvijtis, han̄ mun
eige verda miog hlijfen̄ vid sin̄ Jafningia, Pad sia Men̄ a hinum Gudlausu Satans
Prælum, Er segia i Hiarta sijnu: Par er eingen̄ Gud, Ps. 14. Hvorke hallda þeir
Ord nie Giorder, og ongvum hlijfa þeir, Sem þeir faa Hond yfer. Til þessa eru Dæ-
me, Jafnvel i Lande voru, Ecke miog gomul, Og er hier af audsært, ad pad er Dagsatt
Er hin̄ same skrifar, ad Gudleysed take allan̄ Trwskap i burt wr Verollden̄e, og spille
so Sambwd Man̄an̄a, ad ecke er vært i Heimenum aan þess, ad Men̄ Ottest Gud, og
þetta Valld Guds er so ri!kt a medal Man̄an̄a, ad jafnvel Afguda-Dyrkun Heiding-
ian̄a, Sem voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Hefur þvi vallded, ad þeir ecke upp-
aatu hvor an̄an̄. So eg vil hier um̃ segia, Vidlijkt og Aurelius Alexander Keysare
svarade þeim, er villdu giora Samkundur Christen̄a Man̄a ad Dryckiu og Legu-Kos-
um, Ad miklu betra være ad Gud þar med einhvoriu Moote dyrkadest, en̄ ad þau skyll-
du brwkast til slijkra Odaada. Pad var Roksamlegt og Konunglegt Svar af heidnum
Man̄e, So vil eg segia, ad betra er, Til ad hallda Samvist Man̄an̄a vid i Heimenum,
ad dyrka Gud med einhvoriu Moote, þegar eige eru til þess brwkadar hinar verstu Synd
er og Glæper, sem Diofullen̄ lætur sier þiona med, helldur en̄ hafa ongva Trw a honum,
Pvi pad munde giora Verolldena ad Herbwdum Madianita, Hvar eirn ryckte Sverde
a moote sijnum eigen̄ Broodur og Lagsman̄e, Jud. 7. Satt er pad sem Johan̄es
segier, Ad hvor sem ecke elskar sin̄ Broodur, hvorn han̄ sier, Hvornen̄ kan̄ han̄ Gud ad
elska, þan̄ han̄ sier ecke? 1. Joh. 4. En̄ eg þore og ad segia, ad han̄ sem ecke elskar Gud,
sem hefur skapad han̄, Endurleyst og helgad, Hvornen̄ gietur han̄ sin̄ Broodur elskad?
Pvi baagt mun oss sem Vonder erum, Og under Syndena sellder, Rom. 7. ad elska
Ovine vora, Blessa þa er oss bolva, Giora þeim gott sem vid oss Mis?iora, Matth. 5.
Nema vier giorum pad fyrer Guds Saker, Og verdur þvi Otten̄ og Elskan̄ til Guds
undan̄ ad gaanga, Og sie hun alvarleg, þa er einsætt ad hitt a eptersylger, þvi saa sem han̄
elskar, Han̄ vardveiter han̄s Bodord, 1. Joh. 5. Og er þetta eitt af þeim hellstu sem nu
sagda eg, ad elska Ovin sin̄. Hvad sem nu Heidingiar ritad hafa um̃ Gudhrædsluna,
er alltsaman̄ goodra Giallda verdt, Og dugar ad vijsu til þess, ad sijna oss Christnum
Mon̄um, hvorsu ad hun hafe þoott Omissande, Jafnvel þeim er mest litu epter þvi naa-
læga, og ecke so epter þvi sem þar uppe er. En̄ St. Paall kien̄er oss hen̄ar Nytseme mik-
lu betur, 1. Tim. 4. Segiande: Ad Gudhrædslan̄ sie til allra Hluta þarfleg, Hafan-
de Fyrerheit, Bæde þessa Lijfs sem nu er, og so hins komanda. J Gamla Testament-
enu, hafde þesse Hofud Dygd mikel Fyrerheit um̃ Tijman̄lega Farsælld, so sem allvijda
maa lesa, Bæde i Moysis Bookum og an̄arstadar, Kan̄ skie þess vegna, ad Guds Foolk
a þeim Dogum, hofdu fleire Bodorda og Serninga ad geima en̄ vier Christner Men̄,

ſo og voru ecke Fyrerheiteñ ſo lioos uṁ Dijrd hiñar epterkomande Sælu i Guds Rijke,
Eñ ſijdañ JEſus Chriſtus hefur afmaad Ovinſkapeñ, Logmaal Bodordaña, ſem var
ſñefaled i Setningunum fyrer ſitt Holld, ſo ſem Paulus ad Orde kiemſt, Eph. 2. Sijd-
añ vier hofum feinged ad ſiaa og heyra þad ſem marger Konungar og Spaameñ gyrnt-
uſt ad heyra og ſiaa, Og ſaau þad ecke, Luc. 10. Sijdañ hafa Guds Aſtviner ecke ſo
ſtoor Fyrerheit uṁ Lijkamlega Farſælld, og þad til þeſs, ad Sætleike epterkomande Alld-
ar, Hvorn vier ſmockum i hinu gooda Guds Orde, Heb. 6. Hañ yferʒnæſer allañ
Tijmañlegañ Fognud og Medlæte, ſo ad þeir ed Gud elſka og lijda fyrer Chriſti Saker,
Eru glader i Hormungunum, og hallda þad mikeñ Fognud, nær þeir rata i Jmiſlegar
Freiſtingar, So ſem Jacob bijdur, Cap. 1. Vitande þad, ad Reynſla Trwar vorrar,
hun aflar Poleñmædis. Ecke er vid þad ad dyliaſt, Br. M. Ad ſaa ſem vill Gud-
hræddur vera, Hañ maa bwa ſiñ Hrygg undir Chriſti Ok, 2. Tim. 3. Eins og þegar
eirn Kappe bijr ſig til Oruſtu, Og þoott Gud laate honum heppnaſt Lucku og Heidur i
Verolldeñe, Sem hañ og hefur morgum af ſijnum Aſtvinum vett, Pa er þar þo alltijd
einhvor Baraatta, Añadhvort hid Jñra edur hid Ytra. Sie þar ecke añad, Pa er
þar Andſkoteñ og hañs Prælar, Sem jafnañ offækia þa ſem geinged hafa aa Marla med
Chriſto. Satan kieppeſt vid af ollu Megne ad nidurbriioota Guds Rijke, og alldrei
lætur hañ af ad ſkioota ſijnum Orvum aa Guds Her i Verolldu þeſſare, So leinge ſem
hañ heiter Diofull og Andſkote, og þarf til þeſs mikla Gudhrædſlu og Alvorugiefne ad
ſaa honum og hañs Arum i moote ſtaded, bæde Synelegum og Oſynelegum. Eñ þeg-
ar hiñ mikle Guds Kraptur er ſo Maattugur i Breyſkleika ſiña Aſtvina, Ad þeir faa
ſtadeſt Araaſer vondra Maña, Pegar hañ ſtyrker þa og ſtoduga giorer i ſijnum Ordum
og Trwñe allt til Æfeloka, Pa kalla eg ad hvad meſt ſañeſt Ord St. Paals, ad Gud-
hrædſlañ hafe Fyrerheit þeſſa Lijfs, Og hefur hiñ Almaattuge Gud þad optlega og Und-
runarſamlega framkoma laated, og lætur eñ nu i Dag aa ollum þeim er honum treyſta.
St. Paall kallar hina Utvolldu Guds, þau Kier i hañs Hwſe, Er hañ hefur til Heidurs
ſett, Rom. 9. A þeſſe Kier fellur Dupt nockud aa Stundum, ſo þad hender ſig, ad þau
verda jafnvel Groomtekeñ. Vonder Meñ eru ein Pvaga, Sem hañ hreinſar þeſſe ſijn
Kier med, So þau verde hæf til Pioonuſtugiordareñar, Og ſetur þau ſo aptur iñ i Guds
Hws, nær þau eru hrein ordeñ, Eñ Pvoguñe kaſtar hañ i burt, Ad hun verde Footum
trodeñ. Gud leiſer ad þeir ed hañ Ottaſt, verde aa Stundum nidurþryckter, eñ alldrei
underþryckter, Saa ſem fæſt vid eirn Gudhræddañ Mañ, Pad er ſo ſem berie hañ eirn
Klett med Vende, Vondureñ ſlitnar, Eñ Kletturеñ verdur hiñ ſame, Eins og ſaa er vill
kiæfa Elldeñ med Oliu, Hun fortæreſt, Eñ Elldureñ logar þeſs gladar, Pad er eins og ad
binda Samſon med Streingium, Peir hrucku i ſundur eins og Hor-Praadur, Er hañ
riette ſig, Jud. 16. Samſon hiellt ſijnum mikla Styrk, Allt þar til Skiækiañ fieck
rakad hañs Haar af Guds Born eru Oſigrande, Allt ſo leinge þau hallda ſier vid
DRotteñ JEſum, Hvor ad er Safnadarens Hofud, Eph. 5. Eñ þegar þeim verdur
þad

þad ad taka hina flærrædu Dalila Verolldena i Fadm sier, Þa missa þau allt sitt Ast;
Hun stijngur þeirra Augu wt og giører þa Philistæis, Þad er Satans Børnum ad
Herfange, Jæ, ad Spotte og Athlætre, Nema Meñ danse epter þeirra Pijpu, og er
þa Daudeñ vijs, Nema Meñ deyde siælfa sig ad niju eins og Samson, Jud. 16. Þad
er drepe hiñ gamla Adam med hañs Syndum og Tilhneigingum, Og burt kaste Fijsn
Augnaña og Drambsømu Lijferne, ad Meñ verde heilskigner aptur, og siæum Lioosed i
hañs Lioose, Er oss hefur fyrer siñ Dauda sett til Arfskiptis Heilagra i Lioosenu, Col. 1.
So er nu Gud rækneñ æ sig komeñ, Og so er hun þorf og Nytsamleg, Jæ, Omissande i
þessu Lijfe, Eñ þo gagnar hun hvad mest i Daudanum, Þvi hañ verdur þeim Jñgæng-
ur til Lijfsins er Gud Ottast, til ad medtaka þar Fyrerheit epterkomande Alldar. Sæ
sem hefur i Lijfenu tamed sier Riettvijsena vid Næungañ, og Ottañ og Elskuna æ Gu-
de, Hañ fagnar Daudanum, Og segier gladur med Simeone: Nu Lættu O Drotteñ
Þiou Þiñ i Fride Fara Epter Orde Þijnu. Þvi eins og Simeon hafde Andsvar feing-
ed af Heilogum Anda, Ad Hañ skyllde eige Daudañ siæ, Nema hañ sæe ædur Christ
O Drotteñs, So bera og þesser jafnañ med sier Vitnisburd Heilags Anda i sijnu Hiar-
ta, Ad þeir sieu Guds Born, Rom. 8. Nær sem þau leysast i burt hiedañ. Hvorneñ
kañ soddañ eirn Guds Astvinur Daudanum ad kvijda? Daudeñ er ad soñu hræde-
legur, Þvi hañ er Verdlaun Syndareñar, Rom. 6. Eñ hvorium er hañ hrædelegur?
Þeim sem ecke eru Heimenum dauder, Eñ ecke þeim, hvorra Lijf Christur er, eñ Daudañ
kalla þeir siñ Abata, Phil. 1. Daudeñ er oss syndugum Moñum, eins og Myrkred er
Bornunum, Þau ottast þad, þess vegna, ad þau ætla i þvi mune bwa nockurskonar
Bode, Og sierdeilis þau, sem heimsker Meñ leggia i Vana siñ ad fæla med Grijlum og
Ofreskium: So er Daudeñ, Af þvi Meñ heyra so miked um hañs Grimleika talad,
Þvi kvijda Meñ so fyrer honum, og veit þo eingeñ hvad mikell hañ er: Hvor veit hvo-
rt Meñ fiña meir til i Daudanum, eñ i Fædinguñe? Þetta man eingeñ; Eingeñ er
helldur aptur komeñ til ad segia oss hitt.

Þar er varla nockur so lijtelfiorleg Tilhneiging, ad hun ecke forsmæe Daudañ. Heipt-
rækneñ aktar Daudañ ad aungvu; Þad sijner oss þeirra Dæme, Er selia sitt Lijf fyr-
er Lijf Ovina siña. Hvad margur hefur dæed fyrer Ast Kveña, Sem er Hiegoome i
siælfu sier. Syrach kieñer oss, Ad honum sem æ moote geingur þyke Daudeñ sætur;
Otte fyrer Vanvyrdu nockurre, giører Daudañ liettañ, Medaumkaneñ giører hid sa-
ma. Þegar Ottho Keysare villde helldur taka Lijfed af siælfum sier, eñ ad læta stræ-
hoggva Lid sitt nidur med Sverds Eggium, Þa voru marger af hañs Fylgiurum, Er
alleina af Medaumkan løgdu Hendur æ siælfa sig, Eñ ef Hiegoomeñ virder Daudañ so
lijtels, Hvad liettur mun hañ þa vera þeim, Sem fara i Fride hiedañ, og vita ad hañ er
Jñgæn gur til Lijfsins? Ritningeñ talar um Daudañ, so sem Endurlausn af Fæng-
else. Allur Jsrael sæ Aaron leysast, segier Num 20. Eg gyrnest ad leysast hiedañ og
vera med Christo, Hvad miklu betra er, segier Paall, Phil. 1. So þyker og ollum þe-

im, Er Heimureñ er Krossfestur vegna Christs, og þeir Heimenum, Gal. 6. Þeir Andvarpa med Páulo og segia: Æ! Eg syndugur Madur, Hvør mun leysa mig fraa þessum Daudlega Lijkama? Rom. 7. Ottast þvi ei ad deyia, Christeñ Madur, helldur ad deyia Jlla, Þad mun þier til eilijfs Lijfs gagna. Þad er gott Daudañ ad Ottast, til þess ad fordast þad med hvøriu vier forþienum hiñ eilijfa Dauda. Tijmañlegur Daude er ecke i sialfum sier Ognarlegur, nema vier segia vilium, ad þad sie Jllt, ad sleppa wr Faangelse, wr Prældoome, wr Sioovolke; Þvi hvad er þetta Lijf añad? Þad er hrædelegt sem epter hañ kiemur, Ef ødruvijse fer eñ vel. Þad er vitañlegt, ad Dauðeñ er Guds Børnum Jñgaangur til eilijfrar Sælu. Og þvi skylldu eg þa ei vilia gañga eitt Sñ i Bardaga til ad viña heillt Konungs Rijke? Eñ þeim er tapast, Verdur hañ Leid til eilijfra Kvala. Nu veit eg ad Þioofureñ hrædest ecke Stigañ sem liggur uppi Gaalgañ, Eñ Snøruna hrædest hañ. So er þad og daarlegt fyrer þañ sem hefur leitad epter Helvijte alla Æfe sijna, ad hañ skule hiñ Tijmañlega Dauda hrædast, og ecke miklu helldur hiñ eilijfa sem aa epter fylger, Hañ mætte Oska og feigeñ verda, Ad Helsootteñ og Fiorbroteñ mættu vara uñ alla Eilijfd, Ef hañ mætte þar med sleppa fraa hinum eilijfa Ellde, Sem fyrerbweñ er Dioflenum og øllum hañs Einglum, Matth. 25. Þvi þar mun betur bijta. Þar fyrer, O! Þu Syndugur Madur, Nær þu sier hiñ Nakta og villt ei klæda hañ, Hiñ Svaanga og villt ecke metta hañ, og hiñ Þyrsta og villt ei giefa honum ad drecka, Jaa, Nær þu sier Ovin þiñ Hungra edur Þyrsta, og villt ecke giefa honum ad eta edur drecka. Nær hiñ Vollduge og hiñ Vesæle standa bader fyrer Doome þijnum, Nær þu aatt ad vandlæta i Guds Stad, edur hiaalpa hinum Nauðstadda til Riettarens, Nær Reideñ tekur þig, Nær Losteñ blindar þig, Nær Agyrndeñ kvelur þig, Nær Øfundeñ freistar þijn, Og i einu Orde ad segia, Nær Dioflulleñ, Hollded og Heimureñ vilia locka þig, til ad styggia þiñ Gud, Laat þa Daudañ vera þier Ognarlegañ, Jmynda þier hañ þa so sem eirn skielfelegañ Helvijtis Ar, Þañ er bweñ sie til ad gleipa Saalu þijna og færa i eilijfar Þijsler: Laat sem hñ fyrer Dyrunum stande, og eige ad heimta þig under hiñs Volldugа Guds Doom, til ad giøra Reikning fyrer þad, er þu ætlar Samstundis ad fremia. Þañeñ skulu Meñ Daudañ hrædast, Og hañ ed so giorer, Og temur sier þetta Hugarfar, Og lifer þar epter i Guds Otta og Trwñe aa Christum, Hañ þarf ei ad kvijda, Hañ mun med Simeone Daudañum fagna, Hañ mun i Fride burtu leysast og deya Riettlaatra Mañа Dauda. Hvad oss øllum, Jaa, øllum sijnum Børnum, Hvar helst þau eru uñ Heimeñ, Uñe og veite Gud Fridarens, Gud Faþnadarens, Og Gud Lijfsins og Daudans, Fyrer siñ Eingieteñ Son JEsum Christum, AMEN.

# Siøtta Suñudag epter Þrettande.

ÞEssa Dags Evangelium sem skrifad stendur hiaa Matth. 11. Cap. Og sú Predikunena þar yfer, Maa lesa hañ Tuttugasta og Siøtta Suñudag epter Trinitatis, Hvør og tilheyrer þessum Deige, Þvi þegar þesse Suñudagur iñfellur sem skialldañ er, Þa eru ecke so marger Suñudagar aa millum Trinitatis og Adventu.

# Fyrsta Suñudag i Nijuvikna Føstu.

Gudspialled, Matth. 20. Cap.

Y Þan Tijma. Sagde JEsus til siña Lærisveina, þessa Eptherlijking. Himnarijke er lijkt einum Hws-Fodur, sem wtgieck sneiña Morguns, Verka-Meñ ad leigia i siñ Vijngard. Eñ ad giørdum Samninge vid Verka-Meñena, ad Daglegu Penings-Gialdde, sende hañ þaa i siñ Vijngard. Og nærre Þridiu Stundu gieck hañ wt, og leit adra Idjulausa standa aa Torgenu, og sagde til þeirra: Fared þier og so i Vijngardeñ, og hvad Riettvijst er mun eg giefa ydur, og þeir geingu burt þaungad. Og hañ gieck eñ wt aptur uñ Siøttu og Nijundu Stund, og giørde slijkt hid sama. Nærre Elleftu Stundu gieck hañ wt, og fañ eñ adra standa Idjulausa, og sagde til þeirra: Hvar fyrer standed þier hier allañ Dag Idjulauser? Þeir søgdu til hañs: Þviad eingeñ hefur leigt oss; Hañ segier til þeirra: Fared þier og i miñ Vijngard, og hvad Riettvijst er skulud þier faa. Eñ þa Kvølld var komed, sagde Herrañ Vijn-Gardsins til sijns Raads-Mañs: Kalla þu Verk-Meñena, og gialld þeim Verdkauped, og tak til fraa hinum Seinustu, allt til hiña Fyrstu. Þa komu þeir sem nærre Elleftu Stundu leigder voru, og medtook hvør þeirra siñ Pening. Eñ hiner sem fyrster komu, þeir þeinktu ad þeir mundu faa meira; Og hvør þeirra medtook siñ Pening. Og þa er þeir høfdu hañ medteked, mogludu þeir aa moote Hwss-Fødurnum, og søgdu: Þesser enu Seinustu hafa eina Stund erfidad, og þu giørder þaa Jafna vid oss, sem bored høfum Hita og Þwnga Dagsins; Eñ hañ svarade og sagde til eins þeirra: Vinur, Eige giøre eg þier Oriett; Ertu ecke aasaattur ordeñ vid mig uñ eirñ Pening? Taktu hvad þitt er, og far i burt; Eñ þessum hinum Seinasta vil eg giefa so sem þier. Eda lofast mier ecke ad giøra af mijnu hvad eg vil? Eda ertu þar fyrer Raangeygdur, þo ad eg sie Goodgiarn? So verda Seinaster hiner Fyrstu, og Fyrster hiner Seinustu; Þviad marger eru Kallader, eñ faaer Utvalder.

## Exordium.

Þegar St. Paall, 1. Cor. 2. skijrer fraa, Hvør ad hafe vered Atferd siin i Christne-Bodenu, er honum var aa Hendur faled, Þa talar hañ svo medal añara Orda: Þegar eg kom til ydar Brædur, þa kom eg ecke med Yferlæte Ordaña

edur Spekeñar, Er eg bodade ydur Evangelium. Pad maa vijda sia i Heilagre Ritningu, ad Gud hefur ecke viliad laata sijn Eyrende vera bundeñ vid Maal-Snylle mikla. Pegar Moyses affsakade sig fyrer Gude fraa Sendeforeñe til Pharao, talde hañ þad mest til, ad sier være þwngt uñ Maal, Pa svarade Gud hønum: Eg skal vera med Muñe þijnum og kieña þier hvad þu mæla skallt, Exod. 4. Vidlijkt fieck Jeremias ad heyra, Er hañ taldest undañ ad flytia Guds Eyrende til Jerusalems Maña, Og sagde: Ach DRotteñ, Eg er Ungur og kañ ecke ad tala; Eñ DRotteñ svarade: Seig ecke jeg er Ungur, Helldur til þeirra sem eg sende þig skallt þu fara, Og þu skallt tala allt hvad eg skipa þier, Jer. 1. Hvi mun hinum Almaattuga hafa þocknast ad haga þessu svo? Siaalfur hefur hañ Mañenum Muñeñ giefed, Exod. 4. Skyllde hañ þa ecke vilia laata brwka Gaafur sijnar sier til Dijrdar og Lofs? Par hañ aungvañ Hlut hefur i Natturuñe Forgiefens skapad, Auk helldur Maalfæred, Sem er eitt med þeim bestu Guds Gaafum. Paulus kieñer oss Orsokena hier til med þessum Ordum, 1. Cor. 1. Segiande: Christur hefur sendt mig, Ecke til ad skijra helldur til ad predika, Ecke med Spakmælum, svo ad Krosseñ Christi verde ecke ad ongvu. Hvorneñ maa Krosseñ Christi af Spakmælunum nockra Nidrun hafa? Pad kieñer Paall strax epter i sama Cap. Pvi sw Ræda uñ Krosseñ, segier hañ, Er Heimska þeim sem Fyrerfarast, Eñ oss sem Hoolpner verdum Kraptur Guds. Eingeñ Hlutur er svo Foracktanlegur fyrer Heimenum, svo sem Christi Kross, Svo ad þaa sem hañ aa Herdum bera, kallar Postuleñ Afrak og Hreinsun Veralldar: Eckert er þo kroptugra Medal til ad draga synduga Meñ til Hiinnarijkis, Helldur eñ hañ. Afreks Verk hefur alldrei þvilijkt uñed vered, hvorke aa Himnum nie under Himnenum, svo sem þad, Er JEsus Guds Sonur vañ aa Krossenum, Pegar hañ forlijkade Heimeñ vid Gud, Eñ nidurbraut Diofulsins Rijke, og took Herleidinguna ad Herfaange. Petta sitt Sigurmerke hefur hañ feinged sijnum Strijds-Moñum, Ad þeir bere þad fyrer Hertoga sijnum i hañs Bardogum hier aa Jordvñe. Skyllde nu svo dijrmætur Hlutur hafa sitt Agiæte af Mañlegre Speke edur Maal-Snylle, Pa være honum þad ecke lijted Nidurdrep, Hiñs og añars vegna, ad þad maa Satt uñ oss jaata, Sem Paall eñ aptur segier: Ad vier erum ecke marger Skynsamer epter Holldenu, 1. Cor. 1. Ecke marger Gofuger, Eñ hiaa Gude er eckert Mañgreinar Allit, Act. 10. Hañ þecker best sijna, Hañ hefur Faafroodum laated i Faafræde undervijsa, svo hañ giorde þaa Hyggna: Eñ þad er þo sw Faakiænska sem er allre Mañlegre Vitsku Ædre, 1. Cor. 1. Hañ hefur med hinu sama Faafræde leidt þaa Hyggnu til Guds Rijkis, Sem hafa viliad fylgia Raadum Pauls ad verda Heimsker, Svo þeir Vitrer yrde. Pad sie eg aa Nicodemo, Joh. 3. Hvorn JEsus hondlade med, svo sem añañ Briost-Mylking, Jafnvel þoott hañ være Meistare i Jsrael. Og ecke hefur þetta einasta vered Atferd St. Pauls, Helldur og añara Christi Postula, Hvorier i þessu hafa fylgt Dæme sijns Meistara, Pvi jafnvel þoott ad allvijda meige rekia Spor hañs Guddoomlega Vijsdooms-

dooms', Pa eru þess og mørg Dæme, hvorneñ hañ teked hefur Lijkingar af Almeñeleg-
um Hlutum, til ad kieña Faafroodum Guds Gotu, Til þess ad hiñ Heimuglege Krap-
tur Guds Speke., Sem i honum bioo, mætte Samfara verda þeim Hlutum er þeir
best þecktu, og Daglega fyrer Augum saau, Er skyllde aan Aflaatz miña þaa aa þau Lijf-
sins Ord sem framflutu af hañs Blessada Muñe. Til Dæmis hier uñ vil eg taka hi
na føgru Epterlijking er stendur i þessu H. Evangelio, wt wr hvorre margur Veralld-
ar Vitringur hefur raungar Meiningar spuñed: Eg vil med faam Ordum tala nock
ud framar fyrer ydar Kiærleika uñ heñar riettañ Skilning, Pad framast eg veit af
Guds Orde, Og þar med hugleida hvorneñ vier eigum ad skicka oss i Guds Vijngar-
de, svo oss verde ecke þadañ med Osæmd i burtu vijsad. JEsu, þu Blessada Vijn-
Trie, aa hvoriu vier iñplantader erum: Send oss þiñ Anda, Sa ed leide oss i allañ
Sañleika, Og kieñ oss riettañ Skilning þiña H. Orda, AMEN.

## Utleggingeñ.

HEllt fraa Upphafe Mañsins Skopunar og iñ til þessa Dags hefur DRotteñ wt-
geinged til ad leigia Verka-Meñ i siñ Vijngard, og eñ nu giorer hañ þad med
Ydranar og Syndaña Fyrergiefningar Predikun. Rodd Hroopandans he-
yrest eñ nu i Eydemørku Veralldar þessarar hiaa oss, Segiande: Giored verduga A-
voxtu Ydraneñe, Oxeñ er sett til Rootar Triaaña, hvort þad Trie sem ecke ber goodañ A-
voxt mun upphøggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Hws-Fadereñ hefur leigt Verka-
Meñ i siñ Vijngard, eñ ecke Letingia, Par aa Guds Eyrende ad giora, Uñ hvort Jere-
mias svo segier, Jer. 48. ad bølvadur skule sa vera sem Verk DRotteñs giorer Svikfsam
lega. Eingeñ hefur sig siaalfur leigdañ i þeña Vijngard, Pad er Sañkveded hier uñ sem
Esajas talar under Persoonu Guds, Esa. 65. Jeg er fundeñ af þeim sem ecke leitudu ad
mier, og mætte þad stoor Faasiña vera, hvor sem þar riett ad hygde, þar vier svo fundner
erum, og i hañs Vijngard, Pad er i Rijke Guds Sonar setter, ad laata Syslaner þessa
Heims vefiast svo fyrer sier, ad Meñ þeinke añadhvort ecke aa Guds Verk, Edur og gio-
ra þad med haangande Hende, þarfara være þeim ad alldrei hefdu þeir leigder vered, og
stæde eñ nu aa Torgenu idiulauser, Pvi so segier Endurlausnareñ hiaa Luc. 10 Uñ þaa er
ecke villdu medtaka Guds Rijke: Jeg segie ydur ad Sodomæ mun bærelegra vera aa
þeim Deige, helldur eñ þeirre Borg. Hvilijkt er þetta Br. M.? Hwsbondeñ er wt-
geingeñ ad leita Prælsins, Konungureñ ad biooda honum sem hafde burtu hlauped,
hiñ alleina Rijke hiñum Allsþurfanda, Doomareñ Utlaganum, Brwdgumeñ heñe
sem drijgt hafde Hooraner med mørgum Elskuga, og hañ sem oss hefur elskad i JEsu
Christo þegar vier vorum hañs Oviner, Rom. 5. Oss sem ad elskudum Heim þeña, og
þad sem i honum er, Fijsn Augnaña og Drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Pess gietur
Johañes, 1. Joh. 4. J þvi er Kiærleikureñ, Ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad
hañ elskade oss, Og sende Son siñ til Forlijkunar fyrer Synder vorar; Po fæst hin
auma Mañeskia svo lijted uñ þa Idiu, Er heñe bodeñ er i Guds Vijngarde, Eins og

Meñ

Meñ væru þangad leigder til ad bada i Roosum, Og ecke til ad bera Hita og Þwnga Dagsins. Hefur þa JEsus sveitst Bloodenu, Luc. 22. Til þess ad vier skylldum i Syndareñar Epterlæte lifa? Hefur hañ Vijn-Pressuna troded, Es. 63. Til þess ad vier skylldum færa swr Vijnber? Hefur hañ litad siñ Kyrtil i Vijne, og siñ Mottul i Vijnberia-Bloode, Gen. 49. Til þess ad Syndareñ Blood Saattmaalans Almeñelegt halde? Heb. 10. Hefur hañ þar fyrer afdrucked hiñ fleitefulla Kaleik Guds Reide, ad vier skulum sitia ad Heimbode hiñar vondu Babylon, af hvørrar Hoordooms-Vijne ad Þioodernar drucknar eru? Apoc. 18. Fiærre sie þvi. St. Paall kieñer oss þad længtum odruvijse, Eph. 2. Er hañ segier: Vier erum nij Skiepna i Christo, til ad giora Goodverk þau er Gud hefur tilbwed ad vier gangum i þeim; Eñ hvør eru þau Verk er hañ tilbwed hefur, Eda hvilijk Idia er oss ætlud i hañs Vijngarde? Þad telur Paall upp, Gal. 5. Kiærleike, Fognudur, Fridur, Poleñmæde, Goodgyrne, Giæska, Trw, Hoogværd, Sparneytne. Eñ mier er Spurn, Mun Brwdgumeñ plocka mørg þvilijk Ber, Þegar hañ iñgeingur i Alldeñgardeñ til ad skiemta sier þar med heñe sem hañs Hiarta elskar? Jeg er hræddur um̃, Ad þad farnest ecke betur sumum af Triaanum, Helldur eñ Eikeñe sem Frelsareñ bølvade hegar hñ fañ ongvañ Avoxt aa heñe, Matth. 21. Nema midur sie, Þvi hun bar ongva, Eñ eg hygg þvi verr, ad fiñast mune þeir ed bere illa eina. Gud klagade Jerusalem ad hun bære swr Vijn-Ber og Villu-Vijnvide, Es. 5. Eñ þess være ad Oska, Ad ecke yrde sagt til Christneñar, svo sem hun nu tekur til ad gioraſt, Eins og til Jerusalem Fordum: Samaria hefur ecke ad Helminge syndgad sem þu, Þu hefur margfiolgad þijnar Misgiorder, Meir eñ þær, Og þu hefur Riettlætt þijnar Systur med þijnum Svijvirdingum, Ezech. 16. Førum eige viller Vega, Brædur mijner, Og þeinkium ecke, ad vier munum þvi alleina fyrerblijta, ad vier Leigder sieum, Þad være haalfu verra, Eñ ad segia: Abraham høfum vier fyrer Fodur, Eñ giora þo eingeñ Abrahams Verk, Joh. 8. Vier erum ad søñu Leigder, Vier erum skijrder, vier erum Christo i Skijrneñe iñplantader, Eñ hañ segier, Joh. 15. Jeg er hid sañа Vijn-Trie, og miñ Fader er Akur-Madureñ, Hvørn þañ Kvist aa mier, Sem ecke ber Avoxt, Mun hañ burt taka.

Hañ segier og ecke: Hvør sem mier er Einusiñe iñplantadur, Helldur hvør sem blijfur i mier, Og eg i honum, Hañ ber mikeñ Avoxt, Þvi aan mijn gieted þier eckert giort, Eñ ef nockur blijfur ecke i mier, Hañ er wtkastadur eins og Vijn-Kvistur, og uppþornadur, Og þeir samañsafna þeim og i Elld kasta, og þeir munu breña. Adur eñ Adam fiell fraa Gude, Þa var hañ af honum settur i eirn Alldeñgard, hvørn hañ skipade honum ad yrkia, Gen. 2. Og fyrst þvi var so haattad i Heilagleikans Stande, Þa er lijklegt ad Gud mune eige vilia laata þad nu odruvijse vera i sijnum Vijngarde, Þar vier erum Syndareñar vegna, under þad Logmaal skyllder, ad neyta vors Brauds i Sveita vors Andlites, og næra oss med Erfide af Jorduñe alla vora Lijfdaga, Gen. 3. Eñ ef þad aa so ad vera i þeim Utriettingum, sem vier nærum aa þetta Lijkamlega Lijf, Hvad myklu fram-

ar

ar mun þad skylldt i voru Saaluhiaalpar Tyrende. Vier høfum aller stoort Pund af Gude medteked, Eingeñ þarf meira med eñ honum tiltrwad er: Nockrer hafa Audlegd Veralldar þessarar, sumer Embætte, Nockrer Vitsku og Speke, Og sumer Afl og Atgiørfe Lijkamans. Af øllu þessu byriar Reikningskap ad standa; Eñ hvørneñ foorst honum þad, Er bar sitt Pund fram Avaxtarlaust, hvørt ed hañ hafde i Jordu grafed? Hañ fieck þañ Doom, Ad þeir skylldu kasta hinum Onijta Þioon i hin ytstu Myrkur, Hvar vera munde Oop og Taña-Gnijstran, Matth. 25. Hvad mun þa verda um̃ hañ, Sem ecke einasta skilar Avaxtarlausu Punde sijnu, helldur leggur þad aa Satans Bord, Til ad uppbyggia þar med hañs Rijke? Lijtt gagnar honum ad vera Leigdur i Guds Vijngard, Þvi hañs Idia er sw eina þariñe ad giøra Christs Kyrkiu ad Belials Krambwd, Lijkar þeim, er Gud talar um̃, Ezech. 16. Þu hefur teked mitt Gull og mitt Silfur, Sem ad eg gaf þier, Og giørt þier Mañs Lijkan af, Til ad hooraft med. Hiñ Onijte Þioon sagde vid Hwss-Fødureñ: Medtak hvad þitt er, eñ Hwss-Fadereñ mun vid hiñ vonda Þioon aptur segia: Tak hvad þitt er, Sem er Fordæming Daudans, Gack i burtu fraa mier i eilijfañ Elld, sem fyrerbweñ er Dioflenum og øllum hañs Arum, Matth. 25. Drage þvi eingeñ sialfañ sig aa Taalar, edur ætle þad, ad i DRotteñs Vijngarde sie eckert, Edur Jllt ad giøra. Hwss-Fadereñ hefde ecke aataled þa, sem allañ Dageñ stoodu Idiulañser aa Torgenu, hefde þvi eins hattad vered i hañs Vijngarde: Þar fyrer er þad ecke noog, ad leggia Hondena aa Ploogeñ, eñ lijta aptur, Þvi saa ed þad giører, hañ er ecke hæfur til Guds Rijkis, Eñ þott þad sie sialf søgd Skyllda vor, ad erfida i Guds Vijngarde, Svo miked sem vier hefum Maatt og Megn til, Þa vere eigeñ so blindur, ad hañ ætle ad hañ hafe til Skulldar ad reikna hiaa Gude. Ad soñu segier Paall, Rom. 10. Ad saa sem giører hvad Løgmaalsins er, hañ life i þvi, Og þad sama segier sialfst Løgmaaled. Hvør eru þa Lauñeñ, Ef Meñ skulu tala epter Guds Riettlæte? Ecke añad eñ hañ lifa skule, og ecke deya, Levit. 18. Vier heyrum ecke ad vorum Fyrstu Forelldrum hafe heited vered Launum nockrum, Þott þau vardveittu Guds Bodord, Eñ ef þau bryte þad, aattu þau Dauda ad deya, Svo kuña vor Goodverk alldrei neitt ad forþiena af Gude: Þad kieñer oss Endurlausnareñ, Luc. 17. Segiande: Er þar nockur af ydur, sem hefur eirn Þræl, Er plæger, edur helldur Hiord aa Beit, ad hañ segie til hañs, strax sem hañ geingur iñ af Akrenum, Kom hijngad og sit til Bords, Eñ mun hañ ecke segia honum? Bw til þad eg snæde, Gyrd þig og þioona mier, þar til eg hefe eted og drucked, sijdañ skalltu eta og drecka. Mun hañ þacka þeim Þræl fyrer, Ad hañ giørde hvad honum skickad var? Jeg meina Nei. So og þier, Þegar þier giørt hafed, Allt hvad ydur boded er, Þa segied: Vier erum Onijter Þioonar, Þvi vier giørdum hvad vier aattum ad giøra. So hafa Goodverkeñ eingeñ Verdlaun epter Riettenum, Eñ hinum Vondu tilheyrer Straff ad riettu. Goodverkeñ eru jafnañ Skyllda, Eñ hin Vondu eru Afgiørd aa moote Skylldune. Hin bestu Goodverk forþiena eckert, Þvi þad er eins og ad betala Skulld sijna, Eñ hid miñsta Af-

brot viñur til Reide, Pvi þa vantar so miked til Skullda Lwkningar: Þess gietur Jacob Postule, 2. Cap. Saa sem helldur allt Logmaaled, eñ verdur brotlegur i einu Bodorde, Hañ er sekur vid oll. Ad soñu stendur hier i Epterlijkinguñe, Ad Hwss-Faderen hafe giort Samning vid Verka-Meñena, um eirn Pening, Eñ ecke er þad so ad skilia, Br. M. So sem þegar Madur semur vid Mañ, Helldur talar D Notteñ þetta ad Mañlegum Plagsid. Peningur þesse er JEsus Christus, Hiñ sañe Israels Sicill, med hvørium Foornernar leystar voru fraa Lijflaatenu aa Gamla Testamentesins Dogum, Eñ syndugar Saaler fyrer JEsum Christum fraa eilijfum Dauda. Eñ Samningureñ skiede i Ondverdu vid vora Fyrstu Forelldra epter Falled, Þegar Gud af Einkiærre Naad og Myskuñ siñe hiet þvi, ad Kviñuñar-Sæde skyllde i sundur meria Hoggorms sins Hofud Gen. 3. Hañ verdur Itrekadur so opt sem vier heyrum af Guds Orde, Ad vier sieum af Naad hoolpner vordner, Og ecke af Verkunum, Eph. 2. Ad Gud hafe epter Myskun siñe giort oss hiaalplega, Eñ ecke af Verkunum, Sem vier giordum, Tit. 3. Þegar oss sagt verdur, ad hvør sem aa JEsu Nafn trwer, skule ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3. Og þesse Samningur hefur Eirn og hiñ same vered fraa hinu Fyrsta Fyrerheite, og mun verda allt til Veralldareñar Enda vid alla þa, er forlaata sig uppaa Sonarens Forþienustu med hreinne Trw, Pvi JEsu þessum bera aller Spaameñ Vitne, Ad i hañs Nafne faae þeir aller Syndaña Fyrergiefning, sem aa hañ trwa, Act. 10. Og er hier af audsært, Ad þetta er eingeñ Almeñelegur Samningur, Helldur lijkt þvi, Þegar Eirn goodur og Raadvandur Madur heiter nockrum einhvøriu Goodu-aan allrar Verdskulldunar, Pa reiknar hañ sig skylldugañ þad ad hallda, uppaa þad ad hañs Ord bregdest ecke. Og ef ad fiñast kañ einhvør so Lyndur aa medal vor, sem vonder erum, Hvad miklu framar mun Gud, sem er alleina goodur, vera bundeñ vid sijn Loford, Luc. 11. Par hañs Ord forgaanga alldrei, þoott Himen og Jord forgaange, Luc. 21. Hvar fyrer eingeñ kañ wt af þessu Lausnarans Orda Tiltæke, ad reikna til nockurrar Verdskulldunar hiaa Gude, Helldur blijfur hid sama, sem Paall segier, Rom. 3. Ad allur Heimureñ verde Logfalleñ fyrer honum. Og so sem þad, ad þeir sem komu um Siottu, Nijundu og Elleftu Stund, feingu af Naad þad þeir feingu, So er og Samningureñ vid þa Fyrstu af Einskiærre Naad giordur, Pvi sialfraadur var Herrañ ad laata siñ Vijngard audañ liggia, Nema hañs Giæska hefde knwd hañ til ad leita epter þeim, Er hañ mætte hiaalpa. Jeg veit ad nockrer hafa steitt sig aa þeim Ordum, Er skrifar Jacob Postule, 2. Cap. Og þañeñ hlioода: Sier þu ecke ad Trweñ hefur samverkad hañs Verkum, Og Trweñ er af Verkunum til Lykta leidd, Og Skrifteñ er uppfylld, Er segier: Abraham trwde Gude, og þad vard honum til Riettlætis reiknad, Siaaed þier þar fyrer, ad Madureñ Riettlætist af Verkunum, Og ecke af Trwñe alleina. Petta hefur nockrum þoott gagnstædt þvi, Er bæde St. Paall, og oll H. Ritning med einu Hlioode vottar, sem er þeirrar Meiningar, ad Madureñ verde af Trwñe hoolpeñ, Og ecke af Verkunnm, Rom. 4. Eñ þess er giætande,

hvør

hvør ad sie Meining Jacobs i þessum Pistle. Hañ atte Ordastad vid þa er hielldu sig vel Christna, Ef þeir trydu a Gud, og jatudu hañ eirn ad vera eins og Dioflarner, eñ auglijstu ecke Trw sijna med Christelegum Verkum; Pad byrta þesse Ord, er standa skomu adur i sama Capitula: Ef Brooder edur Syster eru nakeñ, Og skorter Daglega Næringu, Eñ einhvør ydar segier: Fared i Fride, vermed ydur og metteſt, Eñ giefed þeim þo eige þad Lijkamanum er þarflegt, Hvad gagnar þad? So er og Trweñ, Ef hun hefur eige Verkeñ, Hun er daud fyrer sialfa sig. Hier giorer Jacob bert fyrer Mønum hvad hañ meinar: So sem þad er ecke Myskun ad segia; Verm þig og mettast, So er þad og ecke helldur Trw, ad segia: Eg trwe a Gud og hañs Son, eñ afneita Gude med Verkunum aptur a moot, So sem þad er eckert Myskunar-Verk, ad giefa allar sijnar Eigur Fatækum, Eñ hafa þo ecke Kiærleikañ, 1. Cor 13. So forþiena og eige helldur Verkeñ neitt i sialfu sier: Vilie eg segia, ad Verkeñ viñe til nockurs hia Gude, Pa vil eg og segia, ad Efned i einum Smijdis-Grip forþiene Laun, af þvi hañ er vel giordur, eñ so sem hñ kuñe ecke ad giora sig fyrer utañ Hagleik Mañsins, so hafa og Verkeñ allt sitt Agiæte af Trwñe, Sem er Guds Verk i Mañenum, Joh.6. Segied mier þa, Hvar er þeirra Verdskulldan? Trweñ Samverkar Verkunum segier Jacob; Eg jata þad, Þvi an heñar væru þau Synd, Rom.14. Hun verkar þad med þeim, ad þau Syndlaus reiknast, Forþiena þo eckert. Trweñ fullkomnast af Verkunum; Meñ sia ad eirn er sterkur, Af þvi, ad hañ kañ ad lypta miklu, Añars visse eingeñ þad hañ sterkur være. Liooſed þeckest ad vera Lioos af Byrtuñe. Abraham audsijnde sig ad vera Trwadañ, Af þvi hañ giørde hvad Gud baud honum; Pañ eñ fullkomnast Trweñ af Verkunum, Eñ ecke odruvijse, Nema einhvør villde segia, ad Verkeñ være Partur af Trwareñar Veru, Og være þad eins og ad segia, ad þad være Mañenum Verulegt ad gaunga og standa. Hiteñ fylger Elldenum, Harkañ Jarnenu, Byrtañ Soolune, Po er hvørke Hiteñ Elldur, Nie Harkañ Jarn, Nie Byrtañ Sool, Eige helldur eru Verkeñ Trw, Po þau fylge Trwñe, Og ecke Riettlæta þau, Po þau framkome af þeim sem Riettlatur reiknast fyrer Trwna. Abraham trwde Gude, Og þad var honum til Riettlætis reiknad segier Jacob; Eñ eckert gott Verk gietur Skrifteñ um, Gen.15. Þegar Gud matte hañs Trw so mikels, helldur alleina um þad, ad hañ hafe Gude trwad til þess, ad hañs Sæde skyllde verda so sem Stiornur Himens, Eñ Jacob tekur þad samañ vid hañs Trwar-Verk, þegar hañ villde offra Syne sijnum, Gen.22. Til ad styrkia þar med sijna Meiningu, Sem er su, ad Trweñ sie daud an Verkaña. Af Verkunum Riettlætest Madur, Og ecke af Trwñe alleina: Um Auglijsingu Trwareñar talar Jacob hier, Og ecke um sialfa Trwna, um Trwarjatninguna fyrer Mønum, og ecke um Trwareñar Krapt fyrer Gude, Pad kieña mier hañs eigeñ Ord i sama Capitula: Syn mier þijna Trw af Verkunum. Og ad þier vited, Brædur mijner, ad þetta er meir eñ Hiegoome eirn, Pa merker þetta Ord ad Riettlæta, i H. Ritningu optast ecke añad, eñ ad auglijsa sig edur adra Riettlata ad vera. Pu hefur

Riettlætt þijna Systur med þijnum Svijvirdingum, segier DRotten̄ um̄ Jerusalem, Ezech. 16. Hvornen̄ kun̄e hun ad riettlæta, Sem sialf var ollum Skom̄um vafen̄? En̄ þad kun̄e hun ad giora, ad sijna ad hun være sier riettlætare. Ad þu riettlætest i þijnum Ordum, Þegar þu dæmest, segier David um̄ Gud, Ps. 51. Hvor vill Gud Riettlæta? Sem sialfur er alleina Riettlætur, En̄ ad byrta han̄s Riettlæte fyrer Mon̄um, Þad kun̄a Men̄ ad giora. Tollheimtumen̄erner Riettlættu Gud, Er þeir skijrder voru med Skijrn Johan̄is, Luc. 7. Hvornen̄ giættu þeir Gud riettlætt? Synduger Men̄ og framar odrum Lostum og Lijtum hladner, En̄ ad þeckia og opeñbera Riettlæte Guds, Þad var þeirra Skyllda. Jacob segier: Maduren̄ riettlætest af Verkunum. En̄ hvornen̄ kan̄ Madur ad riettlætast af þvi sem er eins og nidurlags Fat, Esa. 64. Af þvi sem er Synd, Rom. 14. Af þvi sem er Skylldu-Verk Onijtra Þioona, Luc. 17. En̄ þess eru Verken̄ um̄komen̄ ad auglysa, Ad Gud bijr i Man̄enum fyrer Trwna, Ad Trw Man̄sins er kreptug fyrer Kiærleikan̄, Ad þad sie lifande og ecke daud Trw, Hvored stioornest af H. Anda til goodra Verka, Epter Bode vors Endurlausnara, Matth. 5. Svo lijse ydar Lioos fyrer Mon̄um, ad þeir dyrke ydar Fodur sem æ Himnum er. Nu er þessu svo vared Br. M. ad ein̄gen̄ hefur til neinrar Skulldar ad telia hiæ Gude, Og þad er þad sem Endurlausnaren̄ hier segier i Epterlijkingun̄e under Persoonu Hwss-Fodursins: Vinur, Eige Giore Eg Þier Oriett, etc. Fyrst eingen̄ hefur af Gude neitt forskulldad, Er þad þa ecke noogu stoor Nææd, ad han̄ hefur alla leigt i sin̄ Vijngard, Þad er, Alla kallad til Ydranar og Syndan̄a Fyrergiefningar, En̄ þoott adrer bere þar Hita og Þwnga Dagsins, og sieu strax ad Morgne kallader, Munu þeir meiga lijta rongu Auga til þess, Þoott han̄ sem um̄ engvan̄ Hlut er nockrum skylldugur, Þott han̄, segie eg, Myskune Einhvorium æ Dauda-Stundyn̄e? Mun Samuel meiga siæ Ossioonum yfer Paulo? Jeremias yfer Tollheimtuman̄enum Matthæo? Matth. 9. Josias yfer Manasse? Baptista yfer Tito og Timotheo, Edur þesser aller yfer Ræningianum æ Krossenum? Luc. 23. Fiærre sie þvi, Gude er i sialfs Vallde ad læta hvorn eirn hafa so miked fyrer Himnarijke, sem honum þocknast, Þvi allt er medtaka af Nææd og ecke af Verdskulldan. Og þo eirn sveittest Bloodenu i Guds Vijngarde, fræ þvi fyrsta han̄ hefur Vit æ, og til þess han̄ giæfe Ondena upp, Þa hefur han̄ ecke med Verkunum meira forþienad af Himnarijke, Helldur en̄ hin̄ sem i Andlætenu var kalladur, Þvi æ mille hin̄s eilijfa, Sem er Guds Rijke, Og þess er Endatekur, Sem eru daudlegra Man̄a Verk, er eingen̄ Jofnudur, So eitt meige med odru kaupast ad riettum Solum. So vill nu DRotten̄ hafa sijnt, Ad hiner Fyrstu verde hiner Sijdustu, Þegar Men̄ vilia gæanga i Riett vid Gud, Og mogla vid Hwss-Fodurenn, Og Sijdarster hiner Fyrstu þegar han̄ vill Næædugur vera, Þeim sem han̄ er Næædugur, Rom. 9. Og er þo ecke hier fyrer nockurt Man̄greinar Alit hiæ Gude, Þvi Marger Eru Kallader En̄ Fæer Utvalder. Balaam, Saul, Achab, Judas, og adrer miklu fleire, Þeir voru kallader, En̄ þeir breittu epter Fodur sijnum, og stoodu ecke i San̄

leikan̄-

leikanum, Joh. 8. Gud hefur ecke sagt þeim sem kallader eru, Helldur þeim sem er Trwr allt til Enda, Vil eg giefa Coronu Lijfsins, Apoc. 2. Utvalningeñ er ad söñu alltijd vifs hiaa Gude, Þvi hañ hefur wtvaled þaa sem hañ veit i Kolluneñe stoduger standa munu, Eñ ongvañ hefur hañ kallad med þeim Skilmaala ad hañ skyllde eige kuña fraa ad falla, Eñ vier erum ecke visser um̃ vora Utvalningu med odru Moote eñ þvi, Ad svo leinge sem Trweñ er i oss kroptug fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. So leinge erum vier Guds Born; Og þvi rædur Petur riett, 2. Cap 1. Talande um̃ Trwna og heñar Avexte, Fremied i Trw ydar Dygdena, J Dygdeñe Vitskuna, J Vitskuñe Sparsemena, J Sparsemeñe Poleñmædena, J Poleñmædeñe Gudrækñena, J Gudrækneñe Broodurlegañ Kiærleika, J Kiærleikanum Elskuna, Þvi nær þetta er hiaa ydur, og ysergnæfer, Þa giorer þad ydur ecke Ydiulausa, Edur forgiefens erfidande, til Þeckingar DRottens vors JEsu Christi, Þvi hvorium sem þetta eige fylger, Hañ er blindur, og leitar ad Veigenum med Hendeñe, Gleymande þvi ad hañ er af gomlum Syndum hreinsadur; Þar fyrer kostied Kapps um̃ Brædur, ad giora ydar Kallan og ydar Utvalningu vissa, Þvi nær þier þetta giored, Munud þier alldrei falla. Med soddañ Moote eñ ongvu odru, verdum vier visser um̃ Utvalningu vora, Þar fyrer hefur og Gud vijsad oss i siñ Vijngard til ad erfida, eñ ecke i Heimeñ til ad rañsaka sitt Leyndar Raad. Eñ so Meñ best vite hvornñ þad samañ haanger, Þa segier Paall þad med faam Ordum; Rom. 8. aa þeñañ Haatt: Hvoria hañ aadur þeckte, þaa hefur hañ fyrerhugad, Hvoria hañ fyrerhugad hefur, þaa hefur hañ kallad, Eñ hvoria hañ kallad hefur, þaa hefur hañ Riettlætt, Eñ hvoria hañ Riettlætt hefur, þaa hefur hañ Dijrdlega giort. Hvorrar Dijrdar og eilijfrar Farsælldar oss uñe ad nioota um̃ eilijfar Allder, Gud rijkur af Naad, Fyrer siñ Eingieteñ Son JEsum Christum, og sende þar til siñ H. Anda, Amen.

## Añañ Suñudag i Nijuvikna Føstu.

Gudspialled, Luc. 8. Cap

Þa Þañ Tijma. Og þa ed margt Foolk var samañkomed, og þad dreif til hañs wr Stodunum, Sagde hañ i Epterlijkingu: Sa gieck wt sem saade, ad saa Sæde sijnu. Og þa hañ saade, fiell sumt utañ hiaa Veigenum, vard Footum troded, og Fuglar Loptsins aatu þad. Og sumt fiell aa Hellu, og nær ed þad spratt upp, visnade þad, af þvi ad þad hafde eige Vokvañ. Og sumt fiell aa medal Þyrna, og Þyrnerner spruttu upp med og kæfdu þad nidur. Og sumt fiell i gooda Jord, og þad vox upp og bar Hundradfalldañ Avoxt. Þa ed hañ sagde þetta, kallade hañ: Hvor Eyru hefur ad heyra, heyre hañ. Eñ hañs Læresveinar spurdu hañ ad, hvort ed være þesse Epterlijking. Eñ hañ sagde: Ydur er uñt ad vita

Leinda Dooma Guds Rijkis, Eñ þeim odrum i Epterlijkingum, so ad Sioande þa siaæ þeir eige, og aaheyrande þa skilie þeir þad eige; Eñ þesse er Epterlijkingeñ. Sæded er Guds Ord. Eñ hiner vid Veigeñ, eru þeir sem heyra þad, Eñ epter þad kiemur Diøfulleñ og tekur burtu Orded wr þeirra Hiørtum, so ad þeir skule ecke trwa og verda Hiaalpleger. Eñ þeir aa Hellune, eru þeir, sem medtaka Orded med Fognude, þa þeir heyra þad, og þesser hafa ecke Root, Hvorier um Stundarsaker trwa, og aa Freistingar Tijmanum falla þeir fraa. Eñ þad sem fiell aa millum Þyrnaña, eru þeir, sem þad heyra, og velklast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kiefiast og færa aungvañ Avoxt. Eñ þad sem i gooda Jord fiell, eru þeir sem heyra Orded, og behallda þvi i goodu og Sidsømu Hiarta, og færa Avoxt i Poleñmæde.

## Exordium.

EF þier Vardveited mijna Setninga og mijn Riettinde, Sa Madur sem þad gioerer, Hañ skal lifa af þvi, segier DRotteñ, Levit. 18. Riettvijst er þetta Logmaal, Svo sem aller Doomar DRotteñs, Eñ Obærelegt er þad Syndugum Moñum, Þvi hvør er sa ed Logmaaled hallded giete? Eingeñ af ollum Adams Nidium, Nema hañ eirn sem giordest Bolvan fyrer oß, Gal. 3. Er Logmaalsins Bolvan forþienad hofdum. Bolvadur vere sa sem ecke helldur allt þad sem i Logmaalenu stendur, So hañ giore þad, segier Moyses i Guds Umbode, Devt. 27. Þesse Kostur var Obærelegur þeim sem ecke gieta eitt Augnablik Syndlaust lifad, Og er þad vijst ad hiñ Naaduge Gud hefur ecke sitt H. Logmaal wtgiefed i þeirre Meiningu, ad nockur munde þad hallded gieta, Helldur til þeß, ad Meñ skylldu laga siñ Lifnad þar epter, Ad so miklu Leite sem Mañlegur Kraptur fær orkad. Og svo i odru Lage til þeß, ad Synduger Meñ vita mættu hvad miked þaa brestur aa ad uppfylla þad sem Logmaaled bijdur, Svo þad yrde vor Typtunar Meistare til Christum. Nu þoott ad Logmaaled sie straangt, Þa hefur hiñ goode Gud laated þvi alltijd fylgia Evangelium, allt fraa þvi hañ wtgaf þañ Fyrsta Naadar Bodskap, Ad Kviñuñar-Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Stoor var sw Naad ad soñu, Og svo stoor, ad oll Verolldeñ gietur hana alldrei fullþackad. Eñ svo sem ad hun er mikel, Svo er og miked þeirra Straff, Sem hana forsmaa. Þegar Israel villde sig hafa undañþeigeñ ad tala vid DRotteñ i Horeb, Er hañ wtgaf sitt H. Logmaal, Exod. 20. Þa sagde Gud vid Moysen: Eg vil uppvekia þeim eirn Spaamañ af sijnum Brædrum eins og þu ert, Devt. 18. Og eg vil leggia mijn Ord i hañs Muñ, Hañ skal segia þeim allt hvad eg bijd honum, Og hvør sem ecke heyrer mijn Ord, Sem hañ talar i mijnu Nafne,

Af

Af þeim hinum ſama vil eg þeſs kreſia. O vor Gud! Vert þu oſs Nadugur, Hvörſu Illa er þeim fared ſem Gud vill kreſia Skulldar ſiñar? Honum mun verda i hin Ytſtu Myrkur kaſtad, Og mun ecke þadañ ytfara, fyrr eñ hañ hefur borgad hiñ Siidarſta Pening, Matth. 18. Sem alldrei verdur uñ alla Eiliifd. Þoott Logmaaled være bæde ſtraangt og Riettviiſt, Pa gieck þo ecke hiñ Naaduge Gud epter þeim Sektum ſem þad Moñunum aa Hendur ſagde, Vegna þeſs Lauſnar-Gialldz, Er hañ hafde ſiaalfur tilbwed oſs og fyrerhugad i ſiinum Eingietnum Syne, Sem var ſw eina Boot vid þvi Saare, Er Diofulleñ veitte Adam og ollu hañs Hyſke; Forſmaae hana nockur, Pa ſegier Moyſes oſs i þeim Ordum, er eg ſtrax uñgat, hvad vid þvi liggur, Sem er ad Gud mune kreſia þeſs af Hende hiñs ſama. Ef nockur ſyndgade aa moote Moyſis Logum, Pa vard þad þo forliikad i Gamla Teſtamentenu med Offrum og Foornfæringum, J hvorium ad Chriſtur var fyrermyndadur, Svo ſem Paulus Hebr. 10. vottar, aa medañ Syndeñ var under Guds Poleñmæde; Eñ nu þar Skuggeñ er i burtu horfeñ, eñ vier hofum ſiaalfa Hlutena, Rom. 3. Pa verdur Synd eñ burt tekeñ med ſañre Trw aa JEſum Chriſtum. Petta verdur oſs bodad i ollu Guds Evangelio. Sem er hid Andlega Sæded, Af hvoriu hiñ Nije Madur gieteñ verdur i Hiarta voru, Uñ hvort Frelſareñ talar i þeſſa Dags Evangelio. Eñ þad er Grætlegt til ad vita, ad þeſſe Naad er ſvo morgum frañbodeñ, kiend og predikud, Eñ ſvo faaer hafa þeſs Not ſem hier maa ſiaa, fyrer þeirra eigeñ Forſoomunar Saker. Vier viliim þetta H. Gudſpiall nockud gior yfervega, og af þvi hugleida hvad DRott eñ ſegier uñ þa Fernſlags Jord, er took vid Sædenu.

O vor Gud! Laat þitt Ord ſem i Dag verdur kieñt, falla i gooda Jord, Svo vier færum þar af Avoxt i Poleñmæde. Bænheyr þad Himneſke Fader, Fyrer þiñ Eingieteñ Son JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

VOr Endurlauſnare talar þañeñ uñ hina Fyrſtu Tilheyrendur i Upphafe Gudſpiallſins: Ad ſumt af Sædenu hafe falled utañ hiaa Veigenum, og orded Footum troded, Og Fuglar Loptſiñs hafe uppeted þad. Hañ leggur þad ſiaalfur ſvo wt, ad þad ſieu þeir, Sem vid Veigeñ eru, Eñ epter aa kome Diofulleñ og take Orded wr þeirra Hiortum. Peir eru vid Veigeñ ſegier JEſus, og ecke aa Veigenum. Þad mun vallda, ad Orded er Dioflenum ſvo audſookt i þeirra Hiortu, Væru þeir aa Guds Veige, Munde þad leingur veſiaſt fyrer hinum illa Ovin ad grafaſt epter þeſſum dijra Fieſiood. Eg em Vegureñ, Sañleikureñ og Liifed, Eingeñ kiemſt til Fodurſins nema i giegnum mig ſegier Lauſnareñ, Joh 14. A þeſſum Veige Saaluhiaalpareñar eigu oſs Guds H. Ord ad leida, Añars faalma Meñ epter Veigenum og eru blinder, 2. Pet. 1. Eñ hvorſu maa nockur ſiaa Liooſed i hañs Liooſe, 1. Tim. 6. Nema fyrer Chriſtum i hañs Liooſe, Sem er Guds Ord, Ef Meñ ſnwa þar vid Bakenu, og ecke Andlitenu, Eñ horfa aller uppaa ſiñ Veg, Eſa. 53. Hiaa Matth. 7. ræder Frelſareñ uñ Tveña Vegu aa

þeñañ

þeñañ Hœtt: Gœnged iñ um hid þraungva Ported, Þvi hid viida Port og hiñ breide Vegur leider Afvega til Glotunareñar, Og þeir eru marger ed hañ gœnga. Þesser eru þeir er vid Veigeñ standa, Br. M. œ hvorra Vegum ad biir Sorg og Armœda, og þeckia ecke Veg Fridarens, Esa. 59. Hvorra Vegur ad er hœll, Og þeir munu dreifast aufram i Þokuñe og i heñe hrapa, Jer. 23. Lausnareñ segier: Ad Sœded falle utañ hiaa Veigenum, Hañ meinar Akur-Reinarnar: Þad sem i þær fellur, vardveitest, Þvi Jordeñ er plœgd, og aller varast ad gœnga þar um. Eñ þeir sem vid Veigeñ standa i Guds Akre, eru sw Jord, Er Ploogur Logmœlsins hefur alldrei geinged um til ad miiskia Akureñ, Eige helldur Guds Vagn, Sem ad er Evangelij Lærdoomur, til ad feita Jordena. Hvad sem þar fellur i, verdur af Fuglum Himens, Þad er vondum Andum uppeted, Edur og Footum troded, Þvi þa er Perlum fyrer Sviin kastad, Matth. 7. Hvorneñ biir Gud i Mañaña Hiortum? J siinu H. Orde. Hvorneñ œ þad Hiarta tilreidt ad vera sem hañ vill bwa i? Angrad og sundurkramed, Esa. 57. Þad sem ecke fellur i soddañ Hiarta, Þad fellur utañ hiaa Veigenum, Utañ hiaa Guds Akur-Reinum, Og verdur Footum troded, Þvi aller Veiger DRottens eru Myskun og Sañleike, ollum þeim er vardveita hañs Sœttmœl, Ps. 25. Eñ Vegur Ogudhræddra mun fyrerfarast, Ps. 1. JEsus segier ad Johañes hafe komed med Veg Riettlætesins, Matth. 21. Eñ hvorneñ var sa Vegur er Johañes kiende? Giored Yydran, Þvi Guds Riike er nalægt, Matth. 3. Sa sem ecke geingur œ þessum Veige, hañ geingur ecke œ Guds Veige, Ecke œ Riettlætesins Veige, Ecke œ Fridarens Veige: J einu Orde ad segia, hañ geingur utañ hiaa Veigenum. Predikareñ segier, Cap. 11. Ad hiner Ogudlegu gœnge œ Vegum siins Hiarta, Eñ hvorneñ Vegur er i þess Mañs Hiarta, sem daufheyrest vid Guds H. Orde? Þad er almeñeleg Pioodbraut Lasta og verstu Klœkia, hvar Agg, Reide, Prœta, Mañdrœp, Hoordoomur, Frillulifnadur, Sem af Hiartanu framkoma, Matth. 15. Hafa troded sier Gadd i Jskolldu Mañsins Hiarta, svo Guds Ord fœr ecke Rum i þeim, og ef nockud af Sœdenu kañ ad hrioota þar iñ, verdur þad Footum troded. Þesser eru þeir er fyrer Sidasaker gœnga iñ i Guds Helgedom, til ad byrtast fyrer Moñum. Þeir Hræsnarar, Vel hefur Gud um þa talad fyrer Muñ Ezechielis, 33. Cap. Þu Mañsins Son, Þeir koma til þiin svo sem Foolked er vant ad koma, og þeir sitia fyrer þier so sem mitt Foolk, og heyra þiin Ord, Eñ þeir giora þar ecke epter, helldur giora þeir Hœd-Viisur þar af med Muñe siinum, þeirra Hiarta stundar epter Abata, Þu ert þeim eins og Amors-Viisa, Su ed lætur vel og er fogur adleika, Þvi þeir heyra þiin Ord, Eñ giora þar ecke epter; Og er þad skielfeleg Fasiña, Br. M. Er hiñ slæge Dioful hefur blindad Mañaña Hugskots Augu med, ad Meñ leggia Eyrun vid skamarlegum Ordum og fiflslegu Hiale, Eñ byrgia þau fyrer Guds Evangelio, Þau standa opeñ fyrer Hafgyu Saungum Veralldareñar, Eñ Brwdgumans Raustu heyra þau svo þwnglega, ad ecke er siint þau mune bregda vid fyrr eñ Hofud-Eingelsins Basunalætur i Skyum Himens. Dœmafrood Afeñtiire og Liga-Sogur

ur laata Meñ sier iñdællt ad heyra, Eñ vilie nockur framtelia Guds Daasemder um̃ Stoorvyrke vorrar Skøpunar, um̃ Myskunarverk vorrar Endurlausnar, um̃ Leyndardoom vorrar Helgunar, Þar velger Meñ vid so sem odru Liettmete, svo eg sie ecke añad i sumra Maña Fare, Eñ ad þeir mune þeinkia hid sama um̃ Guds Ords Þienara, sem Athenu Borgar-Meñ kvaadu upp um̃ Paulum, Er hañ talde þeim Christelega Trw, eñ þeir sogdu: Hvad mun Ord-[illegible]aapur þesse vilia sier? Act. 17. Giæted þo ad i Guds Nafne Christner Meñ, hvilijkur Hlutur ad Guds Ord er, Þad er Foodur Saalna vorra, Matth. 4. Þvi aan þess munum vier deyia, Þad er Lijf og Ande, Joh. 6. Þvi aan þess erum vier i Syndunum dauder, Þad er Leidarvijser til Himnarijkis, Ps. 119. Þvi fyrer utañ þad munum vier ofañ fara i hin ystu Myrkur, Hvar vera mun Oop og Tañagnijstran. Og fyrst vier þetta vitum, og þad er i Hiortum vorum fyrer Doome Samvitsku vorrar sañproofad, Þa þyker mier saa ecke kvalraadur vera, Og ecke miked kvijda Helvijtis Pijslum, sem lætur þad eins og añañ Vind um̃ Eyrun þioota, so sem þad kome ecke vid hañ, sem af Gude er talad, Og alltijd mune eitthvad til eilijfs Lijfs verda.

Nærst þessu talar Endurlausnareñ um̃ þa er hañ samlijker Grijttre Jordu, J hvoria þegar Sæded fiell og spratt upp, þa visnade þad, Af þvi þad hafde ecke Vokvañ: Þesser eru þeir, sem heyra Guds Ord, og medtaka þad med Fognude, og hafa þo ecke Root, Þviad um̃ Stundarsaker trwa þeir, eñ a Freistingar-Tijmanum falla þeir þar fra. Jeg kañ ecke añad ad segia, Eñ þessum er ad nockru Leite betur haattad eñ hinum, Þvi lijklegre er saa til Apturhvarfs, Sem ad smackad hefur hvad sætur ad Gud er, helldur eñ hiñ sem aavallt mootstendur H. Anda. Þo er þad med þvi moote ad þeir laate sig Leidrietta af Anda DRottens, Nær þeir villt fara, Añars munu þeir bwa vid verre Kost eñ hiner, Þvi þad Orded sem þeir heyrdu, Mun fordæma þa, Joh. 12. Pietur fiell fraa aa Freistingar Tijmanum, Eñ JEsu blijda Tillit snere honum aptur so hañ gieck wt og griet beisklega, Matth. 26. Aaron fiell fraa, Þegar hañ Ottadest Folksins Reide, Exod. 32. Eñ hañ hvarf aptur aa Guds Veg, so hañs Synd var honum ecke til Dauda reiknud. Sialfur Moyses var ecke laangt þar fraa, Er hañ sloo Tveimsiñum aa Kletteñ, Num. 20. Hvar til hañ þo ei hafde Guds Bodord; Eñ aller þesser voru nærsta Leidetamer aptur aa Guds Gotu. Judas fiell og fraa, eñ skipadest ecke vid Christi Amiñingu i Kvolldmaaltijdeñe, Joh. 13. Ecke vid hañs blijda Avarp i Grasgardenum, Luc. 22. Og ecke nema til Jlls vid hiñ harda Doom er hañ saa ad ætlade ad gaanga yfer siñ Herra, Matt. 27. Saul fiell og fraa aa Freistingar Tijmanum, eñ leitade ecke Guds i sijnum Mootgaange, Helldur Galldra-Konuñar, 1. Sam. 28 Þvi fiell hañ aa sitt eiged Sverd, 31. Cap. Achab medtok Orded med Fognude, so hañ sat i Seck og Osku og griet fyrer Gude, 1. Reg. 21. Eñ ecke ad sijdur fiell hañ fraa og sende til Frietta vid Baal, Eñ liet aflijsa Spaameñ DRottens. Þvi er eg viss um̃, ad þesser mune Obærelegre Kost eiga eñ hiner, sem alldrei hafa aa Guds Veige geinged, eñ hvad mun þessu vallda, B. M? Ecke añad, eñ ad Hiartad er hardt, Svo ad Sæded fær aungvañ

 Vokva.

Vokva. Guds Ord hafa eige gietad uñed so æ Priootskuna, ad þad hafe smellst i þeim fyrer hreina Ydran, ad hid Himneska Sæded hafe feinged nockra fasta Root. Marg-er vilia Guds Viner vera þegar allt leikur i Lynde, Eñ þegar Soolbrune Mootlæting-aña tekur til ad hafa siinar Verkaner i Guds Akre, Pa visna þeir Avexterner braad-lega sem ecke eru vel Groodursetter. Ef Meñ læta Steineñ i Elld, þa verdur hañ gloo-ande uñ Hrijd, eñ ecke mijkest hañ nema hañ ad Osku breñe; Eins er þess Mañs Hiar-ta sem Spamadureñ klagar yfer, Jer. 8. ad sie harbara eñ Demant. Drotteñ typp-ar þa med Vende siins Ords, Eñ þeir fiña þar ecke til, Hañ heller yfer þa Oleo Fagn-adarens, Pad geingur eige iñ i Steineñ.

Pegar Gud gifur Regn æ Jordena, Pa fellur þad eins yfer frioossama Stade og Ofrioossama, harda og miwka. Pad er viist, ad hvorutveggiu bera nockurn Avoxt medañ þad yferstendur, Eñ þegar Sooleñ tekur ad breña, Pa verdur su Grein þessara, ad hvad sem yfer hina hordu og Omiwku Stade fiell, Pad þornar braadlega upp, Pvi þad fañ eckert sier liikt i Hellu-Steinenum, Sem þad kyñe ad varđveita: Hin Platseñ færa Avoxt þess meire og meire sem Sooleñ meir verkar, Pvi þeirra Miikende hallda þvi er þau hlutu, og hid besta þar af stiigur ecke upp i Lopted aptur, helldur sniist Avextenum i Vokva og Vessa: So verdur og Guds Ord predikad Vondum og Goodum, Bliwgum og Hardsviirudum. J þessum breñer Ellđur Mootlætingaña allañ Vok-va i burt, Eñ i hinum verkar hañ Fridsamlegañ Avoxt Riettlætesins, Hebr. 13. Allð-rei hefur Guds Kyrkia meir efist eñ i Mootgæangenum. Pegar JEsu Nafn matte ecke nefna fyrer utañ Liifs-Hæska, Pa frioofgadest Guds Alldengardur best, Pegar Kraptur JEsu Bloods sem var i Ordenu, fañ Guds Akur miiktañ med Bloodugum Ydranar Tarum i Hiartanu, Pa kviknade Kiærleikureñ, Pa spratt upp Poleñmædeñ, Pa grere Trweñ, Pa voox Liitelæted, Pa lifnade Myskunsemeñ, Pa dafnade Hoogværd-eñ, Pa brañ Elskañ til Guds, hvad heitast, So ad hvorke Liif nie Daude, hvorke Eing-lar nie Valldstietter nie Hofdingia Dæme, Hvorke hid Nælæga nie þad Epterkomañ-da, Hvorke Hæd nie Dypt, nie nockur oñur Skiepna, Kuñe ad skilia Guds Elskendur vid þañ Kiærleika, sem er i Christo JEsu, Rom. 8. Eñ siidañ Moñum took til ad leid-ast ad draga Oked med Christo, Pa hefur ecke Plogur Logmalsins rist so diwpt i Mañ-aña Hiortum. Meñ vilia aller med honum riikia, Eñ fæer med honum liida, og hygg-ia ad mætuleg Gudhrædsla duge noog til Sæluhiælpar; Par fyrer koolnar Hiarta Mañsins so, ad Guds Ord, Pad Himneska Sæded, Verdur ecke i Bein og Merg iñ-drucked, Fyrer þvi vex og Korned i Guds Akre misg so þuñt, So ad ein Stauungeñ æper til añarar, og Andskoteñ hefur med Bæle Oleyfelearar Heimsins Elsku brent oss mar-ga Viila þar iñe; Par fyrer tem þier Christelega Ydran, O þu Guds Barn, sem villt Sæluhiælpena erfa, æ medañ Gud lætur þier ad Oskum gæanga, Og læt Miñing þiña Synda og hañs Astaiasa miikia Hiarta þitt, So ad H. Ande sem byr i Ordenu meige una þar iñe, Pviad þu veist ecke nær ed Hite Freistingaña tekur til ad breña, og þu þurf-

er

er brædlega æ ad halldá, Og þoott þad verde eige fyrr eñ æ Daudans Stundu, Sem
hvorn Dag yfer hanger, Pa þeink ad þær eru þa vijsar; Eñ ongvum hefur veitt af
æ þeirre hordu Tijd, Þeim einum hefur þa bæst vegnad, Vid hvoria Ande DRottens
hefur talad i Hiartanu, J þvi Ordenu sem þeir ædur mundu og Rootfestu þar iñe, Til
heilnæms Vegaanestis i giegnum hiñ myrkva Daudans-Dal, Jñ a Land lifande Mañ.

Hinum Pridiu Tilheyrendum dregur vor HErra Dæme af þvi Sæde sem fiell
æ medal Þyrna, Eñ Þyrneñ sprúttu upp med og kiæfdu þad nidur: Pad eru þeir segier
hañ, Er heyra Orded, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga,
Kefiast og færa ongvañ Avoxt. Hvilijka Hindrun ad þetta Jllgrese giore Akur-Lond-
um Guds, Eru fleire Dæme til, Eñ segia þurfe. Margañ hefur Bwkforg og Ahyggia
frá Gude dreiged. Par sem þiñ Fiesioodur er, Par er þitt Hiarta, segier Endurlausn
areñ, Matth 6. Hvorneñ sær Meñ þa under eins Gude þioonad og Mamona? End-
urlausnareñ selger, ad Þyrneñ hafe vaxed upp med og kiæft Sæded nidur. Ecke segier
hañ ad Korned hafe ecke og nockud vaxed, Eñ þo er þad eige ad meira Leite eñ so, Ad hañ
reiknar þad fyrer ongvañ Avoxt, Hvar fyrer? Af þvi Þyrneñ hofdu Yferhond, Eñ
Korn-Staungeñ þroskadest alldrei, So ad Axed næde wt ad sprijnga. Lijkt er þetta
Gudhrædslu sumra Maña, Peir ed giarna ræfia Ord DRottens, Peir hafa þad um
Hond, Pe r bidiast fyrer, Peir tææast fyrer Gude, Peir sijngia og lesa, Peir heyra giarna
talad um Gud og hañs H. Dæsemder, og lætast þad siælfer giora med fullre Alvoru,
Eñ straffa adra sem þær eru Toomlætare i siñe Pioonustu. Eñ þegar Brooder edur
Syster eru nakeñ, og hafa Skort æ Tijmañlegre Næringu, Pa giefa þeir þeim þo ecke
hvad Lijkamanum er Naudsynlegt, Jacob 2. Pegar þeir siæ Pioofeñ, Hlaupa þeir
med honum ad stela, Ps. 50. Ef ecke med Almeñelegre Launung, þa med Yfervarpe La-
ga og Rettinda. Siæe þeir nockud gyrnelegt, Verdur Bwkforgeñ þeim svo Obære-
leg sem Achab, ad þeir nærre þvi leggiast upp æ Sængena, 1. Reg. 21. Nær þad er
ecke fyrer Augunum sem eta skal, Pa er ecke Trweñ æ Gud betur grundvollud eñ so, ad
Meñ spyria med Heidingiunum, Hvad skulum vier eta, Eda hvoriu eigum vier ad klæd-
ast? Matth. 6. Um Asnans Skugga, og um Geitar-Hæreñ Toñlast þeir og Tyg-
iast Jñbyrdis, Par til þeir mættu um sijder verda uppetner, Og ef einhvor giorer nockud
af vid þa, Pad ræfia þeir iñ til Daudans. Siæe þeir Veg til ad Fiefletta einhvern,
spara þeir ecke Roog nie Lijge; Þyke eitthvad indællt vera, Pa stendur Guds Elska og
hañs Ord til Baka, Eñ Holldenu er þioonad i þess Gyrndum og Tilhneigingum. So
vara nu Þyrneñ upp fullum Fetum, Eñ Sæde Guds Orda dempast, og bera ecke A-
vext, Og æ Gudhrædsluñe ber ecke fyrer Jllgresesins Ofvexte, Hvort hun sie nockur i
Hiartanu, Pad vita eige adrer nema af Avextunum, Hitt er Deigenum lioosara, ad
alldrei kiemst hun le nara eñ i Muñeñ, Eñ hiner Limerner erfida i Satans Akre; Og
synest mier ad þesser elske Gud med somu Elsku og hañs Limu, Er þeir segia: Vermed
ydur og mettest, Jacob. 2. Eñ giefa þeim þo eckert. Slijkt er i Raun og Sañleika ad

hrooſa ſier af Gudhrædſlunñe, Eñ afneita þo heñar Krapte, 1. Tim. 3. Og ſo ſem JEſus ſagde vid Juda, ad wtſiwga Hws Eckna og Fodurlauſra under Hylmingar-langra Bæna, Matth. 23. Og kañ þad ecke ad fara aa añañ Haatt, Þvi eige verda Wijnber eñ ſamañleſeñ af Þyrnunum, Nie Fijkiurnar af Þiſtlunum, Matth. 7. Gudhrædſla ſoddañ Maña, Er eins og Tal hins Heimſka, fyrer Gude, um hvort Salomon ſeger: Ad þad ſie eins og Þyrne-Kviſter i Hond hins druckna, Prov. 26. Þyrnereñ er nærſta Braadbroſka, velldur þad þvi, ad hañ dregur til ſijn allañ Vokva wr Jorduñe, So þau Groſeñ, er i Naand vaxa, Þau faa ecke til Vidurlijfis, Og þeſs betre Vokva ſem hañ nijtur, Þeſs lijklegra er ad hañ betur bloomgeſt.

So er Hreckvijſeñ, Þegar hun er plontud i Naalægd Dygdaña, (ſvo kalla eg Ekki Gudhrædſluñar) Þa tekur hun þeſs meira Aſl. Þegar Odygdeñ er bryniud med Lijkingu Guds Herſkrwda, Þa hefur hun ſtooran Myndugleika, Jafnvel þott þad ſie ecke nema Hamur eirn, og Satans Eingill i Ljoſſens Eingel umſteiptur, Eñ eige ad ſijdur mun ræctaſt aa þeim Spaadoomur Eſa. 10. Elldureñ mun uppbreña hañs Þyrna og hañs Þiſtla aa einum Dege. Þyrnarner eru bloomleger nærſta, Eñ ſaart ſtijnga þeir ef Ogiætelega er aa þeim teked. Þañeñ er Ahyggia og Bwkſorg þeſſara Lijfdaga; Hun lofar ollu fogru, Gulle og Silfre, fullum Kornhlodum, Ynde og Epterlæte, Eñ þeir ed ſlijta Hiarta ſijnu þar med, Þeir fiña þo eckert Ynde, helldur eins og hiñ Vatnsſiwka þyrſter æ þeſs meir, Sem hañ meira dreckur, So er þeſs frekare Agyrndeñ, Sem meire er Audureñ, Og hun etur ſiaalfa ſig, og elur ſig þo ſiaalfa; Hun er bæde Hungur og Fylle, Ynde og Sorg, Og er þo alldrei ſo miked Epterlæted, ad ecke ſie meira Andſtreymed, og þad ſem yfertekur, ad hun kieſur þa Unadſemd, er Meñ eiga i DRottne ad hafa, Og mettar ſijna Præla med Harma-Braude einu, Og dryckiar þa med Omiñis Ole, ſo þeim gleymeſt ad ſafna ſier Fieſiood aa Himnum, Hvorium ecke kañ Molur nie Rid ad granda, nie Þioofar eptergrafaſt, Matth. 6. O! þu Dijrkeypta JEſu Brwd Chriſteleg Kyrkia; Laat þier þad til Riſia reña, ad þiñ Uñuſte er med Þyrnum Kornadur aa yckar Heidurs-Deige, eñ þu ræktar þa Þyrnana beſt, ſem hañs bleſſada Hofud hafa hvad ſaaraſt ſtunged i Þijnuñe, Þad eru þijnar Synder og þitt Epterlæte, Þu ſem ert afrekud med Guds eigeñ Bloode, Act. 20. Svo þad er ecke all-lijted Sorgar-Efne, hvor ſem þeſs giæter, ad hid Oforgeingelega Sæde Guds Orda, Sem Petur talar um̃, Þad þrooaſt valla ſvo hier aa Jorduñe, ad Bindene hañs Barna verde ſullt i Heimenum. Romveriar kolludu þad Obacklaatañ Akur, ſem ecke ſvarade Koſtnadenum og Erfidenu; Eñ þad maa hiñ Allsvalldande Hws-Fader ad riettu ſegia um̃ ſiñ Akur, Þvi ef nockur vill meta til ſamans Guds Eingietens Sonar Dijrmæta Blood, Hvors miñſte Drope ad er Koſtulegre eñ oll Rijke Verallddareñar og þeirra Dijrd, Og ſo hiñ Fioorda Part af þeim, ſem Orded heyra, Ad hinum Dreiknudum, ſem þar fyrer utañ eru, þa mun hñ jaata ad Chriſti Ervides og hñs Akur Averxte ſie Oliijkt fared og ongvañveigeñ ſamañ ad jaſna. Hvor Eyru hefur ad heyra, hañ heyre þad.

Hvør-

Hvorier eru hiner Fioordu Tilheyrendur, Br. M? Pad eru þeir ſem JEſus ſamlijker þvi Sædenu, Er fiell i Gooda Jord og bar Hundradfalldañ Avoxt. Þetta þijder DRotteñ uppa þa, ſem behallda Ordenu i goodu og ſidſomu Hiarta, Og færa þar af Avoxt i Poleñmæde. Gud hefur lofad, ad ſitt Ord ſkyllde ecke koma toomt til ſijn aptur, Þvi hefur hañ ecke lofad, ad þad ſkule hiaa ollum verka Saaluhiaalpena, hvar fyrer? Þvi þar eru ſvo marger ſem þvi ecke hallda i Goodu Hiarta, Og ecke aller ſem liaa þvi Rwm i Hiartanu. Hid ſama Ord var predikad Pharao og ollum hañs Þienurum: Eñ þo ſegier Ritningeñ, ad ſumer af þeim hafe Ottaſt Ord DRotteñs, Eñ Pharao forherdte ſitt Hiarta. Hid ſama JEſu Chriſti Evangelium kiende Paulus og Barnabas i Iconio, og þar trwde mikell Fiollde, Bæde Gydinga og Gryckia, eñ Judar þeir ed Vantrwader voru, Æſtu upp Heidingiana i moote Brædrunum, Act. 14. Hid ſama Guds Ord kiende JEſus ollum þeim, er til hañs heyrdu og ſaau hañs Kraptaverk, Þo ſogdu nockrer ad hañ Jardteikner giorde fyrer Beelzebub, Luc. 11. Adrer leitudu epter Teikne af Himne, Þo fanſt þar ein Kona, Er ſagnade hañs Kieñingu, og ſagde: Sæll er ſaa Kvidur er þig bar, og þau Briooſt er þu mylkter. Andſvar JEſu uppaa Ord heñar, miñer mig aa ad tala um, hvorſu Gledelegt ad er Guds H. Ord i þeſs Mañs Hiarta, ſem hefur Lyſting ſijna i hañs Logmaale, Pſ. 1. Hañ ſagde: Hvad [illegible] ad, Sæler eru þeir ſem heyra Guds Ord og vardveita þau. Eg þykeſt vita ad morg mune ſo Lynd ſem Kona þeſſe, Er hun liet aa ſier heyra, ad hun villde hafa vered JEſu Lijkamleg Mooder; hefde hun þañ Koſt maatt eiga, Eñ eg heyre ad hvorre eirnre Chriſteñe Saalu er bodeñ betre Koſtur, Sem er ad heyra Guds Ord og vardveita þau. Ecke hafde Maria miklu Blijdlæte Heimſins ad fagna, þoott hun være Mooder ad Konunge Himens og Jardar. Eñ þad heyre eg ad hun hafe vardveitt oll hañs Ord i ſijnu Hiarta, Luc. 2. Pad heyre eg og ad Simeon ſegier i þeſſum Cap. Ad heñar Aundu mune Sverd i giegnum ſmiwga, Pad hefur aan alls Efa vered, Pegar hun ſtood under Kroſſenum, og hun ſaa hañs Hendur og Fætur i giegnum ſtwngnar, er hun elſkade ſo ſem ſitt eiged Hiarta. Af þeſſu ſie eg Mariu ſæla ad vera, Þvi þau Ord er hun vardveitte i ſijnu Hiarta, hafa hiaalpad heñe ſlijk Oſkop ad þola; Pad ſama veit eg ad Guds Ord verkar i allra þeirra Hiortum, Sem hañ elſka, Og eru JEſu andlegar Mædur. Mitt Ok er ſætt og mijn Byrde liett, ſegier Endurlauſnareñ, Matth. 11. Ecke þyker þad Heimſins Bornum, Þeir ed Oked i ſundur brioota. Eñ hvor mun þad liett giora? Pad giorer Guds Ord, Sem Riett-Trwud Saala vardveiter i Hiartanu, Hvort ed telur heñe Trw um þad, ad Mootlætingar þeſſara Tijma, ſieu eige verdar þeirrar Dijrdar, Sem fram vid oſs mun koma i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Sæler eru þier nær Meñerner hallmæla ydur, Og tala i giegn ydur alla Vondſku fyrer mijns Nafns Saker, þo Liwgande, ſegier hañ eñ aptur, Matth. 5. Fagned og vered glader, þviad ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum. Eñ hvor mun giora oſs viſſa um þeſſe Verdlaun? Pad giorer H. Ande, ſem bijr i Ordenu, þvi er eirn Harm þrwngeñ og Sund-

urknosadur Ande vardveiter i goodu og Sidsomu Hiarta, Þvi hañ er Pantur vorrar
Arfleifdar, Eph. 1. So sem eg er þess fullviss, ad mier verdur eingeñ Skota-Skulld-
wr laanudu Fie, a medañ eg Pant hefe: Svo og laangtum framar er eg þess fullörugg-
ur, ad mier mune öll Harmkvæle þessa Heims med eilijfre Glede endurgollden verda,
(Jafnvel þo eg þess Overdugur sie) a medañ eg vardveite Guds Ord i goodu og Sid-
somu Hiarta, Þvi Ande Guds ber Vitne mijnum Anda, ad eg sie Guds Barn, Rom. 8.

Og Færer Avoxt i Poleñmæde, segier HErrañ: Hvorugt gietur añars aan vered.
Sa sem vardveiter Guds Ord, Hañ færer Avoxt i Poleñmæde, Og hañ sem Avoxt i
Poleñmæde færer, Hañ vardveiter Guds Ord. Þess gietur Johañes i hañs Fyrsta
Briefe Cap. 2. med þessum Ordum: Ef nockur segier eg elska Gud, og vardveiter
ecke hañs Bodord, Hañ er Liwgare. Villt þu Christeñ Madur vita, hvort ad Guds
Ord bijr i Hiarta þijnu edur ei, Þa reyn og proofa sialfañ þig, hvort þu manst þad af
Gude er sagt, Hvort þu hefur Lyst a ad tala um hañ, Hvort þier misþocknast, er þu he-
yrer hañs Nafn lastad, Hvort þu glедst af þvi, þa hañs Ord hefur Framgaang, Hvort
þu elskar þa er hañ elska, Hvort þu ert fliootur ad tilgiefa Misgiordernar, Hvort þu ki-
eñer i Briooste um þa, Sem Naud lijda, Og elskar þa ecke einasta med Orde og Tungu,
Helldur med Verke og Sañleika, Hvort þu audmyker þig fyrer Gude med Packlæte
þijns Hiarta, Þegar þier vel vegnar, Hvort þu kisser a hañs Vond nær hañ þig typtar,
Þegar þu freistast af Andskotans Heimsins og Holldsins Vielum, Eñ þier kiemur þa
under eins i Hug hvad Gud hefur bañad, Hvort þu lætur þa af, Og Elskañ til Guds
rædur meir eñ Fijsn Holldsins: Fiñur þu þetta hia þier, Þoott þad sie i Veikleika og a
Stundum meige afbera, Þa er þad vijst, Ad Guds Ord og hañs Ande drottnar i Hiarta
þijnu, Eñ añars ecke, Þvi so segier Lausnareñ: Ef nockur elskar mig, þa skal hañ mijn Ord
vardveita, Joh. 14. Eñ ef Skap þitt bijdur þier allt añad, Þa segie eg þier i Nafne JE-
su Christi hiñs Krossfesta og Blessada, Sem þijna Saalu hefur fraa Helvijte Endurle-
yst, Tak þier Vara og bid Gud ad skapa i þier hreint Hiarta, og giefa þier nijañ Anda,
Þviad eg þore ad setia mijna Saalu i Ved, ad þu geimer vanfæra Saal i heilbrigdum
Lijkama, Og herbergiar vondañ Glest i vænu Hwse, Eñ veitst ecke nær a Veggeñ skrif-
ad verdur: Þu Daare, a þessare Nootru skulu þeir þijna Saalu fraa þier taka, Luc. 11.
Hvad gagnar þad þa Mañenum, ad hañ ætte alla Verolld þessa, og lijdur so Skip-
Brot a Saalu siñe. O þu eilijfa Ord Fodursins sem varst i Upphafe hia Gude, Fyr-
er hvorn ad Alldernar skapadar eru, Endurskapa þu Hiarta vort, Ad vier verdum nij
Skiepna i þier; Laat þu þitt sæta Ord vera vort ædsta Epterlæte hier Tijmañlega, So
ad vier megum þess Oumrædelega Fagnadar nioota eilijflega. Veit oss þad O HE-
rra JEsu Christe, fyrer þitt Dijrmæta Blood og Blessada Forþienustu.
Þier sie med Fodur og H. Anda, Dijrd, Heidur og Lof, fraa þvi
nu er og um Allder Allda, AMEN.

Suñu-

# Suñudageñ i Føstu Jñgang.

Gudspialled, Matth. 3. Cap.

J Þañ Tijma. Kom JEsus af Galilæa ad Jordan til Johañem, uppaa þad ad hañ skijrdest af honum. Eñ Johañes varnade honum þess, og sagde: Mier er Þørf ad eg skijrest af þier, og þu kiemur til mijn. Eñ JEsus svarade og sagde til hañs: Laattu nu so vera, þvlad so hæfer oss allt Riettlæte upp ad fylla. Og þa liet hañ þad epter honum. Eñ er JEsus var skijrdur, stie hañ jafnskioott upp wr Vatnenu. Og siaa, ad Himnarner lukust upp yfer honum, og Johañes saa Guds Anda ofañ stijga sem Dwfu, og yfer hañ koma; Og siaa, ad Roddeñ af Himne sagde: Þesse er Sonur miñ Elskulegur, Ad hvorium mier vel þocknast.

Exordium.

EG vil uppvekia þeim Eirn Spaamañ af heirra Brædrum eins og þu ert, sagde DRotteñ vid Moysen, Devt. 18. Þesse Ritning er aa vorum Frelsara JEsu Christo ad fullu uppfylld, Þar ed hañ strax epter sijna allra Helgustu Skijrn i Añe Jordan var settur af Gude sijnum Fodur til Kieñemañsskapar og Spaamañs Embættis Nija Testamentesins, og smurdur med Oleo Fagnadarens fram yfer sijna Hluttakendur, Ps. 45. So ad uppfylltest þad sagt er fyrer Muñ Esajæ, 61. Cap. Og hin eilijfa Spekeñ Guds uppaa sialfañ sig þijder, Luc. 4. Ande DRotteñs er yfer mier af þvi hañ hefur smurt mig, Hañ hefur sendt mig til ad predika Voludum, Ad leggia vid þau Sundurknosudu Hiørtuñ, Til ad predika þeim Herteknu Frelsid, Þeim Faungudu Lausnena, Hinum Blindu ad þeir verde Heilskigner, ad eg frelse hina Sundurkromdu. Eñ hvorneñ maa eg þad skilia, ad þesse mikle Spaamadur sie eins og Moyses, Þar hañ var Madur Syndugur, Eñ þesse aan Syndar? Þess er ad giæta hier i, Ad Gud spaaer, Ad hañ mune eins og Moyses verda, Eñ Moyses þo ecke jafn honum: Lijkur ad soñu i allre Mañlegre Hegdan og Edle uppaatekeñar Naatturu, Eñ nærsta Olijkur epter þeirre Dijrd sem hañ aatte i Upphafe hiaa sijnum Fodur, Og i Sañleika er vor Endurlausnare Moysi i morgum Hlutum lijkur. Moyses var eirn Madur, Christur er og Holld af voru Hollde, og Bein af vorum Beinum. Moyses var af Gude sendur, Eñ um sig talar JEsus hiaa Johañe: Svo sem Fadereñ sende mig, þa sende eg ydur, Joh. 20. Moyses wtleidde af Egypta-Lande, JEsus hefur frelsad oss af Syndareñar Þrældoome. Gud wthellte sijnum Anda yfer Moysen, og gaf honum Vitsku og Speke til ad dæma sitt Foolk, miklu framar þo yfer JEsum Christum, Þvi honum hefur hañ aan Mælingar giefed, Joh. 3. Gud took af Anda Moysis og lagde yfer Olldungana i Jsrael, Num. 11]

Af

Af JEsu Fyllingu hofum vier aller medteked, Joh. 1. Þar var eige so plaagadur Madur sem Moyses, Num. 12. Hvørhefur so plaagadur vered sem JEsus? Moyses var Hertoge i Jsrael sa ed leidde Guds Fylkingar i Eydemorkuñe. JEsus Guds Sonur er hiñ mikle Hertoge, Sem af Bethlehem er wtgeingeñ, Mich. 5. til ad fæda hañs Foolk Jsrael. Jsrael hræddest fyrer Auglite DRotteñs i Horeb, Exod. 21. Og sagde vid Moysen: Eige vilium vier framar heyra Raustena DRotteñs Guds; Far þu uppaa Fialled, og tala vid hañ fyrer oss. Af hvoriu raada er ad Moyses i þad Siñ hafe vered Medalgaangare millum Guds og hañs Foolks: Þeirrar Meiningar hefur og vered Stephanus Pijslar-Vottur DRotteñs, Er hañ sagde um Moysen, Act. 7. Þegar hañ þijder þeña merkelega Spaadoom uppaa vorn Frelsara, Segiande: Þesse er hañ ed var i Samkunduñe i Eydemorkuñe med Einglenum; Sa ed talade vid hañ og Fedur vora; Sa ed medtook þad Lifanda Ord, Ad hañ giæfe oss þad; Eñ þoott ad Moyses i þañ Maata være Medalgaangare mille Guds og Jsraels Sona, Þa hefur þo Sonur Guds eitt Ædra Embætte odlast, vordeñ Arnadar-Madur hiñs betra Testamentis, Sem stadfest er uppaa betra Fyrerheit, Hebr. 8. Vid þeña Mismun aa mille Moysis og Christi Medalgaungu hefur Paulus kañast, Hebræos 12. Cap. med þessum Ordum: Þier erud ecke geingner til þess Fialls sem Þreifañlegt er, og med Ellde breñur, nie til Þoku edur Myrkurs og Ovedurs, nie til Lwdur-Þits edur Raddar Ordaña, Vid hvoria þeir Ottudust er hana heyrdu, þad eige yrde til þeirra Ord ed talad, Helldur erud þier komner til Fiallsins Zion, og til Medalgaungara hiñs Nija Testamentis JEsum, Og til Bloodsins Adreifingar, Þad betur talar eñ Abels Blood. Þetta er þad dijrmæta Blood Guds Eingietens Sonar, Apoc. 1. JEsu Christi, Med hvøriu hañ þvær oss synduga Meñ sem komum i þeñañ Heim, J Skijrnar-Laugeñe af øllum vorum Syndum, Og uppaa þad hañ helgade oll Votn til Hiaalpsamlegs Medals Endurfædingareñar, Þa hefur hañ laated sialfañ sig i Añe Jordan skijra, Svo sem vier nu Samstundis heyrdum af þessa Dags Evangelio, Af hvoriu vier vilium Einasta yfervega, Hvad stoor og mikell ad sie Kraptur Skijrnareñar i Frwmkvæmd vorrar Saaluhiaalpar, Og hvorier ad sieu heñar Avexter.

Þu Myskunsame Gud, Sem bæde hefur plantad og Avexteñ giefur; Gief þu ad um þeña þiñ Haaleita Leindardoom svo talad og epterteked verde, ad þitt Allra Helgasta Nafn Vegsamest aa medal vor; Eñ vier mættum þiñar Eilijfu Myskunar Saaluhiaalpleg Not hafa, Fyrer Fulltijnge þijns Elskulega Sonar, J Krapte Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

DRotteñ sagde vid Nicodemum Fordum Daga, Joh. 3. Ad hvad sem af Holldenu fædt være, þad være Holld, Eñ hvilijk ad sie vor Holldleg Fæding, Þad wtmaalar Guds Ande allra best fyrer Muñ Paals. Er hañ segier, Eph. 2. Ad vier sieum af Naatturuñe Reideñar Born. Hvad kañ þeim aumra ad vera sem under

Guds Reide eru, Þar hun er eirn fortærande Elldur, sa ed breñur allt til nedsta Helvijtis? Devt. 32. Eñ hvorneñ erum vier nu vid þetta Volæde kvitter vordner? Þad hofum vier odlast i Skijrnar Saanum. Þess gietur St. Paall, Eph. 5. segiande: Christur hefur hreinsad Søfnudeñ med Vatns-Laugeñe i Ordenu. Hañ segier eñ aptur: Ad Gud hafe þrifed oss wt af Vallde Myrkrañs og sett oss i Rijke sijns Sonar, Col. 1. Nær mun þetta hafa giørst? Ad vijsu i Skijrneñe. Hvort er Valld Myrkrañs? Þad er Diøfulsins Rijke, Eph. 6. Hvort er Guds Sonar Rijke? Þad er Fridur og Føgnudur i H. Anda, Rom. 14. Þier vorud Fordum Myrkur segier Paall um Heidingiana, adur eñ þeir voru af Gude Endurfædder, Eñ nu erud þier Lioos i DRottne, Eph. 5. Eins vorum vier aller aa oss komner, adur eñ Guds eilijfa Myskun Endurbætte voru syndugañ Gietnad med Vatne og Anda. Svo mikill Munur sem nu er aa mille Liossins og Myrkursins, Mille Dags og Nætur, Mille Soolareñar og þeirra Hluta sem hun upplijser, svo miked Diwp sem þar er stadfest aa millum Lazarum i Fadme Abrahams og hins rijka Sælgiætings, Þar hañ pijnest i Helwijte og Kvølunum, Luc. 16. So stoor Mismunur er ad sijnu Leite mille þeirra sem alleina af Holldenu, og þeirra sem i Skijrneñe verda af Andanum fædder, Þvi vor Lausnare segier hiaa Joh. 3. Cap. Vid Nicodemum: Nema eiñ hvør verde Endurfæddur af Vatne og Anda, Þa kañ hañ ecke iñ ad gaanga i Guds Rijke. Þetta tala eg ecke i þeirre Meiningu, ad eg hafe hiñ miñsta Þaanka þar uñ, ad Smaa-Børneñ sem añadhvørt i Moodurlijfe burtkallast, eda deya strax epter þad þau boreñ eru i Heimeñ, edur hindrast aa einhvørn Haatt fraa Skijrnareñar Blessan, ad þau mune ecke eilijfs Lijfs Erfingiar verda, Helldur af þvi ad DRotteñ aatte Orda-Stad vid Nicodemum, Eirn Fullordeñ Mañ, sem ecke var so uppfræddur i þeirre Guds Rijkes Stioorn, Sem Christur hoof hier aa Jørduñe, Med Endurgietningu Syndugra Mañа fyrer Vatn og Anda, Er Nijungar þootti hiaa þeim sem af Umskurneñe voru, Sierdeilis Phariseunum, Af hvørium Nicodemus var, Þa epter þvi (segie eg) ad hañ villde undervijsa hønum i Lærdoome Nija Testamentesins, Þa sijner hañ hønum, Ad saa nu vilie Hoolpeñ verda, Hañ meige skijrast laata. Eirn Konungur er ecke bundeñ vid þau Løg sem hañ sialfur giefed hefur, Svo hañ meige þeim ecke umbreyta, Nær þad ei skiedur aa moote Guds Løgum, Þvi skyllde þa hiñ mikle Stioornare allrar Veralldar, Vera so fastur vid sijna Setninga, Ad hønum leifdest ecke ad giøra sijnum Skiepnum Gott, Med þeim Hætte sem hañs Alvitra Raade haga þyker? Guds Setningar skyllda oss under hañs Hlijdne i øllu þvi sem i voru Vallde er, Eñ ecke sialfañ hañ, Svo hañ þad ecke wtrietta kuñe sem hañ vill, Med þeim Hætte sem hañ sialfur vill. Forøktun Skijrnareñar og ecke heñar Brestur, Fordæmer Syndugañ Mañ, Eñ saa kañ ecke ad foracta sem eige kañ adgreina Illt og Gott. Hiaa Gude er eingeñ Hlutur Omaattugur, Luc. 1. Þvi mun þa þesse vera? Maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinunum, Matth. 3. Þvi þa ecke ad flytia þeirra Saaler i Abrahams Skaut? Hvørra Lijfs-Stundum

hañ sialfur rædur. Ef Gud villde Endurfæda Mañeñ an Skijrnareñar, Munde hañ þad ecke gieta edur meiga? Sañlega. Eg sie hañ hefur Endurfædt þa sem aa Gamla Testamentesins Dögum lifdu, fyrer Medal Umskurnareñar. Eñ ef honum þocknadest olldungis fyrer utañ nockurt Medal ad Endurgieta Mañeñ til eilijfs Lijfs, Munde þad ecke i hañs Vallde standa? Eingeñ Efe er aa þvi. St. Paull styrker mig i þeirre Trw, Rom. 4. Talande þar um̃, med hvoriu moote Abraham hafe vered reiknud Trw sijn til Riettlætis, Med hvoriu moote var hun tilreiknud? segier hañ: Hvort þegar hañ var i Umskurneñe, Edur Yferhwdeñe? Ecke i Umskurneñe, helldur i Yferhwdeñe. Hafe nu Gud Abraham Fodur Trwadra Endurfædt fyrer utañ Sacramentaña Medal, Þvi skal hañ ecke kuña og vilia þad sama giora vid þa sem ecke verdur so laangs Lijfs audeð, ad þeir meige i Skijrneñe Endurfædast. Ad eg ecke tale um̃ Adam, Set, Lamech, Matusalem, Enoch og Noa, Med Otal Þusund odrum sem Meñ fyllelega trwa ad nu lifemed Gude i Himnenum, og Andader eru aadur eñ Sacramenteñ voru Jñstiptud. Og ad Meñ vite, Ad þessu sie eins vared sijdañ Sacramenteñ Jñsett voru, Þa sie oss vitañlegt, Ad hañ sem kuñe hoolpeñ ad giora þau Borneñ i gamla Testamentenu, sem burtkolludust iñañ þess Attunda Dags, Hvor ætladur var til Umskurnareñar, Gen. 17. Hañ sem Myskunade sig yfer þa sem deydu i Eydemorkeñe Oumskorner, Jos. 5. Hañ sem wthellte Heilogum Anda yfer Cornelium, og þa sem voru i hañs Hwse, aadur eñ þeir nockurn Tijma skijrder voru, So ad Petur sagde: Hvor maa baña þeim Vatned, Sem medtekeð hafa H. Anda eins og vier, Act. 10. Hañs diwpu Myskunar Ydur, Luc. 2. Sem ongvañ Botn hafa, Þau eru ecke ollsamañ wtruñeñ i Skijrnar-Saaen, helldur reña hañs miklu Myskunar-Læker eirneigeñ til þessara Smælingia, af hvorium Fader Myskunsemdaña vill ecke ad nockur fyrerfarest, Matth. 18. Þeim sem Trwader voru af Umskurneñe hnickte vid þad, ad H. Ande fiell yfer heidnar Þioođer, Act. 10. Sem eckert af Gude vissu aadur eñ þeir skijrder voru: So skiedur þad eñ nu i Dag, Ad þad sem Omoguleat er fyrer Moñunum, Þad er mogulegt fyrer Gude, Matth. 19.

David Konungur, Þott hañ stoor syndugur Madur være, Þa er eckert ad heyra añ ad aa hañs Kvedlingum, Eñ ad hañ hafe ætlad sier eilijfa Vist hiaa Gude, Þegar hañ harmade siñ Son, Hvorn hañ gieted hafde med Bersabe, Hvor ed framar odrum hañs Bornum maatte kallast Gieteñ og Fæddur i Syndeñe, saa ed og deyde aadur eñ hañ umskoreñ vard; Hañ huggade sig med þessum Ordum, þegar hañ reis upp wr Duptenu, Þar hañ griet Synd sijna fyrer Gude: Eg kiem til hañs og hañ ecke til mijn, 2. Sam. 12. Af hvoriu audsied er, ad hañ hefur vered Fulltrwa þar um̃, ad hañ være undañ sier fareñ i þa Gledelegu Vist, hvar ad er Sadning Fagnadarens, so sem hañ þad sialfur kallar. Hvad fiarlæger ad sieu Guds og Maña Doomar, Er aa medal añara audsied af Jonæ Spaamañs Sogu, Þegar hañ nærre þvi brixlade Gude um̃ sijna Þoleñmæde, Jonæ 4. Med þessum Ordum: Jeg veit þu ert Naadugur og Myskunsamur, Þoleñmoodur og nærsta Goodgiarn: Eñ Gud svarade honum þessu medal añarra,

Munt

Múnt þu Riettelega Reidaſt? Þu hlijfder Lundenum uppaa hvorn þu ecke erfidader, og eckert giorder þu til hañs Fullkomnunar, Þvi hañ voox aa Noottu, og Næturgamall viſnade hañ. Skyllde eg þa ecke þyrma Ninive þeim ſtoora Stad, J hvorium ad eru fleire eñ Hundrad og Tuttugu Þuſunder, Er ecke vita til Hægre nie Vinſtre Handar, og morg Villudijr. Hafe nu Bruñur Myſkunſemdaña ſo Naadugur vered, Ad hañ villde þyrma þeim Ogudlega Stad vegna Oumſkoreña Heidingiaña Barna, hafe hañ helldur viliad þola þeirra Jllſku, ſem i Himeneñ var uppſtijgeñ fyrer hañ, helldur eñ ad Eydeleggia oll Dijreñ ſem þar iñe voru, Jon. 1. Þvi ſkyllde eg þa ecke gaanga wr Skugga þar uñ, ad hañ mune Myſkuna ſig yfer Eitt Omaalga Fooſtur, Sem eckert kañ til þeſs, Ad þad ei leingur lifer. Nu þoott ad Gude vorum ſie i ſiaalfs Vallde ad taka Mañeſkiuna i Saatt vid ſig og Endurgieta til eilijfs Lijfs, med hvoriu hellſt Moote, ſem honum þad þocknaſt, Epter ſiñe Almættis Goodgyrne; Samt er þad hiñ verſte Glæpur, ef nockur forſmaaer edur forſoomar þetta Hiaalpſamlega Medal. Þoott eirn Hwſs Fader meige med odru Moote wtrietta þa Hlute, Er hañ ſkipar ſijnum Þienara, Mun hiñ þar fyrer vera Sikn-ſaka, Ef hañ forſmaaer ſijns Herra Raadſtofun. Gud hafde noog Raad ad ſlaa i Hel Konung Amalechitaña, Þoott ecke hefde hañ brwkad Sauls Hond þar til; Eñ af þvi hañ var Toomlaatur i Guds Eyrenda Framkvæmd, þa vard Jſraels Rijke rifed af hañs Hende og giefed hañs Þienara, 1. Sam. 15. Munde nockud Achab og hañs Hws umflya Oluckuna, Þa hañ forſmaade DRotteñs Vilia i þvi ad drepa Benhadad Syrlands Konung, 1. Reg. 20. Jafnvel þoott hiñ ſterke Gud hefde Þuſund Veige til ad tortijna honum. Þad ſem Umſkurneñ var i Gamla Teſtamentenu, Þad er Skijrneñ i þvi Nyia. Eñ hvorſu miked hafe vardad uñ Umſkurnena, Vottar ſiaalfur Gud, Gen. 17. Þegar hañ ſtiptade þad H. Sacramentum, Segiande: Allt Kallkyns, Sem ecke umſkier Yferhwd ſijns Hollds, hañs Saal ſkal upprætaſt fraa mijnu Foolke, Þvi hañ hefur Onijtt miñ Saattmaala, hvoriu Samkynia er Þad DRotteñ talade vid Nicodemum, Og eg hefe aadur aaminſt. Nu þoott ad Barnaña Velferd ſie hier uñdañteken, Sem aadur er ſagt, Þa vite þo hiner gomlu, ſem forſooma aa þeim ſvoddañ Hiaalprædeſins Medal, Ad Gud vill þeſs krefia af þeirra Hende; Þar fyrer ſkielfdeſt og Zippora Kviña Moyſis, Þa hañ tafde ad umſkiera ſiñ Son, Exod 4 Añadhvort fyrer heñar Umtolur, edur einhvorn añañ Tilgaang, eñ Gud mætte þeim i Gieſta-Herbergenu, og ætlade ad ſlaa Moyſen i Hel fyrer þeſſa Forſoomun: Þvi ſkyllde ecke ſyndugum Moñum framar ollu odru þykia mikels verdt um þeñañ Haaleita Hlut. Saa Stadur hvar vor Endurlauſnare liet ſkijraſt, Hefur aan Efa vered Betabara, Þar ed Johañes ſkijrde, Sem raada maa þar af, ad DRotteñ gieck ſtrax epter Skijrnena wt i Eydemorkena ad freiſtaſt, og epter Freiſtinguna kom hañ til Johañem i Betabara aptur, Hvar hañ var ad þeſſu Guds Verke, Joh. 1. Þetta Ord merker Feriu-Stad, af þvi mikla Daaſemdarverke, ſem Gud giorde vid ſitt Foolk, Þegar hañ leidde þad i þeſſu ſama Platze þurrum Footum i giegnum Ana Jordan

iñ i Canaans Land, Og verdur so hier um̃ skrifad, Jos. 3. Ad Ork DRottens hafe staded midt i Fliootenu. Þetta ætte ad miña oss aa, ad JEsus Christus er hin saña Ork Saattmaalans aa mille Guds og Maña, Hvor ed i Skijrneñe sameñ verdur: Hañ er saa riette Naadar-Stooll, hvorn Gud hefur sett fyrer Trwna i hañs Bloode, hvar med hañ fram̃bijdur þad Riettlæte, sem fyrer honum er fullkomed: Þar fyrer ert þu miñ JEsu ofañstijgeñ i Jordan, Allt Riettlæte upp ad fylla, Þu hefur staded midt i Vatns-Floodenu, So vier þurrum Footum iñgeingium i Guds Rijke. Þu eilijfe Jehoschua, Sem oss hefur hoolpna giort i hærstum Hædum; Þig hefur Gud, þiñ Gud daasamlega miklad, Laangt fram̃ yfer Josuam aa þijnum Skijrnar-Deige, þegar hañ gaf þier fyrer Skijrnar Saaeñ i Ordenu heidnar Þiooder og Endemork Jardareñar til Arfleifdar, Ps. 2. Þu blessada Saattmaals Ork, J þier er bundeñ Saattmaale goodrar Samvitsku vid hiñ straunga og Riettlaata Gud, 1. Pet. 3. Hvors Utlagar vier erum vordner i Adam, og Landraadum vid hañ seker med Diofulsins Þioonkan; Þu hefur sundurklofed, ecke Vatnsfolleñ, helldur Himnana, sem med Yfertrodslu Logmaalsins voru tilbyrgder. Þu ert aadreifdur med þvi rietta Saattmaals-Bloode; sem i vorn Skijrnar Saa er wtruñed oss til Riettlætis og Helgunar. Þu stoore Hertoge Guds Heilogu Þusunda, Þu hefur fyrer þijna H. Skijrn flutt oss yfer um̃ Jordan, og slited vora Utlegd; Þu hefur fært oss fraa Egyptalande til Canaan, fraa Myrkrunum til Lioossins, fraa Diofulsins Vallde, Og sett oss i þitt Rijke, Col. 1. Siaae hier nu Christner Meñ, hvad miked oss Skijrneñ gagnar, Og þoott Gud rate adra Leid iñ i þad Fyrerheitna Landed med þeirra Saaler, er hañ sialfur burt kallar aadur eñ þeim þessa Meals auded verdur, Þa er audvitad hier af, Hvad myklu svoddañ Guds Raadstofun orkar, Til vorrar Saaluhiaalpar: J faam Ordum ad segia; Hun er þad Fyrsta Port til Saaluhiaalpareñar. Endurlausnareñ kallar sig Dyr Saudaña, Joh. 10. Hier verdur hañ allra fyrst aa Veige fyrer ollum þeim, er sijdañ eiga Lijfsins Veg ad gaanga iñ i Guds Dijrdar-Rijke, Og hun er hin Fyrsta Trappa til Andlegs Lijfs, so sem hiñ Lijkamlege Gietnadur til þess Holldlega. Vier erum i Skijrneñe Endurgietner, Þvi Paulus segier: Ad vier svo marger, Sem skijrder erum, Vier hofum Jklædst Christo, Gal. 3. Eñ aptur segier hañ, 2. Cor. 5. Ad ef nockur er i Christo, Þa sie hañ Nij Skiepna, Og fyrer þessa Nija Skiepnu bijr Christur i vorum Hiortum, Eph. 3. Fyrer hana kollunst vier Guds Mustere, 2 Cor. 6. Fyrer hana verdum vier iñplantader aa hid saña Vijn-Tried, Joh. 15. JEsum Christum; Fyrer hana heitum vier Limer Christi Lijkama, 1. Cor. 12. Vier hofdum i Falle vorra Fyrstu Forelldra mist hid saña Riettlæte, So ad vorar bestu Athafner voru eige betre i Guds Auglite, eñ Nidlags Fat, Esa. 64. JEsus hefur bætt vort Raad med sijnu Riettlæte, Eñ þad kuñe ecke þeim til ad reiknast, sem voru Guds Ovuer, Þvi hefur hañ i Skijrneñe Endurfædt oss og giort oss Guds Born af Diofulsins Bornum, svo hañs Eingieteñs Sonar Dijrdarfulla og yfergnæfañlega Riettlæte yrde tilreiknad hañs Brædrum, Eñ ecke Andskot-

alls

ans Limum. Þad er ecke um̄ Skor fram̄, ad DRotteñ segier vid Johañem, Laat Þu
So Vera ; Þañeñ Byriar Oss Allt Riettlæte Upp Ad Fylla. Ad Christur þyrfte
ecke siña vegna ad skijrast, Er kuñugra medal vor eñ um̄ þurfe ad tala, Þvi hvorneñ kuña
Meñ ad skygna Glased, eda Soolena biartare ad giora? Helldur er Christur, skijrd-
ur svo vel sem um̄skoreñ, uppa þad, ad hañ helgade Sacramenteñ, Og forþienade oss
Arfstoku Guds Barna fyrer þau somu. Christur var ad soñu alltijd vort Riettlæte,
Þvi Gud sende Soneñ i Heimeñ, ad hañ vort Riettlæte yrde. 1. Cor. 1. Hañ er ordeñ
Bølvan fyrer oss, Ad vier yrdum Guds Riettlæte i hønum, Gal. 3. Hañ er Jehova
vort Riettlæte, Jer. 23. Og þetta Riettlæte hefur vor HErra med sijnum allra Helg-
asta Dauda oss wtvegad; Eñ hier vantade þad Medal, med hvoriu oss skyllde þetta
Riettlæte tilreiknast, so þad kyñe a oss ad hrijna, Hvort eg segie Skijrnena ad vera, Og
fyrer Skijrnena Endurgietninguna, Þvi erum vier og i hañs Dauda skijrder, Þvi trwe
eg þess fastar sem St. Paull helldur styrker mig i þeirre Trw, Er hañ segier, Tit. 3. Ad
hañ hafe oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Vatns-Saaeñ og Endurnijungar
H. Anda, Hvorium hañ hefur nooglega wthellt yfer oss, svo vier Riettlætter fyrer hañs
Naad, yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs epter Voneñe.

So er nu vor Skijrn bygd a Christi Allra Helgustu Skijrn, Eñ af vorre Skijrn
fram̄kiemur Riettlætingeñ fyrer Gude, Sem er Fyrergiefning Syndaña. Þessu sijn-
est mier ad Fadereñ lijse, Þegar vor Brooder, Sem oss er ad øllu lijkur, ad Syndeñe
undañtekeñe, Þegar hañ stie upp wr Añe Jordan, Segiande: Þesse Er Miñ Elskuleg-
ur SOnur J Hvørium Mier Velþocknast. Til hvors er þiñ Sonur i Heimeñ kom-
eñ Naaduge Fader? Synduga Meñ Saaluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Þvi hefur
hañ i siñe Skijrn allt Riettlæte uppfyllt? Til ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til
Ydranar, Matth. 9. Þvi lier hañ Skijrnena vera Jñgaang sijns Kieñemañlega Em-
bættis? Þvi hañ villde hun yrde vor Jñgaangur til hiñs Andlega Kieñemañskapar.
Þvi er HErrañ af sijnum Þienara skijrdur, Skapareñ af Skiepnuñe, Gud af Mañen-
um, Sooleñ af Morgun-Stiørnuñe, Hiñ Heilage af Syndaranum, Meistareñ af Lære-
sveinenum? So ad þu fyrer þessa og alla adra hañs Forþienustu, giorder Synduga
Meñ þijna Þienara, Þijnar Skiepnur, þijns Sonar Læresveina verduga og hæfelega i
hañs Nafne ad fram̄kvæma a ødrum sijnum Lijkum þetta sitt Eyrende, og ad skijra med
Vatne eins og Johañes; Þar DRotteñ sialfur vill med Anda skijra. Þetta hefur
hønum þocknast fyrer sialfañ sig ad wtrietta, J hvørium þu hefur alla þijna Velþockn-
an. Muntu þa hafa Oþocka a þeim, Sem hañ ecke skam̄ast sijn, Brædur ad kalla
fyrer somu Skijrn? Ef hañ hefur i siñe Skijrn allt Riettlæte uppfyllt, Munt þu þa
gaanga i Doom vid Raanglaatañ, Sem i hañs Dauda er skijrdur? Ecke er þad ætlan-
de til þiña heitu Myskunar Ydra, Sem giefed hefur oss Soneñ þegar vier vorum eñ þa
þijner Ovíner, Rom 5. Ad þu muner ecke giefa oss alla Hlute med honum, Rom. 8.
Þar hañ hefur i Endurgietningar Laugeñe giort oss ad þijnum Bornum, Þar fyrer

Vegsomum vier þijna Guddoomlega Hætign i bliwgustu Audmykt vors Hiarta, Eñ nu i Dag standande i þijnu Auglite, med þijns Pienara St. Peturs Ordum, Af hañs Fyrra Pistels 1. Cap. Segiande: Blessadur sie Gud og Fader, DRottens vors JEsu Christi, Sem af siñe mikillre Myskuñseme hefur Endurgieted oss til lifande Vonar fyrer Uppriſu JEſu Christi fra Daudum, til þeirrar Arfleifdar sem ecke kañ ad skiemast, Ecke saurgast og ecke ad rotna, Hvor oss er ætlud a Himnum. Hvorneñ Madur sie epter Holldlegu Edle, Pad siiner oss St. Paall a þeim sem ad ongvu nijta sijna Endurfædingu, og ecke hyrda um hana ad endurnija. Uñ Skilningeñ talar hañ, Ad Holldsins Vitsmuner sieu Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Um Viliañ, Ad Hollded gyrnest i moote Andanum, Gal. 5. Um Gyrndernar, Ad þær strijde i moote Saaluñe, 1. Pet. 2. Poott ad þesse Vanheilsa Saalareñar verde nu allrei fyllelega læknud so leinge vier lifum i þessu Hollde, So sem Paulus þad nooglega vottar, med mikellre Harma-Klogun yfer sialfum sier, Rom. 7. Pa samt verda vorar Saaler i Skijrneñe fyrer Verkan H. Anda tilbwnar til ad mootstanda þvi Illa, Og vorer Limer til Riettlætesins Ibwdar, Epter þeirre Mæling sem ad þetta Forgeingelega kañ ad þola, So ad þegar H. Ande straffar i oss Syndena, Uppvekur Trwna, Efler Poleñmædena, Styrker Vonena, Kveiker Elskuna til Guds og Naungans, Añadhvort fyrer Ordsins Heyrn, J hvoriu hañ bijr, Edur og fyrer Gudrækelega Panka, Pa gietur sa honum Samsiñt og auked sijna Endurnijung, Sem honum ecke mootstendur, Añadhvort med Hyrduleyse, Pverwd edur sialfskapadre Vantrw, Hvor ad soñu eru voru Vallde, so sem allt hid Illa, Eñ ecke Trweñ, Hvor ad er Guds Verk, Joh. 6. Og segier vor Endurlausnare oss allra best Greinarmun a millum þessara Tveñslags Folcka, Peirra sem nockur, Og þeirra sem eingeñ Not hafa siñar Endurfædingar, Joh. 15. Eg em þad saña Vijntrie, Eñ Fader miñ er Vijngards Madureñ, sierhvorn þañ Kvist sem ecke ber Avoxt, mun hañ burt-taka, Og hvorn þañ sem Avoxt ber, mun hañ hreinsa, Ad hañ bere meire Avoxt. So verdum vier nu i Skijrneñe Endurnijader til goodra Verka, Hvad Paulus vottar, Rom. 6. Vier erum jardader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, Ad lijka sem Christur er uppriseñ fra Daudum fyrer Dijrd Fodursins, so eigum vier ad ganga i Endurnijungu Lijfdagaña. Pañeñ verdum vier nu i Skijrneñe andlega Endurfædder, Riettlætter og Endurnijader, Og þoott ad vor Goodverk, Ef nockur væru, sieu Ofullkomeñ, og ecke i sialfum sier betre eñ margra Heidingia, Pa samt lijka þau Gude betur, Pvi þau framkoma af þeim sem i Skijrneñe eru Guds Born ordner, og Riettlætter i heilagre Vatns-Laug fyrer þañ Fullnad sem Gyde er gollden i Christi saklausum Dauda, Eñ oss tilreiknadur fyrer Endurfædinguna. Jeg fæ mier ecke til Orda um þa sem þar fyrer utañ eru, 1. Cor. 5. Gud veit þad sialfur sem Mañeñ skapad hefur, Af hvorium Krapte verkast i þeim þær Dygder, sem oss munde torsookt epter ad breita, Og hvort Alit þær hafa i Guds Dijrdarfulla Auglite, Er honum kuñugast sem er Doomare alls Holldz. Jeg þacka alleina hañs Al-

maatt-

maattugre Goodgyrne, Ad hañ hefur oss sem aa hañs Nafn trwum, Þeña Veg tilbwed; Og opeñberad til Saaluhiaalpareñar, og fæ mier Orsøk hier wt af ad þeinkia, Hvad miklu Obærelegra oss mune verda aa Doomsins Deige, helldur eñ þeim, Ef vier afrækium þessa Guds Naad, Og gøngum ecke verduglega þeirre Kallan, Hvar iñe vier erum kallader. Draged ydur þar fyrer ecke sialfer aa Taalar, Br. M. So sem mundum vier þar fyrer meira Frelse hafa til ad syndga, Ad vier erum Endurgietner. Þesse Guds Goodgyrne aa ad Krossfesta i oss hiñ gamla Adam, Eñ ecke ala hañ aa Eitre Syndareñar. Hun er af Gude skipud til ad temia Hollded, Eñ ecke til þess ad rækia þad so mieg, ad þad fremie sijnar Gyrnder, Rom. 13. Þad er noogu stoor Velgiørningur sem Gud oss giorde i Skijrneñe, Ad hañ tilbioo so vorar Saaler daudar i Syndunum, Ad H. Ande kyñe i þeim ad lifa og verka Gudrækelegt Athæfe, Þoott ecke heimtum vier þad af honum, ad hañ laate sier þad allt þocknast sem voru Hollde gott þyker. Skulum vier þa i Syndunum blijfa svo ad Naaden yfergnæfe? Segier Paall, Rom. 6. Fiærre sie þvi segier hañ, Vier sem dauder erum Syndeñe, Hvørneñ skylldum vier framveigis i heñe lifa? Ef vier erum iñplantader Lijking hañs Dauda, Þa munum vier og verda Lijking hañs Upprisu segier hañ. Hvør St. Paals Ord eg so skil, Ad fyrst Gud hefur deydt Afl Syndareñar i oss med sijns Sonar Dauda i Skijrneñe, Þa hafe hañ giefed oss so mikeñ Anda-Krapt ad vier gietum uppрised af Dauda Syndaña, so þær ecke drotne framar i vorum daudlegum Lijkama, Og være ecke so, ad nockud af þessu stæde i voru Vallde, Sem Endurfædder erum, Munde Ritningeñ ecke so tijdt skipa oss ad deyda hiñ gamla Mañeñ, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, Edur hvad er þad Paall segier? Rom. 12. Samlaged ydur ecke Heime þessum, Helldur umмynded ydur med Endurnijung ydvars Hiarta. J øllum þvilijkum Greinum Ritningareñar sie eg ecke añad eñ ad Guds Ande vorkieñe ecke Endurfæddum Mañe ad þocknast honum. Swo er þa Meiningeñ, Jafnvel þoott ad vier i aungvañ Maata algiorder sieum, Edur kuñum Guds Løgmaal upp ad fylla, Samt hefur Gud giefed oss i Skijrneñe so mikla Krapta, ad vier gietum viliad hid Gooda, Jafnvel þoott hid Vonda lode vid oss, Rom. 7. Og þurfum ecke ad mootstanda H. Anda, eñ adhyllast Holldsins Verk. So kæred ydur nu sagt vera Br. M. Ad þier þessum Gudrækelegum Amiñingum hlijduger sieud, Og yferveged Guds Owtsegiañlega Giæsku, Sem ydur i H. Vatns-Laug hefur Andlega Endurgieted, Ecke til þess ad þier liaaed Limu ydar Raanglætenu til Jbwdar, Helldur ad þier helged Gud i þeim so sem nijar Skiepnur. Alijted þañ Sooma sem Guds Fødurleg Giæska hefur ydur i Skijrneñe veittañ, Þar ydur er Makt giefeñ Guds Børnum ad vera, Joh. 1. Hia hvørre Sæmd ad allrar Veralldareñar Tign og Herradæme er Endeme ad reikna, Gal. 3. Þier erud i Skijrneñe Christo Jklædder, Hvørsu meiged þier þañ fagra Skrwda nijda og ata med saurugum Holldsins Verkum? Vited ad Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2. Cor. 6. Hvørsu meiged þier þa Tveimur so Olijkum Herrum þioona? Þier erud i Skijrneñe Christi

Limer

Limer vordner, vared ydur þad þier giøred ecke Christi Lime ad Satans Limum, 1. Cor. 6. Þier erud i Skijrneñe vijgder og helgader til ad vera Guds Mustere, Eñ þañ sem þad saurgar vill hañ straffa, segier Paulus. Þier erud iñplantader æ hid saña Wijn-Trie Christum, Joh. 15. Siaed til ad þier ecke verded afhøggner og i Elld kastader. Allt hvad Gud hefur ydur Gott giort i Andlegum Efnum, ad hañ hefur giefed ydur siñ Eingieteñ Son; Ad hañ hefur ydur fyrer hañ opeñberad siñ Vilia, Ad hañ liet hañ Hwngra og Þyrsta, Ad hañ liet hañ afklædast, Hwdstrijkiast, Hrækum og Sløgum Ogudlegra Maña undergiefeñ, og med Þyrnum Coronadañ verda, Og uñ sijder þola hiñ smæanarlega Krossens Dauda, Ad hañ hefur tilreiknad ydur Rænglætum hañs blessada Riettlæte, Sem alleina fyrer hønum gyllder, og wtsendt siñ Anda i ydar Hiørtu til eins Pantz og Iñsiglis þar uppæ: Þad allt samañ so miked sem þad er, Sem er þo so miked, ad Himen og Jord eru ecke Heyſtræs Virde þar hiæ ad reikna; Þad allt samañ segie eg, er oss i Skijrneñe giefed, Þvi er þad Skom̃ vor, ad afrækia þessa stooru Guds Næd og gænga i Lid med Fiandanum og hañs Arum, Sem øngvu launa þa Pioønustu er Meñ veita þeim, Nema eilijfre Kvøl og Pijslum i þvi Dijke sem vell-ur af Ellde og Breñesteine, Apoc. 19. Hvar fræ oss og øll sijn Børn vardveite goodur Gud i Nafne JEsu Christi, AMEN.

# Fyrsta Suñudag i Føstu.

Gudspialled, Matth. 4. Cap.

Þañ Tijma. Þa var JEsus leiddur af Anda æ Eydemørk, uppæ þad ad hañ yrde freistadur af Døflenum. Og þa hañ hafde fastad Fiørutyger Daga, og Fiørutyge Nætta, Hwngrade hañ sijdañ. Og Freistareñ gieck til hañs, og sagde: Ef ad þu ert Guds Sonur, þa seig þu ad Steinar þesser verde ad Braudum. Eñ hañ svarade og sagde: Skrifad er; Madureñ lifer ecke af Einusamañ Braude, helldur af sierhvøriu Orde, þvi sem framgeingur af Guds Muñe. Þa took Døfulleñ hañ med sier i Borgena Helgu, og sette hañ uppæ Musteris Bustena og sagde til hañs: Ef ad þu ert Guds Sonur, fleig þier hier ofañ af, Þviad skrifad er: Ad hañ muñe blooda Einglum sijnum uñ þig, ad æ Høndum bere þeir þig, so ad þu steyter ecke Foot þiñ vid Steine. JEsus sagde til hañs: Eñ aptur er skrifad; Eige skalltu freista DRottens Guds þijns. Og eñ aptur flutte Døfulleñ hañ med sier uppæ eitt miøg ofurhaatt Fiall, og sijnde hønum øll Rijke Verålldareñar og þeirra Dijrd, og sagde til hañs: Allt þetta mun eg giefa þier, ef ad þu framfellur

fellur og tilbidur mig. Þa ſagde JEſus til hañs: Far i burt fra mier Andſkote, Þviad ſkrifad er; DRotteñ Gud þiñ ſkalltu tilbidia, og hønum einum þioona. Þa forliet Diøfulleñ hañ; Og ſia þu, ad Einglar komu til hañs, og þioonudu hønum.

## Exordium.

I 1. Sam. 17. Verdur oſs kieñt uñ David, Er ſijdañ vard Konungur i Iſrael, Og Riſañ Goliath, hvorſu þeſſe var af hinum ad Velle lagdur med einum Slaungu Steine. Þeſſe Frækleikur Davids var ſo miøg agiætur, Ad Kviñurnar geingu wt af Iſraels Borgum, og ſwngu: Saul vañ Sigur a Þuſund, Eñ David a Tiju Þuſund, 1. Sam. 18. Nu þoott ad þetta Afreks Verk Davids ſie merkelgrar Hrooſunar verdugt, Þa hefur þo Sonur Davids, Matth. 1. HErrañ JEſus Chriſtus, Eitt añad miklu meira uñed a hinum helvitſka Goliath Andſkotanum, Sa ed brixlade Fylkingum Guds Lifanda æ ſijdañ hañ ſveik vora Fyrſtu Forelldra i Paradijs: Þar hañ hefur Høggormſins Høfudi ſundurbroted, Gen. 3. med þeim Steine, Sem Uppbyggendur hafa forſmad, Þad er med ſialfum ſier: Þvi ſiaed, Hier er meire eñ Goliath, Hañ var eirn Madur. Satan er eirn Diofull. Þoott Goliath være Ogurlegur, þa var hañ allur þar ſem hañ var ſiedur. Satan er ein Hamhleipa, Svo hañ bregdur ſier jafnvel i Liooſſens Eingels Lijke, 2. Cor 11. Goliath fylgdu ad ſoñu morg Þuſund Philiſtæaña, Eñ Andſkotanum fylger Oflyande Her. Þridjung Stiarnaña dregur hiñ faarlege Dreke i ſijnum Hala, Apoc. 12. Og mikla Sveit Ogudlegra Maña, Sem hañs Merke fylgia. Þeñañ ſterka Hervijking hefur JEſus Sonur Davids ſigrad, og afklædt hañ ſiñe Hardneſkiu og ſijnum Vopnum a hvor hañ treyſte, Luc. 11. Hafe nu Kviñurnar i Iſrael prijſad David med þeſſum Dijrdar Dikt, fyrer þañ Sigur, Er hañ vañ a Riſanum, Þvi ſkylldu þa ecke Zions Dætur, Sem eru Guds Andlegar Meyar ſijngia og ſpila i ſijnum Hiortum fyrer þeirra Konunge, Segiande: David vañ Sigur a Tiju Þuſundum, Eñ JEſus Sonur Davids a Oteliande Þuſundum Þuſunda, A margra Þuſunda Høfdingia, A Þuſund Viela Meiſtara, Og hefur ſijnar H. Þuſunder af hañs Vallde Herteked. Medal añara DRotteñs vors Frægdar-Verka, heyrum vier i þeſſa Dags Evangelio Eitt Einvijge, Millum þeſs allra Beſta og hiñs allra Verſta, Millum þeſs Stoora Michaelis, og hiñs gamla Dreka ſem kallaſt Diøfull og Andſkote, Ecke a Himnenum, ſvo ſem Apoc. 12. verdur uñgieted, Sem er Guds Hæſæte, Helldur a Jorduñe, Hvoria Satan kallar ſitt Rijke. Og ſøkum þeſs, ad þetta Huggunarrijka Efne verdur a þeſſum H. Deige predikad i Chriſtnum Søfnudum medal vor, Þa vilium vier þad nockud framar yfervega, og af vorum Hertoga læra, hvorneñ vier eigum Holldſins, Heimſins og Andſkotans Freiſtingum i moote ad ſtanda. Eñ ſtyrk oſs hier til DRotteñ med Naad þiñe fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Margt er øll Viela-Brøgd Satans upp ad telia; Eñ Gud næde oss, Fleire mætt-
um vier þeckia, helldur eñ ad vier hyrdum um̃ ad varast. J þessu H. Evangelio
heyrum vier, ad hañ med Prefølldu Athlaupe rædur a Lausnarañ. J Fyrstu
segier hañ: Ef Pu Ert GUds SOnur, Pa Seig Pu Ad STeinar Pesser Verde Ad
BRaudum: Med hvoriu ad lijklegt er, ad hañ hafe viliad reyna, Hvort hañ være hiñ
Fyrerheitne Messias edur ei, Pvi hañ visse ad Messiæ voru aller Hluter under Fætur
laader, Ps 8. Og hañ var HErra og Erfinge allra Hluta. Ef Pu Ert GUds Son-
ur segier hiñ Vonde: Pad mæ ecke satt vera sem þu heyrder vid Jordan, Ad þu Guds
Sonur værer, Par hañ lætur þig Hwngra; Hvørsu ægiætlega hefur Gud sijna Vel-
þocknan i þier? Ad hañ hefur þig yfergiefed hier i Eydemørku a medal Villu-Dijra,
Marc. 1. Og ef so vera kañ ad hañ reyne þig med soddañ Moote, Pa bind Enda hier a,
og reyn aptur hvørsu Sañsøgull og Halldeñordur hañ er, Og Seig Ad Steinar Pesser
Verde Ad Braudum, svo þu neyta meiger. Jeg efast ecke um̃ ad Holld og Blood mu-
ne og þvilijkar Fortølur hafa fyrer þeim, Er mootdrægt eiga i Heimenum. Gud hefur
lofad þad hañ vilie miñ Fader vera; Hvorneñ er eg þa vordeñ ad Hiæ-Barne? Hañ
segier ad Lijfed sie meira eñ Fædslañ og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ, Matth. 6. Nu
hefur hañ mier hvortveggia i fyrstu giefed, Pvi fæ eg þa ecke eitthvad þessu til Vidur-
halldz? Betra være mier þad eg hefde hvørugs hluttakande vorded, Helldur eñ eg a
hvørutveggia Naud lijde. Ef eg er hañs Sonur, Pvi giefur hañ mier þa Stein fyrer
Braud, Edur Høggorm fyrer Fisk, Luc. 11. Par hañ hefur þo sagt sig ad vera Fødur
Myskunsemdaña, 2. Cor. 1. Eñ eg sem vondur er og mørgum Syndum hladeñ, vill-
de þad ecke giøra vid mitt Barn. Petta predikar Holld og Blood, Pegar þad er ecke
fyrer Augunum sem eta skal. Hvad skal hier til segia, Christeñ Madur? Pad sem
JEsus Andskotanum svarade: Madureñ Lifer Ecke Af Einusamañ Braude; Helldur
Af Sierhvøriu Pvi Orde, Sem Framgeingur Af Guds Muñe. Med þessum Ord-
um hefur ecke Christur sagt þier, ad þu skuler burtkasta allre Ahyggiu fyrer Lijkamlegre
Næringu, Ecke lofad ad giefa þier þitt Braud, Nema i Sveita þijns Andlitis, Gen. 3.
Ecke heited ad Hrafnarner skule færa þier Fædslu, 1. Reg. 17. þegar þu sefur med hinum
Lata; Helldur svarade Frelsareñ Andskotanum wt af med þessu Moote, og kiende þier
under eins, Ad jafnvel þo hañ liete þig lijda Brest a Lijkamlegre Farsælld; Skyllder
þu ecke ætla ad hañ mune eige kañast vid þitt Faderne, So leinge sem þu hañ Ottast, Og
ræner hañ ecke siinum Heidre; Pvi hvørn þañ Son sem Fadereñ elskar, Pañ agar hañ,
Hebr. 12. Ef Gud vill ad eg life, Pa giefur hañ mier Braud til ad lifa af; Lætur
hañ mig lijda Skort a Braude, Pa vill hañ samt ad eg life i Trwñe og Voneñe.

Jeg vil bera mig epter miñe Atviñu med øllum þeim Hætte, sem Gud hefur lofad, Og
epter þvi Orde sem framgeinged er af hañs Muñe. Pockmest honum ad mitt Erfide
skule ecke blessast epter miñe tilætlan, þa veit eg samt ad hañ hefur ecke burtkastad mier
stra

strax i Daudans Hendur. Giefe Gud mier ecke Braud so eg fæ lifad, Pa lætur hañ mig deya, so eg eilijflega life. Er mier vandara uṁ eñ hañs Eingietnum Syne, Hvorn hañ liet Hwngra so hañ freistadur yrde? A eg ad læta mig þad undra, þo hañ freiste mijn uṁ Stundar Saker, Sem ecke er nema Ættleidingur? Pad sem hiner Egyptsku sogdu vid Joseph, Gen. 47. Pad sama vil eg vid miñ Gud segia: Pegar Hwngurs Naudeñ took til ad kvelia þa allt til Dauda, Pa sogdu þeir: Lat oss med voru Lijfe og Eignum vera Pharaonis Præla, Pad vier lifa meigum og ecke deya. Take Gud þad hañs er, Ef honum so þocknast, og jafnvel sialfst Lijfed, Hvort hañ sialfur gaf; Jeg vil bæde med þvi og ollu, Sem mier tilheyrer, vera hañs Præll, So eg Æfeñlega med honum rijkie, Pad vardar mig ad litlu þott hañ late mig ecke lifa af Braude, Pegar eg life af þeim Ordum, Sem frañgeingeñ eru af hañs Muñe, Ad hañ vilie ecke freista mijn yfer Megn frañ, Helldur giefa Freistinguñe þañ Enda, ad eg stadest fæ, 1. Cor. 10. Madureñ Lifer Ecke Af Einusamañ BRaude segier Lausnareñ: Ordeñ eru tekeñ af Deuteronomii Bookar 8. Cap. Par Moyses sagde vid Israels Sonu: Par fyrer hefur Gud þvijngad þig, og lated þig Hwngur lijda, Ad hañ giæfe þier Man, Hvort þu þeckter ecke og ecke Fedur þijner, So ad þeir kiendu þier þad ad Madureñ lifer ecke af Einusamañ Braude, Helldur sierhvoriu þvi Orde sem frañgeingur af Guds Muñe. Jeg er hræddur uṁ ad þetta Maal kuñe hia sumum af oss heima ad eiga. Hvad muñu þeir ed nu allvijda i Heimenum uppvaxa heyra af Fedrunum, So þeir kieñe þeim þad? Færed hijngad, Bered hijngad so ad vorar Hyrdslur fullar verde, og þar sie eingeñ Skortur i Hwsum vorum, Eñ ecke ad leita Næringar siñar epter þvi Orde sem frañgeinged er af Guds Muñe, Ecke ad læra nockud þad Soome er i, Med hvoriu þeir kuñe sialfer sijna Næringu ad wtvega, So þeir vite og meige med goodre Samvitsku segia þad þeir ete sitt tiged Braud, 2. Tess. 3. So ad þegar Skortureñ uppa fellur, Pa fara Meñ ad hnoda Braud af Steinum, Pad er af þeim Hlutum sem Gud hefur ecke þar til skickad, Og alldrei þar til ætlad, Pvi eru so marger þeir ed med Oleyfelegu og Oærlegu Moote leita siñar Næringar, og bijda ecke epter þvi ad Gud hiælpe, Bæde þess vegna, ad þeir lærdu alldrei nema Odygder af Fedrum sijnum til ad leita Brauds med, Heyrdu og uñ fæte añad tal ad, Hiñs og añars, ad þeir hafa ä Gude eckert Traust, Par þeir vita ad hañ ecke brwkar slijka Atferd til ad fæda sijna. Pegar JEsum Hwngrade, Talar Satan uñ Braud, Pvi hañ visse þad var þad hellsta sem hañ mætte gañgast fyrer. Pessa Slægs Muñe hefur Holld og Blood af sijnum Meistara lært: Pad sem hvor er giefeñ fyrer, Par uñ þeinker hañ optast, Pad sem einhvor vid þarf, Pad brwkar Satan til ad locka Mañeñ til vondra Verka: Og svo sem eirn klookur Veide-Madur, Hañ leggur þad Agn fyrer Dijred sem hañ veit þvi Lostugast þyker, Og þa þegar hañ hyggur þad hafa mesta Epterlaungun, Svo fiskar og Satan med Porfeñe, og kriddar Aaned med Vellystinguñe. Seig Pu Ad SEeinar Pesser Verde Ad BRaudum. Petta sagde hañ vid Guds Son, Og hañ lætur ecke af ad predika hid sama fyrer odrum sem eiga Guds

Børn ad heita, Jafnvel þoott þaa drage eingeñ Naudur til, Og er þvi æ verr og midur, ad honum tekst meir eñ skyllde i slijku hiaa allra handa Foolke. Jeg spyr: Hañ er uppskier hvar hañ ecke saade, Giører hañ ecke Steina ad Braudum? Hañ sem wtsijgur Hws Ecckna og Fødurlausra, Matth. 23. Under Hylmingu Laga og Riettinda, Hañ sem svijkur siñ Naaunga i Kaupum og Sølum, Hañ sem leggur Agn Onaudsynlegra og Skadsamlegra Hluta fyrer hañs Oframsijne og Faafræde, til ad laata hañ hwngraa aa hiñe vondu Tijd, Eñ feiter siaalfañ sig þar med, Sa ed iñehelldur Sveita þess er erfidar, Sa ed svijkur þañ i sijnu Erfide sem hañ elur, klæder og launar honum, Munu ecke aller þesser og þeir ed þeim lijker eru, Munu þeir ecke segie eg, giøra Steina ad Braudum? Þetta eru Krapta-Verk Andskotans, Er hañ verkar i Børnum Vantrwareñar, Med hvørium hañ stioornar sijnu Rijke, og leider margañ Einfalldañ til siñar Þioonustu. Satan apar epter Gude, Hvør ed alla Hlute giørde af øngvu, Og Satans Villdarmeñ epter Christo hañs Smurda, Hvør ed stadfeste sitt Rijke med Furdu-Verkum. Þegar Fiandeñ hefur kieñt einum ad feita sig af øngvu nema añarra Bloode, hvort ad þeim Ovørum er floted burt wr Ædunum, þa þenur hañ sig wt sem añar Jstru-Mage, Ps.73. Svo ad Faafrooder Meñ glaapa aa hañ so sem añad Furdu-Verk, og meina þad sie af Himnum komed sem hañ talar og bijdur, Jafnvel þoott eingeñ sie Hiegoome slijkur i Guds Dijrdarfulla Auglite. Ad eg nu ecke tale um þaa sem þyggia Guds Olmusu, Hvøria hañ skipar i sijnu Nafne ad giefa þeim, Er hñ virdest ad kalla sijna Limu, Eñ under Skyne þeirrar føgru Nafn-Bootar, Stela þeir, Liwga og ræna, Eru Bakmaaluger, Oþacklaater, Jllyrdter, Haadgiarner, Formæla þeim er brioota þeim sitt Braud, Og i Stadeñ þess ad sañer Guds Limer leita sier Olmusu i hañs Otta, hiaa þeim sem hañ hefur skipad ad medtaka þaa so sem siaalfañ sig, Þa fremia þesser allra Handa Skamer og Leste i hañs Nafne, Liwga vid þad og svijkia, Sveria og formæla, Uppaa þad þeir faae sijnum Odaadum skijlt fyrer Møñum. Þesser hygg eg framar øllum ødrum giøre Steina ad Braudum, Verda þo af oss aa Stundum jafnframt ødrum sem rietta Tiltølu eiga, Bordsetter i þvi almeñelega Hospitale, Sem Gud Allsheriar Konungur hefur stiptad i siñe Christelegre Kyrkiu. Munum vier þessa mikel Not hafa, Br. M. i Upprisu Riettlaatra, Ef vier giørum þad vijsvitande? Eda þykiunst vier trwer Raads-Meñ vera yfer Guds Gotze, Sem hañ hefur oss til Umraada, og ecke Æfeñlegrar Eignar feinged, Þar vier giørum aungvañ Greinarmun aa þessum, og køstum Forsorgun Guds Fataækra Lima, fyrer Andskotans Limu, Giørande þañeñ ecke Steina ad Braudum, Helldur Braud ad Steinum i þeirra graadugum Muñe, Hvørium Leyndar-Braud smackast lystelega, Eñ sijdañ uppfyllest Muñureñ med Smaa-Steina, So sem Salomon ad Orde kiemst i hañs Ordskvidum, Prov.20. Og siaalfa oss ad þeirra Hlutt-økurum i Syndeñe, Under Skyne Myskunsemeñar og goodrar Meiningar, Eñ allra hellst Mañordsvegna, Hvort oss mun þo ecke fylgia epter Daudañ, Allra sijst iñ i eilijft Lijf, Þvi þar hafa ecke Fyrerheit nema þær Olmusur sem giefnar eru i Læresveins Nafne, Matth. 10.

Þad

Pad maa vel skiliast um̃ þaa sem eru sañer Christi Lærisveinar, Takande siñ Kross uppaa sig og fylgia honum so epter. Þetta giorum vier Brædur og þykiunst vel giora, Jafnvel þoott oss meige alkuñugt Bodord St. Pals, 2. Tess. 3. Er hañ segier: Þegar vier vorum hiaa ydur, budum vier ydur þad, ad ef nockur vill ecke erfida, þa skal hañ ecke eta, Þvi vier heyrum ad nockrer gaanga aa medal ydar Oskickañlega, Giorande eckert, Helldur hnijsa faafeingelega (hvort Mark vier meigum þeckia aa nockrum vorum Olmusu-Moñum) Þessum bioodum vier segier Paulus, fyrer DRotteñ vorn JEsum Christum, Ad þeir erfide med Spekt og ete sitt eiged Braud; Eñ ef nockur hlijder ecke þessu voru Bode, Þa teikned mier þad til, og hafed ecke Umgeingne med honum so hañ skamest sijn. Um̃ hina fyrstu Freistinguna hofum vier nu heyrt þañeñ talad, Eñ þegar Satan merker ad honum tekst ecke ad locka JEsum med Efasemeñe, reyner hañ til a hiñ Veigeñ, og vill freista hañs med Oftrauste. Noogu vel talade Satan um̃ sialfañ sig, Job. 1. Ad hañ sagdest hafa geinged um̃ kriing, Þvi fyrer utañ þad hañ geingur um̃ kriing sem greniande Leon, Leitande ad þeim sem hañ kuñe upp ad svelgia, Þa er honum þesse Atferd nærsta tom, Er hañ brwkar hier vid Christum, ad fara um̃ kriing og leitast vid aa allar Sijdur, Eins og eirn slægvitur Hertoge þa hañ um̃situr eina Borg, eñ Bæarmeñ hafa med ollum Lids-Afla fyrerbwest i þeim Stad sem þeir ætludu sier mestrar Hættu Von, Þa fer hañ ad þeim Ovorum i kriing, Og rædst þar til sem eingeñ er Vorn fyrer. Svo giorer Diofulleñ, Giete hañ ecke slækt Mañeñ i Hyrduleyse, Leitar hañ til med ofmiklum Ahuga, Ef ecke i Mistrauste, þa med Oftrauste, Ef ecke med Hofmood, þa med Hugleyse, Ef ecke i Heimsku, þa med Siervitsku; Og so framveigis.

Ef Þu Ert Guds Sonur, Þa Fleig Þier Hier Ofañ Af. Alkuñugt er oss Br. M. Hvad margur er aa medal vor sem Ovarlega fer med sitt Lijf, so sem være þad eirn Hlutur, Er hañ kyñe strax aptur ad kaupa eins og adra Voru: Svoddañ Apaskap kalla Meñ Hugprijde, og hvor Daareñ metst vid añañ, Svo sem være þad goodur Hlutur. Ad spara ecke Lijf sitt fyrer Guds Saker, Þegar hañ vill þad so hafa, og Meñ hafa Guds Ord fyrer sier, ad þad sie hañs Vilie, Þad er hiñ aagiætaste Hlutur og Elsku-Merke til Guds, Þvi eingeñ elskar eirn meir, Eñ hañ giefe sitt Lijf wt fyrer hañ, Joh. 15. So er þad og kostulegt, Ef nockur vogar Lijfe sijnu, Lande og Lijdum til Varnar, Þvi þad er Kiærleikans Verk, Gud hefur þad og samþyckt, og boded allvijda hiaa sijnu Foolke Israel. Og eg sie ad Lausnareñ ecke Ovirdte Hundrads-Hofdingiañ, Þoott hañ Strijds-Madur være, Matth. 8. Eige helldur vijsade Johañes Strijds-Moñunum fraa siñe Skijrn, Helldur gaf þeim Bodord, hvorneñ þeir lifa skylldu i sijnu Stande, Luc. 3. Eñ þad skiedur tijdast Br. M. ad þeir sem eru Diarfaster i Heimskuñe, Þeir eru Ragaster i þessum Hlutum, Og kiemur þad ecke til af Hugprijde, helldur af Oviturleik og Einræde, Af þvi Gud hefur vardveitt þa so tijdt i Haaskanum, Þa meina þeir ad þad skule alltijd eins gaanga. Eñ hvor vill skyllda hiñ Almaattuga til þess? Hañ vill ecke laata trwa sier til þeirra Hluta, Sem hañ ecke lofad hefur. Gud hefur lofad od

hañs Einglar bere oss aa Hondum sier, Ps. 91. Eñ ecke nema aa Vegum vorum. Þvi
Orde stal Diofulleñ undañ, Þa hañ talade vid Christ, Og maa skie hañ stele þvi og yr
þijnu Hiarta, Þa hañ gyller fyrer þier Haaskañ, Og þu meinar þad sie allt þiñ Vegur,
sem þier hefur Einusiñe fleytst yfer, Slijkt er ad freista DRottens, hvør Synd ad hefur
hiñ versta Vitnisburd i Ritninguñe; Eñ ef þu i burtu deyr midt i þessare hrædelegu
Synd, Hvad mun þa af Saaluñe verda? Laat þvi ecke locka þig af fiflslegre Akiefd
edur faanijtu Hroose, (Sem þo er ecke nema i Heimskra Muñe) til ad lijda Skipbrot aa
Saalu þiñe, Fyrer hvoria Guds Sonur er daaeñ, Rom. 14. Nu þoott Daaraskap-
ureñ sie stoor hiaa morgum i þessu, þa er hañ þo ecke miñe i odrum Efnum. Satan visse
ad skrifad var uñ Messiam: Snart mun saa Drottnareñ koma til sijns Musteris,
Mal. 3. Hefur honum maatt þvi lijklegt þykia, ad ef hañ þættest Messias vera, þa mun-
de honum hier flestallt leyfast. Þegar Gud hefur nockrum stoort Umdæme i Hendur
feinged, og sett hañ uppaa þad haaa i siñ Stad, Þa er hætt vid ad Holld og Blood meige
ad honum hvijsla; Hier kañ mier eingeñ ad granda; Og hvad jeg adhefst, Þad maa
gott þykia. Fyrer þessar Satans Umtolur hefur margur Haalseñ broted. Og af
þvi hañ munde ecke til þess Stadar, Er hañ var tekeñ fraa, Sem er Leyr Jardareñar;
Þegar honum var lypt upp i Hædena, Þa vard Falled hærra eñ hañ varde, so ad þad
Leyr-Kiered, sem Ovarlega var medfared, datt i Smaa-Mola. Þegar Meñ eru i Gu-
ds Stad setter; Þa þeinkia þeir lijtt þar til, ad þeir eru af sama Efne giorder og adrer
Meñ. Þetta hefur morgum komed til ad ætla ad hañ være Guds Jgyllde, Þegar hañ
ried fyrer odrum, so ad nockrer hafa lided þad Hræsneñe, ad setia þad haaleita Nafn
uppaa eina Vatns-Boolu, Hvar uñ Caligula, Nero, Domitianus og adrer bera ljoos-
ast Vitne. Þar verdur ecke aa moote mællt, ad Madureñ er eitt Drambsamt Dyr,
Jer. 17. Strax sem Luckuñar Svip-Vinde hefur brugded vorre Molld og Osku i
Lopted upp uñ Stundarsaker, Þa vilia sumer Meñ vera eins og Rik i allra Maña
Augum, Giætande ecke þar ad, ad þegar Vedrenu slotar, Þa fellur Dupted aa Jord-
ena, Hvadañ þad kom, So þeir sem blinder urdu i þessum Þit, verda heilskigner aptur,
og troda þad under Footunum, fyrer hvoriu þeir hræddust litlu aadur. Hier vid kañ-
ast David Konungur, sem bæde aa sier og sijnum reint hafde Luckuñar Mislynde, Er
hañ segier, Ps. 1. Ad þeir Ogudlegu sieu eins og Rik þad, hvoriu Vindureñ feiker, þar
fyrer kuñe þeir ecke ad standast i Doomenum. Fyrer þvi, Hafe Gud nockurn haatt
settañ, og giort hañ ædre odrum Moñum, Er þad i Vijsdoome eda i Yfervallde, Er þad
i Aud og Rijkedæme, Er þad i Lijkamans Styrkleika, Edur odru Atgiorfe, þa þeinke
hañ med sier, ad hañ aa ecke þar med ad hondla, so sem honum siaalfum lijkar, helldur so
sem Gud hefur boded, og hafe fyrer Augum sier þad Paall segier: Hvad er þad Madur,
ad þu hafer þad ecke þeiged? 1. Cor. 4. Þier erud Guder segier David, Ps. 82. Eñ þo
skulud þier eins og Meñ deyia. Tokum oss Ordsok þar af ad þeinkia, ad þoott Gud
hafe sett uppaa oss nockra Lijking siaalfs sijns, edur Skugga siñar Tignar i þvi ad raada
fyrer

fyrer odrum, Pa kiemur þo sa Dagur um̃ siider, ad Meñ skulu standa Reikningskap af þeirra Raadsmeñsku, Luc. 16. Pad var vel tilsunded sem Tals-Madur þeirra i Scytia sagde vid hiñ Stoora Alexandrum: Ef þu ert Gud, Pa ætt þu ad medbijta Moñunum þijn Giæde, Eñ ecke ad taka þeirra fra þeim. Ecke var Guds Einget-num Syne Omættugt ad stijga ofañ af Musteris Busteñe, Eñ hañ villde ecke giora Kraptaverk Andskotanum til Epterlætis, Eige helldur til Skiemtunar Herodi edur hañs Villdarmoñum, Luc. 23. Hañ giorde sijn Dasemdarverk alldrei sorgiefens, helldur Moñunum til gooda; Hañ læknade Siwka, Act. 10. Mettade Hungrada, Joh. 6. Uppvakte Dauda, Joh. 11. Snere Vatne i Vijn, Pegar medþurfte, Joh. 2. Pu sem af Gude hefur, fram̃ yfer adra miked þeiged, Gack i hañs blessud Footspor, Og ef þu villt sijna þijna Yferburde i nockru, Pa gior þad til Gagns og Nota þijnum Brædrum i Heimenum, og lat ongvum Illa lijda af Guds Gafum fyrer þijna Van-brwkun; Eñ sijn ecke Fordilld þijna þar med, Andskotanum og vondre Verolldu til Athlaaturs og Augna-Gamans. Nu hofum vier þañeñ heyrt þessar Tvær Freistingar.

Eñ þegar Satan fiñur ad hañ ecke neitt orkar med Efasemeñe edur Oftraustenu, med hvorium hañ plagar Almeñelega ad pretta Mañeñ i Heimenum, og eru hañs Dag-legar Veidebrellur, Pa tekur hañ til þess sem hañ visse ad sterkast var, Sem er Oleifeleg Gyrnd til Audæfa og Metorda. Texteñ segier ad hañ hafe fært HErrañ uppa eitt of-ur haatt Fiall, Og sijnt honum þadañ oll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd; Sagt sijdañ: Allt Petta Vil Eg Giefa Pier, Ef Pu Fellur Fram̃ Og Tilbidur Mig. Hier var æred miked i Bode E. G. B. Og er þad Maala sañast, ad margur hefur loted And-skotanum fyrer Miña. Miña var þad sem Balaam vañ til þess ad hañ villde formæla Israel, Num 22. Miñe var Gull-Tungañ og Kaapañ og þeir 200. Siklar Silfurs, sem Achan miste Lijfed fyrer, Jos. 7. Eige var Naboths Vijngardur so mikels Vir-de, Sem Achab tapade fyrer Lijfenu, Rijkenu og allre siñe Velferd, 1. Reg. 21. Eige var Hatijda Klædnadureñ og þau Tvo Centener Silfurs, sem Gezi laug wt af Naa-man hinum Syrlendska, 2. Reg. 5. Miked ad reikna hia þessu, Og hvad voru þeir 30. Silfur-Peningar sem Judas keypte, Matth. 27. Fyrer Skapara Himens og Jardar? Hvorsu næm ad sie þesse Andskotans Snara til ad veida syndugar Saaler, Par eru O-tal Dæme uppa. Eñ giæt ad þeim Ordum Christeñ Madur, sem þiñ Endurlausnare segier: Hvad gagnar þad Mañenum, Po hañ eignest alla Verolldu, Eñ lijde Topun a Saalu siñe, Matth. 16. Eg medkieñe ad Gotz og Peningar eru stoor Guds Ga-fa, Pegar þau eru af Guds Hende medtekeñ, Eñ ecke hripsud af Muñe sijns Naunga, Hins Fatæka, Eckiuñar og þins Fodurlausa; Eñ eige eru þau þess verd, ad falla a Knie fyrer Andskotanum, Til þess ad eignast þad sem ecke er nema til Pijngsla, og til ad þrælka fyrer þeim Omaga sem ecke hefur Vit a hvad vid hañ er giort, Til ad þioona ein-um Nijdinge, sem alldrei sadde siñ Pienara, Hvad þeir þo aller giora, sem añadhvort af-la Fiarens med Rangendum, edur festa sitt Hiarta þar vid. Hin grimu Villudijr-

eñ

eñ aa Morkeñe hafa siñ vissañ Skamt, og þau taka ecke Braudena nema hwngrud. Eñ Grædge hiñs Fiegiarna tekur alldrei Enda, Hañ etur alltijd, Og er þo alltijd sollteñ; Hañ Ottast ecke Gud, og eige skamast hañ sijn fyrer Moñunum, Hañ þyrmer ecke Fodur nie Moodur, Hañ underþrycker Eckiuna og ræner hiñ Fodurlausa, Hvoriu eckert er herfelegra Meistara-Sticke Andskotans, Eñ ad horfa uppaa eirn Guds Vesæling, sem Naudstaddur er, og slijta þañ Bita Brauds fraa hañs hwngrudum Muñe, Sem hiñ Millda DRotteñ Hønd hefur honum riett til ad sedia hañ aa. Pad er satt sem Paall segier, Ad Fie-Gyrndeñ sie Root alls hiñs Jlla, 1. Tim. 6. Vilie Meñ uppræta Jllgresed af Akrenum, Pa skulu Meñ Rootena eirneñ burt taka. Eg efast og ecke um, ad saa sem Agyrndeñe hefur wtskwfad wr sijnu Hiarta, hañ hefur og gyrdt fyrer marga Leste; Pvi hvad er þad Jllt, Sem ecke filger einum Fie-Pwka? Meinsære, Mañdraap, Lijge, Svik, Fals, Agg, Præta og añad, sem hier wt af fædest; Svo ad eirn af þeim Spoku fordum, er hañ var adspurdur, hvort ad være hid versta Dijr aa Jorduñe; Pa svarade hañ: Ad þad være Leon og Byrner aa Fiollunum, Eñ Agiarner Meñ i Bygdeñe. Jeg veit ecke lijkare Skwr-God eñ Mamon og Moloch, Svijvirding Amons Barna, 1. Reg. 11. Hvør ed sitt Nafn hefur af Rijke. Pessum Afgud offrudu Heidner Meñ, og aa Stundum Gydingar Børn sijn, og lietu þau ganga i giegnum Elldeñ, Honum til Pioonustu, 2. Reg. 21. Hvorium ecke Olijker eru þeir, Sem kveikia i Hiortum Barna siña, strax aa unga Alldre, Oleifelega Elsku til Auds og Fiaarafla, og kieña þeim ad þiena Mamona fyrr eñ Gude, Og ad hafa sitt Ynde og Epterlæte i Oþorfum Maurum, Laangt framar eñ i goodum Sidum og Dygdum, Par til ad Lijf og Saal standa i biørtu Baale; Og þoott nu ad Metorda-Gyrndeñ halldest af flestum ad vera nær Mañdygdunum, Pa eru þo baadar skadlegar, Og halldast giarnañ i Hendur, Po so, Ad þar sem Metorda-Gyrndeñ er einsamañ, Pa er hun þess stærre ef Agyrndeñe ecke fylger, Pvi Agyrndeñ er þwng og dregur þañ til Jardareñar, sem vill kieppast uppaa þad hæsta; Eñ i þvi eru þær so lijkar, sem ein Syster kañ nockurn Tijma ad vera añare, Ad þær giora baadar Lækninguna ad skiædare Siwkdoome og Sadninguna ad Sullte; Pvi eins og hiñ Agiarne vill þess meir, sem hañ meir hefur, Og vantar alltijd eirneñ þad, sem hañ hefur; Svo er og hiñ Metorda Giarne alldrei aanægdur med þad Stand sem hañ er i, Helldur kieppest alltijd uppepter Pad er og fullkomlega Satt, ad Metorda-Gyrndeñ hefur ecke færrum steipt eñ Fiesynkneñ; Fyrer hana er øll Olucka iñkomeñ i Heimeñ: Pegar Diøfulleñ villde helldur stioorna eñ hlijda, Pa hrapade hañ moraum til Olucku.

Jeg þykest vita, ad Eva hafe ecke geingest so fyrer Eplenu, Helldur mune þad hafa geinged heñe i Augu, ad hun ætte Gude lijk ad verda, Gen. 3. Hvad mykla Jllu hefur nu Metorda-Gyrndeñ af Stad komed sijdañ i Heimenum? Hun sloo Mariam Aaronis Systur med Lijkþraa, Num. 12. Hun lauk Jørduñe upp under Core, Datan og Abiram, Num. 16. Hun heingde Absalon upp i Eikena, 2. Sam. 15. og 18.

Hun

Hun blandade Ösku Zambri samañ vid Konungsins Hwss-Ösku, 1. Reg. 16. Og er þad nu lijtels verdt og næsta maklegt, Þo hun slære siñ eigeñ Mañ um̃ Hals, Eñ þad er miklu hryggelegra og aumkunarverdara, þegar heilum Londum og Rijkium illa lijdur fyrer eins Hroka, og þad kostar margra Mañа Gots og Velferd, þegar Tveir stoorer þrætta. Gud giæfe Meñ villdu þo giæta þar ad, ad su Æra sem Meñ hafa af Metordunum, Er øngvañveigeñ verd þess Erfidis sem þar er uppaa kostad. Añadhvort komast Meñ þar til med Riettu edur Raungu, Ef med Riettu, þa skulu Meñ keinge þrælka, ædur eñ Meñ koma til nockurs, Og fyrer miked Erfide komast Meñ til añars stærra, Þvi þa Meñ eru þar komner. Taka Meñ Valld yfer ødrum, Eñ missa Vallded yfer siaalfum sier. Þvi ein kostgiæfeñ Yfervallds Persona, er ecke siaalfraad, helldur allra þeirra Þienare sem hañ er yferbodeñ, Og maa tijdt vaka þegar hiner sofa. Eñ hafe hañ geinged hiñ Raanga Veg med Satans Listum, Þa heiter Tignar-Sæted Stooll Haadungareñar, Og er Svijvirding bæde fyrer Gude og Mønum, Svo sem Predikareñ segier, Cap. 7. Ad saa sem Raanglega tekur sier Vallded til, mune hatadur verda. Þvi hygg eg þad riett være sem Joas Israels Konungur sagde vid Amaziam Juda Konung; Þu hefur sleiged Edom, Þar fyrer er þitt Hiarta upphafed, Haf þu þijna Vegsemd og sit i þijnu Hwse, Hvar fyrer skyllder þu skipta þier af Illu, so þu faller og Juda med þier, 2. Cron. 25. Svo er nu Agyrnd og Ofmetnadur nærsta Skadleger Lester. Þar fyrer, vilie Satan freista þijn þar med Christeñ Madur, Þa slaa hañ med Guds Orde, so sem JEsus giorde; Vijk fraa mier Satan, Þviad skrifad er, Drotteñ Gud þiñ skallt þu tilbidia, Og honum Einum þioona. Nu er þad olldungis. Omøgulegt und er eins Gude ad þioona og Mamona, Matth. 6. Vilier þu þar fyrer ad þitt Hiarta sie Guds Mustere, Þa rek Satan wt þadañ med hañs bølvadre Aura-Elsku. Satan aa ecke þad hañ giefur, helldur er þad allt Þioofstoled, sem af hañs Hende er þeiged. Vei þier Satan, Hvør hefur giefed þier øll Rijke Veralldareñar, so þu meiger þau aptur giefa? Þu aatt ecke Raad aa eirnre Mij-Flugu, Nema Gud leife; Og þoott þu mætter nockru hier um̃ raada, Þa vilium vier ecke taka þijnu Bode, Eñ sleppa honum sem bæde Himen og Jord hefur i siñe Hende, Sem oss hefur Saal og Lijkama giefed, Sem oss hefur frelsad fraa þijnu Vallde, Col. 1. Sem hefur giefed sitt Lijf i Daudañ fyrer oss, Joh. 10. Sem hefur sendt siñ Anda i vor Hiørtu, Gal. 4. Sem ad ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Børn, Rom. 8. O! þu Eilijfe Konungur Dijrdareñar, Sem ad ert Hoogvær og af Hiarta Lijtellaatur, Kieñ þu oss ad eptirfylgia þijnu blessada Dijrdar-Dæme hier i Heime, svo vier meigum þier sijdañ iñ i þijna eilijfu Dijrd fylgia, og til þess Himneska Haabords upphafder verda, Til ad siingia þeirre Haaleitu Guddoomsins Preñingu Eilijfa Dijrd og Lof um̃ allar Allder Allda, AMEN.

## Añañ Suñudag i Føstu.

Gudspialled, Matth. 15. Cap.

I Paň Tijma. Og JEſus gieck burt þadaň, og foor i Lands-Bygder Tyri og Sydonis. Og ſiaa þu, ad Canverſk Kona gieck wt af þeim ſomu Takmørkum, kallade epter hønum, ſegiande: HErra, Sonur Davids, Myſkuna þu mier, miijn Dootter kvelſt illa af Dioflenum. Og haň ſvarade heňe aungvu Orde; Haňs Læreſveinar geingu til haňs, baadu haň og ſøgdu: Laattu hana fara, af þvi hun kallar epter oſs. Eň haň ſvarade og ſagde; Eg em ecke ſendur nema til Fortapadra Sauda, af Hwſe Iſraels. Eň hun kom og tilbad haň, Segiande: HErra, Hiaalpa þu mier. Eň haň ſvarade heňe og ſagde: Pad er ecke gott ad taka Braudeð Barnaňa, og kaſta þvi fyrer Hvølpana. Eň hun ſagde: Satt er þad HErra; Eň þo eta Hvølparner af Molum þeim, ſem detta af Borde Drottna þeirra. Pa ſvarade JEſus og ſagde til heňar: O! Kona, Mikel er þijn Trw, Verde þier ſo ſem þu villt. Og aa þeirre ſomu Stundu vard heňar Dootter Heilbrygd.

Exordium.

Nær Ier bidium i vorre DRotteňlegre Bæn, Børn Guds Elſkuleg. Eige Leid þu Oſs i Freiſtne. Nu er Tvofolld Freiſtne til, Oňur kiemur af Gude, Oňur af Andſkotanum, Oňur leider til Lijffins, Oňur til Helvijtis. Sw ſem af Gude kiemur, Hun er heňar Lækning, Sem kiemur af Satan. Pad er ecke Otamt hinum Almaattuga Konunge, ad laata Diofuleň detta aa ſiinu eigeň Bragde, Og ſijna Freiſtne haňs Freiſtingar yfervińa. Eň þo ad þeſſar Athafner Guds og Diofulſins hafe ſama Nafn, Pa eiga þær þo ecke ſamaň nema Nafned. Diofulleň geingur ecke i Verhøgg vid Meňena, Pvi haň veit þeir. fælaſt ſig, Helldur hefur haň Tvo Stall-Brædur, ſem ecke eru ſvo Uggvæner, Eň þo ecke ollu ſijdur Skadvæner, Aňar er hid Ytra, Aňar hid Iňra: Peſſe er vort Holld og Blood med þeſs Tilhneigingum; Hiň er Verollden med ſijnum illum Dæmum: Hiň Sijdare af þvi haň er vondur, og liggur i þvi Vonda, 1. Joh. 5. Pa leider haň til hiňs Illa. Sa Fyrre er haalfu verre. Margur kaň ſa ad fordaſt adra, Sem ecke gietur fordaſt ſiaalfaň ſig. Holld og Blood er gamall Skutul-Sveirn Diofulſins, Sem framreider allra Haňs da ſætar, eň þo Eitradar Viſter, Pegar Andſkoteň bijdur Maňeſkiuňe til Snæddings, eň Saaleň liggur blind i Sængeňe eins og Iſaac, og veit eige hvort þad eru helldur Jacobs edur Eſau Hendur, ſem huň þreifar aa, Jafnvel þo hana grille til ad þeckia Rauſtena, Gen. 27. So miked laangar hana i þaň ferſka Riett, Veit þo ecke ad glora Grein aa, Hvort helldur haň er med Boganum veiddur, Eda af Hiordeňe tekeň. Vei þeirre Borg, Hvor ed bæde hefur Ovijnena utaň fyrer Portunum, og lijka iňe aa Stræt-

Strætunum; Eñ øngvu betur erum vier a oss komner i Andlegum Efnum. Alla Vega umkrijnger Hollded oss, a Hægre Sijdu med Gyrnd Audæfa og Metorda, a Vinstre Hlid med Orbyrgd og Orvinglan; Fyrer framañ oss stendur Sialfs-Pootteñ og Virding vors eigeñ Agiætis, A Bak vid oss Affokun og Peckingarleise Syndareñar, Iñvortis Sleg Samvitskuñar, Illar Gyrnder og Tilhueigingar. Þesse er nu Andskotans Freistne og Elldlegar Pijlur þess Hreckvijsa, Eph. 6. Eñ sokum þess þær eru Syndugre Mañeskiu svo skiædar, ad þar er eingeñ Lijfs edur Heilsu Von, Ef Diofulleñ, Heimureñ og Hollded meiga sijnu fram fara, Þa Freistar Gud Mañsins, Saaluñe til Heilsubootar. Eñ Gud Freistar vor, Bæde sialfra vor vegna og svo Naungans. Þad sem Diofulleñ gierer med illum Heimsins Epterdæmum til Ills, Þad gierer Gud til Epterdæmis med Krossburdenum til Goods. Margur munde hallda sig Saklausañ, Nema Gud typtade hañ og ride Mootlætingaña Vatne a vor blindu Augu, Svo ad vier siaum vora Omynd. Þegar Gud byrtest Fedrunum i Gamla Testamentenu, Þa skiede þad opt i einu Leyptrande Skye, Og svo trwe eg þad verde eñ nu i Dag, Ad valla sæe Meñ riett Gud sienañ, Nema hañs Dijrd bregde fyrer oss i Þoku Mootlætingaña; Þvi a medañ vel geingur, þykest Madureñ svo sem Sialfskiled eiga allt þad hañ þiggur af DRottne; Eñ þegar hañ tekur þad burt, Þa leita Meñ hañs med Angist. Kuñuglega talar David hier um, Ps. 30. Eg sagde þa mier vel gieck: Eg skal alldrei skiliast fra DRottne, Þvi þu DRotteñ veiter Stadfestu mijnu Biarge med þiñe Þocknan: Eñ þegar þu byrgder þitt Andlit fyrer mier, Þa skielfdest eg, Þa kallade eg til DRotteñs, Og eg Gratbænde hañ. Aptur Freistar Gud þeirra er hañ vill, Odrum til Epterdæmis, Svo sem Abrahams og Jobs, Hvad liooster af hañs Sogu, Er ollum er skrifud til Epterdæmis. Og siaum vier nu af þessu, ad Gud freistar Mañsins, Bæde þeim til Gagns, Er hañ leggur siñ Kross a Herdar, Svo og odrum til Fyrermyndar. J þessu H. Dags Evangelio, hofum vier Dæme eirnrar Kviñu, Hvor ed þa fyrst leitade ad Christo, Þegar Naudeñ þrijste heñe þar til. Og viljum vier þad nu med þess Lærdoomum yfervega, Epter þvi sem Gud giefur Naad til.

Hialpa oss þar til Naaduge Gud fyrer þiñ Son JEsum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þegar Marcus segier fra þessare Historiu i hañs Gudspialla, Cap. 7. Þa gietur hañ um ad JEsus hafe so sem faled sig i þessum Stad, Þvi hañ hafe geinged iñ i Eitt Hws, og hafe eige viliad lata neirn vita þad. Hvar varstu nu miñ HErra? Sem segier: Eg er fundeñ af þeim sem ecke leitudu ad mier; Þu sem ad hroopader, Matth. 11. Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiader, Eg vil Endurnæra ydur. Hvar varstu þa? Er nockud þijn Hond stutt vordeñ ad þu kuñer ecke, Eda þitt Eyra so tillukt, ad þu vilier ecke hialpa? Sañlega er þad ecke, Helldur klemur þad hier fram sem hin eilijfa Spekiñ segier: Eg leik mier vid Mañaña Sonu, Prov.

8. Svo plagar Fader Myskunsemdaña ad breita vid sijn Born, Hañ hylur sig um Stundar-Saker, So ad Mañeskiañ leite hañs Andlitis. Visse JEsus ad Lazarus Vinur hañs laa veikur, Joh. 11. Samt var hañ fiarlægur honum aa medañ hañ took hañ burtu. Eige var honum Okuñugt ad Vijn-Skortur var i Cana, Eñ þo droo hañ undañ ad snwa Vatnenu i Vijn, Þar til hañs Stund var komeñ, Joh. 2. Ymislega breiter Gud vid sijna. Hvor hefur nockurn Tijma hañs Raadgiafe vered? Rom. 11. Hañ deilde aa Konungs Mañeñ þa hañ leitade Hiaalpar vegna Sonar sijns, Joh. 4. Hañ baud Hundrads-Hofdingianum ad gaanga Samstundis heim og lækna Þioon hañs, Matth. 8. Hañ fañ strax Krapt wt af sier gaanga þa hin Bloodfallssiwka hrærde vid hañs Klæda-Fallde, Marc. 5. Eñ fyrer þessare Naudstoddu Konu hylur hañ sig. Þo kañ ecke Sool Riettlætesins ad leyna sier, Þvi segier og Marcus: Ad þesse Kona hafe heyrt af JEsu og þar fyrer til hañs komed, Þvi hañ hafe eige gietad dulest. Hvor er þa Boon heñar? Hun hroopade og sagde: HErra SONur DAvids Myskuna Þu Mier. O! Hvad dijrmætur Hlutur er Krosseñ, Hañ kañ ad reka Mañeñ wt af Tyro og Sidon, Þad er af vondre Verolldu þessare til ad leita ad Christo. Hañ er eirn Andlegur Segul-Steirn, Sem Mañaña Staal-Hiortum upprycker i Hæderuar til Guds Lifanda. HErra Sonur Davids segier þesse Kona. Faaord er Bæn heñar, Eñ eckert er hier eptersk iled þad sem audmiwkre Syndugs Mañs Bæn aa ad fylgia. Med Herra-Titlenum jaatar hun sijna Undergiefne, Var hañ HErra, Þa var hun hñs Ambaatt, Eñ med Nafne Davids Sonar telur hun sig i Ætt vid hañ. Ecke þad hun være af David komeñ, Helldur af Adam, Hvors Nidie David var. O miñ JEsu! Eñ Þeir eru þijn Mooder og þijner Brædur, Sem eru þijner Læresveinar. Matth. 12. þijner Læresveinar eru aller þeir er þitt Ok uppaa sig taka, og fylgia þier epter, Luc. 14. Medal hvorra þesse Utlendingur var eige hiñ Sijdarste. Þad var heñe ecke noog miñ JEsu ad þu varst heñar HErra; Þad er añad ad kuña, Añad ad vilia, Eñ þad hun kallar þig Davids Son, Þad er Holld af heñar Hollde og Bein af heñar Beinum, Þad var biturt Skeite, Sem aan alls Efa hefur stwnged þijn Myskunar Ydur. Þetta styrker St. Paall, Hebr. 2 Segiande: Honum byriade Brædrunum i ollu samlijkur ad vera, uppaa þad hañ Myskunsamur være, og trwr Biskup i þvi sem hiaa Gude aatte ad giora, Þvi Sokum þess hañ lided hefur þa hañ var freistadur, Þa kañ hañ og ad hiaalpa þeim sem freistader eru. Myskuna Þu Mier segier Konañ. Hun kiemur til JEsum, Ecke svo sem til añars Lækners, Þeim er Meñ biooda Laun fyrer sitt Omak, Ecke helldur i Trauste siñar Forþienustu. Myskuna Þu Mier segier hun, Eñ ecke miñe Doottur. Jaatande þar med, ad ecke þyrfte heñar Dootter einasta Myskunar vid, Helldur være og siaalf hun Overdug i Guds Auglite siña Synda vegna, Þad hañ skyllde hiaalpa heñar Lijfs-Afkvæme, Hvort hun eige einasta hafde gieted og fædt i Syndeñe, Helldur uppaled medal Ogudlegra Maña vid Satans Þioonustu, og i hañs Dijrkan. Lær hier af syndugur Madur; Nær þu framkiemur fyrer Gud ad þiggia nockud af hañs Orlætis

Hende,

Hende, Ad afneita sialfum þier og öllum þijnum Verdugleik, Og gior ecke þijn Good-Verk, Ef nockur eru, ad hiñe verstu Synd, med ofmiklu Trauste a þeim, Edur Dælæte vid sialfañ þig, Helldur seig þu med þessare Konu og David: Myskuna þu mier Gud epter mikellre Myskunseme þiñe, og epter Mikeleik Myskunsemda þiña, afmaa þu mitt Ranglæte, Ps. 51. Þesse Faaraada Mañeskia leggur Orsökena til; Hvar fyrer hun so Grætbæne, Mijn DOOtter Kvelst Illa Af Dioflenum. O Neyd! O Neyd! O Sorg! O Sorg! Hvad goodur Skoola-Meistare ertu? Og hvörsu fijnt er þier um ad giora hinar Faaraadu Tungurnar vel Talandi? Eckert er hier eptersk iled, Sem eitt Mañs Hiarta kyñe ad hræra til Medaumkunar, Svo hier var a øngvañ Veg hægt undañ ad komast fyrer hañ, sem allt Valld hefur, Bæde a Himne og Jördu, Matth. 28] Og er þo under eins so Lijknsamur sem Fadereñ er Börnunum Myskunsamur, Ps. 103. Hun kallar hañ HErra, Þvi treyster hun ad hañ giæte, Hun kallar hañ Son Davids, Þvi vard hañ ad vilia, Hun bidur um Myskun, Hvört villde þa Bruñur Myskunarenar laata sijna Læke reña, Ef ecke i soddañ Trwar Skaut? Eñ þetta eykur miog so a, Ad hun bidur fyrer sitt eiged Lijfs-Afkvæme, Hvörs Saal ad hieck af heñar Saal, Eins og Jacobs og Benjamins. Hun segier: Mijn Dootter, Þad var sart, Hun kvelst, Þad var herfelegra, Hun kvelst illa, Þad var Obærelegt, Og þad af Dioflenum, Þad yfergieck alla Tijmañlega Hörmung.

Lijkamlegur Siwkdoomur liggur æred þungt a, og næsta hart er ad sia uppa sijna þegar svo tilfellur, Eñ þad geingur næst hinum bitru Helvijtis Pijslum, Þegar Andskoteñ fær Leife til med sijnum Illsku-Krapte ad bwa i Syndugs Mañs Hollde, Og slijta þad og kremia epter sijnum Vilia. Hvad fast mun hin heita Moodur-Ast hafa þreyngt ad hañs Hiarta, Er sialfur segier, Es. 49. Kañ nockud Moodureñ ad gleyma sijnu Barne, Syne sijns Kvidar, Og þo hun gleyme þvi, þa vil eg samt ecke gleyma þier. Sia eg kiem, Vill þesse Kona segia: Eg er ein Vesæl Mooder, Eg bid um Myskun, Ecke um Mune þessarar Veralldar, Ecke um Lijf Ovina miña, Alleina bid eg ad mitt Barn, Sem er Guds volud Skiepna, Ad þad mætte frijast fra Diofulsins Vallde og Ofrijke. Mun ecke JEsus hafa þeinkt til siñar Moodur sem stood sijdañ under hañs Krosse, Þegar hañ hieck þar so sem Madkur eñ ecke Madur Afmyndadur af Diofulsins Prælum? Mun nu ecke hañ sem i bitrustu Daudans Angist og Helvijtis Kvolum staddur, sa Aumur a siñe Moodur, Mun hañ ecke, Segie eg, hafa aumkast yfer þessare voludu Mañeskiu? Eige er þad ad efa, Sem sijdar gaf Raun Vitne. Eñ þo segier Texteñ oss, Ad Hañ Hafe Ecke Svarad Heñe Einu Orde. Hvilijkt er þetta, Ofañ a alla heñar Neyd, Eykur þetta næsta miklu. Hin blessada Riettlætis-Sool, Mal. 4. Uppañ heñe um Stundar-Saker, Eñ Sky Þagnareñar droo fyrer hana aptur. Hvad skal hier til segia? Kañ ecke þad eilijfa Orded ad tala? Heyrer hañ ecke, sem Eyrad hefur plantad? Er hañ Afundeñ, sem öllum bijdur til sijn ad koma? Matth. 11. Hvar eru nu þijn Ord, Miñ HErra JEsu, Er þu sagder fyrer Muñ Es. 65. Cap.

Þad skal skie ædur eñ þeir æakalla mig, vil eg svara, Og æ medañ þeir eru ad bidia, vil eg
Bænheyra þa. Þetta sijnest hier allt ad ongvu verda. Eñ vier vilium hier stands
vid um̃ Stund, G.E.B. Þad være ecke gott fyrer osz, ad vier skylldum ollum Stund-
um Bænheyrder verda; Þeir eru eige aller, Sem Gud fære til sijn leidt med Tamme
Nædareñar, Nema hañ slæe sodruhvoriu med Svipu Tiptunareñar. Þegar vel
gieck, Snerum vier Bakenu vid Gude; Vier foorum illa med hañs Gæfur, Vier
forsoomudum ad brioota vort Braud hinum Þurftuga og Volada. Osz fanst eck-
ert til, Þegar Gud liet osz falla allt i Kior, og eige þædu Meñ Guds Orlæte, so sem af
honum komed, Helldur so sem af vorum Handafla, Vorum Atburdum, Vorre Fram̃-
sijne: Er þa ad furda þott hañ meige þeigia um̃ Stundar Saker vid osz? So ad vier
holldum osz ecke Saklausa, Og lærum, ad oll good Giof og fullkomeñ Giof kiemur ad
ofañ fræ Fodur Lioosaña, Jac. 1. Og ecke giorer Gud einasta þetta vid hina Þræ-
lætu, Helldur og vid sijn Elskuleg Born. Sañlega hefur hañ kient i Brioostе um̃
Eymd þessarar Konu, Eñ þo svarar hañ heñe ecke einu Orde: Hañ vill þeir bidie svo
þeir fæe, Leite svo þeir fiñe, Knije æ, Svo fyrer þeim uppløked verde, Luc. 11. Heyr-
ed David Konung, sem var Ast-Vinur DRottens, Hvorsu hañ klagar yfer hañs Po-
gn vid sig, Hvort helldur hañ talar þad under siñe edur Messiæ Persoonu; Hvar fyr-
er ert þu fiarlægur mijnu Hiælpræde, Og svo fiærre mijnu Hroope Gud miñ, Dag
og Noott kalla eg til þijn, og fiñ þo ongva Hvijld, Ps. 22. Nu, þoott ad Gud svo þeige
vid osz æ Stundum, Þa mun hañ samt Hiælpena ecke leinge undañ draga, Svare hañ
ecke svo sem vier vilium, Þa svarar hañ svo sem hañ vill, Vier vitum eige hvors vier bid-
ium, Eñ hañ veit hvad osz er fyrer bestu. Ef vier yrdum alltijd Bænheyrder, þa kañ-
skie hañ giæfe osz Hoggorm fyrer Fisk, Edur Stein fyrer Braud, Jæ, Hoggorms-
Eyru fyrer um̃skoreñ Eyru, Stein-Hiarta fyrer Kiotlegt Hiarta, Eñ þad sama er æ
moote hañs Fodurlegu Hiartalage. Hañ Bænheyrde ecke Eliam þa hañ bad hañ
ad taka sijna Sæalu fræ sier, 1. Reg. 19. Helldur gaf hañ honum Krapt til ad moot-
standa Jessabel og ollu Achabs Hwse. Hañ heyrde ecke so brædlega Harma-Klogun
Jobs, Eñ hañ gaf honum yfermæata mikla Þoleñmæde, Job. 2. Hañ took eige Kæ-
leikeñ fræ sijnum Elskulega Syne, Helldur sende honum Eingel af Himne, Luc. 22.
Og so giorer Gud eñ nu vid hañs Sam-Arfa, Take hañ ecke fræ þeim Hornungena,
Þa sender hañ þeim þo Krapt til ad bera hana. Hvort er betra ad reka Fiandmañeñ
burt, Edur ad giefa einum Megn og Mæatt til ad sigra hañ? Hefde Goliat æ Bak
aptur horfad, Hvar var þa Davids Sigur? 1. Sam. 17. Hefde eige Israel barest
vid Cananita, Þa hefde hañ ecke eignast þad Fyrerheitna Landed. Hefde eige Jacob
glijmt vid Gud, Þa hefde hañ eige hloted Israels Nafn, Gen. 32. Og hefde ecke þesse
Kona þreytt med Bæneñe vid hiñ Almæattuga, Þa hefde hun eige heyrt þesse Fagnadar
Ord: Kona, Mikel Er Þijn Trwa. Þegar Læresveinar vors Endurlausnara for-
merktu ad hañ svarade heñe ongvu, Þa hrærdust þeir af Medaumkan, Og segia: Læt
þu

þu hana fara, fyrst hun kallar epter oss. O hvad gott Epterdæme hefur þu hier, Christ-
eñ Madur! Sæler eru Myskunsamer segier Endurlausnareñ, Þvi þeir munu Myskun
hliota, Matth. 5. Guds Myskunseme þurfum vier Daglega vid, og æn heñar kuñ-
um vier ecke ad lifa. Vilier þu ad Gud sie þier Nædugur, Þa vert ecke Afundeñ vid
þañ sem þig bidur, Eda fræsnweñ þeim sem af þier vill Læn taka, Matth. 5. Þvi hvor-
su mæ Gud opna þier siina Myskunar Bruña, Ef þu tilbyrger þiina Læke fyrer hinum
Naudstadda, Og sie so ad þu hafer eige Efne æ ad myskuna med Verke, so sem þu villd-
er, Þa ælijtur þo DRotteñ Hiartad. Sæ sem myskunar meir eñ hañ hefur Næd til,
hañ hefur giort sitt Myskunar-Verk jafnvægt siinum Vilia, og hefur Myskunad meir
eñ hañ kuñe ad Myskuna. Ecke er hier talad um eirn helldur eñ añañ af Læresveinun-
um, helldur hafa þeir aller i einu Hliode meint ad iñtaka DRotteñs Myskunar Hiar-
ta. O! Gud giæfe Christner Meñ villdu vera samtaka i Bæneñe. Hvad er þad vier
segium i vorre Trwarjætningu? Jeg trwe Sanneyte Heilagra. Er þad alleinasta
ad jæta eirn og hiñ sama Gud? Ad vera med eirnre Skiirn skiirder? Ad koma sam-
añ i einu Guds-Hwse, og medtaka eirn og hiñ sama Liikama og Blood JEsu Christi?
Nei, aungvañveigeñ, Helldur þar ad auke ad hallda Eindrægne i Andanum, Eph 4.
med Bænum og Fyrerbeidslum fyrer ollum Moñum, 1. Tim. 2. Bidied hvorier fyr-
er odrum segier St. Jacob, Cap. 5. Ad þier heilbrygder verded, Þvi miked mæ Bæn
hiñs Riettlæta, Þa hun er heit. Sialfur DRotteñ segier, Matth. 18. Ef Tveir
af ydur samþyckia æ Jordu um hvorn þañ Hlut, sem þier bidied, Þa skal ydur þad veit-
ast af miinum Fodur, sem er æ Himnum. Og ef Gud heyrer svo Tveggia Bæn, hv-
ad miklu framar mun hañs Fodur-Hiarta komast vid, þa eirn heill Sofnudur wtheller
siinum Bænum i Eindrægne Andans? Gud elskar Meñena, þa hañ sier ad hvor þeir-
ra elskar añañ. Eirn Vatns-Drope, Ef hañ er eiñsamañ, þa þornar hañ brædlega,
Eñ falle hañ i Siooeñ, þa geimest hañ Otiijndur: Svo eru og Tæra-Dropar Christ-
iña Maña, ef þeir falla samañ, Þa verdur þar eitt Vatns-Flood af, sem allt upp i Him-
eneñ vex, þar til þad fellur i Nædar-Strauma hiñs Almættuga Guds, sem framflioo-
ta af hañs Hæsæte, og reña so aptur ofañ til vor æ Jordena. Damparner sem upp-
stiiga af Jordeñe, samañsafnast i Loptenu, Þegar þeir verda ofur Þwnger og þietter, þa
sundurdreifast þeir af Vindenum, sem ecke kañ i giegnum þa ad briootast og falla aptur
yfer ymsar Alfur Jardareñar, Heñe til Frioofgunar. Andvarpaner Guds Barna,
sem uppstiiga af heitu Hiarta, þær samañsafnast fyrer Guds Hæsæte, þar til þær verda
hañs Myskunar Ydrum ofur þwngar, So ad Himnariike liidur Ofriike, Matth. 11.
Þar af verdur hin Hiælpsamlega Natt-Dogg Guds Goodgyrne og Myskunar, sem
fellur af þvi Himneska Hermon yfer þa Jardnesku Zion, Ps. 133. Hvorre Ande DRott-
eñs sundurdreifer og wtskipter medal Mañaña Sona, Þad er eige noog, Þo ott Eirn
edur Tveir bidie fyrer ollum. Þo Gud hafe miked giort fyrer Bæn Moysis, Abra-
hams, Eliæ, Elizei, St. Pauls og añara Guds Astvina, Þa er Gud ecke skylldugur ad

giora

giora so ollu Foolke: Muny og faaer vera þeim lijker aa vorum Dogum. Margra Trw hygg eg ad nu meige leggia vid Abrahams og Eliæ Trw. Fyrer Almeñelegre Plaagu, skal Almeñelega bidia, þvi aa Stundum er Gud svo Lyndur, ad hañ vill straffa þa Goodu med þeim Vondu i Landenu. Hafed þvi Raad Endurlausnarans, M. E. Luc. 18. Bidied Oaflaatañlega og letiest ecke, Þvi hvar fyrer skyllde Gud eige frelsa sijna Utvalida, Þoott hañ undañdrage Hiaalpena? Sañlega segie eg ydur, Hañ mun frelsa þa. Hvort Svar giefur nu Frelsareñ sijnum Læresveinum hier uppaa? Eg Em Eige Sendur Nema Til Fortapadra Sauda Af Hwse Israels. Þetta sijnest nockud þwngskiled i fyrsta Alite, Eñ hefur þo siñ stadfastañ Grundvoll i Ritninguñe. Epter sijnu Spaamañs Embætte var hañ eige sendur nema til Gydinga. Epter sijnu Kieñemañlega Embætte, var hañ ollum sendur, þvi fyrer alla hefur hañ forlijkad. Hañ bañade ad soñu Læresveinunum ad gaanga aa Veg Heidingiaña eda i Samverskar Borger, Helldur til Fortapadra Sauda af Hwse Israels, Matth. 10. Þo segier hañ hiaa Johañem, Cap. 10. Jeg hefe og adra Saude, Seyn ecke eru af þessu Sauda-Hwse, Þa byriar mier og hier til ad leida.

Ecke heyre eg ad JEsus hafe aa sijnum Hiervistar-Dogum predikad medal Heidingiaña, Þvi þad var hañs Spaamañs Embætte, Hañs Tijme var eñ þa ecke komeñ; For-Tiallded var eñ nu ecke sundur rifed, Þar var eñ nu eige nidurbroteñ saa Veggureñ, sem aa millum var, Eph. 2. Edur vorded eitt af baadum, Þad skiede allra fyrst i hañs Pijnu, Dauda og Upprisu, Þvi skomu þar epter baud hañ sijnum Læresveinum ad fara wt um allañ Heimeñ, Matth. 28. St. Paall þorer ad segia, Rom. 3. Er Gud alleinasta Gud Gydinga, og eige Heidingia? Sañarlega og svo Heidingia, Þviad Gud er Eirn, Hvor ed Riettlæta mun Umskurnena i Trwñe og Yferhwdena fyrer Trwna. Svo var nu JEsus sendur alleina til Gydinga epter sijnu Spaamañs Embætte; Eñ so sem Fadereñ sende hañ til Gydinga, so sende hañ sijna Læresveina til Heidingia. Epter hinu Kieñemañlega Embættenu, Er hañ ollum Heime sendur, Þvi Johañes segier Fortakslaust; Hañ er Forlijkun fyrer vorar, Og ecke einasta fyrer vorar (þad er Gydingaña) helldur og fyrer allrar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Epter sijnu Kongunglega Embætte var hañ og ollum sendur, Þvi hañs Gud hafde giefed honum Endemork Jardareñar og heidnar Þiooder til Arfleifdar, Ps. 2. Og er þad eptertekta verdt, ad þau Tvo Kraptaverk, sem DRotteñ giorde medal Heideña Þiooda, Añad þetta, Añad hiaa Gergesenis, Matth. 8. Þau voru Bæde til ad auglijsa hañs Almættis Herra Tign, þvi i hvorutveggia Siñ rak hañ Diofuleñ wt, sem kallar sig Drotteñ Veralldar þessarar. Hvad giorer nu þesse Kviña til vid Afsvar þetta? Hun lætur ecke af, helldur sæter þessu Tækefære, þar hun sier Læresveinarner tala heñar Maale. Lær hier Christeñ Madur, Ad þreytast ecke i Bæneñe, Þoott Gud hiaalpe ecke strax, sem þu kallar, Þa hefur hañ þo ecke forgleimt Myskunsamur ad vera, Fodurleat Hiarta hefur Gud: Hañ er ecke so sem Stockur eda Steirn. Forgiefens hefur hañ þa straff-

ad

ad Gudleyse Mañaña, Sem gaanga til Maallausra Skwrgoda, Ef hañ være þeim sialfur lijkur. Gud er ecke eins Siñadur og Madureñ, ef nockur Olmusumadur liggur jafnañ vid Dyr hiñs Rijka, Þa heiter hañ Praabæneñ, Osꝼickanlegur, Heimtufrekur. Þad verdur so fyrer oss Moñunum, Þvi vier megnum eige margra Þorf ad fylla, Eñ Afgruñe Myskunareñar er ecke so haattad, Þess optar sem hañ er bedeñ, Þess kiærara er þad honum, Þvi hañ kañ ad uppfylla alla vora Naudþurft, Epter Rijkdoome siñar Dijrdar, Phil. 4. Þeir neyddu hañ, Segier uñ þa Tvo sem til Emaus geingu, Luc. 24. Gud vill laata þvijnga sig med heitre Bæn, Og þad er honum iñdællt ad þola Ofrijke af Trwudum Syndara. Su Praakelkne er good sem Gude þocknast, og su Orusta mætte liett falla, Þar sem Madur er viss uñ Sigureñ. Saa sem af Tiñuñe vill Elldeñ faa, verdur optar ad slaa, Eñ Einusiñe. Vilier þu og ad Guddoomsins Giæsku-Neistar stockve wt af Hellu Hiaalprædesins, Þa verdur þu optar eñ Einusiñe ad slaa med Hamre Bænareñar, Og ecke aflaata. Þar til þu aa einhvorn Haatt Bænheyrdur verdur. Meñ skulu og Audmiwklega bidia. Matthæus segier, Þesse Kona hafe tilbeded hañ. Marcus segier, Hun hafe falled til Foota JEsu, Marc. 7. Þad Ord er ad Eilijfu satt sem David segier, Ps. 34. Naalægur er DRotteñ þeim Harmþrwngnu i Hiortum, Og þa Sundurkromdu i Anda frelsar hañ. Hvor sem vill uppausa Vatn af nockrum Bruñe, Hañ maa beigia sig. Hvor er Bruñur þess Siaaanda og Lifanda? Hañs ed sier þoott eingeñ siaae, Hañs ed lifer i oss, Þo ad vier deyium. Hvor sem vill af honum Naad og Myskun uppausa, Hañ krwype audmiwkur aa siin Hiartans Knie. Josua fiell til Jardar nidur, og joos Molldu yfer Hofud sier fyrer DRottne, Jos. 7. David lagdest flatur aa Jordu fyrer hañs Tignarvellde, 2. Sam. 12. Sialfur Guds Sonur kastade sier flotum aa Jordena fyrer siinum Himneska Fodur, Matth. 26. Og þvi skylldum vier þa eige beigia Knie vor fyrer Fodur DRotteñs vors JEsu Christi, Eph 3. Saa sem vill vera mikell i Himnarijke, Hañ skal fyrst giora sig lijteñ hier aa Jardrijke. Þad er ecke Vegur til ad liwka upp Guds Myskunar Ydrum, ad standa inst i Kyrklu og bidiast fyrer, Eñ forsmaa Tollheimtumañeñ sem steudur laangt i fraa, Luc. 18. Tak þijn Skoo-Fot af, Sagde Gud vid Moysen, Þvi saa Stadur er Heilagur er þu stendur aa, Exod. 3. Vor Bænastadur er Heilagur Stadur; Þar er Guds Mustere, hvar hellst þad er, þar er oll Helliog Guddoomsins Preñing aa Tale vid oss. Oll Ohreinende Drambsemeñar, Allt Endeme Sialfs-Þoottans aa þar i burtu ad vera.

Hvort Andsvar fær nu þesse aangraada Mañeskia uppaa þessa siina audmiwka Bæn? Þad Er Eige Gott Ad Taka BRauded BArnaña Og Kasta Þvi Fyrer HUndana. Hord var þesse Ræda; Hvorsu maatte DRotteñ þrwnglegra svara? Eñ ecke fiellst heñe Hugur vid allt þetta, Helldur svarar hun: JAtt Er Þad HErra, Eñ Þo Eta HUnderner Af MOlum Þeim, Sem Detta Af BOrdum DRottna Þeirra. Þoott Abrahams Muñur hefde hier komeñ vered til ad kieppa med Bæneñe vid Gud

um̃ Sodoma, Gen. 18. Þa hefde hañ ecke kuñad betur ad mæla. Ecke þyckest hun vid
Sañyrde þesse, Helldur þess meir hun er Ovirdt, Þess audmiwkare er hun ad bidia.
Hina hordustu Freistingu giører hun ad sætustu Huggun. Þau Ordeñ Christi, Er he-
ñe brixludu um̃ siñ Overdugleik, Þau brwkar hun sier til Forsvars, Og þad sem sijndest
ad horfa heñe til mestu Orvæntingar, Vard heñe til ædstu Blessunar, Og er hier af aud-
sied, Ad Gud lætur þeim alla Hlute til Gooda verda, sem hañ elska, Rom. 8. Hun slær
vorn HErra, Ef svo mætte ad Orde komast, med hañs eigeñ Sverde. Satt er þad
HErra, Eg em Hundur i þijnu Auglite, og hefe ongvañ Riett med Børnunum. Þad
er Riettvijst ad þau mettest fyrst: Þu hefur tilreidt eina mikla Maaltijd fyrer þeim, Og
þijner Uxar og aled Fie er slaatrad, Matth. 22. Eñ i slijku Giesta-Bode munu nockrer
Molar aa Goolfed falla, Sierdeilis þar Børneñ, Sem mett eru, hyrda eige so vandlega
þar um̃; Þesser Molar nægia mier aumre Hund-Tijk, Eg em þiñ Hundur: Eñ mun
nockud Hwsboondeñ slaa siñ Hund fraa sier, Þa hañ vill fylgia honum epter? Eg er
eige svo vænteñ, ad eg gyrnest ad sitia til Bords med Børnunum; Leif mier þo same
ad tijna Molana med Hundunum, þaa Braud-Mola, Sem þijn Børn vilia ecke nijta;
Leif mier og miñe Doottur þaa upp ad tijna, Og þo vid høfum þaa ecke forþienad, Þa veit
eg ad þu, Sem ert eiñ HErra, Og þar ad auke Davids Sonur miñ Skapare, Og þo
miñ Brooder, Þu muner eige ockur allra Vesolustu Skiepnur, Eñ þo þijnar Skiepnur,
ad søñu Hund-Tijkur, Eñ þo þijnar Hund-Tijkur i Hwngre og Vesøld wt af deya lat-
ta. Fyrer þessare svo øflugre Trw, Liet hiñ Almaattuge sigrast; Hañs Hiarta brast i
honum, svo hañ hlaut heñe Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Og Bruñur Myskuñsemd-
aña vard ad opnast i slijkre Hræringu, So ad þadañ wtflaut eirn lifande Naadar-
Straumur, til ad Endurnæra þessarar Kviñu Sorgbited Hiarta. Þañeñ verdur
hañ hier yferuñeñ af siñe eigeñ Giædsku, Sem þo er Osigrande, Hañ verdur til Faanga
tekeñ, Sem hefur Herleidinguna ad Herfaange teked. Hañ þurfte valla eitt Ord til ad
wtreka D ofuleñ, Matth. 4. Eñ med mørgum Ordum fær hañ ecke þessa Trw fraa
sier reked, So ad alltijd verde Søñur aa hañs Maale; Hvørn þañ sem til mijn kiemur,
vil eg ecke fraa mier reka, Joh. 6. Athuga þu nu, Christeñ Madur, nockud um̃ þijn
Efne hier wt af. Munt þu i Guds Auglite betur vera aa þig komeñ, eñ eirn Hundur?
Þu ert ad søñu Christeñ, Þesse Kona var heideñ, þu ert skijrdur og iñtekeñ i Guds Saatt-
maala, Hun var ecke. Þu heyrer Guds Heilogu Ord Daglega, Eñ hun alleinasta
Rykted af JEsu: Eñ hygg ad hvad Endurlausnareñ segier: Drottningeñ af Ara-
bia mun upprijsa aa Efsta Deige og dæma þessa Kynslood, Þvi hun kom laanga Vegu
ad heyra Speke Salomonis, Og siaaed hier er meire eñ Salomon, Matth. 12. Svo
er eg og hræddur um̃, Ad Kona þesse mune dæma marga þaa er Christner kallast, Hun
sem hier ber Hunds-Nafn, talde ecke epter sier ad leita ad Christo, og fylgia honum ept-
er, Þo hun yrde ecke svo fliootl Bænheyrd. Eñ hvør er nu sa er leite ad DRottne,
Eda kalle af Alvoru til hañs i Hørmungeñe? DRotteñ typtar oss, Eñ vier fiñum þar
ecke

ecke til, Hañ slær oss, Eñ vier betrum oss ecke, Jer. 5. Meñ hafa hardara Andlit eñ Steirneñ, Og vilia ecke snwa sier. Hundarner hafa nockra Rækt a sijnu Afkvæme. Þesse heidna Mañeskia var af iñstu Hiarta-Sorg tilkuwd ad leita sier Hiaalpar hia þeim Himneska Lækner, Vegna siñar Doottur sem plaagud var af Dioflenum, Eñ hvad faaer eru nu þeir, Sem fæera sijn Born til JEsum med Christelegum Aga og Umvondun, Og gieta eige jafnvel lided ad Omeñskuñar Diofull sie fraa þeim rekeñ med Guds Ords Kieñingu og goodre Tilsogn. Þesse Kviña gieck wt af Tyro og Sidon þeim Ogudlegu Stodunum til JEsum; Eñ hvad tregt er oss komed til ad gaanga wt af vondre Verolldu þessare og fylgia honum, Jafnvel þo Saaleñ ligge Vitstola i Æde Syndareñar. Þesse Kviña reiddest ecke þo heñe være ofuglega svarad, Eñ hvad giora þeir sem mogla a moote Gude þa ecke geingur allt ad Oskum, og formæla hañs Hofud-Skiepnum, Þa þær epter Skipan sijns HErra eru oss mootfallnar, Hvoriar Gud hefur oss þo giefed af Oumrædelegre Giædsku siñe til ad hallda vid voru Opacklaata Lijfe.

Hundar komu og sleiktu Lazari Saar, Eñ ecke fieck hañ ad sedia sig af þeim Molum sem duttu af Borde hiñs rijka, Luc. 16. So fiñast og marger Omyskunsamer, hardwduger eñ i Dag, Hvorier ed hafa Gnægt Veralldar þessarar, Eñ laata þo siñ Naaunga Hwngur lijda, Og ef þesser Ogudleger Lester skylldu fiñast medal Christeña Mañna, Sem ecke er ad efa, Hvad erum vier þa betre eñ Heidingiar i Guds Dijrdarfulla Auglite? O vor Gud og Almaattuge Skapare! Vert þu oss Syndugum Lijknsamur, og tilreikna oss ecke vorar Illgiorder epter þeirra Verdskulldan, Helldur miñstu þiñar mikellrar Myskunseme. Vor Dootter, Þad er vor Saala, kvelst þwnglega af Dioflenum, Hvorre hañ Ognar med hrædelegre Myñing Illgiordaña. Illa hofum vier lifad, Eñ þu Christe ert fyrer vorar Illgiorder uppheingdur, Fleire eru vorar Raanglætingar helldur eñ Taar vorra Augna, Eñ laangtum fleire eru þo Dropar þiñar Myskunar, Sem ad uppreñur yfer oss syndugum Moñum ny og fersk a hvorium Morgne, Harmagr. Jer. 3. Allra Maña syndugasta jaatum vier oss, Hvor i siñ Stad, Eñ þeckium þig þo ad vera hiñ Allra Helgasta sem fyrer oss Raanglaata ert Bolvan ordeñ. Vier erum eige betre eñ Hundar i þijnu Dijrdarfulla Auglite, Þar vier hofum forþienad ad wtelokast fraa þeirre Himnesku Jerusalem, Apoc. 21. Eñ samt erum vier þo þijner Hundar og vilium helldur so heita, eñ Andskotans Oska-Born. Vier kiorum helldur ad tijna Molana under þijnu Borde, eñ hafa full Hws med Ogudlegum; Meigum vier ecke Born kallast, Þa gior oss so sem eirn af þijnum Leigu-Moñum, Luc. 15. Meige og þad ecke, Þa laat oss Riett hafa med þijnum Hundum. Þoott vier telium oss Overduga ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Þa vilium vier samt i þijnu Leyfe skrijda under Borded med hiñe Chanaanisku. Gott er oss ad aahaanga DRottne, Med hvoriu helist Moote þijn eilijfa Myskun vill þad vera laata, Þoott vier faaum ecke þau Kior sem Rijkesins Syner, Þa holldum vier Fullgott ad vera Dyra-Verder i Hwse DRotteñs vors, Ps. 84. Þad næger oss þegar vier allei-

na ecke wtkastader verdum i hin Ytstu Myrkur. O þu Lijknarfulle Gud og Naaduge
Fader! Þegar vier allra sijdarst wtgaungum af Tyro og Sidon, Sem er af Heime þess-
um fyrer Tijmañlegañ Dauda, Eñ Andskoteñ gyrnest ad kvelia vora Saalu med eilijf-
um Pijslum, Myskuna oss þa fyrer JEsu Davids Sonar Skulld, Og laat oss verda
epter þvi sem vier vilium, Sem er, Ad vier frelster af Synd, Dauda, Diofle
og Helvijte, meigum þier þioona i Riettlæte og Heilagleika um allar
Allder Allda, Amen, J JESU Nafne, AMEN.

# Þridia Suñudag i Føstu

## Gudspialled, Luc. 11. Cap.

N Þeim Tijma. JEsus rak wt Diøful þañ er Maallaus
var. Og þad skiede, þa Diøfulleñ var wtfareñ, ad hiñ
Maallause talade, og Foolked undradest þad. Eñ nockrer
wt af þeim søgdu: Fyrer Belzebub Diøfla Høfdingia þa
drijfur hañ Diøflana wt. Adrer freistudu hañs, og leitu-
du af hønum epter Teikne af Himne. Eñ er hañ saa þeirra Hugrenn-
ingar, Sagde hañ til þeirra: Hvørt Rijke, sem i sialfu sier er Sund-
urþyckt, þad mun eydast, og hvørt Hws mun yfer añad hrapa. Og
ef Andskoteñ er i siaalfum sier Sundurþyckur, hvørneñ maa hañs Rij-
ke þa standast, fyrst þier segied mig fyrer Belzebub wtreka Diøflana?
Eñ ef eg fyrer Belzebub wtrek Diøflana, Fyrer hvørn wtreka þa ydrer
Syner? Þar fyrer skulu þeir og verda ydrer Doomendur. Eñ ef eg
rek wt Diøflana med Guds Fijngre, Sañlega er þa Guds Rijke kom-
ed til ydar. Nær ed sterkur Hervopnadur vardveiter sitt Andyre, þa
er allt med Mak hvad hañ aa. Eñ nær añar Ofersterkare kiemur og
yfervinur hañ, þa fletter hañ hañ øllum Hertijum, aa hvør ed hañ tre-
yster, og i Sundurskipter so hañs Herfaange. Hvør hañ er eige med
mier, sa er aa moote mier, Og hvør sem samañsafnar ecke med mier,
sa sundurdreifer. Nær Ohreirn Ande fer wt af Mañenum, raafar
hañ um þurra Stade, leitar ad Hvijld og fiñur ecke, Þa segier hañ:
Eg vil aptur hverfa i Hws mitt, hvadañ eg foor wt; Og þa hañ kiem-
ur, fiñur hañ þad soopad og prijdt. Þa fer hañ og tekur med sier
Sjø adra Anda sier verre, og sem þeir eru þar inkomner, byggia þeir
þar, og verdur so þess Mañs hid Seinasta, verra hinu Fyrra. Eñ
þad skiede þa hañ talade þetta, ad Kona nockur wt af Foolkenu, hoof
upp

upp sijna Raust og sagde til hañs: Sæll er sa Kvidur sem þig bar,
og þaug Brioost sem þu mylkter. Eñ hañ sagde: Jaa ad vijsu; Sæl-
er eru þeir sem heyra Guds Ord, og vardveita þad.

## Exordium.

ECKe Er Laan Leingur eñ Lied Er, segia Meñ i Fornkvednum Ords-Hætte,
Og er hañ sañur, Þvi þegar Eiganden aptur heimtar, þa er hañs Riettur wte
ad brwka, Sem Laaned took: Og svo sem þvi er hættad Almeñelega æ med-
al vor Mañaña, So er þad eirneñ æ sig komed æ mille Guds og Satans; Andskot-
eñ hefur æ Stundum nærsta Diarftækur vered til ad høndla med hañs Skiepnur,
Þa honum fyrer Einhvorn Tilgaang hefur þad leift vered, Eñ aungvañveigeñ maa hañ
raada yfer þeim moote Vilia hiñs Almaattuga. Ad søñu heyrdum vier ei alls fyrer
laungu, ad hiñ Blygdunarlause Diøfull baud vorum HErra, ad hañ villde giefa hon-
um øll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Eñ hvad miked Rijke hafd-
er þu þa i Heimenum Satan? Er þu þorder ecke ad bwa i Svijnunum fyrer utañ Leife
DRottens vors, Matth. 8. Syne sijnum hefur Gud feinged Raad yfer Verølld-
eñe, Hvorn hañ sett hefur Erfingia allra Hluta, Hebr. 1. Honum hefur hañ giefed
allt Valld, Bæde æ Himne og Jørdu, Matth. 28. Eñ ecke Diøflenum. Þar fyr-
er, Þoott ad DRotteñ kalle hañ Høfdingia þessa Heims hiaa Joh. 14. Þa er þad ei
svo ad skilia, ad hañ med Frjaalsu hafe nockra Stioorn æ Jørdu i þeim Hlutum, sem
Valldstioorneñe vidkoma, Helldur meinar Lausnareñ þar med Heimeñ, Sem eru þe-
ir Ogudlegu, Þad eru Vantrwareñar Børn, Eph. 2. J hvørium Diøfulleñ maatt-
ugur er til ad drijfa þaa epter Villd siñe til allskins Synda og Lasta. Ei þorde hañ ad
granda Jobs Lijkama fyrr eñ Gud gaf honum Leife þar til, Job. 2. Ei gat hañ Þet-
ur sigtad, Þvi vors Endurlausnara Bæn maatte meira, Luc. 22. Og svo sem Aud-
skoteñ hefur eckert med Christum, Edur þaa sem i honum eru, Svo kuña ei helldur
hañs Børn Guds Børnum ad granda framar eñ Gud leifer. Øll vor Høfud-Haar
eru taleñ, Og ecke fellur eirn Titlingur æ Jørdu aan hañs Vilia, Matth. 10 Nu
þo ad Satan vel vite, Ad hañ megnar eckert med øllum sijnum Jllsku-Krapte æ moote
Einu Guds Orde, Þa fær hañ ei vid siñe Jllsku giort ad æreita Gud og hañs Utvall-
da. Alldrei er svo sterkur Kastale, ad ei þurfe ad vaka svo leinge Strijded yfer stend-
ur. Nu er Lijf þetta ecke añad eñ sijfelld Baraatta, Job. 7. Bæde hid Ytra og Jñ-
ra, Þvi er Þørf ad Saaleñ vake i Hiartanu, Sem er Slot Lijkamans, Og bidie svo
ad vier føllum ecke i Freistne, Matth. 26. Jeg sagde fyrer Skomu, Børn mijn: Ad
Audskoteñ hefde eckert med þaa sem eru Gude Handgeingner, Eñ þad gyllder æ medañ
þeir eru i hañs Þienustu, Eñ ecke añars. Svo marger sem ecke geingu wt af sijnu
Hwse þa Noott, Sem Paaska-Lambed var ad Kvøllde eted, Þeir urdu frij fyrer
Mord-Einglenum i Ægypta-Lande, Exod. 12. Guds Osyneleg Kyrkia hier æ

Jorduñe, Er Hws þad, hvar iñe hid Saklausa Guds Lamb, Sem burttook Heimsins Synder, verdur Daglega slaatrad og offrad i Riett-Trwadra Hiortum þeim Himneska Fodur til Sætleiks Ilms: Gaanger þu wt af þessu Hwse, Christeñ Madur, Þa kañ eg ecke ad segia þig Ohultañ fyrer Draaps-Einglenum; Eñ þyker hitt lijkara, ad þu meiger i hañs Hendur falla. J þessu H. Evangelio hofum vier Epterdæme, Bæde uppa Andskotans Illskufulla Medferd a Syndugum Moñum: Og so hañs Barna Hreckvijse a moote Gude og hañs Bornum. Vil eg þvi i þetta Siñ tala. 1. Uñ Dioufulsins Valld yfer syndugu Hollde a hinum Fyrre Dogunum/ Og so nu. 2. Uñ hañs Illsku i þvi ad spilla vorre Andlegre Velferd.

Styrk oss þar til Naadarfulle Gud, Med Krapte þijns Anda, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

MJog so Aumkunarlega hefur þesse Mañeskia halldeñ vered, sem hier uñ gietur i Gudspiallenu: Þvi hvad kañ Vesællra ad vera, eñ þegar Tunga Mañsins er bundeñ i hañs Muñe, so hañ fær ecke talad vid adra Meñ sier til Skiemtunar, Eige kvartad uñ þa Hlute, sem hañ aangra. Eirn Maalleysingur er i Heimenum so sem fyrer utañ Heimeñ; Hañ hefur Tungu og talar ecke, Og ecke ollu betur eñ ein Lijkneskia er hañ a sig komeñ. Nu eykur þad þo miklu a, ad raada er af Gudspiallenu, Ad þesse Plaaga hafe vered af Dioflenum, Og er þvi ecke ad neita, Ad Gud hefur Andskotanum leyft mikla Hlute i Lijkamlegum Efnum, A Dogum gamla Testamentesins, A Hierviistar-Dogum vors Frelsara, A Dogum hañs H. Postula, Hvoria hañ sier i Lage wtsende i sijnu Nafne til ad planta siñ Vijngard a medal Mañaña Sona hier a Jorduñe, Og so nockra Stund fram epter Olldunum, Til ad styrkia og auka þessa nyiu Plantan, med Auglijsingu sijns Maattar yfer Dioflenum. Hañs Owtsegiañlegre Myskunseme og Naad hofum vier þad ad þacka, ad vier fiñum ecke so miog þar til a vorum Dogum, ad Dioflenum sie leyft ad hafa Valld yfer Mañeskiuñe i Lijkamlegañ Maata. Fiærre sie þvi, ad eg segie þad Gud kuñe ecke, ef hañ vill, ad brwka Andskotañ til ad straffa Synder Mañaña, Þvi hañ er i hañs Hende, So sem oll hañs Verk. Hitt efast eg uñ, Hvort þad sie hañs Vilie nu uñ Stunder. Sa Alvitre Konungur hefur Þusund Veige og Maata til ad stioorna sijnu Rijke. Eins og eitt Kongs Rijke umbreytest a marga Vegu epter Tijdunum, so siaaum vier eirneigeñ, ad þad er skied i Guds Rijke hier a Jorduñe. Ad soñu er hañ ecke sialfur i nockru uñbreitañlegur, helldur uñbreiter hañ ollum Hlutum, epter þvi sem hañs Guddoomlegu Speke haga þyker. Hañ talade sialfur vid Fedurna fyrer Floodet; Hañ giorde slijkt hid sama vid Abraham og hañs Epterkomendur, allt til Moysen. Moyses took Niettindeñ af hañs Muñe, og fieck þau Israels Sonum, Og hañ gaf þeim fyrer hañs Hond sitt H. Logmaal, Skrifad a Stein-Toblum til ad lisa epter, Exod. 24. Hañ stioornade sialfur eins og eirn Veralldlegur Konungur sijnu Foolke, Þar til þeir villdu ei leingur laata hañ

Drott-

Drottna yfer sier, Og hañ gaf þeim Saul Konung i Bræde siñe, Hos. 13. Hañ talade þo vid hañs Epterkomendur fyrer Muñ siña Spaamaña, og jafnvel i Herleidinguñe lagde hañ sitt Ord i þeirra Muñ. Eñ i Tijmans Uppfyllingu hefur hañ talad vid oss fyrer Soneñ, Heb. 1. Og laated hañ sem er wtgeingeñ af hañs Skaute, Joh. 1. Opeñbera Moñunum siñ Vilia, Eñ þegar hañ stie til Himna og iñgieck i sijna Dijrd, Pa sende hañ Postulum sijnum H. Anda af sijnum Fodur, Joh. 15. Saa er leidde þa i allañ Sañleik, Joh. 16. Og kiende þeim ecke einasta hvad þeir tala ættu fyrer þeim, sem Saaluhiaalpena erfa skylldu, Helldur og fyrer Herrum og Konungum, Matth. 10. Sem ossookttu Guds Evangelium. Pesser eru þeir, sem oss hafa Guds Vilia skrifadañ epterlaated i Gudspiollum, Sendebrefum og Opeñberunum, fyrer hvor ad Guds Kyrkia stioornast eñ nu i Dag hier aa Jorduñe. Sijdañ þeirra Daga vitum vier ecke til ad Gud hafe talad vid Meñena, Nema i þessu sijnu H. Orde, Hvort ed eñ nu Daglega kieñest og predikast medal vor. Af þessu siaaum vier, hvorsu margbreitt ad hefur vered Rijkisstioorn þess Maattuga Allsheriar Konungs hier aa Jorduñe. Eñ hvad Satans Urriettingum vidvijkur, Pa sie eg ad hañ hefur leyft honum marga Hlute ad fremia aa Gamla Testamentesins Dogum. Honum þocknadest ad laata hañ slaa siñ Pienara Job, med Saarum og Kaunum, Job. 2. Uppaa þad hañ reynde hañs Poleñmæde, Og sijnde Andskötanum hvorsu ad Guds Kraptur være i Mañsins Breiskleika maattugur, 1. Cor. 12. Hañ leyfde Tofra-Moñum Pharaonis marga undarlega Hlute ad giora fyrer Satans Krapt, Exod. 7. 8. Uppaa þad hañ med þeim, og þeir med honum yrdu til Skañiar, fyrer Moysi Guds Pienara. Gud leid honum ad aaklaga Josuam þañ Ypparsta Prest, Zach. 3. So hañ af hinum Ædsta Biskupe Saalna vorra straffadur yrde, Og añad þvi uñ lijkt, Er ad lesa i Sögum Gamla Testamentesins. Hvar fyrer munde nu Gud giora þetta? Ecke þess vegna, ad hañ ei giæte med sijnum Almættis-Krapte alla Hlute verkad, Epter þvi sem sialfur vill hañ, Pvi fyrer honum er eckert Ord Omaattugt, Luc. 1. Helldur eins og hañ liet Pharaonem standa og ecke uñ Koll steipast, Par til hañ Optsiñes audsijnde sijna miklu Makt aa honum, Rom. 9. So liet hañ aa þeim Dogum Andskotañ brwka aa Stundum sijna Makt, til ad laata Mañkyned siaa, hvad miklu Gud være honum sterkare, So þeir lærdu ad trwa aa eirn DRotteñ Gud, og engvañ añañ. Alldrei hefur þo Andskoteñ feinged so mikla Makt til ad opeñbera sig Moñunum, So sem aa Hollds-Vistar Dogum vors Lausnara, Og lijtur þad eins wt, So sem Gud hafe viliad geyma sijnum Eingietna Syne þa sterkustu Orustu moote honum, So hañs Sigur yrde þess frægare medal Mañaña. Hañ talade vid hañ sialfañ eins og Madur talar vid Mañ, Matth. 8. Hañ kvallde Dootter þeirrar Canaanisku, Matth. 15. Hañ kastade þeim Diofulooda aa Vatn og Elld, Matth. 17. Hañ bioo i þeim Tveimur Gergesenis, Matth. 8. Hañ giorde þeñañ Maallausañ, Sem vor Texte uñ talar. Hvar fyrer mun þetta skied vera, Br. M? Mañsins Styrkleika siaa Meñ ecke, Nema hañ hafe einhvorn ad reyna Orku vid.

vid. Og ſo ſem Endurlauſnareñ ſegier i þeſſu Evangelio; Þegar eirn ſterkur Hervop-nadur vardveiter ſitt Andyre, Þa er allt med Mak, hvad hañ aa, etc. Þad var vörum HErra fyrer miñſtu, ad þvijnga Dioſuleñ epter ſiñe Villd. Añad var hañs Eyren-de meira i Heimeñ, Sem var ad lwka þa Sekt, Er Mañkyned aatte Gude ad gialld a. Eñ ſo ſem DRotteñ i Gamla Teſtamentenu leyſde Andſkotanum ad ſijna Megn ſitt odruhvoriu, Moſſunum til Epterteektar, ſvo leyſdeſt og þeſſu Illhvele ad vada hvad meſt uppe og brwka Makt Myrkrañа, aa medañ Guds Sonur umgieckſt hier aa Jordune i Mynd eins Þioons, Þeim ollum til Trwarſtyrkingar, ſem aa hañs Nafn trwa villdu, Ad þeir ſiaa mættu ad ſo audvirdelegur, ſem hañ var, Þa være hañ þo ſaa ſem af Gude ſendur være til ad nidurbriota Dioſulſins Verk, 1. Joh. 3. Og med ollu ad ſundur-mola Hoggormſins Hofud, Gen. 3. Heſde og Guds Eingieteñ Sonur ſtrax ſem hañ var til Himna fareñ, Bunded ſo Hendurnar aa Dioſlenum, ad hañ hefde ecke feinged odruhvoriu ad ſlaa ſig ſialfañ aa Muñeñ, Þa kañ ſkie, ad Illþijded i Verollde ñe hefde ſagt, eins og þeſſer ſegdu; Ad fyrer Beelzebub hefde hañ wtreked Dioſlana aa ſijnum Hiervíſtar-Dogum, Þvi gaf hañ honum og nockurn Taum um̃ Poſtulaña Daga, ſem er ad ſiaa af þeirra Giorninga Book, og aa medal añara, þegar Satan maatte til Skam-ar ſier medkieña, JEſum veit eg, og Paal þecke eg, Eñ hvorier erud þier? Act. 19. Þad er og lijklegt, ad Faatækum Fiſkurum, ſem hielldust fyrer Afſkwm Veralldar, munde ecke hafa ſtoorum trwad vered i þeim Hlutum, ſem ſo eru gagnſtæder Holldlegre Skyn-ſeme, ſem Chriſts Evangelium er, Heſde hañ ei ſtadfeſt þeirra Predikun med þeſſum og odrum jafnvægum Kraptaverkum. Daaſamlega hefur Gud uppbygt ſijna Kyrkiu hier aa Jorduñe, Hvor ſem þar ad vill giæta, ad hañ hefur læted hana vaxa fyrer utañ allt Mañlegt Yferlæte, Og alleina af þeim Hlutum, Sem ecke ſtanda i nockurs Mañs Vallde, Nema honum ſie þad af Gude giefed. Og er hun i þeſſu lijk Salomonis Muſt-ere, ſem bygt var fyrer utañ allt Haareyſte, So þar heyrdeſt ecke Axar edur Hamars-Hliood, 1. Reg. 6. Segied mier, Hvort nockur Atrwnadur hefur ſo byriaſt ſem þeſſe? Edur ſo leinge ſtodugur ſtaded, Nema honum hafe framfylgt vered af Mañlegu Vall-de? Eñ ſijdañ hiñ Alhage Smidur hafde ſo faſtañ Grundvoll lagt fyrer Spaameñena og Poſtulana, Eph. 2. Og allra hellſt fyrer hiñ ſterka Hyrningar-Stein, Hvorn Gud hefur ſett i Zion, Eſa. 28. Ad hañ yrde Hofud Hyrningar um̃ Alldur og Æfe, So ad vel maatte ofañ aa byggia, þa hefur hañ læted Spaadoomunum ſlota og Krapta-Verkunum liña. Gud giorer ongvañ Hlut forgiefens, Og ſo ſem þad var ecke Naud-ſynlegt, ad Gud talade framar vid Meñena, Edur opeñberade ſig epter Poſtulaña Da-ga og Spaamañaña, Þar allur Guds Vilie er opeñber i þeirra Bookum og Pſalmum; Svo lagde hañ og Hapt aa Andſkotañ, epter þad hañ ei þurfte framar ad auglijſa ſijna miklu Makt aa honum. Jeg veit eingeñ Rok til ad Gud hafe giefed Satan nockurn Tijma Taum, alleina til ad kvelia Meñena, þvi hañ hefur nog Raad til ad ſtraffa Synd-er vorar aan þeſs, Helldur añadhvort til ad reyna ſiña Barna Trw edur ſiaalfum hon-

unn

um til Hegningar. Eda segied mier, Nær Satan hefur auglijst sijna Makt, nema sier til Svijvirdu og sijnu Rijke til Nidurdreps? Sijdañ Gude hefur nu þocknast ad brwka oñur Medøl til ad stioorna med siñe Kyrkiu, Sem er hid skiæra Lioos Evangelii, Pa vill Gud ecke leika fyrer Mañlegre Forvitne med Opeñberunum edur Kraptaverkum, Par þeir eru O-affsakañleger, sem eige vilia Guds Orde trwa. Herodes vænte ad hañ munde sia Teikn af JEsu, Luc. 23. Eñ JEsus var ecke i Heimeñ komeñ til ad skiemta Herodi. Satan villde eirneñ, ad hañ auglijste sitt Almætte a Steinunum, Matth. 4. Eñ Christur sijnde honum, ad hañ var sa Almattuge Hyrningar-Steirn, sem hans Hofud hefur i sundur broted. Þetta Foolk beiddest epter Teikne af Himne, Og þootte þad ecke noog, ad þelr sau Dioffuleñ wtrekeñ, Eñ HErrañ sagde þeim skyllde ecke Teikn giefast, nema Jonæ Spamañs, Matth. 12. Þvi eins og Jonas var Ninive, munde Mañsins Sonur verda þessare Kynslood. Eñ þeir sem nu ecke vilia Gude trwa, Nema þeir þykest Dioffuleñ sia, Skulu eckert Teikn sa, nema Mañsins Sonar, Hvørs Greftrunar og Upprisu Teikn ad Jonas var. Og vilie þeir ecke þar med nægilast, munu þeir sia hañs Teikn i Skijum Himens, Er hañ kiemur med Makt og miklu Vellde, Matth. 24. Ad Fordæma bæde þeirra Hiatrw og þeirra Vantrw, Sem a Jordu byggia.

J Añañ Mata vil eg taka mier Orsok af þessum Mallausa Mañe, til ad skoda asamt ydur, hvort ecke er sumum Moñum i Verolldu þessare eins miked Afatt i Andlegre, So sem honum var i Lijkamlegre Heilsu. Ei þurfum vier langt ad leita ad Dæmum þar uppa. Hvorra Kostur var betre, þeirra er sogdu ad JEsus ræke wt Dioflana fyrer Beelzebub, edur þessa Malleysings? J hinu Fyrsta Bodorde hefur DRotteñ tilreidt sier eitt Mustere i Mañenum, Segiande: Þu skallt ecke hafa Añarlega Gude fyrer mier, Exod. 20. Hvad hañ wtleggur i odrum Stad, Segiande: Elska skallt þu DRotteñ Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, Og allre Aundu þiñe, Og ollu Hugskote þijnu, Devt. 6. Eñ strax i Odru Bodordenu hefur hañ skickad Kieñemañ til þessa Musteris, Sem er Tungañ. Þegar Kieñemeñerner i Gamla Testamentenu fooru til Frietta vid DRotteñ, Pa leitudu þeir hañs optast i Helgedoomenum, Svo tekur og Tungañ af Hiartanu, Allt þad hun tala skal, Og af þess Nægd mæler Muñureñ: Eñ segied mier: Verdur nockud Guds Mustere helgad, Þo þar være Hiegoomleg Æfeñtijr og Skrok-Sogur þuldar? Eñ sijdur verdur Hiartad helgad med fanijtum Paunkum. Ad eg tale ecke uñ skamarleg Ord og fiflslegt Hial, Sem Christnum soomer ecke. Eph. 5. Soddañ er undarleg Þogn i Guds Eyrum. David bijdur ad Meñ sieu ecke eins og Hestar og Mwlar, Hverium Meñ verda Bitel og Beisl i Muñ ad leggia, Ps. 32. Eñ þad er Sorglegt ad vita, Hvorsu Mallausar Skiepnur eru fremre morgum Gudlausum sem vanhelga hañs H. Nafn, Forsmaa hañs Ord, Hæda ad hañs Pienurum, Spotta hañs Kieñingar, Og alldrei edur allsialldañ taka sier hañs Dijrdarfulla Nafn i Muñ, Nema þa þeir Liwga edur Sveria. Añnañ talade Fordum Daga,

Num. 22. Þegar Gud sende siñ Eingel til Balaam ad mootstanda honum, og hun talade riett. Eñ þau Otomdu Villudijreñ, sem ad nu uppalast i Heimenum a Andskotans Stalle, hafa lært añadhvort eckert edur Illt ad tala, Þa Gud sender sijna Einglа, Mal. 2. Þad er sijna Kieñemeñ til þess ad leida þa til Himnarijkes Eru ecke soddañ fraaleitar Mañeskiur halldnar af daufum Diofle? Jeg vil nu ei tala um Bænrækt arleysed i Heimenum. Hvor er sa er leite ad DRottne og akalle hañ i Neyd eñe, Ps. 59. Meñ laatast koma samañ i Hwse Guds, og Meñ kriwpa þar nidur til ad Fridmæjast vid hiñ Almattuga, Eñ Gud giæfe þad være med sañre Trw, Lijtelæte og audmiwkum Anda. Allt þad sem ecke er af Trwñe, Þad er Synd, Rom. 14. Sa sem bidur an Trwar, Hañ bidur ecke einunges Forgiefens, Helldur gioter sijna Bæn ad Synd, So sem David Oskar þeim Ogudlegu, Ps. 109. Og Meñ lasta Gud meir eñ dijrka med soddañ Bænum, Verande ecke einasta Maalhallter, Helldur verr eñ Maallauser fyrer honum. Ecke þarf mikeñ Orda-Fiollda til ad vera Maalsniall fyrer Gude, Sem er Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare, Jer. 17. Eingeñ sa Moysis Varer bærast, Exod. 14. Og sagde þo Gud vid hañ, Þvi hroopar þu þañeñ til mijn? Koñañ sem um ʒietur, Matth. 9. Talade ecke Ord fra Muñe, helldur sagde med sialfre sier, Ef ad eg mætte ad eins snerta Falld hañs Klæda, Þa munda eg Heilbrigd verda, Þo vard Myskunsemdaña Afgruñ ad byrta sig fyrer heñe med þessum Ordum: Vert þu Hughraust Dootter, Þijn Trwa giorde þig Heilbrigda. Hvor kañ oss hier um betur ad undervijsa eñ sa Eingietne Sonur Fodursins, Sem er i hañs Skaute? Þar hañ segier til siña Lærisveina, Matth. 6. Þegar þier bidiest fyrer þa vered ecke margordir so sem Heidingiar þeir ed hyggia, Ad þeir fyrer Mælge sijna Bænheyrder verde. Anda og Sañleika ber oss ad bidia, Joh. 4. Þa tala Meñ noogu sniallt fyrer Gude, Þvi þad er sa Maals-Hattur sem honum þocknast. Aller Meñ kostgiæfa ad tala þeirre Tungu sem Konungureñ talar, So eiga vor Bænarord Guds Orde samlijk ad vera, Uñ hvort David so talar: HErra, þijn Ord eru glooande, og þar epter vill hañ breita nær hañ segier: HErra, Mijnar Varer skulu þijnu Lofe wtfleyta. So sem heitt Vatn i Suduñe ysergeingur og skwmar, Hvort ed ei kañ leingur ad hallda sier i Katlenum fyrer Hita, Og þad kallar St. Paall, Rom. 12. ad vera glooande i Andanum, Eñ þessar Glædur Hiartans astundar hiñ vonde Maalleysis Diofull ad wtslockva a einhvorn Hatt, So þo vier tolum, þa skule Gud ecke heyra, Og þo vier bidium, skulum vier ecke Bænheyrder verda, Og þo vier wtbreidum vorar Hendur, þa hylie þo Gud sijn Augu fyrer oss, Esa. 1. Þvi glepur hañ fyrer oss i Bæneñe med Hiegoomlegum Þankum, Med Vantrw, Med Epterlaungun til vorra Uxa og Bwgarda, Eda med Velgin Andans, So vier ecke medtekner, Helldur wtskirpter verdum af Guds Muñe, Apoc. 3. O oss auma! Vier erum ei betur a oss komner eñ Lazarus, Hvor ed ecke kuñe ad gaanga fyrr eñ Christur skipade ad leysa af honum Bondeñ, Joh. 11. Svo erum og vier, Ad vier meigum ecke tala riett vid Gud i Bæneñe, Nema hañ uppleyse Fiotur

otur vorrar Tungu, Og wtreke Mælleyſeſins Dioful, Eñ legge Elld-Kol ſijns Anda'ar
vorar ſaurugar Varer, Eſa.6. Pañeñ erum vier nu vid Gud, Eñ vid Naungañ ong-
vu betre. Hvor kañ ſtærre ad vera Tunguñar Breſtur eñ ſa, Nær Meñ giora ſtoorañ
Roog af þvi, ſem eckert er? Hvad kañ Vidurſtyggelegra ad huxaſt edur talaſt, Eñ
ad brwka Tunguna, Hvor ad er eirn hiñ beſte Limur a Mañſins Lijkama, Sem giord
er til ad loſa Gud ſiñ Skapara, Til ad forſvara ſiñ Naunga, Til ad ſemia Frid millum
Sundurlyndra, Ad brwka hana, ſegie eg, Til ad myrda hiñ Saklauſa, Og linga Lijf og
Eru af ſijnum Naunga? Lijgeñ er verre ollum odrum Andſkotans Illſku Aundum,
Þvi er ſa plagadur med vondum Diofle og þwngu Mælleyſe, Er ſier hana temur. Oll
Synd er Lijge, Og fyrer hina Fyrſtu Andſkotans Lijge, Gen.3. er oll Synd iñkomeñ i
Heimeñ, og ſijdañ wtruñeñ til allra Maña, Og þoott ad aller ſieu ecke ad þeſſu ſundner,
Pa er þo hier fyrer utañ morg Tunguñar Vanbrwkan, Sem i allañ Mata er Oſæm-
ande. Þar eru þeir til, Er eckert Velgiort þyker, Utañ hvad þeir ſiaalfer giora, og
laſta añara Giorder, Jafnvel þær, ſem ecke Laſtverdar eru. Falle margviſſleger Doo-
mar um eirn Hlut, kieppaſt þeir vid ad filla hañ Flock, Er færer a hiñ verra Veg. Þeſs-
er eru giarnañ ſiaalfer hiner ſijdſtu og odrum lakare, Og af þvi þeir vita ad þeir eru
ſiaalfer illa ræmder, Pa ætla þeir ad añara Ohroodur mune þeirra Aſſokun verda. Þu
Hræſnare, Segier Frelſareñ: Drag fyrſt Biaalkañ wt wr þijnu Auga, Luc.6. Þad
være vel adgiætande, Ad ſa være Heilſkign ſiaalfur, Sem dæmer um añars Blindne.
Jeg veit ad þad er Loflegt ad ſegia einum til ſiña Laſta, Þvi ſegier DRotteñ Gud, Levit.
19. Þu ſkallt ſtraffa þiñ Naunga, So þu berer ei Skulld hañs vegna, Eñ þad a ad
vera epter Skynſeme, So ad Gaukureñ dæme ecke um Svana Hliooded, Eda Hrafneñ
um Sund-Fuglana. O HErra Gud! Hvor kañ ad vita hvad opt hañ ſyndgar? Pſ.
19. Dæmed ecke ſegier Endurlauſnareñ, ſo þier verded ecke dæmder. Fordæmed ecke,
ſvo ad þier verded ecke Fordæmder; Þvi med þeim ſama Mæler, Sem þier odrum mæl-
ed, mun ydur aptur mællt verda, Matth.7. Hvad margur dæmer ſiaalfañ ſig Ovitan-
de, Þegar hañ adra dæmer fyrer ſomu Leſte, Er hañ er meſt hladeñ ſiaalfur? Og eckert
er tijdara eñ þad, ad Meñ lijta þad a odrum, Er þeir vita med ſiaalfum ſier, Viliande
þañeñ dyliaſt fyrer Moñunum. Þar eru og ſoddañ ſkynlauſar Mañeſkiur til, Sem lijta
ſiñ Naunga fyrer þaa Hlute, ſem honum er ecke i ſiaalfs Vallde ad giora vid. Sodd-
añ er eirn ſkadlegur Illſku Ande, Þvi hvor hañ foraktar Fatækañ, Hañ hæder Skap-
arañ, ſegier Salomon, Prov.17. Svo er og um hvad añad. Sie einhvor Vitgrañ-
ur, Veſæll, Ofrijdur, Maalhalltur, Eda hefur nockurn þvilijkañ Breſt Natturuñar,
Sem hañ fær ecke adgiort, Pa fiñaſt þo ſoddañ Vitſtola Mañeſkiur, Sem ecke ſkamaſt
ſijn ad hafa þvilijkt ad Haade. Heyr þu ſyndugur Madur, Er hañ Fatækur, Seig
mier: J hvoriu ert þu Audugre? Þar hañ vantar Fiemunena, Hvorium Molur og
Rid kañ ad granda, Eñ þig vantar Peckinguna a Gude og ſiaalfum þier: Er hañ Van-
ſkapadur og ei ſo Giorvilegur; Þorer þu ad ſegia þad lioott, Sem Gud hefur ſo vera

lated? Eñ lijt þig hid Jñra, ef þu matt, Og skoda hvorneñ Diofulleñ hefur afmyndad
Saalu þijna, Þad þu matt ecke lijta riettu Auga til Guds Skiepnu: Hañ er Vitgrañ-
ur og veit ei hvad giora byriar, Hvoriu ert þu Vitrare? Þar þu med Sialfs-Þoottan-
um og hañs Nidran giorer þig honum þess Faavijsare, Sem Odur Madur er Heimsk-
um argare. Lucifer, Hvors ad gieted er hier i Evangelio, var af þeim i Samaria Beel-
zebub kalladur, Þad er Flugna-Hofdinge, Og þad af þvi, ad Illsku Ondunum i Lopte-
nu verdur vid Flugur samlijkt, Eph. 6. Eñ þad er þeirra Art ad sækia þar mest ad odrum
lifande Skiepnum, Sem þeim er Meinsamast, Og hvar sem Horunded er af, Þar setiast
þær a og stijnga. Þeim eru hiner Ogudlegu Spottarar lijker, Sem eru þroottker um
añars Mein, og una sier illa nema einhvor steite sig, Sveria sig so i Ættena ad þeir sieu af
Fiandanum, Uñ hvorn Paulus talar, Eph. 2. ad hañ sie eirn Hofdinge, Sem Vallo
hafe i Loptenu, Verkande i Þvermoodskuñar Bornum.

Þesse Maal-Hellte drottnar eñ nu so miog i Heimenum, Ad þoott aller hate hana a
odrum, Sem Von er, Þvi hun spiller hinum besta Hlut, Sem er gott Mañord og
Rykte, Þa gieta so faer vaned Tungu sijna þar uñ, Og eru þeir af Dioflenum þwngle-
ga plaagader, Sem þañeñ lynder eru, og være ollu betra ad þeim være Tungañ wr Mu-
ñe skoreñ, Helldur eñ ad þeir sieu veltalande til þess, ad safna sier þeim Syndum, Er
þvi vallda, ad þeir ecke faa eirn Vatns Dropa til ad kiæla hana med, Nær þeir pijnast i
Helvijtis Ellde, Luc. 16. Af hvorium St. Jacob segier: Ad þvilijkar Tungur sieu upp-
tendradar. Þvi ef Endurlausnareñ skipar ad wtstijnga þad Augad, sem hneixlar,
Matth. 18. Þa er lijklegt ad hid sama meige þess helldur uñ Tunguna segia, Sem hun
er hæfare til ad drijgia fleire og verre Synder, Nær hun misbrwkud er. O HErra
JEsu Christe! Þu Saklausa Guds Lamb, Sem ecke upplaukst þijnum Muñe, helldur
eñ Saudur til Slaatrunar leiddur, Esa. 53. Virdst þu ad temia vora Tun-
gu til ad lofa og dijrka þitt H. Nafn a medañ vier hrekiunst i Utlegd þess-
are, so ad vier þier eilijft Lof sijngia meigum i Dijrd Himnaña,
med ollum Utvolldum Guds Bornum, Amen.

## Suñudageñ i Midføstu.

Gudspialled, Joh. 6. Cap.

A Þeim Tijma. Epter þetta foor JEsus yfer uñ Slaafar-
Hafed Galileæ, sem liggur vid Stadeñ Tiberiadis, og mikell
Mañ-Fiollde fylgde honum epter, Þviad þeir saau hañs Jard-
teikn, sem hañ giorde a þeim sem Siwker voru. JEsus gieck
uppa eitt Fiall, og setteft þar nidur med sijnum Læresvein-
um: Eñ þa var Paaska Haatijd Gydinga naalæg. Og JEsus leit
þa upp, og saa ad mikell Mañ-Fiollde kom til hañs; Þa sagde hañ til
Philipp-

Philippum: Hvadañ kaupum vier Braud so ad þesser neyte? Eñ þetta sagde hañ til ad freista hañs þar med, Þviad hañ visse sialfur hvad hañ villde giøra. Philippus svarade honum: Braud fyrer Tvø Hundrud Peninga nægest þeim ecke, So ad hvør eirn fæe þa nockud lijted. Eirn af hañs Læresveinum, sem ad var Andreas Brood er Simonar Petri, sagde honum; Eitt Ung-Meñe er hier, sem hefur Fim̃ Bygg-Braud og Tvo Fiska; Eñ hvad skal þetta æ medal so margra? Þa sagde JEsus: Læted Meñena setiast nidur ad borda. Eñ þar var i þeim Stad Gras miked: Og þar settust nidur ad borda, Kall-Meñ ad Tolu, nær Fim̃ Þusunder. Eñ JEsus took Braudeñ, Þa hañ hafde Þacker giørt, og fieck sijnum Læresveinum, eñ þeir feingu þeim sem til Bordsins høfdu setst: Slijkt hid sama af Fiskunum, So miked sem hvør villde hafa. Eñ þa þeir voru metter, Sagde hañ til siña Læresveina: Safned samañ þeim Leifum sem af geingu, So ad eckert spillest. Eñ þeir søfnudu þeim samañ, og fylltu upp Toolf Karfer medur þessar Leifar, af þeim Fim̃ Bygg-Braudum, Hvørlar ad voru auk þess sem þeir høfdu neytt; Eñ þa er þesser Meñ sau hvørt Teikn ad JEsus giørde, Søgdu þeir: Þesse er sañarlega sa Spamadur sem i Heimeñ skal koma. Eñ þa JEsus formerkte þad, ad þeir mundu koma og Handtaka hañ, og giøra hañ ad Konunge, Veik hañ Eiñsamañ burt, upp aptur a Fialled.

## Exordium.

Nu af þeim Gomlu Spekingum sagde Fordum Daga, ad Natturañ være Anægd med Lijted: Eñ ef vier eigum ad skrifa under med honum, Þa munar ma nockru hvorneñ Natturuñar Þijding er tekeñ, Þvi skiliest fyrer þetta ecke nealldlega Saal og Lijkame i sialfum sier, Þa er þad satt ad þau þurfa ecke mikels vid af Verdllegum Munum sier til Vidværis. Þegar Lijkameñ er O-sollteñ og O-froseñ, þa er honum noog; Eñ þegar Saaleñ gyrnest ei framar, þa er hun Anægd og vardar litlu med hvoriu þesse Naudþurft er uppfylld, Þvi eins vel unde Adam i Skiñ-Kyrtlenum, Gen. 3. og Salomon i allre siñe Prijde, Matth. 6. og Johañes ollu betur i Ulfallds Felldenum, Matth. 3. helldur eñ Herodes i siñe Purpura Kapu, Act. 12. Eñ sie Natturuñar Gloosa tekeñ fyrer Syndumspillt Mañsins Edle, þa hefur hun nær þvi alldrei noog, Hun er Elldenum lijk, Sem þess meir logar sem meir er i hañ bored. Blooð-Sugañ slepper Hwdeñe um̃ sijder þegar hun er full ordeñ; Eñ Syndumspillt Nattura sialldañ þvi er hun leggst a. Sadningeñ er heñe Ordsok til æ meira Hwng

urs og hun verdur alldrei Sodd nema med Sulltenum. Vilie nockur sedia hennar Hijkn, þa tekst þad ecke med ödru Moote enn ad draga vid hana Foodred, svo hun dragest siælf upp umm sijder. Hvad lijtels ad Nætturann af siælfre sier vid þurfe, Þad kienner oss Frelsarenn hier Luc. 12. Cap. medal annara, Þar hann segier: Vered ecke Hugsiuker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta, Eda fyrer ydar Lijkama, hvoriu þier skulud klædast; Er ecke Lijfed meir enn Fædslann, Og Lijkamenn meir enn Klædnadurenn? Enn þoott ad vor Nattura þurfe ecke margra Hluta eda mikillrar Umsorgunar vid, Þa hefur Gud samt tilskickad, ad Madurenn skule med Erfide næra sig af Jordunne alla sijna Lijfs-Daga. Þad gamla Logmæl stendur enn nu i Dag Oraskad; J Sveita þijns Andlitis skallt þu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Gud hefur lofad ad blessa Israels Erfide, Devt. 28. Enn ecke hanns Jdiuleyse, Hann giefur ad sofnu þeim er hann elska sitt Braud, þa þeir sofa, Ps. 127. Hann lætur Himenenn rigna, Jordena grooa, Fienadenn Avaxtarsamann verda og Votnenn af sier giefa allra Handa Fiska, Þoott Madurenn sofe: Enn samt hefur hann þo ecke hier med leyft ad hann skule alldrei Vaka, Ongvum hefur hann heited ad steikt Giæs skule fliuga i Munn honum. Letenn er eirn lifande Daude og vakande Svefn, og vinnur ecke nema til Oþocka, Bæde hia Gude og Monnum. Ef nockur rietter Einhvorium Olmusu og hann nenner ecke vid ad taka; Hvad kann sa vid þvi sem giefur? Og svo er þad eirneigenn, Þegar Gud upplijkur sinne Milldu Hende til ad sedia allar lifande Skiepnur, Og lætur Grased vaxa a Jordunne, Fiskenn tyngast i Votnunum, Fienadenn Avaxtast a Landenu; Enn Mennerner forsooma ad hyrda þessar Guds Gaafur: Er þa nockud Skullden hia vorum Skapara? Laangt fra þvi. Mann liet hann rigna ad sofnu a Eydemorkunne, Exod. 16. Enn siælfer mattu Israels Syner þad samann lesa, Og alldrei veit eg ad Mannenum sie Atvinnu sinne lofad nema hann hafe Umsorgun þar fyrer med sijnu Erfide, Þo ecke med Heidinglegre Buk-Sorg, Med hvorre Gud bannar ad þijngia Hiortun, Luc. 21. J einu Orde ad segia: Ad leita fyrst Guds Rijkis og hanns Riettlætis, svo oss allt annad Gott tilleggiest, Matth. 6. Þad er sa riette Vegur, Enn þadann fra liggia Tvær Ville-Gotur: Onnur til Lete og Omennsku, Onnur til ofmikellrar Ahyggiu. Badar verda oss bannadar i upplesnu Evangelio; Af hvoriu eg vil þad alleina tala i þetta Sinn, Hvornenn vier eigum Christelega og Ærlega ad leita Næringar vorrar. Hiælpa oss hier til goode Myskunnsemdanna Fader fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

Upphafe þessa H. Evangelii heyrum vier, B. G. E. ad þegar vor HErra foor yfer umm Siooenn, sem liggur vid Stadenn Tiberias, Þa hafe Mannfiolde mikill fylgt honum epter, Þviad þeir saau þær Jardteikner er hann giorde a þeim Siuku. Sannlega hefur þad vered Eyrende þessa Foolks ad heyra JEsum og hanns Kienningar, hvoriar hann stadfeste med Kraptaverkum. Þeir telia ecke epter sier ad fylgia honum epter, þo hann geinge a Eydemorku, Þvi JEsus Gieck Uppa Eitt Fiall segier Textenn, og þeir

þeir faast ecke um̃ þad, ad þeir hofdu eckert til Matar med sier, og ei helldur var þar ad faa i Obygdeñe. Lær hier af Christeñ Madur, Hvorneñ þu ætt ad haga Daglega þijnu Framferde. Þesser voru 5000. ad Tolu, Eñ Gud giæfe, ad 5. findest i morgum Þusundum ai medal vor, sem læta sier um̃hugad vera, ad leita fyrst Guds Rijkis, og hañs Riettlætis, ædur eñ þeir fara ad þijngia sitt Hiarta med Sorgum þessarar Næringar. Ecke er hier gieted um̃, ad þetta hafe skied æ Sabbats edur Hvijldardeige, Þad hefur og ecke vered, Þvi añars munde DRotteñ hafa byrtst i Samkunduñe, og ecke vered æ Reisu þañ sama Dag: Þu skallt og ecke meina, ad þad sie noog ad þu hlauper til Kyrkiuñar hvorn helgañ Dag. Hvorn Dag ættu ad Offra Gude Þackargiordeñe, Þvi hvorn Dag er hañs Myskun ny og fersk yfer þijnu Hofde, Thren. 3. Þu medtekur æ hvorium Deige þitt Daglegt Braud med þijnum Muñe; Þvi æ og þiñ Muñur Daglega ad lofa og prijsa hañ sem þig og allar lifande Skiepnur mettar med siñe Velþocknan, Eñ þu ert Hyrdulijtell þar um̃, Og þier þyker þeirre Stundu illa vared vera, sem þu giefur Gude til ad bidia hañ um̃ sijna Blessan, Eins og honum sie veitt i þvi ad Myskuna þier. Hvorn Afgud giorer þu sialfañ þig? Meinar þu ad eirnrar Stundar Erfide drage þier meira eñ hañs Adstod, sem i einu Augnablike snere Vatne i Vijn, Joh. 2. Sem med siñe Blessan mettade 5000. Mañs af 5. Bygg-Braudum? Mun þitt Viku-Verk med allre þiñe Ahyggiu verka meir, eñ hañ sem æ 6. Dogum skapade hid Dæsamlega Stoorvirke Himens og Jardar? Gen. 1. Og þo ert þu svoddañ Sialfbyrgingur, ad þu villt ecke faa hañ i Lid med þier, ædur eñ þu geingur til þijns Erfidis. Veitst þu ecke ad Madureñ lifer eige af einusamañ Braude, helldur af sierhvoriu Orde sem framgeingur af Guds Muñe, Devt. 8. Tveir Veiger liggia til alls Nægta i Heimenum, Añar i giegnum mikel Um̃svif med Martha, Luc. 10. Eñ Añar med Mariu, ad þvo Fætur JEsu med sijnum Tærum, og þerra þaa med Haar-Lockum sijnum, Joh. 11. Ecke segie eg, ad þessar Leider kuñe ecke samañ ad liggia, Og þoott siñ fare hvoria, ad þeir kuñe ecke bæder ad hafa sama Nætur-Stad, þvi Martha og Marla kuña vel ad forlijkast i einu Hwse, Þo so ad hin giore ecke þessa afskipta edur klage yfer heñe, Þvi hun hefur utvaled þad gooda Hlutskipted, Luc. 10. Luckulegt er þad Hws, hvar Forsioon og Gudrækne halldast i Hendur, So ad Maria bidur eñ Martha stidur, Eñ skule añars hvors æn vera, þa er saa læengtum betñe sem liggur Riettlijnis til Guds, helldur eñ hiñ sem lætur oss flækiast i krijngum hañs Skiepnur. Vor Ahyggia og Ervide kañ ad bregdast. Hvad margur viñur Bake brotnu, Og þrijfst ecke samt? Eñ Gudrækneñ hefur alldrei nockrum brugdest, Helldur verda þeim aller Hluter ad Goodu, Jafnvel sialfur Skortureñ, sem ad Gud elska, Rom. 8. Sieu þeir Lijkamlega Volader, Þa eru þeir i Gude Rijker, sieu þeir foracktader i Heimenum, Þa eru þeir þo mikels metner i Himnenum. Skal eg kalla hañ Rijkañ, sem æ morg Naut og Saude? Og ecke miklu helldur þañ, Sem æ Himens og Jardar Skapara. Ef Gud blessar ecke sijna Þioonustu med Rijkdoome, Þa bregdst þad þo alldrei, ad hañ blesse hana med

sialfum

siaalfum sier. Saa er ecke Rijkur sem miked aa, helldur hiñ sem lætur sier nægia: Eñ hañ sem hefur Gud, hañ er alltijd aanægdur, Þvi þegar hañ hefur DRotteñ, þa skeyter hañ hvorke um̄ Himen nie Jord, Ps.73. Mig skal ecke furda þo Gud laate aa Stundum sijna Elskendur vanta Audlegd Heims þessa, Þvi hañ hefur giefed þeim laangtum betra, sem er siaalfañ sig. Þegar nockur hledur sitt Skip med Nytsamlega Voru, þa lietter hañ aa sier Barlesteñe. Hvad skyllde hañ, sem fullur er af Gude, vilia þyngia sig med Mam̄ona? Og mun hañ ei alla Vegana varast Diøfulsins Snørur, sem Gud hefur Einusiñe veiddañ i sijnu Nete? Saa sem Gud hefur, hañ hefur meir eñ allt, og hañ sem ecke hefur Gud, hañ hefur miña eñ ecke neitt, Svo verdur giefed þeim sem hefur, og teked fraa þeim sem ecke hefur, Eirneigeñ þad hañ hefur edur meinar sig hafa, Marc. 4. Vier heyrum fram̄veigis i Gudspiallenu, ad DRotteñ segier vid Philippum: Hvar Kaupum Vier Braud, Svo Ad Þesser Neyte? Allt Valld hafde JEsus aa Himne og Jordu, Matth. 28. Þo Raadgast hañ um̄ þetta vid siñ Læresvein, hvar þeir kuñe Fædslu ad kaupa. Med hvøriu Orde hañ bender þier til, Christeñ Madur, hvørneñ þu att ad leita þiñar Atviñu, Sem er i allañ Leifelegañ Maata. Ecke ad Andskotans Raade, Þvi hañ stelur ollu þvi hañ rædur til, Og ert þu þa hañs Þioofsnautur, ef þu fyrer hañs Aeggian wtvegar þier Foostur: Ecke med Okre, Þvi DRotteñ segier: Þu skallt ei faa þijna Peninga þijnum Broodur til Okurs, Devt. 23. Ecke med Kwgun edur Harddrægne, Þvi Gud hefur Andstygd aa þeim, Sem selur Lijtelmagnañ fyrer eirn Pening, Og hiñ Faatæka fyrer eirn Skoo, Amos. 2. Næst þessum sitia i Andskotans Rijke Þioofarner, Sem wtrietta sijnar Hendur til Añarlegra Fiaarmuna, um̄ hvøria St. Paull segier, 1. Cor. 6. Ad þeir ecke eignest eilijft Lijf, Og i Sañleika, Þa er Þioofureñ Svijvirding bæde fyrer Gude og Moñum. Ad soñu segier Syrach, Cap. 20. ad lijdañlegre sie Þioofureñ eñ Lygareñ, Þo mune baader til Olucku verda. Eñ þegar eirn Odaada Skielmer tviñar hvørttveggia samañ, mun hañ ecke flietta Oluckuñar Snøru handa sijnum eigeñ Haalse? Og þoott hañ meige um̄flya þa Tijmañlegu, Þa er eckert vijsara, Eñ ad honum saalgad verde med eilijfre Kyrkingu i Helvijte, Þvi eg hafde nærre þvi sagt, Ad þad være Þioofsins Lucka, ef hañ yrde heingdur, Ef skie mætte, ad Galgeñ frijade hañ fraa Helvijte. Heyred þier Satans Born, Ef nockrer erud, sem meiged Ord mijn heyra, edur til þeirra spyria: Erud þier eñ nu ecke Oþyrster vordner af Bloode faatæks Almwga hier i Lande? Nær vilied þier laata af ad wtsiwga Hws þeirra sem ydur Forsorgun veita med sijnu Erfide? Skulu Guds Born leinge bera ydar Svijvirdingar? A Gud oss leinge reidur ad vera fyrer ydar Saker? Geingur ydur þad ecke til Hiarta, ad hañ straffar þa fyrer ydar Skulld, sem ydur ala? Hafed þier ecke heyrt, Hvørsu Gud vard reidur vid Israel fyrer eiñsamañ Achans Þioofnad? Jos. 7. Vited þier ecke hvad Drotteñ segier hiaa Zach. 5? Þad er su Bolvan sem wtgeingur yfer Landed, Þvi aller Þioofar verda sagder froomer epter þessu Brefe, Eñ eg vil þad fram̄koma laata segier DRotteñ Zebaoth, ad þad skal koma yfer Þioofsens Hws, og

þess

þess Hws sem sver Falsklega vid mitt Nafn, Og þad skal blijfa i þeirra Hwse og eyda
því med þess Stockum og Steinum. Peinked þier þa, Fyrst hañ lijdur ydur ad plaaga
sijn Born medañ ydar Tijme yferstendur og Makt Myrkrañа, Pad Gud mune vera
eins og þier, Af því hañ þeiger? Ps. 50. Og sier þo þetta, og ecke vitia um sijder ydar
Ogudlegs Athæfis i siñe Reide, Sem ad breñur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32.
Par fyrer lææted af Illu, O! Pier Eitur-Ormar og Nodru-Kyn, og læred gott ad gio-
ra, Es. 1. Hvør hañ hefur stoled, Hañ stele ei framar, Helldur Erfide med Hondun-
um? Eph. 4. Maureñ er eirn veikur Hoopur, þo wtvega þeir sijna Fædslu um Sum-
ar-Tijmañ. Kunijseñ er og veikur Lijdur, þo byggia þeir sitt Hws a Steinum. Gr-
as-Hoppurnar hafa aungvañ Konung, þo gææanga þær allar wt i Hoop. Gongu-
Rofañ viñur med sijnum Footum, og er i Konungaña Hybijlum, Prov. 30. Petta
giora hin Vesælustu Kvikinde Jardar, Eñ hvad giored þier, sem Gud hefur giefed skyn-
semdarfulla Saal i Heilbrygdum Lijkama? O Pier hin hreckvijsa Kynslood! Hvorsu
vilied þier umflyia Guds Reide og Fyrerdæmingena? Matth. 23. Nema þier ydrest af
Hiarta. Gudspiallamadureñ segier, ad JEsus Hafe Talad Pesse Ord Til ad Freista
Hañs med, því hañ visse Siaalfur hvad hañ villde giora: Pu skallt og ecke laata þig þad
undra þott Gud reyne sijna, Christeñ Madur: Gud freistar ad soñu einkis Mañs til
Ills, segier Jacob, Cap. 1. Eñ til Goods freistar Gud Mañsins, so ad Reynsla vorr-
ar Trwar siñest Gullenu dijrmætare, 1. Pet. 1. Til Lofs og Dijrdar Christo. Abraham
vard freistadur, Gen. 22. so hañ være Fyrermyndan allra Abrahams Sona, su Cana-
aniska, Matth. 15. So eingeñ orvænte þoott Gud meige þeigia um Stund vid Bæn-
um siña Barna. Merkelegt er þetta, ad DRotteñ spyr Philippum ad þessu framar od-
rum; Sañlega, því hñ hefur Trwarveikur vered, so ad þad Dijrdlega Kraptaverk er hñ
villde giora, mætte þess betur gææanga honum til Hiarta. Eda hvad segier vor HEr-
ra, Joh. 14. vid sama Læresvein, er hañ beidde ad hañ sijnde þeim Fodureñ, Trwer þu
ecke ad Fadereñ er i mier og eg i honum? Og varla odruvijse voru hiner Læresveinar-
ner aa sig komner, Hvar fyrer Endurlausnareñ straffar þa, Matth. 16. Pa þeir hofdu
Brauded eptersliled, Segiande: O þier Lijteltrwader, Eñ þa skilied þier ecke, muned
þier ecke þau 5. Braudeñ þar ed voru 5000. Mañа? Og hvad margar Karfer þier
upptookud. So vill nu vor JEsus med Reynsluñe og Auglijsingu sijns Almættis
midt i Freistinguñe smaamsamañ iñplanta Trwna hiaa sijnum Læresveinum, og sama
giorer hañ eñ nu i Dag, Pa hañ Hiaalpena undañdregur, edur lætur Veniuleg Lijfs-
Medol bresta. Gud naade, Poott Meñ sieu Christi Læresveinum i flestu Olijker nu i
Heimenum, Pa fiñast þo marger þeirra Lijkar i þessu, Braud fyrer 200. Peninga næg-
er þeim ecke. Eñ hvad giorum vier? Strax sem vier hofum ecke fullañ Maaga Mat-
ar, þa er þar Muñureñ fullur Orvæntingar. Ef þar er ecke allt fyrer Augunum sem
eta skal, þa segier hiñ Vantrwade, þott Gud giore Glugga aa Himeneñ, þa kañ þad ecke
ad skie ad Meñ lifi, 2. Reg. 7. Eñ hiñ Matvande gietur ecke lifad vid þad Liettmete

sem Daglega fellur, Hañ segier, hvar vill þesse giefa oss Kiot a Eydemorku? Num. 11. Sijnest nockud Omogulegt, þa hæder Mañleg Skynseme þar ad. Hvorneñ skal þesse giefa oss sitt Holld ad eta og sitt Blood ad drecka? Joh. 6. Þesse Orvæntingareñar og Oþoleñmædis Ord, byrgia tijdt og opt aptur Guds Myskunar Ydur, so hañ lætur hinum Gudlausa verda epter Trw siñe. Heyred þier mier, er þa nockurt Ord O-mattugt fyrer Gude? Hañ sem skapad hefur Steineñ, Kañ hañ ecke ad giefa Vatn af honum? Num. 20. Hañ sem giort hefur Vatned, Hvad liett veiter honum ad um̄hverfa þvi i Vijn? Joh. 2. Er honum nockud bægara ad læta mig fiña Gull i Fisksins Muñe, helldur eñ i Filsunum Jardar? Er ecke Hrafneñ grædug Skiepna? Þo liet hañ Eliam fa af hañs Muñe Kiot og Braud, 1. Reg. 17. Þressar nockur Oleum wt af Leyr-Kierum? Og þo fyllte Spamañsins Bæn og Eckiuñar Trw so morg Kier alle a Barna, 2. Reg. 4. Þu segier Gud giore ecke Kraptaverk a þessum Dogum so sem Eliæ. Eg medkieñe þad, Þvi þess gioreſt ecke Þorf. Gud hefur giort so morg Kraptaverk sijdañ Eliæ Daga, ad sa sem ecke vill Gude trwa fyrer þau, hañ munde ei helldur trwa þoott hañ sæe Eliæ Kraptaverk. Þar eru ei helldur marger a vorum Dogum, sem þioona Gude eins og Elias. Være þar Eliæ Trw, hañs Arvekne og Astundan i Guds Þioonustu, Þa trw mier til, ad Eliæ Gud er eirn og hiñ same, og ecke umbreytest hañ. Þu segier: Gud giorer eingeñ Kraptaverk, Eñ hvort er meira ad giora alla Hlute af ongvu, Gen. 1. Eda ad giora Vatn ad Vijne? Eda Steina ad Braudum: Mier sijnest eckert meira Kraptaverk eñ þad, ad Gud kañ ad forsorga þañ Vantrwada. Læresveinarner gaatu ecke wtreked Tunglmeina Diofuleñ fyrer þeirra Vantrwar Saker, Matth. 17. Eñ eins miked Valld hefur Gud yfer Dioflenum sem yfer odrum sijnum Skiepnum, Þvi sijnest mier þad yfer Mata miked Kraptaverk, ad Gud lætur hinum Vantrwada og Oþacklata nockurn Hlut ad nockru goodu verda. Þar fyrer E. G. V. Ef Mañlegur Veikleike kañ ad koma iñ hia oss, so sem Christi Læresveinum, Ef vier erum þeim lijker i Trwarveikeñe, Þa verum þeim ecke Olijker i Hlijdneñe: Þeir giordu slijkt er þeim var skipad, Þeir stoodu ecke upp i Nosunum a sijnum HErra, eins og ad være þetta Omedal, Svo sem ad giora vorer Þioonustumeñ a þessum Dogum, sie þeim skipad nockud Oveniulegt, þa hroopar hiñ Late, ad þar sie Leon a Veigenum, Prov. 22. Giorum þvi Verk Kallanar vorrar i Guds Otta, og vorpum allre vorre Ahyggiu uppa Gud, Hañ mun þvi vel til Vegar koma, 1 Pet. 5. JEsus Took Braudeñ i sijnar Hendur, segier Texteñ: J þær Blessudu Hendur took hañ þad, J hvoriar Fadereñ hefur lagt alla Hlute, Joh. 3.

Framar segier Gudspialled, Ad hañ hafe lited Augunum til Himens og giort Packer. Ei þurfte vor JEsus þessarar Blessunar vid, til ad giora Kraptaverk fyrer sialfañ sig, þad vottar hañ sialfur hia Joh. 11. segiande: Eg þacka þier Fader ad þu Bæn-heyrder mig, Eñ eg visse þu munder mig Bænheyra, helldur vegna Foolksens sem i kringum er, So ad þeir trwe þad þu hefur sendt mig. Þar fyrer skallt þu vita, Syndugur Madur,

Madur, hvorium Gud giefur Daglega sijna Blessan, ad þiñ Endurlausnare hefur giefed þier eitt blessad Dæme hier med, Þad þu trwa skyllder ad þijn Faung og Fæda verdur þa hellst til Blessunar, þegar hun er i hañs Nafne blessud. Þad er ei miña verdt ad giæta feingens Fiaar eñ ad afla, somu Atferd skal og Christeñ Madur hafa til hvors-tveggia. Jeg sagde fyrer skomu, þess skyllde i Guds Otta leita, so segie eg eñ nu, ad þess skal i Guds Otta neyta. Hvad segier DRotteñ um þa sem treysta a Maatt siñ og Megeñ, Es. 8. Vered iller þier Lijder, og reñed þo undañ, Herklæded ydur og hlauped þo aa Flootta, bwed ydur ut, og flijed þo undañ, aalyckted eina Raadagiord, og þar verde þo ecke af, Hafed Samtok. Eñ þad hafe þo ongvañ Stad, Og allt eins eru Sofn Maña og Addrætter fyrer utañ Blessan DRotteñs. Margur Hyrdulaus meinar, ad þetta sie ecke nema fanijtt Hial, sa ed ecke einasta hleipur sem añar Hundur til siñar Fædu, helldur og lætur sier alldrei til Hugar koma ad bidia Gud ad blessa sijn Efne. Oll Skiepnañ er good segier Paall, 1. Tim. 4. Og eckert burtkastande, Ef huñ er med Þacklæte medtekeñ, Þvi hun helgast fyrer Orded og Bænena. Eñ Gud næde hvada Þacker hin Eilijfa Myskunseme maa faa fyrer sijna Daglega Blessan hiaa morgum Mañe. Jeg meina þad sie sañast, ad vier setiunst nidur ad eta aa Stundum, og rijsum upp til ad dansa, Exod: 32. O! Mañeskia, Er þa Gud leingur ad svipta eñ ad giefa, Neidur helldur eñ Myskunsamur ad vera? Syrach. 5. Laate hañ oss nockud mootdrægt tilfalla, þad liggur so þwingt med oss sem Blij, Eñ ef hañ opnar sijna Myskunar-rijku Orlætis-Hond, Þad er hiaa oss liettara eñ Fis. Framveigis stendur i vorum Texta: Ad JEsus Hafe Feinged Sijnum Læresveinum BRauded, Eñ Þeir Feingu Þeim, Sem Til Bordsens Saatu, Slijkt Hid Sama Af Fiskunum, Svo Miked Sem Hvor Villde Hafa. Þetta sijnest mier vera ein aagiæt Lijfs-Regla fyrer Christeñ Mañ, hvorneñ hañ aa ad hondla med Guds Gaafur, sem honum eru i Hendur feingnar. Jordeñ er DRotteñs og allt hvad þar iñe bygger, Ps. 24. Sijna Raadsmeñ hefur hañ sett yfer Eigur sijnar: Hvor er sa Trwe Raadsmadur, segier JEsus, Luc. 12. Er hañs Herra setur yfer sijn Hiw, þad hañ giefe þeim i riettañ Tijma þad sem þeim ber? Sæll er sa Þioon, sem hañs Herra fiñur svo giora, þa ed hañ kiemur. Eins og JEsus fieck sijnum Læresveinum i Hendur Brauded, til ad wtskipta þvi medal Bordsitlandaña: So hefur hañ og þeim, Er honum þocknast, afhendt Audlegd þessa Heims, til ad wtbijta medal Þurftugra. Þu skallt ecke meina Christeñ Madur, ad þad sie allt þitt eiged sem þu medferdis hefur. Þad Braud sem Afgaangs er i þijnu Hwse, Er Forsorgun hiñs Volada. Sa Mottull er þu þarft ecke ad brwka, er Klæde hiñs Nakta, Luc. 3. Þau Faung sem aa añañ Veg hiaa þier skiemast og fwna, eru Lijfsbiorg hiñs Naudþurftuga, þar fyrer giorer þu so morgum Fatækum Oriett, sem þu mætter añars, þier ad skadlitlu hiaalpa, Ef þu þvi iñe helldur, þa hiñ Volade, sem er sañur Olmusu-Madur, vid þarf. Ei þurfum vier ad briioota nidur vorar Kornhlodur og giora adrar stærre, so leinge vier hofum Fatæka hiaa oss. Kornid liggur Jdiulaust i Hloduñe, og verdur kañskie um sijder af Orm-

um uppeted, Eñ hiaa hinum Faatæka ber þad Avoxt, so sem aa Akrenum. Soddañ Alur-Meñ eru nærsta þarfer. Jeg vil helldur saa einu Korne i Muñ hiñs Faatæka, helldur eñ Tiju i Jordena. Jeg vil helldur saa hinum Volada Tiju Peninga, Eñ kasta Hundrad aa Maangarans Bord, hañ mun þvi med Þusundfolldum Abata apturskila, Ef ecke i þessum Heime, Samt i Upprisu Riettlaatra, Hvar eirn Vatnsdryckur mun ecke Olaunadur verda, Matth. 10. Hiñ Raanglaate Raadsmadur var Ofrægdur vid siñ Herra, svo sem hefde hañ eydt hañs Gotze, Luc. 17. Meined þier ecke og ad Hroop hiñs Faatæka og Eckiuñar mune Ofrægia þa i Himnenum fyrer lifanda Gude, sem liggia aa Guds Gaafum, Svo sem Ormur aa Gulle, og ala Agyrndena, Eñ Faatækur fellur af Hwngre i Froste og stoorre Neyd, Þvi er illa wtsooad, sem of-vel er geymt, þvi slijkt er Ellds-Matur og Orma-Fæda, eñ kiemur ecke i Guds-Kistuna, svo þad verde ad Himneskum Fiesiood, Hvorium Molur og Rid kañ ecke ad granda, Matth. 6. Fordum Daga i Gamla Testamentenu, þa hafde Gud skiled sier vissar Foorner fyrer Syndernar, Ecke i þeirre Meiningu, ad Blood Uxaña og Hafraña kyñe ad hreinsa Samvitskurnar, helldur voru þar i fyrermyndud Epterkomande Giæde, sem er Blooded JEsu Christi, hvort ed hreinsar oss af ollum vorum Syndum. Eñ þesser Tijda-Sider eru fyrer laungu afteknar, Þar Guds Eingieteñ Sonur er i Holldenu opeñberadur, og hefur fyrer sitt eiged Blood Einusiñe iñgeinged i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þo eiga vorar Foorner og Upplyptingar-Offur Daglega ad uppstijga i Himeneñ fyrer Guds Haasæte, ecke einasta med Bæn og Andvarpan, helldur med Olmusugiordum vid Faatæka. Þijnar Bæner og Olmusugiorder eru uppstignar fyrer Gud sagde Postuleñ vid Cornelium, Act. 10. Þad er su Foorn sem Gude lijkar framar eñ Blood Uxaña og Hafraña, þa þad framkiemur af Trwudu Hiarta, Þvi segier Paulus til Heb. 13. Gott ad giora og ad wtbijta gleymed ecke, þviad slijkt Offur þocknast Gude. Hvar fyrer mun Gud laata suma Meñ vera Rijka, suma Faatæka i Heimenum? Mogulegt er honum ad laata alla vera jafna, og ongvañ þurfa añars med. Margar eru Ordsaker þar til, eñ þo ecke hin sijdsta, ad Gud vill laata sig dijrka af soddañ Mañeskium: Þad þier giordud einum af þessum miñstu, Þad giordud þier mier, Segier alls Hollds Doomare aa sijdasta Deige, Matth. 25. Miked er þad, ad Gud sem er einkis Þurfe, vill þiggia i þvi sem hinum Faatæka er gott giort: Þar eigum vier ad sijna vora Elsku til Guds, Þar er Skoole vorrar Gudhrædslu, Þar er þad Altare sem vier eigum ad leggja vora Gaafu uppaa.

Ein Brwdur skiemter sier vid Mynd sijns Brwdguma þar til hañ kiemur. Vor Meistare er nu tekeñ fraa voru Hofde og hafeñ yfer alla Himna: Mig hafed þier ecke alltijd hiaa ydur, Eñ Faatæka hafed þier hiaa ydur, sagde hañ, Joh. 12. Þeir eru hañs Lifande Eptermynd, og hañs Limer sem fara Ut og Austur, Og ecke hafa hvar þeir kuñe Hofde sijnu ad halla ad. Jeg meina ecke þa, sem fyrer Omensku Saker bidia um Olmusu, edur hina Drambsomu Lete-Maga, sem alla Hlute heimta af sialfs Vallde, og

gialda

giallda Bølvan og Formæling i Laun, ef þeirra Haals er ecke fylltur, helldur þa sem añ-
adhvort hafa slited siñe Heilsu med Ærlegu Erfide, eda Gud hefur siñ Kross aa Herdar
lagt (þvi ecke heyre eg miñ HErra hafa nockurn Hlut med Siaalfskylldu utheimt, þo hañ
hefde allt Valld bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28.) Þa byriar ad medtaka i JEsu
Nafne, og miñast þess er DRotteñ baud, Devt. 15. Alla Tijma munu þar verda Faatæ-
ker i Landenu, Þvi bijd eg þier og segie, ad þu skuler uppliwka þiñe Hende fyrer þijnum
Broodur sem þurftugur og Faatækur er i Landenu. Eñ þa þeir voru nu metter (segier
Texteñ) sagde hañ til siña Læresveina, Safned samañ þeim Leyfum sem afgaangs eru, svo
ad eckert spillest, og ad þeir hafe fyllt upp Toolf Karfer med Afgaangs-Leyfar. Hier kieñ
er vor Endurlausnare þier Syndugur Madur Logmaal Christelegrar Forsioodnar, sem
er ad hyrda vel Guds Gaafur. Gud saa allt þad hañ hafde skapad, og siaa þad var allt
harla gott segier Ritningeñ, Gen. 1. Ef þad var allt gott fyrer honum, i hvors Augli-
te Himnarner eru ecke hreiner, Job. 15. Skyllde þa nockur Skiepna vera so audvirdeleg
i þijnum Augum, O! þu sauruga Mañeskia, ad þu villder þar ecke um hyrda? O! HEr-
ra Gud, Vorar Synder, Vorar Synder, vort Oþacklæte og Ofmetnadur stendur mi-
er nu fyrer Augum. Hvad giorum vier a þeim goodu Tijmunum, þegar DRotteñ læ-
tur sijna Blessan aan Mælingar falla af Himnum ofañ i vort Skaut? Munum vier
nærsta hyrtner vera i Lande þessu ad samañsafna þeim Leyfum sem Afgaangs verda? Er
ecke allur añar Hiegoome dijrmætare i vorum Augum eñ þad sem Gud giefur oss til
Foosturs: Velger ecke vora Pioonustumeñ vid Daglegre Fædslu? Hyrda Meñ stoort
um ad nijta Guds Gaafur so sem giora mætte? Þessar Synder berum vier sijd-
añ; Kañ skie þad kiæme sier æred vel i Dijrtijdeñe, sem eingeñ nijter þegar allt er noog.
O! Hvad margañ kañ þa ad hwngra epter þvi sem hañ nu Foottredur? Þo kostum
vier Skulldeñe uppaa Gud, Eñ eingeñ gaaer ad þvi ad oss er þesse Hefndeñ nærsta mak-
leg, Og ad vier høfum þad og añad Þusundsiñum verra forskulldad. Laatum oss þess-
ara Synda ydrast, Born mijn, Og þær til Hiarta gaanga med Gudrækelegum Aset-
ninge ad breyta forsiaallega framveiges. Gud hefur aungvañ Hlut giordañ forgiess-
eus, Svo vill hañ og ecke laata illa nie Onaudsynlega þar med fara. So er og ei helldur
Gude þægt Metordagyrnd þeirra er sooa Guds Gaafum til ad wtvega sier stoort Nafn
þar med. Hvad talar DRotteñ um þaa er giora sijnar Olmusur fyrer Moñum, Sañ-
lega segie eg ydur: Þad þeir hafa sijn Laun wtteked segier hañ, Matth. 6. Þad er Hie-
gooma Dijrd og faanijtt Hroos Mañaña. Frelsareñ liet giefa þessu Foolke ad eta,
Þar til þeir voru metter, Þvi er afgieck skipade hañ upp ad safna. Þad er Christelegt ad
metta Maga hiñs Hwngrada, Eñ ad sedia Auga hiñs graaduga er Onaudsynlegt: Þar
eru marger, Sem Meñ giora verre med ofur miklu Orlæte og alltijd reidubwna til ad ga-
pa epter sama. Þad er Gudrækelegt ad safna Nægtum þegar vel geingur, Svo þar sie
til ad hiaalpa af i þeirre vondu Tijd. Þad er ein good Forsioon ad miñast þess Umlid-
na, Hyga um þad Nærveranda, Og siaa fyrer þvi Okomna, Þo fyrer utañ Bwk-Sorg

og O-Christelega Ahyggiu. Josephs Framsyne er hroosad ad hañ fyllte Korn-Hlödur Pharaonis a þeim goodu Arum, og frelsade Landed af Hwngre þa illa gieck, Hvar fyrer hañ kalladest Landsins Fader, Gen. 41. Pad er og hælfu verra ad eyda Onaudsynlega uppa sialfañ sig i Ofmetnade Klædnadareñs og Ohoofe Matar og Dryckiar. Ad soñu hefur Gud ecke bañad ad hafa Jñdæle af sijnum Skiepnum, Po so, ad Meñ gledie sig med Otta, og gleyme ecke hinum Þurftuga. Ecke er vijst ad Doomur hiñs Rijka hefde vorded svo skielfelega strangur, hefde ei Lazarus leiged Vatnande fyrer hañs Dyrum, Luc. 16. Sialfur Gud hefur giefed eitt Logmaal hier um sijnu Foolke, Devt. 16. Pu skallt vera gladur fyrer DRottne þijnum, Þiñ Sonur og þijn Dootter, Þiñ Þienare og þijn Ambatt, Leviteñ sem er iñañ þiña Port-Dyra, Hiñ Framande, Hiñ Fodurlause, og Eckiañ sem er hia þier i þeim Stad sem DRotteñ Gud þiñ hefur wtvaled þad hañs Nafn skule hia þier bwa. Svo hefe eg nu ad nockru Leite sijnt þañ rietta Veg til ad leita Atvinu siñar wt af þessu H. Evangelio, epter þvi sem eg skil af Guds Orde. Svo leited nu fyrst Guds Rijkis og hañs Riettlætis, Matth. 6. Brwked Leyfeleg Medol i ollum ydar Athofnum og Utriettingum. Treysted Gude ad hañ mune ydur og ydar forsorga, Pa þier so giored, bidied þañ Almattuga ad blessa ydar Faung, Ydar Karser og Afgangs Leysar: Gleymed ecke hinum Þurftuga og Volada. Lated ydar Olmusur framkoma af Trwñe og Elskuñe til Guds og Naungans. Hondled Vareygdarsamlega med Guds Giof, og vered þacklater bæde i Orde og Verke, Giored þetta, og munud þier alldrei illa fara. Eñ DRotteñ Gud eilijfur Konungur og alleina Rijkur, Hañ uppfylle alla ydar Naudþurft epter sijnum Dijrdar Rijkdoome i Christo JEsu, Phil. 4. Og giefe fyrer hañs Forþienustu, Ad þier ad afstadeñe Armædu þessa Lijfs, mættud iñleidder verda i Fognud ydvars HErra, til ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Og mettast af Nægdar Giædum Guds Hwss: Pad Bænheyre Myskunsamur Gud fyrer siñ Son JEsum Christum, AMEN.

# Suñudageñ epter Midføstu.

Gudspialled, Joh 8. Cap.

A Pañ Tijma. JEsus sagde til Gydingaña og Hofdingia Kieñemañaña: Hvor er sa af ydur, þad hañ meige straffa mig um nockra Synd? Eñ ef eg segie ydur Sañleikañ, Hvar fyrer trwed þier mier þa ecke? Hvor hañ er af Gude, sa heyrer Guds Ord, þar fyrer heyre þier þau eige, þviad þier erud ei af Gude. Eñ Gydingarner svorudu, og sogdu til hañs: Segium vier ecke vel, þad þu ert Samverskur, og hefur Diofuleñ? JEsus svarade: Eg hefe ecke Diofful, helldur heidra eg miñ Fodur, og þier Van-

heidred

heidred mig; Eg leita ei ad miñe Dijrd, sa er sem leitar og dæmer. Sañlega, Sañlega segie eg ydur: Hvor hañ geimer mijn Ord, hañ mun ecke Daudañ siaa ad Eilijfu. Þa sogdu Gydingarner til hañs: Nu þeckium vier ad þu hefur Diøfulenn. Abraham er daudur, og Spaameñerner, og þu segier: Ef ad sa er nockur sem geymer mijn Ord, hañ skal ecke Daudañ smacka ad Eilijfu. Hvort ertu meire Fodur vorum Abraham, hvor ed Framlideñ er, og Spaameñerner eru og Framlidner? Hvorn giorer þu sialfañ þig? JEsus svarade: Ef ad eg Vegsama mig sialfur, þa er mijn Dijrd eingeñ. Miñ Fader er sa sem mig Vegsamar, hvorn þier segied ydar Gud vera, og þier þecked hañ þo ecke: Eñ eg þecke hañ, og ef eg segde þad, eg þeckte hañ eige, þa være eg eirn Liwgare lijkur ydur; Helldur þecke eg hañ, og eg geyme hañs Ord. Abraham Fader ydar gladdest ad hañ skyllde siaa miñ Dag, og hañ saa hañ, og vard gladur vid. Þa sogdu Gydingar til hañs: Þu ert eñ ecke Fimtugur, og þo saastu Abraham? JEsus sagde til þeirra: Sañlega, Sañlega segie eg ydur: Ad aadur eñ Abraham var, em eg. Þa tooku þeir upp Steina, so ad þeir kostudu a hañ. Eñ JEsus fordade sier, og gieck wt wr Musterenu.

## Exordium.

J Aññarar Kongaña Bookar 9. Cap. Lesum vier, ad þegar Sendemadur Spaamañsins Elisæi hafde smurt Jehu til Konungs yfer Israel, Þa hafe hañs Herra Þienarar sagt vid hañ: Hvad villde þesse Vitfyrringur til þijn? Svo voru nu Jorams Villdar-Meñ Lynder, Af þvi þeir ecke þecktu DRottens Raad. Jeg er og hræddur um̃, ad þoott eg i Dag epter Guds Skipan, vilie smyria þeirra Saaler til Andlegra Konunga og Kieñemaña, Sem af Gude eru, med Himnesku Oleo, Sem er Guds Heilagt Ord, þa mune eg ecke betur wt lijta i þeirra Augum, Sem Holldlega Siñader eru, helldur eñ eirn Vitfyrringur, Þegar eg tala um̃ þaa Hlute, Sem Guds Anda eru og Holldlegur Madur ecke skyniar, 1. Cor. 2. Og er mier þad fyrer miñstu ad eg af Mañlegum Deige dæmdur verde, 1. Cor. 4. Þvi gott er ad eiga Hlutskipte med St. Paale; Vid hvorn Festus Landsdoomare sagde, Þa hañ talade um̃ Christi Pijnu og Upprisu Framlideña, Ad hañ være galeñ vordeñ, Act. 26. Eñ þad aangrar mig framar, ad Holld og Blood giefur sier ecke Stunder til ad rañsaka Dypt og Hæd Guds Vitsku, Og þa Speke sem hañ hefur Moñum opeñberad. Þegar Felix heyrde talad um̃ Trwna aa Christum, Um̃ Hreinlijfed, Um̃ Riettlæted, Um̃ Epterkomande Doom, Þa skielfest hañ vid, og lætur bijda ad hlusta til þess fyrr eñ hañ hefur Toomstund, Act. 24. Agrippa Konunge liggur vid ad verda Christeñ, Eñ

fyrer

fyrer þvi ad hañ hefur añad ad sijsla, þa dregst þad undañ, Act. 26. Hiñ Rijke Yngelijngur vill ad søñu fæ ad vita hiæ JEsu, hvad hañ skule giora svo hañ eignest eilijft Lijf; Eñ þegar hañ heyrer ad hañ skule selia allar Eigner sijnar og giefa Fatækum, Pa verdur hañ hryggur, Matth. 19. Hvad kiemur til þessa? Pad alleina, ad Meñ hafa ecke vel smackad hvad sætur ad Gud er, Ps. 34. Og ecke komed Auga æ þa Perluna sem Madureñ sæ, og sellde allt hvad hañ ætte fyrer þa somu, Matth. 13. Pvi eingeñ gyrnest þad sem hañ ecke þecker. Og þad er Ordsøkeñ hvar fyrer ad Guds H. Ord verda af svo fæum medtekeñ Pad og añad, Ad þar er svo mikill Ovinskapur æ mille Holldsins og Andans, Gal. 5. Liossins og Myrkursins, Riettlætesins og Ranglætesins, Christum og Belial, 2. Cor. 6. Guds Kyrkiu og Skurgodaña, Ad eingeñ kañ til Christum ad koma, Nema sa Himneske Fadereñ drage hañ segier Endurlausnareñ, Joh. 6. Hvar til hañ brukar sitt H Ord. Eñ þeir ed ei hyrda um ad gæanga i Lioosenu, Eda smacka hid gooda Guds Ord og Krapt Epterkomande Alldar, Ebr. 6. Hvorneñ meiga þeir umflija þad ad Myrkureñ høndle þæ ecke? Samt eru þo Guds Ord Lijf og Ande svo sem Endurlausnareñ vottar, Joh. 6. Og Gulled er Gull þo þad verde af Svijnunum Foottroded. Svo er og þad Orded af Krossenum Christi Heimska þeim sem tapader verda; Eñ oss sem Hoolpner verdum, er þad Kraptur Guds segier Paulus, 1. Cor. 1. Eckert Strijd ætte vor Blessade Endurlausnare meira vid Synduga Meñ hier æ Jørduñe, Eñ ad giora Mismun æ mille Holldsins og Andans, Svo ad jafnvel Nicodæmus sem var eirn Meistare i Israel, Joh. 3. og Gudhræddur Madur, Hañ var i þessu nærsta Tornæmur. Ad eg ecke tale um þañ Ogudlega Hoop Phariseaña og Skriptlærdra sem alldrei villdu læta telia sier Tru hier um, Og ecke lietu sier skiliast þad, þo hañ segde: Pier dæmed epter Holldenu, Joh. 8. Pier erud hier ad nedañ, Eg er ad ofañ. Og eñ nu i þessu Samtale sem DRotteñ æ vid þañ Ofyrerlætsama Flock Gydinga heyrum vier, ad æ mille ber um þessa Spurningu. Eg vil um þad alleina tala i þetta Siñ, Hvorneñ þeim hættad sie sem af Gude eru, ut af þessum Heiløgu Ordum. HVOR HANN ER AF GUDE, HANN HEYRER GUDS ORD.

DRotteñ gief oss þiñ Anda hier til fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

AF Gude eru aller Hluter i Ondverdu E G. B. So sem þar stendur Gen. 1. I Upphafe skapade Gud Himen og Jørd, Og eñ nu er þad svo, ad aller Hluter meiga af hønum segiast, Pvi hañ stioornar og stijrer øllum Hlutum, fræ þvi minsta Skridkvikende Jardar, allt til þess stærsta Dijrs sem er i Natturuñar Rijke, Og i hønum erum vier, lifum vier og hrærunst vier, Act. 17. Eñ ecke er þad þo Meining vors Endurlausnara i greindum Ordum. Peir kallast og af Gude ad vera sem i hañs Nædar Sættmæla eru iñtekner, Svo sem Israel var til forna kalladur Guds Foolk, Af þvi þeim var Guds Sættmæl og hañs Ord i Hendur feinged epter Guds Fyrerheite til

Abra-

Abraham. So erum og aller vier af Gude sem høfum Iklædst JEsu Christo i Skijr-
ñe, Gal. 3. og eigum ad samteingiast honum i Dijrdeñe, Heilagleikanum og Ostraffan-
legu Framferde, Eph. 6. Eñ eins og þvi hættad er i voru Lijkamlegu Edle, ad Meñ tæ-
ka ecke alltijd Voxt edur Afl, nie adra Koste i Arf epter Forelldrana, Og margur er sijn-
um Olijkur þo skylldur sie; Svo eru þar fleire Ismael helldur eñ Isaac i Hwse D Rott-
eñs, Sem ad er Christeleg Kyrkia, Og þeir gæanga ecke aller i Andanum sem þo eru l
øndverdu af Andanum Endurfædder, Þvi er og ecke þetta eigeñleg Meining vors Endur-
lausnara i þessum Ordum, Helldur meinar hañ þæ sem fyrst eru af Vatne og Anda End-
urfædder i Skijrneñe, Joh. 3. og JEsu Christo fyrer saña og lifande Trw eru iñplantad-
er, vordner Andleger Kvister æ þvi blessada Vijntrie, sem hañ umgietur, Joh. Cap. 15.
og bera þar fyrer mikeñ Avoxt, Hvørium hañ hefur giefed Makt Guds Børnum ad ver-
da, þeim sem æ hañs Nafn trwa, Sem ecke af Bloodenu, Edur Holldsins Villd edur
Mañsins Villa, helldur af Andanum eru fædder, Joh. 1. Þeir ed sijna þad i sijnu Fram-
ferde, ad þeir sieu flutter fræ Daudanum til Lijfsins af þvi þeir elske Brædurna, 1. Joh.
3. Ecke segie eg þeir sieu einasta af Gude sem eru æn Syndar, Þvi þa yrde eckert Holld
hoolped. Ef vier segium þad vier høfum ecke Synd, þa tælum vier sialfa oss segier Jo-
hañes, 1. Joh. 1. Oxeñ er ecke strax sett til Rootar Triæña sem nockur Blød følna, Þo
Kvistureñ um̃ nockra Stund bere ecke Avoxt, þa er hañ ecke strax afhøggveñ. Sa Him-
neske Urtagards Vørdur bidur siñ Fodur ad hid visna Trie meige eñ nu standa eitt Ar,
og hañ meige bera Myke krijngum þad og rækta þad, Luc. 13. Þvi mun hañ ecke kasta þvi
strax i Eldeñ sem þad ber lijteñ Avoxt. Mun hñ nockud utslockva þañ Lijttloganda Hor
Kveik, eda þañ brækada Reyr i sundur brioota, Es. 42. Nei aungvañveigeñ, hañ mun
forsiallega breita, so sem Fadereñ talar um̃ siñ Son, Es. 53. Hañ mun auka oss Trw-
na, Luc. 17. og bidia siñ Himneska Fodur fyrer oss þad hun þrotne ecke, Luc. 22. Helld-
ur tala eg hier um̃ þa sem syndga ad soñu, eñ læta þo ecke Syndena drottna i sijnum daud-
legum Lijkama, Rom. 6. Þa sem af Mañlegum Veikleika giora hid Vonda er þeir vilia
ecke giora, Eñ giora þo so miked gott sem þeir gieta, þar ed eirn og hiñ same þioonar Gu-
ds Løgmæle i sijnu Hugskote, Eñ þvijngast þo til af Ofbellde Nættuñar ad þioona
Syndareñar Løgmæle, Rom. 7. Og i einu Orde ad segia, sæ sem er syndugur ad sø-
ñu, eñ þo fyrer Christi Forþienustu jafnañ i Guds Auglite Riettlætur, og þott hañ synd-
ge, þa hefur hañ Arnadar-Mañeñ æ Himnum JEsum Christum hiñ Riettlæta, sem er
Forlijkun fyrer hañs Synder, 1. Joh. 2. Sa sem þañeñ er nu af Gude og Gud i honum,
Þegar hañ hefur Gud, Þa hyrder hañ hvørke um̃ Hiñen nie Jord, Ps. 73. Vei þeim
sem er einsamañ segier Predikareñ, Cap. 4. Þvi ef hañ fellur, þa er eingeñ ad reisa hañ, eñ
sæ er alldrei einsamañ sem Gud er med, Þvi Gud er i og med honum, Rom. 14. Fellur
hañ, þa stendur hañ upp aptur, þvi Gud reiser hañ: Ratar hañ i nockra Villu, þa vill-
er þo Heimureñ alldrei so um̃ hañ, ad hañ rate ecke heim aptur, Þvi Guds Nædarfullt
Tillit ævijtar hañ. Hiñ Gudlause fiñur ei til þo hañ syndge, meir eñ hiñ Daude þo hañ


sie

sie bareñ, Eñ þad Hiarta sem lifer i Gude, Pad er vidkvæmt vid Brodd Syndareñar.
Ei þurfte Nathan leinge ad telia uñ fyrer David, 2. Sam. 12. DRotteñ leit einasta
til Peturs, Og hañ gieck wt og griet beisklega, Matth. 26. Saa sem af Gude er, hañ
yfergiefur alla Hlute Guds vegna, hañ er i Heimenum svo sem fyrer utañ Heimeñ, svo
sem Faatækur, og þo marga Audgande, Svo sem eckert hafande, eñ eignast þo alla Hlu-
te, 2. Cor. 6. Saa sem uñ Hafed sigler, hañ huxar þo jafnañ uñ, hvorneñ hañ meige
komast i gooda Hofn. Hañ sem wt aa Akureñ geingur til ad erfida, hañ hefur þo jafn-
añ sitt Hws i Paankanum, og til þess giorer hañ alla Hlute, ad hañ faae þad vel forsorg-
ad, So er og hañ sem af Gude er, þoott hañ verde ad flækiast vid Syslaner Heimsins, epter
er Naudþurft Lijkamañs, Pa er hañs Takmark hiaa Gude, hañ slepper sier ecke so vid
nockurn Hlut, ad hañ hallde ei honum: Falle hañs Erfide honum liett og vel, Pad
miñer hañ aa ad þacka Gude fyrer sijna Giæsku og Epterlæte: Vilie þad mootdrægt
falla, Pa yfergnæfer þo Guds Elska hiaa honum. Ok Christi er honum Hunaang i
Muñe, og hañs Byrde liett aa hañs Herdum, Matth. 11. Pvi Gud hiaalpar honum
til ad bera. Hañ lærer fyrer Guds Saker bæde Haar og Laagur ad vera, Saddur og
Hwngradur, Noog ad hafa og Skort ad lijda, og alla Hlute formaar hañ fyrer þañ sem
hañ styrker JEsum Christum, Phil. 4. Poott hañ gaange i giegnum myrkvañ Dal
og Daudans Skugga, Pa hræđest hañ aungva Olucku, Ps. 23. Bere so til ad nock-
ur sie i Faangelse byrgdur, Hvad vardar uñ þad? Jeg sie Paulus og Silas eru laangt-
um gladare i Faangelsenu helldur eñ þeir sem ad Dryckiu sitia, Act. 16. Sooleñ upp-
lioomar þeñañ vorn Horizont edur Sioohverfis-Hrijng, og giorer Asijnd Heimsins
biarta fyrer vorum Augum, Po gietur Sky-Flookeñ byrgt hana fyrer oss. Eñ hvor
vill byrgia fyrer mier þa soñu Riettlætesins Sool, Mal. 4. Kañ nockur ad wtelykia
fraa mier Fodur Liossaña? Jac. 1. Hañ sem kom ad lucktum Dyrum, og stood midt
aa mille siña Læresveina, og sagde: Fridur sie med ydur, Joh. 20. Kuña nockur Myr-
kur, nockrer Mwrar ad loka hañ wte fraa mijnu Hiarta? So hañ giefe mier ecke siñ
Frid, hvorn Verollden kañ ei giefa, og hun ætlar mune vera Helvijte allra Eymda. Ef
eg er Landflootta, munu þeir nockud reka mig þaangad, hvar ecke er Hond DRottens?
Ps. 139. Sie eg foraktadur af Heimenum, Pad er mier noog ad eg verd heidradur af
Gude, af baadum kuña faaer under eins virdter ad verda. Sæler erud þier sagde Lausf-
nareñ, Matth. 5. Nær Meñerner hallmæla ydur og tala i giegn ydur alla Vondsku fyr-
er mijns Nafns Saker, Po liwgande. Hvort skal eg nu helldur wtvelia ad lijda Ill-
med Guds Foolke, Heb. 11. Eda ad hafa Tijmañlegt Epterlæte Syndareñar? Jeg
hyrde ei miked uñ þa Ofundar-Meñ sem Gud hatar. Hvad liett fellur honum ad for
smaa Heimeñ, sem forsmaadur er af Heimenum: Hafe eg mist Agiæte Veralldar þess-
arar, hvad rijdur mier aa þvi? Pad voru eingeñ wrtoku Giæde, sem svo fallvollt voru,
ad þau kuñu ad missast, Og þo eg miste allt þad eg aa iñ ad Hwdeñe, þa hefe eg þo eckert
mist, Pvi eckert af þessu var mitt, þa eg kom nakeñ i Heimeñ, eñ Gud var alltijd miñ med

ellt

einhvoriu Moote, Svo eg lifde ecke fyrr eñ eg ætte hañ fyrer Skapara, Og þad Eignar-
Skial bætteſt i Skijrneñe, og vard underſkrifad med JEſu dijrmæta Bloode, og iñſig-
lad med H. Anda, Svo ad miñ Vinur er miñ og eg ein hañs, Cant. 6. Allt fra Mooduꝛ
Lijfe epter Skopunar Endurlauſnar og Helgunar Riettenum, Honum vil eg alldrei ſlep-
pa, Fare allt añad ſem auded verdur. Take hañ Heilſuna fra mier, þa er honum þad i
Sialfs Vallde, eg a þar onga Sok a, eg bij i Leygu-Hwſe, og a ſa friallſt ad bygg-
ia þad og briota, ſem er Hwsboondeñ: Hvorke ſade eg nie plantade þad helldur eñ
Jonas Lundeñ, Jon. 4. Þo mijn Saala kuñe um Stund ad verda Orooleg i mier,
ſem Jonæ, Þa veit eg ad ſu Sott er ecke til Dauda, Hun ſtendur upp þegar miñ Heilſu-
giafare tekur i Hond heñar og ſegier: Talitha Kumi, Þad er, Stwlka, rijs upp, og er
mier þad noog þegar miñ betre Partur er heilbrygdur, Þad er Saaleñ. Þad kañ ecke
ſtoorum ad veikiaſt, hvors Kraptur ad Gud er, Þad ſie mier noog, ad eg veit eg er af
Gude, og hañ er mier Nadugur, þa hefe eg Frelſe i Bondunum, Fodur-Land i Utlegd-
eñe, Heidur i Forſmaneñe, Rijkdoom i Skortenum, Heilſu i Siwkdoomenum, Alls-
hattada Farſælld i allskonar Eymdum og Hormungum. Hvorneñ kañ ſa ad klaga
ad hañ vante Lioos, ſem bijr midt i Sooluñe? Kañ ſa ad beria ſier um Armood, ſem
Einuſiñe hefur eignaſt allrar Verallдareñar Skapara? Hvad kañ mig þad ad van-
ta, ſem Chriſtur ſie mier ecke? Vil eg hafa Mat og Dryck, Þa ſegier Chriſtur: Mitt
Holld er ſañarleg Fæda og mitt Blood ſañur Dryckur, Joh. 6. Vil eg Klædnad ha-
fa, Iklæded ydur HErranum Chriſto ſegier Poſtuleñ, Rom. 13. Er eg ſiwkur og
þarf Lækninga vid, Þa er Chriſtur Lijffins Trie, Hvors Blod ad þiena til Heidingiaña
Lækninga, Apoc. 22. Ef eg vil ugglaus bwa, þa flytur hañ mig wt i eitn ſterkañ Kaſt-
ala, Mijn Saal vonar uppa hañ alleina, Þvi hañ er mijn Von, mitt Trauſt, Pſ. 18.
Mijn Hialp og mijn Hlijf, ſo eg mun ei falla. Hia Gude er mitt Hialpræde, mijn
Dijrd mitt Styrktar-Biarg og mitt Athvarf er til hañs, ſegier David, Pſ. 62. Kvijd-
de eg vid Daudanum, Þa er Chriſtur Uppriſañ og Lijfed, Joh. 11. Og þo ad eg deye,
þa mun eg ſamt lifa, Epter þvi ſem hañ lofad hefur. Vilie eg hafa alla Andlega Far-
ſælld, Hvors kañ eg ad Oſka, ſem ad Chriſtur ſie mier ecke? Þar hañ er mier af Gude
giordur til Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Saaluhialpar, 1. Cor. 1.

Allt þetta hefur ſa hia ſier, ſem er af Gude, Ef ecke ſo fullkomlega ſem vier vilium, þa
ſamt er þar Vilie til hiñs Fullkomna, Sem er ædre allre Tijmañlegre Farſælld; Þvi ef
Guds fullkomeñ Ibwd er eckert añad eñ Himnarijke, þar Gud er allt i ollu, Þvi ſkyllde
þa ecke hañs Viſtarvera med oſs a Jorduñe, Þvi ſkyllde hun ecke vera eitt Jardneſkt
Himnarijke? Sijneſt mier þvi ad þeſſar tvær Sælur, mune ecke i ſialfum ſier, nema þvi,
ad ein er betre eñ oñur, og ein algiordare eñ oñur, Og aungvañ añañ Mun giorer St.
Pall þeirra, Þegar hañ ſegier, Ad nær þad kome ſem algiort er, Þa afleggeſt þad ſem
Halfverked er, og ad vier ſiaum nu ſvo ſem fyrer Speigel og i Radgatu, eñ þa mun-
um vier ſia Auglite til Auglitis, 1. Cor. 13. Framar, E. G. V. Hvad ſañarlegt er, hv-

ad ærlegt er, hvad Riettvijst er, hvad hreinlegt er, hvad Astsamlegt er, hvad vel-soomer,
Er þad Dygd nockur edur gott Rykte, Phil.4. Pad hugsar hann epter sem af Gude er,
og þad veiter honum liettara ad uppausa af Brunne Naadarennar, helldur enn þeim, sem
leita epter soddann i Fræde-Bookum Heidingianna. Hvorier þott umm Dygder og Mann
koste hafe skrifad bæde vel og viturlega epter Mannlegum Hætte, þa er þvi alltijd so vared,
ad saa sem dreckur ur Ohreinum Farveg, Hann maa vel vara sig vid ad ecke flioote Saur-
endenn i Munnenn med, Og þo Vatned sijnest tært ad vera, þa smackar þad alltijd af Leyrn-
um, so er og þetta. Vilie Menn af Heims-Spekinganna Vatns-Rennum drecka Vijs-
doomenn, Pa er alltijd hætt vid, ad þar flioote i bland nockrar Agner Holldlegrar Skyn-
seme, sem ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom.8 þvi þo þær sieu otrunnar i
Upphafe af þeim sanna Vijsdooms-Brunne, Pa fer þeim eins og odru Vatne, ad þad
dregur Daam af þeim Farveg er þad rennur umm. Trwed mier, svo eru og Spekinganna
Læker, ad þeir tapa sijnum Uppruna þa þeir renna umm Leyrvelltu syndumspilltrar Natt-
uru. Pad sem adrer hafa med stooru Erfide, Pad vinnur saa sem Gud elskar med stooru
Epterlæte. Eirn Romverskur Heidinge, þar ed hann laa i sijnum Lyste-Garde med Kunn-
ingium sijnum, og þotte vænt umm sialfann sig, hann sagde: Gud giæfe, þetta være ad gio-
ra vel, Meinande svo, ad være þad so Inndællt, Pa villde hann alldrei annad giora. Enn
þvi er ecke svo vared fyrer þeim, sem Gud elska. Liett falla Lostverkenn, seigium vier, og
so er þad fyrer þeim, sem elska Gud, Pvi þott ad Spilling Natturunnar strijde a moote
þvi sem Guds Anda er, Gal.5. Pa verdur hun þo liettar yferunnenn af Elskunne til Guds,
helldur enn af Natturunnar Kroptum. Pegar Madurenn a eirn Vin og annann Kunning-
ia, og þeir bidia bader umm sama Hlut, þa lætur hann þo sinn Vin fyrersitia, og so giorer saa
sem elskar Gud, þo honum þyke torvelldt ad laata a mote Holldenu, þa metur hann þo Gud
meir. Par voru nockrer Spekingar i Fyrndenne, er kolludust Stoici, Peir villdu dem-
pa eina Tilhneiging med annare, og setia þær svo i Lag, enn þad er laangsamt nockud og vinst
alldrei vel, Pvi Hofudenn a þeirre Hydra †, Syndumspilltre Natturu, þau spretta
jafnskioott upp aptur þo þau sieu smaamsamann afhoggvenn. Elskann til Guds er eirn And-
legur Hercules, saa ed Haalsenn a Skrijmslenu sundurbrijtur, svo þau naa ecke so fliootl
ad vaxa: Hun setur Tilhneigingarnar best i Lag, ecke ad hun take þær burt eins og Stoi-
ci villdu giora, Helldur þvijngar hun þær til ad giora sijna Skylldu, og temur þær med
frialslegum og inndælum Prældoome. Hun kienner Elskunne ad elska Gud alleina og ecke-
ert annad, Reidenne ad vandlæta i Guds Stad, Ofundenne ad kieppast sem hærst i Christi
Skoola, Orvæntingunne ad vona einkis Goods af Heimenum, Vonenne ad þola og bij-
da, Gledenne ad hafa sijna Unadsemd i DRottne, Hrygdenne ad angrast sinna Synda veg-
na, Hrædslunne ad Ottast Gud, Dyrskunne ad Ottast ei Mennena, sem ecke kunna nema Lijk-
amann ad deyda: Og hvad er hier margt umm ad tala, hvorsu ad allar Christelegar Dygd-
er

† Hydra var eirn Vatns-Ormur med morgum Hofdum, so sem Skaallden dykta, Po eitt
være afhoggved, Vox þad aptur; Enn Hercules hiog a Haalsenn, so þau uxu alldrei sijdann

er uppsprettа af Elskuñe til Guds og Naungans? Hvoriar alldrei kuña ad skilia helld-ur eñ Sooleñ og Byrtañ; Pad utmaalar eingeñ betur eñ St. Paall, 1. Cor. 13. segian-de: Kiærleikureñ er Poleñmoodur og Vingiarnlegur, Kiærleikureñ er ecke Ofundsiw-kur, Kiærleikureñ giorer eckert Illmañlega, Eige blæs hañ sig upp, hañ er ecke Osstopa, samur, Eige leitar hañ þess hvad hañs er, Eige lætur hañ giora sig reidañ, hañ leitar eige epter Skada, Eige fagnar hañ yfer Ranglætenu, Eñ fagnar Sañleikanum, hañ umber alla Hlute, hañ trwer ollu, hañ vonar allt, hañ umlijdur alla Hlute. Hvad gott nu sie med soddañ moote af Gude ad vera, Pad hefur ecke þeirra Eyra heyrt nie Auga sied, og ecke hefur þad i þeirra Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. sem af Heimenum eru: Eñ up-pa þad sierhvor og eirn kuñe ad reyna og proofa siaalfañ sig, og vita sitt Andlegt Fader-ne, þa leggur DRotteñ hier til eitt Kieñe-Teikn þeirra sem eru af Gude, Sem er þetta, ad þeir heyre Guds Ord: Eñ hvorneñ a þad ad heyra? Ecke so sem Judar, Peir ed heyr-du Rædu Stephani, og skaruzt i Hiortum sijnum af Hatre, Act. 7. Ecke svo sem Eytie-hus, Hvorium vard so vært under Predikun St. Paals, ad hañ sofnade og datt daudur ofañ wr Vindauganu, Act. 20. DRotteñ wtleggur sijna Meining siaalfur i þessum Texta, Segiande: Hvor Sem Geimer Mijn ORd, Hañ Mun Ecke DAudañ Siaa Ad Eilijfu. Eñ þo allra best i Epterlijkinguñe um Sæded, Luc. 8. Segiande: Ad Sæded sem fiell i gooda Jord, Sieu þeir sem heyra Orded, og vardveita þad i goodu og sidsomu Hiarta, og færa þar af Avoxt i Poleñmæde. Petta er nu vijst Mark a þeim sem ad eru Guds Born. Drage þvi eingeñ siaalfañ sig a Taalar, Sem þetta heyrer, og æt-le ecke hañ mune vera af Gude, Ef hañ ecke geimer hañs Ord. Sa Saudur er ecke af Hiordeñe sem ecke þecker Raust Hyrdersins, Joh. 10. Su elskar ecke siñ Uñusta sem ecke gietur heyrt hañ tala. Sa Mage er ecke heilbrygdur sem ad velger vid Fæduñe. Hvor-su maa þa Gud lifa i þeirre Saalu sem bijdur vid Guds Orde? Par fyrer syndugur Madur, ef þier leidast Guds heilogu Kieñingar, siert þu tregur til ad gaunga þaungad sem Guds Ord er um Hond haft. Pyke þier fyrer þa komed er vid þijn Mein og þijnar Synder straffadar, virdest þier þad liettvægt sem af Guds Orde er fyrerheited, og þu akt-ar þad ecke mikels, Ef þu hefur ecke Astundun ad framkvæma þad i Verkunum sem þu he-yrer med Eyrunum, So sañarlega sem Gud lifer i Himnenum, Par er ecke hañs Ande i þier, Og þu ert daudur i Syndum þijnum, Hier um er ecke ad villast, Eg segie Sañleika i Christo, og lijg ecke. Saaleñ er añadhvort Guds Brwd eda Diofulsins Frilla, segier Augustinus, Og þo þad þyke gijsurlega talad, þa vitnar siaalfur Sañleiksins Muñur þad satt ad vera hiaa Luc. 11 segiande: Hvor hañ er ecke med mier, hañ er a moote mier, Og hvor hañ ecke samañsafnar med mier, hañ sundurdreifer; Og so segie eg: Sa sem ecke heyrer Orded, og vardveiter þad, hañ foraktar þad, eñ saa sem þad foraktar, þa mun þad fordæma hañ a þeim sijdarsta Deige, Joh. 12. Jeg hafde nærre þvi sagt, ad betra være ad vera Kalldur eñ Volgur i sijnum Saaluhiaalpar Efnum. Af hinum stærstu Synd urum hafa vorded hiner bestu Meñ. Hvilijkur var Manasses? 2. Paral. 33. Hvi-

rijkur Paall? Act. 9. Hvilijk hin Bersynduga? Luc. 7. Eñ þad er Furduverk, ad af einum Volgum skule verda heilagur Madur, Hvar fyrer? Þvi hañ meinar sig ecke ad vera Vondañ, Hañ segier: Eg em audugur og rijkur vordeñ, og einkis Þurfe, Eins og Eingelleñ af Laodicea, Eñ Gud segier: Þu veitst ecke þad þu ert Aumur og Fatækur og Blindur og Nakeñ, Apoc. 3.

O! HErra Gud vert þu oss nadugur; Gæt hvor ad sialfum sier, Þvi vær eigum aller fyrer Saalu ad Siaa. Hvor aa ad hugga þig i þijnu Andlaate, ef þu hefur eckert numed af Guds Orde? Þu villt Presturen kome til þijn þa þu berst vid Ondena, Seig mier: A hañ þa fyrst ad undervijsa þier? Þegar Eyrun heyra ecke leingur, Tungañ talar ecke leingur; Seint er ad Herklæda sig þegar aa Hoolmeñ er komed. Sa sem saung med Bijflugum Veralldar þessarar aa Sumartijma Lijfsins, Hañ maa svellta aa hinum bitra Kulda Deige Daudans. O! hvad gott være þa ad hafa safnad nockru i Korn-Hlødu sijns Hiarta af þvi gooda Guds Orda Sæde, so þar være nockud til Veganestis i giegnum þañ myrkva Dal og Daudans Skugga, Sem er Vegur allrar Veralldar fraa þessu auma Lijfe, Jos. 3. Svo æmiñe eg ydur nu i DRottne og Grætbæne fyrer Lifanda Gud og ydar Saaluhiaalp, Gaanged i Lioosenu medañ þad er hiaa ydur, so Myrkureñ hondle ydur ecke, Joh. 12. Þar eru vonder Dagar, Dioflleñ er ofañ komeñ hafande Bræde mikla, Þvi hañ veit hañ hefur stuttañ Tijma, Apoc. 12. Afræked þvi ecke Guds Heilaga Ord, Hvort ad er Sverd Andans, so ad þier gieted Motstødu veitt aa þeim vonda Tijma, Eph. 6. Fiñe nockur sitt Hiarta ecke rett skickad til ad heyra þad, Hañ bidie Gud ad skapa i sier nijtt Hiarta, Þvi þad tekur eingeñ af sialfum sier; Verde hañ ecke so flioott Bænheyrdur, þa bidie hañ aptur og aptur, og vilie þad undañ dragast, þa bidie hañ Oaflaatañlega, Luc. 18. Dag og Noott, og þreyte vid Gud med Bæneñe, Ad þad Lambed af Kyne Juda kome, og take sialfur þa læstu Book, og virdest heñe sialfur upp ad liuka, Apoc. 5. Eingeñ Madur skal telia mier þa Truu, ad Gud mune ecke giefa þeim Heilagañ Anda sem hañ þar um̃ bidia. Komed og med auðmiukum Anda under Ordsins Heyrn, reidubuuner ad medtaka allt þad sem Gud hefur befalad, Eins og Petur sagde vid Cornelium, Act. 10. Faanijtar og Veralldlegar Huxaner sieu laangt i burtu aa þeim Tijma, Þvi eingeñ kañ Tveimur Herrum i Señ ad þioona, Matth. 6. Sierdeilis svo Olijkum sem Gud og Belial eru. Þeinked ecke svo med ydur, Eg veit þetta aadur, Eg hefe þad aadur heyrt, Þvi þoott svo kuñe ad vera, þa hefur Gud sijna Tijma til ad verka i Hiartanu, Og hañ er i Ordenu, Þvi sieu Eyrun, Sem ad eru Dyr Hiartans, alltijd opeñ fyrer Konunge Dijrdareñar. Vered ei Gryckium lijker, Um̃ hvoria Demostenes sagde: Ad þa hañ talade um̃ Skugga Asnans, þa hefde hañ nooga Tilheyrendur, Eñ þa hañ talade um̃ Grycklands Velferd, þa stijnge aller Fijngrunum i Eyrun. Laated Svida Raanglætingaña taka af ydur þañ Eyrna Klaada, Sem Paall um̃gietur, 2. Tim. 4. Ad þeir vilie heyra þad þeim þocknast og hvad Nijstaarlegt er, Esa. 30. Helldur vered Lærdoomunum og Straffunum H. Anda undergiefner.

ergiefner:

ergiefner. Fared og ei i Mañvyrdingar um Kieñendaña Gaafur edur Maalfære, Þvi allt Guds Ord er gott, og sa er eckert sem talar, helldur Gud sem verkar. Guds Krapt ur fullkomnast opt i Veikleikanum, 1. Cor. 12. Hvad er Paall? Eda hvad er Apollo? 1. Cor. 3. Þeir eru Þienarar hañs, aa hvorn þier trwed, Epter þvi sem hañ hefur hvorium einum giefed. DRotteñ var ecke i Vedrenu, og ecke i Jardskiaalftanum, og ecke i Elldenum, þa hañ talade vid Eliam i Hellernum, Helldur i Vindblænum, 1. Reg. 19. Svo er og Gud ecke bundeñ vid stoora Maal-Snilld, Og hañs Rijke er ecke iñefaled i Ordum, Helldur i Krapte, 1 Cor. 4. Sa sem alleina tekur epter fallegum Ordum og fogrum Maals-Greinum, Hañ sleiker Nytena, Eñ Kiarnañ snerter hañ ecke. Vær eigum Nytena ad briootа, Ef vier vilium riett faa smackad Epterkomande Alldar Sætleik, Hvor ofs mun sijdañ aan Mælingar framboden verda i þvi Himneska Brwd-Kaupe, Þar hiñ Fegurste medal Mañaña Sona, Ps. 45. mun dryckia hana sem hañs Hiarta elskar, Cant. 3. Med lifande Vatns-Straumum sem framsliootа af Stoole Guds og Lambsins, Apoc. 22 Til þeirrar allra Tignarlegustu Haatijdar ad samañsafnast, Uñ þu ofs Konungur eilijfrar Dijrdar, og þitt Vegsamlega Nafn þar Eilijflega ad prijsa. Bænheyr þad goode Gud, Fyrer Forþienustu þijns Eingietens Sonar, AMEN.

# A Bodunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

I NN aa hinum Siötta Maanude var Gabriel Eingell sendur af Gude i þa Borg i Galilæa, sem nefnest Nazaret, til þeirrar Meyar er föstnud var þeim Mañe ed Joseph hiet, af Hwse Davids, og Heite Meyareñar var Maria. Og Eingelleñ gieck iñ til heñar, og sagde: Hell siertu Naadarfulla, DRotteñ er med þier; Blessud ertu aa medal Kveña. Eñ þa hun saa hañ, vard hun hrædd af hañs Ordum, og hugleidde ad hvilijk være þesse Kvedia. Og Eingelleñ sagde til heñar: Ottast þu ecke Maria, þviad þu faust Naad hiaa Gude. Siaa, Þu munt Barn gieta i Kvide þijnum, og munt Son fæda, og hañs Nafn skalltu kalla JESUS; Hañ mun mikell verda, og kallast Sonur hiñs Hædsta: Og Gud DRotteñ mun giefa hönum Sæte sijns Födurs Davids, og hañ mun rijkia yfer Hwse Jacobs ad Eilijfu; Hañs Rijkis mun og eingeñ Ender verda. Þa sagde Maria til Eingelsins: Hvörneñ skal þad ske, af þvi ad eg hefe aungvañ Mañ kient? Eingelleñ svarade, og sagde til heñar: Heilagur Ande mun koma yfer þig, og Kraptur hiñs

Hædsta mun yferskyggia þig. Af þvi, og þad hid Helga sem af þier mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og siaa þu, Ad Elizabeth Frænd-Kona þijn, hefur og Son gieted i Elle siñe, og þesse er Siøtte Maanudur heñar, sem køllud var Obyria, þvíad Gude er eckert Ord Omaattugt. Eñ Maria sagde: Siaa, Eg em Ambaatt DRottens, Verde mier epter Orde þijnu. Og Eingelleñ veik fraa heñe.

## Exordium.

SVo sem kallt Vatn er þyrstre Saalu, Svo er goodur Bodskapur af fiarlægu Lande, Segier Salomon, Prov. 25. Pad maa i Dag segia, Ad vier hefum goodañ Bodskap heyrt af fiarlægu Lande. Hvad er fiarlægra hvort ødru eñ Himen og Jørd, Gud og Madureñ, Himnarijke og Helvijte? Eñ hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu, Br. M.? Vier heyrum ad Gabriel Eingell hafe sendur vered fraa Gude; Til hvors? Til eirnrar Meyar, sem føstnud var þeim Mañe, Er Joseph hiet, Pad er til daudlegrar Mañeskiu, Og ecke var hañ einasta til heñar sendur, Poott hañ i þad Siñ ætte alleina Tal vid hana, Helldur til alls Mañkyns: Pvi lijser Eingelleñ aa Fædingar Noottu DRottens, Er hañ sagde vid Hyrdarana: Eg boda ydur mikeñ Føgnud, Pañ er skier øllu Foolke, Luc. 2. Mooder DRottens maatte kallast svo sem Umbods-Madur alls Mañkynsins af Gude skickadur, til ad taka fyrst allra vid þessare Heilsusamlegre Guds Naad, Er sijdañ var opeñberud øllum Mønnum, Svo sem vor Fyrsta Mooder took vid þvi Blessada Fyrerheite, Ad Kviñunnar Sæde skyllde sundurmeria Høggormsins Høfud, Gen. 3. Vegna allra siña Erfingia: Svo took og Guds Mooder vid Fullkomnan Fyrerheitesins, Vid hinu Fyrerheitna Sædenu, Vid siaalfum Lijkamanum, Sem aadur var fyrermyndadur i Skugganum; Pvi kalla eg þetta goodañ Bodskap af fiarlægu Lande og jaata þad satt vera sem Eirn sagde um þessa Dijrdlegu Haatijd, Ad hun sie Bloomstur allra Haatijda. Af heñe er Kvistureñ af Root Jesse tekeñ fyrst til ad bloomgast, Esa. 11. Vetureñ er umliden, Stoorvidred er horfed og burtuviked, og Bloomstureñ laata siaa sig i Lande vooru, Segier i Lof-Kvædenu, Cant. 2. Jaa, Sa Blessade Avøxtur er sig kallar Bloomstur Akursins, Og eina Liliu i Dølunum: Hañ spratt upp i Nazareth, Er þijdest Hin Bloomlega. Lijted var þetta Bloomstur i Fyrstuñe. Hañ var eitt Foostur i Moodur-Lijfe, Sijdañ eitt Barn, Og sijdarst Æfe siñar vard hañ hiñ Fyrerlitlegaste, og Forsmaanarlegaste, Sem Esajas vottar, Esa 53. Jaa, miñstur allra þeirra, sem hañ med sijnum Syndum kvaled hafa, Eñ fyrer þad hefur hañ aadreift marga Heidingia, og wtbreidt sijna Dijrd um allar Alfur Heims-Bygdareñar, Svo ad vier jafnvel sem hier liggium aa þessum Hala Veralldareñar; Vier buum under hañs Skugga, Og þoott vier sieum af øllum Heimenum Forsmaader, Samt hefur þo hiñ goode Gud virdt oss þess, ad hañ hefur breidt yfer oss siñ Klæda-Falld, Par vier lanum

um alls Nakter a Vijdavangenum i voru Bloode, Og sagt ad vier skylldum lifa, Ezech. 16. Þvi meigum vier ei sijdur eñ hvor oñur Þiood i Heimenum, kalla þessa Hatijd mikla, Og hana med Glede og Fognude hallda. Være ei þesse Glegelege Bodskapur a Jordu sendur, Þa være Christur ecke fæddur til ad helga vora Fæding, Ecke Umskoreñ til ad taka a sig Logmalsins Bolvan, Ecke Heidingiunum byrtur, Ecke daeñ fyrer Synder vorar, Ecke upprisen oss til Riettlætis, Ecke uppstigeñ til ad bidia fyrer oss; Og ecke hefde hañ a Hvijtasuñu Dogum sendt siñ Anda yfer sijna Postula. Þvi ma eg segia ad þesse Hatijd ber allar Hatijder i Skaute sijnu, og ma þeirra Mooder kallast. Hier hefur Gud Fader teked til ad hallda Brwdkaup Sonar syns, Matth. 22. Hier hefur Sonureñ Trwlofad oss sier i Naad og Mysk-unseme, Hos. 2. Hier hefur H. Ande bygt sier eitt Mustere, 1. Cor. 6. Ecke einasta i honum, Sem er hid Allra Helgasta i þessare Kyrkiu, Helldur og i ollum hañs Limum, Ollum þeim Andlegum Steinum, Sem hañs Helgedoomur er bygdur af hier a Jord uñe, og af hañs Fylling medteked hafa, og þvi vil eg kvedia ydur, Br. M. med þeim Ordum er hiner Lykþrar Meñ toludu sijn a mille Fordum Daga, Er Gud hafde frelsad Samariam af Hende þeirra Syrlendskn: Þesse Dagur, er Dagur goods Bodskapar, 2. Reg. 7. Skylldum vier þeigia yfer þvi? Kuñug ma oss vera vor Andleg Lijkþra, J hvorre vier gietner og fædder erum, Þvi skylldum vier þeigia yfer þessu mikla Hialprærde DRotteñs, helldur eñ þeir? Þar i Dag er Guds Barna Borg af Vallde Myrkraña frelsud, Þvi skylldum vier draga vora Lofgiord, Vora Ydran, Vora Þackargiord undañ til Morguns? Gaungum þvi nær þessu H. Evangelio i Nafne DRotteñs, og hugleidum af þvi uñ Stund, hvorsu Haleitur og Gagnsamur ad sie þesse Leindardoomur. O! DRotteñ styrk oss med Krapte þijns Anda, Svo ad þetta Eyrende meige velluckast i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAd er hægra Br. M. ad lofa eirn Hlut sem ecke er meira eñ almeñelegs Hroos verdur, helldur eñ þañ, sem Afbrygde er allra añara Hluta, Velldur þad þvi, ad Meñ gieta prijdt þa Hlute med Ordunum, Sem ad i sialfum sier ecke eru so prijdeleger. Eñ hvad skulum vier uñ þa segia, Hvorra Dijrd og Agiæte eingeñ kañ med Ordum ad wtmala, So þegar Meñ hafa sagt uñ þa allt þad sem Hiartad fær upp-þeinkt og Muñureñ wttalad, þa er þo eckert sagt svo sem verdugt er þvilijkre Hatign. A medal þessara dijrdlegu Hluta kalla eg ad vera Leyndardoom Holldtekiuñar DRotteñs vors JEsu Christi. Hvad Sendeforeñe sialfre vidvijkur, Þa var til heñar valeñ Gabriel Eingell, Ecke eirn almeñelegur Eingell, helldur eirn Hofud-Eingell. Veralldleger Kongar og Hofdingiar, Þegar þeir leita Konfangs Sonum sijnum til añara Konunga, Þa velia þeir til þess Eyrendis sijna villdustu Meñ: So var og Gabriel valeñ i þessa Sendefor, Eirn Guds Kappe, so sem hañs Nafn hliodar, Og hañs Eingietnum Syne nærsta Handgeingeñ, Sem rada ma af Daniels Spadooms Bookar 9. Cap. Hvor

og um̃ sig vitnar, Luc. 1. Ad hañ stande frame fyrer Gude. Þvilijkur Sendebode hæfde
vel so Tignarlegu Eyrende. Eñ til hvorrar var hañ þa sendur? Ad soñu til eirnrar
Konungs Doottur, Þvi hun var af Hwse og Kyne Davids, Eñ hvorre þa var oll Ver-
alldleg Konungs Tign horfeñ, So hun var ein um̃komulans fatæk Mey, og so lijtels met-
eñ af Heimenum, ad hun fieck ecke añad Rwm i Giesta Herbegenu, eñ eirn Stall til ad
leggia i siñ Frumgieteñ Son, Luc. 2. Himens og Jardar Konung. O! hvad satt er þad
sem Postuleñ skrifar: Þad sem O-gofugter fyrer Heimenum, Og þad sem einkis meted
er, Þad hefur Gud wtvaled, Og þad sem ecke er, Svo hañ afmæde þad sem er, 1. Cor. 1.
Skijrlijfe og heilog Fatækt Guds Moodur, var miklu dijrdlegre i Auglite hiñs Hæsta
Konungs, Sem er alleina Vijs og alleina Rijkur, helldur eñ oll Rijke Verälldareñar og
þeirra Dijrd; Añars munde hañ hafa læted hañ fædast af Keysarans Doottur, Sem
þa hafde Einvallds Raad i Heimenum, eñ ecke af eirnre Munadarlausre Stwlku. Hv-
ad þa? Mun hañs Tign nockud mijnka vid þad, ad hañ hefur lijtelæckad siñ Son? Fi-
ærre sie þvi, Þar fyrer er hun hvad mest vordeñ, Hefde hañ ei so giort, þa hefde Sonnreñ
ecke feinged Þioodernar og Endemork Veralldareñar til Arfleifdar, Ps. 2. Fyrer sijna
Holldtekiu hefur hañ Herleidinguna ad Herfange teked, Allur Heimureñ var under
Diofulsins Vallde, Nema Gud hefde heited þvi blessada Kviñuñar Sæde, Er i Dag
var i Meyar Lijfe gieted, Eñ med þvi hefur hañs Eingieteñ Sonur broted stoort Skard i
Diofulsins Vellde, Svo ad Johañes, Er hañ sa Himnana opna, Þa sa hañ þar Fiol-
da so mikeñ, ad eingeñ gat taled, Apoc. 7. og hefur margur sijdañ vidaukest, Ja, eykst eñ
nu i Dag, og mun aukast þar til Verolld þrijtur, Þacker sieu goodum Gude ad Eilijfu.
Satt er þad, ad ecke maa vid Guds Hatign auka, Hun verdur i sialfu sier hvorke stær-
re nie miñe af vorum Volldum. Eñ þo ad þessu sie svo hattad, Þa verdur þvi ecke nei-
tad, ad Christi Persoonu hefur mikell Soome aukest i þeim Sigre er hañ fieck yfer And-
skotanum, Er hañ flette hañ sijnum Herklædum a hvor hañ treyste, Luc. 11. Eñ took
sijnar heilogu Þusunder af hñs Hende, og fyrer þeñañ Dijrdlega Sigur, hefur Guds
Sonur epter Mañdoomenum odlast Nafn yfer ollum Nofnum, So ad i Nafne JEsu
Christi skulu sig oll Knie beygia, Bæde a Himne og a Jorduñe, og under Jorduñe,
Phil. 2. Eñ hvorneñ hefur hañ þeñañ dijra Sigur uñed, Nema i voru Hollde? Sem
i Dag var i Meyar Lijfe plantad af Heilogum Anda, J þvi hefur hañ lided, J þvi hefur
hañ Sigre hroosad, J þvi situr hañ til Kraptarens Hægre Handar, Og i þvi mun hañ
aptur koma til ad dæma Lifendur og Dauda, Eñ iñleida oss sem a hañs Nafn trwum
i sitt Brwdkaup, Og þvi kalla eg nu þessa Sendefor miog vegsamlega, fyrer þeirra Sku-
lld sem þessa Bodskapar noted hafa, Þvi Gud auglijser hvad mest sitt Almætte, siñ Vijs-
Doom og sijna Fodurlega Giæsku, i þvi ad giora gott af þeim Hlutum sem i sialfum sier
audvirdelegaster og verster eru, Svo sem var allt Mañkyn i Synd og Dauda falled.
Fra hvorium er þesse Sendefor? Fra Gude, segier Texteñ. Þegar eg Gud nefne,
Þa hefe eg noog sagt: Eingeñ er þvilijkur og ei kañ nockur i Samjofnud vid hañ ad ko-
ma,

ma, Það kañ og eingeñ Maña edur Eingla Skilningur ad grijpa edur Ímynda sier, hv-
od stoor Munur ad sie mille Skaparans og Skiepnuñar. Hañ sem er Alvijs, Al-
mættugur, Eilijfur, Omælanlegur og Orañsakañlegur, Þar hañ bijr i þvi Lioose sem
eingeñ fær tilkomest, 1. Tim. 6. Hañ sem ecke einasta skoop Himen og Jord af ongvu
Efne, Stioornar þeim, Vidhelldur og vardveiter þau aan alls Omaks og Erfidis, fræ
Upphafe Skopunar og iñ til þessa Dags, Helldur kañ hañ, Ef hañ vill, ad skapa med
einu Orde Otal Þusund Verallder adrar eins og þesse sijnelege Heimur er. Hañ send-
er af Himnum ofañ til syndugra Maña, Er hañ styggt hofdu og til Reide reitt. O! miñ
Gud, Hvad er þo Madureñ þess ad þu miñest hañs? Ps. 8. Þegar eg hugleide þetta,
þa smelltest mitt Hiarta i mier wt af Blygdan, Ad soddañ ein skielfeleg Hætign, Hañ
giorer Sendefør ofañ af sijnu Hæsæte til vor daudra Hunda, Til vor syndugra Orma,
Þar vier skrijdum i Leyrvelltu þessare, Og mæ hier af þessa Sendefør meire ollum Vel-
giordum kalla, Þoott eckert añad være. Eñ hvilijkur er nu þesse Bodskapureñ? Það
sijner oss fyrst Kvedia Eingelsins vid Guds Moodur. Heil Siert Þu Nædarfulla,
DRotteñ Sie Med Þier, Blessud Siert Þu A Medal Kveña. Hun mætte med
ollum Riette kallast Hin Nædarfulla, Þvi hun vard Mooder ad honum sem er fullur
Nædar og Sañleika, So sem Johañes um hañ vottar, Joh. 1. Og ecke einasta hun,
Helldur allar Andlegar Christi Mædur, Sem er hvor ein Riett-trwud Sæla, Matth.
12. Er af hañs Fyllingu medteked hefur Næd fyrer Næd. DRotteñ er med þier þu
Hetia, sagde Eingelleñ vid Gedeon Fordum Daga, Er hañ heilsade honum, Judic. 6.
Það rættest og, Þvi fyrer hañs Hond sloo DRotteñ i Hel Madianita sem lææ eins og
Eingesprettur i Jesreels Dal, med Þrem Hundrudum Mañs, Jud. 7. Eñ þoott
þad være miked Guds Furdu-Verk, Þa var þad lijted hiæ þessu, ad Maria bar i sijnum
Kvide Þañ DRotteñ Himens og Jardar, Sem ber alla Hlute med Orde sijns Krapt-
ar, Hebr. 1. Blessud var hun æ medal Kveña, Þvi eingeñ Kveñmadur fræ Upphafe
Veralldar hefur soddañ Tijmañlega Sæmd hloted sem hun, Er giordest þar Mooder
sem hiñ Allra Hæste var Fader ad hinum Allra Hæsta. Eñ ecke hefur ein Riett-
Christeñ Sæla er JEsum Andlega gieted hefur, miñe Blessun þeiged, Þvi lijser hañ
sialfur, er hañ kallar þæ sijna Moodur, Systur og Brædur, Er hañs Ord heyrdu, Luc.
8. Fyrer þvi er þesse Andlege Gietnadur so miklu meire hinum Lijkamlega, sem ad all-
ar Andlegar Gæfur eru hinum meire og betre, Þvi forgiefens hefde Mooder DRott-
eñs bored Heimsins Frelsara i sijnum Kvide, Nema hun hefde og bored hañ i sijnu Hiar-
ta, Kalla eg hana þvi sælle þar af, ad hun vardveitte oll hañs Ord, Luc. 2. helldur eñ af
þvi, ad hañ mylkte Brioost heñar, Þvi hvad um þad, Sæler eru þeir sem heyra Guds
Ord og vardveita þad, sagde hañ sialfur Fordum vid Kviñuna er prijsade Sælu hañs
Moodur, Luc. 11. Og so giorer nu þesse Kvedia Eingelsins Sendeførena miog so
fræga og veglega, ad eckert kañ gledelegra upp ad huxast. Kvediuñe fylger strax æ
epter Hofud-Eyrended, Það flytur Guds Sendebode med þessum Ordum: Siæ,

Þu Munt Barn Gieta J Kvide Þijnum Og Munt SON Fæda, Og Hañs NAfn
Skallt Þu Kalla JESUS, Hañ Mun Kallast SONur Hiñs HÆRSTA, etc.
Miked er i þessum Ordum iñefaled, og meir eñ syndug Tunga meige þad wtskijra. Hid
Fyrsta er, ad hun skule Barn gieta, Þad er Mañeskiu eins og hun var og heñar Fedur
ad ollum Edlis Haattum, Ad Syndeñe eirnre fraatekeñe, Þad skilur Eingelleñ undañ
er hañ segier: Ad þad Heilaga sem af heñe mune fædast, skule kallast Sonur Guds:
So var þa Christur hluttakande Hollds og Bloods eins og Smaa-Borneñ, Hebr. 2.
So sem Borneñ hafe sitt Holld og Blood, Þad er Mañlega Naatturu, Saal og Lij-
kama af Forelldrunum; So hafe Christur af siñe Moodur og F:drunum epter Holld-
enu, Bæde Saal og Lijkama. Nu segier DRotteñ siaalfur vid Nicodemum: Hvad af
Holldenu er fædt, þad er Holld, Joh 3. og teiknade hañ þar med spillta Mañsins Naatt-
uru. Hvad þa? Var Mañdoomureñ Christi Syndum spilltur? Fiærre sie þvi, Þar
fyrer stendur hier i Gudspiallenu: HEilagur ANde Mun Koma Yfer þig, Og KRap-
tur Hins HÆrsta Mun Yferskyggia Þig. Til hvors? Til þe's medal añara, ad hel-
ga og tilreida heñar Blood, Af hvoriu DRottne var Lijkameñ tilbwẽ, Svo ad oll Fyll-
ing Guddoomsins kyñe ad bwa þar i Lijkamlega, Col. 2. Med hvoriu Moote þad sie ski-
ed, v:it Gud eirn, Sem er Meistare þessa Furdu-Verks, Um̃ hvort þad maa med riettu
segia sem skrifad er um̃ Salomons Haasæte, ad þvilijkt hafe ecke giort vered i nockru Kon-
ungs Rijke, 1. Reg. 10. Og þad sem eg nu sagt hefe um̃ Christi Allra Helgasta Lijka-
ma, Og þad Efne er hañ var myndadur af, Þad sama er um̃ hañs dijru Saal ad segia.
Lijkameñ er Herbe:rge Saalareñar, Ecke maatte i soddañ Herberge, sem af H. Anda var
tilreidt fyrer Krapt hi:ñs Allra Hærsta, Ecke maatte þar byggia nema eirn hreirn og Hei-
lagur Giestur. Mañsins Saal hafde framar syndgad eñ Lijkameñ, Hun var og Hof-
undur Syndareñar i Mañenum, Þvi maatte hañs Saala ecke sijdur Oflecked vera, sem
Saaler vorar hefur wr Heliu leyst, helldur eñ Lijkameñ. Postuleñ segier ad i honum
bwe aller Fiaarsiooder Vitskuñar, Col. 2. Biuggu þeir i Lijkamanum edur Saaluñe?
J Saaluñe ad vijsu, Eins og Skynsemeñ hiaa oss og þad Gott sem heñe fylger. Svo er
allur Christur hreirn og Heilagur, Sem ei kuñe añars ad vera, Þar hañ var gieteñ af H.
Anda. Þvi epter þad Eingelleñ hafde sagt, ad Heilagur Ande munde yfer hana koma,
Þa leggur hañ þetta til: OG Þad HEJLAGA Sem Af Þier Mun Fædast, SKal
Kallast SOnur GUds. Og ad Meñ gaange wr Skugga um̃ þad, ad Christur sie gi-
eteñ i Meyar Lijfe eins og añad Foostur, Ad þvi fraateknu, ad þar komu eingeñ Mañs
Volld til, So sem hun segier hier vid Eingeleñ: Hvorneñ Kañ Þetta Ad Skie, Þar Eg
Hefe Ongvañ Mañ Kieñt? Og Guds Ande samsiñer heñe, Matth. 1 segiande: Ad
Joseph hafe ei kieñt hana þar til hun fædde siñ Frumgieteñ Son. Ad Meñ gaange wr
Skugga um̃ þad, segie eg, Þa vottar Matth. Cap. 1. Ad hun hafe fundest Þungud af
Heilogum Anda, og nockru sijdar, Ad þad sem af heñe gieted var, Þad hafe vered af H.
Anda, Og samt er þo ecke H. Ande Fader ad Christo, Helldur tilbioo hañ og helgade,
sem

sem aadur er sagt, þad Efne i Lijfe Jomfrur Mariu, sem DRotteñ myndadest af, og fram-
kvæmde so þeñañ Allra Heilagasta Gietnad med sijnum Orañsakañlega Guddoomsins
Krapte. Þañeñ byriade allt Riettlæte upp ad fylla, Matth. 3. B. M. Þvi þad vard
af syndlausu Hollde ad lwkast, sem af syndugu var tiluñed. Þad Mustered vard Hei-
lagt ad vera, i hvoriu þeirre Foorn ætte ad offra, sem Gude lijka skyllde fyrer allar Ver-
alldareñar Synder. Sa Kieñemadur hlaut ad vera Ostraffañlegur sem iñgaanga
skyllde, ecke einusiñe aa Are hvoriu (eins og Aaron og hañs Epterkomendur) helldur ollu
Einusiñe i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Heb. 9. Þvi segier
Paulus; Soddañ Biskup heyrde oss, Heilagur, Saklaus, Oflecкadur, Fraaskil-
eñ Syndurunum, og vordeñ Himnunum hærre, Heb. 7. Þad er upphafeñ yfer alla
Himna, Hvar þad Allra-Helgasta er, J hvort hañ er iñgeingeñ og setstur Gude a Hægra
Vegi voru Hollde: Og siaa Meñ aptur af þessu, hvad gledelegur ad sie þesse Bodskap-
ur, og þesse Sendefør Vegsamleg. Eñ þad tekur yfer, Christner Meñ, ad Gud er hier
Madur vordeñ. J sama Vetfaange sem Heilagur Ande tilbioo JEsu Mañdoom, svo
ad hun gat siñ Son, under eins og i sama Augnablike took hin Oñur Guddoomsins Per-
soona Mañdoomeñ i Samfielag med sier, Med so føstu Sambande og ecke Samblan-
de, ad þad hefur sijdañ alldrei slitnad, og mun ecke um̃ alla Eilijfd slitna. Jaa, Daud-
eñ gat þad ecke slited, Jafnvel þott hañ adskilde Saal og Lijkama DRotteñs, þvi añars
hefde hañ ecke siaalfur sijna Saalu aptur teked, Hvøria hañ siaalfur fraa sier liet, Joh. 10.
Þetta vottar Guds Ande sem siaalfur var Verkmeistareñ, Tvisvar i þessu H. Gudspialle.
Fyrst þar hañ segier: Ad Barned sem hun gieta mune, skule kallast Sonur hiñs Hær-
sta, þad er Guds, Þvi eingeñ er hønum hærre; Aptur, ad þad Heilaga sem af heñe mune
fædast, Skule kallast Sonur Guds. Taked epter þessu B. M. Þott eg tale i Faafræde
um̃ so haa Hlute, Þañ sem hun gat eins og Guds Son, Þañ fædde hun eins og Guds
Son, svo ad eingeñ Um̃breiting hefur vorded fraa Gietnadenum allt til Fædingareñar,
i Einingu Persoonuñar, sem ei er Von, Þvi hiaa Gude er eingeñ Um̃breiting nie Skug-
ge til Um̃breitingar, segier Jacob, Jacob, 1. Hvad þa? Er Christur Guds Fød-
urs Naatturlegur Sonur epter Mañdoomenum? Ad vijsu er hañ, eñ ecke epter Naatt-
urlegum Hætte, Helldur fyrer Eining hiñar Guddoomlegu og Mañdoomlegu Naatt-
uruñar, Søkum þess, ad hin Oñur Persoona Guddoomsins, Guds Eilijfur Sonur took
aa sig Mañdoomeñ, so gietur þad ecke adskilest, ad saa sem er Guds Sonur fraa Eilijfu, eñ
i Tijmans Uppfyllingu vard Madur, Hañ er i Raun og Sañleika ad øllu Leite Guds
Sonur, og þar fyrer er hañ vor Fridur, sem hefur giørt eitt af baadum, Eph. 2. Meñ
kuña ad segia, ad hier um̃ sie ei so Naudsynlegt ad tala, og ad Meñ skilie ei þeñañ Leyn-
dardoom. Sem satt er: Eñ so miked gieta Meñ skiled, sem Gud hefur viliad laata oss
skilia, Oss til Saaluhiaalpar.

Þad er ecke lijtel Huggun fyrer eirn Syndara, ad Gud er Fader Christi epter Mañ-
doomenum, Þar Christur kallar oss sijna Brædur, Ebr. 2. Adam var Guds Son-

ur, Sem Lucas vottar, 3. Cap. Eñ i Fallenu giordest hañ Diofulsins Sonur. Hvor-
neñ aatte nu Adams Sonur aptur ad verda Guds Sonur, Nema hiñ eilijfe Sonur
Guds yrde Adams Sonur, Saa ed geingest under Sekt Brædra siña? Þad sem brot-
ed var aa moote Gude, Þad vard af Gude ad gialldast. Þad sem af Mañenum var
broted, Þad vard af Mañenum ad bætast. Gud kuñe ecke eiñsamañ ad lijda: Madur
eñ ecke eiñsamañ ad fullnægia Guds Riettlæte. Hvorneñ aatte þetta ad skie, Nema
Gud yrde Madur? Og lide fyrer þad, sem vier med vorum Syndum hofdum broted, þvi
er þetta ecke lijtel Huggun, Og hvad segie eg lijtel? Þesse er hin einasta Huggun Synd-
ugs Mañs, og eingeñ er oñur; Sa sem hana ecke hefur, honum er vijst Helvijte, þvi eck-
ert Nafn er añad giefed Moñunum under Himnenum, i hvoriu oss byriar Saaluhoolp-
num ad verda, helldur eñ Nafned JEsu, Act. 4. Hvort honum var hier giefed, hvad og
kallad var af Einglenum, aadur eñ hañ var gieteñ i Moodur-Kvide, segier Lucas 2. Cap.
Er hañ segier oss Umskurnar-Sogu DRotteñs. O! hvilijk Dypt Audæfaña og Gu-
ds Speke. Þetta er ein Feste, Sem Suds Sonur gaf siñe Brwde i Trygda-Pant, i
hvorre eitt Furduverk haanger af odru, eins og eirn Hleckur af odrum, Skapare Himen-
sins, er ein Skiepna vordeñ. Eilijfdeñ er gieteñ i Tijmans Uppfyllingu, Gal. 4. Ein
Joomfrw verdur Oliett, Esa. 7. Hun sem af Gude er skopud, verdur Guds Mood-
er. Hañ verdur i Moodur-Lijfe iñeluckt ur, sem Himnaña Himnar ecke teked faa, 1.
Reg. 8. Hañ sem dunar i Himnenum, hañ grætur i Stallenum: Saa ed allar lifan-
de Skiepnur fedur, Ps. 145. Nærest i Moodur-Kvide. Skiepnañ lætur til þad Efne
sem Skapareñ var giordur af. Sooleñ hefur Lioos feinged af Stiornuñe. Mood-
ereñ var yngre eñ Barned, eñ Barned stærra eñ Moodureñ. Miñ HErra, þu sagd-
er, Er þu villder sijna þijnum Læresveinum ad þu værer Holld af voru Hollde: Ande
hefur ecke Holld nie Bein, svo sem þier siaaed mig hafa, Luc. 24. Eñ hier sie eg ad And-
eñ er vordeñ Holld, þvi Gud er eirn Ande, Joh. 4. Og vard þo Holld. So seger Johañ-
es 1. Cap. Orded vard Holld og bygde med oss, Og vier saaum hañs Dijrd, Dijrd
svo sem Eingietens Sonar af Fodurnum. Þetta eru stærre Undur eñ oll Undur, og
maa hier ad Fyrstu og Sijdurstu kalla, ad þesse Sendefor og þesse Bodskapur sie Daa-
samlegur, Haaleitur og yfer allañ Maata Undrunarlegur. Gud giefe oss þar ad koma,
sem vier meigum Eilijflega ad honum daast, med þeim Fagnade, sem ecke hefur hier Ey-
ra heyrt edur Auga sied, og ecke i Mañs Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. Eñ nu
vilium vier skoda, hvor ad sie Nytsemd þessa Bodskapar, Og er hun ad vijsu so stoor, ad
hun verdur alldrei fullþockud. Eilijf Ar skal til þess hafa, ad Vegsama Guds Eilijfa
Giæsku. So elskade Gud Heimeñ, Segier Lausnareñ, ad hañ gaf wt siñ Eingieteñ
Son til þess, ad aller þeir sem aa hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh.
3. Nær gaf hañ oss hañ fyrst? A hañs Gietnadar Deige, eñ fyrst hañ hafde oss hañ
Einu siñe giefed, Þvi skyllde hañ þa ecke giefa oss alla Hlute med honum, Rom. 8. Til
hvors gaf hañ Soneñ? Til þess, ad þeir sem aa hañ trydu skylldu ecke fyrerfarast, þad
er,

er, ad þeim ecke skyllde verda skipad fraa Guds Doomstoole i eilijfañ Elld, sem fyrerbw-
eñ er Dieflenum og ollum hañs Arum. Hefde Gud giort oss ad Kvikendum Jard-
ar og Viñu-Dijrum, og lated oss svo wt af slockna eins og Fienadarens Anda, Þa
voru þad good Kior hiaa þvi ad pijnast eilijflega i Helvijte; Eñ hañ hefur eñ þa betur til
vor giort, þar aller þeir sem aa hañs Son trwa skulu hafa eilijft Lijf, þad er Oendañlega
Dijrdar Vist og Sælu med honum og i honum, fraa eirnre Eilijfd til añarar. Hvor
vill þa faa Ordum adkomed, hvilijk Guds Ast oss er veitt i Holldtekiu DRottens? Vi-
er vitum aller hvilijk Byrde ad er Guds H. Logmaal, og hvort ad sie Straff þeirra, er
Logmaaled briota, þad segier oss Moyses, Devt. 27. Med svo skielfelegum Ordum, ad
jafnvel þeim mætte ofbiooda sem vita ad þeir eru fraa Logmaalsins Bolvan frelsader, og
er þad þo ei nema Tijmañlegt Volæde sem hañ uppreiknar, Svo eg vil segia, ad saa sem
heyrde Logmaaled og þess Vidlogur, og ætte sier ecke Lausnar Von fraa þess Bolvan,
hañ være ad miklu Leite i Helvijte, Jafnvel hier aa Jorduñe, og hefde ei nockra Roo um
eitt Augnablik. Eñ hvad segier Paulus? Gal. 4. Þegar Tijmans Uppfylling kom,
Sende Gud Son siñ giordañ af Kviñuñe Logmaalenu undergiefeñ, so hañ leyste þa sem
under Logmaalenu voru, uppaa þad vier odludunst Barna Rietteñ. Nær skiede þad?
A hañs Gietnadar-Deige, Eñ hvad miked oss sie i þvi veitt, Siaaum vier best, Ef vier
Hugleidum hvilijkur Munur sie þess, ad vera Samarfe JEsu Christi, og so hiñs, ad
vera Þræll Logmaalsins hier i Lijfe, Og so Faange Satans i odrum Heime. J Einu
Orde ad segia, Allar Lijfs og Saalar Heiller, sem Guds Born þyggia af DRottne,
Þær eru oss i þvi Augnablike veittar, Er JEsus var Gieteñ i Meyar-Lijfe.
Eingeñ fegre Sool hefur yfer Heimeñ skyned eñ sw, Þegar Sool Riettlætesins Mal.
4. upprañ oss syndugum Moñum i heñar Kvide. Vier vorum nidursokter i Afgruñ
herfelegustu Eymda og Volædis, Oss vantade þañ sem riette oss eirn Streing til ad upp-
ryckia oss ur þessu Diwpe. Þrij-þættur Streingur slitnar torvelldlega segier hiñ Vij-
se, Ecc. 4 Þesse Streingur var DRotteñ JEsus af Lijkama, Saalu og Guddomenum
samañspuñeñ, Hañ var ofañlaateñ i Eymder vors Holldz, Med honum hefur Guds
megtuge Armleggur rykt oss ut af Vallde Myrkraña; Oss vantade eina Foorn, þa er
kyñe fyrer Gude ad gyllda, Hana var ecke ad faa hiaa oss Moñunum, eirn Brooder ku-
ñe ecke añañ ad leysa, Ps. 49. Og þott Gud hefde skapad eirn heilagañ Mañ af Adams
Nidium, og lated hañ lijda, Þa naade hañ skañt, bæde til ad gieta utstaded hinar bitru
Helvijtis Pijsler, so og til ad fullnægia Gude fyrer Syndena, Þvi er Gud Madur vord-
eñ, so Guddoomureñ hiaalpade Mañdoomenum til ad þola Pijslernar, og giora Lausn-
ar: Giallded dijrmætt og gylldt i Auglite hiñs straanga Doomara; Eñ Mañdoomureñ
Gude (ef eg maa so ad Orde komast) til ad deya. Vier þurftum einhvors Saatt-
maala vid, til Stadfestingar þeim Fride er Gud giorde vid Mañkyned. Siaa, Gud
er Madur vordeñ, hañ hefur trwlofad sier vora Naatturu i Meyareñar Kvide: Med þess-
um Teingdum er Fridureñ stadfestur mille Himens og Jardar, mille Guds og Maña,
mille

mille Riettlæteſins og Myſkunareñar. Vær þurſtum nockurskonar Veg til Himi enſins, hvadañ vier wtlæger vorum. Gud er Madur vordeñ, Hañ er Vegureñ, Sañleikureñ og Lijfed, Joh. 14. Hañ er Jacobs Stige ſem nær fraa Jordu allt til Himens, Gen. 28. Þvi hañ er ofañkomeñ af Himne i vort auma Holld, eñ vort Holld er uppnumed, Fiolleñ eru læckud, Dalerner eru uppfyllder, Eſa. 40. Himeneñ hefur læckad ſig allt til Jardar, Jordeñ er upphafeñ allt til Himna; Og um þeñañ Jacobs Stiga munu Einglar aa ſijdañ bera Sæler vorar i Abrahams Skaut, til ad fagna þar Eilijflega. Vier vorum Gude morg Tiju Þuſund Punda ſkylduger, Matth. 18. Þar laa ecke añad fyrer oſs eñ ad verda kaſtader i hin yrſtu Myrkur. Eingeñ hafde þad hañ giallda ſkyllde, þvi er Gud Madur vordeñ. Fadereñ gaf oſs eirn rijkañ Brodur ſem eirn gallt fyrer alla. Ad ſijduſtu villde Gud ecke einaſta frelſa oſs af Myrkrañna Vallde i Helvijte, helldur og hefia oſs til Rijkis i Himnenum, Eñ oſs vantade Rokſemd, og Skial til þeſs, ad hañ villde ſo giora. Hañs Giærſka var alltijd til Reidu i fraa Upphafe Veralldar, Jaa, aadur eñ Grundvollur Veralldareñar var lagdur. Eñ þad var ad ugga, ad vier mundum giora hana Onijta aa oſs fyrer Vantrwareñar Saker. Þad var ecke lijklegt, ad eirn Glæpafullur Landraada-Madur, eirn Spillvirke, ſem allareidu hafde Snoruna um Haalſeñ og uñed til Gaalgans, hañ munde ætla ad Konungureñ munde hañ aptur kalla fraa Gaalganum til Rijkis, wr Boduls-Hondunum til ſijns Haabords, og giora hañ Ættleiding af Utlaga, ſitt Barn af Diofulſins Þræl, og ſiñ Þienara af DRotteñs Svikara. Þeſs vegna er Gud Madur vordeñ, þar fyrer hefur hañ giefed oſs þad Teikn, er hañ hiet ad giefa aa Dogum Achas Konungs, Eſa. 7. um hvort ad gietur i þeſſa Haatijdes Dags veniulegum Piſtle, Þar ſo ſtendur: Fyrer þa Skulld mun DRotteñ giefa ydur eitt Teikn. Siaa þu, ad ein Jomfrw mun Barn gieta, og eirn Son fæda, og hañ mun hun kalla Jmmanuel, Þad er Gud med oſs, Gud i Mañdomum og Orded i Holldenu, Þad er JEſus, Lauſnare, Frelſare, Saaluhiaalpare, Þvi ſo kuñe eingeñ ad heita nema Gud bygge i honum. Þetta er nu fullkomeñ Viſſa um Saatt vora vid Gud, ſaa oſs reidur var, þvi hafe hañ giefed oſs hañ i hvorium honum alleina velþocknaſt, Matth. 3. Og ofurſellt hañ i Daudans Pijſler, til ad forlijka oſs vid ſiaalfañ ſig, Rom. 5. Þegar vier eñ þa vorum hañs Oviner. Hvorneñ kuñum vier þa ad efaſt um Uppgiof vorra Synda? Mun hañ kaſta þeim i Eilijfañ Elld ſem aa hañs Nafn trwa, er hañ took ſo nærre ſier ad giefa oſs? Mun hañ tilreikna þeim Syndernar, Hvorra Synder hañs Eingieteñ Sonur hefur burtu bored, Joh. 1. Nær vier ydrunſt þeirra af Hiarta? Mun hañ klaga oſs fyrer þa Handſkrifteña ſem hañ hefur alla reidu aa Kroſſeñ neglt? Col. 2. Fiærre ſie þad Fodur Myſkunſemdaña: Og þeſſe er nu ſaa Gledelege Bodſkapureñ er eg i Ondverdu hiet um ad tala. O Eitt Fagnadarſamt Ord! O Eitt ſañkallad Evangelium! O Eitt æſkelegt Fridar Bod! med hvoriu Heilſañ verdur framboreñ hinum Veika, Uppgiofeñ hinum Seka, Lauſneñ hinum Herteknu, Frelſed Þrælunum, Lijfed hinum Dauda, og þeim ſem

einkis Von ættu nema eilijfra Kvala i Helvijte, med Dioflenum og ollum hañs Ar-
um, Eilijf Sæla, Eilijfur Fognudur og Eilijft Samneyte, med hiñe hæleitu Guddom-
sins Preñingu og Heilegum Einglum i hiñe Himnesku Jerusalem, Hvorrar Sool og
Tungl ad Gud er, Apoc. 21. Og hvar eingeñ Umskipte eru Lioossens nie Myrkursins,
Jac. 1. Þessarar Tignar, Þessarar Dijrdar og þessarar Full-Sælu, uñ þu oss
niootande ad verda goode Gud, Fyrer Arnan og Forþienustu þijns
Eingietens Sonar JEsu Christi vors Frelsara, Amen.

# A Palma Suñudag.

Gudspialled steudur a hiñ Fyrsta Suñudag i Adventu.

## Exordium.

VJer hofum aungvañ Konung nema Keysarañ, Sogdu Gydingar Fordum
Daga, Joh. 19. Þa þeir villdu ecke læta Konung Dijrdareñar rijkia yfer sier,
Luc. 19. Eñ eg þykest vita, ad Christner Meñ mune ecke samsiña þeim Ogud-
lega Flock, Þvi jafnvel þoott vier eigum Gude ad þacka fyrer Konunga vora, Er hañ
sett hefur til ad stioorna sijnu Foolke, Sierdeilis vier, Er hañ hefur Millda og Riett-
vijsa Konunga giefed Eirn epter Añañ, Þa vitum vier þo, ad Gud hefur sett siñ Kon-
ung yfer sitt Heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Hvors Rijke ecke er af þessum Heime, Joh. 18.
Og þo er hañ Heimsins Skapare, Hebr. 1. Hvors Herradæme ad bræ fyrer syndu-
ga Meñ um Stundarsaker, til ad uppfylla Spædoom Zachariæ, Cap. 9. Þegar hañ
reid iñ til Jerusalem, Eñ hañs Rijkis Stooll varer þo um Allder Allda, Hebr. 1.
Vorer Hofdingiar stioorna med Makt og miklu Vellde, Verolldeñ er svo skipud, ad
ecke verdur odru ækomed; Eñ Christur i sijnu Nædar Rijke stioornar med sijnu H.
Orde og Sacramentunum, Þvi segier Paulus, 2. Cor. 10. Vopn Herfarar vorrar
eru ecke Lijkamleg, helldur Kraptur Guds til ad nidurbriodta Gyrdingarnar. Ver-
alldleger Herrar taka Skatt af sijnum Þegnum, Matth. 17. Og er þad Riettvijst,
Þvi þesse vor Konungur hefur þad skipad, Eñ hañ giefur ollum allt og upplijkur siñe
Milldu Hende, til ad sedia allar lifande Skiepnur, Ps. 145. DRotteñ sagde vid
Petrum: Veraldleger Konungar, Hvort taka þeir Skatt af sijnum Bornum, Ell-
egar af Añarlegum? Eñ Petur svarade: Af Añarlegum. Og vor HErra sagde:
Þa eru Borneñ frij, Matth. 17. Eñ þad geingur odruvijse til i Guds Rijke, Hier
tekur Konungureñ Skatt af sijnum Bornum, Sem þo er ecke Gull nie Silfur, helld-
ur Harmþrwngeñ og Sundurknosadur Ande. Fordum Daga mætte eingeñ mæta
Persaña Konunge, Nema hañ offrade honum einhvorre Gæfu, Og er Boonde nock-
ur vard a Veige fyrer einum af þeim, Hafde hañ þad ecke til er hañ kyñe ad biooda;
Eñ i þessu Rædleise took hañ Vatn i Lwkum sier og færde Konungenum, Og segia
Meñ þad hafe vered vel þeiged. Vier mætum vorum Konunge Daglega, Þvi allañ
Dageñ wtbreider hañ siñ Fadm til vor, Esa. 65. Eckert hofum vier þad vier kuñum

ad biooda þessum Allsheriar DRottne, Blood Uxaña og Hafraña þocknast honum ecke, Ps. 50. Allt Sylfur og Gull er hañs, Jafnvel vor bestu Verk eru eins og Nidlags Fat, Esa. 64. Gudrækeleg Taar vorra Augna og þad Vatn sem ydrande Mañna Hofud eru full af; Eirn audmiwkur Ande og lijtelaatt Hiarta er hañs Offur, Ps. 51. Betur lijkar honum Foota Pvottur hiñar Bersyndugu eñ Heimbod Simonar, Luc. 7. Betur Mariu Audmykt i Hiartanu, helldur eñ Umsorgun Marthæ i Hwsenu, Luc. 10. Hiñ beiske Grætur Peturs, Matth. 26. helldur eñ Offur Vitringaña, Matth. 2. Poott hvorutveggia være Packnæmelegt. Hin besta Pegn-Skyllda Gnds af Moñunum er þetta, Og Trweñ sem verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Eñ þesse Konungur svo Mattugur sem hañ er, Svo Prijdelegur sem hañ er, Svo Alvalldur sem hañ er, Svo Giæskurijkur sem hañ er, Pa er hañ þo til vor komeñ HOOGVÆR, Sitiande aa Ösnu Eiñe. Hafe nu Konungur Dijrdareñar v red svo Hoogvær fyrer vora Skulld, Pa laatum oss gaanga nær Gudspialle þessu, og læra nockud af honum, Sem er Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, Matth. 11. Pad er hiña Andlegu Hoogværd, Sem oss aa ad fylgia iñ i Himnarijke med Smaa-Bornunum, Matth. 18. Og um hana vil eg tala fyrer ydrum Kiærleika wt af þessu H. Evangelio. Hvar til oss styrke hiñ Naaduge Gud i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

VARe Pier J Pad KAuptwn Sem Gagnvart Ydur Er, Og Strax Munud Pier Fiña OSnu Bundna Og FOlañ Hiaa Heñe, Segier DRotteñ. Af þessu er audsied, ad hañ visse alla Hlute, Og ef hañ var Alvitur, þa var hañ og Almaattugur, Allstadar naalægur og Omælañlegur, Pvi Guddoomsins Eigeñlegleikar meiga ecke adskiliast, Hvar fyrer vier siaaum, ad oll Fylling Guddoomsins hefur bwed i honum Lijkamlega, Col. 2. Hvad laangt eru nu aller dandleger Meñ fraa soddañ Hatign? Ad soñu hefur Gud lagt miked til margra, Og þar verdur ecke aa moote sagt, ad Madureñ er hin ypparlegasta Skiepna Guds, sem vier siaaum med vorum Augum. Eñ þad hefur JEsus fram yfer alla adra, ad hañ er bæde Gud og Madur. Hvilijkt er þa þetta Oumrædelega Lijtelæte, Ad hañ sem oll Dijr aa Jorduñe skapad hefur, Hañ virdest sia so Lijtels ad sitia aa einum Asua, Sem er eitt hid Audvirdelegasta Kvikende medal Dijraña. Siaa hier, Christeñ Madur, hvad lijtels verd ad sie Hoffragt Veralldareñar i Guds Dijrdarfulla Auglite. Hier er ecke Pharaonis Vagn, Sem Joseph var i fluttur, Gen 41. Ecke Mardochei Hestur sem Ahassverus skipade honum ad rijda a sijnum Heidurs-Deige, Est. 6. Ecke hiñ Elldlege Vagn og Hestar, sem færdu Eliam til Himna, 2. Reg. 2. Helldur eirn Lijtelmootlegur Asne; Po stærer eirn syndugur Ormur sig af Bwningenum, Og af þvi Yferlæte er hañ hledur utañ aa sig. Pad er allvijda ad siaa i Æfe Sogu DRotteñs, hvad Lijtels hañ hefur meted Oflæte Veralldareñar. Hañ var fæddur i einum Stalle, Luc. 2. Hañ foor aa Fæte þegar hañ gieck um krijng, giorde Gott og græddе alla, Act. 10. Hañ rijdur hier einum Asna, Og hygg eg þad hafe þo vered

hid

hid meſta hañs Yferlæte hier aa Jorduñe. Þeink nu um̃ ſyndugur Madur, Hvilijk Faaſiña þad ſie, ad metnaſt i Hiarta ſijnu, þo Gud laate einhvorn ſkijna i Prijde Veralldar þeſſarar, Ecke ſegie eg, ad Gude misþockneſt Lykamlegt Hreinlæte eda fagur Bwnadur i ſiaalfum ſier, Þegar þau ſambiooda þeſs Virdingu er þvilijkt brwkar, Laangt helldur meina eg, ad Gud hafe øngvañ Misþocka aa þvi, þott hañs Skiepnum ſie hallded til Prijdis, Þad ſijner mier Aaronis Bwningur, Exod.28. Þad vottar Saattmaals Ørkeñ og Naadar-Stoolleñ, Exod.25. Þad ſijner Jeruſalems Muſtere, 1.Reg.6. Þad ſijner Salomon med allre ſiñe Dijrd, 1.Reg.10. hvørre i Ritninguñe hrooſad verdur, Eñ hitt ſegie eg, Ad ſtæra ſig þar af, Þad er Andſtygd fyrer Gude. Ecke trwe eg ad honum hafe illa lijkad ſu Bygging er Nebucadnezar liet giøra i Babylon, Eñ fyrer þvi hañ ſtærde ſig þar af, þa vard honum giefed Villudijrs Hiarta, So hañ aat Gras med Kvikendum aa Mørkeñe, Dan.4. Ecke hefur Gud reidſt vid Herodem af þvi hañ var Maalſniallur, þvi ſiaalfur hafde hañ honum Maalfæred giefed, Eñ Søkum þeſs ad hañ gaf ecke Gude Dijrdena, Þa var hañ ſleigeñ af Eingle DRotteñs, Act.12. Kañ ſkie ad Gud hefde laated Hvalfiſkeñ i Egyptalande vera kyrrañ i ſijnu Vatne, hefde hañ ecke ſagt: Mitt Vatn er mitt, og eg hefe giort mier þad, Ezech.29. Ecke er vijſt ad hañ hefde ſett Krookeñ i Zenacheribs Naſer, hefde hañ ecke laſtad Nafn DRotteñs. Þeſſe er hiñ Riettlaate Doomur hiñs Alvallda Konungs, ad Dramblaatum hrinder hañ af Stoole, eñ Lijtelaatum giefur hañ Naad, Luc.1. Betra er ad audmykiaſt med hinum Hoogværu, eñ ad wtſkipta Herfaange med þeim Drambſømu, ſegier Salomon, Prov.16. Hvar af audſied er, Ad þo Gud hefde miked til hañs lagt, og upphafed hañ aa Stool ſijns Fødurs, og giørt hañ vegſamlegre, Bæde ad Vite og Rijkdoome, helldur eñ adra Konunga i Auſturaalfuñe aa hañs Døgum, 1.Reg.10. Þa hefur hañ kañaſt vid, ad hañ hefde þad allt þeyged og ecke teked af ſiaalfum ſier. Svo var og David hañs Fader lyndur, Hvørs Audmyktar merkelegt Dæme vier høfum i Añarar Sam. B.6. Cap. Þegar Drottningeñ Michol brixlade honum med þeſſum Ordum: Hvørſu vegſamlegur var Konungureñ af Iſrael i Dag, Hvør ed afklæddeſt fyrer Ambaattum Þienara ſiña, og liek nakeñ ſem Fantar? Eñ hañ ſvarade: Eg vil leika fyrer DRottne þeim ſem wtvallde mig, helldur eñ þiñ Fødur og helldur eñ allt hañs Hws, og hefur ſkipad mig Høfdingia yfer DRotteñs Foolk Iſrael, Og eg vil eñ nu miñe verda, Og eg vil lijtelæcka mig i mijnu Auglite, og vegſamaſt med þeim Ambaattunum, ſem þu talader um̃. Ad eg tale ecke um̃ Abraham, Jacob, Moyſen, Joſaphat, Ezechiam og adra fleire, Hvørier aller voru af Gude med mikellre Tign ſæmder, og þeirra Audmykt i Andanum er þo hrooſad i Ritninguñe. Gud naade oſs, Hvad høfum vier ad ſtæra oſs af ſynduger Meñ? Er ecke Madureñ ein Vatns Boola? Hvør þo ad þioote upp um̃ Stundarſaker af Vinde Luckuñar, þa hiadnar hun jafnſkiott aptur, þegar hiñ ſame aa hana blæs. Er ecke allt Holld Hey? Og allur þeſs Heilagleike, lijka ſvo ſem Bloomſtur Akurſins? Graſed viſnade og Blooſtred datt af, þviad Ande DRotteñs blies aa þad. Sañarlega er allt Foolked Hey: Graſed

visnade, og Bloomstred datt nidur, Eñ Ord DRottens varer Eilijflega, Esa 40. Hier
er eingeñ undañtekeñ, Rijkur eda Fatækur, Gøfugur eda U-gøfugur, Smaar edur
Stoor, Vitur eda Vankuñande, Præll edur Herra, Og þetta eru Guds Ord, Hvør
æfeñlega vara, Er oss þetta segia: Latte þvi eingeñ ofurdatt ad sialfum sier, Pvi allt
hvad vier høfum, Hvad Gott edur Kostulegt sem þad er, Pad er þo alltsamañ Lans-Fie,
og ecke vort eiged. Segied mier: Hvar af skylldu Meñ þo stæra sig? Af Aud og Rijke-
dæme? Pvi skyllde eg hroka mier upp of þvi sem Luckañ kañ eins ad giefa einum Nijd-
inge, so sem besta Mañe, Sem aflad er med mikellre Ahyggiu a mørgum Arum, eñ far-
gast i einu Augnablike, Ef til vill. Pvi skal eg giøra mig stooran, þoott eg hafe eirn O-
Maga medferdis, Sem eg hlijt alltijd ad þrælka fyrer, Og so er Opacklaatur og Oriett-
vijs, ad hañ sedur alldrei sijna Fyrerviñu? Vilium vier athuga Br. mijner, Af hvøriu
flester eru i Fyrstuñe rijker vordner: Fæster munu þeir vera, Sem Natturañ hefur hi-
a/pad þar til ad øllu Leite, Edur þeirra Eittsamañ Erfide, Med hvøriu Gud hefur skipad
ad næra sig af Jørduñe, Gen. 3. Eg vænte ad so hafe flester andgast, ad þeir, eda þeirra
Forfedur hafe teked nockud ranglega fra ødrum. Eñ segied mier: Er þad Riettvijst
ad Meñ stære sig upp yfer einhvørium, af þvi ad hañs Forfedur hafa teked nockud fra
hiñs Forfedrum? Eingum Mañe mun þad þykia, Pegar Meñ gaa ad hvørneñ Hlut-
ureñ er i sialfum sier, Eda hvad er nu frañveigis ad stæra sig af? Eru þad Vits-
muner? Jeg medkieñe, ad þeir eru hiñ kostulegaste Hlutur sem Gud hefur lagt til synd-
ugra Maña, Eñ þo eru þeir fallvallter eins og añad; Og hvad lijted er þad vier vitum,
hia þvi sem vier ecke vitum? Madureñ veit ecke siñ Sess edur Gaungu, segier Rit-
ningeñ; Og hvørsu vill hañ þo meira vita? Og þoott ad þeir sieu i sialfum sier good-
er, þa verda þeir þo af vorre Misbrukun optlega nijdder, allra mest af Drambsemeñe.
Riett giørde Gud, so sem alla Hlute, J þvi hañ gaf Nebucadnezar Villudijrs Hiarta,
Dan. 4. Sem adur er sagt: Og sama ætla eg þa hende, sem forsmaa adra hia sialfum
sier, og þykiast einer samañ vita alla Hlute, Hvad þa optast hender, sem miñst vita, Og
þa þeir þykiast øllum hyggnare, Verda þeir Skiptingum heimskare. Margur Gort-
are hefur og stært sig af Hreiste Lijkamans, Giætande ecke ad þvi, ad lijtell Kville kañ ad-
svipta Mañeñ sijnu afle. Sumer hroosa sier af Fegurd Lijkamans, og er hun ad sø-
ñu agiætur Hlutur, Pa hun ecke er brukud til Lauslætis edur Ofmetnadar, eñ einsam-
añ er hun Agiætis lijtil, Pvi Madur kañ ad maala eitt Bijlæte fagurt, og er þad þo ecke
so gott, sem hiñ liootaste Madur. Hvad er nu frañveiges verdt ad stæra sig af? Dygd-
er og Mañkoster eru mest verder af øllum þeim Hlutum, sem fiñast hia Daudlegum
Møñum, eñ þeir verda ad Okostum þegar Dramblæted þeim spiller. Pvi segier Sa-
lomon, Vanvirdañ epterfylger hinum Stoorlaata, eñ hiñ sem er Lijtelaatur i Anda, mun
Vegsemdeñ umfadma, Prov. 16. Lijtelæted er fegursta Skart Dygdaña, an þess
verdur Framsyneñ ad Underferle, Riettlætid ad Hardydge, Hugprijdeñ ad Ofdyrf-
sku, Sparsemeñ ad Nijdsku, Jeg meina hid Christelega Lijtelæte, sem er eirn audmiuk-

ur

ur Ande fyrer Gude, Og kañast vid og þecker þad, ad Meñ eru Meñ og Mañlegum Tilfellum undervorpner.

Siaa Þiñ Konungur Kiemur Til Þijn Hoogvær, Segier Texteñ. Ef Konungur Dijrdareñar Ps. 24. Svo Lijtelæckar sig fyrer oss syndugum Moñum, þvi skylldum vier synduger Meñ stæra oss upp yfer vorum Brædrum. DRotteñ Himens og Jardar kiemur til vor aumra Maña, sem eckert tokum med oss i þeñañ Heim, og munum eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Hiñ Fegurste medal Mañaña Sona, Ps. 45 Kiemur til vor, sem fraa Hvirfle og allt til Ylia erum ecke nema Saar, Beniar og Þrote, Esa. 1. Laatum oss þad til Hiarta gaanga, hvad stoor Munur ad er vor og hañs, Vier erum þeir ed stygdum, Hañ er saa sem misgiort var aa mote, Hañ þarf ecke vor med, Eñ vier kuñum ecke eitt Augnablik ad lifa fyrer utañ hañs Myskun. Laatum vort Hiarta komast vid af þvi, ad hañ er siwkur af Elsku, Cant. 2. Ofañ til vor komeñ, þegar vier hañ hotudum. Ef vorar Synder ecke aangra oss, ef vier hrædunst ecke þeirra Straff, þa laatum þo þañ Oum̃rædelega Elskuñar Bruna smellta vort Hiarta, ad hañ kiemur med so mikille Hoogværd iñ til Jerusalem, til ad laata sig Kvelia og Krossfesta fyrer mijnar og þijnar Synder, Christeñ Madur. Hañ grætur yfer Borgeñe, hvorrar Iñbyggendur ad ecke þecktu siñ Vitiunar Tijma, Luc. 19. Af hvorium hañ visse þo ad hañ munde so Haaduglega wtleikeñ verda, sem hañs Pijslar-Saga vottar. Fyrst hañ hefur nu allt þetta uñed fyrer oss synduga Jardar-Madka, Þa laatum oss giora þad hañ oss skipad hefur, sem er, ad læra af honum hina soñu Hoogværd sem Gud aalijtur, gioraude eckert af Kappe edur fyrer Hiegooma Dijrd, helldur af Lijtelæte, hafande hvor añañ sier i Virdingum ædre, Phil. 2. Audsijnum og vort Lijtelæte i Verkunum, So ad bæde Gud og Meñ siaae ad vier leggium ecke ofmikla Virding aa siaalfa oss. DRotteñ sagde til Læresveinaña i þessu Evangelio, Þegar hañ skipade þeim ad taka Ösnuna: Ef Einhvor Segier Nockud Til Ydar, Þa Segied Ad HErrañ Hafe Þeirra Þorf. Allt Valld hafde JEsus, bæde aa Himne og Jordu, Þvi alla Hlute hafde Fadereñ lagt i Sonarens Hendur, Matth. 28. Þvi sijnest ad þad hefde ecke vered um̃fram hañs Raad, þott hañ hefde teked þetta Dijr ad fornspurdum Eigandanum, þo villde hañ þad ecke giora, uppa þad hañ sijnde oss hvorneñ vier eigum hvor vid añañ ad breita. Eñ hvad giora sumer af oss? Þyker oss þad mikels verdt ad giora Lijtelmagnañ fornspurdañ, ad þeim Hlutum er vier eignast villium? Mun Jessabel virda fyrer sier ad leita Liwgvitna i moote Naboth, og laata Grijta hañ sijdañ i Hel: Þegar Achab vill eignast hañs Vijngard? 2. Reg. 21. O! Gud giæfe ecke være þvilijk Dæme hiaa oss, Þott Meñ raadest þess miña i, sem vier hofum Valldeð miña helldur eñ Achab hafde. Ad soñu er skyckanlega og Lijtelaata Um̃geingne ecke ad lasta: Hun kañ ecke so ad kallast Dygd, So sem Dygdaña Forunauteñe hafa, Og margur hefur saa hana til ad bera, sem ecke hefur siaalfar Dygdernar, og med sumer teked allt fraa ollum, eñ þo er ecke hid saña Lijtelæte i þvi iñefaled ad taka Hatteñ af fyrer Moñum, jafnvel þo þad sie ecke lastande i siaalfu sier. Utvortis og Iñvortis

vortis Lijtelæte, Er ad sõñu hvorutveggia gott, Eñ skule añars hvors æn vera, þa villda eg helldur ad Hattureñ sæte kyrr a Hofdenu, helldur eñ ad Aumingians Kiooll være rif-eñ af hañs Kroppe, So ad Gud klagade mig ecke sijdañ, ad eg fielle fram i Pantsettum Klædum i hañs Hwse, Amos. 2. Vier heyrum i Gudspiallenu, ad margt af Foolk-enu sem epter fylgde Lausnaranum, Hafe Breidt Sijn Klæde A Vegeñ, Eñ Adrer Hoggved Kviste Af Triænum; Pad var stoort Audmyktar Merke af þessu Foolke, og eg veit ad þier, Christner Meñ, villdud hid sama giora, ef þier mættud hañs Nalægdar nioota. Eñ trw mier til, Ad hañ er ecke so langt i burtu, sem þu hyggur, þvi hañ hef-ur sagt: Eg vil vera hia ydur allt til Enda Veralldar, Matth. 28. Og ef þar eckert añad er, Pa eru þar nooger Klædleysingar, Sem hañ kallar sijna Lime, Pad eru sañer Olmusu-Meñ: Breidum vor Klæde a Veigeñ fyrer þa, so ad þeir ecke i Klædleysi ut-af deye, sem ad bera Teikn JEsu Christi a sijnum Lijkama, og eru epter hañs Mynd skapader, So vel sem vier adrer, sem betre Raad hofum, þa offrum vier hinu sañarlega Lijtelæte, og lætum Gud sia ad vier þykiunst ecke uppyfer þeim sem hañ hefur miña til-lagt. Christur vill ecke lata lwta sier einunges med Ordum, helldur med Verke og Sañleika, Eph. 2. Ecke helldur sijnum Limum, Þvi hañ er Safnadarens Hofud, Rom. 12. Eñ vier erum hvor añars Limur. Par mun koma sa Dagur ad sagt mun verda til þeirra sem hafa medteked Guds Volada i hañs Nafne, Þegar Christur mun i Añad Siñ iñrijda til Jerusalem, Pad er til siñar Christelegrar Kyrkiu, ecke grætande svo sem nu, Helldur med Makt og miklu Vellde, Þegar Hofud-Eingelsins Lwdur mun gialla yfer þeim sem a Jordu bwa: Komed þier Blessader mijns Fodur, og eignest þad Rijke sem ydur var tilbwed fra Upphafe Veralldar; Pviad Hwngradur var eg, Og þier gæfud mier ad Eta, Þyrstur var eg, Og þier gæfud mier ad Drecka, Giestur var eg, og þier Hystud mig, Nakeñ var eg, og þier Klæddud mig, Siwkur var eg, og þier Vit-ludud mijn, J Myrkvastofu var eg, og þier Komud til mijn; Pa munu hiner Riettlat-tu svara honum og segia: HErra, Hvenær sæum vier þig Hwngradañ og Soddum þig? Eda Þyrstañ og gæfum þier ad Drecka? Eda hvenær sæum vier þig Giestkom-eñ og Hystum þig? Eda Nakeñ, og Klæddum þig? Eda hvenær sæum vier þig Siwk-añ edur i Myrkvastofu og komum til þijn? Og Konungureñ mun svara og segia til þeir-ra: Sañlega segi eg ydur; Ad hvad þier giordud Einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, Pad giordud þier mier, Matth. 25. Pa mun þad ecke koma i Epterþorf ad hafa breidt sijn Klæde a Veigeñ fyrer Christi Limu, Pad mun verda stoor Fiesioodur a Himnum, ad hafa lijtels acktad Gull og Gersemar, og Kostulegañ Bwnad, þegar allt þetta stendur i hiortu Baale, og duger til einkis nema ad kveikia Elld under þeim sem haf-a fest sitt Hiarta þar vid. Þyke oss vænt um þad fanijta Skart, sem vier vefium i þes-ña forgeingelega Lijkama, og þad svo mjog, ad sumer af oss være til Frids, ad flytia med sier nockud wr þessare Verolldu, Pa er Raad þad vid þvi, ad klæda Fatæka, þeir muñu oss þad med Abata aptur giefa, Sem er Riettlætesins Skrwde, Fægadur i Lambsins Bloode.

Bloode. Eckert berum vier i burtu med oss hiedañ, nema þad sem Guds Voludum er giefed, þad mun oss aptur rijkuglega golldeð verda i Upprisu Riettlaatra. So læred nu af ydar Frelsara, B.M. ad vera Hoogværer og af Hiarta Lijtelaater, Bæde i Orde og Verke. Hañ hefur ecke sagt til vor: Læred af mier ad skapa allañ Heimeñ, ecke ad gløra Kraptaverk i Heimenum, ecke ad raada fyrer Velferd allra Maña, helldur hefur hañ skipad oss ad læra af sier Hoogværdena. Saa sem vill byggia sitt Hws stoduglega, hañ þeinke um̃ Grundvoll Lijtelætesins, þvi hvør sa ed sig upphefur, hañ skal nidurlægiast, og hvør ed sig nidurlæger, hañ skal upphafeñ verda, Matth. 23. Eñ þu O HErra JEsu Christe! sem ert hid fullkomnasta Epterdæme Lijtelætesins og Hoogværdareñar, virdst þu ad taka burt fraa oss Hroka Syndumspilltrar Naatturu, so ad vier rata mættum þañ rietta Vegeñ iñ i þitt Rijke, Þad veit þu oss Myskunsame HErra, sem hefur Lijtelæckad siaalfañ þig, uppaa þad vier Vegsamleger yrdum, Og bid þiñ Himneska
Fodur fyrer oss, Ad hañ sende oss þar til siñ Heilaga Anda,
Amen, J JEsu Nafne, A M E N.

# A Skijr Dag.

Þistilleñ, 1. Cor. 11. Cap.

GOODer Brædur. Þvi eg medtook þad af DRottne sem eg hefe ydur giefed. Af þvi ad DRotteñ JEsus, a þeirre Naatt er hañ var svikeñ; Took hañ Brauded, Giørde Þacker, braut þad, Og sagde: Taked og Eted; Þetta er miñ Lijkame, Saa fyrer ydur verdur broteñ, Giøred þad i mijna Miñing. Sømuleidis og eirneñ Kaleikeñ, epter þad hañ hafde Kvølldmaaltijdena eted, Seigiande: Þesse Kaleikur er Nijtt Testamentum i mijnu Bloode. Giøred þetta so opt sem þier drecked þar af i mijna Miñing. Þviad so opt sem þier eted af þessu Braude, og drecked af þessum Kaleik, Skulud þier kuñgiøra Dauda DRotteñs, þaangad til hañ kiemur. Hvør hañ etur nu af þessu Braude, og dreckur af þessum Kaleik DRotteñs Overdugur, Saa er sekur vid Holld og Blood DRotteñs. Eñ hvør Madur proofe sig siaalfur, og ete so af þessu Braude, og drecke so af þessum Kaleik. Þviad hvør hañ etur og dreckur Overdugur, Saa etur og dreckur siaalfum sier Doom; Giørande ecke Greinarmun aa DRotteñs Lijkama.

## Exordium.

SÆll er sa Madur sem etur Braud i Guds Rijke, Sagde Fordum Gydingur eñ er sat til Bords med vorum Frelsara, þa hañ var ad Heimbode Eins af Phariseaaña Hofdingium, Luc. 14. Hañ hefur aan Efa meint hier med alla þa

Sælu er þeim hweñ er, Sem sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnaña. Þesse Madur sagde ad viisu satt, Eñ Forgiefens vænta Meñ hlñar eilijfu Sælu, Nema vier faaum hier i Lijfe nockurn Forsineck heñar, Eñ hvar faaum vier haū? J Guds Heilogu Orde ad soñu, Eñ þo allra hellst i þeim Heilogu Sacramentis. Hvilijkur Fognudur er þad eirnre Riett-trwadre Saalu, ad hun veit, ad hun i Skijrneñe er vordeñ Guds Vinur af Reideñar Barne, Eph. 2. Og Hluttakande allra JEsu Christi Velgiorninga, Sem haū med siñe beisku Kvol og Dauda hefur oss afrekad, Og til Styrkingar Trw siñe þar uñ, etur haū Guds Lijkama og dreckur haūs Blood i og med hinum Jardneſku Hlutum Braude og Vijne. J Ordenu heyrum vier Raust Brwdgumans, Cant. 5. Eñ i H. Kvolldmaaltijd DRotteñs, kysser haū hana med Kosse sijns Muñs er haūs Hiarta elskar, Cant. 1. Þar uppvekur haū Elskuna til sijn, Þar styrker haū Trwna, Þar lijfgar haū Vonena, Þar eykur haū Gledena og giefur oss Forsmeck Himnarijkis. David gat ecke meire Æru veitt Mephiboseth Syne Jonathans Vinar sijns, 2. Sam. 9. Edur Vin sijnum Barsillai, 2. Sam. 19. Eñ ad þeir skylldu eta Braud vid haūs eiged Bord. O! hvilijk Æra er þetta þa, Br. M. ad Konungur Dijrdareñar setur oss vid sitt eiged Bord? Haū framreider þar, Ecke eirn aleñ Kaalf, eins og Fader hiūs tijnda Sonarens, Sem gietur uñ i Epterlijkinguñe, Luc. 15. Helldur sialfaū sig þad Saklausa Guds Lamb, sem fraa Veralldareñar Upphafe slaatrad er, Apoc. 5. Hwngrudum til Sadningar. Nathan Spaamadur kuñe ecke ad faa añad Vigtugra til ad sijna David, hvorsu mieg hiñ Faatæke Madur hefde elskad haū Sauðeñ sem hiñ Rijke took fraa honum, Helldur eñ þad, ad haū gaf honum ad eta af sijnum Braud-Bita, Og ad drecka af sijnu Kiere, 2. Sam. 12. O JESU! Vier erum þijner Volader Sauder, Þu hefur auglijst þiñ breñande Kiærleika i morgum þijnum Velgiorningum, Eñ þo hvad mest i þvi, ad þu hefur giefed oss þitt Holld ad eta og þitt Blood ad drecka, Þad sama Holld og Blood sem aa Krossenum hieck og wthellt var, Eñ nu situr til Kraptarens Hægre Handar til ad byrtast fyrer Auglite Guds, til ad afmaa Syndena med Foornfæringu sialfs þijns, Hebr. 9. Þu hefur til þessa Giestabods kallad Faatæka, Vanada, Hallta, og Blinda, Luc. 14. Þad er oss Aumar Syndugar Mañeskiur, Hvoria Syndeñ og Diofulleñ svo illa hofdu wtleiked, ad fraa Hvirfle og allt til Ylia var þar ei nema Saar, Beniar og Þrote, Esa. 1. Eñ eg Ottast næsta mieg ad þeirra Lijkar fiñest vor a medal, Er St. Paall svo hardlega aatelur fyrer Osidseme þeirra og Vanrækt aa þessu Himneska Bord-Halldе, Þar haū segier til Corinthios: Þessu hroosa eg ecke ad þier samañkomed ecke til hiūs Gooda, helldur til hiūs Verra eins, 1. Cor. 11. Þvi giefur haū þeim og eitt aagiætt Bodord, hvorneñ þeir skulu tilreida sig under þessa H. Maaltijd i þessum Ordum: Hvor Madur Proofe sig sialfur, og ete svo af þessu Braude og drecke af þessum Kaleik. Og ecke einasta hefur haū þeim þad giefed, helldur og ollum Christnum Moñum, Er med þessum Hætte vilia kuñgiora Dauda DRotteñs, Hvar fyrer

fyrer eg vil og wt af þessum H. Pistle tala um̃ þaa sierlegustu Hlute er heyra til Christe-legs Underbwonings þessarar Haaleitu DRotteñs Kvølldmaaltijdar.

Hiñ goode Gud virdest ad styrkia oss hier til, med Naad sijns Anda, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

PAd aa ad vera oss alkuñugt, B. M. Ad i Skijrneñe hefur Gud giort eitt Naadar Saattmaala vid oss auma Meñ, Par vier fædunst i Heim þeñañ dauder i Synd-unum. Nu er oss þad vitanlegt, ad vier Daglega riwfum þeñañ Samning, ecke alleinasta af rasande Raade, helldur og optsiñis med Vilia og Asetninge, eñ þvi vallda Guds diwpu Myskunar Ydur, ad vier eigum Kost aa ad nijn ad forlijka oss vid hañ, og til þess hefur hañ sett og iñstiptad þad H. Altaresens Sacramentum, i hvoriu vor Skijrn-ar Saattmaale verdur ad fullu Endurnijadur, Guds Naad ad niju frambodeñ sañyd-rande Mañe, og hañ aavallt skulldbundeñ til ad giora verduga Avoxtu Ydraneñe, Mat-th. 3. Pad vill DRotteñ boded hafa, Er hañ segier hiaa Lucam. 22. Cap. Svo opt sem þier giored þetta, Drecked þad i mijna Miñing, hvad Paulus i Textanum kallar ad kuñgiora Dauda DRotteñs. Eñ hvilijk aa þesse Miñing ad vera, B. M? ecke svo sem þegar vier dreckum Konungsins Skaal, edur Vina vorra og Naaunga, Pad være ad giora lijteñ Greinarmun aa Lijkama DRotteñs og añare Fædu, helldur eigum vier þess ad miñast med Hiartans Angre og Trega, ad vorar Bloodugar Jllgiorder hafa Dijrd-areñar Hertoga Krossfestañ, ad oss verde þær fyrer hañs Dauda og Forþienustu all-deilis tilgiefnar, Ef vier ydrunst af Hiarta. So er nu Christeleg Ydran so ad segia, hin Fyrsta Trappa sem liggur upp ad þessu Haaborde DRotteñs. Eñ þess er ad gæta Barn Guds, ad hun sie heit og alvarleg. Christur giorde ecke um̃ Grun ad lijda fyrer Synder þijnar, þu aatt og ad laata þig af iñstu Hiartans Rootum aangra þad, ad þu haf er hañ moodgad og moodger Daglega. Hier til heyrer naakvæm og grandgiæfeleg Þecking Guds H. Bodorda: Hvorneñ maa hañ þeckia Syndena, sem ecke er Sañ-froodur um̃ Guds Vilia? Eñ hvorsu maa saa ydrast Syndareñar, Er hana ei þecker? Og saa sem ecke ydrast, Hañ etur og dreckur Overdugur, Eñ hañ ed þad giorer, Er sekur vid Holld og Blood DRotteñs, segier Paulus i upplesnum Texta. O! hvorsu hræde-leg mun þesse Sekt, Christner Meñ. Vier kyñum ad leida oss i Hug, ad þeir ed vijs-vitande athugalaust og Overduger gaanga til Guds Bords, Peir væru ecke ollu miña sekeri i Auglite hiñs Riettlaata Guds, Eñ þeir sem hañ Krossfestu, Pvi þeir hafa Christi Vitne þar um̃, ad þeir ecke vitad hafe hvad þeir giordu, Luc 23. Eñ þad maa hvorium einum Christnum Mañe vera vitañlegt, ad Gud hefur sendt Son siñ i Heimeñ synduga Meñ Saaluhoolpna ad giora, og ad hañ siaalfur hefur giefed sitt Lijf wt fyrer sijna Sau-de, Joh. 10. Hvoriu til Stadfestu hañ giefur oss sitt Holld ad eta og Blood ad dreck-ka. Edur segied mier, Hvad er þad sem Paulus til Heb. 10. Kallar ad Foottroda Guds Son? Og ad hallda Saattmaalans Blood almeñelegt? Med hvoriu vier erum

Endurkeypter. Mun þad ecke ſtappa nærre þvi, Sem hier ſtendur i Textanum? Ad
Giora Ecke Greinarmun A DRottens Lijkama. Hvad er þad añad, Eñ ad hallda
hañ almeñelegañ? Eñ Paulus ſegier, ad þeir ed þvilijkt giora, Ete og Drecke ſiaalfum
ſier Doom, Pad er, ad þeir giore ſig eilijfrar Fyrerdæmingar ſeka, Nema þeir raade
Boot aa ſlijku og ydreſt af Hiarta. Kome þier þvi til Hugar Syndugur Madur, ad
þu ecke hafer ſo verduglega geinged til Guds Bords, ſem þad hefur byriad, Pa orvænt
þier ad ſoñu ecke Guds Naadar, helldur ydraſt, Og laat þier ei til Hugar koma ad bryw-
ka þeſſa Hiaa'pſamlegu Nautn, fyrr eñ þu hefur lært ad reyna og proofa ſiaalfañ þig ſvo
ſem byriar, Þvi þu ſier hvilijkañ Haaſka þu ert vidkomeñ, Nær þu ſtendur vid HErrans
Bord, Nema þu gialldér Varhuga vid. Drag þo ecke ſlijkt undañ med Toomlæte og
odrum Um̃ſvifum, Þvi þu ſem ert ſañfærdur þar um̃ i Hiarta þijnu, ad þu optlega hefur
Onijtt þiñ Skijrnar-Saattmaala: Þier mætte til Hugar koma, ſem fliootaſt og optaſt
ad forlijka þig vid Gud i H. Altareſins Sacramento. Þar fyrer, Þoott eingeñ eige
ſvo Ofroodur ad koma i þeñañ H. Stad, þa affakar þad hañ ecke, ad hañ hefur ei vered
ſier wt um̃ Þeckingu Guds Bodorda og riettañ Skilning aa ſijnum Saaluhiaalpar
Efnum, Þvi ſaa ſem aan Logmaals ſyndgar, hañ mun aan Logmaals tapaſt, ſegier Paul-
us, Rom. 2. J Skijrneñe verdur oſs uppaalogd almeñeleg Hlijdne Guds Bodorda.
Um̃ hana erum vier ſkyllduger, Pa vier drogunſt aa Legg og gietum lært ad kuña nockra
Grein Jlls og Goods. Sie þier þvi fyrſt um̃hugad, Chriſteñ Madur, hvort þu ert
Ungur edur Gamall, ad þu gaanger ſmaaſmuglega i giegnum oll Guds Bodord, med
allre Athygle, Rañſaka hvad i þeim er Boded edur Bañad, Hvoriar Dyader i hvoriu
eru Bodnar, og hvorier Leſter edur Klæker þar eru Bañader. Nockud af þeſſu er ad
ſoñu giort i þeim Bookum, er hlijda til vors Barna Lærdooms, Jafnvel þoott eg Oſka
villde, ad þad være nockud greinelegar brijnt fyrer Ungdoomenum og Faafroodum, helld-
ur eñ almeñelega gioreſt, ſvo þeir lærdu ad þeckia Edle og Haattalag Chriſtelegra Dyg-
da, hvar af Vanart og Oedle Glæpaña er audþeckt. Þeink og ecke ad vondar Hug-
reñingar ſieu ecke Fordæmañlegar Synder. Til hvors ſegier Endurlauſnareñ, Mat-
th. 5. Ad ſaa ſem lijtur eina Konu til ad gyrnaſt hana, hañ hafe alla reidu drygt Hoor
med heñe i ſijnu Hiarta? Hvar fyrer ſegier hañ, Saa ſem reideſt Broodur ſijnum, ſie
Raads ſekur: Þvi ſagde hañ vid Phariſæana: Hvar fyrer huxe þier ſo Jllt i ydrum
Hiortum? Matth. 9 Drage eingeñ ſiaalfañ ſig aa Taalar, til þeſs er hiñ alſkigne
Gud Hiartnaña og Nijrnaña Rañſakare, Jer. 17. Ad hañ dæmer allt þvilijkt og for-
dæmer aa oſs, nema vier þeſs ydrunſt af Hiarta eins vel ſem Orda og Verka; Og hv-
ad ſem hañ hefur bañad ad giora og tala, Pad hefur hañ og bañad ad hugſa. Og uppa
þad Ydraneñ kuñe ad nockru Leite ad ſamblooda Stærd Syndareñar, þa athugum
Grandgiæfelega Miſmun þeirra, epter þeirra Haattalage og Atburdum, Tilgaange og
Orſokum, er oſs droou þar til, Eñ eingeñ kañ ad jaata edur ydraſt Riettelega þeirrar
Syndar, er hañ þecker ecke Stærd heñar og Jlſku, Og traudt kañ Madureñ ad laata
Af

af þeim Glæp, sem hañ ecke veit hvoria Verkan hefur haft i sier edur hvad sig hefur til-dreiged ad drygia hañ. Þar eru til Ovitañlegar Synder, sem skie añadhvort af þvi ad Meñ vita ecke hvad giorest, So sem Paall, er hañ sagdest ei hafa vitad ad þad var hiñ Ypparste Kieñemadur til hvors hañ talade, Act. 23. Edur Moodur þeirra Zebedei Sona, er ei visse hvors hun beidde, Matth. 20. Þær reiknar Gud ecke Endurfæddum Mañe til Syndar, Þvi eingeñ Fordæming er a þeim, sem eru i Christo JEsu, Rom. 8. Eñ þo med þvi Moote, ad Vanvitskañ kome ecke af Asetninge til ad syndga, so Meñ vilie ecke læra Guds Vilia til þess, ad ei þurfe epter honum ad lifa. Lijkar þessum eru þær ed Meñ giora af Rasande Raade, af Gleymsku, af Braadræde, So sem þegar Petur hioo Eyrad af Malchus, Joh. 18. Þegar Læresveinarner þrattudu um, hvor þeirra mestur være, Marc 9. Þegar þeir villdu kalla Elld af Himne, Luc 9. Þessum Syndum er hiñ goode Gud og so Naadugur, Þoott þær i sialfum sier stoorar sieu, hvar uppaa allstadar Dæme eru; Eñ oss byriar grandgiæfelega ad taka Vara a Lijfernis Haattum vorum, og læra ad þeckia Breste vora, Añars mun Braadræded og Vangiætslañ ecke afbata meir þess haattar Synder, helldur eñ Vanvitskañ hinar.

Nu eru þo Synder, sem Meñ drygia þvert a moote Samvitskuñe, og ad heñe Naudugre, Hafande ad ongvu Guds Bod fyrer einhvors Tilgaangs Saker. Þvilijkar Synder kuña ad verda ad stoorum Syndum, Þott þær sieu smaaar i sialfum sier; Og þad sem ecke er Synd i sialfu sier, Þad reiknast fyrer Synd, nær Meñ ætla þad mune vera Gude a moote, Eñ giora þad ei ad sijdur, Þvi hañ dæmer epter Asetningenum, og ecke epter Vitsmununum. J Selskap þessara Synda var Aaronis og Mariu, er þau mogludu i giegn Gude og Moyse, Num. 12. Davids, þegar hañ took Hwsfrw Uriæ Hetithers Frillutake, eñ sloo Boonda heñar i Hel med Sverde Añons Barna, 2. Sam. 11.

Þessar Synder verda ei afþvegnar nema med heitum Ydrunar-Taarum, þvi stoor Saar þurfa mikla Grædslu; Eñ hiñ Riettlaate Gud er vandur ad Virdingu siñe, og lætur ei ad sier hæda, Gal. 6. Þess er og ad giæta, B. M. ad þær Synder, sem oss yduglega henda, þær reita hiñ Myskunsama Gud nærsta miog til Reide, Þvi þad mætte sijnast, ad Meñ med soddañ Ogudlegu Athæfe giordu Leik til þess ad styggia hañ. Oss verda Syndernar med þvi-Fororde tilgiefnar, ad vier leggium af vora Illsku Breitne-Laatum af Illu og lærum Gott ad giora, Esa. 1. Þvi ef vier æfum þañeñ Syndena, jafnvel þott vier laatunst ydrast heñar, þa mætte virdast ad hin sijdarsta Synd hefde forbroted Fyrergiefningu allra hiña, Eñ eingeñ veit hvort hañ fær Toom til ad ydrast heñar, Edur hvort Gud vill liena honum Ydran til Apturhvarfs (sem Paulus ad Orde kiemst, 2. Tim. 2.) er so leinge hefur giort Handverk af Syndeñe. Þar fyrer byriar ollum þeim er til Guds Bords gaanga, ad athuga, ad þær Synder er oss henda epter þad, ad vier hofum lofad Gude Betrun Lijfernesins, Þær eru þijngre og orka meire Hegningar, eñ hinar er vier aadur giordum, Þvi ad i þessu Sacramente verdur Skijrnar Saattmaaleñ Endurnijadur, sem aadur er sagt, og vier verdum ad Niju Tryggrofar vid Gud,

Nema vier af fremsta Megne leggium allt Kapp æ ad hallda vor Sære. Vid þessum
Syndum er flestollum nockud hætt, Jafnvel þeim sem ecke eru længt fra Guds Veige, og
þær henda Guds Born æ Stundum; Eñ uñ þa vik eg ecke tala, sem eru so Samdauna
vordner Rænglætenu, ad þeir ecke þeckia Syndena fyrer Synd, Pott þeir vite ad Gud
hafe bañad hana, Peir Leidriettast ecke vid Guds Straff og Alogur, þeir taka Syndena
i Forsvar, Og vilia Riettlæta hana, Reidast Guds Pienurum edur og goodum Vinum
sijnum, þa þeir æ talder verda. Peir elska Syndena ecke alleina æ sialfum sier, helldur
og samþickia þeim er hana giora, Rom 1. Pad hender Guds Born, ad þad gooda sem
þau vilia giora, þad giora þau ecke, Rom. 7. Eñ þesser elska eckert Gott og hafa Ga-
man af Illu, bæde hiæ sialfum sier og odrum, Lockande adra til vondra Verka, og eru
i þvi so sem nockurskonar Umbodsmeñ Fiandans, Pvi þad er hañs Embætte. Pessa
nefner St. Paull, 1. Tim.4. Forbrendar Samvitskur, Og munu þeir verda iller Apt-
urhvarfs, Nema þeim sie i Tijma Grædslu leitad. Nu er eingeñ Efe æ þvi, ad soddañ
Mañeskiur finast i Guds Kyrkiu, fyrer þvi verd eg hier uñ ad tala, Pvi þa er Gudley-
sed komed æ hina efstu Troppu, og gietur varla hærra stijged, og eingeñ Hlutur er þeim
vijsare eñ eilijft Helvijtis Baal, Nema þeir læte sig Leidrietta af Guds Anda. Og er
þad ecke noog, Christeñ Madur, ad þu lærer ad þeckia Syndena af Yfervegan Guds
Bodorda, edur heñar Hættalag, af þvi sem nu er sagt. Pu ætt þar ad auke ad rañ-
saka þitt eiged Lijferne, og ganga ytarlega i Riett vid sialfañ þig. Pad var Olucka
vorra Fyrstu Forelldra, ad þau lærdu ad þeckia hid Illa, Gen.3. Eñ Gud er svo hagur,
ad hañ kañ ad giora gooda Hlute af vondum, og þvi kañ Pecking Illskuñar ad gagna
oss til Sæluhiælpar, Po meir æ sialfum oss eñ æ odrum. Pad er ecke Mañvant ad
þeckia hvad Illt er i añars Fare, eñ sa sem dæmer sialfañ sig, hañ verdur ecke af DRott-
ne dæmdur: Pad skiedur nær Meñ bera Lijferne sitt, Ord, Giorder og Hugreñingar
samañ vid Guds Logmæl, Eñ þar hlijfest margur vid, Sumer þess vegna, ad þeir ætla,
ad þar mune ecke so skarprar Rañsoknar vid þurfa, Adrer hins, ad þeir kvijda vid ad ijsa
hin fronu Særeñ, Pvi þau svijda magnlega, nær þau Rañsokud eru med Logmælsins
Brodde, Giætande ecke ad þvi, ad soddañ verkar þo epter æ fridsamlegañ Avoxt Riett-
lætesins, Heb. 12. Fæera Meñ þvi alla Hlute sier til Umbootar, Ecke einasta fyrer od-
rum, Hvad ecke er so ad læ, helldur og fyrer sialfum sier og Doome siñar eigeñ Sam-
vitsku, So ad hañ sem længt er fræ þvi ad elska Gud umfram alla Hlute, hañ kallar sig
vel hafa giort og afloked þeirre Skylldu, ef hañ les Bæn sijna Kvolld og Morgna, edur
sijngur honum eirn Psalm til Dijrdar. Sæ sem er giarn a Bloot og Svardaga, nefn-
er þad Hreyste Yrde. Hañ sem afræker Guds Hvijldardaga, nefner þad Astundan og
Ydiuseme. Ef Meñ formæla ecke Fodur og Moodur, Jafnvel þo þeir sieu þeim Ohlijd-
uger i ollu þvi sem þeir þora, og ef Forelldrarner klæda Borneñ og fæda, þo þau lijde ad
þau alest upp i ollu Reideleyse, Og jafnvel sumer i Skommum og Odyadum, þa þykiast
Meñ hafa giort mikeñ Part Skylldu siñar: Sæ sem Reideñ er og Heiptrækur, Hañ
kallar

[illegible]ar þad Hugprijde. Hiñ Lauslæte vill laata Oskickañlega Um̃geingne heita Mañ-udleika og Kurteyse. Hiñ Agiarne nefner sig Framsijnañ og Forsialañ. Þegar Meñ ecke bera opeñberlega falskañ Vitnisburd edur sveria Lijge uppa siñ Naunga, þykiast Meñ vera skilder vid hid Attunda Bodord, Og kañ skie sumer hrædest þo meir Doom-arañ eñ Gud, eñ ecke eru Meñ so liwfer a þad alltijd ad bera Sañleikanum Vitne. Litla Smaa-Skreytne edur Svigurmæle um̃ siñ Naunga, Lausmælge, Roogburd a millum goodra Vina, edur illt Um̃tal i Hofdingiaña Eyru, Þad reikna Meñ sumer ad ongvu, eñ sumer ad Hversdags Brestum, sem Gud mune audvelldlega stijga fram yf-er, Þott Meñ ydrest þess ecke miog, Edur æse þad ad Gamne sier, Epter þad þeir hafa feinged Fyrergiefning Syndaña, Athugande ei þad, ad þvilijkt er nærst til ad fordæma Syndarañ. Sem fyrer litla edur ongva Synd er hallded. Þvi segier Lausnareñ: Sa sem uppleyser eitt af þessum miñstu Bodordum, Hañ skal miñstur kallast i Himnarijke, Matth. 5. Þad er, Hañ skal þar alldrei iñkoma. Þañeñ byggia Meñ Odygdunum, Andskotans Dætrum heima-Jordena, sem er Hiartad, af hvoriu frañkoma vondar Hugsaner, Mañslog, Hoordoomur, Frillulijfe, Þioofnadur, Fals-Vitne, Gudlast-aner, Matth. 15. Eñ reka Dygdernar, Edur riettara ad segia, Mynder Dygdaña i Hiaaleigurnar, sem eru Læte vor og wtvortis Hegdan til þess ad forsvara Heimagards-eñ, og byrtast hvor fyrer odrum, Eñ Meñ giæta ecke ad þvi, ad hañ sem Augad hefur skapad, Ps. 94. Hañ sier hvad i Myrkrunum er huled; Þvj skylldu Meñ þa vilia fegra sitt Maal fyrer honum. Þvi dylia Meñ Siwkdoomeñ fyrer Læknaranum, þvi striwka Meñ Purpura Litnum yfer hin fwnu Saareñ, Þad heiter ad færa Christ i eina Purpu-ra-Kaapu, ad dylia fyrer honum Meinsemder sijnar, eñ ætlast þo til Lækningar af hoñ-um, Eins og þeir lietu sem hañ Konungur være, eñ hielldu hañ þo fyrer Illrædis-Mañ. Guds Sonur maa ongvañ Hooru Farfa lijda a siñe Brwde, ecke meir eñ Gud villde laata bera Skiækiu edur Hunds-Verd iñ i siñ Helgedoom, Devt. 23. Þar fyrer sie þad Alyktan þessa mijns Maals, ad þegar þu Christeñ Saala ætlar ad Trwlofast þijnum Brwdguma i H. Altaresins Sacramento, hvar þu att ad verda eirn Ande med honum, og Limur hañs Lijkama, 1. Cor. 6. Þa laat alla Hræsne fiærre vera. Nañsaka þiñ Lif-nad, sem aadur er sagt, Ber eckert i Bæteslaaka fyrer þier hiaa honum sem veit hvad med Mañenum bijr, Joh. 2. Skignst epter hvad þier hefur frañfared a Guds Vege sijdañ þu seinast lofader þijnum Frelsara Trygdum, Hvort þu hefur tamed þitt illfwsa Holld um̃ nockurn Lost er a þig strijdt hefur. og hvoria Atburde þu haft hefur til ad Krossfesta hiñ gamla Mañeñ, Rom. 6. Yfervega hversu stoor HErra þad er, sem þu modgad hef-ur, ad hañ hefur Valld til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld, Matth. 10. Og þo er hañ so þoleñmoodur og goodgiarn, ad hañ hefur sparad þig og laated allt epter þier midt i Syndunum, og kañskie valla feinged eitt Packlætis Ord þar fyrer af Muñe þijnum, Hvorn þu hefur til alls añars brwkad; Hugleid þeirra Dæme, sem ecke hafa meir synd-gad eñ þu, Hversu Gud hefur hegnt a þeim Ovirdingar siñar. Laat so þijna Illsku

kieña þier, og þitt Fraahvarf giora þig vitrañ. Þeck og hvorsu illt og biturt þad er ad þu hefur yfergiefed DRotteñ Gud þiñ, Jer. 2. Og þegar þu þañeñ giorer, þa gietur þu varla fared aa Mis vid þad, ad Hiarta þitt braadne i þier so sem añ ad Vax, af Jhugan Guds Naadar, Af Þeckingu Syndaña, Af Epterbid Helvijtis Þijsla sem þier eru bwnar, Nema þu ydrest af Hiarta. Eñ vilie ecke hier med aaorkast, þa laat samt ecke af ad bidia Gud um siñ H. Anda, Sa ed skape hreint Hiarta i þier, og giefe þier nijañ vissañ Anda, Ps. 51. Hvors hañ maa þier ecke synia vegna siña Fyrerheita, Þvi ef Madureñ stood upp aa Naattar-Þele, til ad faa Vin sijnum þad hañ vidþurfte, Luc. 11. Ef hiñ Rangláate Doomare, Sem hvorke Ottadest Gud nie Meñ, Ef hañ liet skipast vid Praa Beidne Eckiuñar, Luc. 18. Ef vier sem vonder erum, kuñum ad giefa Bornum vorum goodar Gaafur, Hvad miklu framar mun vor Himneske Fader giefa þeim H. Anda sem hañ þar um bidia, Luc. 11. Þetta stendur Æfeñlega stodugt, Þvi hañ er trwr, sialfum sier kañ hañ ecke ad neita, 2. Tim. 2. Þess heitara sem þetta Angur er, Þess þægra er þad Gude, Allt fram til þess ad þu taker til ad efast um Guds Naad, Eñ vid þvi er ecke hætt, Hañ mun fliootur verda til ad laata Trwna lifna, Nær þu ert so aa þig komeñ, og sijna þier Krapt sijns Sonar Forþienustu, med ollum hañs Velgiorningum, Þa heiter þad so: Sæler eru þeir sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, Þvi þeir munu sadder verda, Matth. 5.

Þar fyrer Guds Barn, Þu hvors Hiarta hañs Ande hefur sundurmared med Þeckingu Syndareñar og Guds Giæsku, Þu skallt þess fulloruggur vera, ad hvar sem ad Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfer Naadeñ miklu framar, Rom. 5. Fyrer þvi, Nær þu stendur vid DRotteñs Bord Raudur af Ovirdingu vegna þiña Synda eins og Ephraim, Jer. 31. Þa lijt Trwareñar Augum aa þad Saklausa Guds Lamb, sem burt hefur bored Heimsins Synder, Joh. 1. Hvorn Gud hefur þar fyrer sett til Naadar-Stools fyrer hañs Blood, Rom. 3. Hañ er Forlijkun ecke einasta fyrer þeirra Synder er lifdu aa hañs Dogum, helldur allrar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Þar fyrer er hañ og fyrer þijnar, Hvorsu miog sem þu ert hinum verstu Lijtum hladeñ, Þvi Harmþrwngeñ og Sundurknosadañ Anda, mun hañ ecke fyrerlijta, Ps. 51. Og til Stadfestu þar um, giefur hañ þier i H. Altaresins Sacramento, Þañ sama Lijkama sem broteñ var fyrer þig, segier Paall hier i Textanum, Þad skiede þegar þijnar Synder er hañ bar uppaa Tried, þegar þær mordu hañs Allraheilagasta Lijkama i sundur aa Krossens Gaalga, Þegar Ogudlegra Maña Hendur nidurbrutu þad Mustered er hañ sialfur upp bygde aptur aa Þridia Deige, Joh. 2. þier til Riettlætis. Hafe nu hin eilijfa Giæska sparad þig midt i þeim Syndunum sem Krossfestu hañ, Þvi mun hañ þa ecke Naadugur vera, Þar þu ert aa Veigenum ad hverfa aptur fraa þeim? Eñ þoott ad Ydraneñ og Trweñ sieu fullnoogar til ad odlast Kvittun Syndaña hiaa Gude, Þa kañ þo hvorug þeirra ad standast fyrer utañ nya Hlijdne, Þvi nema so sie, ad nockur hafe fastlega aasett ad sporna vid þeim Glæpum, Hvorra Myñing ad honum vard so beisk i Ydraneñe,

raneñe, Pa aa þad heima hiaa hönum er Petur segier, 2. Epist. 2. Ef ad þeir epter þad þeir hafa um̃flwed Saurganer Heimsins, fyrer Peckingu DRottens vors JEsu Christi, flækiast i þeim aptur og verda sigrader, þa eru þeirra hin Siidare Kior verre hinum Fyrre, Pvi betra hefde þeim vered alldrei ad hafa þeckt Veg Riettlætesins, eñ ad þecktum hönum ad hverfa fraa þvi helga Bodorde, Sem þeim er i Hendur feinged. Eñ þad hender þaa, sem segier i hinum saña Ords-Hætte, ad Hunduren geingur aptur til Spijuñar, Og þveiged Svijn vellter sier i hinum sama Saur. Nu fyrer þvi ad hier er ecke vid ad dyliast, Eñ Syndûmspillt Naattura er eitt Otamed Dijr, þa er Raadlegt ad taka til ad leggia vid hana Beitsled, nockru aadur eñ Meñ fara ad forlijka sig vid Gud i Sacramentenu, Nema Meñ hafe þad aadur giort laangvaranlega, Sem þo mun sialldfeinged. Eingeñ vond Tilhneiging sem ecke er ad nockru Leite deydd, maa fylgia oss, Christner Meñ, til þessa Bords. Ef Syndeñ lifer i oss, þa erum vier dauder i heñe, Eñ eingeñ giefur daudum Mañe ad eta. Petta er Andleg Fæda, og þvi hlijtur sa Andlegu Lijfe ad lifa, er hana medtaka skal. Brauded og Vijned medtaka aller og þar med Guds Lijkama, Eñ þar hiaa er öñur Nautn, Um̃ hvoria DRotteñ talar, Joh. 6. Sa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, Hañ skal ecke Daudañ smacka ad Eilijfu. Heñar verda þeir einer hluttakande er sig hafa verduglega tilreidt, Hun skiedur opt fyrer utañ Sacramented, Eñ þo aa hun i Sacramentenu hellst ad skie, vilier þu heñar niootande verda, Pa siaa til ad þu framkomer skrijddur Brwdkaups Klæde, Matth. 22. Añars verdur ecke af Trwlofuneñe vid þañ Fegursta medal Mañaña Sona, Ps. 45. Pad er ei noeg ad hafa um̃ Stundarsaker wthreinsad Hiartad med Sooplimum Ydranareñar, Helldur byriar strax ad safna i þad hinum bestu Dygdum, So ef hiñ Ohreine Ande kañ aptur ad hverfa med Sio ødrum sier verre, ad hañ fiñe þad þa ecke toomt, Og verde so þitt Siidara argara hinu Fyrra, Luc. 11. Veit eg ad þetta er eirn torvelldur Hlutur, Pvi þad er sw Baraatta mille Holldsins og Andans er gyrnest hvort i moote ødru, Gal. 5. Eñ hvad skulu Meñ segia? Par sem eingeñ Baraatta er, Par er eingeñ Sigurviñing, Par fyrer sa sem ætlar sier ad uppbyria nijañ Lifnad, Hañ legge mest Kapp aa ad brioota þær Gyrnder, Sem hañ er mest tilhneigdur. Pier er ecke Okuñugt ef þu leggur nockurn Hug aa þitt Maal, Af hvorium Hlutum þu mest verdur lockadur til ad giora Jllt, varast þaa hina sömu, Pfeatt ei sieu þeir vonder i siaalfum sier. Eingeñ HerToge strijder leinge eiñsamañ, hvorsu vitur eda volldugur sem hañ er, Og so eru Lesterner, Ef þeir eru einer um̃ sig, þa er hægra ad fyrerkoma þeim. Um̃ fram̃ alla Hlute, þa laat Gud siaa, ad þier sie Alvara ad lifa vel, Og þa er hañs Adstod vijs, Sem þier dregur Pusundsiñum meir eñ aller þijner Atburder, Pvi aan miin megned þier eckert, sagde JEsus vid Læresveinana, Joh. 15. Sa sem ecke hatar Syndena, Hañ geingur Overdugur til Guds Bords, Eñ sa sem hana hatar, Hañ hefur alvarlegañ Asetning til ad laata af heñe, þvi eingeñ vill Um̃geingne hafa med þeim sem hañ ad Hatre hefur. Laat Gud fiña þetta hiaa þier, Nær hañ Rañsakar Hiarta þitt, og svijk ei siaalfañ þig, Hañ gietur þu ecke svikid.

ed. Eg veit þad er Torvelldt ad lata allt a moote Hollde og Bloode, En̄ hafer þu nockurn Tijma af Hiarta ydrast og funded til Guds Reide og Samvitskun̄ar Veike: Hafe þijnar Synder giort þier nockurn Tijma Helvijte heitt, þa Raadgast um̄ vid sialf-an̄ þig, Nær þu freistadur verdur af Einhvørre Gyrnd, Hvort þu eiger ad vin̄a þad til skam̄vin̄s Munadar, ad þola strax a epter slijka Kvol. Munde David hafa viliad leika sier ad sømu Synd, epter þad han̄ hafde so leinge Taarast fyrer Gude? Munde Petur ecke helldur hafa i Daudan̄ geinged, en̄ ad afneita Christo, helldur en̄ ad lijda ad niju Atølur Samvitsku sin̄ar, Þegar han̄ gieck wt og griet beisklega? Matth. 26. Ætla þier og ecke þad, ad lata epter þier eirn Brest, en̄ þioona Gude i hinu, Þvi sa sem brijtur eitt Bodorded, han̄ er i øllum sekur, segier Postulen̄, Jac. 2. Eingen̄ af þijnum Dygdum kan̄ ad standast fyrer Guds Riettlætis Doome, Þvi munu þær þa Riettlæta Glæpena? Snijd þvi allt Ogudlegt Athæfe burtu, so miked sem̄ þu fær orkad, En̄ þar sem þijner Kraptar dvijna, Þa tekur Christi Forþienusta vid. Meina og ecke þad sie noog, ad þu nockra Stund gaanger a Guds Veige, Þvi þeim̄ sem er trwr allt til Daudans, mun eg giefa Coronu Lijfsins, segier DRotten̄ i Open̄beringar Booken̄e, 2. Cap. Og eg vil en̄ framar segia: Ad þad vill helldur fordæma þig, en̄ Riettlæta, Ad þu hefur Einhvørn Tijma Gude þioonad, Ef þu hverfur þar fraa aptur, Þvi þad er Teikn til þess ad Gud hefur lient þier so mikla Krapta, ad þu gietur geinged hin̄ rietta Veg sem til Lijfsins liggur, verdur so Skullden̄ hia þier, en̄ ecke hia Gude. Um̄fram̄ alla Hlute sia til ad þu Ottest han̄ og elsker, Þa munt þu øngvan̄ Saattmaala giora vid han̄s Ovine, Sem eru Hollded, Heimuren̄ og Diøfullen̄, helldur munu allar Christelegar Dygder sialfkrafa spretta i Akre Hiarta þijns, Eins og Korned vex fyrer utan̄ Man̄sins Omak, þa Sædenu er i Jordena kastad; Og þad er sa einaste og beinaste Vegur til ad lifa Gudrækelega, Og sa sem a honum er, fer alldrei villur Vegar. Nu hefe eg einfalldlega sagt hid hellsta er þeim byriar ad hugleida sem vilia verduglega til Guds Bords gaanga, En̄ eg hefe sagt þad Bornum og Faafroodum Møn̄um, Hina sem vijsare eru og kun̄a Guds Veg, þa næger ad min̄a a Christi Ord, er han̄ sagde, Luc. 12. Sa Þioon er veit sijns Herra Villa og giorer han̄ ecke, Han̄ mun morgum Hoggum sleigen̄ verda. En̄ þu sem Foornfærdur ert fyrer vorra Synda Skulld HErra JEsu Christe, Styrk þu oss bæde i þessu og øllu ødru Verke Saaluhiaalpar vorrar. Bænheyr þad vor Frelsare; Hvorium med Fodur og H. Anda sie Makt og Vellde, Lof, Heidur og Prijs um̄ Allder, A M E N.

# A Føstudagen̄ Langa.

## Exordium.

Ingre Skiepnu sin̄e hefur Guds Giæska meira veitt en̄ Syndugum Man̄e, Og varla er þo nockur Tregare til ad þeckia han̄s Giæsku. Þegar Adam hafde eckert a moote Gude giort, Og ecke af honum þeiged nema Skopunena, og so

so Valld yfer hinum ødrum Skiepnum aa Jørduñe, Þa er Lijklegt ad eingeñ Hlutur hafe hønum Jñdælle vered, eñ ad lofa siñ Skapara, og gledia sig i Undran hañs Daasemdarverka; Eñ sijdañ Gud hønum meira veitte i Fyrergiefningu Syndaña, Og Fyrerheite þess Blessada Kviñuñar Sædis, Gen. 3. Þa eru Adams Nidiar bitner fraa þeim Hlutum sem heyra til Guds Dijrdar. Heilager Einglar sem frame fyrer hønum standa, hafa einasta hiñ Dijrdlega Skapnad og Sælu-Vist med Gude af hañs Hende þeiged. Guds Sonur hefur Abrahams Sæde, Eñ ecke þaa uppaa sig teked, Hebr. 2. Samt eru þeir Þioonustusamer Andar, Hebr. 1. Eñ Madureñ hvørn Gud hefur skapad, Skapadañ Endurleyst, Endurleystañ Endurgieted, Endurgieteñ, med JEsu Hollde og Bloode mettad og dryckiad, og upplijst med sijnum Astgiøfum, Hønum fiñst lijted þar til, og er nærsta Toomlaatur i siñe Guds Þioonustu. Einglar komu og þioonudu Christo i hañs Mañdoome, Matth. 4. Eñ hañs Foolk villde ecke þioona hønum; Eingelleñ bodade hañs Gietnad, Þeir prijsudu hañs Fæd-ingu, Luc 1. og 2. Eingelleñ kom af Himne og styrkte hañ i Kvoleñe, Luc. 22. Eñ hañs Eigeñ giørdu hañs Saalu hryggva alle i Daudañ. Einglarner bodudu hañs Upprisu hiaa Grøfeñe, Eñ hañs Foolk og Prestarner keyptu Liwgvotta til ad mootsegia heñe, Matth. 28. Øll Skiepnañ mæner med wtriettu Høfde epter Guds Barna Anglijsingu, segier Paulus, Rom. 8. Og hun stynur til samans, og er til samans so sem i Barn-Burde. Fyrer vora Skulld er Jørdeñ bølvud; Fyrer vora Skulld maa hun Þyrna og Þistla bera, Gen. 3. Fyrer vora Skulld er hun Prældoomenum underokud; Eñ i øllu þessu auglijser hun þo Dijrd sijns Skapara, Hvørn Madureñ Vanvirder med Oþacklæte og vondum Verkum. Ef ad þesser þegdu, þa mundu Steinarner braadlega hroopa, Sagde Frelsareñ vid Gydinga, þa Børneñ swngu Hosiaña, Matth. 21. O HErra Gud! Høfdu Steinarner Ordsøk til ad hroopa þa Christur Jñreid til Jerusalem? Hvad høfdu þeir ecke þegar hañ var af Jerusalem so sem Bølvan wtrekeñ? Ef Dauder Hluter maattu vakna vid, þa Lijfsins HErra kom til siñar Arfleifdar, Hvad maattu þeir ecke þegar Lijfed doo aa Krossenum? Skylldu Musteresins Vegger hafa giefed Hliood af sier, hefdu Børneñ þagad? Hvad var þa øll Verølldeñ ecke skylldug ad giøra, Þar aller løstudu, Hæddu og brixludu, Og aa Krossens Gaalga negldu heñar Skapara? Þetta hroopar øll Naatturañ fyrer Oþacklaatu og Ogudlegu Mañkyne aa Pijslar-Deige allrar Veralldareñar Lausnara, Þvi Sampijnest hun sijnum Skapara i hañs Pijnu, so sem ecke hefde hun Rænu aa ad giøra sijns Embættis Skylldu, Þar Mañeskiañ var so Afsiña, ad hun Aflijfade siñ Lijf-Giafara. Þesse Naatturuñar Umbrot hefe eg aasett i Dag fyrer ydrum Kiærleika ad yfervega. Og vilium vier þar fyrer i þetta Siñ Hugleida þau sierlegustu Furdu-Verk sem ad skiedu i Pijnu vors Endurlausnara, Med þeim Lærdoomum sem vier oss til Huggunar og Amiñingar taka meigum þar af.

Styrk oss til þessa Verks O Gud! J JEsu Nafne, AMEN.

# Utleggingeñ.

ÞAr Urdu MYrkur Yfer Alla JOrdena, Og SOOleñ Miste Sijna BYrtu, segier i Textanum. Hvort þesse Formyrkvan hafe einasta skied i Gydinga Lande, Edur yfer allañ Heimeñ, vil eg i þetta Siñ ecke faa mier til Orda. Vier villum alleinasta færa oss i Nyt þetta Daasemdarverk, til Gudrækelegrar Umþeinkingar, Vitande ad þetta so vel sem aller Guds Giørningar eru skieder oss til Lærdooms. Hvorsu maatte hid Blessada Heimsins Lioos lijsa Moñunum, Þar Mañaña Endurlausnare var Kvaleñ, og þad skiæra Lioos sem upplijser alla Meñ sem koma i þeñañ Heim, Joh. 1. took under ad gaanga? Sool Riettlætesins, Mal. 4. var siñe Undergøngu nærre, þar Daudans Skugga took til ad slaa yfer þau Allra Helgustu Augu sem ad eru Þusundsiñum stiærare eñ Sooleñ, Syr. 23. Þvi var þess øll Von, ad hin Naatturlega skamadest sijn ad lijsa. Þegar Meñ sia eirn vidurstyggelegañ Hlut sem aller blygdast vid Augunum ad lijta, þa snua Meñ sier undañ, edur jafnvel byrgia fyrer Augu sier. Soolena kalla spaker, Meñ Auga Heimsins, hun hefur alldrei so blygdunarlaust Verk yferskined sem þetta, ad Gudlauser Heidingiar og Hardsvijrader Gydingar tooku Konung Dijrdareñar af Lijfe, Þar sialft Lijfed var aflijfad, Þar Daudans Daude maatte Dauda deya, Os. 13. Þar Dagureñ vard ad Nottu Myrkraña Verka, þvi byrger Naatturañ fyrer Augu sier, ad hun ei skyllde horfa aa, ad Naatturuñar Herra være þañeñ af Døgum radeñ. J mikelle Sorg og Harmkvælum plogudu Judar ad byrgia sijnar Asiaaner. David gieck med huldu Høfde yfer um Lækeñ Cidron, 2. Sam. 15. So segier Micheas 3. Cap. Siaaendurner munu til Skamar verda, og Spaasagnararner blygdast, og þeir munu aller byrgia sijnar Asionur, þvi þar er ei Andsvar fraa DRottne. Hier byrger Himeneñ sitt Andlit, og þoler þar ecke yfer, ad hañ sem uppfyller bæde Himen og Jørd, 1. Reg. 8. Hañ i hvors Auglite Himnaña Himnar ecke eru hreiner, Job. 15. Jaa, hvors Haasæte ad Himeneñ er, Es. 66. Hañ skule aa siñe Footskør einum Madke og ecke Mañe lijkur verda, Ps. 22. Formyrkvun Soolareñar orsakast þar af (epter þvi sem hiner Vijsu segia) ad Tungled geingur a mille Soolareñar og Jardareñar. Þo skiede þad ecke i þessare Formyrkvan, þar Tungled var i siñe Fyllingu, Hvar fyrer hun var aa moote Naatturuñe, Þvi giefur þetta mier Orsøk til ad þeinkia þar um, ad vorar Daudlegar Jllgiørder settu sig aa mille Christi Mañdooms i Pijnuñe, og þess blijda Auglits Fødursins, Hvør ad er Sool þeirrar Himnesku Jerusalem, Apoc. 21. So ad Geyslar hañs Fødurlegrar Elsku, naadu ecke ad skijna i giegnum þær; yfer þañ Elskulegasta Guds, og sw Velþocknan sem hañ hefur i sijnum Eingietna Syne, Matth. 3. umhverfdest, Ef so mætte ad Orde komast, i hiñ stoora Byrdar-Þwnga hañs Neide, hvør ed kvalde JEsu Blessadañ Lijkama og Saal allt til Daudans. Siaa hier, Christeñ Madur, þañ breñheita Kiærleika lifanda Guds, sem hañ hefur elskad þig med þegar þu varst hañs Ovinur, Rom. 5. Er ecke þetta skied til þess ad þijnar Synder ecke adskilie þiñ Gud og þig? Es. 59. Og þegar ad Skugge Myrkraña Verka, og hiner swlu Dampar þiña

Jll-

Illgiorda og Bodorda-Brota, stijga upp i Himenen fyrer hin Riettlaata Doomara, ad Christur med sine Forþienustu afmaae þær þa so sem anad Sky, Es. 44. Og kaste þeim i Hafsins Diwp, so þeirra ecke ad eilijfu minst verde, Mich. 7. Um þessa Formyrkvan spaaer Amos i 8. C. A þenan Hatt. A þeim Tijma vil eg laata Soolena undergaanga um Middeige, og allt Landed myrkt verda aa Deigenum. Min HErra JEsu, þvi munde ecke þad blessada Lioos Veralldarenar inebyrgia sin Liooma, þar Lioome Fodursins Dijrdar, og Imynd hans Guddoomlegrar Persoonu tæmde sialfan sig, So sem Paulus ad Orde kiemst, Phil. 2. Og Guddoomuren (so ad segia) hulde sitt Auglit fyrer Manndoomenum þegar Christur leid. Þvi skyllde ecke Landed myrkt verda? Þegar Lijfsins Trie, Hvers Blod ad þiena til Heidingiana Lækningar, Apoc. 22. Var af heidenna Manna Myskunarlausum Hondum upprætt af Lande Lifande Manna. Epter þad mikla Myrkur, sem skiede Fordum i Ægyptalande, Exod. 10. Þa fylgde Israels Sona Frelsun og Utleidsla af þvi Prældoms-Hwsenu, En þessum Myrkrum hefur fylgt eitt eilijft Frelse fraa Syndarenar Prældoome. Epter Myrkuren i Ægyptalande kom Slaatrun Paaskalambsins, Exod. 12. En i þessum Myrkrum verdur þad sana Paaskalamb slaatrad aa Krossens Altare, sem ber allar Veralldarenar Synder, Joh 1. Gydingar hofdu beded Christum um Teikn af Himne, Luc. 11. Siaa, hier er eitt Teikn sem skied er i Augum allrar Veralldarenar. Hvilijkur mun han vera i Dijrdene, sem so er kroptugur i Pijnune? Hvor mun han vera Lifande, sem er so Volldugur Deyande? Hvad oflugur mun han Drottnande, er so drottnar yfer hinum miklu Hofudskiepnum i Mynd eins Pioons lijdande? J Exod. B. 10. C. skipade Drotten Gud Moysi ad upprietta sijna Hond til Himens, ad þar yrde Myrkur yfer allt Landed, og þar vard Myrkur og Þoka i Ægyptalande um þriaa Daga, so eirn Madur saa ecke sin Broodur, En ollum Israels Sonum var lioost i þeirra Hybijlum: En siaaed, Hier er meir en Moyses, Hier er JEsus Sonur Guds Lifanda, han wtbreider baadar sijnar Hendur a moote Himnum a Krossens Trie, hier verdur Myrkur yfer allt Landed um þriaar Stunder: en i þessu Myrkre hefur ollum andlegum Israels Sonum upprunned eitt skiært og sannarlegt Lioos, So eirn Brooder þarf ei odrum ad kienna, helldur verda þeir aller af Gude lærder, Jer. 31. Og aller þeir ed aa JEsum Christum trwa, hvor ed gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Brædur, þeckia hvor annan fyrer Systur og Brædur, og eru eitt Innbyrdis so sem han og Faderen eru eitt, Joh. 17. O HErra Gud! hvad skal eg hier til segia? Eg vil brwka þad sama Orda Tiltæke sem Jeremias i 2. Cap. brwkar yfer Syndum Israels Folks, segiande: Himenen skyllde grwa þar yfer, Hrædast og skielfast mikelega. Hier sijnest mier ad Himenen og Himnanna Kraptar giore af Alvoru þessa Befalning DRottens. En þu, Christen Madur, sem ert hin veikasta Boola af Floode þessarar Veralldar, Kiemur þier ecke til Hugar ad byrgia þitt Andlit sem er fullt af Ovirdingu, þegar þu heyrer ad Soolen sem Daglega upprennur yfer þier Raang'aatum, Matth. 5. Hun formar i þijns Skapara herfelegustu Nidurlægingu? Veitst þu ecke hvad St. Paull

segier? Eph. 5. Pier vorud Fordum Myrkur, eñ nu erud þier Lioos i DRottne, gaanged so sem Lioossins Born. J þessum miklu Myrkrum sem þu heyrer i Dag vera talad um̃, hefur Leoned af Kyne Juda, Apoc 5. Myrkraña Hofdingia sigrad og Herleidinguna ad Herfaange teked, Eph. 4. Og þig sem eilijflega atter ad kveliast i ytstu Myrkrum med Ope og Tañagnijstran, þrifed wt af þeirre Grifiuñe, hvar eckert Vatn var iñe, Zach. 9. Paulus skrifade þesse Ord til þeirra i Epheso, sem af Heidingium hofdu Christner giorst Pu ert og Christeñ af Heidingium komeñ, hvorier af Gude eckert vissu. Segi mier; Hefur þu aflagt Verkeñ Myrkraña, sijdañ þu heyrder JEsum a Krosseñ fyrer þig uppheingdañ? Pegar þu les ad þu skuler Ottast og elska Gud, Eñ fremur þo aan Um̃þeinkingar þad honum verst lijkar, Sem er syndugt Athæfe, Eru ecke þad Myrkraña Verk? Pegar þu hugsar Jllt i þijnu Hiarta og fremur allar Odaader under Skyne Meinleysesins og Gudhrædsluñar, Eñ veitst þo ad hañ sier hvad i Myrkrunum er hulled, Syr. 23. Heiter þad ecke ad vilia blinda hañ, sem Augad hefur skapad? Pa þu sier eirn Vesæling Naud lijda, sem eins miked færde iñ i Heimeñ og þu, og allt eins miked mun burtu bera, Eñ þu byrger þijn Augu fyrer honum, og stijngur þau helldur wt, eñ ad þu skuler sia Aumur a honum. Er þa ecke æred myrkt fyrer Augum þier? Pegar einum geingur i Vil, Og hañs Lucka er þier þo eingeñ Afdrattur, Eñ þitt Hiarta gremst yfer þvi, Og þu ert Raangeygdur af hañs Velgeingne, Munt þu þa fyrer Myrkreþiñar Ofundar, gleta ratad þañ Veg sem Guds Born feta eiga iñ til Lijfsins? Pegar þu elskar þijn eigeñ Lijte, og Bialkeñ i þijnu Auga skygger a alla þijna Klæke, Eñ Fijseñ i Naungans Auga, er þier avallt fyrer Sioonum, Matth. 7. Er þad ecke Svartnætte eigeñ Poottans? Pegar einhvor af Mañlegum Veikleika giorer edur talar þier nockud a moote, Eñ þu siest ecke fyrer, Jafnvel ad voga þiñe eigeñ Velferd honum til Olucku, Mun þa ecke Myrkur Foolskuñar apturbyrgia þijn Augu so þau gaae ecke ad, ad skama Stund verde Hond Hogge feigeñ? Pegar Satan hefur þig uppa eitt ofurhaatt Fiall, og sijner þier oll Rijke Verallda reñar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Eñ þu veitst upp yfer þier stendur DRotteñ Gud þiñ, sem þu alleina att ad tilbidia, munu þa ecke reña a þig Tvær Grijmur, hvorium helldur þu eiger ad þiena Gude edur Mam̃on? Ecke munu þeir aller vera, sem med goodre Samvitsku hroosa kuñe, ad ecke hafe vorded myrkt fyrer Augum sier i þvilijku Tilfelle. Pegar dæma a mille Broodur og Broodur, a millum Bloods og Bloods, Eñ hiñ Vollduge ber Fie i Doomeñ, Eda Otteñ kvelur, Eda Vinattañ kylar þa Hond, Sem a Sverdenn helldur; Mun þa ei Andskoteñ setia Brillur uppa Riettarans Naser, so hañ ecke faae ramad þañ Hoggstad sem hañ ætte? Villdum vier nu reña vorum Augum fra Gialijfe Veralldar þessarar um̃ Stundar Saker, og bera þesse Verk samañ vid Lioos Guds Heilögu Orda, þa þyker mier ecke Olijklegt, ad Andlit vorrar Samvitsku munde rodna fyrer Gude. Med hvorium Augum skal eg lijta þiñ Broodur Joab, Sagde Abner Fordum Daga, Pegar Hasael rañ epter honum i Bardaganum, Ef ad eg slæ þig i Hel? 2. Sam. 2. Eñ hvoriu vilium

vier

vier Gude eilijfum Konunge og alleina rijkum svara, þar vier høfum hañs Son Krossfestañ? Og fyrer vor Myrkra-Verk, er Makt Myrkraña yfer hañ komeñ. Munum vier þora helldur eñ Tollheimtumadureñ, Luc. 18. Ad lypta Augum vorum upp til Himens? Munum vier diarfare verda eñ vor Fader Adam? Saa er falde sig fyrer Gude, og þorde ecke ad lijta hañs Auglit, Gen. 3. Þar fyrer, Christeñ Madur, Kañast þar vid ad þier ber Blygdun þijns Andlitis, Eñ honum ber Dijrdeñ og Heidureñ, Dan. 9.

J Añañ Maata segier Pijslar-Sagañ, Ad Fortiallded i Musterenu hafe i Sundurrifnad fraa Ofañverdu, Allt Nidur i Giegn. Von var ad þad Mustered sem var med Høndum giørt, munde ei standast þa Ogn, ad hid Dijrdlega Mustere hañs Lijkama var nidurbroted, Joh 2. Þetta Fortialld adskyllde þad Allra-Helgasta fraa sialfu Musterenu, Hvar iñe var aa Døgum Salomonis, Saattmaals Ørkeñ, Naadar-Stoolliñ og Vøndur Aaronis, sem voru Skugge epterkomande Giæda, Heb. 9. Þvi sundur-rifnar Fortiallded, ad Skuggeñ yrde burt-tekeñ, Þar vier høfum sialfa Hlutena. Ørk Saattmaalans mille Guds og Maña var uppfest aa Krossens Trie. JEsus sem er eirn Naadar-Stooll i sijnu Bloode, Rom. 3. Var hier øllum giefeñ. Kvistureñ af Root Jesse var bloomgadur, Es. 11. Lijfsins Braud var af Himnum ofañkomed og øllum framboded, So ad hvør sem æte þar af, skyllde ei Daudañ smacka ad Eilijfu, Joh. 6. Jñ fyrer Fortiallded i þad Allra-Helgasta, maatte ei gaanga nema hiñ Ædste Kieñemañ Eitt Siñ aa Are, Eñ þad rifnar hier i sundur, til ad audsijna þar med, ad hiñ Ædste Biskup vorra Saalna, er fyrer sitt eiged Blood, Einusiñe iñgeingeñ i þad Allra-Helgasta, ad ætvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þar fyrer er oss nu þad Allra-Helgasta opnad, sem er i Himnenum, so vier høfum frijañ Tilgaang til þess Himneska Naadar-Stools, af hvørs Fyllingu vier høfum aller medteked Naad fyrer Naad, Joh. 1. Ei maatte Almwge Maña iñgaanga fyrer Fortiallded i Musterenu, Levt. 16. Eñ hier er þad sundur rifed fyrer hañs Dauda, sem hefur fullnægt Løgmaalenu, og lided fyrer þad, sem vier med vorum Syndum høfdum forskulldad, So ad hvør eirn Riett-Trwadur er Guds Kieñemadur i sijnu Hiarta, Apoc. 1. Sem er hañs Mustere. Hañ hefur Fortiallded i sundur-rifed, og þar med i burtu-teked þañ Veggeñ, sem mille var, og giørt Eitt af baadum, Eph. 2. So þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Og ei være framar Kall edur Kona, Præll nie Frelsiñe, Gydingur nie Griskur, Helldur aller eitt i Christo JEsu, Gal. 3. Kieñemaña-Høfdingeñ hafde aadur rifed sijn Klæde aa moote Guds Bode, Er hañ kiende Frelsaranum Gudlostun: Eñ Gud Allsheriar uppaa bad hañ audsijnde, ad hañ og hañs Selskapur væru seker i þeirre Ohæfu, Hañ lætur Fortiallded sundur-rifna. Þesse Atburdur ætte nu ad kieña oss mijner Elskañleger, ad sundur-rijsa ecke vor Klæde, helldur Hiørtu vor med þeirre Ydran, Joel. 2. Giæt ad syndug Mañeskia, Hvad Ovidurkvæmelegt þad er, ad hiñ Lausnare haanger aa hinum smaanarlegasta Krossens Gaalga. Hañs Hørund er sundur-slited af Hwdstrokunum, sundur-mared af Høggunum, sundur-rifed af

Þyrne-Broddum, sundur-stwnged af Nøglunum, sundur-flakande af Saarum og Benium, og Lokſins sundur-kramed, sundur-kreiſt og sundur-mared af Guds Elldlegum Reide-Svipum og Obærelegum Þwnga þiña Synda, Sem hañ hefur bored og Hegningareñar ſem aa honum laa, uppaa þad þu hefder Frideñ, Eſ. 53. Þegar þu villt þetta fyrer þier virda, þa mætte þier under eins til Hugar koma, ad draga þa Skijluna fraa Augum Saalar þiñar, ſem þar leinge hefur fyrerhaanged, og glepur ſo fyrer þijnum iñra Mañe, ad þu þecker hvørke Gud nie ſiaalfañ þig. Villt þu vera Guds Andlegur Kieñemadur i þijnu Hiarta, ſem ad er hañs Muſtere, Þa byriar þier ad athuga i hvada Herberge hañ vill bwa, Sem er i einu ſundurknoſudu Hiarta, Eſ. 57. Foorner Gamla Teſtamenteſins eru ad ſoñu fyrer JEſu dijrmætu Foorn aa Kroſſens Altare afmaadar og ad øngvu giørdar, Eñ þar fyrer ſkallt þu ecke meina, ad þu eiger øngva Skulld Gude ad giallda. Eñ hvilijkt er þad Offred ſem honum þocknaſt? Þar ſegier David fraa i Pſ. 40. Blood Uxaña og Hafraña þocknaſt þier ecke: Eñ Harmþrwngeñ og Sundurknoſadañ Anda munt þu ecke fyrerlijta, Pſ. 51. J Þridia Maata ſegia Gudſpiallameñerner, Ad Jørdeñ Hafe Skolfed. Hvad hrædelegur hefur Jardſkiaalfte þeſſe vered, Børn mijn? Þar ecke einaſta Fialled Golgatha, aa hvoriu ad ſtood DRotteñs Kroſs, helldur øll Verøllldeñ hefur leiked aa Reideſkiaalfe. Plinius eirn heideñ Madur ſegier fraa, ad aa Valldſtioornar Døgum Tiberii Keyſara um̃ þetta Skeid hafe 14. Stader i Gricklande og i þeirre miñe Aſia i Gruñ nidur falled, Hvørra Nøfn Cornelius Tacitus i Añare Book ſiña Añaala øll upp telur. Hefur nu þeſſe ſkielfelege Jardſkiaalfte vered eitt Teikn Guds Almaattugs Heiptar Reide, Þar hañs Eingieteñ Sonur, J hvørium honum alleina velþocknar, Matth. 3. er fyrer añarlegar Synder af hinum Synduguſtu ſo hardlega wtleikeñ, Þad giefur Meſſias til Vitundar i Pſ. 18. med þeſſare Harma-Kløgun: Daudans Angiſt hefur um̃krijngt mig, Og Belials Becker hafa Ognad mier; Eg kallade til DRotteñs, og Jørdeñ titrade og ſkalf, og Grundvøllur Fiallaña hrærdeſt og um̃turnadeſt, Þvi hañ vard reidur. O miñ HErra Gud! Hvad ſtor er þijn Þoleñmæde yfer Syndeñe og Ogudlegu Mañaña Athæfe? Hier gieck ſo mikel Ognan aa, ad Jørdeñ gat ecke ſtadeſt under þeim Þwnga, þa heñar Skapare leid. Naatturañ took ad glidna i ſundur, Þvi þær Hendurnar voru aa Kroſſeñ negldar, ſem vega heñar Þwnga med einum Fijngre og iñelykia Siaafar Hafed i ſijnum Hnefa, Eſa. 45. Hañ ber alla Hlute med Orde ſijns Kraptar, Ebr. 1. Þvi ſkylldu þa ecke aller Hluter ſundurbreſta, þa hañ ſem hefur Ord eilijfs Lijfs, Joh. 6. maatte deya? Þegar Løgmaaled var Fordum wtgiefed, þa ſkalf Jørdeñ, Og Fiølleñ bifudnſt og titrudu eins og eitt Straa, Exod. 19. Eñ ſiaa, Hier liggur øll Løgmaalſins Bølvan aa þeim, ſem Løgmaaled hafde wtgiefed, Eñ hafde þo i allañ Maata uppfyllt Løgmaaled. Þvi ſkielfur Jørdeñ af Ognan, ad ſw Handſkrifteñ ſem moote oſs var, er boreñ uppaa Tried, Og aa Kroſſeñ negld, Col. 2. Eñ Evangelium, Sem er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar, øllum þeim ſem trwa, Rom. 1. Er hier underſkrifad

med

med hañs Bloode, Sem vordeñ er Bolvan fyrer oss, Gal. 3. Core, Dathan og Abir-
am moglndu moote Gude, Par fyrer urdu þeir lifande i Jordena nidur ad fara, Num.
16. Eñ meire Mootmæle hefur þu hier þolad miñ HErra JEsu, Pvi er ei ad furda, þo
Jordeñ opne sig, og bioode sig til ad svelgia þaa Ogudlegu Skaalka, sem þad Saklausa
Guds Lamb hofdu aa Krosseñ neglt? Eñ hier siaaum vier ad þitt Blood er Forlijkun
fyrer allar Veralldareñar Synder, ad þijnum Kvolurum hefur þyrmt vered fyrer
þijna Bæn i þiñe bitru Pijnu, Luc. 23. Eñ Naatturañ maa sampijnast sijnum Gude.
Peir hofdu hroopad til Forna, Krossfestu hañ, Krossfestu hañ, Eñ hier opnar Jordeñ
siñ Muñ til ad kuñgiora þitt Sakleyse og aaklaga Gydinga. Pegar Adam neytte
þess Forbodna Avoxtar Jardareñar, þa var Jorduñe bolvad, Gen. 3. Eñ svo Bol-
van linadest fyrer þess Fyrerheitna Sædis Skulld. Nu maa sijnast ad Jordeñ, Par
hiñ Añar Adam, Sem er DRotteñ af Himne, var pijndur aa heñe, ad hun kvijde vid ad
heñe verde ad nÿju bolvad med eilijfre Bolvan. O HErra Himneske Fader! Fader
allrar Naadar og Myskunseme! Vier meigum jaata þad uñ oss, sem Jeremias segier i 5.
Cap. Ad vier hofum hardar Asioonur, so sem eirn Steirn, og vilium ecke umvenda
oss. Vor Hiortu eru hardare eñ Klettur, Par Biorgeñ i sundur klofna og Jordeñ
skielfur, Eñ oss kiemur ei til Hugar ad laata oss Ogna þær Synder, sem hafa þiñ Son
Krossfestañ. GRafer Framlideña Lukust Upp; Eñ vier erum so dauder i Syndun-
um, og so diwpt nidur grafner i Naanglæted, ad vier saaum ei rised upp wr hiñe swlu
Grof Hollds og Bloods aa moote vorum HErra. Af þijns Eingietens Sonar Sij-
du, Sem er Hella vors Hia[illegible]ædis, wtreñur Blood og Vatn, Joh. 19. Eñ af vor-
um Augum gietur ej stocked [illegible]Ydranar Taar.

Jordeñ Skalf Og Biorge[illegible] sundur klofnudu aa Pijnu-Deige vors HErra. O!
hvad meiga vor Hiortu vera Steinum hardare, þar Miñing DRotteñs Dauda, Er vi-
er holldum aa þessum Deige, kañ þau ecke ad mykia til Ydranar og Apturhvarfs fraa
Ogudlegu Athæfe. O hvad stoor Munur er þo aa millum Guds og Maña! Ad hañs
Hiarta brestur yfer einum ydrande Syndara, so hañ hlijtur honum Myskunsamur ad
vera, Jer. 31. Eñ Syndarans Hiarta er so Obisañlegt, ad JEsu Dijrmæta Blood,
Fyrer hvoriu oll Verolldeñ liek aa Reideskialse, Pad fær ecke orkad þvi ad Madureñ
graate sijna Synd fyrer Gude. O! Pu Almaattuge Gud sem alla Hlute kant framar
ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla, Eph. 3. Umskier þu vor Eyru og Hior-
tu med Sverde þiña H. Orda, so ad þau meige fiña til Synda siña og Christi bitru
Kvalar: Laat oss medañ Naadar-Tijmeñ eñ nu yfersstendur þeinkia þar til, ad hañ mun
aptur koma i Skyum Himens med Makt og miklu Vellde, Elldureñ mun breña fyrer
hañs Auglite, J hvorium Himnarner munu forgaanga, med Stoor-Brestum, og
Hofud-Skiepnurnar af Hita braadna, aadur eñ allt þetta skier, 2. Pet. 3. O HErra
Gud! Gief oss þa ad vier upphefium vor Hofud, so ad vier þeckium vorn Vitiunar Tij-
ma, so vier lærum ad fela oss i Biargskorunum, Sem eru Blessadar Under þijns Ein-

gietens

gietens Sonar, og þar i dyliaſt medañ Reideñ fram̃ hiꜳ geingur, Eſa. 26. Svo ad vi-
er ꜳ þeirre vondu Tijd mættum frꜳſkilder þeim Ogudlegu, Er JEſum ad niju Kroſs-
feſta og Foottroda hañs Blood, Hebr. 10. Pvo vorn Skrwda i Lambſins Bloode,
Apoc 7. Og med þvi Dijrdlega Skarte iñgꜳnga i hañs Brwdkaup og þa Himneſku
Jeruſalem, til ad loſa þig Eilijflega, Pu Hꜳleita Guddoomſins Preñing.
Pad veite oſs Gud Fader/, Sonur og Heilagur Ande fyrer Chriſti
Bleſſada Forþienuſtu, AMEN.

# A Pꜳſka Dageñ.

Gudſpialled, Marc. 16. Cap.

OG þa ed Pvott-Dagureñ var um̃lideñ, Keyptu þær Maria
Magdalena, og Maria Jacobi og Salome, Dijrdleg Smyrſl,
ad þær kiæme og ſmyrde JEſum. Og miøg ſnem̃a Morguns
þeirn Pvott-Dagañs, Komu þær til Grafareñar um̃ Soolar
Uppruna. Og þær ſøgdu ſijn a mille: Hvør mun vellta fyrer
oſs Steinenum af Grafarmuñanum? Og ſem þær litu þꜳngad, ſꜳu
þær ad Steirneñ var afvelltur. Eñ hañ var ad ſøñu nærſta mikell.
Og þær geingu iñ i Grøfena, Og ſꜳu eitt Ungmeñe ſitia til Hægre
Hlidar, Skrijddañ ſijdu Klæde hvijtu, og þær urdu Ottaſlegnar. Eñ
hañ ſagde til þeirra: Eige ſkulud þier hrædaſt. Pier leited ad hinum
Kroſsfeſta JEſu af Nazareth, hañ er Uppriſeñ, og er ecke hier. Siꜳ-
ed þañ Stad hvar þeir løgdu hañ; Helldur fared þier burt og ſeiged
hañs Læreſveinum og Petre, ad hañ mune gꜳnga fyrer ydur i Ga-
lilꜳm. Par munud þier ſiꜳ hañ, So ſem hañ ſagde ydur.

Exordium.

SA STeirn ſem Uppbyggendur hafa burtu kaſtad, Hañ er vordeñ ad Høfde
Hyrningar, Af DRottne er þeſſe, og er Undarlegur fyrer Moñum: A þeſſ-
um Deige hefur DRotteñ þad giort, Føgnum og verum glader ꜳ honum;
Segier David Konungur, Pſalm. 118. Ad þetta Kvæde ſie ordt um̃ Mañkynſins
Frelſara, vottar ſiꜳlfur hañ, Matth. 21. Er hañ þijder þeñañ Spꜳdoom uppꜳ ſig,
Hvør og ſo i hañs Dauda og Uppriſu ad øllu Leite fram̃komeñ er. Hvorneñ þeir hafe
honum burtkaſtad, Pad høfum vier heyrt ꜳ um̃lidnum Føſtu Tijma. Eñ hefde
DRotteñ ad eins vort auma Holld og Blood uppꜳ ſig teked, og dæed i þvi ſama fyr-
er allar Veralldareñar Synder, Pa hefde hañ ad ſøñu ad fullu loked þa Skulld er vi-
er ꜳttum Gude ad giallda, Par fyrer ſagde hañ under ſitt Andlꜳt, hꜳngande ꜳ
Kroſſenum: Ad þad Fullkomnad være, Joh. 19. Eñ ecke vorum vier vijſer i þvi, ad
hañ

hañ hefde gollded fyrer oß hiñ Sijdarsta Pening, Nema hañ hefde af Fiotrum Daudans leystur vered, og þad sama kuñgiora lated, og sialfur sig opeñberad, Og þvi kalla eg þad riett sagt, ad JEsus Christus sie ad Hofde Hyrningar vordeñ i siñe Dijrdlegu Upprisu. A þessum Deige hefur DRotteñ þad giort, segier Skallded, Fognum þvi og verum glader aa honum: Eckert hefur oß þvilijkt til Kiæte bored, Guds Born, Og eingeñ Sool hefur oß fegre uppruñed eñ þesse. Adra Daga giorer hin Natturlega Sooleñ med siñe Uppraas; Eñ þeñañ, Sool Riettlætesins sialf, Er hina skapad hefur. Þegar Sooleñ uppreñur, formyrkvar hun hin oñur Himen-Tungleñ med Nalægd siñar Byrtu, Eñ þegar hin Blessada Sool Riettlætesins under gieck i hinu bitra Dauda Strijde, þa giorde hun hina myrkva, Þegar hun hvad fegurst skein: So miked Valld hafde hañ bæde aa Himne og Jordu nidt i Daudanum, Hvad miklá Byrte mun hun þa bera i allra Riett-trwadra Hiortum i siñe Upprisu? Þesse hin fagra Sool rañ oß upp fyrst allra i hañs Gietnade, Eñ strax epter hañs Fædingu droou braadlega fyrer hana Skij vors auma Hollds Veikleika, og sijdañ Daudans, Er hañ þo ecke forþienad hafde. Eñ aa þessum Deige er hun so eitt Siñ Uppruñeñ, ad hun mun framar alldrei undergaanga, Þvi Christur uppriseñ af Daudum, deyr ecke meir, og Daudeñ rijker ei framar yfer honum, segier Paulus, Rom. 6. Þeir slatrudu honum so sem Lambe, Eñ hañ reis upp aptur so sem ungt Leon. Johañes Baptista kallar hañ þad Saklausa Guds Lamb, sem i burtu ber Veralldarenñar Synder, J hañs Nidurlægingu, Joh. 1. Johañes Evangelista nefner hañ þad Leoned af Kyne Juda, Sem Sigureñ uñed hafe, Apoc. 5. i siñe Upprisu. Fognum þvi og glader verum, Christner Meñ, Sijngiande og Spilande DRottne i Hiortum vorum. Guds Heilager Einglar, Þeir Himnesku Andar, Hvorium Guds Sonur eckert hafde aavegad med sijnum Dauda, Þeir fagna sijnum HErra i hañs Upprisu, Joh. 20. Þvi skylldum þa ecke vier Allshugar fegner verda Synduger Ormar? Sem vorum Daudans Meñ, hefde ecke DRotteñ upprised oß til Riettlætis. Christi Postular trwdu ecke Upprisu DRotteñs fyrer Fagnadar Saker, Luc. 24. Þesse braadt Fognudur var meire eñ so, ad hañ leysde þeim ad grunda hvad sañast være i fliootu Bragde; Eñ vier sem trwum fyrer þeirra Vitnisburd, Laatum oß þeim Samfagna og gladа vera, Þad bijdur oß Guds Heilog Mooder, og heñar Selskapur, Þad biooda oß Einglar DRotteñs, Þad biooda oß hañs Postular, Þad biooda oß Himen og Jord, Þad bijdur oß sialfur hañ, J hvors Nafni vier Sigrenum hroosum, Segiande til siñar Christne: Vakned upp og sijnged þier sem i Duptenu ligged, Þegar þier hafed nidursleiged hina Andvonu til Jardar, Esa. 26. Og uppaa þad, Brædur mijner, ad vier mættum þad þeß betur framkvæma, Vilium vier af þessa Hatijdar-Dags Evangelio nockud gior yfervega Upprisu DRotteñs med þeim Avoxtum og Aminingum sem þar af rijsa. J þessu Eyrende hiaalpe oß goodur Gud, Fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar, Med Naad Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAcker og Lof sie eillijfum Gude fyrer þa Naad, ad JEsu Dijrdarfullu Upprisu þarf ecke med Vitnum ad stadfesta, nu sem stendur, Pvi þar er eingeñ aa medal Christeña Maña, sem þad ecke jaate; Eñ aa hinum Fyrstu Dogum Christneñar, logdu Guds heilager Meñ ecke so miked Kapp aa nockurn Hlut sem þeñañ, Og þvi sagde Petur Fordum Daga, Act. 1. Pad birlar ad eirn af þeim Moñum, Sem med oss vered hafa alla þa Tijd, er DRottеñ JEsus gieck iñ og wt aa medal vor, byriande aa Skijrn Johañis, allt til þessa Dags, Er hañ var fraa oss uppnumeñ, ad eirn af þeim verde Vottur hañs Upprisu medur oss, Og eñ framar, þa ed Petur talde um̃ fyrer Judum, hvorier JEsum Krossfestañ hofdu: Pier Afneitudud hinum Heilaga og Riettlaata, Eñ beidduſt epter ad ydur yrde Mordingeñ giefeñ, eñ Hofund Lijfsens deyddud þier, Hvorn Gud hefur uppvaked af Daudum, Hvors vier aller Vottar erum, Act. 3. Og um̃ alla Postulana til samans ber Lucas Vitne segiande, Act. 4. Og med miklum Krapte vitnudu Postularner um̃ Upprisu DRotteñs vors JEsu Christi; Petta er ecke af Moñum skied, B. M. helldur af Gude, So ad hañs Sañleike stadfestur yrde aa medal þeirra, til Myskunar þeim og Syndalausnar. So segier Petur aptur, Act. 10. Peñañ uppvakte Gud aa Pridia Deige, og giorde þad bert, Ecke ollu Foolke, helldur fyrer Vottum þeim, Sem af Gude tilskickader voru, Oss sem ad aatum og druckum med honum. Og uppaa þad ad Christi Læresveinar ei kyñu ad fara villt i þessu, Pa hefur hañ i heila. 40. Daga um̃geingest med þeim hier aa Jorduñe, aadur eñ hañ til Himna stie, Act. 1. Og sijnt þeim klaarlega, Ecke einasta ad hañ upprisеñ være, helldur med sama Lijkama, Og þo forklaarudum, Med Mañlegum Lijkama, og þo Dijrdlegum, Med þeim Lijkama sem aa Krossenum hieck, Og i Grofena var nidur lagdur, og þo er Volldulega upprisеñ, Ad lucktre Grofeñe og Steinenum O-afvelltum. Ad hañ hafde Naatturlegañ Mañs Lijkama vottar hañ, Luc. 24. Siaaed og þreifed aa, Pvi Añde hefur ecke Holld nie Bein, sem þier siaaed mig hafa. Ad þad være sa same Lijkame, auglijser hañ nockru sijdar i þessum Capitula Lucæ, Segiande: Siaaed mijnar Hendur og Fætur, ad eg em þad sialfur: Hañ talade vid þaa, Hañ braut Brauded, Hañ aat og drack med þeim, Eins og til forna, Hañ liet þa þreifa a þvi sama Hollde, og sijnde þeim þær somu Hendur siñ a Krosseñ negldar voru, Og þa Sijdu, Er med Lensuñe var i giegnum stwngeñ, Par hañ þo i sama Siñ iñgieck til þeirra ad Lucktum Dyrum, so sem añar Ande, Ad þeir siaa mættu, ad þad være hiñ same Lijkame sem Leid, Og þo Dijrd Oveniulegre prijddur: Jaa, Til þess ad eckert vantade þeim til Trwarstyrkingar; Took hañ til aa Moyse og ollum Spaamoñunum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar sem af honum voru, Leidande þeim fyrer Siooner ad Christo byriade þetta ad lijda, og iñgaanga so i sijna Dijrd, So ad þeirra Hiarta brañ i þeim, Er hañ talade vid þa aa Veigenum, Luc. 24. Eñ so ad þeir mættu fyrer vijst vita, ad hañ bæde Gud og Madur være, og ad Mañdoomureñ være ecke i Daudanum vid Guddoomeñ skileñ, Jtrekade hañ eitt af þeim Kraptaverkum er hañ aadur giort haf-

rt hafde, og upp er teiknad hiaa Joh. 21. Þegar hañ kom til þeirra, er þeir voru ad Fiske-
Veidum, og hofdu um̃ Noottena einkis aflad, eñ hañ baud þeim ad varpa wt Netenu til
Hægre Handar, Hvad so tookst, ad þeir gaatu þau valla iñebyrgt fyrer Mergd Fiskaña,
Er i voru komner. Nu, þar ed Einglarner hafa DRottens Upprisu bodad, Heilagar
Kviñur þeim trwad, Postularner hafa hañ sied, aa honum þreifad, og vid hañ talad,
JEsus sialfur sig Opeñberad, og wtlagt Ritningarnar, Þær sem af honum voru, Og i
hvorium hañs Upprisu spaad var og fyrermyndud, og Guds-Heilager Meñ hafa Þusund
um samañ laated sitt Lijf uppaa þeñañ Sañleika, þa er hañ vissare og aa fastare Rokum
bygdur eñ honum mootsegia meige. Eñ hvoriar munu Orsaker þær, B. M. hvar fyr-
er ad so vandlega er bwed um̃ þetta dijrmæta Efne? Ein er sw, ad Guds Sonur i hañs
Upprisu hroosade Sigre yfer Dauda og Diofle, Og auglijste oss syndugum Moñum,
vegna hvorra hañ þeñañ dijra Sigur uñed hefur, ad hañ være Daudañs Daude, og
Helvijtis Olifian, Os. 13. Hèrleidingeñ være ad Herfaange tekeñ, eñ hañ under eins
hefde fridad fyrer oss hiaa Gude og Fodur. Þesse er hin hellsta Nytseme Upprisu
DRottens. Hina adra segier oss Paulus, Rom. 6. Med þessum Ordum: Vier erum
Jardader med honum fyrer Skijrnena til Daudans, ad lijka so sem Christur er uppvak-
eñ fraa Daudum fyrer Dijrd Fodursins, svo eigum vier ad gaanga i Endurnijung Lijf-
dagaña. Þar til er Christur daaeñ, ad i oss meige fyrer hañs Dauda, deyddur verda
hiñ gamle Madureñ, Þad er Uppruna Syndeñ, ecke ad hun alldungis wt af deye, helld-
ur deyr heñar Illsku Kraptur, Ecke ad hun burt-tekeñ verde, helldur heñar Sekt fyrer-
giefeñ, Ecke ad Madureñ i Endurgietninguñe Heilagur verde, helldur medtekur hañ
Heilagañ Anda, Fyrer hvorn hañ framveigis dempad gietur Holldsins Girnder,
Ecke Riettlaatur i sialfum sier, Helldur fyrer Christi Riettlæte, Fyrer hvort honum
veitest saa Anda-Kraptur, ad hañ gietur uppprised med Christo, og geinged i Endur-
nijungu Lijfdagaña, Þvi segier Paulus framveigis: Vitande þad ad vor gamle Mad-
ur er under eins Krossfestur, So ad afmaaest Lijkame Syndareñar, ad ecke þioonum
vier Syndeñe framar, Rom. 6. Ecke segier Paulus ad vier Syndlauser sieum, þvi þess
er ecke ad vænta af Holldenu under Syndena selldu, helldur segier hañ ad vier ecke þioon
um Syndeñe, Þad er, laatum hana ecke drottna i vorum daudlegum Lijkama, ad vier
hlijdum heñe i heñar Girndum, So sem hañ ad Orde kiemst i sama Capitula. Þesse
er hañs Meining i Ordunum er vier strax heyrdum, Þvi hañ svarar þvi sem hañ ond-
verdlega i Capitulanum þeim siotta framsetur a þeñañ Haatt: Skulum vier þa i Synd-
unum dvelia, so ad Naadeñ yfergnæfe? Fiærre sie þvi. Tveggia Guds Velgiorninga
gietur og St. Paall i greindum Ordum: Endurgietningareñar og Endurnijungareñ-
ar. Vier erum Jardader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, Þad er Endur-
gietningeñ. So eigum vier ad gaanga i Endurnijungu Lijfdagaña, Þad er Endurnij-
ungeñ: Hin Fyrre skiedur i einu Augnablike i Heilagre Vatnslaug: Hin sijdare aa ad
framkoma um̃ alla Æfe vora, og fara Dagvaxande, so ad smaamsamañ afmaaest Lij-

kame Syndareñar, Og ſo ſem vier i Chriſtelegum Frædum leſum; Ad ſaa gamle Madureñ, Þad er Uppruna Syndeñ, Daglega Dreckeſt og Deydeſt, fyrer Ydran og Yferboot, Eñ framkome og upp aptur rijſe eirn nijr Madur, Sa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude Æfeñlega.

Hin Fyrre er alleina Guds Verk i oſs, ſo ſem Paulus ſegier, Tit. 3. Ecke af Riettlætis Verkunum ſem vier giordum, helldur af Myſkun ſiñe hefur hañ oſs hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena. Hin Sijdare ſtendur ad nockru Leite i voru Vallde. Þad vottar St. Paall, Eph. 4. Endurnijeſt i Anda ydvars Hugſkots, og Iklædeſt einum nijum Mañe, ſem epter Gude ſkapadur er, I Heilagleika og Riettlæte. Hvorttveggia kallaſt Umſkurn Hiartans i Gamla Teſtamentenu, Endurgietningeñ, Devt. 30. Gud mun umſkiera þitt Hiarta. Endurnijungeñ, Jer. 4. Umſkiered ydur fyrer DRottne, og burt-taked Yferhwd ydar Hugſkots, Þier Meñ Juda og Jeruſalems Borgarar, ad ecke frambrune mijn Grimd ſo ſem añar Elldur þañ eingeñ ſlockt faae, Sokum Illſku ydar Athafna. Hier kuñum vier nu ad ſiaa Skylldu vora Brædur mijner, og hve mikell Haaſke oſs bweñ er, Nema vier giolldum Varhuga vid, og rijſum upp med Chriſto DRottne vorum, J hvørs Dauda vier ſkijrder erum, Rom. 6. Og fyrer hvørn vier hofum Barna Rietteñ medteked, Gal. 4. Ef þier erud uppriſner med Chriſto, Þa leited þeſs ſem þar uppe er, Hvar Chriſtur er ſitiande aa Hægre Hønd Gude. Hugſed um þad ſem þar uppe er, og ecke þad ſem er aa Jorduñe, Segier Paall, Col. 3. O! hvilijk er Faaſiña Daudlegra Maña, Þar vier vordner erum Borgar-Meñ Heilagra, og Guds Heimilis-Meñ, Eph. 2. Þad Meñ ſockva ſier nidur i Leyrvelltu og Endeme Heims þeſſa, ſem þo mun fyrerfaraſt med øllu þvi, ſem i hønum er, Eñ yfergiefa ſijns Fødur Heimkyñe. Giætum þeſs, ad vier erum i Skijrneñe vordner Kviſter aa hinu Andlega Vijn-Trie DRottne JEſu Chriſto, til ad bera mikeñ Avøxt, Eñ hvørn þañ Kviſt ſem ecke Avøxt ber, Mun Vijngards-Madureñ, ſem er hañs Fader, afhøggva og i Ellde breña, Joh. 15. O! hvad herfeleg eru þau Umſkipte, af einum Himneſkum Vijn-Vid, ad gioraſt Helvijtis Elldebrandur, af Chriſti Þienara, Satans-Þræll, af Guds Oſka-Barne, Reideñar Barn, og þad fyrer ſtundlegt Epterlæte Syndareñar; Hvørrar Verdlaun eru i þeim Þitte, ſem rijkur af Ellde og Breñeſteine, Apoc. 21. Eñ framar ſegier Paulus, Col. 2. Þier erud greftrader med Chriſto i Skijrneñe, J hvørre þier og uppvakter erud fyrer Krapt Trwareñar aa Gud, ſem hañ uppvaked hefur. Hvør mun þeſſe Kraptur Trwareñar vera, Brædur mijner? Þad ſegier Paall oſs aptur, Gal. 5. Er hañ ſo ad Orde kiemſt, ad i JEſu Chriſto (þad er i þeim Hlutum, ſem JEſu Chriſto vid koma) gyllde hvørke Umſkurn nie Yferhwd, helldur Trw ſu, ſem fyrer Kiærleikañ verkar. Eñ hvørier eru þa Kiærleikans Avexter? Paall kieñer oſs þad, 1. Cor. 13. Segiande: Kiærleikureñ er Þoleñmoodur og Goodgiarn, Kiærleikureñ øfundar ecke, Kiærleikureñ giorer ei Illmañlega, hañ þytur ei upp, hañ er ei Oſidſamur, hañ leitar ecke epter þvi ſem hañs er, hañ er

ei

ei Pwnglyndur, hañ þeinker ecke Illt, hañ fagnar ecke yfer Raanglætenu, Eñ samfagnar Sañleikanum. Hier telur Paall upp allar Christelegar Dygder, er af Kiærleikanum, so sem ødrum Bruñe framfliioota, eins og adrer hreiner frioofgande Lækier, til allra þeirra sem vier eigum nockru vid ad skipta i Heimenum, Og saa sem temur sier þær og Daglega ydkar, hañ maa þess fullørugur vera, ad hañ hefur med Christo vel uppriseð, og er honum fyrer saña og lifande Trw iñplantadur, Þviad Elskañ er Kraptur Trwarenar og heñar Lijfs Mark; Þar fyrer segier Postuleñ Afdraattarlaust, ad Trweñ sie daud aan Verkaña, Jacob. 2. Og St. Paall sem vard (fyrer þeirra Skulld sem forlietu sig uppaa Logmaalsins Verk) ad hroosa Trwñe so miøg, ad nockrer hafa steitt sig þar aa, Po aan Orsakar, og meint ad ei þyrfte Goodverkeñ ad giora; Hañ segier sialfur, 1. Cor. 13. Þo ad eg hefde alla Trw, so ad eg megnade Fiølleñ wr Stad ad hræra, Og hefde ecke Kiærleikañ, Pa være eg þo eckert. Vilium vier lijta til vors fyrra Haattalags, aadur eñ vier Endurfædder vorum, og heyra hvad Paulus þar uñ segier; Eph. 2. Gud saa ed rijkur er af Naad fyrer siñ mikla Kiærleika, med hvorium hañ elskade oss, hefur Lijfgad oss med Christo, Þegar vier dauder vorum i Syndunum, og hefur under eins uppvaked oss, Og aasamt Christo JEsu sett oss i Himnarijke. J Skijrneñe riette Gud oss fyrst allra sijna Myskunar-Hond, þegar vier miña kuñum ad hiaalpa oss i vorum Saaluhiaalpar-Efnum, eñ eirn Briooſtmylkingur Lijfe sijnu, Þa reiste hañ oss upp wr Saurendum Naatturlegrar Spillingar, Þa took hañ oss iñ i siñ eilijfa Saattmaala, Þa Trwlofade hañ oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Þa sette hañ oss i Rijke sijns Sonar, Col. 1. Eñ hvad er þad, Brædur mijner, ad vier briootunst wr Fadme hañs ad nyju, med Idkun vondra Verka, er Guds Bornum sæma ecke, og forlaatum Meistara vors Ungdooms, sem took oss upp, þar vier laaum i voru Bloode, wtkastader aa Vijdavaangenum, Ezech. 16. Eñ gongum Dioflenum til Handa, hvorium vier afneitad hofum og ollum hañs Verkum. Er þad ecke ad kasta sier aptur i sama Saur, Þoott vier Einusiñe uppreister sieum? Edur munum vier þess nockur Not hafa, ad Gud hefur med sijnum sterka Armlegg Handdreiged oss af Dioflenum i Endurgietninguñe, Ef vier leggium Lag vort vid Satan aptur? Laatum oss til Hugar koma, Brædur mijner, Hvad margt og miked JEsus þolad hefur, Þegar hañ maatte þo vel Sælu hafa, Heb. 12. aadur eñ hañ fieck uppriseð oss til Riettlætis. Saa sem heyrer Guds Son yfergiefeñ, Matth. 26. Gud blessadañ uñ Allder, Rom. 9. So sem Bølvan uppheingdañ, Gal. 3. Og hañ sem gallt þad hañ ecke rænte, medal Ræningia taleñ, Marc. 15. Og veit ad þetta er skied, fyrer alla þa Illsku sem ad Syndareñ hefur uñed til Helvijtis med, Og ecke leitast vid ad Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, svo honum mætte Christi vegna Heimureñ verda Krossfestur, eins og Paale, Gal. 6. Þeim verdur alldrei auded med Christo upp ad rijsa i Daudeñe, svo hañ eilijflega med honum life i Dijrdeñe. Fyrer því aamiñer Petur ψista vel, Segiande: Med því ad Christur hefur nu fyrer oss lided i Hollðenu, Þa

 brynied

brynied ydur med sama Hugarfare, Þviad hvor aa Holldenu lijdur, Hañ lætur af Syndeñe, 1. Pet. 4. So ad hañ þadañ i fraa, Hvad epter er Æfeñar i Holldenu, life, eige ad Mañlegum Gyrndum, Helldur ad Guds Vilia. Hvad er þad ad vier segiunst ydrast vondra Verka, Nema vier og upprijsum med Christo? Vier komum hvort Ar, og Priaar, Fioorar Reysur aa Are, Epter þvi sem hvor er lyndur til, fram fyrer Kieñemañeñ, þar hñ situr i Guds Stad til ad fyrergiefa oss Syndernar, ecke þeim sim naalægiast Gud med Vorunum alleina, Es. 29. Helldur þeim, hvorra Hiarta ad riett er fyrer DRottne. Vier segiunst bera Angur og Trega fyrer Syndena (Gud giæfe ad Hugur jafnañ Maale fylgde, og ad vier villdum af heñe laata og vid siaa framveigis) og er hañ hefur so i Guds Umbode tilsagt oss Kvittun vorra Afgiorda, meinum vier oss ad fara Riettlaatare heim aptur i vort Hws, Luc. 18. Og þad er i Sañleika satt aa þeim, sem vel hafa reynt og proofad sialfa sig, og af Alvoru audmijkt sig under Vollduga Guds Hond, þviad Christi Loford er fyrer þvi, ad hvorium hellst Guds Þienare fyrergiefur Syndernar, þeim sieu þær fyrergiefnar, Joh. 20. Þo ecke nema þeim sem elska siñ Lausnara og rækia hañs Bod, Þviad St. Paall lijser Bolvan yfer þa sem ecke elska DRotteñ JEsum, 1. Cor. 16. Og eru þeir þa laangt fraa Syndaña Fyrergiefningu. Hiñe Bersyndugu fyrergafst miked, Þvigd hun elskade miked, Luc. 7. Hvorneñ viljum vier kallast elska Christ edur med honum upprijsa, Ef vier afrækium Bod hañs? Ef hañ er vor Fader, Hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Saa sem ecke tekur siñ Kross uppaa sig og fylger honum epter, Matth. 10. Hañ er hañs ecke verdugur? Eñ Kross er varla þvilijkur Hollde og Bloode, svo sem ad uppfylla Christi Logmaal, sem þo er ecke nema i einu Bodorde iñefaled, sem er, ad bera hvor añars Byrde, edur elska hvor añan Iñbyrdis, ad Vitne St. Paals, Gal. 6. Þvi dæme eg sö, Brædur mijner, ad saa sem ecke stundar epter ad vardveita Christi Logmaal, Hañ elskar hañ ecke, saa sem ecke elskar hañ, nijtur ecke hañs Forþienustu, saa sem ecke nijtur hañs Forþienustu, hañ er bolvadur, og er eñ þa i sijnum Syndum, hvorsu opt sem Presctureñ lijser þeirra Kvittun yfer honum, Þviad hañ er Madur, og veit ecke aa Stundum hvorium hañ fyrergiefur Syndernar, Þviad Guds alleina er ad rañsaka Hiartad, Þar fyrer eigum vier ecke ad taka þad sem Gud hefur talad aangraadum Saalum til Trwarstyrkingar, Illskuñe og Þrettvijseñe til Afbotunar. Eñ giætum ad oss i JEsu Nafne, Brædur mijner, Hvad opt hofum vier Syndaña Kvittun þeiged, Eñ þad mun tilbored hafa, ad vier hofum aptur framkomed ecke einasta med þær somu, helldur og adrar verre aa Stundum. Hvad lijtt hefur oss þa vered giefed um̃ ad hallda þad Loford, er vier giordum Gude i Jaatningu Syndaña, aadur eñ vier þaadum Heilaga Afflausn af Hende hañs Þienara? Hvorsu treiger hofum vier vered a Heyrn hañs Orda? Hvad Ofwser til ad elska vorn Naaunga, ad forlaata honum hañs Afbrot, ad giora þeim Gott sem vid oss Misgiora, ad forsvara hañ og færa alla Hlute aa betra Veg, ad stilla Reidena, ad laata hañs Eigur kyrrar! Og i einu Orde ad segia, ad rijsa upp med Christo og bera Krosseñ epter honum, þad

er,

er, ad deyda han Gamla Manen er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins? Eph. 4. Jaa, hvi verr, ad margur mun finast sa ed strax sem hn er komen fraa Prestsens Kniaam, vellter han sier i sama Saur, og hefur aungva Vidleitne til þess ad laata af ollu þvi Illa, Er han strax medkiende og lofade Umboot aa, Og þad i Ostrauste Naadar Guds, og falls valltre Von laangra Lijfdaga. Ecke er slijkt ad upprijsa med Christo edur bera Kross en epter honum, helldur ad gabba hin Krossfesta. En heyred hvad Paulus til Hebr. segier i 10. Cap. Sa sem ad aungvu hefur Moysis Logmaal, Han skal epter Vitne Tveggia edur Þriggia Vægdarlaust deya: Hvad þijngra Straffs verdugur meined þier han reiknast mune, Er Foottredur Guds Son, og Saattmaalans Blood, Med hvorju ad han Endurleystur er, Almenelegt helldur, Og vanvirder Anda Naadarenar? Hvad er þad, ad vier jaatum alleina vorar Synder fyrer Gude; Mun honum nockur Þocknan i þvi? Han þarf ei þess vid, Han veit þær betur en vær, Þviad aller Hluter eru berer og nakter fyrer hans Augum, Hebr. 4. Þad er nærre þvi, ad briixla Gude med Jona Spaamane um sijna Myskunseme, Jon. 4. So sem han ecke sie under eins Riettlaatur, og take alleina Skullda Reikningen fyrer Skullda Lukninguna, Hvad oss munde þykia lioott aa einum Doomara, Þvi kunum vier þa ad ætlast til þess af Gude, Hvors straanga Riettlæte ongva Þurdu maa lijda? Þad sie fiærre, ad eg lijted giore wr JEsu Forþienustu, Hans Pijnu og Dauda, Hans Upprisu og ollu þvi han uned hefur oss til Myskunar, Þviad hvad er jafnvægt Guds Riettlæte? Hiaa hvoriu Himen og Jord eru mina en eitt Sand-Korn ad reikna, Nema þessar Astgiafer Frelsarans. Hitt segie eg, Ad þad heyrer þeim ecke til sem ætla sier ad lifa i Syndunum, uppaa þad ad Naaden yfergnæfe. Harmþrwngen og Sundurknosadur Ande er alleina þad Offred sem Gude þocknast, Ps. 51. Hvar fyrer? Þviad Christi Forþienusta hrijn aa þvi, Nær þvi er so haattad, en ecke anars, So ad Gud vill ecke tilreikna Manenum giordar Synder, En ecke er þetta Aflaats-Brief til ad meiga framveigis Syndena drijgia, Þvi Christur er komen til ad uppfylla Logmaaled, en ecke ad uppleysa þad, Matth. 5. Til ad forlijka fyrer Syndena, en ecke til þess Maduren skule syndga: Til ad deyda Syndena i voru Hollde fyrer sijna Upprisu, en ei til þess ad hun skule drottna i vorum daudlegum Lijkama.

Þu segier: Eg aangrast af ollu þvi Illa sem eg hefe moote Gude giort, En hvar er þad Angur, Þegar þu leikur þier ad somu Syndum eins og odru Table? Þu segier: Eg hata Syndena; Laat þa siaa ad þu elsker Gud, og drijger ei þad han banad hefur. Þu segier: Eg elska Gud sem mier hefur so margar Synder fyrergiefed; Laat þa siaa under eins, ad þu elsker ecke þad han hatar, Þviad þessum Tveimur Herrum maa ecke i Sen þioona, Matth. 6. Anad er þad, ad Synden hender Manen, Og han samþyckest hene um Stund, Anad þad, ad laata hana drottna i sier, hafa Lyst af hene, og giora Hand-Verk þar af; Þad Fyrra gietur ecke ad ollu Leite skiled vid oss aa medan vier berum epter oss Lijkama þessa Dauda, So ad jafnvel Paulus segiest giora þad Vonda er han þo ecke giora vilie, Rom. 7. Hitt Sijdara er hiaa Bornum Vantrwarenar Al-

geingt,

geingt, Umm hvoria Paall talar, Rom. 1. Er hann uppreiknar Skammer þær ed medal
Heidingianna tijdkuduſt, Og ælyktar med þeſſum Ordum: Hvorier ed jafnvel þoott
þeir þecktu Guds Riettinde (Sem er, ad þeir ed þvilijkt giora ſieu Dauda verder) þa gio-
re þeir þad ecke ad eins, Helldur ſamſinna þeim er þad giora, Rom. 1. Þegar Gud et
hvad Nædugaſtur i ſijnu Evangelio, þa er þad þo alldrei odruvijſe enn ſo ſem hann ſegier,
Eſa. 1. Laated af Illu og læred gott ad giora; Komed ſijdann og eiguſt Log vid, Þoott
ydar Synder ſieu raudar ſem Blood, þa ſkulu þær verda hvijtar ſem Snioor, Og þo þær
ſieu ſem Purpure raudar, ſkulu þær verda hvijtar ſem Ull, Og Paall er þvi ſamhlioda,
Rom. 8. Er hann vottar, Ad einginn Fordæming ſie framar yfer þeim ſem eru i Chri-
ſto JEſu, Þeim ſem ei gaanga epter Holldenu, helldur epter Andanum. Þetta er eitt
Æfennlegt Evangelium, Sem varad hefur i fraa Heimſins Upphafe, og geinged hefur i
giegnum bæde Guds Teſtamenta, Og er ſo Oumbreytannlegt ſem hann er ſiaalfur, hia
hvorium ecke er Ummbreiting nie Skugge Ummbreytingar, Jac. 1. So þoott ad Ein-
gell af Himne kiæme ad predika annad, Sem þo er Omogulegt, þa villda eg med Paulo
ſegia: Ad þad bolvad vera ſkyllde, Gal. 1. Hlijdum þar fyrer Raade St. Peturs,
Er hann ſegier: Legged af Illſku alla, og oll Svikræde og Smiadur, og Ofund og alla
Bakmælge, og gyrneſt hinnar ſkynſamlegu og hreinu Mioolkur ſo ſem nijfædd Born,
uppaa þad, ad þier þrooeſt fyrer þa ſomu, Ef þier ſmackad hafed hvad liwfur DRottenn
er, Til hvors vier komner erum, ſo ſem til eins lifanda STEJns, Hvor af Monnum er
burtkaſtadur, Enn af Gude er wtvalenn og dijrmætur, 1. Pet. 2. Nootten er ummlidenn enn
Dagurenn tekur ad naalgaſt; Leggium þvi af Verkenn Myrkranna og Jklædunſt Herklæd-
um Lioosſins, Rom. 13. JEſus Chriſtus er aa þeſſum bleſſada Dags-Morgne uppriſ-
enn. Hann er vordenn morgum til Falls og Uppriſu i Jſrael, Epter þvi ſem hinn gamle Si-
meon Raad fyrer giorde, Luc 2. Rijſum þvi upp med honum, ad ecke falle hann yfer
oſs, og i ſundurmerie med hinum odrum er honum burtkaſtad hafa, Allra hellſt þar vi-
er vitum Tijmann, ad oſs er Maal ad rijſa upp af Svefne Syndanna, Þvi nu er Hiaalp-
ræded oſs nær enn vier nockurn Tijma trwdum, ſagde Paall, Rom. 13. Vier vitum
ecke hvad naalæg ad er vor Endurlauſn, Edur nær Hofud-Eingelſins Lwdur kvedur vid
i Skijum Himens, Og þar vort Paaſka Lamb Chriſtur er fyrer oſs Foornfærdur, þa
holldum Haatijdena ecke i hinu Gamla Swrdeige Illſkunnar og Þrettvijſennar, helldur i
Oſijrdu Braude Hreinlyndeſins og Sannleikans, 1. Cor. 5. Þad Saklauſa Guds
Lamb ſem i burtu ber Heimſins Synder, Joh. 1. Þad verdur enn nu Foornfært i Himi-
nenum, So opt ſem oſs verda Syndernar fyrergiefnar aa Jordunne, Þvi ſegier Poſt-
ulenn, Hebr. 9. Hann er i Himenenn inngeingenn, ad hann byrteſt vor vegna fyrer Guds
Auglite, Siaalfur Foornenn, Siaalfur Kiennemadurenn, Og ſiaalfur Gud ſa ed Foorne-
na þyggur: Þvi ætte Chriſtenna Manna Lijferne ad vera eitt ſijfellt Paaſka-Halld, Þar
til þad fullkomnaſt i Guds Rijke epter hanns Loforde, Og vier munum eilijfar Paaſker
med honum hallda aa Lande lifande Manna, Þar ed verda mun eilijfur Hvijldar-Dag-
ur,

ur, Esa. 66. Og vier munum med føstu Elskuñar Bande teingiast vid hañ sem oss hef-
ur so heitt elskad, ad hañ doo fyrer oss Raangláata, Rom. 5. Hvor ad er siaalf-
ur Uppriſañ og Lijfed, Joh. 11. Honum med Fødur og Heiløgum Anda
sie Oendañlegt Lóf og Dijrd, Nu hiedañ i fraa og ad Eilijfu, Amen.

# Añañ Dag Paaska.

Gudspialled, Luc. 24. Cap.

I Þañ Tijma. Og siaa, Ad Tveir af þeim geingu aa þañ sama Dag til nockurs Kauptuns, Pad ed var fraa Jerusalem Sextiju Skeida-Rwm, ad Nafne Emaus. Og þeir voru ad tala uñ alla þa Hlute sijn aa millum, sem vid høfdu bored. Og þad skiede þa þeir rædduſt vid, Og spurduſt aa sijn aa millum, ad siaalfur JEsus naalægdeſt þa, og gieck jafnframt þeim. Eñ þeirra Augu voru so halldeñ, ad þeir þecktu hañ ecke. Og hañ sagde til þeirra: Hvad er þad fyrer Rædu, sem þid høndled yckar aamille Reikande, og erud Hryggver þar af? Pa svarade Eirn er Cleophas var ad Nafne, og sagde til hañs: Ertu alleina so Framande til Jerusalem, ad þu veitſt eige hvad aa þessum Døgum þar iñe giørſt hefur? Eñ hañ sagde til þeirra: Hvad er þad? Þeir søgdu til hañs: Þad, af JESU af Nazaret, Hvør ed var Spaadooms-Madur, Maattugur i Verkum og Ordum fyrer Gude og øllu Foolke. Hvørneñ ad vorer Høfud-Preſtar og Høfdingiar selldu hañ i Fyrerdæmingu Daudans, og Krossfeſtu hañ. Eñ vier vonudum ad hañ munde Endurleysa Israel. Og yfer allt þetta er nu hiñ Pridie Dagur i Dag, er þetta skiede. So og hafa skielft oss nockrar Kviñur af oss til, Pær ed aarla høfdu hiaa Grøfeñe vered, og fundu ecke hañs Lijkama, Komu og søgdu sig eirneñ hafa sied Einglana Siooner, Peir sem segia hañ lifa. Og nockrer wt af oss geingu til Grafareñar, Og fundu eins lijka og Konurnar høfdu sagt, Eñ hañ saau þeir ecke. Og hañ sagde til þeirra: O! þier Heimsker og Treiger i Hiarta, ad trwa þvi øllu sem Spaameñerner hafa talad. Hlaut Chriſtur ecke þetta ad lijda, og iñgaanga so i sijna Dijrd? Og hañ took til fraa Moyse og øllum Spaamøñum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar, þær af hønum voru. Og þeir tooku ad naalgast Kauptwned þad þeir geingu til; Og hañ liet þa sem villde hañ leingra gaanga, Peir neyddu hañ og søgdu: Vertu hiaa oss HErra, Þviad

Kvøllda tekur, og aa Dageñ lijdur. Hañ gieck iñ og var hiaa þeim. Og þad skiede, Pa hañ sat med þeim til Bords, Ad hañ took Brauded, Blessade þad og braut, og riette ad þeim; Pa opnuduft þeirra Augu, so ad þeir þecktu hañ, Og hañ hvarf fraa þeirra Augum. Og þeir sogdu sijn aa mille: Brañ ecke ockar Hiarta i ockur, Pa hañ talade vid ockur aa Veigenum, Og opnade fyrer ockur Ritningarnar? Og þeir stoodu upp aa somu Stundu, Og sneru aptur til Jerusalem, Og fundu þa Ellefu samañsafnada, Og þa sem med þeim voru. Hvørier ed sogdu; DRotteñ er sañarlega Uppriseñ, Og hefur byrst Simoni. Og þeir sogdu hvad giørst hefde aa Veigenum, Og hvørneñ þeir hefdu þeckt hañ, J þvi hañ braut Brauded.

## Exordium.

I Þessa Haatijdis Dags Evangelio heyrum vier, ad Tveir af JEsu Læresveinum geingu fraa Jerusalem til nockurs Kauptwns, Er nefndest Emaus, Pad þijder Kastala. Pad giefur mier þa Hugleiding, ad aller vilium vier, Brædur mijner, laata leida oss wt i eirn sterkañ Kastala med David, Ps. 108. So vier kuñum Ohulter bwa, Eñ þad er Vansied, hvort vier erum aller so fwser til ad gaanga med JEsu Læresveinum wt af Jerusalem: Eg meina ecke HAna sem er riett Christeña Mañá Samkunda hier aa Jorduñe, Gal. 4. Edur hina sem þar Uppe er, Hvar vor Uñgeingne ætte ad vera, Helldur hana sem er i Prælkan med sijnum Bornum, Hvør ed myrdte siñ Konung og giørde hañs Hws ad Ræningia Bæle, Luc. 19. Pad er, wt af hiñe vondu Babylon, Apoc. 17. og 18. Hvor ad er Lijkneskia Veralldar þessarar, Og ecke lætur af ad Krossfesta DRotteñ ad Niju, og Offækia hañ i sijnum Limum. Vier heyrum i Gudspiallenu, Ad JEsus hafe Naalægst þessa sijna Astvine aa Veigenum, Og Geinged Jafnframt Þeim. Sioaum til, Brædur mijner, ad vier meigum og nioota hañs Naalægdar aa hiñe Hættu og Torvelldu Leid vorra Lijf-Daga, Og ad hañ gaange Jafnframt oss, Par til vier erum til vors Sijdarsta Herbergis komner. Vier vilium af Dæme þessara Tveggia læra. 1. Hvad vier eigum ad giora og. ad hafast, so JEsus vilie uña oss siñar Naalægdar. 2. Hvørneñ vier eigum hønum ad hallda so vier missum hañ ecke. Hiaalpa oss hier til goode JESU, og uppliwk vorum Augum, Ad vier þeckium þig, Bænheyr þad HErra, Fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

OG Siaa Ad Tveir Af Peim Fooru Pañ Sama DAg Til Nockurs KAupTwns, Segier Texteñ. Af hvørium? Af hañs Læresveinum sem umgeingust med hønum, fylgdu hønum epter, heyrdu hañs Kieñingar, hlijddu þeim, elskudu hañ

hañ Lifande og hormudu hañ Daudañ, eñ voru ecke vijser i þvi ad hañ være upp aptur ris-
eñ. Vilier þu, Christeñ Madur, ad JEsus uñe þier Naalægdar siñar, þa breit epter þess-
um aa allar Lunder, haf þijna Umgeingne med JEsu, tala vid hañ i þijnum Bænum i þij-
nu Hiarta, þa muntu fiña ad sw Eilijfa Spekeñ Guds hefur Lyst af ad bwa hiaa Maña-
ña Sonum, Prov. 8. Fylg honum epter, Þad er, tak þiñ Kross uppaa þig, Añars ertu
ecke hañs Læresveirn, Luc. 24. Hafe Gud þyrmt þier fyrer wtvortis Krossburde, þa gi-
or þad þess helldur til Þacklætis vid hañ er so væger þijnum Breiskleika, og Krossfest þitt
Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Þvi so segier Paulus, Gal. 5. Ad þeir giore
sem Christo tilheyra, Þad eru þeir sem eru Christi Læresveinar, og nær þu temur þier sodd-
añ Krossburd, þa maattu vita ad hañ er þier Naalægur, þvi hañs Kraptur er i Breiskum
maattugur, 2. Cor 12. Heyr hañs Ord, Laat þier þad vera sætara eñ Hunaang og Hun-
aangs-Seim, Ps. 119. Gack yduglega þaangad sem þad er kient og um̃ Hond haft, og
ecke fyrer Sidasaker, Helldur til ad læra nockud þier til Trwarstyrkingar, Til Huggun-
ar, Til Sidbota, og vert viss um̃, ad hañ er þier naalægur, Þvi hvar sem Tveir edur Þrijr
eru samañkomner i mijnu Nafne, Þad er til ad prijsa mitt Nafn, heyra mitt Ord, og
tala vid mig i sijnum Bænum, Þar vil eg vera midt aa millum þeirra, Segier DRotteñ
hiaa Matth. 18. Eñ um̃ alla Hlute fram̃, þa kappkosta ad naa þvi Hlutskipte sem bæde
þesser hañs Læresveinar og adrer hlutu, Sem var ad elska hañ, Þad maatt þu siaa aa þeir-
ra Dæme, Þvi lijser sialfur DRotteñ, Er hañ segier: Hvad Er Þad Fyrer Rædu Er
Þid Hondled Yckar A Mille Reikande, Og Erud Hryggver Þar Af? Hvar fyrer vo-
ru þeir Reikande? Þvi Gud hafde sleiged Hyrdereñ, Og Sauder Hiardareñar voru
sundurtvistrader, Matth. 26. Hvar fyrer voru þeir hryggver? Þviad þeirra Meista-
re var tekeñ fraa þeirra Hofde: Hier med sijndu þeir Elsku þa, Er þeir hofdu aa honum,
Og ecke leyner Cleophas Ordsokeñe til Sorgareñar i Andsvare sijnu uppaa Spurningu
DRotteñs. Siaa hvad kiærañ hañ hefur haft hañ sogdu Gydingar er JEsus Taarad-
est vid Grof Lazari, Joh. 11. Þesser sijndu hvad kiærañ þeir hofdu JEsum, Af þvi
þeir syrgdu hañ Laateñ. Gior sama, Christeñ Madur, Þar þu veitst hañ er uppriseñ,
og situr til Kraptarens Hægre Handar. Elska JEsum þa mun hañ þig elska, Þvi so
segier hañ, Joh. 14. Hver hañ elskar mig, hañ vardveiter mijn Ord, Og Fader miñ mun
elska hañ, Og til hañs munum vid koma, Og Vistar-Veru hiaa honum giora. Born
Veralldareñar faast ecke miog um̃ þott þau vante JEsum, Hvar fyrer? Þvi þau elsk-
udu hañ alldrei. Sa griet ecke fyrer Gull, sem ecke aatte þad, segier Ordtæked. Heim-
ureñ broser smaatt ad þvi, þott JEsus hverfe honum, Og þyker svo sem þad kome ecke
sier vid, hvort hañ er uppriseñ edur ecke, Þegar hañ hefur siñ Gull-Hnott ad treysta aa,
þa er hañ saattur. Þegar hañs Svijn, Þad eru hañs saurug Verk og Ohreinar Gyrn-
der, meiga vera Omaksiaus, Þa er hañ til Frids þott JEsus vijke wr hañs Landsaalf-
um, Matth. 8 Þegar hañ hefur sijn Skwrgod i Dan og Bethel til ad vardveita sijn
Landamerke, Og til ad hallda Stioorn yfer Foolkenu, Ad ecke falle þad fraa honum til

Guds Pioonustu sem i Jerusalem, 1. Reg. 12. Pad er i Guds Samkundu tijdkast, þa
þykest hañ hafa vijslega um̃ sig bwed, Eñ þesser voru ei so lynder. Hvad heyrum vier hi-
er i Gudspiallenu? Peir Voru Ad Tala A VEigenum Um̃ Alla Þaa HLute Sem Til
Hosdu Bored. Og framar segier i Textanum: Pegar þeir voru ad bera sig samañ og
spyriast aa, Hafe JEsus Naalægst Peim. Hvort hid sierlegasta Jñtak Ræduñar ver-
ed hafe, Pad maa siaa af Andsvare Cleophæ, Sem er: Ad JEsus hafe vered Ofurselldur
J Fyrerdæmingu Daudans, Og sie nu allt hiñ Pridie Dagur sijdañ, Eñ Einglarner
hafe sagt Kviñunum ad hañ Lifde. Peir hafa aan Efa vered ad bera sig sundur og sam-
añ um̃ þetta, Hvad hier um̃ hallda skyllde. O! hvad satt er þad sem DRotteñ segier,
Esa. 42. um̃ siñ Son JEsum: Pañ braakada Reir mun hañ ecke i sundurbrioota, Og
þañ riwkanda Lijn-Kveik, mun hañ ecke wtslockva. Mikell var þesse Veikleike Læresv-
einaña, Hvar fyrer hañ og aatalde þaa hardlega, So sem hier stendur sijdar i Gudspialle-
nu. Eñ meire var þo hañs Giæska sem villde samlaga sig þeim, og vera hiñ Pridie
Madur aa Reisuñe, til ad leidrietta þaa, ad ei skylldu þeir gaanga framar i þessare Villu.

Lucas skrifar ad þeirra Augu hafe svo halldeñ vered, ad þeir þecktu hañ ecke, Pad hef-
ur aan alls Efa af Gude skied: Hefde DRotteñ strax Opeñberad þeim sig, Pa hefde
hañ ei feinged svo Ordsøk til ad laata þaa skam̃ast sijn fyrer þeirra Vantrw og Pecking-
arleyse aa Ritningunum, og ecke til ad kveikia þañ Bruna i Hiarta þeirra, sem ordsakad-
est af Utleggingu Spaadoomaña, Hañ hafde aadur noogu berlega talad fyrer þeim um̃
sijna Pijnu og Upprisu, Matth. 16. Eñ þad hafde þo ecke svo mikeñ Stad i þeirra Hiar-
ta, ad þeir trydu Kviñunum er søgdu hañ uppriseñ. Mikel var Blyndne þesse, Eins og
hañ sem uppvakte Lazarum, Joh. 11. Doottur Jairi, Marc. 5. Og Son Eckiuñar
af Naim, Luc. 7. Hañ munde ei kuña ad laata sijna Saal fraa sier, og taka hana apt-
ur, Nær honum þocknadest, Joh. 10. Nu villde hañ fyrst laata þaa þeckia Vantrw
sijna af Utleggingu Ritningaña, Og sijdañ auglijsa þeim ad hañ være hiñ same, Er þær
hosdu um̃spaad, Par var ad søñu eirn Trwar-Neiste i Hiarta þeirra, Eñ hañ var svo
diwpt faleñ i Osku Vanþeckingareñar, ad hañ sem visse hvad med þeim bioo, Joh. 2.
villde fyrst rydia heñe i burtu med Utleggingu Spaadoomaña, Og sijdañ blaasa ad hon-
um med sijnum Anda, Svo þar kviknade eirn Elldur af, Hvor ed sijdañ brañ i þeirra
Hiarta, Hvad þeir siaalfer jaatudu. Vidlijka Atferd brwkar DRotteñ eñ nu i Dag
vid sijn Born. Hvad opt eru vor Augu so halldeñ, ad vier þeckium hañ ecke, Pegar
vier rotum i einhvorn Mootgaang, þa kollum vier ad hañs Hond sie stutt vordeñ, Og
ad hañ hafe forgleymt Myskunsamur ad vera, Jafnvel þoott vier i Guds Orde høfum
so morg Fyrerheit um̃ hañs Adstod i Mootlætenu. Pegar oss vantar hañs iñre Hug-
svolun, fiñum ecke til hañs Anda, ecke til Fyrergiefningar Syndaña, Oss þykia þær stær-
re vera, eñ ad þær kuñe so audvelldlega ad fyrergiefast, Pa eru vor Augu so halldeñ, ad
vier þeckium hañ ecke. Morg eru slijk Tilfelle fyrer þeim sem Gud elska, Og þarf þoei
ad kalla þad Tilfelle eins og Læresveinarner hier kolludu, Pvi þeir þecktu ei Guds Raad,
miña

minna hender hanns Born aan hanns Vilia, Helldur er þad Reynsla Trwarennar, Þegar Menn þykiast kallder i Bænenne, kallder i Ydranenne, Efast umm sijna Utvalningu, Vantreysta sier ad þeir faae stoduger staded allt til Enda. Þegar vier fordæmum oll vor Goodverk, Ef þau maa so kalla, og ætlum ad Gud mune ei taka þau fyrer Avexte Trwarennar, af þvi þau sieu so Ofullkomenn, þegar oss slijkt ad Hondum ber, Þa eru vor Augu so halldenn, ad vier þeckium hann ecke. Jaa, þegar ein almenneleg Synd verdur so stoor i þess Augum sem eckert villde Gude aa moote giora, ad hann ætlar hann mune vera sier Reidur, Eins og Læresveinarner er þeir hofdu gleymt ad taka Brauded med sier, Matth. 16. Þa þeckium vier JEsum ecke. Enn nær vier hofum þannenn yfergiefed siaalfa oss, þa opnar hann oss fyrst Ritningarnar: J Mootlætenu segier hann oss þad sama og Læresveinunum: Byriade Ei Christo Þetta Ad Lijda Og Jnngaanga So J Sijna Dijrd? Enn sa skal med honum lijda sem med honum skal Dijrdlegur verda, Rom. 8. Laate hann hinn Ogudlega vada uppe og hafa Yferhondena, þa skipar hann oss med David. Ps. 73. inn i Helgedoomenn, Þad er hanns Heilaga Ord og Ritningarnar, til ad skoda þar hvornenn hann breyter vid hinn Gudlausa, Ef vor Saala er Orooleg i oss med David, Ps. 42. Af einhvoriu þvi er eg strax upptalde edur odru þvilijku, Þa skipar hann oss ad bijda epter DRottne, Edur vier faaum ad heyra med Paulo: Laat þier nægia mijna Naad, minn Kraptur fullkomnast i Breiskum, 2. Cor. 12. Og þegar vier so hofum leitad ad honum i Ritningunum, Þa mun hann vera oss nalægur, Þa finnum vier hann, Þa blæs hnn ad Reista vorrar Trwar med sijnum Anda, So ad vier þeckium Pant vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Og efunst ecke umm Guds Vinaattu nie eilijft Lijf so leinge vier hann hofum, þa brennur vort Hiarta i oss, þar kviknar Elldur Elskunnar, Elldur Trwarennar, Elldur Kiærleikans, sem eru Guds Foorner i hanns Mustere, Sem er vort Hiarta. So er nu DRottenn JEsus nalægur ollum þeim sem aa hann trwa þott veiker sieu. Oumrædeleg var Giæska DRottenns, J þvi ad Opennbera sig Astvinum sijnum strax sem hann var upprisenn af Dauda, Hvorier hann þo aller hofdu yfergiefed og fraa honum flwed, Mat. th. 26. Nema hanns Mooder og Johannes med faam einum Kvinnum, er stoodu vid Krossenn, Joh. 19. Jaa, Petre sem honum hafde Prisvar afneitad, skipudu Einglarner sier i Lage ad boda hanns Upprisu, Marc. 16. Mariu Magdalenu, fraa hvorre hann hafde wtreked Sio Diofla, Luc. 8. Opennberade hann sig fyrst allra Manna, Joh. 20. An Efa, þvi hun hefur vered Sorgbitenn og Veiktrwud, Þvi epter Christo spurde hun so sem framlidnum Manne: Þeir hafa burt-teked HErrann minn, og eg veit ei hvar þeir hafa lagt hann. Og af Samtale DRottenns vid hana, maa hvad mest raada, hvorsu honum hefur vered umgiefed ad hugsvala þeirra Ormæddum Saalum. Snert þu mig ecke sagde hann, Þvi eg em enn nu ecke uppstijgenn til mijns Fodur, helldur far til Brædra minna og seig þeim, ad eg fer upp til mijns Fodur og ydvars Fodur, etc. Skilie eg þetta riett, Þa er su Meiningenn, Maria hefur viliad fagna honum sem Von var, og kreista aa honum, Enn hann liet sier so annt umm vera, ad hun flytte sijnum Brædrum strax þennann Fognud,

Þvi varnade hañ heñe þess, ad ecke skyllde hun tefia sig, Þvi eg em eñ nu ecke uppstijgeñ til mijns Fodur; Þier verdur noogur Tijme til ad tala vid mig, og þreifa a mier, þar til eg uppstijg, Far skyndelega og kuñgior mijnum Brædrum þessa Glede fyrst. Þesse hygg eg sie Meiningeñ i Ordum DRotteñs, Edur þvi skyllde hañ añars baña heñe ad snerta sig helldur eñ Thomæ og hinum Læresveinunum, Joh. 20. Eñ hvorneñ sem þessu er vared (eg læt hvorn eirn raada siñe Meiningu hier uñ) þa tek eg þetta til Dæmis uñ Fodurlega Glæsku DRotteñs og Medaumkun med þeim Trwarveiku, þeir hofdu yfergiefed hañ, hañ leitar ad þeim ad fyrra Bragde, Þeir mattu reiknast burthlaupner, Hañ kallar þa sijna Brædur, Joh. 20. Þesser Tveir sem geingu til Emaus, hofdu ecke nærre vered þegar hiner adrer feingu Bodskapeñ uñ þad ad DRotteñ hefde byrst Simoni, Þo vill hañ ecke ad þeir skule fara varhluta af þessare Blessan, helldur medtaka hana Samdægris og hañ uppreis, Eins og hiner, Hvar af þad maa sia, ad Trwarveikeñ kañ ecke ad hindra Nalægd Christi, helldur so sem good Mooder lætur sier mest uñhugad vera þad Barn sem Veikt er, so er og DRotteñ þeim nakvæmastur er i Trwñe hvad veikaster eru. Ein veik Trw er og Trw, Ein vanheil Hond tekur eins vel vid Olmusu og ein fullhrauft. Ein lijtel Trw er þo Trw; Eirn Vatns-Drope er somu Natturu og Siooreñ; Ein lijtel Perla er þo Perla; Eirn Neiste er og Elldur; Eitt Barn er so vel Mañeskia, sem eirn Fullordeñ, Dvergureñ eins vel og Riseñ. Doottir hiñar Canaanisku, Matth. 15. Og hiñ Tunglsiwke, Matth. 17. Bæde voru þau af Dioflenum plaagud, eñ eins hægt veitte DRottne ad lækna hañ, þott Fader hañs være Trwarveikur, so sem haña, þott Mooder heñar være Trwarsterk, og eins vel hialpade Drotteñ Konungs-Mañenum, Joh. 4. So sem Hundrads-Hofdinglanum, Matth. 8. Eñ hvad skulu þeir nu til Marks hafa uñ þad, sem Trwarveiker eru, ad þeir sieu i Trwñe; Hun er so lijkel a Stundum og Olioos, ad vier þeckium haña ecke þott hun sie iñe hia oss. Magdalena saa JEsum og talade vid hañ, Eñ þeckte hañ þo ecke, Joh. 20. Sama heñder og Guds Born, ad þau ei þeckia JEsum a Stundum, þoott hañ gange jafnfram þeim, Eins og þessum Læresveinum. Skodum þvi Dæme þeirra, og færum þad heim uppa oss, Þeir voru Sorgbitner; Hvar af? Þvi þa vantade JEsum. Siert þu og hryggur af þvi, ad þu fiñur ecke þiñ Lausnara i Hiarta þinu, þad er nær þu efast uñ Synda Fyrergiefning, Þa leita epter honum med Brwdeñe, er gietur uñ i Lofkvædenu, Cant. 5. Þu veitst ecke hvar þeir hafa lagt HErrañ þiñ eins og Maria, þa brwka þessa Sorg til ad lækna sialfa sig med. Holld og Blood vekur hana ecke, Þad Sorgar fyrer þvi sem Madureñ a ad eta og drecka, Eñ ecke fyrer Christo. Guds Anda Verk er hun i þier, Og er Christur þa ecke langt i burtu, Þvi hañ og Heilagur Ande eru Eitt, Og mun hañ koma i Leitena þegar minst Vonum varer.

Þesser Guds Viner voru ad tala uñ alla þa Hlute sem tilfalled hofdu, uñ Kraptaverk DRotteñs, þar þeir so du hañ hefde vered Spaadooms-Madur Mattugur i Ordum Og Verkum: Uñ hañs Pijnu, uñ hañs Upprisu sem lioost er af Gudspallenu:

enu: Haf og þetta til Merkis, sie þier inndællt ad tala umm Gud, umm hanns Dásemdar-Verk, Hanns Stoormerke, Hanns Velgiorninga, Hafer þu þijna Lyst i þessu og meiger giarnann heyra adra tala þar umm, Pa bijr Christur i þier. Enn hafer þu Leida a Guds Orde, Pyke þier umm allt annad meira Gaman ad tala, Ef þu venur Munn þinn til fwllrar Rædu, sieu skammarleg Ord og fiflslegt Hial þitt Epterlæte, Hallder þu Guds Dijrkun fyrer eckert, Pyke þier lijted koma til þess ad þioona honum, og metur hanns Umbun ei ad miklu, helldur forsmaaer þa er til hanns vona, Pa tak þier Vara, Pvi so sannarlega sem JEsus er þeim naalægur, sem laangar epter honum, Poott Veiktrwader sieu, So vissulega er hann þier horfenn, þoott einkis Meins þykest þu kienna, og fæst ecke aptur nema med heitre Bæn og sannre Ydran. Nu þoott þad sie heilnæmt og Gude þocknanlegt, ad tala umm alla DRottens Velgiorninga, Pa er þo eckert Huggunarsamlegra, enn ad tala umm hanns Dauda og Upprisu, So sem þesser giordu: Peir toludu i Faarfræde og Einfalldleika. Enn Gud giæfe, ad vier sem betur erum uppfrædder i þessare Himnesku Speke, helldur enn þeir voru i þad Sinn, Vier villdum þess helldur laata oss þessar Haaleitu Guds Dasemder til Hiarta gaanga, og oss i Nyt færa, Sem vier erum Sannfroodare hier umm. Eckert er þad i voru Saaluhiaapar Verke, ad Minning JEsu Kvala, Hanns Dauda og Upprisu kunne ecke ad wtrietta i þvi Hiarta sem yduglega þar umm hugsar. Pegar eg minnest a Synder mijnar, sem opt hafa stygt fraa mier Gud, hinn Ypparsta Gooda, og mier ecke so hitnar i Briooste, sem eg giarnann villde, Pa mætte þad koma Sudunne upp a Hiarta mijnu, ad Guds Sonur er fyrer mig Raanglaatann Saklaus kvalenn og deyddur, Rom. 5. Pykest eg i Bænenne kalldur vera, Pa mætte þad smellta Hiarta mitt, ad Guds Eingietenn Sonur sveittest Bloodenu, Er hann badst fyrer, Luc. 22. Under minne Synda-Byrde, og vard þo ecke Bænheyrdur, So hann giorde mijna Bæn kreptuga fyrer Gude, Poott hun sie veik. Hafe eg Oþocka a nockrum Manne, og giet ecke so fliott dreped þa Freistingu, þa hugsa eg til þess, ad DRottenn minn bad fyrer Ofertrodslu-Monnunum, þeim er hann kvolldu, Luc. 23. Og mun eg braadlega skammast mijn ad rækia þad Lijtilræde, Er minn Brooder mier til giorde. Elske eg Heimenn edur nockud þad sem i honum er, þa rekur hanns Elska þad braadlega wt, sem doo fyrer mijnar Synder, Pegar eg var hanns Ovinur, Rom. 5. So eg meige Eilijflega lifa ef eg forsmaae Heimenn, enn elska hann sem mig hefur so heitt elskad. Ofbioode mier Stærd minna Synda, Pa minner Heilagur Ande mig a, ad Gud er daaenn i mijnu Holldе, og hafe eg sied hann daaenn fyrer mijnar Synder, þa sie eg hann vel upprisenn mier til Riettlætis, Rom. 4. Lærесveinarner þecktu DRottenn i þvi hann braut Brauded; So þeckia og Christner Menn hann allra best, nær hann brijtur oss þad Helga Braud i Altaresins Sacramento, Sem ad er Meddeiling hanns Lijkama, og drecka þann Blessunarenar Kaleik er vier blessum, Sem og er Meddeiling hanns Bloods, 1. Cor. 10. Pa er hann oss hvad naalægastur, Pa siaaum vier hann hvad best med Augum Trwarennar, Pa þeckium vier hanns Guddoomlega Elsku, og skodum hanns Myskunar-Ydur algiorlega, ad hann ecke einasta

hefur

hefur giefed sitt Lijf i Daudañ fyrer oss og wthellt sijnu Bloode, helldur og fæder Saal-
er vorar a þvi hinu sama oss til Trwarstyrkingar uñ alla sijna Velgiorninga, Þar
kuñgiorum vier hañs Dauda, Þar skodum vier hañ uppriseñ, þvi læge hañ eñ þa i Grof-
eñe, Hvorneñ mætte hañ giefa oss sitt Holld ad eta edur sitt Blood ad drecka? Nu
hefe eg so nockud talad uñ, hvorneñ vier eigum ad skicka oss so JEsus vilie oss nalægiast.
Epterfylgér ad miñast a med faaum Ordum, hvorneñ vier eigum ad hallda honum, so
vier missum hañ ecke.

Þad er ecke miña verdt ad giæta feingens Fiaar, eñ afla þess, Og þad maa seg-
ia uñ JEsum; Margur hefur ad soñu feinged hañ Einusiñe iñ til sijn, Er þo hef-
ur mist hañ sijdañ, og sumer alldrei aptur feinged. Judas sellde hañ eitt Siñ fyrer
Agyrndar Saker, Luc. 22. Og miste hañs so ad Eilijfu, hañ mun sier marga Stall-
Brædur i Heimenum eiga. Petur miste hañ og, Eñ fieck hañ þo aptur med beiskum
Graate, Matth. 26. Þvi er þad vlijst hier af, ad Meñ kuña ad missa JEsum, þott Meñ
hafe eitt Siñ noted hañs Nalægdar. Þar fyrer bañar Paulus og ad hryggia Heilag
añ Anda, Eph. 4. Jaa, hañ segier: Vier skulum ei slockva Andañ, 1. Tess. 5. So-
mu Atburde skal til þess hafa ad soñu ad hallda JEsu, so sem ad lada hañ ad sier i Fyrst-
uñe, Hvorugt gieta Meñ aan Guds Anda, Þvi eingeñ kañ JEsum DRotteñ ad nefna
fyrer utañ hañ segier Paulus, 1. Cor. 12. Eñ ad mootstanda ecke Heilogum Anda,
þad er i Mañsins Vallde, Sierdeilis þess sem Endurfæddur er med Vatne og Anda.
Eg vil ei Itreka þad aptur sem adur er sagt, uñ þad ad niota JEsu Nalægdar; Eñ
eitt sie eg hier i Fare Læresveinaña, sem batt hañ svo, ad hañ gieck iñ og var hia þeim:
Hañ Liet Sem Hañ Villde Leingra Gaanga; Eñ Þeir Neyddu Hañ Og Sogdu:
Vert Hia Oss HErra, Þviad Kvollda Tekur Og A Dageñ Lijdur. Hvilijk ad ha-
fe vered Naudung þesse, er audsied hier af, þad var ein audmiwk Bæn; Soddañ Of-
rijke hefur DRotteñ opt lided; So neydde hañ Konungs Madureñ, Joh. 4. So
neydde hañ hin Canaaniska, Matth. 15. So neydde Abraham Gud, Er hañ bad
fyrer Sodomitum, Gen. 18. So neydde Moyses hañ, Er honum tookst ecke añad
eñ Myskuna Israel; So neydde Jacob hañ, Er hañ sagde: Eg sleppe þier ecke, Fyrr
eñ þu blessar mig, Gen. 32.

JEsus lætur opt sem vilie hañ leingra gaanga, þegar hañ leggur oss siñ Kross a
Herdar, Eñ vier siaaum ecke ad hañ er oss nalægur, So sem adur er sagt: Þegar vor
Eyrende luckast ecke, sem vier þo rekum i hañs Nafne, fyrer Mañaña Ofbelldis Sak-
er, Eñ vier þeckium ecke hañs Tilgaang. Hvad skal þa hier til giora? Eigum vier þa
ad sleppa honum, og leita Raads hia Heimenum? Fiærre sie þvi, Hvad þa? Giör-
um eins og þesser giordu? Neydum hañ med audmiwkre Bæn og Andvorpunum, ad
hañ vilie hia oss vera. Eingum af oss hefur þvilijk Sorg tilfalled, sem þessum Guds
Vinum, Þeir hofdu mist hañ, sem þeir hofdu allt sitt Traust a, fyrer hvorn þeir Kañ-
ske hofdu yfergiefed alla Hlute, Eins og Petur sagde uñ þa Toolf, Matth. 19. Þeir
vortu

voru epter i Hers-Hondum, og þordu valla ad siaa uppaa nockurn Mañ, þar aller vissu ad þeir hofdu vered hañs Læresveinar, Er so Miinkunarsamlega var wtleikeñ fyrer Skomu, og hvorsu uggvænt þeim vered hafe, þad siiner oss bæde Dæme þeirra er forlietu hañ i Grasgardenum, og St. Peturs, er Otteñ þreingde honum til ad kañast ecke vid hañ, Fyrer hvorn hañ þo skomu aadur villde Liifsed laata, Matth. 26. Sem og þad, ad þeir lokudu Dyrunum ad sier, Fyrer Hrædslu Saker Vid Gydinga, Joh. 20. Samt neyddu þeir þeñañ Framande Mañ, (þvi ei vissu þeir þa añars) til ad vera hiaa sier: Hvarfyrer? Af þvi hañ talade um̃ JEsum, Og opnade fyrer þeim Ritningarnar, So þeirra Hiarta brañ i þeim. Þessum Mañe villdu þeir ecke fyrer hvorn Mun sleppa. Eñ þu Guds Barn, sem þecker JEsum og veist hañ uppriseñ og setstañ til Kraptarens Hægre Handar, ad hañ bidie fyrer þier, Rom. 8. Villt þu ei taka þetta sama Raad, Þegar þier siinest hañ vilie fram̃ hiaa þier gaanga? O Jþ Guds Barn, Fædurlegt Hiarta hefur Gud: Þañ er hægt ad locka, Er siaalfur vill dansa, Þu tekur alldrei so feigens Hende vid Guds Naadar Hugsvolun, nær þig laangar epter DRottne aa Þurrlendenu eins og David, ad hañ sie ecke liwfare til ad veita þier hana. Þegar Alexander hiñ stoore hafde lagst um̃ Borgena Tyrum med siinum Her-Flockum, þa skrifar Plutarchus, ad suma af Bæar-Moñum hafe dreymt, ad Goden villdu flytia wr Borgeñe og i Herbwder Konungs, Eñ þeir bundu þau med Hleckium, ad ei kylldu þau i burtu komast. O! Hvorsu miked hofum vier Christner Meñ Gude ad þacka. Graatlegt er til þess ad vita, hvorneñ Andskoteñ hefur blindad Vantrwareñar Born. Vesælings Guder voru þad og aumur Atrwnadur, ad trwa aa þañ sem þeir ætludu ad þeir mundu faa til Faanga teked, Eñ DRotteñ JEsus hefur feinged oss adra Feste til ad binda sig med, Þad er hañs eigeñ Bæn, Hvor ed ritud stendur hiaa Lucam i 11. Cap. og Matth. 6. Og skomu siidar i sama Capitula kieñer hañ oss, Hvorneñ vier skulum leggia þesse Bond aa sig, med þessum Ordum: Bidied og mun ydur giefast, Leited, og munud þier fiña, Knyed aa, og mun fyrer ydur uppluked verda. Og eñ þa framar kieñer hañ oss, Hvorsu ad þesse Feste sie sterk og Obilande, Er hañ segier: Þvi hvor sem bidur, hañ skal medtaka, og hvor sem leitar, hañ skal fiña, og hvor sem ad aakniir, fyrer honum skal uppluked verda, Eñ med þessu hefur hañ siint, ad oss ecke einasta byriade Oaflaatanlega ad bidla, svo sem Lucas vottar, 18. Cap. Helldur heitt og aakaflega, Eins og DRotteñ i Grasgardenum, Luc. 22. Eins og Tertullianus skrifar um̃ Christna a siinum Dogum, ad þeir kome samañ i Eitt, og med nockurskonar Fylkingu og Athlaupe take Gud til Faanga. O! hvad Oliik er þesse kallda Verolld sliiku. Meñ hyggia þad sie noog, ad falla a Knien og hallda Klwtunum fyrer Auguñ, og murra þar eitthvad er þeir ei siaalfer skilia, Eins og Esajas skrifar um̃ Phitons Andañ, og þa sem fooru til Frietta vid hina Daudu, Esa. 8. Er þetta Samneyte Heilagra? Er þetta hin sañа Christelega Kyrkia? Mun nockud Andeñ bidia fyrer þeim med Oumrædelegum Andvorpunum? O! vei, Sañlega segie eg ydur, ad betra er alldrei ad bidia, Þvi

 þeirra

þeirra Bæn verdur ad Synd, Ps. 109. Og þeirra Guds Þioonusta ad Offre hiñs
Faavijsa, Ecc. 5. Þessara Læresveina Hiarta brañ i þeim aadur eñ þeir neyddu hañ
med sier iñ ad gaanga. Siaa og til Christeñ Madur, ad þu a einhvorn Haatt faaer smellt
þitt Hiarta, aadur eñ þu krijpur fram̃ fyrer Guds Haatign i þijnum Bænastad: Þad
er hægt ad giora i Kyrkiuñe under hañs Orda Heyrn, Ef þad er riett Predikad, og þu
liær þvi Eyruñ, og þar fyrer utañ, Strax sem þu Augunum upplijkur aa Morgna, Þa
Jhuga hañs Giæsku og þijna Jllsku, hañs Tign og þiñ Overdugleik, hañs Velgiorn-
inga og Vernd yfer þier, og þitt Hyrduleyse og Vanþacklæte, og nær þu hefur so giort
um̃ Hrijd, Þa gack til Bænareñar, og bid Andañ ad bidia med þier, þvi þu viter ei hvors
þu aatt ad bidia, Rom. 8. Brwka somu Atferd aa Kvølldum, og laat þessa Þanka
svæfa þig, Þa er þad vijst, ad þu verdur aa einhvorn Haatt Bænheyrdur, Act. 7. Moy-
ses var eitt fagurt Barn Alits, sem Ritningeñ segier, Hañ predikade so vel fyrer Dott-
ur Pharaonis med Barns-Graatnum er hañ laa i Reyr-Kistlenum, ad hun komst
vid i sijnu Hiarta, og saa Aumur aa honum, Exod. 2. Myklu fegre mun saa vera i Gu-
ds Auglite, sem med JEsu Bloode er aadreifdur. O! hvorneñ munu hans Myskun-
ar-Ydur saar leinat sier nær hañ heyrer þeirra Graat, og sier þeirra Taar sem wt eru hellt
i hid rauda Haf Guds Eingietens Sonar dijrmæta Bloods, Hvort miklu betur kall-
ar eñ Abels Blood, Heb. 12. Þar fyrer mijner Elskuleger, Gleymed ecke ad bidia jd-
uglega og alvarlega um̃ Naavist JEsu: Slepped honum ecke fyrr eñ hañ blessar ydur til
fulls. Þegar honum er tapad, Þa er øllu Tapad, Medañ þier honum fast hallded,
Þa er øllu hallded, Þoott þier missed alla Hlute, og jafnvel, sialft Lijfed, þa erud þier jafn-
rijker, Þegar þier eiged hañ sem allt Valld er giefed bæde aa Himne og aa Jordu, Mat-
th. 28. Og hafe þar nockurn Tijma vered Þorf aa ad neyda JEsum til ad gaanga iñ
til sijn, og vera hiaa sier, þa er þad aa þessum sijdurstu og verstu Døgum. Vert Þu Hiaa
Oss HErra, Þviad Kvøllda Tekur Og A Dageñ Lijdur, Søgdu þesser Guds Meñ.
Þad maa kalla, ad alla reidu take miøg so til ad Kvøllda i Heimenum: Myrkur Raang-
lætesins taka til ad byrgia fyrer oss Sool Riettlætesins, Hin saña Guds Þecking og
Skilningur aa hañs H. Orde, er um̃snweñ i Kapprædur og Þraattaner. Þeir sem ei-
ga ad hafa Lykel Vitskuñar, stunda þad mest hvorneñ þeir meige flækia adra i Spurn-
ingum, þeim er þeir ecke sialfer skilia, Og þykiast mikler Meñ, Þegar þeir vel Muñhogg-
vast, Eñ hiñe soñu Þeckingu Guds og hañs Lærdooms sleppa Meñ nu um̃ Stunder, og
þad verdur þvi ad nockru Leite, ad Lijferned er øngvañveigeñ so sem Christnum soomer,
þar Meñ laata Guds Rike vera soolged i Ordum einum. Meñ hafa Skyn Gudhræd-
sluñar eñ afneita heñar Krapte, 2. Tim. 3. So varla er ad fiña Trw aa Jordu, Luc. 18.
Eg meina þa Trw sem verke fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. So þad er stoor Naudsyn øll-
um Guds Børnum, ad neyda Christum ad vera hiaa sier, Þar allt teiknar til þess, ad
Dagur DRottens mune ei laangt i burtu vera, Og þott ei være, þa veit eg ecke nema þad
Augnablik sem eg life aa, sie Kvølld miña Lijfdaga, Þvi vil eg JEsu hallda og honum ecke
sleppa,

sleppa, So nær sem eg dey, þa deye eg med Lausnara miñ i Fadmenum, og ad hvørt sem eg life edur dey, Pa sie eg hañs, Rom. 14. Slepp þu mier, sagde hañ Fordum vid Jacob, þviad nu Dagar, Gen. 32. Miñ HErra, Eg vil ecke sleppa þier, þviad nu Kvølldar; Eg sleppe þier ecke fyrr eñ þu blessar mig, Þvi eg veit ecke nær eñ Myrkur Daudans byrger mijn Augu. Notteñ er umliden, eñ Dagureñ tekur ad nalgast sagde Paall at sijnum Døgum, Rom. 13. Pad var og satt, Þviad þa var Sool Riettlætsins, so ad segia, Nijlega uppruñeñ, og skein fagurt i Heimenum leinge fram epter Ölldunum. Eñ nu ætla eg ad þessu meige umhverfa, Og segia: Dagureñ er hartnær umliden, eñ Notteñ er i Nand. Vert þvi hia oss HErra, þviad Kvollda tekur og a Dageñ lijdur. Ja; O! HErra JEsu Christe, Þegar dregur ad Rockre Æfe vorrar, og vor Augu taka til ad formyrkvast i Daudanum, so þau sia ecke leingur; Vert þu þa hia oss þegar aller hafa forlaated oss, og vier sialfer høfum yfergiefed oss, Eñ varpad Saalu og Lijfe i þiñ Myskunar-Fadm, Lat oss þa leggia vora Trwar-Hond i þijna Sijdu, og heñar Fijngur i Naglaføreñ, og gief ad vier þa sieum Trwader og ecke Vantrwader. Upplijk þa vorum Saalar-Augum, ad vier þeckium þig oss af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og til eilijfrar Saaluhialpar. Bænheyr þad goode JEsu, fyrer þitt Blood og Forþienustu, Amen, J JEsu Nafne, Amen.

# Þridia Dag Paaska.

Gudspialled, Luc. 24. Cap.

A Þañ Tijma. Þa Læresveinarner voru nu eñ ad tala um þetta, Stood sialfur JEsus midt i mille þeirra, Og sagde til þeirra: Fridur sie med ydur. Eñ þeir skielfdust og urdu hræddder, og meintu ad þeir sæe Anda nockurn. Og hañ sagde til þeirra: Hvar fyrer skielfest þier, og þvi koma slijker Þanckar i ydar Hiortu? Siaed mijnar Hendur og mijna Fætur, Ad eg em þetta sialfur. Þreifed a mier og skoded, Þviad Ande hefur ei Hold og Bein, So sem þier siaed mig hafa. Og þa hañ sagde þad, Sijnde hañ þeim Hendur og Fætur. Og er þeir trwdu eñ eige fyrer Fagnadar Saker, og undrande þad, Þa sagde hañ til þeirra: Hafe þier hier nockud Matarlegt: Og þeir løgdu fyrer hañ Stycke af Steiktum Fiske, og Huñangs Seim, Og hañ took þad og aat fyrer þeirra Augum. Og hañ sagde til þeirra: Þetta eru þau Ord, Hvør eg talade til ydar, Þa eg var eñ nu hia ydur, Þviad þad hlaut allt ad fullkomnast sem af mier er skrifad i Moysis Løgmaale og i Spamañaña Bookum og Psalmum. Þa opnade hañ þeirra Hugskot, So ad þeir skildu Ritningarnar;

nar, Og sagde til þeirra: So er þad skrifad, og svo byriade Christo ad lijda, Og upp ad rijsa aa Þridia Deige fraa Daudum, Og predikast laata i sijnu Nafne, Ydran og Fyrergiefning Syndaña aa medal allra Þiooda, Upphefiande i Jerusalem. Eñ þier erud Vottar allra þessara Hluta.

## Exordium.

FRidur aa Jordu og Moñum goodur Vilie, Swngu Einglaarner Fordum, Þegar Mañkynsins Endurlausnare var i Heimeñ boreñ, Luc. 2. Þa maattu þeir Himnesku Andar lijsa þessu Fridar Bode i Umbode sijns HErra, Þar hañ laa eitt Omaalga Barn i Stallenum, Og aatte þo margt epter Ogiort, Sem ad þurfte til ad semia þeñañ Frid mille Guds og Maña. Eñ nu, Þar hañ fyrer Krossens Dauda hafde afmaad allañ Ovinskap sem hañs Utvalda maatte fraa Eilijfum Fride hindra, þa lijser hañ sialfur þessum Fride yfer sijnum Elskulegum Læresveinum, Hvorier ad sijdañ fooru med þetta Fridar Bod wt um allañ Heimeñ epter hañs Skipan. Eñ fyrer þvi, ad vier erum og þessa Fridar-Bods Hluttakande vordner, Þa vilium vier af Gudspiallenu Hugleida. 1. Hvilijkur ad sie þesse Fridur. 2. Hvorneñ vier eigum honum ad taka. Þar til hiaalpe oss hiñ goode Gud, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HVilijkur ad þesse Fridur sie, Brædur mijner, Þad siaa Meñ, nær Meñ athuga hvilijk ad var Sekt Mañkynsins, Er þad styggt hafde hiñ Almaattuga Gud. Er Fridur Jehu? Sagde Fordum Joram Israels Konungur, Er hañ mætte honum aa Veigenum, Eñ Jehu svarade: Hvad gillder þig um Frid? Þar Hoordoomar og Tofrar Moodur þiñar vara eñ nu, 2. Reg. 9. Ad vijsu er þad satt, ad vor Fyrsta Moder hafde ecke þær Skamer adhafst sem Jessabel, eñ þo maa ecke þvi neita, ad af heñar Fyrstu Synd, eru komnar allar þær Synder, Er i Heimenum hafa sijdañ drygdar vered. Þeirra Sekt varde allt til þess ad vor Fridar Hofdinge neglde þa Handskriftena aa Tried, sem i giegn oss var, under eins og hañs Blessudu Hendur og Fætur voru aa Kross eñ negldar. Þar var eingeñ riettkalladur Fridur aadur fyrer syndugt Mañkyn, Jafnvel þoott ad Synden være allt þaangad til under Guds Poleñmæde, Rom. 3. Noe bygde DRottne eitt Altare, epter þad hañ var frelsadur af Vatns-Floodenu og Foornfærde þar aa allra Handa hreinum Dijrum, So ad Gud lyktade eirn Sætleiks Ilm og lijste Fride yfer Mañkynenu, Segiande: Ecke vil eg framar bolva Jorduñe fyrer Mañsins Saker, Gen. 8. Þesse Fridur naade þo ecke nema til Lijkamlegs Frelsis, Eñ þa voru Saalernar Okvittar vid Gud, Nema hañ hefde viriad vor uppruneñ af Hædum i sijnum Myskunar Ydrum med Sendingu sijns Eingietens Sonar i vort Holld, Þegar þad Saklausa Guds Lamb var aa Krossenum Foornfært fyrer allar Veralldareñar Synder,

er, Med hvøriu ad bæde Noa og allar adrar Gamla Testamentesins Foorner eru helgadar og fullkomnadar, þa lyktade Gud til fulls eirn Sætleiks Ilm. Og þegar hañ hafde hiaalpad honum wt af Daudanum, sem Paulus segier, Hebr. 5. wt af þvi Reideñar Floode sem gieck iñ ad hañs Saalu i Kvøleñe, þa hefur þesse mikla Hetia, ad uppleystum Daudans Fiøtrum med øllum Riette lijst þessum Fride yfer sijnum Brædrum. Þegar Brædur Josephs høfdu funded Fied i Seckiunum, er þeir ecke aattu Von a, þa urdu þeir Ottaslegner, so þeir vissu ecke hvad þeir skylldu til Raads taka, Gen. 43. Þa sagde Raads Madur hañs til þeirra: Fridur sie med ydur, Ottest þier ecke, Ydar Gud og ydar Fødurs Gud hefur sendt Fied i ydar Sioodu. Þeir høfdu i þad Siñ eckert Illt giørt, Samt Ottudust þeir og meintu sier munde kient verda um̃ þessa Varmeñsku. Eñ hvad hafde syndugt Mañkyn i moote Gude giørt? Þad hafde rænt hañ sijnum Heidre, þad hafde Lijflaated hañs Eingieteñ Son med sijnum Illgiørdum, og ofañ aa allt þetta ecke þeckte meir siñ Vitiunar-Tijma, Luc. 19. Helldur eñ Jacobs Syner vissu hvørneñ Fied var apturkomed i Secke þeirra. Veralldleger Høfdingiar, er þeir giøra Frid vid añañ, þa stadfesta þeir hañ med Brefum og Ritningum, edur og seliast Gisla aa. Þess þurfte ei hier af vorre Hende, Þvi vier aattum vid þañ eirn ad skipta, sem øngva Vissu þurfte af vorre Alfu og aa alls Koste vid oss, Ef vier ecke hølldum hañs Fridar Saattmaal. Eñ so hañ tæke allañ Efa fraa sijnum Læresveinum um̃ þetta Fridar-Bod, Þa sijner hañ þeim þad, sem øllu sterkara og Obrigdulla var eñ nockurs Konungs Hønd edur Iñsigle, Er hañ sijnde þeim sijnar Hendur og Fætur. Gledelegt var þetta Fridar Bod Læresveinunum, Br. M. Eñ ecke høfum vier miña þeiged i þvi, Hvørra Fedur voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Hvilijkur er hñ sem vier høfdum flwed fraa, Jaa, fraa hvørium vier Daglega flijum, og briootum hañs Naad af oss med Syndunum? Þad er Konungur Himens og Jardar, DRotteñ sterkur Vandlætare, vitiande Raanglætis Fedraña a Sonunum i Þridiu og Fioordu Ættkvijsl, Exod. 20. Jaa, munde vitiad hafa i Þusund Lidu allt til Enda Veralldar, Nema ad vier Riettlætter fyrer Trwna høfdum Frid vid Gud fyrer DRotteñ vorn JEsum Christum, Rom. 5. Nu er þad vijst, ad Syndeñ reiknast so stoor sem hañ er til, sem hun er aa moote giørd. Eñ um̃ Guds Haatign er kuñugra, eñ fraa þurfe ad segia. O Guds Barn! Hvilijk Glede er þad þa ad hafa Frid feinged vid svoddañ Konung, Og svoddañ eirn Frid, sem alldrei um̃ Æfe maa riwfast, Nema hañ af oss rofeñ verde, Hvar fyrer þvi er ecke ad gleyma, ad skøm̃u aadur eñ DRotteñ fieck Læresveinunum i Hendur Lykla-Vallded til ad fyrergiefa og apturhallda Syndunum, þa lijste hañ Fride yfer þeim, Joh. 20. Þar fyrer nær þesse Fridur til allra þeirra sem taka Kvittun Synda siña af Gude fyrer hañs Raads-Maña Þioonustu. Hun er eitt Aflaatz-Brief sem Christur underskrifar med þeirra Hende aa Høfud allra Riett-Trwadra, Eñ iñsiglar þad sialfur i þeirra Hiarta med Heiløgum Anda, Hvad er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þess gietur Paulus, 2. Cor. 5. Segiande Gud hefur i Christo sætt Heimeñ vid sialfañ sig, Tilreiknande þeim ecke þeirra Yfer-

trodslur, og leggiande oss uppaa ad boda Forlijkun þessa. Þvi hvors Synder kvittar eru, hañ hefur Frid vid Gud, Frid vid hañs Logmaal, og Frid vid Samvitskuna. O! hvorsu fagrer eru þa Fætur þeirra sem Frideñ boda, Esa. 52. Og hvad kuñe gledelegra þeim ad bodast, Er saatu i Myrkrunum eñ þesse Fridur, Nah. 1. So vier meigum þvi fagna er Zach. skrifar Cap. 9. Hañ mun fyrer Testamentesins Blood wtleida hina Bundnu af þeirre Grifiuñe, Hvar eckert Vatn var iñe, og boda Heidingiunum Frideñ. Og hefur hin eilijfa Giædska ecke laated þar med bwed, ad hañ hefur giefed oss Syndernar kvittar, og giort Frid vid oss i sijnum Syne. Pad dijra Giallð sem hin Eilijfa Haatign lauk i voru Hollde aa Krossenum, maatte eñ þa meire Blessan, meire Sælu, og meire Fognud afreka, Pad var, ad hañ sette oss i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Hvort ad ecke er Matur nie Dryckur, Helldur Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, Rom. 14. Þegar Veralldleger Hofdingiar giefa einhvorium Grid, þa þykiast þeir vel giora ef þeir laata hañ hallda Lijfe og Lands-Vist. David gaf Simei Lijf, 2. Sam. 16. Og þootte vel giort wr þvi sem raada var. Salomon gaf honum Lands-Vist, Þo med þvi Moote, ad hañ fære ecke wt af Jerusalem, 1. Reg. 2. Josua gaf Gibeonitunum Frid, og þad til ad hallda Loford sitt er hañ villde ecke bregda, og lagde hañ þeim þo nockurskonar Prældoom uppaa, ad hoggva Trie og bera Vatn til Þioonustugiordareñar, Jos. 9. Eñ hvad er Gud skylldugur ad hallda vid oss Meñena sem Daglega briootum þañ Eid er vier uñum honum i Skijrneñe, Nær hañ trwlofade oss sijnum Syne fyrer hañs Blood med Heilogum Anda. Jaa, Hvad opt hofum vier rofed þad Heit, Er vier so tijdt hofum giort honum i Skriptar-Stoolnum, ad aflaata og siaa vid Syndunum. Og samt hefur hañ ecke einasta uppgiefed oss, og Daglega uppgiefur ollum þeim, Sem vid hañ Fridmælast, alla Skulldena, og þau morg Tiju Þusund Punda, Er vier so tijdt verdum honum skylldugir, Matth. 18. Helldur lofar oss Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, fyrer Muñ sijns Þienara St. Paals, 2 Cor. 4. Ollum þeim sem bera vilia hid saeta Ok Christi, og hañs liettu Byrde. Jaa, ollum þeim ed sier til hañs snwa vilia fraa sijnu illu Athæfe og vondre Breitne, allt fram under Daudastundena. Hvilijkur er þa þesse Fridur? Edur hvor fær hañ nooglega prijsad. Ecke hefur DRotteñ heited sijnum Bornum Veralldareñar Fride, Miklu helldur segier hañ þeir skule hafa Angist i Heimenum, Joh. 16. Eñ þvi hefur hañ lofad ad þeir skylldu hafa Frid i sier, Joh. 15. Jaa, þañ Frid sem Verolldeñ kañ ei ad giefa, Og þañ Frid sem eingeñ kañ af oss ad taka, Joh. 16. So leinge vier hofum Frid vid hañ, sem oss þeñañ Frid alleina giefed hefur og giefa kañ, eñ eingeñ añar. Þar verdur alldrei so tryggelega bwed uñ nockra Veralldareñar Saatt edur Fridar Giorning, ad Meñ kuñe ad segia ad hañ skule leinge stadfastur vera. Hañ kañ ad vara i Tveggia Konunga Tijd þeirra a mille, medañ þeir lifa baader, Og þo ecke alltijd. Hvad leinge hielldst Sætteñ aa mille Syrlands og Samariam, Er Achab og Benhadad giordu, 1. Reg. 20. Hvorsu vel efnde Ptolomeus þad hañ heited hafde Doottur-Mañe sijnum Alexandro, Edur Rom-

verjar

berlar Gydingum, 1. Macca. 10. og 11. Eñ uppaa hañ Frid maa reida sig, Er Gud heiter oss syndugum Moñum, Þar er alldrei Lijge fundeñ i hañs Muñe. Eckert er tijd-ara eñ þad i Heimenum, ad þegar Tveir hafa Osaatter vered, Og þeir laatast þo sættast heilum Saattum og jafnvel sveriast Eida aa, ad sa bregdur af er sijdañ fær Vallded meira, Og fiñur sier allt til Ordsaka helldur eñ ad hañ ecke hefne sijns Vansa, Sierdeilis ef hañ þykest hafa vorded under i Sætteñe, þvi er þesse Maals-Haattur Heimsins: Vakta þig fyrer þeim Vin er þu hefur sæst vid. Eñ þetta er ecke ad Ottast hiaa Gude, oll hañs Verk eru Mystun og Sañleike, Ps. 25. Hañ er trwr, Sialfum sier kañ hañ ecke ad neita, 2. Tim. 2. Nema ef vier vilium kalla það Brygdmælge, ad þær Hefnder koma ecke strax yfer vonð ar Giörder sem hañ hefur hootad þeim, Eñ vier bregdum Daglega af, Og ecke gietum vier um eitt Augnablik hallded vor Sære, Þo hefur hañ ecke twiskwfad oss, Ecke hefur hañ eñ nu broted hañ Frid vid oss, Sem hañ giort hefur vid aumt Mañkyn fyrer sijns Sonar Dauda, Rom. 8. Jafnvel þott þad jaata meige, ad aa þessum Tijmum hafe allt Holld fordiarfad siñ Veg, Ei sijdur eñ aa Dögum Noa, Gen. 6. Svo Meñ kuña ongva Ordsok til þess ad færa, Ad hiñ stræinge og Riettlaate Doomare, ecke kollsteipe þessare vantrwdu Verolld, Nema þa, ad hañ er Gud og ecke Madur, Hos. 11. Þetta munu Ofgar þykia er eg tala, Eñ giætum ad, hvorsu fleire Mañeskiur þar eru nu i Heimenum eñ aa Dögum Noa, hvorsu lijtell ad er Christeñdoom ureñ hiaa Heidingiunum; Hvad faaer af Christeñdoomenum sem jaata þa riettu Trw, og hvad faaer af þeim sem hana jaata, er færa verduga Avoxtu heñe. Hvorneñ aa þessu stendur, veit Gud eirn, Þad er ei Moñunum uñt ad vita. Verda maa ad þar sieu fleire Guds Börn eñ Meñ hyggia, Þvi Elias visse jafnvel ecke ad þar voru so morg Þusund i Israels Rijke, sem ecke hofdu beygt sijn Knie fyrer Baal, 1. Reg. 19. Eñ ættu Meñ ept er ytra Alite edur Mañlegre Skynseme ad dæma, þa kyñe einhvor ad vijsu ad ætla, ad i Holld þessare mundu ecke ollu fleire vera Riettlaater, epter þvi sem Tala reñur til, helldur eñ fyrer Flooded. Þetta skrifa eg alleina til þess ad Meñ þecke Guds Oumrædelega Giædsku og Trwfeste, ad hañ helldur vid oss eñ nu i Dag þad Saattmaal er hañ giorde vid Noa. Hvad miklu framar mun hañ þa hallda þa Saatt er hañ giort hefur vid sijna Utvallda i Christo. Þess er og ad giæta, Brædur mijner, ad þott vier giorum Frid vid Meñena, sem oss Volldugre, Gofugre, og Sterkare eru, þa er ecke trwtt um ad þeir kuñe ad duga oss þott þeir villdu, nær adrer þeim sterkare rijsa aa moote oss, Þvi allt Holld er Hey, segier Rodd Hroopandans, Es. 40. Lijted gagnade þad Juda og Ephraim, ad þeir sendu til Konungsins af Assyria og Egyptalande, þvi DRotteñ sagde: Hañ skal ecke kuña ad græda ydur, og ecke ad lækna ydar Saar, þvi eg em so sem grimt Leon aa moote Ephraim, og so sem ungt Leon a moote Juda, Os. 6. Soddañ Munur er nu aa þeim Fride sem Verollden giefur, og þeim er Gud giefur: Sieu þeir so Maattuger, so Vinsterker, so Frændmarger sem þeir vera vilia; Eg aa eirn Vin sem alldrei skal bregdast; Eg em Hañs, Og Hañ er miñ, Cant. 6. Hañ er megnugur um ad setia Krook i Zenacheribs

nacheribs Naser, Es. 37. Hañ gietur dreckt Pharao og hañs Vagnum, og Reid-Moñum, Exod. 14. Hañ kañ ad slaa Jeroboams Her, þott hañ hafe umkrijngt Abiam. 2. Par. 13. Og þockneſt honum ad laata vonda Meñ hafa Yfer-Hondena, þa vil eg segia med David. Giøre hañ vid mig hvad Gott er, i hañs Auglite, 2. Sam. 15. Þad næger mier, ad eg hefe Frid vid hañ sem er Gud Fridarens, 2. Cor. 13. Hañ giefur mier Frid i Offsooknunum, Rijkdoom i Armoodnum, Virdingu i Forsmaaneñe, Heilbrygde i Siwkdoomenum, Sadning i Hwngrenu, Glede i Sorgeñe. Þad næger mier ad hañ er miñ Vinur, Þegar aller mijner Viner hafa mig yfergiefed.

Segied mier, hvad vill Verollden giora þeim er Gud hefur giort so Lynda? Ecke meir eñ eitt Barn einum Risa, edur Skollahvelpureñ Leonenu. Ef eg er i Lande einhvorstu, þar sem Herskaatt er, Eñ veit þo ad þar er Fridur i mijnu Lande, hvar eg hefe Bw mitt, mijna Vine og Frændur og allañ Lijkamlegañ Varnad, þa er eg þo betur til Frids þoott eg sie medal Ovina staddur, eg er ei nema ein Mañeskia, og vil segia med Spekingnum; Eg ber allt mitt med mier, Eg vil aa einhvorn Haatt siaa til hvorneñ eg Lijfs affkomeſt og naae mijnu Fodur-Lande. Guds Born eru ad ſoñu i Hers-Hondum, i Utlegd þessare, Eñ þeirra Umgeingne og þeirra Borgar-Riettur er aa Himnum, Phil. 3. Allt hvad þau hafa i Verolldeñe, Þad er ecke þeirra, Gud gaf þad ad soñu þeim til Brwkunar og Medferdar, Eñ þau hafa ecke fest Hiarta sitt þar vid, helldur hafa þau þad Gude aptur giefed, Eru þad Gots edur Gardar, Metord og Virdingar, Gull edur Silfur, Þad er ecke þeirra eiged, Þad er Christs Fie allt samañ, og jafnvel sialft Lijfed, Eñ þeirra Fasta-Eign er aa Lande Lifande Maña. Eg vil siaa til hvorneñ eg kuñe ad naa þaangad Lijfs, hvar eingeñ skal Lijfed fraa mier taka, hvad mier alldrei mun bregdast, so leinge sem eg hefe Frid vid hañ, sem er Fridarens Gud, sem er Lijffsens Hofdinge, Act. 3. JEsus Christus, hvør ed daudur var, og siaa hañ lifer, Apoc. 1. So leinge Eg veit miñ Endurlausnare lifer, So Ottast eg eckert Strijd, Honum er ecke uñ Megn ad Leidsegia mier i giegnum miña Fiandmaña Hendur, Jaa, J giegnum sialfañ Daudañ iñ til Lijffsins, og ad laata mig lifa þott eg deye, Þvi hvort eg life edur dey, þa er eg þo hañs, Rom. 14. Þvi vil eg segia: Daude, hvar er þiñ Broddur, Helvijte, hvar er þiñ Sigur? 1. Cor. 15. Gud er saa sem oss hefur Sigureñ giefed fyrer DRotteñ vorn JEsum Christum; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad eilijfu, Amen. Og er nu þetta sagt þar uñ, hvilijkur ad þesse Fridur sie, Epterfylger ad tala uñ, Hvorneñ vier eigum honum ad taka.

Þad er ecke noog, Guds Born, ad þyggia Grid af einum Konunge, nema Meñ halldeþau. Zedechias Konungur took Grid af Nebuchadnezar, hvør ed gaf honum Konungs Rijke i Juda epter Frænda siñ Joachim, 2. Reg. 24. Eñ hañ giorde Uppreist aa moote honum og hiellt ecke Saattena, Hvar fyrer hañ took hañ faangeñ, stack hañs Augu wt og flutte til Babylon, 2. Reg 25. Margur hefur saa teked Grid af Gude i Skijrneñe fyrer Christi Blood, Sem skytst undañ honum aptur og gioreſt Satans

Madur,

Madur, med Vantrw og Syndsamlegri Athæfe, og verdur þa hin seirne Villañ årg- are hiñe fyrre, Matth. 27. Hvar med gietum vier þa vid hiñ Almattuga Frid halld- ed? Ef vier erum hañs Pegnar vordner, þa eigum vier honum Skylldur ad giallda. Hin Fyrsta Pegnskyllda vor vid hañ, Er audmiwkt Packlæte Hiarta vors fyrer þeñañ Hæleita Velgiorning; Offred DRottne Lofgiordeñe, segier David. Varla mæ miña vera Br. mijner, eñ ad vier Offrum honum Kalfum Vara vorra, Os. 14. Pad er Lofgiordeñe, Er sijnum Eingietna Syne, Pvi Saklausá Guds Lambe liet slaatra a Krossens Altare til ad forlijka Heimeñ vid sialfañ sig. Margur þykest ad soñu þeñañ Skatt lwka Gude, Ef hañ sijngur honum eitt Psalm-Vers med Muñenum alleina, eñ hvort ad Hugur fylge Maale, þad athuga Meñ ecke so giarna, So hañ mun hafa Orsok til ad segia vid marga þa sem lætast þacka honum hier fyrer: Petta Foolk nalægest mig med Vorunum, eñ þeirra Hiarta er langt þar fra, Es. 29. Eñ hvorsu miog ad Meñ brioote Guds Frid af sier med þessu Opacklæte, Pad siaum vier medal añara a þeim Tiju Lijkþraau er JEsus hreinsade, uñ hvoria hañ sagde: Voru ecke Tiju hrein- sader? Eñ hvar eru hiner Niju? Luc. 17. Fanst eingeñ sa ed aptur snere og giæfe Gude Dijrdena, nema þesse Utlendingur? Og hañ sagde til hañs: Statt upp og gack burt, Pijn Trw giorde þig hoolpeñ. Hiner voru alleina a Lijkamanum hreinsader, Pesse bæde a Saalu og Lijkama, Pvi eckert talade DRotteñ uñ Trw þeirra, og mun Saalareñar Heilbrygde hafa fared þar epter. Eg er og nærsta miog uggande uñ, ad þar fiñest varla eirn a medal Tiju, sem þetta Hiaalpræde, þeñañ mikla Frid sem oss er i Christi Dauda og Upprisu bodadur, so þecke sem byriar. Flester lata sier nægia med þad ad sijna sig Kieñemañenum i Kyrkiuñe i Skripta-Stoolnum i wtvortis Jaat- ningu Trwar siñar, Einusiñe edur Tvisvar a Are, eñ hvort ad Samvitskañ kiemst vid af Tilfiñingu Syndaña, hvort Elskañ til Guds er so miog heit, þar uñ mætte efast hia allmorgum, Pvi añars mundu Meñ hafa meire Vidleitne a ad hafna Syndunum, og Elskañ til Guds munde framar spretta wt med Verkunum, so hañ þar med yrde dijrk- adur, Pad er ad snwa aptur og giefa Gude Dijrdena, ad snwa sier fra sijnu Ogudlegu Athæfe, og taka sijna Illsku Breitne fra hañs Auglite, Es. 1. Ef hañ er vor Fader, Hvar er þa hañs Heidur? Ef hañ er vor HErra, Hvar er þa hañs Virding? Mal 1. Pad er miñst verdt ad losa Gud og þacka honum med Muñenum, Pad giora og Hrafns-Ungarner, segier David, Ps. 147. Og eru þeir ecke med hañs Sonar Bloode afkeypter. Ecke kostade þad Gud nema eitt Ord ad skapa þa og allañ Heimeñ, Gen. 1. Eñ hvad segier Paulus vid oss? 1. Cor. 6. Pier erud Verde keypter, þar fyrer dyrked Gud i ydar Lijkama, og i ydar Anda hvorier ad eru Guds. Hvorneñ skulum vier hañ dyrka i vorum Lijkama? Hvad segier hañ eñ aptur, Col. 3. Deyded ydar Jardnesska Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, Lauslæte, Vonda Gyrnd, Agyrne sem er Skwrgoda Dijrkan, Fyrer hvort ad kiemur Reide Guds yfer Born Vantrwareñar. Legged af allt þvilijkt, Reide, Grymd, Illsku, Gudlostun, Nijdyrde fra ydar Muñe,

Þad er ad dyrka Gud i sijnum Lijkama, ad afsnijda þessa Limu hins Gamla Mañsins. Postuleñ segier, ad fyrer þvilijkt kome Guds Reide yfer Born Vantrwareñar, Siaed hvad Omogulegt þad er, ad hafa Frid vid Gud, nema Meñ aflegge þesse Verk Myrkrañа, sem Von er aa, Þvi ecke hefur Gud laated kvelia siñ Son til þess, ad vier þioonum Syndeñe i heñar Gyrndum, edur laatum hana drottna i vorum Daudlegum Lijkama, Rom.6. Þvi hañ hefur ecke kallad oss til Ohreinleika, helldur til Helgunar, segier Postuleñ, 1. Tess. 4. Eñ hvorneñ meigum vier Gud vegsama i vorum Anda? Þad er i Saalum vorum, Þad er, ef vier færum Andans Avexte, Hvorier eru þeir? Þad segier oss Paulus, Gal. 5. Þad er Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þoleñmæde, Goodgyrne, Goodfijse, Trw, Hoogværd, Bindende; og endar hañ so þetta Tal med añare Maals Grein, sem alla Guds Þioonustu i sier iñebindur, segiande: Eñ þeir sem Christi eru, Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum. Hvør sem þad Daglega giorer epter þvi sem Guds Ande fær i hañs Breiskleika verkad, Hañ maa vera fullviss um Guds Vinaattu, Jafnvel þott eingeñ giete fullkomeñ vered i þessu Daudlega Hollde, Þvi ef vier gongum i Andanum, þa erum vier ecke under Logmaalenu, Gal. 5. Eñ þetta Frelse eigum vier ecke ad brwka til þess, ad laata epter oss Smaa-Synderнar, Er vier so kollum, Og ætla þad sie noog ad varast Stoor-Glæpena. Þar er eingeñ so lijtil Synd til, ad ei sie hun noog til ad fordæma Mañeñ ef Gud vill i Doom vid oss gaanga. David bad Gud Forlaats aa sijnum Heimuglegum Syndum, Ps. 19. Þvi mun þad ecke Ohult ad drygia hinar Smaau Vijsvitande. St. Paall sagdest jafnvel ecke skyllde Kiot eta, ef hañ visse siñ Brooder Hneixladest, 1. Cor. 8. Og mun margur hallda þad fyrer litla Synd, Þad er alldrei lijtil Synd, sem Guds Riettlæte fordæmer, Eñ hañ fordæmer allar þær sem vier litlar edur ongvar kollum. Þad er allt Synd sem Helvijte forþienar, Eñ þær forþiena allar þad, sem Madureñ lætur vijsvitande epter sier, og liggur i þeim Viliande, Jafnvel þoott ei sie þvilijkt af Moñunum kallad nema Guds Barna Brester. Smaa-Regned væter eins miog og Stoor-Droparner, Þær smaau Syndernar kuña ad verda hvad Skadvænastar, Þvi vier reiknum þær ecke, og verda þvi flestar, Og þoott þær sieu smaaar i vorum Augum, þa verda þær þo stoorar, nær vier byggium þeim leinge heima. Eirn lijtell Ormur, þegar hañ er svolgeñ i Magañ, þa etur hañ so leinge um̃ sig, ad hañ verdur stoor, Nema hañ añadhvort sie drepeñ, eda honum sie uppsellt. Eirn lijtill Pwke, Þegar hañ er Einusiñe iñkomeñ i Hiarta Mañsins, gietur vorded ad stoorum Diofle, ef hañ er laateñ Hindrunarlaus, og þegar hañ er so vaxeñ, gietur hañ teked Sio Anda sier verre, Luc. 11. Meñ taka eirn lijteñ Dreing til Foostiurs, Ef hañ er Skaalkur, sem marger eru, þa giorer hañ sig ad Hwsboonda, nær hañ er fullordeñ, og rædur sijna Lijka iñ i Hwsed, þar til hañ med sijnum Fielogum drepur Hwsboondañ, Ef hañ þorer, og giorer sig Herra af Gotzenu. So eru hinar litlu Syndernar; Þau daalitlu Born Satans, er vier leikum oss ad, medañ þau ung eru, Þau verda vor Ofmeñe um̃ sijder, og taka vort Andlegt Lijf fraa oss, og

eyda

eyda þeim Fiesiood wr voru Hiarta sem med Guds Bloode keyptur er. Sumt Gaman og Gledskapur, sem heiter Kurteyse i Fyrstuñe, kañ ad verda ad Hædne og Spieskap, So þegar Meñ hafa leinge vaned sig aa ad hæda Meñena, og þvi er hroosad af þeirra Lijkum, Er leita sier Fordilldar i slijku, Pa fer þeim so fram i Kunsteñe, ad þeir fara ad hæda ad Gude og hañs Heilaga Nafne. Pad þyker hiaa oss Saklijted ad leggia Guds Nafn vid Hiegooma ad Gamne sier i Daglegu Tale, Edur kalla aa Andskotañ, Eñ sa sem þetta hefur leinge tamed sier, Honum muñ ecke þykia miked fyrer ad brwka þad sama til ad liwga Lijf og Æru af sijnum Naaunga, hañ sem reiknar þad fyrer ongva Synd, ad hañ forsoome ad gaanga til Kyrkiuñar, og leikur sier ad Hiegoomanum aa Guds Helgum Dogum, hañ kañ ad verda yfergiefeñ i so fraaleitt Siñe, ad hañ þeynke, Ad þad sie ecke nema fyrer Sida Saker ad Meñ brwke Helgar Tijder. Eg segie þetta til Dæmis um allt þad er Meñ giora aa moote hinum Bodordunum, sem hver eirn kañ ad skilia, Ef hañ vill giefa nockurn Gaum ad Framferde sijnu, og taka Vara aa Saalu siñe. Fyrer þvi, Ef þier viled hafa Frid vid Gud, Br. mijner, Pa dreped þessa Smaa-Pwka, edur ad vijsu giored þa so Vanmeta, ad þeir ecke verde ydar Ofur-Efle, Añars munud þier ecke Frid vid Guds hafa. Eñ Sokum þess, ad eingeñ af oss er so Adgiæteñ edur Varkaar, ad ecke falle Blettur aa vort Skijrnar-Fat aa hvørre Stundu, Jafnvel þeirra sem bester eru, Pa eigum vier i hvort Siñ, sem vier af nockurre Hrøsun verdum yferstigner, ad þvo hañ af med beyskum Ydrunar-Taarum, Ef vier vilium Frid vid Gud hafa. Jaa, vier eigum ad gaanga streingelega i Doom vid sialfa oss, og ecke laata vora Ydran stijga fram yfer Almeñelegar Synder, Pvi þær fordæma eins Mañeñ og hinar stooru, Nema Meñ þeirra af Hiarta ydrest: Giætum þess, ad Gud er Riettlaatur, hañ er Eptergaangssamur og straangur Sooknare, hañ heimtar ecke alleina Stoor-Sumurnar, helldur vill hañ laata giallda hiñ sijdarsta Pening, Matth. 5. Hvar med faaum vier þessa Sekt loked, Nema med Christi Forþienustu, sem er Oendañleg: Eñ hun verdur ongvum tilreiknud, Nema þeim, sem ydrast af Hiarta Syndaña, Ad sonnu kuña Meñ ecke allra ad ydrast sier i Lage, hvør veit hvad opt hañ fellur? Ps. 19. Gietur þu uppreiknad alla þijna Ungdooms-Breste? Hvør maa telia alla sauruga Paanka og Onytiu Ord? Pad er ad vilia telia Sandeñ og Bylgiur Siaafarens; Eñ þar vier erum oss þess Samvitande, ad vier so opt hrøsum, So ad oll vor Reisa fraa Vogguñe til Grafareñar, er varla añad eñ eirn sijfelldur Blood-Vadall, þa eigum vier ad laata oss þad af Hiarta aangra, ad vier erum so under Syndena sellder, Rom. 7. Jaa, J Samtale vid vora Vine og Naaunga, Edur og nær vier sleppum oss i Gaman og Gledskap, Pa byriar Riett-Christnum Mañe ecke einasta Adgiætnum ad vera, ad ei stygge hañ Gud med Muñe sijnum, helldur og i hvort Siñ, nær hañ kiemur til sialfs sijns aptur, ad Hugleida hvort ecke hafe hañ rasad med siñe Tungu, og fiñe hañ þad, sem aan Efa optlega fiña maa, ad laata sig þess af Hiarta ydra og bidia Gud um Naad, Ef vier vilium vera fullvisser um hañs Vinaattu, og ecke einasta eigum vier þær Synder ad

 fordast,

fordast, sem eru Riettlijnis a moote Guds skielselegre Haatign, helldur og ef vier vilium hans Viner vera, þa eigum vier ad kappkosta ad hallda Frid vid vora Brædur i Heimenum, Rom. 12. Hvad er þad fyrer Fridur er ÐRotten spaaer um ad verda mune i Rijke Christi? Esa. 2. Ad þeir mune giora Sverden ad Ploog-Jaarnum, og sijnar Stanger ad Liaaum, og ein Piood skule ecke ryckia Sverde moote anare, og þeir skule ei framar læra Strijds-Atferd. Hvad sijnest ydur, Born mijn? Mun þetta vera sa Fridur, sem Verollden giefur? Ecke Teiknar til þess nu um Stunder, Þar ein Piood rijs upp i moote anare, og Frændur og Naaungar berast Bana-Spioot epter, Helldur er þad Fridur Guds sa ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Þad er oll Andleg Farsælld, Sem Guds Postular, Paulus, Petrus, Judas, og Johanes i sijnum Opetberunum jafnan oska Guds Sofnudum, en ecke er þad sijst Eindrægne Andans, sem oll Guds Born hafa a mille sijn, hver hellst þau eru i Heimenum: Sa sem ecke er i þessum Fridar-Saattmaala inebunden, han er ecke Limur hinar sonu og Osijnelegu Guds Kyrkiu. Vakte sig þvi hvor og eirn, sa er vill Christi Limur heita, ad ei ale han nockurt Hatur til sijns Naaunga: Og er þad ecke noog, ad vier holldum Frid vid Vine og Frændur, Tollheimtumen og Þiotur giora og þad hid sama, Luc. 6. Helldur hijdur Endurlausnaren oss, ad vier elskum Ovine vora, Matth. 5. Þad Logmaal er þrongt ad sonu Hollde og Bloode, En ecke so miog þeim sem epter Gude er skapadur, og leitast vid ad breita epter sijnum Lausnara, Hvor ed beidde fyrer þeim er han kvolldu, Luc. 23. Eiger þu nockurn Ovin, Christen Madur, Þa giæt þess, ad Gud er þin beste Vinur, og Andskoten hin argaste Ovinur, Gior þvi ecke þad hinum til Stygdar, en þessum til Þægdar, ad hatast vid han sem er þin Brooder epter Naatturune, fyrer hvorn Guds Sonur hefur Kvol og Dauda lided eins og þig. Ef þu hatar þin Ovin og þad so miog, ad þu villder hans Dauda, Þa gior honum Gott, Sia til ad þu faaer giort hier han ad Vin med goodu Atlæte, Faaer eru so Hreckvijser ad þad takest ecke, En ef þu fær þvi til Vegar komed, Þa hefur þu dreped Ovinen, en fresad þin Broodur og giefed honum Lijfed, 1. Joh. 5. Og afrekad Saalu eina Gude til Handa, sem er stærre Sigur en þoott nockur hefde Kongarijken under sig broted, Þvi hun hefur Guds Sonar Blood kostad, Hia hvoriu oll Verollden er Fis ad reikna. Soddan Hefnd er ecke einasta Saklaus, helldur og Gude kiær, og af ollum hans Bornum vel aliten. Gud giæfe ad Christner Men villdu temia sier þetta Hugarfar, Þa munde Fridur og Eindrægne halldast betur Mana a medal, helldur en skiedur nu um Stunder, Þa mundu Men og id hafa vid sialfa sig og Samvitsku sijna, Frid fyrer Heimenum, Þvi sa ed þvilijkt giorer, han er af Gude fæddur, og yfervinur Heimen, 1. Joh. 5. Frid fyrer Dioflenum þvi han er Christi Barn, sem Dioflenum hefur wtsnarad, og troded han under sina Barna Fætur, Rom. 16. Ja, Frid vid hin Lifanda Gud sem ollu rædur bæde a Himne og Jordu; J hvors Rijke ad Fridaren og Riettlæted kyssa hvort anad, Ps. 85. Hier i Tijmanum, en i Eilijfdene mun a Fridnum eingen Ender verda, Es 9.

Petrrar

Peirrar Sælu-Vistar niootande ad verda, Uñ þu oss þijnum Børnum, O þu Stoore Gud Fridarens! Rom. 16. Fyrer hiñ saña Fridarens Hosdingia JESUM CHRISTUM, Es. 9. Amen.

# Fyrsta Suñudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 20. Cap.

OG ad Kvøllde þess sama Pvott-Dags, Pa ed Lærisveinarner voru samañkomner ad luktum Dyrum fyrer Hrædslu Saker vid Gydinga, Kom JEsus þar, Og stood i Mided og sagde til þeirra: Fridur sie med ydur. Og þa hañ sagde þetta, Sijnde hañ þeim Hendurnar og sijna Sijdu. Eñ Lærisveinarner glodduſt vid, ad þeir saau HErrañ; JEsus sagde þa eñ aptur til þeirra, Fridur sie med ydur. Lijka sem Fadereñ sende mig, So sende eg ydur. Eñ sem hañ sagde þetta; Blies hañ aa þa og sagde til þeirra: Medtaked þier Heilagañ Anda, Hvørium hellst þier fyrergiefed Syndernar, Peim eru þær fyrergiefnar, Og hvørium hellst þier apturhallded þær, Pa eru þær þeim apturhalldnar. Eñ Thomas eirn af þeim Toolf, sem kalladest Tvijbure, var eige med þeim, þa JEsus kom. Eñ hiner adrer Lærisveinarner søgdu til hañs: Vier høfum sied HErrañ. Eñ hañ sagde til þeirra: Nema ad eg siaae Naglaføreñ i hañs Hondum, Og ad eg laate miñ Fijngur i Naglaføreñ, Og legge mijna Hond i hañs Sijdu, Pa trwe eg ecke. Og epter Atta Daga voru eñ aptur hañs Lærisveinar þar iñe, Og Thomas med þeim. Pa kom JEsus ad luktum Dyrum, stood i Mided, og sagde: Fridur sie med ydur. Sijdañ sagde hañ til Thomam: Riettu þiñ Fijngur hijngad, og skoda mijnar Hendur, Lypt upp þiñe Hende og legg i mijna Sijdu, og vert ecke Vantrwadur, helldur Trwadur. Thomas svarade og sagde til hañs: DRotteñ miñ og Gud miñ; JEsus sagde til hañs: Af þvi þu saast mig Thoma, Trwder þu; Sæler eru þeir sem ecke siaa og trwa þo. Morg øñur Teikn giørde JEsus i Augsijn siña Lærisveina, hvør ad eige eru skrifud i þessare Book, Eñ þetta er þvi skrifad, So ad þier trwed, bad ad JEsus sie Christus Sonur Guds, Og ad þier so Trwader, Hefdud Lijfed i hañs Nafne.

Exordium.

 Pegar

ÞEgar JESUS hafde læknad hiñ Limafallssiwka med þvi Orde, ad hañ sagde til hañs: Þier eru þijnar Synder Fyrergiefnar, Matth. 9. Þa prijsade Foolked Gud, Er þvilijka Makt hefde Moñunum giefed. Ecke hefur þetta Foolk so undrast yfer siꜳlfu Krapta-Verkenu, Þvi þeir voru þessu Alvaner af Frelsaranum, Añars mundu þeir ecke hafa fært þeña veika Mañ til hañs, Helldur yfer þvi, ad hañ læknade med Orda Tiltæke þessu, Þvi þad hafde ꜳ þeim Dogum ecke heyrst ad nockur Madur hefde Valld til ad fyrergiefa Syndernar, Hvar af Pharisæi tooku Orsok til ad bera sier þꜳ Ohæfu i Muñ, ad hañ Gudlastade. Eñ hañ sem auglijste sitt Valld til ad fyrergiefa Syndernar med þessu Krapta-Verke, So ad þeir ed þad sꜳu, undrudust og prijsudu Gud, Er þvilijka Makt hefde Moñunum giefed; Hañ same hefur og þetta Valld i Hendur feinged Syndugum Moñum sijnum Postulum, so sem vier strax heyrdum af Gudspiallenu, Og ecke einasta þeim, helldur og ollum þeirra Epterkomendum, allt til Veralldareñar Enda, Matth. 28. Ad þeir i hañs Nafne fyrergiefa Syndernar, Ecke so sem af siꜳlfum sier, helldur so sem Christi Þienarar, og Rꜳds-Meñ Guds Leyndardooma, Sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Eñ miked, So hꜳrleitt og so Guddoomlegt sem þetta Valld er, So Vandfared er og med þad, Bæde fyrer þꜳ sem þad i Hende hafa, og so hina er under þvi eru, Ad hvoruger forgrijpe sig ꜳ hañs Dijrdlegre og Ognarlegre Hꜳtign, Sem ad er Hofundur þessa mikla Umbods; Og fyrer þvi ad ꜳ þessu rijdur, oll Velferd Christeña Maña, (sem er ad fꜳ Kvittun Syndaña) Þa vil eg nu ad þessu Siñe tala um̃ þetta Tveñt, Sem er. 1. Hvor ad sie Skyllda þeirra er odrum eiga ad boda þeirra Fyrergiefning, Og 2. Hiña sem hana þyggia eiga. Gud styrke oss i þessu Verke med Nꜳd sijns gooda Anda, I JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

TVent er þad sem Christi Þienarar eiga i þessu Guds Eyrende ad athuga, Sem er 1. Ad ecke bode þeir Kvittun Syndaña, þeim sem heñar eru Overduger. 2. Ad þeir hallde heñe ecke fyrer hinum, Er hun med riettu tilheyrer. Hiner Fyrre eru med Tveñu Moote, añadhvort eru þeir fꜳfrooder, edur og Ogudleger og hardsvijrad er. Hverigum af þessum ꜳ Rꜳds-Madur Christi ad boda Syndaña Kvittun: Ecke þeim Fyrre, Þvi sa sem etur og dreckur Overdugur, Hañ er sekur vid Holld og Blood DRotteñs, segier Paulus, 1 Cor. 11. Eñ sa etur og dreckur Overdugur, Sem ecke reyner og proofar siꜳlfañ sig, Eñ hvorneñ mꜳ sa reyna siꜳlfañ sig er ei þecker Syndena? Eñ hvorneñ mꜳ hañ Syndena þeckia ꜳn Logmꜳlsins Þeckingar? An hvers ad jafnvel St. Pꜳll ecke þeckte ad Gyrndeñ var Synd, Rom. 7. Þad er ollum Moñum kuñugt, ad eingeñ fær kvitta Syndena i Himnenum, utañ hñ bere Angur og Trega fyrer hana, Eñ hvernig mꜳ hañ lꜳta sig ꜳngra þa Synd, er hañ þecker ecke? Og er þetta þo ecke nema Helfteñ af Skylldu vorre. Ecke er þad noog ad þeckia Syndena og ꜳngrast af heñe: Litlu gagnade þad Cajn og Judas, þoott hiñ segde; Mijn Synd er meire eñ ad

hun

hun fyrergiefeñ verde, Gen. 4. Eñ þesse; Jeg hefe illa giort þad eg sveik saklaust Blood, Matth. 27. St. Peturs, Matth. 26. Davids, 2. Sam. 12. Hiñar Bersyndugu, Luc. 7. Og añarra soddañ Maña Þeckingu, skal hafa til þess ad fꜳ Syndena kvitta; Þar fyrer Sokum þess ad Blooded JEsu Christi hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Og ad i einigum ødrum er Sꜳluhiꜳlpeñ, Act. 4. Þa kañ eingeñ ad fꜳ hiꜳ Gude Lausn Syndaña fyrer utañ hañs Þeckingu, Og er þad ad søñu ecke noog ad Meñ vite, ad hañ sie fyrer Syndernar dꜳeñ, Rom. 4. Helldur og ad tileinka sier hañs Forþienustu, Og trwa þvi fastlega ad þad Saklausa Guds Lamb hafe eiñig siijnar Synder i burtu teked, Joh. 1. Þeim sem ecke er um̃ þetta hvørutveggia alldeilis Sañfærdur i Hiarta siinu, Honum ꜳ Guds Þienare ecke ad boda Kvittun Syndaña, Helldur ad undervisa honum med allre Kostgiæfne Veg Sꜳluhiꜳlpareñar, Og leida hañ til Christum med Heilsusamlegre Kieñingu. O! Gud giæfe ad þessu villdu giæta ecke einungis Kieñemeñerner, helldur og þeir ed Børnum og Hiwum eiga ad undervijsa og uppala i Aga og Um̃vondun DRottens, Eph. 6. Þa være eg viss um̃, ad ecke munde so optlega verda Helgedoomarner Hundum giefner, Matth. 7. Nie Perlum fyrer Svijn kastad, Sem mig ugger ad ꜳ Stundum skie mune fyrer Vanræktarsaker þeirra er Gud hefur um̃boded ad taka Vara ꜳ slijku: Hvøriu vill eiñ Sꜳlaus og Toomlꜳtur Leigulide svara hinum Alvallda Konunge a sijdarsta Deige, þegar hañ krefur siña Sauda Bloods af hañs Hende? Eñ hañ hefur forsoomad ad undervijsa þeim, og ad giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad honum byriad hefur, hañ hefur talad fyrer þeim þad sem var Hiegoome, Haft fyrer þeim nockrar fꜳnijtar Spurningar, Sem lijtt til Sꜳluhiꜳlpar gagna, til þess ad sijnast vid ad giøra eitthvad, og ad fyrra sig Vijtum, Eñ alldrei lagt hiñ rietta Grunndvoll Sꜳluhiꜳlpareñar i Mañaña Hiarta, ei kieñt þeim Syndena ad þeckia, Ecke wtlistad fyrer þeim heñar Greiner og Tegunder, Ecke wtmꜳlad hvørsu ad hun er vidurstyggeleg fyrer Gude, Ei sijnt þeim Veigeñ til ad fꜳ heñar Kvittun, Edur vaked Angur og Trega fyrer sijn Afbrot i þeirra Hiarta, Nie Krapt hiñar søñu Trwar er verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Og i þessare Fꜳkiænsku hleipur Vesælingureñ iñ ad Skripta-Stoolnum og þyggur Kvittun Syndaña af Prestenum, Jafnvel þoott ecke sie hañ hefie nær, helldur eñ eirn Heidinge, Sem eckert af Gude veit nie hañs Christe, Og i þessu uppelst hañ; J þessu lifer hañ, og i þessu deyr hañ, og uppvaknar i Helvijte og Kvølunum, Nema Gud vilie meire Myskun ꜳ giøra, og ætlar sig þo ad vera Full-Christeñ, Og ad Sꜳla sijn mune strax i Himeneñ uppfliwga, sem hun skreppur wt af Lijkamanum, Af þvi eingeñ sagde honum þad, Og eingeñ ad þvi fañ, hvørsu sem hañ var O-frooduri sijnum Christeñdoome; Þetta hid sama vil eg sagt hafa Forelldrum og Hwsbændum, Hvørier i þessu vera eiga so sem Prestaña øñur Hond, Þvi ef satt skal segia, Þa er þad Ofotlun fyrer eiñ Guds Ords Þienara, ad hañ giete lagt hvørt Barn sier ꜳ Knie, og øllum allt þad kient sem þeir vid þurfa, Sierdeilis i þessu fꜳtæka Lande, Eñ ad hafa alvarlega Um̃sioon hier um̃, rañsaka hverneg þad tilgeingur, ꜳmiña þꜳ sem eru

Hyrdu-

Hyrdulauser, Leidrietta þaa sem villt fara, straffa þaa sem moote mæla, vijsa þeim vt af Guds Kyrkiu og Samneyte Christeña Maña er ecke laata sig Leidrietta med hoogværum Anda, Gal. 6. Pad aa þeim ecke ad vorkyñast, Eñ Gud naade hvoria Adstod þeir faa i slijku hiaa allmorgum; Oskande være ad ecke finnduft þeir ed reidast ef ad slijku er funded, og leggia Hatur aa Guds Pienara nær þeir vilia forda Saalum þeirra vid Eilijfum Helvijtis Pijslum, Peir hafa þeirra Gudrækelegar Amiñingar i Skimpe, og kalla þad Presta Firrur og Hlutseme, Hvar fyrer? Af þvi þeir sialfer eckert kuña, Eñ skamast sijn ad læra þad gamler, Er þeir neñtu ecke unger ad nema, og vilia helldur steipa sier og Børnum sijnum og Hiwnum i Afgruñ Helvijtis, eñ ad laata sig Leidrietta, Og er þad allt ofkuñugt af Faafræde hiña Ungu i þessu auma Lande, hvad lijted ad hiner Gomlu kuña muñe. O þier skynlausar Mañeskiur! Kalled þier ecke þad hid argasta Mord, ef nockur fargar sijnu Lijfs-Afkvæme vijsvitande, Og þo er þad Kiærleiks-Dygd, hiaa þvi, ad spara þeim þad er þeim meige verda til Saalar-Gagns, Pvi þad er ad myrda Saalena, Hvor ad er med Guds Bloode Endurleyst, Act. 20. Og er miklu miñe Synd ad bera vt Børn sijn nijfædd, Sem þo er hiñ verste Glæpur, Pvi þa eru þau under Guds Myskunseme, helldur eñ ad klekia þeim upp Fiandanum til Pioonustu. Hafed þier ecke heyrt hvorsu ad DRottiñ vard reidur þeim er Offrudu Bornum sijnum Moloch Fordum Daga, Levit. 20. Og lietu þau gaanga i giegnum Elldeñ þeim Andskota til Dijrkunar, Devt. 18. Eñ hvad giora þeir betur sem laata sijn Børn uppalast i ollu Reideleyse? Vited þier ecke ad þier hafed þau i Syndeñe gieted og fædt? Ps. 51. Hvad liggur þa añad fyrer honum sem af Nattúruñe er Reideñar Barn, Eph. 2. helldur eñ eilijflega ad fyrerfarast, Nema hañ lære hiñ saña Christeñdoom, So ad hañ meige umflija tilkomande Reide? Pier segied vel: Pau eru i Skijrneñe Endurfædd og Guds Børn vordeñ, Pad er vel, Eñ hvorsu illa kieñed þier þeim ad hallda siñ Skijrnar Saattmaala, Nær þau alldrei faa ad vita hvad Skijrneñ er, Edur hvad þeim er veitt i heñe, Hvoriu þau hafe þar Gude lofad, Edur hverneg þau eige ad bera sig ad hallda þad, Edur faa þess Kvittun er þau afbrioota? O Vei! O Vei! Hvorsu aumur er þesse Christeñdoomur; Bærelegra mun einum Tyrkia verda aa Doomsins Deige, eñ slijkum Forelldrum, Og eg vil hafa þetta sagt til þeirra einungis sem Hyrdulauser eru um Velferd sijna og siña, Og meina ad Gud hafe giefed sier Borneñ, alleina til ad leika sier ad, Eñ ecke til hiña sem leggia nockra Rækt hier vid, Er Gud giæfe ad sem flester være. Hiner adrer sem Guds Pienarar eiga Syndunum aptur ad hallda, Eru þeir sem kañske hafa noog Vit a þvi er þeir eiga ad trwa og giora, eñ lifa alldeilis ecke þar epter, helldur gaanga fram i allskonar Syndum og Glæpum Yfirunarlaust, Forsmaaande Gud og hañs dijrmæta Ord, Og hafande ad eingu þad þeim sagt verdur i Guds Stad. Slijker eiga med riettu eckert Samneyte ad hafa med odrum Guds Bornum, Hvorier hellst sem þeir eru, Rijker edur Faatæker, Vesæler edur Vollduger, Pvi ef Paall segier, 1. Cor. 5. Ad ef nockur sa er Brooder (þad er Christeñ) kallast, sie Frillulijfes Madur, Lastmaall, Agiarn, Skwr-

Skwrgoda Dijrkare edur þess Haattar, þa skule Meñ einga Um̃geingne med þvilijkum hafa, Þa er þad augliost ad þvilijkum aa ecke Synda Kvittun ad boda, Nema þeir ydrest af Hiarta og aflaate Glæpunum, Og sa Kieñemadur er segier þeim sijnar Synder kvittar i Guds Stad, Hañ lijgur uppaa Gud, Er hañ leyser þad sem Gud hafde honum alldrei um̃boded, Hañ tekur fram̃ fyrer Hendur aa Christo, sem Meñ plaga ad segia, Og giører hañ ad þeim Gude sem ad þocknast Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Stoor Vande liggur aa einum Kieñemañe i slijku, Ef hañ vill fiñast Trwr. Ecke segie eg ad þeim skule fraavijsa Aflausn Synda siña, sem misgrunadur er um̃ einhvorn Glæp, Þad maa hinum besta Mañe giora. Ein skiæd Tunga kañ snarlega ad lioosta upp einhvorium Ohroodre um̃ goodañ Mañ, Hvar til Þusund Dæme eru, Slijkt aa ad eingu ad hafa, helldur ad afstijra svoddañ vondu Um̃tale um̃ Naungañ. Eiñ Guds Þienare aa ad vera Vandlætingasamur, Eñ þo med Skynseme, og ecke byggia so vigtugañ Hlut sem ad er Lyklavalldsens Brwkun aa hvorium Þvættinge, Rom. 10. Eñ þessa þarf ecke vid, Br. mijner. Þar eru opeñberer Lester og Skam̃er sem ad eingu eru aktader, hverke af þeim ed þær fremia, Og kañ skie ecke helldur so sem vera ætte af sumum sem þad ættu ad straffa. Hverneg mun þad tilgaanga med Guds Heilaga Nafns Vanbrwkun medal Ohlutvandra Maña? med Ydkun hañs Heilaga Ords? Munu ei fiñast þeir ed hafa þañ Dijrgrip ad Athlaatre og i Fijsiskapar-Maalum? Hvad er tijdara eñ Ohlijdne og Otrw Barna og Hiwa vid Forelldra og Hws-Bændur, vond Forlijkun mille Hiona, Hardydge Yferbodaraña vid hina Aumu og Vesælu sem under þeirra Vallde eru, So Meñ laata Vargana hlaupa frij eñ straffa Dwfurnar. Hatur og Ulfbwd, eru ordeñ ad Karlmeñsku og Hugprijde, Meñ bera þad ecke einungis Heimuglega med sier i Hiartanu, Hvar um̃ Kieñemadureñ ei kañ ad dæma, helldur sijna þad Daglega i Verkunum, J Ordunum, J Um̃geingneñe; Okur og Asælne, Myskunarleyse vid hiñ Volada og Naudstadda, Bakmælge og illur Muñ-Søfnudur vid Naungañ, Allt þetta eru daudlegar Synder: og maa øllum kuñugt vera, ad þær ei verda fyrergiefnar i Himnenum, Nema Meñ ydrest þeirra aa Jorduñe, Og þad vita Guds Þienarar, ad fyrer slijkt kiemur hañs Reide yfer þaa ed þad fremia, Eph. 5. Nu segie eg þad ecke ad Meñ skule strax fraavijsa þeim er i þessu kuña seker ad fiñast, Ef þeir sijna aa sier nockur Ydranar Merke, Jafnvel þoott Betruneñ verde ecke i einu svo merkeleg, Hitt segie eg, ad þeir eiga þvilijka Syndara med allre Alwd og Kostgiæfne ad aamiña, og Leidrietta þaa med hoogværum Anda er fundner verda i nockurre Hrøsun, Gal. 6. Fyrst i Ein-Rwme, Vilie þeir ecke þar vid skipast, þa i Tveggia Gudhræddra Maña Vidurvist; Laate þeir eñ þa ecke af nie leitest vid ad betra sig, þa veit eg ei betur eñ soddañ Þverbrotnum Mañeskium eige Syndernar aptur ad halldast, Þad kieñer oss ecke einasta DRotteñ JEsus, Matth: 18. med þessum Ordum: Ef þiñ Brooder syndgaar aa moote þier, þa far þu og aatel hañ aa mille þijn og hañs, Ef hañ heyrer þier, þa hefur þu aauñed þiñ Broodur, Eñ ef hañ heyrer þier ecke, þa tak med þier Eiñ edur Tvo, Svo ad i Muñe Tveggia edur

Priggia verde oll Ord stadfest, Eñ vilie hañ ecke þeim heyra, þa seig þad Søfnudenum, Eñ vilie hañ ecke Søfnudenum heyra, þa hallt hañ so sem Heidingia og Tollheimtumañ, Helldur er og þessu alldeilis samhliooda Konunglegt Løgmaal i þessum Londum og Rijk-ium, uñ þau Afbrot sem ecke verda so hentuglega med Veralldlegum Riette strofflud, Og ef DRottẽ skipar einum af Søfnudenum þañig ad breyta vid þañ er honum at moote brijtur, Hvad miklu helldur mun þetta sagt vera Kieñemoñunum sem i Guds Stad vandlæta eiga. Take þvi ecke eiñ DRotteñs Pioon Vara a slijku, Pa er nært-sta hætt vid, ad hañ giøre sig Hluttakara i Añarlegum Syndum, og hafe Samfielag vid Ofriioofføm Verk Myrkrañа, Pvert a moote Postulans Bode, Rom. 1. Og er þetta nu sagt uñ þa sem Guds Pienarar eiga ad apturhallda Syndena. Eñ þar fyrer hefe eg uñ Kieñemañaña Skylldu talad i þessum Stad, ad eingeñ hate þa edur Ovyr-de, Poott þeir giøre Skylldu sijns Embættis i slijku, Par þeim er so mikell Vande at Hende.

Hvorier ad hiner sieu er Syndena skal leysa hia, Er audsært af þvi sem allareidu er sagt uñ hina, Sem er alla synduga Meñ, hvørsu herfelega edur stoorkostlega sem þeir syndgast hafa moote Gude; Ja, hvørsu leinge sem þeir hafa vellt sier i Syndunum, Pa sem ad fulla Grein hafa a ad Reyna og Proofa sialfa sig, og lata sig af Hiarta Syndernar angra, og lofa Uñboot med sañre Trw a Christi Forþienustu, Pvi hiñ Naaduge Giæskuñar Bruñur, vill eingañ þañ fra sier reka sem til hañs kiemur, Joh. 6. Pvi kallade hañ harre Raustu Fordum Daga og sagde: Komed til mijn aller þier sem Erfided og Pwnga erud þiader, Eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Og gyllder þetta ecke einasta uñ þa sem eñ þa eru Fullhrauster og kuña framveigis ad betra sig, helldur og uñ hina sem fyrer Daudanum liggia, Og jafnvel þa sem Maalenu tapad ha-fa, Ef þeir eru med Rænu, Og eiñ Adgiæteñ DRotteñs Pienare merker þeirra Hiartan-lega Epterlaungun, Angur og Trega fyrer Syndernar, Pviad a hvøriu Tijma, sem hiñ Ogudlege snijr sier fra sijnu Ogudlegu Athæfe, þa skal hañ lifa og ecke deya, Allra hañs Synda skal ecke ad Eilijfu miñst verda, segier DRotteñ fyrer Muñ Ezechielis i 18. Cap. Og þoott hiñ Naaduge Gud sem allañ Dageñ wtbreider sijnar Hendur til Ohlijduge Foolks, Es. 65. sie jafnañ reidubweñ ad taka vid Syndaranum, nær hañ ydrast af Hiar-ta, þa eru hañs diwpu Myskunar-Ydur þo alldrei nakvæmare eñ i Daudanum, Pvi þa veit hin Eilijfa Giædska, Sem ecke vill syndugs Mañs Dauda, ad ecke er Tijme til ad draga Naadena undañ. Og er þetta nu þañig sagt uñ þad hellsta sem ad Guds Ords Pienarar eiga ad taka Vara a i þessu Haaleita Efne, Eñ fyrer þvi ad margur Einfalld-ur, Edur og so Hyrdulaus, kañ ad steita sig a þessu Naadareñar Frelse, Poott alldrei giøre Kieñemadureñ sitt Embætte so Athugasamlega, Pa verd eg þo nockud hier uñ ad tala, Og þad þess helldur, ad Andskoteñ er Pusund Viela Smidur, Viñe hañ ekkert at þa einu Sijduna, þa leitar hañ a hina. Pesser eru og med Treñu Moote, Añadhvort eru þad þeir, sem af Hyrduleyse og Ofirauste meina ad þeir fae Kvittun Syndaña ef

Prest-

Prestureñ þelm hana alleina tilsegier i Guds Nafne; Edur og hiner sem vegna Fiolda og Stærdar siña Misgiorda faa þvi varla trwad, ad Guds Pienare hafe Valld hier til þoott þeir ydrest. Hvad vidvijkur hinum Fyrra Hoopnum, sem vera mun ollu stærre, þa vite þad sierhvor eiñ, ad lijka sem Christur sagde vid Læresveinana Fordum, Luc. 10. Hvor ydur heyrer, hañ heyrer mier, Og meinte þo, alleina i þeim Hlutum sem þie er boded i mijnu Nafne, Og epter miñe Skyckan. So er þvi og vared, Ad ef nockur Guds Ords Pienare, bodar þeim Kvittun Syndaña sem ecke ydrast og ecke trwa aa Guds Son og hañs Forþienustu, Pa er hañs Pioonusta Onijt, Og verdur bædum þeim til Dooms-Afellis, Prestenum ef hañ þad veit, Eñ hinum þoott Prestureñ þad ecke vite, Pvi maa hvors eins Samvitska bera honum lioosast Vitne hier uñ; Eñ ef Prestureñ afleyser Ogudlegañ aan Vitundar siñar, Pa er hañs Pioonustu hættad eins, og einum Doomara, Peim ed geingur rangañ Doom epter folsku Vitne, Samt er ecke Doomureñ riettur, þott hiñ er dæmde sie Saklaus, So er og þess Blood yfer hañs Hofde, Ezech. 33. Sem jaatar Synder sijnar fyrer Prestenum, Eñ þo ecke af Hiarta edur med verdugre Ydran, Eñ Guds Pienare er Sykn saka, Jafnvel þoott hañs Pioonusta sie Ogylld i Himnenum, Sokum þess Ydrunarleysis er hana þyggur. Pad er næsta faavijslegt, Ad eiñ Syndare meinar ad sier verde sijnar Yfertrodslur fyrergiefnar, þoott ecke ydrest hañ þeirra edur hafe nockurn Asetning edur Vidleitne til ad betra siñ Lifnad, Ef Kieñemadureñ alleina leggur honum Hond i Hofud og bodar þeirra Kvittun. Giæt þess, O aumur Madur! Ad eingeñ hefur meire Myndugleika eñ sa vill, Er honum gaf hañ. Nu er þad vijst, ad Gud tekur ecke vid Syndaranum nema hañ læte sig aangra Syndernar, Og lofe ad betra sig: Pad skal alldrei fiñast i allre Ritninguñe ad Gud lofe Naad siñe nema Ydrande Mañe, Hverneg villt þu þa vænta þess af Kieñe-Mañsens Hende, sem Gud hefur honum alldrei i Hendur feinged? Og hañ ecke sialfur vill edur kañ giora vegna sijns strænga Riettlætis, Sem honum eins skylldt er og Myskunsemeñ, Og maa þad þier ecke gagna, Poott Prestureñ sie þier samvitande i Hyrduleysenu, Laat hañ ei draga þig aa Taalar, þoott hañ eige ad vita betur eñ þu, Pvi hañ gioreri þvi Andskotans og ecke Guds Verk, ad boda þeim Kvittun Syndaña sem heñar er Overdugur. Pad er Diofulsins Slægd, ad giora lijted wr Syndeñe fyrer Mañenum, Og kalla ad Meñ meige komast af vid Gud med Eintoomre Jaatningu edur wtvortis Hegdan Lijkamans. Vara þig i Guds Nafne, vara þig, Slijkt vill þier lijted gagna aa þiñe Dauda-Stundu, Pvi hiñ Ogudlege skal deya fyrer sijnar Synder segier DRotteñ, Ezech. 13. Jafnvel þo hiñ Riettlaate Gud, vilie krefia hañs Bloods af þess Kieñemañs Hende, Er forsoomar ad segia honum til Syndareñar.

Pad er merkeleat sem hier stendur i Gudspiallenu, Ad aadur eñ DRotteñ fieck Læresveinunum i Hendur Lykla-Vallded, þa blies hañ aa þaa og sagde: Medtaked Heilagañ Anda. Nu þoott Andans Gafa sie ecke so rijk aa þessum Dogum hiaa Guds Pienurum so sem hun þa var, Par Vitnisburdureñ JEsu Christi er vidtekeñ af ollum þeim

er Christner kallast, Og jafnvel af þeim medkiendur sem ecke epter honum lifa, Samt er
eingeñ Efe ꜳ þvi ad Guds Ande er i þeim og verkar med þeim sem hañ þar um̃ bidia af
Hiarta, Og rækia sitt Embætte. Eñ hver sem ad bodar Ydrunarlausum Kvittun
Syndaña, og hañ veit þad, hañ talar ecke af Guds Anda, Þvi Andans Embætte er ad
straffa Heimeñ um̃ Syndena, Joh. 16. Eñ eckert er Stioornleyse meira, eñ ad seg-
ia þa Synd kvitta sem ei er, Og sa þad giorer, hañ stioornast ecke af Heilogum Anda,
helldur dregur bæde sialfañ sig og adra ꜳ Tꜳlar. Nu kañ einhvor ad þeinkia, fyrst
ad Kvittun Syndaña er þar i foolgeñ, ad Madur ydrest þeirra og trwe Christs For-
þienustu, Hvad þarf eg þa Prestsens Þioonustu vid? Mier næger þad ad eg ydrast og
trwe. Ei er hun þar fyrer Gagnlaus, Christeñ Madur, helldur Omissande, þvi fyr-
er utañ þad ad margur er Veikur, margur Trwarlijtell, margur Sturladur, margur
Freistadur, margur Efasamur, Þa eru þetta Guds Ord og Fyrerheit. Hver ert þu
þa sem forsmꜳer Christi Skickan? Veitst þu betur hvad Syndugum Mañe gagn-
ar til Sꜳluhiꜳlpar, helldur eñ hañ sem þier hefur hana afrekad med sijnum Dauda?
Þad er vijst, ad Gud bæde vill og kañ ad giora hañ hoolpeñ sem ecke nær Heilagre Skij-
rn, eñ hvor sem hana forsmꜳer, Þad verdur honum til Fordæmingar, og vidlijkt er i
þessu; Sꜳ sem ei kañ ad nꜳ Prests Funde, Þa er honum þad fullt, ad Guds Ande
uppvekur i honum saña Ydran fyrer Syndernar, og Trwna ꜳ JEsum, og hañ hefur
noog i hiñe Andlegu Nautn er DRotteñ talar um̃ hiꜳ Johañem, Cap. 6. Segiande:
Hvor sem Etur mitt Holld og Dreckur mitt Blood, Hañ skal ecke Daudañ smacka ad
Eilijfu, under hvoria ad Ande DRotteñs asleyser hañ med þeim Vitnisburde, ad hañ
sie Guds Barn, Rom. 8. Eñ sꜳ sem forsmꜳer þau Medol er Guds Sonur hefur
skyckad og iñsett hier til, Edur þykest þeirra ei vid þurfa, Hañ mꜳ ei Christeñ Mañ nef-
na, Eñ þad munu þeir einer þykiast giora meiga, er Syndeñ ecke miog til Hiarta geing-
ur, Og heiter þad þa so, ad Heiler þurfa ecke Læknarans vid, Matth. 9. Hiner sem ad
hun er Ofþwng Byrde vordeñ, So ad þeir hafa ecke Frid i Beinum sijnum fyrer heñe,
Ps. 38. Þeir munu Alls-Hugar feigner verda þessum Myskunar-Ordum: Hvad
þier leysed ꜳ Jordu, Þad skal ꜳ Himnum leyst verda, Matth. 16. Þeir þyggia med
allre Hiartans Audmykt eina Huggunar-Grein af Muñe Guds Ords Þienara, So
sem eiñ Svala-Dryck af Guds Nꜳdar-Bruñe uppauseñ. Eñ hvorier eru hiner?
Eg Ottast þad mune meira vera Dofe Samvitskuñar, helldur eñ Heilbrygde, Er þeir
reida sig uppꜳ. Eg hefe talad vid suma Meñ, sem hafa lꜳted sier um̃ Muñ fara, ad
þau Ord er standa i vorum Skriptargꜳnge: Eg er hin syndugasta og svijvirdelegasta
Mañeskia sem verda mꜳ bæde fyrer Gude og Moñum; Þau villdu þeir ecke so vidkañ-
ast, þvi ad þeir væru frij fyrer sumum Glæpum sem adrer drygia, og sijnest þess vegna ad
þad sie nockurskonar Hræsne fyrer Gude, ad jꜳta sig ad vera hiñ stærsta Syndara.
Eñ eg Ottast ad slijkt kome nockud af Rañsooknarleyse sialfs sijns, Hver þecker Mañ-
aña Hiortu, nema sꜳ sem þau skapad hefur? Hvor kañ ad vita hvorsu mikla Krapta

eiñ

eiñ hefur til ad mootstanda Syndeñe, Nema hañ sem þa giefed hefur? Hvor veit nema eg sie stærre Syndare sem hañ meira laanad hefur, helldur eñ hiñ sem ad verr lifer fyrer Moñunum? Eg sie margañ drygia þær Synder, sem eg vil bidia Gud ad vardveita mig fraa, Eñ kañ skie ad miñ Skapnadur sie þañig, ad eg hafe Vidbiood aa þeim, og er þad ecke mier ad þacka, eñ life þo epter Girndum mijnum i odru sem eg er Lundlageñ aa, og hañ er ecke giefeñ fyrer, verda maa og ad hañ hafe ecke þeiged so mikla Andans Naad til ad strijda i giegn Syndeñe sem eg. Eñ hvorsu opt mootstend eg nu Guds Anda, þegar hañ miñer mig aa ad giora þad ecke sem eg kalla litla Synd, edur laata af þvi sem eg er vanur til, Eñ þyker ecke stoort i spuñed vera? Þegar eg þetta skoda, Þa vil eg siaa til hvort þesse Synd kañ ecke ad verda so fordæmañlig i Guds Auglite, So sem hid versta Mord hiaa þeim sem ad Gud kañskie ecke eñ þa so alvarlega Tuktad hefur med Strøffun sijns Anda, Og hvorneñ sem þessu er vared, Þa veit eg eitt, ad eingeñ veit betur hvar Skooreñ ad honum krepper, helldur eñ saa sem hañ ber aa Fætenum. So þecke eg og hiaa eingum fleire Synder eñ hiaa mier, Þvi eg er eingum so margra samvitande, og þad munu aller segia, er Nañsaka Hiarta sitt ytarlega; Eñ sieu þar adrer syndugre, þad veit Gud, Eg veit þad ecke, Og fell eg þa i Forundran yfer hañs Giæsku og Þoleñmæde yfer þeim, þvi mier þyker varla meiga aa þad auka, ad hañ mig sparar. Hier segiest og ecke; Eg hefe allar Synder drygt, helldur allskyns. Margur er saa ed ecke hefur Mañ veiged, Ecke kreinkt sijns Naaunga Hwsfrw, Ecke stoled med Leynd, Ecke Fals-Vitne bored; Eñ saa sem vill segia, ad hañ ei hafe drygt neitt þvilijkt, hañ segier under eins, ad hañ hafe þesse Bodord hallded, Sem eg þore ad segia valla mune nockur vera, og þvi er þesse Jaatning riett, og ecke einasta riett, helldur þarfleg hvorium Christnum Mañe, og hafe Meñ ecke añad til Dæmis hier um̃, þa hafa Meñ Ord Pauls, Er hañ segier: Þad er sañarlegt Ord og i allañ Maata verdugt ad medtakast, ad JEsus Christus er komeñ i þeña Heim synduga Meñ Saaluhølpna ad giora, a medal hvorra eg em hiñ meste, 1. Tim. 1; Og er þetta nu sagt um̃ þa, sem ad Kalld-siñader eru i þeirra Jaatningu og Ydran fyrer Gude. Eñ þoott ad hiner sem ad ofbijdur Stærd siña Jllgiorda, og Guds Reide er þeir forþienad hafa, Þott þeir, Segie eg, sieu nær Guds Rijke, Þa er þeim samt nærsta hætt, Nema þeir stioornest af Anda DRottens, sem bijr i hañs Orde, þvi Diofulleñ er slægur, So sem hañ kañ ad mijnka Syndena fyrer hinum Toomlaata og Hyrdulausa, So gietur hañ og stækkad hana fyrer hinum Angraada og Hugsiwka. Eñ laat þier til Hugar koma Guds Barn, ad þad eru ecke Kraptar þiñar Naatturu, sem ad uppvekia i þier soddañ Trega, helldur er þad Ande Guds, sem ad straffar Syndena þier til Leidriettingar, Hañ sem ad sært hefur Hiarta þitt med Brodde Løgmaalsins, Os. 6. Hønum er ecke um̃ Megn ad græda þig med Smyrslum Evangelij. Saa sem vill giora einhvorn Kostulegañ Grip af Gullenu, Hañ smellter þad aadur med Elldenum; So lætur Guds Ande þitt Hiarta braadna i þier so sem añad Vax med Þeckingu Syndareñar, So þu verder þess Kostulegre i Guds Auglite nær hañ svalar þier aptur.

med Huggun siñe. Saa sem meir er fyrergiefed hañ elskar meir, sagde DRottenñ ford-
um vid Simon, Luc. 7. Eñ þu veitst ecke hvad miked þier er fyrergiefed, Nema þier
hitne alvarlega um̃ Hiartaræturnar wt af Tilfiñingu eilijfra Pijsla, sem þu hefur for-
þienad. Vert þvi Efalaus um̃ Kvittun Synda þiña, nær þu ert so a þig komeñ. Ad
soñu er þad satt, ad stoor Saar þurfa mikla Græðslu, og ad Synder vorar sieu hin ver-
stu Saar, Þad verdur ei wtskafed. Eñ David segier, Forlaat mier Synd mijna, fyr-
er þijns Nafns Skulld, þvi hun er mikel, Sieu þær nu miklar, þa er þo hañs Nafn meira,
hvorium Gud hefur giefed Nafn yfer ollum Nofnum, Phil. 2. Hvort er hañs Na-
fn? Eilijfur Fader og Fridar Hofdinge, Es. 9. Þar fyrer, so sem Fadereñ er Born-
unum Lijknsamur, So vill hañ vera oss Myskunsamur. Hañs Naad yfergnæfer allañ
Skilning; Þar fyrer kañ Syndeñ alldrei ad vekia so mikla Styriolld i aangraadu
Hiarta, ad hvar sem ad hun yfergnæfer, þar yfergnæfe þo Naadeñ miklu framar, Rom.
5. Gud doo ecke til þess, ad þu skyllder orvænta, helldur trwa. Meira kostade hañ ad
gialda fyrer þijnar Synder, helldur eñ fyrergiefa sijdañ. Bæt þess vegna ecke þvi of-
añ a allar þijnar Synder, ad þu giorer honum þañ Oriett, ad hañ sem þolde hiñ
smaanarlega Dauda og bitrustu Helvijtis Pijsler fyrer hinar Verstu og Hrooplegustu
Skam̃er siña Ovina, hañ mune burtu reka fraa sier eiñ ydrande Syndara sem til hañs
kiemur i Nafne hañs Forþienustu. Hverke Ydranena nie Trwna tekur þu af siaalfum
þier, hañ sem kveikte i þier Ydranena, hañ mun ei laata Trwna vanta, Þvi hañ veit, ad
hin er Onijt aan þessarar. Þar fyrer, Nær þu hefur hiñ mesta Oþocka a siaalfum þi-
er, Þa ert þu Gude hvad þeckastur, Þvi meire Glede er i Himnenum yfer einum Synd-
ugum sem Ydran giorer, Helldur eñ yfer 99. Riettlaatum, Luc. 15.

Nu þecke eg suma Meñ og hefe þeckt, sem ad soñu ecke efast um̃ Krapt og Verduglei-
ka JEsu Forþienustu, nie Guds Omælañlega Myskunseme, ad þeim mune Syndernar
fyrergiefast, ef þeir giora verduga Ydran, Eñ þad liggur þeim yfermaata þwngt i Ska-
pe, ad þeir faae ei so heita Ydran giort, ad hun sambioode Stærd og Fiollda Synd-
aña, af þvi þeir eru sier hiña verstu Glæpa og Bodorda Brota medvitande, eñ þeir faae
ecke so Hiarta sitt i sundurmared med Logmaalsins Hamre, sem honum lijke, er ecke bijr
nema i sundurknosudum Hiortum, Es. 57. Og er þetta ad soñu ecke Ofyrersynia, þvi
eiga soddañ Mañeskiur ad kosta ollum Saalar og Lijfs Kroptum til ad sundurslijta og
plaaga Hiarta sitt med yduglegre Miñingu þeirra Glæpa er þeir drygt hafa, og ecke sijd-
ur Giæsku DRotteñs er þeir hafa styggt, helldur eñ hañs Reide, og mun þess Haattar
Mañeskia fyrer yduglega Bæn og Vana, aan alls Efa faa Gyrnd sijns Hiarta af hon-
um, er þesse Foorn alleina lijkar, Ps. 51. Eñ þoott ad Taareñ reñe ecke af Augunum,
þa er þad a Stundum Natturuñar Brestur, og heimtar Gud þad af eingum sem hañ
hefur ecke giefed honum. Noog er þad, ef hiñ iñre Madureñ klagar sig, aasakar, Sak-
feller og straffar. Eñ ef þier virdast þijnar Synder eñ þa stærre, eñ ad þier lijke vid
siaalfañ þig, Þa vit, ad þetta er hin þægelegasta og mesta Yferboot hiaa Gude, sem af þiñe

Hende

Hende maa fram̃koma, Og munt þu heyra med St. Paale; Laat þier nægiast mijna Naad, Miñ Kraptur er i Breyskuni maattugur, 2. Cor. 12. Og er'ei Olijkt ad hiñ Alvijse Gud giøre þier slijkt til Gooda, Þvi ef þu hætteſt hafa ad fullu Ydran giørt fyrer Syndernar, Þa maa skie, ad þier være hætt vid ad falla til þeirra aptur. Hallt þier þess vegna vid hañs Myskunar-Fætur, Og slepp hønum ecke fyrr eñ hañ hefur blessad þig. Hier er oss gott ad vera sagde Petur, Þegar JEsus Forklaaradest aa Fiallenu Helga; Vier vilium giøra hier Þriaar Tialldbwder, Þier Eina, Moysi Eina og Eliæ Eina, sagde hañ, Matth. 17. Eg gledst ad søñu med Petre af þessare Dijrdar Sioon, 2. Pet. 1 Og daaest ad heñe i allañ Maata, Eñ þore þo ecke ad Oska mier hiñar somu, aa medañ eg ber epter mier Lijkama þessa Dauda, þeñañ fwla Synda-Seck, þeñañ vonda Ham, fullañ allra Gyrnda og Lasta, þvi eg kvijde vid ad mijn syndug Augu, er so margt Illt hafa sied, og vænt um̃ þott, ad þau mundu ecke standast þañ Himneska Dijrdar-Liooma, mier munde hid sama i Hug koma og Manoha sagde fordum Daga vid Kviñu sijna, Vid høfum sied Eingel DRottens, Þvi munum vid Eflaust deya, Jud. 13. Eñ mætte mier þad heppnast O HErra JEsu! sem hiñe Bersyndugu Fordum, ad skrijda ad þijnum blessudu Footum, og þvo þær i Taarum mijns Hiarta, og smyria med Oleo miñar Ydranar, Luc. 7. Þa villda eg segia: Hier er mier gott ad vera, Þar vil eg flatur liggia, Þadañ skal mig eingeñ draga, Þar skal mig eingeñ fordæma, Þar skal eingeñ mier um̃ mijnar Synder brijxla, helldur mun eg heyra þau Fagnadar Ord, Hønum fyrergafst miked, Þvi hañ elskade miked; Far i Fride, Þijn Trwa giørde þig hoolpeñ. O! HErra, Þegar vier kostum oss flater til Skarar Foota þiña, Ps. 110. Ecke med Ovinum þijnum, helldur med þessare Saka-Konu, Þa laat þiñ gooda Anda mæla þesse Huggunar Ord i vorum Hiørtum. Bænheyr þad Naadarfulle Gud, Fyrer JEsu þijns Sonar Forþienustu, Og gief oss þar til þessa þijns sama Anda Styrk, og Adstod i hañs Nafne, Amen.

# Añañ Suñudag epter Paaska.

## Gudspialled, Joh. 10. Cap.

JEsus sagde til Gydingaña: Eg em goodur Hyrder. Goodur Hyrder giefur sitt Lijf wt fyrer sijna Saude, Eñ Leigulideñ og hañ sem ecke er Hyrder, Hvørs ad Sauderner eru ecke Eigeñleger; Nær hañ sier Ulfeñ koma, þa yfergiefur hañ Saudena, og flijr i burt. Og Ulfureñ grijpur Saudena, og sundurdreifer þeim. Eñ Leiguliðeñ flijr, af þvi hañ er Leigulide, og giæter ecke Saudaña. Eg em goodur Hyrder, Og eg þecke mijna Saude, Og eg þeckest af mijnum; So sem Fadereñ þecker mig, Og eg þecke Fødureñ, Og eg legg mitt Lijf wt fyrer mijna Saude. Eg hefe og adra Saude,

Sem

Sem ei eru af þessu Sauda-Hwse, Þa byriar mier og hier-til ad leida, Og þeir munu heyra mijna Rodd. Og þar mun verda eitt Sauda-Hws, Og eitt Hyrder.

## Exordium.

I Fyrra Pistle til Tim. 3. Segier Postuleñ, Ad þad sie mikell Leyndardoomur Gudhrædsluñar, ad Christur sie Heidingiunum Predikadur. Gudhrædslu nefner hañ hier Christeñdoomeñ, So sem vijdar Añarstadar i sijnum Pistlum, Pad er hiñ saña Lærdoom uñ Frelsara Heimsins. Pad er sw Gledelega Hyrdersins Raust, Er D Rotteñ talar uñ hier i Gudspiallenu, Hver og hefur fagurt læted at medal vor, Pvi segier hañ: Eg Hefe Og Adra Saude Sem Ecke Eru Af Pessu Sauda-Hwse, I hvorium hañ bender til Spaadooms Ezechielis 37. Cap. Hvar D Rotteñ so talar: Miñ Pioon David skal vera Konungur yfer þeim, Og þeir skulu aller hafa eiñ Hyrder, ad þeir gange i mijnum Riettindum. Gledelegt er þetta ad heyra, Br. M. fyrer þad Foolk er sat i Myrkrunum, Esa. 9. Og fyrer þeirra Epterkomendur, Sem erum vier. Eñ so Gledelegt sem þad er, So Hryggelegt er til þess ad vita, ad þeir eru so faaer sem þad vill rætast a, nu a þessum verstu og sijdurstu Doaum, Pvi svo feigens Hende sem ad marger af Heidingium tooku a moote hinu Fyrsta Christnes Bode; Svo faaer eru nu þeir vordner, sem ecke drepe Hendeñe vid þessare Guds Naad, Og so sem ad Christur fañ varla þañ er hañ þeckte i siñe Fyrre Tilkomu, So er ad ugga, ad hvad sem hañ tefur wr þessu ad koma, þa mune hañ valla fiña Trw a Jordu, Luc. 18. Edur þaa er hañ þecke fyrer sijna. Og fyrer þad, ad þad er so Almeñt vorded, ad Daufheyrast vid Raustu hiñs gooda Hyrders, Pa vil eg wt af Evangelio tala uñ þaa Hlute er kuña ad uppvekia oss til ad liaa heñe vor Eyru, So ad vier ecke wt af sofnum i Daudanum. Gief oss þar til þiñ Anda Himneske Fadir, Fyrer JESU Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Vakna upp þu sem sefur, og rijs upp af Daudanum, segier Postuleñ, Eph. 5. So mun Christur upplijsa þig. Eñ hvar vid skyllde saa vakna er sefur i Syndunum? Hvar vid skyllde hañ upprijsa sem er daudur i þeim? Nema vid Raust hins gooda Hyrders, Er sagde Fordum Daga, Þa hañ framsette Epterlijkinguna uñ Sæded, Matth. 13: Hvort ad er Guds Ord, Hvor Eyru hefur ad heyra, Hañ heyre. Guds Rodd er þetta eñ ecke Mañа, sagde Foolked þad er heyrde a Tal Herodis, af þvi hañ talade so sniallt, Act. 12. Eñ eg maa þad ollu helldur færa heim til þessa gooda Hyrders Saudaña, þess Biskupsens med þa vellærdu Tunguna, Es. 50. Pad eru Guds Ord, eñ ecke Maña er hañ talar, og þykest eg noog hafa sagt, þegar eg segie, ad þad Guds Ord sieu. Pu syndugur Madur er þetta heyrer, Laat hier þad til Hiarta gaanga, og hugsa hvor saa er sem vid þig talar, Pad er eingeñ Jardneskur Hofdinge, ecke Konungur edur

edur Keysare, og munder þu þo heyra þa med hiñe mestu Athygle, Eñ þad er DRottEñ Himens og Jardar, sꜳ ed hefur Konungaña Hiortu sier i Hende, og oll Verollden leikur fyrer honum ꜳ Reide-Skiꜳlfe þegar hañ talar, Prov. 21. Mikill mꜳ vera Munur Abrahams Forfodurs og þijn, ad þegar hañ talade vid DRottEñ og þo i Mañs-Lijke, þa vard hañ so audmiwkur ad hañ sagde: Nu villda eg þo tala vid DRottEñ þoott ad eg sie Molld og Aska, Gen. 18. Og rak sꜳ Guds Madur þo aññara Eyrende og ecke sitt i þad Siñ, Eñ þu sem ad liggur hrasadur medal Ræningia, Luc. 10. Og gietur þier einga Biorg veitt, Jꜳ, Þu sem vellter þier i Syndunum Daglega eins og eiñ Madur i siñe Hvijlu, Þu villt ecke heyra þegar DRottEñ kallar i sijnu Heilaga Orde. Hugleid ad ef þu ætter ad taka Eyrende nockru af Hofdingia einhvorium, Og þu svarader honum ollu odru eñ þvi sem til þess heyrde, Edur þu lietest þad ecke heyra, Munde hañ ecke brꜳdlega reidur verda og reka þig ꜳ Dyr? Edur lꜳta i Fiotur kasta? O! hvad miked skilur þa Gud og Meñena? Hvorsu opt kallar hañ oss fyrer sig i sijnu Heilaga Orde? Hvorsu opt verda oss hañs Eyrende ꜳ Hendur faleñ? Hvad tijdt bijdur hañ oss hvad vier giora skulum, og Ogiort lꜳta? Eñ þad geingur eins fyrer morgum af oss, Eins og Syrach skrifar uñ hiñ Heimska, ad þad er eins vid hañ ad tala og þañ ed sefur, Nær þu hafder loked Ræduñe, spyr hañ epter hvad þu sagder, Syr. 22. Eins geingur þad morgum þeim ed Orded heyra edur lesa: Meñ muna þad varla medañ þad heyrt edur lesed er, Auk helldur ad þeir fære þess nockurn Avoxt, Riett eins og St. Jacob talar hier uñ, Ad ef nockur er Ordsens Heyrare og ecke Giorare, hañ sie lijkur þeim Mañe, er siñ Nꜳttuꝛlegañ Yferlit i Speigle skodar, Jac. 1. Þvi hañ skodade sig, gieck burt og gleymde hvilijkur hañ var. So sꜳum vier (ef vier þo sumer ad þvi gætum) i Heilogu Guds Orde, Hañs Giædsku og vora Illsku, Hañs Þoleñmæde og vora Þvermoodsku, Hañs O-wtsegiañlegañ Kiærleika og vort Hatur og Leida sem vier berum til hañs Riettinda, Eñ vier gleymum þvi so flioott ad þad hefur lijteñ Stad hiꜳ oss til Apturhvarfs frꜳ Syndunum nie Lifnadarens Leidriettingar. Gætum þo ad þvi i JEsu Nafne, gætum ad hvorsu dijrmætt ad þetta Orded er, Og hvad miked þad hefur kostad oss ad byrta. Þad er ecke eins og þad Orded er Gud talade i Upphafe, Og skoop þar med Himen og Jord, Gen. 1. Ecke eins og þad hañ talade til vorra Fyrstu Forelldra, Er hañ straffade þau fyrer Syndena, og rak wt af Paradijs, Gen. 3. Ecke eins og þad hañ talade til Israels Sona i Eydemorkeñe, og þeir beidduzt undañ ad heyra þad, Exod. 20. Helldur er þad Lijfsins Ord, Joh. 6. Fyrer hvert ad Guds Sonur hefur uppꜳ sig teked vort auma Holld og Blood, Og i þessu sama Hollde lided allar Eymder Mañlegs Holldz, Hwngur, Þorsta, Klædleyse, Utlegd, Orbyrgd, Hꜳdungar og Brixle Ogudlegra Maña, Offsookner, Fiotur, Hrꜳka, Hwdstrokur, Hogg og Slog, Og ad sijdurstu hiñ Smꜳnarlega Dauda ꜳ Krossens Gꜳlga.

Allt þetta vañ hin Eilijfa Hꜳtign til þess ad Opeñbera þetta Lijfsins Ord sijnum Fiand-Moñum er geinged hofdu i Sveit med Andskotanum. Og þo skamast sijn ecke eirn

Giaalijfur og Pverbroteň Syndare ad troda þessa Guds Gaafu under Footunum, læt-
ur naudga sier til ad heyra þad og læra, Og kallar þeim veitt i sem Guds Sonar Umbod
aa Hende hafa, Ef þeir faa þryst honum til ad sijna sig under Heyrn Guds Orda, Seig
mier þu sem ekur þier vid ad sitia under eiňe Predikun, Hvert mun Guds Son hafa kost-
ad meira ad faa sitt Ord þier Opeňberad, Edur þig ad heyra þad? Pu munt nærre gie-
ta er þu les haňs Pijslar-Sogu, Hitt veit eg ad haň laangade til ad lijda allar þær Kval-
er sem þar i ritadar eru þiňa vegna, Eň hvert þig laangar so til ad heyra þad Orded af
Krossenum, Pad bid eg sialfaň þig ad Hugleida. Segied mier eň aptur: Hvers veg-
na mun hiň goode Gud hafa uňed so miked til aumra Maňa Saaluhiaalpar? Purfte
haň þess sialfur vid? Fiærre sie þvi: Himnarner wtskijra haňs Dijrd, Og Festingeň
Verk haňs Handa, Ps. 19. Munde haň hafa lided nockurn Skort aa Dijrd siňe, þoott
Maňeskiaň hefde Eilijflega kvalest i Helvijte? Nei, Eins Vegsamlegt hefde vered haňs
Riettlæte, So sem nu er haňs Giædska, þoott eingum hefde haň Myskunad, Er honum
nockud veitt i vorre Pioonustu? Laangt fraa, Par standa fraṁe fyrer honum Otal Pu-
sund Himneskra Herskara, Sem lofa haň og prijsa aan Aflaats Noott og Dag, Hverra
Dijrdlegar Radder og Lof-Saungvar laangt yfer gaanga vort syndugt Kvak, Er vier
laatunst vegsama Gud med hier aa Jorduňe. Hvar fyrer lætur haň þa sitt dijrmæta
Ord predika? Hverium til Gagns og Gooda? Pier, Pier, O! þu Rænulaus og Pv-
erbroteň Syndare, Og þad wt af einskiærre Naad siňe, Og þo leggia synduger Meň þeňa
Himneska Leyndardoom ad so litlu, Ad Meň vilia naalægt allt aňad heyra. Sie þad ei
aňad sem kuňe ad þvijnga oss til ad hafa Mætur aa Guds Heilaga Orde, Pa lijtum til
vorrar saurugrar Fædingar; Hvad vorum vier nær vier fæddunst i Heim þeňa af Mood
ur Lijfe? Reideňar Born, Eph. 2. Eintoomis Holld og Blood, Joh. 3. Sem ei kaň
Guds Rijke ad erfa, 1. Cor. 15. Eň hvad erum vier nu? Guds Born og Erfing-
iar Eilijfs Lijfs, Gal. 4. Ef vier trwum aa Guds Son og vardveitum haňs Ord;
Eň hvar fyrer er þad skied? Mun ecke fyrer Guds Heilagt Ord? Hvort ad er i Vatn-
enu og med Vatnenu, Nær vier gierunst Guds Born af Reideňar-Bornum i Heilaare
Vatns Laug. So er þa Guds Heilaga Ord hin Fyrsta Mioolk, Hvoria vier iňdreck-
um strax med Moodur-Mioolkeňe, Fyrer hvoria vier odlunst hid Andlega Lijf, aan hv-
ors hid Lijkamlega, er eckert aňad eň Daude. Eň Gud naade oss Auma og Synduga,
Ad þegar vier drogunst aa Legg, Pa velger oss vid þessare Barna-Fædu, aan hvorrar
eingeň Spekingur, Eingeň Meistare, Eingeň Doctor hefur þo Fullordeň giorst i Guds
Peckingu. Eň hvad velldur þvi, Br. mijner? Pad medal aňara, Ad marger Ovit-
rer og Hyrdulauser Forelldrar, Er sialfer kaňskie lijted edur eckert vita sier til Saalu-
Hiaalpar, Peir leyfa Bornunum fyrr ad veniast aa Brioost hiňar Giaalijfu Hooru
Veralldareňar, helldur eň a hina Skynsamlegu og Osviknu Mioolk er St. Petur dreck-
ur þeim til af, 1. Pet. 2. Ad þau vaxe i heňe. Giæted þo ad Saalum ydar, Christner
Meň, þoott þier ecke miked hyrded uṁ Saaler Barna ydar, Pvi Gud mun Eflaust kref-
ia

ia þeirra af ydar Hende, Ezech. 33. Sem vegna ydar Forsoomunar eilijflega glatadar verda. Eñ þoott ad þad hafe vered Forelldraña Skulld ad þau hafe ei uppfrædt nockurn a hañs Ungmeñis Alldre, Pa vite hañ samt, ad þad verdur hañs eigeñ Skulld begar hañ kiemur til Vits og Ara, Ef hañ fer aafram i slijku Ovite og Hyrduleyse: Par fyrer ef nockur er sa, ad hañ vante þad er hañ vita þarf til siñar Saaluhiaalpar, Sem eg dylst ecke vid, ad fleire eñ færre vera mune, Pa laate hañ sier um̃ alla Hlute fram̃ vera añtum̃, ad faa þess Leidrietting hiaa þeim sem betur vita, Ef hañ elskar Saalu sijna, og skam̃est sijn ecke, Pvi fyrer hvorium vill hañ skam̃ast sijn? Ecke fyrer sijnum Saalusorgara, Pvi ef þar er nockur Guds Anda Neiste i hønum, Pa mun hañ fagna þvi, ad eirn Faafroodur Vesælingur vill leita Raads til hañs i sijnum Saaluhiaalpar Efnum; Ecke fyrer neinum Gudhræddum edur Vitrum Mañe, Pvi so laangt er fraa þvi ad nockur sa sem Gud elskar mune hlæa ad þvi, ad þeir mundu kalla þad Lofs verdt, og vera eins Lynder og þeir sem i Himnenum eru, Hvar meire Føgnudur er yfer einum Syndara, sem Ydran giører, helldur eñ yfer 99. Riettlaatum, Luc. 15. Fyrer hvorium skyllde hañ þa skam̃ast sijn? Fyrer Gaarungum Veralldareñar sem jafnvel hlæa ad Gude og øllu þvi hønum tilheyrer. Eñ þess er stoor Munur ad taka a moote þvi Spotte sem einkis er verdt, og ad standa med Kiñ-Roda fyrer Guds Doome a sijdarsta Deige, og hverneg sem øllu þessu er vared, Pa hygged ad, hvort ad sie miñe Mijnkun ad aller vite þad eiñ verde ad fara til Helvijtis fyrer Vanvitsku Saker, Ellegar ad Leidriettast af ødrum sem betur vita, So Meñ kuñe ad verda Erfingiar eilijfs Lijfs. Nu er þad ecke noog Guds Barn, ad þu kuñer þiñ Barna Lærdoom, og viter hvad þu aatt ad trwa, og nockurn Veigeñ ad giøra, Par eru so mørg Tilfelle sem ad oss mæta a hiñe Hættusomu Reisu fraa Vøgguñe til Grafareñar, Bæde i Andlegañ og Lijkamlegañ Maata, ad sa sem vill fara hina riettu Leid, Hañ gietur ecke vered aan Leidarvijsers Guds Heilagra Orda, Hvørt David segier ad sie Lioos a sijnum Vegum og Lampe Foota siña, Ps. 119. Hañ sem þo var eiñ vitur Kouungur. Med Guds Orde verdum vier Endurfædder, med Guds Orde Uppfrædder; Pau temia vorn Ungdoom, styrkia Fullordens Areñ, hugga Ellena. Hvad er eirn Unglingur sa ed ecke hefur Gud sier fyrer Augum? Hañ er eitt Raadlaust Villudijr, eiñ galeñ Fole, Pvi segier David: Hvernig kañ Æsku-Madureñ ad gaanga siñ Veg Ostraffañlega? Ef hañ helldur sier vid þijn Ord, Ps. 119. Pvi verdur mørgum þeim er Guds Ord og goodar Menter forsmaa i Ungdoomenum, ad þeir elldast alldrei þoott þeir Attræder verde; Eñ hvar eiga þeir Gud ad fiña? Hvar eiga þeir hañ ad siaa? Nema i hañs Orde. Hvad er Madureñ þa hañ er Fullordeñ aan Guds Orda? Laatum hønum Rijkdoom hlotnast, Hañ er Satans og Mamons Pienare, Nema hañ lære i goodum Verkum rijkur ad vera, Sem Paulus bijdur, 1. Tim. 6. Eñ hvar skal hañ þad læra nema i Guds Orde? Laatum hañ setiast i Metord og Virdingar, Hvad er hañ fyrer utañ Leid-Søgu Guds Orda? Eitt Skip fyrer utañ Stijre, Nockurskonar Rik sem Vindureñ upp i Lopted feiker, Pad siaaum vier (þvi

 verr

verr) a morgum Afglapa, sem ad Luckañ tiller upp i hæañ Sess, sialfum sier a stund-
um til Spotts og Mijnkunar, eñ odrum til Skada og Meinsemdar. Elleñ er ad soñu
i sialfre sier heidarleg, Jafnvel epter Guds Bode, Levit. 19. Oskande være ad hiner
Ungu hefde þar epter Vilia edur Vit a ad sijna heñe tilbærelegan Heidur. Eñ eiñ
gamall Madur fyrer utañ Otta DRottens, er Vidundur Veralldar, Þvi Guds Otte
er þad sem hañ atte framar ollu ad læra a sijnum Æfe-Stundum og kuña odrum ad
kieña sem yngre eru, Ma þvi sijnast ad hañ hafe lijteñ Avoxt Æfe siñar, Ef hañ er Ung-
um verre i Þeckingu Guds og hañs Heilogu Orda. Segied mier: J hvoriu er vor
Christeñdoomur mest foolgeñ? J þeim Þremur Hlutum ad eg meina, Ad ydrast Synd-
aña, Ad trwa þær verde sier fyrer Christum fyrergiefnar, Og so ad læta af þeim fram-
veigis. Eñ hverneg villtu þeckia Syndena, Nema Guds Ord sijne þier hana? Þad
er eiñ Speigell i hvorium Madureñ kañ ad skoda hvilijkur hañ sie. Ared edur Agner-
nar i Loptenu faum vier ecke sied, Nema i Soolar-Geislanum. Giætum þess, Bræd-
ur mijner, Ad þoott oss sie i Bodordunum sagt, hvad vier eigum ad giora og Ogiort las-
ta, Þa er þad margt smaatt i Fare voru sem Bodordunum er mootstædelegt, Og vier
mundum ecke skynia nema oss være þad framar sijnt af Guds Heilaga Orde, Sem ad er
hiñ Fegurste Geisle þeirrar Blessudu Riettlætis Soolar. Eñ eingeñ er afsakadur þoott
eige vite hañ Guds Vilia, Þvi sa sem an Logmaals syndgar, Hañ skal an Logmaals fyr-
erfarast, segier Postuleñ, Rom. 2. Hvad eigum vier uñ sialfañ Gud ad tala? Lijt-
ed til hiña Fyrre Dagaña sagde Moyses vid Jsrael, Lijtum til Heidingiaña, Fedra vor-
ra, Hverier ad geingu til Maallausra Skwrgoda og þioonudu þeim, 1. Cor. 12. O!
hvorsu mættum vier þa hinum Allsvalldanda Gude Þacker kuña med graatande Tar-
um, ad hñ hefur oss sijna Hatign, Sijna Giædsku, Sitt Riettlæte, Sijna Poleñmæde og
sijna Guddoomlega Speke opeñberad i sijnu Heilaga Orde, So ad nær vier berum vort
saurugt Lijferne, er vier skodum i Speigle Logmaalsens, samañ vid hañs Guddoomleg-
añ Tignar-Liooma, Þa faum vier Vit a ad skamast vor, ad ydrast, ad audmykia oss
under Volduga Guds Hond, og Offra honum þeirre Foorneñe er honum alleina lijk-
ar af vorre Hende, sem er Harmþrwngeñ og sundurknosadur Ande, Ps. 51. Nu þeg-
ar vier hofum so þeckt Syndena, og siaum oss ecke añad bwed eñ Eilijfar Helvijtis
Pijsler, Hvar villdum vier fa Boot vid þessu? Være oss þad ecke opeñberad i Guds
Orde, ad hañs Sonur være i Heimeñ komeñ til ad kalla Synduga og ecke Riettlata
til Ydrunar, Matth. 9. Þegar Andskoteñ lætur einum Glæpa-Mañe, sem allañ siñ
Alldur hefur i Vondskuñe aled, Ofbiooda þær Syndernar sem hañ hefur lockad hañ
til, so hañ a skamt til ad Orvæænta sier Guds Naadar. Hvar vill hañ fa Boot vid
þessu? Ef ei hefde hañ þau Lyknar-Ord Guds, Ad so sañarlega sem hañ life, vilie hañ
ecke Syndarans Dauda, Ezech. 33. Og oñur þvilijk. Nu þegar þu att ad uppbyria
hina niju Hlijdne, og sijna ad þu siert Guds Barn vordeñ af Þræl Syndareñar, Eñ
Andskoteñ, Heimureñ og Hollded freista þijn, Hvar villt þu fa Raad til ad wtslockva oll

Ello

Endleg Skeyte hins Þrettvijsa, Eph. 6. Nema i Guds Orde? Hver kieñer þier ad Krossfesta Hollded med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Nema Guds Ord? Hver yferviñur Heimeñ, Nema saa sem fæddur er af Gude? 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þvi hañs Sæde er i honum segier Johañes, 1. Pist. 3. Hvort er þad Sæded? Þad er Guds Ord segier DRotteñ i Epterlijkinguñe hiaa Lucam, Cap. 8.

Hier verd eg og ad miñast nockud aa vora Kyrkiugaungu, og Heyrn Guds Orda i hañs Hwse. Þad er oss ollum vitañlegt, Ad i sijnu Mustere hefur Gud sett Miñing sijns Nafns, Þar vill hañ dyrkast og tilbidiast, Exod. 20. Þar eigum vier ad tala vid hañ i vorum Bænum, og heyra hañ aptur til vor talande i sijnu Heilaga Orde, Þar eigum vier ad taka Riettendeñ af Kieñemañsens Muñe, Þvi hañ er Eingell DRotteñs, Malch. 2. Ritningeñ er ad soñu Bruñur hiñs Lifanda Vatns, er Christur vill oss giefa, Hvor sem af þvi dreckur, Hañ mun ecke þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. Eñ vier meigum flester segia, eins og hin faavijsa Samariska Kviña sagde vid JEsum Fordum, Þad er diwpt ofañ i Bruñeñ, Eñ vier hofum eckert ad ausa med. Guds Ords Þienarar eiga ad vera oss i þessu so sem Rebekka var Eleazar Abrahams Sendemañe, ad hun joos Vatned upp af Bruñenum fyrer hañ og hañs Ulfallda, Gen. 24. Eins og Jacob var Rachel, Er hañ vellte hinum mikla Steine af Bruñenum, so heñar Fodur Hiord kuñe ad drecka, Gen. 29. Þeir eiga ad sundurkliwfa Ord Sañleiksins fyrer oss, 2. Tim. 2. Og giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad þeim byriar, Luc. 12. Þvi hvernig meiga þeir trwa nema þeim sie Predikad segier Paulus, Rom. 10. Haf þvi Raad Salomonis er hañ segier, Ecc 5. Vakta þijna Fætur nær þu geingur i Guds Hws, og vert helldur bweñ til ad heyra, eñ til ad giefa Offur hiña Heimsku. Soddañ Offur maa kalla þeirra Guds Þioonustu er byrtast i hañs Hwse, Alleina fyrer Sida-Saker, Eñ hugsa allt añad eñ um̃ þad sem talad er. Nu veit eg þo Christeñ Madur, ad þu segier, Þott mijner Þaankar kuñe ad hvarfla hijngad edur þaangad, Jafnvel under Predikuneñe, þa fæ eg ecke vid þvi giort, hvorsu vel sem eg villde. Eg veit þad er satt, og þad maa hvor Madur odrum jaata, Þvi Mañsins Þaankar eru vonder fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ hitt gieta Meñ vid giort, ad þeir sieu ecke Laungdvolum i burtu nær Meñ under Guds Orda Heyrn sitia. Þvi Raad eru nockur vid þvi, B. G. ad miña verde af þessu helldur eñ kañ skie almeñelega skiedur. Eg vil ecke hier tala um̃ Ogudlegar Mañeskiur er setia sig til ad hugsa allt añad eñ þad sem af Guds Orde talad er, til ad stytta sier med þær Stunder er þeir ættu Gude ad giefa. Um̃ soddañ Andskotans Mustere vil eg ecke tala, Hinum vil eg Raad leggia er giarnañ vilia Orded heyra, eñ faa þad ecke giort sem villdu þeir, fyrer Natturuñar Breiskleika Saker. Hid fyrsta er, ad nær þu geingur i Guds Hws, Þa gior þad ecke af Yferdrepskap, helldur Alvoru. Eñ fyrer þvi ad soddañ Hugarfar tokum vier ecke af sialfum oss, þa bidium Gud Jñelega um̃ ad giefa oss Astundan og Eptertekt siña Heilogu Orda, nær vier Jñgaungum i hñs Hws, hvad nær vier giorum af Hiarta, þa er eingeñ Efe aa þvi, ad hañs Ande bidur fyrer oss

med Outiñrædelegum Andvorpunum, Rom. 8. Og framkvæmer i oß þad gooda Verked. Hid Añad er Elskañ til Guds, Hvoria vier ødlunst bæde med Bænēñe, ef hun er alvarleg og ydugleg, Svo og med sijfelldre Ihugan Guds Tignar og vors Overdugleika, Hañs Orlætis og vorrar Þarfar, Hañs Giæsku og vorrar Illsku, Hañs Þolenmæde og vorrar Þvermoodsku, og kañ oß alldrei ad bresta Orsøk til þessa, þvi a hvørju Augnablike medtøkum vier hañs Nadar Velgiørninga, og a hvoriu Augnablike syndgunst vier a moote hønum, so þegar vier berum þetta samañ i Hiarta voru, þoott ei sie nema Kvølld og Morgna, þa kuñum vier ecke ad fara a mis vid þad, ad faa eina breñande Elsku til hañs, sem oß Ogudlega og Synduga Orma sparar i Naad siñe, og giører oß ei ad sijdur allt til gooda, þott vier hañ vijsvitande til Reide reitum. Nu er þad vitañlegt, ad ef vier elskum nockurn og virdum, þa vigtum vier hvørt Ord er hañ talar, og þyker vænt uñ þad, og þott þad sie Heimska a Stundum, þa er vor Breiskleike so mikell, ad vier hølldum þad Gullvægt, hvad sem wt af hañs Muñe kiemur, og þvi skylldum vier þa ecke elska Guds Ord ef vier hañ elskum, þar þau eru i sialfum sier dijrmætare eñ hid besta Gull, og sætare eñ Hunang og Hunangsseimur, Ps. 119. Eñ þa framar, høfum vier ecke Ynde og Gaman af ad heyra talad uñ þa Hlute er oß þyker vænt uñ? Sioo-Madureñ talar giarnañ uñ Siglingar, Strijds-Madureñ uñ Orløg, Hinum Agiarna leidest alldrei ad heyra rædt uñ Fiaar-Aflañ, Vijsenda-Mañenum uñ Heims-Speke, Løgvitringnum uñ þess-hattar Hygginde, Þvi hvar ydar Fiaarsioodur er, þar er ydar Hiarta, sagde JEsus, Matth. 6. Aller erum vier Onæmer a hid Gooda i Fyrstuñe. Eirn Unglingur þa hañ er fyrst settur til Menta, þa er hønum leid su Ydia, Eñ epter a fær hañ so mikla Lyst þar til, ad hañ gietur varla añad giørt; So skal saa vita ad sier er vel framfared a Guds Veige sem elskar hañs Ord, Fære Meñ fyrst Elskuna, þa er ecke ad ugga uñ Eptertektena, Þvi mijner Sauder heyra mijna Raust, segier Guds Sonur hier i Evangelio. Og segied mier, B. M. Uñ hvad ætte oß væña ad þykia, eñ uñ Saaler vorar, sem vier þo ecke vitum nema fraa oß teknar verde a hvoriu Augnablike, Þvi skylldum vier þa ecke giefa hiñ mesta Gaum ad þvi er þeim hiaalpa kañ, ecke til nockurs Stundargagns, helldur til eilijfra Nota? Eñ þessa Elsku og Rækt til vorra eigeñ Saalna, munum vier ødlast ef vier venium oß a ad bera samañ þa Dijrdlegu Vist sem øllum Guds Børnum er fyrerbweñ med Christo i hañs Rijke, Og so Fordæmdra Pijsler i Helvijte, hvar þeir eta sijnar Tungur wt af Pijnu og Ofraun Kvalaña, Apoc. 16. J Þridia Maata Barn Guds, nær þier añarleger edur synduger Þaankar i Hug fliwga under Guds Orda Heyrn, þa laat þa sømu verda þier til Uppvakningar, ad þu skamest þijn, ad þu hafer þañeg saurgad Guds Mustere, Og slaa þañig Andskotañ med sijnu eigeñ Sverde, Þvi ad vijsu mun þig angra þad ef þu ert Guds Barn, Ad þu ert so under Syndena selldur, Rom. 7. Ad þu gietur ecke eina Stund vakad med DRottne, Matth. 26. Og nær þig þad angrar, þa mu nt þu braadliga leita aptur til ad fiña Hugsvølun Saalu þiñe i þvi sem fyrer þier er talad

af

af helgum Stad. Villdu Meñ nu þetta Preñt gaumgiæfelega athuga, þa er eg fullkomlega vissum, ad margur fære betre heim aptur i sitt Hws, Luc. 18. Undañ Guds Orda Heyrn, helldur eñ mig ugger ad Meñ Almeñelega giore; Hvad Gud Nade. Nu er þad þo ecke noog, B. M. ad Meñ heyre Guds Ord med Athygle, nema Meñ jære þar af Avoxt i Poleñmæde, Luc. 8. Vier eigum ad Rootfesta þad, so og Groodursetia i Hiartanu, ad nær vier freistunst af einhvorre Synd, ad vier þa strax hofum erugt Vijge, ad mote heñe; i þvi sem vier hofum numed af Guds heilagre Kieñingu. Hvad giorde vor goode Meistare, nær hañ var freistadur, þott ecke være honum hætt vid ad sigrast af Dioflenum, þa sloo hañ samt þañ Ovin med Guds Orde, i heilar þriaar Reisur, So ad hañ skamadest sijn, og forliet hañ, seger Gudspiallamadureñ, Matth. 4. Gior þu eins Christeñ Madur, Eñ hverneg villt þu faa þad giort, nema þu hafer numed þad og geimt i Hiarta þijnu? Og kuñer þu af einhvorre Freistingu yferstijgeñ ad verda, hverneg villt þu faa Lækning þar vid, Nema af þvi sem þu kañt af Guds Orde? J sama Maata, nær þu fær Orsok edur Tækefære til ad giora nockud gott, Þa eiga Heilog Guds Ord er þu hefur safnad i Fiesiood Hiarta þijns, ad miña þig þar aa, og giorer þu ecke þetta, þa maa þier þad ad litlu gagna, Hvorsu Bænheitur, Hvorsu Gudrækeñ sem ad þu situr under eiñe Predikun, Þvi þad vill eins til gaanga og um Sæded, Luc. 8. Þad er fiell i grijtta Jord og aa medal Þyrna, ad soddañ Mañeskiur añadhvort medtaka Orded med Fagnade, eñ hafa þo ecke nockra Root, Þvi um Stundarsaker trwa þeir, og falla fraa aa Tijma Freistingareñar, edur og ad Þyrneñ, Þad eru Sorg, Audæfe og Gyrnder, Heims þessa vaxa upp med þvi og kefia þad, so ad þad færer eingañ Avoxt. Eg efast ecke um, ad þar mune nockrer vera, sem aasetia sier Gudrækelegañ Lifnad, nær þeirra Synder eru straffadar i Guds Orde, Eñ hvad faaer þeir sieu, er fylla þad med Verkenu, Er audsært af Ogudlegu Framferde Mañaña i Heimenum. Gud giæfe þar være eiñ Samaritan aa mille Tiju Gydinga, Luc. 17. Eiñ Abraham i Gerar, Gen. 20. Og Tiju Gudhrædder i Sodoma, Gen 18. Þig ydrar af Hiarta þess er þu hefur Gude aa moote broted, Og þu lofar ad syndga ecke vijsvitande framveiges. Eñ seg mier kiære; Nær ætlar þu til þess ad taka ad lifa betur? Munu þeir ei faaer er hlaupa strax wr Tollbwdeñe med Levi og fylgia Christo epter, Luc. 5. Nær ætlum vier ad taka til ad elska Gud og hañs Heilaga Ord, ad virda og ottast hañs Nafn, sem oss byriar, ad heidra Forelldra og Yferbodna, Exod. 20. Ad aga Born sijn og uppala þau i Otta DRottens, Eph. 6. Nær ætlar hiñ Heiptræke ad taka til ad elska siñ Ovin, Matth 5 Hiñ Lausllaate ad giora Saattmaala vid sijn Augu, Job 31. Hiñ Agiarne ad laata af ad Stela, Ræna og Svijkia, Eph. 4. Lygareñ ad Rægia og Baktala, 1. Pet. 2. Nær ætlum vier ad hreinsa Hiortu vor af þessum Daudlegum Verkum og Svijvirdingum? Kañ skie nær vier gietum ecke leingur, Edur nockru epter þad vier erum dauder. Eñ David segier, Ps. 115. Ad þeir prijse ecke Gud sem ofañfara i Helvijted, Og mun þad þa verda nockud um seiña, ad giallda honum þa Skulld er honum aatte hvor ad lwka.

O þu

O þu Naduge Gud, Skapa þu i oss hreint Hiarta, og gief oss eiñ nijañ vissañ Anda, Ps. 51. Snw þu oss DRotteñ, Pa er oss snwed, Jer. 31. Laat oss hafa Lysting vora i þijnu Logmaale, og tala um̄ þad Daga og Nætur, Ps. 1. Sieu þijn Heilogu Ord Epterlæte vorra Saalna, og þijn Riettinde framar af oss meteñ eñ Gnægd allra Audæfa. Israel sagde Fordum Daga vid Moysen, er Guds Reider sloou i Horeb: Vier vilium ecke framar heyra Raustena DRotteñs Guds vors, Tala þu til vor, Exod. 20. Eñ Moyses hefur ecke Forgiefens sagt til þeirra: Eiñ Spaamañ mun DRotteñ Gud ydar uppvekia ydur, af Brædrum ydar lijkañ mier, honum skulud þier hlijda, Devt. 18. Lijkañ ad soñu, O Moyses! Eñ þo miklu betre, miklu ædre, miklu fullkomnare, hvor ed eiñ lijttlogande Hor-Kveik mun ecke wtslockva, edur brakadañ Reyr i sundur briota, Es. 42. Pad ert þu O! HErra JEsu Christe sañur Gud og sañur Madur, Par fyrer segium vier med fullu Trauste, Ecke med Israel, helldur med Samuel: Tala þu DRotteñ, Pijner Pienarar heyra, 1. Sam. 3. Vier vilium hañs Roddu heyra, er lætur oss segia: Giored Ydran, Pviad Guds Rijke er naalægt, Matth. 3. Eñ ecke ofmiog ottast Rodd hañs er segier: Bolvadur sie saa sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Logmaalenu, Devt. 27. Vier aumer og vesæler Jardar Madkar, vilium hönum heyra er segier: Komed til mijn aller þier sem Erfide dryged, og Pwnga erud þiaader, Eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Eñ vier skielfum̄ ad heyra hañs Raust ed segier: Hvor sem giorer þetta hañ mun lifa i þvi, Levit. 18. Par fyrer tala þu til vor DRotteñ, Hvort helldur þad skiedur med Prumu Logmaals sins til ad straffa i oss Syndena, Edur i Blijdvidre Evangelii til ad hugga oss aptur, þa vilium vier Allshugar fegner segia: Blessadur sie saa sem kiemur i Nafne DRotteñs, Matth. 21. Gief oss þad Hiartalag O! HErra JEsu fyrer þijna Forþienustu, Amen.

# Pridia Suñudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

A Pañ Tijma. Sagde JEsus til siña Læresveina. Jñañ lijtels Tijma munu þier ecke siaa mig, Og þa eñ iñañ lijtels Tijma munu þier eñ siaa mig aptur, Pvi eg fer til Fodursins. Pa sogdu sumer af hañs Læresveinum sijn aa mille. Hvad er þad ad hañ segier til vor, Jñañ lijtels Tijma þa munu þier ecke siaa mig, og þa iñañ lijtels Tijma, munu þier siaa mig aptur, Pvi eg fer til Fodursins? Pa sogdu þeir: Hvad er þad hañ segier oss, Jñañ lijtels Tijma? Vier vitum ecke hvad hañ segier. Eñ JEsus formerkte, ad þeir villdu spyria hañ ad, Og sagde til þeirra: Pier spyried ad þessu ydar aa mille, Pad eg sagde ydur. Jñañ lijtels Tijma munu þier ecke siaa

siaa mig, Og þa aptur iñañ lijtels Tijma munu þier siaa mig. Sañlega seige eg ydur, Pier munud sijta og graata, Eñ Heimureñ mun fagna, Og þier munud Hryggver verda, Eñ ydar Hrygd skal snwast i Fognud. Ein Kona, nær hun skal fæda, Pa hefur hun Hrygd, Pvi heñar Stund er komeñ. Eñ þa hun hefur Barned fædt, miñest hun ecke þess Harmkvæles fyrer Fagnadar Saker, Pviad Madur er i Heimeñ boreñ. Og þier hafed nu ad søñu Hrygd, Eñ eg vil siaa ydur aptaptur, Og ydvart Hiarta skal fagna, Og ydvarn Fognud skal eingeñ fraa ydur taka. A þeim Deige munu þier mig og Einskis spyria.

## Exordium.

HAd verde mier ecke ad eg hroose mier af nockrum Hlut, Nema af Krosse DRotteñs vors JEsu Christi, Segier St. Paall, Gal. 6. Adrer hroosa sier af Audlegd siñe og Nægtum eins og hiñ Rijke Maare, Luc. 12. Nockrer af Metordum sijnum eins og Nebuchadnezar, Dan. 4. Sumer af Afle og Kallmeñsku eins og Goliath, 1. Sam. 17. Herodes af siñe Maal-Snylle, Act. 12. Og gaf eige Gude Dijrdena. Pilatus af Makt siñe, Joh. 19. Er hañ þoottest hafa Valld til ad Krossesta JEsum og ad laata hañ Lausañ. Hiner af stoorum Ættum eins og Gydingar, Er segdust hafa Abraham fyrer Fodur, Matth. 3. Og hvad er þad sem ad Drambseme þessarar giaalijfu Veralldar telur sier ecke til Gylldis, Jafnvel vonda Hlute. Hiñ Ogudlege Lamech hroosade sier af Foolskuñe fyrer Kviñum sijnum, Gen. 4. Og eru honum aller þeir lijker, er stæra sig af Odygdunum, Pa hefur Andskoteñ sijnt Meistara-Stycke sitt i Hiarta Syndarans, Hañ fyrst kiemur honum til ad drygia Glæpeñ, Og sijdañ ad laata sier vænt um hañ þykia, Pvi ef ad Hroosuneñ giorer jafnvel hina bestu Hlute ecke Einungis Onijta, Helldur og ad Synd, So sem Lausnareñ vottar, Matth. 6. Um þaa er giordu Goodverk til Fordilldar sier, Ad þeir hafa sijn Laun wtteked: Hvad mun þad vera þa ad stæra sig af Klækiunum? Eñ Paulus er ecke so Lyndur, Hañ hroosar sier af þvi sem Verollden kallar einkis Hools vert, Af þvi sem hun forsmaaer, Pvi sem hun undañ flijr med Seglum og Arum, Og skal helldur fremia allar Odygder, eñ ad hun verde fyrer þvi, Pad er Krosseñ DRotteñs JEsu Christi, Og þvi segier Postuleñ hier strax epter: Fyrer hvorn mier er Heimureñ Krossfestur, og eg Heimenum. Pad er alkuñugt, ad Krosseñ var hid Smaanarlegasta Pijslar-Fære i þaa Daga, Og þvi var þad honum vaaled sem er Konungur Dijrdareñar til þess ad bera þar uppaa vorar Synder. Eñ so Haadugleat sem þad var, So mikla Andstygd segiest Paulus hafa aa Heimenum, Og slijkañ Vidbiood hafe hañ aa sier. Lijted hier, Christner Meñ hverneg þeir eru Skape farner, sem vordner eru Eitt med Christo, Og hverra Kosta þeir eiga ad vænta sier i Heime þessum. Einga mun hañ hafa kiærare haft af Moñunum, Eñ sijna Elskulega Læresveina sem hofdu yfergiefed alla

Hlute fyrer hañs Skulld, Matth. 19. Og þo segier hañ þeim fyrer i þessu Heilaga Evangelio, Ad Þeir Mune Sijta Og Grꝏta, Eñ Heimureñ Mune Fagna: Sama vill hañ hafa sagt eñ nu, Þeim er hañ af Hiarta Elska. Og vil eg þvi alleinasta wt af Gudspiallenu tala um̃ þꝏ Hlute sem oss meige leida til ad bera hañs Ok Þoleñmoodlega. O Þu Krossfeste JESU! Hiälpa oss þar til med Nꝏd þijns Anda, Bænheyr þad O HErra! Fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þ Ott eckert añad være sem kyñe ad verka hiꝏ oss Þoleñmædena i Mootlætenu, Þa mættum vier þo hugleida hvadañ þad kiemur, Sem er frꝏ Gude; Hvort villt þu fyrer honum flya? Segier nockud Leir-Kiered til þess er þad giort hefur; Hvar fyrer giorder þu mig so? Rom. 9. Og fyrst ad vier erum i Guds Hende so sem Leir, þa er þad Oviturlegt ad mogla ꝏ moote honum, Hvad hellst sem hañ vid oss giorer, Hañ typtar oss sem oss giort hefur, Hañ sem oss giort hefur, Hañ hefur giort Himen og Jord, stioornar þeim, rædur þeim, og kañ ad eydeleggia þau nær sem hañ vill, Þvi mun eg kieppa vid þvilijkañ Herra? Þvi vil eg glijma vid sialfañ mig, Og giora mijna Mædu eñ þa stærre med Oþoleñmæde? Øll Veralldareñar Nꝏd duga ecke ꝏ moote hañs Vilia, Prov. 21. Og aller Helvijtis Kraptar meiga ecke auka hinu miñsta vid mijna Plaagu, fram̃ yfer þad sem hañ ꝏsett hefur, Þvi vil eg þa kijsa vid svoddañ Haatign, Svoddañ Speke, Svoddañ Almætte sem varer, Rædur og Stioornar? Þegar Otal Hundrud Þusund (þvilijker Ormar sem eg) eru ad Molldu vordner, Þvi mun eg þa beria Hofdenu vid þañ Stein sem ꝏ mig er kastadur af so Volldugre Hende? Þar fyrer, Br. M. Nær Mootlæted oss ad Hondum ber, Þa huxum til þeirrar Skylldu er vier eigum Gude ad gialda, Sem er ad audmykia oss under hañs Vollduga Hond, 1. Pet. 5. Hvad ecke er so stoor Kunst i Medlætenu, Jafnvel þoott vier gleymum þvi optlegana. Eñ i Mootgangenum siest þad, hvoria Virding vier hofum ꝏ honum, Og hvad miked vier viljum fyrer hañ viña. Lijtum til Jobs, Þvi hañs Þoleñmæde verdur oss af Postulanum sett til Epterdæmis, Jac. 5. Þegar Guds Hond hafde svipt hañ ollum sijnum Bornum, Allre siñe Areiau, Prælum og Ambattum, Þa sagde hañ: Gud gaf og Gud Aftook, Sie Nafn DRottens Vegsamad ad Eilijfu, Job. 1. Honum var David lijkur, Þa hañ flwde fyrer Absalon og sagde, 2. Sam. 15. Segie hañ so: Eg hefe ecke Þocknan ꝏ þier, Siꝏ hier em eg; Giore hañ vid mig hvad Gott þyker i hañs Auglite: Hvar fyrer hañ og segier, Ps. 39. Jeg vard Maallaus og opnade ecke miñ Muñ, Af þvi þu giorder þad. Eins eigum vier Skape farner ad vera, Br. mijner, Ef vier wt af Grune Hiartans vilium tiꝏ vora Audmykt fyrer Gude, Og ef vier erum nu skylldugar til þessa alleina fyrer þvi ad hañ er vor Gud og HErra og vor Skapare, Hvad miklu framar erum vier þa Skulldbundner, Þar ed hañ typtar oss alldrei nema sialfum oss til hiñs Besta. Segied mier: Mun nockud Gud, Sa ad er Bruñur allrar Giædsku, Mun hañ nockud hafa Ynde af þvi ad plaaga sijn Born? Og ecke giora þad miklu helldur þeim sialfum

ſiaalfum til gooda? Laatum oſs ecke eigna Fodur Myſkunſemdaña, 2. Cor. 1. þa Hard-
ydge ſem vier kollum hid Verſta og Grimelegaſta a Fiandanum og hañs Limum, Sem er
ad hafa Gaman af Eymdum og Mootgaange ſyndugra Maña. Hvad þa? Munde oſs
þykia þad Stefulegt Barn ſem ſlijge i Haared a Fodur ſiinum nær hañ agar þad? Og
er þvi ver og midur ad vier ſtroffum optlega vor Born og Pienara alleina til þeſs ad ſkei-
ta Skape voru a þeim: Eñ hañ plaagar ecke af Hiarta edur ſtraffar Mañaña Born,
Thren. 3. Þar fyrer er þad hid meſta Rænuleyſe fyrer oſs ad mogla under hañs Fod-
urlegre Hyrtingu. Segied mier eñ aptur: Þegar eiñ Lækner byrlar oſs ſwrañ Dryck
til ad giora vorn Lijkama heilbrygdañ, Edur hañ ſkier upp Saareñ ſo ad þau ſkule grooa,
þeſs fliootara, Styggiunſt vier nockud vid hañ, Edur mootmælum þvi er hañ vill giort
hafa vid oſs? Þad giorer eingeñ ſa ſem Heilvita er og elſkar Heilſu ſijna, Helldur þock-
um vier honum þar fyrer, og giolldum honum Laun þar a ofañ, Jafnvel þoott honum
mistakeſt, Sem optlega ſkiedur. O Guds Barn! Skyllder þu þa eſpaſt vid hiñ gooda
Lækner? Hvers miwka Græders Hond ad ijfer þijn Daudleg Saar, Til hverra þu ecke
kieñer fyrr eñ hañ lijfgar þau med Beyſkiu Kroſs-Burdarens, og ecke miklu helldur taka
feigens Hende þar a moot, og giallda honum allar Þacker þar fyrer? Ef eiñ Fader ſæe
ſitt Barn framfara i allre Vondſku og illu Athæfe, Og hañ ecke ſtraffade þad, Ef ſkie
mætte ad þad Leidriettest þar vid, Munde honum ecke a Haalſe leiged vera af ollum
Moñum? J Sañleika, Þvi hañ være þeſs verdur hañ være Bodull og ecke Fader er
þañeg breitte vid ſitt eiged Holld og Blood, Og þo vilium vier heimta af Gude, ad hañ
laate oſs bada i Rooſum og lifa ad Munudum vorum: Ja, fara fram i allskonar
Syrudum og Glæpum, og heita ſamt vor Fader, Þar hañ er þo ſa Gud, Er ecke þocknaſt
Ogudlegt Athæfe, Pſ. 5. Værum vier aan Typtunar, Þa værum vier Hia-Born
og ecke Syner, Hebr. 12. Dæmed þvi ſiaalfer Br. M. hvert helldur þier vilied eiga
Gud fyrer Naadugañ Fodur og þola Hyrtinguna, Edur ad hañ kañeſt ecke vid ydur,
Og laate ydur lifa ad eigeñ Villd ydar, Og verde ydur ſo eiñ ſtraungur og Ognarlegur
Doomare, Þegar þier eiged honum Reikningſkap ad ſtanda af Ordum og Giordum,
Sem ad er hin allra herfelegaſta og ſkielfelegaſta Olucka. Hvad ſijneſt ydur þa Chriſt-
ner Meñ, Mun þad ecke vera tilviñande ad þyggia eina Naaduga Refſing af ſijns Fodur
Hende, Og þoott hun ætte ad vara um allañ vorn Alldur, Sem miog ſialldañ er, til þeſs
ad verda kvittur vid oll þau Oſkop ſem ad dynia munu yfer Sælkiera Veralldar þeſſar-
ar i Helvijte og Kvolunum fra eiñe Eilijfd til añarar? Gud naade oſs Auma og ſynd-
uga, Vier berum opt og Tijdum eina Vanheila Saal i Heilbrygdum Lijkama. Þegar
Lijkamanum lijdur vel; Þa hyrdum vier a Stundum lijtt um Saalena, Hvor þo ætte ad
ſiaa bæde fyrer ſier og honum, Þvi bæde ſkulu þau hin ſomu Kior hafa um alla Eilijfd;
Eñ ef hun lætur epter honum þad hañ vill, Þa vellteſt hun miog wr Tign ſiñe, Baadum
þeim til Obætañlegs Skada. Hver veit nema Þrote Drambſemeñar edur Vatns-
Sijke Agyrndareñar, Edur Kallda Ohooſſemeñar, Edur Brioost-Veike Oſundareñ-

ar, Edur Dofe Leteñar, Edur Æde Reideñar og Heiptrækneñar, plaage Saalu þijna, og
þu fiñer þar ecke til. Varla er nockur sw Saal aa medal vor, sem ecke hafe Snert af ein-
hvoriu þessu, Eñ Krosseñ er sw eina Heilsu-Boot, sem aa vid ollu þvilijku. Vid Lijkam-
ans Siwkdoomum eiga adskiliañleger Drycker, epter þvi sem hvorium er haattad; Eñ
vid Saalareñar Meinum aa alleina Kross-Bikar DRotteñs JEsu, Þoott hañ sie beisk-
ur nockud, Þad ætte oss einu ad gyllda, þegar hañ giorer oss Heilbrygda, Nema vier elsk-
um meir Daudañ eñ Lijfed, Soottena meir eñ Heilsuna, Kroppeñ meir eñ Saalena, Og
er þad þo ecke ad elska hañ, ad laata þad epter honum, sem heñe maa til Skada verda, Þvi
hañ skal þess eilijflega Giolld hafa sem hañ i þessu fraa heñe dregur sier til Tijmañlegs og
farfeingelegs Munadar. Þar fyrer ef vier elskum vora Lijkame og þad so miog sem ad
sijnelegt er aa flestum, Þa giorum þad þo fyrer þeirra Skulld, Ef eige añars vegna, ad
vier þockum Gude fyrer þad hañ typtar þaa hier, So þeir ecke sijdañ mæte eilijfum Plaag-
um i Helvijte, 1. Cor. 11. Þar fyrer Guds Barn, Nær DRotteñs millda Hond slær
þig aa Einhvorn Haatt til ad græda Saalu þijna þar med, Þa tak ecke alleinasta þar aa
moot med Þoleñmæde, helldur og þacka honum fyrer þañ Naadar-Giorning, ad hañ ecke
vill ysergieta þig i fraaleitt Siñe edur i Gyrnder þijns Hiarta, Ps. 18. Og ef þu villt
Þacklaatur vera fyrer so stoorañ Velgiorning, Þa sijn þad i Verkunum er þu jaatar
med Muñenum. Vier hofum allareidu heyrt nockud uñ þad hvar til ad Gud sender
oss Krosseñ, Sem er til þess ad vier eige skulum hallda oss saklausa, Helldur betra vort
Lijferne. Sviptum þvi ecke Gud sijnum Asetninge, Edur siaalfa oss þeirre Naad er hañ
hugde oss ad veita. O! hversu illa er þa fared med þessa Heilsusamlegu Guds Naad,
Og hvad lijtel Not munt þu þa hafa þess syndugur Madur er þu lided hefur; Jaa, stoor
Giolld: Þvi þad er ad giora DRotteñs Kross ad Ræningians Krosse, Þad er riett so
sem Petur segier, 1. Pet. 4. Ad lijda so sem Þioofur og Illvirke, Og so sem hañ ed
fellur iñ i añars Embætte. Hallt þad og ecke noog ad þu laater af ad syndga þess veg-
na ad þu gieter ecke syndgad, Añadhvert fyrer Heilsu-Breste, vegna Faatæktar, Edur
fyrer Otta Saker vid Meñena. Þioofureñ stelur ecke helldur þegar hañ er bundeñ,
og ecke fremur Hoorkalleñ sijna Gyrnd nær hañ er wtelokadur, Hvad ecke er þeirra
Dygdum ad þacka, helldur rañsaka siaalfañ þig, hvad þier mune hafa aafatt orded,
Hvers vegna Gud mune hafa lagt þeña Kross aa þig, og munt þu þad skioott fiña þegar
þu stijngur Hendeñe i þiñ eigeñ Barm, Exod. 4. Og nær þu þad fiñur, Þa raad Boot aa
þvi, ydrast þess af Hiarta, og frem þad alldrei optar, helldur bid Gud ad giefa þier Naad
sijna til ad standa aa moote þvilijkre Synd; Med svoddañ moote verdur þessum Himn-
eska Lækner launad, añad heimtar hañ ecke af oss. Þegar JEsus saa þañ Mañ gaung-
ande i Musterenu, er hañ skomu aadur hafde læknad hiaa Vatnenu Bethesda, þa kraf-
de hañ einkis af honum, helldur sagde alleina: Siaa, nu ert þu heill vordeñ, syndga ecke
framar, ad ecke hende þig añad verra, Joh. 5. Þar fyrer Christeñ Madur, hafer þu
siwkur vered, hafer þu ratad i Armood og Fiaarmissu, hafer þu vorded fyrer Araasum

oJ

og Offsoknum Veralldar-Mañal, eñ ert aptur vordeñ Fullhraustur, Fullrijkur, og hefur feinged Makt yfer Ovinum þijnum, þa gialld eige þa Vanþock aptur aa moote Gude þijnum, hver ed sende þier Krosseñ til ad betra þig, og liette honum af þier, til ad sijna þier Giæsku sijna, Gialld honum ecke so illa (segie eg) ad þu brwker Heilsuna til ad drijgia somu Synder, med hvorium þu vanst til Siwkdomsins, Andlegdena til Ohoofs og Metnadar, Vallded til ad hefna aa þeim sem vid þig ofgiort hafa, Þvj ef vier slijkt giorum, þa hefde þad vered betra fyrer oss, ad vier hefdum leiged i Kør, og lifad i Armood og Forsmaan alla vora Daga, So ad Saaleñ hefde kuñad hoolpeñ ad verda aa Deige DRottens, 1. Cor. 5. Nu eigum vier ecke alleina ad lijta til Guds Fodurlegrar Giæsku, J þvi ad lijda Þolenmoodlega allt þad sem hañ lætur oss til Handa bera, helldur og til hañs Oraskañlegu Speke og Vijsdooms, sem ad yfergnæfer allañ Skilning.

Eiñ Fader kañ ad vilia Barne sijnu vel, Eñ brestur kañ skie Vitsmune til ad siaa hvad þvi gagnar, og þo hañ bere Skyn þar aa, þa blindast vor Skynseme optlega af Holldlegre Elsku, Eñ vid þessu er ecke hætt hiaa hinum Alvijsa Gude. Þar fyrer laatum oss þad sagt vera, ad þoott vier eige skynium nie siaaum Guds Tilgaang, þegar hañ neitar oss uñ þa Hlute, er vier Oskum epter, Þa er þad oss til hins besta, og eckert kañ fyrer oss gagnlegra ad vera edur upp ad hugsast, eñ þad sem hañ lætur vid oss framkoma, Ef vier giefum oss olldungis aa hañs Valld, og laatum hañ raada. Jsrael beidde Gud uñ Kiot i Eydemorkeñe, Num. 14. Og hañ gaf þeim þad til Hegningar þeim; Þeir beiddu hañ og uñ Konung, 1. Sam. 8. Er þeim leiddest ad vera under hañs allra Vijsustu og Naadugustu Stiornan, og hañ gaf þeim eiñ Konung i Reide siñe, Os. 13. Þar er eingeñ Efe aa, ad ef Barned mætte sialft raada, þa fære þad sier optlega ad Voda, Og eins erum vier faavijser eins og Born i vorum Andligum Efnum, vier Oskum oss Heilbrygde, Audæfa, Metorda, allt þetta eru ad soñu Guds goodar Gaafur, eñ skadsamar þeim sem ecke kuña med ad fara, So ad Endurlausnareñ segier: Jafnvel ef þijn Hond edur þiñ Footur hneixlar þig, Þa sniid þad af og snara þvi fraa þier, Þvi betra er þier halltur og Handarvane iñ ad gaanga til Lijfsins, Eñ ad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i eilijfañ Elld kastadur, Matth. 5. Ad soñu heimtar eige DRotteñ af oss, ad vier so stoort Jraadunst, vid hvoria þa Tilhneiging er vier freistunst af, Þvi hañ hefur giefed oss oñur Medol til þess, ad Krossfesta Hollded med, aadur eñ til þessa kome, Eñ þad er hañs Meining, helldur eñ ad vier skylldum i eilijfum Ellde pijnast, þa være oss þarfara ad laata Lijf og Limu. Hversu vijs og hversu Naadugur er þa hiñ goode Gud, ad hañ agar oss i Maata, og so sem oss ad minstum Skada verda meige, til þess ad vier kuñum ad umflyia Helvijtis Þijsler, eñ verda Hluttakande Guds Barna Sælu aa Himnum med honum eilijflega? Og i þessum Guds Orañsakanliga Vijsdoome, hofum vier jafnañ eina stadfasta Huggun, Þvi hañs Giæska og Medaumkan verdur hañ alldrei vidskila. Fyrer þvi, Þoott ad Motlæted ofbioode oss aa Stundum, og vier saaum varla under þvi rised, Þa laatum oss til Hugar koma, ad þad er oss af hon-

um uppaalagt, sem veit hve mikels ad vier vid þurfum og þolum. Stoor Saar þurfa
mikla Grædslu, Eñ hañ er trwr og freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Ecke
eitt Haar fellur af voru Hofde aan hañs Villa, Matth. 10. Og miklu sijdur hefdum
vier vid so margar Þrauter ad beriast, nema þad være epter hañs Skamte og epter ha-
ñs Velþocknan. Vier þurfum og ecke ad efast uñ, ad vier faaum Mootlæted stadest,
þoott alldrei þyke oss so Ovænlega aahorfast, Þegar vier kostum oss i hañs Myskunar-
Fadm, og under hañs blessada Umsioon og Fyrerhyggiu. Þar fyrer sagde David,
Þo eg raafe i myrkvum Dal og Daudans Skugga, þa hrædest eg einga Olucku, þvi þu
ert hiaa mier, Þiñ Vondur og Stafur hugga mig, Ps. 23. Og DRotteñ segier vid
hañ, Þoott Þusund falle þier til Aññarar Handar, og Tiju Þusund til hiñar Hægre, Þa
skulu þeir ecke nær þier koma, Ps. 91. So oruggur Kastale er DRotteñ þeim er hañ
Ottast, Jafnvel midt i Hormungunum, Og þad geingur til eins og hañ sagde vid Lære-
sveinana hier i Gudspiallenu. Jñañ lijtils Tijma munu þier ecke siaa mig, og aptur
iñañ lijtils Tijma munu þier siaa mig. Og so sem ad Læresveinarner skildu ecke i þad
Siñ hvad hañ sagde, helldur uppfylltest þeirra Hiarta af Hrygd, af þvi ad hañ sagde
þad. So geingur þad og til fyrer Guds Bornum optlega i Mootlætenu, ad þau mei-
na þa þau sieu yfergiefeñ, Eñ samt heyrer hañ þeirra Graatbeidne, og þeirra Bæn er
þocknanlig fyrer honum, Eñ hañs Tijme er eñ þa ecke komeñ, Joh. 2. Hvort helldur
ad eg lijt þeña fagra Heim, sem ad er harla goodur, so sem oll Guds Skiepna, edur eg
þeinke uñ hiñ Ogudliga, sem Diofulleñ hefur tilbwed og nidursokt i hid Vonda, þa kañ
eg hvorke ad orvænta i Mootgaangenum, eige helldur ad efast uñ Kvittun miña Syn-
da, sem eru Orsok til Mootlætesins, Þviad i hinum, og jafnvel aa hinu miñsta Skrid-
Kvikinde sie eg auglioost Dæme hins Guddoomlega Almættis, Speke og Giædsku, ad
þvi er ollu af honum so vijslega stioornad og niderskickad, ad hañ þvi ollu vid Makt
helldur, hvoriu i siñe Tegund fraa Heimsins Upphafe i so morg Þusund Ar, ad þar er
ecke ein eñ nu undergeingeñ, Og so veit eg þa fyrer vijst, ad honum er ecke uñ Megn, ad
vardveita mig syndugañ Orm, sem ad epter hañs Mynd var i Adam skapadur, Gen.
1. Og med hañs Sonar dijrmætu Bloode Endurleystur, 1. Pet. 1. Jafnvel midt i
Sorgunum, midt i Araasunum, midt i Saalar og Lijfs sterkasta Ofbode, Ef hañ vill
laata þad yfer mig koma. Eñ nær eg þeña fyrer mier virde og allar þær Odaader sem
af honum i frame eru hafdar, Villur, Meinsære, Gudlastaner, Mañdraap, Hoordoo-
ma, Lijge, Þioofnad, Ofbellde, Raangsleitne, og alla þa Ohæfu, er Satan fær plantad
i Hiortum Vantrwareñar Barna, Þa tek eg mier þar af Huggun og fullnadar Tra-
ust, uñ hins Myskunsama Guds Fodurlega Giædsku, ad hñ ecke Kollsteyper þessare von-
du Verolldu, helldur med Rijkdoome sijns Laanglundar-Gieds, Rom. 2. Vill leida so
marga til Yferbootar sem aptur snwa vilia. Þvi veit eg ad hañ mune ecke wtskwfa
mier Overdugum Synda-Þræl, edur laata mig einañ i Mootlætenu, þott þad sie Straff
miña Synda og Jllgiorda, Þar eg læt mig fyrer Krapt hañs Anda wt af Hiarta ydra

Synda

Synda miña, og aa Daglega Baraattu vid eitt Ostijrelaatt Holld, sem kiepper i giegn Andanum, Gal. 5. Þvi hafe hañ veitt mier hid Meira, sem er ad ydrast Syndaña þegar eg var eñ þa Satans Barn, Þa mun hañ ecke synia mier hins Miña, sem er ad vardveita mig i Mootgaangenum, þa eg er hañs Þienare vordeñ fyrer hañs Naad, hverja hañ ecke hefur giefed mier til þess, ad hun skyllde aa mier Onijt verda, helldur til Lofs og Dijrdar sialfum sier, Eñ mier til eilijfs Saalar Fagnadar. DRotteñ sagde Læresveinunum fyrerfram þessar Hormungar, Af hvoriu medal añara siaa maa hañs Guddoomlegañ Vijsdoom, og Giæsku ecke miñe. Heimureñ segier alldrei nema Ogiæfu fyrerfram, Jafnvel þoott hun sie honum vijs so vel sem øllum þeim er hañ elska, hañ predikar eins og hiner Ogudlegu, Prov. 1. Sem Von er aa, þvi hañ er ecke añad eñ Samkunda, Apoc. 1. Andskotans, er hañ hefur safnad sier af Guds Utløgum og Ogudlegum Synda-Prælum, Þeir segia: Far þu med oss, Vier vilium fiña miked Herfaang, og aller eiñ Siood hafa, Prov. 1. Eñ ecke leggia þeir til hins, ad þeir skulu og aller eitt Hlutskipte hafa i þvi Dijkenu sem vellur af Ellde og Breñesteine, Apoc. 21 Þad vill ecke DRotteñ, Hañ sagde fyrerfram bæde hier og optlega Añarstadar Læresveinunum hvad aa þeirra Daga drijfa munde, Og hid sama hefur hañ øllum þeim sagt, er honum vilia epterfylgia med þessum Ordum: Hvør sem vill miñ Læresveiñ vera, Hañ take siñ Kross uppaa sig og fylge mier epter, Matth. 16. Eckert er þvilijkt Naad vid Mootgaangenum, so sem ad bwast vid honum; Saa sem þad giører Daglega, hañ hefur miklu liett af Byrdeñe nær hun dettur aa. Bwunst vid Illu, Þvi hid Gooda skadar oss ecke, segia Meñ i gomlu Ordtæke. J Dag em eg heilbrygdur, Eg vil þeinkia med mier hverneg eg verda munde ef eg vanheill yrde, Eg vil venia mig aa ad laata eige allt epter mier þad mig gyrner, So mier bregde sijdur vid ef þad kyñe mier ad Høndum koma, sem eg giæte ecke af mier kastad þott eg villde. J Dag em eg full-rijkur; Eg vil þo brwka Heimeñ so ad eg ecke vanbrwke hañ, Og so miked af þvi sem Gud hefur laanad, sem mier næger og mier soomer ad brwka, Þa skal Faatækteñ alldrei kasta mier i neitt Hugar-Vijl, Ef eg kañ i hana ad rata; Eg vil hyrda þad Gud giefur, Eñ ecke festa þar vid Hiarta mitt, þa mun mier þykia miña fyrer ad missa þad. J Dag ræd eg fyrer ødrum, so ad aller hlijda mijnu Bode og Bañe sem eg er yferskipadur, Þad Valld vil eg brwka i Hoofe og ecke med Offa neinum, Þvi þar kañ ad koma, ad þeir raade fyrer mier og kuñe eg af þeim nockurn Ojøfnud ad þola, Þa lijd eg hañ med betre Samvitsku, hafe eg ecke adur til hañs uñed. So skal Madur bwa sier i Hageñ, aa medañ allt leikur i Lynde, Kome þad ecke uppaa er vier Naad fyrer giorum, þa er þvi Omake vel spillt; Alldrei visseg Abatameire Skada, þvi ad miñsta Koste hugsum vier eige so illt aa medañ, og lijklegt er, ad vier munum ecke stæra oss so miøg af Velmagteñe, þegar vier bwunst vid hvøruveggiu. Nu þoott ad allt þetta sem eg hefe sagt, Eige ad fijsa oss aa ad lijda Þoleñmoodlega þañ Kross er Gud oss aa Herdar leggur, Þa er þo ad hroosa þeirra Kiørum fram yfer alla DRotteñs Krossberendur, sem ecke einasta taka aa mote hañs Ogun aan

Møgl-

Moglunar, Helldur og hafa Glede og Ynde af þvi ad-lijda nockud fyrer Christi Saker. Eg vændest i Upphafe St. Paals Ordum, ad hañ skrifar, Gal. 6. Pad verde mier ecke ad eg hroose mier af nockrum Hlut, utañ af Krosse DRottens vors JEsu Christi. Pegar Paall brwkar þetta Ord sem hier stendur ad hroosa, þa merker þad ecke so ad stæra sig af einhvoriu, Svo sem ad fagna og glediast af þvi, og ad hafa Ynde þar af. Sama Orda Tiltæke brwkar hañ, Rom. 5. segiande: Og ecke einasta þad, helldur hroosum vier oss eirnig edur gledium oss af Hormungunum, Vitande ad Hormungeñ verkar Poleñmædena, eñ Poleñmædeñ Reynsluna, eñ Reynslañ Vonena, eñ Voneñ lætur alldrei til Skamar verda, Pviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum fyrer Heilagañ Anda sem oss er giefeñ. Petta eru merkeleg og Gullvæg Ord, sieu þau riett yfervegud. Hvar fyrer gledur hañ sig i Hormungunum? Pviad Elska Guds var wthellt i hañs Hiarta fyrer Heilagañ Anda sem honum var giefeñ. Heyrum þad Endurlausnareñ sagde vid sijna Læresveina. Eg skal ecke laata ydur Munadarlausa, helldur skal eg siaa ydur aptur, Joh. 14. Pad giorde saa blessade HErra ad sönu epter sijna Upprisu, Eñ hañs sijneleg Vist med þeim, droo þa ecke laangt aa Veg, hefde hañ ecke sendt þeim H. Anda af sijnum Fodur; Pvi sagde hañ: Pad batar ydur ad eg fare i burt hiedañ, Pvi nema eg fare i burtu hiedañ, kiemur ecke Huggareñ til ydar. Pesse er hiñ same H. Ande, fyrer hvorn ad Paulus segier, ad Elska Guds sie wthellt i sitt Hiarta, Hun giorer Christi Ok sætt, og hañs Byrde lietta, Matth. 11. Hun velldur þvi, ad hañs Bodord eru ecke þwng, 1. Joh. 5. Hun deyfer Alla Kvol, Alla Hrygd, Alla Armædu Veralldar þessarar, saa ed hana hefur fyrst odlast, hañ þarf ecke Moorlætenu ad kvijdá, hañ Foottredur allar Hormungar, Honum er Heimureñ Krossfestur og hañ Heimenum, Pad sie eg hersijnelega aa Christi Postulum, er þeir voru glader af þvi, ad þeir maattu lijda fyrer JEsu Nafns Skulld, Act. 5. Pad sie eg aa hañs H. Pijslar-Vottum, laangt frañepter Æfe Christneñar, ad þeir geingu til herfelegustu Kvala og Pijsla, miklu gladare helldur eñ adrer til Giestabods.

O! HErra Gud, Fagurt maa þeim vera Himnarijke aa sijdañ, hvorium Gud er so sætur midt i Hormungunum, ad þeir fiña ecke til þeirra fyrer Elskuñe til hañs sem trptar þa. Ad þetta sieu ecke Ykiur, helldur ad þvilijker Guds Viner sieu til, Pad votta eg med Paals Ordum, er hañ segier, 2. Cor. 12. Eg em vel til Frids i Veikleikanum, J Forsmaaneñe, J Naudunum, J Ossooknunum, J Angisteñe fyrer Christum, þvi þa eg em Veikur, þa em eg Maattugur, Og þad er þad sama sem DRotteñ heiter hier Læresveinunum, Er hañ sagde: Ydar Hrygd Skal Snwast i Fognud. Ecke meinte hañ einasta þa Sælu-Von er þeir aattu vijsa med honum eilijflega i hañs Dijrdar-Rijke, helldur og Huggun Guds Anda i Mañraununum, Pvi alldrei voru þeir aan Moorlætis hier aa Jordune, og samt skrifar Paulus, ad þeir sieu so sem hryggver og þo jafnañ glader, 2. Cor. 6. Nu þoott oss vante miked aa ad vera so algiorder i Elskuñe til Guds, sem þessar DRotteñs Hetiur voru, Pa eigum vier samt ad kieppast epter þeirra fullkomnu

Dæme,

Dæme, So miked sem oss er mogulegt, Og hugga oss i ollum Mañraunum vorum vid
epterkomande Sælu, Vitande þad ad hin lietta Byrde Hormungareñar sem varer uñ
Augnablik, hun aflar oss yfergnæfañlegrar Dijrdar eilijfrar Þijngdar, 2. Cor. 4. Og
þetta er þad Paulus segier, Rom. 5. Er eg strax aminnteft, ad Poleñmæden verke Reyn=
sluna, Reynslañ Vonena, eñ Voneñ læte eige til Skamar verda, Hvar fyrer? Þvi=
ad Trwen, er Voneñe jafnañ fylger, hun er Vera þeirra Hluta sem koma skulu, Heb.
11. Hvors vegna, þeir ed bera Christi Ok, Þeir eiga vijst Himnarijke, þad er Pantur
Epterkomande Farsælldar, Vid hvorn hañs Brwdur gledur sig, þar til hañ kiemur, og
iñleider hana i Lambsins Brwdkaup, So þegar hun hryggest af Mootlætenu, þa gledst
hun eins miked edur meira af þeirre Dijrd, Sem vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfe,
Hvo[rr]ar eige eru verdar Mootlætingar þessara Tijma, Rom. 8. Þetta wtmaalar vor
Lau[sn]are med nærsta fogru Dæme hier i Gudspiallenu, Þar ed hañ segier: Ein Kona
Nær Hun Skal Fæda, Þa Hefur Hun Hrygd, Þviad Heñar Stund Er Komeñ, Eñ
Þa Hun Hefur Barned Fædt, Miñest Hun Ecke Þess Harmkvælis Fyrer Fagnadar
Sa[ke]r, Þviad Madur Er J Heimeñ Boreñ. Hvad viña Meñ ecke i þessum Heime
fyrer Veralldar Hofdingia, Og þad fyrer lijtil og Oviss Laun? Jaa, margur vogar Lijf=
enu og kañskie siñe eilijfre Velferd aa Stundum, og endest ecke til ad nioota þess, Er hañ
ætlar sier til Launa. O Guds Born! Þvi skylldum vier þa telia epter oss ad lijda nock=
ud fyrer Himna=Rijke, fyrer hin eilijfu Launeñ, fyrer þad dijrmæta Hnossed, Af hveriu
þeir alldrei sleppa kuña sem riettelega Skeided hlaupa? 1. Cor. 9. Fyrer hina kostulegu
Riettlætesins Coronu, 2. Tim. 4. Sem þeim er affiijdis logd, Er hafa barest goodre Bar=
attu, hallded Trwñe og goodre Samvitsku? Eiñ Madur, Sa ed situr i Tign og Heid=
re, Mun hañ ecke þacka sijnum Fodur, ad hañ hefur hañ so Vijslega uppaled, ad hañ maa
reiknast þeirrar Æru verdur aa sijnum Fullordens Alldre? Mun hañ nockud telia þau
Vandar Hoggeñ er hañ hefur sleigeñ vered? Og hvorsu ættum vier þa allar Þacker ad
kuña vorum Himneska Fodur, Sa ed tugtar sijn Born upp til eilijfs Lijfs, til Himnesk=
rar Konungs Tignar, til ad lifa og rijkia med honum eilijflega? Hvor mun þa miñast
þeirra Taarana sem hañ hefur fellt i þessum Eymdar=Dal, Nema hañ sem ad hefur hellt
þeim i siñ Siood, Ps. 56. Og þa allareidu þerrad þau af siña Barna Augum, Apoc. 7.
Þa mun þad verda uppskored i Dijrdeñe sem hier var saad i Hormwngeñe, Ps. 126.
Þa mun þeirra Glede=Saungur fagurt laata i hiñe biortu Jerusalem er Guds Dijrd
upplioomar, Apoc. 21. Hverra Op og Veinan ad Heimsins Bornum var til Spotts
og Athlaaturs hiaa Sorgar=Votnunum i hiñe dimu Babylon, Ps. 137. Verolldu
þessgre. Hverrar Æru og Vegsemdar oss uñe ad nioota hin Blessada
Guddoomsins Preñing fyrer JEsu Christi Bloods Krapt
og Forþienustu, AMEN.

# A Þañ Almeñelega Bæna-Dag.

Pistilliñ, Esajæ 55. Cap.

Leited DROTTENS a medañ Hañ er ad fiña, Kalled a Hañ a medañ Hañ er Nærlægur. Sa hiñ Ogudlege læte af sijnum Veige, Og Illvyrkeñ af siñe Hugan, Og snwe sier til DROTTENS, Þa mun Hañ Myskunna honum, Og til GUDS vors, Þviad i hia Honum Er Mikel Fyrergiefning.

## Exordium.

I Gamla Testamentenu tilsette DROTTeñ Eina Hætijd sem halldast skyllde Arlega i hinum Siøunda Mænade, og a Tijunda Deige sama Mænadar, Er Meñ sijdañ kallad hafa Hreinsunar Hætijd. A þeim Deige var boded, ad Israel skyllde þvijnga Sæler sijnar; Þad er siælfa sig, So sem þar um mælest, Levit. 16. Þesse Hætijd er ad sõñu afteken i Nija Testamentenu med øllum sijnum Foornum. Oss næger sw Eina og Algiorda Foorn sem Einusiñe er iñboreñ i þad Allra Helgasta af hinum Ypparsta Byskupe Sælna vorra, Ebr. 9. Eñ samt er þo Ydraneñ fyrer Syndernar ecke afteken, So leinge sem vier ecke leggium af ad Syndga, so leinge meigum vier ecke leggia af ad ydrast, Eñ þad mun ei verda fyrr'eñ Lijkame Syndareñar verdur med ollu afmædur, Rom. 6. Þvi ætte med riettu allt Christens Mañs Lijf ad vera ein Hreinsunar Hætijd, Edur ad miñsta Koste ættum vier ad giefa oss nockra Stund a hvorium Deige til ad ydrast og jata Synder vorar. Sa sem ætlar sier ad syndga nær Syndeñ flijgur honum i Hug og ydrast sijdañ, Hañ er ecke betre eñ sa sem ætlar ad draga Ydranena undañ til Daudañs, Þvi hañ veit ei nær hañ deya mune. Nu erum vier oss Medvitande þess, Brædur mijner, Ad þar falla so marger Dagar wr hia oss, Og kañskie, þvi verr, ad nockrer þeinkia hier allsialldañ til; Þvi er nu þesse Dagur af Konungenum tilsettur, ad hañ sie vor Føstu og Bæna-Dagur. Gud giæfe, ad hañ være þar epter hallden af oss med allre Gudrækne, So sem hañ er Naudsynlegur, Og ad ecke fiñdust þeir, sem giora Hæd wr Føstuñe, Med hverre þo Guds Heilager Meñ hafa þreyngt Bænum sijnum i giegnum Skijeñ Fordum Daga medañ Guds Foolk hiet Guds Foolk og Christneñ Christne. Eñ sijdañ hun hiet Loammi; Þad er, Ecke mitt Foolk, og Meñ ýfergæfu hiñ Lifanda Gud, Margur hver, Eñ giordu Magañ ad sijnum Gude, Þa er Føstañ vordeñ ad Athlætre, So vel sem oll Alvorugiefne i Guds Þionkan: Meñ hallda epter Blodunum, eñ hafa slept Avextenum, So David munde segia ef hañ nu lifde; Eg hulde mijna Sælu i Føstum, Og þad vard mier ad Brixle, Ps. 69. O! oss Aumar og Nænulausar Mañeskiur, Mun honum Føstañ Mislijka? Er segier hia Joel, Cap. 2. Snwest til mijn

mijn af ollu Hiarta med Fostum og Grraute og Harme. Og so ad þier vited ad þad
ecke er odruvijs i hinu Nija Testamentenu, Pa vil eg spyria ydur ad, hvert Gude mu-
ne ecke hafa þocknast Fasta Cornelii sem var Heideñ Madur? Er hañ sagde vid Pet-
ur, Act. 10. Nu er alla Reidu hiñ Fioorde Dagur ad eg hefe fastad, Og er eg be-
iddest fyrer uñ hina Nijundu Stund i mijnu Hwse, þa stood hiaa mier Eiñ Madur i
hvijtu Klæde er sagde vid mig: Corneli, Þiña Bæna og Olmusugiorda er miñst i
Guds Auglite. Mun Endurlausnaranum hafa þoott Fastañ Onijt? Er hañ sagde
vid Læresveinana þegar þeir gaatu ecke wtreked Tunglmeina Diofuleñ: Þetta Diof-
la: Kyn verdur ecke wtreked nema med Fostum og Bænahallde. Verde Diofulleñ
wtrekeñ af odrum med Fostum og Bænahallde, Matth. 17. Þvi skyldu Meñ ei
kuña ad reka hañ wt fraa sialfum sier? Verde Diofulleñ wtrekeñ med Fostuñe, Þvi
skylldu Meñ þa ei kuña ad faa Gude Jñbygt med heñe? Þvi þad er vijst, ad hvadañ
sem Satan er wtrekeñ, Þar vill Gud byggia; Þetta segie eg ei þess vegna, ad Fast-
añ viñe til nockurs i siaalfre sier, Eñ þad vitnar allt Guds Ord, ad Bæneñ verde kropt-
ugre fyrer hana; Fastañ maa eckert aan Bænareñar, Bæneñ verkar optlega aan Fost-
uñar. Fastañ hiaalpar til ad drepa hiñ Gamla Mañeñ sem er Andskote Bænareñar
og alls Gudrækelegs Framferdis, Sie hun ecke i þeirre Veru giord, Þa er hun Hræs-
ne. Heyrum hiñ Gamla Syrach hier uñ, Sa sem þvær sig epter hiñ Dauda, og
snerter aptur daudañ Mañ, Til hvers gagnar hañs Þvottur? Syr. 35. So er og
sa Madur er fastar i sijnum Syndum, og giorer aptur þær somu; Hvad vañ hañ med
þvi? Ad hañ Audmykte sig, Hvor mun heyra hañs Bæn? Esajas kieñer oss i upp-
lesnum Pistle, hverneg þeirre soñu Fostu eige haattad ad vera, Sem er, ad hiñ Ogud-
lege faste fyrer sijn vond Verk og Illvyrkeñ fyrer sijna Hugan, Og Þañig skipar hañ
DRotteñs ad leita. Vil eg þvi wt af þessum Esajæ Ordum Hugleida ad þessu Siñe
hvernig vier eigum ad leita Guds, Hvern vier so margfalldlega styggt hofum.
Hiaalpa oss O! HErra til ad giora so þetta þitt Verk, Ad vier þig funded, og fund-
num halldeð gietum. Bænheyr þad goode Gud, Fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

HVerneg vier eigum DRotteñs ad leita, þarf ecke laangt epter ad leita, Þad segier
sialfur DRotteñ oss, Jer. 50. med þessum Ordum: A þeim Dogum skulu Is-
raels Syner koma med Bornum Juda, Þeir skulu gaanga aan Aflaats graatan-
de og leita DRotteñs Guds sijns. Gydingar leitudu hañs aa hiñe Sijdurstu Kvala-
ña N[illegible] med Sverdum og Staungum, Med Lyktum og Log-Brondum, Matth. 26.
Vier s[illegible] ei þa[illegible] leita DRotteñs, Sem medkieñum ad vorar Synder hafa kvaled
hañ sem [illegible] fraaskileñ Syndurunum, Ebr. 7. Hverneg skulum vier hañs þa leita? Med
Harmþr[illegible]ngnum og Sundurknosudum Anda, Þad er med sañre Ydran. Veigeñ vit-
um vier ad soñn aller til Christum, Eñ þad fellur ecke ollum so liett ad gaanga hañ. Ei-
na Christelega Ydran er hægt ad nefna, Eñ þad veiter morgum baagt ad giora hana,

Jafnvel þoott oss breste alldrei Efne þar til, Sem eru Synder vorar og Ranglætingar,
Er Daglega stijga upp i Himeneñ fyrer Gud. Margur læst ydrast og jata sijnar
Synder fyrer Gude; Eñ eg Ottast ad þegar Gud lijtur af Himnum ofañ yfer Mañaña
Sonu, Þa mune hañ fiña so marga Pharaons, Exod. 20. Sauls, 1. Sam. 24.
Jeroboams, 1. Reg. 13. Og Achabs, 1. Reg. 21. Ydran, Þad er, Nytur fyrer utañ
Kiarna, Skij fyrer utañ Vatn, Visnadar Eikur Avaxtarlausar Tvisvarsiñum upp-
rættar, So sem Judas Postule ad Orde kiemst i sijnum Pistle. Eñ Davids, 2. Sam.
12. Josuæ, Jos. 7. Ezchiæ, Esa. 38. Og Peturs, Matth. 29. Lijkar munu færre vera,
Hvad Gud Nadarsamlega betre. Hvad er þad þa Br. M. sem eins Christens Mañs
Ydran a ad hafa til ad bera? Tvent er þad sierdeilis. 1. Ad hun sie heit og alvarleg. 2.
Ad hun sie ecke ofsein. Hvad hinu Fyrsta vidvijkur, þa veit eg ad soñu ad hiñ Nadugе
Gud þyggur opt af oss Viliañ fyrer Verked, Þvi hañ þecker vorn Vanmatt og Ofull-
komlegleika; Eñ i Ydranar Verkenu heimter hañ af oss ad vier framleggium allt þad
vier tilhofum og drogum ecke af. Sa sem kiemur fram fyrer Gud til ad jata sijnar
Synder, Og ad bidia um̃ Kvittun a þeim, Og ecke wtheller sijnu Hiarta af fremsta Meg-
ne fyrer honum, Ecke lætur Saalar og Lijkamans Krapta verda samtaka i þvi ad sund-
urmeria sitt Hiarta med Jhugan siña Jllgiorda og Guds Giædsku, Sijns Toomlætis
og hañs Riettlætis, Siña Lijta og Helvijtis Ellds, Sem þau hafa forþienad. Eg veit
ecke segie eg, hvad miklu hañ er betre eñ Ananias og Saphira sem leyndu af Verde Akur-
sins, Act. 5. Þvi eins og þau lugu ad Heilogum Anda er skyndarlega bioo i Postul-
unum; So maatt þu og vita, ad nær þu kiemur i þiñ Bænastad, þa stendur þu i Guds
Auglite sem alla Hlute sier, og jafnvel hin iñstu Filme þijns Hiarta rañsakar. Gabba
þvi ecke Gud med eintoomre wtvortis Hegdan, Þvi hañ lætur ecke ad sier hæda, Gal.
6. Og hafe þig saa Glæpur nockrum Siñum hendt, þa vit, ad þad er ein hroopleg Sy-
nd i Guds Auglite; Jaa, stærre eñ allar þijnar Synder, Þvi hun aptur helldur ollum
hinum, er þu atter ad afþvo med heitum Ydranar-Taarum. Gior þvi Ydran i Naf-
ne DRotteñs, Gior Ydran segie eg, og laat þig aangra þad af Hiarta, ad þu hafer kast-
ad Hondunum til so veglegrar Guds Þionustu. Villt þu vita hvad mikla Ydran
ad Gud heimter af þier fyrer Syndena, þa vill hañ ad Beiskia Ydranareñar skule sam-
sivooda Stærd Syndareñar, Þar fyrer, Nær þu med sialfum þier les þitt Synda-
Registur fyrer Gude, Þa hugleid hve miked Gaman edur Glede þu hafder af sierhver-
re Stoor-Synd sem þig rekur Miñe til, Og bid Gud ad slaa a Hiarta þitt med Moy-
sis-Sprota, ad þu meiger hryggiast so miked sem þu gladdest adur, og verder þu hier
um̃ Bænheyrdur, sem aan alls Efa verdur, Ef þu bidur heitt, B[illegible] Joh.
16. og bidur i JEsu Nafne, þa munt þu einkis Jmissa, þvi su Glede er þu a [illegible]mlegu
Athæfe hafder, og aflade þier Hrygdar i Guds Auglite sijdañ, Hun mun þier med ein-
um ædre og meire Fognude Endurgollden verda, Nær þu fiñur ad þu ert kvittur vid
Gud, Eñ sloppeñ wr Diofulsins Nete. Þess gietur Paulus, 2. Cor. 7. Þier erud

epter

epter Gude hryggver vordner, So þier hafed eingañ Skada af oss feinged, þui su Hrygd, sem epter Gude er, Hun verkar Ydran til Hiaalprædis, Hvorrar ei þarf ad ydrast: Þegar þier villed ydrast Brædur mijner, og þier setied ydur uppaa Doom=Stool ydar Hiarta til ad dæma siaalfa ydur, so þier verded ecke af DRottne dæmder, 1. Cor. 11. Þa aalijted ecke Syndena epter Mañlegum Þaanka; Vier fyrergiefum oss alltijd nockud siaalfer, og fiñum eitthvad til Affsokunar. Konañ bar Sokena uppaa Ormeñ, Eñ Madureñ gaf Konuñe Skulldena, Gen. 3. Aaron segier: Eg kastade Gullenu i Elldeñ og þar af vard þesse Kaalfur, Exod. 32. Eins erum vier aller Skape farner eñ nu i Dag ef vier laatum oss siaalfraada, og vilium ecke laata Guds Anda vid oss raada. Metum þui ecke Synder vorar epter vorum Þootta, helldur epter hañs Heilagleika, Hañs Riettlæte, moote hverium þær giordar eru. Metum þær epter JEsu saaru Þijnum. Epter þui Lausnar=Gialldе sem Gud hefur loked i voru Hollde, þa munum vier siaa hvad reidur Gud er þeim Syndunum sem oss jafnvel þyker lijted i spuñed aa Stundum: Þoott allur Heimureñ flite i Taarum um̃ allañ siñ Alldur, Þa megnade hañ ecke hina miñstu Synd ad hreinsa i Guds Auglite, Nema hañs Sonar Forþienusta giorde þau gylld. So stoor, so affkræmisleg er Syndeñ fyrer hañs Doome, Eñ Christs Forþienusta verdur eingum til Lids, Nema þeim, sem af Hiarta lætur sig aangra Syndena, Ætla þui ecke, ad þu muner komast af vid Gud med eintoomis Jaatningu Muñsins, Nema Hugur fylge Maale. Sa sem alleina jaatar Syndena med Muñenum, eñ aangrar hana ecke i Hiartanu, Hañ er eins og sa er tekur Umbwdernar af Saarenu, Eñ leggur ecke Plaastureñ þar vid. Guds Sonur er ad soñu i Heimeñ komeñ til ad lækna þad Sundurknosada, Esa. 61. Eñ hvernig aa hañ ad lækna þig Barn mitt ef Hiarta þitt er heilt og Obroted.

Þar er eirn Gull Kaalfur nærre þui i hvors Mañs Hiarta, þad er Verolld þesse sem ad sierhvor af oss hefur einhvorn Atrwnad aa, epter þui sem hvor er Lyndur til, og jafnvel þeir sem Gud elska vilia, Þeim er eins haattad og þeim, er ad soñu tilbaadu Gud i Jerusalem, eñ offrudu þo aa Hædum, 1. Reg. 22. So er þad fyrer oss aumum Mönum, vær segiunst laata Gud gaanga fyrer, eñ flester af oss hafa þo einhvoria Hiaa=Trw; Sumer Rijkdoom, sumer Metord, og sumer Munade sijna, og aa medañ vier hofum þa fram̃ hiaa Gude, þa er hætt vid, ad vier ecke af Hiarta ydrunst, Þui eigum vier ad breita vid þa eins og Moyses giorde vid Kaalfeñ, Hañ brende hañ til Osku, kastade honum i Vatn; og liet allañ Israel drecka hañ i sig til Blygdunar siaalfum þeim, ad þeir hofdu teked Egyptalands Svijvirdingar fram̃ hiaa hinum Lifanda Gude, Exod. 32. Svo eigum vier ad hondla vid Rachels Skwrgod, Þeim er hun situr aa, og leyner, Gen. 31. Þad eru heimuglegar Gyrnder Saalna vorra, sem ecke eru audsienar ollum. Vier eigum ad laata Moysen breña þær til Osku med Elldingunum af Synai, og kasta þeim i Flood vorra Ydranar=Taara, og drecka þær siaalfer upp, so þær hverfe, Exod. 32. Alldeilis, og verde ad eingu, Þad vardar ad litlu, þoott vier stondum rauder af Ovirdingu i

 Guds

Guds Auglite med Ephraim, Jer. 31. Þvi hañ sier þær hvort sem er; Laban og Jacob kuñum vier ad pretta, Gen. 31. Eñ ecke Jacobs Gud, Ps. 94. Þvi hañ er Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare, Og sier hvad i Myrkrunum er huled. Sundur-rijsed ydar Hiortu, Og ecke ydar Klæde segier DRotteñ, Joel. 2. Gydingar plogudu aa þeim Dogum ad rijsa sijn Klæde nær þeim rañ i Skap, Añadhvert þegar þeim bar nockur Sorg til Handa, edur þeir vandlættu i Guds Stad, Eins og Hræsnareñ Caiphas lietst giora, Matth. 26. Eñ hver Sorg skyllde oss meire tilfalla eñ su, ad v:d hofum hiñ gooda Gud stygdañ, uñ hvorn skylldum vier meir vandlæta eñ uñ sialfa oss, þvi eingum erum vier so margs Ills medvitande, Ef ecke i Verkunum og Ordunum, Þa samt i Hugreñingunum. Eitt sundur-rifed Fat gagnar til lijtils, sundur-rijsum vor Hiortu med Ydraneñe, Og þa munum vier skña, ad jafnvel vort Riettlæte er ecke betra eñ Nidlags-Fat sem Esajas vottar i 64. Cap. Þa munum vier hvad best wtlijta i Guds Auglite. Þegar vier athugum hvar fraa vier erum fallner, þa mun hañ giefa oss eiñ nijañ Klædnad, So ad Mijnkun vors Fatleysis ecke siaaest. Nu er þad ecke noog ad Hiarta vort klockne fyrer Gude uñ Stundarsaker, Ef vier hverfum þo aptur til somu Synda, Þa vill þad lijted gagna, ad vier hofum audmykt oss fyrer Gude. Þeirre Ydran er illa vared, sem leggur Mañenum alleina uppaa Hrygdena eñ ecke burt tekur Sektena. Eñ vid þad er ecke ad dyliast Br. mijner, ad þeirre Ydran er so haattad sem leiser Mañenum ad vellta sier aptur i sama Saur. Saa hiñ Ogudlege laate af sijnum vondum Vege, Og Illvirkeñ af siñe Hugsan, og snwe sier til DRotteñs, segier Texteñ. Hier er þad ad merkia Born mijn, ad Spaamadureñ kallar ecke ad Meñ hafe snwed sier til DRotteñs, Nema vier tokum vora Illsku Breitne fraa hañs Auglite. Þad er alkñugt, hverfu ad hiñ Gudlause Amnon Sonur Davids Konungs breytte skamarlega vid Systur sijna Thamar, ad hañ rak hana wt af Hwsenu, Er hañ hafde vanbrwkad heñar Lijkama, 2. Sam. 13. Eñ þo eigum vier eins vid Syndena ad breita, Þvi hun er ecke betra verd, Vier þeckium ecke heñar Lijte fyrer Blindu Holldsins, fyrr eñ Guds Ande ridur Smyrslum Ydranareñar aa Augu vors iñra Mañs, Apoc. 3. Eñ nær hañ so giort hefur, og vier fyrer Naad Guds þeckium vora Blygdan, þa eigum vier med ollu ad ryd-ia Glæpunum burt wr Hiortum vorum, og eingu ad leyna af þvi Satans Herfaange, sem Gud hefur bolvad, Jos. 6. Helldur breña þad upp til kalldra Kola, ad svo miklu Leite sem mogulegt er i þessum Daudlega Lijkama, og Guds Giæska fær i oss verkad. Og fyrer þvi ad þessu er svo vared, þa eigum vier Daglega ad Endurnyia vora Ydran, Þvi Daglega aa hiñ gamle Adam i oss ad dreckiast og deydast. Ecke segie eg þad, ad Meñ giete Syndlaust lifad, Þad er Guds eins ad syndga ecke, Eñ þad er Gudhrædds Mañs ad ydrast Syndareñar og rada Boot aa heñe, Eñ Gud tilreiknar ecke þeim sem eru i Christo, þær Syndernar sem ad Ovilia edur Mañlegum Breiskleika kuña ad henda oss; Hitt vill hañ ad Meñ skule Daglega ydrast, Þvi Daglega syndgum vier og forþienum ecke añad eñ Straff. Gud hialpe oss, Ef vier segdum ad vier hefdum ei Synd

segier

segier Johañes, 1. Pist. 1. Pa drogum vier oss sialfer a Taalar, og Guds Sañleike er ecke i oss. Jaa, allt vort Lijf er ei nema Synd, være þad ecke bætt fyrer Guds Sonar Dauda, Þegar vier hugdum ad lifa eiñ Tijma Syndlaust aafram, og vier lijtum aptur nær hañ lideñ er, Pa mætte oss hrylla vid þvi sem vier hugdum best ad giora, og so margt Augnablik sem er þar i, so margur Þyrne-Broddur munde stijnga Saalu vora, nema DRotteñs Forþienusta hefde giort Athafner vorar gylldar i Auglite hins straanga Doomara. Gud naade oss faraadar Mañeskiur, hvorsu ad vier erum under Syndena sellder. Saa sem vill skoda Stiornu nockra i einre Sioonar-Pijpu, hañ skal leita leinge ad heñe aadur eñ hañ fær komed Auga a hana, og nær honum hefur þad tekest, er hañ so skiaalfhendtur ad hañ varla fær vidhalldest, So ad hañ ecke misse heñar aptur. So erum vier i Andlegum Efnum, Vier skulum fyrst leinge þvijnga hiñ Gamla Mañeñ, aadur eñ vier faaum hina blessudu Jacobs-Stiornu, Num. 24. JEsum riett siena, Og nær vier þad ødlast høfum, Pa eru vorar Trwar-Hendur so Ostyrkvar, ad þar er nærsta hætt vid, ad hun kuñe ad hverfa oss aptur, nema Gud styrke vora Armlegge. Jaa, hiner bestu af oss eru eins og fylgespakur Hundur, Hañ reñur ad søñu Veigeñ epter sijnum Hwsboonda nockra Stund, Eñ ef hañ sier eitt Dijr, Eiñ Saud, Eiñ Hest, Eiñ Titling, þa hleipur hañ epter þvi. So eru og vorar Hugreñingar, vier reñum þeim til Guds i vorum Bænum under hañs Orda Heyrn, a vorum Ydrunar-Tijmum, og kañ skie nockrer optlega þar fyrer utañ, eñ strax sem þar flijgur fyrer oss eitthvort Glis Veralldareñar, einhvor Abata-Von, eitthvort Reide-Efne, eitthvert broslegt, sem oss þyker Skiemtan ad, Jafnvel þoott þad a Stundum sie Naaunganum til Hneisu og Ohroodurs, Þegar þetta edur añad þvilijkt, sem Verollden er full af bregdur fyrer oss, Pa bregdum vier opt af Veigenum, og hlaupum epter þessu, og giætum vier þa lijtt undañfareña Synda, er oss urdu so beiskar i Ydraneñe, ad þar var ecke Fridur i vorum Beinum fyrer Guds Ognan, Ps. 38. Ef vier laatum oss villa Oflaangt epter slijkum Hiegooma. Nu er þar þo eingeñ, sem kuñe ad vardveita so vel sitt Hiarta, Jaa, Eg maa segia Muñ og Hendur, ad ecke verde a fyrer honum i þesshaattar Hlutum, og þad Daglega, fyrer þvi siaaum vier og, ad vier hvorn Dag; Jaa, a hverre Stundu høfum noog Ydranar-Efne, og er þess betur þess optar, þvi saa er sier temur þad Hugarfar, hañ lærer bæde ad siaa gior epter Athøfnum sijnum, So og er lijklegt, ad hañ mune ecke hverfa aptur til Stoor-Glæpaña, þvi ef hañ so lærer ad ydrast Daglega þelrra Bresta, sem hañ fær varla edur ecke vidgiort, Pa mun honum i Hug koma, hvad saart þad mune kvelia hañs Samvitsku ef hañ skyllde rata i nockurn Ogiørning. So eigum vier nu ad leitast vid ad afmaa Lijkama Syndareñar, Rom. 6. Pad er illa bygt, ad briota eitt gamallt Hws nidur og tilla þvi uppaptur af sømu Rofum. Meñ skulu ecke einasta deyda hiñ gamla Mañeñ, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, helldur a þar ad upprijsa eiñ nijr Madur, saa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude Æfeñlega, Añars geingur hiñ aptur, Og eiñ Diøfull sem Einusiñe er wtrekeñ, hañ tekur Sio

adra

adra Anda sier verre, Luc. 11. og hverfur aptur i þad Hws hvadañ hañ wt foor. Giæt-
tum ad hvernig þeir hafa breitt sem af Hiarta hafa ydrast. Petur var miklu Trwar-
sterkare, epter þad hañ hafde til fulls Grææted þad hañ hafde Trwna mist, Matth. 26.
og fieck so meire Næd eñ hañ mist hafde, Act. 2. Eiñ Stoor-Syndare sem af Hiarta
ydrast hefur, Hañ er miklu lijklegre til ad standa stodugur, helldur eñ eiñ sem meinar ad
sier hafe eckert æorded, Og er af Moñum goodur hallden. Gude er og miklu þægre
soddañ Stoorbrota Mañs Ydran og Elska til Guds sem optast mikel er, af þvi honum
fyrergafst miked, Luc. 7. helldur eñ Ydrunarlaust Meinleyse þess, er lijted edur eckert fiñ-
ur til Synda siña, Þar fyrer sie Ydraneñ so heit, so kroptug og so alvarlig, ad þad beisk-
est i vorre Sææl, sem ædur þootte sætt i Lijfernenu, og ad þad kvelie oss i Hiartanu, Er
ædur gladde i Holldenu, So opt sem vier miñunst æ vorar eigeñ Synder, edur heyrum
þær af odrum drygdar, og þa munum vier sijdur aptur æ nij samþyckiast þeim Glæpun-
um er DRotteñ hefur oss eitt Siñ kvitta giefed. J Exod. 29. stendur ritad um Breñe-
Foornernar, sem og voru Synda-Foorner, ad þær ættu med heilu Lijke ad uppbreñast.
J Levi. 1. Er Kieñemoñunum skipad ad þvo Jñiblé soddañ Breñefoorna og svo Fæt-
urnar. Nu bijdur St. Pææll oss Rom. 12. Ad vier skulum offra Gude Lijkame vora,
Eina lifande Foorn Heilaga, Gude þægelega, Pad er sw Breñe-Foorn er honum lijkar
i hinu Nya Testamentenu. Þvoum þvi Jñibleñ, Þvoum Hiarta vort, bleytum þad
wt i heitum Ydrunar-Tæærum, Þvoum Fætur vorar af þeim Saurendum, er þær hafa
atast i, æ hinum breida Veigenum, sem liggur til Glotunareñar, Matth. 7. DRotteñ
sagde vid Petur, Joh. 13. Sææ sem þveigeñ er, Hañ þarf ecke ad þvo nema Fæturnar.
Frelsareñ droo hier Dæme af þeim sem Laug edur Bad taka, Þeir þvo Fæturnar sijd-
arst þegar Lijkameñ er allur þveigeñ. O! Guds Born, Vier erum ad soñu aller þveg-
ner, i Skijrnar-Laugeñe, i hvoria JEsu dijrmæta Blood er wtruñed, eñ vorar Fætur
hafa sijdañ geinged æ vondum Veige, og Daglega eigum vier Leid i giegnum Fen og O-
veige þessarar Veralldar. Eingeñ er so vel Skoofatadur, Eph. 6. So reidubweñ, ad
framfylgia Evangelio Fridarens, ad ei sletteft nockud uppæ. Forgiefens erum vier i
Skijrneñe af-þvegner, Nema vor iñre Madur skijrest Daglega i Tææra-Floode vorrar
Ydranar. Pad er ecke noog ad vera skijrdur i Jordan, Vær skulum og skijrast i Ma-
ra, Exod. 15. Þvoum þvi Hiartad sem ad er Bruñur Jllskuñar, af hvoriu fram koma
vondar Hugsaner, Matth. 15. Med Christelegre Ydran, Hreinsum Fæturnar med sa-
ma Hætte, og hiñ Ogudlege læte af sijnum Veige, leggium so þessa Foorn uppa DRott-
eñs Altare. Þegar Aaron hafde helgad Samkundu Tialldbwdena og Verkfære
Þionustugiordareñar, og lagt Breñefoornena uppæ Altared, Þa gieck Elldur wt fra
DRottne og fortærde þvi, Lev. 9. Þegar hin Nya Tialldbwd Guds sem er Hiarta
eins ængraads Syndara, þegar hun er hreinsud og helgud med Ydraneñe, þa mun H.
Ande i þvi byrtast i einum Ellds Loga, og uppkveikia i þess Mañs Hiarta eina breñan-
de Elsku til Guds, Er honum so margar Synder hefur tilgiefed, sææ sem heñe hefur eitt
Siñ

Siñ nꜳd, hañ hefur nꜳd þvi gooda Hlutſkiptenu, Honum mun hægra ad mootſtanda Syndeñe ſo leinge hun ecke ſlocknar, Pa er ecke hætt vid ad hañ lꜳte Syndena i ſier drottna; Hun uppbreñer allt Sorp Veralldlegra Gyrnda i Hiartanu. Þegar Gedeon hafde lagt Breñefoornena uppꜳ Kletteñ, Epter þvi ſem Eingell DRotteñs baud honum, Pa riette Eingelleñ ſiñ Staf wt er var i hañs Hende og ſnerte Foornena, Og þar ſpratt Elldur upp af Biargenu, og fortærde Kiotenu og hinum Oſijrdu Braudunum, Jud. 6. Legg þijna Foorn Chriſteñ Madur uppꜳ þañ Stein ſem Uppbyggendur forſmꜳdu, Pſ. 118. Þañ wtvallda Hyrningar-Stein, Er Gud hefur ſett i Zion JEſum Chriſtum, Eſ. 28. Þar mun Elldur wt frꜳ honum gꜳnga; Jꜳ, eiñ breñande Elſkuñar og Trwareñar Elldur, ſem upptendrar þijna Foorn, So Gud ſem bijr i Hædunum lukte eiñ Sætleiks Jlm þar af: Og hefe eg nu ſo um̃ þad nockud talad hvorſu ad Ydraneñ eige kroptug ad vera til Apturhvarfs fra Syndunum, og til Motſtodu þeim.

Nu þoott ad Meñ ſieu um̃ þad ſañfærder i Hiarta ſijnu, ad eingeñ kuñe ad eignaſt Eilijft Lijf, nema ſꜳ ſem af Hiarta ydraſt Syndaña og lætur af þeim, þa erum vier ſo treger til þeſſa Verks, og vier lꜳtum oſs allt añad meir um̃hugad vera. Segied mier, hver er ſꜳ ed ſegie, Þar er nogur Tijme til ad verda rijkur? Til ad taka Veitſlur og Virdingar? Til ad reiſa til Gieſtabods? Segier ein Jomfrw, Þar er noogur Tijme til ad gyptaſt ef heñe bijdſt þad Rꜳd ſem heñe lijkar? Edur ſꜳ hvors Aſne edur Naut ad fellur i Pitt, ad þad ſie noogur Tijme til ad draga þad upp. Eda ef Elldur kviknar i eins Mañs Hwſe, ad noogur Tijme ſie til ad ſlockva hañ? Eñ til þeſs ad kveikia vora Lampa, til ad fagna Brwdgumanum Chriſto, Matth. 25. Til ad draga ſialfa oſs upp wr Fene Syndaña, til ad ſlockva Bꜳl Gyrndaña, ſem Dioſulleñ hefur upptendrad i Hiarta voru, til þeſs kollum vier ad alltijd ſie noogur Tijme, eins og hefdum vier Feſte-Brief, af Gude uppꜳ Lijfdagana. Þier vited hvad St. Pꜳll ſegier, Gal. 5. Holldſins Verk eru Opeñber, Sem eru Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lauſung, Skwrgoda Dijrkan, Fiolkijnge, Fiandſkapur, Prætur, Kappgyrne, Prꜳttan, Sundurþyckia, Flockadrꜳttur, Oſund, Mañdrꜳp, Oſdryckia, Oſneytſla, Og þeſſu lijkt, hvad eg ſegie ydur fyrer og hefe ꜳdur ſagt, ad þeir ed þvilijkt giora, Erfa ecke Guds Rijke, ſegier hañ. Nu hafa aller af oſs framed eitthvert af þeſſu edur þvilijku, kañ ſkie leingſt Alldurs ſijns, Og ſumer ecke eñ nu aflꜳted, Eñ vier vitum ecke nær ſagt verdur; Þu Dꜳre, ꜳ þeſſare Noottu munu þeir þijna Sꜳl frꜳ þier taka, Luc. 12. Og ſumer fꜳ einga Advorun. Ecke kaſtar Daudeñ ollum fyrſt i Bana-Sængena. Margur deyr, ſo hañ ſier ecke Daudañ fyrer Augum ſier. J einu Augna-Bragde, i Svefne, midt i Syndunum kipper hañ ſumum i burtu; Eñ þu veitſt ecke hvad hellſt af þeſſu ad þier mune ætlad. Seig mier þa i Guds Nafne, ſeig mier, Er þar alltijd noogur Tijme til ad ydraſt? Er þad viturlegt, ad draga ſijna Um̃boot undañ i Trauſte lꜳngra Lijfdaga, Eins og hefdum vier giort Sꜳttmꜳla vid Daudañ? Vor Dauda-Stund er alltijd, Þvi ſkyllde vor Ydrunar-Stund alltijd vera, þu ſegier, þad tekſt mier ecke, þvi medañ eg

syndga giet eg ecke ydrast, Pad er satt, þvi Ydraneñ kiemur ecke fyrr eñ epter Syndena,
Gud giæfe ad hun kiæme þo jafnañ strax ad heñe drygdre, og mundum vier sialldnar
syndga, Fyrst þvi verdur ecke ækomed, ad vier huxum til þess, Nær Syndeñ grijpur oss,
hvad beisk Ydran þar verde æ epter ad fylgia ef Syndeñ æ ad verda oss fyrergiefeñ.
Gud giæfe vier villdum giora eins og Dwfa Noa, Gen. 8. Hun flaug wt og kom
aptur strax med eiñ Oliu-Kvist i Muñenum sem var Fridar-Merke. Gud giæfe, segie
eg, ad vier villdum eins giora þegar vier fliwgum wt af Guds Ørk med Syndsamlegu
Athæfe, Ad vier villdum þa hverfa strax aptur i Ørkena, og Fridmælast vid Gud, Og
ecke lijkiast Hrafnenum er alldrei kom aptur, Gen. 8. Br. M. So leinge sem vier er-
um i Syndunum, So leinge erum vier under Guds Reide, Joh. 3. So leinge vier æn
Ydrunar lifum, erum vier under Satans Vallde, Act. 26. Vitstola mæ sa vera sem
þetta vill eiga yfer Høfde sier: Eñ Gud frambijdur sijna Myskunseme med þeim Skil-
mæla, J Dag, J Dag medañ þu heyrer mijna Rødd þa forherd ecke þitt Hiarta, Ps.
95. Diofulleñ heiter oss og Guds Myskunseme med þessu Skil-Yrde: A Morgun,
A Morgun, Eñ ædur eñ þesse Morgun kiemur, þa kañt þu ad vera uppvaknadur i Hel-
vijte og Kvølunum. Esau kom seint med Brædena, Pvi foor hañ æ Mis vid Bless-
anena, Gen. 27. Pharao þuste epter Jsrael wt i Hafed Rauda, Exod. 14. Eñ villde
slijta sier aptur til sama Lands er Siooreñ gein yfer Høfde honum, Eñ þad var þa allt
um seiña. O! þu syndug Mañeskia, Pu sem meinar ad þar sie alltijd noogur Tijme til ad
ydrast, þeink æ þetta Dæme, ef þu geingur Ottalaust æ fram i hinu rauda Hafe blood-
ugra Synda og Jllgiorda, og þeinker alldrei til Apturhvarfs, Hvad veitst þu nær Guds
Reide-Flood steypest yfer þig, ad þier Ovørum, so þu gieter ecke aptur snwed. Spar-
ed Tijmañ segier Paulus, Eph. 5. Pegar vier høfum miked ad sijsla Br. M. er oss
þyker æligg a, Pa køllum vier hvern Tijma, Hvert Augnablik ad vera dijrmætt. O!
segied mier, Liggur oss æ nockrum Hlut so miog sem ad komast i Sætt vid hiñ Almætt-
uga, Po lætum vier oss so lijted þar um añt vera. Ef nockur slepper goodu Tækefære
til ad framkvæma einhvern Hlut sier til Gagnsmuna, þa hlæum vier ad honum, Ef vier
ecke hyrdum um hañ, aumkum hañ og ætelium ef hañ er vor Vinur, hende þad oss siall-
fa, Pa ydrunst vier epter, Eñ Diofulleñ hlær ad oss ad vier forsoomum ad taka æ moo-
te Guds Giof medañ hun er fyrer Høndum. Margt kalla Meñ Heimsku i Verølld-
eñe, og hver af oss hlær ad ødrum, Eñ eingeñ er þvilijkur Dæraskapur sem sa er oss mar-
ga hender, Pad er ad skioota Ydraneñe æ Frest. Hañ er syndgar i þvi Trauste, ad hañ
mune gamall verda, Hañ er lijkur þeim, er brijtur Skip sitt i þeirre Von, ad hañ mune
komast til Lands æ Flaka einum. Eg hefe ædur sagt, Ad Syndeñ verde ecke fyrergief-
eñ nema ad Ydraneñ ad nockru Leite sambioode heñe, hverium Deige næger sijn Piaan-
ing segier Endurlausnareñ, Matth. 6. Munde þad ecke verda oss noogu þwngt ad
ydrast æ hveriu Kvollde fyrer hvers Dags Synder, Ef vier hefdum þeirra Registur
vel uppskrifad i Hiartanu? Poott ecke skiootum vier þvi æ Frest Dag epter Dag, Ar

epter Ar; Mun ecke þesse Byrde verda nockud Þwng um̃ sijder? Sa sem er odrukñ hædur og æ ad viña Dags-Verk, ef hañ forsoomar framañ af Deigenum, Mun hañ ecke þess betur meiga herda æ sier þegar hañ tekur til Verksins? Sa sem hefur i Ungdoomenum lijtels aktad Syndena, Mun ecke Ydraneñ verda honum þess þijngre i Elleñe ef hañ æ Guds Rijke ad erfa? Vier vitum ecke hvad gamall David var þegar hañ sagde ad Syndernar væru sier ofþwng Byrde vodnar; Hvad muntu þær ecke vorded hafa hefde hañ dreiged þær undañ allt til Daudans. Eingeñ er sa af oss, ad hañ legge hinar þijngstu Klyfiar æ hiñ veikasta Eyk, og þo vilium vier kasta allra vorra Lijfdaga Syndum uppæ vorn Hrygg þegar vier erum so Ellemooder, ad vier hofum noog ad bera sialfa oss. O! hversu vijslega var þad þvi giort af David? Er hañ beidde Gud ad lata sig ecke gialda siña Ungdooms Synda, Ps. 25. Eitt Saar er hægast ad græda medañ þad er Nijtt. So er og Syndeñ, Hun verdur best læknud ad ferskum Giorninge. A Morgnana taka Meñ Læknisdoom iñ a toomañ Maga. Ydraneñ er Lækning Syndareñar, Tem þier hana Barn mitt æ Morgne þijns Alldurs, medañ þu Fullhraustur ert; Þeink æ þiñ Skapara i Ungdoome þijnum ædur eñ þeir vondu Dagarner koma, og þu segier: Þad lijkar mier ecke, Eccl. 12. Paulus skipar oss ad Krossfesta Hollded, Gal. 5. Eñ þad er lijtill Kross fyrer hiñ Gamla Adam ad baña honum þad sem hañ gietur ecke haft Skiemtan af leingur, Þad er ad vijsu ad offra Gude þvi Hallta og Lamada, Mal 1. Og mæla honum med Mæler hiñs Framanda, Eñ Fiandanum med Israels Mæler. Þyrm Elle þiñe ef þu kant heñar ad bijda, og bijder þu ecke, Þa munt þu fiña, ad þu hefur eingañ Skada nær Kvolld þiñar Æfe kiemur, þoott þad sie um̃ Middeige þijns Alldurs edur jafnvel fyrr. Veit eg ad Gud hefur morgum snwed æ sijnum gomlum Alldre, Eñ under þvi er ecke ad eiga, þoott hañ sie Myskunsamur, Hañ hefur alldrei lofad ad lata þañ kasta Elle-Belgnum til ad ydrast, Sem alldrei þeinker til ad afklædast hinum Gamla Adam medañ hañ Fullhraustur var.

Þu giorer mig ungañ aptur so sem eirn Orn segier David, Ps. 103. Þad er æn Efa þess vegna, ad David endurnijade sijna Ydran Daglega. Eru ecke Toolf Stundir i Deigenum? Segier Endurlausnareñ, Joh. 11. Eg heyre Vijngards Herrañ liet Verka-Meñ leigia um̃ Elleftu Stund, Matth. 20. eñ sijdar ecke. Veit eg ad Gud hefur morgum i Andlatenu myskunad, og hañ myskunar ollum sem hañs Nadar leita, Eñ þau munu Dæmeñ færre vera, ad sa hafe snwed sier af Hiarta til Guds i Andlatenu, Sem hañ forsmad hefur alla Æfe sijna. Spæmadureñ segier i Textanum: Leited DROTTeñs Medañ Hañ Er Ad Fiña, Kalled A Hañ Medañ Hañ er Nalægur; So sem giore hañ Nad fyrer þvi, ad sw Tijd kuñe ad koma, ad hañ late sig ei leingur fiña, Ad hañ vilie ecke framar vera Nalægur, Ad hañ vilie ecke heyra þoott vier margtalader sieum, Og wtbreidum badar Hendur vorar, Esa. 1. Ad hañ iñeloke sig i einu Skije sem eingeñ Bæn kiemst i giegnum, So sem Jeremias ad Orde kiemst, Thren. 3. O! Guds Born, Latum oss, Latum oss ecke bijda epter þeirre Tijd, Hver veit nær hun

er? Hver veit nær Mæler Syndaña er uppfylltur? Hver veit nær Hofud-Eingelsins Lwdur kvedur vid i Skijum Himens? Snwed ydur þvi til DRottens Unger og Gamler, Rijker og Fatæker, Vollduger og Vesæler, Pa Mun Hañ Myskuna Oss, Og Til GUds Vors, Pvi Hia Honum Er Mikel FYRERgiefning. Eingeñ Hlutur er honum Omattugur, Luc. 1. So er og eingeñ Mæler hañs Myskunar, frá hañs Kniaam hefur eingeñ fyniande fared, Sem hañs leitad hefur med Angre og Trega. So flioott sem David jaatade Afgiord sijna, So flioott liet DRotteñ segia honum: Gud hefur þijna Synd i burt-teked, 2. Sam. 12. Manasses stynur ecke fyrr i Boudunum, 2. Par. 33. eñ ad hañs Misgiorder eru fyrergiefnar i Himnunum. Miñ HErra JEsu, Pu sagder Fordum vid Simon, Luc. 7. Peim sem lijted er fyrergiefed, hañ elskar lijted. HErra, Par er eingeñ af oss sem hier liggium aa þiñe Foot Skør sem lijted er fyrergiefed. Morg Tiju Pusund Punda eru oss uppgiefeñ hinum verstu Skulldar-Priootum. HErra, Ef þad er mogulegt, þa gief oss ad vier elskum so miked, sem oss er til giefed. Vier erum Fortapader Syner, Sem hofum soead vorre Fodurleyfd, Eñ leitum þo aptur til Fodur-Hwsa, Luc. 15. DRotteñ þu hefur ruñed aa Veg fyrer oss Og breidt wt þiñ Fadm aa moote oss, Pu hefur mætt oss aa midre Leid og teked fagnande i moote oss; Laat oss þvi alldrei gleyma, Og alldrei verda i so Fraaleitt Siñe ofergiefna, ad vier hverfum burt aptur til ad eta Draf med Svijnum, Helldur ad oss smackest so þijnar Vister, Pijner Uxar og aled Fie, Luc. 14. Er þu tilreider oss hier i Naadeñe, Ad vier meigum sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Dijrdeñe, Matth. 8. Bænheyr þad goode Gud, Fyrer JESU Christi Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Suñudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

JEsus sagde til siña Læresveina: Nu fer eg til hañs sem mig sende, Og eingeñ af ydur spyr mig ad, Hvort fer þu? Helldur af þvi ad eg talade þetta til ydar, þa uppfyllteft ydar Hiarta af Hrygd. Eñ eg seige ydur þo Sañleikeñ, Ad þad batar ydur, ad eg fare hiedañ. Pvi ef ad eg fer ei i burt hiedañ, Pa kiemur eige Huggareñ til ydar. Eñ ef eg fer i burt hiedañ, mun eg senda hañ til ydar. Og þa ed hañ kiemur, straffar hañ Heimeñ um Syndena, og uñ Riettlæted, og uñ Doomeñ. Uñ Syndena, af þvi þeir trwdu ecke aa mig. Eñ uñ Riettlæted, Pviad eg fer til Fodursins, Og epter þad siaae þier mig ecke. Eñ uñ Doomeñ, Pviad Hofdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe eñ nu margt ad seigia ydur, Eñ þier kuñed ecke ad siñe ad bera þad. Eñ nær ed sa Sañleiksins Andeñ kiemur, þa muñ hañ

hañ kleña ydur allañ Sañleik, Pviad hañ talar ecke af siaalfum sier, Helldur hvad hañ heyrde, Pad talar hañ, Og hvad Epterkomande er, Pad kuñgiorer hañ ydur, Hañ same mun og auglijsa mig, Pviad af mijnu mun hañ þad taka og kuñgiora ydur. Allt hvad hellst Fadereñ hefur, Pad er mitt. Par fyrer sagda eg ydur, Ad af mijnu mun hañ þad taka, Og kuñgiora ydur.

## Exordium.

EG mun bidia miñ Fodur, Segier Endurlausnareñ, Joh. 14. Og hañ mun senda ydur Eiñ añañ Tals-Mañ, Pañ er blijfe hiaa ydur Eilijflega, Anda Sañleiksins, Hvern Heimureñ fær eige medtteked, Pvi hañ sier hañ ecke, og þecker hañ ecke, Eñ þier þecked hañ, þvi hañ mun blijfa hiaa ydur og i ydur vera. Læresveinar HErrans voru Sorgbitner af þvi ad hañ sagde þeim fyrer sijna Burtfor til Fodursins, Joh. 16. So sem vier strax heyrdum af Evangelio. Eñ til þess ad þeir skylldu ecke allt Ofmiog Sturlast þar af, Pa gaf hañ þeim þetta Blessada Fyrerheit, Hvert hañ efnde strax epter sijna Himnafor, Par hañ sende Heilagañ Anda yfer þaa med miklum Krapte og Undrunum, Act. 2. Er fylgde þeim æ sijdañ i øllum þeirra Embættis Utriettingum, Og kañ hiñe Pridiu Guddoomsins Persoonu eckert Huggunarsamlegra Nafn ad giefast eñ þetta, ad hañ sie vor Tals-Madur, Rom. 8. Pvi ef Gud er med oss, Hver er þa aa moote oss? Segier Postuleñ. Eñ ad H. Ande sie Gud, ber Skijrneñ vor lioosast Vitne uñ þott eige være þar til oñur Rok, Par vier verdum i hañs Nafne skijrder aasamt Fodur og Sonar, Matth. 28. Hañ er vor Tals-Madur i Hormungunum, Pvi hañ kieñer oss ad fyrer þær byrie oss iñ ad gaanga i Guds Rijke, Act. 14. Vor Tals-Madur i vorum Veikleika, Pvi hañ ber vorum Anda Vitne uñ ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. Vor Tals-Madur hiaa Gude, Pvi hañ bidur fyrer oss med Ouñrædelegum Andvorpunum: Vor Tals-Madur i þvi ad undervijsa oss, Pvi hañ leider oss i allañ Sañleika: Vor Tals-Madur i Efasemdeñe er oss optlega hender, Sokum vors Overdugleika, Pvi hañ er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Eñ so sem þad, ad Einum Tals-Mañe heyrer ecke alleina til ad forsvara og afsaka hañ er hañ ad sier tekur, og Hughreysta hañ og undervijsa, hverneg hañ skule haga sier fyrer Doomaranum edur sijnum Herra, Helldur og er þad hañs Embætte, ad mootstanda hañs Ovinum, Og ad sañfæra þaa sem aa moote mæla; So er þad og Heilags Anda Verk, Ecke alleinasta ad hugga Guds Born, og leida þau i allañ Sañleika, helldur og ad straffa og byrgia Muñeñ aa þeirra Ovinum. Petta Embætte H. Anda er Iñefaled i þeim Ordum, Er Guds Sonur talar hier i Evangelio, Ad Hañ Mune Straffa HEimeñ Uñ SYndena Og Uñ Riettlæted Og Uñ DOOmeñ: Og fyrer þvi, ad þau þykia ecke so Audskileñ, Pa vil eg laata þad vera Iñtak miñar Einfalldrar Rædu i þetta Siñ, ad wtskijra þau.

DRotteñ hiaalpe þar til med Naad sijns Anda, J JESU Nafne, AMEN

## Utleggingeñ.

NÆr hañ kiemur mun hañ Straffa, edur Sañfæra Heimeñ um̃ Syndena, segier Endurlausnareñ. Eingeñ Efe er aa þvi, B. M. ad þetta aa ad skiliast um̃ hina stooru Vantrwareñar Synd, hver ed drottnade i Heimenum framar Veniu a Hiervistar Dogum vors Lausnara: Eg segie i Heimenum, Þad er i Vantrwareñar Bornum, Eph. 2. svo ad bæde Gydingar og Heidingiar voru under þessare Synd, þar Gydingar Oskudu Teikns segier Þaall, 1. Cor. 1. Eñ Gricker (þad eru Heidingiar) leitudu ad Speke, Hiner villdu ecke trwa nema þeir sæe Teikn og Stoormerke, og þoott þeir morg sææ, Oskudu þeir samt Teikns af Himne. Þesser leitudu ad Speke og meintu ad þeir med Naatturuñar Skilninge feinge griped hiñ Orañsakañlega Guddoinsins Dijrdar Liooma, Sem uppfyller bæde Himin og Jord, Hvern Guds Sonur var sendur til ad opeñbera. Eñ fyrer þvi ad hañ vard Gydingum ad Hneixlan, Eñ Gryckium ad Heimsku fyrer þeirra Vantrwar Saker, þa var Heilagur Ande wtsendur til ad sañfæra Heimeñ um̃ þeñañ Guds Sañleika. Ad þetta so eige ad skiliast, er Þeigenum lioosara af Orsokeñe er DRotteñ færer hier til, sem er þesse: Af þvi þeir trwdu ecke aa mig. Hañ talar um̃ þetta so sem eiñ undañ fareñ Hlut, Eñ þa var allareidu komed ad hañs Burtfor til Fodursins. Nu er þad kuñugt hversu liooser ad voru Spaadoomarner og Ritningarnar sem af honum voru, hveriar hañ baud þeim ad rañsaka, Joh. 5. Samt villdu þeir ecke laata hañ drottna yfer sier. Þeirra eigeñ Sende-Meñ baaru Vitne um̃, ad alldrei hefde nockur Madur talad so sem þesse talade, Joh. 7. Þo sogdu þeir ad hañ Gudlastade, Þeir saau hañs Kraptaverk, og jaatudu ad eingeñ kyñe þvilijkt ad giora, nema Gud være med honum, Joh. 3. Samt baaru þeir sier þa Ohæfu i Muñ, ad hañ være Samverskur og hefde Diofuleñ, Joh. 8. Þeir hofdu fyrer Augunum hañs Allra Heilagasta Lijferne, Þo kolludu þeir hañ Ofneytslu-Mañ og Vijnsvelgiara, Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra, Matth. 11. Þeir kuñu ecke ad straffa hañ um̃ nockra Synd, Joh. 8. Þo klogudu þeir hañ, So sem þañ ed fraasnere Foolkenu og bañade ad giefa Keysaranum Skatt, Luc. 23. Þesse var su Gudlausa Vantrwareñar Synd sem JEsus hier um̃ talar, Hun verdur og aa Stundum kollud Synd i Ritninguñe framar odrum Syndum. Um̃ Jeroboam stendur vijda i Kongaña Bookum, ad hañ hafe komed Jsrael til ad syndga, 1. Reg. 12. Þad er til Vantrwar og Afguda-Dyrkanar. Ef þier værud blinder (segier Lausnareñ vid Gydinga) þa hefdud þier ecke Synd, Eñ nu þar þier segied, vier siaaum, þa blijfur ydar Synd, Joh. 9. Hvar eige kañ añad meint ad vera eñ Synd Vantrwáreñar, Þvi fyrer utañ hana hofdu þeir þo margar Synder; Jaa, Þesse er sw hrædelega Synd er hañ um̃-talar, Joh. 15. 22. 24. Hefde eg ecke komed og talad til þeirra, þa hefdu þeir ecke Synd, eñ nu hafa þeir ecke þad þeir kuñe ad skijla Synd siñe med, hvar fyrer miñ HErra? Þvi hefde þesse eina Synd burtu vered, Þa hefdu allar hinar afmaadar orded. Jaa eñ aptur, Hefde eg ecke giort

þau

þau Verk aa medal þeirra sem eingeñ kañ ad giora, þa hefdu þeir ecke Synd, Eñ nu hafa þeir sied þau, og hata bæde mig og miñ Fodur, Petta er su stoora Vantrwareñar Synd, sem ollum odrum framar Synd kallast i Ritninguñe, Hvar fyrer? Pviad medañ hun blijfur, blijfa allar adrar. Lækning Saalareñar og allra vorra Meina er alleina sw Forlijkun sem JEsus giort hefur, er hañ bar vorar Synder uppaa Tried, 1. Pet. 2. Hver sem þvi ecke trwer, þañ vill DRotteñ ad H. Ande sañfære, Pviad med þvi ad trwa Riettelega aa hañ, verda allar adrar Synder i burtu teknar, Vill hañ þvi ad Heimureñ verde sañfærdur um̃ þessa einu Synd, Pviad fyrer hana eina verda allar hinar bundnar og apturhalldnar, Pad giorer JEsus bert, Joh. 3. segiande: Saa sem ecke trwer, hañ er þegar Dæmdur, Og aptur segier hañ i sama Cap. Saa sem ecke trwer Synenum, Hañ mun ecke siaa Lijfed, helldur blijfur Guds Reide yfer honum; Jaa eñ framar: Ef þier ecke trwed þvi ad eg sie, þa munud þier deya i ydar Syndum, Pad er, ad eg sie Lioos Heimsins, So sem hañ hafde skom̃u aadur um̃ sig vitnad, Joh. 8. Siaaed hier, Br. M. ad Vantrweñ er ein Hofud Synd, og ollum odrum meire. Og er nu audsært hier af, ad hun er sw Synd er DRotteñ um̃talar hier i Evangelio, Og þott ecke være añad til Vitnis hier um̃, Pa eru þau Undur og Stoormerke er H. Ande byrte med siñ Guddooms Krapt under eins og Sakleyse, Almætte og Guddoom Christi, strax epter hañs Himnafor, Til ad sañfæra Heimeñ um̃ þessa skielfelegu Vantrwareñar Synd, Edur hvad sijnest ydur um̃ hina miklu Raust er kom af Himne so sem þiootande Stormvidres, og fyllte upp Hwsed þar Postularner iñe voru, um̃ þær Elldlegu Tungur er settu sig yfer sierhvorn þeirra, um̃ þau adskiliañlegu Tungumaal, er þeir toludu epter þvi sem H. Ande gaf þeim wt ad tala? Act. 2. Segier ecke Lucas, ad þeir ed þad heyrdu hafe vorded fraa sier numder og Tvijlraader, Segiande hver vid añañ: Hvad er þetta? Hvad virdest ydur um̃ hina fyrstu Predikun St. Peturs, er hañ giorde i sama Siñe? Hvernig hañ sagde þeim ad JEus af Nazareth hefde odlast Anda Fyrerheitesins af Fodurnum, og wthellt þvi er þeir þa saau og heyrdu, og hvernig ad þeir skaarust i sijnum Hiortum, er þeir heyrdu þetta og sogdu: Gooder Brædur, Hvad skulum vier giora, Segied mier, Var ecke þetta ad sañfæra þa um̃ hina hrædelegu Synd, ad þeir hofdu ecke trwad honum, helldur Krossfestu Hofdingia Lijfsins? Ad eg tale ecke um̃ oll þau Undur og Jardteikner er fylgdu Christne-Bodenu i þa Daga, So ad hiner grim̃u Heidingiar sem voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Geingu DRottne til Handa og medtooku hañs Vitnisburd. Pvi hroosar Paall, Segiande: Eg hefe allt fraa Jerusalem og þar um̃ krijng, allt til Jllyricum fullkomnad Evangelium Christi, Rom. 15. Nu þott ad þetta sie eigeñleg Meining Lausnarans i þessum Ordum sem nu hefe eg sagt og sijnt med nockrum Rokum, Pa eigum vier þo ad vita, B. M. ad þetta Embætte H. Anda nær eiñig til vor, Pvi Frelsareñ sagde vid þa, Ad þesse H. Ande skyllde vera hiaa þeim Æfeñlega, Joh. 14. Eñ þeir eru fyrer laungu komner til Hvijldar DRotteñs, samt hefur Gud ecke yfergiefed sijna Christne, Pvi eigum vier eñ nu ad leita ad honum i

hañs

hañs H. Orde sem i Fyrstuñe var predikad ad hønum samverkanda og styrkianda med epterfylgiande Taaknum, segier Marcus, Marc. 16. Hvort hañ er eñ nu ecke vidskila ordeñ. O! hversu værum vier faavijser ad þeckia Syndena, nema H. Ande sañfærde oss þar uñ i Guds Orde, Jaa, eñ þa epter þad vier høfum lært vorn Christeñdoom i Barna-Lærdoomenum, Þa kollum vier margt þad Syndlaust ad vera sem þo er ein fordæmañleg Synd fyrer Gude, Ef hañ vill i Doom vid oss gaanga, Og þar ad auke þa maa þad kuñugt vera, hversu ad Christeñdoomenum er almeñelega haattad Maña aa medal, þad sumer kalla sig vel Christna ef þeir trwa aa Gud, og þvi ad Christur hafe pijnst fyrer Synder Heimsins. Eñ St. Jacob helldur þad laangtum odruvijse, Þar hañ segier: Ad Trweñ sie daud aan Verkaña, Jac. 2. Nu ef su Trw er daud sem ad ecke verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. So sem Paulus giører Raad fyrer hiñe sømu Trw, er þad þa ecke Vantrw? Jaa, i Sañleika, Hun er Vantrwñe verre, Þvi su Trw af hvorre Madureñ alleina þecker Gud; Og veit ad hañ er bæde goodur, og þo under eins Riettlaatur, Eñ forsmaaer þo hañs Vilia og ecke aastundar ad læra hñ, so hañ ad miñsta Koste þeckia meige hvad laangt ad hañ sie fraa þvi, ad hañ giete hønum Fullnægiu giort, hun hiaalpar meir til ad fordæma eiñ helldur eñ Saaluhoolpeñ ad giøra, Þviad Dioflarner trwa þvi eiñig og skielfast þar af, segier St. Jacob, Jac. 2. Eñ segied mier, Hvar aa Holldlegur Madur ad faa slijka Þeckingu, nema hañ sañfærdur sie þar uñ af H. Anda? Petur segier til Safnadaña i Asia: Þier foorud aller villt sem Sauder, eñ nu erud þier umhverfder til Hyrders og Biskups Saalna ydar, 1. Pet. 2. Med hønum tekur Paulus under, Segiande: Þier vorud Myrkur til Forna, Eñ nu erud þier Lioos i DRottne, Eph. 5. Hvar fyrer munde þad skie, nema fyrer Verkan H. Anda sem bioo i Ordenu og straffade Heimeñ uñ Syndena. Holld og Blood hefur ecke opeñberad þier þetta, sagde DRotteñ vid Petur, Helldur miñ Fader sem er aa Himnum, Matth. 16. Og hid sama maa eg segia uñ Þeckingu Syndareñar. Fyrer Guds Anda erum vier Endurfædder i Skijrneñe, Joh. 3. Endurnyader i Hugskotum vorum. Hañ skapar i oss nijtt Hiarta, Ps. 51. Hañ leider oss til JEsum Christum, aan hvers vier feingium ecke til hañs komest, So sem vier medkieñum i hiñe Þridiu Grein vorrar Trwarjaatningar; Eñ hvar med giører hañ þetta? An Efa i Fyrstuñe med Þeckingu Syndareñar. Segied mier, Hvert er þad Offred sem Gude þocknast? Er þad ecke Harmþrwngeñ og sundurknosadur Ande? Sem David segier, Ps. 51. Su Saal sem ad hrygg er wt af Stærd Illskuñar, og geingur bogeñ og veik; Þau Augu sem þreytt eru, Ein hwngrud Saal mun giefa þier Dijrdena og Riettlæted DRotteñ, segier Baruch, Cap. 2. Eñ hvar vilium vier faa þessa Hrygd, Hver vekur i oss þetta Andlega Hrwngur? Þad giører Ande DRotteñs med Þeckingu Syndareñar, bæde i Guds H. Orde og so med sijnum kroptugu Iñvortis Hræringum, Þegar hañ dregur þa Skijluna fraa Augum Saalareñar, sem Andskoteñ hefur heingt þar fyrer, og vier siaaum hversu vier høfum hiñ gooda Gud til Reide reitt med margra Ara Ohlijdne, og sijner oss under ei-

ns Guds Oumrædelega Giæsku og Poleñmæde yfer ollu þessu, sem morgum þeim hef-
ur ad Skyndingu i burtu kipt, sem kañ skie ecke hafa meir syndgad eñ vær. Hvad mein-
ed þier Br. M. Munum vier taka þessar Hugreñingar af sialfum oss? O! Nei, þvi
vier erum ecke megnuger um̃, af sialfum oss til neitt gott ad Hugleida, 2. Cor. 3. Auk
helldur ad fram̃kvæma, Hvadañ þa, nema af H. Anda? Hver ed sañfærer oss um̃ Synd
ena. Gydingar hofdu Logmaaled, Af þvi þecktu þeir þo ecke Syndena; Eige meintu
þeir sumerhverier, ad illar Hugsaner væru Synd, Jafnvel þoott Logmaaled segde þeim;
Þu skallt eige Gyrnast, Exod. 20. Þar fyrer lijker DRotteñ þeim vid Grafer Fram̃-
lideña, Sem utañ voru prijdelegar, Eñ iñañ fullar af allra Handa Oþeckt, Matth. 23.
Þeim munde hafa þoott þad undarlegt, ad sa sem reiddest Broodur sijnum, skyllde vera
Rauds sekur; Sa sem lite eina Kvinnu til ad gyrnast hana, Hañ hefde alla reidu drygt
Hoor med heñe i sijnu Hiarta, Matth. 5. Edur ad Madureñ være skylldugur til ad
giora þeim Gott sem vid hañ misgiorer. So mikell er nu Munur Bookstafsins og
Andans, hiñ deyder ef hañ er einsamall, þesse lijfgar, Eñ brwkar Logmaaled fyrst til ad
deyda, Pad er ad sundurmeria og kieña Syndaranum ad hañ sie Dauda sekur, og þañ-
eg iñelykur Gud alla under Ohlijdneñe, uppa þad hañ myskune ollum, Rom 11. Vi-
te þier ecke ad þier erud Mustere Guds? Segier Paulus, 1. Cor. 3. Eg ætla ad so fare
best Guds Þioonustañ i þessare Kyrkiu, ad Moyses hafe Bassañ i Logmaalenu, eñ Christ
ur Tenoreñ i Evangelio, Þvi hiñs gooda Hyrders Raust mun þo yfertaka og hærra laa-
ta eñ Moysis Reidarþruma. Pad er eiñ Gledelegur Tvijsaungur i Eyrum mæddrar
Samvitsku, Og þa ræzt þad med fullu og ollu er DRotteñ sagde Fordum Daga,
Guds Rijke er iñe hiaa ydur, Luc. 17. Jafnvel Angrid fyrer Syndena er Guds Born-
um þeckara eñ oll Heimsins Kiæte hañs Sonum, Og þau Tareñ er eiñ Syndare feller
i Guds Sioon, Þau smacka honum betur eñ Vijn hiñar flaaradu Dalilæ Verralldar-
eñar heñar Fylgin-Moñum. Og þvi segier Lausnareñ hier strax epter: Ad H. Ande
mune Sañfæra Heimeñ um̃ Riettlæted, Af þvi hañ fare til Fodursins. Christur mein-
ar hier i Fyrstu sitt eiged Riettlæte og Sakleyse, Pad hlaut a epter ad fylgia, þegar Guds
Ande hafde straffad Heimeñ um̃ þa skielfelegu Synd, ad þeir trwdu honum ecke, helld-
ur festu hañ uppa Galgañ, Er þeir kuña þo ecke ad straffa um̃ nockra Synd, Pa hla-
ut þad a epter ad fylgia (segie eg) ad hañ sañfærde þañ sama Heim um̃ hañs Riettlæte
ad þeir hofdu Lijfsins Hertoga Krossfest, So sem Petur sagde þeim, Act. 3. Pa kuñu
þeir ad segia ad hañ være Timburmañsins Sonur, Matth. 13. Ad þeir þecktu Fodur
hañs og Moodur, Ad hañ være Samverskur og hefde Dioffuleñ, Joh. 8. Ad hañ fyr-
er Beelzebub Die-fla Hofdingia ræke wt Dioflana, Luc. 11. Pa kuñu þeir ad giefa
honum þad ad Dauda-Sok, ad hañ kallade sig Konungeñ Christum, Luc. 23. Ja,
Ef hañ være Guds Sonur ad hañ skyllde stijga ofañ af Krossenum, Matth. 27. Pa
var þad Tijme fyrer þig, O þu hiñ Gudlause Biskup Caipha! ad rijfa þijn Klæde, Af þvi
hañ jaatade sig Guds Son ad vera, Matth. 26. Pa var Tijme til alls þessa þegar hañ

ad sigrudum Dauda, Dioste og Helvijte, upphafenn yfer alla Himna, hafde sett sig til
Kraptarens Hægre Handar, og til Vitnisburdar umm sitt Almætte, Sitt Riettlæte og
Dijrdarfulla Heatign, Sende hinn H. Anda yfer sijna Piona og Ambætter med stoor-
um Undrunum og Tæknum: Jaa, yfer sijna Fiandmenn og Offooknara, So ad marg-
er af Kiennemonnunum hlijdnudust Trwnne, segier Lucas, Act.6. Pegar Umkomulauser
Fiskemenn raaku wt Dioflana, Læknudu Siwkdooma, Opennberudu leynda Hlute sem
eingenn Manna kunne ad vita, So sem Ananiæ og Zaphiræ Dæme vitna, Act. 5. Og þetta
skiede allt i hanns Nafne sem hiner adur hofdu kvaled, Hwdstrykt og a Gaalgann upp-
heingt mille Tveggia Spillvirkia. Med ollum þessum Guddoomlegum Furdu-Verk-
um sannfærde nu H. Ande Verolldena i þaa Daga. Pvi Eg Fer til Fodursins, Segier
HErrann. Petta hid sama brwkade H. Ande fyrer Munn Peturs til ad sannfæra þat umm
Christi Riettlæte er heyrdu a Tal hanns, Act. 2. Er hann vitnar af Spaadoome Davids
Konungs umm Upprisu og Uppstigning DRottenns JEsu, Segiande: Ecke er David
uppfarenn i Himenenn; Er hann segier sialfur: DRottenn sagde mijnum DRottne, Sit
þu mier til Hægre Handar, þar til eg legg Ovine þijna til Skarar Foota þier. Vite þvi
allt Jsraels Hws fyrer vijst, ad Gud hefur giort hann ad Christe og HErra þenna sama
JEsum er þier Krossfestud; Og ad þesse sie Meiningenn i Ordum DRottenns, vottar þad
sem hier eptersylger: Og Epter Pad Siaed Pier Mig Ecke. Ad sonnu saau hann Lære-
sveinarner epter hanns Upprisu, Enn ecke med somu Asijnd og adur, Ecke i Pioons Mynd,
helldur so sem einn Sigurvegara, Ecke so sem þeir saau hann i Grasgardenum bundenn og
Fiotradann, helldur Einglunum lijkann, Par hann gieck inn ad luktum Dyrum til þeirra,
Joh.20. Ecke so sem eina Bolvan a Krossenn uppheingdann, Devt.21. helldur upprisenn
af Daudum, Ad Daudanns Pijnu uppleistre. Allt þetta vottade hanns Riettlæte og
Sakleyse, Pvi þad var Omogulegt, So sem Petur sagde, Ad hann kynne af Daudanum
halldenn ad verda, Act. 2. Enn allra hellst meinar DRottenn hier sijna Himnafør, ad þe-
ir mundu hann ecke sia wr þvi, ad hann giordest fyrer þeim Osijnelegur, og Skijed took
hann burt fraa þeirra Augum, Act. 1. Og er nu af þessu ollu Riettlæte DRottenns sann-
bevijsad fyrer Vitnisburd H. Anda, Sem faam Dogum þar epter kom yfer Postulana
med Sijnelegum Guds Krapte, So ad þeir Tungur toludu, Diofla wtraaku, Logdu
Hendur yfer Siwka og þeim batnade, Sogdu fyrer Ovordna Hlute, So sem hann ad-
ur fyrer sagde og segier berlega hier i Gudspiallenu med þessum Ordum: Nær Ed Sa
SAnnleiksins ANdenn Kiemur, Pa Mun Hann Kienna Ydur Allann SAnnleik, Pvi Hann
Talar Ecke Af Sialfum Sier, Helldur Hvad Hann Heyrde, Pad Talar Hann, Og
Hvad Epterkomande Er, Pad Kunngiorer Hann Ydur, Hann Same Mun Og Vegsama
Mig, Pvi Af Mijnu Mun Hann Pad Taka Og Kunngiora Ydur. Hvad sijnest ydur
Br. M. Er ecke þvilijkt ad sannfæra Heimenn umm Riettlæte Drottenns JEsu? Og af þessu
JEsu Christi Allra Helgasta Riettlæte haanger vort Riettlæte, Eg meina þad oss tilreik-
nad verdur, Pvi þad er Raunar hanns Riettlæte, og þar fyrer heyrer oss og so til þetta Em

bætte

bætte H. Anda eige sijdur eñ þeim sem lifdu a Postulaña Døgum: Og byriar oss hier fyrst ad athuga þau Ord er hañ talade til Læresveinaña, skoñu sijdar, Joh. 16. Jñañ Lijtels Tijma munud þier ecke sia mig, og aptur Jñañ Lijtels Tijma munud þier sia mig aptur, Þvi eg fer til Fødursins. Af hverium Ordum þad audsært er, ad DRotteñ kallar sijna Pijnu, Siñ Dauda, Sijna Greptran og Upprisu i þessum Stad, Sijna Burtfør til Fødursins, asamt Himnaføreñe.

Nu er þad øllum Møñum auglioost, ad Riettlæte Syndugs Mañs er i þvi foolged, ad Christur er fyrer oss daeñ, uppriseñ og til Himna fareñ: Þvi segier og Paall, Ad hañ sie daeñ fyrer vorar Synder, og uppriseñ oss til Riettlætis, Rom. 4. Eñ forgiefens være hañ daeñ og uppriseñ, være hañ ecke til Himna fareñ og setstur til Kraptarens Hægre Handar til ad bidia fyrer oss, Hvadañ hñ og hefur sendt oss siñ Anda sa ed Trwna i oss verkar, Fyrer hveria Madureñ alleina verdur Riettlaatur fyrer Gude, Rom. 3. Allt þetta kieñer hañ best siaalfur med faam Ordum, Luc. 24. Er hañ sagde vid Læresveinana under sijna Himna-För: Svo er þad skrifad og so byriade Christo ad lijda og upprijsa af Daudum a Pridia Deige, og predika lata i sijnu Nafne Ydran og Syndaña Fyrergiefning hia øllum Pioodum, Og kiemur þesse Partur Embættes H. Anda miøg vel samañ vid þiñ Fyrra, Þviad i Þeckingu Syndareñar er Ydraneñ foolgeñ, Eñ Riettlæted i Fyrergiefningu Syndaña, Og þvi vil eg taka mier hin Gledelegu St. Paals Ord i Muñ um þetta Efne, Er hañ segier, Rom. 8. Hver vill asaka Guds Utvallda? Gud er sa sem Riettlæter, Hver er sa ed fordæme? Christur er sa sem daeñ er, Ja, Eñ framar uppriseñ, Hver eiñig er a Hægre Hend Gude, Sa eiñig er Medalgangare fyrer oss. Sie þvi mitt Riettlæte ecke betra eñ Nidlags Fat, Esa. 64. Guds Heilagur Ande hefur sañfært Heimeñ, Sañfært Logmaaled, Sañfært Diofuleñ, Ja, Sañfært mijna angrada og sturlada Samvitsku, Sem klagar mig um Fiollda miña Synda Dagléga, Hañ hefur sañfært þau segie eg um JEsu Christi Riettlæte, sem vorded er mitt, þvi hañ er Jehova vort Riettlæte, Jer. 23. Og bæde mier og øllum stoor Syndurum af Gude giefeñ til Riettlatis, Til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Hafe Adam forþienad med hiñe Fyrstu Synd ad verda wtrekeñ wr Paradys med sijnu Ranglæte, Hafe hañ lokad heñe aptur epter sier og øllu sijnu Afkvæme: Hafe eg hañs Syndugur Nidie fylgt honum epter i Ranglætenu, So þar er ekert nema Fordæmañlegt i mier, þad eg hefe af hinum Fyrra Adam medteked, Hvern Lucas kallar Guds Son, Luc. 3. Eñ giorde bæde sig og mig og allt sitt Hyske ad Diofulsins Børnum fyrer Yfertrodsluna, Þa sañfærer þo Guds goodur Ande mig um þad, ad hiñ eilijfe Guds Sonur, Hiñ Añar Adam, Sem er DRotteñ af Himne, 1. Cor. 15. Hver ad hefur Davids Lykil, og upplijkur sem enginn kañ aptur ad lata, Apoc. 3. Hañ hefur bæde mier og øllum þeim uppløked Rijke Himneña, Sem med Angre sijns Hiarta skrijda ad Footum hañs og segia: Fader, Eg hefe syndgast i Himeneñ og fyrer þier, Eg em ei verdur ad kallast þiñ Sonur, Gior mig svo sem eñ af þijnum Leigu-Møñum, Luc. 15. Hverier eru mijner Ovin-

er? Hvar eru mijner Aklagendur? Þad er Løgmaaled, Þad er Heimureñ, Þad er Di-
ofulleñ, Þad er mijn eigeñ Samvitska, Eg Ottast þaa ecke, Þegar DRotteñ er mier
Naadugur fyrer mijns Endurlausnara Riettlæte. Þeir eru Bodlar Guds nær hañ er
reidur, Eñ þeim sem i JEsu Christo er vid hañ saattur og kvittur, gieta þier eckert Mein un-
ed, Ecke Løgmaaled, Þvi hañ er komeñ Løgmaaled upp ad fylla, Matth. 5. Ecke Heimur-
eñ, Þvi hañ segiest hafa Heimeñ sigrad, Joh. 16. Ecke Diøfulleñ, Þviad Høfdinge þessa
Heims er dæmdur, Joh. 14. Ecke mijn Samvitska, Þvi Johañes segier: Ef ydar
Hiarta fordæmer ydur, þa er þo Gud meire ydar Hiarta, 1. Joh. 3. Og Petur seg-
ier um̃ Skijrnena ad hun sie Saattmaale goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Þoott eg
hafe hañ yfertroded, Þa veit eg þø ad hañs Blood er wtruñed i Skijrnar Saaeñ sem mig
Overdugañ Þræl hefur elskad meir eñ siaalfañ sig. JEsus er bæde Gud og Madur,
Guds Eingieteñ Sonur og þo Davids Sonur, Matth. 1. Þar sie eg Gud hefur
straffad aa Gude mijnar Synder, og þañ Mañ og miñ Broodur epter Holldenu, J hvør-
ium ad bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. Hefur hañ ad afrekadre miñe
Endurlausn sett sier til Hægre Handar; Þar fyrer gietur hañ ecke straffad hañs Riett-
læte aa mier, hvørs Raanglæte hañ straffade aa hønum, þegar hañ giørdest Bølvan fyr-
er mijnar Synder, Gal. 3. Sem eilijfa Bølvan forþienad hefe.

Gud hefur alldrei uñed meira Frægdar-Verk, helldur eñ þa hañ leyste oss synduga
Orma wr eilijfu Bañe. Ødrum Siñum hefur hañ aatt ad skipta vid þad sem eckert
var, So sem þegar hañ giørde Himen og Jørd af eingu Efne, Gen. 1. Edur vid Skiep-
nur sijnar, So sem þegar hañ liet Soolena standa kyrra, Jos. 10. Klauf Hafed i sund-
ur, Exod. 14. Sende Plaagur yfer Egyptaland, og añad þvilijkt: Eñ i vorre Endur-
lausn aatte hañ ad bijta vid siaalfañ sig og sitt Riettlæte, hveriu eige maa raska, Þvi er eg
þess full-øruggur, ad hañ lætur ecke svoddañ Stoorvirke til Onijtes verda aa þeim sem
treysta aa Forþienustu hañs Eingietens Sonar þoott ad synduger sieu, þviad Synduga
og ecke Riettlaata er hañ komeñ ad kalla til Ydranar, Matth. 9. Hvad skulum vier
þa hier til segia segier Paall, Rom. 6. Skulum vier dvelia i Syndunum, so ad Naad-
eñ yfergnæfe? Fiærre sie þvi. DRotteñ segier hier i Gudspiallenu, ad Heilagur An-
de mune sañfæra Heimeñ um̃ Doomeñ, Af þvi ad Høfdinge þessa Heims sie dæmdur.
Hver ad sie þesse Høfdinge, Er audvitad, Þad er Satan, Hvør hiñ same kallast Diøfla
Høfdinge, Matth. 12. Eñ þar fyrer kallast hañ so, ad Heimureñ liggur i hinu Von-
da, 1. Joh. 5. Eñ hañ er alls Jlls Høfundur, hønum þioonar mikell Herskare i Hei-
menum, allra hellst Mañeskiañ med adskiliañlegum Syndum og Glæpum, so ad hañ er
megtugur i Børnum Vantrwareñar segier Paall, Eph. 2. Þad er i Heimsins Børn-
um, hañ er dæmdur, Toñ fyrer Toñ, Auga fyrer Auga segier Løgmaaled, Lev. 24. Sa-
tan var øll Orsøk i þvi ad Christur var deyddur, Kvaleñ, Hwdstryktur, og maatte Hel-
vijtis Pijsler þola, Er Syndeñ hafde tiluñed; Þar fyrer er hañ dæmdur til Myrkrañas
Hleckia eilijflega i Helvijte, 2. Pet. 2. Hañ er dæmdur, Þad er sigradur og wtrekeñ,
So

So segier Drottenn hiaa Joh. 12. under siijna Piijnu. Nu er Doomur Heimsins, nu mun Hofdinge þessa Heims verda wtsnaradur. Pad er alkunnugt hversu ad Satan drott- nade i Verolldenne aadur enn JEsus kom i Heimenn, Jaa, aadur enn hann sigrade Diofulenn a Krossenum, hversu ad oll Lond voru full af hinne verstu Afgudadyrdkan, og siaalfre Guds Pioonustu aa medal Israels Barna hafde hann so spillt, ad þegar hann sem Logmaaled hafde wtgiefed kom i Heimenn, Hann þeckte ecke Guds Logmaal hiaa siijnu Foolke, þar fyr- er klagar hann, Marc. 7. Segiande epter Esaja: Peir dyrka mig forgiefens er þeir kienna þann Lærdoom sem er Manna-Setningar, Pvi þier gaanged framm hiaa Guds Bodord- um, Og hallded Manna-Setningar; Pvott Bikara og Kiera, Og margt annad þvilijkt giored þier. Enn þegar Guds Ande var wthelltur yfer allt Holld, so sem Joel hafde fyr- er spaad, Joel. 2. Pa urdu hier aa snogg Umskipte, so sem Lucas skrifar i Postulanna Gior- ningum, 2. So hefur nu DRottenn JEsus utreked Diofulenn ur siijnu Rijke med Guds Fijngre, Luc. 11. Sem er H. Ande, vordenn siaalfur Hofud alls Hofdingiadæmis, og hef- ur flett hinn sterka Hervopnada ollum siijnum Herklædum aa hver hann treyste, Matth. 12. So Diofullenn hefur siaalfur naudugur bored Vitne umm hanns Almætte og Gud- dooms-Krapt, Pvi lijste hann medal annara af Munne Stulkunnar sem rann epter þeim Paale og hanns Forunautum i marga Daga, og hroopade: Pesser Menn eru Pioonar Guds hins Hædsta, sem boda ydur Veg Velferdarennar, Act. 16. Panneg aat Diofullenn sialfur ofann i sig allar Gudlastaner sinna Verkfæra. Og þegar þeir flettu hinn H. og Riettlaata siijnum Klædum, og heingdu hann nakenn uppaa Tried, Pa hefur hann under eins afklædt Hofdingia-Dæmenn og Magtar-Vollden, Og þau opennberlega til Skod- unar framleidt, Col. 2. Hroosande Sigre yfer þeim aa Krossenum. Og umm þennan Doom, sem nu þannig er yfer Dioflenum geingenn, Sannfærde Guds H. Ande Heimenn, Ecke einasta þa Ogudlegu sem maattu þreifa aa slijku, helldur og alla þa sem hann umsnere til Hlijdnes Christo og giorde honum Pioonustu-bundna, Og þad sama verkar hann enn nu i Dag i Guds H. Orde, Pegar þad er Hreint og Klaart, og med Alvoru nockurre og Rokseme kiennt og predikad, Pvi jafnvel þott ad Diofullenn sie bundenn, Pa lætur hann þo ecke af ad skioota siijnum Orvum aa Guds Her. Par fyrer Christner Menn, Fyrst ad vor Konungur hefur so mikenn Sigur unned aa Dioflenum, og so Vegsamlegann Doom yfer honum feinged, Pa laatum oss ecke þa Skomm henda, ad vier yfergiefum Hertoga Lijfsins, enn gaungum i Sid med Fiandanum aptur, Ednr þioonum honum frammveiges i Syndenne og Ogudlegu Athæfe aa moote Samvitskunne; Verum minnuger þess Eids er vier soorum hinum Lifanda Gude i Skijrnenne, ad vier jaatudum honum og ollum hanns Stoormerkium, enn afneitudum Fiandanum og ollum hanns Svikum og Vielum. Ecke hefur Guds Sonur þenna dijra Sigur unned fyrer siaalfann sig; Peirrar Haaleitu Guddoomsins Prenningar Oraskannliga Riettlæte var fullnægt fyrer hina Fyrstu Synd Diofulsins, þegar hann var wtsnaradur af Himne. Gud took Riett sinn af honum fyrer siaalfann sig i eilijfum Kvolum, Fyrer oss synduga Orma og Guds Ovine er þesse

fræge Sigur uñeñ; Sijnu Lijfe Siñe bitru Kvol og Dauda hefur hiñ eilijfa Giæska til þess kostad ad faa Herleidinguna ad Herfaange teked, Eph. 4. Og oss Sigureñ giefed, med þessu dijrmæta Lausnar-Giallde hefur hañ oss Heilagañ Anda afrekad, til ad kieña oss ad þeckia Syndena, ad þeckia hid saña Riettlæte sem er af Trwñe, Og til ad Endurnyia vor Hugskot, So ad vier gietum, ef vilinn, Gude þioonad.

Verum þvi eige so Oþacklaater edur siaalfum oss vonder, ad vier slockvum H. Anda, 1. Tess. 5. Med vijsvitande Glæpum og Illgiordum i giegn vorum Frelsara, sem oss hefur so dijru Verde keypta, og þar hañ hefur wthellt honum i vor Hiortu fyrst i Skijrneñe, sijdañ Daglega naalægt i sijnu H. Orde, Ef vier forsmaaum þad ecke, þa segium ecke ad þad sie oss Omogulegt Gude ad þocknast, 1. Cor. 3. Þvi hañ kañ alla Hlute framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla, Þar sem hañ fiñur goodañ Vilia. Þad er Slægd Olofulsens, ad hañ breiter vid oss eins og þeir sem Moyses giorde fraa sier iñ i Canaans Land, Þeir sogdu illa af Landenu, Num. 13. So breiter og Satan, hvar sem hañ hefur vaned Hollded aa sijnar Kræsingar, Þad eru Skamer og Løster, ad hañ kallar þad Omogulegt Gude ad þocknast, Þar hañ sie eiñ straangur Herra, sem ad uppskiere þar hañ ecke saade, Luc. 19. Þad lijgur þu Satan, Þvi fyrer utañ þad ad allt hvad vier giorum er ecke utañ Haalfverk sem Postuleñ vottar, 1. Cor. 13. Og verdur þad so af Gude þeiged; Þa styrker Andeñ vorn Vanmaatt segier Paulus, Rom. 8. Og hañ bregdst alldrei þessum sem bidia um̃ hañs Adstod, og allt hvad vier giorum gott, Ef so maa nockurt heita, af þvi vier giorum, þad er hañs Verk i oss, hañ verkar þad ad Guds Bodord eru eige þwng, 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þviad Elska Guds er wthellt i vorum Hiortum fyrer H. Anda sem oss er giefeñ, Rom. 5. Hañ giorer Christi Ok sætt, og hañs Byrde lietta, Matth. 11. Hvar fyrer? Þviad Elskañ til JEsum yferviñur alla Hlute, Og þad er eins og St. Paall segier: Eg formaa alla Hlute fyrer hañ sem mig maattugañ giorer Christum, Phil. 4. J Christelegu Lijferne er miklu meire Glede og Unadsemd, Jafnvel i þessum Heime, helldur eñ i allskyns Fullsælu Veralldareñar; Eñ ef vier eige til þessa fiñum, Þa velldur þad þvi, ad Vane Syndareñar er allt ofrijkur i oss vordeñ; Reynum til fyrst og tokum til ad beriast Kallmañlega, Siaanm til hvert vier ei fiñum Adstod H. Anda, og þegar vier fyrer Guds Naad hofum yferuñed, Hvad man alls Efa skiedur, ef vier leggium nockurn Hug aa vort Maal, þa mun um vier ecke vilia um̃skipta þoott allur Heimureñ i Bode være, og kalla Strijded lijtelsverdt hiaa þeirre Glede er vier fiñum i Vinaattu Guds, og i goodre Samvitsku, Eñ þad maa eige undañdraga Christeñ Madur. Tef ecke ad snwa um̃ til DRotteñs, Segier hiñ gamle Syrach. 5. Cap. Og skioot þvi ecke aa Frest Dag fraa Deige. Giorum oss vidskila Ogudlega Verolld þessa og heñar Athæfe, strax sem Andeñ kallar til vor af Openberingar Bookeñe, segiande: Gaanged wt af heñe mitt Foolk, ad þier verded ecke Hluttakande i heñar Syndum, og medtaked af heñar Plaagum, Apoc. 18. Og þetta lætur Gud aa hverium Helgum Deige klijngia fyrer vorum Eyrum. Þegar Loth foor

um Daga tafde ad gaanga wt af Sodoma, Pa took Eingelleñ i Hond honum, og droo hañ haalfveigis naudugañ ut þadañ, so ad hañ ecke tijndest i Baalenu med odrum, Gen. 19. O! hversu opt tekur hiñ Naaduge Gud i Hond vora med Krossenum, med Eptꝛ erdæmunum, med hinum straungu Lögmaalsins Hootunum, og dregur oss nauduga wt af vondre Verolldu þessare, ad vier ecke fyrerförunst med heñe. Loth beidde Leifes ad hañ mætte bwa i Zoar, sem var naalæg Sodoma, Gen. 19. Eñ hañ tafde þar ecke leinge, hefur og ecke þorad Sökum þess hrædelega Straffs, er kom yfer hinar Borgꝛ ernar. Gior slijkt hid sama Barn Guds, Þegar þu ert Einusiñe fyrer Guds Naad wtgeingeñ fraa Heimenum, sem er riett ein Sodoma, Pa stadnæmst ecke i Naagreñenu, Þad er, kappkosta ad deyda aldeilis hinar fornu Gyrnder; Rek wt Ambaattena, Gal. 4. Pad er syndumspillta Naatturu med Syne heñar, vondum Vana, ad so miklu Leite sem þier er mögulegt. Drep hiñ gamla Mañeñ, so ad Christur meige i þier lifa, Añars er hætt vid, ad þoott Zoar sie lijtil, þa kuñe hun ad verda ad Sodoma fyrer Naagreñis Saker, og þig meige aptur laanga til Kiöt-Katlaña i Ægyptalande. Og hefe eg nu so talad um þetta Prefallda Embætte H. Anda, Hvad eg hygg Guds Orde samhlioodа vera, og under því er faleñ allur vor Christeñdoomur, Sem er i Fyrstu ad þeckia Syndꝛ ena til ad ydrast. JEsu Christi fullkomna Riettlæte til þess ad trwa ad oss verde hun fyrergiefeñ. Og Doom Andskotans til þess ad afneita honum og öllu hañs Athæfe, Og haanger þetta so hvert af odru, ad eckert maa añars missa, ef vor Christeñdoomur aa fullkomeñ ad vera. Eñ þu vor Gud, sem rijkur ert af Naad, Kieñ þu oss ad þeckia Syn der vorar, og ad ydrast þeirra af öllu Hiarta, Og nær þu reiser oss aa Fætur aptur wr voru Dupte og Ösku, med Trwñe aa þiñ Eingieteñ Son, Pa gior oss hinar fyrre Synꝛ der so leidar, ad vier styggum vid þeim so sem añare Obeckt, Eñ kieñ oss ad lifa Sparsamlega, Gudrækelega og Riettferduglega i Heime þessum, ad vier mættum Ostraffañlegꝛ er fiñast i Tilkomu JEsu Christi vors Frelsara, og af honum iñleidder verda i hid fagnadarsæla Lambsins Brwdkaup. Gief oss þar til þiñ H. Anda Naaduge Fader, Fyrer hañ sama þiñ Eingieteñ Son JESUM Christum, Amen.

# Fimta Suñudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

OG JEsus sagde til siña Læresveina: Sañlega, Sañlega seige eg ydur, Hvørs þier bidied Födureñ i miñu Nafne, Pad mun hañ giefa ydur. Hijngad til hafe þier Einskis beded i miñu Nafne; Bidied, þa munu þier medtaka, so ad ydar Fögnudur sie fullkomlegur. Þetta hefe eg talad i Ordskvidum til ydar, Sa Tijme kiemur, ad eg tala eige leingur i Ordskvidum til ydar helld.

helldur mun eg kuñgiøra ydur Opeñberlega af mijnum Fødur. Á þeim Deige munu þier og bidia i mijnu Nafne. Og eige ſegie eg ydur, ad eg mune bidia Fødureñ fyrer ydur, Þvlad ſiaalfur Fadereñ elſkar ydur, af þvi þier elſked mig, Og trwed þad, ad eg ſie af Gude wtgeingeñ. Eg em af Fødurnum wtgeingeñ, Og komeñ i þeñañ Heim. Eg fyrerlæt og aptur þeñañ Heim, Og fer til Fødurſins. Og hañs Læreſveinar ſegia þa til hañs: Sia, nu talar þu Berlega, og mæler øngva Ords-kvidu. Nu vitum vier, ad þu veitſt alla Hlute, Og þu þarft eige ad nockur ſpyrie þig. Fyrer þad trwum vier, ad þu ſiert af Gude wtgeingeñ.

## Exordium.

DROTTENN Gud þiñ er Eiñ Fortærande Elldur, Sagde Moyſes Fordum Daga vid Iſraels Sonu, Devt. 4. Kvijda mætte Eiñ Aumur Syndare fyrer, Sem eckert añad giører eñ ad forþiena Daudañ, ad koma fram fyrer ſo Dijrdarfullañ, So Ognarlegañ Gud, Hvers Reide ad breñur yfer þeim ſem hañ hatar, allt til nedſta Helvijtis, Devt. 32. Hverneg mun Eitt Haalm-Straa, Ein Vatns-Boola kuña ad bwa vid ſvoddañ eiñ Fortærande Elld, Þo ſkulum vier fram fyrer hañ koma, Þvi hver vill dyliaſt fyrer hañs Auglite? Nu þoott ad þad Vitañlegt ſie, ad vorar Synder adſkilie millum vors Guds og vor, Eſa. 59. Þa hroopade þo Fader Myſkunſemdaña: Komed til mijn aller þier ſem Erfided og Þwnga erud þi-ader, Eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Hvar fyrer þoott ad Gud ſie Eiñ Fortærande Elldur, Sem Paulus ad Orde kiemſt, Hebr. 12. Þa meigum vïer jaata þad um oſs ſatt ad vera er hañ ſkrifar Gydingum til i ſama Brefe og ſama Cap. Þier erud komner til Fiallſins Zion, og Borgar Guds Lifanda Jeruſalem hiñar Himneſku, Og til margra Þuſunda Eiñglaña, Af hveriu vier ſiaum hvad miked oſs er veitt i Chriſto JESU DRottne vorum, Ad vier ſem fiærre vorum, Hverra Fedur ad voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Vier erum fyrer hañ vordner Guds Heima-Meñ, og vor Borgar-Riettur er aa Himnum, So ſem Paall ſegier, Phil. 3. Eñ med hveriu Moote faum vier þa Saurugar Mañeſkiur hellſt nærre komed þeſſum Guddoomſins Dijrdar-Liooma ſem ad bijr i þvi Lioofe ſem eingeñ fær til komeſt, 1. Tim. 6. Þad ſkiedur i hañs H. Orde og Sacramentunum, Eñ ecke ſijdſt i eiñe Audmiwkre Chriſtens Mañs Bæn, Þar hiñ Veſæle talar vid hiñ Vollduga, Hiñ Lijfflauſe vid Doomarañ, Þrælleñ vid HErrañ, Eiñ Syndugur Ormur vid Himens og Jardar Skapara, So ſem þa Madur vid Mañ talar, Og Eiñ Vinur vid añañ, Exod. 33. Hvar eiñ Harmþrwngeñ og Sundurkrameñ Ande þreinger ſier i giegnum Skijeñ med Ouñrædelegum Andvorpunum fram fyrer Guds Tignar-Stool i Himnenum, og verdur af honum Bænheyrdur, So ad Himnarijke lijdur Ofrijke, Matth. 11. Og til þeſſa Samtals bijdur oſs nu hier i Dag Eingell hiñs mikla Raads, Þar hañ ſegier hier i Gudſpiallenu:

allenu: Sañlega Segie Eg Ydur, Hvors Pier Bidied Fodureñ I Mijnu Nafne,
Pad Mun Hañ Giefa Ydur. Eñ hier er nockur Vandeæ, Br. M. Sem er, ad
vier högum so Bæneñe, ad vier sieum visser um Bænheyrsluna, og fiñum til heñar,
(þvi hañs Fyrerheit bregdast alldrei). Og þvi vil eg nu tala nockud þar um a þessu
Stundarkorne, hverneg Bæneñe eige hættad ad vera, og er sierdeilis i þvi Tveñt ad
athuga, Sem er, 1. Ad hun sie Heit og Alvarleg. 2. Ad hun framkome af
Trwudu Hiarta. Eñ hañ sem alla Hlute kañ framar ad veita, eñ eg kañ fyrer ad
mæla, Hañ styrke oss hier til med Naad sijns Anda, Fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

HEgar vier villum Offra Gude Bænum vorum og Packargiordum, þa hugleidum
fyrst allra, hversu skielfeleg Hætign þad er, sem vier komum fyrer, sem er Konung
ur Konungaña og DRotteñ Drottnaña, 1. Tim. 6. Sa ad er allrar Veralld-
areñar Doomare, Gen. 18. Og i hvers Augum ad Himnaña Himnar eru ecke hreiner,
Job. 15. So læangt er fraa þvi, ad nockurt Saurugt meige nærre honum koma, þegar
hañ reidur er, Eñ vier erum aller so sem sa Ohreine, Segier Esajas, 64. Cap. Og jafnvel
vort Riettlæte er so sem Nidlags Fat. Hvad hellst sem ad snerter þetta Fiall, Pad skal
Dauda deya, Par skal eingeñ Hond snerta þad, Añars skal þad grijtast edur i Hel skoted
verda, hvert helldur þad er Madur edur Kvikinde, Sagde DRotteñ Fordum vid Moy-
sen, under þad hañ wtgaf sitt H. Logmaal a Fiallenu Syna, Exod. 14. So hrædelegt,
So Ognarlegt er hañs Tignarvellde þegar hañ vill þad sijna. Nu villum vier segia ad
hañ sie blijdkadur fyrer Sonarens Forþienustu sem satt er, Eñ þess er ad giæta B. M. ad
þeim einum mun hañ blijdlega taka, sem fyrer Christi Blood framkoma, Eñ þeim ein-
um mun Christi Blood og hañs Forþienusta þar til gagna, sem heñar leita med Ang-
rædu og Sundurknosudu Hiarta. Laat þier þvi til Hugar koma syndugur Madur,
þegar þu fellur fram fyrer Gud i þijnum Bænastad, hvilijkur Hæske þad sie ad koma
nærre þessum breñande Ellde, Neima þu ædur so tilreiddur siert, ad þu faaer hañ slockt-
añ med Taarum þijns Hiarta. Pegar þu hefur nu Jhugad hvilijkur ad Gud sie, Og
hversu reidur Syndsamlegu Athæfe, Pa athuga hvilijkur ad ert sialfur þu, Moll og
Aska so sem Abraham sagde, Gen. 18. Gieteñ og fæddur i Syndeñe, Ps. 51. Og af
Nætturuñe til Reideñar Barn, Eph. 2. Ad söñu Endurfæddur i Skijrneñe fyrer
Christi Blood og Guds Vinur kalladur. Eñ hversu opt hefur þu nu rofed þiñ Skijr-
nar Saattmaala, og ecke loked þijn Sære hinum Allra Hædsta? Pu hefur vered bwen til
ad giora allt þad sem hañ hefur bañad, Og nærsta tregur til ad framkvæma þad hañ bod-
ed hefur, Og hafe Guds Naad verkad nockud Gott med þier, þa hefur þad þo af þiñe Hen-
de vered Ofullkomed, Og gietur eingañ Veigeñ stadest i hañs Auglite sem er fullkomeñ og
Heilagur, So læangt er fraa þvi ad þad meige sambioda þvi Jlla sem þu giort hefur, Ed-
ur afplaana þad, Pvi þu giorder þo eckert añad eñ þad þu ætter ad giora, Luc 17. Og er
þoo vel ef þad so er, Pegar þu hefur hvad bestur vered, Eñ reikna nu upp med sialfum þier

Y y allt

allt Ydiuleyse i Guds Vijngarde, Alla Hiegooma Pænka, Øll Onytiu Ord fyrer utañ og hañs Doomur sie eñ nu ecke felldur yfer þijnar vidurstyggelegar og Klækiafullar Athafner, Pa er hañ ecke þier lijkur þoott hañ siaae þad og þeige, Ps. 50. Helldur er þad añadhvert ad hañ med Poleñmæde siñe vill draga þig til Ydrunar, Rom. 2. Ellegar og ad hañ lætur þig vaxa til Kornskieru-Tijmans, þar til þu æ samt hinu Illgresenu verdur upphoggveñ og i Elld kastadur, Matth. 13. Til ad giallda honum þar, med Eilijfum Pijslum, Pad sem þu ecke villder lwka honum hier i Naadeñe med Angre þijns Hiarta, og Aflaate vondra Verka æ medañ þar sagdest eñ þa i Dag, Ebr. 3. Ber nu allt þetta samañ vid hañs Guddoomlega Hætign, Nær þu villt bidiast fyrer, hversu hañ er Vollugur eñ þu Vesæll, Hañ Heilagur, eñ þu allur i Synd, Hañ Hreiñ eñ þu hefur saurugar Varer: Og þegar þu þetta giorer med Athygle nockurre, Pa er Lijklegt ad þier mune Stoor-Glæpena: Ogudlegañ Verknad, Ord og Huxaner, Og þoott ad Guds Helldur eñ ecke reña i Skap vid sialfañ þig, ad þu Syndugur Ormur hefur so moodgad hañ æ hvers Foot-Skør þu liggur, Og Valld hefur til ad spyrna þier med Lijfe og Saalu ofañ i eilijfañ Elld, Matth. 10. Og framar þessu, þa Hugleid hañs Giædsku vid þig framkomna, Pviad þu Ottest alleina hañs Makt og Vellde, Pad er Præls Otte eiñ, Er jafnvel Diosflarner hafa og skielfast þar af, Jac. 2. Eñ þoott hañ sie ecke Onytur Mañenum sem alltijd æ Apturkvæmt til Guds, Ef hañ ydrast og er i þvi ollu betur vared eñ Diosflunum, þa er hañ þo ecke Einhlijtur til Saaluhiaalpar, Pvi Meñ eiga ecke einungis ad Ottast Gud, Helldur ad elska hañ eiñig, Og kiemur Otteñ hellst af Ihugan hañs Mættar og Riettlætis, Eñ Elskañ af Tilfiñingu hañs Giædsku.

Vilier þu þvi audmykia þig fyrer honum wt af Hiarta i Bæneñe, Pa laat þier i Hug koma, hvilijkur þu varst þegar þier var kastad iñ i Heimeñ so sem odru Hræe, J Andlegañ Maatadaudum i Uppruna Syndeñe, Og hverneg hañ hefur þig med Vatne og Anda Endurgieted i Skijrneñe, Joh. 3. Til eiñrar lifande Vonar, 1. Pet. 1. Og giort þar vid þig Saattmaala goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Eg vil eige faa mier þad til Orda hversu ad hañ goodur er, Og ad hañs Myskunseme varer Eilijflega, Ps. 118. Og ecke einasta fæder allar lifande Skiepnur, Ps. 145. Helldur og Mañeñ, Hvør ed af sialfum sier til er hiñ allra Verste og Opacklaataste af ollum Guds Handaverkum sem hañ er yfer skipadur. Og þoott ad vier allt þetta heimtum af honum, so sem med Sialfskylldu, og moglum þegar nockud kañ ad bresta, þa miñest hañ ecke æ vorar Illgiorder, Ecke æ þær Glæpena sem ad hañs Eingieteñ Son kvaled hafa, Helldur æ sijna miklu Myskunseme sem vered hefur i fræ Upphafe, Ps. 25. Og ælijtur Fortienustu Sonarens, Hveria Syndareñ þo marg opt forsmaaer, og svipter oss ecke i burtu midt i voru Ogudlegu Athæfe, Til þess ad hañ faae dreiged oss til Ydranar, Jaa, sparar margañ þañ sem hefde forþienad ad eiga Saalu Fielag med Core Dathan og Abiram, Hveria Jordeñ svalg i sig lifande, Num. 16. Af þvi þeir forsmaadu hañs Bodord. Laat þessa Oumrædelega Giædsku þijns Skapara smellta þitt Hiarta, nær þu kiemur fram fyrer hañ

ad

ad bidia þier Fridar af honum er þu so storkostlega hefur til Reide reitt, Og Daglega moodgar, Og halldt þad fyrer viist, ad þu muner Eyrendeslaus fara, um hvad hellst sem þu bidur, Nema þu fyrst af Alvoru bidier um Kvittun Syndaña, Þvi hier um mæ eg segia þad sem hañ sagde er blindur var boreñ og JEsus læknade, Joh. 9. Eg veit ad Guð Bænheyrer ecke Synduga, Og meinte hañ þar med Heidingia og Ogudlega Meñ. Eñ hvad skulum vier segia? Þar er eingeñ Christeñ so Heilagur, ad hañ sie ecke Heidingium verre, Nema hañ þigge Kvittun Syndaña af Gude med sañre Ydran, Þvi hañ veit Vegeñ til Lijfsins og geingur hañ ecke, Luc. 12. DRotteñ hafde þañ Formæla fyrer þeim Hælfvisña er bæde Heilbrygde Lijkamans af honum: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth 9. Eñ miklu sijdur meigum vier odlast Lækning Sælareñar nema vorar Synder verde i burtu teknar. Og þessar Hugreñingar ættu nu ad bleita vor Hiortu fyrer Gude, þegar vier offrum honum vorum Bænum, so ad ecke hende oss þad sem David bidur hinum Ogudlega, Ps. 109. Ad hañs Bæn verde ad Synd, Hvad þo æn Esa skiedur, Nær vorar Bæner eru eige nema Flapur Muñsins, og ecke af Root Hiartans. Eg vil eige um þad tala hvada Þorf ad Syndareñ hefur æ ad bidia Gud. Vitum vier ecke ad allar vorar Lijfs og Sælar Heiller þær hænga alleina af hañs Myskunseme? Hvad er Madureñ? Ein Vatns-Boola, Ein Gufa er siest um Stundarsaker og hiadnar sijdañ, Jac. 4. Eñ hve miklum Hæska er þesse Vatns-Boola, Þesse Reikur underorpeñ? Þar er ecke so vesæl Skiepna i Heimenum, ad eige kuñe hun ad viña oss Mein, Nema Gud sæe fyrer Ræde voru: Ein Mijfluga kañ ad taka af oss Lijfed, Þad vier Etum og Dreckum kañ ad sælga oss ef til vill, Eñ hvad villum vier þa tala um hina Mektugu Ovine Sælna vorra, Diofuleñ sem er Þusund Viela Smidur, Heimeñ sem er hañs Eyrends-Reke, og vort eiged Holld, Hvers Gyrndma i moote Sæluñe strijda, 1. Pet. 2. Hverneg kuñum vier þessum ad veriast nema med Bæneñe? Vier siæum þad æ hinum Bænarlausu, Hveria Gud hefur yfergiefed i frææleitt Siñe, og einskis svijfast ad giora Gude æ moote, sleppande Taumnum vid Andskotañ, Heimeñ og sitt eiged Holld, leifande þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Þar til þeir munu um sijder af þvi Skadsemd, Jæ, eilijfa Fyrerdæming uppskiera, Gal. 6. Og þvi munde Endurlausnareñ leggia so rijkt æ vid sijna Læresveina um þeña Hlut, hefde hañ eige vitad ad þeir mættu ecke þess æn vera ad bidia. Vaked og bidied so ad þier falled ecke i Freistne, Matth. 26. Og aptur, Vaked og bidied þvi þier vited ecke nær Tijmeñ er, Marc. 13. Nu kañ einhver ad þeinkia, Eg giet ecke ydrast Syndaña, Og ecke rækelega eda heitt beded, Nema Gud giefe mier þad, og verd eg þad af honum med Bæn ad þiggia i fyrstu, Eñ þa er eg syndugur kalldur og hardur og i allañ Mæta illa stickadur til ad bidia Gud, Allt kañ þetta satt ad vera, Eñ seig mier, Christeñ Madur, Gietur þu ydrast þess er þu tilgiorer Moñunum? Vijst gietur þu, Þad siær Meñ jafnvel æ morgum Skælk, ad hañ ydrast epter þegar hañ er bweñ ad fremia Glæpeñ, Þvi skyllder þu þa ecke læta þig ængra þad þu hefur Gude a moote broted, Ef þu neñ-

ter einhvorn Tijma ad huxa um̃ Fram̃ferde þitt og Guds Riettlæte. Gietur Stoorbrota Madureñ beded Konungeñ um̃ Lijf sitt? Edur sa Hwngrade um̃ Mat? Pad gieta baader þeir, og þad af Alvoru, Jafnvel med graatande Taarum, Hvad mun þvi vallda, ad þu gietur ecke beded hiñ Almaattuga Gud Pañeg? Pad gaatu þo Heidingiar, Þeir Taaruduſt fyrer ſijnum Afgudum þegar Hungur edur Drepſoott þryſte þeim þar til, So ad Livius ſkrifar, Ad jafnvel þeirra Hofdings-Kviñur hafe ſoopad Goda-Hofeñ med ſijnum Haar-Lockum, med vidlijkre Atferd, þoott Olijku ſie samañ ad jafna, So ſem þegar hin Berſynduga kraup ad JEſu Footum, og þvode þær med Taarum ſijnum, og þerrade þær med Haar-Lockunum, Luc. 7. Nu er oſs Chriſtnum Moñum i ſlijku ollu betur vared, Þar vier hofum medteked Heilagañ Anda i Skijrneñe, So ad eg þore ad ſegia, ad þar er eingeñ til Vits og Ara komeñ, Hvers Hiarta ad Guds Ande hafe ecke einhvern Tijma, Jaa, optlega ſnert og ſkored med Peckingu Syndaña og ſijns eigeñ Overdugleika, Eñ hvad velldur þvi ad hier er ecke meira af vorded hiaa ſumum? Pad ad vier hyrdum ecke um̃ ad fooſtra Andañ med Bæneñe, miklu helldur ſlockvum hañ med Ogudlegum Paunkum, So hañ fær ecke Rwm i oſs þeirra Hluta vegna ſem honum eru ſo gagnſtæder, og hañ hefur Andſtygd aa, Agyrnd, Ofund, Heipt, Hatur, Loſte, Drambſeme, Elſkañ til þeſſa fallvallta Heims, Og þvilijker Gieſter ſem hañ vill ecke eiga Samſæte med, Eñ vier hofum einga Vidleitne aa ad rijma wt wr Hiarta voru, Hvad þo morgum Heidingia hefur tekeſt ad miklu Leite, Ecke var Hundrads Hofdingeñ um̃ſkoreñ ſo Meñ vite, Og þo verkade Gud Audmyktena og Trwna i hañs Hiarta, Jaa, þvilijka Trw ſem ad Hofundur Trwareñar hafde ecke funded i Iſrael; Eñ hvern Vitnisburd hafde þeſſe Madur af Olldungum Gydinga? Pad ſegier oſs Lucas, Cap. 7. Verdur er hañ þeſs (ſogdu þeir) ad þu veiter honum þad þvi hañ elſkar Þiood vora, og hefur vora Samkundu uppbygt: Ecke var Cornelius ſkijrdur þegar hañs Bæner og Olmuſugiorder ſtigu upp fyrer Gud, Act. 10

Siaa hier hverſu Reidubwneñ ad Gud er til ad hiaalpa goodum Vilia: Laat vera ad þijn Bæn ſie kolld i fyrſtuñe, meinar þu ecke ad Gud þecke ad Mañſins Paankar eru vonder i fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ laat hañ ſiña Viliañ hiaa þier, Sijn honum ad þu hafer Aſtundan til ad bidia, Og vert þeſs fullornggur ad hañ mune hiaalpa þier med Naad ſijns Anda. Heideñ var hin Canaaniſka, Matth. 15. Samt þreitte hun med Bæneñe vid JEſum, Eige hefur hun teked þad af ſiaalfre ſier, Eñ þad Ord ſtendur ſtoodugt ſegier Poſtuleñ, 2. Tim. 2. Gud þecker ſijna, Hañ þeckte Hiartans Gyrnd heñar og Epterlaangan, Og þvi hefur hañ hiaalpad heñe til ad ſtrijda vid ſig; Orvænt þier ecke ſlijkrar Myſkunar af honum, þar þu ert hañs Barn vordeñ og Chriſto iñplantadur i Skijrneñe. Pu ſegier, Eg villde giarnañ af Alvoru beded gieta. Seig mier, Hefur þu beded Gud um̃ ad hiaalpa þier til ad bidia? Pu ſegier Jaa, Eg hefe beded, Eñ eg maa ſpyria, Hvad opt? Hvad marga Daga? Vikur? Maanude? Ar? Edur hverſu opt aa Deige hefur þu beded? Hefur þu þreitt vid Gud med Bæneñe? Hefur þu koſtad til

til þess ollum Saalar og Lijfs Kroptum ad bidia? Vera maa ad so sie, Eñ eige trwe eg þvi ad þu siert þa ecke Bænheyrdur, og fiñer þu ecke til þess, Pa er ad vijsu nockurs Aboota vant, af þvi sem þu aatt til ad leggia, Pviad ef hiñ Ranglaate Domare sem JEsus tekur Dæme af hiaa Lucam Cap. 18. Ef hañ liet þo sigrast af Eckiuñar Bæn til ad giora heñe Riett, Pa gior þu ecke Fodur Myskunsemdaña, 2. Cor. 1. Pañ Oriett, þad þu ætler ad hañ sie hardwdigre eñ þesse Gudlause Madur var. Miñ Tijme er eñ þa ecke komeñ, eñ ydar Tijme er jafnañ til Reidu, sagde Lausnareñ, Joh. 7. Madureñ er nockud gruñsær til þess ad skignast i Underdiwp Guds Leindar-Raads, edur ad þeckia Tijma og Hentugleika sem Fadereñ hefur i siñe Heude, Act. 1. Pu segier, DRotteñ bañade sijnum Læresveinum ad bidia morgum Ordum eins og Heidingiar, Matth. 6. Pad giorde hañ blessadur til ad vorkyña þier og mier, Pvi hañ visse ad Hiarta Mañsins er frasnwed Gude, eñ fwst a Hiegoomañ. Eñ ecke misþockuast honum laangar Bæner, þær sem af trwudu Hiarta frañkoma, Pess vegna var hañ og siaalfur allar Nætur aa Bænum, Luc. 6. Par fyrer segier og Lucas 18. Cap. Ad hañ hafe frañsett þessa Epterlijking uñ Doomarañ til þess, ad þeim byriade yduglega ad bidia og ecke Toomlaatum ad vera. Eg segle ecke helldur, ad þu skuler so miog leinge i einu bidia, Pvi Illska Mañlegs Hiarta þoler þad ecke, Eñ bid þa þess optar, og heiter þad samt yduglega ad bidia. Pu segier; Eg fæ eige vid þvi giort ad mier flimga i Hug marger añarleger Paankar nær eg bid, Pad er illt; Bid Gud ad taka slijkt fraa þier, ad ecke verde þijn Bæn ad Synd, Pvi soddañ er ad vanhelga hina bestu Guds Pioonustu. Eñ seig mier; Pegar þu lijdur Hwngur og Porsta, edur hefur Brest a Lijkamlegum Munum, gietur þu þa ecke beded so ad þu ecke uñ añad hugser? Ad vijsu gietur þu, Eñ trw þu mier, Ad hid sama munde verda ef þu lieter þig Hwngra og Pyrsta epter Riettlætenu, Matth. 5. Hvad þu munt braadlega odlast, Ef þu af Hiarta rañsakar hversu stoorañ Skort þu hafer aa þeirre Hroosan, sem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Og hver sem ad þessum Veikleika er undervorpeñ, Honum vil eg raada til ad bidia helldur optar eñ leinge i einu, Pvi nockud af slijku kañ ad Orsakast af Skapsmunum, sem ecke er so hægt vid ad giora, Jafnvel þott Guds Kraptur kuñe alla Hlute ad verka i þeirra Breyskleika sem hañ af Hiarta Ottast, Og eingeñ Efe er aa þvi, ad saa sem elskar Gud uñfrañ alla Hlute, Hañ hefur Ynde af þvi ad tala vid hañ i sijnum Bænum, og þarf ecke stoorum ad þvijnga Naatturuna þar til, Pegar hañ hefur fyrst eignast Elskuna aa Gude, og hañ kañ alldrei ad vanta Orsok til ad bidia Gud, Elskañ miñer hañ aa sierhvern Guds Velgiorning til Packlætis, aa siñ eigeñ Vanmaatt til ad bidia uñ Hiaalp, aa sijnar Synder til ad ydrast þeirra, og aa Guds Daasemdarverk honum til Lofgiordar, Svo ad þott ecke hafe hañ laangar Bænagiorder, sem og kañ skie eige leife sumra Maña Umsvif og Añrijke, Jafnvel þott Eitt ætte ad vera Naudsynlegt, Luc. 10. Pa samt bidur hañ Oaflaatañliga, og er þolugur i Bæneñe epter Bode Postulans, Rom. 12. Hver þegar hañ Iklæder Riett-trwadañ Mañ Guds Herskrwda, Eph. 6. Pa giefur hañ honum þessa Yferhofn, ad

Endingu, Segiande, med allre Bæn og Fyrerbeidslu, Bidiande aa hvorium Tijma i
Anda, Og verande aarvakrer til þess sama med ollu Polgiærde. Og er nu so wt-talad
um̃ þad Fyrra er eg hiet aa ad miñast. Eñ þad Sijdara Epterfylger med faam Ord-
um af ad segia.

Ecke þyrfte Riett-Christeñ Madur añad til þess ad taka fraa Saalu siñe allañ Efa
um̃ Bænheyrsluna, Helldur eñ þesse Blessud Ord er vor Endurlausnare hier talade til
siña Læresveina: Hvors Pier Bidied Fodureñ J Mijnu Nafne, Pad Mun Hañ
Veita Ydur: Eñ fyrer þvi ad JEsus talade þetta til siña Astvina, Hverium hañ gaf
þañ Vitnisburd, Ad Fadereñ Elskade þa af þvi þeir Elskudu sig, Joh. 16. Pa kyñe
Syndaranum, sem Daglega reiter Gud til Reide, ad flíwga i Hug, ad þetta Blessada
Fyrerheit naae ecke til sijn, Pviad hañ sie þess Overdugur; Eñ eg mun framveiges sijna,
ad þad ollum þeim tilheyrer er hañs leita med aangraadu Hiarta, ollum þeim er hañ bid-
ia i Anda og Sañleika, Joh. 4. Ollum þeim sem eru stadfaster i Bæneñe, Rom. 12.
So sem eg nockud um̃talade i hinum Fyrra Parte Rædu miñar. Pad kieñer JEsus
sialfur oss, Er hañ sagde i Bæneñe til sijns Himneska Fodur fyrer Læresveinunum: Eg
bid ecke einasta fyrer þeim, helldur og fyrer þeim sem fyrer þeirra Ord munu aa mig tr-
wa, Joh. 17. Guds Sonur kom ecke i Heimeñ til þess ad kalla Riettlaata, helldur
Synduga til Ydrunar, Matth. 9. Pvi vill hañ allar ydrande Mañeskiur Bænheyra,
Og hvad meira er, ad þar er meire Glede i Himnenum yfer einum Syndara sem Ydran
giorer, Helldur eñ yfer Niju og Nijutijgu Riettlaatum, Luc. 15. Ecke hemludu Synd-
ernar Hoor-Konuñe sem Judar villdu grijtt hafa, ad faa þeirra Kvittun hiaa Guds
Syne Fordum, Er hañ sagde vid hana; So fordæme eg þig eige, Far burt og syndga ei-
ge framar, Joh. 8. Ecke bægdu Syndernar Tollheimtumañenum fraa ad gaanga
Riettlaatare heim aptur i sitt Hws, helldur eñ Phariseeñ, Luc. 18. Ecke leit JEsus
til Synda hiña añara Tollheimtumañaña og Bersyndugra, ad hañ ecke þar fyrer æte
og drycke med þeim, Matth. 9. Hvar fyrer? Af þvi þeir ydrudust Syndaña. So
er þad nu vijst, ad Syndeñ gietur ecke hindrad Bænheyrsluna, þegar hun er jaatud fyr-
er Ydraneña, og afþveigeñ fyrer Forþienustuna, Pvi þad Ord blijfur Æfeñlega stod-
ugt: Hvern þañ sem til mijn kiemur, Vil eg ecke fraa mier reka, Joh. 6. Nu þoott ad
þessu sie so vared, Br. M. Pa eigum vier ad giæta ad, hvar um̃ vier bidium, Ef vier vil-
ium ad Trweñ sie bygd aa hinum rietta Grundvelle, Og ad vier ecke bidium af Gude
þeirra Hluta sem añadhvert i sialfum sier eru Oleifeleger edur oss skadleger, so ad vier
ecke reyngium Sañsogle Guds, Poott vier ecke Bænheyrder verdum, nær vier þañeg
bidium. Pad sem vier eigum um̃ ad bidia, Er añadhvert Lijkamlegt edur Andlegt. Um̃
Lijkamlega Hlute eigum vier med Fororde ad bidia, So sem vier optlega heyrt hofum,
Pad ber til þess, ad vier ecke vitum hvers vier eigum ad bidia, Vier meigum og ecke alls
þess bidia af Lijkamlegum Hlutum sem Holdsed edur Lijkameñ heimtar; Riett er ad
bidia um̃ Heilsu og Heilbrygde, Fot og Fæde, Vernd og Vardveitslu fyrer Lijkamleg-
um

um Ovinum vorum, Lucku og Framgáng i voru Erfide, Þviad allt þetta á ad skiliast
under Daglegu Braude i Drotteñlegre Bæn, Eñ um̃ allt þetta á med Fororde ad
bidia, Þvi jafnvel þott ad ecke sie þad lagt til hiñar Fioordu Bænareñar, Þa stendur þar
þo strax fyrer framañ: Verde þiñ Vilie so á Jordu sem á Himne, So ad ef hinum
gooda Gude sem veit hvad oss er fyrer bestu, Ef honum þocknast ad vier skulum hafa
nockurn Brest á þessu, á Heilsuñe, á Daglegre Atviñu, Ef vier hliootum Oriett ad
lijda og vera Forsvarslauser i Heimenum, Þa eigum vier samt eingañveigeñ ad efast um̃
Guds Trwfeste, Þvi hañ hefur án Efa heyrt vorar Bæner, Þar eckert hender oss án
hañs Vilia, Og komande mun hañ koma og ecke tefia, Hab. 2. Og þetta á ad vera
Grundvollur Trwar vorrar þegar á moote blæs, Þvi ef vier vilium i þvi Bænheyrder
verda, ad hañs Vilie verde á oss so sem i ollu odru, Þa eigum vier ecke ad vantreysta
þvi ad vier sieum Bænheyrder þoott oss nockud vante, og þad þess sijdur ad værum vier
án Typtunar, hverrar aller eru Hluttakande vordner so sem Paulus segier, Heb. 12.
(hañ meinar Guds Viner) Þa hefdum vier Orsok til ad efast um̃ hvert vier værum af
honum elskader edur eige, Þvi hvern þañ Son sem hañ elskar þañ agar hañ. Paulus
segier eñ aptur, ad vier værum aumaster allra Maña, Ef vier trwdum alleina á Christ-
um i þessu Lijfe, 1. Cor. 15. Eñ eg vil þvi vid bæta, ad vier værum og allra Maña heim-
skaster, Ef vier elskudum Gud alleina fyrer þessa Heims Velgeingne, Eins og hañ hafe
ecke Þusundsiñum betra tilbwed þeim sem hañ elska, 1. Cor. 2. Þar er ecke nema Svik-
ræde á þeim Hædunum, sagde Jeremjas vid Juda, Cap. 3. Talande um̃ Skwrgoda
Hofeñ, Og so er þvi vared um̃ Velgeingne þessara Tijma, Þegar hun geingur sem hædst,
þá er hun á Stundum eige nema Svik og Pretter, Hvoria þo margur Dáre giorer ad
sijnum Gude, edur ad miñsta Koste, Þeir sem Gudhrædder þykiast vera, Elska hiñ saña
Gud, alleina fyrer þa Hlute sem hañ jafnvel giefur Ovinum sijnum, og verda þeim Or-
sok til eilijfrar Glotunar sem þad misbrwka, Þar fyrer Ottast eg, ad þeir sem alleina el-
ska Gud fyrer slijka Hlute, ad þeir elske hañ ecke Riettelega, Jafnvel þoott hañ eige fyrer
allar sijnar Gáfur ad elska, Eg veit og hverge i Ritninguñe boded, ad Meñ skule bidia
um̃ mikeñ Veralldar-Aud, edur Metord, og allra sijst um̃ Fall edur Slis Ovina siña,
er margur Heiptrækur virder þo meir eñ stoora Fiesioodu, Já, kostar ollu þvi hañ á
til ad svala Giede sijnu á þeim hañ hatar. Miklu helldur sie eg ad Gude fiell vel i Gi-
ed Bæn Salomonis, Er hañ beidde hañ um̃ Speke til ad dæma Foolked med. So veit
eg nu hverke leyst nie boded i Guds Orde, ad bidia um̃ þvilijkt, Og ecke er þad i hiñe stut-
tu, eñ þo fullkomnu Bæn sem DRotteñ hefur oss epterláted: Gief Oss i Dag Vort
Daglegt Braud, Þad er hañs Atkvæde, hvad Paulus best wtleggur, 1. Tim. 6. Nær
vier hofum Fæde og Klæde, þa verum ánægder þar med. Miklu helldur sie eg hitt bod-
ed, ad Meñ eige skule vera Hugsiwker um̃ hvad þeir skule Eta edur Drecka, edur hveriu
vier skulum klædast, Þviad vor Himneskur Fader veit ad vier hofum alls þessa Þorf,
Matth. 6. Já, ad vier skulum leita fyrst Guds Rijkis og hañs Riettlætis, þa mune

oss

oß allt gott til leggiast, Pvi eigum vier ad trwa, Pvi Gud kañ ecke ad liwga, og gyrnast
eige framar, Vilie Gud veita oß meira, þa tokum þad med Packlæte, og brwkum so ad
vier sieum rijker i goodum Verkum epter Postulans Bode, 1. Tim. 6. Og sa sem nu
bidur Gud um Tijmañlega Mune, Hañ hafe þetta fyrer Grundvoll Trwar siñar, og
þeinke under eins til þeß er Jacob skrifar; Pier gyrnest og þier hafed þo ecke, Pier ofun-
ded og metest, og megned þo ecke ad hreppa, Pier strijded og beriest, og hafed þo ecke, af
þvi þier bidied ecke, Pier bidied, Og faaed þo ecke, af þvi þier bidied illa, til þeß ad þier haf-
ed til ad kosta uppa ydvarn Munad, Jac. 4. Hvad hinum Andligu Gaafunum vid-
vijkur, Trwñe, Voneñe, Poleñmædeñe, Kiærleikanum og odrum goodum Dygdum
sem þar af spreita, Pa eigum vier þeirra ad bidia aan Forórds; Hvar fyrer? Pviad
þar af maa allañ Efa draga, ad þær eru Gude þacknæmelegar, Pad er Vilie Guds ydar
Helgan, segier Paulus, 1. Tess. 4. Eñ vor Helgun gietur ecke framkvæmst nema fyr-
er H. Anda, Par fyrer, hver sem vill Heilagliga og Christelega lifa, hañ bidie Gud af ollu
Hiarta um siñ Anda, og trwe Ordum Frelsarans aan allrar Efaseme, Er hañ sagde:
Ef ad þier sem vonder erud, kuñed ad giefa Bornum ydar goodar Gaafur, Pvi mun ecke
Fader miñ Himneskur giefa þeim Heilagañ Anda er hañ þar um bidia, Luc. 11. Hier um
talar so Jacob Postule, Cap. 1. Eñ ef nockur af ydur þarf Skynsemdar vid, Pa bid-
ie hañ Gud, Hver ed giefur ollum Einlæglega, Og telur ecke epter, Og mun honum giefed
verda; Eñ bidie hañ i Trwñe, Efande um ecker. Hver er þesse Skynseme er Jacob
talar hier um? Pad er aa þeim Hlutum er hañ framañ til i samá Cap. eggiar Christna
Meñ aa, Segiande medal añara, v. 2. Hallded þad fyrer hiñ mesta Fognud Brædur
mijner, Þegar þier falled i adskiliañlegar Freistingar, Og þoott hañ meine hier sierdeilis
wtvortis Mootlætingar, Pa verdur þo Guds Bornum hid mesta Mootlæte ad þeirra
eigeñ Holds og Bloods Freistingum og Tilteigingum; Eñ Guddoomlega Speke
H. Anda skal til þeß hafa ad yfervinña slijkt, Og til ad skynia hvilijkt Gagn ad Freisting-
eñ epter sig leider, Nær hun er sigrud, Eñ þa Skynseme er ecke ad fiña hiaa Holdlegum
Mañe, Pvi hañ skyniar ecke þad sem Guds Anda er segier Paulus, 1. Cor. 2. Og ei-
ge verdur hun feingeñ nema med Bæn af Gude, Og er þad nu aan alls Efa vijst, ad sa
sem bidur Gud um H. Anda þar til, hañ gietur ecke hiaa þvi sneidt ad verda Bænheyrd-
ur, Pvi hañ sem þvi lofad hefur, er Jehova, Mal. 3. Og umbreitest ecke, og eckert hañs
Ord mun aa Jordu falla. Hvad velldur þa þvi Br. M. ad þar fiñst Skortur hiaa all-
morgum aa slijkum Astgiofum Andans? Hvar er hin forna Trw? Elskañ til Guds,
Kiærleikeñ, Poleñmædeñ og adrar Christelegar Dygder? Meñ verda so lijtt varer vid
þær i Heimenum, So ad hætt er vid, ad Mañsins Sonur mune eige fiña Trw aa Jordu,
Luc. 18 Nær hañ kiemur, Hvad af hveriu. Eñ hvad mun þvi vallda B. G.? Nema
ad Meñ eru so Almeñelega Toomlaater i þvi ad bidia Gud um hiñ Heilaga Anda, Sa
ed p'ante þesse Himnesku Aldine i Akre vors Hiarta.

So sem þad ad Gudhrædslañ (þad er hiñ sañe Christeñdoomur) er eiñ Hlutur sem
er

er til allra Hluta Nytsamlegur, 1. Tim. 4. So verdur hun ecke feingeñ nema med Riett-trwadre Bæn af Gude. Þetta Diofla-Kyn verdur ecke wtreked nema med Føstum og Bænum sagde DRotteñ, Matth. 17. Um̃ Mein hins Tunglsiwka, hvern hañs Læresveinar gaatu ecke læknad, Søkum Vantrwar siñar, v. 20. Og so er þvi haattad um̃ Þvermoodskuñar Diøful, Er synduger Meñ eru plaagader med, Hañ verdur ecke wtrekeñ nema med Bæn og Andvarpan. Þu læst vel bidia Gud, Eñ hve mikil Alvara þvi fylge, er af Bænheyrsluñe audsied, Þvi ecke eru Guds Fyrerheit Onijt vordeñ segier Paall. Pharisæarner villdu hafa grijtt HErrañ er hañ sagde þeim Sañleikañ, Joh. 8. Eñ hversu opt segier hañ þier satt i sijnu H. Orde um̃ sijna Reide, Sitt Riettlæte, Sitt Vandlæte yfer Syndeñe, og aptur um̃ sijna Giæsku, Sijna Elsku og Myskunseme vid þaa sem Ydran giora; Siaa til ad þu ecke grijter Christ DRotteñs er þu tekur aa moote øllu þessu med einu Stein-Hiarta, Edur hverneg villt þu Bænheyrdur verda ef þu so giører? Hvad velldur þessu, Nema ad Meñ Rañsaka ecke Lifnad siñ, so þeir meige ydrast, Ecke Rootfesta Guds Ord i Hiarta sijnu so þeir meige trwa, Og ecke kieppast vid ad lifa þar epter so Meñ fære Avext i Poleñmæde, Og þo undrast Meñ ad þeir ecke Bænheyrder verda, JEsus kom til hiñar Samarisku Fordum Daga vid Jacobs Bruñ, og beidde hana um̃ ad drecka, Joh. 4. Hañ kiemur eñ nu til Saalar þiñar i Dag, Hañ þyrster epter heñar Velferd, og gyrnest ad dryckiast af Taarum þijns Hiarta, So hañ meige giefa þier lifande Vatn ad þig eige þyrste Eilijflega. Vid Moysen ad vellta Steinenum af Bruñenum med Hende Logmaalsins, Og mun Høfuded verda braadlega fullt af Vatne, Og þig langa epter DRottne sem er þiña Meina Grædare, Þvi betra er þier ad Ormur Samvitskuñar stijnge Saalu þijna hier i Naadeñe, So hun vakne vid og faae lited uppaa hañ sem fyrermyndadur var i Eyrormenum er Moyses heingde uppaa Tried þeim til Lækningar, Sem af Eitur-Ormunum bitner voru, Num. 21. Helldur eñ ad hiñ eilijfe Ormur kvelie þig sa ed alldrei deyr, Og sa Elldureñ þijne þig sem alldrei slocknar um̃ Allder Allda, Esa. 66. Giær þessa Barn Guds og hreinsa Hiarta þitt af daudlegum Verkum med sañe Ydran, Ef þu villt Bænheyrdur verda, Þvi nema þu leitest hier vid af øllu Hiarta, þa hefur þu eckert Fyrerheit um̃ Bænheyrsluna i Andlegum Efnum, sem þu kuñer ad styrkia Trw þijna vid, verdur so Bæneñ forgiefens, Þvi aan Trwareñar er Omøgulegt Gude ad þocknast, Ebr. 11. Og hier siaaum vier Orsøkena hvar fyrer Meñ ecke um̃ Andlega Hlute Bænheyrder verda, Þar fyrer nær þu kiemur i Guds Hws, Edur hvern añañ Bæna-Stad, til ad færa Gude þitt Offur, þa siaa til ad þu flytier eige þaangad med þier nockurt þad sem Gude mislijkar; Syndlaus gietur þu eige framkomed, Og þad er þar fyrer ad þu kiemur til Guds, ad þu ert syndugur, Eñ laat eckert Groom Illskuñar drottna i þijnu Hiarta, Rañsaka þau Innstu Fylsne þiñar Samvitsku, hvert þar er eingeñ Gyrnd, Eingeñ syndsamlegur Asetningur, og eingeñ sa Giestur sem H. Ande ecke vilie bwa vid, Og fiñer þu nockurn, þa rek Diøfuleñ fraa þier med Reide-Svip, So ad þu Guds Vinur verder. Og nær þu

so giorer, maatt þu vera fulltrwa um̃ Ord DRottens, Er hañ sagde, Matth. 21. Hvad hellst sem þier um̃bidied, Ef þier trwed, þa skulud þier þad ødlast, Og er þad Maala sañast, Br. M. ad þetta eru ecke lijtel Fyrerheit ad hafa soddañ Frelse hiaa honum sem øllum Hlutum stioornar bæde aa Himne og Jordu. Eñ so sem þad er miked, So skal og miked till þess viña, Himeneñ er hærre eñ so, ad þar sie so audstocked upp i hañ, Guds Jerusalem er ram̃bygdare eñ so og heñar Port þreingre eñ ad eiñ Veralldar Asne, klyfiadur af Syrndum og Sorgum þessa Heims giete brotest þar iñ, Og þvi er þad Oska Raad er Syrach giefur, Cap. 18. Segiande: Adur eñ þu bidst fyrer, þa tilbw þitt Hugskot ad ecke siert þu eins og sa Madur sem freistar DRottens, og þad med þvi Moote sem nu straf sagda eq, Þvi so sem Gud giefur einlæglega, So vill hañ og bedeñ vera af einlægu Hiarta. Edur segied mier i Guds Nafne, segied mier; Hvad er þad ad Meñ bidia Gud ad taka fraa sier hinar vondu Syrnder? Ofund, Drambseme, Agyrne, Reide, Heiptrækne, Eñ bera kañskie Hiartad fullt fram̃ fyrer hañ af øllu þessu, Þad er ad gabba Gud og riett ad freista DRottens, So sem Syrach segier: Alldrei hefur Gud heited þvilijku Skape neiñre Bænheyrslu. þar er ecke vid ad dyliast. Paulus skipar oss ad bidiast fyrer i øllum Stødum, Upphefiande Heilagar Hendur aan Reide og Efasemd, 1. Tim. 2. Postuleñ fraaskilur þad Tvent sem hañ visse ad mest hindrar Bænena: Sem er Reidena og Vantrwna, Og er sialfsagt um̃ Reidena, Þvi þad er vor gamall Skilmaale vid Gud, Sem aa hverium Deige Endurnijast, Ad Gud fyrergiefe oss vorar Skullder, eins og vier fyrergiefum vorum Skulldunautum, Og vil eg raada hinum Hefnegiijruga, ad hañ alldrei lese DRotteñlega Bæn aa medañ hañ er þañig Skape fareñ, Þvi eingeñ af øllum hañs Bænum mun verda heyrd, Nema sw eina, Og hñs Synder med soddañ moote ecke ad Eilijfu fyrergiefnar. Vier bidium Gud fyrer allañ þañ Oriett sem hañs Eingieteñ Sonur Saklaus þolde, Ad hañ ecke vilie miñast vors Raanglætis, Eñ vier laatum oss alldrei wr Miñe falla þad Lijtilræde sem vor Brooder oss tilgiorde. Er ecke þetta ad heimta af sijnum Samlags-Pioon, Þad sem miklu miña er eñ DRotteñ hafde oss uppgiefed, Matth. 18. Hvilijkt Raanglæte er þetta? Þvi er Einsætt fyrer þañ sem vill þiggia Bæn sijna af Gude, ad hreinsa vel Hiarta sitt af slijku, Þvi ef vier eigum ad bidia fyrer Ovinum vorum, Matth. 5. Under eins og vier bidium fyrer sialfum oss, Ef vier vilium kallast Børn vors Fodur sem aa Himnum er, Þa er lijkast ad vier munum ecke eiga ad ala Hatur til þeirra i Hiarta voru, og er þeim best sem hætt er vid slijku, ad hañ snwe þessu Hatre aa sialfañ sig og Metnad siñ, Þad hañ syndugur Ormur dyrfest ad koma fram̃ fyrer hid Hrædelega Tignarvellde hiñs Lifanda Guds med þvilijku Skape; Ad soñu er Efasemeñ til mikillrar Hindrunar i Bæneñe, Eñ þo er lijklegt, ad hiñ goode Gud vorkyñe heñe meir og hiaalpe heñe, Sierdeilis ef hun fram̃kiemur af Hugleidingu vors Overdugleika, Þvi honum er vor Vanmaattur kuñur. Ecke rak DRotteñ fraa sier Fodur hiñs Tunglsiwka, Er sagde: Eg trwe HErra, Eñ hiaalpa þu Vantrw miñe, Marc. 9. Ecke Læresveinana er þeir baadu: Auk þu oss Trwna, Luc. 17.

ecke

Ecke Konungs-Mañeñ þoott hañ ævijtade hañ um̃ Vantrwna, Joh. 4. Ein veik Trw, Hun er þo Trw, Eñ hañ vill ecke brækadañ Reyr i sundurbrioota, nie lijttlogande Hør-Kveik wtslockva, Esa. 42. So heyred nu þetta Br. M. og læted ydur Mæl mitt i Eyrum loda. Eñ þu, Fyrer hvern ad allar vorar Bæner eru Jaa og Amen, HErra JEsu Christe, Bid þu þiñ Himneska Fodur fyrer oss, ad vor Trwa þrotne ecke, Luc. 22. Og veit oss epter afstadna Baræattu þessa Heims, ad odlast Verdlaun vorrar Trwar, 1. Pet 1. Pier med Fodurnum og H. Anda sie Lof, Prijs, Heidur og Packargiord, nu hiedañ i fræ og um̃ alla Eilijfd, Amen.

# A Uppstigningar Dag.

## Gudspialled, Marc. 16. Cap.

ENN seinast er þeir Ellefu sætu til Bords, Opeñberade hañ sig, Og ævijtade þeirra Vantrw, og Hiartans Hardwd, þad þeir hefdu eige trwad þeim, sem hañ høfdu sied Uppriseñ. Og hañ sagde til þeirra: Fared wt um̃ allañ Heimeñ, og prediked Evangelium allre Skiepnu. Hvør hañ trwer og verdur skijrdur, skal Hoolpeñ verda. Eñ hvør eige trwer, sæ skal Fordæmdur verda. Eñ Teikneñ er þeim munu fylgia er trwa, Eru þesse. J mijnu Nafne skulu þeir Diøfla wtreka, Nijar Tungur tala, Høggorma upptaka. Og ef þeir drecka nockud Banvænlegt, Pa skal þad þeim ecke granda, Yfer Siwka munu þeir Hendur leggia, Og þa mun þeim batna. Og epter þad, ad DRotteñ JEsus hafde talad vid þa, Vard hañ uppnumeñ til Himens, Og situr til Guds Hægre Handar. Eñ þeir geingu wt, Og predikudu Allstadar, DROTTne Samverkanda, Og Orded Styrkianda, Med Epterfylgiande Teiknum.

## Exordium.

ÞAd er Riettvijst hiæ DRottne segier Paulus, 2. Tess. 1. Ad Endurgiallda Pvijngunena þeim sem ydur þvijnga, Eñ ydur sem Pvijngader erud Endurnæring medur oss i Opeñberan DRotteñs vors JEsu Christi af Himnum med hañs Megtugum Einglum. Eñ ef þad er Riettvijst hiæ Gude ad Endurgiallda oss þañeg sem þo til Einkis uñed høfum nema fyrer hañs Forþienustu sem hefur erfidad i vorum Syndum, Esa. 43. Hversu var þad þa Maklegt og Riettvijst, ad Christur Jñgeinge i sijna Dijrd epter þad hañ hafde lided þad sem vier med vorum Syndum høfdum forþienad? Ef þier elskudud mig, þa mundud þier glediast af þvi ad eg segie ydur þad eg fer til Fodursins, Segier DRotteñ, Joh. 14. Vier høfum heyrt, Br. M. æ fyrerfarande Hætijdum og Helgum Døgum, hversu DRotteñ var i Fætækt aleñ, Luc. 2. Ad

2. Ad hañ var Landflootta fyrer Ofrijke Herodis, Matth. 2. Ad hañ var lastadur þa hañ Gott giørde, Matth. 12. Offsooktur þa hañ talade Sañleikañ, Joh. 8. Hverneg hañ var Bundeñ, Hwdstrijktur, Þyrnum krijndur, Hrakeñ wt af Jerusalem, Berande siñ Kross, Og ad Sijdustu a Gaalgañ uppfestur so sem añar Illrædis Madur, Og midt i þessum bitru Pijslum Hæddur, og med Galle og Edike Dryckiadur, Og øll þesse Hegning laa a hønum til þess ad vier hefdum Frideñ, Esa. 53. O! Hversu byriade oss þa ad fagna og glødum ad vera, Þar vier heyrum i Dag, ad hañ er Ingeingeñ i sijna Dijrd, vordeñ Himnum ædre, Og setstur a Hægra Veg Gude Fødur, Sierdeilis þar hañ ecke Einasta er i Hædernar uppstijgeñ, Ps. 68. Helldur og Gaafur ødlast handa Moñunum, Eph. 4. Hvers vier høfum noted, Yfer hveria Lijklegt er ad Heims Endereñ sie komeñ, 1. Cor. 10. Hverium hañ ecke sijdur eñ nockrum ødrum hefur bwed Braut til Himnarijkis og Eilijfrar Guds Barna Sælu med siñe Himnaføre. Og þar oss verdur nu slijkur Føgnudur bodadur a þessare Dijrdlegu Haatijd, þa laatum oss gaanga nær Evangelio, og af þvi Hugleida hina sierlegustu Velgiørninga og Avexte DRottens Uppstigningar. Hiaalpa oss til þessa Gudhrædsluñar Eyrendis Naaduge Fader med Krapte þijns Anda, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞEsser Dijrmætu Avexter Uppstigningareñar vors DRottens, eru med Tvennu Moote. Adrer koma mest hønum vid, Eñ adrer oss alleina. Hvad vidvijkur þeim fyrre, Þa er þad ecke mijn Meining ad DRotteñ JEsus hafe siaalfum sier nockud forþienad med siñe Kvøl og añare Piinung hier a Jørduñe, Oss er hañ fæddur, Oss er hañ giefeñ segier Esajas, Cap. 9. Fyrer oss er hañ Bundeñ, Hwdstrijktur og a Krosseñ negldur, Hañs Eyrende a Jardrijke var ecke ad afreka siaalfum sier nockurt Agiæte, Þvi hañ kuñe ecke agiætare ad verda eñ hañ var i Upphafe siña Vega, helldur ad leysa Mañkyned wr eilijfum Þrældoome. Þa Vegsemd er hañ auglijste i siñe Dijrdarfullu Himnafør, hana meddeilde hañ Mañdoomenum strax sem hañ var gieteñ i Moodur-Lijfe, þoott hañ sijnde hana miøg sialldañ a sijnum Hiervistar-Døgum, So hañ yrde oss ad øllu samlijkur, ad fraatekeñe Syndeñe. Þvi er hañ þa med Dijrd og Heidre Coronadur? Ebr. 2. Þvi þad var Omøgulegt ad hañ kyñe af Daudanum halldeñ ad vera, Act. 2. Þegar Gud blessadur um Allder hafde afloked hinu stoora Þrekvirke Mañkynsins Endurlausnar i voru Hollde, Þa var allt fullkomnad, Þa þocknadest Gude ad upphefia vort Holld er hañs Sonur Jklæddest a siñ Tignar-Stool sier til Hægre Handar. Hverier eru þa Avexter þesser er Christur epter Mañdoomenum hefur ødlast i siñe Himnafør? Þad segier oss Marcus i Gudspiallenu: Ad hañ hafe vered Uppnumeñ til Himens og sitie til Guds Hægre Handar. Þetta er ei so ad skilia Børn mijn, ad DrotteñI sie uppfareñ i þeña Sijnelega Himen er vier lijtum med Augum vorum, Jafnvel þoott hañ epter alvijsre Raadstøfun Guds sijnelega uppnumeñ være fraa Jørduñe allt þar til Skijed took hañ fraa Augum Læresveinaña, Act. 1. Vor Lausnare er uppfareñ yfer alla

Himna/

Himna, Sem Paulus skrifar, Eph. 4. Þad er i þañ Dijrdlega Himen, Hvar Guds
Oumrædeleg Hatign lioomar, Hveria eingeñ Madur kañ ad siaa og lifa, Exod. 33.
Þvi er hañ ecke i þeña Sijnelega Himen uppstijgeñ, Hañ er uppfareñ i þañ Himen hvar
hañ uppfyller alla Hlute sem Paulus vottar, Eph. 4. Eñ aller Hluter eru ecke i hinum
Sijnelega Himne, Þvi skulum vier ecke meina ad hañ sie vid hañ bundeñ, Jafnvel þoott
Hañ uppfylle hañ so sem allt añad. Hañ er setstur til Guds Hægre Handar sem hier
stendur. Nu er Guds Hægre Hond allstadar, Þvi þad er hñs Dijrd og hñs Almætte,
Þad er hñ siaalfur, Sem ecke er nema Maattur og Dijrd; Eñ Himnaña Himnar taka
hñ ecke so sem Salomon vottar, 1. Reg. 8. Nu fyrst Drotteñ JEsus er upphafeñ til Gu-
ds Hægre Handar, þa er hañ ecke so i þeña Sijnelega Himen uppfareñ, ad hañ ecke under
eins sie allstadar, J þañ Himen hvar Gud bioo aadur eñ Himeneñ var skapadur, þaang-
ad er Christur upphafeñ, Hverneñ kañ hañ þa ad vera iñeluctur i þeim skapada Himne,
J þañ Himen hvar Gud mun um Alldur og Eilijfd stioorna, raada og skijna, Þegar hin-
er skopudu Himnar forgaanga, og hañ hefur þa eins og añad Fat samañbroted, Heb.
1. J þañ sama Himen er Guds Sonur uppstijgeñ, Þvi er þad of-smaatt ad hugsa um
þa Tign sem Gud hefur siñ Eingieteñ Son prijddañ med, ad ætla ad hiñ skapade Him-
en sie alleina hañs Haasæte. Vier skulum og ecke þad meina, ad þoott so kvede ad hier
i Textanum, ad vor Frelsare sitie til Hægre Handar Guds, ad Gud hafe Hendur, edur
ad hañ sitie so sem Madur, ad vier ei follum i þa Villu sem Paulus ber uppaa Heiding-
iana, Rom. 1. Ad þeir hafe breytt Dijrd Oforgeingelegs Guds, i Mynd forgeinge-
legrar Mañeskiu, Þvi jafnvel þott Ritningeñ tale þañeg aa Stundum, þa talar hun so ad
Mañaplagsid. Og þoott ad Gud hafe sig i Mañs Lijkan Opeñberad, So sem Esajæ
6. J Openberunum Johañis, og vijdar, þa eru þad Okvæde ad hugsa ad hañ so i Raun
og Sañleika sie, Helldur er Gud eiñ Ande so sem Johañes vottar, 4. Cap. Hverneg
villum vier þa Jmynda oss nockud hægra edur vinstra hia honum sem uppfyller Himen
og Jord, Og er allt i ollu Omælañlegur, Osynelegur og Orañsakañlegur, Helldur er
þetta sagt til ad uttmaala þa Tign sem Guds Eingieteñ Sonur hlaut i Uppstigninguñe
epter Mañdoomenum; Hin Hægre Hlid var hiaa ollum Þioodum virduglegre aa þeim
Dogum eñ su Vinstre. Þegar Bersabe gieck iñ til Salomons Konungs, fagnade hañ
Moodur siñe, og sette hana aa Hægra Veg sier, 1. Reg. 2. An Efa þess vegna, ad hañ
hefur viliad veita heñe hiñ mesta Heidur nærst siaalfum sier. Drottningeñ stendur þier
aa Hægre Hond segier David, Ps 45. Er hañ kvedur um Brwdkaup Christi og hañs
Uñustu Christneñar. So er nu med þessu meint, ad Frelsareñ epter Mañdoomenum
sie Gude nærstur ad allre Tign, Makt og Vellde, Gud Fader og Guds Sonur eru
jafner epter Guddoomenum ad allre Tign, Þeirra Haasæte, þad er þeirra Dijrd, hun
er ein, þvi Fadereñ er i Synenum, og Sonureñ i Fodurnum, Joh. 14. Þvi nærst er
Guds Sonur epter Mañdoomenum er situr honum aa hægra Veg, siaalfum Gude nær-
stur, Siaalfur siaalfum sier nærstur, Hañ er siaalfum sier ædre og siaalfum sier lægre, þvi

hañ er bæde Gud og Madur, Og er þo hañs Mañdoomur øllum Skiepnum ædre, Þvi hverium af Einglunum hefur hañ nockurn Tijma sagt? Sit þu mier til hægre Handar, segier Paulus, Ebr. 1. Og þessa Tign Mañdomlegrar Nœtturu Christi wtmœlar hañ greinelega med fogrum Ordum, Eph. 1. Segiande: Gud Fader hefur sett Christum œ Hægre Hond sier i Himnenum, Lœngt fyrer ofañ allañ Høfdingsskap, Valld, Makt og Herradæme og øll þau Nøfn sem nefnast, Ecke einasta i þessare Olld, Helldur og i hiñe sem verda mun. So er þa DRotteñ JEsus sitiande til Fødursins Hægre Handar, afklæddur øllum þeim Eymdum og Harmkvælum, er hañ bar i voru Hollde, Vordeñ Konungur og Kieñemadur ad Eilijfu, So ad i hañs Nafne skulu øll Knie sig beigia, bæde œ Himne og Jordu, og under Jorduñe, Phil. 2. Þad er ad hañ Lifer og Rijker ad eilijfu; Þvi þad sem David kallar ad sitia œ hægra Veg Gude, Ps. 110. Þad kallar Paulus ad rijkia, Segiande: 1. Cor. 15. Henum byriar ad Rijkia, þar til hañ leggur alla Ovine til Skarar Foota hañs. Og er nu þetta sa Avoxtur og Nytseme er DRottne sialfum tilheyrer, Jafnvel þott ad ei sieum vier helldur Hlutlauser af heñe, Sem sijdar mun sagt verda.

Eñ hwad vidvijkur þeim Avoxtum sem oss Syndugum Møñum til Gagns og Nytseme spretta af DRotteñs Himnafør, Þa er hiñ Fyrste, Sending H. Anda. So segier hañ sialfur; Nema eg i burtu fare, Þa kiemur ecke sœ Huggareñ til ydar, Joh. 16. Þetta sitt Fyrerheit efnde DRotteñ œ Hvijtasuñudøgum, So sem alkuñugt er, Og er þad ecke lijtill Velgiørningur Br. M. ad hañ sende siñ H. Anda yfer sijna Postula, hañ leidde þa i allañ Sañleika, So ad þeir skylldu Leyndardooma Guds Rijkis, ad oss yrdu þeir sijdañ Opeñberader, Hañ giørde Kraptaverkeñ fyrer þa, og styrkte þar med Christne-Boded, So ad þad Hiœlpræded sem fyrst var bodad af JEsu Christo, yrde og stadfest hiœ þeirra Epterkomendum sem Paulus vottar, Heb. 2. Hañ kiende þeim ad forsmœ alla Hlute hiœ DRotteñs Krosse, og hallda þa fyrer Þreck ad vera, til ad œviña Christum, oss til Epterdæmis, so ad þeir uppfylldu Leyfar JEsu Christi Þijsla œ sijnum Lijkama, sem er hañs Christne, Col. 1. Nu þo ad þetta sie eiñ Hœleitur Velgiørningur, ad hañ wthellte sijnum Anda so Rijkuglega yfer Postulana, Þa høfum vier eingvu miña þeiged ef vier riett ad giætum. Hid mesta Erfide skal til þess hafa ad leggia Grundvolleñ under eitt Hws, so var og ad Christs Kyrkiu. Hiñ fyrsta Stein lagde Gud i Þijnu sijns Sonar, Þegar hiñ dijrmæte Hyrningar-Steiñeñ var af Uppbyggendum wtkastadur, 1. Pet. 2. Þar uppœ byggdu Postularner og adrer Helger Meñ, er vordu Lijfe sijnu og allre Tijmañlegre Velferd siñe til þessarar Byggingar. Þess gietur Paulus, Eph. 2. segiande: Ad vier sieum bygder uppœ Grundvoll Postulaña og Spamaňaña, þar Christur er sialfur Hyrningar-Steiñeñ. Giæted ad þessu er eg segie, Br. M. Þess meira sem lijdur œ Bygginguna, Þess miñe Þwnga hefur þad ad bera sem Ovarlega er lagt. Þoott vier eigum Daglega ad þiœ vorn eigeñ Lijkama fyrer Guds Rijke, Hvad er þad hiœ þvi sem Postular Guds og adrer Helger Meñ urdu ad lijda

oss

oss til Epterdæmis; Þeir bæru Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. Medañ heitast var, medañ Hædeige var Christneñar. Vier erum um̃ Elleftu Stundu kallader: Gud wthellte yfer þa sijnelegum Astgiofum Andans, til ad styrkia Kieñinguna, til ad styrkia þa so þeir giæte Offsooknernar þolad, Þu hefur ecke miñe Astgiof þeiged Christeñ Madur. Fagned ecke yfer þvi sagde JEsus ad Andarner eru ydur undergiefner, helldur hinu, ad ydar Nøfn eru skrifud æ Himnum, Luc. 10. Bileam, Num. 22. Saul, 1. Sam. 10. og Judas, Matth. 10. Høfdu og soddañ Gæfur um̃ Hrijd, Þar fyrer voru þeir þo ecke fullsæler. Sw var hin ædsta Gæfa DRottens, ad hañ gaf sijnum Þienurum ad vera eitt med sier, Eins og Fadereñ og hañ eru eitt, ad hañ vardveitte þa fyrer Heimenum, Þott hañ tæke þa ecke burt wr Heimenum, Joh. 17. Og þessa Gæfu hefur hañ þier og sendt Christeñ Madur, Ef þu villt moote taka, Hañ hefur so Endurgieted þig i Skijrnar-Laugeñe med Heilogum Anda, ad þu gietur samsiñt hañs Orde, Hañ Endurnyar þig Daglega med hinum sama Anda (nema þu mootstander hønum) so þu gietur trwad æ Gud, Heyrt hañs Ord, Tamed þitt Holld, Bored hañs Kross og elskad Næungañ. Mier virdest DRotteñ hafe sømu Atferd vid sijn Børn i Sendingu Heilags Anda eñ nu i Dag, so sem hañ hafde vid sijna Læresveina sem Von er til, Þvi DRotteñ hiet þeim þvi, Þar hañ segier hiæ Joh. 14. Eg mun bidia Fødureñ ad hañ sende ydur eiñ añañ Huggara, ad hañ blijfe hiæ ydur eilijflega. Þegar hañ kom til þeirra ad luckrum Dyrum og opeñberadest þeim, þa blies hañ æ þa og sagde: Medtaked þier H. Anda, Joh. 20. Ecke var þesse Blæstur Heilagur Ande, helldur hefur hañ bwed i hønum eins og i hinum mikla Storme æ Hvijtasuñu, Þo var Mañlegur Veikleike so mikell hiæ þeim, ad þeir ecke trwdu fyrer Fagnadar-Saker; Jæ, þoott hañ opeñberade sig fyrer þeim Nijusiñum epter Upprisuna þa trwdu þeir varla, so ad Matthæus segier, ad þegar hañ talade vid þa æ Fiallenu i Galilea, þa hafe sumer efast, Matth. 28. Og under hañs Uppstigningu voru þeir so Ofrooder i þessu, ad þeir spurdu hañ, Hvert hañ þa villde upprietta Israels Rijke, Act. 1. Eñ er hañ hafde meddeilt þeim ad nyu Heilagañ Anda, og blessad þa, og þeir sæu hañ til Himens faranda, þa jokst þeim so Kraptur, ad þeir geingu glader heim og prijsudu Gud segier Lucas, Act. 2. Eñ epter 10. Daga wthellte hañ yfer þa hinum sama Anda med miklum Undrunum og Tæknum, so þeir efudust alldrei sijdañ; So fer Madureñ eñ nu ad vaxa, Þar til hañ verdur Fullordeñ epter Mæta fullkomens Alldurs JEsu Christi, sem Paulus adkvedur, Eph. 4. J Skijrneñe medtokum vier Heilagañ Anda: Ecke er Vatned Ande, helldur bijr hañ i Ordenu, hvert ed samlagast Vatnenu, hañs giæter ecke miked i Hiarta Ungbarnsins, Þo vita Meñ ad hañ bijr þar, Þvi ad slijkra er Guds Rijke segier JEsus, Luc. 18. Þegar vier drøgunst æ Legg, verdur hañ jafnañ Samfara Ordenu hiæ þeim sem bad læra. Þoott ei þecke Børneñ JEsum grant, helldur eñ Læresveinarner hier. Þegar oss aukast Vitsmuner og vier fæum Epterterkt nockra, Þa samverkar hañ jafnañ Guds Orde. O! Børn mijn, Er ecke þetta ein stoor Astgiof H. Anda?

Anda? Ad eitt Ungmeñe lætur sier skiliast þad, Sem ei gætu skiled edur villdu skilia hiner vijsu Heims-Spekingar, Philo, Celsus, Porphyrius, Lucianus, og adrer miklu fleire, Og þott þad ecke skilie so grant, þa temur Guds Ande so Mañlega Skynseme og verkar so i Einfelldne Barnsens, ad þad giefur siñ Skilning fangeñ under Hlijdne Trwareñar, 1. Cor. 10. So þvi duger til Saaluhiaalpar. Er þad ecke ein stoor Guds Giof, ad vier sem fæddunst Reideñar-Born, Eph. 2. Vier siaaum þo hvilijkañ Kiærleika Fadereñ hefur oss giefed, ad vier meigum Guds Born kallast, 1. Joh. 3. Hver kieñer oss þad? Mun ecke Heilagur Ande, sa ed ber Vitne vorum Anda hier um? Rom. 8. Er þad ecke ein Oumrædeleg Guds Gafa, ad þegar vier syndgunst og hofum forbroted vora Arfleifd, jafnvel med Storglæpum sem vorre Saalu verda aa Stundum ofur þwng Byrde, ad vier hofum þa Tals-Mañeñ aa Himnum, Mañeñ JEsum Christum hiñ Riettlaata, 1. Joh. 2. Sem oss sender siñ H. Anda af sijnum Fodur, til ad straffa i oss Syndena so vier ydrunst, Til ad kieña oss ad hañ sie Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder so vier trwum, Til ad Endurnya oss i Anda vors Hugskots, So vier gietum lifad nijum Lifnade. Þegar Tveir Konungar sættast, Þa seliast þeir Gisla aa, so ad Vinaatta þeirra skule tryggvare vera, edur sa meire tekur af þeim miña til þess ad treysta sier hañ. Eñ Gud naade oss fatæadar Mañeskiur, hvad þurfte Gud ad taka Pant af oss Prælunum? Utlogunum? Obootamoñunum: Hvad þurfte hañ oss Pant ad setia? Og þo hefur hañ so giort. Hañ hefur teked af oss eiñ Pant sem er vort Holld og Blood, og sett þad aa hægra Veg sialfum sier, Ecke til þess ad hañ trijde oss betur, Þvi hañ visse ad vier Daglega mundum riwfa vor Sære, helldur ad vier kyñum honum þess betur ad trwa. Eingeñ hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur foostrar hañ þad og nærer, Segier Paulus um Mañ og Konu, Eph. 5. Fyrst Guds Eingieteñ Sonur hefur giört vort Holld ad sijnu Hollde, Fyrst hañ hefur Trwlofad sier Christnena so sem adra Brwde, Þa er þad vijst, ad hañ elskar þa sem eru Holld af hañs Hollde og Bein af hañs Beinum, Er so heitt elskade oss, ad hañ gaf sitt Lijf i Daudañ fyrer sijna Ovine, Rom. 5. Hañ mun ei forsmaa sijna Brwde sem skipar fyrer Muñ St. Paals syndugum Moñum ad elska sijnar Ekta-Kviñur eins og Christur Sofnudeñ, Eph. 5. Helldur laata Drottninguna standa sier aa hægre Hond Jskrijdda hinu besta Gulle, Ps. 45. Og til frekare Stadfestu hier um, hefur hañ, upphafeñ aa siñ Tignar-Stool, sendt oss eiñ Pant af siñe Hende, Þad er Heilagur Ande sem er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Hvor og bidur fyrer oss med Oumrædelegum Andvorpunum, seger Paulus, Rom. 8. O! hvilijk er Astgiof þesse? Hver vill skipta heñe vid Læknisdoomana? Vid Tungumaaleñ? Vid Jardteiknagiordena? Og siaaum vier af þessu, ad Guds Sonur hefur eingu miña veitt oss i siñe Uppstigningu eñ Postulunum, Honum sie Dijrd og Prijs ad eilijfu, Amen.

Hin Oñur Nytseme sem vier hofum af Christi Uppstigningu, Er sw, ad hañ situr til Fodursins Hægre Handar og bidur fyrer oss. DRotteñ baud i Gamla Testamentettu

ettu

nu Aaroni og hañs Sonum, ad þeir skylldu blessa Foolked, Num. 6. Þeirra Embætte var og ad bidia fyrer þvi. Lucas skrifar, Cap. 24. Ad þesse vor Edste Kieñemadur (hvers Fyrermynd ad var Aaron i mørgum Hlutum) ad i þvi hañ var ad blessa þa, Hafe hañ vered numeñ fraa þeim. O! Eiñ Gledelegañ Vidskilnad, O! Eina Elskurijka Kvediu, O! Eina kroptuga Blessan, Þesse dijrmæta Blessan, liggur eñ nu i Dag yfer hinum Andlega Israel, þegar hañ tilbidur Gud i Anda og Sañleika, Joh. 4. So ad hvers vier bidium Fødureñ i hañs Nafne, Þad vill hañ giora, Joh. 16. DRotteñ stie upp af Fiallenu Oliveti, Act. 1. Þvi hañ hafde þa wt til Bethania (segier Lucas Cap. 24.) er stood aa sama Fialle, Fraa þessu Fialle reid DRotteñ sijdarst iñ til Jerusalem, ad hañ Offrade hiñe dijrmætu Foorn sijns Lijkama, med hverre hañ Verelldena Endurkeypte, Fridstillte Gud, eñ braut under sig Dioffuleñ og allañ hañs Her, og trood hañ under siña Barna Fætur. Med þa somu Foorn uppstijgur hañ hier, vordeñ Kieñemadur ad eilijfu, Ebr. 7. Ecke epter Skyckan Aaronis, helldur Melchisedechs, Og byrtest med heñe fyrer Guds Auglite jafnadarlega, So opt sem eiñ ydrande Syndare vid þarf. Þess gietur St. Paall, Heb. 9. Segiande. Ei er Christur iñgeingeñ i þad Heilaga sem med Høndum er giort, Hvert ad er Fyrermyndan þess sañarlega, helldur i sialfañ Himeneñ til ad byrtast nu Auglite Guds fyrer oss. Hañ byrtest Nu Guds Auglite segier Postuleñ, og var þad nockru epter hañs Uppstigningu, Teiknande þar med, ad þetta sie eitt sijfellt Offur, Olijkt þvi sem umgietur, Num. 28. Hveriu Israels Syner aa Stundum rænter voru af sijnum Ovinum, 2. Paral. 36. Eñ þetta kañ eingeñ ad hindra, Eingeñ fraa oss ad taka. Dioffulleñ med allre siñe Makt, fær þvi ecke spillt, So leinge vier trwum aa Guds Son. Nofn Israels Sona voru ritud aa Brioost-Skiolld Aaronis, Exod. 28. Med hvørn hañ iñgieck i þad Allra-Helgasta, So sem til eins Miñis-Teikns fyrer Gude. Miñ HErra JEsu, Þu eilijfe Kieñemadur, Þu blessader þijna elskulega Læresveina med Kieñemañlegre Blessan, aadur eñ þu iñgieckst i Himeneñ, Þu barst þa ecke aa þijnu, helldur fyrer og i þijnu Brioste til eilijfrar Miñingar fyrer þijnum Himneska Fødur; Jaa, ecke einasta þa, HErra, helldur og alla þa sem aa þig sijdañ trwad hafa, og trwa munu allt til Enda Veralldareñar, Þar þu ert eiñ Kieñemadur freistadur aa allañ Hætt lijka sem vier, Þo aan Syndar, Ebr. 5. Uppaa þad þu kuñer ad sampijnast vorum Eymdum. O! hversu er þesse Guds Giøf æskeleg? Hvad maa Gledelegra veitast einum Syndara, sem eckert hefur añan eñ Daudañ og Helvijtis Pijsler forþienad, Þegar hañ aa ad mæta fyrer þeim hrædelega Doome, Hvar ed tebla er um̃ hañs eilijfu Saaluhiaalp, Hvad maa honum segie eg, Gledelegra veitast eñ þad, ad hañ hefur Doomarañ fyrer Fødur, og siñ Broodur fyrer Tals-Mañ, Hver vill laata sier þar Hugfallast, Hver vill mistreysta Sok siñe, þvi vil eg aalykta þetta med Paals Ordum, Hver er saa ed fordæmer? Christur er sa sem daueñ er; Jaa, Hver ed uppriseñ er, Hver og situr aa hægre Hond Gude og bidur fyrer oss, Rom. 8.

Hin Þridia Gagnseme er vier Synduger Meñ hofum af Uppstigningu vors Freisara

er sw, ad hañ þar med hefur afrekad og allbwed oss eilijfa Dijrdar-Vist i Himnenum,
So segier DRottenn sialfur hiaa Johañem, Cap. 14. J mijns Fodurs Hwse eru mær-
gar Verur, Añars segda eg ydur: Eg fer burt og tilbij ydur Stad, Eñ eg mun koma
aptur og taka ydur til mijn sialfs, ad þier sieud þar sem eg er. Pad er merkelegt ad
hañ segier, ad þier sieud þar sem eg er. Nu er þad vitañlegt, ad hañ er i Guds Himen
uppfareñ, Og situr til Kraptarens hægre Handar; Pad er ad soñu honum einum æt-
lad ad sitia aa hægra Veg Gude, Samt erum vier þess fullvisser, ad hver og eiñ af oss hef-
ur sijna Deild i Christi Lijkama, 1. Cor. 12. Hvar fyrer, þar sem mitt Holld rijker,
Par kalla eg mig rijkia. Par sem mitt Hofud drottnar, Par drottna eg sem er Limur þess
sama Lijkama. Pad er eiñ undrunarlegur Hlutur, Og ein stoor Dypt Audæfaña og
Guds Speke, ad Mañeskiañ Gieteñ og Fædd i Syndeñe, Jaa, su ed alldrei kañ Synd-
laust ad lifa hier i Lijkamanum, Jaa, margur saa ed vellter sier i Endeme Syndaña, hiñ
mesta Hluta Æfe siñar, Hun skal þo ef hun ydrast og trwer aa Christum, verda Einglun-
um jofn segier Postuleñ, Peim Himneskū Aundum er siñ Skapara ecke hafa i hinu miñ-
sta styggdañ, Og siaa hañs Auglit aan Aflaats, Matth. 18. Jaa, Hvad meira er, ad
vier skulum samlijker verda Christi dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Sem aan Efa ber laan-
gt af Einglaña Dijrd. Hveriu sæter þetta Br. M.? Hver fær þad skiled? Drott-
ningeñ stendur þier til hægre Handar, skrijdd hinu besta Gulle, segier David i Brwdkau-
ps-Vijsuñe, Ps. 45. Christur epter Mañdoomenum situr aa hægra Veg Gude, Pad
merker ad hañ sie honum nærstur ad Tign og Heidre, Eñ honum til hægre Handar sten-
dur og ecke situr Brwdureñ, Christeleg Kyrkia, So miklu er hun O-ædre
sem Von er til, Og þo næst honum ad Tign og Heidre, So ad hier maa siaa ad Mañesk-
iañ i Dijrdeñe verdur Einglunum jofn ad vijsu. Hvad ætte Christeñ Madur um þet-
ta ad Hugleida? Mætte ecke Hiartad braadna af Audmykt so sem añad Vax, nær hañ
þetta heyrer? Mun honum ecke til Hugar koma med Abraham, þad hañ sie Dupt og
Aska, Gen. 18. Og ecke þess verdur ad siaa iñ fyrer Himnarijkis Dyr, auk heldur ad stan-
da aa hægra Veg Guds Syne i hañs Dijrd. Eñ hvar fyrer er syndugum Jardar-Le-
yr þvilijkur Soome veittur? Fyrer DRottens Uppstigningu til Himens, fyrer þa dyr-
mætu Foornena er hañ hefur Einusiñe iñbored i þad Allra-Helgasta. Brædur mijner,
Kollum vier ecke eiñ Hlut so mikels verdañ sem hañ kostad hefur. Nu er Guds Blood
med hveriu Syndareñ er Endurkeypptur, Act. 20. Pess miklu ædra og kostulegra Eing-
lunum sem hañ hefur þeim ædra Nafn, þad er Heidur og Virdingu odlast sem Paulus
aavijkur, Heb. 1. Eñ nu hefur hañ ecke Einglana, helldur Abrahams Sæde uppaa sig
teked J þvi hefur hañ lided, J þvi er hañ Uppriseñ, Uppstijgeñ og setstur til hægre Handar
Gude Fodur. Er þa ad undra Born mijn, þott hañ giore oss Einglunum jafna, Pat
hañ hefur oss med sijnu eigeñ Bloode Endurleyst? Act. 20. Hverium hañ og giefur sitt
Holld og Blood til ad eta og drecka, Joh. 6. Hvert nu situr aa hægra Veg Gude i Dijrd-
eñe. Plaga ecke Konungarner ad hefia Ættmeñ sijna til Virdinga, alla þa sem i Slijp-
ne

ne vid þa standa, og siœ ei giarnañ adrer sieu þeim fremre, Þvi mun ei DRottenñ JEsús
hverium allt Valld er giefed bæde œ Himne og Jordu, Matth. 28. vera eins lyndur vid
oss sem erum Limer hañs Lijkama, 1. Cor. 12. Hveria hañ skamast sijn ecke Brædur ad
kalla, Ebr. 2. Þañeg hefur nu Gud upploked oss Himnenum i sijns Sonar Uppstig-
ningu, og giefed oss ad sitia œsamt med Christo a honum segier Paulus, Eph. 2. O! hver
su eru allar Heimsins Virdingar, Audur og Epterlæte, Hiegoome ad reikna hiœ þess-
sare Tign, þessare Sælu, þessum Himneska Fiesiood, Og þo er Mañeskiañ so dœrleg, ad
hun tekur allt þetta fram fyrer þessa Dijrdar-Vist med Gude og hañs Utvolldum.
Þar er i flestra Maña Nœtturu nockurskonar Hugprijde, Ef eg mœ so kalla, Jafn-
vel þott flester hana vanbrwke. Þad er ad komast sem hædst, Og eru þad sierdeilis Tvo
Fioll sem Meñ eru ad klyfrast uppœ alla sijna Æfe, Þad er Maktareñar og Vitskuñar,
Eñ þar eru so fœer sem leitast vid ad komast uppœ Zions-Fiall, Ebr. 1. Og nœ Þienustu
hiœ hinum Alvallda Konunge sem Gud hefur þar yfer sett, Ps. 2. Hversu Andhæl-
es geingur þetta Br. M. Jafnvel fyrer þeim sem eru Kongborner i Skijrneñe, Þeir taka
ecke betur Vara œ Tign siñe eñ so, ad þeir selia hana fyrer Glis Veralldareñar eins og
Born þau er kaupa vilia þad er þeim vænt um̃ þyker fyrer dijra Dooma. O! hversu
Vijsare og Volldugre munu þa hins eilijfa Konungs Syner og Brædur verda i hañs
Rijke, Þvi þeir munu Einglana dœma segier Paulus, 1. Cor. 6. Þad er Dioflana,
Þeir munu Gud þeckia so sem þeir verda af honum þeckter, og siœ hañ og hañs Dijrd,
Ecke so sem i Speigle edur Rœdgœtu eins og hier, helldur Auglite til Auglitis, 1. Cor.
13. Og er þo hin minsta Þecking sem eiñ Einfalldur Guds Dijrkare hefur œ Christo
hier i Lijfe, miklu vijsare eñ allt Mañ-Vit Heims Spekingaña, þvi Paulus segier, 1. Cor.
1. Ad Gud hafe giort Speke Veralldar þessarar ad Heimsku, og ad Heimska Guds
sie Moñum hyggnare, og Veikleike Guds Moñum oflugre. Þegar Makt Heideña
Maña gieck sem hædst, og Vijsdoomur Gydinga stood i Blooma sijnum ad þeirra Hygg
iu, þa voru hiner so Vollduger, og þesser so vijser, ad þeir heingdu Konung Dijrdareñar
uppœ Gœlgañ, Hveriertveggiu sier til Skañar og sijns Hofdingia Fiandans Rijke
til Nidurdreps, So hañ hefur alldrei vidriett sijdañ. Þañeg er Makt Myrkraña og
Skynseme Hollds ins, Þau eru Volæde hiœ Guds Barna Veikleika, og Heimska hiœ
þeirra Einfelldne i Guds Augum, Sem eiñ er Vijs og alleina Volldugur, Rom. 16.
Og þott nockur være Einvallds Drotteñ yfer ollum Heime þessum, og visse alla Nœtt-
uru Hlutaña, Hvad munde þad vera hiœ þeirre Dijrd, þeirre Speke og þeirre Sælu
sem hiñ miñste i Himnarijke er prijddur med, Þvi ef hañ er meire eñ Johañes Baptista,
Hvers Lijke ei var af Konu fæddur, Matth. 11. Þa munu hiner nœ skamt til þess, jafn-
vel i Hœndeige Maktar siñar. Og hefe eg nu so talad fyrer ydur Br. M. um̃ hina sier-
legustu Avexte DRotteñs Uppstigningar, hverrar hiñ Fyrste heyrer honum siœlfum til,
sem er ad hañ er iñgeingeñ i sijna Dijrd, og eigum vier ad gledjast þar af, ad hañ er far-
eñ i burtu hiedañ, Ef vier elskum hañ so sem hañ sagde fordum vid Læresveinana, sierdeil-

is þar vier erum ecke Hlutlauser þessarar Dijrdar, hañ so sem Frumgieteñ og Eingieteñ Sonur hins Hæsta, hefur teked hiñ mesta Arf, maa oss ei nægia þad Ættleidingunum, ad vier erum Samarfar Christi og Erfingiar eilijfs Lijfs, Rom. 8. Maa þad ei duga oss Landraada Moñunum, ad vier hofum Arfs-Von i Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd? 2. Cor. 4. Gud hefur giefed sijnum Syne Endemork Veralldareñar til Arfleifdar, Ps. 2. Ecke so Fioll og Dale, Jord og Skooga, Votn og Sioo, og allt hvad þar iñe bygger, So sem hañs Elskulega Brwdur sem hañ hefur wtvaled af ollum Þioodum og Tungumaalum, aadur eñ Grundvollur Veralldareñar var lagdur, Eph. 1. Þess hofum vier noted Aumingiarner, sem liggium under hinu ysta Heims-Skaute þessu; Vier erum hañs Arfur, og hofum vier siaalfum oss alldrei betur vared. Hiner adrer Avexterner heyra oss Moñunum til, Hañ hefur Rijkuglega wthellt yfer oss Heilogum Anda, So vier Riettlætter fyrer hañs Naad yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs, Tit. 3. Hañ situr til Guds hægre Handar, og bidur fyrer oss, Rom. 8. So ad allar vorar Bæner eru Jaa og Amen. Hañ hefur opnad oss Himeneñ og tilbwed oss þa Sælu-Vist er eg fyrer skom̃u um̃talade. Nu þar Gud Fader i sijnum Syne, Guds Sonur af Fodurnum sendur, og Heilagur Ande sem af baadum þeim fram̃geingur, Þad er oll Heilog Guddoomsins Þreñing hefur audsijnt oss þvilijkañ Kiærleika, sem aadur er sagt i DRottens Uppstigningu, þa stijgum nu upp aptur at moote honum i vorum Hugskotum, Hañ hefur vort Holld upphafed; Laatum hañ ecke Forgiefens hafa sendt ofañ siñ Anda til vor aptur, Ef vier erum upprisner med Christo, Þa leitum þess sem þar uppe er, hvar Christur situr til hægre Handar Fodursins, Col. 3. Þar sem ydar Fiesioodur er, þar er ydar Hiarta sagde Endurlausnareñ, Matth. 6. Ef vier hofum medteked Hellagañ Anda, sem hañ hefur rijkuglega wthellt yfer oss i Endurgietningar Vatns-Saanum, hvar skyllde þa vor Fiesioodur vera nema i honum? J hverium ad byggia aller Fiesiooder Vitskuñar? Col. 2. Postular DRotteñs horfdu upp i Himeneñ epter honum, Act. 1. Lyptum og Augum vorum upp fraa þessum Jardneska Hiegooma, og skynium þad sem þar uppe er, Lyptum þeim til Hædaña hvadañ oss kiemur Hiaalpeñ, Forsmaaum Heim þeña med ollu þvi sem i honum er, Þvi hañ mun fyrerfarast; Gaungum þvi wt af Heimenum, ad ecke tortijnunst vier med honum.

DRotteñ hafde Læresveinana wt til Bethania, Þegar hañ stie til Himens, Luc. 24. Hvert hañ er fareñ, Þad vited þier og Veigeñ þecked þier, Joh. 14. Bethania merker Faatæks Mañs Hws; Ef þier vilied epter honum uppstijga, þa giorest Andlega Voluader, Þviad slijkra er Himnarijke, Matth. 5. Falle ydur Rijkdoomur til, þa fested ei Hiarta ydar vid hañ; Giored Faatækum gott, so þier sieud i Gude rijker, og þeir medtake ydur i eilijfar Tialldbwder, Luc 16. Elias foor nakeñ til Himna, 2. Reg. 2. So meiged þier og slijta fraa Hiarta ydar allt Veralldlegt Yferlæte, Ef þier vilied honum fylgia. DRotteñ var nakeñ Krossfestur, Nakeñ var hañ i Lijkblæuñe vafeñ, Hana skilde hañ epter i Grofeñe. Nakeñ hefur hañ upprised, Nakeñ uppstijged, Jafnvel þott hañ

hañ hafe klæddur sijnst fyrer Læresveinunum ; Þu aatt og ad Krossfesta hiñ Gamla Mañeñ, Þu aatt ad greptrast med Christo, og upprijsa med honum, Rom. 6. aadur eñ þu sær uppstijged. Affklæd þig og so med honum ; Laat ecke eina Flijk Veralldligra Muna þijngia Hiarta þitt, So þu meiger fliwga upp i Hædernar eins og añar Ern epter þijnum Frelsara ; Brwka so Heimeñ, ad þu ecke vanbrwker hañ. Slijt fraa þier alla Elsku til Veralldareñar ; Laat ecke heñar Þwnga-Voru draga þig nidur þegar þu aatt ad stijga til Himens, hvar vor Borgar-Riettur er, hvadañ vier og væntum DRottens JEsu Christi, Phil. 3. Honum med Fodurnum og H. Anda sie Lof, Prijs og Heidur um̃ Allder Allda, Amen.

## Siøtta Suñudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 15. og 16. Cap.

JEsus sagde til siña Læresveina, Eñ þa ed saa Huggareñ kiemur, Hvørn eg mun senda ydur af mijnum Fodur, sem ad er Sañleiksins Ande, Hvør af Fødurnum framgeingur, Hañ mun bera Vitne af mier, Og þier munud mier Vitne bera, Þviad þier hafed i fraa Upphafe hiaa mier vered. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, So ad þier hneixlest ecke. Þviad þeir munu forboda ydur, Og saa Tijme kiemur, ad hvør hañ Lijflætur ydur, Saa meinar sig ad giøra Gude þægt Verk. Og þetta giøra þeir ydur, af þvi þeir þeckia hvørke Fødureñ nie mig. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, ad nær su Stund kiemur, ad þier miñest þess, ad eg sagde ydur þad. Eñ þetta sagda eg ydur eige i Upphafe, Þvi eg var hiaa ydur.

### Exordium.

Ingeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona, Þvi añadhvert hatar hañ þañ Eina ; og Elskar hiñ Añañ, Edur ad hañ adhyllest þañ Eina, og Forsmaaer hiñ Añañ ; Þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mamona, Segier Endurlausnareñ, Matth. 6. Eñ þad sem hañ hier segier um̃ Mamon, hver ad er Gud þessa Heims og hañs Barna, Þad vill hañ sagt hafa um̃ sialfañ Heimeñ. Omögulegt er under eins Gude ad þioona og so Heime þessum, Þad eru Tveir so Olijker Hwss-Bændur, ad hvør þeirra rekur añare Þienara i burtu fraa sier, og þad þess vegna, ad þeir so Olijker eru, Þar fyrer aavarpar St. Jacob Postule, Veralladareñar Paafugla þañeg, 4. Cap. Þier Hoor-Kallar og Hoor-Konur, Vited þier ecke, ad Heimsins Vinaatta er Guds Ovinaatta ? Fyrer þvi, Sa sem vill vera Vinur Heimsins, Hañ giørest Guds Ovinur. Og fyrer þvi, ad þessu er nu so vared, Þa hlioota Guds Born at skiliañleg Mootlæte og Hormwngar ad lijda, Um̃ hvert Efne eg hefe nockud fyrer skom̃u

talad, Er eg Oska ad goodañ Stad funded hafe i ydar Hiortum. Eñ Sokum þess, ad margur sa ed vill Gude þocknast, Hañ þoler liwflega þad sem Gud leggur sialfur aa, So sem eru Siwkdoomar, Faatækt, Astvina Misser og añad þvilijkt: Eñ þad sem af Mañaña Hende kiemur, Þad er oss bærgara ad þola, Og optlega upptendrast vort Hiarta af Reide og Hatre til þeirra, Af hverium vier meigum nockurn Ojofnud lijda, Sierdeilis nær þad fram̄ vid oss kiemur fyrer Sakleyse, Edur og i Staðeñ þess, er vier Gott hugdunst giora, Slijkt er ad soñu Mañlegt, og eingeñ Læer þad odrum Maña aa medal, Þviad flester eru so Lynder. Eñ ef vier adgiætum, ad þad kiemur eckert fram̄ vid Guds Born, Sem ad ecke sie epter hañs Forsiaa og Tillaatseme, Þa eigum vier þvi eins vel ad taka sem kiemur af Mañaña Hende, so sem hinu er hañ sialfur aa oss leggur, Þvi ecke eiñ Titlingur fellur aa Jordu aan vors Himneska Fodurs Vilia, Matth. 10. Þvi mun oss þa nockurt þad henda sem ad hañ ecke vill ad vid oss framkome? Og þetta er þad sem ad DRotteñ JEsus fyrer-segier sijnum Læresveinum i þessu Heilaga Evangelio um̄ Offsookner vondra Maña, Og segiest þess vegna tala þad til þeirra, ad þeir hneixlest ecke, Og ad nær sw Stund kiæme, ad þeir þa miñtust þess, ad hañ segde þeim þad, Og vill hañ þad sama sagt hafa ollum sijnum Bornum um̄ alla-añ Heimeñ. Þvi vil eg wt af þessum Spaadoome DRotteñs, sierdeilis Tvent Hugleida i þetta Siñ, Sem er. 1. Ad vier sieum skylduger til ad giegna þvi medÞolenmæde, er vier lijdum af vondum Moñum Sakleysesins og Guds vegna. 2. Ad vier eckert raangt giorum til ad um̄flijá þeirra Ofbellde.

Hier til hiaalpe oss goodur Gud, Fyrer siñ Son JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HEIr Munu Forboda Ydur segier DRotteñ, Og Sa Tijme Kiemur, Ad Hver Hañ Lijflætur Ydur, Hañ Meinar Sig Ad Giora GUDE Þægt VERK. Vid hveria sagde Frelsareñ þetta? Vid sijna Elskulega Læresveina, Hverier honum aan Efa hafa af Moñum kiærraster vered, Hverier ad hofdu hañs Vitne um̄ þad ad Fadereñ elskade þaa af þvi þeir elskudu sig, Og allt þetta rættest aa þeim sem vonlegt var. Hver sem athugar Hwdstrokur St. Paals, 2. Cor. 11. Faangelse Peturs, Act. 12. Lijflaat hiñs Elldra Jacobi, Act. 12. Og Beinbrot hiñs Yngra. Jaa, hversu ad aller Guds Heilager Meñ og Vottar JEsu Pijslar eru herfelega wtleikner, So sem lioost er af Christeñdooms Sogunum: Hañ mun þad jaata, ad eckert Ord DRotteñs sie aa Jordu fallied. Nu fyrst honum þocknast hefur ad laata sijna kiærustu Vine þetta lijda af vondum Moñum, Þvi skyllder þu og ecke fyrer Guds Saker lijda vilia, þad sem einhvor Ohlutvandur vid þig aflaga giorer? Og taka þvi so sem odrum Krosse af DRotteñs Hende. Ad soñu reiner ecke aa þad fyrer oss i þessu faatæka Lande ad þola Offsookner edur Lijflaat fyrer Evangelii Lærdoom edur Christi Vidurkieñingu, Samt eiga Meñ þo Gud ad dijrka me goodum Verkum, med þvi ad hiaalpa hinum Saklausa, og þeim sem Orietteñ lijdur til Riettarens, mootstanda þeim sem illa giora, og margur lijdur Oriett fyrer Sakleyse,

se, og fyrer þad sem hañ med soddañ Hætte Gott giører, Eñ aller þeir ed þañ Veg lijda, Þeir lijda fyrer Guds Saker. Gud hefur boded ad hiaalpa þeim sem Rainginden̄ lijda og underþryckter eru af Ofrijkis Moñum: Villt þu ecke frelsa hiñ Faangada sem til Dauda er Dæmdur, Og hañ sem ad liggur vid Lijflaate, Þar þu segier: Siaa vier þeckium ecke þeña, Meinar þu ecke, ad hañ sem rañsakar Hiartad, Hañ merke þad? Og hañ sem tekur Vara aa Saalu þiñe, Hañ þecke þad? Mun hañ ecke giallda hverium Mañe epter Verkum sijnum segier Salomon, Prov. 24. Þetta vill nu hiñ Ædste Doomare hafa sagt þeim sem meire Maattar eru og kuña ad hiaalpa þeim sem Oriett lijda, Segied mier: Mun hañ Sykn-saka vera ef hañ giører þad ecke? Nei, Litlu betre eñ hiñ sem Oriettem̄ giørde, Eñ þoott hañ meige Araasum mæta þar fyrer, Þa aa hañ þad ad lijda med Þoleñmæde, fyrer Guds Saker.

Gud hefur boded ad elska Naungañ, Og þad ecke einasta med Orde og Twngu, segier Postuleñ, Helldur med Verke og Sañleika, 1. Joh. 3. Eñ hvad er tijdara i Heimenum, helldur eñ Vanþacklæte fyrer Goodgiørdernar. Drambseme Ohlutvandra Maña er so haavor og so Rijklundud, ad hun þykest eingum vera um̄ neitt skylldug, hversu miklar Velgiørder sem hun þiggur, Og alla Hlute vill hun med Siaalf-Skylldu hafa, Eñ gielldur hin verstu Laun fyrer allt Undañfared, ef ecke er Grædge heñar fullnægt i hverium þeim Hlut er hun hafa vill. Full er Verollden̄ af slijkum Siaalfs-Byrgingum, þeir sem nu fyrer slijku verda, Sem margur er, Þeir lijda Guds vegna, Þvi þeir lijda fyrer þad sem Gud hefur boded, hvert þeir meiga ecke Ogiørt laata, Ef þeir vilia Christner Meñ heita, og Guds Viner, Þvi hver sem sier siñ Broodur Naud lijda og apturlykur sitt Hiarta fyrer honum, Hverneg maa Guds Kiærleike i honum vera? Segier Johañes, 1. Pist. 3. Og meiga þeir þad ecke reikna þoott ad Heimuren̄ giallde Illu aa moote Goodu, Þvi Paulus segier, Rom. 12. Ef Ovin þiñ hwngrar, þa gief honum ad eta, Og þyrste hañ, þa gief honum ad drecka, Og meigum vier ecke vera vandare hier um̄ eñ Fader Myskunsemdaña, Hver ad i giegn siñe Owtsegiañlegre Goodgyrne þoler hina mestu Oþock af syndugum Moñum, Og lætur þo rigna yfer Vonda og Gooda, Og sijna Sool uppreña yfer Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Þvi skulum vier ecke meina, Br. M. ad þetta sie alleina sagt til Postulaña, Edur þeirra sem lifdu aa þeim Dogum, Þvi eingeñ er sw Stiett sem ad nockur Madur lifer i, ad eige mæte hañ Andstreyme og Adkaste Veralldar, ef hañ leggur Kapp aa ad giora Verk DRottens Guds sijns trwlega. Þvi er æ verr og midur, ad þeir eru flester sem skioota þessu Omakenu hia sier, uppaa þad þeir meige i Fride vera: Hvad er ecke eiñ Guds Ords Þienare, Ef hañ er Vandlætingasamur i sijnu Embætte? Mun honum ecke Ovilld og Mañ-Hatur bwed vera? Eñ segied mier: Mun hañ þar fyrer meiga laata af ad straffa, Ogna og aamiña? Edur elska þaa og þeirra Velferd er honum so illa launa hiñ mesta Velgiørning, er af syndugum Mañe kañ vid añañ giordur ad vera? Mun hañ ecke meiga þeinkia hid saa og Paulus? Er hañ sagde, Gal. 1. Hefde eg hijngad til Moñum þocknast, Þa

vare

være eg ecke Christs Þienare. Og þetta er riett ad taka siñ Kross uppa sig og fylgia
JEsu epter, Matth. 10. Sa giorer vel sem lijdur med Þolenmæde þad Gud a hañ
leggur, og hañ gietur ecke af sier kastad, Eñ sa giorer eñ þa betur sem med fwsum Huga
geingur i Bardagañ a moote Fiandanum og hañs Verkfærum, Þar hañ kyñe þo ad
skioota sier undañ, sem marger giøra, Hañ er eiñ Guds Kappe, og maa vænta sier þeirra
ar Kvediu sem Gedeon fieck af Einglenum Fordum, DRotteñ er med þier þu Hetia,
Jud. 6. Hvad skulu Meñ tala um̃ eiñ Riettvijsañ Doomara, Ef Meñ eiga þo fyrer
morgum þvilijkum Raad ad giora i hreckvijsre og skynlausre Olld þessare. Eñ ef nockur
er sa, Er vanda vill sitt Embætte med Roksemd og Stioornseme nockurre, og hallda
uppe Christelegum Riettendum, Þa er honum ecke einasta a Haalse leiged af þeim er þvi
mæta, Sem ecke er so ad undra, Þvi blindur er hver i sialfs sijns Søk, helldur og af þeim
er þad eckert vidkiemur og eige skynia hvar um̃ þeir dæma; Jaa, mæter Araasum af
þeim er sialfer ættu hvad mest Riettenum fram̃ ad fylgia, Hverier ad brwka Logeñ eins
og Reikne-Peninga, þar er Meñ laata merkia so mikla edur litla Tolu, sem Meñ sialfer
vilia. Aller þeir ed nockrum O-skunda fyrer verda af so hreckvijsum og heimskum Moñ
um, þeir lijda fyrer Guds Saker, Þvi hañ er sa ed sagt hefur fyrer Muñ hiñs Vijsasta
Konungs; Sa sem Riettlæter hiñ Ogudlega og Sakfeller hiñ Riettlaata, þeir eru baader
er eins Svijvirding fyrer Gude, Prov. 17. Og eru ecke alleina þeir ed i Guds Stad
vandlæta eiga med Ordum, Edur þeir sem yfer Riatteñ skipader eru, þessum Mootgaanga
ge vondra Maña undervorpner, Helldur hefur Diøfulleñ sijn Verkfære nærre þvi i
hveriu Hwse, til ad spilla Christneñe og goodum Sidum. Eiñ vandlaatur Hwsboonde
de maa slijku mæta af sijnum Hiwum, Af sijnum Bornum a Stundum, Jaa, Af ødrum
rum wt i fraa, sem ecke hyrda um̃ ad vanda Raad sitt, Og amæla þeim er adra vilia hafa
fa aptur af Illu, giefa þeim stijfeñ Ord, og kalla ad þeir eige eckert med sig; Þeir muñe
brwka sijna Sidu þeim ad Þackarlausu. Þetta er ecke lijtel Skap-Raun, Born M.
fyrer þaa sem Ottast DRotteñ og aangrast af ad sia Ogudlegt Framferde, og sia fyrer
þeirra Tijmañligar og eilijfar O-farer eñ faa þo eige vid þeim giort Søkum Þvermoodsku
sku og Straakskapar hiña er þeir villdu leidriett hafa, Jaa, Þad er þeim meira Angur
helldur eñ margt þad er a sialfum þeim liggur. Eñ aller þeir ed fyrer þvilijkt lijda meiga
ga nockurt Adkast, Illyrde edur añad verra, Þeir lijda fyrer Christi Saker, Þvi Gud
hefur skipad ad uppala sijn Born i Lærdoome og Um̃vondun DRotteñs, Eph. 6. Hañ
hefur boded ad vier skulum leidrietta þaa er viller fara med hoogværum Anda, Gal. 6.
Jaa; sa ed þad ecke giorer nær hañ sier siñ Broodur villt fara; Hañ samþyckest honum,
og giorer sig Hluttakara i Añarlegum Syndum, 1. Tim. 5. Og hefe eg nu þañeg sijnt,
Br. M. ad sierhver eiñ af oss gietur aatt Hlut i þessum Allvijsa Spaadoome DRotteñs,
Ef vier vilium þyckia fyrer Gud edur vandlæta i hañs Stad, Þvi alldrei þrijtur þar
Andskotans Born þau er giefe þeim Orsøk þar til er DRotteñ Ottast, og eyra þvi illa ad
hañs Dijrdarfulla Nafn sie vanvirdt, Hañs Ord forsmaad og hañs Setningar vijsvitande

bitande under Footum trodner, og þott ad Moñum ſie Ohætt uppa Lijf og Lands-Viſt, þa er þad eige þeirra Giæſku ad þacka, Sem allt Gudlegt Skick og Riettende forſmar, Þvi hañ ſem ad hatar eiñ Guds Ords Þienara fyrer Heilſuſamlega Kieñingu, edur eiñ Yfervallds-Mañ fyrer riettañ Doom, Jæ, hañ ſem bolvar Fodur og Moodur, Hwſsbændum edur odrum þeim ſem hañ Leidrietta vill, hañ er ecke langt fra þvi ad taka Lijfed af honum, edur reka hañ wr Lande, Ef hañ þad þyrde vegna Hefndareñar. Nu er þeſſu ſo vared ſem eg ſagt hefe Brædur mijner, Og þvi verdur eige mootſagt, Eñ allt þetta eigum vier þoleñmoodlega ad lijda fyrer Guds Saker, og ecke hataſt vid þa er vier meigum þola þad af, helldur giora Skylldu vora med Þoleñmæde. Giætum þeſs er Frelſareñ ſegier hier i Gudſpiallenu: Ad þeir ed giore þetta, Meine ſig ad giora Gude þægt Verk, So kuña og hiner Skynlauſer ad vera, ad þeir ætle ſier ſie Oriettur gior, og þeir ed þeim vel vilia, giore þetta af Offa og Illgyrnugur Madur, ad þad er Oriett fyrer Gude þijnum, Hverium þu þioonar, ad hataſt vid ſo faraadar Mañeſkiur, Þvi þeir eru ecke Haturs, helldur Medaumkunar verder, hverſu Vollduger edur Vijſer, hverſu Rijker edur Sterker ſem þeir eru, þa eru þeir allra Skiepna Veſælaſter, Er ſo hafa gleymt Gude og ſiñe Velferd, ad þeir ſkynia ecke hvad þeim er til Gagns edur Ogagns. Þetta giora þeir ſegier Frelſareñ, af þvi ad þeir þeckia hverke Fodureñ nie mig.

Ef ad Hundur bijtur nockurn, edur Heſtur ſlær hañ, Honum kañ Madur ecke ſo ad reidaſt ſo ſem einum Mañe ſem Gud hefur Vit og Skyn giefed, Eñ hiñ Ogudlege, ſa ed ſegier i ſijnu Hiarta, þar er eingeñ Gud, Pſ. 14. Hañ er argare eñ Heſtar og Mwlar, hverium Meñ hlioota Beitſle og Bitel i Muñ ad leggia, Pſ. 32. Og þvi ſkyllde eg þa vilia hefna mijns Vanſa a ſoddañ Andſkotans Viñu-Dijre, Sem ei veit hvad þad giorer? Meñ laata Oods-Mañs-Verk vera ſaklauſt vid Kongeñ epter Logunum, og þvi ſkylldu Meñ þa ecke hafa vidlijka Myſkun vid hañ, ſem ſo er yfergiefeñ i fraaleitt Siñe, ad hañ hverke þecker Gud nie hañs Chriſt? Og ecke miklu helldur leitaſt vid ad Leidrietta hañ, Helldur eñ vilia hañs Olucku. Lijt til þijns Endurlauſnara, Þar ed hañ hieck a Kroſſenum, og beidde fyrer Yfertrodſlu-Moñunum, Jæ, þeim er giordu a moote honum þa allra ſtærſtu Svijvirding, Sem nockurn Tijma hefur frameñ vered a mille Himens og Jardar, og þo villde Bruñur Giæſkuñar laata þetta fyrer Afbotun gyllda; Þeir vita eige hvad þeir giora, Matth. 27. Og hverſu lijted er þad nu ſem þu maatt lijda af þeim ſem ecke eru kañ ſkie ollu ſyndugre eñ þu fyrer hañs Skulld, hia þvi ſem hañ leid Saklaus þiña vegna. Þar fyrer, Nær ſem einhver Veralldareñar Sonur mootmæler oſs, þegar vier giorum Guds Verk, þa hugleidum hvilijk Vegſemd þad er ad lijkiaſt hañs Eingietnum Syne i þvilijku, Og ſpillum ecke þeim Heidre med Oþoleñmædeñe, þvi ef vier giorum þad viliuger, þa hofum vier Laun, eñ giorum vier þad nauduger, Þa er oſs þad þo uppaalagt, ſegier Paulus um ſig, 1. Cor. 9. Og þeinkium ecke ad Lærisveirneñ ſie yfer Meiſtaranum, Hafe þeir Hwſs-Fodureñ Beelzebub kallad, hv-

ad munu þeir giora vid hañs Heima-Meñ? Matth. 10. Og þessa Jhugan munum vier laata spekia Hiarta vort, Ef vier meir aangrunst af þvi sem Gude er i þessu aa moote giort, helldur eñ siaalfum oss, og blondudum ecke hverutveggia þessu samañ. Og maa þad ecke letia oss, þoott ad lijted vilie aarkast vid vora Tilhlutan i Guds Stad. Heyr- um hvad siaalfur Christur seger, Es. 49. Eñ eg sagda, Eg erfidade forgiefens, og fyr- erkiæme so mijnum Styrkleika fyrer eckert og til Onijtes, þo ad mitt Maalefne sie DRott- eñs, og mitt Embætte mijns Guds, Eñ þar uṁ ber Raun Vitne, hverneg hañ Blessadur Holldenu Jklæddur lagde allañ Hug aa Guds Eyrende. Hver hefur þvilijk Moot- mæle, Haadungar, Brixlaner, og allra Handa Ovyrdingar þolad fyrer Guds Verk sem hañ? Eckert er tijdara i Heimenum, Eñ þad, ad hañ skipast ecke vid þeirra Ad- giorder, sem Guds Eyrende reka, Samt vill Gud þad þo giora laata, sijnu Nafne til Dijrdar; og þeim til Nota er þad medtaka, Eñ hinum til þess stærre Fordæmingar, og maa þig einu gyllda synduguñ Mañ, med hveriu Moote þu Gud dyrkar. DRotteñ JEsus visse ad Judas var Glotunareñar Sonur, samt talade hañ Guds Eyrende fyr- er honum, Advarade hañ þad sama Kvolld og hañ sveik hañ uṁ Noottena, Joh. 13. Amiñte hañ i þvi hañ sveik hañ, Matth. 26. Þu verdur fyrer Ovyrdingu af Heimen- um, Eñ seig mier; Er nockur Virding stærre? Nockur Nafnboot so fegur, so sem Guds Barn ad heita? Nu segier Endurlausnareñ, Matth. 5. Blessed þeim er ydur Bol- va, Giored þeim gott sem ydur Offækia, so ad þier sieud Born ydar Fodur sem aa Him- num er, þar fyrer, hver sem hugleider eilijfa Himnarijkes Glede og Fognud Guds Bar- na, og ecke reinger Sañsogle Christi, honum mun lijted þykia fyrer ad lijda nockur Hall- mæle og Araaser af Vitlausum Moñum hier i Heime fyrer þad Dijrdlega Verdkaup- ed, sem er nooglegt aa Himnum, Matth. 5. Hier til lijtur David er hañ seger, Ps. 27. Eg munde snart hafa yfergiefed mig; Ef eg eige tryde ad eg siaa munde Giæsku DRotteñs aa Lande Lifande Maña. Og vilium vier þeirra Dæmum fylgia er JE- sus talade þetta vid og þeirra Samþioona, Þa skulum vier ecke fiña, ad þeir hafe stoor- um Oþoleñmooder edur reider vorded, nær þeir voru falsklega aaklagader fyrer Hert- um og Landsdoomurum. Hvad skal eg tala uṁ hid Saklausa Lambed, Guds Eingiet- eñ Son, Þegar þeir sogdu hañ være Samverskur og hefde Dioflueñ, Joh. 8. Svar- ade hañ alleina þessu: Ecke hefe eg Diofful, helldur vegsama eg miñ Fodur. Þegar Judas sveik hañ, Vinur, hvar til komst þu hijngad? Matth. 26. Þvode Svikarans Fætur, Joh. 13. Skomu aadur eñ Diofulleñ foor i hañ; Þegar B[i]skups Þienar- eñ sloo hañ, Joh. 18. Hafe eg illa talad, Þa bevijsa þad, Og hafe eg satt sagt Hvar fyrer slær þu mig? O! þier aller hañs Viner, Oll hañs Born, Aller hañs Læresvein- ar, Aller sem vilied honum i Dijrdeñe epterfylgia; Komed hijngad og læred af honum, Þvi hañ er Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, Matth. 11. So var hañ Þoleñmood- ur sem ecke visse af Synd, 2. Cor. 5. og aatte þo alls Valld, Bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Eñ þu sem Daglega syndgar og ecke forþienar añad eñ Straff, munt þu

ecke

ecke jaata ad Gud hafe allañ Riett til ad straffa þig? Jaa, þad munt þu ad vijsu jaata; Eñ seig mier, Mun hañ þa ecke friaalst eiga med hveriu Moote ad hañ typtar þig, Mun Barned nockud sijsla um̃ vid Fodureñ, hvert helldur ad hañ straffar þad med Hende ed ur Vende? Þad heyrdest ecke aa Job, Cap. 1. Hver oss er settur fyrer Þoleñmædeñar Epterdæme, Hvert helldur ad Gud liet Elldeñ falla af Himne og breña hañs Eigur Ellegar ad þeir af Chaldea og Saba ræntu hañs Gotze; J ollu þessu syndgade ecke Job segier Ritningeñ, helldur sagde hañ: Gud gaf og Gud aftook; Sie Nafned DRotteñs lofad ad Eilijfu. Þad er ein Hræsnisfull Þoleñmæde ad segiast vilia þola allt þad sem Gud leggur aa, eñ vilia eckert Moñunum lijda, Eins og þeir giore nockurt þad er hañ leifer þeim ecke. Sa sem Lijflaatast aa, hañ fyrergiefur Bodlenum, eñ slær allre Skulldeñe uppa Domarañ; Nu gietum vier ecke giefed Gude Skulldena, Þvi vier jaatum ad vier hofum til alls þessa uñed sem hañ aa oss leggur, Og þvi skylldum vier þa reidast hañs Bodlum sem eru vonder Meñ? Þott hañ leyfe ad þad aa oss fram̃kome sem hañ visse ad þeir af sialfs Daadum mundu Oriett giora, Sierdeilis þar vier erum sialfer vonder, Þar fyrer hversu sem þad er Oriettvijst af þeirra Hende, Þa er þad af Guds Alfu riett, og eckert añad eñ vor forþient Laun, Og vilie einhver þvi ecke trwa ad Gud stioorne i þañ Maata Verkum Omilldra Maña, Sijnu Nafne til Dijrdar, eñ sijnum Bornum til Leidriettingar, (þvi allt verdur þeim til Gooda er Gud elska, Rom. 8) Hañ lese þad er stendur i Bæn Postulaña, Act. 4. J Sañleika komu þeir samañ yfer þiñ H. Son JEsum, Hvern þu smurt hefur, Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Jsraels Foolke, til ad giora allt þad er Hond þijn og þitt Raad hafde aasett ad skie skyllde. Hafe nu Guds Vollduga Hond, epter sijnu alvijsa Raade stioornad Ogudlegra Maña Verknade og Athofnum i Fordæmingu sijns Eingietens Sonar þier til Saaluhiaalpar og Myskunar, Christeñ Madur, Þa laat þig ecke undra þott hañ stijre þeim til ad aga þitt lauslaata og Drambsama Holld til ad temia þig Lijfadañ Kaalf, eins og Ephraim, Jer. 31. Þier til Andligrar Heilsubootar, helldur miñst þess nær ed vonder Meñ þier raangt tilgiora, ad þu hafer þad med þijnum Syndum forskulldad, Og munt þu braadlega snwa þvi Hatrenu er þu fær til hañs, er vid þig afgiorde, aa þijna eigeñ Synd, med Harmþrwngnum og sundurknosudum Anda, Þad er þad Offred sem Gude lijkar, Ps. 51. So giorde David Konungur, 2. Sam. 16. Er Simei bolvade honum, og kastade Steinum aa hañ, Eñ Abisai sagde: Þvi skyllde þesse daudur Hundur bolva mijnum Herra Konungenum? Eg vil fara og taka hañs Hofud af, Eñ Konungureñ svarade: Hvad hefe eg med ydur þier Born Zeruja, hafe DRotteñ skipad honum, bolva þu David, Hver vill segia? Þvi giorer þu þañeg? Og er nu so wttalad um̃ hiñ Fyrra Parteñ

Hvad hinum Sijdare Partenum vidvijkur, þa aa oss þad sagt ad vera, ad vier eigum fyrer eingum Mañe svoddañ Virdingu ad bera, Edur ad nockurs Mañs Elsku edur Otta so miked ad laata, ad vier þess vegna styggium vorn Gud aa moote Samvitskuñe.



Þad

Pad er ofs vitanlegt Br. M. ad nooguu eru margar Synder vorar sem ofs henda af vo-
rs eigeñ Holldø og Bloods Tilteigingu til ad fordæma ofs, Pott ad ecke styggium vier
hiñ gooda Gud med þvi ad taka synduga Meñ fram fyrer hañ. Gud bijdur i sijnu H.
Logmaale; Pu skallt ecke hafa Añarlega Gude fyrer mier, Pad er hid fyrsta og hid ædsta
Bodord, Matth. 22. Og þegar þad er broted, þa eru oll broteñ, Eñ hvad giora Meñ,
þegar þeir giora alla Hlute ad Mañaña Villd, hversu Ogudleger sem þeir eru, eñ kasta
Guds Bodordum aa Bak sier aptur? Er þad ecke ad dyrka eitt lifande Skwrgod?
Jaa, hañ sem er verre eñ eitt Skwrgod, Pvi eiñ Tre-Stobbe er Saklaus þoott hañ sie
dijrkadur: Hiaa-Trw Mañaña giorer hañ ad Svijvirdingu, Eñ saa sem Ottar odrum
til ad giora Odygder og sierhvad þad sem Gud hefur bañad, Hañ er Diofull, og saa ed
hañ dyrkar, hañ dyrkar Diofuleñ, Pu segiest ecke dyrka hañ þoott þu giorer þad sem hañ
bydur, Pu viter ad Gud sie ædre og ollu betre, og hañ eiñ eige ad dyrka, Pad er illt ad þu
veitst þad, Pad vill fordæma þig eñ þa meir, helldur eñ ef þu þad ecke visser. Eñ seig mi-
er; J hveriu er nu Guds Dyrkun iñefaleñ? J þvi ad trwa aa hañ, Elska hañ og Ott-
ast, og giora epter hañs Bodordum. Eñ seig mier aptur, Hvern Ottast þu meir, Gud
edur Mañeñ, Nær þu hrædest hañ sem ecke kañ ad deyda neina Lijkamañ, eñ forsmaaer
Gud sem Lijfe og Saalu gietur kastad i eilijfañ Elld, Matth. 10. A hvern trwer þu
meir, nær þu þykest einkis Purfe, er þu hefur Mañsins Vinaattu, aa medañ þu hræsnar
fyrer hañs Borde; Eñ so lijted reider þu þig uppaa Gud sem þig skapad hefur, Fædt og
Forsorgad, ad þu viñur þad til ad missa hana ecke, ad þu giorer alla Hlute sem Gud bañ-
ad hefur? Hvern elskar þu meir? Er þu villt jafnvel fara til Helvijtis fyrer Mañeñ,
Eñ fyrer Guds Saker stendst þu ecke ad sia hañs ReideSvip, er þu meinar ad hafa
nockud af þiñe Tijmañlegre Velferd i Hende sier. O! Vei, O! Vei, Er ecke þvilijkt
ein hrædeleg Afguda-Dijrkun, og miklu verre eñ oll Svijvirding Heidingiaña þeirra
er af Gude eckert vissu? Paulus segier, 1. Cor. 8. Ad Skwrgoded sie eckert, og hrædd-
ust þeir þo Skwrgodeñ er þau dijrkudu, eñ Christner Meñ, hverium Gud er i Holldenu
Opeñberadur, Peir Ottast Meñena meir eñ Gud, Jafnvel þoott hañ sie allt i ollu, og
þykiast vel hafa komed Kaupe sijnu, Ef þeir faa sellt Guds Vinaattu fyrer Mañsins
Kiærleika, edur til ad umflya hañs Oblijdu. DRotteñ segier fyrer Muñ Oseæ Spaa-
mañs, Cap 2. um Gydingaña Samkundu; Hun þecker ecke ad eg er saa sem gief heñe
Korned og Mustena og Oliuna, og eg fæ þeim aanægianlega Sylfred og Gulled, af hver-
iu þeir giora Baal, Hversu vel aa þetta heima hiaa þeim, er hiñ goode Gud veiter alla
Hlute yferfliootañlega til Notkunar, eñ þeir ecke einasta wtsiwga Hws Eckna og Fod-
urlausra, Matth. 23. Og selia hiñ Volada fyrer eiñ Skoo, Amos. 2. Helldur og gio-
ra sier eñ Afgud af þessu i Hiarta sijnu, hvert ed vera ætte Mustere H. Anda? 1. Cor.
6. Pad er Svijvirding Foreydsluñar i Helgum Stad, og þad er þeim ecke noog ad þeir
dijrke hañ einsamler, helldur eins og Nebucadnezar liet wthroopa, ad hver Madur und-
er Lijfs Straff skyllde dyrka Bel, So vilia þeir fyrer þessa Svijvirdingu af ollum heid-
rader

kader verda, Og ad aller hlijde þeirra Bode og Bañe, Hversu sem þad er Oriett og Ogudlegt, og þesse Varmeñe Ottast Meñ framar eñ Gud og hañs Sañleika, edur hvad er tijdara eñ þad? Ad nær eiñ Lijtelmagne aa vid eiñ Maktar-Mañ, þorer eingeñ Muñenum upp ad liwka, Eingeñ Sañleikañ ad vitna, Peir hlaupa i Felur, og hafa adskiliañleg Undañbrogd til þess ad Odygdeñ verde ecke strossud, eñ Sañleikureñ i Lioos leiddur, Jaa, Giefa sig helldur Fiandanum sijnum Fodur, helldur eñ ad þeir stygge hiñ Volldugа, Og jafnvel aa Stundum þañ sem þeim kañ eckert Mein ad viña; Ecke er þetta Christeñdoomur, Bærelegra mun einum Ærlegum Heidingia verda aa Doomsins Deige, Matth. 11. Helldur eñ þvilijkum Diofulsins Hamhleipum. Hvad kuña Meñ þo ad siaa þad aa einum daudlegum Mañe, hversu Volldugur sem hañ er, ad Meñ Otteſt hañ meir eñ Gud? Hañ kañ ad fyrra þig allre þiñe Aleigu, þad gietur og Gud aa Augabragde, Hañ kañ ad steipa þier wr Heidre þijnum, Mun Gude nockud bagt um þad vera? Hañ gietur sett þig i Fiotur og Jaarn, Gud gietur steiged þig med Skiædum Siwkdoome, Hañ gietur teked Lijfed af þier, og er þo ecke hætt vid þvi i Lande voru; Eñ Gud kañ ad deyda eilijfum Dauda, og setia þa er hañ forsmaa, i þad Faangelse hvadañ eingeñ Endurlausn er, Matth. 18. Hvert er nu meira? Eg vil taka til þess mesta Skadrædis er Meñerner kuña ad giora, þad er Daudeñ, eñ hvad er hañ hiaa Helvijte? Pad er so Ognarlegt, ad eg er viss um, ad ef nockur mætte siaa Pijsler Fordæmdra, munde hañ hlaupa wt i Pusund Daudans Hættur, til þess hañ sæe þær alldrei optar, og þo flya Meñ med Seglum og Arum undañ eiñe Vatns-Boolu, Sem þo kañ ecke ad skada oss, nema aa Lijkamlegre Velferd, Og þad þo ecke framar eñ Gud leifer honum.

Nu ef þu ætter allt þad er þu kiærast hefur ad missa, Fyrer hvern er þier skylldara ad missa þad? Fyrer Gud edur hiñ Ogudliga? Mun Madureñ hafa skapad þig? Hefur hañ giefed þier Lijfed? Hefur hañ forsorgad þig fraa Moodur-Lijfe? Hefur hañ giefed þier Gotz og Peninga? Hefur hañ upphafed þig til Heidurs? Hefur hañ verndad þig og allt þad þier vidkiemur? Mun eige lijkara ad þu misser þad hañs vegna ef missast skal, sem gaf þier þad i Fyrstuñe, Og þvi hefur ollu vid Makt hallded, allt til þessa Dags, helldur eñ hiñs sem þier gaf eckert af þessu? Pvi þad hañ kañ skie gaf þier, Pad took hañ af Guds, Og jafnvel þoott hañ hafe stoled þvi fraa Naunganum, og er vijsastur til ad taka þad fraa þier aptur og laungtum meira, Pad fyrsta honum reñur i Skap vid þig, Pvi so er Vinaatta Heimsins. Eg vil eige þar um tala, ad sa sem hræder eiñ til ad giera Oriett Einusiñe, Hañ hefur hañ fyrer Skulldbundeñ Præl i ollum Skemmum og Odygdum sijdañ, Og vilie hañ ecke, þa er honum Oluckañ bweñ, Pvi so plagar Heimur þesse ad launa sijnum Pienurum; Jaa, Hañ skal ecke viña sier hiñ miñsta Obagnad til ad forsvara hañ ef hañ yrde af odrum þar um sooktur, helldur mun hañ svikia eins og Gydingar Judæ, Hvad kiemur þad vid oss? Siaa þu fyrer þvi, Matth. 27. Og kuña þeir sier ecke betre Side, helldur eñ þeirra Foringe Diofulleñ, Pvi so breiter hañ vid þaa er honum liaust til Pioonustu, Hañ teiger þaa fyrst til Syndareñar, og launar þeim

im ſijdañ med eilijfu Helvijtes Baale, og þañeg er þad ad ottaſt Meñena framar eñ Gud.
Eñ hverneg launar nu Gud aptur þeim er ſtoduger ſtanda i hañs Pioonuſtu, og ecke
ottaſt Mañeñ? Pad maa oſs af Dæmunum kuñugt vera; Hañ launar ollum goods-
um Launum bæde hier og Eilijflega, Satt er þad ad morg eru til þeſs Dæme ad hañ hef-
ur giefed ſijna Aſtvine i Mañaña Valld, Po alldrei ſo ad hañ ecke hafe vered þeim til
añarar Handar. Eg er viſs um̃ ad St. Paall, Er hañ ſtood fyrer Feſto og Agrippa,
Act.26. hefur unad miklu betur Hag ſijnum helldur eñ hver af hañs Aklagendum, Hver-
ia Reideñ og Hatred ſo plaagade ad þeir eyrdu eingu nema þeir feingiu honum i Hel kom-
ed, Añars hefde hañ ecke Oſkad þeim ad þeir væru þvilijker ſem hañ. Pegar hañ hafde
i 14. Daga hrakeſt i Siaafar-Olguñe, og aller orvæntu ſier Lijfs, Sende DRotteñ ſiñ
Eingel til hañs Act. 27. Og liet ſegia honum, Ottaſt ecke Paall, Pier byriar ad ko-
ma fyrer Keyſarañ, Og hverſu ad hiñ Maattuge Gud hafe maattugur i honum vered fyr
er Keyſarans Doome, Pvi lijſer hañ, 2. Tim.4. Segiande: J mijnu Fyrſta Forſvare
var eingeñ hiaa mier, helldur yfergaafu mig aller, Eg Oſka ad þad verde þeim ecke tilreik-
nad, Eñ DRotteñ var hiaa mier og ſtyrkte mig ſo ad Evangelii Bodſkapur yrde fullkom-
nadur fyrer mig, Og þad heyrdu allar Piooder, og eg vard frelſadur af Muñe Leonſins.
Og þott ad Gud tale ecke ſo berſijnelega vid oſs aa þeſſum Dogum, ſo ſem hañ þa talade
vid Paal, Pa talar hañ ſamt i ſijnu H. Orde, og dregur allañ Efa af þvi ad ſa ſem hon-
um treyſter i ollu Ærlegu, Ollu Riettvijſu, Ollu Guds Eyrende, Hañ mun alldrei til
Skam̃ar verda, þott hañ ſijneſt ad hafa oſs i Mañaña Valld giefed um̃ Stundarſaker,
Pvi þad Ord ſtendur ſtodugt, Gud þecker þaa ſem hañs eru, ſegier Poſtuleñ, 2. Tim. 2.
DRotteñ er miñ Styrkur, Eg Ottaſt ecke, Hvad mun mier Madureñ giora? Segier
David, Pſ.117. Eiñ goodur Fader þegar hañ hefur ſtrijkt Barned. þa kaſtar hañ aa
Stundum Vendenum i Eldeñ og breñer hañ, Og ſo breiter Gud vid Skaalkana, Hver-
ia hañ brwkar optlega til ad hyrta ſijn Born med, Pvi ſkylldu Meñ þa Ottaſt þaa, Nær
Meñ hafa ſo ſterkañ, So Riettvijſañ og ſo Giædſkurijkañ Forſvars Mañ ſem Gud er?
Pad mun gaanga þeim eins og St. Paall ſpaaer, 1. Tim.3. um̃ Villu-Meñena aa ſijnum
Dogum, hverneg hañ ſamlijker þeim Jañes og Jambres er mootſtodu Moyſi, So ſtan-
da þeſſer i giegn Sañleikanum (ſegier hañ) fordiarfader Meñ i Hugſkotum, fraahverfer
Trwñe: Eñ þeir munu eige meiru fram̃koma, Pviad þeirra Faaſiña mun ollum opeñ-
ber verda ſo ſem og hiña vard. Og þott ad Guds Aſtviner ecke eige ad fagna yfer O-
lucku Fiandmaña ſiña, miklu helldur bidia Gud ad giefa þeim Leidrietting til Ydranar,
ſem Paulus bijdur, 2.Tim.2. Og ſegia: Verde þiñ Villie, þa ſamt er þetta ein Obrygd-
ul Huggun fyrer þaa ſem reka Guds Eyrende nær þeim mootmællt verdur, ad hñ er þeir-
ra Styrkur ſem ad jafnvel ſegier til Siaafar-Haffins: Hijngad ſkallt þu komaſt og ecke
leingra, Hier ſkulu þiinar ſtolltar Bylgiur leggia ſig, Job.38. Nær vier erum i Vinaattu
vid hañ, þa kañ eingeñ Ovinur ad granda oſs, Og nær hañ er Ovinur, kañ eingeñ Vinur
ad hiaalpa oſs, Pvi ſkyllde eingeñ voga hid miñſta moote Gude ad giora fyrer Otta edur
Elſku

Elsku Saker vid hañs Ovlne, Þeir vega aller miña eñ eckert, Ps. 39. I mier hafed þier Frid, Eñ i Heimenum hafed þier Angist, vered Otrauder, Eg hefe Heimeñ yferuñed Segier Frelsareñ, Joh. 16. Hvad kuña oss Meñerner ad giora, Offækia oss, Fiefletta, Hallmæla, Bryxla og vanvirda; Eg vil þad allt Þusundsiñum helldur lijda, eñ ad vita mier i miñsta Maata Von hañs Oblijdu, Þvi ad flija undañ Mañsins Vallde under Guds Reide, Þad er ad hlaupa undañ Snæ Lioosenu til ad verda fyrer Reidarslagenu, Hversu miklu betra er, Jaa miklu gledelegra alla Hlute ad þola fyrer Christi Nafns Saker, epter þeirre Mælingu sem hañ veit ad sierhver eiñ bored gietur, og oss mun þarflegast, Jaa, Dijrdarsamlegast og Fagnadarsælast verda, Þa vier munum i hañs Rijke med honum eilijfum Sigre hroosa, Þvi hver sem hitt utvelur, Hañ maa ad þessu Tveñu vijsu gaanga, añadhvert Eilijflega ad fyrerfarast med Heimenum, Edur ad taka so mikla Ydran fyrer þad sem hañ liet epter Heimenum a moote Guds Vilia, Sem kañ ad sambiooda þeirre Ohamingiu er hañ hugdest ad umflija. Þad sie fiærre ad eg selie þier mijna Fodurleifd sagde Naboth vid Achab Fordum, 1. Reg. 21. er hñ falade hañs Vijngard til Kaups; Þad forbioode Gud, Miñ HErra JEsu, ad eg selie þañ Himneska Arf sem þu hefur mier afrekad med þijnu Allra-Helgasta Bloode, fyrer Veralldareñar Frid, Hver ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude; Hvad er eiñ Vatns-Drope hiaa Siaafar Hafenu? Hvad er eitt Sand-Korn hiaa allre Heims Bygdeñe? Hvad eru Mootlætingar þessara Tijma hiaa þeirre Dijrd sem vid Guds Börn mun opeñber verda? Rom. 8. Hvad er hin lietta Byrde þessarar Stundlegu Armædu hiaa eilijfre Þijngd Dijrdareñar? Gud giæfe Meñ villdu hier um þeinkia, þa munde þeim sijdur offbiooda allt Yferlæte og Skarkale Veralldareñar Sona, Hverier ad eru eiñ Gufa er siest um Stundarsaker, segier Jacob, Cap. 4. og hverfur sijdañ, Eñ sa eiñ er stadfastur sem varpar allre siñe Ahyggiu uppaa hañ, Sem alltijd er hiñ same, Og hvers Ar ad þrotna ecke, Ps. 102. Þar fyrer vil eg segia med Postulanum: Eg em vel til Frids i Veikleikanum, I Forsmaaneñe, I Naudunum, I Offsooknunum, I Angisteñe fyrer Christum, Þvi þa eg em veikur, þa em eg Maattugur. Þetta Siñe og Hiartalag virdst þu O! Gud ad veita ollum þijnum Bornum sem aa þig vona, og beriast under Merkium þijns Sonar i Utlegd þessare, þar til þu iñleider oss i eilijfa Himnarijkis Vist til ad medtaka þijn Naadar Fyrerheit med ollum Guds Bornum. Veit oss þad og gief Himneske Fader fyrer Arnan og Forþienustu þijns Eingietens Sonar Jesu Christi, Am̃.

## A Hvijtasuñu Hatijd.

Gudspialled, Joh. 14. Cap.

OG JEsus sagde til siña Læresveina. Hvør hañ elskar mig, Saa mun vardveita mijn Ord, Og Fader miñ mun elska hañ, Og til hañs munum vid koma, Og hiaa honum Vistarveru giora. Eñ hvør hañ elskar mig eige, Saa vardveiter ecke mijn Ord.

Ord. Og þad Orded sem þier heyrdud, Er ecke mitt, Helldur Fødursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur, aa medañ eg var hiaa ydur. Eñ Huggareñ sem er hiñ Heilage Ande, Þañ er miñ Fader mun senda ydur i mijnu Nafne, Hañ sialfur mun kieña ydur alla Hlute, og miña ydur aa allt þad sem eg sagda ydur. Miñ Frid læt eg hiaa ydur, Miñ Frid gief eg ydur, Eige so sem Heimureñ giefur, Þa gief eg ydur. Ydvart Hiarta hryggest ei nie skielfest. Þier heyrdud þad eg sagda ydur, Eg fer burt og kiem aptur til ydar, Ef þier elskudud mig, Þa glieddust þier vid þad, Ad eg sagda ydur, Ad eg fer til Fødrusins, Þviad Fadereñ er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad, aadur fyrre eñ þad skiedur, So ad þier trydud þvi, Þa ed þad være skied. Hiedañ i fraa mun eg ecke tala margt vid ydur. Þviad þessa Heims Høfdinge kiemur, Og med mig hefur hañ eckert. Helldur so ad Heimureñ þecke þad eg elska Fødureñ, Og þad eg giøre so sem Fadereñ hefur mier boded.

## Exordium.

I Exodi Bookar 25. Cap. Talar DRotteñ þañeg um sijna Vist medal Israels Sona: Þeir skulu giøra mier Eiñ Helgedoom, og eg skal bwa aa medal þeirra. O miñ Gud! Hvilijker eru þesser þijner Velgiørningar? Þad mætte noog þykia ad øll Naatturañ ber Vitne um Guds O=wtsegiañlega Giædsku, ad Himnarner frammtelia hañs Dijrd, og ad Festingeñ kuñgiører hañs Vegsemd, Ps. 19. So ad Meñ kyñu ad leita ad hønum af hañs Skiepnum, og ad hañ hefur ecke laated sig vera aan sijns Vitnisburdar, Þar hañ veiter oss gooda Hlute, Giefande oss Regn af Himne ofañ, og Hagkvæma Tijma til ad bera Avøxt, uppfyllande Hiørtu vor med Fædslu og Føgnude sem Paulus segier, Act. 14. Noog mætte allt þetta þykia segie eg, þoott ecke hefde hin Ogrijpañlega Haatign sett Boolfestu sijna medal Syndugra Jardar Madka, Sem eru Dupt og Aska. Nu þyker oss þesse Vegsemd Israels Sona Forkunar Væn og Vegleg, Br. M. So sem hun og i Raun og Sañleika er; Eñ vier høfum þo i Christo øllu meira þeiged, Þvi Dijrd hiñs Sijdara Musteresins, Sem er hañs Christne hier aa Jørduñe, Hun er vordeñ miklu meire eñ hiñs Fyrra, So sem DRotteñ spaade fyrer Muñ sijns Þienara Haggæi, Cap. 2. Edur hver Hlutur maa þar vid jafnast, Ad Orded vard Holld og bygde med oss, Joh. 1. Ad i Einum Adams Syne bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega; Col. 2. Ad Guds Eingieteñ Sonur er Hluttakande vordeñ Hollds og Bloods, eins og Smaa=Børneñ, Ebr. 2. Eñ þoott ad þetta sie Upphaf og Grundvøllur Heilsugiafareñar, Þa munde oss ecke ad full stoda Holldtekia DRotteñs, Nema hañs Fødurleg Giædska hefde giort eñ framar vid

vid oss, og efnt þad er hañ lofade hiꜳ Zach. Cap. 6. segiande: Siꜳ eiñ Mañ, hv ers Heite ad er Græñ Kvistur, Hañ mun bloomgast i sijnum Stad og uppbyggia DRottne eitt Mustere, 1. Cor. 3. Þad er Guds Kyrkia i Mañaña Hiortum, J hveriuin Christur bijr fyrer Trwna, Eph. 3. Og hañ er þar siꜳlfur Kieñemadur i sijnu Hꜳsæte og Rꜳd Fridarens ꜳ mille beggia, Zach. 6. Nu þoott ad þesse Nꜳvist Guds sie ollum Moñum framboden̄, þa nꜳde þad DRotteñ, ad so fꜳer verda heñar Hlutakande, Eñ hvad velldur þvi, nema ad Meñ leggia ei miog Kapp þar ꜳ ad iñbiooda þessum Gieste? Vier hofum hañs Ovine iñe hiꜳ oss, Med hverium hañ vill ecke Samsæte eiga, Þeim vilia Meñ ecke wthijsa, Og þvi missa þeir hañs Nꜳlægdar og Velgiorninga, er so Lynder eru: Eñ so ad aller þeir ed leggia nockurn Hug ꜳ þetta, meigevita med hverium Kostum honum meige iñbiooda, Þa hefur JEsus þad sagt med berum Ordum i upplesnu Gudspialle, Þar hañ segier: HVor Hañ Elskar Mig, Sa Mun VARDVEJTA Mijn ORD, Og FADer Miñ Mun Elska Hañ, Og Til Hañs Munum Vid Koma, Og Hiꜳ HOnum VJSTarverü GJora. Þesse Dijrmætu Ord vil eg nockud framar yfervega fyrer ydrum Kiærleika, Og af þeim framtelia þꜳ hellstu Hlüte er eiga ad locka Hiortu vor til ad Elska Gud hiñ Ypparsta Gooda, fram yfer allt añad. Hañ virdest ad kveikia i oss sijna Elsku, So vier þetta Eyrende so framkvæmt gietum, ad honum siꜳlfum lijke, Fyrer JEsum Christum, Am̄.

## Utleggingeñ.

TVær eru Verallder Br. M. Oñur Sijneleg, J hverre vier lifum, Oñur er þar Uppe, Hvadañ vier væntum Frelsarans JEsu Christi, um̄ hveria St. Petur talar ad i heñe mune Riettlæted byggia, 2. Pet. 3. Hina siꜳum vier med Lijkamlegum Augum, þessa med Trwareñar, Þvi Trweñ er Vera þeirra Hluta sem koma munu, Hebr. 11. Og hun sijner þad sem ecke er Sijnelegt. Hvert sem vier nu helldur reñum Sꜳlareñar edur Lijkamans Augum, og lijtum i krijng oss med Athygle nockurre, og Gaumgiæfne þeirra Hluta er fyrer oss bera, þa gietur Christeñ Madur ecke hiꜳ þvi sneidt, ad elska Gud allra Hluta Skapara fram̄ yfer alla Hlute. Lijt Christeñ Madur, ꜳ hiñ fagra Skapnad Heims þessa, hversu kostulegur hañ er, Hañ hafa Heidner Meñ ꜳ Latinu kallad Mundum, fyrer hañs Fegurdar Saker, Og Grisker i sama Mꜳta Cosmon, Sokum hañs Prijde. Athuga hin fogru Himensins Lioos, hversu þeim er vijslega nidurskipad, Þau hafa siñ afmarkadañ Gꜳng allt frꜳ Veralldareñar Upphafe, allt til þessa Dags, So alldrei hefur eñ nu þroted Noott nie Dag, Vetur nie Sumar, Hita edur Kulida i Hagkvæmañ Tijma, Gen. 8. Vird fyrer þier Nꜳtturu Dijraña, Fuglaña, Fiskaña, Grasaña, Hver so eru prijdeleg, ad Salomon i allre siñe Dijrd var eige so skrijddur sem eitt af þeim, Luc. 12. Eñ segied mier: Fyrer hvern hefur Gud allt þetta skapad? Segier ecke David, Ps. 8. Þu hefur sett hañ (Mañeñ meinar hañ) yfer þijn Handaverk, og lagt alla Hlute under hañs Fætur. Sagde ei DRotteñ Gud i Upphafe Skepunar? Drottned yfer Fuglum Loptsins og Fiskum Siꜳfarens,

 Gen. 1.

Gen. 1. Itrekade hañ ecke hid sama epter Flooded vid Noa og hañs Epterkomend-
ur? Gen. 9. Sagde ei St. Paall, ad hañ hefde af einu Bloode giort allt Mañkyn?
Act. 17. Ad þad bygde alla Jardar-Krijngluna, Og hañ hafe afmarkad Tijmana med
sijnu Bode, og sett Endemork Bygdum Maña? Seig mier, Christeñ Madur: Hvern
skyllder þu helldur elska eñ þañ, Er so vel hefur til þijn giort wt af Einskiærre Giæsku siñe,
Eñ eingre þiñe Forþienan? Þyker þier nu nockud Iñdælt edur Elskuverdt a þessum
Guds Skiepnum sem hañ hefur lagt under þijna Fætur, þier til Nota og Epterlætis,
þa gleym ecke ad elska hañ þo um fram alla Hlute sem þetta hefur þier giefed, Þad heiter
ad fara aptan ad Sidunum, ad þacka Þienaranum, Sem færer þad sem Hwsboondeñ
giefur, Edur ad virda Ambaattena meir eñ Drottninguna. Eñ stærre Oriettur er
Gude gior i þvi, ad elska hañs Skiepnur fyrer þad Gooda sem hañ hefur sæmt þær med,
fram yfer hañ sem er Bruñur og Uppspretta alls hiñs Gooda. Læt þvi sia Christeñ
Madur, ad þu temier þier Lunderne St. Paals, Er hañ sagde, Phil. 3. Ad søñu reikna
eg alla Hlute Skada ad vera fyrer Yferburde Þeckingareñar JEsu Christi mijns
Þdrotteñs, vegna hvers eg hefe alls a Mis fared, og reikna Þreck ad vera, So eg avine
Christum. Þegar þu hefur nu þañeg hiñ meira Heim i giegnum skodad, Og þu sier ecke,
ert i honum þad er ei drage þig jafnvel Naudugañ til ad elska hiñ Gooda Gud fram yfer
alla Hlute. Þa skoda og hiñ Miña, Sem er Madureñ, Þad ert sialfur þu, Hañ er og med
Tveñu Moote Andlegur og Lijkamlegur. Lijt fyrst til þess Lijkamlega; Hver hefur
myndad þig i Moodur Lijfe? Hver hleypte þier þar samañ eins og odrum Oste? Job.
10. Þad giorder ecke sia fur þu. Ecke Forelldrar þijner: Þijnar Hendur hafa giort
mig og tilbwed mig segier David, Ps. 119. Hver hefur leidt þig wt þadañ so dasamlega
i Lioos þessa Heims? Hver hefur giefed þier heilbrygda Saal i heilbrygdum Lijkama?
Alijt hversu þiñ Skapnadur er Vegsamlegre eñ allra añara Dijra a Jordune,
Hver þo ecke hafa Gud a neiñ Veg stygdañ, Eñ þu reiter hañ til Reide Daglega. Þock-
nest þier nu nockud a sialfum þier, og þyke þad vænt og Veglegt sem Gud hefur til þijn
lagt, So sem þad og er i allañ Maata, þa læt hañ þo fyrer gaanga er giorde þig so vegleg-
añ, og sæmde Drottnara allra Hluta under Himnenum, med siñe eigeñ Mynd i Fyrstu
Skopun. Athuga hvad hañ hefur þier meira giort, Hañ hefur ecke slept þier Forstodu-
lausum iñ i Verolldena; J honum lifer þu, ert þu og hrærest þu, Act. 17. Hañ hef-
ur giefed þier alla Hlute anægiañlega til Notkunar, Act. 14. Hañ lætur sijna H.
Eingla, Ps. 91. þa Himnesku Anda þioona þier og vardveita fra ollu Vondu, ollum
Slisum, allre Ogiæfu, Jafnvel midt i Syndeñe, Hveria þu getur ecke vid þig skiled allt
so leinge ad þu ert i Hollldenu: Eru þeir ecke aller Þioonustusamer Andar, segier Post-
uleñ til Hebr. 1. wtsender þeim til Þioonustu er Saaluhialpena erfa skulu? Jaa, Andskoteñ
sialfur sagde epter Davids Muñe vid vorn Frelsara, Matth. 4. Þad sem satt
var, Og þo i illre Meiningu. Skrifad er, sagde hañ, ad hañ mune biooda Einglum sijnum
um þig, ad þeir bere þig a Hondum sier, ad ecke steiter þu Foot þiñ vid Steine.

Seig

Seig mier: Hver þiña Vina edur Vandamaña tekur so Vara a þier, Hverium er so miøg um þig hugad? Skyllder þu ecke hata Fodur og Moodur, Syne og Dætur fyrer hañs Skulld, Luc 14. ad þu mætter verda hañs verdugur. Elska þvi ecke jafnvel þitt Lijf allt i Dandañ hañs vegna, Sem þier hefur Lijf og Lijkama giefed, og vert miñugur þess er Christur segier, Matth. 10. Sa sem fiñur sijna Saalu, Hañ mun tapa heñe, Og sa sem tapar Saalu siñe miña vegna, Hañ mun fiña hana. Eg vil ei margt tala um Saalena, sem er hiñ ædre Partur vors Skapnadar, miñst a Christeñ Madur, hvadañ þu ert, Lijkameñ er ad sonu af Leyr Jardar, eñ Saaleñ af Gude (med hveriu Moote veit hañ best sialfur) og mest fyrer þa Skulld segier Lucas 3. Cap. Ad Adam hafe Guds Sonur vered, Þvi sialfur Gud blies Lifande Anda i Mañsins Naser, Gen. 2. Ef vier erum nu skylluger ad elska Fodur og Moodur, Af þvi þau hafa oss gieted og fædt i Heim þeña; Hvad miklu framar er þad skylldugt, ad vier leggium alla Ast a hañ, af hvers Dijrdar Liooma vier og vor Ande i Fyrstuñe kveiktur er. Vel talar St. Paall hierum, Act. 17. Segiande: Nu, þar vier erum Guds Afspreinge, Þa byriar ad vier ei þeinkium, ad Gud lijkur sie Gulle og Sylfre edur Steinum, nie vel smijdadre Lijkneskiu edur Maña Paunkum. Eñ so sem þad er Ovidurkvæmelegt, Sem Postuleñ hierum talar, So er þad og Afgudadijrkun stoor og merkeleg Gudlostun, ad elska nockud af þessu jafnframt hønum, Og ma þad øllum Heilvita Møñum sialfsagt vera, hvilijkur Glæpur þad sie ad lia so gofugañ Hlut sem Saaleñ er, til Prælkunar Syndeñe, edur Veralldareñar Munum, Hver ed mun fyrerfarast med øllu þvi sem i heñe er, Þar fyrer aminer Johañes nærsta heilnæmlega, Segiande: Elsked ecke Heimeñ, nie þad sem i Heimenum er; Ef nockur Heimeñ elskar, þa er ecke Kiærleike Fodursins i hønum, 1. Joh. 2. Eñ Gud, Af hverium Saala vor iñblaaseñ er, Hañ blijfur, og hañs Ar þrotna ecke, Ebr. 1. Athuga hin skynlausu Dijreñ, þoott þau sieu daasamlega skopud, þa hafa þau ecke Skyn a þeim Hlutum er fyrer þau bera; Ei rañsaka þau sitt Edle, Ecke er Framsijne hia þeim mikel, Eingeñ Hæverska, Sidseme, Adgreining Goods edur Ills, Og allra sijdst Þecking Skaparans. Skyllder þu nu ecke syndugur Madur elska hañ fram yfer allar Skiepnur? Er so miked meira hefur lagt til þijn heidur eñ añara Skiepna, sem ad Sooleñ er Saurnum biartare, Þar Madureñ er eitt Dijr fullt af Raade og Skilninge, Hañ kañ Grein a Illu og Goodu, Hañ getur wtvaled hvert hañ vill, Hañ veit hvad soomer edur ei, Hañ eiñ kañ ad læra ad þeckia Vilia sijns HErra, Hañ hefur uppfunded allañ Hagleik, Allar Kunster og Lister i Heimenum, Hañ hefur wtreiknad Himensins Hlaup, og veit Tijma og Stunder Fyrerfram, Hañ skygnest iñ i LeyndaDooma Naatturuñar, so ad Guds O-wtsegianleg Vitska, sem Naatturuna hefur skapad, wtbrijtur sig i Skynseme Mañsins um allt Naatturuñar Rijke, Epter þeim Maata sem hun fær vidteked i þessum daudlega Lykama; Eñ þo er þad fyrer øllu, ad hun þeckER Gud siñ Skapara; Og a hañ Kost ad trwa a hañ sier til Myskunar og Saaluhialpar, I hveriu ad er iñefaleñ Endurskopun hiñs Iñra edur Andlega Mañsins. Þeink til þess

 Christeñ

Christeñ Madur, ad þu fædest i þeña Heim Reideñar Barn, og daudur i Syndunum,
Eph. 2. Þvi hvad sem af Hollde er fædt þad er Holld, Joh. 3. Eñ Holld og Blood er-
fa ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Eñ Gud hefur af Oumrædelegre Elsku til þijn, End-
urgieted þig til eiñar lifande Vonar, 1. Pet. 1. og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1.
So þu meiger Guds Barn kalladur verda og Samarfe JEsu Christi, Og til þessa hef-
ur hañ ecke vared Gulle nie Silfre, Helldur sijns Eingietens Sonar dijrmætu Bloode,
Þvi so segier Paulus, Act. 20. Ad Gud hafe med sijnu eigeñ Bloode Hiordena End-
urleyst, Og þetta giorde hañ þegar þu eñ varst hañs Ovinur, Rom. 5. Madureñ
maatte segiast aan Guds i Heimenum epter Falled, So sem Paall um̄ Heidingiana tal-
ar, Eph. 2. aadur eñ Gud took Adam i Saatt aptur. Allt hañs Hyske maatte kvijda
vid ad deya, eñ skamast sijn ad lifa, Eñ hañs O-ytsegiañlegu Giædsku og hinum dimpu
Myskunar Ydrum, J hverium hañ vitiade vor uppruneñ af Hædum, Luc. 2. Þeim er
ad þacka ad vier hofum frijañ Tilgaang til Naa-Stools Myskunareñar, Act. 5. Og
Komunst vor ecke, Þvi hañ skamast sijn ecke ad kalla oss sijna Brædur, Ebr. 2. Vier
kvijdum ecke vid Daudanum, þvi hvert sem vier lifum eda deyum, þa erum vier DRott-
eñs, Rom. 14. Og þott vier deyum sem aa hañs Nafn trwum, Þa skulum vier samt
lifa, So vier erum þess fullorugger, ad hverke Daude nie Lijf, hverke Einglar nie Hofd-
ingia Stiett, nie Vellde, hverke Hæd nie Dypt, eda nockur oñur skopud Skiepna, fær
oss skiled vid þañ Kiærleika sem er i Christo JEsu DRottne vorum, Rom. 8. Hvad
sijnest ydur, Br. M. skylldum vier ei biooda honum allar Aster, er vier hofum so Otelianle
Velgiorder þeiged af? Hañ ed fyrergiefur oss Daglega so margar Synder, hañ ed ecke
vill gleyma oss, þott ad Mooodureñ gleyme sijnu einasta Barne, Es. 49. Hvers Hiarta
ad brestur so hañ hlijtur oss Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Þad fyrsta vier snwum oss
til hañs af ollu Hiarta. Þañeg breiter hañ vid vorn iñra Mañ, Og so sem hañ forsor-
gar þañ ytra edur Lijkamañ, so lætur hañ ecke helldur hiñ aan Forsorgunar. Þad kien-
er JEsus oss i Textanum, er hañ segier: Hvor Sem Elskar Mig, Hañ Vardveiter
Mijn Ord. Matur er Mañsins Meigeñ, segier Ordtæke gamallt, Eñ so sem Lijkameñ
ecke þrijfast kañ aan Fædsluñar, So kañ og ecke Saaleñ aan Guds Orda, Þvi þau eru
heñar Foodur; Þar fyrer segier Endurlausnareñ ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Er
saa nockur er elskar einhvern, ad hañ hate hañs Maal? Fiærre er þvi, helldur kieppunst
vier vid ad eiga sem optast Tal vid þa er vier uñum vel, Þar fyrer, Ef vier seginnst Gud
elska, þa afrækium ecke hañs Ord. Meñ hallda ad saa Lijkame sie ecke heilbrygdur sem
velger vid Matnum, og hverium hañ verdur ecke til Notkunar; Dylst og ecke þar vid
Christeñ Madur, ad þijn Saala er ecke heilbrygd, og ecke elskar þu Gud, so sem byriar,
Ef þu hefur Leida aa hañs Orde, og þykia þeir Tijmar leingster er þu aatt ad hlijda þvi.
Eñ hvad segier Paulus hier um̄? 1. Cor. 16. Bolvadur vere sa sem ecke elskar DRott-
eñ vorn JEsum Christum, Þad er, hañ mun eilijflega fyrerfarast, og ecke einasta er þad
Merke þeirra er Gud elska, ad þeir vardveita hañs Ord, helldur er þad Avoxtur hañs
Elsku,

Elsku. Eñ hvad er ad vardveita hañs Ord? Pad er ad giora epter þeim, Ef ecke ad fullu, þvi þad er syndugum Mañe Omøgulegt, Samt eigum vier ad leggia allt Kapp þar a, eñ Elskañ til Guds er ecke Ydiulaus, hun orkar þvi, ad Guds Bodord verda ecke þw ng, so sem Johañes segier, 1 Epist. 5. So ad hver sem Gud elskar, hañ hefur siina Lyst-ing i Logmaale DRottens, og talar um hañs Vegu Daga og Nætur, Ps. 1. Verdur so Ydkaneñ ad Naatturu fyrer þeim sama Mañe, og hañ um siider eiñ Ande med Gude, 1. Cor. 6. Endurnijadur epter Mynd þess er hañ skapad hefur, Col. 3. Eñ þvi velld-ur Elskañ til Guds, ad oss þyker Fæda þesse sætare eñ Hunaang og Hunaangs Seim-ur, Ps. 19. Sem Von er til, Par vier fiñum i þvi Krapt epterkomande Alldar, Hebr. 6. Nær vier tijnum þa Molana er detta af þvi Himneska Borde, med Trwareñar Muñe. Þvi skylldum vier þa ecke um alla Hlute fram stunda Elskuna til Guds er so margt gott med sier færer.

Eg vil ei tala um þad, er hier stendur i Gudspiallenu: Og Fader Miñ Mun Elska Hañ. Eingeñ kañ ad segia þad, Hvad gott þad sie ad vera elskadur af Gude, Nema hañ, sem Gud elskar; Þvi ef nockur elskar Gud, hañ er fæddur af honum seger Paall, 1. Cor. 8. Og þegar Riett-trwud Mañeskia hefur siina Unadsemd i DRottne, og gledur sig i hañs Elsku meir eñ i nockru Giestabode, Pa fiñur hun hversu gott er ad vera af Gude elskadur, Þviad vor Elska a Gude, er Avoxtur hañs Elsku til vor, Pær kuña ecke ad skilia helldur eñ Sooleñ og Byrtañ, þad vottar saa Læresveiñ sem JEsus elskade, 1. Ep. 4. Vier elskum hañ þess vegna, ad hañ elskade oss fyrre. Hver sem þeinker med sier, hversu Vijs, hve Maattugur, hve Giæskufullur, hvad Obrygdull, hversu Trwr ad Gud er, Hañ mun segia ad Abraham hafe goodur Hlutur i Skaut falled, þegar hañ var Guds Vinur kalladur, Jac. 2. Eñ ecke aatte Abraham, ecke Lazarus, Joh. 11. Ecke Postular Christi, Joh. 15. Alleina þetta Nafn, helldur aller Abrahams Syner epter Andanum, Rom. 4. Pad eru aller Riett-trwader sem elska Gud, Peir eru eins vel til þess borner, Peim til heyrer um Alldur og Æfe þad Fyrerheit er Gud gaf Abraham, Gen. 17. Ad hañ villde vera hañs Gud og hañs Sædis epter hañ; Pañ vantar faatt sem Koñungureñ elskar, hañ gietur sæmt hañ med Tign og Heidre, hañ giet-ur veitt honum Fullsælu Fiaar, Hañ gietur laated hañ lifa ad Munudum siinum, epter þvi sem hañ er lyndur til, eñ þo gietur hañ ecke g'ort hañ Fullsælañ, Ei megnar hañ ad faa honum alltijd Heilsuna aptur ef hun missest, Ei gietur hañ giefed honum Samvitskuñar Frid, Og allra siidst maa hañ honum Himnarijked veita. Eñ hvad vill hañ vanta sem Gud hefur til Vinar, hañ rædur eiñ fyrer ollu þessu. Jeg veit Meñ segia, ad Guds Viner sieu optlega Vesæler, Siwker, Saarer, Offsookter, Underþryckter, og a alla Vegu adþreyngder; Eñ þad er eckert Stoormerke fyrer Gud, ad hañ laate Vine siina una vel Hag siinum, nær þeim ad Oskum geingur eins og Abraham, Isaac, Jacob, David, Salomon og adrer fleire, Eñ þegar hañ lætur Postulana, gaanga glada wt fraa Raadenu nær þeir Hwdstrykter voru, Act. 5. Pa Daniel siingur Gude Lof i Leona-

Grofeñe, Dan. 7. Pa Paulus og Sylas eru kaster i Myrkva-Stofuñe, Act. 16. Pa
siaa Meñ hversu goodur hañ er, hversu hañs Elska viñur alla Hlute, hvilijkur saa Fridur-
eñ er sem Verollden̄ maa ei giefa, Og hvad maattugur hañs Kraptur er i Breiskleik-
anum. Gud naade oss auma synduga Meñ; Hvad viñum vær ecke fyrer Hiegooman̄
i Verolldeñe, sem oss lyster til? Hvad sparar hiñ Stoorlaate fyrer Metord? Hiñ A-
giarne fyrer Aud? Hiñ Heiptræke fyrer Topun Ovina siña? Og siñ er vid hveria
Heimskuna bunden̄, og þegar Meñ eru so med miklu Erfide komner til añars meira, þa
gieta þeir þo ecke sagt: Et og Dreck Saala mijn, Luc. 12. Og Dijred aa Merkeñe
sem hefur sitt Foostur, er sællra eñ þeir, þvi þad ber ei Ahyggiu fyrer Morgun-Deigen-
um, Eñ ad naa Guds Vinaattu, hyrda so faaer uñ, Jafnvel þoott þa sie allt feinged, þa
hun er feingeñ, þvi hañ elur Oñ fyrer sijnum og veit hvers ad þeir vid þurfa. Allt þetta
færer Guds Elska med sier; Eñ uppaa þad ad Frelsareñ laate oss vita hversu heitt hañ
elskar þa ed hañ elska og vardveita hañs Ord. Pa segier hañ hier: Og Til Hañs Mun-
um Vid Koma Og Vistarveru Hiaa Honum Giora. Er ei so, Br. M. ad vier heim-
sækium þa giarnañ er vier kiæra hofum? Epter þessum Mañlega Plagsid talar Christ-
ur, Hañ þarf ecke ad ferdast laanga Vegu til ad heimsækia oss, þvi hañ er Gud, Hañ er
allstadar, Hañ er ecke laangt fraa sierhverium einum af oss. Eñ Frelsareñ kallar hier
ad koma til vor, Pegar hañ kiemur med siñe Verkan og Astgiofum i Hiartad; Hañ
hafde skomu aadur sagt i þessum Capitula: Eg mun bidia miñ Fodur ad hañ sende yd-
ur Anda Sañleiksins, Saa ed blijfe hiaa ydur ad eilijfu, Joh 14. Eñ hier segiest hañ aa-
samt Fodurnum vilia sialfur koma, So sem Von er til, Pvi hvar Fader og Sonur er,
af hverium Anden̄ framgeingur, Par er og sialfur Anden̄. Christur segiest vilia sij-
na sig þeim ed sig elska, Eñ hañ sijner sig ecke nema fyrer H. Anda, þvi hañ er þad, er vit-
nar um̄ hañ og leider oss i allañ Sañleika. Pegar þu nu, Christeñ Madur, situr under
Heyrn Guds Orda, og þu fellst aa þad sem þar er af Guds Alfu talad; Pegar þu yd-
rast þiña Synda, sem þier verda þar fyrer Augun leiddar, Pegar þu trwer þo, ad hvar
sem Synden̄ yfergnæfer, þa mune Naaden̄ yfergnæfa miklu framar, Rom. 5. Pegar
þu fær Leida aa Syndeñe og Kappkostar ad lifa nyum Lifnade; Pegar þu i Mañraun-
unum fær Huggun nockra af þeirre Sælu-Von sem þeim er heiteñ, er bera Krossen̄
epter Christo; Pegar þu hræerest til Medaumkunar yfer hinum Volada, og til Vand-
lætingar moote hinum Ogudlega, Nær þitt Hiarta breñur i þier, Luc. 24. Er hañ talar
vid þig i sijnu Orde, og þu vid hañ i þijnum Bænum, Pegar þu wteys þijnu Hiarta fyr-
er honum, og hañ eys þar iñ aptur Hugsvolun sijns Anda; Og i einu Orde ad segia,
Pegar þu fiñur i Hiarta þinu Elskuna til Guds og Naungans, sem alldrei kuña ad skil-
ia, Pegar þu allt þetta fiñur, þa maatt þu fullviss um̄ þad vera, ad oll Hellog Guddooms-
sins Preñing er ad Vistum med þier, og þu kant ecke ad fara aa Mis vid þad, ad þu siert
Guds Barn, Rom. 8. Ecke einasta segiest Endurlausnareñ aasamt sijnum Fodur vil-
ia koma til vor, helldur Vistarveru hiaa oss giora. O! hvilijkt er þetta, Br. M. Hvad añ

kiemur

kiemur mier þad ad Mooder DRottens mijns kiemur til mijn? sagde Elizabeth Fordum vid Mariam, Luc. 1. Eñ meir er þad ad sialfur DRotteñ Drottnaña vill til vor koma; Ecke so sem hañ kom i Hollded med Þræls Mynd, helldur med sijnum Guddoms Krapte i vor Hiortu; Eñ þad er eñ þa mest ad hañ vill Vistarvern hia oss giora. Þegar vorer Viner heimsækia oss, þa tefia þeir sialldañ leinge, og þess kiærare sem þeir eru oss, þess meira Angur laata þeir oss epter ad Skilnade, Eñ Christur hefur lofad, ad hañ vilie ecke laata oss epter eina, helldur vera hia oss allt til Veralldareñar Enda, Matth. 28. Ef vier yfergiefum hañ ecke, þa mun hañ oss alldrei yfergiefa, nema vier slöckvum Andañ, 1. Tess. 5. Þa mun hañs Lioos i oss æfeñlega breña, og vier i vorum Anda glooande verda. Vorer Vinir giora oss Kostnad, þa þeir vitia vor, Jafnvel þott þad telie eingeñ epter þeim sem hañ elskar; Eñ hiñ Almaattuge og alleina rijke Konungur Dijrdareñar er ecke Kostnadarsamur þar sem hañ er ad Heimbode; Hañ færer alls Nægter med sier, Þvi allt Silfur og Gull er hañs, og oll Dijreñ a Morkeñe, Ps. 50. Ecke vill hañ neinum tilsegia ef hañ hwngrar, eñ ef hañ lætur sijna Elskendur vanta þetta, so sem hañ opt giorer, þa giefur hañ þeim i Stadeñ Allsnægta; Þad Siñe er lætur sier sijna Lucku nægia, hvad St. Paall kallar Aviñing Gudhrædsluñar, 1. Tim. 6. Og þau þiggia eins vel af honum eiñ Bita Brauds, so sem full Hws Audæfa. Þegar Christur umgieckst hier a Jorduñe, kom hañ alldrei so i nockurs Riett-trwads Mañs Hws, ad hañ ei kiæme med Blessan. Hañ var eñ ecke i Heimeñ boreñ, þa hañ kom i Hws Zachariæ og Elizabethar, og þau asamt Barnenu i Moodurkvide fylltust af Heilogum Anda, Luc. 1. Hañ kom i Hws Peturs og færde Moodur hañs Heilsu sijna, Matth. 8. Hañ kom i Capernaum og gaf hinum Limafallssiwka sijnar Synder kvittar, so hañ spratt upp og gieck, Matth. 9. Hañ kom i Jairi Hws, Og færde hañs Doottur Lijfed aptur. Hañ kom i Landsaalfur Tyri og Sidonis, og rak Diofuleñ wt af Dottur hiñar Canaanisku, Matth. 15. Hañ kom i Hws Zachæi, og gaf þvi Hwse Velferd a þeim sama Deige, Luc. 19. So þad maa satt um hañ jaata sem Petur sagde, ad hañ hafe geinged um kring, giort Gott, og grædt alla sem Underþryckter voru af Diofleñum, Act. 10. Eñ ef hañ þvilijkt giorde þegar hañ bar vorar Synder og erfidade i þeim, Es. 43. Hvad miklu stærre Hlute mun hañ nu giora, Þar hañ situr til Kraptarens hægre Handar, og er þo ad Vistum med oss asamt Fodur sijnum og H. Anda? Hier um maa eg segia eins og Paall, Rom. 5. Ef vier erum sætter vid Gud þegar vier vorum hañs Oviner, fyrer Dauda hañs Sonar, þa munum vier eñ framar nu i Saatt komner hoolpner verda fyrer hañs Lijf. Gud blessade Obededom medañ Ørk DRottens var i hañs Hwse, 2. Sam. 6. Hier er Ørk Saattmaalans a millum Guds og Maña JEsus Christus, sem er Naadar-Stooll fyrer hañs Blood, Rom. 3. Hvada Blessan mun honum ecke fylgia? Mig skal þad ecke undra þott ad Guds Bornum i hverium hañ bygger, þyke lijted koma til Yferlætis Veralldareñar, þar hañ sem bijr i Himnenum, hverium ad þioona Þusund og Tijusiñum Hundrad Þusund H. Eingla, Hañ hefur hwed sier Vist i þeirra

ra Hiarta hier a Jorduñe, sem hañ elska og hañs Ord vardveita. Þesse er su Dññur Verolld, er eg i Upphafe talade um, Hver ed uppbyriast hier i Nᴂdeñe eñ fullkomnast siidar i Dijrdeñe, Þa Gud verdur allt i ollu, um hveria Esajas Spaamadur Cap. 64. og Paall Postule Samsaga verda, 1. Cor. 2. Ad þad hafe ecke Auga sied og ecke Eyra heyrt, Og ei hafe þad i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hafe þeim fyrerbwed er hañ Elska. Hana ad byggia, Heñar niootande ad verda, og i heñe eilijft Lof ad siijngia vorum Gude, sem oss hefur Sigureñ giefed, Uñe oss sialfur hañ fyrer Son siñ JEsum, Amen.

# Aññan Dag Hvijtasuñu.

Gudspialled, Joh. 3. Cap.

JEsus sagde til Nicodemum. So elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ Eingleteñ Son, Til þess, ad aller þeir sem a hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf. Þvi eige sende Gud Son siñ i Heimeñ, ad hañ fyrerdᴂmde Heimeñ, helldur ad Heimureñ frelsest fyrer hañ. Hvør a hañ trwer, fyrerdᴂmest eige. Eñ hvør hañ trwer eige, Hañ er nu þegar dᴂmdur, Þvi hañ trwer ecke a Nafn Eingletens Guds Sonar. Eñ þesse er Doomureñ, ad Liooseð kom i Heimeñ, Og Meñerner elskudu meir Myrkred eñ Liooseð, Þviad þeirra Verk voru vond. Hvør sem illa giører, Hañ hatar Liooseð, Hañ kiemur og eige til Lioossins, ad eige straffest hañs Verk. Eñ hvør sem Sañleikañ giører, Hañ kiemur til Lioossins, So hañs Giørder verde kuñar, Þvi þær eru i Gude giordar.

Exordium.

Krwudum Er Allt Mogulegt, Segier Ritningeñ, Marc 9. Þad hefur Christeñ doomureñ fram yfer adra Speke, ad hañ verkar alla Hlute med Guds Krapte. Siijnast mᴂtte ad Abraham Fader Trwadra hafe vered nockud Hollþlega Siñadur, Þegar hañ sagde vid Gud, er hañ hiet honum siñe Giᴂsku; Hvad villt þu giefa mier? Eg em Barnlaus, Gen. 15. Þviad i þad Siñ hefur Guds Vinur ecke lited nema epter Tijmañlegre Farsᴂlld, Eñ Gud giorde betur vid hañ, Þvi hañ þeckte hañs Hiarta, og gaf honum ecke einasta eiñ Son vid eiñe Alldradre Kviñu, Gen. 21. Helldur og þar ad auke eiñ Son af hañs Lendum, J hverium ad Blessadar eru allar Piooder, Gen. 22. Þad er JEsus Christus, Matth. 1. Gud Blessadur um Allder, Eñ þo fᴂddur af Fedrunum epter Holldenu, Rom. 9. Sa sem hañ a, hañ er alldrei Barnlaus, alldrei Arflaus, alldrei Hialparlaus, Þvi hañ a þañ, hver ad er DRotteñ sem er Mᴂttugur til ad hialpa, hverium Gud hefur giefed Endemork Verallldareñar til Arfleifdar, Ps. 2. Þad Barn sem oss er fᴂdt og þañ Son sem oss er giefeñ,

giefeñ, aa hvers Herdum ad er Hofdingia-Doomureñ, hvers Nafn hañ kallar Undar-
legur, Raad, Hetia, Sterkur, Fader Eilijfdareñar, Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Þeña
siñ Eingieteñ Son segier sialfur Sonureñ ad Fadereñ hafe wtgiefed fyrer Heimeñ i
þessa Dags Evangelio, Til þess ad aller þeir sem aa hañ trwa, skule ei fyrerfarast, helld-
ur hafa eilijft Lijf; Af hverium Dyrmætu Ordum eg vil Tveñt Hugleida. 1.
Hversu Vegleg ad sie þesse Gaafa. 2. Hvar til hun gagne oss.

Þu goode Gud, sem oss hefur hañ sialfur Overdugum giefed, Styrk oss med Naad-
þijns Anda, ad vier mættum þetta Dijrmæta Eyrende so frañkvæma ad þier lijke,
Fyrer JEsu Christi Forþienustu, A M E N.

## Utleggingeñ.

MEñ plaga ecke alleina ad virda eina Gaafu af þvi, hversu dijrmæt hun er i sialfre
sier, Helldur og hinu, af hverium hun er giefeñ, Og med hveriu Giede ad hun er
wtelaateñ: Eg virde meir þañ Skeink sem giefeñ er af Konungenum, helldur
eñ af mijnum Lijka/ Og sa er mier hvad kiærastur, er eg þigg af Fodur mijnum edur Vin
þeim sem er eins og sialfur eg. Nu heyrum vier i Textanum, ad þesse Astgiof sie fraa
Gude komeñ, Eckert kañ þvllijkt ad segiast edur nefnast, So miklu ædre sem Gud er ollum
sijnum Skiepnum, So miklu er þesse Skeinkur Dijrdlegre ollu þvi er adrer giefa, Eige
sijdst fyrer hañs Skulld sem giefed hefur. Land-Stioornareñ i Epheso, Er hañ villde
stilla til Frids Borgar-Mwgeñ, Sem Demetrius hafde uppæst a moote þeim St. Paa-
le, Act. 19. Hañ fañ eckert gylldara til ad sefa þaa med eñ þad, ad hañ sagde, ad Bijlæte
hiñar miklu Dianæ i Epheso være af Himnum ofañfalled. So var nu Andskoteñ kropt-
ugur i Bornum Vantrwareñar, Ad Heidingiar skipudust alleina vid þad, Sem aadur
voru so Olmer ad Ærslum giegnde, Af þvi þeim þootte þad Soome so mikell, ad þeirra
Fulltrwe skyllde fraa Himnum komeñ vera. Ættum vier þa ecke, Christner Meñ, ad
leggia hina mestu Vyrdingu, Ast og Elsku aa þad sem vier vitum komed vera fraa hinum
Saña Gude, Hver ed ollu stioornar bæde aa Himne og Jordu, Og jafnvel þad sem vier
kollum hañs miñstu Gaafur, Sem þo eingar litlar eru, Aukhelldur þad, ad hañ hefur gie-
fed oss siñ Son. Jacob segier, ad oll good Giof og oll fullkomeñ Giof kome ad Ofañ
fraa Fodur Lioosaña, Jac. 1. Eñ af hveriu Giede ad Fader Lioosaña hafe oss gief-
ed þessa Giof sem er ollum meire, Þad segier hañ oss sialfur i Gudspiallenu med þessum
Ordum: Svo Elskade GUd HEimeñ. Laangt vorum vier fraa þvi synduger Orm-
ar, Utlæger fraa Gude og hañs Helgedoome, ad þad være nockurt hiaa oss nema Eymdeñ
ein er mætte hræra Gud til Medaumkunar, auk helldur hañ kyñe ad elska oss fyrer nockra
vora Verdskulldan edur Agiæte. Mañeskiañ var so aa sig komeñ epter Synda-Falled,
Ad Ritningeñ talar þar so uñ epter Mañlegum Plagsid, Gen. 6. Gud ydrade þess ad
hañ hafde Mañeñ skapad, Og samt elskade hañ oss þo so, ad hañ gaf oss ecke nockra All-
meñelega Gaafu, So sem þegar hañ lætur rigna yfer Vonda og Gooda, og Sooliena upp-
reña yfer Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Helldur siñ Eingieteñ Son, Og þad ad

fyrra Bragde, aadur eñ vier hofdum Vit aa, Edur nockra Atburde til ad elska hañ. J
þvi er Kiærleikureñ, segier Johañes, 1. Pist. 4. Cap. Ecke ad vier elskudum Gud, helld-
ur ad hañ elskade oss og wtsende siñ Son til Forlijkunar fyrer Synder vorar. Eg æt-
la ad vorum Fyrstu Forelldrum yrde nærsta Raadfaatt i Paradys, þegar þau hofdu
Gud stygdañ, Mundu þau hafa nockra Vidleitne ad blijdka hañ? Mundu þau gieta
hitt uppaa þetta Guddoomlega Vijsdooms Raad? Ad Gud skyllde Madur verda til
þess ad forlijka Heimeñ vid sialfañ sig, Faavijs voru þau til þess, Atburderner voru þeir
einer ad fela sig, Þvi þau voru nakeñ, Gen. 3. Og ad bera Skulldena af sier hvert um
sig, Þesse voru Urrædeñ einasta. O! hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Speke, Rom.
11. Sneña braust wt hin Guddoomliga Elska af hañs Hiarta, strax er hañ hafde
lagt hiñ Riettvijsa Doom aa Mañeñ ad hañ skyllde deya, Lagde hañ þa Lyknarfullu
Boot med, Ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3.
Þetta sitt Myskunar-rijka Fyrerheit hefur hañ efnt i Sendingu sijns Eingietens Son-
ar hijngad i vort auma Holld fæddañ af Kviñuñe, eñ þa þegar vier vorum hañs Ovin-
er, Rom. 5. Þegar vier eñ þa vorum dauder i vorum Syndum, Þesse er hin Guddoom-
liga Elska er DRotteñ prijsar hier i Gudspiallenu, Og þad ecke um Skor fram, Þvi
Paulus talar hier um, Rom. 8. Ad Gud hafe ecke þyrmt sijnum Eingietnum Syne,
Helldur giefed hañ wt fyrer oss alla, Hañ sparade hañ ecke til ad fædast i Armood, Ecke
til ad verda Land-Flootta, Ecke til ad þola Skañer og Haardungar af þeim sem hañ took
undañ eylijfre Skom og Haardwng. Ecke til ad lijda Krossens Dauda fyrer þaa er hañ
deyddu, Og ecke til ad þola Helvijtis Pijsler fyrer þaa sem hofdu giort Samband vid
Daudañ og Saattmaala vid Helvijte, Esa. 28. Hañ sparade hañ ecke fyrer Synd-
ena sem Gude alleina illa lijkar, Ps. 5. Helldur giorde hañ, J hverium honum alleina
vel þocknast, ad Synd; Jafnvel þoott ecke visse hañ af Synd, 2. Cor. 5. Eingeñ elskar
nockurn meir eñ þad, ad hañ giefur sitt Lijf wt fyrer hañ, segier Lausnareñ: Eñ Gud elsk-
ar siñ Son eins og sitt eiged Lijf, Þviad hañ er Lioome hañs Dijrdar, Hebr. 1. Hañ er
sa sem er i hañs Skaute; Eñ fyrer þvi, ad Gud kuñe ecke eiñsamañ ad deya, Liet hañ siñ
Son deya i Mañligu Hollde, J Mañligre Naatturu er hañ af Fedrunum hafde, Hver
fyrer þvi ad i honum bijr oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. Þa heiter hañ
sa Madur sem honum er nærstur, Zach. 13. Jaa, Hañs Sonur, Jafnvel epter Mañ-
doomenum, Ecke eiñ Sonur, er sie Ættleidingur, So sem vier erum fyrer hañs Skulld,
helldur Guds Himneska Fodur Naatturlegur Sonur fyrer Jbwd Guddoomsens, Þvi
Texteñ segier, Ad hañ hafe wtgiefed siñ Eingieteñ Son. Hvad ecke aa ad skiliast epter
Guddoomenum alleina, Helldur og epter Mañdoomenum eingu sijdur, Þviad i honum
hefur hañ Kvol og Dauda lided, Og allt þad er hañ vañ til Arnadar og Myskunar synd-
ugu Mañkyne. Eingeñ vill missa siñ Son, Jacob villde ei voga sijnum yngsta Sy-
ne i þa Hættu, ad laata hañ fara med sijnum Brædrum ofañ til Ægyptalands, Þoott
þeir neyddu hañ þar um, Gen. 42. Og þeim læge Lijfed aa. Eñ Gud gaf oss siñ Son

O. hedeñ,

O-beden̄, og ofurselde han̄ i Daudans Kvol fyrer oss, Sem ecke vorum Syner, helldur
Reideñar Born og af Nattuuruñe til Satans Prælar, Eph. 2. Kviñañ sw sem um-
giettur, 1. Reg. 3. Hun villde helldur ad sw sem ecke var Mooder skyllde eignast siñ Son,
helldur eñ Lijfed være af honum teked, So miog elskade hun sitt Lijfs Afkvæme, Hun vill-
de viña þad til, ad Ovina sijn mætte hafa Glede af Barnenu, so þad mætte þo Lijfe hall-
da, Þvi heñar Ydur tendrwdust upp sijns Sonar vegna, segier Ritningen̄. Eñ hiñ eilijf-
se Bruñur Giædskuñar vitiade vor fyrer sijn Myskunar Ydur, Og elskade so Heimeñ ad
hañ wtgaf siñ Eingieteñ Son i Daudañ, uppa þad, ad aller þeir sem a hañ trwa hefs-
du eylijft Lijf. Þegar DRotteñ spaaer um Giædsku sijna, Er hañ vilie audsijna sijnu
Foolke fyrer Christum og i Christo, Þa tekur hañ so til Orda, Malach. 3. Eg skal tiaa þe-
im Myskunseme, so sem eiñ tiaaer Myskun sijnum Syne þeim er stundar hañ. Miñ
HErra og miñ Gud, Vier meigum þad med Kiñ-Roda medkieña, ad þu hefur sijnt oss
meire Myskun eñ þijnum Eingietna Syne a hañs Dauda-Deige; Hañ vard ecke Bæn-
heyrdur er hañ beidde, Ad Reideñar Kaleikur mætte fraa sier takast, Matth. 26. Jaa,
Ecke þoott hañ beidde i heilar Þriaar Reisur: Eñ hvers vier bidium þig i hañs Nafne,
Þad villt þu veita oss, Joh. 16. Þad skal skie, (þad eru þijn eigeñ Ord) ad aadur eñ vier
bidium þa villt þu Bænheyra, Esa. 65. Þiñ Eingieteñ Sonur fieck einga Vægd, Jafn-
vel þott eingeñ kyñe ad straffa hañ um nockra Synd, Joh. 8. Eñ vier hofum Myskun od-
last sem til alls Ills hofdum uñed. Þiñ Sonur fieck eckert ad svala sier med i hiñe bitru
Þijnu nema Gall og Edik, Matth. 27. Laater þu oss nockud til Handa bera til þess ad
lijkiast honum; Laater þu oss drecka hañs Kaleik, Ps. 116. hier i Naadeñe, Þa kriddar þu
hañ med Svolun þijns H. Anda. Þu dreiper aa oss med Sætleik Epterkomande Alld-
ar, Og leider oss fram ad ferskum Votnum: So miklu betre Koste hofum vier nu Præl-
arner ad bwa vid, eñ þiñ Eingieteñ Sonur. Hver er sa af oss ad hañ ecke hafe þar hañ
meige Hofde sijnu ad halla? Matth. 8. Hver er so ossooktur, Þijndur og kvaleñ sem
hañ var? A hverium hefur þvilijk Hegning leiged? Satt er þad ad hañ er iñgeingeñ i
sijna Dijrd, Luc. 24. ad ollu þessu afloknu: Eñ vier sem ad varla drepum hinu miñsta
vors Fijngurs i þiñar Reide-Flood, Luc. 16. Sem gieck yfer Hofud honum; Vier skul-
um og iñgaanga i hañs Dijrd ef vier trwum aa hañ, Og er þad Maala sañast ad vier
viñum so lijted sem eckert til þeirrar Dijrdar sem hañ hefur oss med siñe Kvol afrekad;
Þoott vier bærum Jobs Kaun, Job. 2. Og Gihesi Lijkþraa allt fraa Vogguñe til Graf-
areñar, hiaa þvi sem hañ þolad hefur fyrer vorar Synder, Honum sie Lof, Dijrd og
Heidur um Allder, Amen. So hefe eg nu allt hijngad til nockud talad um Agiæte þess-
arar Himnesku Gaafu; Epterfylger ad tala um heñar Gagnseme.

Nytseme eins Hlutar metum vier af Tveñu, Añadhvert ad hañ gagnar oss til ad uñt-
flija hid Vonda, Edur til ad odlast hid Gooda. Hverttveggia fiñum vier i Utsendingu
Guds Eingietens Sonar: Þad Fyrra kieñer hañ oss i Gudspiallenu med þessum
Ordum: Ad Aller Þeir Sem A Hañ Trwa Fyrerfarest Ecke. Tvent hefur og Drott-

eñ til þess giort, ad þeir skule ecke fyrerfarast sem a hañ trwa. Fyrst þad, Ad hañ hef-
ur lided þeim til Epterdæmis, Pad Añad, Ad hañ hefur lided þeim til Forlijkunar. Um
þid Fyrra talar St. Petur, 1. Pist. 2. Segiande: Christur er daeñ fyrer oss, Og hef-
ur oss epterlaated þad Dæme ad þier gaanged i hañs Footspor. Þegar hiñ Gamle A-
dam sem bijr i oss, a ad leggia wt þau dijrmætu Ord sem Paulus skrifar, Rom. 8.
Ad sa sem ecke þyrmde sijnum eigeñ Syne, helldur gaf hañ wt fyrer oss alla, Hvar fyrer
skyllde hañ ecke giefens veita oss alla Hlute med honum? Pa skilur hañ þau um þad sem
honum lijkar; Honum þyker ecke miked koma til þess Lijfsins Brauds sem af Himn-
um er ofañ komed, Joh. 6. Hañ vill Kiot hafa, Num. 11. Og er ecke til Frids ella,
Pad er Sælgæte Holldsins og þess Munadur, Hañ etur sig fullañ þar af, þar til þad
geingur wt um hañs Naser og sailgar þeim er ala hañ so Kappsamlega, so þeir drepast
Pusandum samañ, og verda Helvijtis Ellds-Matur ad sijdurstuñe: Eñ þegar Paul-
us ñefner hier alla Hlute, Pa meinar hañ þa ed Saaluñe gagna, Pad er audsært af øll-
um þessum sama Capitula, hvadañ Ordeñ tekeñ eru; Hvar af vier siaum, Br. M.
ad ecke er Guds Sonur oss til þess sendur, ad vier skulum laata epter Holldenu þess
Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Ef vier vilium a Guds Son trwa, So vier fyrerforunst
ecke, Helldur so sem hañ er Einusiñe daeñ Syndeñe, segier Paulus, Rom. 6. Pad er fyr-
er Syndena, og deyr ecke framar, So eigum vier heñe Daglega ad deya, og med hon-
um Daglega ad upprijsa, ad vier ei framar lifum i heñe, so sem hañ hefur sigrad Heim-
eñ, so eigum vier ad forsmaa Heimeñ, og so sem hañ hefur wt snarad Dioflenum og trod-
ed hañ under siña Barna Fætur, Rom. 16. So eigum vier ad reka hañ wt wr Hiar-
ta voru, med øllu hañs Hyske. Vier eigum ecke ad hafa eina Klauf epter a Ægypta-
lande, Exod. 10. Helldur breña upp þañ Amalechita med øllu hañs Gotze Kviku og
Daudu, 1. Sam. 15. Med sañre Ydran og Aflaate Syndaña, so ei verde Israels Rij-
ke fraa oss teked. Pad kieñer oss Paulus, 1 Cor. 11. Ef vier dæmdum sialfa oss, þa
yrdum vier ecke dæmder, Eñ þegar vier dæmunst af DRottne, þa verdum vier Leidriett-
er, So ad vier ecke Fordæmunst med Heimenum. Pañeg er oss nu Christur sendur til
Epterdæmis, bæde i Lifnadenum og so i Krossburdenum; Hverutveggia er Omissan-
de til þess ad umflya Topunena; Eñ forgiefens hefde hañ lided oss til Epterdæmis, ne-
ma hañ og hefde lided oss til Forlijkunar, Hvar fyrer til Forlijkunar? Pvi vier vorum
missaatter vid Gud, Hvers vegna? Fyrer Syndena; Hvad hafde Synden forþien-
ad? Eilijfañ Elld med Dioflenum og øllum hañs Arum. Hver hefur Syndena burt-
teked? Pad hefur Guds Sonur giort, er hañ bar hana uppa Tried, segier Petur, 1. Pet.
2. Pvi sagde Johañes Skijrare, er hañ leit Christum koma til sijn; Siaaed þad Gu-
ds Lamb sem i burtu ber Heimsins Synder, Joh. 1. Til þessa þyker Heimenum lijted
koma; Eg trwe hañ dyliest vid ad þar inne so heitt i Satans Badstofu, sem Prest-
arner segia, Añars mundu Meñ ecke bidia sier og ødrum so optlega Helvijtis, sem Meñ
giora; Eñ vilied þier ecke trwa þeim, Pa trwed Guds Orde, trwed Ritninguñe. Eg
veit

heit ad ydur þyker þad lijted Heimsins Bornum, ad þier skulud alldrei um̄ Æfe Gud siꜳ i Dijrdeñe, þvi þier hafed alldrei sied hñ nie hyrdt um̄ ad siꜳ i Nꜳdeñe, eñ so þyker Pꜳle þad miked ad hañ segier: Ogudleger munu straffast med eilijfre Gletun, Fiarlæger Auglite Guds og Mætte hañs Dijrdar, 2. Thess. 1. Eñ hlusted til hiñs ad þar mun verda Op og Tañа-Gnijstran, Luc. 13. Peir munu eta sijnar Tungur wt af Pijnu, Apoc. 16. Pessar Pijsler eru Vægdarlausar, Jac. 2. Og ecke so sem þessa Heims Mootlæte, hvar Meñ fꜳ nockra Linun ꜳ Stundum; Peirra Ormur mun ecke deya, og þeirra Elldur ecke wtslockna, Es. 66. Pad er eilijf Smꜳn, Dan. 12. Eilijf Hegning, Matth 25. Og Poka Myrkrañа, Jud. v. 13. Sem um̄ Eilijfd er tilbweñ hinum Ogudlegu, 2. Pet. 2. Ef þier nu hafed nockra Lijkamlega Tilfiñing, ef þier varla lijfad gieted þa ydur vantar Sælgiæte ydar og veniulegañ Adbwnad, ef þier gieted ecke af ydur bored nær þier fꜳed Hofudverk edur Sijdu-Stijng, hvad mun þa verda i Ellds-Dijkenu sem vellur af Ellde og Breñesteine, Apoc. 21. Ef ein lijtil Vanvirda er þier so kalled i þessu Lijfe, kvelur so ydar Hiarta, ad þier svijfest einkis til ad hefna ydar, Hvad mun þa verda hin eilijfa Skom̄? Pier munud þeinkia ad eingeñ hafe yfer odrum ad stæra sig ꜳ þessu Forsmꜳnareñar Lande, eñ giæted þess ad þier munud kveliast i Augsijn H. Eingla, Apoc. 14. Hverra Lagsmeñ ad eru Guds Utvallder, er þier Foot-troded hafed i ydar Velmagt. Pier munud siꜳ alla Heilaga i Guds Rijke, Luc. 13. Eñ ydur wtkastad, Ja, margañ þañ sem þier Oriett giort og uppsvelgt hafed, og ecke reiknad verduguñ ad þurka ydar Skoo, Pa munud þier siꜳ til Bords sitia med Abraham, Isaac, og Jacob i Rijke Himnañа: Pegar hiner Fordæmdu Glotunareñar Syner siꜳ þetta fyrst, þa mun Ondar-Ormureñ taka til ad bijta af Alvoru, þa mun ecke duga ad sefa hañ med Lijfllꜳte Abels, Gen. 4. Nie Mansale Josephs, Gen. 37. Edur Drꜳpe Naboths, 1. Reg. 21. Pvi hañ mun alldrei deya, Es. 66. Og vilied þier ecke odrum Guds Moñum trwa hier til, Og segied: Ad hverke Esajas, Jacob, Petur nie Judas hafe vered i Helvijte, ad þeir kuñe þar frꜳ ad segia, So sem margur Gloopur lætur sier um̄ Muñ fara, Pa trwed þo Guds Syne. O! þier hin Vantrwada Kynslood, Hañ var i Helvijte þegar hañ kvaldest fyrer ydar Synder, So þier skylldud ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf. Eingeñ kañ betur ad segia oss hverneg þar er hattad, helldur eñ hañ sem þad hefur tilbwed handa Dioflenum, Hañ ed siꜳlfur hefur þolad Helvijtes Pijsler, Hañ ed siꜳlfur er þangad ofañfareñ til ad predika Ondunum i Fangelsenu, 1. Pet. 3. Pad er til ad straffa þa. Hañ er Guds Sonur, hañ ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Allt Valld er honum giefed bæde ꜳ Himne og Jordu, Matth. 28. Og vard Helvijte honum þo so heitt, ad hañ sveittest Bloodenu, Luc. 22. Og hroopade ꜳ Krossenum: Gud Miñ, Gud Miñ, Pvi Hefur Pu Yfergiefed Mig? Matth. 27.

O! Vatns-Boola, O! Hey-Strꜳ, munt þu þa gieta bwed vid þeñañ fortærande Elld? Og þu skallt þar þo eilijflega bwa, Nema þu ydrest og trwer ꜳ Soneñ, Joh. 3.

Vilied þier nu ecke Guds Syne trwa, Þvi þad er so gamallt, ad honum er lijtt-trwad af Heimenum, Þa trwed þo Dioflunum, Þier erud vaner þeim ad trwa þoott þeir liwge, Giored þeim ecke þañ Oriett ad trwa þeim ecke, nær þeir satt segia. Þegar DRotteñ rak hina mørgu Diøfla wt af hinum Ooda Gadareno, Marc. 5. Þa bædu þeir hañ ad skipa sier ecke i Underdiwpeñ, Luc. 8. Þad er i Helvijte, Þvi so kallast þad, Apoc. 9. Og vijdar, So kvidu þeir vid þeim Loga, sem alvaner voru Kvølunum. Seig mier, Mun þier ecke bregda vid, Ef þier yrde ad Skyndingu burt kypt wr øllu þijnu Sælgiæte og steypt i Helvijte og Kvalernar eins og hinum Rijka? Luc. 16. J þetta Siñ toludu Dioflarner Alvøru, Þvi þeir ræku sitt eiged Eyrende, Eñ ad þier liwga þeir, Syndugur Madur, og mæla upp fyrer þier Helvijte eins og adra Konungs-Høll, trw þeim ecke, þvi Fader þeirra er Lygare i fræ Upphafe, Hañ stood ecke i Sañleikanum, Ei helldur þeir, Þar fyrer eru þeir i Helvijte ofañ steipter, og bundner Myrkraña-Hleckium, 2. Pet. 2. Til ad frelsa oss fræ þessum Oskøpum er nu Guds Sonur wtgiefeñ, Til þess er hañ Fæddur, Hwdstryktur og æ Krosseñ negldur; Eñ Gudspialled segier oss eñ nu meira, Helldur Ad Hañ Hefde Eilijft Lijf, stendur hier. Þad er vitanlegt af St. Pauls Ordum, Eph. 2. Ad vier fædunst dauder i Syndeñe, Þad Nætturlega Lijf færer med sier Andlegañ Dauda. Nær tøkum vier til ad deya; Þegar vier lifnum i Skijrneñe, fiñur Mooder vor Christeleg Kyrkia med oss fyrst eitt Andlegt Lijfs-Mark, Fyrer hvern? Fyrer hañ sem af Gude er wtgiefeñ til þess ad Heimureñ skyllde hafa eilijft Lijf, So segier Pæll, Tit. 3. Ad Gud hafe rijkuglega wthellt yfer oss Heilogum Anda fyrer JEsum Christum vorn Heilsugiafara, So ad vier Riettlæter fyrer hañs Nææd yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs; Eñ sa sem skal eilijfs Lijfs nioota, hañ verdur hier i Lijfe fyrst ad lifa Andlegu Lijfe, þad hliootum vier i Skijrneñe, sem sagt er. Þess gietur St. Petur, er hañ segier, ad Gud hafe Endurgieted oss til lifande Vonar, 1. Pet. 1. Eñ þad kañ audvelldlega aptur ad missast, so vel sem þad Lijkamlega, nema hiñ iñre Madureñ, sm̃ i Fyrstuñe er eins og Briooståmylkingur æ sig komeñ, nema hañ sie Daglega nærdur og Endurnijadur, Þvi lætur Paulus þetta fylgia hvert ødru segiande, Tit 3. Ad Gud hafe oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena og Endurnijungar Heilags Anda. Þeñañ Andlega Vøxt og Proska ødlunst vier eins vel fyrer Christum so vel sem hid Andlega Lijf i Fyrstuñe; Þad kieñer oss Paulus, Eph. 2. Segiande: Vier erum Guds Verk skapader i JEsu Christo til goodra Verka, hvor Gud hefur tilbwed ad vier gaungum i þeim. Sæleñ velldur þvi ad Lijkameñ vex, Ecke giorer þad Fædslañ alleina, helldur er hun so sem nockurskonar Medal, J hveriu ad verkar Mañsins Ande honum til Proska, þar til hañ fullvaxeñ er. Christur er vort Andlegt Lijf, Hañ er Lijf hiñs iñra Mañsins. Fædañ er Guds Ord, J þvi verkar hañ med sijnum Anda, Þar til vier næum ad vaxa epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 4. Og þetta Andlega Lijf, er mest foolged i Deydingu Holldsins, Þau Tvø eru hvort æ moote ødru; Eins Lijf er añars Dauđe, hiñ Gamle Madureñ og hiñ Nije, sem epter Gude er

skap:

Kapadur, þeir berast Bana-Spioot epter, eñ sæ er Munureñ, ad hiñ gamla sær sælgad hinum nya i einu, so hañ æ Stundum alldrei vidraknar aptur, eñ hiñ nye fær alldrei so dreped hiñ gamla, ad hañ ecke aptur gange. Til Fanga verdur hañ tekeñ fyrer Guds Krapt, eñ alldrei verdur honum so fyrerkomed, ad ei brleoteſt hañ um so leinge vier erum i Holldenu. Vel sie þeim er gieta lagt hin sterkustu Fiotur æ hañ, Og þvi kallast hañ daudur, þegar hañ naær ecke ad framkvæma sijnar Gyrnder, þegar Meñ heypta Reidena og Gyrndena, og adrar Tilhneigingar sem af þeim vaxa med Christi Anda, þa heiter hiñ gamle Adam daudur, Þvi lijser Paulus er hañ segier, Col. 3. Þier erud dauder og ydar Lijf er foolged med Christo i Gude. Hver hefur nu afrekad oss þetta Lijf? Þad hefur Christur sem ad er vort Lijf, eñ var wtgiefeñ i Daudañ fyrer oss, so vier hefdum eilijft Lijf. Þad vottar Paall eñ aptur, Gal. 2. Segiande: Eg em Krossfestur med Christo eñ life þo samt, Ecke eg nu, helldur lifer Christur i mier, Eñ þad eg life i Holldenu, Þad life eg fyrer Trw Guds Sonar er mig elskad hefur og wtgiefed sialfañ sig fyrer mig. Af þessu Lijfe framkiemur hid eilijfa Lijf sem ædur er sagt. Meñ bioodа ecke daudum Moñum til Bords, helldur lifande, So mun og eingeñ Bordsettur verda med Abraham Isaac og Jacob, nema Daudeñ hver ad er Sendebode, hitte hañ lifande i Christo. Hier seg'er i Gudspiallenu, Ad Gud hafe so elskad Heimeñ: Þad er alla Meñ, Þvi aller vill hañ ad hoolpner verde, og komest til Sañleikſens Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Eñ þvi velldur Fiandmadureñ, sem er Mordinge Sæalnaña, ad hañs Guddoomlege Kiærleike fær þvi el til Vegar komed, ad aller hoolpner verde. Þvi stendur hier, ad þetta eilijfa Lijf hlotneſt þeim alleina sem æ Guds Son trwa, Eñ hvilijk Gaafa er þetta Lijf Born mijn? Vier kuñum ecke ad leida oss i Hug nie Hiarta hvilijkt þad sie nema hvad vier af Guds Orde heyrum, nema hvad Guds Ande sijner oss so sem fyrer Speigel og i Rædgaatu, 1. Cor. 13. Þegar hañ lætur oss þad smacka, og vekur i oss Sætleik epterkomande Alldar, Þad er Gnogt Fagnadarens og gledelegt Lijferne til Fodursins hægre Handar, Ps. 16. Vorer Lijkamer verda Einglunum jafner, Luc. 20. Jaa, samlijker Christi Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Þeir munu einkis vidþurfa, Ei Fædslu nie Fatnadar, Þvi Guds Rijke er ecke Matur nie Dryckur, Helldur Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Þeir munu Dijrdeñe Jklædder verda, og skijna eins og Sool i Rijke sijns Fodur, Matth. 13. Vorar Sæaler munu i Oumrædelegum Fognude kfa, 1. Pet. 1. Dijrdleger Hluter verda i þier talader þu Borg Drottens, segier David, Ps. 87. Er hañ spaær vm Christnena, Eñ Paulus segiest hafa heyrt i hinum Þridia Himne Oumrædeleg Ord sem eingeñ fær wt-talad, 2. Cor. 12. Veralldareñar Sælgiæte er alldrei so miked, alldrei so margvijslegt, ad ei fære Meñ Leida æ þvi, þeir sem hafa sijna Unadsemd þar i, verda þo ad kridda þad med Aflæte nockru. Eiñ skal hwngra ædur eñ Matureñ smackar vel, Hañ skal þyrsta ædur eñ Dryckureñ þyker honum goodur, Eñ i Sælu Himnaña er ekkert Aflæt, eingeñ Bid epter nockru, þvi so sem Einglarner siæ jafnañ Guds Fodur Andlit, Matth. 18. So mun-

um vier og gi[illegible] þar vier erum Einglunum jafner, J hveriu øll Sæla er foolgeñ. Jøb
i øllum sijnum Mañ-Raunum huggar sig þar vid einasta, ad hañ mune siñ Endurlausn-
ara siaa med þessum Augum (segier hañ) Job. 19. Pad er med sijnum Lijkamlegum Aug-
um. Þeggar Paulus hafde eitt Siñ vered i Himnenum og sied Guds Dijrd, Pad var
honum so Miñesstædt, ad hañ vr þvi villde alla Hlute lijda fyrer Christi Saker, og þañ-
eg eru þeir Lynder sem Gud Opeñberar sijna Dijrd i Hiartanu med Von epterkoman-
de Dijrdar. Eñ ef þañeg er vort Faangelse, B. M. hvilijkt mun þa Kongs Rijked ver-
da? Pad er ecke ad undra, Þott hin saña Guds Kyrkia stynie og Andvarpe i Himen-
eñ epter Guds Barna Sælu, Rom. 8. Par Guds Andlit lijser yfer heñe, þoott ei siaaum
vier hañ hier Auglite til Auglitis, Helldur so sem i Speigle og i Raad-Gaatu, 1. Cor.
13. Aristoteles var eitt Siñ spurdur ad, hvad Frijdleikeñ være, Eñ hañ svarade, ad
þad være fyrer blindañ Mañ ad spyria ad. O! oss auma, Þoott oss af øllu Hiarta
laange epter ad siaa hiñ Lifanda Gud, þa faa Meñ þad ecke fyrer Blindu Holldsins, og
er þo Epterlaungun þesse, miklu iñdælle eñ allur Føgnudur Veralldareñar. Gud
hafde lagt miked til Moysen, og prijdt hañ med kostulegum Gaafum fram yfer adra
Meñ, Og þo var hañ ecke aanægdur, nema hañ mætte siaa Gud, Pad var honum ecke
noog ad tala vid hañ, Eins og Madur vid Mañ, Exod. 33. Helldur villde hañ og siaa
hañs Dijrdar-Liooma, hefde hañ þad maatt, og lifa. Þvilijk er nu Guds Barna
Sæla i eilijfu Lijfe, og miklu meire ædre og Dijrdlegre, eñ ad nockur syndug Tunga fææ
vt-talad. Hugleided nu Christner Meñ, hvilijka Astgiøf Meñ þeiged hafa i Utsendin-
gu Guds Eingietens Sonar, Hañ er vtgiefeñ til þess ad ei skylldud þier fyrerfarast, ecke
breña i hinum glooande Helvijtis Ofne, Ecke verda Lagsmeñ Diøflaña i Myrkraña
Faangelse, Ecke bera eilijfa Skom og Forsmaan, sem þier med ydar Syndum hafed for-
þienad; Hañ er vtgiefeñ til þess ad þier hafed eilijft Lijf; Eilijfa Sælu, Eilijfañ Føg-
nud og Unadsemd um Allder Allda, Hvar þier siaa munud so sem þier erud siener, og
þeckia so sem þier frædder verded, 1. Cor. 13. Þier munud siaa Guds Haatign er yd-
ur hefur skapad, Gledia ydur i hañs Elsku er knwde hañ til ad giefa ydur þeña siñ Son.
Þier munud siaa ydar Frelsara, er ydur hefur leyst med sijnum Dauda vr eilijfu Bañe,
þier munud siaa ydar Holld og Blood upphafed aa Guds Tignar-Stool honum til hæg-
re Handar; Þier munud siaa H. Anda framgaangande af Fødur og Syne, þañ goo-
da Anda Guds sem ydur hefur Endurgieted, Endurnijad, leidt i allañ Sañleika, straff-
ad i ydur Syndena, Huggad ydur aptur, styrkt ydur i Mootgaangenum, og þa munud
þier fyrst siaa, ad Harmkvæle þessara Tijma voru ecke verd þeirrar Dijrdar sem ydur er
þa auglijst, Rom. 8. Børn mijn, Hveriu vilied þier nu gialld a fyrer þessa stooru El-
sku? Hvers krefur hañ af ydur? Einkis nema ad þier elsked hañ aptur i moot, hvar med
verdur þad giort? Ecke med Orde og Tungu helldur eñ Naaungañ, helldur med Verke
og Sañleika, 1. Joh. 3. Gude var Alvara ad giefa oss siñ Son. Laatum oss vera
þad Alvøru ad elska hañ aptur. Ef þier elsked mig, Þa vardveited mijn Bodord, segier
Christ-

Christur, Joh. 14. Giorum so, Pa lætum vier hañ siaa, ad vier elskum hañ, edur ef riett skal segia, Vier siaaum þad siaalfer og fiñum þad, Þvi ecke þarf hañ ad leitast epter hvert vier elskum hañ, sem rañsakar Hiortun og Nijrun, Eñ ef vier vilium vita siaalfer hvert vier elskum Gud edur ei, þa sporum eckert fyrer hañs Skulld, eins og hañ þyrmde ecke sijnum Eingietnum Syne fyrer vora Skulld, Þviad i þvi auglijste hañ sijna Elsku. Breñum upp allar vorar Tilhneigingar med Elskuñe til hañs, hun er eiñ Elldur, Ef vier erum Abraams Syner, Joh. 8. Ef vier hofum Trw Abrahams, þa giorum Abrahams Verk, Jac. 2. Hañ villde Foornfæra sijnum eigeñ Syne og trwde Gude ad hañ munde kuña ad giora hañ lifande af Daudum, Rom. 4. Giorum eins, Offrum Gude þvi sem oss kiærast er, Pad er Vilieñ vor; Lætum ecke epter honum eins og David Syne sijnum Adoniæ, þegar hañ saa ad hañ villde rijkia; Hañ var so Barn-saar, ad hañ neñte ecke ad aangra hañ; Breytum i odru epter David, eñ ecke i þessu, helldur drepum vorn Vilia þegar hañ vill giora Uppreist aa moote Guds Vilia, Og segium: Verde þiñ Vilie, Pa mun Gud hañ aptur lifande giora med sijnum Vilia, So ad vier vilium þad sem hañ vill, Og ad hañs Vilie framkvæmest aa oss, Sem er sa ad vier eignunst eilijft Lijf; Pad veite oss Gud Fader af Naad siñe og Myskun, J JESU Nafne, AMEN.

# Þridia Dag Hvijtasuñu.

Gudspialled, Joh. 10. Cap.

JEsus sagde til Phariseaña: Sañlega, Sañlega segie eg ydur: Hver hañ geingur ei iñ um Dyrnar i Sauda-Hwsed, Helldur stijgur hañ iñ med odrum Hætte, Sa er Þioofur og Spillvyrke. Eñ sa sem geingur iñ um Dyrnar, Hañ er Hyrder Saudaña, fyrer honum ljkur Dyra-Vordureñ upp, og Sauderner heyra hañs Rodd. Og hañ kallar sijna Saude med Nafne, og leider þaa wt, Og þa hañ hefur sijna Saude wtlæted, geingur hañ framme fyrer þeim, og Sauderner fylgia honum epter, Þviad þeir heyra hañs Rodd. Eñ odrum Añarlegum fylgia þeir ecke epter, helldur flya þeir fraa honum, Þviad þeir kieña ei Añarlega Rodd. Þessa Maals Grein talade JEsus til þeirra, Eñ þeir vissu eige hvad hañ sagde þeim. Pa sagde JEsus eñ aptur til þeirra: Sañlega, Sañlega, segie eg ydur, Ad eg em Dyr Saudaña. Og aller hverier hellst sem fyrer mier komu, þeir voru Þioofar og Spillvyrkiar, og Sauderner hlijddu þeim eige. Eg em Dyrnar, Ef nockur geingur iñ um mig, Sa mun frelsast, Hañ mun og gaanga wt og iñ, Hañ skal og fiña sitt

Foodur. Eñ Ploofureñ kiemur ei til añars eñ hañ stele, drepe og for-
diarfe. Eñ eg er komeñ til þess, ad þeir hafe Lijf og fulla Nægd.

## Exordium.

ERt þu sa sem koma mun, Edur eigum vier ad vænta eins Añars? Søgdu
Johañis Læresveinar vid Christum, Matth. 11. Er þeir voru sender fraa sijn-
um Meistara til ad spyria ad, hver hañ være. J hverium Ordum þad er ad
athuga, ad Messias hefur nefndur vered aa þeim Døgum SA SEM KOMA
MUN, Añars hefde þesse Spurning vered nockud myrk og O-skilianleg. Þu ert
Christur Sonur Guds, Hañ sem koma skal i Heimeñ, Sagde Martha Fordum vid
Lausnarañ, Joh. 11. Og munde hun ecke hafa aavarpad hañ þañig, Hvern hun þeck-
te komeñ ad vera, Nema Messias hefde so Almeñelega kalladur vered. Þetta maa
vijdar siaa i Nija Testamentesins Bookum, og hafa vijser Meñ Gydinga i þessu lited til
Spaadoomaña i Gamla Testamentenu, Hvar ed svo adkvedur um Messiam, ad hañ
mune koma, Svo segier Esajas: Siaa ad Gud ydar Hefnd kiemur, ydar Endurgi-
alld, Hañ kiemur til ad frelsa ydur, Þa munu og Augu hiña Blindu upplwkast, Og
Eyru hiña Dausu opnast, Þa mun hiñ Hallte dansa so sem Hiortur, Og Twnga hiñs
Maallausa syngia, Esa. 35. Til hvers Spaadooms medal añara Frelsareñ bender
Johañis Læresveinum, Er þeir friettu hañ ad, hvert hañ være sa sem koma munde.
Þetta upplijser þau Ord er vor Endurlausnare talar i Þessa Dags Evangelio, Er hañ
segier: Ad aller þeir sem fyrer hañ komu hafe vered Þioofar og Spillvyrkiar, Hvar
hañ meinar epter mijnum Faafroodum Skilninge þaa sem fyrer hañ komu og eignudu
sier Nafn hiñs mikla Hyrders og villdu frelsa Gydinga af Vallde Romveria, Eñ boñ-
udu ad giefa Keysaranum Skatt, Þvilijker voru Tevdas og Judas Galilæus, Um
hveria Gamaliel talar i Postulaña Giorninga Book 5. Cap. Eñ hvernig sem þvi er
vared, þa talar DRotteñ hier ecke um Spaameñena er voru Riettlætesins Predikar-
ar og spaadu um hañs Tilkomu, og toludu af hañs Anda, Helldur añadhvert um þessa
sem nu hefe eg nefnt, edur Einhveria þeirra Lijka, Þoott Søgurnar greine ecke um
þaa: Eñ fyrer þvi ad DRotteñ visse fyrer, ad epter sijna Hiervist aa Jorduñe mundu
upprijsa Fals Christar og Fals Spaameñ, ecke sijdur eñ fyrer sijna Tilkomu i Heimeñ,
Þeir ed koma mundu til Guds Barna i Sauda-Klædum, Eñ Iñra voru þeir gleps-
ande Vargar, Matth. 7. Þa segier hañ hier i Gudspiallenu, Hvert ad sie Merke hiñs
Saña og mikla Hyrders Saudaña, Epter hverium adrer Hyrdarar eiga ad breita,
Er hañ sett hefur yfer Hiardernar, Act. 20. So og aa sijna Saude, Er hañs Raust
alleina epterfylgia. Vier viliumm af Gudspiallenu þetta Tveñt Hugleida. 1. Hver-
neg Kieñendunum eige haattad ad vera. 2. Hverneg Tilheyrendurner eige ad skicka
sier. O! Þu sem ert Hiñ Mikle Hyrder Saudaña, Fyrer Blood þess Eilijfa Te-
stamentis, HErra JESU Christe, Styrk oss hier til med Fulltijnge þijns gooda An-
da, Bænheyr oss fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

Utlegg-

## Utleggingeñ.

HAr Vor Endurlausnare nefner HYRDER i Gudspiallenu, Pa meinar hañ i Fyrstu sialfañ sig. Pvi hañ er Hofdinge Hyrdaraña, sem Petur vottar, 1. Pet. 2. Aller adrer Hyrdarar hafa sitt Embætte af honum, Peir sem ad hañs Vilia eru setter yfer Hiordena, Pvi byriar øllum þeim hañs Blessudu Dæme ad fylgia, Og er þad sierdeilis Prent sem þetta Heilaga Gudspiall vijsar oss til, Sem er. 1. Ad þeir sieu iñ um̃ Dyrnar geingner, Pad er riettelega kallader. 2. Ad þeir lære Saudena, heyra sijna Raust. 3. Ad þeir gange undañ þeim. Hvad hinn Fyrsta vidvijkur, Pa segier Paulus ad soñu, Hebr. 5. Eingeñ take sier þeñañ Heidur til, helldur sa sem kallad-ur verdur af Gude so sem Aaron. Pvilijk Kallan brwkast ad soñu ecke nu, Og jafnvel ecke i Gamla Testamentenu epter þad Gud skipade Konungana yfer sitt Foolk. Spaa-meñena kallade hañ ad soñu, Eñ Kieñemeñerner voru af Konungunum setter. So skickade Salomon Kongur Zadoch Kieñemañ i Stad Abiathars, 1. Reg. 2. Og Josa-phat tilsette Prestana i Hwse DRottens, 2. Chron. 17. Olle þad þvi, ad æ medañ Gud hafde sialfur Stioornena i Jsrael, þa skipade hañ øllum Hlutum fyrer Medalgaungu Moysis og añara siña Pienara, Sijdañ hefur hañ feinged Konungunum þvilijkt i Hendur, og ødrum Valldstiettum, Epter þvi sem hverin Lande hagar. So var og Aaron bæde kalladur og vijgdur fyrer Medalgaungu Moysis, Exod. 28. DRotteñ JEsus kallade ad soñu sijna Postula sialfur, Matth. 10. Eñ epter hañs Dijrdarfullu Himnafør voru hañs Kyrkiu Pienarar af Meñum kallader, Pvi Matthiam og Bar-nabam wtvøldu Postularner, Jafnvel þoott Hlutureñ ad Guds Vilia fielle yfer Matt-hiam, Act. 1. Biskuparner i Epheso voru af Moñum kallader, ecke sijdur eñ þeir sem Titus Crijtar Biskup nidurskipade um̃ Borgernar, Tit. 1. Og kallar St. Paall ad þeir sieu af H. Anda setter yfer Hiardernar, Act. 20. So skickudu þeir Paulus og Bar-nabas Olldungana i Lystris og Jconio, Act. 14. Og þesse Skickan hiellst allt þaangad til Gud gaf sijnum Sofnudum Christeñ Yfervølld. Petta segie eg til þess, ad eingeñ Guds Pienare efest um̃ sijna Kallañ, þegar hañ er af Christelegu Yfervallde kalladur, Sem Gud hefur þetta um̃boded, Nema hañ hafe med Svikum og Prettum, Gaafum og Mwtum stolest iñ i Sauda-Hwsed, Pa er hañ eingu betre eñ Pioofur og Spillvyrke, og hefur sier einrar Guds Adstodar ad vænta i sijnu Kalle og Embætte, hversu vel sem hañ þykest ad sier vera. So eru þeir nu af Gude kallader, sem eru af Konungenum kallader, Edur þeim sem hañ hefur þad Valld i Hendur feinged, Pvi hañ er Guds Um̃-bods-Madur a Jordune, Eñ þeir hañs, sem af honum setter eru, Po med þvi Moote, ad þeir ecke brwke nein Oleifeleg Medøl hier til, Og er þad ecke lijtil Huggun fyrer þañ sem a Dagslega Mootstødu ad veita Satan og vondum Moñum hañs Pienurum, ad hañ er af Gude kalladur i þa H. Stiett, Pvi mattugur er Gud ad vardveita sijna Pienara er honum treysta, Og i brestur hañ Viliañ til þess, Peir eru skrifader i hañs Høndum, Esa. 49. Hver vill þeim granda fram yfer þad hañ leifer. Eg vil um̃ þaa segia eins og

Bileam sagde um̃ Jsrael Fordum: Pvi skyllde eg bølva honum? Hiñ sterke Gud bøl-
var honum ecke, Pvi skyllda eg stugga vid honum? Jehova stuggar ecke vid honum,
Num. 23. Eñ hañ leifer eckert nema þad sem er til hañs mikla Nafns Dijrdar, Og
þeim fyrer bestu, er honum af Trw og Dygd þioona, Og er Sæmd ad taka þvi af hañs
Hende, hverium sem honum lijkar þvi ad skipa, Peir meiga ad vijsu tilreikna sier þad sem
Paulus um̃ sig skrifar, Er hañ segier: Eg veit hverium eg hefe trwad, og eg em full-
trwa, ad hañ er mæittugur ad vardveita þad sem eg hefe honum til-trwad, 2. Tim. 1.
Nu er þad ecke noog, Br. M. ad Meñ sieu kallader, nema Meñ giore og Guds Verk med
allre Athyzle. Judas var kalladur, Matth. 10. Og gieck i Fyrstu iñ um̃ Dyrnar, þvi
hañ hafde medteked þetta Embætte med þeim, sagde Petur, Act. 1. Eñ hañs Setur
vard i Eyde, og hañs Biskups Doom medtook eirn añar. Og þvi vil eg tala um̃ i od-
ru Lage, hverneg oss byrie ad foostra Guds Saude. SAUDerner Heyra Hañs
RODD, segier i Textanum. DRotteñ talar hier epter Sidveniu Gydinga Lands og
añara Landa, Par ed Hyrdararner brwkudu og eñ nu brwka i Dag eina Hliood-Pijpu
til ad kalla samañ Saudena, So ad þoott margar Hiarder sieu a Beit i einu Haglende,
Samt þecker hver ein Hiord sijns Hyrders Must, og skilur sig wr ödrum Sauda-Flock
nær hun lætur. Ef Roddeñ skal heyrast, þa skulu Meñ hroopa. Petta Ord, RODD,
þijder optlega Kieñingu i Ritninguñe. Par er Rødd eins Hroopanda i Eydemorku,
segier Esajas 40. Hvad Johañes Baptista þijder uppa sig og sijna Kieñingu, Joh. 1.
Pvi skipar og Gud Kieñemoñuuum ad upphefia sijnar Radder so sem adrar Basun-
ur, Esa. 58. Pad er hin Andliga Hyrders Pijpa, Hveria ad hañ, Sem er hiñ Mikle
Hyrder Saudaña, Hebr. 13. hefur oss sijnum Smala-Moñum i Hendur feinged,
Hvers Eign ad Sauderner eru, Eñ til þessa heyrer mikel Kostgiæfne og Astundan, Br.
M. Ætled ecke ad þad mune einu gyllda hvad þier hrooped, noog Hareyste meiga Meñ
heyra a Stundum, þad þijtur um̃ Eyrun eins og añad Stoorvidre, Eñ þvi er ecke so hattad
ad sem Pytnum er kom yfer Postulana, Act. 2. J hverium ad bioo H. Ande, Pvi þad
er ecke Guds Ord sem sumer Meñ tala i helgum Stad, Eñ hañ bygger allrijd i sijnu Or-
de er hañ i Fyrstu iñblies i Hiortu Postulaña og añara Guds Maña: Pad er eins og
Sterkvidred sem Elias sañ i Hellrenum a Guds Fialle Horeb, 1. Reg. 19. Pad klauf
i sundur Fiolleñ og braut Klettana, Eñ Gud var þo ecke i Vedrenu, So eru Kieñingar
sumra Maña, Pær skafa iñañ Eyrun a Foolkenu, eñ eckert kienist i Hiartad, Pvi þar
er eckert af Skynseme, Eckert af Raade, og eckert af Guds Orde, Pad er Skij fyrer utañ
Regn, So sem Judas Postule talar um̃ Guds Dijrdkun sumra Maña. Hvad mun
vallda þessu Br. M? Pvi Meñ hyrda so lijted um̃ ad safna þvi i Korn-Hlodu Hiarta
sijns, Er Guds Hiwum byriar ad giefa. DRotteñ kallar þañ Pioon sælañ, Luc. 12.
Er giefur þeim siñ Verd i riettañ Tijma. Hier af-ma sia hvad stoor Framsijne og
Arvekne ad heimtest af einum Guds Ords Pienara, Sa sem a ad giefa hverium einum i
riettañ Tijma þad honum ber, Hañ ma Adgiæteñ og ecke toomlatur vera; Sie nock-
ur

ur Sturladur, Sie hañ Ofroodur, Sie hañ Hyrdulaus, Sie hañ Pverbroteñ, Sie hañ Efasamur; Ad ollu þessu a eiñ Guds Pioon ad giæta, og laata ecfert Verk, Einga Sysl, an edur Umsvif Tijmañligra Hluta sig hindra fra, ad giefa sierhverium af þessum i riett, añ Tijma þad sem þeim ber, Ef hañ vill giora Verk DRotteñs Guds sijns trwlega. Og nema vier so giorum, Pa er ecke ad dyliast þar vid, ad vier munum ecke einasta Launeñ missa, helldur og þar a ofañ straffader verda, so sem hiñ vonde Pioon er groof sitt Pund i Jordu, Matth. 25. Vered þvi Kostgiæfner, og ætled ecke ad þad sie noog ad vier hofum Hroos af Moñum, Þvi ef vier leitum epter þvi, þa erum vier ecke Christi Pienarar, Gal. 1. Og uñ allt fram þa lærum siaalfer Guds Vilia ad þeckia, af hañs Orde, þar i a eins Guds Pienara Kieñing foolgeñ ad vera, ad kieña Moñunum ad þeckia Syndena, ad fa hana kvitta og ad fordast hana. Holldum vier ecke so i Bwskap vorum, ad þoott Foodred sie gott, þa varde miked um hverneg þvi sie hagtært, Ætlum ecke ad þad mune vera odruvijs i Andlegum Hlutum. Meñ segia ad Foolked skule ecke Syndga, eñ þo giora Meñ a Stundum ecke so skilmerkelega Grein a millum Goods og Ills, so hiñ Faafroode lære ad þeckia Syndena, og þad velldur þvi, ad margt þad sem lioott er verdur Dygd hallded, Edur ad miñsta Koste eingeñ Okostur. Meñ segia þeir skule ecke syndga, Eñ ei segia Meñ so gloqt hverneg þeir skule varast Syndena, edur leggia þeim Raad af Guds Orde, hverneg þeir skule sia sig vid þeirre edur þeirre Synd, er einhver kañ ad vera hneigdur til. Meñ segia ad þeir skule ecke syndga, eñ tala nærsta dauflega þar uñ, hvad hver Synd epter sig leider. Guds Reide nefna Meñ ad soñu, Eñ ræda ecke so skilmerkelega uñ þad, fyrer hver Verk hun opeñberast af Himnum ofañ yfer Mañaña Born, Jafnvel þoott Meñ siae þau Daglega fyrer Augum sier, og nær Meñ þaneg breyta, ætla sumer ad vel sie predikad Guds Ord, og ad þeir sieu gooder Verka-Meñ i Christi Akre, Eins og hañ hafe ecke siaalfur Merke sett uppa sijn Ord, Par ed hañ segier, ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Eñ sumra Maña Kieñingar eru daudt Hiegooma-Rugl, Og aflar meir Bana eñ Lijfs. Pegar St. Paall er ad tala Maale voru, 1. Cor. 9. Ad Meñ skule hafa Upphellde af Pioonustuñe, þa fører hañ til sijns Maals þa Logmaals-Grein er stendur, Devt. 25. Pu skallt ecke Mwlbinda þad Naut sem þresker, Eñ eg ætla ad ei þurfe ad Mwlbinda oss suma, þegar Guds Eyrende a ad tala, vær giorum þad siaalfer a Stundum, edur og Otteñ edur Fie-Gyrndeñ, eñ þegar eta skal rijfum vier Mwleñ af, og uppfyllum so þad sem DRotteñ segier fyrer Muñ Ezechielis uñ Voku-Meñena i Juda: Aller eru þeir Maallauser Hundar og kuña ecke ad giellta, Ezech. 56. Eñ þesser graadugu Hundar verda þo alldrei sadder. Petta vil eg hafa sagt þeim ed brwka Nafn Evangelij til Abata alleina, Og þad er þo allt añad eñ Evangelium er þeir tala. Ecke þaneg Brædur mijner, helldur filged Bode Peturs er hañ segier, 1. Pet. 5. Foostred Guds Hiord sem ydur er a Hendur faleñ, og giefed Giætur ad heñe, Ecke af Naudung helldur fwslega, verande ecke skiemelegs Abiñings gijruger, helldur med fwsum Huga, Og ecke so sem drottnande yfer Sofnudunum,

 um,

um, helldur so sem þeir ed sieu Fyrermyndan Hiardareñar. Gud hefur sett oss yfer Hiord sijna, Þvi eigum vier Hyrdarar ad vera og ecke Drottnar, þvi eiñ er vor DRottẽ eñ JEsus Christus hiñ mikle Hyrder Saudaña, þad maa og eingeñ Affsokun vera þoott sumer hafe lijtel Laun; Hvad hafde Paulus og Barnabas, og hiner Postularner? Saa sem þioonar Christo fyrer lijted, Hañ hefur stærra Lien af Gude þeiged eñ hiñ sem hefur yferfliootanlegt, So eg þore ad segia, ad hañ mun fegur skijna i Dijrd sijns HErra eñ hiñ, þott baader giore þeir eins vel Skylldu sijna. Giætum og i Þridia Maata þess sem Petur miñer oss aa, ad vier sieum Fyrermyndan Hiardaña. Þad er Almeñelega hallded, ad af Oheilum Forelldrum kuñe ecke heilbrygdt Afkvæme gieted ad verda; Nu eru Kieñemeñerner Andleger Fedur allra þeirra sem þeim til-trwad er, Eñ ef þeir eru lijtt vander ad Hlut sijnum, og hyrda ecke um̃ hverneg þeir lifa, og eru i þañ Maata Andlega vanheiler, Hvernig meiga þeir Gude Andleg Born fæda. Sonakorn mijn segier Paulus vid þa i Galatia, med hveria eg aptur ad nyu þwngbweñ er, Þar til Christur myndast i ydur, Gal. 4. Eñ hverneg gietur Christur vorded i þeim myndadur, hverra Mooder, Þad er Kieñemañsins Saal, afneitar ollu Christelegu Athæfe, eñ hlijder Dioflenum i Ogudlegu Fram̃ferde, Og þoott ad Gud kuñe ad fram̃kvæma sitt Verk i sumra Tilheyrenda Hiortum fyrer Naad sijns Anda sem ad verkar i Ordenu, Þa er þad ecke hinum Raangsnwna Kieñe-Fodur ad þacka; Ad soñu hefur hañ med siñe Þioonustu vered Medal til, ad hun er i Skijrneñe Endurfædd; Verda maa og ad hañ tale þad eitthvad af Predikunar-Stoolnum, er heyrer til Saaluhiaalpar og Lifnadarens Betrunar, Eñ hvad gagnar þad? Þegar hañ hvad mest aamiñer og eggiar aa hinar Andlegu Dygder, Kiærleikañ, Myskunsemena, Hoogværdena. Og i einu Orde ad segia aa Deydingu sijns Hollds og Bloods, Þa sijner hañ þo i Verkunum, ad þeim Hlutum sie Omogulegt af Stad ad koma er hañ bijdur af Predikunarstoolnum, leggiande so þad Ok aa Herdar Læresveinaña, er hañ ecke snerter med hinum miñsta Fijngre, Matth. 23.

O! vei, O! vei, Hvilijk Gudlostun er þad, Nær Embætte Forlijkunareñar er þañeg brwkad Andskotanum til Þioonustu? Þetta er hin mesta Landraada-Sok i giegn Gude, Þvi þad er ecke einasta hañs Þegna undañ honum ad raada, helldur brwka þa aa moote honum, Eñ glefa sig i Lid med Satan, Hver ad er svareñ Ovinur hins Alvallda Konungs. O! hversu skielfeleg mun þeirra Þijna verda um̃ alla Eilijfd er þañeg vanbrwkad hafa Myndugleika sijns Embættis, So eg er viss um̃, ad hver sem kyñe ad leggia Eyrad vid Helvijtis Muña, og mætte heyra Oop og Taña-Gnijstran þeirra Fordæmdu, Þa mundu þo Kieñemañaña Hliood yfertaka, Eg meina þeirra sem hafa leidt hañs Hiord, sem med Guds eigeñ Bloode er Endurkeypt, Act. 20. aa Veg Glotunareñar, bañande so Moñum iñ i Himnarijke, og siaalfer koma þeir þar ecke iñ, Matth. 23. Fyrer þvi DRotteñs Kieñemeñ, Verum ecke eins og Vordur þær ed standa aa Heidum uppe, Og vijsa ad soñu Veigeñ, Eñ ecke fara þær wr Stad so þær leide hiñ Vegfarande til Hybijla, ecke eins og Klucka, sw er haanger fyrer Kyrkiu-Dyrum, hun kallar Fooleð,

ed til ſamans til Guds Orda Heyrnar, eñ ſiaalf heyrer hun eckert. Treyſte og eingeñ þar uppaa, ad hañs Embætte ſie Heidarlegt, edur ad hañ hafe Guds Umbod aa Hende, Nema hañ gaange verduglega þeirre Kallan hvar iñe hañ er kalladur, Eph. 4. Maalmureñ i eiñe broſteñe Klucku kañ goodur ad vera, eñ ſamt er hun ecke miog hæf til Þioonuſtugiordareñar, So er og Embætted jafnañ Heidarlegt, Eñ þad lijdur Vanvirdu aa Stundum fyrer Oſkyckun og illa Breitne þeſs ſem þad Starf er aa Hendur faled. Edur ſegied mier; Hvad kuña Tilheyrendurner ad þeinkia añad um̃ hañ, ſem ei giorer nema bender med Fijngrenum til Guds Vegar, Eñ ſiaalfur geingur hañ ecke, helldur eñ þad, ad añadhvert meine þeſſe Madur eckert af þvi hañ talar, edur og ad ſaa Gud, er hañ kieñer, mune ei vera ſo miog vandur ad Lijfernis Haattum ſyndugra Maña ſem hañ ſeger? Laate Meñ ſier þvi ecke nægia þar med, ad þeirra Kieñingu er hroofad, Jaa, ecke þoott hun ſie mikillrar Hrooſunar verd i ſiaalfre ſier, Nema Meñ framkvæme þad i Verkunum er Meñ tala med Muñenum. Eg vil hier um̃ vidlijkt ſegia, og Endurlauſnareñ Fordum vid Læreſveinana, Luc. 10. Fagned ecke af þvi ad Andarner eru ydur undergiefner, helldur af þvi ad ydar Nofn eru ſkrifud aa Himnum. So vil eg ſegia: Glediest ecke ſo þar af, ad þier hafed af Gude þeiged goodar Gaafur til ad kieña, helldur meir af þvi, ef ydar Soſnudur Leidrietteſt, geingur aa Guds Veige, elſkar Gud og hañs Ord, Ef hañs Rijke uppbyggeſt aa medal ydar, eñ Andſkotans verdur niðurdreped. Gledieſt af þeſſu Br. M. og legged allt Kapp þar aa, hvad ydur audvelldlega takaſt mun, ef þier fylged Bode St. Paals, er hañ ſkrifar til Timotheum: Vert Fyrermyndan hiña Trwudu i Ordenu, i Um̃geingneñe, i Kiærleikanum, i Andanum, i Hreinlijfenu, 1. Tim. 4. Og hefe eg nu nockud talad um̃ Skylldu Kieñemañaña. Eptirfylger med faam Ordum̃ ad ſegia um̃ Tilheyrendaña Skylldu, Hun er Tvofolld, Ein vid Gud, og Oñur vid hañs Þienara, Hiñ Sijdare haanger af hiñe Fyrre; Og þvi vil eg fyrſt þar um̃ tala.

Hier ſtendur i Gudſpiallenu: Sauderner Fylgia Honum epter, Þvi þeir Þeckia hañs Rauſt. Eg hefe nockrum Siñum þar um̃ talad i Book þeſſare mijner Elſkañleger, hvad oſs eige ad knya til þeſs ad heyra Rauſt DRotteñs ſem er hañs Ord, þvi vil eg þeſs færra þar um̃ tala i þeſſum Stad, jafnvel þott alldrei ſie good Vijſa of opt kvedeñ. Hier ſtendur, Ad Sauderner Fylge Hyrdernum Epter, Af Þvi Ad Þeir Heyra Hañs Rauſt: Hvad er þad, Honum epter ad fylgia? Hyrdereñ er Chriſtur, Þad er ad fylgia honum epter, ad lifa Chriſtelega. Hvad er ad lifa Chriſtelega? Þad er ad hallda Guds Bodord, Ef ecke fullkomlega ſem Omogulegt er, Þa þo ad þvi Leite ſem oſs er mogulegt. Hañs Matur og Dryckur var ad giora hañs Vilia ſem hañ ſende; So aa oſs eckert ſo kiært ad vera ſem ad giora hañs Vilia, Joh. 4. Elſka ſkallt þu DRótteñ Gud þiñ, þad er hid Ædſta og Meſta Bodord, Matth. 22. Eñ hvad ſegier Chriſtur? Joh. 14. Ef þier elſked mig þa vardveited mijn Bodord. Hañ vegſamade Guds H. Nafn fyrer Moñunum: Ef vier vilium honum epter fylgia, þa laatum oſs þad fiar-

lægt

lægt vera ad misbrwka hañs Nafn til ad leggia þad vid Hlegooma, Eñ þo miklu sijdur ad liwga vid þad, Sveria edur Fiolkynge fremia. J einu Orde ad segia, Christur sem ecke var Logmaalenu undergiefeñ, Hañ uppfyllte allt Logmaaled; So eigum vier af fremsta Megne ad æfa oss i Hlijdne allra Guds Bodorda, og ecke skamta oss sialfer hvad miked edur lijted vier vilium hallda þar af. Ecke ad elska alleinasta Fodur og Moodur, eñ hata alla adra, Ecke ad vera einasta Meinlaus i Um̃geingne, og Goodvikeñ vid Naungañ, eñ kreinkia hañs Hwsfrw edur Frænd-Konur, Ecke alleina ad vakta sijn Augu fyrer Lauslæte, eñ stela þo Naungans Gotze og svijkia hañ i Kaupum og Solum. Ecke er þad noog ad laata hañs Fiemune kyrra, eñ Baktala hañ þo og Ofrægia, Jaa, Liwga uppaa hañ Lijtum og Skom̃um; Bera Fals-Vitne aa moote honum, edur neita honum Sañleikans Vitnes, Sem er allt hid sama. Ecke duger þetta, Br. M. Ecke er þad Christo epter ad fylgia, Þvi saa sem er sekur i einu af Bodordunum, Hañ er brotlegur i ollum, Jac. 2. Þar fyrer, er ad þvi vijsu ad gaanga, ad saa sem lætur epter sier nockud af þessu, og dryger þad vijsvitande aa moote Samvitskuñe, Hañ er ecke af Christi Sauda-Hwse. Hvad er hañ þa? Hañ er Braad Ulssins, sem er Andskoteñ, og mun honum ad eilijfu Herfaange verda, Nema hañ snwe aptur, Eñ hvernig vill hañ saa þad giort, Nema hañ heyre Raust hiñs gooda Hyrders, Nær hañ kallar. Þvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar Jllsku-Breitne fraa mijnu Auglite, Laated af Jllu og læred Gott ad giora, Es. 1. Þesse er hañs Raust, Og ef þier af Hiarta ydrest ydar vondra Verka, og laated ydur aangra ad þier hafed Gud stygdañ, þa lætur hun eñ þa hærra, Er hañ segier: Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiaader, Eg vil Endurnæra ydur; Taked aa ydur mitt Ok og læred af mier, Þviad eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, og munud þier fiña Hvijld Saalum ydrum, Matth. 11. Þesse er Raust hiñs gooda Hyrders i allre Ritninguñe, J ollu Guds Orde, Og þañeg aa eins Hroopanda, eins Predikara Raust ad vera i Eydemorku Veralldar þessarar. Þier vited B. M. ad vier Daglega syndgunst; Lastaña Greiner spretta yduglega wt wr þeirre Molld sem vier erum giorder af, sijdañ Fiandmadureñ saade þar Jllskuñar Sæde, Þær verdur af ad hoggva, so odt sem þær vaxa. Med hveriu þa? Med Guds Orde sem er eitt Tvijeggiad Sverd og fram̃giekk af hañs Muñe, Er Johañes saa gaanga aa mille Lioosastiakaña, Apoc. 1. Guds Ord er eiñ Elldur, saa ed breñer upp oll Saurende Gyrnda og Lasta sem oss eru medfædd, Þad er eiñ Hamar, er sundurmer Hiortu vor, So þau verde Bwstadur Guds, og sundurknosar vorn Anda, so hañ verde þad Offred sem DRottne lijkar, Ps. 51. Hier um̃ talar hañ so hiaa Jeremiam, 23. Er ecke mitt Ord so sem Elldur, segier DRotteñ, og so sem eiñ Hamar saa ed Kletteñ i sundur molar? Guds Ord er eiñ Elldur sem sagt er. Aaron sagde Fordum sier til Afbotunar; Miñ Herra, Eg kastade Gullenu i Elldeñ, Og þar vard af þesse Kaalfur, Exod. 32. Riett-trwads Mañs Hiarta er hveriu Gulle dyrmætara, kostum þvi i þeñañ Elld, þar af mun sialfkrafa vaxa eirn Kaalfur, Ecke Svijvirding Ægyptalands so sem

Aaron

Aarons Kalfur, helldur ein lifande Foorn og Gude þacknæmeleg, sem eru Kalfar Vara vorra, Os. 14. Þesse er sw Skylldañ er vier eigum Gude ad giallda, og giolldum vier, ef satt skal segia, Br. M. ecke i hañs, helldur i vorar Parser. Jardnesker Hyrdarar fæda Saudena fyrer Ullena og Mioolkena, eñ DRotteñ fæder sijna Saude fyrer allseckert; Einkis krefur hañ af þeim, Nema ad þeir skule Ottast sig og Elska, og ætte þad ecke ad vanta Christner Meñ, Þvi ef vier elskum vora Lænar-Drottna fyrer þad þeir giefa oss Fot og Fæde, og viñum þeim alltijd þo nockud til Parsa. O! þvi skylldum vier þa ecke elska hiñ gooda Allsheriar DRotteñ, er ecke einasta fæder og fostrar Lijkame vora, helldur og elur Saaler vorar aa þessu himneska Maña, jaa aa sijns Eingietens Sonar Hollde og Bloode, Sem er Lijfsins Braud af Himnum ofañ komed, Joh. 6. Verum þvi ecke so Illgiarner aa moote sialfum oss, ad vier daufheyrunst vid þessa gooda Hyrders-Raust, Hver ed fostrar oss i Lystelegum Gras-Haga, og leider oss ad ferskum Vötnum, Ps. 23. Öll syndugs Mañs Olucka kiemur þar af, ad hañ liær ecke Guds Raustu Eyrun, Hverneg meiga þeir trwa nema þeim sie Predikad? segier Paall, Rom. 10. Eñ eg maa spyria, Til hvers skulu þeir predika, nær eingeñ vill heyra? Og hverneg aa Guds Ord ad verka i Hiartanu nær þad kiemst ecke i giegnum Eyrun, sem eru Dyr Hiartans. Lamparner voru fyrst kveiktir i gamla Testamentenu ædur eñ Reykelsed var tendrad, Exod. 27. Og so verdur Skilningureñ fyrst ad upplijsast, ad Mañeskiañ þecke Gud og sialfa sig ædur eñ Gyrndeñ kviknar, og Audmykteñ lifnar til ad afneyta sialfum sier, Eñ elska Gud. Eñ hvar er slijka Guds Giof ad faa, Nema i hañs H. Orde, Þau eru Lampar þeir, Ps. 119. Sem Reykelse vorrar Ydranar, vorrar Trwar, vorrar Bænar, Reykelse Elskuñar til Guds og Naungans skal tendrast med, So þeirra Ilmur stijge upp fyrer Guds Hasæte og samteingest þar DRotteñs Forþienustu oss til Forlijkunar. Og er nu so wt-talad um Skylldu vora aa moote Gude vorum i þessu.

Eñ hvad vora Skylldu ahrærer vid Kieñendurnar sem oss eru i Guds Stad setter, Þa er hun nærsta mikel. Eg mun þykia bermælltur vered hafa um þeirra Skylldu i hinum Fyrra Parte Rædu miñar, Og vil eg þvi viked hafa til þeirra sem ecke taka Vara aa sijnu Embætte, Og lijted hyrda um hverneg þeir kieña edur lifa; Eñ Gude eru Þacker ad kuña, ad hañ hefur giefed oss marga sijns Ords Kieñendur, þa ed bæde predika þad hreint og klaart, og so prijda Kieñinguna med Lastvoru Framferde. Þesser hafa stooran Myndugleika af Gude, Born mijn. Hiaa þeim aa þad heima sem DRotteñ segier, Luc. 10. Hver hañ forsmaaer ydur, hañ forsmaaer mig. Ecke er oss ad þeim ad leita, sem ecke fiñest Mañlegur Breiskleike hiaa, Gud hefur nærsta Vægdarsamlega hondlad vid oss i þvi, So sem ollu odru, ad hañ hefur ecke sendt oss Eingla af Himnum til ad kieña oss, Þvi vier mundum ecke standast þeirra Nalægd, helldur synduga Meñ eins og vier erum, og hefur prijdt þa med Einglaña Nafne, Malach. 2. Til ad laata oss vita, ad þeir sieu hañs Sendebodar til vor, hveria hañ vill laata medtaka i sijnu Nafne

Hverke Petur nie Paall, edur nockur añar af Postulunum voru ꜳn Mañlegs Veikleika. O! hvad munum vier þa vera, sem eingañ veigeñ erum þeirra Lijkar. Kieñemeñerner i Gamla Testamentenu ꜳttu ad forlijka fyrer sijnar eigeñ, ꜳdur eñ þeir Offrudu fyrer Foolksins Synder, Hebr. 7. Eñ ei ad sijdur villde DRotteñ ad Foolked skyllde þeim hlijded og undergiefed vera, so ad hañ segier: Hver sem ecke vill Kieñemañenum hlijda, hañ skal deya, Devt. 16. Nu þoott ad þetta Logmaal sie af-teked, ad so miklu Leite sem Lijkamans Straffe vidvijkur, Þa er þad samt og ꜳdur vijst, ad hver sem ecke hlijder einum DRotteñs Kieñemañe i ollu þvi sem hañ honum i Guds Nafne riettelega bydur, hañ deyr Andlegum Dauda, hañ er ecke Christelegrar Kyrkiu lifande Limur, Hañ er daudur i Synd þeirre er hañ vill ecke rꜳda Boot ꜳ, og nema hañ hlydnest DRotteñs Þienara og ydrest af Hiarta ꜳdur eñ hañ deyr, mun hañ eilijfum Dauda deya. Þier vited hvad DRotteñ sagde Fordum Daga um̃ Pharisæos og Skriftlærda, Matth. 23. Ad Meñ skylldu giora epter þvi sem þeir segdu, eñ ecke epter þvi sem þeir giordu, af þvi þeir sæte ꜳ Moysis Stoole: Hversu miklu framar byriar oss þa ad hlijda Rꜳdvondum Kieñemoñum er undañ oss gꜳnga i Otta DRotteñs, og eru Ostraffanleger sem Paulus ad Orde kiemst, 1. Tim. 3. Þad er, hveria Meñ ei kuña ad straffa fyrer nockurn Glæp edur Hneixlissama Um̃geingne, Þoott ei sieu þeir fyrer Gude Syndlauser. So eigum vier nu vorum Kieñe Fedrum ad hlijda, i þvi þeir oss bjooda Guds og sijns Embættis vegna, Eins og sialfum Gude, þvi þeir eru Verkanautar Christi, og Rꜳdsmeñ hañs Leyndardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Þar fyrer segier og sialfur Christur, Luc. 10. Hver ydur heyrer, Hañ heyrer mier.

J Odru Lage eigum vier ad heidra og elska vora Kieñe-Fedur. Þvi bydur Paulus oss, 1. Tim. 5. segiande: Þeir Olldungar sem vel forstanda, halldest Tvofalldligs (þad er mikels) Heidurs verduger, Allra hellst þeir sem ervida i Ordenu og Lærdoomenum, so sem eru Trwlynder Kieñe Fedur medal vor Br. M. Og þvi skylldum vier ecke heidra Guds Sendeboda, Ef vier hañ heidrum? Hvilijkt er þa Rænuleyse sumra Maña, er þeir hatast vid sijna Kieñe-Fedur af þvi þeir straffa hiꜳ þeim Synder og Leste, og villia hafa Sꜳlum þeirra hoolped wr Glotmeñe? Þar fiñast Ogudleger Skꜳlkar, er ecke svijfast ad leggia Hendur ꜳ siñ Sꜳlusorgara, þeir ed skiema hañ wt i Ordum sijnum Leynt og Lioost. Hvad er ad giallda Jllu gott ef þvilijkt er ecke? Hvad er ad giora Uppreist ꜳ moote Gude, Ef ecke er þetta? Og eru þeir eingu betre sem Maktena hafa, og svoddañ Glæpe ecke einasta Ohegnda lꜳta, helldur og taka slijka Ohæfu i Forsvar, sem Dæme munu tilgiefast. Vel er þad satt, ad Guds Þienare ꜳ alla Hlute ad lijda fyrer hañs Saker; Eñ þo mꜳ hañ beidast Riettar sijns nær so vid ber, Þvi ecke einasta hañ, helldur og hañs HErra er i slijku Vanvirdtur. O! hvilijkt Nidurdrep er þad Christi Rijke, þegar sodañ Gudleyse er ecke straffad af þeim sem þar til Valld hafa af Gude og Konungenum. Egyptsker stroffudu þañ ꜳ Lijfenu, sem ecke hiꜳlpade einum Ferdamañe wr Ræningians Hondum ef hañ kyñe; Giære þeir ad þvi sem Makt hafa

hafa til ad straffa þa sem Guds Þienurum ofbiooda med Orde edur Verke, hvilijk Gu-
ds Reide yfer þeim hanger, J hveriu Faare þeirra Lijf og Saal vera mune, þegar hañs
Hefnd vaknar einhvern Tijma, nær þeir ecke hiaalpa þeim i riettre Sok, sem af Gude
eru setter til ad hiaalpa Saalum Ohlutvandra Mañа wr Kverkum Satans, sem er
Ræninge Saalnaña. So eru þeir og nockrer, sem Andskoteñ hefur so blindad med
Foolskuñe, ad nær eiñ Christi Þienare segier þeim til Syndaña, Vilia þeir ecke þiggia
Guds Lijkama af hañs Hende, Þeir giøra sier Þusund Mein fyrr eñ þad skule aa þa
gaanga, og sæta giarnañ þeim Tijma, nær einhver añar flytur Guds Þioonustu i Kyrk-
iuñe. Þessa eru mørg Dæme, Þvi verr, og þetta giøra sumer af þeim, ed segiast vera
nockud, þoott ei kuñe þeir Presteñ um̃ nockra Søk ad klaga, og nefna þetta Samvitsku
Veike sijna, Hvar i þeir fara ei miøg villt, Þvi Diøfulleñ plaagar Saaler þeirra med
Heipteñe, sem þeir leggia aa þañ er þeir ættu næst Gude og Konungenum ad elska,
Segied mier, Man ecke Satan hlæia ad slijkum Daaraskap? Og mun ecke D. Drott-
eñs Lijkame fordæma þa merkelega, Nær þeir stelast til ad medtaka hañ med svoddañ
Hiartalage moote sijnum Kieñe-Fodur? Mun ecke hañs dijra Blood, Med hveriu
Syndareñ er Endurkeyptur hroopa Bølvan i Himeneñ yfer þeim. Þad Auga sem
spottar siñ Fødur, Edur forsmaaer Hlijdne Moodur siñar, Þad munu Hrafnarner wt-
kroppa, Segier Salomon. Eñ segied mier, Eru ecke Riettsiñader Kieñendur Fedur
vorer? Prov. 30. Segier ecke Paulus, 1. Cor. 4. Eg hefe gieted ydur i JEsu Chri-
sto fyrer Evangelium. Þeir eru og riett-kallader þessu Nafne sem gooda Forstødu vei-
ta, Þvi so sem vorer Lijkamleger Forelldrar eru Medal til ad framkvæma Naatturuñar
Verk, so eru og hiner Andlegu, sem eru Riettsiñader Ordsins Þienarar, Medal til þess,
ad framkvæma Guds Verk i oss, sem er øllu ædra, Þvi aa þa eingu sijdur ad elska og
virda. Eñ þad kalla eg ad hiñ graaduge Hrafn Diøfulleñ hafe alla reidu þeirra Saal-
ar-Augu wtkroppad, sem hata so nockurn Guds Ords Þienara, Sem er hañs Fader,
ad hañ vill ecke þiggia af honum þa Guds Þioonustu er hañ aa øllum Christi Limum ad
veita, og giører sig þañeg Guds Rijkis Overdugañ. Heyred þvi St. Pauls Ord af
Pistlenum til Hebr. Cap. 13. Hlijded ydar Leidtogurum og heyred þeim, Þeir ed vaka
yfer ydar Saalum, so sem þeir ed þar fyrer eiga Reikningskap ad giøra, so þeir giøre þad
med Fognude og ecke med Andvarpan, Þvi þad er ydur Oþarflegt. Þad er hiñ ædste
Fognudur Guds Ords Þienara, Sem vilia Trwer fiñast, ad þeir faae nockud aorkad
med sijnu Erfide, Og þvi kallar Paulus þaa i Philippis siñ Fognud og sijna Coronu,
Phil. 4. Þvi segiest hañ ecke þurfa Hools-Briefaña vid, Er hañ skrifar Corinthiis til,
Þviad þeir sieu sitt Brief skrifad i Hiarta sijnu, Sem skiled og lesed verde af øllum Møñ-
um, 2. Cor. 3. Aptur er þad hin mesta Sorg, Nær þeir faa eingu til Leidar komed vid
suma Meñ, Nær þeir siaa fyrer fram̃, ad þeirra Sauder vegna Þvermoodsku siñar deya
wt af fraa þvi heilnæma Foodre Guds Orda, Ecke Tijmañlegum, helldur eilijfum Dau-
da. Augustus Keysare sagde um̃ Børn sijn, Er skickudu sier illa, og midur eñ hañs

Tign soomde, ad þau være sijnar Þriaar Akomur. So meiga trwer Guds Þienar-
ar segia um̃ þad Illgresed er Diosullen̄ saaer nidur i Guds Akre, Sem þeir eru yfersett-
er. Þad eru þeirra Akomur, Þeirra Meinsemder, Þad eru Illsku-Kijle og Graftrar-
Mein sem eta i krijngum sig med vondum Dæmum, og eitt Swr-Deig, Sem spiller ollu
Deigenu ef til vill, Nema þau læknud sieu.

I Þridia Maata eigum vier Saalusorgurum vorum ærlegt Upphellde ad veita, Þad
baud sialfur DRotten̄ hiaa Matth. Cap. 10. Er han̄ sende þaa wt ad predika; Verd-
ur er Verka-Maduren̄ sin̄a Launa, Sagde han̄. Þad hefur han̄ Itrekad fyrer Mun̄
St. Þ uls, Hver þo erfidade sialfur med sijnum eigen̄ Hondum, So han̄ ecke
legde Þijngsle aa Sofnuden̄ i Corintho; Han̄ segier i hinu Fyrra Sende-Briefe
til þeirra, Cap. 9. Hver fer nockurn Tijma i Hernad uppaa sin̄ eigen̄ Kostnad?
Hver plantar Vijngard og etur ecke af han̄s Avexte? Hver fæder Hiordena og et-
ur ecke af Miolk Hiardaren̄ar? Þier segied vel Br. M. vier giorum so, Vier gioll-
um Kien̄efedrunum þad Logen̄ oss tilsegia, Þad er satt, Morgum fer vel i þvi, Þeir
eru og sumer er meira giora en̄ Log-Skylldan̄ bijdur, og hafa þeir hiaa Gude Launa
ad vænta sem ecke vill laata ein̄ Vatns-Dryck Olaunadan̄ vera sem giefen̄ er i Læ-
resveins Nafne, Matth. 10. Þad er jafnvel hid min̄sta sem han̄s Þienurum er
til Gooda giort, Um̃ hveria han̄ sier i Lage talar i þessum Stad, Þoott þad og
meige til Faatækra heimfærast. En̄ so munu aptur aa moot fin̄ast þeir sem ecke eru
so miog Adgiætner i slijku, Þeir ed greida þad þeim greida byriar med Illu, Med
Eptertolum, Med Raangsleitne i þvi er sijst hagar, Og aa hinum Ohentugasta Tij-
ma, Og þyker þad nærre þvi verst allra Skullda loked, sem golldeð er DRotten̄s
Þienurum, Og kalla ad Prestar hafe ecke miked fyrer sijnu Braude. Ecke giet eg
sagt ad þvilijkar Man̄eskiur elske miog Saaler sijnar; Þvi an̄ars mundu þeir hyrda
meir um̃ sin̄ Saalusorgara. Lijted vita þeir af hvad Kien̄eman̄legu Embætte fylg-
er, Hver Mæda, Hver Um̃hyggia, Hver Astundan, Ef þad af Alvoru nockurre
giort er. Seigid mier: Mun þad lijtel Mæda ad þeir vaka yfer ydar Saalum
med Bæn̄ne til Guds? Med Kostgiæfne i han̄s Heilogu Orde sem ydur skal Pre-
dikast? Munu þeir hrista þad Foodur wt af Ermen̄e, Er sierhverium ydar giefa
skal i riettan̄ Tijma? Mun ei þurfa Omak og Adgiætne til ad þeckia so hvern ein̄ af
þeim sem Guds Þienara er tiltrwad, ad han̄ giæte boded þad hverium einum sem
honum er hagan̄legast? Leggia ydar Kien̄efedur ecke optlega sitt Lijf i Hættu fyr-
er ydar Velferdar Skulld? Meiga þeir ecke taka aa sig þa Þyckiu og Ovilld vond-
ra Man̄a, Nær þeir segia þeim til Syndan̄a? Byriar þeim ecke ad þvijnga sin̄ eig-
en̄ Lijkama ad ecke predike þeir odrum, Og verde sialfer ræker? 1. Cor. 9. Og
hvad allra þijngst er, ad þeir skulu giora hinum Alvallda Doomara Himens og
Jardar Reikningskap fyrer Saaler ydar aa Deige alls Hollds og svara til ef nockur
tapast, hvert þad er af han̄s sialfs Vijtum edur Kien̄eman̄sins Vanrækt. Villed

þier segla mier þa ad eiñ Prestur viñe ecke fyrer sijnu Braude? Edur honum sie ofgiefed þad hañ nijtur. Þier segiest giallda þad þier erud skyllduger, So er þad fyrer Moñum; Eingeñ kañ meira wt ad heimta. Eg segie ecke helldur ad þier skulud giefa þeim fram yfer Skylldurnar, Sem noog Upphellde hafa, og siaalfer ættu helldur ad leggia af vid adra eñ taka fraa þeim. Eñ hina er viña þurfa Bake brotnu, þeir og þeirra Børn og Kviñur fyrer Lijfs-Næringu siñe, Sokum lijtels Upphelldis, Sem vijda er, Þa ættu Meñ ad þeckia framar ødrum so sem Paulus bijdur, 1. Thess. 5. Segiande: Eg bid ad þier þecked þaa sem Erfida aa medal ydar, og ydur Forstødu veita, Og kieña ydur, Og ad þier hafed þaa yfer Maata kiæra fyrer þeirra Verks-Skulld. Ad þeckia, Merker hier ad Elska, So sem Postuleñ leggur þad siaalfur wt, Ecke Einasta med Orde og Twngu, Helldur med Verke og Sañleika, 1. Joh. 3. Eg þecke mijna Saude, Og eg þeckest af mijnum, segier JEsus, Joh. 10. So sem Gud þecker oss, Þad er Elskar, So eigum vier ad þeckia vora Kieñe-Fedur: Eñ hverneg þecker Gud oss? Þañeg, ad hañ giefur oss alla Hlute aanægiañlega til Nockunar, 1. Tim. 6. So eigum vier ad meddeila þeim øllum Giædum sem oss uppfræda i Ordenu, Gal. 6. Hvad medtøkum vier af Guds Hende fyrer þeirra Medalgaungu? Andlegt Foodur Saalna vorra. Heyred þa hvad Paulus segier hier um̄, 1. Cor. 9. Ef vier høfum saad ydur hid Andlega, Er þad þa miked, ad vier uppskierum ydvart hid Lijkamlega? Þu gielldur allar Skyllduv Prestenum, Þad er Gott, Hañ kañ ei meira ad heimta; Eñ ef þu sier þiñ Saalusorgara Naud lijda, Hwngra, Þyrsta, edur Klædlijteñ vera, Og þu hiaalpar honum ecke, Ef þu hefur Raad þar til, Þa hefur þu eingañ Veigeñ loked þijna Skylldu Gude, Sem er bæde þiñ og hañs DRotteñ; Þvi ef Postuleñ segier, ad Guds Kiærleike sie ecke i þeim ed so breyter vid Einhvern añañ sem Naudstaddur er, 1. Joh. 3. Hvernig maa hañ vera i þeim er so giører vid siñ Kieñe-Fodur, Sem honum er framar ødrum Vanda bundeñ. Hugsa þvi ecke med þier, Ef þu ætt Faatækañ Saalusorgara, Þañ er ræker sitt Embætte; Hvad er mier vandara eñ þeim sem lifa i ødrum Søfnudum? Þegar eg gielld og gief eins og þeir, Þa hefe eg afloked Skylldu miñe; Þvi Gud hefur giort betur til þijn eñ hañs, sem eckert þarf af ad leggia vid siñ Kieñe-Fodur, Þar hañ hefur giefed þier Orsøk til ad leggia Skulld iñ hiaa siaalfum sier, Ecke þess vegna, ad hañ kuñe nockrum skylldugur ad verda, Helldur Saker siña Fyrerheita. Eg Paall hefe skrifad med miñe eigeñ Hende, Eg skal betala, Sagde hañ Fordum i Sende-Briefenu til Philemonem; Eñ eg er Gud alleina Rijkur; Eg hefe talad fyrer Muñ mijns Eingietens Sonar, Ad eiñ Vatns-Dryckur i Læresveins Nafne skule ei Olaunadur vera, Segier DRotteñ, Matth. 10. Saa sem vill siaalfum sier vel, Hañ giøre vel vid siñ Kieñe-Fodur; Saa sem siaalfañ sig elskar, Hañ elskar Saalu sijna; Hver ed sijna Saalu elskar, Hañ elskar Gud sem hana skapad og frelsad hefur; Saa ed Gud elskar, Hañ elskar hañs Þien-

ns Þienara, Sa ed hans Þienara elskar, Hañ sier Ogiarnañ ad þeir Naud lijde, Ef hañ fær vid þvi giort. Þar fyrer, Sa sem vill sialfum sier vel, Hañ vilie under eins sijnum Saalusorgara, Sem honum er i Guds Stad settur. Eñ Gud Allsheriar, Sa ad er Fader vor allra, Hañ stioorne oss so hier i Naadeñe, bæde Yferbodnum og Undergiefnum, Ad vier þeckium so hver añañ, ad vier um sijder af hinum Ædsta Biskupe og Hyrder Saalna vorra, Mættum þeckter verda, Og iñleidder a Land Lifande Maña; So þar verde Eitt Sauda-Hws og Eiñ Hyrder. Þad Bænheyre hiñ Naaduge Gud, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

